

Mag. Jons Thorkelssonar Vidalins

(Fyrrum Biskups í Skálholts-stifti)

# Húss-postilla

innihaldandi

# Predikanir

yfir

## øll Hátída og Sunnudaga Gudspjøll

árid um kring.

Fyrri Parturinn

frá fyrsta Sunnudegi í Adventu til Trínitatis.

11ta Útgáfa.

Prentud í Kaupmannahøfn hjá C. Græbe.

1827.




„Þar segir ein raust; prédika þú! Og eg sagdi: hvad skal eg prédika? Allt hold er hey, og allur þess gódi er svo sem akursins blómstur; heyid uppþornar, blómstrid visnar, þvíad andi Drottins blæs þar'á; sannliga er fólkid hey; heyid uppþornar, blómstrid visnar, en ordid vors Guds varir eylífliga. Esa. 40, 6."

---

„Gef þú ad módurmálid mitt, minn Drottinn þess eg beidi, frá allri villu klárt og kvitt, krossins ord þitt útbreidi, um landid hér, til heidurs þér, helst mun þad blessun valda, medan þín nád, vort lætur lád lýdi og bygdum halda."

Hinni

dýrkeyptu Jesú Christi brúdi

# Kristiligri Kyrkju

Guds, í Íslandi,

## minni hjartkjærri Módur, óska eg fridar og heilla

af sínum unnusta!

## Elskuliga Módir!

Bædi er þad Guds bod og vidtekid hjá øllum þjódum, ad børn eru skyldug ad ala foreldra sína, ef þau géta. En fátækur er eg og vanburda til þess, módir! ad ala þig, jafnvel þótt ad eingum af sonum þínum sé þad skyldara enn mér; þú ert og ecki í því míns lids þurfi, því Fadir þíns Elskuga, og allra hans brædra, hefir enda bundid á sín heit, er ritud standa hjá Esajam í 49da kap.: Koníngarnir skulu vera þínir fostur-fedur, og þeirra Høfdíngs-kvinnur þínar fostur-mædur. Hvørs náduga fyrirheitis ad þu ert ordin hluttakandi, eins vel og hvør þjod í kristindóminum, og í krapti þessa fyrirheitis hefir hann géfid þér, eptir rádstøfun Koninga vorra, marga gudhrædda og vísa kénnendur og forstjóra, sem vaka yfir sálum barna þinna; en þótt eg sé þeirra veikastur, og kunni ecki miklu vid þeirra verk ad bæta, samt veit eg skyldu mína ad þóknast þér í því eg kann og má, eptir þeirri nád, sem Gud hefir géfid mér. Eg les í Exodi bókar 35ta kap., ad

þegar Gud baud Mose ad láta gjøra vitnisburdar tjaldbud-ina, þá hafi hann skipad, ad til hennar skyldi leggja hvør einn eptir því sem þeir sjálfkrafa vildu, sumir gull, sumir silf-ur, sumir kopar og dýrmæt klædi og steina, en adrir geita-ull og hruta-skinn, med ødru fleira, sem þar um getur og var í minna gildi. Medal þeirra sídurstu reikna eg mig, og má vel reikna, søkum fáfrædis míns og overdugleika; en fyrir því ad eg veit, ad þinn Herra álítur meir viljann enn máttinn, þá voga eg ad bjóda þér eptirfylgjandi predikanir í þakklætis minn-íng, ad eg hafi leigid, og liggi enn-nú á brjóstum þér. Þigg því, modir! þennan lítinn skeink af hinum aumasta þénara þíns Brud-guma, og þinum minsta syni, sem vill á-stunda ad finnast

Skálholti, þann 7 Augusti 1717.

honum trúr, og þig af hjarta elskandi allt til daudans,

**Jon Thorkelsson Vidalin.**

# Til Lesarans.

Eptir því að veleðla og velæruverðugum herra Biskupinum, hr. Steini Jónssyni, hefir, nauðsynligrar orsakar vegna, þóknast, að láta setja þær citatíur, sem á spatíunni stóðu í þeirri skrifuðu bók, sem þessi er prentuð eftir, inn í Predikanirnar, þá vil eg hafa lesarann hérmeð aðvaraðann, að nær þessar Predikanir opinberliga lesnar eru, þá skuli hlaupa yfir citatíurnar, svo þær ecki lesnar sju. Citatíur eru ei gjörðar til þess, að þær skuli lesast í einni predikun, því þær uppihalda lesaranum, og gjöra lesturinn lángsamann, heldur til þess, að hvör sem vill, kunni að sjá eptir því, sem citerað er af ritníngunni, og bera það saman, þegar hann les út af fyrir sjálfan sig. Þetta sýnist mér nauðsynligt að géta um við þá, sem lesa þessa bók. Befalandi alla lesendur og heirendur hérmeð Guðs heilags Anda aðstoð og upplýsíngu.

Skálholti, dag 9 Martíí, 1718.

Og vil altíð finnast eptir skyldu minni þeirra viljugur þénari í öllu því, sem mér er af Guðs álfu tiltrúað.

**Jón Vídalín.**

---

Það er þjóðkunnugt, að hin dýrmæta húss-postilla vors ódauðliga landsmanns, Biskups sál. Jóns Thorkelssonar Vídalíns, kom fyrst fyrir almennings sjónir frá Hóla-stóls prent-smiðju 1718, og að hún bráðum varð svo ástsæl hjá alþýðu, að menn létu hana, á því fylgjandi 70u ára tímabili, tíu-sinnum á prenti útgánga. Síðarsta útgáfa hennar kom út á Hólum 1798, og eru nú þvínær 30 ár liðin síðan; skömmu seinna breyttist svo hagur þessa staðar, að ei var lengur þaðan þvílíkra atburða von. Það er því ei að undra, að bókin sé nú orðin víða sjaldgæf og jafnframt of-dýr, og að allmargir hafi á seinni tíðum kvartað yfir þessum vanhag. Vér urðum af bréfum og boðum þessa vísir, og tókum, sem kunnugt er, ráð vor saman, að bæta úr þessari andligu nauðþurft landa vorra, þar tvísýnt þótti hvert þeim mundi bráðum auðið verða að fagna henni frá innlendri prentsmiðju. Með fylgi og fulltíngi göfugra Íslands elskara bæði hér og heima, en þó sérílagi fyrir landsföðurliga mildi vors Konúngs, er allranáðugast styrkti oss með peninga-láni, hlotnaðist oss, umkomu-litlum Íslands sonum, sú gæfa, að láta þenna þjóðar-dýrgrip í ellefta sinni á prenti útgánga, og leggjum vér nú fyrri part hans á skaut yðvart, elskuðu og heiðruðu landar! fulltrúa um, að þar heimsæki yður kjær gestr af framandi landi. Með ráði einhvörs hins merkasta Prests á Íslandi höfum vér látið Postilluna prenta eptir hinni 6tu útgáfu, samanborinni við þá fyrstu, síðurstu og tvær aðrar. Vér höfum, samkvæmt heitum vorum, ekkert undanfelt í bókinni og eingu brjálað, hvörki setníngum né orða-tiltækjum, en einasta lagað réttritun hennar eptir því, sem rithöfundum á seinni tíðum hefir þótt betur eiga við eðli og uppruna ennar íslenzku túngu, og allvíða breytt þeim svo kölluðu málhvíldar-merkjum, þar sem þurfa þótti. Gefi það góður Guð, að þessi vor tilraun, að gagna og gleðja yður, verði yður öllum að æskiligustu sálar-notum!

Í Kaupmannahöfn, á Pálma sunnudag. 1827.

**Gunnlaugr Oddsson. Þorgeir Guðmundsson. Þorsteinn Helgason. Þórðr Jónasson.**

# Bæn fyrir predikun.

O, þu stori Konungur allrar veralldarinnar, sem býr í því ljosi, er eingi nn fær tilkomist! vér syndugir ormar skridum á þessari blessadri stundu upp ur voru dupti fram á skør þinna fota, til ad fridmælast vid þina guddomliga hátign, er vér med saurugum verkum og illgjørdum vorum svo þráliga modgad høfum allt í frá barnæsku vorri. En æ oss, Drottinn! vér erum svo vanmegna undir byrdi syndanna, ad þegar vér girnumst ad lypta oss upp í hædirnar til þín, þá dràga vor eigin saurindi oss nidur aptur. Þu hefir ad sønnu fyrirgéfid oss margar syndir, og sparad oss inidt í þeim, allt á þennan dag; en vort hjarta skélfur í oss og kvídir vid þinu strànga réttlæti, nær vér til þess hugsum, ad vér þverbrotnar manneskjur høfum svo lángsamliga forsmad þina miskunsemi, og sjálfir onýtt svo marga kvittun vorra synda, er vér þegid høfum, med þverudarsamligri idkun sømu glæpa og illgjørda. Hvørt skulum vér þá flýa undan þinni hendi? þu uppfyllir bædi himin og jørd; en þin miskunsemi er eins stor og þu sjálfur; hun hefir øllum þeim vel-géfist, sem hennar med bljugu hjarta og sundurknosudum anda leitad hafa; og ef vér sem erum hey-strá, megum ecki snerta þig, sem ert einn fortærandi eldur, þá leyf oss ad skrida ad Sonarins fotum, sem er hold af voru holdi, og þvo þær í tárum vorrar ydranar. En æ, vor Gud! vér vitum ad hann er í heiminn kominn til ad lækna þad sem kramid er: hvad kann þad oss ad gagna, ef vort hjarta er heilt? ef þad er hardara enn nockur steinn? því grátbænum vér þig, fyrir hans dýru kvøl og blodugar undir: slá þu, o, Herra! á þennan harda klett med Moses sprota, svo ad vatns-straumarnir, já, eitt brennandi vatns-flod megi spretta þar ut af, til ad þvo vorar ohreinar samvitskur! Lát einn gloandi anda brenna upp allt sorp annarligra þánka ur voru hjarta, sem er þitt musteri, svo þin ord fái rum þar inni! Lát oss ecki heyra þad svo í dag, ad þad fordæmi oss á sídarsta degi, heldur gef ad þad verdi eptirlæti sálna vorra! Lát þess sætleika burtdrifa allt tomlæti og gáleysi frá oss, svo vér vardveitum þad í godu og sidsømu hjarta! þess bidjum vér þig, fyrir Jesúm Christum þinn Son, med hans eigin bæn, segjandi: Fadir vor, ꝛc.

# Bæn eptir predikun.

—————

, Þu háleita Guddomsins Þrenning, einn Gud og sannur frá eylífd eylífdar! vér aumir syndarar liggjum hér flatir fyrir augliti inar hátignar, til ad offra hér Þacklæti vors munns fyrir Þinar segjanligar velgjördir, er Þín milda örlætis hönd oss oÞacklátum Þverbrotnum manneskjum andsýnt hefir, bædi í andligan og lík-nligan máta; en æ oss, Drottinn! vér erum svo kaldir í bæninni, vér ottast megum, ad Þú viljir skirpa oss út af Þínum munni, na Þu verinir vor hjörtu. O, vor Gud! lát Þinn goda Anda, ja ásamt vorum anda, med oumrædiligum andvörpunum, svo ad líka mætti forn vara vorra fyrir Jesúm Christum. Vér Þock-Þinni guddómligri elsku fyrir Þitt h. ord og Þau háleitu sakra-nta, á hvörjum Þú fostrad hefir og nært vorar sálir, ad ei skyld-vér utaf sofna í daudanum. O, vor Gud! lát vorar illar at-nir, vort gáleysi og oÞacklæti, aldrei Því valda, ad Þú sviptir oss sari himnesku gáfu.

Géf ad Þitt ord, sem vér í dag höfum heyrt og numid, megi ngast í hjörtum vorum, svo ad Þad færi Þann ávöxt, er sýni sig di í ordum og verkum, svo Þitt háleita nafn vegsamist í oss, hvörja virdist ad nefna Þitt folk og eigindom. O, Drottinn! vort hjarta Þitt, eptir rétti sköpunarinnar, endurlausnarinnar og helgunarinn-Þad er Þín kyrkja, en heimurinn, vort hold, og Djöfullinn girnast festa sinn fot Þar inni, og æ Því verr, ad Þad tekst Þeim framar, vér gjarnan vildum; o, vor Gud! yfirfall Þau med Þinni makt, og Þína eign af Þeirra hendi, svo ad Þínir ovinir brjóti ecki Þínum her-kum. Þú, voldugi Konúngur! sem ert sterkur og máttugur í stridi, Þinn guddómliga krapt Þinna heilögu orda verda svo rikan í hjört-vorum, ad oss velgi vid syndinni, svo sem annari óÞekt. Géf Þú minning hinna fornu glæpanna verdi oss svo skélfilig, ad oss hrylli Þeim, svo sem annari ófreskju. Géf oss ad temja vor hjörtu, vora gu og eyru á Þad, sem á ad vera sídan vor ædsta gledi og eptirlæti í d himnanna, sem er Þín elska, Þín íhugan, Þín lofgjörd og Þacklæti ir Þínar guddómligar dásemdir á medal vor, og veit, ad ver leggjum mesta kapp á, ad framkvæma Þad í verkunum, sem vér Þenkjum í rtanu, tölum med munninum og heyrum med eyrunum, ad ei gaung-vér í Þeirri blindi, ad hafa skyn gudhrædslunnar, en afneita hennar pti.

O, þú stóri Konúngur himins og jardar! vardveittú þinn smurda, vorn allra-nádugasta Arfa-Herra og Konúng, hans hábornu Drottníngu, og vorn náduga Arfa-Printz, og allt þad konúngliga hus. Vertú Konungsins skjøldur og sól, og eitt orugt vigi á-móti øllum hans ovinum. Lát hans rikis-stjórn farsæla verda, og géf hønum lánga lifdaga; umgird hans tignar-stol med hersveitum þinna voldugu eingla; géf Konúnginum hlydna, trúa, ørugga og rádholla undirsáta; lát hann svo stjorna í þínu umbodi her á jørdunni, ad hann megi eylífliga med þér ríkja í himninum. O, Herra Jesu Christe! þu sem ert hinn mikli hirdir saudanna, fyrir blod þess eylífa Testamentis, vardveittu kénnendur ordsins, þína þénara; lát þá aldrei gleyma því, ad þeir eiga þér reikníng ad standa fyrir þitt dýra blod, med hvørju endurkeyptar eru þær hjardir, er þú hefir sett þá yfir, en vert þeirra vernd og forsvar moti ógudligum og óhlutvøndum mønnum, nær þeir gjøra verk þinnar køllunar trúliga, og trod Andskotann undir þeirra fætur. Vor Gud! stjórna þú valdstéttinni og þeim er í domunum sitja, upplýs hjørtu þeirra, ad þeir skilji réttinn og géf þeim vitsku til ad dæma þitt folk, med vilja og ástundan ad gjøra þar eptir. Tak ad þér, o, Gud! hús-stjórnar-stéttina, lát øll ektahjon elskast innbyrdis í falslausum kjærleika og uppala sin børn og hjú í aga og umvøndun til Drottins, en børnum og hjúum hlýdin og audsveip hjørtu, ad þau séu foreldrum og húsbændum undirgéfin í øllu því, er þeim eptir Guds ordi og laganna skyldu tilsagt verdur.

O, Drottinn! annast þú alla þá, sem naudstaddir eru og bera þíns Sonar kross á herdum sér, væg þeim, vor Gud! fyrir hans skuld sem lidid hefir, uppá þad hann kynni ad hjálpa þeim, sem freistadir er. Um alla hluti fram grátbænum vér þig, himneski Fadir! forlát oss vorar blodugar illgjørdir og syndir fyrir Jesú Christi sáru kvøl og pinu. Minst þess, ad hann fyrir oss í daudan er útgéfinn af þinni guddomligri elsku, þegar vér enn þá vorum þínir ovinir; virdstu þarfyrir ad gleyma vorum yfirtrodslum, fyrir hvørjar hann fullnægju gjørt hefir, þar vér fyrir hann og í hønum erum børn ordnir, og — nær vor æfi er ad þrotum komin, vor Gud! og vér liggjum fyrir daudans porti, horfandi fram á veg allrar veraldar, rétt oss þá þína mildu hønd, vor Gud! og lát oss deya med vorn Endurlausnara í fadminum, svo vér megum eylífliga med þér og hønum lifa. Bænheyr þetta, nádugi Gud og Fadir! fyrir Jesúm Christum, í hvørjum allar vorar bænir eru: já og amen!

---

# Fyrsta Sunnudag í Adventu.

Gudspjallid skrifar Matthæus í 21 Capitula.

Í þann tíma. Og þá er þeir tóku ad nálgast Jerúsalem, og komu til Betphage vid fjallid Oliveti, útsendi Jesús tvo sína lærisveina og sagdi til þeirra: Farid þid í þad kauptún, sem gagnvart ydur er, og strax munud þid finna øsnu bundna og folann hjá henni, leysid hana og leidid til mín. Og ef einhver segir nockud til yckar, þá segid þad Herrann hafi þeirra þörf, og jafnsnart mun hann láta þau laus. En þad skédi svo ad uppfyltist hvad sagt er fyrir spámanninn, er svo segir: Segid dótturinni Zion, sjá, þinn kóngur kémur til þín hógvær, sitjandi á øsnu, og á fola klifbærrar øsnu. En lærisveinarnir geingu í burtu, og gjerdu svo sem Jesús baud þeim og leiddu med sér øsnuna og folann, og legdu sín klædi yfir þau og settu hann þar uppá. En margt fólk breiddi sín klædi á veginn, og adrir hjuggu kvistu af trjánum og dreifdu þeim á veginn. En þad fólkid, sem fyrir þeim géck og eptirfylgdi, kalladi og sagdi: Hósíanna syni Davíds, blessadur sé sá sem kémur í nafni Drottins, Hósíanna í hædstum hædum!

## Exordium.

Í pistlinum til Phil. 2. kémst heilagur Páluß þannin ad ordi: Verid eins lyndir og Jesús Christus, hver þótt hann væri Guds mynd, hélt hann þad ecki fyrir herfáng ad hann Gudi jafn var, heldur lítil-læckadi hann sjálfann sig, takandi á sig þræls mynd, og ordinn mønnum líkur. Postulinn segir, hann hafi þad ecki fyrir herfáng reiknad, þótt hann Gudi jafn væri. Þeir ed herfáng tekid hafa, stæra sig þaraf, brúka þad til yfirlætis, gjøra þaraf forkostulig sigurmerki, breyta vid þá herleiddu sem þeim líkar, svo þad var málsháttur hjá Grickjum, ad halda þann hlut fyrir herfáng, er einhver brúkadi ríkmannliga. Jesús brúkadi ecki þannveg Guds mynd, þótt hann væri alls rádandi bædi á himni og jørdu, Matth. 28. samt hafdi hann ecki vald sitt vid yfir aumum manneskjum, hverjar hann var kominn ad endurleysa af myrkranna valdi, heldur gjørdist þeim líkur, já, þeim undirgéfinn, þoldi mótmæli og alskonar hádúngar af syndurum, er hann med audvirdíngu þessari endurkeypti úr syndarinnar þrældómi, og hélt ecki Guds mynd herfáng ad vera, so hann med sinni þjéns-mynd, fengi herleidínguna ad herfángi tekid, Ps. 68. En afklædt hinn sterka hervopnada Djøful sinni harnestju, Luc. 11. og med hlekkjum myrkranna fjøtrad, 2. Pet. Þegar Satan tók vora fyrstu foreldra til fánga í Paradís, og í þeim alla þeirra eptirkomendur, þá taldi hann þeim trú um þad, ad ef þau æti af eplinu, mundu þau Gudi lík verda, Gen. 3. en þau hlýddust á hans slægdarfullar fortølur, töpudu því Guds mynd, en gjørdust fjandanum lík, hverjum þau framar hlýddu enn Gudi, og fyrir þettad rán Guds myndar tók Jesús uppá sig þræls-mynd, og hélt þad ecki svo sem rán edur herfáng þótt hann Gudi jafn væri. En þótt ad vor Frelsari ecki brúkadi sína almættis tign í manndóminum, medan hans lægíngar-tími yfirstód hér á jørdunni, þá hefir hann samt eitt annad ríki af Gudi og Fødur, sem er hans voldug stjórnan í christiligri kyrkju med ordinu og sacramentunum. Þar um talar so Davíd undir Guds persónu: Eg hefi smurt minn konúng og sett hann yfir mitt heilaga fjall Zion, Ps. 2. En þótt ad Guds ríki komi ecki þannveg, ad þad adgjætt verdi, svo sem Herrann segir, Luc. 17. þá sjáum vér þó nockra líking þess edur skugga í þessa h. dags Evangelio, þar ed Jesús ridur inn til Jerúsalem so sem einn konúngur, ecki einasta til ad uppfylla

spádóm Zachariæ, hvers hér gétid verdur í audspjallinu, og þannin hljódar, Zach. 9. Segid dótturinni Zion: sjá þinn kóngur kémur til þín hógvær, sitjandi á øsnu og á fola klifbærrar ösnu. Heldur til þess ad afreka og útvega sína christiliga kyrkiu, sem er einn konúngligur kjennimannskapur, og þad med sínu eigin blódi, hvar um Esaias spáir, Cap. 62. á þennan hátt; sjáid Drottinn hrópar allt til enda jardarinnar, segid dótturinni Zion, sjá þitt hjálpræði kémur. Og søkum þess, børn mín, ad þetta hróp hefir og heyrst til vor, sem ad búum á enda veraldarinnar, og oss verdur ásamt ødrum þetta hjálpræði bodad, þá látum oss af þessu heilaga Evangelio yfirvega í þetta sinn, hvílíkum ad þessa kóngs undirsátum byrji ad vera. Gud fadir myskunsemdanna géfi oss nád sína þar til fyrir Jesúm Christum, amen.

## Utleggíngin.

Þeir munu ecki allir sem til mín segja, Herra, Herra, inngánga í Guds ríki, segir Jesús, Matth. 7. heldur þeir sem gjøra vilja míns Fødurs, sem á himnum er. Margir munu þeir vera í safnadi Christs hér á jørdunni, sem eins eru lyndir og Júdar fordum daga, er søgdu: vér viljum ecki láta þennan drottna yfir oss, Luc. 19. þó er Christur allra þeirra konúngur, allir vill hann ad hólpnir verdi, og komist til sannleiksins vidurkénníngar, 1. Tim. 2. En svo sem þad, ad einn konúngur, hann er konúngur bædi þess er hann lætur undir exidraga vegna glæpa sinna, svo sem hins, er hann setur sér á hægra veg, svo eru og bædi vondir og gódir í Christi ríki, og hann drottnar eins vel yfir þeim, til hverra hann vill segja á effsta degi: farid frá mér allir íllgjørdamenn, Matth. 7. svo vel sem hinum, er hann kvedur þessum ordum: Komid blessadir míns Fødurs, og eignist þad ríki, sem ydur er fyrirbúid í frá upphafi veraldar, Matth. 25. jafnvel þótt ecki láti þessir hverutveggju sér eins stjórna af anda Drottins. Hvad byrjar oss þá hér um ad þenkja Guds børn? Eg meina ad láta oss umhugad vera, ad lúka þessum konúngi skyldur þær sem hann af oss heimtir, og er sú helsta, ein audmjúk hlýdni. Jesús baud sínum lærisveinum ad fara í þad kauptún sem gagnvart þeim var, þar mundu þeir finna øsnu bundna og fola hjá henni, þau skipadi hann ad leysa og leida til sín. Þeim hefdi mátt til hugar koma, ad ei væri skipun þessi svarlig; þeir mundu árásum mæta, ef þeir tæki svo annara manna eigur óadspurt; en þeir fást ecki um þad, heldur gjøra sem þeim bodid var. Gjør slíkt hid sama christinn madur, lát einskis bod edur bann vera þér jafnskylt sem þíns Guds; hlýdni er betri enn offur segir andi Drottins. 1. Sam. 15. Heyr hvad hinn eingétni sonur Guds segir, þegar hann innkémur í heiminn, Psalm. 40. Offur og fórnfæríngar þóknast þér ecki, en mín eyru hefir þú ígégnum stúngid, brennifórnir og syndaoffur viltu ecki, þá sagdi eg, sjá eg kém, í bókina er skrifad af mér, þinn vilja, minn Gud! gjøri eg gjarna. Hver Davíds ord S. Páll til Hebr. 10. heimfærir uppá vorn Endurlausnara. Hafi nú hinn eingétni sonur Fødursins verid hønum svo hlýdinn, hver þó med sínni forþénustu hefir sjálfum sér eckert forþénad, hvad miklu framar ættir þú Gudi ad hlýdnast, sem hønum ecki einasta sál og líf skyldugur ert, heldur og þar ad auki ótal tíu þúsund punda, Matth. 18. og þau svo mørg, ad þú aldrei fær hønum løkid þann sídasta peníng, ef hinn stóri Kóngur himins og jardar vill reikníng halda? Hvad þá christinn madur? Muntú ecki um alla hluti framm skyldur hønum ad hlýdnast, sem fyrir þig hefir alt þetta goldid, svo Gud hefir uppgéfid alla skuldina, ad ecki yrdi þér kastad í hin ytstu myrkur, en straffad hann

sem var hreinn og heilagur, og frástilinn syndurunum? Hebr. 7. Já, hann hefir hans eyru í gégnum grafid, eins og þræls þess, er ecki vildi laus verda á fagnadar-árinu, Exod. 21. hvern hans húsbóndi mátti festa á eyranu vid sinn dyrastaf, ad hann væri hans þræll upp þadan æfinliga. Muntú neita hønum þinnar þénustu, er þvílíka smán hefir lidid þér til frelsis, þar þó Christi þræll ad vera, er eintómis frelsi, og hans þénusta, er øllu herradæmi ædri. Svo þad er sannkvedid, er sá guds-madur orti fordum: "Kóng minn Jesú eg kalla þig, kalla þú þræl þinn aptur mig, herra-tign aungva ad heimsins sid, held eg þar megi jafnast vid." Því segir og Páluŝ, Rom. 8. Þér hafid ecki medtekid þrælkunar-anda aptur til hrædslu, heldur hafid þér medtekid arfleidslunnar anda, fyrir hvørn vér køllum Abba Fadir; en ef vér børn erum, þá erum vér og erfíngjar, já, erfíngjar Guds og samarfar Christi. En segid mér, hvad munu øll ríki veraldarinnar vera ad reikna vid þad, ad eiga arfskipti vid hann, sem Gud ecki alleina hefir géfid endimørk veraldarinnar til arfleifdar, Psalm. 2. heldur og sett hann sér til hægri handar, Psalm. 110. og mun leggja alla óvini hans til fótskarar hønum, 1. Cor. 15. O, hvørsu blind er þá manneskjan? Menn leggja allt kapp á, ad komast í týginna manna þénustu, hvar þó tíu þjóna fyrir eins lukku ástundum, svo margur má þjóna lengi ádur enn hann kémst til þess, sem þó er í sjálfu sér ecki annad enn þrældómur, og ígégnum mikinn þrældóm brýst fávitska mannsins til annars meira, hvar þad gengur optliga mjøg andhælis til, svo ad þeir sem dyggvastir verid hafa og drottinn-hollastir, þeir fá hina verstu útreid ástundum, en þeir eru í hávegum er á svikrádum sitja, en ad gjørast hyrdmadur Christi, skeyta fáir um, jafnvel þótt hans þénusta standi øllum til boda, þar er ei Gydíngur né Grickur, ecki þræll né frelsíngi, ei ríkur né fátækur, ei vís né vankunnandi frástilinn, heldur eru þar allir eitt í Christo Jesú, Gal. 3. En þess er at gjæta, børn mín, ad sá sem vill gánga Christo til handa, hann skal ecki tvískipta hjarta sínu, heldur géfa hønum þad allt. Ecki segi eg þad, ad hver einn skuli ei þjóna í þeirri kallan, hvar til hann er kalladur, eda ad undirgéfinn skuli ei undirgéfinn vera, því sá sem gjørir verk sinnar kallanar, hann þjónar Christo, sem þad hefir bodid; hann sem yfirvaldinu hlýdnast, hann gjørir og Christi skipan, er sagt hefir: Géfid keysaranum hvad keysarans er, Matth. 22; og hann sem leitar næríngar sinnar med ærligu erfidi, hann hlýdir hønum er þad bodord gaf: í sveita þíns andlitis skaltu þíns brauds neyta, Gen. 3. Hitt segi eg, ad sá sem vill þessa konúngs þegn vera, hann leiti fyrst Guds ríkis, og hans réttlætis, Matth. 6. og meti eckért af þessu jafnframt hønum, miklu sídur hlýdi annara bodi edur fortølum meir enn hans. Segid mér, hefir ei Gud bodid ad foreldrana skyldi heidra hvad mest af mønnum, og lagt bølvan vid, ef nockur þá vanheidrar? Devt. 27. En þó segir Jesús, sá sem elskar fødur edur módur framar mér, hann er mín ecki verdugur, Matth. 10. Gud hefir skipad ad madurinn skyldi yfirgéfa fødur og módur, og samtengjast sinni ektakvinnu, Gen. 2. En hvad segir Móses hér um? Devt. 13. Ef þinn bródir, sonur módur þinnar, edur sonur þinn, edur dóttir þín, edur þín eigin-kona, sem hvílir í þínu skauti, edur vinur þinn, sá sem er eins og þú, vilja locka þig, segjandi: Látum os fara og dýrka annarliga Gudi, þá skaltu drepa hann, þín hønd skal

vera fyrst á móti honum, til ad deyda hann, og sídan alls Israels. Nú kynni einhverjum í hug ad fljúga, hvílíkir skulu þá Christs þegnar vera? Mega honum ecki þjóna nema syndlausir og heilagir menn? Þad em eg ecki, og gét ecki verid, á medann eg lifi í holdinu, því eg em daudligur madur, undir syndina seldur, Róm. 7. Og þegar eg vil gjora hid góda, þá lodir þad vonda vid mig; hvad skal eg hér til segja? Þó eg sé skyldur Christo ad þjóna af öllu hjarta, þá gét eg þad ecki, því þad góda sem eg vil gjöra, þad gjöri eg ecki, en þad vonda sem eg vil ecki gjöra, þad gjöri eg. Heyr, christin madur, Guds sonur er í heiminn kominn til þess, ad kalla syndugа en ecki réttláta til ydranar, Matth. 9. Væri von á því, ad vér gjætum fullnægt Guds lögmáli, þá væri Christs forþénusta oss ónaudsynlig. En ecki hefir Gud sendt hann í heiminn til þess, ad vér mættum þess óhultar syndga, ecki yfirgnæfir hans nád í Christo þar til, ad vér skulum í syndunum lifa, Róm. 6. heldur hefir hann þarfyrir lidid kvöl og dauda, ad hann vissi, ad vér mundum med syndinni Guds nád og vingan optliga af oss brjóta. Þar fyrir segir Johannes, 1. Pistl. 2. Börn mín, þetta skrifa eg ydur til, ad þér syndgist ecki, en ef nockur syndgar, þá höfum vér talsmanninn hjá fodurnum Jesúm Christum hinn réttláta. En gjætid þess, christnir menn, ad syndinn er marghóttud. Þar eru syndir sem verda ad óvilja, og af fávitsku, um hverjar Guds lögmál svo talar, Num. 15. Ef nockur sála syndgast óvitandi, þá skal hún fórnfæra ársgamalli geit fyrir syndina, þvílík var synd Páls, er hann offókti Guds söfnud, fyrir því segir hann, eg hefi miskun hlotid, af því ad eg gjördi þad óvitandi í vantrú, 1. Tim. 1. Item Abimelechs, er hugdi at taka Saram Abrahams hústrú frillu-taki, og vissi ecki ad hún var hans eigen kona, Gen. 26. Adrar ské af brádrædi einu, þá manneskjan sem er hneigd til hins vonda, géfur sér ecki stundir til at láta Guds anda edur skynsemina vid sig ráda, svo sem þegar Moses sló helluna tvisvar, Num. 20. Þegar Davíd hét ad farga Nabal, og öllu kallkyns í hans húsi, 1 Sam. 25. þegar hann fólkid taldi, 2. Sam. 24. Og þad er þad sem Pálus kallar, Gal. 6. ad verda yfirstíginn af einhverri hrösun. Nockrar verda og af mannligum breiskleika, hver ad jafnvel Guds börnum fylgir, æ svo lengi þau bera eptir sér þennan daudliga líkama, og þad eru þeir gjörníngar syndugs manns, sem holdid og andinn eru ad glíma um, og géta aldrei sættst þar uppá, því ad hvert stridir ámóti ödru, Gal. 5. Og þær fædast þegar andinn lætur sigrast af holdinu, og verda hér ýmsir undir, því verr, ad sú synd sem í oss býr, hverja Postulinn hold nefnir, Gal. 5 hún verdur optliga sterkari. Þetta verda ástundum þúngar syndir, og sérdeilis Guds-börnum nærri óbæriligar, en þó reiknar Gud þær ecki endurfæddum manni til dauda, þegar þær med hreinni og alvarligri ydran fyrir lausnarans forþénustu bættar verda. Hvar fyrir? Því þar er enginn fordæmíng hjá þeim, sem eru í Christo Jesú, þeim sem ecki eptir holdinu gánga, heldur eptir andanum, Róm. 8. En þeir kallast ecki ad gánga eptir holdinu, sem med andanum leitast vid ad deyda holdsins girndir, jafnvel þótt tilberi ad þad fái yfir-hönd, allt svo leingi menn géfa því ecki taum, þad menn þjóni því í þess girndum. Og því segir Davíd, Psalm. 19. Hver skilur hvad opt hann villist, afleys mig af mínum heimugligum syndum, og halt þræli þínum aptur frá þvermódskunni, ad þær drottni ecki í mér, þá mun eg heill verda.

Nú eru þar adrar syndir, sem madurinn, ecki einasta gjörir med fullum ásetníngi,

um hverjar Drottinn talar Num. 15. Sú sál er drýgir syndina med uppréttri hendi, (þad er med ásettu rádi) hún vanvyrdir Drottinn, því hún forachtadi hans ord, og ónýtti hans bod; heldur og láta þeir syndina drottna í sínum daudligum líkama, fyri utan alla baráttu á móti henni, og ljá limu sína henni til vopna, hverja hún brúkar med sjálfskyldu Andskotanum til þjónustu, en Drottni til stygdar, svo sem einn handverks-madur sitt verkfæri. Þessir eru þeir, er Jesús kallar þræla syndarinnar, Joh. 8. Og þannveg eiga ad skiljast ord Joh. 1. Ep. 3. er hann segir: ad sá sem drýgir syndina, hann sé af Djøflinum. Hinn ágjarni þeinkir ecki um annad, en hvernig hann megi fylla sitt hús af annars sveita med réttu og raungu. Þjófurinn sem er hans stall-bródir, hyggur ad vakinn og sofinn, hvernig hann stela megi. Hinn drambláti þenur sig út sem annad lárberja tré, Psalm. 37. hann nýtur ei svefns né matar, ef einhver vyrdir hann minna, en hans þótti býdur. Hinn metordagjarni sparar aungva íllmensku til þess ad tilla sér upp í vyrdíngarnar. Jóab sveifst ecki ad taka lífid af Abner og Amasa, og þó med flærd og svikum, til þess ad hann sé óhultur um nafnbætur sínar. Hinn øfundsjúki etur sitt egid hjarta, hans ormur sofnar ecki, ef hann sér ad nockrum gengur vel, hann eyrir aungvu nema ad einhver steiti sig, og hefir aungva skémtan nema af annara ólucku. Hinn bakmálugi fiskar í annara ávyrdíngum, hann leitar smásmugliga eptir því er ødrum yfirsést, hann þeinkir sig um, hvernínn hann fái einhverju þar líkliga vidaukid, og gjørir tíu pund af einu, því sem andskotinn hefir honum í hendur fengid. Lygarinn spinnur sitt verk af sínum eiginn ydrum eins og kóngulóinn, og brýtur heilann til at ljósta því upp, sem aldrei er tilhafid. Hinn flárádi grefur eina grøf baki brotnu til ad steipa hinum einfalda þar í. Allt þetta vinna þeir ed so eru lyndir med ástundan, fyrir utan allann Guds ótta, edur nockra mótstødu gégn Andskotans, heimsins og holdsins vélum. Þessir láta syndina drottna í sínum daudligum líkama. Og þetta er sú hvermódsktan er David bidur Gud ad halda sér frá, Ps. 19. Ad sønnu er þad satt, at Guds sonur er fyrir þessar syndir dáinn, því hann er fórlíkun fyrir allar veraldarinnar syndir, 1. Joh. 2. Hvad og audséd er af dæmi Manassis konúngs, 2. Par. 33. hinnar bersyndugu, Luc. 7. ræníngjans, Luc. 23. og annara lángtum fleiri. Þó er næsta hætt vid því, brædur mínir, ad slík ydni syndanna sem madurinn temur sér án allrar ydranar, án alls ótta fyrir Guds straungu hótunum, án alls ásetníngs til apturhvarfs, edur og med hégómligri rádagjørd, ad ætla sér þá ad ydrast, þegar oss gott þykir, sem kanské seint þyki, edur þegar oss syndin leid verdur, er máské aldrei verdi, ad þessi ydja og inndruckinn vani til syndsamligs athæfis, megi snúast upp í fráleitt sinni, Róm. 1. upp í forbrenda samvitsku, 1. Tim. 4. um hverja Pálus talar, Eph. 4. ad þeir gángi í hégóma síns hugskots formyrkvadir í hugunum, fráskildir lífi Guds, fyri þad þeckíngarleysi sem í þeim er, sokum hardúdar þeirra hjarta, hverjir þá þeir høfdu mist alla tilfinníng, gáfu þeir sig til lausúngar, ad fremja allann óhreinleik med ágyrni, so sem voru Pharao, Júdas, Achithophel, og þeir adrir sem Postulinn kallar sjálfsdæmda, Tit. 3. En þad segi eg í Guds stad, og í umbodi hans eingétins sonar Jesú Christi, míns herra, hvert eg á hendi hefi, ad jafnvel þótt ad nádin yfirgnæfi syndina, þá er sá aungvannvegin konúngsins Christi réttur þegn, né sannur limur hans kyrkju, er vísvitandi og ydrunarlaust frammfer í syndum og glæpum, med því móti sem ádur hefi eg

sagt; Því Guds sonur er til þess í heiminn kominn, ad kalla syndugа til ydranar, Matth. 9. en ecki til þess ad þeir skulu syndga uppá nádina; til þess ad menn skýrist í hans nafni til ydranar, Act. 2. en ecki til athugaleysis né undanndráttar; til þess ad þjóna honum í endurnýungu lífdaganna, en ecki til þess ad géfa djøflinum hinn mesta hluta þeirra, en ætla Gudi hinn sídasta part æfinnar, sem enginn veit nær þrýtur. Eg veit ad þeir sem komu um ellefta stund í víngardinn, fengu jafnt vid hina, sem borid høfdu hita og þúnga dagsins, Matth. 20. en þú hefir kalladur verit um sjøttu og níundu stund, hvad veistu af því ad þú munir ná hinni elleftu, muntu kunna Gud fyri þad, þótt hann láti þig hafa jafnan hlut med þeim til hverra sagt var: Enginn þeirra manna sem bodnir voru munu smacka mína kvøldmáltíd, Luc. 14. Villtu heimta þad af konúngi himins og jardar, þú sem ecki ert einasta mold og aska, heldur landrádum sekur vid hinn lifanda Gud, ad hann lét kvelja sinn eingétinn son til þess, ad þú þess triggvar mættir í allri óhæfu þjóna Fjandanum, hver ad er Guds svarinn óvinur. Er þad ecki nóg, ad hann hefir látid greptra þig fyrir skýrnina med Christo til daudans (þad er til ad deya syndinni) svo ad líka sem Christur er uppvakinn frá daudum fyrir dýrd fødursins, so kunnir þú ad gánga í endurnýúng lífdaganna. Reinid þarfyrir christnir menn, hvert þér erud í trúnni, 2. Cor. 13. hvada lyst þér hafid til gódra verka, hvørn leida á syndinni, og ef þér finnid brest á slíku, þá gjætid ad ydur í Jesú nafni, forsmáid ecki ríkdóm hans þolinmædis og lánglyndargéds, heldur gjætid þar ad, ad hans gjæska leidir til ydranar, so ad þér ecki safnid ydur reidi á dag reidinnar, og Guds réttlætis dóms, Róm. 2. Hver eyru hefir ad heyra hann heyri þad, og bidji Fødur ljósanna, frá hverjum ad kémur øll gód gjøf, og øll fullkomin gjøf, Jac. 1. ad géfa sér ydran til sannleiksins þeckíngar. Jesú lærisveinar løgdu klædi sín yfir øsnuna, og settu hann þar uppá; þeirra dæmi fylgdi fólkid, er breiddi sín klædi á veginn. An alls efa hefir þessum til hugar komid, ad Jesús mundi í þad sinn ætla ad upprétta hid jardneska Israels ríki, því þad var háttur Gydínga ad breyta þannin vid þá sem nýliga høfdu stjórn tekid, hvad sjá má af 2. Reg. 9. Þegar spámannsins þénari hafdi smurt Jehú til konúngs, þá breiddi hvør af hans herra þénurum sitt klædi undir hann á þad hædsta af trøppunum, og søgdu: Jehú ríkir. Og þó nú ad bædi lærisveinarnir og fólkid villtust í þessu, þá er þad samt skéd af Drottni, til ad teikna þarmed hans konúngs-tign, hvern Gud Fadir hefir smurt yfir sitt heilaga fjall, Psálm. 2. En gjæt ad því, christinn madur, ad þessi Konúngur dýrdarinnar rídur hvern dag inn til sinnar borgar, sem er christilig kyrkja, og svo sem hann er einn andligur Konúngur, svo og er hans ríki andligt, því ad vopn herfarar vorrar eru ecki líkamlig segir Páls, 2. Cor. 10. heldur kraptur Guds til ad nidurbrjóta gyrdíngarnar. Hann kémur til vor í ordinu og sacramentunum, í krapti síns Heilags Anda, sem straffar í manninum syndina, uppvekur ydranina, eblir trúna, kveikir elskuna til Guds, innrætir kjærleikann til náúngans, verkar þolinnmædina. Þegar þú, christinn madur, finnur í hjarta þínu nockrar þesshattar hræríngar, þá vit þad, ad sá drottnarinn er þar kominn til síns musteris, sem Malachias um-spáir, Cap. 3. Þegar Pharisæi spurdu Drottinn ad fordum daga, hvenær Guds ríki kjæmi, svaradi hann þeim: Guds ríki kémur ecki svo þess gjætt verdi; þeir skulu ecki segja, sjá þad er þar, edur sjá þad er hér, því sjáid, Guds ríki er inni hjá ydur,

Luc. 17. Gud kémur ecki í hjørtu mannanna, eins og Herodes og Bernice fordum, med stóru yfirlæti, Act. 25. Sjá þinn konúngur kémur til þín hógvær, segir gudspjallid. Þótt Christur búi í himninum, þá býr hann undir eins í sunðurkrømdum hjørtum, Es. 57. Jesús sagdi fordum vid Nicodemum: Vindurinn blæs, og þú heyrir hans þit, en þú veitst ecki hvadan hann kémur, edur hvørt hann fer; svo eru og allir þeir sem af andanum fæddir eru, Joh. 3.

Nú er endurnýungin dóttir endurfædíngarinnar, bádar koma af anda Guds sem verkar í manninum fyrir ordid; en ecki veit hann edur skilur med hverju móti hinn alvitri Gud þad verkar; verkanina finnur hann, en verkunarinnar máta skilur hann ecki. Jesús reid einum asna inn til Jerúsalem, og svo þóknast Gudi ástundum margann fyrir fáfróda predikun hólpinn ad gjøra, 1. Cor. 1. En þegar hann svo vitjar þín, syndugur madur, þá breyt eptir þessu fólki, þeir breiddu sín klædi á veginn. En hvernin fær þú þad eptir þeim gjørt? Þad kénnir St. Páll, Eph. 4. Afleggid þann gamla manninn, eptir hinni fyrri umgengni, sem fordjarfast í gyrndum villudómsins, en endurnýist í anda ydar hugskots. Afklædumst þessum íllskunnar ham, og køstum honum framm fyrir fætur Jesú; honum byrjar þó med øllum ødrum hans óvinum ad leggjast til fótskarar honum, því ecki er þvílíkur óvinur Christs næst Fjandanum, svo sem holdid, hvers þánkar ad eru reidi og fjandskapur í gégn Gudi. En íklædumst einum nýum manni, sem eptir Gudi er skapadur, í réttlæti og heilagleika sannleikans, Eph. 4. Minnumst elskanligir á þad, ad Jesús Christus konúngur dýrdarinnar, hann var flettur sínum klædum, og hans blessadur líkami var allsnakinn reyrdur vid stólpann í þíng=húsi Pilati, hvar hann var húdstrýktur, til þess ad vér yrdum frelsadir frá eylífum húdstrokum í ytstu myrkrum, en íklæddir nýum hvítum skrúda med pálmavidu í vorum høndum, Apoc. 7. Já, þetta allt hefir hann þolad til þess, ad vér mættum honum íklædast so sem Páls segir, Gal. 3. Skyldum vér þá ecki leitast vid ad deyda vora jardnesku limu, sem er saurlifnadur, óhreinleiki, gyrnd, íllfýsi og ágyrni, hver ad er afguda=dýrkun, Col. 3. sérdeilis þar Gud hefir oss sjálfur vopninn í hendur fengid, hver Páls kallar ljóssins vopn, Rom. 13. og Guds alvepni, Eph. 6. Þad ætlar heimur þessi, ad hann hafi enginn not lífsins, nema hann lifi ad munudum sínum, svo sem væru menn alleina þar til í heiminn bornir, eins og Pétur segir, 2. Pistl. 2. ad þeir séu eins og skynlaus dýr, sem ana framm eptir því sem náttúran býdur, alleina til þess skøpud, ad þau slátrud verdi, nær þau faungud eru, og er líkíng þessi ágjæt, því svo sem villudýrin ecki um annad hyrda, enn ad fylla magann, og verda þar fyrir ástundum tæld og lockud med adskiljanligum veidibrellum, þar til þau eckert afvita, fyrr enn þau hafa fót sinn í snørunni. Svo eru og þeir er um eckert skeyta, nema um líkamans eptirlæti, fýsn augnanna, og drambsamligt líferni, 1. Joh. 2. Þeir gjæta ecki ad fyrr enn sálin uppvaknar í helvíti og kvølunum; hvad Postulinn greiniliga um þá segir, er ríkir vilja verda, at þeir falli í adskiljanligar freystíngar og snørur og gyrndir, heimskuligar og skadligar, er steypa manninum í tøpun og ólucku, 1. Tim. 6. En þeir sem Christo tilheyra, þad eru þeir sem eru hans trúfastir hyrdmenn og lærisveinar, þeir krossfesta sitt hold med þess gyrndum og tilhneigíngum, Gal. 5. og hrósa sér ecki nema af Kristí krossi, fyrir hvern þeim er heimur=

inn krossfestur, og þeir heiminum, Gal. 6. Þegar menn ráda einn þénara til vistar, þá gjøra menn skilmála vid hann, hvad hann vinna eigi, og hvad hann fá skuli í verka=laun. Svo hefir Jesús gjørt, Luc. 9. Hann sagdi fyrir øllum mønnum, segir Gudspjallamadurinn: hver sem mér vill eptirfylgja, hann afneiti sjálfum ser, og taki dagliga sinn kross uppá sig og fylgi mér eptir. Hann sagdi þad øllum, svo allir vita megi, hvørs þeir vænta eiga í hans þénustu. Hann segir dagliga, so ad þeir sem Gud hefir aungvan útvortis kross á herdar lagt, skuli þó vera vidbúnir ad krossfesta sitt eigid hold, og deyda sína jardnesku limu, Gal. 5. so ad þann vanti aungvan Christí kross, sem vill undir Krists merki strída, edur gánga á mála med þessum konúngi, því þad stendur þó óraskanligt um aldur og æfi, ad ígégnum margar hørmúngar byrjar oss inn ad gánga í Guds ríki, Act. 14. og er hans þénusta þó því betri, en allra annara, ad þótt hún þyki hørd adgaungu, þá er hans ok sætt og hans byrdi létt, Matth. 11. því hann hjálpar sjálfur til ad bera, hann er trúr og freistar einkis yfir megn framm, 1. Cor. 10. Sætleiki Guds nádar, og smeckur eptirkomandi farsældar deifir svo remmu krossins fyrir Guds børnum, ad hennar gjætir ecki. Eg heyri ad Páłus og Sylas eru gladir í fángelsinu, Act. 16. Postularnir gengu fagnandi út frá rádinu í Jerúsalem, þegar þeir húdstrýktir voru, Act. 5. Jeg heyri ad Páłus óskar, ad Festus landsdómari og Agrippa konúngur væru eins menn og hann, ad þeim hleckjunum undanteknum er hann var bundinn med, Act. 26. hverja hann hefdi þó ecki látid fyrir alla dýrd veraldarinnar, hefdi hann átt annarshvørs á mis ad fara. Þess sinnis var píslarvotturinn Babylas, er beiddi ad grafa sig med þeim hleckjum, er hann var leiddur til aftøkustadarins med, so ad ecki vantadi hann sitt brúdarskart í upprisunni, Evseb. Lib. 6. Cap. 36 og 40. So lítid akta þeir sem vel hafa smackad hvad sætur at Drottinn er, Ps. 24. So lítid akta þeir hvørsu med þennan forgengiliga líkama er høndlad. En vilji menn eptir=spyrja, hvør ad launin séu í Christí dýrdar=ríki, þá segir hann sjálfur, Matth. 5. sælir erud þér nær mennirnir hallmæla ydur og ofsókn veita, og tala ígégn ydur alla vondsku fyrir míns nafns sakir, þó ljúgandi, fagnid þér og verid gladir, því ydar verdkaup er nógligt á himnum. En hvada verdkaup brædur, mínir? Hvílíkt ecki hefir auga séd, og ecki hefir eyra heyrt, og ecki hefir í nockurs manns hug edur hjarta komid, 1. Cor. 2. þad er þad verdkaup, er Drottinn hefir tilbúid þeim er hann elska. Hver sem nú samanber þá litlu hørmúng, er vér þola megum í Christí nádar=ríki, og þá óumrædiligu sælu, er hann mun launa oss med í sínu dýrdar=ríki, hann mun játa med Postulanum, ad mótlætingar þessara tíma séu ei verdar þeirrar dýrdar, sem framm vid os mun koma í eylífu lífi, Rom. 8. O Jesú! unn oss þessarar farsælu vistar med þér eylífliga. O Jesú! lát oss vera þar sem þú ert, Joh. 17. O Jesú! virdstu ad þurka øll tár af þinna barna augum, Apoc. 7. O Jesú! lát vora hrigd snúast í gledi, Joh. 16. O Jesú! géf ad hverki líf né daudi, hverki englar né høfdíngja=dæmi, hverki hæd né dypt, né nockur sképna kunni ad skilja oss vid þann kjærleika, sem er í þér, Rom. 8. Og lát oss þér aldrei sleppa, þar til þú blessar os med eylífri blessan, og vér þig aptur med eylífu Hósíanna í hædstum hædum. Bænheyr þad ó Herra Jesú! þér med Fødur og Heil. Anda, sé lof, prís, magt og veldi, um aldir alda, amen.

# Annan Sunnudag í Advventu.

Gudspjallid, Luc. 21. Cap.

Í þann tíma Jesús sagdi til sinna lærisveina: Þar munu ské teikn á sólu, túngli og stjørnum, og á jørdu kvalníng þjóda og ørvínglan; sjór og bylgjur munu hljóda, og menn munu fyrir hrædslu uppþorna, og af eptirbídíngu þeirra hluta, sem ad koma skulu yfir allan heiminn. Þvíad kraftar himnanna munu hræraft, og þá munu þeir sjá Mannsins Son komandi í skýunum med makt og miklu veldi. En nær þetta tekur ad ské, þá lítid upp og upphefjid ydar høfud, af því ad ydar endurlausn tekur ad nálægjast. Og hann sagdi þeim þessa eptirlíking: Skodid þér fíkju-tréd, og øll ønnur tré, nær þeirra aldin tekur út ad springa, þá vitid þér ad sumarid er nálægt. Svo líka nær þér sjáid þetta ské, þá vitid ad Guds ríki er nálægt. Sannliga segi eg ydur, þessi kynslód mun ei forgánga, þángad til ad allt þetta skér. Himin og jørd munu forgánga, en mín ord forgánga eigi.

## Exordium.

Eg dæmi aungvan segir Jesús, Joh. 8. Hvad er þá þad hann segir, Joh. 5. Fadirinn dæmir aungvann, heldur hefir hann Syninum allan dóm í hendur fengid. Tvent bar til þess, brædur mínir, ad Drottinn taladi þessi ord fyrir Gydíngum; þad eina, ad þeir dæmdu um hann eptir ytri ásýnd, þar þeir søgdu skømmu ádur: Þú ber sjálfur vitni um þig, þinn vitnisburdur er ecki gyldur; en hann svaradi þessu medal annara: þér dæmid eptir holdinu, eg dæmi anngvan, hann meinti eptir holdinu. Sú var og ønnur, ad hann í þad sinn ecki var kominn til ad láta dóm gánga yfir íllar athafnir mannanna, því íllgresinu byrjadi ad vaxa allt til kornskéru-tímans, Matth. 13. en ei ad sídur var þó Drottinn kominn til dóms á jørdu, svo sem hann sjálfur vottar, Jóh. 9. til þess ad þeir sjáandi yrdu, er eckert sáu, og þeir ed sáu, skyldu blindir verda, og er þad audvitad, hver ad sé þessi dómur, og yfir hverjum hann géck, sem voru þverbrotnir Gydingar, hverjir ei vildu Jesum þeckja fyrir Guds Son, af því kraptaverkinu, er hann gjørdi á hønum, sem blindur var borinn, Jóh. 9. En dómurinn var þessi, ef þér værud blindir, þá hefdud þér ecki synd, en nú segid þér: Vér sjáum, þar fyrir blífur ydar synd, og þótt dómurinn sé svo réttvís, ad eckert sé réttvísara, þá er hann þó næsta þúngur og hrædiligur, því hann er undanfari hins ógnarliga dóms, er á hinum mikla degi alls holds mun án miskunar gánga yfir alla þá, sem ecki hafa trúad á Drottinn Jesúm; því svo segir Guds Sonur, Joh. 3. Hver sem ecki trúir, hann er þegar dæmdur, af því hann trúdi ecki á nafn eingétins Sonar Guds. Þessi hinn strángi, en þó réttferdugi Guds dómur, géck yfir hinn vesæla Gydinga-lýd ad miklu leiti, þegar þeir høfdu uppfyllt mælíng syndarinnar. Þess getur Páluns, Act. 28. er hann straffar þvermódsku þeirra, segjandi: Þar fyrir sé ydur vitanligt, ad hjálpædi þetta er heidíngjum géfid, og þeir munu þad heyra. Þessarar miklu Guds nádar erum vér og hluttakandi ordnir, er búum undir hinu ytsta heims-skauti, þennan skjelfiliga dóm yfir Guds eigin fólki, hðsum ver og heyrt: En gjætum ad því er Páll segir til heidíngjanna, þeirra er vid christni tekid høfdu: Vel, þeir eru fyrir vantrúna afbrotnir, segir hann, en þú stendur fyrir trúna. Stær þig ecki, heldur vert ottasleiginn, Rom. 11. Satt er þad sem Drottinn segir, ad hann sem ecki trúir, sé þegar dæmdur, Joh. 3. En því trúa menn ecki? Því menn koma ecki til ljóssins. Því koma menn ecki til ljóssins? Því menn elska meir myrkrid en ljósid, af því ad þeirra verk eru vond. Joh. 3. Þad þykir inndælt ad sofa á kodda athugaleysisins, sem Andskotinn dillar sinum børnum á, med hans gamla vøggu-kvædi, er þannin lætur: Hvar er fyrirheit hans tilkomu, 2. Pet, 3. So hefir þad gengid í frá upphafi veraldar, og þar fyrir eru menn svo tregir ad

vakna vid Guds orda básúnu, þar til daudans edur dómsins básúnu hljód tekur yfir, og ecki er vært ad sofa lengur. En Gud vekur sídan med eylífu ópi og tanna-gnistran í Helvíti Hver þad heyrir, hann hyggi þar ad, og gjæti þess, er Páll sagdi til þeirra í Athenuborg, Act. 17. Gud hefir tilsett einn dag, á hvørjum hann dæma mun alla jardarkrínglunа med réttlæti, fyrir þann mann er hann hefir fyrirhugad. Þar fyrir vil eg láta mitt tal vera í þetta sinn, hvad oss eigi ad leida til þess ad búa oss undir hinn sídasta dag, sem vær ecki vitum nema ad morgni upprenni. Hjálpa hér til, ó þú allsherjar Dómari fyrir Jesúm Christum, amen.

## Utleggíngin.

Þar munu ské teikn á sólu, túngli og stjørnum. Þad sýnist audrádid vera, brædur mínir, ad ecki muni Endurlausnarinn hafa talad þetta svo vegna lærisveinanna edur fólksins, er honum í þad sinn nálægt var; því jafnvel þótt ad þeir til samans hafi í þeirri meiníngu verid, ad hinn sídasti dagur mundi vera skamt í burtu, svo sem sjá má af sumu því, er þeir hafa skrifad eptir sig látid, þá hafa sídan mørg hundrud ár lidid allt til þessa dags; heldur er þad sagt vegna vor, yfir hvørja líkligt er ad heims-endirinn sé kominn; fyrir því ættum vér, ecki síst med ugg og andvara ad vænta tilkomu Drottins, því ef Herrans Postular ætludu á þeim døgum, ad hún mundi svo nálæg vera, hvørsu miklu nær mun hún þá vera oss, er svo miklu sídar lifum? Eg hygg ad teikn þessi flest, er Lúcas getur um í Evangelio, muni ecki fjarlæg dóminum verda, heldur nærri í sama vetfángi; því Herrann segir hér, ad vér munum þá sjá Mannsins Son komandi í skýum himins, og er audsært, ad þess muni ecki lángt ad bída úr því ad allt þetta skédur, sem máské ei annad verdi, enn fjørbrot veraldarinnar, þegar himnarnir munu med stór-brestum forgánga, og høfud-sképnurnar af hita brádna, 2. Pet. 3. Hvad medal annara má þar afráda, ad Jesús segir, Marc. 13. ad um þann dag viti enginn madur, og ei jafnvel Englar á himnum. En ef teikn þessi skédu rúmum tíma fyrr enn himin og jørd forgánga, þá kynnu þeir ed á jørdu búa ad vita nockud hérum, hvad St. Petur fortekur, 2. P. 3. er hann segir, ad dagur Drottins muni koma sem þjófur á nóttu; En þjófurinn gjørir aungva vitneskju undan sér, annars væri hann ecki þjófur, svo er og dagur Drottins, því eins og tál-snara mun hann koma yfir alla þá sem á jørdu búa, Luc. 21. Dragi því enginn sjálfan sig á tálar, edur meini ad af því ad þessi teikn, sem Lúcas skrifar um í gudspjallinu, eru enn nú ecki øll frammkomin, og vér merkjum aungva umbreitíng á sólu, túngli og stjørnum, adra enn hún verid hefir í frá upphafi veraldar, eptir venjuligu náttúrunnar hlaupi, ad Drottinn muni þarfyrir seinka, svo sem nockrir kalla þad seinlæti; segir Petur, 2. Pet. 3. Heldur er hann þolinnmódur vid oss, viljandi ei ad nockur fyrifarist, heldur ad allir snúist til ydrunar.

Látum oss ei þvílíkt í hug koma, brædur mínir! því þad eru spottaranna þánkar, er hann segir ad upp muni rísa á sídustu døgum, þeir ed gánga í sínum eigin gyrndum, segjandi: Hvar er fyrirheit hans tilkomu, 2. Pet. 3. því sídan fedurnir sofnudu, þá er allt hid sama svo sem frá upphafi skøpunarinnar. Og hann dylur ecki hvar fyrir ad syndugum mønnum, sem alla hluti mæla eptir fáfrædi spillíngarinnar og smámunum vorum, sem þjótum upp eins og gufa, en lídum í burt aptur á augnabragdi, hvar fyrir, segi eg, ad oss þyki svo lángt úr verda, er hann talar um þetta efni, segjandi: En eitt sé ydur vitanligt elskanligir! ad einn dagur er fyrir Drottni svo sem þúsund ár, og þúsund ár svo sem einn dag-

ur. En þeir ed þetta ecki samaabera vid Guds fyrirheit, þeim þykir svo sem hann tefji og sé bryghdmáll ordinn; svo er þad og víst, ad jafnvel þótt ad bædi St. Páll og adrir lýsi því, ad heims-endirinn væri yfir þá kominn, 1. Cor. 10. þá hefir ecki Postulinn vænt hans svo brádliga, þar hann segir, 2. Tess. 2. Þér skulud ecki skjelfast skjótliga í hugskotum ydar, né trublast, hverki af anda né ordi, né af sendibréfi, sem vér hefdum skrifad, eins og dagur Drottins væri nær því kominn; kannské þess vegna, ad einhvör hafi tekid sér ordsök af hans fyrra pistli til þeirra, ad skjelfa veikar og ístødulitlar samvitskur, þar ed hann skrifar: Eg hefir ei þørf ad skrifa ydur um tíma og hentugleika, því þér gjørla vitid, ad sá dagur Drottins mun koma sem þjófur á nóttu, þegar þeir segja: Þar er fridur og tryggleiki, þá er þeim skyndilig foreydsla nærri, svo sem jód-sótt þúngadri konu, 1 Tess. 5.

Látum oss því ecki andvaralaust lifa, brædur mínir, þótt Drottinn dvelji, því komandi mun hann koma og ecki seinka, Hebr. 10. En vér vitum ecki, á hverjum tíma ad hann kémur, ad kvøldi dags edur um midnætti, edur þá haninn galar edur snemma morguns, svo ad þegar hann kémur hastarliga, ad hann finni ydur ecki sofandi. Þad eg segi ydur, þad segi eg øllum, segir Drottinn, vaki þér, Marc. 13. Látum ecki vora ydran bída eptir sólarinnar formyrkvan, því þegar hún allra sídast tekur ad sortna, mun ydranar-tíminn úti vera; hún hefir svo lengi þjónad oss í heimi þessum, svo lengi afmarkad tilsetta tíma af Gudi, og borid vitnisburd um hans vitsku, hans dýrd, hans gjædsku og hans almætti, svo lengi hefir hún skynid yfir ógudligann heim þennan, svo lengi upprunnid yfir rángláta og réttláta, ad allir hafa haft nogan tíma til ad ydrast og leita Guds ádur enn þad sídarsta myrkur byrgir hennar fagra ljós, svo hún mun upp þadan aldrei ad eylífu skína. Hún hefir aldrei frá veraldarinnar upphafi formyrkvast ámóti náttúrunnar edli, nema øllu einu-sinni, þegar himin og jørd byrgdu fyri augu sér, og svo sem skélfdust vid ad horfa þar á, ad þeirra skapari var eins og ein bølvan á krossinn uppheingdur, Matth. 27. En ef hin náttúrliga sólin misti sína birtu af því, ad sól réttlætisins formyrkvadist um stundarsakir, hvad er þá ad undra þótt hún aldeilis blind verdi, þegar hann kémur í skýum himins med hans heiløgu þúsundum, Júdæ Pist. v. 14. Já, þegar þeir munu fyrir hinn hærsta og sídasta rétt kalladir verda, sem Konúng dýrdarinnar hafa ad nýu krossfestan, og sáttmálans blód almenniligt haldid, med hverju þeir helgadir eru, Hebr. 10. Lát þér þetta jafnan fyrir augum vera, syndugur madur, þegar þú sér hid blessada heimsins ljós, sem alla verøldina upplýsir; þú sér hana í dag upprenna, þacka Gudi þar fyrir, en þú veitst ei hvørt hún ná muni sínu venjuliga takmarki ad kvøldi dags, þú sér hana í æginn gánga, og ad túnglid og stjørnurnar taka aptur ad lýsa, en þú veitst ecki nema á þeirri sømu nóttu renni upp Jacobs-stjarna, Christur, Num. 24. annad sinn, sem bædi sól og túngl mun formyrkva og ad aungvu gjøra og stjørnunum af himni ofan steypa, svo sem þá eitt fíkju-tré kastar sínum ávøxtum frá sér, nær þad hristist af storminum. Lát þarfyrir sólina ecki undirgánga þína vondsku! Trú ecki svo nætur-myrkrunum fyrir þér, ad þú mynnistei vid Soninn, á medan þú ert enn á vegi med hønum, svo ad hann verdi þér ecki reidur, Ps. 2 ef kanské hann birtist í skýum himins á þeirri nóttu. Haf þinn lampa tendradan, sem er ljós trúar þinnar, ad ei verdir

þú útilokadur, þegar brúdguminn kémur um midnætti, Matth. 25. Hlýd bodi Péturs er hann segir, 2. Pet. 3. Þar fyrir elskanligir, þar þér bídid eptir øllu þessu, þá kostgjæfid ad þér hreinir og óstraffanligir af hønum fundnir verdid med fridi, og haldid seinlæti Drottins til reidinnar ad vera hjálprædi. En hyggjum ad því, hvørsu ad hann mun óbæriliga stránugur og hardrádur verda øllum gudlausum og þverbrotnum, er sér hafa á nádartímanum reidi safnad. Hann mun ei koma svo sem fordum daga, liggjandi í einum stalli, ecki svo sem þér heyrdud fyrra sunnudag, sitjandi á øsnu, og á fola klifbærrar øsnu, Matth. 21. Ecki svo sem hann var útleiddur af þínghúsi Pilati, berandi eina purpura-kápu og þyrni-kórónu, Joh. 19. En þeir ed allt þettad hafa ad aungvu haft, þeir munu sjá hann svo sem einn strángan dómara. Eldurinn brennur fyrir hans augliti allt til nedsta Helvítis, Devt. 32. Í hønum munu himnarnir sundurglidna, og høfud-sképnurnar smeltast. 2. Pet. 3. Kríngum hann mun geysa eitt hrædiligt stormvidri, allir hans mektugir Einglar munu hønum fylgja, og hans heiløgu þúsundir umhverfis hann skína, med skélfiligri Høfud-engilsins básúnu mun hann kalla lifendur og dauda í loptid upp til móts vid sig, 1 Tess. 4. Eingin sképna mun standast hans tilkomu, Mal. 3. Þá mun sólin formyrkvast af því ad Guds forsmánarar gengu formyrkvadir í huxunum, søkum þeirra þeckíngarleysis, vegna hardúdar þeirra hjarta, 2. Tim. 3. Þá munu kraptar himnanna hrærast, af því ad þeir hafa svo títt syndgad í himininn, og forsmád hann er í himninum býr; þá mun verda á jørdu ángist og rádleysa þjódanna, svo sem þá sjór og bylgjur hljóda, sem viti þær ecki hvar þær eigi ad falla edur hvad af sér ad gjøra; þannin mun allt hold verda í tilkomu Drottins. Þegar Jeremías spáir um Babylons eydileggíngu, þá dunar hann svo sem eitt reidar-slag á þennan hátt: Þeirra bylgjur munu dynja, þeirra raddar hljód mun verda svo sem mikilla vatna, Jer. 51. En hvad miklu meira mun verda øskur hinnar stóru Babylon, veraldarinnar, þegar hún hrapar í díkid þad, sem vellur af eldi og brennnusteini, Apoc. 21. med øllum þeim sem drucknir eru af víni hennar hórunar, Apoc. 17. Ó! hvørsu fegnir munu þá þeir ed smád hafa hinn fátæka Jesúm og hans limu, í velmakt sinni hér á jørdunni, hvørsu gjarna munu þeir þá vilja hafa sadt hann, þegar hann húngradur var, svalad hønum, er hann þyrstur var, hýst hann, þegar hann géstur var, klædt hann, þegar hann nakinn var, vitjad hans, þegar hann var sjúkur og í myrkva-stofu? Matth. 25. Hvørsu lítid munu þeim gagna metord þau, er þeir keyptu fyrir Guds vináttu? eptirlæti heims þessa, er þeir mottu framar enn Drottins kross? eignir og búgardar, fyrir hverja þeir seldu sálir sínar? sveiti daglaunarans, er þeir hafa innihaldid, hús eckjunnar og hins føðurlausa, er þeir hafa útsogid? braud hins einfalda og naudstadda, er þeir hafa svikid undir sig med okri og rángsleitni? Hvad lítid mun allt þettad duga þeim, nær verøldin og øll hennar dýrd stendur í bjørtu báli, en hinn réttláti himins og jardar Konúngur vill segja upp dóminn med þessu skélfiliga adkvædi: Farid frá mér bølvadir í eylífan eld, sem fyrirbúinn er Djøflinum og øllum hans árum, Matth. 25. Ó! Drottinn vor Gud, hvørsu mun hann þá ógnarligur verda í augum fordæmdra manna, er ecki eiga framar neinrar nádar von? Manoha og hans kvinna sáu Guds Son, er hann sté uppí fórnar-eldinum, og hann meinti þau mundu þar fyrir deya, Jud. 13. Esajas sá Gud sitjandi á háum stóli, og hønum féllst hugur, svo hann sagdi:

Vei mér, eg mun upprættur verda, því eg hefi saurugar varir, og bý ámedal þess fólks er saurugar varir hefir, þar eg hefi séd Drottinn alsherjar-konúng, Esa. 6. Israels synir beiddu Móses ad gánga uppá fjallid og tala sinna vegna vid Drottinn, Exod. 20. Þegar Guds reidir slóu í Hóreb, og sögdust eigi framar géta heyrt raustina Drottins Guds síns. Daniel sá Christum vid fljótid Chid-dekel, og þar var ecki máttur í hönum, öll hans fegurd umbreyttist, svo hann hafdi aungva krapta, Dan. 10. Lærisveinarnir urdu óttaslegnir, er hann kom til þeirra ad lyktum dyrum, Luc. 24. Þessir voru þó allir Guds vinir; þeim birti hann sig í nád sinni og gjæsku; þó kunni ecki breiskleiki holdsins ad standast nálægd Guddómsins; hvad mun þá vid óvini Drottins ské í dóminum? þegar hann úthellir þeirri reidinni í einu augnabliki, sem þeir hafa safnad sér á reidinnar-dag, mann eptir mann um alla æfi. Þegar Jósúa, hinn ypparsti kénnimadur stód fyrir Engli hins mikla ráds og Andskotinn hönum til hægri handar, til ad mótstanda hönum í Jerúsalems byggíngu, þá stód hann í saurugum klædum, þar til Drottinn tók hans ránglæti frá hönum, Zach. 3. og var þá Guds Sonur hans tals-madur. En hvernin munu allir gudlausir verda, þegar þeir standa fyrir dómara alls holds, þegar Gud sjálfur áklagar, en einginn affakar, þegar ránglætid ei framar verdur burt-tekid, heldur tilreiknad? Þeir munu standa skömminni íklæddir, Ps. 109. og um aldir alda útreknir frá hinni himnesku Jerúsalem, Apoc. 3. Jóhannes segir, þeir drecka af víni Guds brennandi reidi, og kveljast med eldi og brennusteini í augliti heilagra Engla og Lambsins, Apoc. 14, og þeir munu aungva ró hafa nótt né dag, þeir munu eta túngur sínar út af ofraun, og lasta Gud himinsins út af kvöl og sárindum sínum, og þeir munu daudans óska, og hann mun frá þeim flýa, Apoc. 9. Í öllu þessu fá þeir ecki einn dropa vatns til ad kæla med túngu sína, Luc. 16. Þetta er ad sönnu ógnarligt ad heyra, brædur mínir, en þad er þó Guds ord, sem ecki kann ad ljúga; en ef þad kann ad ofbjóda nockrum ad heyra alleina, hvad mun þad þá vera ad sjá og reyna; ecki hefir Guds andi forgéfins talad þetta, og svo skýrliga uppteikna látid; eckert af Guds ordum mun á jördu falla, himin og jörd forgánga, en hans ord forgánga aldrei, Luc. 21. Lát þau því duga þér til þess, ad þú verkir þína sáluhjálp med ugg og ótta, Phil. 2. ad ei komir þú í þennan kvalastad, edur sért varbúinn vid hinum sídasta degi, sem þú ecki veitst nær ad þér upprennur. Hugleid, christinn madur, hvad Jesús segir, Joh. 12. Hver sem forsmáir mig, og medtekur ecki mín ord, hann hefir þann sem hann dæmir, þad ordid sem eg taladi, þad mun dæma hann á sídarsta degi. Vert því ecki ugglaus edur óhræddur, barn Guds, þegar þú situr undir heyrn hans orda, því þar er þinn dómari, þad mun á hinum efsta degi uppskátt verda, hvörnin þú hafir eptir því tekid, hvörnin þú hafir eptir því lifad, hvörsu fús þú hafir verid á ad heyra þad, hvad vandliga þú hafir med þad höndlad, í hvad gódu og sidsömu hjarta þú hafir geymt þad, hvört þú hafir fært þar ávöxt af í þolinmædi, Luc. 8. Allt þvílíkt verdur bert þegar bækurnar verda upplátnar í dóminum, Apoc. 20. og eptir því muntu dæmdur verda. Því svo segir Pálus, ad Drottinn muni dæma leynda hluti eptir sínu Evangelio á sídasta degi fyrir Jesúm Christum, Rom. 2. Seig mér, barn Drottins: Mundir þú þora ad forsmá þann, er ætti ad dæma um líf þitt edur æru, edur svara hönum fullum hálsi, sérdeilis ef þú þig sekann vissir, og þér uggvænt

þætti, ad þú mundir falla á málinu? Pad þorir enginn ad gjøra. Ecki eru dæmi til þess, ad nockur hafi svo bitid høfudid af skømminni; en þad þora menn ad segja, ad prestar segi svo margt, þad sé ecki allt satt, jafnvel þótt þeirra embætti sé Drottins, og þeirra verk þeirra Guds, Esa. 49. Þetta voga menn ad segja og hugsa undir heyrn Guds orda, sem eiga ad dæma þá á sídarsta degi. Veitstu ecki, sagdi Pilatus ad eg hefi vald til ad krossfesta þig, og vald til ad láta þig lausann, en hann laug, því hann hafdi eckert vald yfir hinum alvalda Konúngi, nema hønum hefdi verid géfid þad af himnum ofan. En Christur hefir til þess vald í hans heilaga ordi, syndugur madur! ad fordæma þig, ef þú kastar því á bak þér aptur, og svo til ad láta þig lausan, ef þú hlýdir því. Hvar fyrir láta menn þá hid góda ord Guds svo sem vind um eyrun þjóta? Menn hrædast allan voda, en Guds ord ecki; þér þykir þeim tíma vel varid, er þú gétur skotid þér undan þess heyrn, og mundir þar kanské aldrei koma, nema þú meir óttadist mennina enn Gud; en muntu og géta skotid þér undan hinum sídarsta dómi, hvar þú skalt þó af þessu sama Guds ordi dæmdur verda? Og fyrst þú villt ecki heyra Christ, þar ed hann segir: Komid til mín allir þér sem erfidid og þúnga erud þjádir, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. þá skaltu þó heyra hann á sídarsta degi, hvert þú villt edur ecki, er hann segir: farid frá mér allir illgjørda-menn. J einu ordi ad segja, þar er enginn hlutur sem meir ætti ad hvetja upp syndugan mann til ad búast vid daudanum enn sjálft Guds ord, hvørt hann mun dæma, eptir hvørju hann mun dæmast, og fyrir hvørs forøktun hann mun dæmdur verda. Sé þad þér ként og predikad af hinum aumasta og vesælasta, af einum fátækum og líttkunnandi, hvør haldinn er fyrir afrak og hreinsun veraldar, forsmá þad eigi ad heldur, ef þad eru Guds ord hann hefir í munni, og hans Evangelium, er sagdi til sinna Postula og allra þeirra, er leitast vid ad feta í þeirra fótspor og hans umbod á hendi hafa: Hvør sem forsmáir ydur, hann forsmáir mig, en hvør hann mig forsmáir, hann forsmáir þann er mig sendi, Luc. 10. Já, þótt þad sé framborid af einhvørjum, sem eckert gjørir af því hann kénnir, þá kannast þó þar vid, ad Jesús sagdi til sinna lærisveina: Á Móses stóli sitja Skriftlærdir og Pharisæi, allt hvad þeir segja ydur ad vardveita, þad vardveitid og gjørid; en eptir þeirra verkum skulud þér ecki gjøra, því þeir tala, og gjøra ecki, Matth. 23 Hvør sem nú um þetta vandliga hugsar, hann mun þess betur læra ad búast vid þessum hrædiliga degi, med dágligri ydran og apturhvarfi frá syndum og glæpum, og þad þess heldur, sem líkligra er, ad Drottins tilkomu sé ei all-lángt ad bída; því þótt þau teiknin er Lucas í þessu Gudspjalli umtalar, séu enn þá ecki øll framkomin, og líkast sé, ad ei framkoma muni fyrr enn undir sjálfan dóminn, þá gengur þad eins til hér, svo sem fyrir daudligum manni, ad helsóttin er lengi ad búa um sig í hans líkama, ádur enn hún slítur lífid af hønum. Svo hefir og Gud opinberad oss í sínu heil. ordi nockur teikn, þau er á sídustu døgum ské munu og eru viti hins efsta dóms, er vér vel megum þeckja og vidkannast á vorum døgum. Christur segir, Matth. 24. ad Evangelium ríkisins skuli predikast um allan heim, til vitnisburdar øllum þjódum, og þá muni endirinn koma. Sjáid hvørsu Guds orda dómur skal yfir alla menn gánga; þar eru og mjøg fáar þjódir nú í heiminum, á medal hvørra ei hefir skinid ljós Evangelíí, þótt allir hafi ecki vid því tekid; hann gétur um, þar muni verda

húngur, drepsótt og jardskjálftar í öllum stödum, Matth. 24 og kallar þad upphaf hörmúnganna; þetta höfum vér sjálfir reynt, brædur mínir, og er ecki lángt á ad minnast. Gud gæfi vér værum þess svo minnugir sem vera byrjadi, ef menn vilja ecki önnur teikn þeckja, þá mættu menn þau vidkannast er almennust eru, og Jesús umgétur, Luc. 18. Þegar Mannsins Sonur kémur, meinar þú hann finni trú á jördu? Nóg er af Guds ordi, nóg af Evangelíi lærdómi, til vitnisburdar yfir öllum mönnum, Matth. 24. En hvert hinn sanna Guds ótta er svo vída ad finna má stórliga efast um; edur segid mér, hvada hyrtni er þad, ad almenníngur hefir á ad læra christiliga trú, edur kénna hana þeim er vidþurfa? En þó allra síst eptir henni ad lifa. Eg hygg þad gángi til eins og á Nóa dögum, hvad og er teikn Mannsins Sonar tilkomu, Matth. 24. Þeir átu og druku, þeir giptust og sig gipta létu allt til þess dags, ad Nói géck inn í örkina og þecktu ecki flódid, fyrr enn þad kom og tók þá alla í burtu. Já, nú á þessum dögum ádur enn þeir vita hvad hjónaband er, edur kunna meir enn einn afni ad uppfræda börn sín í christiligri trú og ærligum lifnadi. Þeir géta þau eptir sinni mynd, og ala þau upp eptir sinni mynd, Andskotanum til þjónustu á stundum, en ecki Gudi. En fyrst trúin er þannin, þá er ei von ad kjærleikurinn sé betri; svo ad rætist eirnin þad sem Frelsarinn segir ad framm muni koma fyrir hinn sídasta dag, ad af því ránglætid vex, muni margra kjærleiki kólna, Matth. 24.

Þetta er svo víst framkomid, ad mig undrar ad menn ecki hafa gleymt nafninu, þar hlutinn sjálfan er valla hjá nockrum ad finna. Í einu ordi ad segja: Menn þreifa á því sem Páløs skrifar, 2. Tím. 3. segjandi: Vitid ad á sídustu tímum munu verda fárligar tídir, þar munu verda menn sérgódir, ágjarnir, hólsamir, dramblátir, gudlastarar, foreldrunum óhlýdugir, óþacklátir, glæpafullir, hardbrjóstadir, heiptræknir, laussinnadir, óþýdir, gott hatandi, svikarar, þverbrotnir, uppblásnir, elskandi meir sælgjæti enn Gud, hafandi skin gudhrædslunnar, en afneita hennar krapti. Allt þetta hygg eg ad Nói þeckja mundi, ef hann nú mætti líta upp af gröf sinni, og þad þeckir hver og einn, sá ed gjörir nockurn greinar-mun á millum dygda og ódygda. Á dögum Nóa slöckti hinn réttláti Gud bál ólevfiligrar elsku og lostagyrndar med vatnsflódinu, fyrr enn þeir nockud af vissu, en nú tekur kjærleikurinn svo ad kólna, ad hjörtu sumra manna má stockfredinn kalla, já, hardari enn kopar og stál. Hvad er líkligra enn ad hinn alvitri heimsins smidur muni bræda þau og smelta med hinu sídasta báli, fyrr enn nockurn varir? Þetta vil eg nú hafa sagt, brædur mínir, ydrunar- og athuga-lausum til vidvörunar, en ecki sturludum edur ángrádum samvitskum til skélfíngar, öllum til sidbóta og leidréttíngar lifnadarins, en aungvum til örvæntíngar, því svo sem tilkoma hins mikla Guds og Drottins vors Jesú Christí mun hrædilig verda öllum ógudligum mönnum, svo mun hún gledilig verda öllum þeim, er á hann vona, og hennar med þolinmædi bída. Þad kénnir oss St. Páll, 2. Tess. 1. segjandi: Þad er réttvíst fyrir Gudi, ad endurgjalda þeim þjáníngana er ydur þjá, en ydur sem þjáist, endurnæríngu medur oss, þegar Drottinn Jesús opinberast af himni med sínum megtugum Englum. Ad sönnu byrjar oss öllum ad mæta fyri dómstóli Drottins, 2. Cor. 5. og þar reikníng ad standa, jafnvel af hverju ónytju ordi, í dóminum, Matth. 12. en þad er óhult ad mæta fyrir hans dómi, sem sjálfur er talsmadur sinna barna. Sá fer

ecki sekur af þínginu, sem sjálfur á ad dæma, en nú eru allir trúadir eitt med honum, svo sem hann og Fadirinn eru eitt, Jóh. 17. og hann er höfud líkamans, sem er christilig kyrkja, Eph. 1. Pad er og inndælt ad standa honum reikníng, sem sjálfur hefir betalad fyrir alla skuldina; þar fyrir segir Jesús, Jóh. 3. Sá sem trúir á Soninn, sá dæmist ecki, (hvar dómsins ord merkir fordæmíng) og aptur segir hann: Sá sem heyrir min ord, og trúir honum er mig sendi, hann hefir eylíft líf, og hann kémur ecki í dóm (þad er í fyrirdæmíng) heldur fer hann frá daudanum til lífsins, Jóh. 5. Því skyldu þá Guds börn ræðast hinn sídasta dag? Mun ein brúdur óttast síns brúdguma tilkomu, og ecki heldur á allar lundir búa sig til ad fagna honum? Mun eitt barn fela sig fyrir sínum födur? En svo sem fadirinn er líknsamur, Ps. 103 svo vill hinn eylífi Fadir og fridar-höfdíngi, Esa. 9. vera oss nádugur í þeim degi. Par fyrir segir hann og í þessa heil. dags Evangelió: En nær þetta tekur ad ské, þá lítid upp, og upphefjid ydar höfud, af því ad ydar endurlausn er nálæg. Pad er sem hann segdi: Pér skulud ecki lengur nidurlútir gánga af þeirri sorg, er þér hafid í heiminum; því þá skulud þér í mér gledi hafa, Jóh. 16. þér skulud ecki lengur stynja med sjálfum ydur, bídandi eptir arfleidslunni sem er endurlausn ydar líkama, Róm. 3. því hún er þá nálæg. Pér skulud ei lengur kveljast í fángelsi þessa daudliga líkama, því þetta er dagur endurnæríngarinnar, Act. 3. dagur endurfædíngarinnar, Matth. 19. dagur endurlausnarinnar, Eph. 4. dagur endurnýungar allra hláta, þá munud þér ecki framar syrgja þá Guds mynd, er þér í Adam töpudud; því þér munud sjá í skýum himins hinn annan Adam, sem er Drottinn af himni, 1. Cor. 15. og þó hold af ydar holdi, hvör ad er ydar bródir, og þó ydar dómari, ydur ad öllu samlíkur, Ebr. 2. ad syndinni fráteckinni, en þó ímynd síns Födurs dýrdarfullrar persónu, Ebr. 1. Hvör ydar forgengiliga líkami mun forklára og samlíka gjöra sínum dýrdligum líkama, Phil. 3. Lítid upp þér sem lengi hafid leitad ad því, sem þar uppi er, Col. 3. þá skulud þér þad finna. Upphefjid ydar höfud, sem ásamt allri sképnunni hafid med útréttu höfdi bedid eptir ydar endurlausn, Róm. 8. og sjáid ydar höfud komanda í skýum himins. Lítid upp þér sem med áhyggju hafid lengi þrád eptir hinni himnesku Jerúsalem, Gal. 4. sem þar uppi er, og gángid nú inn í hana, þá mun Drottinn segja: Komid þér sem naktir erud, eg mun géfa ydur hvítann skrúda og fá pálmavid í hendur ydar. Komid þér sem þyrstir erud, eg mun dryckja ydur af straumum lifanda vatns. Jóh. 4. Komid þér sem húngradir erud, eg mun metta ydur af nægdar-gjædum Guds húss, Ps. 36. Komid þér, sem erfidid og þúnga erud þjádir, eg mun endurnæra ydur, Matth. 11. Komid þér sem sýtid og grátid, eg mun þerra öll tár af ydar augum, Apoc. 7. Komid þér, sem borid hafid mitt sæta ok, og mína léttu byrdi, eg vil ydur endurgjalda med eylífri þýngd dýrdarinnar, 2. Cor. 4. Komid þér sem reiknadir erud fyrir afrak og hreinsun veraldar, eg vil setja ydur til bords med Abraham, Isak og Jacob, Matth. 8. Já, komid blessud börn míns Födurs, og eignist þad ríkid, sem ydur er fyribúid frá upphafi veraldar, Matth. 25. Kom, O!

Herra Jesú, kom og innleid oss í þetta fagnadarsæla Lambsins brúdkaup og þína dýrd, þú sem lifir og ríkir ad eylífu, amen!

## Þridja Sunnudag í Adventu.

Gudspjallid, Matth. 11.

Í þann tíma, en þá ed Jóhannes heyrdi í bøndunum verkin Christí, sendi hann út tvo af sínum lærisveinum, og lét segja hønum: Ertú sá sem koma skal, eda eigum vér ad vænta eins annars? Jesús svaradi og sagdi til þeirra: Farid aptur og kunngjerid Jóhanni, hvad þér sjáid og heyrid: Blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir upprísa, og fátækum verda Gudspjøllin bodud, og sæll er sá sem ecki hneixlar sig á mér. En ad þeim í burtu gengnum, hóf Jesús ad segja til fólksins af Jóhanne: Hvad fórud þér út á eydimørku ad sjá? Reyr þann sem af vindi er skékinn? eda hvad fórud þér ad sjá? Mann mjúk-klæddann? Sjáid, ad þeir sem mjúkann klædnad bera, eru í konganna húsum. Eda hvad fórud þér ad sjá? Einn spámann? Eg segi ydur fyrir sann, þann meiri er enn nockur spámann; þvíad þessi er sá, af hverjum skrifad er: Sjá þú ad eg sendi minn Engil fyrir þinni augsýn, sá er þinn veg skal tilreida fyrir þér.

### Exordium.

Hversu stór ad sé myndugleiki heil. Ritningar, þad kénnir oss best allra Drottinn Jesús, er hann sagdi vid Gydinga, sem ecki vildu trúa hønum fyrir kraptaverkin, er hann gjørdi: rannsakid ritningarnar, því þér meinid ydur í þeim ad hafa eylíft líf, og þær eru þad, sem bera vitni af mér, Jóh 5. Vel hefir Jesús þetta hverutveggja samantekid, ad høndla um eylíft líf, og bera vitni af sér, því þad er eylíft líf, ad þeir þecki þig sannan Gud ad vera, og þann þú sendir Jesúm Christum, sagdi hann, Jóh. 17. An Jesú vitnisburdar verdur einginn hólpinn, og hver sem hann hefir og medtekur, hann hefir lífid í sér blífandi, og kann ecki ad fara á mis vid sálubjálpina; þar um vitnar St. Petur, Act. 4. Ad ei sé í ødrum hjálprædid, og ad þar sé eckert annad nafn mønnunum géfid undir himninum, í hverju oss byrji sáluhólpnum ad verda, enn nafnid Jesú Christí. Nú, þar ed heil. ritning høndlar um svo mikla og vegliga hluti, hvad kann henni þá jafnt edur samlíkjandi ad kallast, af øllu því, er syndugir menn hafa mætur á. Jesús sagdi vid kvinnuna í Samaría, ef þú vissir Guds gjøf, og hver sá væri er vid þig segir: Gjef mér ad drecka, þá mundir þú bidja hann ad géfa þér lifandi vatn, Jóh. 4. En eg vil segja: Gud gjæfi, menn þecktu Gud vid sig talandi í heil. ritníngu, þá mundum vér fúsari vera ad drecka af hans nádar-straumum, er þar út af fljóta. Hver hefir ként oss ad þeckja Gud vorn skapara? Hver hefir opinberad oss hans vilja? Hver hefir vísad oss veginn hønum eptir ad fylgja? Hver hefir upplokid vorum augum, ad vér þeckjum syndina? Hver hefir sýnt oss hvørnin vér ættum ad blídka Gud, nær hann reidur er, og fá hennar kvittun? Hver hefir opinberad oss leyndardóm heil. Guddómsins þrenningar, dýrd Fødursins, elsku Sonarins, ástgjafir Heilags Anda? Hver hefir sýnt oss þad sem margir konúngar og spámenn gyrntust ad sjá, og sáu þad ecki, Luc. 10. þad sem hulid var fyri spekingur og vitríngum, en nú er opinberad smælingjum? Matth. 11. Hefir ecki hinn nádugi Gud oss

allt þetta auglýst og fyrir eckert gèfid í heil. ritníngu, fyrir sinn eingètinn Son, sem er á hans skauti, Jóh. 1. Af þessari andligu fèhyrdslu audgadi Jesús lærisveina Jóhannis, þegar þeirra meistari sendi þá til hans, ad frètta hann ad, hvert hann væri sá sem koma skyldi, edur ættu þeir eins annars ad vænta, ecki í þeirri meiníngu, ad Jóhannes vissi þad ecki sjálfur, því hann hafdi ádur vid hann talad, Matth. 3. heldur til þess, ad þeim hjálpad yrdi í þeirra andligu fáfrædi, hvad hinn gódi meistari Jesús gjørdi med því móti, ad hann vísar þeim til verkanna, sem af honum gjørdust, og undir eins til ritnínganna sem um Messíam spádu, og þó ad hvert eitt af þeim kraptaverkum sem hèr standa í Gudspjallinu, sè nóg til ad vitna þar um, ad hann Guds Sonur væri, þar Gud er alleina sá sem dásemdar-verkin gjorir. Ps. 71. þá er þó eckert þeirra, sem svo berliga vitni um embætti Messíæ, svo sem þad sídasta er hèr stendur: Fátækum verda gudspjøllin bodud. Hver blessud ord vèr viljum í þetta sinn oss fyrir hendur taka, og af þeim sèrdeilis tvent hugleida; sem er 1. Um þá fátæku er hèr nefnast. 2. Um þad Evangelium, er þeim bodad verdur, med þeim lærdómum er þar af leida..

Þú myskunsami gódi Gud, sem oss hefir med ljósi þíns Sonar Evangelíi, vísad hinn rètta veg sáluhjálparinnar, vertú í verki med oss, ad vèr þetta framkvæmt gètum, þínu nafni til dýrdar, en oss til eylífrar velferdar, amen!

## Utleggíngin.

Fátækir, sem hèr nefnast, eru ecki alleinasta þeir, sem vantar audlegd heims þessa, heldur og allir þeir, sem á einhvørn hátt eiga vid bágan kost ad búa. Davíd var ríkur konúngur, og hafdi aura-nægtir, þó segir hann, Ps. 9. Miskuna mèr, og lít á fátækt mína. Nú kunna menn þó ecki ad mótsegja því, ad vor Frelsari, ámedan hann umgèkst hèr á jørdunni, hefir sèrilagi útvalid hina fátæku og audvyrdiligu fyri heiminum. Sjálfur var hann í fátækt alinn, hans blessud módir fèck eckert annad rúm í gèsta-herberginu, enn einn stall, til ad færda hann í heiminn, Lúc. 2. sem á allra hluta vald bædi á himni og jørdu. Hans fóstur-fadir var ein trèsmidur, Matth. 13. sem nærdi sig af hand-bjørg sinni. Hans lærisveinar voru fátækir fiski-menn. Flestallir þeir, er hann umgèckst med hèr á jørdunni, voru fátækir og umkomulitlir. Skammast þín ecki þess vegna fátæktarinnar, kristinn madur, fyrst hann hefir hana útvalid, sem á þó allt silfur og gull, og øll dýrin í skóginum, Ps. 50. Ærlig fátækt er heilagur hlutur, þar hann hefir vígt hana, sem einn er heilagur, og þó alleina ríkur. Fyrilít og ecki fátækann, þú sem audugur ert, því þad er ad forsmá hans skapara, sem gjørdist øreigi þinna vegna. Edur því skyldu menn hann óvyrdu, er Gud hefir svo mikils vyrdt, ad hann hefir fyrir hann píust, og látid honum sitt Evangelíum opinbera? En hvar fyrir mun vor Frelsari segja hèr, ad Evangelíum sè fátækum bodad? Sannliga, fyrst þessvegna, ad Jóhannis lærisveinar þeckja mættu, ad spádómur Esa. 61. uppfyltur væri; en Guds andi, sem fyrir Esaíam taladi, hefir gjørla fyrir sèd, ad ei mundu þeir margir verda, er Christum medtæki, sem lifdu í velgengni heims þessa, svo sem raun gaf vitni. Skuli menn og sannleikann segja, þá kèmur fátæktinn betur saman vid Christs Evangelíum, enn ríkdómurinn. Hans ríki var ecki af þessum heimi, Jóh. 18. og því er ecki von til, ad þeir muni vel skipast undir hans stjórnan, sem hafa gull-hnøttinn fyrir sitt athvarf, og ei vita af annari sælu ad segja, enn audæfum heims þessa. Þar fyrir sagdi Jesús fordum daga um hinn ríka ýngis-mann, ad hægra væri úlfbaldanum ad gánga í gègnum nálar-augad, enn ríkum manni inn í himnaríki, Matth. 19. ecki þessvegna, ad hann ríkur var, heldur af því hann ángradist, þegar Drottinn sagdi ad hann skyldi gèfa eigur

sínar fátækum og fylgja sér eptir. Já, sannliga á fátæktin og armódur betur vid Guds Evangelíum, enn ríkdómur mikill. Því segir og Jakob Postuli, Cap. 2. Heyrid, brædur mínir elskuligir, hefir ei Gud útvalid fátæka heims þessa, ad þeir verdi audugir í trúnni og erfíngjar þess ríkis, er hann heitid hefir þeim, er hann elska. En þar er næsta hætt vid, ad þeir muni ecki hafa mikla ást á Gudi, sem ástunda mikid aura-safn. Hvar fyrir Páll-us segir, ad þeir sem ríkir vilja verda, þeir falli í freistíngar og snörur, og margar gyrndir skadligar og heimskuligar, sem steypa manninum í fordjörfun og ólucku, 1. Tim. 6. Og hér kvedur svo ramt ad, ad Endurlausnarinn segir: Þér gétid ecki undir eins Gudi þjónad og Mammona, Matth. 6. Og því verr, hvad mörg eru þau dæmin, ad menn elska meir akneyti sín og búgarda, enn Drottins kvöldmáltíd, sem þó er öllum tilbodin, þar fyrir lætur hann blindum, höltum og vönudum samansafna, Lúc. 14. Vér erum áhyggjusamir eins og Martha, og mædumst í mörgu, en fáir hyggja ad því, ad eitt er naudsynligt, edur at útvelja þad géda hlutskiptid, eins og María, Lúc. 10. edur ad hafa þjáníng med Guds fólki, heldur enn Ægyptalands audæfi, eins og Móses, Hebr. 11. En þótt ad þessu sé nú svo varid, munu þá allir útilokadir frá Evangelío, þeir ed ríkir eru, en hinir allir inn-teknir? Fjærri fer því. Abraham hafdi Gud géfid gull og silfur, þræla og ambáttir, úlfbalda og asna, naut og saudi, Gen. 24. og þó kallast hann fadir trúadra, Róm. 4. og þad var honum til réttlætis reiknad, ad hann Gudi trúdi, Róm. 4. og því Evangelío, er Gud honum sjálfur bodadi, ad í hans sædi skyldu blessast allar þjódir, Gen. 22. Job var ríkismadur, og var hann þó Guds vinur, Job 1. og 42. Davíd, Jósaphat, Ezechías og ótal fleiri, í gamla Testamentinu voru maktar-menn, og þó eru allir þeir fyrir Evangelíum trúarinnar hólpnir ordnir. Og ad menn viti ad þad ecki ödruvís er í nýja Testamentinu, þá er þad alkunnugt, ad Nicódemus var einn höfdíngi Gydínga, þó kom hann til Jesúm á náttarþeli, og þádi undirvísun af honum, Jóh. 3. Jairus var samkundu-höfdíngi, þó leitadi hann Christí hjálpar, Marc. 5. Um hundrads-höfdíngjann sagdi Jesús sjálfur, ad hann hefdi ecki fundid þvílíka trú í Israel, Matth. 8. og hefir hann án efa eíngin smælíngi verid, þar hann uppbygdi Gydínganna samkundu, Lúc. 7. Jóhanna hústrú Chusæ, er var rádsmadur Heródis, Lúc. 8. hefir verid rík kona, þó trúdi hún á Drottinn. Jóseph af Arimathía var einn ráð-herra og audugur, þó var hann lærisveinn Christí, Matth. 27. Cornelius var ríkur, þó vottar Engillinn um hann, ad hans bænir og ölmusu-gjördir séu uppstignar fyrir Gud, Act. 10. Dionysius Arcópagita var ráð-herra í Athenu-borg, Act. 17. Páll-s Sergius var hyrdstjóri, og þó létu bádir þessir skírast, og tóku kristni af Páló, Act. 13. Og hvor kann öll þvílík dæmi upp ad telju? Og svo sem ad ecki eru allir ríkir þessari Guds nád fráskildir, svo verda og ecki heldur allir fátækir hennar hluttakandi. Jesús læknadi ecki alla halta edur blinda; svo hefir hann ecki heldur gjort alla fátæka sáluhólpna, jafnvel þótt hann fyrir alla lidid hafi. Fjærri sé því, ad fátæktin kunni nockrum ad afreka himnaríki fyrir sjálfa sig. Svo sem Gud hefir bölvad þeim, er réttlætir þann fátæka fyrir hans fátæktar sakir, og áfellir hinn ríka fyrir hans ríkdóms skuld; svo gjorir hann og sjálfur hvorugt í sínum réttláta dómi, því hjá honum er eckert

manngreinar álit, heldur á öllu fólki, er gjörir hans vilja, hefir hann þóknan, Act. 10. Ad sönnu er ríkdóminum hættara enn fátæktinni; en svo sem margur, því verr, brúkar audæfin til óhófs og drambsemi, til ad undirþryckja hinn volada og lítilmagnann, svo er og fátæktinni ei heldur altíd óhætt, og því afbad Agur hana, ad ei neyddist hann til ad stela, Prov. 30. Hvorttveggja þetta er eptir því sem med þad er höndlad. Ölmusugjördir Cornelíí voru Gudi eins þeckar, Act. 10. og smá-peníngar eckjunnar, sem lagdi meira í Guds kistuna af sínum fátækdóm, enn allir hinir ríku, Lúc. 21. Þar eru fátækir, sem ecki vilja erfida med höndunum, og læra því ad stela. Þar eru fátækir, sem öfunda hina ríku, formæla þeim fyrir einga adra sök enn þá, ad Gud hefir þeim meira lánad, hvör þó gjörir bædi fátækann og ríkann eptir velþóknan sinni, Prov. 22. svíkja þá í allri höndlan; meina ad þeir svo gjöra megi ad saklausu; hælast þar um í sinn hóp; hjálpa ödrum til ad breyta þannin, og kalla þvílíkt ad gjöra kjærleikans verk, svo sem hinn ríki egi aungvan rétt á sér, nema þann er hann nær med ofbeldi. Þeir una fátæktinni illa, og stunda med öllum hætti, med réttu og raungu, ad drífa hana frá sér. Munu þetta vera þeir fátækir, er Jesús hér um talar í Gudspjallinu, brædur mínir? Lángt er frá því, heldur þeir ed fátæktina og allan annan Guds kross med þolinmædi lída, sá ed lætur sér nægja med sinn deildann verd. Gud telur ecki peninga þína, kristinn madur, heldur mælir hann þitt hugarfar; hann er einganvegin réttiliga fátækur, sem gjarnan vildi taka allt frá öllum ef hann mætti, jafnvel þótt eckert hafi hann, eins og sá er ecki ríkur, sem vill meira hafa, þótt hann hafi alls nægtir; svo er og hinn ecki fátækur fyrir Gudi, er med hjartanu gapir yfir öllu því hinn ríki á; hinn ríka kann og ecki ad skada hans ríkdómur, ef hann brúkar hann Gudi til dýrdar, og náunganum til gagnsmuna; sá er ecki treistir uppá óréttindin edur ránglætid, edur heldur sig til þess, sem ad eingu er neitt, vilji hönum ríkdómur til, þá festir hann ecki hjarta sitt vid hann, Ps. 62. hann reisir hinn fallna, styrkir mál eckjunnar og hins födurlausa, upphefur sig ecki í hjarta sínu, heldur fellst á Jakobs rád, er hann segir Cap. 1. Sá sem ríkur er, hrósi sér í lægíng sinni. Og fyrir því ad Gudi hefir þóknast margann audugann ad gjöra, til ad audsýna í því svo sem öllu ödru sína gjædsku vid mannanna sonu, en annars vegar er næsta hætt vid, ad audurinn sem er fagur, megi blinda mannsins hjarta, þá gjörir St. Páll rád fyrir þeim, sem ríkir eru í kristiligri kyrkju, 1. Tim. 6. (Svo lángt er frá því ad þeir séu frá Evangelío útilokadir) segjandi: Þeim sem ríkir eru í öld þessari, predika þú ad þeir ecki metnist í hjörtum, og treysti ecki á audæfin, heldur á hinn lifanda Gud, sem oss alla hluti ánægjanliga gefur til notkunar, ad þeir séu gódgjarnir, ad þeir séu ríkir í gódum verkum, séu gjafmildir og fúsir á ad medbíta, safnandi sjálfum sér gódum grundvelli til hins eptirkomanda, svo ad þeir hreppi eylíft líf. Fari nú nockur þessum Postulans ráddum fram, þá er svo lángt frá því ad hann fari hlutlaus af Guds velgjörníngum í Evangelío, ad hann hefir meiri orsök og efni til ad gjöra þad Gud hefir í Evangelío bodid, heldur enn hinn sem snaudur er, eda hvad er þad ad Christur segir, ad ei skuli vatns-dryckur ólaunadur vera í lærisveins nafni gefinn? Matth. 10. Hvad er hitt er hann býdur: Ad menn skuli gjöra sér vini af hinum rángláta Mammóna, svo ad þeir medtaki oss í eylífar tjaldbúdir? Lúc. 16. Allt er þetta til þess sagt, ad madurinn lockist

med Guds nádar fyrirheitum, til ad dýrka hann med hans gáfum, og náúnganum ad gagna; en ef ødruvís er, þá klíngir þar og ønnur bjalla, hún lætur á þennan hátt hjá Lúc. 6. Vei ydur sem ríkir erud, þér hafid ydar huggun úttekid. Og Jakob talar nockud skorinordt þar um Cap. 5. segjandi: Nú vel þér audugir, grátid og veinid yfir hørmúngum ydar, sem yfir ydur koma munu; ydar audæfi eru fúin, ydar klædi eru uppetin af møl, ydar gull og silfur er ryðgad, og þeirra ryd vitnar á móti ydur, og mun uppeta ydar hold svo sem eldur; þér hafid geymt féssjódinn til hinna sídustu daganna, sjáid laun verkamannanna, sem hafa sleigid ydar lønd, er þér hafid innihaldid, þau hrópa; hróp þeirra er yrkt hafa, er inngengid í eyru Drottins alsherjar. Þann veg hefi eg nú sýnt, brædur mínir, ad ríkdómur og fátækt eru Gudi jafnkjær, þegar med hvørttveggja er réttiliga farid. Því vil eg þess ei dylja, ad eg hygg ad Frelsarinn í þessa dags Evangelío innibindi þá í þessu ordi, sem hann talar um, Matth. 5. segjandi: Sælir eru andliga voladir, því ad þeirra er Guds ríki. Þetta sýnist ráda meiga af sjálfum spádómi Esajæ 61. til hvørs ad Frelsarinn vísar Jóhanni í andsvari sínu; hvør spádómur svo hljódar: Andi Drottins er yfir mér, af því hann hefir smurt mig; hann hefir sendt mig ad boda Evangelium þeim hógværu, og ad binda vid þá, sem í hjørtum eru sundurknosadir. Þetta skilst mér ad vera sama og andliga voladir, Matth. 5. Þad eru þeir sem ad til þess finna, ad í þeim, þad er í þeirra holdi, býr eckert gott, Róm. 7. Þeir ed þeckja ad þeir hafa skort á þeirri hrósuninni, sem fyrir Gudi gyldir, Róm. 3. Þeir ed med hinum fortapada syni audmýkja sig fyrir sínum fødur, Lúc. 15. Þeir ed med tollheimtu-manninum voga ecki ad upplypta sínum augum til himins, heldur berja sér á brjóst og segja: Gud vertú mér syndugum líknsamur! Lúc. 18. Þeim er svo eru andliga voladir, og reikna sig svo ør-fátæka af øllu því, sem fyrir Gudi gylda kann, ad þeim mislíkar allt á sjálfum sér, þeim hygg eg ad bædi fyrst og sídarst tilheyri Evangelíum, hvørt heldur þeir ríkir eru edur fátækir, því svo segir Drottinn, Esa. 66. Á þann lít eg sem fátækur er og sundurkraminn í anda, og skélfist fyrir ordum mínum. Þegar Guds Sonur kom í heiminn, þá vildu menn af verkunum réttlátir verda; en hvad segir Jesús þar um? Nema ydar réttlæti yfirgnæfi meir enn hinna Skriftlærdu og Pharisæanna, þá kunnid þér ecki inn ad gánga í Guds ríki, Matth. 5. Þá tíundudu þeir myntu, anís og kúmen, þad var þeirra Guds-þjónusta; en gleymdu því sem mest var í løgmálinu, dómnum, miskunseminni og trúnni, Matth. 23. Þá færdu þeir stórar fórnir Marc. 7 á Herrans altari, og ætludu þar fyrir hólpnir ad verda. En Drottinn segir þar um, Esa. 66. Hvør ed slátrar nauti, þad er, sem hann slægi mann í-hel; hvør sem offrar nockrum smá-fénadi, þad er sem hann hálsbriti hund, svo mikid gylti sú útvortis Guds-þjónustan í hans augum. Þar fundust ecki margir, sem gjørdu svoddann játníng fyrir Gudi, sem Davíd; heldur hét þad svo: Eg þacka þér Gud, þad eg em ecki eins og adrir menn, Lúc. 18. Þessir þóttust ríkir vera af gódum verkum, og jafnvel ødrum lána kunna; en hvad segir Jesús vid Biskupinn í Laodicea, þú segir: Eg em full-ríkur og hefi enskis þørf; en þú veitst ecki, ad þú ert aumur og vesæll, blindur og nakinn; Apoc. 3. og þad hygg eg segja mætti um múga manns á þeim døgum. Þar fyrir var Evangelíum fátækum bodad, þar fyrir flycktust tollheimtumenn og bersyndugir til Jesum,

Lúc. 15. Þarfyrir komu jafnvel heiðnir menn á hans fund. Þar fyrir sagði hann til þessa fólks, Matth. 21. Sannliga segi eg ydur, ad tollheimtumenn og pútur munu gánga framar ydur inn í Guds ríki; því Jóhannes kom til ydar med réttlætisins veg, og þér trúdud honum ecki, en tollheimtumenn og pútur trúdu honum, en þér sem sáud þetta, ydrudust ecki eptir á, svo ad þér tryddud honum. Og höfum vér nú svo nockud heyrt þar um, hvílíkir ad þessir fátækir séu, sem vor Frelsari talar um í andsvari sínu til Jóhannem.

Nú viljum vér hér eptir nockud um sjálft Evangelíum tala, sem þeim bodad verdur. Menn kynnu ad efast um hvornin þad skilja eigi, ad Jesús segir hér alleina, ad fátækum séu Gudspjöllin bodud, þar svo St. Páll vottar, Tit. 2. ad heilsusamlig Guds nád sé opinber ordin öllum mönnum. Hér byrjar oss þad ad athuga, ad jafnvel þótt Christí Evangelíum sé ecki nema eitt, þá verdur þó eitt og hid sama Evangelium med tvöföldum hætti predikad, sá eini hefir nockud af lögmálinu altíd med sér, og frammbýdur Guds nád géfins veitta med forordi, ef menn ydrast syndanna og af þeim láta. Þvílík var sú predikun Christí, er Marcús umgétur, Cap. 1. Jesús kom í Galileam, predikandi Evangelíum Guds-ríkis, segjandi: Tíminn er uppfyldur, Guds ríki er komid, gjörid ydran, og trúid Evangelío. Þess-háttar var predikun Jóhannis Baptistæ, er hann sagdi: Gjörid ydran, því Guds-ríki er nálægt. Öxin er sett til rótar trjánna; hvert þad tré sem ecki ber gódann ávöxt, skal upphöggvast og í eld kastast, Matth. 3. Hér er Oleum Evangelíi blandad med sterku lögmálsins víni, til lækníngar þeim, sem medal ræníngja hrasadir voru, Lúc. 10. Med þessum hætti á Evangelíum enn nú ad kennast í Guds söfnudum, hvar inni ad eru badi vondir og gódir, Matth. 13. og þannveg byrjar Guds fjársjódum út ad skipta í hentugann tíma, svo hvor einn fái þad honum ber, því ei kom Jesús til ad upplevsa edur afmá, heldur til ad uppfylla lögmálid, Matth. 5. Guds nád í Evangelío hrýn ecki á manninum fyrir utan eina lifandi trú; undan einni lifandi trú verdur ad gánga sönn ydran; sönn ydran er aldrei nema med sönnu ángri og hjartans trega; tregi hjartans kann ecki í manninum ad uppvekjast fyrir utan þeckíngu syndarinnar; þeckíng syndarinnar framkémur af lögmálinu, Róm. 7. hvar fyrir þótt ad lögmálid gjöri aungvann hólpinn af sjálfu sér, samt þjónar þad undir Evangelíum, trúudum manni til sáluhjálpar, svo þegar bókstafurinn hefir deydt, þá lífgar andinn, 2. Cor. 3. Þegar lögmálid hefir sundur-marid, þá læknar Evangelíum; þegar manneskjan af lögmálinu þeckir, ad hún hefir eckert annad forþjenad enn Helvíti, Guds reidi og eilífann dauda, þá tekur trúin vid honum og gjörir hann lifandi aptur fyri Jesú dauda og endurnýar hann til ad gjöra framvegis Guds vilja. Þessa atferd brúkadi hinn ædsti Biskup og mikli Hyrdir saudanna optast til ad leida synduga menn til Guds ríkis; þá sömu brúkudu og allir hans þénarar um alla æfi. Nói var réttlætis predikari, 2. Pet. 2. Nathan straffadi Davíd, ádur enn hann huggadi hann, 2. Sam. 12. Atferd Jóhannis Baptistæ, er öllum kunnug, Matth. 3. Svo er nú þessi hinn almenniligi háttur og máti til ad predika Evangelíum, sem allir Guds-ords þénarar eiga ad vita og brúka. Annar er sá sem tilheyrir ángrádum og sturludum manneskjum, þeim sem allareidu hafa þeckt syndina, og svo eru af hennar umþenkíngu sundur-mardir, ad þeir reikna sig óverduga Guds nádar, og svo sá-rádir, ad þeir vita

ecki hvad þeir eiga af sér ad gjöra; þeckja ad sönnu Guds nád, en ofbýdur þó stærd synd-anna; Þeir vita ad sól réttlætisins Jesús Christur er þeim upprunnin, Mal. 4. en fyrir því ad þeir treystast ecki til ad lypta sínum augum til himins upp, Lúc. 18. og ad þoka syndanna skilur á millum Guds og þeirra, Esa. 59. þá sá þeir ecki ígégnum hana séd (fyrr enn Heilagur Andi rýdur trúarinnar smyrslum á þeirra hjartans augu) hvad fagurt hún skín; þeir þeinkja heldur á stærd syndanna, enn til fjölda Guds miskunsemda, og í einu ordi ad segja, þad eru þeir fátækir, er sérílagi um talad er hér í Gudspjallinu; þeim tilheyrir Evangelíum eintómis án lögmálsins straungu hótana. Hvar fyrir? Þvíad Guds Andi hefir allareidu verkad allt þad sem lögmálid átti ad verka, sem er þeckíngu syndanna og sanna ydran, er af henni kémur. Þeim verdur bodad ad hvar sem syndin yfirgnæfi, þar yfirgnæfi nádin miklu framar, Róm. 5. Þeim verdur sagt ad Mannsins Sonur kom til ad kalla synduga, en ecki réttláta til ydrunar, Matth. 9. Þeim á ad predika, ad blódid Jesú hreinsi þá af öllum syndum, 1. Jóh. 1. Og þó ad þeirra syndir séu raudar sem blód, skuli þær eins hvítar og snjór verda, Esa. 1. Þeim segir Davíd, Ps. 34. Nálægur er Drottinn þeim sem sundurkramdir eru í hjörtum og harmþrúngnir í anda. Til þeirra segir Esajas, Cap. 55. Heyrid þér sem þyrstir erud, komid til þessara vatna, og sá ed eingann peníng hefir, komid, medtakid og snædid. Komid, segi eg, og fáid ókeypis og fyrir eckert, bædi vín og mjólk. Til þeirra hrópar sjálfur Jesús, sem borid hefir syndir veraldarinnar, Matth. 11. Komid til mín allir þér sem erfidid og þúnga þjádir erud, og vil ydur endurnæra; til alls þessa segir öll heil. Guddómsins þrenníng, amen. Ezech. 33. Þér segid, af því ad vorar yfirtrodslur og syndir liggja á oss, þar fyrir visnum vér upp í þeim, hvörnin skyldum vér mega lifa? Þá seig þeim: Svo sannarliga sem eg lifi, segir Drottinn, þá vil eg ecki dauda hins ógudliga, heldur ad hann snúi sér og lifi. Ecki eru þess dæmi, ad Fadir miskunsemdanna hafi nockurn þann frá sér rekid, sem til hans komid hefir, Jóh. 6. Þetta er Evangelíum fridarins, sem hér bodad verdur, Esa. 52. Lát því ei syndugur madur, þína sálu vera óróliga í þér, því þú hefir frid vid hann fengid, hvörs óvinur þú varst, þegar hann gaf sinn Son í daudann fyrir þig, Róm. 5. Þad skédur hjá gódum konúngum, nær þeim fædist einn sonur, ad þeir géfa einhvörn bandíngja lausann, en Gud Fadir lét hrópa til allrar veraldar í síns Sonar fædíngu, fridur á jördu og mönnum gódur vilji, Lúc. 2. Þetta er Evangelíum fagnadarins, Lúc. 2. Því Englarnir súngu: eg boda ydur mikinn fögnud, þann er skér öllu fólki. Lát þér því ecki svo ógna syndir þínar, þótt þær yfrid margar séu og stórar, ad þú ecki undir eins gledjist í Gudi heilsugjafara þínum, Lúc. 1. Meiri gledi er í himninum, segir Jesús, yfir einum syndara, sem ydran gjörir, heldur enn yfir níu og níutíu réttlátum, Lúc. 15. Nú fyrst ad sjálfur Gud og hans Heilagir fagna svo mjög þínu apturhvarfi, því skyldir þú þá hryggur vera? Þetta er Evangelíum Guds nádar, Act. 20. og embætti forlíkunarinnar, 2. Cor. 5. En þú hrædist öll þín verk eins og Job, og veitst ad jafnvel þitt réttlæti er svo sem nidlags-fat, Esa. 64. Nú er þetta nádarinnar Evangelíum, í hvörju syndaranum verdur frambodin nád út af nád, en ef þad er af nád, þá er þad ecki af verkunum, segir Postulinn, Róm. 11. Þín verk eru vond, en þetta er þó Evangelíum gódra hluta, Róm. 10. Þitt hjarta fordæmir þig;

en Jáhannes segir þó, ad Gud sé meiri þínu hjarta, og viti alla hluti, 1. Jóh. 3. Veit hann alla hluti, þá veit hann og þad, ad þú ert andliga voladur, því vill hann þér H mnaríkid géfa, Matth. 5. Enginn er sá snaudur, er hann á heilt kóngs-ríki, þó er syndarinn ríkari, þegar hann á Guds-ríki, og verdur þá ríkastur, þegar hann er sem fátækastur, og máttugur, þegar hann veikur er eins og St. Páll, 2. Cor. 12. Veit Gud alla hluti, þá veit hann og þad, ad þig húngrar og þyrstir eptir réttlætinu, Matth. 5. En ef þú sem vondur ert, kant ad géfa børnum þínum gódar gáfur; ef þú sem ert alinn í synd, mundir ei neita daud-þyrstum manni vatns-dryckjar, mun þá Gud sem er alleina gódur, tefja lengi ad svala þér med Heiløgum Anda, þá þig lángar eptir hønum, svo sem hjørtinn eptir fersku vatni, Ps. 42. Þú fellur í þær syndir, er Gud hefir þér ádur fyrigéfid, og þad optar enn einusinni; þad er illa gjørt, lát þig þad af hjarta ángra, og syndga ei þannin framar, ad þú ecki uppausir brunn miskunarinnar, en gjæt þó þess, ad þetta er Evangelíum forlíkunarinnar, 2. Cor. 5. Christur er kénnimadur ad eylífu, Hebr. 7. og situr til Fødursins hægri handar til ad bidja fyrir oss óafflátanliga. Jesús skipadi Petri ad fyrirgéfa sínum bródir, sjøtíusinnum sjø-sinnum, Matth. 18. Hyxa ecki ad Fadir miskunsemdanna muni vera sídur nádugur, enn hann ætlar til ad þú skulir vera, sérdeilis þar hann segir: Verid miskunsamir, svo sem ydar Fadir er miskunsamur, Luc. 6. en brúka samt ecki þessa Guds nád til hyrduleysis, edur til ad géfa holdinu taum. Hæd ecki ad hønum sem augad hefir skapad og eyrad hefir plantad, Ps. 94. og er hjartnanna og nýrnanna ransakari, Apoc. 2. því hann lætur ecki ad sér hæda, Gal. 6. Hafi Gud fyrirgéfid þér margar syndir, þá vit ad þér er þess vandara. Þeink á þann tíma, hvørsu ad syndin var þér óbærilig, ádur enn Gud huggadi þig med Evangelío, hún mun þó betur býta, ef þar kynni ad koma, ad hann yrdi fyrir alvøru reidur. Slöckvid ecki Heilagan Anda, segir Páll Postuli, 1. Tess. 5. Gjæt ad því, syndugur madur, því kannské hann verdi ecki svo hægt aptur ad kveikja. Sjá, nú ertu heilbryggdur sagdi Jesús vid þann, sem hann læknadi vid dýkid Bethesda, syndga nú ei framar, ad ei hendi þig annad verra, Jóh. 5. Þú hefir eitt sinn legid vid dýki Guds nádar, og Engill hins mikla ráds hefir svo hrært þad, ad þér vard til andligrar heilsubótar. Sjá til ad þú ecki aptur missir heilsuna og verdir svo ad kvarta um med þessum manni, þad þú aungvann fáir sem ad kasti þér í dýkid, þegar Jesús er frágenginn. Hafi hann eitt sinn útrekid Djøfulinn frá þér, þá gjalt varhuga vid, ad ei hverfi Satan aptur, og taki sjø anda sér verri, og verdi svo þitt hid sídara, argara hinu fyrra, Lúc. 11. Nú hefi eg svo med fám ordum sagt, brædur mínir, hvílíkt ad sé þad Evangelíum, sem fátækum bodad verdur. Þennan veg géck Jesús til ad leita ad þeim, sem annadhvørt harmþrúngnir voru. og sundurkramdir í mótlætinu, edur særdir og lemstradir af tilfinníngu syndanna. Hann hafdi ecki mørg ord vid hina bersyndugu í Símons húsi, hann tók ordalaust hennar forsvar á hendur, og sagdi: Ad henni fyrigjæfust hennar mørgu syndir, af því hún elskadi mikid, Lúkas 7. Hann skipti ecki mørgum ordum vid hina blódfallssjúku, er géck bak til vid hann, og snerti fald hans klæda, hann sagdi alleina, vertú hughraust mín dóttir, þín trúa gjørdi þig heilbrigda, Matth. 9. Hann hafdi og ecki lángordt vid hinn limafallssjúka, er þeir létu síga ofan af þakinu nidur fyrir hans blessadar fætur,

hann reisti hann strax upp med þessu huggunar ordi: Vertú hughraustur sonur, þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, Matth. 9. Hann átaldi ei stórum hór=konuna, til hvørrar hann sagdi: Kona, hefir nockur fordæmt þig? En hún kvad nei vid; þá sagdi hin eylífa gjæska: svo fordæmi eg þig ecki heldur, far burt og syndga nú ei framar, Jóh. 8. Enginn er þvílíkur Guds velgjørníngur, af øllum þeim fjølda sem hans fødurlig nád hefir tjád syndugum mønnum sem þessi, enginn húngradur verdur svo feginn ad eta, enginn þyrstur ad drecka, enginn nakinn ad klædast, enginn þreyttur ad hvílast, enginn útlægur ad ná lands=vistum aptur, enginn sjóhrakinn landinu, enginn sjúkur batanum, enginn þræll frelsinu, enginn fjøtradur lausninni, svo sem fátækur verdur Evangelío, og einn syndari sem einskis von á nema eylífra Helvítis písla, svo sem hann verdur því feginn segi eg, ad Guds nádar ljós skýn í hans hjarta, svo ad hann sér med trúarinnar augum, ad hans syndir kvittar eru. O! Herra Jesú Christí, þú saklausa lamb Guds, sem burtuber allar veraldarinnar syndir, kénn þú oss ad þeckja vorn óverdugleik, drag þú skýluna frá vorum døpru augum, svo ad vér mættum sjá vora blygdan, straffa þú syndina í oss, med sannri ydran og ángri hjartans fyrir allt þad illa, sem vér frá barnæsku vorri høfum drýgt á móti þér, og þá vér erum svo nidurslegnir í hjørtum vorum, og þín voldugа hønd er oss svo sterk ordin, þá rétt oss aptur þína nádar=hønd, ad vér ei søckvum í djúp ørvæntíngarinnar, heldur forlátum oss þar uppá, ad þú sért oss af Gudi géfinn til réttlætis, til helgunar og eylífrar endurlausnar, 1. Cor. 1. Bænheyr þad Herra fyrir þína forþénustu, a m e n!

# Fjorda Sunnudag í Adventu.

Gudspjallid, Jóh. 1 Cap.

Á þeim tíma. Gydíngar sendu af Jerúsalem Presta og Levíta, ad þeir skyldu spyrja hann ad, hvør ert þú? Og hann medkéndist og neitadi því ecki. Og hann medkéndist, segjandi: Eigi em eg Christur. Og þeir spurdu hann ennþá ad, hvad þá? Ert þú Elías? Hann sagdi, ei em eg. Ert þú þá spámadur? Og hann svaradi nei, ecki. Þá søgdu þeir vid hann. Hvør ert þú þá? svo ad vér meigum andsvar géfa þeim er oss útsendu. Hvad segir þú af sjálfum þér? Hann sagdi: Eg em hrópanda rødd í eydimørku, greidi þér gøtu Drottins, svo sem sagdi Esajas spámadur. Og þeir sem út vorn sendir, voru af Phariseis. Og þeir spurdu hann ad, og søgdu til hans: Því skírir þú þá, fyrst þú ert ecki Christur, eigi Elías, og eigi spámadur? Jóhannes svaradi þeim og sagdi: Eg skíri í vatni, en sá stód í midid hjá ydur, hvørn þér þeckt-ud eigi; hann er sá sem eptir mig mun koma, hvør ed var fyrir mig, hvørs skóþvengi eg em ei verdugur upp ad leysa. Þetta skédi í Bethabara, hinumegin Jórdanar, þar sem Jóhannes skírdi.

## Exordium.

Í þessu heilaga Evangelío er tvent sem þarf ad athuga. Þad eina ad Jóhannes segist ecki Elías vera, en Jesús segir þó um hann, Matth. 11. Ef þér viljid þad medtaka, þá er hann Elías sá ed koma skal, og hjá Matthæum segir hann, ad Elías kominn sé, Matth. 17. Þad er annad, ad hann neitar því, ad hann sé spámadur, en hans fadir Zacharías segir þó um hann, Lúc. 1. Og þú sveinn munt kallast spámadur hins hædsta. Þetta sýnist hvørt ødru gagnstædt vera, en þess byrjar ad gjæta, sem St. Petur segir, ad spádómarnir eiga ecki út ad leggjast eptir eigin þøtta, því þeir eru ecki ad mannligum vilja til vor komnir, heldur hafa Guds heilagir menn tilknúdir af Heiløgum Anda talad, 2. Pet. 1. Og því er einginn vegur betri edur beinni til ad leggja þá út, heldur enn sjálf Ritníngin. Hjá Malachíam Cap. 4. segir Andi Guds, sjá eg mun senda Eljam spámann til ydar, ádur enn kémur sá mikli og hrædiligi dagur Drottins. Sá Elías er nú Jóhannis í raun og sannleika; hann géck undan Guds fólki í anda og krapti Elíæ, svo sem Engillinn spádi, Lúc. 1. Elías var einn strángur vandlætari í Guds stad. Jóhannes var og ydranar predikari. Elías sagdi hinum ógudliga Achab konúngi til synda sinna, 1. Reg. 21. Jóhannes átaldi Heródem konúng, Matth. 14. Elías upprætti ad miklu leiti afgudadýrkunina úr Jsrael, 1. Reg. 18. Um Jóhannem segir Frelsarinn, Matth. 17. ad hann muni vidrétta alla hluti. Elías bodadi hinn sanna Gudsveg, 1. Reg. 19. Jóhannes kom med veg réttlætisins, Matth. 21. Um Elíam er spád, Malach. 4. ad hann muni snúa hjørtum fedranna til barnanna, og barnanna til fedranna, og þann sama spádóm þýdir Engill Drottins uppá Jóhannem, Lúc. 1. Og ad menn ecki efist um þad, ad Jóhannes sé Elías sá ed koma átti, þá skrifar Matth. 17. Ad þegar lærisveinarnir sáu á fjallinu Elíam og Mósen tala vid Jesúm, er hann forkláradist, þá hafi hann bannad þeim ad segja þá sýn nockrum, fyrr enn hann væri upprisinn, en þeir svørudu: Pharisæi segja ad Elías eigi ádur ad koma; en hann sagdi: Elías á ad sønnu ad koma og lagfæra alla hluti. En eg segi ydur, ad Elías er allareidu kominn, en þeir þecktu hann ecki, heldur gjørdu vid hann hvad þeim líkadi. Svo mun og Mannsins Sonur verda píndur af þeim, þá skyldu lærisveinarnir ad hann taladi vid þá um Jóhannem, segir Matthæus Svo er nú Jóhannes sá rétti Elías, sem koma átti; en þó ecki einn og hinn sami Elías Thesbiter; og svo sem Guds Andi segir, Hós. 3. Ad þeir muni leita síns konúngs Davíds, sem þó er ei annad enn Christur, svo heitir Jóhannes hér Elías, jafnvel þótt hann ecki Elías væri. Í ødru lagi neitar Jóhannes því, ad hann spámadur sé. Hér byrjar ad athuga, ad Gydíngar hafa án efa verid í þeirri villu, ad Gud mundi ecki einasta senda Elíam Thesbiter í eigin persónu til þeirra, heldur og einn annan spámann, líkann Mósi, hvad þeir dregid hafa af sjálfs Mósis ordum, Devt 18. Er hann sagdi: Spámann mun Gud ydur uppvekja af brædrum ydar, líkann mér, hønum skulud þér heyra. Hvør ord alleina eiga um Drottinn Jesúm ad skiljast; svo sem St. Petur þad útleggur, Act. 3. Þad má og ráda af ordum fólksins, er sagdi um Jesúm: Jóh. 6. Þessi er sannarliga sá spámadur, sem í heiminn koma skal, eda hvad er þad annad, sem stendur, Maccab. 14. Ad Gydíngum og kennimønnum sýndist ad Símon skyldi vera þeirra hertogi æfinliga, þar til sá vissi spámadur kjæmi. 1. Maccab, 14? Vilji menn og grandvarliga athuga spurn Gydínga, þá er hún þann veg: Ertú sá spámadurinn? Hvad talad sýnist um einhvørn vissann spámann, sem þeir væntu eptir; en svo sem Jóhannes því réttiliga neitadi, ad hann væri Elías eptir þeirra meiníngu; svo kvad hann og nei vid hinu med øllum rétti, ad hann sá spámadur væri, sem þeir eptir væntu, jafnvel þótt hann væri spámadur hins Hæsta, svo sem hans fadir Zacharías ádur sagt hafdi, og meir enn nockur spámann ad Christi vitni, Matth. 11. Og er þetta ad segja um persónu Jóhannis. En af hans andsvørum, eigum vér kristiliga hógværd ad læra. Hvar um eg framvegis tala vil. Þar til styrki Guds gódur Andi fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Hid fyrsta andsvar Jóhannis, er hann gaf sendimønnum Gydínga, er þetta: Eigi em eg Christur. Spurn þeirra var þann veg. Hvør ert þú? Og sýnist svo sem hann hafi

ei viljad bída eptir því, ad þeir spyrdu hann ad, hvørt hann Christur væri, því hann hefir án efa vitad, ad þesshattar mundi erindid vera; þarfyrir fortekur hann þad strax, og segir: Eigi em eg Christur, og má þar af sjá, hvørsu ant hønum hefir þar um verid, ad enginn skyldi svo mikla hluti um sig þeinkja, hvar fyrir hann gétur og ecki bundist sídar í Gudspjallinu, ad tala svo storinordt hér um, ad allir skilja mættu, er hann segir: Sá stód í midid hjá ydur, hvørn þér þecktud eigi, hann er sá sem eptir mig mun koma, hvør og fyrir mig var, hvørs skó-þveingi eg em ei verdugur upp ad leysa. Gudspjallamadurinn sem þetta ritar, hann hefir svo mørg ord hérum, segjandi: Hann medkéndist og neitadi því ecki, og hann medkéndist, og sagdi: Ei em eg Christur. Og er þad audsært þaraf, ad hann hefir á allar lundir viljad gyrda fyri þad, ad einginn skyldi þvílíkar øfgar í hug sér leida. Þann veg hafa allir Guds elskendur lyndir verid, ad þeir hafa fyrirordid sig, þá þeir á einhvørn hátt hafa ordid annadhvørt ad nálægjast Gud, edur og ad þeirra hefir undir eins gétid verid og hins stóra Konúngs, sem øllu rædur bædi á himni og jørdu. Heiløgum Jóhanni var þetta næsta ættgengt ad blygdast fyrir sínum Gudi og Skapara. Þegar Guds módir María heimsókti módur hans Elisabeth frændkonu sína, er hún var ólétt ad hønum, þá fagnadi hún henni á þennan hátt: Hvadan kémur mér þad, ad módir Drottins míns kémur til mín? Lúc. 1. eins var sjálf María skapi farin, er hún sagdi til Engilsins: Eg em ambátt Drottins, verdi mér eptir ordi þínu. Abraham vissi ei hvad hann átti af sér ad gjøra, þegar Drottinn virdti hann vidtals, því sagdi hann: Eg vildi nú gjarnan tala vid Drottinn Gud, þótt eg sé dupt og aska, Gen. 18. Eg vil ei þar um tala, hvørsu Postular Drottins vørdust allri þeirri lotníngu, er adrir syndugir menn vildu veita þeim, þá þeir kéndu Jesúm, edur gjørdu kraptaverk í hans nafni. Þegar Cornelíus féll til fóta Péturs, þá reisti Postulinn hann jafnskjótt á fætur, og sagdi: Statt upp, eg er einnin madur, Act. 10. Þegar fólkid í Lystris sagdi ad Gudirnir væru mønnum líkir ordnir, og til þeirra ofankomnir, Act. 14. af því ad Páll reisti þann á fætur med einu ordi, er fót-hrumur var frá módur-lífi, og vildu hafa fært hønum og Barnabæ fórnir, þá sundur-rifu þeir sín klædi, stuckú inn í mannþraungina, hrópudu og søgdu: Þér menn! hvar fyrir gjørid þér þetta, vid erum menn, sama breiskleika og þér undirorpnir. Já, ecki einasta Guds heilagir menn og ástvinir hafa þann veg blygdast fyrir Gudi, sem meir enn skyldugt er, heldur og hafa hans voldugu Englar hid sama gjørt. Þad má medal annara lesa, Apoc. 19. Þegar Engillinn taladi vid Jóhannem, þá skrifar hann á þennan hátt: Og eg féll fram fyrir hans fætur ad tilbidja hann, og hann sagdi vid mig: Sjá ad þú gjørir ei þetta, eg em þinn medþénari og brædra þinna, þeirra er hafa vitnisburdinn Jesú, tilbid þú Gud. Hafi nú Guds heilagir menn og Postular, hafi Jóhannes Bapista, um hvørn Sannleiks-munnurinn vitnar, ad enginn sé meiri af kvinnunni fæddur, Matth. 11. hafi hans blessud módir, sem hina mestu tign hefir af Gudi þegid allra syndugra manna, sem bornir eru í þennan heim, hafi Guds heilagir Englar, sem eru aldeilis án syndar, hafi þessir, segi eg, svo audmýkt sig fyrir hans hátign og veldi, hvad miklu framar byrjar þér þá syndugur ormur, ad audmýkja þig undir volduga Guds hønd, sem allur ert í synd,

# Exordium.

Í þessu heilaga Evangelio er tvent sem þarf ad athuga. Þad eina ad Jóhannes segist ecki Elías vera, en Jesús segir þó um hann, Matth. 11. Ef þér viljid þad medtaka, þá er hann Elías sá ed koma skal, og hjá Matthæum segir hann, ad Elías kominn sé, Matth. 17. Þad er annad, ad hann neitar því, ad hann sé spámadur, en hans fadir Zacharías segir þó um hann, Lúc. 1. Og þú sveinn munt kallast spámadur hins hædsta. Þetta sýnist hvørt ødru gagnstædt vera, en þess byrjar ad gjæta, sem St. Petur segir, ad spádómarnir eiga ecki út ad leggjast eptir eigin þótta, því þeir eru ecki ad mannligum vilja til vor komnir, heldur hafa Guds heilagir menn tilknúdir af Heiløgum Anda talad, 2. Pet. 1. Og því er einginn vegur betri edur beinni til ad leggja þá út, heldur enn sjálf Ritningin. Hjá Malachíam Cap. 4. segir Andi Guds, sjá eg mun senda Eljam spámann til ydar, ádur enn kémur sá mikli og hrædiligi dagur Drottins. Sá Elías er nú Jóhannis í raun og sannleika; hann géck undan Guds fólki í anda og krapti Elíæ, svo sem Engillinn spádi, Lúc. 1. Elías var einn strángur vandlætari í Guds stad. Jóhannes var og ydranar predikari. Elías sagdi hinum ógudliga Achab konúngi til synda sinna, 1. Reg. 21. Jóhannes átaldi Heródem konúng, Matth. 14. Elías upprætti ad miklu leiti afgudadýrkunina úr Israel, 1. Reg. 18. Um Jóhannem segir Frelsarinn, Matth. 17. ad hann muni vidrétta alla hluti. Elías bodadi hinn sanna Gudsveg, 1. Reg. 19. Jóhannes kom med veg réttlætisins, Matth. 21. Um Elíam er spád, Malach. 4. ad hann muni snúa hjørtum fedranna til barnanna, og barnanna til fedranna, og þann sama spádóm þýdir Engill Drottins uppá Jóhannem, Lúc. 1. Og ad menn ecki efist um þad, ad Jóhannes sé Elías sá ed koma átti, þá skrifar Matth. 17. Ad þegar lærisveinarnir sáu á fjallinu Elíam og Mósen tala vid Jesúm, er hann forklároadist, þá hafi hann bannad þeim ad segja þá sýn nockrum, fyrr enn hann væri upprisinn, en þeir svørudu: Pharisæi segja ad Elías eigi ádur ad koma; en hann sagdi: Elías á ad sønnu ad koma og lagfæra alla hluti. En eg segi ydur, ad Elías er allareidu kominn, en þeir þecktu hann ecki, heldur gjørdu vid hann hvad þeim líkadi. Svo mun og Mannsins Sonur verda píndur af þeim. Þá skyldu lærisveinarnir ad hann taladi vid þá um Jóhannem, segir Matthæus Svo er nú Jóhannes sá rétti Elías, sem koma átti; en þó ecki einn og hinn sami Elías Thesbiter; og svo sem Guds Andi segir, Hós. 3. Ad þeir muni leita síns konúngs Davíds, sem þó er ei annad enn Christur, svo heitir Jóhannes hér Elías, jafnvel þótt hann ecki Elías væri. Í ødru lagi neitar Jóhannes því, ad hann spámadur sé. Hér byrjar ad athuga, ad Gydingar hafa án efa verid í þeirri villu, ad Gud mundi ecki einasta senda Elíam Thesbiter í eigin persónu til þeirra, heldur og einn annan spámann, líkann Mósi, hvad þeir dregid hafa af sjálfs Mósis ordum, Devt 18. Er hann sagdi: Spámann mun Gud ydur uppvekja af brædrum ydar, líkann mér, hønum skulud þér heyra. Hvør ord alleina eiga um Drottinn Jesúm ad skiljast; svo sem St. Petur þad útleggur, Act. 3. Þad má og ráda af ordum fólksins, er sagdi um Jesúm: Jóh. 6. Þessi er sannarliga sá spámadur, sem í heiminn koma skal, eda hvad er þad annad, sem stendur, Maccab. 14. Ad Gydingum og kénnimønnum syndist ad Símon skyldi vera þeirra hertogi æfinliga, þar til sá vissi spámadur kjæmi. 1. Maccab, 14? Vilji menn og grandvarliga athuga spurn Gydínga, þá er hún þann veg: Ertú sá spámadurinn? Hvad talad sýnist um einhvørn vissann spámann, sem þeir væntu eptir; en svo sem Jóhannes því réttiliga neitadi, ad hann væri Elías eptir þeirra meiníngu; svo kvad hann og nei vid hinu med øllum rétti, ad hann sá spámadur væri, sem þeir eptir væntu, jafnvel þótt hann væri spámadur hins Hæsta, svo sem hans fadir Zacharías ádur sagt hafdi, og meir enn nockur spámann ad Christi vitni, Matth. 11. Og er þetta ad segja um persónu Jóhannis En af hans andsvørum, eigum vér kristiliga hógværd ad læra. Hvar um eg framvegis tala vil. Þar til styrki Guds gódur Andi fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Hid fyrsta andsvar Jóhannis, er hann gaf sendimønnum Gydínga, er þetta: Eigi em eg Christur. Spurn þeirra var þann veg. Hvør ert þú? Og sýnist svo sem hann hafi

ei viljad bída eptir því, ad þeir spyrdu hann ad, hvørt hann Christur væri, því hann hefir án efa vitad, ad þessháttar mundi erindid vera; þarfyrir fortekur hann þad strax, og segir: Eigi em eg Christur, og má þar af sjá, hvørsu ant hønum hefir þar um verid, ad enginn skyldi svo mikla hluti um sig þeinkja, hvar fyrir hann gétur og ecki bundist sídar í Gudspjallinu, ad tala svo skorinordt hér um, ad allir skilja mættu, er hann segir: Sá stód í midid hjá ydur, hvørn þér þecktud eigi, hann er sá sem eptir mig mun koma, hvør og fyrir mig var, hvørs skó-þveingi eg em ei verdugur upp ad leysa. Gudspjallamadurinn sem þetta ritar, hann hefir svo mørg ord hérum, segjandi: Hann medkéndist og neitadi því ecki, og hann medkéndist, og sagdi: Ei em eg Christur. Og er þad audsært þaraf, ad hann hefir á allar lundir viljad gyrda fyri þad, ad einginn skyldi þvílíkar øfgar í hug sér leida. Þann veg hafa allir Guds elskendur lyndir verid, ad þeir hafa fyrirordid sig, þá þeir á einhvørn hátt hafa ordid annadhvørt ad nálægjast Gud, edur og ad þeirra hefir undir eins gétid verid og hins stóra Konúngs, sem øllu rædur bædi á himni og jørdu. Heiløgum Jóhanni var þetta nærsta ættgengt ad blygdast fyrir sínum Gudi og Skapara. Þegar Guds módir María heimsókti módur hans Elísabeth frændkonu sína, er hún var ólétt ad hønum, þá fagnadi hún henni á þennan hátt: Hvadan kémur mér þad, ad módir Drottins míns kémur til mín? Lúc. 1. eins var sjálf María skapi farin, er hún sagdi til Engilsins: Eg em ambátt Drottins, verdi mér eptir ordi þínu. Abraham vissi ei hvad hann átti af sér ad gjøra, þegar Drottinn vyrdti hann vidtals, því sagdi hann: Eg vildi nú gjarnan tala vid Drottinn Gud, þótt eg sé dupt og aska, Gen. 18. Eg vil ei þar um tala, hvørsu Postular Drottins vørdust allri þeirri lotníngu, er adrir syndugir menn vildu veita þeim, þá þeir kéndu Jesúm, edur gjørdu kraptaverk í hans nafni. Þegar Cornelíus féll til fóta Peturs, þá reisti Postulinn hann jafnskjótt á fætur, og sagdi: Statt upp, eg er einnin madur, Act. 10. Þegar fólkid í Lystris sagdi ad Gudirnir væru mønnum líkir ordnir, og til þeirra ofankomnir, Act. 14. af því ad Páll reisti þann á fætur med einu ordi, er fót-hrumur var frá módur-lífi, og vildu hafa fært hønum og Barnabæ fórnir, þá sundur-rifu þeir sín klædi, stucku inn í mannþraungina, hrópudu og søgdu: Þér menn! hvar fyrir gjørid þér þetta, vid erum menn, sama breiskleika og þér undirorpnir. Já, ecki einasta Guds heilagir menn og ástvinir hafa þann veg blygdast fyrir Gudi, sem meir enn skyldugt er, heldur og hafa hans voldugu Englar hid sama gjørt. Þad má medal annara lesa, Apoc. 19. Þegar Engillinn taladi vid Jóhannem, þá skrifar hann á þennan hátt: Og eg féll fram fyrir hans fætur ad tilbidja hann, og hann sagdi vid mig: Sjá ad þú gjørir ei þetta, eg em þinn medþénari og brædra þinna, þeirra er hafa vitnisburdinn Jesú, tilbid þú Gud. Hafi nú Guds heilagir menn og Postular, hafi Jóhannes Bapista, um hvørn Sannleiks-munnurinn vitnar, ad enginn sé meiri af kvinnunni fæddur, Matth. 11. hafi hans blessud módir, sem hina mestu tign hefir af Gudi þegid allra syndugra manna, sem bornir eru í þennan heim, hafi Guds heilagir Englar, sem eru aldeilis án syndar, hafi þessir, segi eg, svo audmýkt sig fyrir hans hátign og veldi, hvad miklu framar byrjar þér þá syndugur ormur, ad audmýkja þig undir volduga Guds hønd, sem allur ert í synd,

og ecki eitt augnablik lifir án syndar í hans augliti; hafi Sonurinn gjørst Fødurnum hlýd-
inn allt til daudans, já, allt til krossins dauda, Phil. 2. ef St. Páll, 1. Cor. 15. segir,
ad á sídasta degi, þegar hann afhendir ríkid Gudi og Fødur, þá muni hann (þó eptir mann-
dóminum) undirgéfinn verda hønum, sem alla hluti gjørdi hønum undirgéfna; ættir þú þá
ecki ad skammast þín ad standa upprettur í hans augliti, þú sem optsinnis ert óhlýdugur,
þverbrotinn, tómlátur, og forsmáir hans miklu miskunsemi, sem dagliga er ný og fersk yfir
þér á hverjum morgni, Thren. 3. Hvar fyrir hafa Guds heilagir svo audmýkt sig fyrir
Gudi? Því þeir elskudu hann. Því hafa þeir hann elskad? Því þeir þecktu hann. Því
þecktu þeir hann? Því þeir lærdu fyrst ad þeckja sjálfa sig. Hvad þecktu þeir hjá sjálf-
um sér? Eckert nema eymd og volædi. Hvad hjá Gudi? Eckert nema dýrd og vegsemd.
Gjør slíkt hid sama, og muntu finna, hversu ad þú ert minna enn eckert í Guds augliti.
Ber þig saman vid hann, þótt nockud ólíkt sé saman ad bera, og nærsta sundurleitt, gjør
þad þó, því slíkur samburdur mislíkar hønum ecki, ef hann mætti duga þér til ad kannast
vid eymd þína og hans dýrdarfullu hátign, hverja þó daudligur madur aldrei kann ad
þeckja svo sem hún er. Júdar spurdu Jóhannem ad, hvør ert þú? Ef þú spyr ad hvør Gud
sé, þá verdur ei svarad, nema med hans egin ordum: Gud er einn andi, Jóh. 4. þó ecki
svo sem adrir andar, heldur fadir andanna, Hebr. 12. og svo dýrdligur, ad hønum má
vid eingann hlut samlíkja, Esa. 40. Um hann verdur ei nær komist ad tala, enn med þeim
ordum, er undir eins medkénna fáfrædi vora til ad útmála hans dýrd, sem er: ad hún sé
ómælanlig, óendanlig, óransakanlig og óútsegjanlig. En spyr sjálfann þig ad, hvad ert
þú? Í fyrstunni eckert, og sídan leir jardar, sem Gud skóp hinn fyrsta mann af, Gen. 2.
Gud er eylífur, sá sem er, og sá sem var, og sá sem koma mun, Apoc. 1, en hvør ert þú?
nockurskonar gufa, er sést um hríd, en hverfur sídan, Jak. 4. Gud er ómælanligur, hann
uppfyllir bædi himin og jørd. Þad vottar Zophar af Naema, segjandi: Job. 11. Muntú
med huganum géta komist ad stærd hins Almáttuga, hann er hærri enn himininn, og djúp-
ari enn Helvíti. En hvør ert þú? Mæl sjálfann þig, sem ert fárra fóta lengd, og megn-
ar ecki med allri þinni áhyggju ad auka einni alin þar vid, Matth. 6. Gud er alvitur,
allir hlutir eru berir og naktir fyrir hans augum, Hebr. 4. En hvør ertú? Þú veitst ecki
hvad á morgun mun ské, Jak. 4. Gud er almáttugur, hjá honum er eingin hlutur ómátt-
ugur, Lúc. 1. En hvør ert þú? Þú formátt ecki ad gjøra eitt hvítt hár svart á þínu høfdi,
Matth. 5. Drottinn er réttlátur og gódur, segir Davíd, Ps. 25. Og svo sem hann er
í sjálfum sér, svo er hann í sínum verkum. En hvør ert þú? Þínir þánkar eru vondir
í frá upphafi, Gen. 8. og svo eru þín verk, því þar er einginn sá ed gott gjøri, og ecki einn,
Ps. 14. Gud er sannordur, øll hans bodord eru sannleiki, segir Davíd, Ps. 119. Ef vér ótrúir
erum, þá er hann trúr, sjálfum sér kann hann ecki ad neita, segir Páll, 2. Tim. 2. En
hvør ertú? Spyr St. Pál ad, hann mun svara þér, Róm. 3. Verdi Gud sannordur, en
allir menn lygarar. Hvad vyrdist þér nú syndugur madur? Muntú ecki, þegar þú svo
heldur reikníng milli Guds og þín, munt þú ecki (segi eg) fulla orsok hafa til ad skammast
þín fyrir hans augliti, sem þér svo miklu mátkari, miklu ædri, miklu betri, miklu réttlátari
er, og í einu ordi ad segja, hjá hvørjum þú ert minna enn ecki neitt ad reikna, og fyrir ut-

an allt þetta, þá hefir hann þig svo aumann, svo fáráðann, svo vondann og ónóganu sjálfsum þér um alla hluti upp úr þreckuum hafið, og sett þig í síns Sonar riki, Col. 1. En lítil-læckað hann, og gjört þér að öllu samlíkann, Hebr. 2. að því einu undanteknu er hann var straffaður fyrir, en þú ert frelsaður frá, sem er syndin, Hebr. 5. Fyrir hvörja hann er deyddur, en þú fékkst lífgjöf fyrir hans dauða. Því skyldir þú þá aumastur allra skapaðra hluta Guðs á jörðunni, skyldir þú (segi eg) stæra þig eður metnast í hjarta þínu, svo sem værir þú nockuð, fyrir utan Guð, og ei miklu heldur með auðmýkt þíns hjarta, þacka honum þess inniligar, sem hann hefir gefið þér meira vit á að þeckja það, og meira til þín lagt enn allra annara. Einn Guðs Engill hefir honum meira að þacka fyrir hinn minsta dropa hans gjæsku, er hann hefir til hans lagt, heldur enn allar skynlausar skepnur, fyrir öll náttúrunnar gjæði og sköpun allra hluta. En þú syndug manneskja hefir meira af honum þegið í hinum minsta náðar-mola andligra gjæða, heldur enn allar Englanna hersveitir í öllu því sem öllum þeim er tillagt, hvar fyrir? Því að, til þess, að þú lifa skyldir fyrir náð Guðs, hefir hann látið Son sinn, ecki Englanna, heldur Abrahams sæði uppá sig taka, Hebr. 2. og gjört þitt hold sem hann uppá sig tók Englunum svo miklu æðra, sem hann hefir framar þeim æðra nafn öðlast, Hebr. 1. og látið hinn lifanda Guð í mannligu holdi deya mannligum dauða, svo þú mættir guðligu lífi lifa; því hefir hann svo miklu meira til þinnar upphefðar unnið enn til Englanna, sem Jesúm hans Son hefir meira kostað að endurskapa þig, heldur enn alla Englana að skapa, fyrir því áttu honum svo miklu meira að þakka enn þeir, sem hann hefir meira uppá þig kostað, en hvar með viltú honum þacka? Ekki etur hann kjöt hafranna, eður dreckur blóð hinna feitu uxanna, Ps. 50. Offra honum lofgjörðinni, og gjallt honum þín heit, það er auðmjúkur andi og sundurkramið hjarta, hvört hann mun ecki fyrirlíta, Ps. 51. Þú kant að segja: eg jafna mér ei saman við Guð, ei hef eg mig upp ámóti honum, eg veit eg á honum allt gott að þacka, og ef hann vill dóm halda við mig, þá hefir hann vald til að kasta lífi og sálu í eylífann eld, Matth. 10. Þú segir vel, því allt þetta er meira enn satt, en rannsaka hjarta þitt vel, hvört hugur hefir altíð fylgt máli, hefir þú auðmýkt þig svo fyrir þínum Guði sem byrjað hefir bæði með orði og verki? Ef hann er þinn faðir, hvar er þá hans heiður? Gjæt að því Jesús segir, Matth. 21. um þann son, er faðirinn skipaði að erfiða í víngarðinum, og hann kvað já við, en fór þó hvörgi; það er ei nóg að nálægjast hann með vörunum, ef hjartað er lángt þar frá. Vér segjumst allir eiga að elska Guð fram yfir alla hluti, og það er það sanna auðmýktar-merki að elska hann; en Guð náði hvörnin það efnt er, þar vér látum oss á stundum alla hluti skyldari vera enn hans dýrð. Þegar holdið og Andskotinn freista þín til syndarinnar, en þér kémur þá í hug að Guð hafi það bannað, samt hlýðir þú holdinu í þess gyrndum, og lætur syndina í því drottna. Róm. 6. Er það ecki að upphefja sig á mót Guði, og meta framar þess munað enn hans boðorð? Hvörjir erum vér þá á meðan? Ecki Guðs þjónar, heldur þrælar syndarinnar, því hvör hann syndina æfir, hann er þræll syndarinnar, segir Jesús, Jóh. 8. Vér eigum að hræðast og skélfast hans ógurliga nafn, en menn vanbrúka það ástundum, til að ljúga, stela og svíkja. Hvörjir erum vér þá? Þeir að vísu, fyrir hvörra skuld Guðs nafn lastað verður meðal heiðíngjanna, Róm. 2. Vér seg-

jumst vera skyldugir ad hlýda hans ordi, og gjøra þar eptir, en menn daufheyrast þar vid, sit ja undir einni predikun hyrdulausir, og gánga þadan ávaxtarlausir og sumum má valla þáng-ad koma, sem þad er um hønd hast. Hvad erum vér þá? Forgleymanligir tilheyrendur, en ei gjør-endur ordsins, Jak. 1. Í krossi og mótgángi sest allra-best audmýktin fyrir Gudi. Sá audmýkir sig réttiliga undir hans voldugu hønd, er kyssir á vønd Drottins med þakklæti, því hann er hans sannur lærisveinn; en þar vill ástundum næsta mikid afbera, þar menn eru óþolinmódir undir Drottins krossi. Sumir skjóta sér undan hans sæta oki á allar lundir med óleyfiligu móti og leita þeirra bragda, er Gud bannad hefir. Er slíkt ad audmýkja sig fyrir Gudi? Fjærri fer því. Hvørjir erum vér þá? Líkir þeim er lída svo sem þjófar og mordíngjar, edur þeir sem falla inn í annars embætti, 1. Pet. 4. Því hvar er vor audmýkt fyrir Gudi, ef vér viljum ekkert þola hans vegna, og svo sem vér erum nú skyldugir á allar lundir ad audmýkja oss fyrir Gudi vorum skapara, svo vill hann og ei heldur ad vér skulum forsmá vora brædur í heiminum, því hvør hann segist elska Gud, en hatar sinn bródur, hann er ljúgari segir Jóhannes, því ef hann ekki elskar sinn bródur, hvørn hann sér, hvørnin má hann Gud elska, þann hann sér ekki, 1. Jóh. 4. Nú er ekkert verk-færi kjærleikans handhægra enn lítilætid, því þad verdur af øllum elskad, og med því dreg-ur kjærleikurinn alla til sín, þá sem ekki kjærleikann hata; þess vegna segir Pálus um dygd þessa: Kjærleikurinn er ekki mikilátur, hann þýtur ei upp, hann leitar ekki eptir því sem hans er. 1.Cor.13. Og søkum þess ad hann vissi, ad lítilætid var band kjærleikans, þá bidur hann kristnum mønnum, ad þeir hafi hvør annan sér í vyrdíngum ædra, Phil. 2. Svo hefir og Jesús látid øllum sínum lærisveinum þad bodord eptir: hvør sem vill stór vera ydar á milli, hann sé hinna þénari, Matth. 20. Hefdi Jóhannes verid ágjarn hé-góma dýrdar, þá hefdi hann ekki neitad því ad hann Elías edur spámadur væri, þar hann mátti þó hvørutveggja um sig játa, þvíad þad eina vitnar Christur, Matth. 11. um hann, en annad hans fadir Zacharías, Lúc. 1. sem ádur er sagt, og allt fólkid helt hann fyrir spá-mann, Matth. 21. en hann vildi á móti hvørugu taka, svo hann gjæfi Gudi einum dýrd-ina; ekki ólíkur í þessu sínum Herra, hvørs Engill hann var, Mal. 3. hvør þá hann var af hinum Skriftlærda kalladur gódi meistari, svaradi hann: Hvad kallar þú mig góð-ann? Enginn er gódur nema Gud einn, Marc. 10. Ekki neitadi Herrann því, ad hann gódur væri, vildi þó ekki þiggja þann titil af hans munni, er hann svo kalladi eptir sínum þánka, þad er eins gódann og Pharisæi voru, hvørja fólkid kalladi góda, af því þeir gáfu svo miklar ølmusur, en Sadúceos réttláta, af því þeir gáfu ekkert eptir, tóku ei heldur neitt rángliga frá neinum, hvar til St. Páll sýnist líta, Róm. 5. er hann seigir, ad valla muni finnast nockur sá ed fyrir réttlátann deyr, því kannské einhvør findist sá ed dæi fyrir hinn góda. Þann veg forsmádi Christus og hans Engill Jóhannes fánýta virdíngu heims þessa, og ei var St. Páll ødruvís lyndur er hann segir: 2. Cor. 12. Ef eg hrósadi mér, þá væri eg þó einginn dári, því eg skal satt segja, en eg hlífist vid þad, svo ad eing-inn þeinki um mig fram yfir þad sem hann sér mig vera, edur heyrir af mér.

Jóhannes segir hér í Gudspjallinu: greidi þér gøtu Drottins. Ord þau eru tekin af Esajæ spádóms-bókar 40. Cap. þar ed svo stendur: Þar er rødd eins hrópanda í eydi-

mørku, greidi þér gøtu Drottins, og gjørid slétta vegu Gudi vorum í óbygdinni. Þegar menn ridja einn veg og gjøra hann færann, taka menn í burtu stór-grýti og allar ójøfnur svo greidt verdi um ad fara. Ofsi og hroki veraldar þessarar eru torfærur þær sem Guds veg hindra í mannsins hjarta; hvadan kémur strid og barátta manna á medal; hvadan kémur øfund og úlfbúd, hvadan vex agg, reidi og þræta, hvadan uppstígur ágyrni og fé-dráttur, hvadan framkémur mord og mannslag, hvadan er þad ad menn tønlast og tiggjast innbyrdis, þar til þeir umsídir mættu verda uppetnir? Zach. 11. Kémur ecki allt því-líkt af hinni bølvudu drambsemi, er Satan innrætir í mannanna hjørtu? Hvørnin á Zíons Konúngur ad rída um slíkann veg, þegar sá Drottnarinn kémur til síns musteris, Mal. 3. sem er mannsins hjarta. Þeir breiddu sín klædi á veginn fyrir hann, þegar hann sídarst innreid til Jerúsalem, og dreifdu kvistum trjánna á hans gøtu; þad var audmýktar og fridarmerki; því á og í burtu ad ryðja stór-grýti drambseminnar og ofstopans af hans leid, ecki med líkamligum verkfærum, heldur med Guds ordi, um hvørt Páll skrifar, 2. Cor. 10. ad vopn hersarar vorrar séu ei líkamlig, heldur krøptug fyri Gudi, nidurbrjótandi hugrenníngarnar, og allar hædir, sem ad upphefjast á-móti Guds þeckíngu. En hvørjar munu þær hædir vera? Þad eru medal annara fjøll drambseminnar, því eckert mótstrídir sannri Guds þeckíngu meir enn þeckíngarleysi síns egin óverdugleika, sem er módir drambseminnar; því segir røddin hrópandans, ad allir dalir skuli upphefjast, og øll fjøll og hálsar nidurþryckjast. Hvad er þad annad enn þad sem Guds módir sýngur í lofkvædinu: Lúc. 1. Dramblátum hrindir hann af stóli, en uppvóf lítiláta. Og þótt ad þessi hrópandans rødd spái sérílagi um Guds nád í Evangelio, og lagfæríng allra hluta fyrir Christum, hvørrar frumkvødull Jó-hannes var, þá má og þad vel heimfæra uppá þetta efni, því fátækum, þad er andliga vol-ødum og audmjúkum í hjarta verda Gudspjøllinn bodud, og þad ecki sízt vegna þeirra orda er hér standa skømmu sídar í þessum 40 Cap. Esaiæ, á þennan hátt: Þar er ein rødd sem segir: Prédika þú, og eg sagdi: Hvad skal eg predika? Allt hold er hey, og allt þess ágjæti svo sem blóm akursins, grasid uppþornar og blómstrid fellur af, þá Andi Drott-ins blæs á þad, já, fólkid er hey. Hvar er þá, segid mér, hvar er þá allt vort atgjørfi, og allt þad menn dramba af í heiminum? Er þad audur og ríkdómur? Fallvalt er þad, og gjørir margann vondann, þad ablast med áhyggju, en tapast med sorg, og nema menn gjøri svo sem Jakob bídur þeim ríku, Cap. 1. ad hrósa sér í sinni lægíngu, þá er þad vol-ædinu verra. Er þad metord og virdíngar? En David segir, ad madurinn blífi þó ecki lengi í heidrinum, Ps. 49. og þrældómur eru þau reyndar. Er þad gøfugt foreldri og af-sprengi? En vér erum þó allir af Adam komnir, hann var útlagi Guds úr Paradís; fyrir hvørja søk, er oss alkunnugt, Gen. 3. Fegurd og prýdi líkamans? Þad er fallvallt, því blómstrid fellur af segir Esajas í 40. Cap. einn sjúkdómur fær því øllu umbreytt, því þegar þú tiptar Drottinn, þá følnar øll þeirra fegurd, Ps. 39. Fagur búnadur og skrautlig klædi? Þad sagdi einn af þeim gømlu, ad væri eins og ef þjófurinn stærdi sig af snørunni. Þróttur og styrkleiki líkamans? En hesturinn er enn þá sterkari, því skyldu menn hann þá ecki virda, en hinn Almáttugi hefir einga lyst á styrkleika hestsins, edur á fótleggjum manns-ins. Hjá Drottni eru þeir allir vel þockadir, sem hann óttast og til hans miskunar vona,

Ps. 147. Hvad er þá framar, sem madurinn kunni svo ad metnast af? Kunnátta og vísdómur er mest tignadur í heiminum, og er hin ágjætasta Guds gjøf, en svo er hann bestur, ad hann sé med Guds ótta kriddadur, þad vottar St. Jakob, segjandi: ef nockur er vís, edur med skynsemi gáfadur medal ydar, þá auglýsi hann verk sín í gódri umgengni med skynsamligu hóglæti, Cap. 3. Og hvad eru allir vorir vitsmunir fyrir utan þetta? Páll segir, ad þeir séu hálfverk, 1. Cor. 13. og hvad meira er, ad þeir eru einskis verdir, og jafnvel skadligir, nema þeim Guds ótti og kjærleikurinn fylgi. Því segir Postulinn enn aptur: 1.Cor. 8. Ef einhvør þykist nockud vita, þá veit hann þó enn-nú eckert, svo sem vita byrjar, en ef nockur Gud elskar, hann er fæddur af hønum. Og þótt ad skynsemin og vitsmunirnir séu ein sú hin besta Guds gáfa, er hans gjæska hefir sæmt oss med, þá verdur henni med drambseminni svo spillt, ad hún verdur óviti argari; því segir Páluss, 1. Cor. 3. eingiun villi sjálfann sig, ef nockur þykist vitur vera medal ydar í øld þessari, hann verdi heimskur svo hann vitur verdi; þar skilst mér Postulinn meini, ad hann skuli gjæta ad hvad lítid hann veit, svo hann stæri sig ecki, því skynsemi veraldar þessarar, segir hann, er heimska hjá Gudi, 1. Cor. 3. Nú þó ad allar þessar Guds gáfur séu harla gódar, ef þær eru rétt brúkadar, þá er samt þess ad gjæta, ad þad er ecki vort eigid, og hann á frjálst, sem þad allt lénti, ad taka þad frá oss á hvørjum tíma, sem vér þad vanbrúkum. Af øllu þessu sjáum vér, hvad lítid ad þad sé, er daudligir menn brúka til stærilætis, gjætandi ecki þess, ad virdíngin elltir þann, sem hana flýr, en flýr fyrir þeim hana eltir, ef ei annarstadar, þá hjá Gudi. Postulinn segir til Gal. 6. ef nockur þykist vera nockud, þar hann er þó eckert, hann villir sitt hjarta, en ef vér eckert erum því vilja menn þá krefja þess, svo sem annarar vita-skuldar, ad vér séum virdtir af mønnum. Ei segi eg þad, ad þeim skuli ei heidur veita er heidur heyrir, Róm. 13. því þad er Guds bod; hitt segi eg, ad þeir sem vid eiga ad taka, skuli ecki una því illa, þótt af slíku megi bera ástundum, því sá sem játar fyrir Gudi, þad hann eckert sé í hans augliti, og þad af alvøru og hræsnislaust, þá sé eg ecki ad hann þurfi meir ad syrgja fyrir virdíngu sinni, heldur enn hinn, sem ekki er enn-nú fæddur. Hjá oss er ekkert gott, því skyldum vér stæra oss?. Hjá oss er margt íllt, því skyldum vér ei skammast vor? Oss kann margt illt til ad falla, því skyldum vér ekki jafnvel hræddir vera? Oss kann sjálfa margt íllt ad henda, því skyldum vér ekki jafnvel hrædast oss sjálfa og leggja af ad forláta oss uppá þad sem ekkert er? Ef vér játum þad fyrir ødrum ad vér ekkert séum, og meinum þad ekki, þá svíkjum vér adra; en ef vér meinum þad og þekkjum þad, sem vér vel megum meina og þekkja, en hegdum oss ekki þar eptir, þá svíkjum vér sjálfa oss. Gud sá sem er allt í øllu, 1. Cor. 15. hann lítil-lækkadi sig þinna vegna, syndugur madur, og þú sem ekki ert neitt í neinu, vilt ekki brjóta odd af oflæti þínu hans vegna; Gud, segi eg enn nú, lítilækkadi sig til ad verda madur, en madurinn vill þó ekki lítil-lækka sig til þess, ad verda einn andi med Gudi. Þess meir sem þú audvirdir þig fyrir Gudi, þess meiri verdur hann i þér, og þess stærri sem hann i þér verdur, þess stærri verdur þú í hønum, þvi Gud mótstendur dramblátum, en litilátum gefur hann nád, segir Jakob, Cap. 4. Og hvad hellst sem stórt edur ágjætt kallast, þad er alleina stórt og ágjætt i Gudi, og fyrir utan hann aldeilis ekkert; hvar fyrir Páll segir: hvør hann hrósar sér,

hann hrósi sér í Drottni, 2. Cor. 11. Þar fyrir, nær sá Gudsmadur hefir upptalid allt þad, er adrir reiknudu ser til gyldis, sem er, ad hann væri hebreskur eins og þeir, Israels madur eins og þeir, Abrahams sædi eins og þeir, Christs þénari enn framar enn þeir, hann hafi erfidad meir enn þeir, optar í háska verid enn þeir, þá endar hann med þessu atkvædi: ef hrósa skal, þá vil eg hrósa mér af þeim hlutum, er veikleika mínum vidkoma, 2. Cor. 11. og enn framar segir hann: Cap. 12. eg mun miklu fegnastur hrósa mér af veikleikanum, svo ad máttur Drottins búi í mér; þar=fyrir em eg vel tilfrids í veikleikanum, í forsmáninni, í naudunum, í ofsóknunum, í ángistinni fyrir Christum, því þá eg er veikur, þá er eg máttugur. Svo er þar nú einginn ríkdómur, einginn styrkleiki, einginn heidur, eingin fegurd, eingin skynsemi, einginn máttur, eingin dýrd, eingin prýdi, nema í Gudi alleina, og eckert þad menn kunni ad vegsamast fyrir, nema einsømul og hræsnislaus audmýkt fyrir hønum. Því vil eg enda þetta mitt tal til ydar, Guds børn, med Páls ordum í pistlinum til Gal. 6: Þad verdi mér ecki, ad eg hrósi mér nema af krossi Drottins vors Jesú Christi, fyrir hvørn mér er heimurinn krossfestur, og eg heiminum. Hønum, Drottni Jesú med Fødur og Heiløgum Anda, einum og þrennum ódaudligum Konúngi, og alleina ríkum, sé lof og heidur, kraptur og styrkleiki, æra og vegsemd, søgd og súngin af øllum túngum Eingla og manna, nú hedan í frá og ad eylífu, a m e n!

## A Joola=daginn.

Gudspjallid, Lúc. 2 Cap.

I þann tíma. Og þad bar til á þeim døgum, ad þad bod géck út frá keysaranum Augustó, þad heimurinn allur skyldi skattskrifast. (Þessi skattskrift hófst fyrst upp þá Cyrenius var landsstjórnari í Syrlandi.) Og þeir fóru allir ad láta skattskrifa sig, hvør til sinnar borgar. Þá fór og Jóseph af Galilæa úr borginni Nazareth upp í Júdeam, til Davíds borgar Bethlehem, af því ad hann var af húsi og kyni Davíds, svo ad hann léti skattskrifa sig þar med Maríu sinni festarkonu ólettri. En þad skédi svo, þá er þau vóru þar, ad þeir dagar fullnudust, ad hún skyldi fæda, og hún fæddi sinn frumgétinn Son, og vafdi hann í reifum, og lagdi hann nidur í jøtuna, þvíad hún féck eckert annad rúm í gésta=herberginu. Og fjárhyrdarar vóru þar í sama bygdarlagt um grandana vid fjárhúsin, sem geymdu og vøktu yfir hjerd sinni um nóttina. Og sjá þú, þad Eingill Drottins stód hjá þeim, og Guds birtt ljómadi í kríngum þá, og þeir urdu mjøg óttaslegnir, og Eingillinn sagdi til þeirra: Hyrdid þér ecki ad hrædast! sjáid, eg boda ydur mikinn føgnud, þann er ské øllu fólki, þvíad í dag er ydur Lausnarinn fæddur, sá ad er Christur Drottinn í borginni Davíds, og hafid þad til merkis, ad þér munud finna barnid í reifum vafid, og lagt vera í jøtuna. Og jafnsnart þá var þar hjá Einglinum mikill

**fjøldi himneskra hersveita, sem lofudu Gud og søgdu: Dyrd sé Gudi í upphædum, og fridur á jørdu, og mønnum gódur vilji.**

## E x o r d i u m.

Skélfilig ógnan mundi vesølu mannkyni hafa stadid af því hrædiliga straffi, med hvørju hinn réttláti Gud fargadi hinni vantrúudu verøld á døgum Nóa, nema hans gjæska hefdi gjørt sáttmála vid mannkynid, ad hann framar ecki vildi eydileggja jørdina med vatns-flód-inu, og þessu til merkis settbogann í skýinn, segjandi: þegar þessi bogi verdur í skýinu, þá vil eg minnast á sáttmálann á milli Guds og allra lifandi sképna, af øllu holdi á jørdunni, Gen. 9. Med þessum hætti lýsti hinn nádugi Gud fridi yfir jørdunni og þeim þar inni búa, og er þad víst, ad hann hefir litid undir eins til þeirra, sem á hans eingétins Sonar nafn trúa mundu. Fjærri sé því, ad regnboginn kynni því ad valda, ad Gud yrdi manninum nád-ugur, ei heldur þurfti hann ad láta minna sig á þad hann gjora vildi, jafnvel þótt Ritn-íngin svo tali ad manna plagsid; allir hlutir eru opnir og naktir fyrir hønum, Hebr. 4. En þar Jesús situr til hans hægri handar, og hann sér þar ljóma sinnar dýrdar og ímind sinnar guddómligrar persónu, Hebr. 1. voru holdi íklædda, og bidjandi fyrir oss; þá má hann ei annars enn minnast sinna miklu miskunsemda, sem verid hafa í frá upphafi, sídan hann lof-adi, ad kvinnunnar sædi skyldi sundurmola høggormsins høfud, Gen. 3. Bid þér eins teikns af Drottni þínum Gudi, sagdi Drottinn til Achas, hvort heldur þad er nidri í undir-djúp-unum edur á hædum uppi; en hann sagdi: ei vil eg þess bidja, svo eg freisti ecki Drottins. Þá sagdi Spámadurinn: svo heyrid þér þá af húsi Davíds, hvort er þad of-litid, ad þér þjáid mennina, þad þér einnin viljid ángra minn Gud; fyrir því mun Drottinn sjálfur gefa ydur eitt teikn: sjá þú ein jómfrú mun barn géta, og einn son fæda, og hann mun hún kalla Immanúel, Esa. 7. Þetta er teikn hins mikla Guds og Drottins vors Jesú Christí, hvor ad er Eingill sáttmálans á millum Guds og manna, Mal. 3. hann er øllum til merkis settur, ecki í skýum himins, heldur fæddur af einni jómfrú á medal vor hér á jørdunni, til stad-festu þar um, ad þeir fái allir kvittun syndanna, sem á hans nafn trúa, Act. 10. Sæl eru þau augu, er sjá hvad þér sjáid, sagdi Endurlausnarinn vid sína Lærisveina, Lúc. 10. En ecki taladi hann alleina um þad, ad líta sig og heyra med útvortis skilníngarvitum; margir sáu hann og hneixludust á hønum; þeir sáu hann, og þar var eckert gyrniligt á hønum, Esa. 53. þeir sáu hann og byrgdu fyrir sjónir hønum, Lúc. 22; þeir sáu hann og hræktu í hans andlit, Matth. 26; þeir sáu hann og sáu undir eins sína vild á hønum. En svo sem Gud setti sinn boga í skýinn til þess, ad hann væri nádarteikn øllum mønnum, og hefir hann þó sjálfum sér geymt ad straffa þeirra ógudligt framferdi, sem hans nád forsmádu; svo hafa þeir margir séd Christi þjóns-mynd hér í nádinni, er sjá munu hann reidann og ógnarligann, þegar hann kémur í skýum himins med makt og miklu veldi, Lúc. 21. En ef vér viljum vita um hvørja sjón hann talar, þá heyrum hvad hann sagdi vid Thómas Postula, Jóh. 20. af því þú sást mig Thóma! þá trúdir þú, en sælir eru þeir sem ecki sjá, og trúa þó. Þad er ad sjá Jesúm Christum, Guds og Maríu Son, voru holdi klæddann, med augum hins innra manns, oss til réttlætis, til helgunar og eylífrar sáluhjálpar géfinn, 1. Cor. 1. oss, segi eg, sem ad í syndinni erum getnir, og í syndinni fæddir, Ps. 51. reidinnar børn, Eph. 2. og Guds óvinir af náttúrunni, Róm. 5. Þessi dyrdarfulla sjón verdur ydur og øllu mannkyni fram-bodin í lof-saung heilagra Guds Eingla, þar þeir syngja: Fridur á jørdu, og mønnum gód-ur vilji. Og viljum vér á þessum hátídis-degi þessi h. ord nockud gjørr yfirvega, og af þeim hugleida, hvørsu glediligur ad þessi fridur sé, og hvørnin vér eigum hønum ad taka.

**Til þessa eyrindis framkvæmdar virdist ad hjálpa oss vor nýfæddi Immanúel, fyrir krapt sinnar forþénustu, a m e n!**

## Utleggíngin.

**Hvad mun því valda, brædur mínir, ad hinir himnesku Andar eru svo gladir á fædíngar-nóttu mannkynsins Endurlausnara? Ecki þurftu þeir frelsis vid, því þeir høfdu ecki syndgad;**

Jesús hafdi Abrahams og ecki Einglanna sædi uppá sig tekid. Hebr. 2. Hvad mun þá valda gladværd þessari? Guds Sonur er ad sønnu þeirra Herra, einnin eptir manndóminum; hefdi hann bedid sinn fødur, þegar hann var í sinni mestu ángist staddur vor vegna, þá mundi hann hafa géfid hønum meir enn tólf legíón Eingla, Matth. 26. Einglar komu og þjónudu hønum, þá hann var hartnær yfirgéfinn, og svo ad segja Audskotanum ofurseldur, þad hann freistadur yrdi, Matth. 4. Fyrir því var þad ecki ad undra, þótt þeir gladst hefdu, ef hinum nýfædda Syni Guds hefdi nockur heidur edur upphefd hlotnast; en þad mátti ecki svo kalla, því Pálus talar svo hér um: Phil. 2. ad hann hafi lítil-læckad sjálfann sig, takandi á sig þjóns-mynd, og ordinn mønnum líkur. Þad fyrsta hann sá þessa vesæla heims ljós, var hann lagdur í einn stall, Lúc. 2. og skømmu þar eptir vard hann landflótta, Matth. 2. og um allar sínar æfi-stundir hafdi hann ecki þar hann kynni høfdi sinu ad halla ad, Matth. 8. því sýnist svo sem ad hans kjørum væri ecki svo mjøg ad fagna í þetta sinn. Hvad þá, brædur mínir? Vér vitum eptir St. Páls munni, ad Einglarnir eru þjónustusamir andar, útsendir þeim til þjónkunar, er sáluhjálpina erfa skulu, Hebr. 1. og þótt ad vér séum vesælir og syndugir, þá er þó meiri gledi hjá þeim í himninum, yfir einum syndugum, sem ydran gjørir, heldur enn yfir níu og níutíu réttlátum, Lúc. 15. Þar af er audsært ad þessar Guds hersveitir hafa svo tekid ástfóstri vid oss auma menn, þótt vér séum þeim ad øllum edlisháttum ólíkir, ad þeir gledjast yfir sérhvørju því happi, er nockur af oss hlýtur; en ef þeir svo gledjast yfir allri gjæfu vorri, því mundu þeir þá ecki venju framar lýsa þessum føgnudi, þegar oss á næturtíma upprann sú sól, er aldrei hefir nockur fegri yfir heiminn skinid, og þegar oss sú heill ad høndum kom af hvørri allra Guds barna, ríkra og fátækra, hærri og lægri stéttar, nálægra og fjarlægra, fæddra og ófæddra, tímanlig og eylíf heill og hamíngja uppsprettur og framflýtur. Þess gétur Jóhannes, Cap. 1. er hann segir, ad af hans fyllíngu høfum vér allir medtekid nád fyrir nád. Þar fyrir ljómar hin guddómliga birti í kríngum hyrdarana, svo sem vitnandi þar um, ad hann væri í heiminn borinn, sem ad er ljómi Fødursins dýrdar, og imind hans guddómligrar persónu, Hebr. 1. frá hvørjum ljósanna Fødur ad øll gód gjøf og øll fullkomin gjøf kémur, Jakob. 1. hvørjum og þóknast hefir, ad í sínum Syni skuli øll fylling búa, Col. 1. já, sjálf guddómsins fylling, hvør ed byggir í hønum líkamliga, Col. 2. þad er í hans blessudum manndómi, er hann af voru holdi og blódi hefir uppá sig tekid, og gjørt hluttakandi guddómligrar náttúru. Æ, oss auma og synduga menn! vér sjáum ecki fyrir blindu holdsins, hvad mikid oss veitt er í Jesú holdtekju, myrkur vors skilnings fá þad ecki høndlad, svo sem þad er; en Guds h. Einglum, er jafnan standa frammi fyrir hønum, Matth. 18. þeim er alkunnug sæla sú, er øllum Guds børnum er tilbúin, hvørri vér tapad høfum í Adams falli; þeim eru og ecki ókunnugar píslir fordæmdra er kveljast munu í augsýn heil. Eingla, segir Jóhannes í hans opinberíngum, Apoc. 14. Því er ecki ad undra, þó Einglarnir fagni, þar hinn annar Adam, sem er Drottinn af himnum, 1. Cor. 15. var í heiminn borinn, til ad frelsa oss frá øllum þeim óskøpum, því þeir elska mannkynid, en vissu ad í Jesú fædíngu var mønnunum géfinn sá kostur, ad forlíkast vid Gud, og settir verda í

hans Sonar ríki, Col. 1. Nú er þad víst ad sönnu, ad vér ecki ad fullu þeckjum hvad vér mist höfum, edur hvør ólucka oss búin væri, nema Guds Sonur væri í heiminn kominn syndugа menn sáluhjólpna ad gjøra, 1. Tim. 1. en þó mættum vér ad svo miklu leiti þeckja vort andligt volædi, og svo mikid hefir oss sagt verid af hinni eylífu dýrdarvist í Himnaríki, ad ef vér legdum nockurn hug á vort mál, þá mundum vér allshugar fegnir verda, ad vér høfum hana aptur fengid, og róa øllum árum ad því, ad vér sleptum henni ecki aptur ad nýu. Eg hefi nóg sagt hérum, þegar eg segi þad med ordum Esajæ, hvørju syndir vorar til leidar koma: Ydar syndir, segir hann, skilja ámilli Guds og ydar, og ydar ránglætíngar valda því, ad hann byrgir sitt andlit fyrir ydur, og vill ydur ecki bænheyra, Esa. 59. Nú vitum vér þad, ad vér lifum ecki eina stund án syndar. Heyrid hvad Davíd konúngur talar um allt hold, Ps. 14. Ps. 5. og 10. og 36. Sal. Ordskv. 1. Esa. 59. þar er einginn réttlátur, og ecki einn, þar er einginn skynjandi, og einginn sá ad Gudi leiti, allir hafa þeir afvikid, allir til samans eru þeir ónýtir ordnir, þar er einginn sá ed gott gjøri, og ecki einn.

Nú segir Páll, er hann færir þessi ord til síns máls, Róm. 3. nú vitum vér ad hvad sem Løgmálid segir, þad segir þad þeim sem undir Løgmálinu eru, svo ad allir munnar verdi tilbyrgdir, og allur heimurinn sakfallinn vid Gud. En ef Guds Sonur væri ecki í heiminn kominn til ad frida fyrir oss, þá værum vér allir undir Løgmálinu, og enn=þá í vorum syndum, því ad Løgmálid er fyrir Mósen útgéfid, en nád og sannleiki er skéн fyrir Jesúm Christum, sagdi Baptista, þegar hann hóf kristni=bodid, Jóh. 1. Svo adskilja nú syndir vorar á milli Guds og vor. Segid mér þá! er þad ecki mikillar gledi og fagnadar vert, ad hann er oss í heiminn borinn, sem heitir Immanúel, Esa. 7. þad er Gud med oss, í hvørs nafni hinn nádugi Gud hefir til sinnar kristni talad, þad er til allra þeirra, er á hans nafn trúa, Esa. 54: Þótt ad fjøll þessi hverfi á bak aptur, og þessir hálsar úr stad hrærist, þá skal mín gjæska ecki frá þér víkja, og sáttmáli míns fridar ecki vid þig skilja, segir Drottinn þinn miskunari. O, hvørsu glediligt er þetta! þegar einn fárádur syndari, hvørs samvitska vitnar ámóti honum, ad hann hafi eckert annad enn daudann forþénad, þegar hann, segi eg, hugar til þeirrar ógnarligu tídar, nær konúngar jardarinnar og høfdíngjarnir, og hinir ríku og hinir voldugu, segja til fjallanna og til bjarganna: fallid yfir oss, og hyljid oss fyri augliti hans, er í hásætinu situr, og fyrir reidi Lambsins, Apoc. 6. Þess er og ad gjæta, brædur mínir, hvør hann er, sem ad vér vórum missáttir vid; ófridurinn er ad því leiti hrædiligur, sem hann er voldugur til, sem herjar á landid. Hvør er sá konúngur, er hann færir hernad á móti ødrum konúngi, ad hann eigi setji sig nidur og rádslagi, hvørt hann géti med tíu þúsundum mætt hønum, sem med tuttugu þúsund kémur á móti hønum? sagdi Drottinn vid Lærisveinana, Lúc. 14. til ad sýna þeim hvør ad væri munur Guds og manna. Munum vér géta svarad hinum réttláta Gudi einu á móti þúsund, ef hann vill í dóm vid oss gánga, Job. 9. Hann er Herrann, vér erum þrælarnir, hann hefir skapad oss, vér vanskøpum oss dagliga, hann hefir oss allt gott gjørt, vér gjørum allt íllt ámóti hønum, hann vegur fjøllinn á vigt, og hálsana med sínum minsta fíngri, Esa. 40. Vér megnum ecki ad gjøra eitt svart hár hvítt á voru høfdi, Matth.

5. Hjá hønum er eingin umbreyting edur mynd til umbreytingar, Jak. 1. Vér erum ein vatns-bóla, vér megnum ecki hinum minsta vesæling hid minsta mein ad vinna, án hans vilja, hann hefir vald til ad kasta lífi og sálu í eylífann eld, Matth. 10. Hvør vill fá stadist, nær slíkur Herra er reidur? Hvørsu fagnadarsæll er þá bodskapur þessi, ad vér fridkeyptir erum, og í sátt komnir vid hann, sem allt vald hefir bædi á himni og jordu? Matth. 28. Og ef vér viljum gánga nær og skoda, hvør ad sé mismunur Løgmálsins, sem fyrir Mósen er géfid, Jóh. 1. og Evangelíi, sem Christur hefir fært oss úr skauti Fødursins, þá er þad í mørgum hlutum audséd: Løgmálid var med stórri ógnan og reidarþrumum útgéfid; ef ad jafnvel eitt kvikindi snertir fjalls-ræturnar sagdi Gud, Exod. 19. þá skal þad dauda deya. Hid fyrsta nýa Testamentisins Evangelíum er med lofsaung heilagra Eingla bodad, og almenniligu fridar-bodi yfir-lýst; allt fjallid Sinaí skalf og titradi af Guds ógnan, þar sáust leiptranir og eldíngar, svo ad Móses, sem var hinn mesti fullhugi, og svo var kunnugur Gudi, ad hann taladi vid hann eins og madur vid mann talar, Exod. 33. sagdi: eg em hræddur og skjálfandi, hvad Pálus tiltekur til dæmis um þessi stóru undur, Hebr. 12. En hér ljómar Guds birta í kríngum hyrdarana, og Eingillinn segir vid þessa vesælíngs smala-menn: óttist ecki, þvíad í dag er ydur Lausnarinn fæddur, sá ad er Christur Drottinn, í borginni Davíds. Menn halda ad Einglarnir hafi gengid á milli Guds og Mósen, til ad afhenda hønum Løgmálid, eda ad vísu á einhvørn hátt þjónad ad þessu; þad segir Stephanus hinn fyrsti píslarvottur Guds nærri med berum ordum tvísvarsinnum, Act.7. þad stadfestir St.Páll, Gal.3. og Hebr. 2.; en ei heyrist ad þeir hafi þá blídliga til hans talad, sem ei var von, því løgmálid verkar reidi, Róm. 4. og er vegna yfirtrodslunnar útgéfid, Gal. 3. Eg vil ecki fá mér til orda þær grimmu hótanir, er Løgmálinu fylgja; ef þú hlýdir ecki raustinni Drottins Guds þíns, segir Móses, Deut. 28. þá skulu allar þessar bølvanir koma yfir þig og hondla þig, bølvadur skaltú í borginni vera, bølvadur á akrinum, bølvud skal þín hyrdsla vera hvar þínar afgángs-leifar eru, og bølvadur skal þinn lífsins-ávøxtur vera, þinn jardar-ávøxtur og þinna sauda, bølvadur skaltú vera nær þú gengur inn, bølvadur nær þú útgengur! med ødru fleira, og allri þeirri ólucku er Løgmálsins yfirtrodsla steypir yfir syndugar manneskjur og hrædiligt er upp ad telja. O! hvørsu er þad ólíkt hønum, er sagdi: Komid til mín allir þér sem erfidi drýgid og þúnga erud þjádir, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Hann medtók tollheimtumenn og bersynduga, át og drack med þeim, Lúc. 15. til ad ávinna þá til Guds-ríkis; þoldi brixli og ámæli vondra manna þeirra vegna; hann ed sagdi vid hina besyndugu hór-konu: hafi einginn fordæmt þig, svo fordæmi eg þig ecki heldur, gack burt og syndga ecki framar, Jóh. 8. Svo ad þad má satt játa, ad hinn nádugi Gud hefir ecki um skør framm spád um sinn eingétinn Son, Esa. 42.: sjá minn þjón þann er eg annast, og minn hinn útvaldi á hvørjum eg hefi velþóknan, eg hefi hønum minn Anda géfid, hann mun dóminn útflytja medal heidinna þjóda, hann mun hvørki kalla né hrópa, og hans raust mun ecki heyrast á strætunum, þann brákada reyr-legg mun hann ecki í sundurbrjóta, og þann lítt-logandi hør-kveik mun hann ecki útsløckva, hann mun kénna ad halda dóminn med sannleikanum, hann mun ecki møglunarsamur né hrædiligur verda, svo ad hann á jordu dóminn uppbyrji og eyarnar munu

eptir hans lögmáli vænta. Þegar þér nú þetta hvörttveggja samanberið, bræður mínir, og ef þér þykist nockru við Guð sekir vera, þá er líkligt að þér munuð finna til í hjarta ydar, hvörsu gledilig að sé Jesú fæding. Gydíngum var fögnudur þessi allra fyrst bodaður, svo sem von var til, svo að spádómarnir yrdu uppfyltir; þess géta þeir St. Páll og Barnabas, Act. 13. er þeir sögdu við þá: til ydar byrjadi fyrst að tala Guðs orð, en vær adrir höfum þess síðan notið; þar fyrir spáir Esa. svo um Jerúsalem: myrkrið mun hylja jörðina, og dimman þjóðirnar, Esa. 60. en Drottinn mun upprenna yfir þér, og hans dýrð mun sjást yfir þér, og heidíngjarnir munu gánga í þínu ljósi; því lýsir Eingillinn í samtali við hyrdarana, þar hann segir: eg boða ydur mikinn fögnuð, þann er skér öllu fólki. Hér er ecki Gydíngur né Grikkur eda Schytiskur, ecki þræll edur frelsíngi, Gal. 3. heldur allir eitt í Christó Jesú, Col. 3. Eptir hans lögmáli munu eyarnar vona, segir Esa. 42. það eru heidnar þjódir, svo plagar Ritníngin þær optliga að kalla. Þetta megum vér bædi að raun og nafni tileinka oss, sem byggjum hólma þennan; að sönnu hefir Guðs eylíf fyrirhyggja skotið oss út undir hið ytsta heimsins skaut, kanské og að mörgum þykja megi, að vér höfum var-hluta farið af margri fullsælu heimsins, en þar á móti höfum vér ecki að segja af margri þeirri ólucku og andstreymi, sem annarstaðar í heiminum plágar synduga menn, svo vér erum skyldugir að viðurkénna, að Guð hefir vel til vor gjört, ef vér kynnum með að fara. En hvörnin sem þessu er varið, þá hefir hann ecki gjört oss afskipta af andligum hlutum, sem mest á ríður.

Stutt stund er það, að vér eigum við þetta tímanliga að búa, hvört heldur oss gengur með edur mót, en eins vel er oss Jesú blessuð tilkoma í holdið boðuð og ödrum, eins vel hans pína og dauði, eins vel hans upprisa, eins vel hans uppstigníng, eins vel útsendíng hins Heilaga Anda, á eingu af þessu höfum vér nockurn skort, heldur enn hvör önnur þjóð í heiminum, og ef eg má segja, þá erum vér betur hér með forsorgaðir enn margir, því höfum vér eingu síður ordsök til að fagna og lof-syngja hinum góða Gudi í hjörtum vorum, Col. 3. heldur enn allur heimurinn, já, öll Guðs kristni, hvar helst sem hún er í heiminum; hún má játa það satt að vera, er Pálus segir, Eph. 2. um heidíngjana: nú erú þér í Jesú Christó, sem áður fjærri voruð, nálægir ordnir fyrir blóð Jesú Christí; því hann er vor friður, hann sem gjörir eitt af báðum, og gyrdíngu midveggjarins hefir niðurbrotið. Í kríngum Jerúsalems musteri var einn stein-veggur, þángað leyfdist heidíngjum að koma, en ecki lengra, svo að þjónustugjörðin ecki saurguð yrði af óumskornum mönnum, og til þessa lítur Postulinn í þessum ordum. En síðan Guðs Sonur er i heiminn borinn, þá er í Christo hvörki umskurn né yfirhúð, Gal. 5. því segir og Pálus aptur, að hann afmád hafi lögmál boðordanna, sem var innifalið í setníngunum fyrir sitt hold, svo hann gjörði í sjálfum sér tvo að einum nýum manni, og gjörði frið, Eph. 2. Þetta er meðal annars sá friður, er Einglarnir boða, friður millum Guðs og manna, því Guð er maður ordinn, friður millum himins og jarðar, því Guð hefir í Christó alla hluti forlíkað við sig, (semjandi frið fyrir blóðið hans kross) hvört heldur þeir eru á jörðu edur himni, Col. 1. friður við heilaga Guðs Eingla, hvörra samneyti vér höfdum af oss brotið, því

segir Páluś, ad vér séum komnir til fjallsins Zíon, og til borgar Guds lifanda, Jerúsalem hinnar himnesku, og til margra þúsunda Einglanna, Hebr. 12. Fridur á milli Gydínga og heidíngja, því þad er í Jesú blessadri híngadkomu framkomid sem Drottinn spáir, Zach. 8. segjandi: á þeim dögum skulu tíu menn (þad eru margir) af öllum þjódum og túngumálum þrífa í klædafald Gydíngsins, segjandi: vér viljum med ydur fara, því vér heyrum Gud er med ydur. Þessi er Immanúel, hvör ed fyrst var sendur til fortapadra sauda af húsi Israels, Matth. 15. en hafdi þó adra saudi, er ekki voru af því sauda-húsi, er honum byrjadi og þángad ad leida, Jóh. 10. svo þar yrdi eitt sauda-hús og einn hyrdir. O, hvílík dýpt audæfanna og Guds speki! Hér má þad satt játa er Pétur med stórri undran sagdi fordum, Act. 10. er Gud sendi hann til ad skýra Cornelíum og hans heima-fólk: nú reyni eg í sannleika, sagdi hann, ad þar er ekkert manngreinar-álit hjá Gudi, heldur ad sérhvör einn, af hvörri þjód sem hann er, sem hann óttast og fremur réttvísina, hann er hönum þóknanligur, Act. 10. Þar fyrir sýngja og Guds Einglar hér í lofkvædinu: Og mönnum gódur vilji, þad kallar textinn velþóknan. Hvar mundi þessa velþóknan vera ad finna, brædur mínir? Ekki hjá vesælu mannkyni, allra sízt á þeim dögum, þegar Drottinn kom til sinnar eignar og hún þekti hann ekki, og kémur þad hér fram sem Jóhannes segir, 1 Pist. 4. Cap: í því er kjærleikurinn fólginn, ekki ad vér elskudum Gud, heldur ad hann elskadi oss, og sendi sinn Son, ad hann yrdi forlíkun fyrir vorar syndir. Þetta er ekki af mannligum tilverknadi skéd, því án Christs er madurinn andstygd fyrir Gudi, heldur fyrir hans skuld, sem er hans elskuligur Sonur, í hvörjum hönum alleina velþóknast, Matth. 3. Þess hafa hinir ad-notid, hvörra hold og blód hann hefir uppá sig tekid, því eínginn hefir um aldur sitt eigid hold hatad, Eph. 5. Þar fyrir er ekki ad undra, þótt Gud hafi velþóknan á þeim, hvörja hans Sonur skammast sín ekki brædur ad kalla, Hebr. 2. og þar ad auki fyrir trúna á hann eru ordnir einn andi med Gudi, 1. Cor. 6. Fyrir því samfagna nú Guds heilagir Einglar syndugu mannkyni, er svo brádliga höfdu þessi glediligu umskipti fengid, ad verda Guds börn af Satans börnum, leysíngjar Christí af syndarinnar þrælum, Guds ríkis erfíngjar af erfum fordæmíngarinnar, Einglunum samlíkir og þeirra samlags-menn, af lagsmönnum Djöflanna; en svo sem ad þeir himnesku andar fagna þessu svo mjög, sem ádur er sagt, ad þeir boda frid og velþóknan Guds yfir jördunni, svo fagna og Christí lærisveinar, og þad fólkid, er hönum fylgdi inn til Jerúsalem, þar af, ad fridur er í himninum ordinn; þar um skrifar svo Lúkas 19: og allur fjöldi lærisveinanna tóku til ad lofa Gud med fögnudi og hárri röddu, fyrir allar þær jardteiknir, er þeir séd höfdu, segjandi: blessadur sé sá sem kémur í nafni Drottins, fridur á himni og dýrd í upphædum. Merk þetta vel, kristinn madur, hinn nádugi Gud hefir látid fridar-bod gánga um alla veröldina og lagt sínum Postulum uppá ad auglýsa forlíkun þessa, 1. Cor. 15. hvar fyrir þeirra hljómur er útgenginn um alla heimsbygdina, Róm. 10.; en Gud nádi hvad fáir þeir eru sem vilja fallast á þau rád, ad minnast vid Soninn, svo hann verdi oss ekki reidur, Ps. 2. Gud hefir látid boda frid á jördu. Lát þér vera ant um, kristinn madur, ad verda þess fullörugur, ad þar sé og fridur fyrir þig í himninum. Allir Jesú Christí velgjörníngar eru í hans fædíngu öllum bodnir, einnin þeim sem fót-troda Guds Son, og sáttmálans blód al-

menniligt halda, med hvørju syndarinn er þó helgadur, Hebr. 10. Gud er ad sonnu frelsari allra manna, því hans Sonur hefir fyrir alla lidid, þó einna mest trúadra, 1. Tim. 4. því þeir einir meiga frelsisins njóta, sem trúa á nafn eingétins Sonar Guds. Sé því ecki upp á vegi þinnar sáluhjálpar fyrr enn ad Heilagur Andi ber vitni þínum anda þarum, ad þú sért Guds barn, Róm. 8. En hvørnin máttu þad ødlast? Þad skédur ef þú gjørir einga sátt vid hans óvini, ecki vid Djøfulinn, því hann er Guds svarinn óvinur; vér høfum afneitad øllu hans athæfi í skýrninni, hvørja Petur kallar sáttmála gódrar samvitsku, 1. Pet. 3. ecki einúngis þessvegna, ad vér í henni endurfæddir erum, og høfum styrk samvitskunnar þaraf, ad vér erum sáttir vid Gud, og kvittir um sekt uppruna-syndarinnar, heldur og hins annars, ad hún minnir oss á, um alla vora æfi, ad halda vort loford af fremsta megni, og ad flecka ei samvitskuna med þeim verkum, sem Andskotanum eru til þjónustu, en Gudi til styggdar, ecki vid holdid, þvíad þess þánkar eru reidi og fjandskapur ígégn Gudi, Róm. 8. Einginn kann tveimur herrum ad þjóna, Matth. 6. en Kristur og Belíal eiga eckert hlutskipti saman 2. Cor. 6. Nú eru holdsins verk augljós, þad eru hórdómur, saurlífi, óhreinleiki, lausúng, skurdgoda-dýrkun, fjølkýngi, fjandskapur, þrætur, kappgyrni, reidi, þráttanir, sundurþyckja, flockadráttur, øfund, manndráp, ofdryckja, ofneytsla og þessum líkt, Gal. 5. Ef vér þessar syndir æfum, og látum þær drottna í voru holdi, þá erum vér ecki Guds vinir, og ecki er hans fridur í oss, ecki kunnum vér heldur vid samvitskuna frid ad hafa, nema hún sofi, og mun hún þó sídar af illum draum vakna þegar vest gégnir, þegar Andskotinn kippir svæflinum undan høfdinu, og vér erum sízt búnir til mótgaungu hønum í daudans harda strídi, og er þá hætt vid ad hennar ormur verdi ad þeim ormi sem aldrei deyr, Esa. 66. Já, nema vér dagliga tøkum uppá oss Guds herklæda, og leggjum allt kapp á ad stockva þessum óaldar flocki, eptir því sem hvør einn verdur ásóktur, þá kunnum vér ecki frid vid Gud ad hafa, ecki Guds børn ad heita, og í eingri vissu um Guds ríki edur arf himnanna ad vera, því þeir ed Christó tilheyra, krossfesta sitt hold med þess girndum og tilhneigíngum, Gal. 5. Gjørid ei heldur samdrátt vid heim þennan, ef þér viljid Guds vinir heita, því Jóhannes segir, 1. Pist. 1: elskid ecki heiminn né þad sem í honum er, ef nockur elskar heiminn, þá er ekki Guds elska í hønum. Ekki segi eg, ad menn skuli ei hafa umgengni vid heimsins børn, annars mættu þeir fara út úr heiminum, 1. Cor. 5. segir Páll, hitt er og réttvíst ad umgángast fridsamliga vid þá sem eru af heiminum, verdi því ákomid, því Páll segir enn aptur Róm. 12: ef þad ské kann, ad svo miklu leiti sem í ydar valdi er, þá hafid frid vid alla menn, og Davíd hælir því, ad hann hafi fridsamur verid, Ps. 120. jafnvel vid þá sem fridinn høtudu; Ps. 119. Hitt segi eg, ad menn skuli ekkert samblendi edur samtøk hafa vid þá í íllskunni og prettvísinni, því þad er ad færa hernad ámóti Gudi, og verdi einhvør af oss til þess knúddur, þá eiga menn ad brjóta þennan frid og óttast eigi mennina, svo vér kunnum ad hafa frid vid hann, er sál og líf gétur drepid eylífum dauda, Matth. 10. Réttvísin og fridurinn kyssi hvørt annad, segir Davíd, Ps. 84. Þar segist vel eingimn vera, sem ekki fridinn kjósi, en allir vilja þó ekki réttlætid æfa, eins og hvørt kunni annars án ad vera; þar sem ekki er réttvísi, þar er aldrei fridur, þar sem ekki er hinn sanni fridur, þar er aldrei réttvísi. Þad er hinn sanni

fridur, ad halda eindrægni med gudrækni og gódri skyckun, en hata skammir og klæki. Þegar veraldarinnar synir eru megtugir ordnir, og hafa brotid undir sig adra, svo ad einginn vogar ad stýga á þad strá er þeim mislíkar, þá hyggja menn ad þeir séu í fridi, en þad er víst, ad þeir ed ødrum hafa rángliga tilgjørt, hafa þá hvad minstann frid, er þeim sýnist einskis ófridar von vera, því fridur þessi heldur jafnan stríd vid samvitskuna, og nær þeir hafa eingann ad berjast vid, þá berjast þeir vid sjálfa sig; soddan fridi eiga øll Guds børn ad hafna, jafnvel þótt þad sé nú um stundir fridsemi køllud, ad lída og samþyckja, edur ad minsta kosti látast ecki sjá hinar verstu skammir og ódygdir, og hlutsemi køllud, ef nockur vandlætir þarum; en þad mætti þann einu gilda sem hefir frid vid Gud og samvitsku sína, því þótt hann jafnvel fridlaus yrdi og rækur frá mønnum, þá hefir hann altíd frid-land í Guds-ríki, og þótt Gud taki hann ei svo fljótt í burt úr heiminum, þá vardveitir hann þann hinn sama fyrir heiminum, Jóh. 17.

Þad er gott ad vera hlutsamur med sama hætti og Nói, Loth, Móses, Samúel, David, Elías, Esajas, Micheas, Jeremías, Jóhannes Baptista, St. Páll og adrir Guds menn er héldu bríxli Christi stærri virdíngu ad vera, enn heidur veraldar þessarar Hebr. 11. Esajas 9. nefnir vorn Immanúel fridar høfdíngja, en þó segir þessi høfdíngi: Matth. 10. meinid ecki þad eg sé kominn til ad senda frid á jørdu, eg er ei kominn til ad senda frid, heldur sverd, því eg er kominn til ad setja manninn upp í móti fødurnum, og módurina upp ímóti dótturinni, og sonar-konuna á móti módur bónda síns, og mannsíns heima-menn verda hans óvinir. Hvør er þá fridur sá er Drottinn hefir fært oss af himnum? Þad er fridur millum Guds og manna, en ecki fridur millum Guds barna og hans óvina, fridur vid samvitskuna, en ecki vid syndina, fridur vid Guds løgmál, en ecki vid holdid; en ef nockur af þeim er hann talar um, Matth. 10. samþyckir ecki þessa fridar-kosti, þá er sá hans óvinur, og á eingann frid vid þann sama ad gjøra, því sá sem ecki hatar fødur óg módur, brædur og systur, fyrir hans skuld, hann er hans ecki verdugur, Matth. 19. Ad sídustu er þetta sá fridur Guds, sem ædri er øllum skilníngi, Phil. 4; minn frid géf eg ydur, minn frid læt eg hjá ydur, ecki svo sem heimurinn géfur þá géf eg ydur, segir Jesús vid lærisveinana, Jóh. 14. Þad er soddan fridur sem gjørir oss ríka í fátæktinni, frjálsa í þrældóminum, glada í sorginni, metta í húngrinu, innlenda í útlegdinni, og um alla hluti oss sjálfum fullnéga, þá vér eckert høfum. Þessi fridur gjørdi Job heilbrigdann í krøminni, David réttlátann midt í syndinni, hann digtadi loffaunginn fyrir Pál og Sýlas í myrkvastofunni, Act. 16. hann gladdi Christí Postula þá þeir gengu fagnandi, og þó húdstrýktir út frá rádinu, Act. 5. hann huggadi Maríu undir síns Sonar krossi, og enn-nú í dag alla þá, er hann bera med henni. Og fyrir því, brædur mínir, ad þessi fridur er svo mikill og svo dýr, ad án hans er einginn fridur, og þeir ed þenkja á himneska hluti, kunna eingann frid ad hafa, þegar þeir hans sakna, þótt øll verøldin hlæi á móti þeim, þá grátbæni eg ydur fyrir ydar velferdar sakir, ad endíngu med ordum Páls, þar hann segir: vér erum sendibodar vegna Christs, 2. Cor. 5. og svo sem Gud beiddi fyrir oss, þá bidjum vér í Christí nafni: sættist vid Gud. En þú nádarfulli himneski Fadir!

sem med dýrmætu blódi þíns eingétins Sonar, hefir endurkeypt velferd sálna vorra, géf þú þínum børnum ad elska þig, elskast innbyrdis, og halda eindrægni í andanum, svo allir þeckja megi, ad þeir séu þíns Sonar lærisveinar, Jóh. 13. Géf þeim ad hlaupa svo skeid lífdaga þessara, ad þeir fái yfirunnid fyrir hann, sem heiminn hefir sigrad, svo ad þínir þjónar mættu med Símoni í fridi fara eptir ordi þínu, Lúc. 2. nær þér þóknast ad þeir gánga skuli veg allrar veraldar; bænheyr þad Herra himneski Fadir, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Önnur predikun á Joola-daginn.

Gudspjallid, Jóh. 1 Cap.

I upphafi var Ord, og þad Ord var hjá Gudi, og Gud var þad Ord, þad sama var í upphafi hjá Gudi. Allir hlutir eru fyrir þad gjørdir, og án þess er eckert gjørt, hvad gjørt er. J því var lífid, og lífid var ljós mannanna, og ljósid lýsir í myrkrunum, og mirkrinn hafa þad ecki høndlad. Þar var einn madur af Gudi sendur, sá hét Jóhannes, hann kom til vitnisburdar, ad hann bæri vitnisburd af ljósinu, svo ad allir skyldu fyrir hann trúa. Eigi var hann þad ljós, heldur ad hann bæri vitnisburd af ljósinu. Þad var satt ljós, hvørt ed upplýsir alla menn komandi í þennan heim; þad var í heiminum, og heimurinn var fyrir þad gjørdur, og heimurinn þeckti þad eigi. Hann kom til sinnar eignar, og hans sjálfir medtóku hann eigi, en svo margir sem hann medtóku, þá gaf hann þeim makt Guds børnum ad verda, þeim sem á hans nafn trúa, eigi þeim sem af blódinu, eda þeim sem af holdsins vild edur af mannsins vilja, heldur þeim sem af Gudi eru fæddir. Og Ordid vard hold, og bygdi med oss, og vér sáum þess dýrd, dýrd svo sem eingétins Sonar af Fødurnum, fullann nádar og sannleika.

## Exordium.

Daniel Spámadur í sinnar bókar ødrum Capitula, segir frá því, ad Nebúcadnezar konúngi, hafi gésist sýn nockur í draumi, er hann kvad sídan ad væri horfin úr minni sér, og beiddi fjølkingis-menn sína og spásagnara, ad þeir segdu hønum drauminn, en þeir tøldust undan bodi konúngs og svørudu þannveg: þar er einginn madur á jørdunni, er megi gjøra þessa konúngsins skipan, hvar fyrir einginn høfdingi edur Drottinn hefir nockru sinni þvílíks krafist af nockrum Spámanni edur Chaldæo, því sá hlutur er konúngurinn æskir eptir, er svo dýrmætur, ad einginn má hann segja konúnginum nema godinn. hvør ed ecki byggja med holdinu. Nú jafnvel þótt ad Spámenn þessir væru Satans þjónar, þá má þó ecki því á móti segja, ad þessi þeirra afsøkun var gyld á alla vegu, en þess meira sem heidíngjar þessir høfdu til máls síns, þess meira høfum vér kristnir menn Gudi ad þacka, ad hann hefir oss þann í heiminn sendt, er þad hefir gjørt, er einginn manna gjøra kunni. Chaldæa-lands vitríngum þótti þad nýúngar ad kóngurinn skyldi leggja þeim uppá þennan hlut; en hinn alvitri Gud hefir gjørt einn nýann hlut á jørdu, ad konann hefir umkríngt manninn. Jer. 31. Hvørt spádómur þessi eigi ad skiljast um holdtekju Drottins edur ei, er eg ecki aldeilis viss um, samt flýgur mér í hug af þessu, ad þad hefir aldrei um æfi heyrst, ad nockur hafi undir eins mey og módir verid, ad hann sem uppfyllir himin og jørd kreptist í einum stalli, ad Gud er madur ordinn. Margvísliga og á marga vegu hefir Gud talad vid fedurnar í fyrnd-

inni, en þad er nýr blutur, ad hann talar vid þá fyrir Soninn, Hebr. 1. og ad Gud íklæddur mannligu holdi, sá eingétni Sonur Fødursins, sem er í hans skauti, hann í eigin persónu opinberar syndugum mønnum allann hans vilja og veg sáluhjálparinnar. Spásagnararnir fortóku þad, ad Gud mundi byggja med holdinu; en hvad viljum vér þar um tala, ad Ordid er hold ordid, og bygdi med oss? Vér heyrdum þad, sáum med augum vorum og skodudum, og hendur vorar þreifudu á því, segir Jóhannes, 1. Pist. Cap. 1. Godinn eru mønnunum lík ordinn, og ofan kominn til vor, søgdu fordum þeir menn í Lystris, er Páls læknadi þann er haltur var borinn, og vildu hafa veitt þeim Barnabæ gudliga lotníng, Act. 14. en þeir voru þó ecki nema menn, og hvad helst þeir gjørdu undrunarligt, þad gjørdu þeir í nafni Jesú Christi; en í manndóm Drottins er hinn lifandi Gud ofan stíginn, og hefir bygd festa á medal mannanna, já, hvílíkur Gud? af hvørs krapti og fyrir hvørs almætti ad øll furduverk á himni og jørdu gjørd eru. Um þetta allra-helgasta og dásamligasta efni géfur oss ordsøk ad tala vor upplesinn texti, hvørjum vér viljum gánga nockud nær, og þótt ad ei megi hinum góda Gudi fullþacka þar fyrir, ad einginn er sá medal vor, sem efi um guddóminn Christi né hans holdtekju, þá samt af því ad þetta heilaga Evangelíum færir oss á þá leid, sem liggur til ad tala hérum, þá viljum vér af því alleina hugleida þad, ad Gud sé madur ordinn.

Hér til styrki oss gódur Gud med krapti síns Anda, amen!

## Utleggíngin.

Í upphafi var Ord, segir Gudspjallamadurinn. Eg vil ecki í þetta sinn fá mér til orda, edur upptelja meiníngar manna, hvar fyrir hin ønnur guddómsins persóna verdur ord kalladur, þó er þad víst, ad Gydíngar nefndu svo Messíam á þeim døgum, og hefir þad øllum kunnugt verid, máské þessvegna, ad ord fyrirheitisins uppá hann hlýddi; ad eg ei tali þar um, ad hinn máttugi Gud skapadi fyrir hann alla hluti, þegar hann baud þeim ad verda med einu ordi, Gen. 1. edur og hitt, ad hann holdinu íklæddur, hefir med sannleiksins ordi opinberad oss Fødursins vilja, Jóh. 1. En hvørnin sem þessu varid er, þá segir Jóhannes, ad þetta Ord, edur Guds Sonur, hafi verid í upphafi hjá Gudi, hvørt sem vér nú tøkum þetta ord: Upphaf, fyrir upphaf eylífdarinnar, sem raunar er eckert annad enn sjálf eylífdin, í hvørri ad ei er fyrr edur sídar, heldur þúsund ár hjá Gudi, svo sem einn dagur, og einn dagur svo sem þúsund ár, segir Petur, 2. Pet. 3. edur vér tøkum þad fyrir upphaf skøpunar allra hluta, Gen. 1. þá er þad audsært, ad Sonur Guds er hønum sameylífur. Páls segir: 1. Cor. 15. ad þegar sagt verdur, ad allir hlutir séu Christó undirlagdir, þá sé þad bert, ad sá er undantekinn, er hønum hefir alla hluti undirlagt. Álíka vil eg hér um segja, nær sagt verdur, ad Guds Sonur hafi verid í upphafi skøpunar allra hluta, þá er audvitad, ad hann sjálfur hefir aldrei skapadur verid, og er þess-vegna, og hefir verid fyrir alla eylífd. Páls tekur af tvímælinn hér um, er hann segir: ad hann hafi verid ádur enn allir hlutir voru, Col. 1. og uppá þad, ad einginn leidi sér þad í hug, ad hann ecki sé Gudi Fødur sameylífur, þá segir Davíd konúngur, Ps. 45: þinn veldis-stóll ó Gud! er um aldur og ad eylífu. Einginn efi er á því, ad þetta er um Jesúm Guds Son talad, því strax eptir segir Davíd: þú hefir réttlætid elskad, en hatad ránglætid, þar fyrir hefir, ó Gud! þinn Gud smurt þig med oleó fagnadarins fram yfir þína hluttakendur, Ps. 45. og þessi hin sømu ord þýdir Páls til Hebreos 1. uppá Jesum, hvør ed eptir manndóminum smurdur er med H. Anda, og hvad meira er, ad Drottinn sjálfur er því

samhljóda, er hann heimfærir uppá sig þau ord er standa Esa. 61: Andi Drottins er yfir mér, af því hann hefir smurt mig, segjandi: þessi ritníng er í dag uppfyld, ad ydur áheyrendum, Lúc. 4. Og svo einginn meini, ad þetta sé talad alleina um hina eptirkomandi eylífd, þá segir Micheas Cap. 5: Þú Bethlehem Ephrata, ert eingannvegin hin minsta á medal hertoga Júda, því af þér mun framkoma sá Drottnarinn í Israel, hvörs útgángur er í frá upphafi, og fyrir allar aldir. Þegar Davíd bidur Guds Son ad spara sín fáu ár, þá finnur hann eckert dýrmætara til ad hræra hans blessudu miskunar-ydur sér til medaumkunar, heldur enn hans eylífa gétnád, þar hann segir: Ps. 102. minn sterki Gud, svipt mér ei burtu midt á mínum dögum, af eylífum gétnadi eru ár þín, ádur enn þú jördina grundvalladir, og himnarnir eru þín handaverk, þau munu forgánga, en þú blífur, allt mun þad svo sem fat fyrnast, og svo sem ödru klædi muntú umbreyta þeim, en þú blífur hinn sami, og þín ár þrotna ecki; hvör Davíds ord Páls til Hebreos Cap. 1, enn aptur þýdir uppá Drottinn Jesúm og hans guddómliga náttúru; edur því mundi Esajas Cap. 9. kalla hann Födur eylífdarinnar edur eylífann Födur, nema Guds Andi hefdi skotid hönum því í brjóst, ad hann hefdi ásamt Gudi Födur verid frá eylífu? Ecki hefir Esajas talad þetta af sjálfum sér, því hann spáir svo greiniliga, ad á má þreifa, um þá hluti er einginn madur vita kunni, nema Gud væri med hönum. En eg em viss um, ad ef hann er Fadir eylífdarinnar, þá er hann ecki ýngri enn eylífdin, en fyrst hann eylífur er, þá er ljóst þar af, ad hann er sannur Gud, þess gétur og Jóhannes í Gudspjallinu, er hann segir: og Gud var þad Ord, hvör grein ad eptir ordshætti Ritníngarinnar merkir sama og hann sagt hefdi, þad Ord var Gud, svo sem þegar hann segir í ödrum stad: Andinn er Gud, þad merkir, Gud er einn andi, Jóh. 4. þetta vottar Gudspjallamadurinn med þeim verkum, er einginn kunni ad gjöra nema Gud einn, er hann segir: allir hlutir eru fyrir þad gjördir. Hvör vill þá þenkja um Christ annad, enn ad hann sannur Gud sé? Mér koma í hug þau ord er sagdi heidinn madur Pýthagoras, án efa til þess ad hæda ad metnadi og ærugyrnd daudligra manna, sem þó ecki kunna ad skapa eina mýflugu, og vilja þó svo sem Gudir tignadir vera: Ef nockur þenkir, sagdi hann, þad hann muni Gud vera, þá skapi hann eina veröld líka þessari, og mun eg hann strax tilbidja. Jóhannes ítrekar þetta enn aptur, svo ad allir megi úr skugga gánga hérum, segjandi: án hans er eckert gjört hvad gjört er. Sé nú einginn hlutur án hans gjördur, þá er þad audsært, ad hann sjálfur ógjördur er og óskapadur, því á millum Skaparans og allrar sképnu kann einginn madur ad hyxa edur ímynda sér nockurn hlut, þar einginn hefir sig sjálfann skapad, og sképna einginn hefir gjört sinn Skapara, og svo ad vér ei meinum, ad Guds Sonur hafi verid alleina nockurskonar verkfæri í sköpunarverkinu, þá segir Davíd med ljósum ordum í þeirri grein, er eg strax las af Ps. 102, ad hann hafi veröldina grundvallad, og ad himnarnir séu hans handaverk, og ecki einasta hefir hann þessa sýniligu veröld skapad, heldur segir og Páls, Col. 1. fortakslaust: ad fyrir hann, þad er af hönum séu allir hlutir skapadir, sem eru á himni og jördu, hvad sýniligt og ósýniligt er, hvört heldur þad eru trónarnir edur herradæminn, edur yfirvöldinn, edur valdstjórnirnar, allt er þad fyrir hann, og hans vegna skapad; med þessum hinum sídustu ordum vill Páls merkjast láta Eingla Guds og hinar andligu verur,

fyrir utan Gud einn, allra hluta Skapara, sem einn af øllu óskaptur er. Nú væri þad ad sønnu nóg til ad vitna um guddóm Frelsarans, ad hann er eylífur og allra hluta skapari, en Jóhannes lætur ecki kyrt þar med, heldur segir hann: í því var lífid, og lífid var ljós mannanna, med hvørju hann teikna vill, ad allt hvad lífs anda hefir, andligann edur líkamligann, þad lifi af því sama lífi, og af hans fyllíngu høfum vér allir medtekid. Hvørnin útmálar Pálus hinn sanna Gud fyrir Athenu=borgar mønnum, er hann fór til þeirra med kristni=bodid? Í hønum lifum vér, erum vér og hrærumst vér, Act. 17. En hvad er þad annad enn þad, sem hinn sami Postuli vitnar um Christ? Col. 1: ad í hønum standi tilsamans edur standist allir hlutir, þad er: vardveitist og stjórnist af hønum. Því segir og Postulinn, Hebr. 1. ad hann beri alla hluti med ordi síns kraptar. Eg gét ecki borid allt þetta fólk sagdi Móses vid Gud, Núm. 11. þegar hann vildi hafa sig undan þeiginn einsamall ad stýra Israels fólki, af hvørju ordtæki Ritníngarinnar eg þad fylliliga álykta, ad sá sem ber alla hluti med sínu krøptuga ordi, hann stjórnar øllum hlutum med Gudi Fødur og Heiløgum Anda bædi á himni og jørdu; hvad sjálfur Drottinn samþyckir, er hann segir: þad sem Fadirinn gjørir, þad gjørir Sonurinn einnin med, Jóh. 5. sem von er til, því hann segir berliga, ad Fadirinn sé í sér og hann í Fødurnum, Jóh. 14. Jóhannes segir, ad lífid hafi verid í Ordinu, en hvílíkt þad líf sé, greinir hann sjálfur, Jóh. 5: svo sem Fadirinn uppvekur og lífgar þá daudu, svo lífgar og Sonurinn þá hann vill; og þótt hann hafi þad med mørgum dæmum sannad, þá er þad samt af hans sjálfs upprisu allra kunnugast ordid. Adrir Guds menn hafa fyrir hans krapt uppvakid hina daudu, en einginn hefir sjálfann sig af daudum vakid, nema hann einn; þetta vottar hann sjálfur, því sagdi hann vid Gydínga: brjótid þér þetta musteri, en eg skal þad á þrem døgum upp aptur byggja, en hann taladi um musteri síns líkhama, segir Jóh. 2. og um sálina segir hann: þar fyrir elskar Fadirinn mig, ad eg læt mína sál frá mér, svo eg hana aptur taki, einginn tekur hana frá mér, en eg legg hana frá mér sjálfur, eg hefi vald til ad leggja hana frá mér, og vald til hana aptur ad taka; og þessara ordsaka vegna hafa heilagir Guds menn í Ritníngunni ydugliga kallad hann Gud, því Gud er alleina sá ed dásemdarverkinn gjørir, Ps. 72. Eg hefi allareidu nockur vitni þar til leidt af hinu gamla Testamentinu, og mætti þó enn fleiri telja, en Lærisveinarnir hans og Postular, sem voru uppfrædir af hønum, sáu hann og skodudu, 1. Jóh. 1. átu og drucku med hønum, uppá hvørra lærdóm hans kyrkja bygd er, þeir ed hans vitnisburd hafa med sínu eigin blódi undirskrifad, og látid lífid fyrir þennan sannleika, þeir ljúka allir einum munni upp um þetta. Hans vitni hafid þér heyrt, er Jesús elskadi, sem var Jóhannes, er Gudspjallid ritad hefir, en hann talar enn þá framar, 1. Jóh. 5. segjandi: vér vitum ad Guds Sonur er kominn, og ad hann hefir gefid oss hjarta til ad þeckja hinn Sannarliga, og ad vér séum í hinum Sannarliga, þad er í Guds Syni, hann er sannur Gud og þad eylífa líf. Róm. 1. gefur St. Páll Gudi, allra hluta Skapara þann titil, ad hann sé blessadur um allar aldir, en í sama Pistli Cap. 9. segir hann um Jesúm Christ: af hvørjum, (hann meinar fedrunum) ad Christur er eptir holdinu, hvør ad er Gud yfir øllum hlutum, blessadur ad eylífu. Júdas Postuli Drottins, hann endar sinn Pistil med þessum ordum: Gudi alleina vísum

Frelsara vorum, sé dýrð og magt, kraptur og veldi, bædi nú og um allar aldir; þeim sömu ordum sem Guds eingétinn Sonur hefir skipad oss syndugum mönnum ad kvedja Gud vorn Födur í drottinnligri bæn, Matth. 6. med þeim sömu ávarpar hann hér vorn Frelsara, hvad hann mundi ecki gjört hafa, nema hann vildi hafa hönum gudligann heidur veittann. Drottinn Gud þinn skaltú tilbidja og hönum einum þjóna, segir Móses Devt. 6. og 10. og med þessum sömu ordum rak Jesús Djöfulinn burt frá sér, er hann freistadi hans, og sagdist mundi géfa hönum öll ríki veraldar, ef hann félli fram og tilbædi sig, Matth. 4. hvar af audsært er, ad einsömlum Gudi, en eingum ödrum tilheyrir soddan lotníng. En hvad segir St. Páll um Jesúm, hann segir ad í hans nafni skuli öll kné sig beigja, bædi á himnum og jördunni, og undir jördunni, Phil. 2. og svo menn viti ad hér er einginn undantekinn, þá segir Postulinn Hebr. 1. í Davíds orda stad, ad allir Einglar Guds skuli hann tilbidja; en ef þad skulu Einglarnir gjöra, hvörjir ed sjá ydugliga Guds Födurs auglit á himnum, Matth. 18. því munu þá ecki skyldar til þess hinar óædri sképnur? Þegar Jóhannes vildi hafa tilbedid Eingilinn, þann er taladi vid hann, Apoc, 19. þá varnadi hann hönum þess og sagdi: sjá til, ad ei gjörir þú þetta, tilbid þú Gud; en er hann féll til fóta Guds Syni, þá aptradi hann hönum ecki, heldur lagdi sína hægri hönd yfir hann segjandi: Óttast ecki, eg em hinn fyrsti og sídasti, Apoc. 1. Og hvad opt var Drottinn vor tilbedinn, jafnvel í sinni ánaud hér á jördunni, hin cananiska, Matth. 15. María systir Lazari, Jóh. 11., hundrads-höfdínginn, Matth. 8., og adrir miklu fleiri tilbádu hann, og hann audsýndi þar med, ad hönum guddómligur heidur tilheyrdi, ad hann vard vid öllum þessum jafnskjótt og þeir beiddu. Ræníngjinn sem med hönum krossfestur var, tilbad hann daudvona, sjálfann kominn ad dauda, Lúc. 23. þá sýndi Jesús fyrir alvöru ad hann Gud var, því hvörsu mátti hann einum stórbrota manni himnaríkid géfa, nema hann sjálfur ætti þess vald á himnum. St. Stephanus frumburdur hans píslarvotta, hann tilbad hann midt í andarslitrunum, og var hann þá fullur af H. Anda, sem Lúcas vottar, Act. 7. heyrt hafdi hann med hvílíku kalli ad Jesús lést á krossinum, er hann sagdi: Fadir í þínar hendur fel eg minn Anda, Lúc. 23. en hann gjördi þess eingann mun og hins er hann sagdi: Herra Jesú medtaktú minn anda. Hvar fyrir? því hann vissi ad Fadir og Sonur voru eitt, og Sonurinn Födurnum ad allri tign, dýrd og mætti samjafn eptir guddóminum. Heidíngjar þeir ed af Gudi eckert vissu, og voru án hans í heiminum, Eph. 2. þeir sköpudu sér adskiljanligar meiníngar um god sín, er þá höfdu þó ecki skapad, og meintu ad einn væri ödrum undirgéfinn, en þvílíkt er eckert um Jesúm ad þenkja, svo eylífur, svo almáttugur, svo alvitur sem Fadirinn er, svo er og Sonurinn, svo sem hinn heilagi Athanasius lærifadir hefir oss þad kénnt í sinni trúarjátníngu. Jehóva vor Gud, Jehóva hann er einn, segir Móses, Devt. 4. En ef ecki er nema einn Gud í verunni, og þad er ádur vottad ad Jesús sé Gud, hvörnig má hann þá hönum minni vera? Og því segir Postulinn til Hebr. 1. ad hann sé útþryckilig mynd hans persónu. Eg er Jehóva, þad er mitt nafn, og mína dýrd vil eg eingum géfa, segir Drottinn, Esa. 42. Væri nú ecki Guds Sonur Födurnum ad öllu jafn, og væri þetta nafn ecki guddómligrar veru, í hvörju ad eru þrjár adgreindar persónur, því mundi Gud þá sjálfur

gjæskunnar brunnur, hafa opinberad sína dýrd med þessu nafni þeim, sem øll sálarinnar velferd á því ridur ad vita á hvørn þeir eiga ad trúa, og halda eingann hønum jafnan? En hann hefir skipad oss ad trúa á Soninn. Hví mundi hann segja vid Mósen? Exod. 3: eg mun vera sá eg vera mun, og þad skaltú segja sonum Israelis: Sá ed vera mun, sendi mig til ydar. Því mundi hann segja fyrir munn Esajæ: eg er Jehóva, og fyrir utan mig, er einginn Gud, Cap. 45. Mundi nockud Guds eingétinn Sonur, sá ed er í Fødursins skauti vanheidra sinn Fødur þar med, ad gjøra sjálfann sig hønum jafnann, nema hann vissi þad væri svo? Því segir hann þá: Apoc. 1. eg em alpha og ómega, upphaf og endir, sá sem er, og sá sem var, og sá sem koma mun, hinn almáttugi; því mundi hann segja vid Philippum, er hann beiddist eptir ad meiga sjá Fødurinn: Philippe! sá sem sér mig, hann sér Fødurinn, trúir þú ecki ad eg em í Fødurnum, og Fadirinn í mér? Jóh. 14. Því mundi sjálfur Fadirinn kalla hann sínu nafni? edur mun hann sína dýrd ødrum géfa? Því segir hann þá? Jer. 23: eg vil uppvekja Davíd eitt réttlátt sædi, sá ed mun ríkja sem konúngur, og þad skal hønum vel luckast, og hann skal fremja løg og réttindi á jørdu, á hans døgum mun Júda hólpin verda, og Israel ugglaus búa, þad mun vera nafn hans, er hann mun nefna hann med, Jehóva vort réttlæti; því mun hann aptur ítreka þetta, í 33. Cap.? segjandi: á þeim døgum mun Júda hólpinn verda og Israel tryggiliga búa, og sá ed kallar, hann mun vera Jehóva vort réttlæti. Mun ei þetta vera hann, sem oss er af Gudi gjørdur, til réttlætis, til helgunar og til eylífrar sáluhjálpar? 1. Cor. 1. Hvar fyrir mun Gud alsherjar enn framar segja um sinn Son? Hos. 1: en eg skal miskuna húsinu Júda, og frelsa þá fyrir Jehóva þeirra Gud, og ei vil eg frelsa þá med boga edur sverdi edur stridi, hestum edur riddara lidi. Menn þreifa á því, ad þetta er í Jesú af Nazareth fullkomnad og framkomid, hann var alinn í fátækt, Lúc. 2. hann uppólst í armód, hann hafdi ei þar hann mætti høfdi sínu adhalla, Matth. 8. hans ríki var ecki af þessum heimi, ecki striddu hans þénarar fyrir hann, Jóh. 18. hann skipadi Petri ad slídra sverdid, Matth. 26. í sínu mesta ydirlæti reid hann einni øsnu inn til Jerúsalem, Matth. 21. hvadan hann var eins og óbóta=madur til gálgans útleiddur, og hans bestu vinir og vildarmenn eru deyddir hans vegna allann daginn. En þó er í øllu þessu volædi, ríki Guds Sonar í hans barna hjørtum stærra ordid enn nockurt konúngs ríki hefir um æfi verid, svo eg má þad satt játa, er Severus Sulpitius segir, (Lib. 2. Histor: Sacræ) um dráp Guds barna undir Diócletianó keysara: Vér høfum aldrei frægari sigur unnid, enn þá vér ecki urdum med tíu ára ofsóknum sigradir. Mundi nú øllu þessu vera spád um Jesúm, edur hann nefndur því nafni, sem Gudi einum er eiginligt, og eingum ødrum má án syndar tilleggjast, nema hann væri einnar veru med Gudi Fødur, og hønum samjafn ad øllu? Zacharías, ecki af sjálfum sér, ecki af eiginn hugbodi sínu, heldur fullur af Heiløgum Anda, segir um Jóhannem: Lúc. 1. og þú sveirn munt nefnast Spámadur hins Hæsta, en þad er kunnugt ad Jóhannes var fyrirrennari Jesú, og Eingill undan hans augliti sendur, Mal. 3. En ef hann er hinn allra hærsti, hvørnin má þá nockur hønum hærri vera? Ef hann segir sjálfur, eg em hinu fyrsti og sídarsti, Apoc. 1. hvør kann hønum þá fyrri ad vera? Og hvad haldid hefir verid um Messíam á hérvistar døgum Drottins, þad kénnir Jóhannes 5

segjandi: þess meir sóktu þeir eptir ad deyda hann, ad hann ecki einasta braut hvíldardaginn, heldur sagdi Gud ad vera sinn eiginn Fødur, gjørandi sig jafnann Gudi, hvad hann med þessum ordum gjørdi: minn Fadir erfidar alt híngad til, og eg erfida; sem vildi hann sagt hafa, minn Fadir er ei bundinn vid sabbatsdaginn, ad hann ei stjórni øllum hlutum bædi á himni og jørdu, eptir vild sinni, svo lækna eg og þá sjúku, eptir því valdi sem eg hefi, og má því ecki á móti segja, ad þessir ránglátu menn tøludu rétt í þessu. Páls er skorinordur um þetta efni, þegar hann eggjar kristna menn á hógværd og lítilæti, segjandi: verid eins lyndir og Jesús Christur var, hvør þótt hann Guds mynd væri, hélt hann þad ecki fyrir herfáng Gudi jafn ad vera. Og hefi eg svo med nockrum røkum vitnad fyrir ydur, ad Jesús er Gud eylífur, almáttugur, alls heidurs verdugur, og Fødurnum ad øllu jafn eptir guddóminum; ecki þess vegna, brædur mínir, ad eg þurfi nockrum í þessum safnadi ad telja trú hér um, því þad játa allir med hjarta og munni, heldur ad eg i stuttu máli audsýni út af þessu heil. Evangelió, hvílíkur hann sé, er vort auma hold og blód hefir uppá sig tekid, hvar um Jóhannes framar talar med þessum ordum: og Ordid vard hold og bygdi med oss; hvør ord ecki eiga þann veg ad skiljast, svo sem ad guddómurinn sé í manndóm umbreyttur; hjá Fødur ljósanna er eingin umbreytíng edur mynd til umbreytíngar, segir Jakob Postuli, Cap. 1. En þar hann nefnir Fødur ljósanna, þá meinar hann Gud, en þad er ádur vottad, ad Jesús sé sannur Gud, þar fyrir er því lángt fjærri, ad hann kunni hinni minstu umbreytíng undirorpinn ad vera, og þótt ei væri annad til vitnis hér um, þá eru Jóhannes eiginn ord, er hér standa skømmu sídar í Evangelió: Vér sáum hans dýrd, dýrd svo sem eingétins Sonar af Fødurnum. En nær sáu þeir hana? Ad sønnu í kénníngunni, í kraptaverkunum, í skýrninni, en ecki sízt þá hann forkláradist á fjallinu, Matth. 17. og var þad hinn sami er þeir høfdu etid og druckid med, 1. Jóh, 1. Svo er þá ecki guddómurinn umbreyttur í manndóm, heldur hefir Guds Sonur manndómliga náttúru uppá sig tekid, svo sem Páls til Hebreos Cap. 2. ad ordi kémst, ad hann hafi ecki Einglanna, heldur Abrahams sædi á sig tekid, teiknandi þar med, ad hann hafi manndóminn tekid í samfélag og einíngu sinnar guddómligrar persónu, og í þessum ordum: Ordid vard hold, er venjuligur ordsháttur Ritníngarinnar; svo segir Gen. 2: Adam vard ad lifandi sálu, þegar Gud blés lifandi anda í mannsins nasir, ecki þad ad líkaminn umbreyttist í sál, heldur teiknast med þessu orda tiltæki, hin allra nákvæmasta eining á millum sálar og líkhama, hvør mjøg svo er þessari lík, því svo sem sál og líkhami verda ad einni persónu, svo urdu og tvær náttúrurnar i Christó, einn Gud og madur, þegar hann hold og blód uppá sig tók; þetta vitnar allvída h. Ritníng, bædi í spádómunum í gamla Testamentinu, sem og í medkénníngu þeirra er sáu og skodudu hann, og hvørra hendur á hønum þreifudu, 1. Jóh. 1. og sáu þó hans dýrd, svo sem eingétins Sonar af Fødurnum. Hinn fyrsti vottur í gamla Testamentinu er sjálfur Gud, er hann sagdi ad kvinnunnar Sædi skyldi í sundurmerja høggormsins høfud, Gen. 3. Hvílíkt ad sé þetta kvinnunnar sædi, þad vitnar Esajas Cap. 9. med þessum ordum: Eitt barn er oss fædt, og einn sonur er oss géfinn, hvørs høfdíngja-dómur er á hans herdum, og hans nafn er undarligur, rád, hetja, kraptur, eylífur Fadir og fridar-høfdíngi. Sjáid hér, brædur mínir!

hann sem fæddur er, hann sem Spámadurinn barn kallar, hann nefnir hann undir eins Födur eylífdarinnar, af hvörju ljóst er, ad hann er bædi Gud og madur, og ad þetta sé meint um Jesum af Nazareth og ecki annad barn, vottar Esajas: Cap. 7. Sjá þú ad ein jómfrú mun ólétt verda, og mun Son fæda, og hann mun hún kalla Immanúel, þad er: Gud med oss; þetta segir Lúcas Cap. 1. framkomid ad vera. Mörg önnur vitni mætti hér til leida ef þad tíminn leifdi, en í hinu nýa Testamentinu eru ecki færri. Hinn sterkasti vottur er Thómas Postuli, hvör ed ecki vildi trúa fyrr enn hann tók á, en þegar hann lét sínar fíngur í naglaförinn, og sína hönd í hans sídu, þá æpti hann upp af fagnadi, og sagdi: Drottinn minn og Gud minn! Jóh. 20. St. Páll sem var í þridja himin uppnuminn, og heyrdi þar óumrædilig ord, 2. Cor. 12. hann kallar hann hinn mikla Gud og Frelsara vorn Jesúm Christum, Tit. 2. og hinn sami segir: ad hann sé gjördur af sædi Davids eptir holdinu, Róm. 1. Mannsins Sonur, sem taladi vid Nicódemum, segist vera á himni, Jóh. 3. og aptur segir hann vid Gydínga: Jóh. 8. þér leitist vid ad deyda mig, einn Mann, sem segir ydur sannleikann; og sjálfur segir hann, þegar hann hafdi sjálfur aptur tekid sálu sína: andi hefir ei hold né bein, svo sem þér sjáid mig hafa, Lúc. 24. Vér vitum ad ecki fædist af manni nema madur, en Lúcas segir ad María hafi fædt sinn eingétinn Son, hvar fyrir ad Postulinn til Hebreos skrifar: ad hann sé hluttakandi holds og blóds eins og smá-börnin, Hebr. 2. Páll segir enn aptur, Col. 2. ad í hönum búi öll fylling guddómsins líkamliga, þad er reyndar fullkomliga og sannarliga.

Í fórnum gamla Testamentisins bjó Gud svo sem í skugga eptirkomandi gjæda, Hebr. 10. í Christó höfum vér sjálfann líkamann, Col. 2. og hann býr í hönum eins og sál mannsins býr í hans líkama. Kraptur Guds bjó í hans Spámönnum og ödrum heilögum, en ecki vard hann ein persóna med þeim, hvad ljóst er þar af, ad Guds Andi veik frá þeim ástundum, en guddómurinn Christí hefir aldrei manndóminn vidskila ordid, frá því fyrsta augnabliki gétnadarins, og mun heldur aldrei verda um alla eylífd, því Eingillinn, er hann bodadi módur hans gétnadinn, Lúc. 1. segir: ad hann muni drottna yfir húsi Jakobs ad eylífu, þad er ad hann skuli aldrei hans konúngs-tign afleggja, hvör hönum þó ecki er ödruvísi meddeild, enn fyrir íbud guddómsins. Já, þótt hinn grimmi daudi sundurskiti sál og líkama í pínunni, þá mátti hann þó ecki leysa þad band einíngarinnar, sem var milli guddóms og manndóms, því hvörsu mátti hann af sjálfum sér og af eiginn kröptum upprísa ella? Eigi veit eg hvört nockurt vitni er sterkara edur ljósara um guddóm og manndóm Christí í einni persónu, heldur enn St. Páls. 1. Tim. 3. er hann segir: þad er mikill leyndardómur gudhrædslunnar (þad er kristinndómsins) ad Gud er opinberadur í holdinu, réttlættur í andanum, er sédur af Einglunum, er predikadur heidíngjunum, er trúad í heiminum, er uppnuminn í dýrdinni. Hvad er þetta, br. m., ad Gud sé réttlættur í andanum? Kann nockur ad réttlæta þann réttláta í Israel? En þess er ad gjæta, ad þetta ord, þad er ad vidurkénna sannan og réttlátann ad vera; svo skrifar Lúc. Cap. 7. ad allt fólkid og tollheimtumennirnir hafa réttlætt Gud, þad er prísad hann og medként sannan Gud ad vera; í andanum segir Postulinn, þad er eptir guddóminum, svo segir Petur, 1.

Pist. Cap. 3. um Christ, ad hann sé deyddur eptir holdinu, en lífgadur, þad er, lifandi eptir andanum, þad er guddóminum, og med sama hætti segir Páluс, Róm. 1. ad hann sé auglýstur Guds Sonur í mætti eptir anda heilagleikans; svo er þá meiningin, ad í Christí holdi hafi guddómurinn svo auglýst sig, ad menn hafi játad og þeckt, ad Gud hafi í hønum búid; er sédur af Einglunum, hvørt heldur þad eru Postular Drottins, sem opt verda Einglar kalladir, Mal. 2. Apoc. 1. edur og Guds Einglar, sem gyrnast ad skignast inn í þennan leyndardóm, 1. Pet. 1. þá eru hvørutveggju þessir fullnógir til sanninda; er predikadur heidíngjum; er trúad í heiminum, þessi ord sýna oss, hvad hinir fyrstu kristnir menn hafa hér um haldid, og hvørnin Drottins eigin Postular hafa Christum predikad; uppnuminn í dýrdinni, hann sem þeir vissu ad dó á krossinum, af daudum upprisinn, hann sem át og drack med þeim, á hvørjum þeirra hendur þreifudu, 1. Jóh. 1. hann sáu þeir til himins faranda, med guddómligri dýrd, og skýid tók hann í burtu frá þeirra augum, Act. 1. O, hvílík dýpt audæfanna og Guds vitsku! hér má allur Eingla og manna skilníngur í hina mestu undrun falla. Þetta er sá leyndardómurinn, sem hulinn er fyrir vitríngum, en nú er opinberadur smælíngjum, Matth. 11. Hvør vill útsegja hans gétnad? Esa. 53. Hann er fæddur af Fødurnum fyrir allar aldir, hvør vill þad útsegja? Hann er gétinn af Heiløgum Anda í tímanum, hvør vill þad útsegja? Hann er fæddur af meyu einni, hvør vill þad útsegja? Oss fallast hendur af forundran, þegar vér heyrum ad Mósis stafur verdur ad høggormi, Exod. 7. þegar Arons vøndur blómgast, Num. 17. þegar sólin stendur kyrr, Jós. 10. þegar hún gengur um nockur strik til baka aptur, 2. Reg. 20. þá bjørgin klofna í sundur, Matth. 27. þá vatnid skiptist í tvo hluti, og stendur eins og múrveggur, Jós. 3. þegar eldurinn brennir ecki og gjørir eingann skada því sem í hann er kastad, Dan. 3. og er þad þó endir allrar vorrar undrunar, ad vér segjum þad sé ecki undarligt, þótt hann sem náttúruna hefir skapad, géti umbreytt náttúrunnar háttum. En hvad skulum vér um þad segja, ad Gud náttúrunnar-madur verdur? Og hann sem var fyrir allar aldir, hlýdir tímans Løgmáli? Ad Skaparinn fædist af skepnunni? Og hann sem himin og jørd taka ecki, verdur í módurlífi innilucktur? Þessi gétnadur, þessi fædíng eru svo furdanlig, ad þegar kraptur hins Hæsta yfirskyggir rétt-trúada sálu, þá gétur hann slíka hluti vid henni, ad munnurinn fær þeim ecki útklakid, og lætur sér nægja þar med, ad allt tilefni þessa stórundrunarliga furdu-verks er innifalid í hans almætti, hans gjæsku, hans vitsku og ómælanligri miskunsemi, er þad gjørt hefir. Hønum sé lof, dýrd og heidur, um aldir alda, amen!

# Annann dag Joola.

Gudspiallid, Matth. 23 Cap.

Í þann tíma sagdi Jesús til Gydínga-fólksins og høfdíngja kénnimannanna: sjáid! eg sendi til ydar Spámenn, Speckínga og Skriftlærda, og nockra af þeim munud þér aflífa og krossfesta, og suma munud þér húdstrýkja í samkundu-húsum ydar, og af annari borg í adra munud þér þá ofsækja, svo ad yfir ydur komi allt réttlátt blód, sem á jørdina úthellt er,

í frá blódi Abels réttláta, allt til blóds Sachariæ sonar Barachiæ, hvørn þér drápud á millum musteris og altaris. Sannliga segi eg ydur, ad allt þetta mun koma yfir þessa kynslód. Jerúsalem! Jerúsalem! þú sem aflífar Spámennina, og grýtir þá er til þín eru sendir, hvørsu opt hefi eg viljad samansafna sonum þínum, líka sem hænan samansafnar úngum sínum undir vængi sér, og þér hafid ecki viljad! sjáid! ydar hús skal ydur í eydi látid verda, þvíad eg segi ydur, ad þér munud eigi sjá mig upp frá þessu, þángad til þér segid: blessadur sé sá sem kémur í nafni Drottins!

## Exordium.

Þegar menn athuga á eina sídu Guds óútsegjanligann heilagleik, hans réttlæti og hans almætti, og svo annars vegar, ad heimurinn er nidursøktur í hid vonda, 1. Jóh. 5. hvar ed sjálf Gjæskann lítid annad sér, heldur enn þad sem henni er gagnstædiligast, sem er ílskan og óguddligar athafnir syndugra manna, þá megum vér med blygdun vors andlitis medkénna þad, satt ad vera, sem Móses segir, Num. 14. Drottinn er þolinnmódur og mjøg miskunsamur, fyrirgéfandi syndir og misgjørdir. Nú þótt ad øll verøldin ætti í einu hljódi ad prísa þessa Guds gjæsku, þá mætti þó sýnast, ad hann hefdi hvad mest auglýst hana sínu fólki á gamla Testamentisins døgum, því um þá má játa þad satt ad vera, sem Davíd segir, ad Gud hafi ecki svo gjørt øllu fólki, Ps. 147. En hvørju launadi sú þverbrotna kynslód sínum Gudi? Hann klagar sjálfur yfir þeim fyrir Móses, Num. 14 ad þeir hafi tíusinnum møglad á móti sér í eydimørkinni. Hann setti minning síns nafns á medal þeirra, Exod. 20. Þar var hans eldstó og hans bústadur, Esa. 31. En þeir tóku vid tjaldbúd Mólochs, og vid stjørnu Guds þeirra Remphan, Act. 7. Þeir umveltu hans stickan, og yfirgáfu Guds bodord fyrir manna setnínga, Matth. 15. en aflífudu hans Spámenn, sem til þeirra voru sendir. Allra sídast sendi hann þeim Soninn, og sagdi, svo sem Jesús kénnir í eptirlíkíngunni: Matth. 21. Þeir munu feila sér fyrir Syni mínum; en þad vildi ecki svo til gánga, þeir søgdu: Þessi er erfínginn, látum oss ráda hann af døgum, já, vér viljum ecki láta þennan drottna yfir oss. Svo hafa þeir og sjálfann Guds eingétinn Son á krossinn uppheingt, hans þénara og Postula af lífi tekid, forsmád þeirra kénníngar, og eckert ógjørt látid þad Gudi kunni til styggdar ad verda; hvar um Jesús þeim brixlar hér í Evangelió, og undireins fyrirsegir, hvad stórkostlig hefnd ad fylgja muni á eptir svo lángvaranliga forsmán Guds og hans heiløgu orda þegar þeir høfdu uppausid brunn miskunarinnar og uppfyllt mælíngu syndanna; því Drottinn er einn hegnari, einn vandlætandi Gud, já, einn hegnari er Drottinn á sínum mótstødu-mønnum, og sá ed ei mun gleyma því á sínum óvinum, segir Nahúm Spámadur. Svo er nú øll sú ólucka komin yfir þessa vesælu þjód, sem Gud og hans Spámenn hafa fyrir-sagt, af því ad þeir ecki þecktu sinn vitjunar-tíma, Lúc. 19. og þeirra hús er þeim í eydi látid; svo sem Drottinn spáir hér í Gudspjallinu, en þeir útreknir um alla verøld, hafa hvørgi blífanligann samastad, nema þad er þeir þiggja verda af þeim er þeir sízt vildu. Nú høfum vér séd þeirra ófarir, brædur mínir, en gjætum ad því, ad hvad sem skrifad er, þad er skrifad oss til lærdóms, Róm. 15. ei sídur þetta heil. Gudspjall, enn hvørt annad, svo ad vér út af Gydínganna hrædiligu dæmi látum oss umhugad vera, ad leita Drottins medan hann er nálægur, Esa. 55. ad ei føllum vér í nockurt syndsamligt andvaraleysi; því ef Gud þirmdi ecki hinum náttúrligu kvistunum, þá er uggvænt ad hann oss ei þirmi, Róm. 11. Eg hefi í Guds nafni ásett í þetta sinn: ad tala um þá hluti út af Gudspjallinu, sem oss kunna ad hvetja til ad rækja Guds h. ord, og laga vorn lifnad þar eptir, svo ad ei komi yfir oss þær straungu hótanir, sem rætst hafa allt ofmjøg á hans fólki Gydíngunum. O Drottinn! hjálpa hér til í nafni Jesú Christi þíns eingétins Sonar, og géf þínum børnum nád H. Anda þar til, amen, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Það er viðtekið hjá öllum guðhræddum mönnum, að menn halda það fyrir stóra synd að fara illa með Guðs gáfur, sem hann hefir gefið oss til notkunar og lífs uppheldis, og sá er ei þeirra verðugur, sem ecki hyrdir þær og meðtekur með stærsta þacklæti og lofgjörð við Skaparann. En orð Drottins, er eingin almennilig Guðs gjöf; það kostaði hinn eylífa vísdóm ecki nema sá orð að skapa himin og jörð af eingu efni, Gen. 1. af hvörjum hann allt til þessarar nálægrar stundar gefur allri skepnu sitt fóður. En í synda-fallinu gjörðist vanmátturinn svo máttugur, að hinn góði Guð varð að taka til almættis síns, svo það endurskapað yrði sem syndin og Djöfullinn höfðu vanskapað, og það kostaði hann svo mikið, að opinbera oss sinn vilja og veg sáluhjálparinnar, að það eylífa Orð Föðursins, Jóh. 1. hinn eingetni Sonur Guðs, sem er í hans skauti, hlaut þjóns-mynd á sig að taka og gjörast oss að öllu líkur, Phil. 2. að syndinni frátekinni, já, að þola hér í eymdum vors holds allskonar volæði og vesöld. Hvað virðist ydur þá börn Drottins? Hvílík skömm er það einum synda-þræl, að troða undir fætur sér hina dýrmætu perlu, Matth. 13. sem Drottinn dýrðarinnar hefir kostað svo mikið uppá, ecki sjálfum sér til nockurra nota, heldur hönum til lækningar, til miskunar og syndalausnar, sem var hans óvinur og barn reiðinnar? Róm. 5. Eg vil ecki fá mér til orða, um Postula Drottins Jesú, hvörjir að uppfyllt hafa leifar Christí harmkvæla á sínu holdi fyrir hans líkhama, sem er söfnuðurinn, svo sem Páll um sig ritar, Col. 1. ecki í þeirri meiníngu, að hið allra minsta vanti á Christí píslir til að friða fyrir syndugt mannkyn hjá Guði, svo að þeir eður nockur annar þyrfti að bæta hans forþénustu upp, heldur hins vegna, að Guðs Sonur hefir ecki einasta liðið oss til forlíkunar, heldur og til eptirdæmis, svo sem Postulinn til Hebræos 12. C. vottar. Þá hafa þessir Guðs-menn að dæmi síns Herra liðið allskonar hörmúngar, og að síðustu dauðann, til að birta Guðs söfnuði (hvörn Páluss hér nefnir Christí líkhama) hans Evangelíum, og að sýna þeim bæði með orði og eptirdæmi hina réttu leið til himnaríkis. Nú fyrst hin eylífa Miskunsemi hefir auðsýnt oss svo stóra gjæsku, oss sem búum á torfu þessari, svo að segja útlægir frá allri veröldu, að vér og meigum reiknast á meðal hans safnaða, þá verum ecki svo óþacklátir eður rænulausir, að vér forsmáum þennan dýra dóm, sem Guðs ástvinir hafa varið bæði fé og fjöri til að útbreiða um veröldina, svo að þessi Jesú Christí sendiför hefir og náð til vor, hvörja þeir ecki þecktu, eður vissu, hvört vér mundum nockurn-tíma manneskjur verða, eður ei, heldur gjörðu þeir það alleina út af hlýðni og elsku við sinn Herra, og heitum kjærleika við alla þá sem á hans nafn trúa mundu; því sökum þess, að þeir höfðu vitnisburð H. Anda í hjarta sínu um það að þeir væru Guðs börn og elskuðu hann, og þecktu að mótlæti þessara tíma var ei verdt þeirrar dýrðar, sem Guð hefir sínum tilbúið í eylífu lífi, Róm. 8. þá vildu þeir kosta lífi og velferð til þess, að sem flestir kynnu hennar njótandi að verða. Eptirdæmi hins h. Stephaní, hvörs signaðri minníng að þessi blessaði dagur helgaður er, það heyrðum vér af Pistlinum sem nýliga var súnginn fyrir altarinu. O Herra Guð! hvílík var hans röksemi, hans vandlæti, hans þolinmæði, þar eð hann að dæmi síns Frelsara beiddi fyrir þeim, sem hann vildi hafa á Guðs veg snúið,

þegar hann stód fyrir daudans dyrum, vard hønum þad fyrst ad vegi, ad bidja óvinum sínum miskunar, Lúc. 23. og sídan ad fela sinn Anda sínum Frelsara í hendur, svo kjæra hafdi þessi Guds ástvinur, bædi sína og þeirra velferd. Þad er kunnugt af St. Páls pistli til Rómverja Cap. 9. ad hann segir: eg æskti sjálfur ad vera útrekinn frá Jesú Christó fyrir brædur mína eptir holdinu; og ad Postulinn hafi ecki talad þetta fyrir sidasakir, heldur af fullri alvøru, og ef eg má segja, af nockurskonar elskunnar ofbodi, líku því sem Christó þrísti til þess ad láta hengja sig fyrir syndarann; þad votta þau ord er hann skrifar strax ádur á þennan hátt: eg segi sannleika í Christó, eg lýg ecki, ad samvitandi mer samvitsku minni fyrir H. Anda; af hvørju audsært er, hvad lítils hann hefir metid sína velferd hjá annarra, uppá þad hann fengi vitnisburdinn Jesú Christí útbreidt, þeim til syndalausnar og sáluhjálpar er hann bundu, ofsóktu og hrøktu frá einni borg í adra, frá einum ránglátum dómara til annars, og mætti hér uppá mørg ønnur dæmi finna, ef þad tídin leyfdi. En þú sem ætlar þér med þessum Guds Einglum sømu vist ad hafa í eylífri himnaríkis-dýrd, gjæt ad sjálfum þér, ad þú ecki ad litlu hafir þann dýrmæta hlut, er þeir hafa svo mikils metid, og þegar þú heyrir Jóhannem hálshøggvinn, Matth. 14.; Jakob med sama hætti líflátinn, Act. 12.; Petur krossfestann, og allar Guds hetjur med smánarligum dauda af døgum teknar, fyrir þetta sannleikssins ord, og hina mestu gódgjørd, som eingann maka hefir, — þá ber saman hvad fráleitt ad sé þessu tómlæti og hjártæna sumra manna, þeir ed lifa á vorum døgum, og allar stundir þykja indælli enn þær, er þeir eiga Guds erindi og verk sinnar sáluhjálpar ad gjøra. Svo lángt er frá því, ad þeir hafi sig eptir nockud gott ad nema, af þeim sem til þess eru settir, edur láti sér umhugad vera, ad børn þeirra edur hjú læri þad er þeim kann til sidbóta og sálar-nota ad gagna, jafnvel þótt því sé nærri á hvørjum helgum degi yfirlýst, ad án Guds heiløgu orda þeckíngar kann madurinn sídur ad lifa andligu lífi, heldur enn líkhamligu, fyrir utan fædsluna. Þad vottar Jesús er hann sannfærdi Andskotann fordum daga med Mósis ordum, segjandi: madurinn lifir ecki af einu saman braudi, Devt. 8. heldur af sérhvørju ordi því er framgengur af Guds munni, Matth. 4. Hvad vill hér af verda, børn mín? Nema ad sá er andliga daudur, sem ecki hefir fóstur sálu sinni í Guds ordi, jafnvel þótt hann lifi fullur og feitur í líkhamanum. O, Jerúsalem! Jerúsalem! þú sem aflífar Spámennina og grýtir þá sem til þín eru sendir, segir Jesús; ad sønnu gjørir þad einginn medal vor; en hvad gjøra þeir ed forakta spádómana og þær kénníngar sem þar út af eru? Þá vantar eckert nema tækifærid til ad gjøra hid sama. Jesús grét yfir borginni er hann sá hana og sagdi: ef þú vissir hvad til þíns fridar heyrdi, þá mundir þú á þessum þínum tíma þar vaktan á hafa; en nú er þad hulid fyrir þínum augum, Lúc. 19. Mun hann enn nú ecki í dag segja hid sama í sínu heilaga ordi, vid alla hyrdulausa, sem ecki vita ad gjøra grein á trú sinni, edur skynja meir hvad kristinndómur er, enn blindur madur kann um liti ad dæma? Þetta munu øsgar þykja, en eg má spyrja, ef menn vita þad almenniliga, því haga þeir sér ecki þar eptir, og ef menn þad ei vita, því leggja þeir ecki allann hug á ad ná því, án hvørs þeir kunna ecki Guds børn ad heita, ecki himnaríki ad erfa, og ecki eylífar helvítis píslar ad umflýa? Eg vil ei tala um þad, hvørsu hyrdulausir ad margir eru í því, ad láta børn og úngdóm læra ad

lesa Guds ord, sem þó er eitt ágjætt medal til ad ná grundvellinum í hinum sanna kristindómi, og svo miklum fródleik í Guds ordi, sem nægir til sáluhjálpar; ecki er ad dyljast vid þad, ad margir únglíngar eru svo tornæmir, ad þeir fá ecki tekid allt þad af einum predikunarstól, sem þeir þurfa til andligs uppheldis; sædid ber ecki ávøxt þótt því sé kastad í jørdina, nema þad rotni, 1. Cor. 15. ei heldur Guds ord í mannsins hjarta, nema menn smelti þad med ydugligri umþeinkíngu; ad þessu gjæta menn ecki, og ætla þad sé nóg, ef Guds ord þýtur um eyrunn í kyrkjunni, og jafnvel þótt sumir medtaki þad med fagnadi um stundarsakir, Lúc. 8. þá hefir þad ecki altíd svo mikla rót, ad þad færi ávøxt, nema þad sé nært og vøkvad med sífeldri ástundan.

Gud skipadi Israel ad þeir skyldu brýna sitt h. løgmál fyrir børnum sínum, þá þeir sætu í sínu húsi, Devt. 6. En ef svo þótti mikid varda um Løgmálid, sem er nockurskonar deydandi bókstafur, 2. Cor. 3. og eingann kann af sjálfu sér hólpinn ad gjøra, hvad skal eg þá segja um ord Evangelií, sem er kraptur Guds til sáluhjálpar øllum þeim sem trúa, Róm. 1. skyldi þad ecki med allri ástundan kostgjæfa? Edur segid mér, brædur mínir, er þad svo lítid, ad vér megum þessarar Guds gáfu med fridi og frelsi njóta, fyrir hvørja Guds eingétinn Sonur hefir lífid látid, og hans h. píslarvottar eptir hann, til ad stadfesta hans vitnisburd hjá mannanna sonum æfinliga, inn til þess hann kémur? Svo er nú Guds heilagt ord dýrmætt, svo er þad til sáluhjálpar naudsynligt, edur réttara ad segja, ómissandi. Nú vil eg þess géta, ad þetta tímanliga líf, þad er eymdum og andstreymi vafid. Madurinn af kvinnunni fæddur er fullur eymda og fárra lífdaga, segir h. Job. 14. og jafnvel þeir sem heimurinn lætur vel ad þeir una þó ecki á allann hátt vel vid hag sinn, hvar skulum vér fá annad betra rád vid slíku enn í Guds h. ordi? Mørg eru manna mein. Einn hefir fullsælu fjár, en er þó óheill ad líkhamans burdum; ecki gétur góts edur gardar bætt hønum þad, Guds ord verdur ad hugga hann í hans veikleika, svo ad þótt sál og líf vanmegnist, þá læri hann samt af því ad vona á Drottinn, Ps. 73.; máské hann sé og heilbrigdur, en á øfundarmenn, þá eptir hønum sitja, og láta hann ecki í fridi, hvørki nótt né dag; eckert stødugt rád finnur hann vid því í veraldligum munum, edur hjá sinni skynsemi, þótt hann sé all-vitur, því vorir vitsmunir eru hálfverk, 1. Cor. 13. Guds ord skal kénna hønum ad varpa allri sinni áhyggju uppá Gud, hann mun því vel til vegar koma; kanské hann vanti og hvørki heilsu, metord né vinsældir, en þá er hønum næsta hætt ad ecki falli hann í andvaraleysi, nema hann læri ad þeckja sig af Guds ordi; verda má hann gyrnist meira enn hann á, svo sem þad gjarnan fylgir audlegdinni; þad er verra enn vanheilsa líkhamans, því þad er nockurskonar sinnisveikja; vid því géfur Guds ord hønum rád, ad eckert hafi hann inn í heiminn borid, muni því eckert í burtu bera, 1. Tim. 6. læri því ad vera ríkur af gódum verkum, og medbýta hinum naudþurftuga, ef hann vill réttiliga aud sinn brúka; kanské og hann sæki tímanligann munad í audlegd sinni, og segi med hinum ríka: et og dreck sála mín, þú hefir til margra ára samansafnad, Lúc. 12.; en Guds ord minnir hann á, ad hafa sína unadsemd í Drottni, hann muni géfa hønum þad hans hjarta gyrnist, Ps. 37. Annar er heill heilsu sinnar, en hefir skort á líkhamligri atvinnu og veraldar munum, hønum segir Guds ord, ad þegar hann hafi þad hann kunni ad

eta og drecka og klædast med, skuli hann ecki framar umsorga edur fyrir morgundeginum umhyggju bera, Matth. 6.; svo ad hvørn kost mannligs lifnadar sem vér tøkum, þá er Guds heilagt ord bót vid øllum meinum, svo sem Páluſ vottar, ad gudhrædslan sé til allra hluta nytsamlig, 1. Tim. 4. Þetta vil eg nú ecki sagt hafa í þeirri meiníngu, ad þad sé nóg ad heyra Guds ord og læra þad, svo ad menn kunni greinir Ritníngarinnar, og adra frædi utanad, því Guds-ríki er ecki fólgid í ordum, heldur í krapti, 1. Cor. 4. Þad er ecki nóg ad hrósa Guds heiløgum píslarvottum, en lifa þó ecki eptir þeirra dæmi edur kénníngu, þad gengur næst því ad uppbyggja leidi Spámannanna og prýda grafir réttlátra, og segja: hefdum vér verid á døgum fedra vorra, vildum vér ecki hafa verid þeirra stallbrædur í lífláti Spámannanna, Matth. 23. því svo sem ad Páll segir, Róm. 2. ad ecki heyrendur Løgmálsins séu réttlátir, heldur þess gjørendur munu réttlátir verda; svo kallar og Christur þá sæla sem ecki alleina heyra ordid, heldur þá sem vardveita þad, Lúc. 11. en ad vardveita ordid, þad er ad lifa þareptir. Forgéfins vardveita menn ordid í hjartanu, nema þeir láti þad sjá í liferninu, því af þeirra ávøxtum skulud þér þeckja þá, segir Herrann, Matth. 7. Gud lætur rigna hid sama regn yfir korn-akurinn og þyrnibúskinn, en yfir kornid til þess ad því verdi samansafnad í hløduna, en þyrnirinn verdur uppbrendur, Matth. 13. og þó er døggin hin sama; sjái hvør einn til hvørja rót hann hefir í hjarta sínn, til ad taka ámóti hinni himnesku døgg, sem ad er Guds ord, gjæti sérhvør ad, hvad lángt ad þessi vøkvi sígur, og í hvada jørd hann fellur; døggin er gód, ordid er gott, allt þángad til þad kémur í vondt hjarta, og verdur þar ilmur daudans til daudans, 2. Cor. 2. og þeim til fordæmíngar sem eingann ávøxt færa, nema þyrna og þistla, sem til einskis annars duga, enn ad útkastast og í eldi brennast, Hebr. 6.; en eg veit ecki hvørt hún hefir í góda jørd fallid, nema ávextirnir þad auglýsi, Matth. 5. svo lýsi ydar ljós fyrir mønnum, ad þeir sjái ydar gódverk, og dýrki ydvarn Fødur sem á himnum er. Ecki var ad álasa Gydíngum fyrir þad ad þeir ecki kynnu ritníngarnar; Páluſ segir um þá, ad þeir hafi haft ad sønnu vandlætíngu Guds, en ecki eptir skynsemi, Róm. 10; þeir voru bædi skriftlærdir og løgvitríngar, en þó kallar Jesús Phariseos blinda, blindra leidtogara, og ad þeir gleymi því sem mest er í løgmálinu, dóminum, trúnni og miskunseminni, Matth. 23. Sadúcæí þóttust og spekíngar vera, og vildu þrenta spurníngar vid Christ, en Drottinn sagdi vid þá, þér villist og vitid ecki ritníngarnar, Matth. 22. Spekíngar Gydínga sem lifdu á Christi døgum voru í þeirri meiníngu, ad þeir aldrei kynnu ad forgánga edur ílla fara, því þeir væru Abrahams synir, Jóh. 8.; en Jóhannes kéndi þeim þad lángtum ødruvís, þegar þessir hvørutveggju komu til hans skýrnar, þá sagdi hann, Matth. 3.: Þér nødru-kyn, hvør hefir ként ydur ad umflýja tilkomandi reidi? þar fyrir gjørid verduga ávøxtu ydraninni, og segid ecki med sjálfum ydur: vér høfum Abraham fyrir fødur, því máttugur er Gud ad uppvekja Abraham sonu af steinum þessum. Forfedur þessa lýds héldu mikid uppá hid fyrra musterid, er Salómon kómingur lét byggja, og meintu ad þad aldrei skyldi falla, af því ad þeir ecki rétt skyldu Guds fyrirheit; því segir Drottinn Gud fyrir munn Jeremíæ, Cap. 7: Setjid ecki traust ydar á falska hluti, segjandi: Musteri Drottins, musteri Drottins, heldur vandid vegu ydar og gjørdir ydar, og gjørid rétt á milli eins manns og annars, þegar þér

stelid, myrdid, drýgid hór, sverjid falskliga og dýrkid Bal, skyldu þér þá koma og standa fyrir mér í þessu húsi, sem kallad er eptir mínu nafni? og segid: Vér erum óhultir, svo ad þér gjörid allra handa svívyrdíngar. Þessa mæling sinna fedra uppfyltu Israels synir á Christí døgum; þad er alkunnugt af Jósephó, þeirrá eiginn sagna=meistara, hvørsu kapp=samliga þeir héldu uppá musterid, og svo lengi þad stód, vildu þeir ecki þýdast hid rómverska vald; þar fyrir var þad ein høfud=søk hjá þeim, ad tala hid minsta í gégn þessu Guds=húsi, þad sýnir oss dæmi Christí, Matth. 26. dæmi Stephaní, Act. 6. dæmi Páll, Act. 21. hvorjir allir voru fyrir þetta hardliga áklagadir; en ecki ad sídur segir Jesús hér í Gudspjallinu: ydar hús skal ydur í eydi látid verda, þad er, ad hinn voldugi Gud vildi þar ecki lengi inni búa; þad tók til snemma ad rætast, þegar fortjaldid milli musterisins og hins allra=helgasta rifnadi í sundur í pínunni Christí, Lúc. 23. voru og ecki mjøg mørg ár til þess, ad Jósephus skrifar, ad nockru fyrir eydileggínguna hafi rødd heyrst í musterinu, segjandi: Førum burt hédan. Nú vil eg minnast á þad Drottinn segir til Júda, Jer. 7: Farid þér til míns stadar, sem var í Siló, hvar eg lét mitt nafn fyrst búa, og sjáid hvad eg hefi gjørt vid hann fyrir íllsku míns fólks Israels. Þar fyrir af því ad þér gjørid nú øll þessi verk, segir Drottinn, og ad þér heyrid ecki þá eg tala til ydar frá morgni til kvølds, þér gégnid mér ecki þegar eg kalla, þá vil eg gjøra vid þetta hús, sem kallad er eptir mínu nafni, uppá hvørt þér treystid, og þennan stad, hvørn eg hefi géfid ydur og ydar forfedrum, svo sem eg hefi gjørt Siló.

Nú vil eg segja í Guds stad, brædur mínir, gángid þér til hinnar sídari Jerúsalem, og skodid alla þá ólucku sem yfir hana er komin, og hvørsu spádómur Herrans Christí er rættur á henni, ad ei mundi þar steinn yfir steini vera, Lúc. 19. Christur segir: ydar hús mun ydur í eydi látid verda. Hvar fyrir? Því þad ecki var framar Guds hús, þad vottar hann sjálfur skømmu sídar er hann sagdi: skrifad er, mitt hús er bæna=hús, en þér hafid gjørt þad ad ræníngja=bæli. Kristins manns hjarta er í endurfædíngunni uppbygt til þess ad vera Guds musteri. Vitid þér ecki, segir Páll, 1. Cor. 3. ad þér erud musteri Guds? og enn aptur segir hann, ydar líkamir eru musteri H. Anda, Cap. 6. Hvad verdur þá br. m. þegar Guds musteri verdur saurgad? Þad verdur ræníngja=bæli, þegar þad med illum hugrenníngum, ordum og gjørdum, sem af hjartanu framkoma, verdur gjørt ad Satans herbergi, mun þad þá framar vera Guds kyrkja? Þess væri óskandi, ad ecki hendti kristna menn þad sama og Gydínga, ad þeir reiddu sig ofmjøg uppá þad, ad þeir væru skýrdir, gengju til altaris, heyrdu Guds ord í kyrkjunni; allt þetta gjørdu Gydíngar eptir þeirri þjónustu, sem á gamla Testamentisins døgum tídkud var. Þad er ad sønnu Gudi ad þacka, ad færstir á medal vor adhafast þær skammir, sem þeim er brixlad um; fáir slá menn í hel, fæstir leggjast med kvinnu síns náúnga; þeir eru nú ecki heldur svo margir mjøg, sem fundnir verda í opinnberum þjófnadi; en verda má ad margur láti sérhvad af þessu ógjørt, annadhvørt af því ad hann er ecki svo skapi farinn, meir heldur enn af trúnni og elskunni til Guds og kjærleikanum til náúngans, edur og ad vær óttumst mennina, og annadhvørt straff edur ámæli af þeim, og er slíkt eingin dygd fyrir Gudi. Isinn brennur ecki, af því hann er kaldur, og vatnid rennur ei áfram, þá þad er stíflad upp, svo og hefir sá eckert hrós fyrir

Gudi, sem af náttúrunni er sídsamur, og ecki hneigdur til stór-glæpa, og hefir þó sérhvør einn svo mikid íllt í sér, ad hann gétur med þess afláti Gud dýrkad, þad mundi sérhvør einn finna, ef hann gengi nockud skarpliga í rétt vid sjálfann sig, og léti sér ecki nægja skriftargáng Pharisæarans: eg þacka þér Gud, þad eg em ecki svo sem adrir menn, Lúc. 18. Þeir voru sidprúdir menn í útvortis háttsemi, og lifdu hardlífi, en þó heyrum vér þeirra vitnisburd, Matth. 23. af hønum sem vissi hvad med manninum bjó, Jóh. 2. og svo sem þeir þóttust ecki þursa Christs forþénustu vid, svo óttast eg ad menn ydrist nú ecki, nema stórra klækja, en gjöri smá-syndirnar ad hinum stærstu syndum, og kasti þeim ydrunarlaust uppá Guds Sonar hrygg, því hann hafi nógu breidt bakid ad bera þær; þad hafdi sá gódi Herra, er hann var húdstrýktur fyrir mína skuld, sem veit míns Herra vilja, en gjörir hann ecki, og hefi því mørg sløg forskuldad; Lúc. 12. þad hafdi hann þegar hann bar sinn kross út af Jerúsalem minna vegna, sem læt svo illa vid, ad taka hans kross uppá mig og fylgja hønum eptir, er hans því ecki verdugur; Matth. 10. þad hafdi hann þegar hann bar mínar syndir uppá tréd, og lét sitt líf fyrir þær á hinum smánarliga krossins gálga fyrir mig, sem ad svo tregt veitir ad krossfesta mitt hold med þess gyrndum og tilhneigíngum; Gal. 5. en ad hann vilji taka í móti þeim syndunum og kasta þeim í hafsins djúp, sem einn heldur ecki fyrir synd, og ecki þeckir hann þad fyrir synd, jafnvel þótt hann megi þad vel þeckja af Guds h. ordi, ef hann gjæfi sér stundir til ad ransaka Guds vilja og sitt framferdi, því hefir hann ecki lofad og eingu umheitid, ad þær kvittast skuli fyrir hans dauda, nema menn þeirra af hjarta ydrist. Eg tala um þær, sem einn veit og man, því um hinar óvitanligu, hvørra fjølda einginn veit, Ps. 19. vil eg ei ødruvísi tala, en ad einn syndari láti sig af hjarta ángra þad, ad hann gétur ecki í þessu holdi eitt augnablik syndlaust lifad. O Herra Gud! þú hinn heilagi og réttláti, hvør kann ad vita, hvad opt hann syndgar? Allir heilagir hljóta þig fyrirgéfníngar ad bidja, Ps. 32. á þeim degi, nær reikníngskapurinn skal haldast; hvad munum vér þá ecki óhreinir ormar? Gud vertú oss syndugum líknsamur, og hjálpa oss ó Herra! fyrir þína gjæsku, sem ecki vilt syndarans dauda, ad vér lærum ad þeckja vorn saurugleik, og sporna vid syndunum, svo vér mættum med alvarligri ydran og þíns Sonar blódi afþvegnir, vera vissir um fyrirgéfníng vorra afbrota, ádur enn vér førum burt hédan. Þad veiti gódur Gud fyrir Jesú blessadar undir og forþénustu, amen!

## Þridja dag Joola.

Gudspjallid, Jóh. 21 Cap.

**Í þann tíma, sagdi Jesús til Peturs: fylg þú mér eptir. Petur sneri sér vid, og leit hann Lærisvein eptirfylgjanda, sem ad Jesús elskadi, sá er og um kvøldmáltídina hafdi á hans brjósti leigid, og sagt: Herra! hvør er sá er þig forrædur? Þá ed Petur leit nú þennan, segir hann til Jesú: Herra! hvad skal þessi? Jesús segir til hans: ef eg vil hann blífi til þess eg kém, hvad kémur þad vid þig? Fylg þú**

mér eptir. Þá géck sú ordræda á medal brædranna: þessi Lærisveinn deyr ecki. Og Jesus sagdi eigi til hans, hann deyr eigi, heldur ef eg vil hann blífi til þess eg kém, hvad kémur þad vid þig? Þessi er sá Lærisveinn, er um þetta ber vitni og þetta skrifadi, og vér vitum ad hans vitnisburdur er sannur.

## Exordium.

Næst sjálfum Drottni Jesú Christó, og þeim ástgjöfum sem hinn gódi Gud hefir í hönum géfid vondri manneskju, þá er eingin þvílík, svo sem ráð og skilníngur, er hann hefir sálir vorar prýddar med, þau adgreina oss frá villu-dýrunum, gröfunum, eikunum og ödrum sképnum á jördunni. Eg veit ecki í hvörju madurinn væri betri enn hesturinn, nema ad hann stjórnadist af skynseminni, og hvad meira er, ad ein vitstola manneskja, hvörja Gud hefir med fásinnu straffad, hún er öllum ödrum sképnum midur á sig komin, hvad oss sem heilvita erum fyrir Guds þolinmædi, ætti ad þrýsta til þess ad brúka dýrgrip þennan til lofs og dýrdar hönum, er hann oss géfid hefir. En Gud nádi ad þar vill vera stór brestur á hjá all-mörgum og hjá flestum, og eg má segja hjá öllum nockur, svo ad David hefir nóga orsök til ad taka syndugum mönnum vara fyrir, ad ecki líkist þeir hestum og múlum, hvörjum menn verda beitsli og bitil í munn ad leggja, Ps. 32. Og samt þykjumst vér allir nógu vitrir, og erum nógu framvögdir í því skada ad gjöra, í því ad dæma um adra, en ecki um sjálfa oss, í því ad leita eptir því sem vort er, en ecki annars, þvert ámóti Postulans bodi, 1. Cor. 10. svo þad gengur álíkt því er hann í ödrum stad segir, ad menn eru börn í skynseminni, en ecki í hreckvísinni, 1. Cor. 14. eg meina í hinni réttu vitsku, sem Ritníngin svo kallar, og þarí er fólgin, ad þeckja Gud og sjálfann sig, og veldur þad því, ad menn láta sér vera svo ant um þad, ad hnýsa um annara manna háttu, ad menn géfa sér ecki stundir til ad rannsaka sína eiginn, hvörju þó eckert er þarfara í voru sáluhjálpar verki, og er þessi spilling náttúrunnar svo rík í mannligu holdi, ad grein af henni hefir stúngid sér út, jafnvel hjá Guds ástvinum. Dæmi höfum vér á hinum h. Petri í upplesnu Gudspjalli; en uppá þad ad menn vita skyldu ad þvílíkt er synd, já, ein synd sem margt íllt af sér leidir, sem sídar mun sagt verda, þá átaldi Drottinn þennan sinn Lærisvein nærsta hardliga og röksamliga fyrir þetta. Nú þótt ad skaplöstur þessi sé ecki hinn minsti ávöxtur spillíngarinnar, þá viti menn þó, ad Gud er svo vís, og svo máttugur í breiskleikanum, ad þar er eckert í náttúru mannsins svo íllt, ad hann kunni ecki gott af ad gjöra, því ad tilhneigíngarnar voru í öndverdu gódar og af Gudi skapadar, vanbrúkunin gjörir þær skadligar; en þiegar þær verda hreinsadar fyrir endurnýúngu H. Anda, þá kunna þær enn-nú allar Gudi ad þjóna til vegsemdar, og endurgétnum manni til sáluhjálpar. Þar fyrir, ad svo sem forvitnin er skadlig og háskasamlig, ef henni er beitt í þeim hlutum sem Gud hefir bannad, svo er hún þörf og gagnlig, sé hún brúkud til þeirra er hann bodid hefir. Eg vil um hvörttveggja tala med fáum ordum, eptir því sem Gud géfur nád til; hvar til hann styrkja vyrdist, med krapti síns Anda í Jesú nafni, Amen!

## Utleggíngin.

Fáa leidir gott af forvitninni, segir ordsháttur gamall; vér höfum nockrum sinnum heyrt, ad þær syndirnar er vér minstar höldum, þær kunna ad verda ad þeim stærstu, veldur þad því, ad menn bidja Gud ecki mjög ræktiliga fyrirgefníngar á þeim, eins og ad hann sé skyldugur til ad halda oss þad til góda, sem vér ecki misvyrdum á sjálfum oss, og gengur þad eins til um þetta, og um litla skeinu á líkhamanum, þá er vér forsmáum, ad hún verdur optliga ad lífs og tíma tjóni, sé ecki vid gjört; en þad má kunnugt vera, ad þessi ókostur er ecki haldinn fyrir neina synd af mörgum, og þó kanské fyrir dygd, fyrir ágjæti, fyrir

kostgjæfni, fyrir framsýni, og hinir sem hana ecki æfa, fyrir óþocka og ráðleysíngja. Væri nú þetta einginn stór-synd í ødru, þá er hún þó í því, ad hún ecki er haldin fyrir synd, því eins kann ein lítil synd ad fordæma manninn fyrir Guds stránga dómi, svo sem ein stór, og verda þær þó þýngstar sem aldrei verda þecktar né med alvarligri ydran afþvegnar; þad sýnir oss dæmi Pharisæans og Tollheimtumannsins, hvør ed fór réttlátari hinum aptur í sitt hús, Lúc. 18. Nú er þessu þó ecki svo varid um forvitnina, ad hún sé lítil synd, og hafi menn ecki annad til dæmis, þá skygnumst eptir því, hvørnin syndin fyrst inn kom í heiminn. Páll segir oss þad hafi skéd fyrir einn mann, í hvørjum allir syndgudu, Róm. 5. Med hvørju móti var þad? Ritníngin greinir um þad nógu skýrliga hvørnin Djøfullinn sveik vora fyrstu foreldra, sem er, ad þau skyldu fá gyrnd til ad þeckja hid illa, og forsmá Guds bodord, í því ad vita hvørnin eplid smackadi, og ad verda Gudi lík, Gen. 3. Segid mér br. m. er ecki af þessari forvitni komin øll synd, og daudinn sem er hennar verdlaun, innrunninn til allra manna? Róm. 5. Bid eg ydur því ad athuga, sem kristnir heita viljid, ad ef agg, reidi, þræta, øfund, ágyrni, drambsemi, manndráp, hórdómur, frillulifnadur, afgudadýrkan, gudlastan, Gal. 5. og adrar skammir sem steypa syndaranum í eylífa gløtun, ef þetta, segi eg, eru ókostir haldnir ydar á medal, hvørt ad forvitnin sem eg hefi sýnt, og enn þá framar skal sýna, ad sé módir alls þessa, sé gódur kostur edur svo lítil synd sem hún af almenníngi haldin er. Ad sønnu er þad satt, ad vér í eingann máta eigum vorum fyrstu foreldrum ad álasa, því þau brúkadi Gud til þess medals, ad vér sem nú lifum, kynnum ad verda hluttakandi hans gjæsku; þó verdur því ecki mótsagt, ad þessi þeirra forvitnis synd, hún var hin stærsta synd, sem af mannkyninu hefir framin verid; allar syndir sem sídan gjørst hafa, þær eru ad sønnu ámóti Gudi gjørdar, þó menn fremji þær vid náúngann, en þessi stefndi réttlínis á Guds dýrdarfullu hátign; allt hvad menn nú syndga, þad syndga menn af breiskleika edur illsku náttúrunnar, hvørrar þánkar eru vondir í frá barndómi, Gen. 8. en þau voru heilög sköpud, og þar þau voru svo dýrdlig sköpud, þá gátu þau audveldliga haldid Guds bodord. Eg má ei fá mer þad til orda, ad þau steiptu øllum sínum eptirkomendum í tímanliga eg eylífa ógjæfu hér med, því Guds óumrædilig gjæska sem hefir fyrirgéfid þeim, hefir géfid mér og øllum ødrum stór-syndurum nóg medal, í síns eingétins Sonar dýrmætum og saklausum dauda, til ad fá þetta endurbætt oss til sáluhjálpar og miskunar; en hitt vil eg bidja ydur ad hugleida, hvørt ad Gud, sem vegna síns réttlætis straffadi svo hardliga þessa synd, forvitnina, á vorum fyrstu foreldrum, hvørt hann segi eg, muni kalla hana góda á oss, sem valla køllum hana synd ad vera. Nú svo sem ad þessi synd var í upphafi orsøk til allrar mannsins óluckn, svo er hún enn-nú til hvørrar syndar, ef menn rétt ad gá; af henni sprettur allt ránglæti mót Gudi, móti sjálfum oss og móti náúnganum. Andskotinn sagdi í fyrstu vid konuna: Gud veit, ad nær sem þid etid af eplinu, þá munu upplúkast augu yckar, ad þid verdid svo sem Gud er, skynjandi gott og ílt, Gen. 3. Hér af kémur forvitni sú, ad menn vilja ecki láta sér nægjast med þad, sem Gud hefir opinberad oss í sínu h. ordi til sáluhjálpar, hvørnin vér eigum ad trúa, hvørnin vér eigum kristiliga ad lifa, heldur gjøra sér adskiljanligar grillur um Guds

fyrirhyggju, um hans veru, um þær þrjár persónur, um þau h. Sacramenta og margt annad, sem Guds speki hefir ei unt syndugum mönnum grant ad þeckja, og hefir þó allt þetta svo berliga auglýst hvörjum heilvita manni, sem ecki forsmáir uppfrædínguna, ad hann má þar vel vid una og hólpinn verda; en þeir sem þá vilja forvitnir vera, þeir hafa lært þad af Fjandanum, ad láta sér ecki nægjast med Guds gjöf, heldur eyda gódum gáfum og tímanum, sem Gud hefir gefid til ad rækja sína sáluhjálp og ad kénna ödrum, til þess ad skygnast inn-í Guds leyndardóma, og hid óransakanliga djúp hans guddómligrar speki, líkir Bethsemítum, hvörjir af forvitni skygndust inn í örkina, og urdu þar fyrir af Gud slegnir mörg þúsund manna, 1. Sam. 6. Svo eru og margir af hinum med blindni slegnir, því Drottinn hefir höndlad þá í þeirra slægvitsku, og hann veit ad þrætur vitrínganna eru hégómi, 1. Cor. 3. eins og Gud, sá sem vill ad allir menn verdi sáluhólpnir, 1. Tim. 2. hefdi ekki gjört þetta ljósara, hefdi hann vitad þad mundi manneskjunni vera haganligra til sálar-nota; og þannin er nú forvitnin þeim skadlig, er sig hyggna og lærdasta kalla, hvar af öll vantrú, öll hjátrú, afgudadýrkun, mannasetníngar, já allar trúar-villur og Andskotans evangelíum er innkomid i heiminn; og hvör vill þá segja ad forvitnin sé ein lítil synd? Og þannin vanvyrda menn nú Gud med þessu er vér speki köllum, og syndgar svo forvitnin ein-midt ámóti hönum, en ei gjörir hún þad minna ámóti sjálfum oss og náúnganum, þótt ecki eigum vér svo sök þar á, þar vér erum ecki vorir eigin herrar; Gud á alla sökina, samt lendir skadinn hjá oss, hönum kunnum vér eckert íllt ad gjöra med forvitninni. Vær komustum ei lengra þarmed, enn hinir er ætludu ad byggja sér turn upp undir himininn, Gen. 11. sjálfum oss er hún verst, og svo náúnganum.

Þegar Djöfullinn hafdi smeigt því inn hjá konunni ad óvyrda Gud, þá flaug henni þad strax í hug ad vita hvörnin eplid smackadi, og ad locka manninn til syndarinnar, Gen. 3. Svo gjörir hann enn í dag, þegar hann fær skotid í hug mannsins, ad agta Gud lítils, af því hann skilur ecki allt hans ráð, og þar kémur ei strax hefnd yfir vondar athafnir, þá hefir hann búid sér rúm í hans hjarta, til ad forvitnast um þad, er hann skilja kann, sem er um hagi náúngans; eingin á meiri plágu enn sá, er þessum sjúkdómi er undirorpinn. Hvör er vesælli enn sá, hvörs hjarta ad Djöfullinn hefir med ágyrni inntekid? En mun nockud hinn ágjarni géta verid án forvitni? Hann spyr alla vegana eptir því, hvörnin ödrum gángi, hvad um þeirra eigur lídi, hvörjar útréttíngar þeir hafi, ecki til þess ad samfagna þeim, ef þad er vel, edur ad sampínast, ef þad er illa, heldur ad hann megi svæla undir sig á einhvörn hátt eigur þeirra, edur hindra þeirra útvegur sér til ábata, takist hönum þad ecki, þá legst hann uppá sængina eins og Achab, 1. Reg. 21. og unir ecki vid nema hann fái Naboth í hel komid. Öfundina gétur forvitnin af sér, og hún fóstrar hana. Eingin öfundar annan fyrir þá hluti sem hann ecki af veit, en þad er plága hins öfundsjúka, ad hann gétur ei lifad án þess ad forvitnast um hag síns náúnga, jafnvel þótt eingin drepsótt sé hönum þvílík, svo sem ef hönum lídur vel, og lídi hönum illa, þá er hönum þad ad sönnu ein stundar gledi, en heldur þó jafnan spurnum fyrir, hvört þad muni ecki midur vera, og sé þad ei, líkar hönum illa; eins er hann og Andskotinn, hönum þykir vænt um mótgáng manneskjunnar, en samt er hann þó eins vesæll. Hinn drambláti er

forvitinn, því hann er ærugýrugur, hann spyrst fyrir, hvort nockrum sé meiri lotníng veitt enn sér, og finni hann brest þar á, þá eirir hann því ekki betur enn Haman, þá Mardochæus ei vildi heidra hann eins og adrir, Esth. 5. Og er þetta ein stór ólukka, ekki einasta þeim sem verda fyrir skadanum og ofbeldinu, heldur og hinum, er ala þessa óvætti í hjarta súm og má þann med réttu djøful-ódann kalla, sem af þessum þremur Andskotans einglum er plágadur, því hvør þeirra hefir heila sveit djøfla, þad er skamma og lasta, og er forvitnin þeim svo handgengin, ad þeir verda ad brúka hana til allra sinna útréttínga í Satans erindum. Hvør er sú ólukka manna á medal, sem reidin og heiptræknin ekki af stad komi? Sundur-þykkja, twídrægni, mord, mannsløg, stríd og blóds úthellíngar, mun þad ekki allt af henni koma? En hvad segir hinn vísi Seneca hér um? Viljir þú ekki heiptrækur vera, þá vert ei hnýsinn. Þad er margra manna háttur, ad þeim er mikil forvitni á ad vita, hvad um þá er talad og rádslagad, en slíkt er stór þrældómur og fávíslig ordsýki, þvíad soddann menn skal aldrei vanta einn hræsnara, einn lygara, sá ed beri í eyru þeirra falskar søgur, róg og bakmælgi, hvørt ad ablar stórs óróa í hjartanu, en hjálpar ekkert til erindanna framkvæmdar, og lætur optliga þann, er géfinn er fyrir slíku, taka uppá sig óþarfa mædu og umhyggju; og þótt menn forsvari slíkt med því, ad menn hljóti ad forvitnast um rádagjørdir óvina sinna, þá er þad einskis vert, því forvitnin, hvørsu forvitin sem hún er, skal aldrei fá ad vita helmínginn af því sem satt er, og þótt hún fengi, þá vill þad abla manninum lángtum meiri ókyrrleika í hjartanu, heldur enn vareigdar edur framsýni, og er þúsundsinnum betra, ad kosta þeim tíma, er menn brúka til hégómligrar forvitni, og til ad vita hvad hvør her-kéllíngin um hann talar, ad brúka hann, segi eg, til kostgjæfni og ástundunar í sínu kalli og embætti, og ad varpa sinni áhyggju uppá Drottinn, Ps. 55. því hitt mætti æra, ekki einúngis óstødugann, heldur og þann sem annars væri nógu rádsettur, þar verøldin er full af hrekkvísi, ótrú og óþakklæti, og er eingin vísdómur lakari, já, eingin heimska heimskari, enn sú, ad vilja allt þetta vita; þad er eins og ef nokkur hefdi yndi af því, ad hafa møk vid ófreskjur og ekki manneskjur. Hvad gjørum vér oss í lund? Munum vér ætla þad, vér munum med Einglunum búa, edur heiløgum mønnum, og vitum vér ekki ad þeir eru flestir sem unna sjálfum sér best? Torsókt mun þad, ad venja ilskuna og varmenskuna af því aldeilis; þar fyrir, þótt ad nokkur væri svo fjølkunnugur, svo sem í skrok-søgum segir, ad hann kynni ad gjøra sér einn speigil, í hvørjum hann sæi alla bakmælgi, róg, lýgi, á-austur, rádagjørdir, vondar óskir, vanþakkir, ímisliga dóma um vorar athafnir og lífernis háttu, suma sanna, suma logna af þeim, sem þó eru jafnvel miklu verri, ef einhvør, segi eg, sæi þetta í einum speigli og horfdi þar í litla stund, þá mundi hønum ofbjóda, sérdeilis þeim, er miklu á vid ádra ad skipta, og kasta speiglinum í burt ef hann heilvita væri, og yrdi því hvad fegnastur ad hann aldrei aptur í hann liti, nema hann vildi vera eins og Ismael, ad hans hønd væri á móti hvørjum manni og hvørs manns hønd á móti hønum, Gen. 16; úlfur af manni, og eins og Nebúchadnezar stallbródir varganna, Dan. 4. og þessir hlutir er menn leitast svo mjøg eptir ad vita, eru þó optast eins og þytur í skógi, hann varir ei leingi, eins rennur lýgin aptur þegar sønnu mætir, og væri þá betur heima setid, enn farid til ad mannspilla sér og hefna

á ödrum þeirra hluta sem dodna af sjálfum sér eins og sveppurinn þegar hann er fullvaxinn, og breyti menn ödruvís, þá ala menn illgyrni annara med forvitninni og grunseminni, er henni fylgir ávalt, svo sem skugginn líkhamanum, því þad er hásti ad erta íllt skap og samvitskur vondra manna, hvörjir ed láta opt:af, ef þeir meina ad stráksskapurinn sé dulinn, en ætli þeir ad hann uppvís sé, þá drífa þeir íllt út med illu, svo framt þeir megna, þar þeir vita ad þeir ecki eiga til góds ad gjöra. O! hvad miklu betra er rád Salómons í því, ad láta sem menn sjái ecki órétttinn, og safna svo glódum elds yfir höfud óvin sínum, til ad færa hann á rétta leid. Tvær dætur hefir forvitnin, sem menn leika vid eins og smá-börn edur hvelpa medan þær úngar eru, en þegar þær vaxa upp í mannsins hjarta, og hafa lengi sogid módurina, þá verda þær skiædir gripir, þad er grunsemin og trúgyrnin, svo líkar systur, sem þær eru skyldar til. Sá ed misgrunar hvörn mann, getur aldrei nockurn trúann átt, þvíad þess trúrri og dyggvari ad einn er, þess heldur gremst hönum þad, ad hönum sé illa trúad, þar ed hann ecki til þess vinnur. Medal annara sýnir oss þad dæmi Jsbozeths Jsraels konúngs, 2. Sam. 4. hvör ed misti bædi ríkid og lífid fyrir þad, ad hann misgrunadi Abner um legord med Rispa frillu Sáls konúngs födur síns, 2. Sam. 3. þegar mágur Samsons tortryggdi hann um, ad hann mundi ætla dóttur sinni einlæti, þá olli hann því, ad Samson uppbrendi Philisteanna akurlönd med refunum, Júd. 15. Og svo skédur þad tídt, ad nær einn ærligur madur er misgrunadur, tekur hann sér uppá refs-ham, og gjörist ad þeim sem hann er ætladur ad vera. Þúsund má finna dæmi til þess, bædi í Ritníngunni og annarstadar, og þar ad auki er hún ílls hugar viti, því segir Plautus skáld um módurina, ad þar sé einginn forvitinn nema ad hann sé undir eins illgjarn; en Chrysostomus, ad einn gódur madur ætli skjaldan ödrum íllt, og skjaldan ætli sá góds af ödrum sem er vondur sjálfur, þetta er hvörju ordi sannara, og sannast hér hid fornkvedna: ad margur ætlar mig sig, og mátuliga dyggvann; og svo sem ad hann, ed hefir sár eda örkumsl á líkhamanum, hann hryllir vid ef nockur kémur þar nærri, þótt aldrei snerti hann þad, svo ætlar hinn grunsami alls ílls til allra, jafnvel þeirra sem hönum eckert íllt gjöra vilja, edur gjöra kunna, af því hann er sjálfur sér ílls medvitandi. J einu ordi ad segja: hún gjörir einn konúng ad týranna, einn húsbónda ad bödli, einn þénara ad drottins svikara; hún er sáttarspillir millum hjóna, millum fedgina, millum brædra, millum gódra vina, og eru til þess óþrjótandi dæmi, og daglig reynsla kénnir þad; og er þó trúgyrnin hálfu verri, svo þad er satt, sem í fornvísunni stendur: eingum ad trúa ecki er gott, öllum hálfu verra. Eg veit ecki hvört ad Andskotinn á nockurt sárbeittara píslarfæri enn trúgyrnina, hún er tvíeggjad sverd, og skadar beggja vegna, bædi þann sem trúir öllu, og hinn, sem logid er á; ránka má oss vid því, ad Eva trúdi höggorminum, og Adam henni; fyrir talhlýdni Potiphars mátti hinn saklausi Jóseph í vardhaldi gista í mörg ár, Gen. 39; fyrir talhlýdni Davíds tapadi Mephibózet hálfum akrinum, 2. Sam. 19. og var hann þó sonur hans besta vinar; fyrir trúgyrni Assveri konúngs hafdi allur Jsrael nærri því lífid mist, Est. 3. og auk þessa, þá getur ecki hinn talhlýdni hjá því sneidt, ad vera allra þeirra narri sem ad hönum ljúga, hvörsu vitur sem hann annars er, því einginn er trúgjarn nema hann sé og málugur, en mælgin er teikn heimskunnar; þess getur Salómon,

Prov. 29. segjandi: sástú málugann mann, betri von er á einum vitfirríng enn á hönum, og aptur Cap. 17. ad jafnvel einn heimskíngi ef hann þegir, sé vitur haldinn; allt þetta kémur nú af forvitninni sem ádur er sagt, og hefi eg nú svo útmálad þetta skrímsli ad nockru leiti, en þó hvörgi nærri svo sem hún reyndar er.

En nú viljum vér í hinni sídari greininni skoda hvörnin vér kunnum ad gjöra þennan ókost ad hinum besta mannkosti fyrir nád Guds og adstod Heilags Anda. Þad er vitanlegt brædur mínir, ad hinn fyrsti og beinasti vegur til allra dygda og mannkosta er sá, ad þeckja sjálfann sig, en sá sem forvitnina brúkar til þess ad ransaka sitt eigid hjarta, sín ord og athafnir, hann mun sídur skignast um annara efni, og er þá líkast ad hann kvittur verdi vid alla þá ókosti og óróa, er eg upptaldi í hinum fyrra partinum; svo sem madur ecki fær sédann sinn yfirlit í því vatni, sem er af vindinum uppblásid, heldur nær þad lygnt er, svo er og ómöguligt, ad sá kunni sjálfur sig ad þeckja edur ransaka, sem eckert annad gjörir, enn ad forvitnast um annara hagi. Þad eru dýrmæt ord sem Frelsarinn taladi fordum: Matth. 7. þú hræsnari! drag fyrst út bjálkann úr þinu auga, og sjá til sídan ád þú fáir útdregid flísina úr þíns bródurs auga. Þar er í mannligri náttúru nockurskonar þótti, ad vér metum sjálfa oss meira enn adra, hann kémur af eingu meira enn því, ad vér ransökum annara háttalag meir enn vort eigid, má þad þó vita sérhvör einn, ad hvörsu sem hann vera þykist kostum búinn, þá er hann þó ecki öllum betri, og hendir oss í þessu þad sama og stjörnumeistarann fordum, ad á medan hann var ad sjá eptir himin-túnglunum og góndi upp í loptid, féll hann í grifju eina sem vard fyrir fótum hans. En vitid þad br. m. ad allur vísdómur, svo sem ad þeckja stjarnanna gáng, náttúru grasanna, steinanna, fuglanna, fiskanna, þad er fávitska hjá því ad þeckja sjálfann sig, og þess er öllum þeim unt, sem Gud hefir géfid heila rænu; þad er ecki í ödru fólgid, enn ad bera sinn lifnad saman vid Guds vilja, sem bædi er innskrifadur í vor hjörtu, Róm. 1. og oss kristnum mönnum þráliga opinberadur í hans heilaga ordi, en því gleymum vér, og teljum oss þad *til ágjætis* sem lítils edur einskis er vert, edur vanbrúkum þad sem mikils er vert; enn hvad er þad þó er vér kunnum ad virda svo mikils á oss, ad vér forsmáum adra? Þad eru annadhvört luckunnar gjædi edur náttúrunnar edur nádarinnar. Eg vil einn formála hafa fyrir öllu þessu, og þann sem Páll 1. Cor. 4. hefir fyrir þeim, er stærdu sig af andans gáfum: Hvad er þad madur, ad þú ecki þeigid hafir, og fyrst þú hefir þad þeigid, því stærir þú þig þá, svo sem þú hefdir þad ecki þeigid? Um luckunnar gjædi, aud og metord vil eg fátt tala; þad er almenníngi kunnugt, ad einginn verdur af þeim ágjætari, margir verri, og er dárligt ad hrokast upp af því sem hlotnast kann hinum versta manni; og hid sama má segja um náttúrunnar gáfur, þótt þær séu gódar, þær eru útvortis eda innvortis; útvortis er abl og fríðleiki, en um hreystina er þad ad segja, ad asninn og uxinn eru enn-þá sterkari, og séu þeir betri fyrir þad, þá mætti sá öfunda þá, sem ödrum fremur þykist fyrir ablsmuna sakir; en hvad fríðleikanum vidvíkur, þá eru rósinn og liljan miklu fagri, enn hin vænsta jómfrú, því lausnarinn segir, Matth. 6. ad Salómon í allri sinni dýrd hafi ecki svo skrýddur verid sem þær, og er þó vitanligt, ad Gud hefir meira lagt til hins ljótasta manns; og hvörnin sem því er varid, þá er þad óviturligt, ad þeckja ecki sjálf-

ann sig af metnadi þess hlutar, sem einn kvilli gétur í burtu frá oss tekid, og ellin ad vísu rænir alla þá er hennar bída, en daudinn annars; innvortis gjædinn er Gud hefir prýdt oss med, eru vitsmunirnir, þeir eru hinn ágjætasti hlutur, ef þeir eru til góds brúkadir, og þó allra helst til ad þeckja Gud og sjálfann sig, en sá ed þad gjørir, hønum er ecki hætt vid ad forvitnast um annara manna rádslag edur háttsemi, hann hefir nóg ad gjøra, ad ransaka hvad hann hafi hvørn dag Gudi á móti brotid, og þenkja sig um, hvørnin hann megi fá þad kvitt hjá hønum, og leidrétt framvegis. Í þessu og ødru þvílíku skyldu menn æfa forvitnina br. m., í stadinn þess ad hnýsa eptir náúngans háttum hønum til meins, en sjálfum oss til einskis frama, og verdur hún þá ad hinni bestu mannprýdi og vegur til allra gódra dygda. Nádarinnar gjædi eru hinar andligu dygdir, trúin, vonin, þolinmædin og kjærleikurinn, sem er mestur af þessum, segir Páll, 1. Cor. 13. og svo þeir ávextir sem hér af spretta. Menn vilja vel segja, ad slíkt géti menn ecki vanbrúkad, því þad sé Guds Anda verkan í oss, en gjætum þess, ad svo sem ad Gud kann ad gjøra gott af illu, svo kann Andskotinn ad gjøra íllt af gódu. Eg heyri ad Páll í hinum fyrra pistli til Corinthíos og hinum þremur fyrstu Capitulum deilir á þá kristnu í Corinthó, vegna þess, ad þeir stærdu sig af andligum gjædum; eg heyri ad Phariseanum var þad til ránglætis reiknad, ad hann sagdist ei vera svo sem adrir menn, Lúc. 18. Hvad olli því br. m.? Vanþeckíngin á sjálfum sér, en forvitnin um tollheimtumanninn, er hann þóttist vita syndugri sér ad vera, sem þó fór réttlátur framar hønum í sitt hús. Þad er ad sønnu mesti dáraskapur, ad vilja stæra sig af lukkunnar og náttúrunnar gjædum svo sem ádur er sagt, en þó er sá enn meiri, ad hroka sér upp af því sem nátturligir kraptar ekki í oss verka, heldur kémur án þeirra réttlínis frá Gudi, og er sú vísust von, ad hann svipti þann sínum gáfum, er svo illa med þad høndlar. Þú segir: hann tekur ekki þad góda frá manninum, því þad er honum þóknanligt; eg játa þad satt ad vera, en þad sem Guds nád hefir verkad gott med oss, þad er ekki lengur gott, þegar madurinn tilreiknar sér Guds gjørníng, en þad gjøra allir þeir, ed ødrum betri þykjast, og ekki forvitnast um sjálfa sig, hvad mikid þá vanti á þá skyldu er þeir eiga hønum ad gjalda, og kalla sig góda af því ad adrir verri eru, ad þeirra hyggju. Mun nú ekki Gud reidast slíku, þegar hans gáfur eru þannveg til metnadar brúkadar? Jú, meir enn hinum er vér køllum stór-syndara. Vér sjáum í eptirlíkíngunni, Matth. 25. ad pundid var tekid frá hønum sem ekki vildi leggja þad á mángarans bord, hvad eigum vér þá ad ætla um hann sem fer svo illa þar med, ad í stadinn þess, ad hann átti ad þjóna Gudi med því í audmýkt síns hjarta, þá slæst hann í lid med Fjandanum, er var í øndverdu hinum bestu gáfum prýddur, en þess géldur hann enn í dag, og mun ad eylífu gjalda, ad hann upphóf sig á móti hønum er hann hafdi svo dýrdligann skapad, svo munu og allir þeir ed hønum í þessu eptirfylgja. Hvør hefir meiri Guds dýrkari verid enn Salómon? 1. Reg 11. og þó vard hann straffadur med fásinnu. Var ekki Jehú hinn mesti vandlætari vegna Guds yfir Achabs húsi? 2. Reg. 9. þó vard hann ofurseldur í fráleitt sinni, 2. Reg. 10. Gjørdi ekki Júdas kraptaverk med hinum lærisveinunum? Matth. 10. og þó eru hans afdrif mønnum kunnug. Og kann þad ekkert þvílíkum mønnum ad gagna, hvad leingi og hvørsu vel sem þeir hafa Gudi þénad, því

nær þeir sem bestir vera þykjast, og ætla sér einskis ábótavant, þá verda þeir eins og smá-börn, þau er rífa þad sjálf í sundur er þeim vænst um þykir, svo verdur fyrir hinum, ad þeir hafa þess einginn not, er þeir hafa þó máské kostad miklu erfidi til, þegar þad skýn ofsagurt í þeirra augum, af því þeir ecki forvitnast um sjálfa sig, edur hugleida, ad þótt þeir gjørdu allt þad þeir ættu ad gjøra, þá ættu þeir samt ad kalla sig ónýta þjóna; Lúc. 17. og ecki einasta missa menn launinn hér fyrir, svo sem Endurlausnarinn segir um þá ed gjøra gódverkinn sér til hrósunar, ad þeir hafi sín laun úttekid, Matth. 6. heldur verda menn og þar fyrir eylífliga straffadir, því einginn mun þvílíkur reikníngsskapur mæta oss í dóminum, svo sem misbrúkun Guds nádar; en í sannleika þá er einginn hennar misbrúkun stærri enn sú, ad brúka hana þvert á móti því, sem hún er oss géfin til, þad er, til ad audmýkja oss og lítilæcka, en ad prísa Fødur ljósanna, frá hvørjum ad øll gód gjøf og øll fullkomin gjøf kémur. Jac. 1. Um allt þetta talar Drottinn Gud med skélfiligum ordum, Ezech. 18. segjandi: ef hinn réttláti í burtu snýr sér frá sínu réttlæti og breytir vondsligana, og lifir eptir øllum þeim svívyrdíngum, sem hinn ógudligi gjørir, skyldi hann lifa? Já, allt hans réttlæti sem hann gjørt hefir, skal ecki í minni leggjast, heldur skal hann deya í øllum hans misgjørdum og syndum, sem hann gjørt hefir; en eingin er meiri synd, eckert ránglæti meira, enn ad ræna Gud því sem er alleina hans, þad er, hid góda sem hann hefir verkad med oss, en brúka þad til ad forsmá adra. Sjáum því til, ad Andskotinn ræni oss ecki, 2. Cor. 2. og forvitnumst um hagi vora, hvørt ad vér finnum í hjarta voru þótta nockurn, þad vér séum betri í vorum augum, enn adrir þeir ed vér køllum verri, því þótt þad vera kunni, þá er þad ecki oss ad þacka, heldur þeirri Guds nád sem med oss er, 1. Cor. 15. og ef vér finnum soddan hugrenníng, þá drepum hana strax med íhugun vors eiginn óverdugleika, og látum svo þennan veikleika náttúrunnar verda ordsøk til ad bligdast fyrir Gudi, af hvørs nád vér erum þad vér erum, 1. Cor. 15. og þad er ecki oss ad þacka, þótt ei sé hún ydjulaus í oss. Og þegar vér nú høldum reikníng vid sjálfa oss, þá berum oss ei saman vid hina, sem vondir eru; mun þad nockud bót fyrir þig, þótt annar sé verri? Þad heitir svo sem hinn latínski ordsháttur segir: ad hinn glámskygni drottnar á medal hinna blindu; heldur viljir þú í mannjøfnud fara, þá ber þig saman vid Enoch, sem var uppnuminn, Gen. 5. vid Nóa réttlætisins prédikara, 2. Pet. 2. vid Abraham fødur trúadra, Róm. 4. vid Mósen, er var hinn þolinmódasti madur á jørdunni, Núm. 12. vid Elíam, 2. Reg. 2. vid Jóhannem Baptistam, Matth. 11. vid St. Pál, hvør þó er svo mjøg áhyggjusamur um velferd sína, og eckert treysti sínu réttlæti, Phil. 3. O Herra Gud! hér kémur mér í hug þad, er Petur segir: 1. Pet. 4. ef hinn réttláti verdur naumliga hólpinn, hvar mun þá byrtast hinn ógudligi og syndarinn? Ef St. Páll þóktist vidþurfa, ad verka sína sáluhjálp med ugg og ótta, Phil. 3. ó! hvad hræddir og skjálfandi mættum vér þá vera, sem dagliga inndreckum ránglætid, svo sem jørdin vatnid, Job. 15. og því kalla eg þad óska-rád ad vera, sem hann géfur Corinthu-borgar mønnum: 2. Cor. 13. Ransakid sjálfa ydur, segir hann, hvørt þér erud í trúnni, prófid sjálfa ydur, þeckid þér ydur ecki, ad Jesús Christus býr í ydur, nema þér séud rækir ordnir. O! hvad stór þørf er syndugri

manneskju á sliku í útlegd þessari; vitid þér ecki, brædur mínir, ad daudinn stendur jafnan fyrir dyrunum, og ad hvørs eins dauda-dagur, er hans dóms-dagur? Jú, þad vitid þér, því eru menn þá svo óforvitnir um sitt háttalag í andligum efnum? Margur ætlar þad kanské, ad ef samvitskan ecki nagar hann eda klagar um neina stór-glæpi, ad hann hafi vitnisburd Andans um þad, ad hann sé Guds barn; Róm. 8. en því er ecki svo varid altíd, því eínginn er svo heilagur, ad hann ecki hafi nóga ordsøk til ad afbidja syndir sínar og gráta þær fyrir Gudi; þeckíngarleysid á syndunum og tómlætid í því ad ransaka sitt hjarta, þad veldur því, ad samvitskan finnur svo lítt til þeirra, og sefur hún þá, og má þad eínganveginn góda samvitsku kalla. Einn stórbrota-madur, sem af hjarta ángrar sínar illgjørdir, er miklu betur á sig kominn enn hinn, sem hvørki er heitur né kaldur, því Gud vill skirpa hønum út af sínum munni. Apoc. 3. Og hvad miklu betur var farid hinni bersyndugu, sem ad laut bak til ad fótum Jesú, og þvodi þær í sínum tárum, og þerradi med hár-lockum sínum, kysti þær og smurdi med dýrmætu salvi, heldur enn hræsnaranum, er sagdi í hjarta sínu: ef þessi væri Spámadur, þá mundi hann vita hvør sú kona væri, er snertir hann, ad hún bersyndug er; mun ecki þessi sjálfbyrgíngur hafa skammast sín, þegar Drottinn sagdi: henni fyrirgéfst mikid, af því hún elskadi mikid, og hann sagdi til hennar: þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, þín trú gjørdi þig hólpna, far í fridi! Eg kann ecki annad ad sjá, enn ad þetta var stór skeinkur, og þessi smýrslinn voru betur launud, heldur enn þótt hann hefdi géfid henni øll ríki veraldarinnar. En eg vil hér um segja, svo sem Páll um sig talar: Þess vegna hefir hann mér miskunad, segir hann, ad hann sýndi á mér alla stærd miskunar sinnar, þeim til dæmis, er á hann trúa mundu. 1. Tím. 1. Allir eigum vér hins sama von og kvinna þessi, ef vér látum oss af hjarta ángra syndirnar, en þad kann ecki ad ské, nema vér smásmugliga ransøkum hin instu fylsni vors hjarta, og er þessi forvitni, sem eg ádur sagt hefi, hin fyrsta trappa til himnaríkis, því af ransókninni kémur þeckíngin, af þeckíngunni ydranin, af ydraninni fyrirgéfníngin, af fyrirgéfníngunni elskan, sem er hin einasta rót allra dygda og mannkosta, er í Guds augum kunna ad skarta. Hristid út, hristid út ydar hjørtu, ó! þér hin ástlausa þjód, segir Drottinn Gud hjá Zophóníam. Þad er ecki nóg ad menn játi alminniliga syndir sínar fyrir Gudi med munninum, segjandi: eg hefi alskins syndir gjørt, til orda og verka og vondra hugrenninga, og kanské ad hugur fylgi þó lítt máli ástundum, en vér eigum ad leita grandgjæfiliga eptir þeim, og rekja upp allann vorn aldur, þad frekast vér til munum, allt í frá úngmennis árum, allra helst, nær vér gaungum til altaris, hvar vér eigum ad fridmælast vid Gud, í hans Sonar kvøldmáltíd. Ecki er þad heldur nóg ad vér høfum einusinni ydrast syndanna, og sérdeilis þeirra er oss mætti helst minni til reka, heldur eigum vér ad láta oss þær ángra, svo opt sem þær oss í hug koma, svo opt sem vér heyrum þær í Guds ordi straffadar, svo opt sem vér heyrum þær af ødrum drýgdar; og þá munum vér sídur þykjast upp yfir þeim í hjarta voru. Vér eigum ecki ad gleyma því svo fljótt, ad Gud hefir tekid oss í sátt aptur, því þad heitir, ad vilja ecki aptur snúa med útlendíngunum og géfa Gudi dýrdina. Lúc. 17. Ef vér gleymum ecki drýgdum syndum, þá vill Gud þeim gleyma, en gleymum vér þeim, þá

er hætt vid hann minnist þeirra, sérdeilis þar ecki er trútt um, ad oss kunni optar ad verda hinir sömu glæpir, edur ad minsta kosti, ad oss lángi aptur til katlanna í Egyptalandi; Num. 11. og þótt aldrei væri, þá vitum vér þad, ad Pétur afneitadi Christó einusinni, en aldrei optar; þó segja kristindóms sögurnar, ad svo opt sem hann eptir þad heyrdi hanann gala, hafi hann beisklíga grátid. En Gud nádi oss auma menn! hvad opt höfum vér nú afneytad vorum Skapara med Petri? Er þad ecki ad afneita Gudi, ad elska sképnurnar, já, syndina framar enn hann? ad vilja eckert lída hans vegna? ad vilja ecki láta ámóti sér hina minstu holds lyst hans vegna? ad leggja ecki ad eins hans ógurliga og dýrdarfulla nafn vid hégóma, heldur hafa þad ad hádi, ef eg mætti svó segja? ad vanbrúka ecki einasta hvíldardagana til adskiljanligra synda og lasta, heldur hafa leida á Guds ordi, hafa þad í síblskapar málum, huxa allt annad nær þad er ként og predikad, og fylla hjartad, sem er Guds musteri, 1. Cor. 3. med saurúga þánka, þá sem þad er vant til, svo Guds ord hefir ecki rúm þar inni? er ecki þetta ad afneyta Christó miklu verr enn St. Petur? því hann gérdi þad af ótta, en vær gjörum þad ad raunarlausu, en fáa heyri eg gánga út og gráta med hönum, fáa tárast þegar haninn galar í Guds h. ordi, svo vér meigum játa, ad jafnvel vor ydran hefir stór synd verid, því hún hefir enn=nú ecki þraungad oss til ad krossfesta holdid edur láta af syndunum. O vei! ó vei! hvörsu lángt erum vér þá frá Guds vegi? en vitum þó ecki nær sagt verdur: gjör reikníngskap þinnar rádsmensku, Lúc. 16. og kémur allt þetta af forvitnisleysinu um vora eiginn hagi. Þú segir vel, ef einginn yrdi sáluhólpinn nema sá sem væri eins og Petur og Páll, þá yrdu fáir hólpnir; þú segir satt, því Endurlausnarinn svaradi þeim er spurdi hann ad, hvört þeir mundu ecki fáir verda, sem hólpnir yrdu á þennan hátt? Képpist vid ad gánga inn um hid þráungva hlidid, því þeir eru margir sem þar vilja inngánga og komast þad ecki, Lúc. 13. en hvad um þad? séu þeir nú fáir, sem satt mun vera, ad reikna hjá hinum sem tapast, er þad gagn fyrir þig? muntú hafa nockra skémtan af þeirra selskapi í helvíti? Jeg játa þad, ad þeir munu og margir sáluhólpnir verda, sem ecki eru Peturs edur Páls líkar, þad sýnir oss eptirlíkíngin um peníngsgjaldid, Matth. 20. en trú mér til, ad eins mikid heimtar Gud af þér, eptir þeirri nád sem þér er géfin, svo sem af Petri edur Páli; Drottinn er gódur reiknings=madur, hann heimtar eins mikid af þeim sem hann hefir eitt pund í hendur fengid, svo sem tíu, eptir því sem tala rennur til. Matth. 25. Þad kénnir oss eptirlíkíngin um sædid er féll í góda jörd, ad sumt færdi hundradfaldann, sumt sextugfaldann og sumt þrítugfaldann ávöxt, Matth. 13. Þar fyrir máttú óhætt halda þad fyrir víst, ad þótt ecki sértú svo heilagur sem Enoch, Gen. 5. svo fulltrúa sem Abraham, Gen. 15. svo þolinmódur sem Job, Job. 2. svo heitur í bæninni sem Elías, Jac. 5. svo hreinn í líferninu sem Baptista, Matth. 11. svo brennandi í elskunni sem Petur, Joh. 21. svo alvarligur og röksamur í gudrækninni sem Páll, þá samt ef þú leggur alla ástundan á, ad þjóna Gudi (eptir þeirri nád sem þér er géfin) í heilagleikanum, í trúnni, í þolinmædinni, í bæninni, í elskunni, í alvörugéfninni, í kjærleikanum, þá ertú Guds barn; en hér um byrjar þér idugliga ad forvitnast kvöld og morgna, og ad mæla þínar athafnir med þeirri nád, sem Gud hefir þér lént, hvört ecki

gétur þú meiru afkastad, og þar sem þú brest finnur, ad ydrast þess af hjarta, og bidja Gud ad fylla þad ábrestur; gjørir þú svo, þá muntú finna vitnisburd Andans um þad, þú sért Guds barn, Róm. 8. þá ertú innsigladur med anda fyrirheitisins, Eph. 1. til dags endurlausnarinnar, Eph. 4. og hvørt heldur þú lifir eda deyr, og med hvørju móti hinum nádugu Gudi þóknast ad láta þig gjalda hina sídurstu skuld, á sjó edur landi, í eldi edur vatni, í svefni edur vøku, þá ertú Drottins, Róm. 14. og einginn fær þig tekid af hans hendi, Jóh. 10. heldur þó þú deyir, muntú samt lifa og med hønum eylífliga ríkja, þar sem ad er gnógt fagnadarins og glediligt líferni til Fødursins hægri handar. Ps. 16. Þad veiti oss gódur Gud í nafni síns eingétins Sonar Jesú Christí, og géfi oss þar til styrk Heilags Anda, amen!

## Sunnudaginn milli Jóla og Attadags.

Gudspjallid, Lúc. 2. Cap.

Og hans fadir og módir undrudust þad, hvad af hønum sagdist; og Símeon blessadi þau, og sagdi til Maríu módur hans: sjá þú! þessi er settur til falls og upprisu margra í Israel, og til merkis, hvørju í móti mun mælast, og sjálfrar þinnar ønd mun sverd í gégnum smjúga, svo ad augljós verdi hugskots hjørtu margra. Og þar var þá Anna spákona, dóttir Phanúels af kyni Aser, hún var og komin til sinna ára, og hafdi lifad í sjø ár med sínum eignar-manni frá meydómi sínum, og þessi eckja hafdi nær fjóra vetur um áttrætt, hvør ed eigi géck úr musterinu, þjónandi Gudi nótt og dag, med føstum og bæna-haldi. Þessi géck samstundis þángad ad, og prísadi Drottinn, og sagdi af hønum til allra þeirra sem endurlausnarinnar bidu til Jerúsalem. Og er þau høfdu allt fullgjørt eptir løgmáli Drottins, sneru þau aptur í Galílæam til borgar sinnar Nazareth. En Sveinninn vóx upp og styrktist í anda, fullur vísdóms, og Guds nád var med hønum.

## Exordium.

Gud leit allt þad er hann hafdi skapad, segir Ritníngin, og sjá! þad var allt harla gott. Gen. 1. Stórt er þá volædi manneskjunnar er Andskotinn hefir fært yfir hana med syndinni, ad hinar bestu Guds sképnur snúast henni til hins mesta mótgángs opt og tídum. Eldurinn er hinn þarfasti hlutur, en hvørsu opt verdur hann oss ad skada? Vatnid í sama máta, og þó hljótum vér optliga tjón af því; jafnvel þær Guds gáfur sem í sjálfum sér ecki eru skadvænar, þær snúast oss til hins mesta óhagnadar, fyrir misbrúkun vora. Ill medferd á gótsi og peníngum hefir steypt mørgum dára í ólucku, metordinn hafa margann blindad, og sjálfa skynsemina hefir margur veraldar sonur svo vanbrúkad, ad hønum hefdi þarfara verid, ad hafa skinníngs bónda vit, enn ad falla svo hraparliga á sínu eigin bragdi, svo sem þeir gjøra er Páls segir, 1. Cor. 3. ad Gud høndli í þeirra slægvitsku; um allt þetta kénnum vér Fjandanum og uppruna-syndinni, ad vísu ecki um skør fram, af þeirri rót er øll sú ólucka sprottin er synduga menn dagliga plágar, bædi í andligann og líkhamligann máta. En samt er oss þad vitanligt, ad hinn miskunsami Gud hefir svo bætt rád vort í sendingu síns eingétins Sonar, ad oss má jafngóda kalla, nema vér spillum því aptur ad nýu; því Guds Sonur er í heiminn kominn til ad nidurbrjóta Djøfulsins verk; 1. Jóh. 3. en hitt er grátligt til ad

vita, ad þad hjálpræðid sem hinn gamli Símeon svo mjøg fagnadi, og sagdi, ad Gud hefdi tilreidt fyrir augliti allra þjóda, Lúc. 2. þad vill svo fáum gagna, og svo fáir af hverri þjód hafa þess not, og sú frelsan er Gud gjørdi sinu fólki, Lúc. 1. verdur morgum ad enn stærra þrældómi, lækníngin ad eytri, og sjálf heilsugjøfin ad vanheilsu, fyrir vanræktar og þvermódsku þeirra sakir, er ecki þeckja sinn vitjunar tíma. Þess gétur St. Páll er hann segir um sig: 2. Cor. 2. Vér erum Christi sætur ilmur í Gudi, bædi í þeim sem hólpnir verda, og hinum sem tapast, þessum ad sønnu ilmur daudans til daudans, en hinum ilmur lífsins til lífsins. Og hvad er þad annad er Símeon hér talar í Gudsspjallinu, ad Christur sé settur til falls og upprisu margra í Israel? Eg vil þessi heiløgu ord nockud gjørr hugleida, og af þeim yfirvega: 1) Hverjum Drottinn sé settur til falls. 2) Hverjum hann sé settur til upprisu. Hér til styrki hinn nádugi Gud med nád síns Anda í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Þessi er settur til falls segir textinn. Hver er þessi? þad er hann sem Esajas umspáir, Cap. 28. med þessum ordum: Sjá! eg set grundvøll í Zíon, einn stein, einn útvalinn stein, (svo sem Petur þad útleggur, 1. Pet. 2). einn dýrmætann hyrníngar-stein, einn fastann grundvøll, sá sem trúir hann mun ecki flíta sér; þad er einn og hinn sami, sem Davíd kvedur um Ps. 118. segjandi: Sá steinninn sem uppbyggendur hafa forsmád, hann er ordinn ad høfdi hyrníngar, af Drottni er þad, og er undarligt fyrir vorum augum. Ad þessu sé svo háttad, vottar sjálfur Drottinn, Matth. 21. er hann heimfærir þennan Davíds spádóm uppá sjálfann sig, og þá sem ad líflétu Soninn, er Fadirinn sendi, þegar þeir høfdu ádur líflátid hans þjóna, því hann segir strax eptir í sama kapítula vid Gydínga: þar fyrir mun Guds-ríki frá ydur tekid verda, og gefid þjód þeirri er færir ávøxt þar af; er því audrádid hvørjir þeir séu, sem ad Guds Sonur er til falls settur, sem eru fyrst Gydíngar, þeir mordíngjar, er Konúng dýrdarinnar af døgum rédu, 1. Cor. 2. og ei skipudust vid kénníngar hans h. manna og píslarvotta eptir hans himnaför, jafnvel þótt þeir sæu teikn og stórmerki, med hvørjum Drottinn styrkti kristni-bodid; svo og eru þad allir þeir sem enn-nú í dag gánga í þeirra fótspor, og krossfesta Guds Son ad nýu, Hebr. 6. med vantrú og gudlausu framferdi; þessum er Zíons Hyrníngar-steinn til falls settur. En med hvørju móti er hann þá settur? Vildi Gud nockud ad þeir skyldu detta um hann sem falla? lángt er frá því, hann vill ad allir menn hólpnir verdi og komist til sannleiksins vidurkénníngar. 1. Tim. 2. Kom nockud Sonurinn í heiminn til ad fordæma heiminn? eingannveginn, heldur til þess ad heimurinn hefdi lífid fyrir hann. Jóh. 3. Var ecki Steinn þessi svo audsær, ad nockur þyrfti ad detta um hann? ad sønnu var hann svo audsén, ad einginn þurfti um hann ad rasa; borg sú er á fjalli stendur, gétur ecki dulist. Matth. 5. Vildu þeir ei trúa sjálfum hønum, þá máttu þeir samt verkunum trúa er hann gjørdi. Jóh. 10. Hvørnin er hann þá til falls settur? Þar til svara eg: ecki til þess, ad neinn skyldi falla, heldur allir upprísa; Davíd kénnir oss þad í þeim ordum er eg strax umgat, þar hann segir, Ps. 118. ad uppbyggendur hafi forsmád þennan stein; og þessi sømu ord Davíds brúkadi St. Petur til ad sannfæra med hinn gudlausa høfudprestanna flock er fordæmdi Jesúm, Act. 4. segjandi: þessi er sá Steinn er þér uppbyggendur hafid ad eingu haft, hver ordinn er ad høfdi hyrníngar, og ecki er í neinum ødrum hjálpræðid; og þeir skipudust þó ecki meir vid þessi sannyrdi enn svo, ad þeir hótudu þeim, ad ei skyldu þeir kénna edur tala í þessu nafni

framar, jafnvel þótt þeim alkunnugt væri, ad þeir Pétur og Jóhannes hefdu skömmu ádur í Jesú nafni gjört þann heilbrigdann sem haltur var borinn. Act. 3. Og er ecki ad undra, þótt Guds Sonur væri þess=háttar mönnum til falls settur fyrir þeirra hardúdar og þvermódsku sakir. Látum nú Júda fara, br. m., þeir hafa sinn dóm med sér, og sín laun úttekid, en gjætum ad sjálfum oss, ad ei verdi Jesús oss til falls edur ásteitíngar. Vér vitum hvörju Christur svaradi Jóhannis Lærisveinum, er hann gjördi þá frá sér til ad spyrja Drottinn ad, hvör hann væri? Farid og segid Jóhanni (sagdi hann) hvad þér heyrid og sjáid: blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir upprísa, og fátækum verda Gudspjöllinn bodud, og sæll er sá sem ecki hneixlar sig á mér. Matth. 11. Þetta höfum vér altsaman heyrt, og einginn efar um Drottins kraptaverk, med hvörjum hann auglýsti þad hann sannur Gud væri; en hvört ad vér samt og ádur ecki hneixlumst á hönum sumir hvörjir, þad þyrfti nockud framar ad ransaka. Einhvör mun spyrja, í hvörju hneixlumst vér á hönum? svo spurdu Júdar fordum daga: Mal. 1. Í hvörju forsmáum vér þitt nafn? Drottinn svaradi: Þér offrid óhreinum mat á mínu altari, þó spyrjid þér, hvar med saurgum vér þig? Hann svarar: í því ad þér segid: Drottins bord er foragtanligt, því nær þér offrid hinu blinda er þad ecki íllt? og nær þér komid fram med þad hölta og sjúka, er þad ecki íllt? Ber þetta hertoga þínum, muntú hjá hönum vel þockadur verda? segir Drottinn Zebaoth. Sama er á bréfinu gódir vinir; fórnir gamla Testamentisins eru afmádar med þeirri einu fórn er hinn ædsti Prestur hefir einusinni innborid í þad allra helgasta, Hebr. 9. samt eigum vér Gudi lifanda fórnir ad færa, þad er sjálfa oss, og vora skynsamliga þjónustu. Róm. 12. En þegar vér inngaungum í musteri Guds, daudir í hinum verstu syndum og glæpum ydrunarlaust, forsmáum vér þá ecki Guds háleita nafn? hneixlumst vér þá ecki á Christó? Þegar menn gánga óforþénkjadir til Guds bords, ecki reina og prófa sjálfa sig, ecki gjöra greinarmun á millum líkhama Drottins og annarar fædu, 1. Cor. 11. ecki ransaka sinn lifnad svo þeir megi ydrast, ecki reina hvört þeir eru í trúnni, 2. Cor. 13. ecki hafa fullann ásetníng til ad betra sinn lifnad, halda menn þá ecki bord Drottins foragtanligt? saurga menn þad þá ecki? Segid mér í Drottins nafni, segid mér, er ecki þvílíkt ad hneixlast á Christó, edur segir ecki Páljus? ad sá ed þvílíkt gjörir, hann sé sekur vid hold og blód hans. 1. Cor. 11. Hvad er ad hneixlast á Christó, ef ei þetta? Þegar menn ecki hyrda um ad læra hinn sanna kristinndóm, svo þeir fái hann ként bornum sínum og hjúum, og eru svo blindir, blindra leidtogarar, Matth. 5. og þó reka menn þetta blinda fé inn fyrir Drottins altari, til ad eta og drecka sjálfum sér dóm, miklu líkligra til ad verda þar Satans fórnir enn Guds offur, nema hann vilji meiri miskun á gjöra; segid mér, offra menn þá ecki hinu blinda? er ecki þad ad hneixlast á Christó? Þegar menn vilja undir eins þjóna Gudi og Mammona, Matth. 6. sitja í kyrkjunni, en hjartad er út á búgardinum edur hjá akneitunum, Lúc. 14. haltra menn þá ecki á bádar sidur med prestum Baals? 1. Reg. 18. Er þad ecki ad offra því halta og veika? er þad ecki ad hneixlast á Christó? er segir: einginn kann tveimur herrum ad þjóna. Matth. 6. Bjódum þetta einhvörjum veraldar höfdíngja, komum med óþvegnum höndum fyrir hans bord, gjöldum hönum einhvörn

vanmeta grip í skyldur sínar, svørum hønum út af, nær vér eigum tal vid hann, reynum til hvørt hann þiggur þad vel af oss; og þó viljum vér heimta slíkt af hinum stóra Konúngi himins og jardar. Þetta er ad vísu ad hneixlast á Christó, ad óttast hann, sem ecki kann nema líkhamanum ad granda, en hyrda ei hvad vér gjørum vid Gud, sem lífi og sálu gétur kastad í eylífann eld. Matth. 10. Eg spyr, hvar fyrir hneixludust Júdar á Christó? Því hann var fátækur. Guds fátækir eru enn=nú hjá oss; þeir eru Jesú limir, ef þeir undir eins eru andliga voladir. En hvad er tídara í heiminum, enn ad óvyrda fátækann, og ecki einasta óvyrda hann, heldur og ad taka frá hønum þad lítid hann á, og ad brúka hans sveita til óhófs og metnadar? Í løsum klædum þinna er blód hinna þurfandi sálna, segir Drottinn, Jer. 2. vid Júda; þad má og heimfæra til þeirra, er selja hinn volada fyrir einn skó, Amos. 2. svo ad þeir sjálfir, þeirra synir og dætur, gángi svo sem velbúnar hallir og útskornir pílárar. Ps. 144. Er ecki slíkt ad hneixlast á Jesú, hvør ed kallar hina fátæku sína minstu brædur, Matth. 25. og vill reikna þad vid sig gjørt ad vera, sem þeim er gjørt. Hvad bar fleira til þess ad Gydíngar hneixludust á Drottni? Þad ad hann ecki hrópadi né hafdi mikid um sig, og einginn heyrdi rødd hans á strætunum; Esa. 42. svo ásælist og heimurinn hina spøku og kyrrlátu og forsmáir þá, hædir ad þeim, kallar þá óþocka og heimota, þeir ed ecki bera mannskap edur vitsmuni til ad halda vyrdíngu sinni, og brjóta ok hins dramláta af hálsi sér; er ecki þetta ad hneixlast á Christó? hvør ed ecki kom í heiminn til ad láta sér þjóna, heldur til ad þjóna ødrum. Matth. 20. Hvad er þad enn þá framar sem kom Gydíngum til ad hneixlast á Guds Syni? Þad, ad hann rak erindi síns Fødurs svo skørugliga, og vandlætti um glæpi og vantrú ógudligra manna. Ecki mun Djøfulinn vanta þá enn=nú í dag, sem ad fylgja þeirra fótsporum í þessu; hvør vandar svo um illar athafnir mannanna, ad ei sé hønum á hálsi legid? Hvør er sá, er hann þyckir vegna Guds og hans dýrdar, ad ei sé hann hlutsamur kalladur og sturli Israel? 1. Reg. 18. Ef nockur vill styrkja málefni eckjunnar og hins fødurlausa, þá gjøra þeir samdrátt á móti hønum, sem eingin fæda þykir lostæt, utan hún sé tekin frá munni hins vesæla og undirþryckta. Hvør er sá, ef hann vill halda góda skyckun í húsi sínu, ad ecki lasti hann illkvittir menn og hati? Og jafnvel þótt ad þeir sem vilja hlýda Gudi í þessu og vardveita samvitsku sína óflekkada, þótt þeir, segi eg, gjøri allt þetta eptir skyldu síns embættis, þá uppvekur þó Djøfullinn þeim andskota eptir sínu eigin nafni, svo þeim tekst ekki Guds verk ad gjøra. Símeon spáir um Christ, ad hann muni settur verda svo sem teikn, þad er móti mælist, þad er eptir mínum skilníngi svo sem eitt uppsett teikn, er menn plaga ad skjóta á; svo var og Drottinn, úr því hann inngékk þad kénnimanuliga embætti; øll Satans børn gjørdu sér ad skyldu, ad vega ad hønum, hvar sem þeir kunnu med ordum og verkum, svo sem ljóst er af æfi=søgu hans, er Gudspjallamennirnir hafa oss ritada eptirlátid. Soddan eitt teikn eru allir hans lærisveinar, allir hans eptirfylgendur í lærdóminum og vandlætinu; þess gétur sjálfur Christur, Esa. 8. þegar Spámadurinn beid eptir hvad Gud vildi segja, er hann hafdi byrgt sitt andlit fyrir húsi Jakøbs: Sjá! hér er eg, og þau børn er Drottinn hefir géfid mér. Vér erum svo sem nokkurskonar teikn og merki hjá Israels fólki, hvørn spádóm ad St. Páll til Hebræos Cap. 2. heimfærir til Christum og hans barna, og

er þad víst, ad ekki er lærisveininn framar enn meistarinn, hafi þeir húsbóndann kallad Belzibub, hvad munu þeir ei gjøra vid hans heimamenn? Matth. 10. Nú er þad ad sønnu gledilígt ad þola fyrir hans sakir, er lofad hefir nógum launum á himnum, Matth. 5. en hitt er þeim bøl, sem Christí eru, ad þeir erfida til ónýtis, jafnvel þótt ad þeirra embætti sé Drottins, og þeirra málefni þeirra Guds, Esa. 49. fyrir hinna þrjótsku sakir, er hneixlast á Christó, og líkast er ad hann muni til falls verda. Sjálfrar þinnar ønd mun eitt sverd í gégnum gánga, sagdi Símeon, vid Guds módur, teiknandi án efa þar med harma þá, er henni mundu til handa bera, út af mótmælum þeim, ofsóknum og píslum er hann í anda sá, ad Drottinn mundi þola verda, ádur enn hann fengi oss synduga leyst frá eylífum píslum. Ein rétt-trúud sál, er Christí andlig módir, þad vottar St. Páll til Gal. 4: Sona-korn mín, med hvørja eg þúngbúinn er, þar til Christur myndast í ydur aptur ad nýu. Mun ekki þessi Jesú módir kénna í brjósti, nær hún sér Drottinn aptur ad nýu krossfestann, Hebr. 6. fyrir augum sér af børnum vantrúarinnar, med hinum verstu syndum og glæpum, þeim til ólukku, sem eins vel og hún eru med Guds blódi endurkeyptir, og fær þó ekki vid því gjørt, heldur enn María vid píslum Sonar síns, illsku þeirra vegna, sem ad hneixlast á þeim, en þeir hlæja þar ad, og þad ángur, sem Guds børn kvelur fyrir þeirra ógjæfu sakir, hafa þeir ad skimpi og athlátri; þad liggur þeim létt í skapi, þótt ad menn fáist um þetta, og segja: ad þar sjái ekki meira baun á sér enn þeim er láta sér þeirra ólukku til hjarta gánga; segid mér í Guds nafni, segid mér: er ekki þvílíkt ad hneixlast á Christó? Og er nú svo nokkud hér um talad.

Nú viljum vér í sídara partinum læra, hvørnin hann sé til upprisu settur. Til upprisu margra segir textinn. Oss er kunnugt med hvørju móti ad Jóhannes Skýrari hóf sinn lærdóm: Gjørid ydran, sagdi hann, því ad Guds-ríki er nálægt. Matth. 3. Vidlíkann formála hafdi St. Pétur fyrir Júdum, er hann í fyrstu bodadi þeim heilsugjøf þessa, þá þeir spurdu ad, hvad þeir gjøra skyldu, svaradi hann þeim: gjørid ydran, og sérhvør ydar láti skýrast í nafni Drottins Jesú Christí til fyrirgéfníngar syndanna. Act. 2. Svo er þá Christus þeim til upprisu settur, sem ydrast syndanna, og trúa ad þær verdi sér í hans nafni tilgéfnar. Ein alvarlig ydran er hin fyrsta trappa til þessarar upprisu, eptir þad ad menn hafa þekkt veg sannleikans, en fyrir því ad ydranin verkar ekki í mannsins hjarta, nema vér þekkjum syndina, þá er einsætt ad læra Guds vilja af hans Løgmáli og ordi, ekki alleina til ad laga sinn lifnad þar eptir, heldur og til ad þekkja hvad oss er ábóta-vant, sem vér fyrir víst vita meigum ad all-mikid er, og fleira enn vér þekkja kunnum edur upp ad reikna. En þótt ad einginn vita kunni hvad opt hann fellur, Ps. 19. samt eigum vér med hinu mesta athygli ad halda dagligt ransak um sjálfa oss og vora lífernis háttu til þess, ad vér þekkjum syndina og hennar ljótleik, svo þar af vaxi ángur og tregi í hjarta voru, en fyrir því ad þetta hjartalag tekur einginn af sjálfum sér, þá vill þar til ydulig og alvarlig bæn, ef ydranin á svo heit ad vera, ad hún Gudi líki, því hann nægist ekki med hégóma nokkurn, hjartad á ad brádna og kløkkna fyrir Gudi, ef hann á syndina burt ad taka; ekki dugir soddan ydran mikid sem hann umtalar hjá Jeremíam, Cap. 2. segjandi: í øllu þessu snerist ekki til mín hin fráfallna systir Júda af øllu hjarta, heldur voru þad ei nema læti

hennar, segir Drottinn. Eckert kann þad ad duga hjá Gudi, sem hann ecki sjálfur med oss verkar, því af sjálfum oss til megnum ve'r eckert gott ad framkvæma; nema vor hrygd se' eptir Gudi, svo sem Páll ad ordi ke'mst, 2. Cor. 3. þá er hún ónýt, soddan ydran vill hann skirpa út af sínum munni, því hún er volg. Apoc. 3. Þad er ágjætt sem Nicephórus Calistus skrifar eptir hinum góda keysara Theódósió, er hann sagdi, ad þad væri eingin undur, þótt nockur dæi, þar hann væri madur, en þad væri eins Guds ad kalla þann aptur til lífsins med ydraninni, sem eitt sinn daudur væri; því er he'r af audse'd, ad menn skulu þiggja ydranina med bæn af Gudi, svo vel sem allt annad, ef hún á hønum ad þóknast, og má þad ecki hindra nockurs manns alvørugéfni í ydraninni, þótt ei se' hann se'r hinna verstu klækja og bodordabrota medvitandi. Nóg er þad til ad koma út tárunum á einu Guds barni, ad þad ge'tur ecki eitt augnablik syndlaust lifad, ef gjørdir vorar ættu ad stikast á Guds re'ttlætis mælisnúru; eitt hjarta sem elskar sinn Gud er hægt ad bleyta, þad ángrast meir af sínum ófullkomligleika, heldur enn hinn gudlausi af minníngu allra sinna skamma og ódáda; svo ad Davíd í øllum sínum heilagleika, hann vætir sína sæng í tárum alla nóttina, Ps. 6. vegna sinna ávirdínga, þar hinn ógudligi Manasses finnur eckert til sinna stórglæpa, fyrr enn hann er beygdur í þúngum járn-vidjum, 2. Par. 33. Nú þótt ad sá hafi miklu aflokid, sem hefir straffad sjálfann sig, med alvarligum trega fyrir syndina, því þad á heima hjá þeim er Postulinn segir: ef ve'r dæmum sjálfa oss, þá verdum ve'r ecki dæmdir, 1. Cor. 11. samt er þad ecki nóg ad láta sig ydra syndanna, nema menn treysti því fullkomliga, ad hinn nádugi Gud muni se'r uppge'fa alla skuldina, fyrir Jesú blessada forþe'nustu; ydranin kastar syndaranum nidur fyrir Guds fætur, til ad audmýkja sig undir hans voldugu hønd, en trúin reisir hann upp aptur, og gjørir hann þess full-øruggann, ad hann hafi fríann tilgáng til nádarstólsins, Hebr. 5. hvørsu sem hann se' hinum verstu syndum hladinn, og þad ecki fyrir nockurs manns eiginn verdugleik, ætt edur atgjørfi, því Gud er heilagri, voldugri og re'ttlátari enn svo, ad nockurt af þessu edur einhvør annar veraldligur hlutur megi fá hann kreinkt edur yfirtalad, heldur ske'dur þad alleina af hans skjærri og einsamalli gódgyrni og miskun, fyrir þad lausnar-gjald er hans einge'tinn Sonur hefir ad sønnu útlagt fyrir alla verøldina; en þeir einir munu not af hafa sem á hans nafn trúa, Act. 10. Af ydraninni og trúnni framke'mur elskan til Guds, ef þær eru annars svo sem þeim vera byrjar; ydranin sýnir oss vorn óverdugleik, og hvørnin ve'r høfum med glæpunum unnid til hinna bitru helvítis písla, en trúin Guds gjæsku og óransakanlig miskunar-ydur, í því ad uppge'fa þau mørgu tíu þúsund punda, sem ve'r ecki einasta einusinni, heldur ár eptir ár, verdum hinum góda Gudi skyldugir um, hvad ef ve'r ydugliga hugleidum og samanberum í hjarta voru, þá kunnum ve'r ei ad fara á mis vid þad, ad þar af kvikni ein brennandi elska til hans, er svo vel gjørir til vorr óverdugra, og fyrirge'fur oss margar syndir, og hún er hin einasta rót allra dygda og mannkosta, og jafnvel Løgmálsins uppfylling, svo sem Páluss um kjærleikann vottar, Róm. 13. því þad er víst, ad sá sem elskar nockurn, hann skirrist vid ad styggja hann, og verdi hønum þad óvart, þá ángrar hann þad af hjarta, og unir illa hag sínum, nema hann fái komid se'r aptur í samt lag og nád hans vináttu, er hønum þykir

indælt ad elska. Svo eru og Guds børn lynd, verdi þau yfirstígin af nockurri hrøsun, þá standa þau brátt upp aptur til ad fridmælast vid Gud; þad sé eg á Davíd, Ps. 38. þad sé eg á Petri, Matth. 26. og ødrum fleirum, hvørjir, er þeir hafa ratad í nockurn glæp, hafa þeir ecki frid edur ró haft, fyrr enn þeir hafa sættst vid Gud, hvørn þeir af hjarta elskudu. En ecki er þess ad dylja, børn mín gód, ad þeir sem eru í miklum kjærleika vid Gud, og ordnir eru einn andi med hønum, 1. Cor. 6. þeim er miklu vandara enn ødrum í slíku. Fadirinn heimtar meiri elsku af syninum enn af þrælnum, jafnvel þótt sídur gjøri hann barnid arflaust, heldur enn þrælinn útlægann úr húsinu. Pad mætti ætla ad margur hefdi meira til-unnid vid Gud enn Móses, þegar hann sló tvisvar á klettinn, Núm. 20.; en fyrir því ad hann var Gudi svo handgenginn framar ødrum, þá vard hann straffadur. Margur konúngur hefir látid telja landsfólkid, til ad vita hvør hans makt væri, og hvad hann mætti reida sig uppá, þó vard þad Davíd til syndar reiknad, 2. Sam. 24. já, stórrar syndar, af því hann í þad sinn hafdi meira traust á mannaflanum enn á Gudi, er þó svo optliga hafdi barist fyrir hann, og lagt hans fjandmenn ad velli. Svo skulum vér og meina um þann sem Gud hefir eitt sinn ad sér tekid; hønum veitir hægra ad bera ávøxt enn hinum, sem enn þá hefir ecki notid þeirrar nádar, og vinnur hann því til meiri hegníngar, Lúc. 12. ef hann afbregdur; svo er þessi elskan til Guds, sem af ydraninni og trúnni framkémur, nockurskonar sædi, hvar af allar gódar dygdir spretta, sem ádur er sagt, og af henni kémur hin nýa hlýdni og umbót lífdaganna, án hvørrar bædi ydranin og trúin daudar eru og maktarlausar, því þad er eingin ydran sem lofar manninum aptur ad gánga til sømu synda, og þad er ecki hin sanna trú, sem ei verkar fyrir kjærleikann, Gal. 5. hvar um St. Jakob nógu skorinordt talar í síns Pistils 2. Cap., og þessi er hin andliga upprisa, hin fyrri upprisa. Sæll er sá sem hefir hlutdeild í henni, segir Guds Andi í Opinberíngar bókinni, 20. Cap. Og hefi eg nú svo med nockrum røkum sagt, hvørjum Christur sé til falls settur, og hvørjum til upprisu. Gud géfi ad hins sídara megi sem flestir njótandi verda. Gjørist því eigi stallbrædur Gydínga, er þennan Hyrníngar-stein forsmádu, hvør sem yfir hann fellur, þann mun hann sundurbrjóta, og yfir hvørn sem hann fellur, þann mun hann sundurmola. Matth. 21. O þér fávísu børn veraldarinnar! ó þér páfuglar þessa vonda heims! torveldara mun ydur verda ad berja høfdinu vid þennan stein, enn St. Páll ad spyrna ámóti broddinum, Act. 9. hann hefir fyrir ydur og allra manna skuld, høggormsins, þad er Djøfulsins haus í sundur molad, Gen. 3. Munud þér vera sterkari enn ydar høfdíngi, sem er gud veraldar þessarar, og drottnar í ydur, børnum vantrúarinnar? Eph. 2. Ef ad jafnvel eitt kvikindi snertir fjalls-ræturnar, þá skal þad dauda deyja, sagdi Gud vid Mósen, Exod. 19. undir þad hann útgaf sitt h. Løgmál; en þegar sá steinninn sem einusinni er af fjallinu útskorinn og sundurbraut járnid og leirinn, gullid og silfrid, Dan. 2. þegar hann, segi eg, í annad sinn dettur yfir gudlausann heim þennan í hans sídari tilkomu, munu þá fjøllin hylja ydur fyrir hans reidi? Apoc. 6. Munud þér fá stadist í hans augliti, sem jafnvel hin mektugu kónga-ríki hefir í sundurbrotid, edur vitid þér ecki, ad þér leir og aska erud? já, breisk leirkér, sem optliga detta sundur af sjálfum sér, auk heldur ad þér kunnid ad búa vid þennan fortærandi eld. Gud er einn mektugur konúngur, himin-

inn er hans hásæti, jørdin er skør hans fóta, Act. 7. og nær hann drepur fætinum vid húsu þessari, vid þessari madkaveitu, hvar inni vér syndugir ormar skrídum hvør um annann þveran, þá titrar hún og skélfur, eins og lauf-blad fyrir vindi; munud þér þá stadist géta hans tilkomu-dag? Mal. 3. Nær hans reidi tekur til ad brenna allt til nedsta helvítis, Devt. 32. því forsmáid þér þá hans réttindi, því haldid þér hans sendiboda fyrir eina skó-þurku, og því hafa hans ord ecki rúm í ydur? Því jafnvel þótt ydur meigi hitna í brjósti um stundar-sakir, þegar Guds reidar-þruma slær um eyru ydar af einum predikunarstól, þá er þó snjórinn lengur á steininum, þegar regnid ofan kémur, Jer. 18. heldur enn minníng hans ógnarliga nafns hjá ydur. Því vanvirdid þér hans sacramenta, því hneixlid þér hans vesælínga, þvi forsmáid þér hans volada, því rænid þér hinn fátæka, því hamlid þér réttinum ad hafa sinn framgáng, því hefjid þér hinn rángláta, og nidurdrepid hinum saklausa, því haldid þér inni sveita daglaunarans, því gjørid þér allt þetta, og ætlid Gud muni ecki færa ydur undir sinn dóm fyrir þessar blódugu skammir og illgjørdir, ef þér segist hneixlast á Jesú? O þér eitur-ormar og nødrukyn! verid þó ecki argari enn Pharisæí og skriftlærdir, sem komu til Jóhannis skýrnar, Matth. 3. og sjáid til ad þér fáid umflúid tilkomandi reidi, gjørid ydran, medan Guds-ríki er nálægt; leitid Drottins, medan hann er ad finna, Esa. 55. og minnist vid Soninn, ad þér eigi fyrirfarist á veginum, þegar hans reidi tekur til ad brenna. Sælir eru allir þeir ed leita athvarfs hjá hønum, segir David; já, sælir erud þér, sem eckert athvarf hafid í heimi þessum, því Drottinn er ydar hlutskipti; sælir erud þér sem alla hluti hafid yfirgéfid, og jafnvel sjálfa ydur, því þér skulud fá hundradfalt aptur og erfa eylíft líf, Matth. 19. sælir erud þér sem forsmáid allt yfirlæti og skarkala veraldarinnar, því þér leitid ad því sem þar uppi er, Col. 3; sælir erud þér, nær þér alla hluti þola viljid fyrir Guds sakir, því ydar verdkaup er nógligt á himnum, Matth. 5. sælir erud þér midt í hørmúngunum, midt í árásunum, midt í øllum þeim raunum, sem ydur til handa bera, því Guds kraptur fullkomnast í ydar breiskleika, og þá þér veikir erud, þá erud þér máttugir, 2. Cor 12. sælir erud þér, nær heimurinn kallar ydur afrak og hreinsun veraldar, því þá erud þér dýrmætir í Drottins augum, þér skulud sjá ydar gledi, nær þeir munu til skammar verda, segir Drottinn. Esa. 66. Það sem heimsins børn troda undir fótunum, þad er Guds hásæti á medal vor; eins ydrandi syndara hjarta, Esa. 57. eins Guds vesælíngs sála, er hans himin á jørdunni; mørg skúr rignir þadan, ad sønnu yfir þennan táranna dal, en allir þeir dropar falla í Guds sjód, Ps. 56. hann telur þá og geymir svo sem annad fúlgu-fé, hann grefur ecki þetta pund í jørdu, heldur skilar því aptur med yfirmáta miklum ávexti, þegar þad verdur uppskorid med gledi, sem hér var í tárunum nidursád, Ps. 126. Hid náttúrliga regnid kémur frá himnum ofan, og frjófgar jørdina, svo hún ber ávøxt; tár hinna andliga voludu í heimi þessum koma frá Gudi, þau færa þann ávøxt, er safnadur verdur í bindini Guds barna, í hinni stóru endurfædíngu, sem lausnarinn um-gétur, Matth. 19. Ef eg leigi nockurs manns jørd undir bú mitt, þá krefur hann mig landskuldar hvørt ár, og þad þess vegna, ad hann ætlar mig ecki fullvedja, edur má ecki sjálfur missa; en því er ecki svo varid fyrir hinum stóra akurmanni, Gudi alsher-

jar, Jóh. 15. Eg vil alshugar feginn byggja hønum hjarta mitt, láti hann plóg Løgmálsins, plóg ydranarinnar, plóg hørmúnganna gánga um þennan stór-grýtis-akur svo sem hann vill; láti hann gudlaus villu-dýr heims þessa spora hann í sundur og fótum troda, svo sem hønum blessudum líkar, þad er mér fyrir minstu, þegar eg veit hann er mér nádugur, og eg má altíd missa svo mikid, sem hann vill láta mig missa; því einskis freistar hann yfir megn fram, 1. Cor. 10. og þótt mér þykja megi, svo sem hann svari mér ecki hvørs árs rentu, sem þó ecki er, þá má eg þó vita, ad hann er bædi trúr og fullvedja, og er eg þess fulløruggur ad hann muni um sídir endurgjalda mér hina léttu birdi hørmúngarinnar, sem varir um augnablik, med yfirgnæfanligrar dýrdar eylífri þýngd, 2. Cor. 4., hvørrar njótandi ad verda, unni og veiti øllum Guds børnum hin háleita Guddómsins þrenníng, hvørri ad sé lof og dýrd, veldi og kraptur um aldir alda, amen!

# Á Nýárs-dag.

Gudspjallid, Lúc. 2 Cap.

**Í þann tíma. Eptir þad ad átta dagar voru lidnir, og þad barnid skyldi umskérast, var hans nafn kallad Jesús; hvad er kallad var af Einglinum, ádur enn þad hann var getinn í módur kvidi.**

## Exordium.

Komid og skodid verkinn Drottins segir skáldid, Ps. 66. hvad virdugligur hann er í verkum sínum vid mannanna sonu. Til þessa vil eg einnin hafa kvatt ydur, brædur mínir, á þessum hátídis degi, hvørnin Guds dýrdarfulla almætti dásamliga stjórnar árinu oss til nota; þad heyrum vér í hinum 74 Psálmi, þar David segir: þinn er dagurinn, þín er einnin nóttin, ljósid og sólina hefir þú tilbúid, jardarinnar enda hefir þú afmarkad, sumar og vetur hefir þú skapad. Hér yfir látum vér nærsta lítid, børn mín! Gud gjæfi ei findust þeir ed møgla þegar þessi hans rádstøfun er ecki eptir vorum syndugum vilja; hvar fyrir? Því þad skédur dagliga, og vér høfum þess not á hvørri stundu, og þykir þad skylda Guds ad svipta oss ecki því hann eitt sinn gaf. Jeg heyri ecki ad Jónas hafi þackad Gudi fyrir lundinn á medan hann stód, en reidur vard hann þá hann visnadi, Jón. 4. Mundi ecki hinn blindi verda alshugar feiginn, mætti hann hid blessada ljós sólarinnar augum líta, en hinum heilskigna þykir þad lítils verdt. Hvørsu lángar þann, er ómædir eptir vatninu? Þad sé eg á konúnginum Dario, er hann drack hinn sætasta drick æfi sinnar úr hest-farinu, en þó ecki sídur af eptirlíkingunni, um hinn ríka mann, er hann æskti eins vatns-dropa af fíngri Lazari, þá hann vaknadi upp í helvíti og kvølunum, Lúc. 16. hvørn hann mun þó lítils metid hafa, þegar hann lék sér ad allri fullsælu veraldar. Jeg tek hina almenniligustu hluti, sem minst eru af mønnum virdtir, til ad sýna vort óþacklæti vid Gud, í stadinn þeirra hluta, er hans mildi øllum jafnt veitir, vondum og gódum, ríkum og fátækum, stund eptir stund, dag eptir dag, ár eptir ár. O, minn Gud! hvørju skulum vér þér gjalda? Eckert hefir snaudur fyrir ad gefa. Hvørju skulum vér svara? Ecki einu á móti þúsund, Job. 9. Hvad skulum vér af oss gjøra? Bágt er þángad ad flýa, sem hønd þín nái oss ecki, Ps. 139. Vér vildum ad sønnu géfa þér alla oss med sálu og líkhama, en þad er allt þitt, þú hefir oss þad ádur géfid. Gud nádi, þad vér høfum tekid þína limu, og gjørt þá ad Satans limum, léd þá til verkfæra ránglætinu, og syndinni til íbúdar, Róm. 6. svo vér mættum kvída því, ad hinn Heilagi í Israel, mundi láta þvílíkum saurindum útkasta edur þau í eldi brenna. Eitt høfum vér til ráds eptir, sem er forþénusta þíns eingétins Sonar; vér høfum óhlýdugir verid, Dan. 9. hann var hlýdugur allt til daudans, Phil. 2.; vér høfum Løgmálid brotid, hann er kominn til ad uppfylla Løgmálid, Matth. 5.; vér erum óumskornir í hjørtum og eyrum, Act. 7. hann hefir umskérast látid, svo hann

umskéri Israels hjarta og hans sædis hjarta, Devt. 30. Løgmálid lýsir bølvan yfir þeim sem ecki heldur allt þad sem skrifad stendur í Løgmálinu, Devt. 27.; en Guds eingétinn Sonur hefir bølvan Løgmálsins uppá sig tekid í sinni umskurn, þvi Pálus segir, ad sá sem umskérast lætur, hann sé skuldunautur alls Løgmálsins, Gal. 5. En þó hann Løgmálid uppfylti, þá hefir hann samt Løgmálsins bølvan þolad; hann einn sem gjørdi allt þad í Løgmálinu skrifad er, hann einsamall er á móti Løgmálinu ad sjálfs síns vilja dáinn; hann einn sem átti alla hluti hann betaladi þad hann rænti ecki, Ps. 69. og hann sem er Gud blessadur um aldir, Róm. 9. hann er svo sem ønnur bølvan uppheingdur. Látid þvílíkann guddómsins kjærleika upprickja ydar hjørtum í himininn um stundar-sakir frá jardneskum hégóma, til ad umskérast med Christó, af hvørs allra helgustu umskurn, er oss bodud verdur í þessu Evangelió, vér viljum læra ad umskérast í andligann máta, Eph. 4. Vil eg þvi láta tal mitt vera þar um í þetta sinn: hvørnin hinni andligu umskurn háttad sé. Drottinn umskér þú hjørtu vor med sverdi andans, svo þetta vel luckist, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Ef þú vardveitir ecki løgmálid, þá er þín umskurn ordin ad yfirhúd, segir Páll, Róm. 2. ad sønnu taladi hann þad Gydíngum til blygdunar, en þó má hér af sjá, ad hin ytri umskurn muni ecki hafa einhlýt verid til sáluhjálpar. Svo sem þad var nú fyrir Gydíngum, svo er þad og fyrir oss, brædur mínir, því ecki meigum vér vænta oss betri kosta enn hinir náttúrligu kvistirnir, Róm. 11; ecki eru allir þeir full-kristnir, sem opinberliga eru skýrdir, heldur þeir sem fyrir skýrnina eru med Christó greptradir til daudans, og lifa í endurnýungu lífdaganna, Róm. 6. Packir og lof séu eylífum Gudi, sem fyrir vatns-sáinn í ordinu hefir endurgétid oss í Christó til lifandi vonar, 1. Pet. 1. En þar fyrir hefir hann endurgétid oss, ad vér skyldum Gudi lifa en syndinni deya. Þar skal koma einn dagur, segir Drottinn fyrir munn Jeremíæ Cap. 9, ad eg skal heimsækja alla óumskorna, sem eru í umskurninni; þar af ræd eg, ad margur muni hafa borid þetta teikn á sínum líkhama, sem ecki hefir haft þess mikil not í sínu hjarta, ecki sídur enn nú. Munu ecki allmargir géfast þeir, ed hrósa sér af gudhrædslunni, en afneita þó hennar krapti, 1. Tim. 3.; margur mun skýrdur med vatni og anda í fyrstu, sem illa lídur ad láta sig med Christó fyrir holdsins deydíngu umskéra. Allir heidíngjar eru óumskornir segir Drottinn, Jer. 9. en Israels hús er óumskorid í hjarta. Þar er ad óttast fyrir, ad Gud hafi enn nú í dag ordsok til ad segja, ad Tyrkjar og Tatarar séu óskýrdir, en margir þeir ed sig kristna nefna, séu óskýrdir í anda, edur ecki umskornir þeirri umskurn, er Pálus umtalar, er hann segir: þér erud umskornir þeirri umskurn, sem ecki er med høndum gjør, hvar ad er umskurn Christí, Col. 2. Þad er deydíng holdligra gyrnda, fyrir Christí dauda, Christí upprisu og Christí Anda. Nú verdur í Skriftinni sérdeilis gétid um andliga umskurn á tveimur líkhamans pørtum; báda nefnir Stephanus píslar-vottur Drottins, segjandi: þér hardsvíradir og óumskornir í hjørtum og eyrum, þér mótstandid jafnan Heiløgum Anda, Act. 7. hjartad kallar Ritníngin mannsins hugskot og krapta sálarinnar, er því fylgja, þad vill Gud láta umskéra sér til íbúdar; af hjartanu útgánga vondar hugranir, manndráp, hórdómur, frillulífi, þjófnadur, ljúgvitni, lastmælgi, Matth. 15. þetta illyrmi ber ad úthreinsa úr hjartanu, ef Gud skal þar inni búa fyrir H. Anda. Syndir og glæpir eru Djøfulsins fóstur, hvar hann gétid hefir vid spilltri mannsins náttúru, fyrir samþyckí viljans; en hvørsu má Guds eingétinn Sonur

sem er ljómi hans dýrdar og ímynd hans guddómligrar persónu, Hebr. 1. eiga sess vid Djøfulsins dætur? Hann hefir trúlofad sér hreina brúdi, þá ed hvørki fleck né hrucku hefdi, Eph. 5. því er ei von ad hann vilji í sama herbergi lída þessar helvítis ambáttir. Rek út ambáttina med hennar syni, því sonur ambáttarinnar skal ecki erfa med syni hinnar frjálsu segir Ritníngin, Gal. 4. Synir ambáttarinnar eru holdsins verk, þau byrjar út ad reka í eydimørku, ásamt módurinni, eda ad minsta kosti, ad temja hana, svo ad Agar drottni ecki yfir Sara, né Ismael offæki Isaac, Gen. 21. Ef þín hønd eda þinn fótur hneixlar þig, segir Jesús, Matth. 18. þá sníd hann burt og snara hønum frá þér, þad heitir ad umskérast í andligann máta. Ecki hefir Gud þóknun á því ad nockur meidi edur hamli líkhama sinn, eins og Baals prestar, 1. Reg. 18. og þótt hann hefdi, þá væri sá fótur edur hønd betur afhøggvin, sem ætlar ad draga manninn til helvítis; betra er þau rotni hér á jørdunni, enn svídi eylífliga í helvíti; en þess þarf ei vid, þar er sverd andans, Hebr. 4. sem afsnídur svo ecki á sér, þad gjørir svida um hríd, en þad bætir eylífliga, þad verkar hryggd um stundar sakir,en eptir á gefur þad fridsamligann ávøxt réttlætisins, Hebr. 12. Þér getid ecki undir eins druckid Christí kaleik og Djøfulsins, segir Páll. 1. Cor. 10. Hefdi Guds heilagleiki getad lidid Andskotans saurindi, mundi hann ecki hafa verid útsnaradur af himni, Gud vildi ecki lída Satans nálægd í himnaríki, eigi heldur í sínu ríki hér á jørdunni, sem er í Guds barna hjørtum. Guds ríki er inni hjá ydur, segir Frelsarinn, Lúc. 17. En hvør hann syndinni þjónar, þad er, hvør hana lætur drottna í sínum líkhama, hann hefir gjørst Andskotans madur, en rádid þegn undan Gudi; því segir Pálus, Róm. 6: vitid þér ecki, ad hvørjum þér ljáist í þrældóm til hlýdnis, þess þrælar erud þér, er þér hlýdist, hvørt heldur syndinni til dauda, edur hlýdninni til réttlætis? Látid ei villa ydur; eg vil þjóna Gudi í verkunum, en hvad mér flýgur í skap, fæ eg ei vidgjørt. Þad er ad vísu satt, fuglarnir verda ad sønnu ad fljúga yfir høfudid, þad er bágt ad banna, en ecki þurfa þeir ad hreidra sig í hárinu. Eg vil þjóna Gudi í verkunum segir þú, hvad þá? ætlar þú ad þjóna syndinni í hjartanu? Sjá þá til ad þú fáir ei sama vitnisburd og Pharisæi, ad hid ytra sértú fagur, eins og daudra manna grafir, en innvortis fullur med alskonar óþeckt, Matth. 23. Þegar hjartad er gott, þá er meiri von á ad allt sé gott, því Gud álítur hjartad, 1. Sam. 16. Gódur madur af gódum féssjód síns hjarta, framber gott, segir hjartnanna ransakari, Matth. 12. Einginn kann ad segja: mitt hjarta er hreint, eg em klár af syndinni, Prov. 20. Hitt kann eg af alvøru ad gjøra, ad bidja Gud ad skapa í mér hreint hjarta, Ps. 51. hvad ef ecki tekst ad øllu leiti vegna þeirrar syndar sem í mér býr, Róm. 7. þá tekst þad fyrir Jesú blód, sem hreinsar mig af øllum syndum, 1. Jóh. 1. því hann er kominn til ad kalla synduga, en ecki réttláta til ydranar, Matth. 9. Eg hafdi nærri því sagt, ad Davíds syndir hefdi betri verid enn Pharisæanna réttlæti; Davíd drýgdi ecki syndina med því hjartalagi, ad hún skyldi velgjørd heita, heldur af mannligum veikleika; en allt Pharisæanna réttlæti var ecki nema synd, því gódverk þeirra framkomu ecki af hjarta, heldur til þess ad birtast fyrir mønnum, Matth. 6. og þó vildu þeir þad skyldi fyrir Gudi gjalda. Sá Gud sem lætur þeim alla hluti þéna til góda, er hann elska, Róm. 8. hann lét Davíds synd hønum fyrir bestu verda, 2. Sam. 12. en Pharisæanna réttlæti

snerist þeim jafnan í synd, svo sem allt það, er ecki framkémur af trúnni, Róm. 14., án hvörrar ómøguligt er Gudi ad þócknast, Hebr. 11. Einginn segir oss betur enn Móses hvörnin mannsins hjarta umskorid verdur, Devt. 30: Drottinn mun umskéra þitt hjarta, svo ad þú elskir Drottinn Gud þinn, af øllu hjarta þínu, og af allri øndu þinni, ad þú lifir. Elskan til Guds er það verkfæri, sem best afsnídur syndir og lesti. Hinn ágjarni vinnur alla hluti fyrir ríkdóm; hvad sparar sá heiptræki til þess, ad hann fái sínum óvin fyrirkomid? Lítils hefir margur daudann aktad fyrir metorda sakir, og því skyldi þá ecki Gud vera svo sterkur í þeim er hann elska, svo sem Andskotinn í børnum vantrúarinnar, Eph. 2. Sá sem elskar vin sinn, hann kostar kapps um, ad gjøra sem mest eptir gédi hans. Allir hlutir eru sameiginligir vina á millum, ef það er falslaus elska. Elskan samteingir alla hluti, svo ad skynlausir og jafnvel daudir hlutir teingjast sín á milli, þess vegna, ad hvørs náttúra á vid annan. Ef þetta elskunnar løgmál er nú svo ríkt í náttúru hlutanna, því skyldi það ecki hvørjum mun framar á millum Guds og mannsins, sem eptir hans mynd er skapadur? Einginn efi er á því, ad sá sem fyrst væri kominn í fullkominn kjærleika vid Gud, hann teldi eingan hlut eptir sér ad gjøra hans vegna, hann gjæfi sig og allt sitt alleina Gudi, svo hann mætti hann einn ávinna, og hann yrdi eitt med hønum; og allt hvad Gud býdur, og ødrum virdist þúngt ad vera, það yrdi hønum sæt birdi, og því segir Páll, Róm. 13: ad sá sem elskar, hafi løgmálid uppfyllt. Gud er kjærleikurinn, segir Jóhannes, 1. Pist. 4. Cap. og sá sem er í kjærleikanum, hann er í Gudi og Gud í hønum. O Herra Gud! hvílíkt er þetta? Hvørnin má sá skora sig undan nockrum hlut, ad þola Guds vegna, í hvørjum Gud býr? Kann sá um æfi illa ad fara sem er í Gudi? Fellur hann í synd nockra, þá er Guds styrkvi armleggur nálægur ad reisa hann, Ps. 145. Ef hans hjarta fordæmir hann, þá er Gud máttugri hans hjarta, 1. Jóh. 3. Ef vondskufull heimsins eptirdæmi ætla ad villa hann, þá er ei Guds fíngur hønum fjarlægur til ad benda hønum á hinn rétta veg; og ef Satan fer á hendur einum med her freistínganna, þá hefir hann þann ad vistum med sér, sem ad er trúr, og eingan lætur freistast yfir megn fram, 1. Cor. 10. Því álykta eg svo, ad eckert sé kroptugra, eckert ágjætara og eckert heilnæmara medal, til ad umskéra mannsins hjarta, enn elskan til þess eylífa Góda, sem er hinn lifandi Gud. Eg gat og þess fyrir skømmu, brædur mínir, ad menn ættu sín eyru í andligan máta ad umskéra. Eyrun eru dyr hjartans, í gégnum hvør margt geingur, bædi íllt og gott; sæll er sá sem þessu fast heldur, en útskúfar hinu. Páls varar oss vid, ad eingin fúl ræda útgángi af munni vorum, Eph. 4. hún á ecki heldur ad gánga inn um eyrun. Það er gømul afsøkun þeirra sem tamt er ad heyra lýti og skammir um sinn náúnga: eg gét ecki byrgt fyrir eyru mér; en kanské færri mundu illa tala, nema þig fýsti ad heyra. Eg vil vera fátaladur hér um, því bágt mun vera ad temja munn hinnar prettvísu kynslódar, er høggormaeytur fólgid hefir undir túngurótum sér, hvar hinn gamli dreki, er kallast Djøfull og Andskoti, Apoc. 12. hefir sér hreidur búid og lagt þar eggjum þeim, úr hvørjum um sídir mun kvikna sá ormur, er aldrei deyr, Esa. 66. nema túngan ádur umskorin verdi. Alleina vil eg tala um það fyrir Guds børnum, hvørt ad sé hid helsta medal til ad umskéra eyrun í andligan máta, það er Guds lifandi ord, sem er hárhvast sverd, útgángandi af hans

munni, sem ad skrýddur er blódlitudu klædi, Konúngur konúnganna og Drottinn drottnanna, Apoc. 19. Davíd kallar þad lystiligan grashaga, Ps. 23. En Gud nádi, hvad tregt er mønnum þó þángad komid! Páls nefnir þad krapt Guds til sáluhjálpar øllum þeim sem trúa, Róm. 1. En þar er ad óttast fyrir, ad þad verdi hinum vantrúudu, Guds kraptur til fordæmíngar, því Endurlausnarinn segir, Jóh. 12: Þad ordid sem eg tala, mun fordæma þá; og sannast hér ecki sízt, ad þad er eins og tví=eggjad sverd, er sker á bádar sídur, þá ed hjálpast, til ydrunar, hina til eylífrar refsíngar. Matur er mannsins megin, segjum vér; en hvad er sálin, ef hún missir Guds ord? Eins og St. Páll talar um eckjuna, þá ed í gyrndum lifir, hún er lifandi daud, 1. Tim. 5. frilla Djøfulsins er hún og helvítis eldsneyti. Hvad veldur nú þessum leida, børn mín? Þad sama er eg taladi í øndverdu um hinar almenniligu Guds gáfur, af því Guds ord er svo nægt í heiminum nú ordid, þá vegnar því eins og elementunum, ad þad er foraktad. Eg sé, ámedan mennirnir urdu ad fara med kristni=bodid í gégnum húdstrokur og krossfestíngar, þegar Páls var hálshøggvinn, Petur krossfestur, Jakob med beinbroti líflátinn, Laurentius steiktur á rist, þá urdu þeir gladir ad þeir máttu lída nockud fyrir Jesú nafns skuld, þá vard Guds ord mønnum sætara enn húnáng og hunángs=seimur, Ps. 119. Þá fanst margur sá er keypti þá dýrmætu perluna, sem Endurlausnarinn talar um, Matth. 13. fyrir alla aleigu sína. En nú þykir því øllu illa varid sem Gudi er géfid. Þú vilt kanské segja, þá væri rád ad géfa upp ad prédika Christum um hríd, og mundi menn þá eptir hønum lánga eins og á fyrri døgunum. Eg vildi ad eg gjæti órétt til sumra manna þánka; en því er verr, ad eg hygg ad nockrir muni finnast þeir ed gjarna mundu hafa umskipti á svínunum og Christó, med Gergesenis, Matth. 8. Því heyrt hafa menn skrítni þeirra, er láta sér um munn fara, ad eigi sé þeim matur í messunni. Þú talar vel, væri Guds ord í burtu tekid, þá mundu menn leita þess med ángist; mundi þad og ecki gott rád, ad Gud tæki sólina af himninum um nockra daga, svo fengju menn vit á ad þakka Gudi fyrir hennar gagnsemi? Þad má eigi, segir þú, því þá mundu allir menn útaf deya, og einginn lifdi til ad gjøra Gudi þakkir, þar Davíd segir, Ps. 6: Þeir þakka ekki Gudi, søm í grøfina eru ofan farnir. Jeg játa þad satt ad vera; en mundir þú leingi lifa í Gudi, ef hans ord væru í burtu tekinn? Eigi hygg eg þad, því Frelsarinn segir, þau séu líf og andi, Jóh. 6. Hvar fyrir? af því ad sálin hefir ekkert líf fyrir utan þau. En trú mér til, ad þú sem snerir bakinu vid Guds miskunar=fadmi, ámedan þú máttir njóta hans orda, þú mundir verda illur apturhvarfs til ad leita hans, þá hann er ekki leingur ad finna. Þú segir: sólin má eigi burtu hverfa, svo mennirnir mættu lifa; en ef þú mættir sofa ámedan, þá hygg eg þad litlu skipta. Svo þyki þér og nú sem í syndunum sefur á eingu rída, þótt sól réttlætisins burtu lidi og ætti aldrei apturkvæmt; en þad mundi annad heita, þá þú uppvaknar í sal myrkranna, hvar þeir elda sálum ógudligra manna. Þekk því gjæsku Guds, aumur madur! og kannast þar vid, ad eins og hann lætur hid fagra ljós heimsins renna upp yfir rángláta og réttláta, Matth. 5. til þess ad mannkynid megi lifa, jafnvel þótt sumir þar ekkert í þiggja vilji, svo vill hann einnin ad hin fagra birta Evangelíí, sem er ljós á vegum vorum, Ps. 119. skíni í kristiligri kyrkju, þótt þad verdi af mørgum forsmád, uppá þad ad

eingum tapi hann af þeim hann ádur þeckti. Og þessi er ordsøkinn, hvar fyrir hann ecki sendir húngur sinna orda í landid, Amos. 8. Ord Christí búi ríkugliga medal ydar, ad þér kénnid med allri vitsku, og áminnid sjálfa ydur med andligum diktum, sálmum og kvædum, síngjandi Drottni í ydar hjørtum, segir Páll, Cól, 3. Þessi var íþrótt hinna fyrstu kristinna manna, í stadinn hvørs ad Djøfullinn hefir innfært í heiminn, brixli, hád, kjeskni, skammarlig ord, og fíflsligt hjal, sem kristnum sómir ecki, Eph. 5.

Svo er eg hræddur um, brædur mínir! ad ef St. Páll mætti líta upp af grøf sinni og sjá sig um í henni, sem nú Kristni nefnist, þá mundi hann ecki vída finna Jesú Christí tryggda-pant, Eph. 1. sem hann hefir henni eptirlátid og kallast H. Andi, og hann mundi snarara þeckja hana fyrir Andskotans frillu, heldur enn brúdi hins Krossfesta. Edur hvar finna menn nú þad, sem hann vottar um sig og sína samkristna? 1. Cor. 4: þegar oss er formælt, þá blessum vér, þegar vér offsóktir erum, lídum vér þad. Lángt mun vera ad leita eptir dæmi Stephaní, Act. 7. og Jakobs Postula, hvørjir ed beiddu fyrir þeim, er þá aftóku. Mig uggir og, ef Jakob mætti hverfa aptur í heiminn, þá mundi hann kalla sumra kristindóm djøfla-trú, því svo segir hann í síns Pistils Cap. 2: Þú trúir ad Gud sé einn, því trúa og djøflarnir og skélfast þar af. Og Gud gjæfi þar findust ei þeir, sem ad nockru leiti eru verri enn djøflarnir; þeir gjøra ecki eptir þeirra trú, því þeir hafa ecki von fyrirgéfníngarinnar, þar þeir eru útreknir frá ásjónu Guds eylífliga, og med myrkranna hleckjum fjøtradir, 2. Pet. 2. En þótt Gud útbreidi bádar hendur, Esa. 65. þótt hann hrópi: Þú hefir drýgt hóranir med mørgum elskuga! kom samt aptur til mín, segir Drottinn Gud, Jer. 3.; þótt hann láti døgum optar heyra: Eg vil ecki syndugs manns dauda, heldur ad hann snúi sér og lifi, Ezech. 33; þótt hann láti almenniliga útberast: Þvoid ydur, hreinsid ydur, takid ydar illsku breitni frá augliti mínu, komid sídan og eigumst løg vid! Þótt ydar syndir séu raudar sem blód, þá skulu þær snjóhvítar verda, og þó þær séu eins og purpuri raudar, skulu þær verda hvítar sem ull, Esa. 1; þótt vér megum svo títt heyra, ad þegar hinn ógudlegi snýr sér frá øllum sínum syndum, er hann gjørt hefir og vardveitir Guds bodord og gjørir dóminn og réttvísina, þá skuli hann lifa og ecki deya, Ezech. 18. allra hans misgjørda skuli ecki minst verda; samt lætur ecki illvirkinn af, og fólkid snýr sér ecki til hans, er þad typtar, Jer. 8; svo þad má satt játa, er David talar um hinn ógudliga, Ps. 14. ad hann segi í hjarta sínu: þar er einginn Gud. Því hræddust menn, ad Gudi mislíkadi ógudligt athæfi, þá mundi ecki svo mikill offi, ránglæti, hardýdgi, lygar, bakmælgi, rógur, agg, reidi, þræta, ágyrni, þjófnadur og allra handa Andskotans þjónusta drottna svo frekliga í heiminum, ad jafnvel sumt af þessu væri fyrir dygdir haldid. Hvad mun nú þessu valda, børn mín? annad enn þad, ad menn tilbyrgja eyrun fyrir h. Guds ordi. Pálus kallar ord Guds: sverd andans, Eph. 6. Þad er sá beitti knífur, med hvørjum vor eyru eiga ad umskérast; en þessi benin svída mjøg svo hinum gamla Adam, og þótt hann meigi þau ástundum þola, þá hafast þau svo illa, ad þar svellur um til eylífs dauda; hann hallar sér aptur á kodda syndanna, til ad samanhrúga sér lærendum, eptir því sem eyrun klæa, 2. Tim. 4.; hann er eins og Zippóra var fordum, er hún mátti

naudug umskéra sinn son, Exód. 4. Þegar Móses kémur med knífinn, þá kalla menn hann blód-brúdguma, edur blódgírugann mann, gjætandi ecki ad því, ad Gud er útfarinn í brædi sinni til ad deyda, ef ecki er vidgjørt. Gud baud sínu fólki, Exód. 21. ad á sjøunda hvørju ár, skyldu þeir halda eitt hvíldar-ár, og á medal annara bodorda setti hann, ad á því ári skyldi ánaudugu fólki lausn géfast, en sá er ei vildi frelsi þiggja, hann mátti hans herra taka, og setja al ígégnum eyru hønum, og festa vid dyr edur dyrustaf, og skyldi hann vera hans þræll upp þadan æfinliga, Exód. 21. Ecki einasta á hvørju sjøunda ári, heldur á hvørjum sjøunda degi eigum vér þann kost, ad leysast af Andskotans og syndarinnar þrældómi, því þad er meiníng alls Evangelíi, sem oss prédikad er, ad vér séum frjálsir vid syndina, ecki til þess ad lifa í henni, heldur ordnir Gudi handgengnir, til þess ad deya frá syndunum, svo sem Páll segir, Róm. 6: þér erud frelstir af syndinni, ordnir þjónar réttlætisins. En ef nockur vill ei lausn þiggja og lætur sig festa á eyrunum vid port helvítanna, Andskotanum til eylífs þrældóms, þá er audsært, ad hans sídara verdur argara hinu fyrra, 2. Pet. 2. O Herra Gud! mér kémur í hug, hvørnin Guds eingétinn Sonur vikur þessari løgmáls-grein til sín, Ps. 40. er hann segir til síns himneska Fødurs: offur og fórnfæringar vildir þú ecki, en eyru mín hefir þú ígégnum stúngid; teiknandi med þessari þrældóms mynd, hina allra herfiligustu ánaud, er hann þoldi fyrir þræl syndarinnar, þar hann, sem allt vald er géfid bædi á himni og jørdu, Matth. 28. kom í heiminn, ecki til ad láta sér þjóna, heldur ad hann ødrum þjónadi, Matth. 20. þar hann hafdi verri kjør enn hræ-kvikindi jardarinnar, og fuglarnir undir himninum, Matth. 8. hvør þó ecki lætur einn titlíng á jørdu detta án síns vilja, Matth. 10. þar hann féck eckert rúm í gésta-herberginu, Lúc. 2. sem uppfyllir bædi himin og jørd, þar hann vard manna þurfi, sem uppfyllir alla vora naudþurft eptir ríkdómi sinnar dýrdar, Phil. 4. og hann bar sinn kross, sem ad ber alla hluti med ordi síns kraptar, Hebr. 1. Þetta gjørdi hann, segir Páll, þegar hann mátti velsælu hafa; og þó vill syndarinn ecki ljá hønum eyru sín til þess, ad hann megi eylífliga med hønum ríkja, en á þó annars vegar eingann annann kost, nema pínast eylífliga. Gud nádi þad, ad vér erum ecki ólíkt á oss komnir, og Ciceró skrifar um Catadúpos, hvørjir ad búa vid fossana í ánni Níló, þad þeir heyri verr enn adrir menn; svo gjørir nidur veraldar þessarar oss daufa, svo vér gétum ecki gjætt ad Drottins raustu. Jóhannes segir í hans Opinberana Cap. 1., ad rødd Mannsins Sonar er til hans taladi, hafi verid svo sem lúdurs hljómur. Nærsta fagurt má gledskapur veraldarinnar láta í eyrum syndugra manna, ad vér fáum ecki fyrir hønum adgjætt raustu brúdgumans, er hann svo hátt kallar. Hvad veldur þessu? því eyrun eru svo tøm á hitt, ad menn þeckja ecki hvørt frá ødru. Mínir saudir þeckja mína raust, segir hinn gódi Hyrdir, Jóh. 10. Hvad vill hér á eptir fylgja, børn mín? þeir sem ecki þeckja hans røddu, þeir eru ecki hans saudir. Hvad mun fyrir þeim liggja? Hvad vill Dómarinn segja á hinum mikla og stránga degi? ecki þecki eg ydur, farid frá mér allir illgjørda-menn, Matth. 7. Þá mun saudunum skipad verda ad hægri hlid, en høfrunum á hina vinstri, Matth. 25. Allir vilja ad sønnu í sauda-flocknum vera; en þeir sem ecki vildu þeckja Hyrdirsins raust í nádinni, þeir munu verda med høfrunum arf ad taka í kvølinni. Hvør sem elskar mig og vardveitir mín ord,

til hans mun eg koma og minn Fadir, og vistarveru hjá honum gjöra, segir Endurlausnarinn, Jóh. 14. Hvad ágjæt ad sé þessi sambúd, veit einginn nema sá ed smackad hefir, hvad sætur ad Gud er; en hvar eiga menn ad fá þennan smeck, nema í hans ordi? þar verdur Jesús Christus framreiddur til andligrar nautnar, um hvörja hann sjálfur þann-veg talar, Jóh. 6: Hvör sem etur mitt hold og dreckur mitt blód, hann skal ecki daudann smacka ad eylífu. Lúkid því upp dyrum ydar eyrna, Guds elskulig börn! svo Konúngur dýrdarinnar megi inngánga í ydar hjarta, Ps. 24; látid þær ecki læstar honum, svo hann læsi ecki aptur fyrir ydur himninum; drepid ei hendi á móti frambodinni nád, og bægist ecki til vandræda vid hann, sem ydur elskadi ad fyrra bragdi; hann hefir sitt líf í daudann géfid til þess, ad þér sá kynnud hans glediliga raust ad heyra, því einginn hefir um aldur Gud sénann, sá eingétni Sonur Födursins hefir oss þad opinberad, Jóh. 1. O! hvad vitstola er þá manneskjan, sem tredur þann dýrgrip undir fótum, er útvegadur er, med Guds eigin blódi. Þeinkid til þess, ad hann lángadi eptir ad lída helvítis píslir ydar vegna; látid ydur einnin lánga eptir honum, svo þér kunnid þær sömu ad umflýa, en eylífliga med honum lifa. O þú eylífa ord Födursins, Herra Jesú Christi! þú sem ert sætari enn húnáng, fridari enn sólin, glediligri enn Einglanna saungur, áhrær þú vor dofin eyru, uppljúk voru hjarta, endurnýa vorn anda, svo oss leidist um sídir endemi þessa vonda heims, en gjöri fúsa ad renna eptir þér. Þú eylífa Gledi! lát þín fagnadarríku ord vera eptirlæti sálna vorra, svo ad vér höfum vora lysting í lögmáli þínu dag og nótt, Ps. 1. Og þegar vor augu sjá ecki leingur, vor eyru heyra ecki leingur, og vor túnga gétur ecki talad leingur, ad vér þá verdugir ályktast mættum hinn fagra saung: Heilagur, Heilagur, Heilagur ertú Drottinn Gud Zebaoth! Esa. 6. eylífliga ad heyra í þínu ríki, hvar eingin nótt er, Apoc. 22. og eingin umskipti ljóssins og myrkursins; þad bænheyri Gud Fadir miskunsemdanna, fyrir hid dýrmæta blód síns eingétins Sonar, og sendi oss þar til nád síns Anda, amen!

## Sunnudaginn milli Áttadags og Þrettánda.

Gudspjallid, Matth. 2 Cap.

**Og er Heródes sá þad, ad hann var gabbadur af vitríngunum, vard hann reidur, og sendi út, og lét drepa öll svein-börn til Bethlehem, og í öllum hennar endimörkum, tvævetur og þadan af yngri, eptir þeim tíma, sem hann hafdi út-spurt af vitríngunum. Þá uppfyltist hvad sagt er fyrir Jeremíam Spámann, sem segir: á hædum hefir heyrst kall mikillar kveinunar, óps og ylfrunar; Rachel æpti sonu sína, og vildi ecki huggast láta, þvíad þad var med þeim úti.**

### Exordium.

Reidist en syndgid ecki, segir Páls, Eph. 4. látid eigi sólina undirgánga ydar reidi. Mun nockud Postulinn géfa mönnum leifi til ad reidast med þessum ordum? Edur er þar

[illegible] ad hann þá sem Gud hafa og hans [illegible]; [illegible] Davíd hans [illegible], Ps. [illegible] og Ps. 139. segir hann [illegible] Drottinn, [illegible] og [illegible] : [illegible], er reisa [illegible] hata og þá, og [illegible] ad [illegible]. Þá [illegible] ad hann [illegible] Gud [illegible], [illegible] af [illegible], er [illegible] Guds [illegible], og þad er ad [illegible] í [illegible], er þá [illegible] í Guds [illegible] sem. [illegible], ad hann [illegible] madur á jördunni, Róm. 12. og [illegible] þad ad [illegible] í [illegible], [illegible] fyrir Gud [illegible]; [illegible] fyrir þeirra, er hann [illegible] Gud, Exod. 32. [illegible] þá [illegible] annars [illegible], er þá [illegible], og er þad [illegible], hvers [illegible] hans [illegible], er hann [illegible] af [illegible], og [illegible]. [illegible] er dæmi St. Páls, er hann [illegible] sér ad vera [illegible] frá Christi [illegible] sína eptir holdinu, Róm. 9, og er þá [illegible] af Gjerníngabók Postulanna, hvers hans [illegible] vegna Guds um þá sömu. Svo og ein [illegible] dæmi Phinea Róm. 25. Samuels, 1. Sam. 15. Jónathans, 1. Sam. 14. Davíds, 1. Sam. 17. Ezechia konúngs, 2. Reg 18. Nehemia, Nehem. 13. og annara Guds manna, sem hafa [illegible] sér þad nærri, er þeir hafa heyrt edur séd Guds [illegible] vanvirtann af nockrum, hans h. nafn lastad, edur hans bodord undir fótum trodin, og er Eli [illegible] nockur [illegible] þagan, sem andstædt er af þeirra [illegible], sem í [illegible] hafa tímilíur verid, at þeir hafa mátt bera þeirra [illegible], er þeir hafa séd í gégnum fíngur vid, svo sem sjést er af dæmi Eli kennimanns, er hann [illegible] fram yfir glæpi sona sinna, 1. Sam. 3. Sauls konúngs, er hann þyrmdi Amalechita konúngi, 1. Sam. 15 og Achabs, þá hann vægdi konúnginum af Syria, 1. Reg. 20. Nú þótt þessu sé svo varid, þá hygg eg ad eigi sé Postulans meiníng í þessu, ad hann eptirláti manninum ad reidast, edur tali um þessháttar reidi, er eg samstundis umgat, því hann bidur í þessum ordum, ad sálin eigi skuli undirgánga mannsins reidi, hvad svo er ad skilja, ad madur ei skuli erfa leingur enn til kvölds þad honum er ámóti gjört. En gudligt vandlæti og hatur á löstum og ódygdum á aldrei vid oss ad skilja; því meinar Postulinn hér, ad menn skuli temja reidina, þótt hún kunni ad sljúga í mannsins hjarta, og hvorki láta hana ná svo mikilli yfirhönd, ad hún framkomi í ordi né verki, og enn þá sídur ali falskuna í hjartanu, svo hún verdi ad hatri, hvad því veldur ad manneskjan verdur úlfur af manni, þræll syndarinnar af Christi lærisveini, og Djöfulsins barn af Guds barni. Dæmi uppá þessháttar reidi höfum vér á hinum grimma Heródi í upplesnu Evangelió; út af hvörju vér hugleida viljum í þetta sinn: 1) Hvad skadligur og dárligur löstur ad reidin sé. 2. Hvornin vér eigum ad stilla hana. Hinn góði Gud yrdist nádarsamliga ad framkvæma þetta erindi hjá oss, med adstod síns H. Anda í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Og er Heródes sá ad hann var gabbadur af vitríngunum, vard hann reidur, segir textinn. Hvor var hin fyrsta ordsök til hans reidi? Þad var metorda gyrndin. Strax sem hann fékk ad heyra af kennimanna höfdíngjunum og skriftlærdum lýdsins, hvar Christur mundi fædast, skaut Djöfullinn honum í brjóst, ad lífláta þad nýfædda konúngs efni Jesúm; þad sýnir oss samtal hans vid vitríngana, og svo ávísan sú, er þeir fengu af Guds álfu í svefni, ad hverfa aptur til baka í sitt födur-land um annann veg. Meiníngin var sú, ad hann kynni ad stadfesta sinn tignar-stól og sinna nidja eptir sig. Hvornin metorda-gyrndin sé í fyrstu tilkomin, er audsært af falli Satans, og falli vorra fyrstu foreldra, af hvörju öll ólucka er innrunnin til allra manna, og ámedal annara reidin. Og fyrst módurin hefir gjört oss Adams nidjum svo stórann skada, þá er audvitad, ad dótturin er henni lík, nema

verri sé. Hvør er sú ólucka í heiminum, er reidin ecki af stad komi? Hún er verkfæri allra lasta og ódygda; hún er eins og ein púta, sem lifir eptir hvørs manns vild; svo þjónar reidin øllum skømmum, þegar á þarf ad halda. Hvør drap Abel, þegar Cain øfundadi hann? Gén. 4. Hvør kveikti eldinn í Balachs nøsum, er hann vildi mótstanda Guds fólki? Núm. 24. Hvør kom Elíab til ad atyrda sinn bródur Davíd, er hann forsmádi hann? 1. Sam. 17. Hvør rak Saul til ad ofsækja sinn dóttur-mann, 1. Sam. 19. og ad drepa kénnimennina í Nóbe? 1. Sam. 22. Hvør framkvæmdi Achabs vondann ásetníng? 1. Reg. 21. Hvad brúkadi Haman til ad svala drambseminni med? Est. 3. Hvørnin féck Jóab metordum sínum haldid? 2. Sam. 3. og 20. nema med reidinni? og var þad hønum þó ecki nema stundar-fridur; øllu þessu kom reidin af stad, og er hún svo einn almenniligur bødull allra skamma og ódygda. Eg veit ad bædi Aristóteles og Ciceró skrifa, ad hún sé bríni hugprídinnar, og ad einginn vinni nockurt stórvirki, nema reidur sé; þad gétur valla satt verid, og eigi kémur þad saman vid sjálfsa þá, er þeir segja, ad hugprýdin skuli vera á skynseminni grundvølluð; en sá sem reidur er, hann er vitlaus, og því segir Hóratíus, ad hún sé nockurskonar stutt ædi, teiknandi þar med, ad einginn sé munur þess, sem reidur og hins sem vitstola er, nema ad reidin varir skémur, ædid leingur; og eru þó dæmi til þess, ad sumir hafa búid svo leingi ad heiptinni, ad þeir aldrei hafa ordid heilvita aptur. Heiptin er eitt Andskotans reidarslag, Gen. 4. Hún afmindar alla mannsins limi og lidi, hún kveikir bál í augunum, hún hleypir blódi í nasirnar, bólgu í kinnarnar, ædi og stjórnleysi í túnguna, deyfu fyrir eyrun; hún lætur manninn gnísta med tønnunum, fljúga med høndunum, æda med fótunum; hún skékur og hristir allann líkhamann, og aflagar, svo sem þegar hafid er uppblásid af stórvidri; og í einu ordi ad segja: hún gjørir manninn ad ófreskju og ad holdgétnum djøfli í augum þeirra sem heilvita eru; og ef hún svo afskræmir ásýnd mannsins fyrir ødrum mønnum, hvørnin mun hún þá ecki afmynda sálina í Guds augliti? Segid mér, hvílíkur djøfull mun þar inni búa, sem álit mannsins verdur hid ytra svo afskræmt? hvílíkur eldur mun vera í því hjarta er hann lystir sig þannin út í hvørn einn lid og lim? Þad er øllum ljóst, ad eckert styrkir og eblir sambúd mannanna í heiminum, meir enn kjærleikurinn, því hann er band fridarins, Eph. 4. hann bindur saman hjørtu mannanna, og hann samteingir og vidheldur Chrísti líkhama, sem er hans kyrkja hér á jørdunni. En hvad segir Salómon, Próv. 18: hvør gétur þolad einn reidann mann? Hvar af audséd er, ad hann, sem reidigjarn er, hann er óhæfur til samneytis annara manna, og óhæfur til ad vera Chrísti limur og hans kyrkju. Hvad er hann þá? Andskotans limur og þeirra stall-bródir, sem tønnlast og tiggjast innbyrdis, þar til þeir um sídir verda uppetnir, Gal. 5.

Eg hefi nockrum sinnum heyrt á tal þeirra, er segja menn verdi ad reidast, og láta til sín taka, annars verda menn forsmádir, og ad hvør madur gjøri sér dælt vid þann, sem eckert sinni hefir, því sé þad høfdíngskapur og stórmenska ad reidast ákafliga, svo ad þeir hrøckvi undan, er einum mótþægja. Ecki rætist þetta ávalt, svo vel fari, því annadhvørt reidist eg vid of-menni mitt, edur vid minn jafníngja, edur vid mér minni mann. Reidist eg vid þann sem er meiri máttar enn eg, þá er eg djarfligur, og reisi mér hurdar-ás um øxl

nockur réttferdug reidi til? Því má ei neita ad þad sé rétt, ad hata þá sem Gud hata og hans réttindi; svo segist David hata samkundu hinna illgjørnu, Ps. 26., og Ps. 139. segir hann enn aptur: mun eg ei hata þá Drottinn, er þig hata, og hafa leida á þeim, er reisa sig upp á móti þér? med fullu hatri hata eg þá, og þeir eru ordnir mér ad óvinum. Þá sýnir madurinn ad hann elski Gud af alvøru, ef hann gjarnan stendur af sínum rétti, en þyckir Guds vegna, og þad er ad vísu sú reidi er fylgja á hvørjum kristnum manni, en þó einna mest þeim sem yfir adra eru í Guds stad settir. Ritníngin géfur Mósi þann vitnisburd, ad hann hafi verid hinn þolinmódasti madur á jørdunni, Núm. 12. og eigi finst þad ad honum hafi runnid í skap, þótt Israels børn svo optliga settu sig upp í móti hønum, miklu heldur beiddi hann Gud fyrir þeim nær þeir høfdu syndgast; já, hann vildi hafa mist sína velferd fyrir þeirra, er hann sagdi vid Gud, Exod. 32: Munt þú fyrirgéfa þeim sína synd? annars drag mitt nafn út úr þeirri bók, er þú skrifad hefir, og er þad þó alkunnugt, hvørsu ákafliga hann reiddist, er hann kom ofan af fjallinu, og sá afgudadýrkun fólksins. Vidlíkt er dæmi St. Páls, er hann æskti sér ad vera útrekinn frá Christó fyrir brædur sína eptir holdinu. Róm. 9, og er þó kunnugt af Gjørnínga-bók Postulanna, hvørsu hann vandlætti vegna Guds um þá somu. Svo og eru kunnug dæmi Phineæ Núm. 25. Samúels, 1. Sam. 15. Jónathans, 1. Sam. 14. Davids, 1. Sam. 17. Ezechiæ konúngs, 2. Reg 18. Nehemiæ, Nehem. 13. og annara Guds manna, sem hafa tekid sér þad nærri, er þeir hafa heyrt edur séd Gud dýrdarinnar vanvyrdtann af nockrum, hans h. nafn lastad, edur hans bodord undir fótum trodin, og er Gudi valla nockur hlutur þægari, sem audrádid er af þeirra straffi, sem í þvílíku hafa tómlátir verid, ad þeir hafa mátt bera þeirra syndir, er þeir hafa séd í gégnum fíngur vid, svo sem ljóst er af dæmi Elí kénnimanns, er hann sté fram yfir glæpi sona sinna, 1. Sam. 3. Sauls konúngs, er hann þyrmdi Amalechita konúngi, 1. Sam. 15 og Achabs, þá hann vægdi konúnginum af Syria, 1. Reg. 20. Nú þótt þessu sé svo varid, þá hygg eg ad eigi sé Postulans meiníng í þessu, ad hann eptirláti manninum ad reidast, edur tali um þess-háttar reidi, er eg samstundis umgat, því hann bidur í þessum ordum, ad sólin eigi skuli undirgánga mannsins reidi, hvad svo er ad skilja, ad madur ei skuli erfa leingur enn til kvølds þad hønum er ámóti gjørt. En gudligt vandlæti og hatur á løstum og ódygdum á aldrei vid oss ad skilja; því meinar Postulinn hér, ad menn skuli temja reidina, þótt hún kunni ad skjúga í mannsins hjarta, og hvørki láta hana ná svo mikilli yfirhønd, ad hún framkomi í ordi né verki, og enn þá sídur ali fólskuna í hjartanu, svo hún verdi ad hatri, hvad því veldur ad mannesKjan verdur úlfur af manni, þræll syndarinnar af Christi lærisveini, og Djøfulsins barn af Guds barni. Dæmi uppá þessháttar reidi høfum vér á hinum grimma Heródi í upplesnu Evangelió; út af hvørju vér hugleida viljum í þetta sinn: 1) Hvad skadligur og bárligur løstur ad reidin sé. 2) Hvørnin vér eigum ad stilla hana. Hinn gódi Gud vyrdist nádarsamliga ad framkvæma þetta erindi hjá oss, med adstod síns H. Anda í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Og er Heródes sá ad hann var gabbadur af vitríngunum, vard hann reidur, segir textinn. Hvør var hin fyrsta ordsøk til hans reidi? Þad var metorda gyrndin. Strax sem hann féck ad heyra af kénnimanna høfdíngjunum og skriftlærdum lýdsins, hvar Christur mundi fædast, skaut Djøfullinn hønum í brjóst, ad lífláta þad nýfædda konúngs efni Jesúm; þad sýnir oss samtal hans vid vitríngana, og svo áviísan sú, er þeir fengu af Guds álfu í svefni, ad hverfa aptur til baka í sitt fødur-land um annann veg. Meiníngin var sú, ad hann kynni ad stadfesta sinn tignar-stól og sinna nidja eptir sig. Hvørnin metorda-gyrndin sé í fyrstu tilkomin, er audsært af falli Satans, og falli vorra fyrstu foreldra, af hvørju øll ólucka er innrunnin til allra manna, og ámedal annara reidin. Og fyrst módurin hefir gjørt oss Adams nidjum svo stórann skada, þá er audvitad, ad dótturin er henni lík, nema

verri sé. Hvør er sú ólucka í heiminum, er reidin ecki af stad komi? Hún er verkfæri allra lasta og ódygda; hún er eins og ein púta, sem lifir eptir hvørs manns vild; svo þjónar reidin øllum skømmum, þegar á þarf ad halda. Hvør drap Ábel, þegar Cain øfundadi hann? Gén. 4. Hvør kveikti eldinn í Balachs nøsum, er hann vildi mótstanda Guds fólki? Núm. 24. Hvør kom Elíab til ad atyrda sinn bródur Davíd, er hann forsmádi hann? 1. Sam. 17. Hvør rak Saul til ad offækja sinn dóttur-mánn, 1. Sam. 19. og ad drepa kénnimennina í Nóbe? 1. Sam. 22. Hvør framkvæmdi Achabs vondann ásetníng? 1. Reg. 21. Hvad brúkadi Haman til ad svala drambseminni med? Est. 3. Hvørnin féck Jóab metordum sínum haldid? 2. Sam. 3. og 20. nema med reidinni? og var þad hønum þó ecki nema stundar-fridur; øllu þessu kom reidin af stad, og er hún svo einn almenniligur bødull allra skamma og ódygda. Eg veit ad bædi Aristóteles og Ciceró skrifa, ad hún sé brýni hugprýdinnar, og ad einginn vinni nockurt stórvirki, nema reidur sé; þad gétur valla satt verid, og eigi kémur þad saman vid sjálfa þá, er þeir segja, ad hugprýdin skuli vera á skynseminni grundvøllud; en sá sem reidur er, hann er vitl aus, og því segir Hóratíus, ad hún sé nockurskonar stutt ædi, teiknandi þar med, ad einginn sé munur þess, sem reidur og hins sem vitstola er, nema ad reidin varir skémur, ædid leingur; og eru þó dæmi til þess, ad sumir hafa búid svo leingi ad heiptinni, ad þeir aldrei hafa ordid heilvita aptur. Heiptin er eitt Andskotans reidarslag, Gen. 4. Hún afmindar alla mannsins limi og lidi, hún kveikir bál í augunum, hún hleypir blódi í nasirnar, bólgu í kinnarnar, ædi og stjórnleysi í túnguna, deyfu fyrir eyrun; hún lætur manninn gnísta med tønnunum, fljúga med høndunum, æda med fótunum; hún skékur og hristir allann líkhamann, og aflagar, svo sem þegar hafid er uppblásid af stórvidri; og í einu ordi ad segja: hún gjørir manninn ad ófreskju og ad holdgétnum djøfli í augum þeirra sem heilvita eru; og ef hún svo afskræmir ásýnd mannsins fyrir ødrum mønnum, hvørnin mun hún þá ecki afmynda sálina í Guds augliti? Segid mér, hvílíkur djøfull mun þar inni búa, sem álit mannsins verdur hid ytra svo afskræmt? hvílíkur eldur mun vera í því hjarta er hann lýstir sig þannin út í hvørn einn lid og lim? Þad er øllum ljóst, ad eckert styrkir og eblir sambúd mannanna í heiminum, meir enn kjærleikurinn, því hann er band fridarins, Eph. 4. hann bindur saman hjørtu mannanna, og hann samteingir og vidheldur Christí líkhama, sem er hans kyrkja hér á jørdunni. En hvad segir Salómon, Próv. 18: hvør gétur þolad einn reidann mann? Hvar af audséd er, ad hann, sem reidigjarn er, hann er óhæfur til samneytis annara manna, og óhæfur til ad vera Christí limur og hans kyrkju. Hvad er hann þá? Andskotans limur og þeirra stall-bródir, sem tønnlast og tiggjast innbyrdis, þar til þeir um sídir verda uppetnir, Gal. 5.

Eg hefi nockrum sinnum heyrt á tal þeirra, er segja menn verdi ad reidast, og láta til sín taka, annars verda menn forsmádir, og ad hvør madur gjøri sér dælt vid þann, sem eckert sinni hefir, því sé þad høfdíngskapur og stórmenska ad reidast ákafliga, svo ad þeir hrøckvi undan, er einum mótþægja. Ecki rætist þetta ávalt, svo vel fari, því annadhvørt reidist eg vid of-menni mitt, edur vid minn jafníngja, edur vid mér minni mann. Reidist eg vid þann sem er meiri máttar enn eg, þá er eg djarfligur, og reisi mér hurdar-ás um øxl

því svo segir Syrach: Þrátta ei vid þann, sem er ríkari þér. Sé hann minn jafníngi, þá viti menn, ad eckert er þvílíkt fól, ad ecki eigi sér jafníngja, og þegar menn berja tveim steinum saman, þá er vanséd hvør þeirra fyrri brotnar. Sé hann minnimáttar, þá gjøri eg sjálfum mér órétt, ad eg spilli mér á hønum, sem eg gét altíd nád jøfnudi af reidilaust; og ef mig kostar þad ómak nockurt, þá vil eg þó hugsa, ef eg væri hugprúdur, ad þad séu smámunir ad úthella reidi sinni yfir þann, sem einga mótstødu gétur veitt, og því kalla eg sælla og samvitsku betra ad fylgja rádum þeirra Salómons, Próv. 25. og Páls Postula, Róm. 12. ad safna glódum elds yfir høfud óvinar síns med gódgjørdum, svo hann skammist sín og rodni af blygdan, ad hann hafi mér illa tilgjørt, er ecki meir ræki hans mótgjørdir enn svo, ad eg gét hønum ad eta, nær hann er húngradur, og ad drecka, nær hann er þyrstur; og hvør sem ødruvís kénnir, hann framfylgir svo kappsamliga Satans evangelió medal mannanna, svo sem Guds píslarvottar Christí lærdómi; þeir ed blessudu nær þeir lastadir voru, og þoldu þad ad þeir voru ofsóktir, 1. Cor. 4. Eg vil eigi fá mér þad til orda, hvørn skada menn gjøra sjálfum sér med reidinni. Sá sem er gjarn til reidi, hann er jafnan sinnisveikur; eingínn er svo var í umgeingni sinni, ad hann géti gjørt hønum til máta, og eru þeir þó færstir af oss, er svo regli nidur athafnir sínar, ad ecki verdi ad fundid; en hann sem reidinn er, hann er eíns og eldur í sinu. Hvad sem ecki er eptir hans skapi, þad grípur hann eins og eldurinn tundrid; og þar fyrir utan spillir reidin heilsu líkhamans ecki all-lítid; því segir hinn Vísi: Vandfýsnin og reidin stytta dagana og flíta ellinni, Syr. 30. Eg vil ei tala um, hvørsu opt ad hún spillir gótsi og formegun manna. Hinn reidigjarni er eins og sá er býr í strá-húsi; hann kann ad vera fullríkur ad morgni, en ef eldurinn grípur þad, verdur hann húsgángs-madur ad kvøldi. Skamma stund verdur hønd høggi feigin, segjum vér; hvad margur hefir gjørt þad í brædi sinni, á einu augnabliki, sem hann hefir ydrast eptir alla sína æfi? Þad er valla mannkostur þvílíkur sem ad hafa vald á túngu sinni, og þad er svo naudsynligt ad St. Petur segir, 1. Pist. 3: Hvør sem vill elska lífid, og sjá góda daga, hann haldi túngu sinni frá illu. En þad er hønum ómøguligt, sem reidinn er, því hann hefir eckert vald á neinum sínum lim, auk-heldur túngunni, er Jakob segir bágara sé ad temja, enn alla náttúru dýranna, fuglanna og fiskanna, Jakob. 3. Nú þótt ad þad sé nógu stór ólucka, sem allareidu er upptalid, þá er þó ecki búid þar med. Reidin er ad sønnu køllud stutt ædi, en ecki er þad hjá øllum. Hjá allmørgum snýst hún upp í hatur, og eingínn hatar sá annann, ad hann hafi hønum ecki fyrst reidur ordid. Fáum þeim sem reidast, þykir reidi sín ránglát vera, og med soddan móti verdur hún ad hatri í mannsins hjarta, og súrnar þar inni til þess hún skémmir kérid, og er þá illa farid med Guds musteri, 2. Cor. 6., þegar þad er gjørt ad soddan djøfla bæli, hvar Andskotinn inni ríkir med sjø øndum sér verri, Lúc. 11. því heiptin er aldrei einsømul; øfund, drambsemi, rógur, lýgi, bakmælgi, agg, þræta, tvídrægni, og margt annad illþýdi fylgir henni gjarna. Páll segir í þeim ordum, er eg í ødverdu las fyrir ydur: látid ecki sólina undirgánga ydar reidi, med hvørju hann tekur oss vara fyrir, ad þótt oss henda kynni ad reidast, þá skulum vér þó ecki láta reidina ad hatri verda; en strax þar eptir segir hann: gefid ei Djøflinum rúm, Eph. 4. og bendir oss til med þeim ordum, ad

þar sem Andskotinn er húsbóndi, þar muni þetta hans hyski með hönum samsæti eiga, og er þeim manni víst Helvíti, svo fljótt sem öndin skreppur út af kroppnum, sem af þessum pút-um er kvalinn, nema hann hreinsi áður sálu sína með heitri ydran, og er rádligt að ætla ekki til, að dauðans beiskja skuli það gjöra; því vandhitt er á, hvört þar verður tóm til þess, ef svo kann til að bera að hann komi að skindíngu. En stór sár þurfa mikla græðslu. Þetta gróm er ekki svo fljótt útþvegið, er svo leingi hefir búið um sig í mannsins hjarta; en hitt er víst, að svo sem þeir allir fá kvittun synda sinna, er fyrirgéfa út af hjarta sínum bróður hans misgjörðir, nær þeir hennar leita af alvöru í nafni Jesú Christi; svo verða og hinum syndir sínar aptur haldnar, er ala hatur til náúngans, og Guð vill þá ekki heyra, þótt þeir útbreiði sínar hendur, Esa. 1. og biðji mörgum orðum. Hvar fyrir? því þótt að ei séu hendur þeirra fullar af blóði, fyrir ótta sakir, þá er þó hjarta þeirra; og hygg eg fá beri ekki lángt af morðíngjanum, sem hræðslan fyrir straffinu alleina hamlar að slá sinn bróður í hel. Verða má að Kain hefði látið Abel lifa, Gen. 4. og Jóab og Abner, Amasa og Ashael, 2. Sam. 2. og 20. hefðu þeir óttast böðuls-öxina. Og hefi eg nú að nockru leiti sagt hvörsu skaðlig að sé reiðin og heyptræknin; en ekki er hún síður dárlig og heimskulig. Hvörjir eru gjarnastir á reiði? það eru börn; það eru vesælir menn og heimskir; þar um talar Salómon, Próv. 12: Hinn fávísi hleypir fram reiði sinni, en sá er vitur, er hann lætst ekki sjá óréttinn. Segið mér, þér Babýlons gjæðíngar! þér veraldarinnar Phaetontes,*) sem viljið dansa á allra manna höfðum, og sópa allt það, er yður mislíkar í burtu með hinum snarpa reiðinnar vendi, viljið þér láta halda yður líka þessum? Þér segið: margur stór og vitur höfðíngi hefir verið hneigður til reiði; það er þess verr, þá hafa þeir mjög svo niðurdrepið tign sinni. Hómerus skrifar um Agamemnon, er Grickir nefndu konúng konúnganna, af því að hann var fyrir liði þeirra í Trójumanna barðögum, að þá hann hafi verið í góðu skapi, hafi hann verið goðunum líkur að mildi og vísdómi, en þeg-ar reiðin tók hann, grimmari enn hin verstu óarga dýr. Sjáið þó hvað hið heiðna skáld dæmir hér um? Goðunum eignar hann vitskuna og mildina, en reiðina vörgunum. Það er og rétt dæmt, því einginn kann meir Guði að líkjast, enn með gjæskunni. Þar fyrir sagði Drottinn: verið miskunsamir líka sem yðar Faðir er miskunsamur, Lúc. 6.; og ekk-ert lætur verr á einum konúngi, sem er nærstur Guði, enn reiðin. Þeim er öllum framar hrósað, sem stjórnað hafa með rétti og miskunsemi, enn hinum, er ríkt hafa með harðýðgi og ofbeldi, jafnvel þó þeir hafi átt ríki meira enn hinir. Alexander hinn stóri hefði enn þá stærri verið, hefði hann Clitum, Parmeniónem og Calistenem ódrepna látið, heldur enn þótt hann hefði brotið undir sig allann heiminn; því var það ágjætt er hans skólameistari Aristóteles skrifaði hönum til (er hann heyrði að reiðin og offinn tóku til að aflaga geðs-muni hans) á þennan hátt: þeir sem reiðast, þeir reiðast sér meiri mönnum; en þar er einginn stærri enn þú, því byrjar þér ekki að reiðast. Sjáið hér, hvört reiðin og fólskan gjörir nockurn meiri mann, ef rétt er álitið; aldeilis ekki, því hún gjörir hann sem annars

*) Skáldinn dikta um Phaetontem, að hann hafi verið sólarinnar sonur, og fengið af föður sínum með bæn, að hann mætti stýra sólát-vagninum einn dag; það tókst hönum svo illa, að hann datt af himninum, þegar hann var kominn sem hærst í loptið. Því kallast allir offa-menn, sem hvorki þeckja Guð né sjálfa sig: Veraldarinnar Phaetontes.

væri mikill madur, ad kvikindi veraldar og athlæi skynsamra manna. Því var þad vituk-liga talad af Ciceróni fyrir Júlió keysara: ad sá eini dagur, er hann gaf Marcelló lands-vist, hann gjørdi hann frægari enn allar hans sigurvinníngar. Kalla menn þad ecki hinn mesta dáraskap ad farga sjálfum sér; en hinn reidi er bíflugunni líkur, þegar hún stýngur, þá stýngur hún sjálfa sig í hel, og skilur lífid eptir í sárinu. Svo gjørir og optliga, sá ed lætur reidina fyrir sig ráda, drepi hann ecki sinn óvin, svo hann verdi aptur drepinn, þá drepur hann þó gott mannord sitt, hann drepur góda samvitsku, já, sálina ef til vill, ef hann meltir reidina med sér þar til hún úldnar í hjartanu. Sá sem dreckur óforvarandis nockud bannvænt, hann má sjá til hvørnin hann fái því ælt upp aptur, þad fyrsta hann verdur þess var, annars er daudinn vís; svo er og í þessu; hendi nockurn þá ávyrdíng, ad hann reidist bródur sínum, þá sjái hann til ad hann fái heiptina á burt rekid, þad fyrsta hann verdur heilvita aptur, og kémur til sjálfs síns, annars myrdir hann sálu sína; hann myrdir einn mann í hjarta sínu, svo opt sem hann minnist med heiptrækni á þad, sem vid hann var af-gjørt, svo opt sem hann æskir hefndar yfir sínum óvin, svo opt sem hann fagnar yfir þeirri hefnd, er hann allareidu fengid hefir yfir sínum náúnga. Því ef Christur segir, ad sá sem lítur eina konu til ad gyrnast hana, hann hafi allareidu drýgt hór med henni í sínu hjarta, Matth. 5. þá er líkligt ad heiptin muni ecki hafa meira frelsi í himninum, heldur enn óleyfilig elska, þótt hvørutveggja sé andstygd fyrir Gudi. Segid mér, hvada dáraskap-ur er þá þad, ad spilla svo vináttu hans med fólskunni, sem sagt hefir: nema þér fyrirgéfid mønnunum þeirra misgjørdir, þá vill minn himneskur Fadir ekki tilgéfa ydur ydar syndir, Matth. 6, ad menn ná henni ekki aptur; fyrr enn menn hafa sætst vid bródur sinn, og væri þá betur heima setid enn farid. Øllum þykir mikid fyrir ad bidja forláts á ávird-íngum sínum, og enn þá meira ad láta undan hønum sem oss hefir tilgjørt; þetta verdur þó ad vera, ef menn skulu halda Guds vináttu. Christur bidur ekki fyrir þær syndir, sem hann veit ad hans Fadir ekki tilgéfur. Ó! Gud nádi oss, hvørsu illa er hønum þá farid, sem Guds Sonur vill ekki bidja fyrir? Því kalla eg þad hinn mesta dáraskap, ad fremja þad í brádrædi, fyrir hvørt menn annadhvørt skulu missa Guds ást í himninum, edur og virdíng sína hjá mønnunum. En eg hefi allareidu sýnt, ad sá verdur annadhvørt ad gjøra sem heiptrækur er, og væri þá betra aldrei ad reidast, edur ad minsta kosti láta reidina ekki fá svo mikid vald yfir sér, ad hún brjótist út um munninn edur hendurnar. Og hefi eg svo nokkud talad um þad, hvad skadlig og dárlig ad reidin sé. Nú viljum vér sídan heyra med hvørju móti menn fái henni best í taumi haldid.

Þad er ad tala yfir sig, ad segjast vilja edur kunna reidinni aldeilis frá sér ad hrinda. Fordild heidinna spekínga er þad, en ekki þekking kristinna manna á sjálfum sér; þad er eins óhægt, og einhvør segja vildi, þad hann kynni øldúngis ad deyda spillíng náttúrunnar, svo hún hreifdi sér aldrei, og er þad aldeilis ómøguligt, svo leingi vér berum eptir oss þenn-an daudliga líkhama. Þad er og ekki réttvíst, aldrei ad reidast; reidast eigum vér synd-um og glæpum; reidast eigum vér sjálfum oss, nær vér fremjum eitthvad af sliku; reidast eigum vér og vandlæta fyrir Guds sakir; því er þad hvørki møguligt né gagnligt reidina aldeilis burt ad taka; en ad setja skordur vid henni, ad sem minst gángi hún yfir mál hóg-

lætisins edur kreinki samvitskuna, þar um á kristinn madur ad láta sér hugad vera, og er þad hid fyrsta, ad vér ydugliga hugleidum hvad skadligur og dárligur löstur ad reidin sé, hvar um eg nockud talad hefi í hinum fyrra partinum. Þar næst er þad, ad menn varist þeirra selskap, er oss mest kunna ad egna til reidi, edur sjálfir eru med þessum skap-löst plágadir; þar um talar Salómon, Prov. 22: vert ecki vinur reidins manns, og gack ecki med hinum galda, ad þú lærir ecki hans vegu, og hneixlir sálu þína. Þar-ad-auki ad menn varist þær ordsakir, hvar af reidin plagar gjarnan ad kvikna í mannsins brjósti. Og er þad hid fyrsta, ad vér ecki búum yfir neinum illum ásetníngi. Hvad þessi blód-hundur Heródes hafi í sinni haft, er af Gudspjalls-historíunni augljóst, sem var ad lífláta þad saklausa, nýfædda Konúngs-efni, Jesúm, ecki svo af reidi edur illu skapi í fyrstunni, svo sem af metorda-girnd, sem ádur er sagt; en er hann sá ad þessi hans illi ásetníngur hafdi ei framgáng, þá kveikti Djöfullinn fólskuna í hans hjarta, svo hann lét myrda þessi saklausu börn. Ecki var þetta hid fyrsta bragd Satans vid hann; ádur hafdi hann látid af dögum ráda sína eigin sonu, Alexandrum og Aristobulum, er þeir vóru rægdir vid hann, svo sem ad sætu þeir hönum eptir ríkinu, og þó án ordsaka, svo sem af sögunum ráda má. Þetta er alltítt í heiminum; sá sem ecki kémur fram sinni illu fyrirætlan, hann reidist eingum hlut svo mjög, sem því, svo hann gétur ecki aflátid; þad sjá menn á Pharaóni, er hann féck ecki haldid Israel á móti Guds vilja, Exod. 14.; þad sýnir oss dæmi Sauls konúngs, er hann gat ecki Davíd fyrirkomid, 1. Sam. 21., Achabs dæmi, er hann ecki féck svælt undir sig Naboths víngard, 1. Reg. 21., Gydínga, er þeir feingu því ecki rádid vid Postulana, ad láta af ad prédika út af Jesú nafni, Act. 5. Dárligt er þannin ad vilja strída vid hinn almáttuga. Svo blindar nú reidin þann, sem íllt hefir í sinni. Annad-hvört trúdi Heródes spádómunum, edur hann trúdi þeim ecki. Ef hann þeim ecki trúdi, hvad dró hann þá til þess, ad fremja þetta gudlausa mord? Og ef hann þeim trúdi, þá var þad glópska ad vilja berjast vid Gud; en þad sá hann ecki fyrir heiptinni, og þessari fólsku veldur nú illur ásetníngur. Vondskan er frilla Djöfulsins, og eitt frjóssamt kvikindi. Ein ilska gétur þúsund adrar af sér, og er reidin og heiptræknin fóstur-módir allra þeirra. Vakti því hvör kristinn madur hjarta sitt, og láti þar einga syndsamliga girnd inni drottna, heldur bidji Gud ad skapa hreint hjarta í sér. Ps. 51. þá mun hönum sídur verda hætt vid reidinni. Ad sönnu er þad mannligt ad reidast, þegar einn hefir gott í sinni og fær því ecki framkomid fyrir annara ilsku sakir, (sem optliga skédur)· og er þad skylt gudligri vandlætíngu; en þó skulu menn ecki géfa þann taum reidinni, ad menn trodi Guds bodord undir fótunum; því ei má illt gjöra, svo ad gott framkomi, Róm. 3. Gjörum heldur skyldu vors embættis med þolinmædi, en felum Gudi ávöxtinn á hendur. En hitt er víst, ad þess verri sem ásetníngurinn er, þess stærri verdur reidin og óréttvísari, ef ásetníngurinn ödlast ecki sinn framgáng. Þad veldur því, ad ef einn hreckvís madur gétur framkvæmt girnd sína, þá fagnar hann í hjarta sínu, á-medan hönum þykir vænt um skömmina, hefir og marga, sem eins eru skapi-farnir og hann, hrósandi þvílíku, og kalla þad vel gjört, og þótt ecki séu þeir, þá vantar einn maktar-mann aldrei hræsnara, sem gyllir þad fyrir hans

augum, sem hønum reyndar þykja þó klækir ad vera. En beri af því, ad hann nái fyrirætlan sinni, þad gremst hønum, því hann veit ecki einasta ad illmenska sín er í ljós komin, heldur þar á ofan verdur hann spjadur og lýttur af hvørjum manni, svo sem sá ed tók til ad byggja og gat þad ecki fullendad. Þad sýnir oss dæmi mordíngjans Heródis, er hann sá, ad hann var gabbadur af vitríngunum, þá vard hann afar-reidur. Einginn hlutur er sá, er svo mjøg upperti íllt skap, svo sem forsmánin, og ecki einasta þá, sem vondir eru, heldur og góda menn, ef þeir eru annars nockud stór-hjartadir, og þess vegna, er þad hid annad rád á móti reidinni, ad líta ecki stórt á sig, heldur ad eignast sál sína í þolinmædi eptir bodi Lausnarans, Lúc. 21. Því fyrir utan þad, ad drambsemin spillir mannkostunum úr máta, hvørsu vel sem einn er ad sér um marga hluti, þá gjøra allir menn sér ad skyldu ad kéfja þann, sem mikil-látur er, og þykist ødrum betri, og gétur hann svo ecki á mis vid þad farid, ad eigi beri hønum margt reidi-efni til handa, og því er gott ad temja sér nockurskonar mannúdleika, og um alla hluti fram kjærleikann, um hvørn Pálus skrifar, 1. Cor. 13: kjærleikurinn er þolinmódur og gódgjarn; kjærleikurinn øfundar ecki; kjærleikurinn gjørir eigi illmannliga; eigi þýtur hann upp; hann er eigi óstdsamur; hann leitar ecki eptir því sem hans er; hann er eigi þúnglyndur; hann þeinkir ecki íllt, og er í þessari gullvægu máls-grein allt þad innibundid, sem afstýra má reidi og fjandskap, en efla frid og eindrægni manna á-medal. Verøldin képpist nú um stundir vid, ad tylla sér sem hærst, og sá er lýttur af møргum, er þad gjørir ecki, svo sem hafi hann eigi vit á, ad halda virdíngu sinni, nema hann trodi sér fram. Ó! hvad betra er og óhultara, ad setja sig í hinn ytsta sess, eptir Lausnarans rádi, Lúc. 14.; þá mun virdíngin sjálfkrafa eptirfylgja þeim er svo gjøra. En hann sem tyllir sér á þá trøppu, sem hann er eigi vaxinn til ad stíga uppá, hann má vel taka sér vara, ad ei þurfi hann ad brjóta odd af oflæti sínu, og ef svo kann til ad bera, þá er eingin ønnur von á hønum, sem hefir gjørt mikid af sjálfum sér, enn ad hønum gremjist þad, og hann képpist vid á allar lundir ad fá hefnd þar yfir; er hønum því illa farid, hvørn veg sem þad tekst; nái hann hefndinni, þá stelur hann henni frá Gudi, er segir: mín er hefndin, eg vil endurgjalda, Róm, 12. En beri af því, verdur hann lýttur af sínum líkum, veraldarinnar børnum, hvør ed forsmáir þá er Guds Syni fylgja í því ad forsmá óréttinn. Hvørsu miklu betra er þá ad hafa í fyrstunni snidid sér stakk eptir vexti, svo ecki þurfi þeir ad snída hann upp aptur er þú sízt vildir, þar til hann verdur mátuligur, eda kanské of-lítill, og sagt verdi til þín: géf þessum rúm, Lúc. 14. þótt eigi sé hann heidarligri enn þú, sem þú mátt víkja fyrir; því er rádligt ad hafa sig í hófi, ef menn vilja ei géfa sjálfum sér né ødrum ordsøk til reidi og fjandskapar. Menn skulu ei heldur vera allt of-granskygnir eptir óréttinum, edur gløggvir í því ad leggja þad út á vondann veg, sem oss er tilgjørt, þad kann margt ad vera gért af fávísi, af brádrædi, af trausti til vináttu vorrar, af ótta, af annara fortølum, er sá reiknar sér ad vera til smánar gjørt, sem er allt øf-vidkvæmur, hvørjum sín virdíng er sárari, en þótt hann væri skorinn eda brendur; og reidist þar fyrir optliga ófyrirsynju; en vildi kanské aldrei reidst hafa, þegar hann finnur sannleikann, og hefir í brædi sinni annadhvørt gjørt stærri órétt edur þolad, heldur enn tilgjørdin var í fyrstunni, en skammast sín ad játa sídan, ad hann hafi farid villt, þótt hann þecki þad

nær hønum er reidin runnin. Og þótt einhvør óvirdi nockurn af ásettu rádi, þá er þad vísliga sagt, er Salómon skrifar, Prov. 12., ad hann sé vitur sem lætur sem hann ecki sjái óréttinn, því órétturinn er eins stór, svo sem hann er af hønum metinn, er hann lídur. Einginn reidist, nema hann ætli sig vanvirdtann á einhvørn hátt. Í øllu þessu er eckert betra rád, enn ad géfa reidinni stundir, og úthella henni ecki strax sem hún tekur einn; því bidin kann margt ad auglýsa, og þrotinn í hjartanu kann ad sjatna ámedan, og sá sem vís er, hann gjørir svo; þad er heilnæmt ad pretta sjálfan sig í sliku, og þegar menn reidir eru, ad ætla sér ad bída betri tíma til ad hefna síns vansa, en ámedan kann eitthvad ad ské; eg kann ad deya, og skal mig þá aldrei ydra þess ad eg hafi slept hefndinni. Hann kann ad deya, sem mér til-gjørdi, og gét eg þá eigi heldur ydrast þess, ad eg tilgaf hønum, hvørjum eg þó gjarna vil samfagna í Himnaríki; og verdi hvørugt af þessu, þá kanské hann ydrist, og færi mér aptur virdíngu mína med ávexti, þá hefi eg vel bedid og tekid hlut á þurru landi. Verdi eigi heldur þad, þá hefi eg tóm til ad huxa mig um, hvørnin eg fái þad bætt, er eg lidid hefi, med sem minstum skada beggja ockar. Alleina er ad vakta sig fyrir því, ad heiptin snúist ecki upp í hatur, ef menn geyma reidina, sem þeim er hætt vid, er ecki óttast Gud, og hvørjum ad føl er sín eylíf velferd fyrir virdíngu heims þessa. Guds-børn gjøra þad ecki, sem himnaríkid erfa vilja; þau láta sólina ecki undirgánga sína reidi, né géfa Djøflinum rúm, Eph. 4. En hvørnin sem øllu þessu er varid, þá fæ eg altíd tóm til þess, ef eg hepti reidina, medan hún er sem brádust, ad huxa um hvad betra sé ad líkjast mínum Frelsara, sem mótmælin þoldi, Hebr. 12. og drottna svo med hønum eylífliga, heldur enn ad vada uppi med heiminum, og fyrifarast svo med hønum og øllu því sem í hønum er, 1. Jóh. 2.

Því vil eg brúka rád hins gamla Platónis, er hann baud þeim, sem reidur væri, ad skoda sig í speigli, á-medan hann væri hvad grimmastur og mundi hann hrædast sjálfann sig; en eg vildi skoda mig í minni mold og øsku, þegar nockud frá-lidi, ef eg gjæti stilt brædina, medan hún er sem mest, og skoda þar hvad lítid eg á undir sjálfum mér; eg, sem er eitt blómstur, er følnar strax sem andi Drottins blæs á þad, Esa. 40.; ein vatns-bóla, sem þýtur upp af vindinum; ein gufa, er sést um stundarsakir, og hverfur sídan, Jak. 4., og mun eg þá brádliga skammast mín, og þeinkja heldur á vesøld mína, enn hefndina yfir hønum, sem ecki hefir kanské meira syndgad enn eg á-móti Gudi, sem báda ockur skapad hefir, og í hvørs hendi ad stendur beggja ockar gjæfa og ógjæfa. Eg vil alleina gledja mig af því, ef hønum þócknast ad láta mig þola órétt sinna vegna, Matth. 5. En eg aumka minn óvin, ad hann ecki þeinkir hid sama og eg vil þeinkja. Svo hugleidid nú, Drottins børn! allir þér sem elskid ydar tímanliga velferd, þér sem elskid ydar sáluhjálp, og allir þér, sem Gud elskid, géfid ydur stundir til ad þeinkja um hvad skadligur hlutur ad reidin sé, hvørsu skamvinn ad sé sú gledi, er sá hefir af hefndinni, er hana tekur frá Gudi. Látid ydur í hug koma, ad sálir ydar búa í hey-húsi, því allt hold er hey segir raust Predikarans, sem hrópar í eydimørku, Esa. 40. Hvørsu fljótt kann þad ad verda til øsku brent, þegar í því kviknar af heiptinni, og hvad erum vér þá? Hvad verdur af þeim, er sjálfur hefir eydilagt

þad herbergi, er Gud fékk sálu hans til ad búa í? Nema ad Guds reidi-eldur tekur vid øskunni og brennur í henni allt til nedsta Helvítis, Devt. 32. frá einni eylífd til annarar. Vertú því snarliga samþyckur þínum mótstødu-manni, á-medan þú ert enn þá á vegi med hønum, ad ecki ofurselji hann þig dómaranum, en dómarinn kvalaranum, og verdir þú svo í díblissu kastadur. sannliga segi eg þér, þú munt þadan ecki útfara, fyrr enn þú hefir goldid hinn sídasta pening, Matth. 5. sem aldrei verda mun um alla eylífd. Þar frá vardveiti hinn miskunsami gódi Gud, alla þá sem á hans miskun og gjæsku treysta fyrir Jesú Christí forþénustu, amen!

## Á Þrettánda dag Jóla.

Gudspjallid, Matth. 2 Cap.

Nær ed Jesús var fæddur í Betlehem á Gydíngalandi á døgum Heródis konungs, komu vitríngar af Austurálfu til Jerúsalem, og søgdu: Hvar er sá nýfæddi konúngur Gydínga? Vér høfum séd hans stjørnu í Austurvegi, og erum komnir ad tilbidja hann. En er Heródes konúngur heyrdi þad, skélfdist hann og øll Jerúsalem med hønum. Og hann lét samansafna øllum kénnimanna-høfdíngjum og skriftlærdum lýdsins, og forheyrdi af þeim, hvar Kristur skyldi fædast. En þeir søgdu hønum: í Betlehem á Gydíngalandi. Þvíad svo er skrifad fyrir Spámanninn: Og þú Betlehem á Gydíngalandi, ert einganvegin hin minsta ámedal høfdíngja Júda; þvíad af þér mun koma Hertogi sá ed stjórna skal yfir mitt fólk Israel. Þá kalladi Heródes vitríngana heimugliga til sín, og spurdi þá inniliga ad, á hvørjum tíma þad stjarnan hefdi byrtst þeim, og vísadi þeim til Betlehem, og sagdi: farid þér og spyrjid vandliga ad sveininum, og nær þér finnid hann, þá kunngjørid mér þad aptur, svo ad eg komi einnin ad tilbidja hann. Sem þeir høfdu nú hlýdt konúnginum, fóru þeir af stad. Og sjá þú, ad stjarnan sem þeir høfdu séd í Austurálfu, gékk framm fyrir þeim, allt þar til hún kom og stód þar yfir, hvar ed barnid var. En er þeir sáu stjørnuna, glødduft þeir af miklum føgnudi, og geingu í húsid inn, og fundu þar barnid, med Maríu módur þess, féllu fram og tilbádu þad. Og ad upploknum sínum fjársjódum, offrudu þeir því gjafir, gull, reykelsi og myrru. Og feingu ávísan í svefni, ad þeir kjæmi ecki aptur til Herodem, og fóru svo annan veg aptur í sitt land.

## Exordium.

Snemma taka børn til meina, segir ordsháttur vor gamall, og er hann sannur. Madurinn fædist til eymdanna, eins og neistarnir upp í loptid fljúga, Job. 5.; fullur hørmúnga og fárra lífs-daga, Cap. 14. Allar sképnur Guds, er hann gjørt hefir oss til þarfinda, þær eru adn ockru leiti sjálfs-færar, skømmu eptir þad þær útkoma af módur-lífi; þeim hefir Gud og náttúran til-lagt af sjálfum sér, hvad þar skulu hylja sig med og vardveita fyrir kulda og

illvidrum; madurinn fædist nakinn í heim þennan; þar fædast þeigjandi af módur-lífi, manneskjan med ópi og tárum, svo sem kvídi hún vid því, ad henni byrjar dd gánga í gégnum táranna dal, ámedan hún náir lífi ad halda. Jørdin er dýranna sæng edur sjórinn fiskanna, nær þau útklakin eru. Manneskjan má ecki lífi halda, nema hún á alla vegu sé nærd og fóstrud. Þessi er uppruni vor, hverjum þó á-stundum eckert þykir sér ómáttugt, nær vér drøgumst á legg; er þetta þó hinu minsti hluti mannligra eymda, er vér þolum á ómálga aldri vorum. Og er þad ecki ad undra á oss, hvørra fødur sagt var í øndverdu, ad í sveita síns andlitis skyldi hann síns brauds neyta, og næra sig af jørdunni med erfidi alla sína daga, Gen. 3. Hann hafdi til þess unnid, og vér sídan sem af hønum komnir erum. En þad eru undur, ad hinn annar Adam, sem er Drottinn af himni, 1. Cor. 15. hann skuli vid sama, og enn þá miklu lakari kosti búa, jafnvel þótt hann sé eptir holdinu af Adam kominn. Þad heyrum vér þó í þessa dags Evangelió, þar konúngur himins og jardar má svikum og offóknum hins grimma Heródis mæta. Valla var hann fyrr í heiminn borinn, enn ad Andskotinn uppfylti hjarta þess gudlausa konúngs til ad útslөckva ljós heimsins, og afsifa hann, sem øllum géfur líf og anda. Og fyrir því ad þessi umsátur Heródis voru upphaf Drottins hørmúnga, er hann þola mátti strax í inngaungu þessa náttúrliga lífs, þar sá refur med slægdarfullri undirhyggju leitadi svo frekliga eptir ad vita, hvar Drottinn væri fæddur, alleina til ad ráda hann af døgum, sem raun gaf sídan vitni um; þá vil eg tala framvegis um þeirra kjør í heiminum, sem hønum vilja eptirfylgja í þessum táranna dal inn í hans dýrd, og þad í tvennu lagi. 1) Vil eg ræda um Guds barna mótlæti, hvad þarfligt þad sé. 2) Um Guds adstod í mótlætinu. Hinn gódi Gud stjórni túngu minni og hjørtum ydar med nád síns anda, sér til lofs og dýrdar, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Drottinn Jesús sagdi vid lærisveina sína, Lúc. 18: hvør sem ecki medtekur himnaríki svo sem úngbarn, hann kann ecki ad inngánga í þad. En eg vil segja, brædur mínir! nema þér gjørist eins og úngbarn þad er María lagdi í jøtuna, þá fáid þér ecki inngeingid í Guds-ríki. Hér med vil eg ecki þad meint hafa, ad nockur af oss Adams-børnum kunni svo fullkominn, svo heilagur, svo réttlátur ad vera, sem hann, er ecki vissi af synd, 2. Cor. 5. heldur svo sem Drottinn segir, Lúc. 6.: verid miskunsamir, líka sem ydar Fadir er miskunsamur, og er þó syndug manneskja lángt frá því, ad jafnast vid Gud í miskunseminni, svo vel sem øllu ødru, heldur býdur Frelsarinn oss, ad breyta eptir hønum sem mest verdur. Svo eigum vér Drottni Jesú ad líkjast í øllum vorum lífernis-háttum, ad svo miklu leiti sem oss er møguligt í þessum daudliga líkhama, og þad ecki sízt í krossburdinum. Hvørnin hans fæding, hans uppfóstur og allur hans aldur var fátækt og eymdum hladin, er oss alkunnugt af Gudspjallamannanna bókum. Meinum því ecki, brædur mínir, ad vér munum sleppa hjá ad drecka af læknum med Christó, Ps. 110. hér í útlegdinni, ef vér viljum nýtt gledinnar vín med hønum drecka í Guds-ríki, Matth. 26. Minnist þess ords, er eg sagdi ydur, segir Jesús vid lærisveinana, Jóh. 15.: ecki er þrællinn fyrir herra sínum; hafi þeir mig offókt, þá munu þeir ydur einnin offækja. Hann hlaut þann kaleik af ad drecka, er hans Fadir hafdi hønum áskeinktann, svo ad Ritníngin uppfyltist, Jóh. 18. Vér skulum og Ritnínguna uppfylla, Matth. 26. med því ad drecka hans kaleik, hvør ed segir, ad í gégnum margar hørmúngar byrji oss inn ad gánga í Guds-ríki. St. Petur býdur oss, Act. 14. ad vér skulum hugga oss þar vid í mótgánginum, ad vorir brædur í heiminum hafa þvílíkt ad lída. En hvad miklu heldur ættum vér ad hressa ged vort þar vid, ad þetta er oss med sjálfum Guds Syni sameiginligt, hvør ad er høfundur og fullkomnari

trúarinnar, Hebr. 12. Því segir Páll, 2. Cor. 1., ad svo sem ad Christí píslir yfirgnæfi til sín, svo yfirgnæfi og sín huggun fyrir Christum. Vitríngar þessir, er Gudspjallid umgétur, offrudu hinum nýfæddda Jesú gull, reykelsi og myrru. Allt vóru þetta konúngligar gáfur. Svo var hann fátækur, sem allt silfur og gull á, jørdina og allt hvad í jørdunni er, Ps. 50. ad hann mátti þetta þiggja af framandi mønnum; en þvílíks einskis krefur hann nú af oss, þar hann er inngeinginn í sína dýrd, utan hvad vér skyldugir erum ad hjálpa hans naudstøddum limum, med því sem Gud oss lánad hefir, um hvørja hann segir, Matth. 25: hvad þér gjørdud einum af þessum mínum minstu brædrum, þad gjørdud þér mér. Hvørs krefur hann þá af oss? Einnar sannrar og lifandi trúar; þad er þad gull, sem vér eigum Gudi, himnanna konúngi, ad bjóda, en hún reynist hvad mest í hørmúnginni. Þad er hægt ad trúa Gudi, nær allt ad óskum geingur. Valla vitum vér hvørt vér rétt-trúadir erum, fyrr enn í mannraununum. Þad orkar ecki á hreysti kappans fyrr enn á hólminum. Eigi vita menn, hvørsu ad stýrimadurinn er forsjáll nema í ólgu-sjónum og andvidrinu; og eigi hvørsu dyggur ad hyrdirinn er, fyrr enn hann sér úlfinn koma. Svo reynist og trúin vor í mótlætinu. Þad er sá eldur, er gull þetta skal reynast í, og svo sem gullid smeltist í eldinum, en tapar ecki þýngd sinni ef þad gott er; en heyid og hálminn brennir hann upp; svo reynast Guds børn i mótgánginum, styrkjast, eflast, vidurkveikjast og leidréttast, en í sama mótgángi kollsteypast veraldarinnar børn, tortýnast, eydileggjast, ørvænta og falla í víl og efasemi; hinir þacka Gudi, lofa hann og prísa, kyssandi á hans fødurligann hirtíngar vønd, med allri audmýkt og trúfastri von, hvør ed aldrei lætur til skammar verda, Róm. 5.; þessir lasta Guds h. nafn, møgla, leita allra annara medala enn ad snúa sér til hans sem þá typtar. Hér um talar St. Petur ágjætis vel, 1. Pist. 1. segjandi: þér erud gladir, jafnvel þótt þér um litla stund, ef vid þarf, hrigdir verdid med adskiljanligum freistíngum, svo ad reynsla ydvarrar trúar verdi gullsins reynslu dýrmætari, hvørt ed forgeingur, og verdur þó í eldi reynt, til lofs og heidurs og dýrdar í opinberan Jesú Christí. Med reykelsinu verda teiknadar bænir heilagra í opinberununum hins h. Jóhannis, Cap. 5. og 8.; en Gud nádi oss, hvørsu ad vér kaldir erum í bæninni. Í medlætinu gjørir madurinn gud af sjálfum sér, þegar allt ad óskum geingur, og þykist einskis þurfi vera, en veit ecki þad hann er fátækur og voladur, ber og nakinn, Apoc. 3. Menn segja, þar er fridur og tryggleiki; en vita ei nær enn ógjæfan brádliga yfir þá kémur, svo sem jódsótt ólétta konu, 1. Tess. 5. Gud nádi þann sem bænarlaus er í vondri verøldu þessari; betra er nakinn ad gánga í orrustu, og mállaus fram fyrir dómarann, heldur enn bænarlaus fram ad gánga í heiminum. En þetta reykelsi tendrast ecki betur af neinum hlut, enn af eldi mótlætínganna; því segir Davíd, Ps. 34: hinir réttlátu kølludu til Drottins, og hann bænheyrdi þá, og frelsadi þá af øllum hørmúngum þeirra. Menn fá ecki eld af stálinu nema menn slái því vid tinnuna, og svo læra menn ad þreyta vid Gud med heitri bæn í mótgánginum, svo sem von er til; því hann sem heitt skal bidja, honum skal mikid á því liggja, er hann bidur um. Vér erum svoddan sjálfbyrgíngar, þegar verøldin lætur eptir øss, ad vér þykjumst oss um alla hluti full-nógir vera, svo sem eckert hefdum vér ad þiggja af Fødur ljósanna, frá hvørjum þó kémur øll góð gjøf, og øll fullkomin

gjøf, Jak. 1. Mótlætid hlýtur ad verka í oss hitann og alvørugéfnina í bæninni, því annars erum vér kaldir og dofnir í því ad bidja Gud. Ecki hefdi hin kananeiska þreytt svo vid Drottinn med bæninni, nema hennar dóttir hefdi verid svo þúngliga plágud, Matth. 15.; ecki hefdi samkundu-høfdínginn leitad Krists, nema dóttir hans hefdi andast, Matth. 9. og konúngsmadurinn hefdi vel heima setid, hefdi eigi vanheilindi hans sonar rekid hann af stad, Jóh. 4. Og þótt ad oss dagliga liggi svo mikid á Guds adstod, ad vér erum allir uppá hana komnir, þá sjá menn þad samt ecki fyrr enn í mótgánginum. Svo kveikir nú Gud þetta sitt upplýstíngar-offur med eldi mótlætínganna hér á jørdunni, svo þad verdi einn sætleiks ilmur fyrir hønum í himninum. Fyrir myrruna hafa lærifedur kristiligrar kyrkju, og medal annara Gregoríus hinn mikli, viljad skiljast láta deydíngu holdsins, af því ad hún beisk er, en géfur þó af sér ilm mjøg sætann. Eingin fórn er Gudi þekkari enn þessi, næst trúnni á Christum, og hún verkar ekki í manninum, nema fyrir trúna, en þó allra helst í mótlætinu. Þegar hinn gamli Adam tekur til ad verda fullur og feitur, og gjørast laus-látur, svo sem Móses sagdi um Israel, Deut. 32., þá leggur hinn alvísi Gud vid hann krossins beitsli, svo hann taminn verdi og krossfestur med Christó. Þad er, ad hin illa girnd, sem í oss býr, verdi afmád med krossgaungunni eptir vorum Frelsara. Hans blessada hold vard svo vanburda á krossinum, ad hann gat dáid og látid sína sálu frá sér. En hann vard lífgadur aptur eptir andanum, svo sem Petur seigir, 1. Pet. 3. Þad er eptir guddóminum; þad skédi til þess, ad hann til-legdi vorum anda þann styrk, ad hid synd-umspilta hold gjæti dáid í oss, en vér eptir andanum lifad, vard svo hinn sami hlutur, sem afladi hønum mannligs veikleika, ordsøk til gudligs kraptar í oss, og hefir Jesús aldrei meira almættis-verk framid, enn þegar hann sem veikastur var. Svo verda og þeir, sem af andanum fæddir eru, styrkvastir í Gudi, þegar holdid deydist og hinn gamli madur er sem veikastur. Þetta vottar St. Páll er hann segir, 2. Cor. 4.: alla tíma berum vér um-kríng deydíngu Drottins Jesú í líkhamanum, svo ad líf Jesú verdi og augljóst í vorum líkhama. Segid mér, br. m. kann nokkurt hlutskipti, nokkur heidur, nokkurt ríki þvílíkt ad vera, svo sem ad kallast og ad vera Guds-barn? Øll veraldarinnar metord eru þræl-dómur hjá því nafni. Madurinn blífur ekki leingi í heidrinum, segir Davíd, Ps. 49. Hvorfu þá vøld edur virdíngar, sem einhvør hefir, en þetta hlutskipti má einginn af oss taka. Vér erum teiknadir í hans høndum, Esa. 49. af hvørs hendi einginn fær oss slitid, Jóh. 10. En hvad segir Postulinn til Hebræos, Cap, 12.: Hvørn Drottinn elskar, þann agar hann, og hann typtar þann son, er hann ad sér tekur. Ef þér øgunina þolid, þá mun Gud tjá sig ydur eins og børnum. Því hvør er sá sonur, er fadirinn ekki vandlæti um; en ef þér erud fyrir utan aga, hvørs allir hluttakandi eru, þá erud þér hjá-børn og ekki synir. Hér af ræd eg þad, ad krossinn Christí má reiknast pantur arfleifdar vorrar, og eitt trygda-merki, sem Guds Sonur hefir sett uppá sína elskuliga brúdi, og svo sem festi-peníngur þess bústadar, sem Guds-børn hafa í hans ríki heima tekid; því hér høfum vér ekki stad-fastann samastad, heldur væntum eins annars, þar sem vor borgar-réttur er, sem er á himn-um, Phil. 3. Þad er þad merki, er St. Páll um talar, Gal. 6. er hann segir: ad heim-urinn sé sér krossfestur, og hann heiminum. Hédan af (segir hann) gjøri mér eingin ónád,

því eg ber teikn Jesú Christí á mínum líkhama; þar fyrir er mótlætid aldrei svo þúngt, og eingin hörmúng svo mikil, ad sú huggun ekki yfirgnæfi, ad vér eigum vissa arf-von í Guds-ríki, medan vér berum Christí kross med þolinmædi. Þar um talar St. Páll, Róm. 8: sjálfur andinn ber vitni vorum anda, ad vér séum Guds-börn; en ef vér börn erum, þá erum vér og erfíngjar, já, erfíngjar Guds, en samarfar Christí; ef vér lídum med hönum, ad vér einnin med hönum dýrdligir verdum. Hann segir enn aptur, ad ef vér vonudum á Krist alleina í þessu lífi, þá værum vér vesælastir allra manna, 1. Cor. 15. Eg vil og þad segja, ad vér værum allra manna fávísastir, ef vér dýrkudum Gud fyrir eptirlæti þessa heims alleina, eins og hann hafi ekki annad þúsundsinnum meira og betra fyrirbúid þeim, er hann elska. Reidumst því ekki, brædur mínir, þótt vér sjáum hinum ógudliga vel gángi, Ps. 73. en Guds-börn hörmúngar líða. Þótt Gud hafi á-stundum margt látid eptir elskendum sínum, þá er þad reyndar ekki svo eiginligt kristindóminum, ad þeim lídi jafnan vel, sem eru Christí þegnar. Ogudligir hafa ekkert á himnum, svo hafa Guds-börn ekkert í heiminum, og þótt þeim falli ríkdómur til, þá festa þau ekki hjartad vid hann, Ps. 62. Hér um áminnir St. Petur næsta heilnæmliga, 1. Pet. 4. med þessum ordum: elskanligir, segir hann, skélfist ekki svo sem ókunnugir af reynslu þeirri, er fram vid ydur kémur af eldinum, til ad freista ydar, svo sem hefdi ydur nokkud óvenjuligt tilfallid, heldur gledjist af því, ad þér erud hluttakendur hörmúnga Christí, svo ad þegar hans dýrd opinberast, ad þér gledjist þá fagnandi. Þegar skýin hafa nokkra stund byrgt fyrir sólina, þá skín hún hvad fegurst. Þess meira sem vér lídum hér fyrir Krists sakir, þess heldur munum vér fagna, nær vér skulum med hönum dýrdligir verda, Róm. 8. Sá kann aldrei huggadur ad verda, sem eigi harmadi. Má sá nokkud sigrinum hrósa, sem eigi bardist? Gud kann ekki ad afþerra þau tárin í eylífu lífi, er aldrei vora úthelt í þessu. Lítum því ekki til nærverandi hrellíngar, hvör ad er skammvinn, heldur til eptirkomandi farsældar, sem er eylíf, vitandi þad, ad mótlætíngar þessara tíma eru eigi verdar þeirrar dýrdar, sem vid oss mun opinber verda í eylífu lífi, Róm. 8. og hin létta hörmúng, er vær hér lídum, aflar oss óumrædiligs þúnga eylífrar dýrdar, 2. Cor. 4. Hvörja Gud oss géfi fyrir forþénustu Sonarins, amen!

Hvad því sídara vidvíkur, er eg hét um ad tala, þá stendur hér í Gudspjallinu, ad vitríngar hafi komid úr Austurvegi, og fært barni þessu gáfur. Þetta sýnir oss Guds almáttugs fødurliga umhyggju og forsjón fyrir sínum börnum, midt í mótgánginum, midt í örbyrgdinni; og sannast á þessu medal annars, ad Jesús hefir oss til eptirdæmis lidid, 1. Pet. 2. Hinn alskygni Gud, fyrir hvörs augum ad allir hlutir opnir og naktir eru, Hebr. 4. hann vissi vel hvad lá fyrir sínum eingéta Syni, og hvörsu hans hönd hafdi ásett ad plága hann vorra synda vegna, Esa. 53. med lángri og mædusamri reisu, og lángri útlegd í Egyptalandi, og þad strax sem hann í þennan eymda-dal borinn var, samt lét Gud hann ekki aldeilis hjálparlausann, heldur sendi þessa ó kéndu menn af fjarlægu landi, til ad bæta hans naudþurft, og hans fátækrar módur. Tvent hefir hinn gódi Gud med þessu almættis og miskunar-verki útrétt; hid fyrra, ad hann sýndi, ad þetta hjálprædi tilheyrdi heidnum þjódum, Esa. 49. hvörjir ad vóru án Guds í heiminum. og fjarlægir Israels rétti, Eph. 2. Þad fólk er sat í myrkrunum sá ljós mikid, Esa. 9. Því eigi er líkligt ad

þessir vísu menn hafi dulid þad fyrir löndum sínum, er þeir sáu og heyrdu, hvar eptir síd-an fylgdi kristni-bodid medal annara þjóda. Hann sendi þessa framandi menn svo, sem í umbodi heidíngjanna, til ad hylla þennan nýfædda Konúng yfir sig, til þess ad hann drottna skyldi til ytstu veraldarinnar endimarka, Ps. 2. Ó! hvörsu ættum vér þessu ad fagna, hvörjir eigi vorum Guds fólk, 1. Pet. 2. en hann hefir þó kallad sitt fólk. Hvörsu ætt-um vér ad prísa hans réttlæti yfir hans eigin, og hans miskunsemi yfir oss, sem vorum ann-arligir, ad hinir náttúrligu kvistirnir eru afbrotnir, en vér innplantadir, sem vórum villivín-vidur, Róm. 11. Hann rak sinn eingétinn Son í útlegd á Egyptaland, strax á ómálga aldri, en hann hefir flutt vín-vid af Egyptalandi aptur, af því þrældóms-húsinu, og gródur-sett hann í því landinu, er hann vildi géfa þeim, Ps. 80; þad má eg heimfæra uppá oss, hvörra fedur ad voru syndarinnar og Djöfulsins ánaud undirokadir, er þeir geingu til mál-lausra skúrgoda, 1. Cor. 12. Aldrei kunnum vér nógliga ad mikla og upphefja hans gud-dómligu speki og födurliga forsjón, ad hann med þessu vitrínganna dæmi sýnt hefir, ad sá væri í heiminn borinn, sem er vor fridur og gjörir eitt af bádum, og gyrdíngu midveggjar-ins hefir afbrotid, Eph. 2. þar hann afmád hefir óvinskapinn, hvört ad var lögmál bod-ordanna, sem var innifalid í setníngunum fyrir sitt hold, svo hann gjördi tvo ad einum ný-um manni og semdi frid, svo þar eru nú af Gydíngum þeim ed trúdu, og heidíngjum, er ádur ecki trúdu, ordid eitt sauda-hús og einn hyrdir, Jóh. 10. Þetta var hid allra mesta miskunar verk, vid þá er voru hinum sárustu eymdum vafdir og mesta sálar voda; en svo ad Guds födurlig gjæska léti oss vita, ad hönum og umhugad væri um líkhami vora, þá sér hann sínum elskuligum Syni, hvör ad í volædi alinn var, hann sér hönum farborda med þessu móti sem ádur er sagt. Herra Gud! Hann kom til sinna eigin, og hans eigin med-tóku hann ecki, segir Jóhannes, Cap. 1. Arla fyndu þad Gydíngar; hans módir fékk eckert rúm í gésta-herberginu, til ad fæda í heiminn himins og jardar Skapara, nema einn stall, Lúc. 2. En framandi menn, þeir ed eckert af Gudi vissu, þeir koma um lánga vegu til ad færa hönum gjafir. Án efa hefir hinn gódi Gud þetta gjört medal annars til þess, ad þau eigi skyldu naud lída á flóttanum í Egyptalandi. Máttugur var hann ad sjá þeim borgid med ödru móti. Hann gat látid hvört hey = strá í jötunni ad gulli verda. Þad var ecki meira kraptaverk, ad leida þennan litla hóp í gégnum eydimörkina, án allra medala til Egyptalands frá Canaan, heldur enn mörg þúsund Israels sona úr Egyptó inn í Canaans-land, og forsorga þá um heil fjörutýger ár í eydimörkinni. En Gud vildi hér-med sýna, bædi módur hans og fósturfödur, sem og öllum þeim, er þetta Evangelíum sídan heyrt hafa og á hans nafn trúa, ad jafnvel þótt hann Konúngur væri, þá væri hans ríki ecki af þessum heimi, Jóh. 18. og svo ættu allir þeir lyndir ad vera, sem hönum vildu til handa gánga, ad láta sér nægja, 1. Tim. 6. sinn deildann verd, bædi í medlæti og mótlæti; og þegar vér hösum þad, vér skulum fædast og klædast med, ad vér látum oss þá nægja, ef Gud vill svo vera láta. Uppá sinn eingétinn Son hafdi Gud lagt alla byrdi synda vorra, Esa. 53. Sú ánaud tók til strax í vöggu, annars hefdi hann ecki í armód fæddur verid, og landflótta ordid, en ef hönum var svo umhugad um hann, þá er hann reidur var

syndarinnar vegna, ad hann þetta gjørdi; ad hann sendi hønum Eingla til þjónustu, þá hann freistadur var, Matth. 4; ad hann sendi hønum Eingil af himni í hans bitra dauda-strídi, Lúc. 22; því viltú þá ørvænta um Guds adstod í mótgánginum, sem í hønum og fyrir hann ert sættur vid Gud, Cól. 1. og Jesú Christí samarfi ordinn. Eru ecki øll vor høfud-hár talin? Mun þá eitt af þeim falla á jørdu án vors Fødurs vilja, þar slíkt má ecki einn titlíng henda? Matth. 10. og hvørsu dýrmætari erum vér þó titlíngunum, sem med Guds blódi erum endurkeyptir, Act. 20; en ef Guds vilji verdur á oss, hvørju høfum vér þá ad kvída? Er hann fátækur, ad hann géti ecki hjálpad? Edur hardsvíradur ad hann vilji ecki? Því møglum vér þá, strax sem ecki er fyrir augunum þad sem eta skal? Hvar fyrir þýngja menn hjørtu sín med sorgum þessarar næríngar? Lúc. 21. Því hripsa þeir náúngans braud út af hans munni, sem valdid hafa, strax sem þá vantar? Því svíkja hinir med adskiljanligum undanskotum og ráng-sleitni er yfirvaldinu eiga tolla og tíundir ad gjalda? Því halda menn daglaunarans sveita inni? Því prettast menn á innbyrdis, í kaupum og sølum? allt þetta er af hinum Vonda, og gjøra þad nockrir af því, ad þeir eru svo lyndir; adrir þess vegna, ad þeir hyrda ecki um, þótt ad þeir brúki leifar eckjunnar og arf hins fødurlausa til óhófs og ofmetnadar; en flestir þess vegna, ad þeir vantreysta Gudi; en hvad miklu betra er ad brúka Davíds rád, Ps. 55. og varpa sinni áhyggju uppá Drottinn, því hann mun því vel til vegar koma. Hann kann ad géfa vatn af hellunni þegar hann vill, Ex. 17. Hann gétur sadt sitt fólk med manna, Ex. 16. nær hønum þóknast. Hann gétur sýnt Agar brunninn á þurrlendinu, nær hún til hans kallar, Gen. 21. Hann gétur forsorgad Jónas í hvalfisksins kvidi, Jón. 2. og jafnvel látid hrafninn þann grádugasta hræfugl, færa Elíæ fædslu, 1. Reg. 17. En vantrúin segir, ad Gud gjøri ecki jardteiknir eins og á Elíæ døgum. Eg játa þad, þess þarf og ecki vid, Gud hefir svo leingi sýnt oss gæsku sína og almætti, ad vér mættum vel trúa, þótt ecki sjáum vér teikn og stórmerki; en þó vil eg þad segja, ad væri þar til Elíæ trú, Elíæ bæn, og Elíæ kjærleiki, þá er Elíæ Gud einn og hinn sami, ef hønum þætti kraptaverkanna vid-þurfa. En mér sýnist eigi þurfa jardteiknir til þess, edur ad umbreyta náttúrunnar háttum, ad Gud vardveiti þá sem hønum treysta, og hann í anda og sannleika ákalla, og sjái þeim farborda, bædi þá illa og vel geingur; því þess hefir aldrei misbrestur ordid frá fyrstu heims skøpun, allt til þessa dags. Þad ord stendur stødugt, segir Postulinn, 2. Tim. 2: ad þeckir Gud sína; eda vill nockur skrifa hønum fyrir, med hvørju móti hann hjálpa skal? Seig mér, hvør myndadi þig nær þú einginn varst? Ps. 139. Hvør forsorgadi þig í módur-lífi? Hvør leiddi þig út þadan? Hvør gaf þér aldur og vøxt, mál og vit? Gjørdir þú þetta sjálfur? eda hjálpadir þú nockud þar til med þinni áhyggju? Seig mér, er þá ecki lífid meira enn fædslan? og líkhaminn meira enn klædnadurinn? Matth. 6. Hvør lætur grasid á jørdunni vaxa? Segir ecki Jesús, ad þad verdi ad akurkallinum sofanda, Marc. 4. Hvør plantar trén í skóginum? Hvør lætur saudina fjølga á jørdunni? Hvør framleidir fiskana af sjónum? Hvør géfur regnid á jørdina i hagstædann tíma; Páll sagdi Gud gjørdi þad til vitnisburdar um sjálfann sig, Act. 14. Væri þér einnin rignt í veraldina í dag, og þú sæir ad allt þetta skédi, mundir þú ecki kalla þad kraptaverk? Svo verda Guds almættis-

verk einn almennur hlutur hjá oss, í hverjum vér þó ecki hid minsta skilja kunnum. Hann lætur mig þó margt mótlæti þola, segir þú; Því má eg húngra og þyrsta? Því hann vill kénna þér, ad madurinn lifi ecki af einusaman braudi, heldur sér-hverju ordi sem framgeingur af Guds munni, Matth. 4. Því em eg sjúkur og sár? Til þess, ad líkhamans vanheilsa verdi ad andans heilbrigdi. Því missi eg þad Gud mér ádur lánad hefir? Svo þú ecki festir hjartad þar vid, Ps. 62. Því verdur mínum kjærustu vinum og adstodar-mönnum í burtu-svipt? Svo ad Gud sé þinn besti vinur, og þú lærir ad þeckja, ad hjá honum einum er hjálpin, Esa. 43. þá öll mannlig hjálp er úti. Hlusta því til þess er Eliphas Temanítes sagdi vid Job, af hans bókar Cap. 5: Sannliga er sá madur sæll, er Gud typtar; fyrirlít þú ecki straffan hins Almáttuga; hann hrellir sjálfur og læknar; hann slær, en hans hendur græda; af sex hörmúngum mun hann útrydja þér, og í hinni sjöundu skal eigi snerta þig hid vonda; í húngrinu mun hann frelsa þig frá daudanum, og í stridinu af sverdsins hendi. Vel er þad satt sem Postulinn segir, Hebr. 12. ad öll typtan medan hún áliggur, þykir hún sorg, og eingin gledi vera; en hún géfur þó eptirá fridsamligan ávöxt réttlætisins. Þar fyrir geingur þad Gudsbörnum, svo sem hann um sig játar, 2. Cor. 4: vér höfum þennan féssjód í leyr-kérum, svo ad yfirburdir kraptarins sén af Gudi og ecki af oss; í öllu þjáumst vér, en verdum þó eigi adþreyngdir; vér efumst, en örvæntum eigi; vér lídum ofsókn, en verdum eigi yfirgéfnir; oss verdur nidurvarpad, en vér fyrirförumst þó ecki; hvar fyrir, brædur mínir? því ad oss hendir eigi nema mannlig freistni, 1. Cor. 10. Þad er svoddan mótlæti, sem mönnum er bæriligt, en hann er trúr, og freistar einskis yfir megn fram, svo ad margur Lazarus, sá er liggur fyrir dyrum hins ríka, fullur kauna, Lúc. 16. hann er betur til frids, en einn veraldar sonur, hvern ágirndin dagliga plágar, hvörjum öfundin slítur, hvorn reidin brennir, hvörn hofmódurinn uppblæs, svo hann hefir eigi frid nema einhvör steyti; hvar á mót Guds vinur hrósar sér af hörmúngunum, vitandi ad hörmúngin verkar þolinmædi, en þolinmædin reynsluna, en reynslan vonina, en vonin lætur eigi til skammar verda, Róm. 5. Þvíad elska Guds er úthelt í hjörtum vorum fyrir H. Anda, sem oss géfinn er, Róm 5. Játum þad því satt ad vera er Jakob segir, Cap. 1: sæll er sá madur er freistínguna þolir, því nær hann reyndur verdur, mun hann ödlast kórónu lífsins, hverri Drottinn hefir heitid þeim er hann elskar. Hennar njótandi ad verda, unni oss miskunsamur Gud, Konúngur eylífrar dýrdar, fyrir Son sinn Jesúm, amen!

## Fyrsta Sunnudag eptir Þrettánda.

**Gudspjallid, Lúc. 2. Cap.**

Í þann tíma, og þá ed hann var tólf ára gamall, fóru þau upp til Jerúsalem eptir sidvenju hátídardagsins. Og er þeir dagar voru lidnir, og þau fóru heimleidis, vard barnid Jesús eptir í Jerúsalem, og hans foreldrar vissu þad ecki. En þau meintu þad, ad hann væri hjá selskapnum, og voru svo komin eina dagferd, og leitudu hans medal

frænda og kunníngja. Og þá ed þau fundu hann ecki, geingu þau aptur til Jerúsalem, og leitudu ad hønum. En þad skédi svo eptir þrjá daga, ad þau fundu hann í musterinu, sitjandi mitt á milli lærifedranna, heyrandi þeim og adspyrjandi þá. En allir þeir er hann heyrdu, undrudust yfir hans skilníngi og andsvørum. Og er þau sáu hann, hnickti þeim vid. En hans módir sagdi til hans: Son minn! því breyttir þú svo vid ockur? Sjá þú, fadir þinn og eg, leitudum harmþrúngin ad þér. Og hann sagdi til þeirra: Hvad er þad þid leitid ad mér? vissud þid ecki, ad mér byrjadi ad vera í þeim hlutum sem míns Fødurs eru? En þau undirstódu ecki þetta ord, sem hann mælti til þeirra. Og hann fór med þeim ofan, og kom til Nazareth, var þeim og hlýdinn. En hans módir geymdi øll þessi ord í sínu hjarta. Og Jesú jókst aldur og vitska, og nád hjá Gudi og mønnum.

## Exordium.

Hvor sem ecki medtekur himnarîki sem annad úng-barn, hann mun ecki inngánga í þad, segir Endurlausnarinn, Marc. 10. Hvad skulum vér hér til segja, br. m.? Jeg ætla ad holdi og blódi muni þetta ofgar þykja, og er þess øll von, því þau erfa sjálf ecki Guds ríki, 1. Cor. 15. er þar fyrir líkligt, ad þau muni ecki kunna mikla grein á þeim hlutum, er til Gudsríkis heyra. Hvornin kann madurinn ad endurfædast þá hann er gamall? Hvort géur hann horfid aptur í sinnar módur kvid, og fædst svo ad nýu, sagdi Nicódemus? Jóh. 3. Og slíkar tølur mun hold og blód telja sér; skal eg æpa aptur eins og úng-barn, og verda vitfyrríngur eins og úng-barn, og láta øllum látum eins og úng-barn? eda eru himnanna dyr svo þraungvar, ad eg verd ad skrýda á fjórum fótum inn í Guds ríki eins og úng-barn? Þraungvar eru þær ad sønnu, kristinn madur! og þad svo mjøg, ad hægra er úlfbaldanum ad gánga í gégnum nálaraugad; heldur enn ríkum manni inn í himnaríki, Matth. 19., og leidin er þángad svo þraung, ad margir vilja hana gánga og géta þad ecki, ad vitni Christí, Lúc. 13. En ecki er þad meiníng vors Frelsara, ad þad sé vegur til himnaríkis, ad gánga í bernsku edur úngædi, heldur enn hitt ad manninum byrjadi aptur ad hverfa í kvid sinnar módur. Páls segir oss best hvornin því hagar, med þessum ordum: Verid ecki børn í skilníngìnum, heldur í hreckvísinni, 1. Cor. 14. Sá er altíd nógu vitur, er sér lætur stjórna af anda Drottins; hinn er fávísari enn nautid og asninn, Esa. 1. sem mótstendur heilogum Anda. Þér þykir þad vesælmannligt ad æpa eins og barn, en ecki þótti þad Davíd, sem ad táradist fyrir Gudi um allar nætur, Ps. 6; ecki Ezechíæ kongi, sem tísti eins og tranan, og kurradi eins og dúfan, Esa. 38; ecki Manassi, sem giørdi heita ydran fyrir sinar syndir, 2. Par. 33. og voru þessir eingir lítil menni; ecki Petri, sem géck út og grét beisklíga, Matth. 26. og ecki hinni bersyndugu, er þvodi Jesús fætur í tárum sínum, og þerradi med hár-lockunum, Lúc. 7. Þessir breyttu eptir smá-børnunum, og þannin ætla eg flestir hafi geingid inn í himnaríki. Gud nádi vort eymdarstand hér í heiminum; þegar vér vorum smálga børn, og vissum eingin deili góds edur ills, þá var himnaríki vort; en nær vér drøgumst á legg, gjørast sumir helvítis eldibrandar. Gott er ad sønnu ad vaxa ad aldri, og undir eins ad vitsku og nád hjá Gudi og mønnum, eins og barnid Jesús; en hvad illskunni vidvíkur, þá ætla eg gott sé ad fara aldrei af barns-aldri; því kalla eg þann heppinn, sem ecki veit af fleiri ódygdum ad segja, enn hann er fæddur med; jafnvel þó allt sé holdligt þad af holdinu er fædt, Jóh. 3. En þad má þó ad miklu leiti bæta, med kristiligum aga og uppfrædíngu, án hvørrar syndumspilt náttúra, er eins næm á þad illa, svo sem sundrid tekur á móti eldinum. Um þetta vil eg nockud framar tala út af þessu h. Evangelío, er vér viljum í tvo hluti deila: 1) Um skyldu foreldranna vid børnin. 2) Um barnanna skyldu

vid foreldrana. En þú sem ordinn ert hluttakandi holds og blóds, eins og sinábörnin, Herra Jesú Christ! stjórna þú hiörtum vorum, svo oss fúsa gjori ad fylgja þínu blessada dygda dæmi, og send oss þar til náð þíns H. Anda, amen!

# Utleggíngin.

Hid fyrsta sem foreldrarnir eru börnunum skyldugir um, það er líkhamlig forsorgun, föt og fædi; það kénnir sjálf náttúran; himin og jord hrópa það dagliga; allir hlutir hafa forsorgun af því sem þeir eru fæddir af; villudýrin á mörkinni, þau grimmu ljónin, og hinar ólmu birnur, afrækja ecki sitt fóstur. Tréd hefir sinn voxva af rótinni, og ormum jardarinnar géfur hún sína fædu, og vér erum sjálfir komnir af henni i öndverdu, og öll sín börn hefir hún fyrir almættis krapt Drottins fóstrad allt til þessa dags; þacfir séu honum ad eylífu, sem hana dásamliga frjófgar med feiti vagnleidar sinnar, Ps. 65. Þetta er ad sönnu skyldugt og naudsynligt; en þó er það hinn minsti partur, jafnvel þótt sumir þykist öllu hafa aflokid, þegar svo er gjort; það er þó hálfverk, nema minna sé, því betra er ad kasta afkvæmi sínu út á mörkina, en ad láta það uppalast í öllum ódygdum, Djöflinum til þjónustu. Hvad er þá framar? Hvad heyrum vér af foreldrum Jesú? Þegar hann var tólv ára gamall, höfdu þau hann upp til Jerúsalem. J Exod. 34. stendur, ad Drottinn hafi géfid þetta bodord: Þrisvar á ári hverju skulu allir þínir kallmenn mæta fyrir augliti Drottins Guds þíns. Þessu bodi voru þau Jóseph og María hlýdug, og töldu ecki eptir sér ad reisa um lángann veg, allt frá Nazareth í Galílæa upp til Jerúsalem. Merk hér hvad fyrst á ad vera í kristiligu uppeldi, sem er ótti Drottins. Það sem fyrst kémur í kérid, það lyktar það leingst af, segir hinn rómverski ordsháttur. Svo eru og börnin; það fyrst er hjá þeim innplantad, því halda þau leingst, en ekert er þvílíkt, sem ótti Drottins; hann er eins og fædid það menn í jördina leggja, það kann eigi annad enn ad bera sér líkann ávöxt; þar fyrir á það ad vera þitt fyrsta verk, kristinn madur, ad innræta hjá barninu elskuna til Guds, og mun allt annad gott med minna erfidi á eptir fylgja. Læknisdóma géfa menn inn á tómann maga, og halda það gott til heilsubótar. Vér fædumst í þennan heim sjúkir af syndinni, því í syndinni em eg alinn segir David, og í syndinni hitnadi minni módur med mér, Ps. 51; en hvor mun þvílík lækning þar vid, sem elskan til Guds? lát þinn son drecka hana inn med módur-mjólkinni, og muntú afla honum andligrar heilbrigdi, og það ádur enn allt annad innkémur, ádur enn hid únga hjarta saurgast af heimsins óhreinindinn, af vondri umgeingni og illum dæmum, ad það sé þá fullt af elskunni til Guds og dygdanna, svo þá Satan kémur og ber ad dyrum med hamri lastanna, þá verdi hann snarliga brotinn á bak aptur, af þeim sem honum er yfirsterkari, Lúc. 11. Lastadu blygdunarlaust, þar mun aldid eitthvad vid loda, segja hin hreckvísu Djöfulsins börn, sem tamt er ad bera illt í höfdíngjanna eyru, til ad afla skandmennum sínum þocka. Brúka hid sama vid barn þitt med ödrum hætti! Tala jafnan um Gud, hvad gódur hann sé, og hvörsu voldugur; ad hann hafi himin og jörd skapad; hvad mikid gott hann mönnunum veiti; hvornin hann þá dásamliga forsorgi; hvörsu gódur hann sé þeim, sem hann óttast; hvad dýrdliga vist hann hafi tilbúid þeim med sjálfum sér, er hann elska

og nockud lída í heimi þessum hans vegna; hvørsu ágjæt gjøf ad sé Jesús Christus, og hvørnin hann hafi einnin úng=barn gjørst fyrir mannanna hjálpræðis sakir. Tala þetta fyrir barninu, kristinn madur; þad er sú hreina og skynsamliga mjólk, sem Petur um talar, 1. Pet. 2., ad vér skulum girnast, svo ad vér vøxum til sáluhjálpar, og trú mér til, þad mun eigi ávaxtarlaust verda, jafnvel þótt bernskan sé rík í úngdómsins hjarta, Prov. 22; því af munni smá=barnanna og brjóstmylkínganna hefir hann sér lofid tilreidt, Ps. 8. Þetta má einfaldligt þykja, þad er þó þad, án hvørs eingínn hefir vitur ordid. Jeg skammast mín ecki ad tala þad til Guds barna, sem Mósi þótti eingin minkun ad tala til Israels sona, edur hvad segir hann? Devt. 6: Þessi ord sem eg býd þér í dag, skaltú leggja uppá hjarta þitt, og brýna þau allt jafnt fyrir þínum børnum, og ræda um þau nær þú situr í þínu húsi, og binda þau til merkis á þína hønd, og skrifa þau á þína dyrustafi, og þau skulu vera þér minníngar teikn fyrir þínum augum; hvar um taladi Mósis þetta? Um Guds løgmál, sem þó deydir, 2. Cor. 3. Hvad miklu framar má eg þad segja um ord Evangelíí, sem eru líf og andi, Jóh. 6. Og fyrir því ad allt løgmálid er í tveimur bodordum innifalid, sem er ad elska Gud af øllu hjarta, og náúngann sem sjálfann sig, Matth. 22. þá undirvísa barninu strax á únga aldri, hvørnin allir séu ordnir einn madur í Christó, Gal. 3. en hann sé høfudid, Eph. 1; hvad skammarligt þad sé, ad einn limurinn forsmáir annan, edur ad þeir tønlist og tyggist innbyrdis, þar til þeir mættu um sídir verda uppetnir; já, hvada merki hinn gódi Jesús hefir sett uppá sína lærisveina, ad allir skuli þeckja þá þar=af, ad þeir elski hvør annan, Jóh. 13. Brýn fyrir syni þínum kristiligar dygdir og gudræktiligt athæfi, hógværdina, kjærleikann, miskunsemina, þolinmædina, réttvísina, gódfýsina, sparsemina, hugprýdina; afmála þær svo sem Drottins Eingla í hans augum, svo ad hann fái elsku til slíkra hluta, og hafi þá kjærari enn allt annad, og þecki hvørsu Gud hafi þá kjæra er slíkt idka, og hvørnin ad allir ágjætir hlutir, sem menn hafa mestar mætur á í heiminum, plagi slíkri atferd eptir ad fylgja, svo sem er heidur, metord, ástsæla, og annad stundligt eptirlæti, er Gud veitir mørgum af sínum vinum; en kunni ødruvísi ad falla, þá sé dygdin sín eigin verdlaun í þessu lífi, og hafi fyrirheit eylífrar sælu í himnaríki. Lát hann sem allra seinast ná ódygdirnar ad þeckja, en elska aldrei; drep þeirra nafn út í hans eyrum, og gjør lestina ad skrímslum og ófreskjum; leid hønum fyrir sjónir þeirra straff og illar útfarir, er þvílíkt adhafast, og ad hann muni slíkann kost eiga, nema hann gjaldi varhuga vid; med svoddan fortølum er kristiligt og skynsamligt ad hræda úngar manneskjur, en eigi med grílum, draugum og forinjum. Upphaf vitskunnar er ótti Drottins, Ps. 111. en ecki ad hrædast féudur og púka, hvørja þeir aldrei séd hafa, er hvad mest þar um rausa. Umfram alla hluti vert sjálfur hinn skjærasti dygda=speigill fyrir þínu askvæmi; lát eckert ljótt sjást í fari þínu, hvad hinn úngi kunni eptir ad henda. Børnin trúa foreldrunum eins og Gudi, og meina þad sé allt gott sem þau gjøra. Lát ecki hlídni undirgéfninnar, glæpast á agni ilskunnar. Fyrir eingum á meiri bligdun ad bera, enn fyrir einum ýngling. Þad er betra ad gjøra ljótt eitthvad í Høfdíngjans augliti enn barnsins. Hvar á þinn sonur gott ad læra, ef hann sér eigi til fødursins annad enn þad íllt er? Munt þú, sem lýtum ert hladinn, hafa gétid hann svo næmann á dygdirnar, ad

hann læri þær sjálfkrafa, er hann sér aldrei fyrir sér nema ódygdir? Kunni þig því mannligt ad henda, svo sem oft skédur, þá tak þér vara fyrir, ad hinn úngi madur viti sem minst þar af, því eg vil heldur ad óvinur minn sjái íllt til mín, heldur enn sonur minn, þegar eg gjæti ad, hvørsu þúng Guds hønd vard yfir Jeróbóam syni Nebat, sem ad kom Israel til ad syndga, 1. Reg. 14. Þad er og ecki nóg ad þú vardveitir sjálfann þig, vakta og barn þitt fyrir vondum selskap, því íllt samtal spillir gódum sidum, segir Postulinn, 1. Cor. 15. og lítid súrdeig sýrir allt deygid, 1. Cor. 5. Jeg sé hér í gudspjallinu, ad Jóseph og María leitudu ad Jesú, á-medal frænda og kunníngja, sem voru gudhræddir menn, en ecki medal illþýdis; hvar fyrir? því hann var ecki þesshátter selskap vanur; þau fundu hann og í musterinu, sitjandi midt á milli lærifedranna; en ecki út á strætum medal gárúnga. Einginn kann um þad høgum ad hyggja, hvad vondur selskapur gjørir; þad geingur tregt ad venja vonda náttúru á hid góda, hitt er létt ad temja góda á hid vonda. Júda hefdi kanské ecki verid hluttakandi í mansali *) Jósephs, hefdi ecki spilt hønum selskapur brædra sinna, Gen. 37; Dína hefdi haldid æru sinni, hefdi hún ecki komid í lauslátar hendur, Gen. 34; Páls hefdi ei ofsókt Guds kristni, nema hann hefdi ádur verid druckinn af súrdeigi Pharisæanna, Matth. 16. Þótt ad vér séum gétnir og fæddir í syndinni, þá er þó barnanna hjarta líkt hreinum pappír, þar ed allir hlutir verda ritadir á; ef þad er gott, þad blífur, er þad íllt, þad er ecki heldur svo létt út ad skafa, svo ecki á sjái. Umgeingni hreckvísra manna er heimugligt eitur, einn natur-þjófur, ein mordpíla, ein drepsótt, sem í myrkrunum lædist, Ps. 91. einn høggormur í barmi og rotnan í beinunum, Próv. 12. Halt því hinum úngu árum frá slíkri ólifjan. Barnid samþyckir þad kanské ecki strax sem þad heyrir; en trú mér til, ad eitt vondt ord grefur meir um sig í hjartanu enn flísin í holdinu. Ef nockur stíngur fíngrinum á vaxid medan þad er blautt, þá verdur þar hola eptir, og hún varir þegar þad hardnar, tekst og ecki heldur í burt, nema þad sé brædt aptur; svo er og barnid; þad einn úngur numdi, þad kann hann gamall; gétur og kanské ecki gleimt þó hann vildi, og þó hann kynni, þá er betra heilt enn bætt. Lát því sem minst verda spjøllin, svo eigi þurfi ad endurbæta. Þar er stórlæti nockurt í flestra manna hjørtum, Jer. 17. því madurinn er drambsamt dýr; þad er ad sønnu skadlig tilhneigíng, kann þó til gagns ad koma, sé henni vel stjórnad; lát þinn únga son læra ad forsmá þad sem íllt er, og virda þá ad eingu sem ecki vanda sjálfa sig; þad stórlæti er skadlaust, því Postulinn segir um þá, sem látast brædur (þad er kristnir) vera, en eru þó heidíngjar í hjartanu, ad med þvílíkum skuli menn ecki matar-nautn hafa, 1. Cor. 5. Ad þessu undangeingnu, þá venjid og børn ydar til idni og ástundunar! Svo sem leti og ómennska hefir aflad mørgum mikilla lasta, svo hefir idni og eljun margann ósóma í burtu tekid. Høfdíngi þeirra Athenuborgar-manna Sólon, hann setti fordum daga, ad sá sem ecki hefdi kénnt syni sínum neitt handverk, hann skyldi ecki eiga skilid af hønum fóstur í elli sinni. Eg kann ecki ad segja, ad þad væri kristiligt, hitt segi eg ad þad var gagnsamt; þó eg valla viti hvad sá er foreldrunum skyldugur um, sem er uppalinn í leti og ómennsku, svo hann gétur ecki feingid sér atvinnu, þá hann er fullþroska. Og þótt allir fái eigi til þess komist

*) Man er þræll, ad selja Mansali, er ad selja í þrældóm.

ad setja barn sitt til menta, þá vitid ad ærligt erfidi er Gudi eins þægt; því hjá honum er hvørki þræll né frelsíngi, heldur allir eitt í Jesú Christó, segir Postulinn, Gal. 5. Þad væri eigi gott ad allir væru herramenn; eg ætla þá yrdu allir bændur, hvad veroldin eigi þolir fyrir mannanna illsku sakir; bóndinn vid orfid er eins þægur Gudi, þegar hann gjørir verk sinnar kallanar, svo sem dómarinn í sínu sæti, edur presturinn fyrir altarinu. Jesús var ecki til bóka settur, því søgdu hans óvinir: hvadan kémur hønum frædi þessi, Matth. 13. er hann hefir þó ecki á bækur lært? Þad skédi af Guds ásettu rádi, svo einginn kynni ad segja, þad hann hefdi sína speki af mønnum; en timburmannsins son, Marc. 6. var hann kalladur, og sjálfur smidur nefndur. Því er audvitad, ad hann muni ecki ydjulaus verid hafa í úngdómi sínum, heldur numid þad sama handverk. Þó mæla sumir eptir børnum sínum, ad læra ad leita síns brauds í sveita síns andlitis, vitandi ecki þad, ad sá sem uppelst idjulaus, hann er næst því ad deya ærulaus; því þegar hann kann eckert ad vinna, hvad gétur hann annad gjørt enn ad hlaupa med þjófnum til ad stela og verda sídan dreginn í gálgann til ad hánga? Margt mætti hér um framar tala, en eg læt hér vid bída í þetta sinn, og vil íhuga framveigis, hvad børnin eru aptur á mót foreldrunum skyldug.

Og hann fór ofan med þeim, og kom til Nazareth, var þeim og hlýdinn segir textinn. Hvílíkt er þetta, br. m.! Skaparinn hlýdnast sképnunni, Gud manninum, Herran ambáttinni. O! minn herra Jesú, hvílík er þjóns-mind þessi? Þad er ecki um skør fram talad, ad þú lidid hefir oss til eptirdæmis, 1. Pet. 2. Merki þad allir þeir ed undir foreldra valdi eru, og annara sem í foreldra stad settir eru, hvørsu ó vidurkvæmiligt þad er, ad brjótast á móti þeim sem vér ecki einasta eigum sjálft lífid, heldur og fóstur og uppheldi ad þacka. Þér børn, verid hlýdug fedrum ydar í Drottni segir Páll, Eph. 6. því þad er réttvíst, heidra fødur þinn og módur, þad er hid fyrsta bodord med fyrirheiti: ad þér vel vegni, og þú sért lánglífur á jørdunni. Hvar fyrir segir hann í Drottni? Því ecki einasta vegna foreldranna, heldur og Guds vegna á þeim ad hlýda. Gud er allra vor fadir, Eph. 4. og med því allra fegursta nafni hefir hann auglýst sína elsku til vor mannanna. Hann kunnum vér ecki ad sjá og lifa, Ex. 33.; því hefir hann sett foreldrana í sinn stad, ad vér skulum dýrka sig med hlídninni vid þá. Hinn fyrsta heidur og lotníngu, hefir Gud sjálfum sér skilid af manninum; þau eru innibundin í hinni fyrri bodorda-toblunni. Þad allra fyrsta í þeirri sídari hefir hann látid vera þad fjórda bodordid, svo sem hlýdnin vid foreldrana væri sá hlutur er umfram adra væri mest verdur; þetta er hid einasta bodord med fyrirheiti, og er ecki ólíkindi ad hin almáttuga Speki, sem leikur vid mannanna børn, Próv. 8. hafi þad gjørt í þeirri meiníngu, ad úngdómurinn sem alla hluti vinnur fyrir føgur loford, en ecki hefir vit á ødrum dygdum enn hlýdninni, sem er rót hinna, skyldi hafa eitthvad þad ad gángast fyrir, sem í augun geingi; en þótt ad Gud hafi hér tímanligri blessan heitid, þá viti menn, ad hitt er eigi frásskilid, heldur þar sem þetta stundliga endar, þar tekur hid eylífa vid. Sæll er sá sem missir nockud af leingd lífdaganna, til ad ná sem fyrst inn í ríki himnanna, því leingi ad lifa er leingi ad syndga; þad má og ecki leingi kallast, sem einhvørn tíma skal enda taka; bregdist því leingd lífdaganna hér á jørdunni, þá bregtst hún ecki á landi lif-

andi manna. Óhlýdni er galdra-glæpur, segir Skriftin, 1. Sam. 15. Hvar fyrir? eda hvad er galdur? Það er afguda-dýrkan; en sá hinn óhlýdni gjörir sjálfan sig ad gudi; því segir Pálus, Róm. 13. ad sá sem mótstandi valdstjórninni, hann mótstandi Gudi, en hann ed foreldrunum mótstendur, hann giörir hid sama. Það er næsta merkiligt sem ad sagdi Jeremías spámadur vid sonu Jónadabs sonar Rechab, Jer. 35. þegar Israel átti ad útleidast í herleidínguna med kvinnum og börnum, þá sagdi Spámadurinn, í Guds stad, til Rechabs sona: af því þér hlýddud bodordi Jónadabs födur ydar, og þér gjörid sem hann baud ydur, vardveitandi öll hans bodord, þarfyrir segir Drottinn allsherjar: þar skal ecki upprætast einn madur fyrir Jónadab syni Rechabs, ad eigi standi hann frammi fyrir mér alla tíma; og ad menn viti, ad hlýdninnar fyrirheit nái leingra enn til Israels sona, þá voru Rechabítar framandi menn, og ecki af Israels sonum, og var þannin fyrirheitid tekid frá börnum fyrirheitisins, en gefid þeim er eigi höfdu fyrirheit. Svo sjá menn nú, ad þar er eckert manngreinar-álit hjá Gudi, heldur á öllu fólki og túngumálum, sem gjörir hans vilja, hefir hann þócknan, Act. 10. Og svo sem Gud hefir í nád sinni blessad hlýdnina vid foreldrana, svo hefir hann og í sinni grimdar-reidi óhlýdniaa straffad. Hrædilig eru þau ord er Drottinn taladi vid Samúel, 1. Sam. 3. um sonu Elí, þá þeir trássudu á móti sínum födur: eg skal gjöra einn hlut i Israel, ad hver þad heyrir, hans eyru skulu klíngja þar vid; eg hefi svarid Elí húsi: svo sannarliga sem eg lifi, ad Elí húss misgjörd skal ecki forlíkud verda med gáfum edur fórnfæríngum ad eylífu; og hversu margur hafi hérfyrir straffadur verid, er oflángt upp ad reikna; fyrir þetta misti Rúben sína frumgétníngu, Gén. 49; fyrir þad héck Absalon í eikinni, 2. Sam. 18; fyrir þad vard Canaan, sonur Cams bölvadur, Gén. 9; þad sama útrétti Nerónis hönd til ad myrda sjálfan sig, og adrir hafa med ödru móti hegndir verid. Og hvad viljum vér lángt leita? gjætum ad óskörpum þessa auma lands, þar sonurinn skipar födurnum; fadirinn þorir ecki ad tala í midt hóf vid soninn; fadirinn vinnur baki brotnu, sonurinn sefur á bædi sín eyru; fodirinn húngrar og þyrstir, sonurinn er fullur og feitur; fadirinn hefir einga ró fyrr enn hann hefir klakid því upp, sem hann gétid hefir, en sonurinn vill láta födurnum vera veitt í öllu því hann lætzt gjöra, hvad þó eingvanvegin er, því fadirinn þiggur eckert af syninum, þótt hann ali hann; hinn gjörir eigi meira enn gjalda aptur þad hönum lánad var. Ecki þarf eg ad segja, ad fyrir þetta komi hefnd Drottins og reidi yfir land vort, því þetta er nóg hefnd í sjálfu sér, þar þessir, sem svo eru uppaldir, gánga heilbrigdir bæja á milli, þad eru vorir ölmusu-menn, og vér fædum þá í Guds nafni; þad eru þeir ed útsjúga hús eckna og födurlausra, og þeir ed drecka annara Guds barna sveita, jafnvel þótt þeir eigi í sínum eigin, ad næra sig af jördunni, Gén. 3. Sólon var eitt-sinn adspurdur, hvar-fyrir hann hefdi eingar vidlögur haft vid födur-drápid? enn hann svaradi, ad hann hefdi alldrei þeinkt til þess, ad þad mundi nockrum i hug koma. Eg medkénni og þad, og þacka Gudi fyrir, ad hann hefir vardveitt land vort fra svo skélfiligri ólucku í lánga tíma, jafnvel þótt þess dæmi séu annarstadar. En sá ed

formælir fødur og módur, Próv. 20; sá ed hædir fødurinn, en foraktar módurina, Próv. 30; hann sem med illu einu launar alla þá mædu og þiáníngu, sem hans foreldrar hafa uppá hann kostad; hann sem med ógudlegu athæfi, skømnum og løstum kvelur þad brjóst, fyrir hvørju hann borinn var, svo þetta hefir marga gudhrædda foreldra til dauda dreigid, mun hann vera lángt frá fødur-mordi? Og svo sem þad má hin stærsta gledi vera ad sjá sitt afkvæmi frammgánga í Guds ótta, svo hlítur þad ad vera hin mesta hjarta-sorg og hugar-ángist ad sjá sína eigin sálu illa fara. Børnin eru kveikt af foreldranna veru; en einginn hefir um aldir sitt eigid hold hatad, heldur fóstrar hann þad og nærir, Eph. 5. Zeleuchus Hofdíngi þeirra í Locris, er hann hafdi þad í løg leidt, ad sá sem tæki med annars manns ekta-konu, skyldi augun missa, þá henti þad hans eigin son, hvar-fyrir hann lét stínga út hans þad eina auga, en sitt annad, til ad fullnægja løgmálinu. Þad auglýsti og Psamenítes Egyptalands konúngur, þegar børn hans voru svívirdt og illa útleikin, þá grét hann ecki heldur enn steinn, en þegar hann sá vini sína til lífláts leidda, þá táradist hann miøg svo, og er hann var ad ordsøkinni spurdur, svaradi hann því, ad í mótgángi vina sinna skyldu menn gráta, en barnanna ólucka væri stærri og sárari enn svo, ad hún tæki nockrum tárum, og allt mun heldur skorta, enn ad þvílík finnist enn-nú í dag, jafnvel á medal vor. Hvad sýnist þér þá, kristinn madur? hvílíkur ógjørníngur er þad, ad sálga þeirra hjarta med óhlýdni og illu athæfi, er svo heitt elska, af hvørra sálu þín sála svo fast hángir, svo sem Jakobs af Benjamíns? Gén. 44. Þad var í løgum haft hjá Athenu-mønnnm, ad sá sem ecki vildi foreldrana forsorga, hann skyldi ærulaus vera; eg kann ecki ad segja þad órétt víst, því þar er eingrar æru von hjá honum, sem ecki vill unna þeim lífs uppheldis, sem honum hefir til lífsins hiálpad. Þar fyrir, børn mín, gjætid ad ydur fyrir Guds sakir, og leidid ecki yfir ydur tímanliga og eylífa ólucku med óhlýdni og forsmán foreldranna. Þér kallid allir Gud, ydar fødur, sem á himnum er, en hann vill ecki þess fadir heita, sem foraktar sína foreldra, því elski hann ecki sinn fødur, hvørn hann sér, hvørsu má hann Gud elska, þann er hann sér ecki? 1. Jóh. 4. O Herra Jesú Christi! þú sem Fødurnum hlýdinn gjørdist allt til daudans, já, allt til krossins dauda, Phil. 2. géf þú ad vér fyrir þínar og þíns og vors himneska Fødurs sakir verdum svo allri mannligri skickan undirgéfnir, 1. Pet. 2. ad þú viljir oss þeckja fyrir þín børn á hinum efsta degi, nær þú kémur ad endurgjalda sérhvørjum einum eptir sínum verkum, 2. Cor. 5. Sérílagi bidjum vér, gódi Gud! géf børnunum hlýdid hjarta, og vernda þau frá vondri verøld þessari, svo þau elski þig, elski foreldrana, elski yfirbodarana, elski dygdir og mannkosti, og í einu ordi ad segja, ad þau vaxi og þróist ad aldri, vitsku og nád hjá Gudi og mønnum. Bænheyr þad fyrir Jesú forþénustu, Amen!

## Annann Sunnudag eptir Þrettánda.

Gudspjallid, Jóh. 2. Cap.

Í þann tíma; þar gjørdist brúdkaup í Cana Galíleæ, og módir Jesú var þar. En Jesus og hans lærisveinar voru og bodnir til

brúdkaupsins. Og er þá þraut vín, sagdi módir Jesú til hans: Þeir hafa ecki vín; Jesús sagdi til hennar: Þú kvinna! hvad hefi eg med þig? mín stund er enn ecki komin. Módir hans sagdi til þjónustu-mannanna: hvad helst hann segir ydur, þad gjörid. Enn þar voru sex stein-kér, sett eptir venju Ebreskra manna hreinsunar, og hvort eitt tók tvo edur þrjá mælira. Jesús sagdi til þeirra: fyllid upp kérin af vatni, og þeir fyltu þau allt á barma. Og Jesús sagdi til þeirra: hellid nú á, og færid kjæmeistaranum, og þeir færdu honum. En þá kjæmeistarinn smackadi vatnid, þad ad víni var ordid, og hann vissi ecki hvadan þad kom, en þjónustu-mennirnir sem vatnid sóktu, vissu þad, þá kalladi hann á brúdgumann, og segir honum: allir menn gefa í fyrstu hid góda vínid, og nær þeir taka ølvadir ad gjørast, þá þad hid léttara; en þú hefir geymt hid góda, allt til þessa. Þetta er hid fyrsta jarteikn sem Jesús gjørdi til Cana í Galílæa; og hann opinberadi sína dýrd; og hans lærisveinar trúdu á hann.

## Exordium.

Jeg hefi trúlofad ydur einum manni Christó, ad eg fái ydur honum hreina meyu; segir St. Páll, 2. Cor. 11. Hvør skyldi hafa vogad ad koma svo ordum ad þeirri einíngu, sem er á milli Guds og manna, hefdi ecki Guds Andi fyrstur lagt þad í munn sinna helgra manna? og er þad þó ecki ad undra, því ordin eiga eptir hlutunum ad líkja. Í leyndardóm holdtekjunnar vors Frelsara, er Gud samteingdur mannligri náttúru. Þad himneska vid hid jardneska, þad eylífa vid hid daudlega, þad sýniliga vid hid ósýniliga, hid skapada vid þad óskapta, og þad med svo sterku bandi, ad ecki má adskilja, og þar ad-auki eru þeir sem Gud elska, einn andi med Christó. Þennan oransakanliga leyndardóm hefir hinni eylífu Speki þóknast ad jardteikna med sambúd daudligra manna, þar madur og kona samankoma í ærligum og heiløgum ektaskap. Nú þótt ad himneskra og jardneskra hluta kunni valla nockur jøfnudur ad hugsast, auk heldur talast edur gjørast, þá er þó einíngin á milli Guds og manna mjøg svo lík einum kristiligum ektaskap; beggja høfundur er hinn almáttugi Gud; hvørttveggia hefir kjærleikurin samteingt; svo sem hrein elska festir gudhræddra hjóna sálir eina vid adra, svo hefir Jesús af eintómri elsku og kjærleika ofan stigid í vort auma hold, og gjørst safnadarins høfud, eins og madurinn kvinnunnar, Eph. 5; og Pálus talar enn-þá nær þessu í sama Kapitula, segjandi: vér erum limir hins sama líkhama, hold af hans holdi, og bein af hans beinum, og med sømu ordum útskýrdi vor fadir Adam, þær teingdir, sem náttúran baud honum, ad væri á milli hans og vorrar fyrstu módur, er hann sagdi: þessi er hold af mínu holdi, og bein af mínum beinum, Gen. 2. Þar fyrir itrekar Páluš einnig hina fyrstu hjóna vígslu, Eph. 5. med þessum ordum: af þeim tveimur skal eitt hold verda. Vor Herra telur alleinasta eina ordsok til þess, ad ekta-fólk skilja megi, Matth. 5. sem er hórdómur; svo skilst eigi Kristur vid nockra syndugs manns sálu, þá er hann hefir sér eitt sinn festa, nema hún taki frammhjá honum heiminn, holdid og djøfulinn; og þó segir hin eylífa Miskunsemin, Jer. 2. sjá! þeir plaga ad segja: ef madur lætur konu sína eina, og hún geingur ad eiga annan mann, mun hann hverfa ad henni aptur? mun ecki þad land magnliga saurgast? en þú hefir hóranir drýgt med mørgum elskuga, snú þó aptur til mín segir Drottinn Gud. Ektaskapurinn er af Gudi innstiptadur til ad fjølga mannkininu í heiminum; þad baud Gud í öndverdu, er hann sagdi: vaxid og margfaldist, og uppfyllid jørdina, Gén. 1. Þad itrekadi hann eptir flódid vid Nóa, Gén. 9.

og þess sama ords almættis kraptur er enn-nú nýr og ferskur, og mun verda, allt til enda veraldar. Jesú brúdir er einnin nærsta frjósöm margra barna módir; hennar Unnusta spá, er á henni sarsælliga rætt, ad hin einsamla hefur fleiri börn enn hún sem manninn hefir, Esa. 54. Hann hefir med H. Guds ordi ótal barna vid henni gétid, 1. Pet. 1. hvör nu standa umhverfis hans bord á himnum, Ps. 128. svo sem pálma-vidar kvistir á vatns-bockum plantadir, Ps. 1. Þess gétur Jakob Postuli, Cap. 1: hann hefir sjálfkrafa gétid oss med ordi síns kraptar, ad vér sëum nockurskonar frumburdir hans skëpnu. Þessu hrósar brúdguminn, Esa. 8, segjandi: sjáid mín börn sem Drottinn hefir géfid mér. Þar yfir fagnar brúdurin, Esa. 49. med þessum ordum: hvör hefir gétid þessa? eg var óbyrja, burtflutt og ad herfángi tekin; hvör hefir uppalid þessa? eg var yfirgéfin og einsömul; hvar voru þessir? Kristilig kyrkja elur fjölda barna, því hennar Unnusti er alltid hinn sami, og hans ár taka eingan enda, Ps. 102. Hann er sá madur Zemach, undir hvörjum eylífliga græt, Zach. 6. hvörs andi ad lífgar. Gydínganna samkunda er ein óbyrja, því hún hefir sleigid sinn mann í hel, en fadmar hinn afgamla og útdauda Moisen, hvörs bókstafur ad deydir, 2. Cor. 3. Nú fyrst hinum eylífa Gudi hefir þócknast ad teikna svo háleita hluti med hjónabands samvistinni, þá gjætum þess, brædur mínir, med hvad mikilli æru og vyrdíngu, ad oss byrjar ad vanda þá heilögu stétt. Þar um vil eg nockud framveigis tala, út af þessu heilögu Evangélió. En þú sem oss hefir trúlofad þér í nád og miskunsemi, eylífi Sonur lifanda Guds! upplýs þú hjörtu vor, svo ad þetta vort áform sarsælliga luckist, og géf þar til nád þíns heilaga Anda, Amen!

## Utleggíngin.

Þar gjördist brúdkaup í Cana Galileæ, segir textinn, og Jesú módir var þar. Sumir hafa tilgétid ad þessi brúd-hjón hafi verid ætt-menn Guds módur, og nockrir halda ad brúdguminn verid hafi Jóhannis Postuli, því hann einn skrifar þetta, og þeigir þó um nöfnin, svo sem plagsidur hans er, nær hann um sjálfan sig eitthvad merkiligt skrifar; um þetta er eckert víst, rídur og á eingu. Hitt er audrádid, ad hér hafa gudhræddar persónur búid rádahag sinn, því ecki hefdi Jesú módir átt sess vid þau ella, og er þad af þessu ad læra, ad menn taki gudhrædda menn til rádaneytis med sér, þegar slíkt á ad byrja, en ecki hlaupa til slíkra efna fyrir rád fram; eigi heldur hlýdast á fortölur þeirra, er annad-hvört sjálfir ecki vita fótum sínum forrád, edur fyrir eigin gagnsmuna sakir steypa einum óreyndum og fákjænum í þá gryfju, sem hann má æfinliga gista og aldrei blídan dag sjá. Í ektaskapar-málum er þad eins og i stridinu, þar má eigi villast tvisvar; sá sem eitt sinn féll i valinn, hann reis aldrei upp sídan, og hann sem byrjar sinn rádahag, má búast vid ad tebla vid slíkan kost allann sinn aldur, er hann tekid hefir. Eg heyri ad Jesú módir var hér ad heimbodi, og hans lærisveinar. En hvad segir hann sjálfur? Matth 12: sá sem gjörir vilja míns Födurs sem á himnum er, hann er minn bródir, systir og módir; þad eru þeir ed óttast Gud og elska; slíkum eiga Guds börn eptir ad leita. Eingin er þvilík heiman-fylgja sem ótti Guds og ærligt uppheldi. Abraham lét Eleazar sinn þénara sverja sér vid Gud, ad hann skyldi einga taka syni sínum til ekta, af Canaans dætrum, Gén. 24. svo mikid þótti honum á því rída, ad börn sín ecki skyldu draga ok med ógudligum, 2. Cor. 6. Drottinn alsherjar lagdi ríkt á vid sitt fólk, ad eigi skyldu þeir teingjast þeim gudlausu þjódum, er hann rak út úr Canaans landi, Deut, 7; þad bar til þess, ad eigi skyldu þeir villa hjarta þeirra frá Gudi, og temjast á alla þá óhæfu, fyrir hvörja hinir voru út-drifnir, eda ásamt þeim verda fyrir Guds

straungu hefndar-hendi', er alla-reidu var útrétt til ad hvolfa hinum fulla mælir syndanna yfir þeirra eigin höfud. Synir veraldar þessarar spyrja fyrst allra eptir audæfum og ríkdómi, svo sem öll er von til, því hvar þeirra féssjódur er, þar er hjarta þeirra, Matth. 6. Nú má þó ecki slíkar Guds gáfur lasta, þegar þad eru hans gáfur, og ecki braud hins volada, sveiti daglaunarans, edur hús eckjunnar, en eg sé þó aptur-á-mót, ad heimurinn mun fyrirfarast med öllu því sem í honum er, 1. Jóh. 2. og hvör eru þá þess nót, sem einn hefir sett fyrir sinn gud og ædsta hjartans traust? Þar er fljótt til ad svara: hann er gudlaus og huggunarlaus: og auk þessa, þótt vér skyldum eptir mannligum plagsid tala, þá játa eg þad satt ad vera, sem hann sagdi fordum: eg vil heldur manninn sem peníngin brestur, heldur enn peníngin þann er manninn vantar, því hvad skal audurinn hinum arga, edur boginn þeim, er eigi kann ad nýta hann? Þad væri eins og ad kaupa margar hörpur, handa þeim sem ecki kann á hörpu, eda bækur fyrir þann, sem ecki hefir lært á bók. Audur er gódur þeim er kann ad brúka hann, hinum er hann eins og rögum manni lángt vopn, en einginn veit þá kunst, nema sá sem gudhræddur er, og gjörir sér vini af hinum gamla ránglætis mammóna, þá ed medtaki hann í eylífar tjaldbúdir, Lúc. 16; og í stuttu máli ad segja, sá er einasta auds verdur, sem audinn forsmáir; ecki þad hann fyrirlíti Guds gáfur edur kasti þeim á glædur, heldur festir ecki hjarta sitt þar vid, og lætur ecki mammon drottna yfir sér, heldur drottnar yfir honum. Og fyrst þessu er svo varid, þá er ecki ad slægjast til audsins, sem á ad vera þrællinn, heldur til Guds ótta, sem á ad vera herrann. Adrir eru géfnir fyrir ættum og göfugu foreldri; þad er ad sönnu ágjætt, því tídar ber þad vid, ad gódir koma af gódum, og stórmenni hafa betri rád til ad ala upp börn sín ef þeir vilja vel, heldur enn smælíngjar; þó er allt holdligt þad af holdinu er fædt, Jóh. 3. og allir eigum vér til Adams ad telja, og ecki taka menn alltíd dygdirnar í arf; eg vil heldur ad einn gjöri Abrahams verk, enn ad hann sé Abrahams sonur; því lítt gagnar þeim gofugt affspreingi, sem meir er til mínkunar ætt sinni, enn hún kynni ad vera honum til sóma, og nærst er þad hvörjum sem sjálfur er hann. Þeir sem þá hafa enn minna vit, þeir gángast fyrir lit, og svo ætla eg allmargir bindi þad sáttmál, sem einginn má rjúfa svo ad sköpum fari, nema daudinn. Fagurt góts er þad ad sönnu, en nærsta fallvalt, því allt hold er hey, og allur þess blómi svo sem gras akursins, þegar Guds andi blæs þar á, þa visnar þad, segir rödd hrópandans í eydimörku, Esa. 40. Lítill kvilli, eitt óforvarandis tilfelli, ein mí-fluga, sem er hid minsta kvikindi, kann ad eyda mannsins frídleik og hans styrk, svo þar er ecki eptir af. Dygdin er ein, svo sem hinn gamli Cíceró sagdi, sem er med diúpum rótum nidur-fest, hvör aldrei veikjast kann, og aldrei úr stad ad hræxast, og ef hann hafdi svo mikid traust á dygdinni, sem þó kunni ecki ad meta hana ödruvísi heldur enn annar heidíngi, hvad dýrt ættir þú þá kristinn madur gudhrædsluna ad kaupa, sem er til allra hluta nytsamlig? 1. Tím. 4. Géfid mér þessa, sagdi Samson hinn sterki, því hún þócknast mínum augum, Júd. 14; þad var diúpvitur reksemd fyrir dómarann í Israel. Dalíla þocknadist og-svo hans augum, en hann vard annars var, þegar hún olli því ad hann blindadur var á þeim somu augum, er komu honum til ad girnast hana, Júd. 16; og má af hans dæmi læra þad, ad svo verdi á svinnum sem ósvinnum;

en hvornin sem honum er farid, þá ætla eg ad margar enn nú í dag girnist þad er hann glæpist á, og sanni svo sídan ordskvid Salómónis konúngs, er best vissi af slíku ad segja, ad vond kona sé eins og reykur í augunum. Eptir öllu þessu spyrja nú heidnar þjódir, Matth. 6. og þeir sem eins eru lyndir; en hvört nockur elskar Gud, edur rækir sinn kristinndóm, edur hefir Jesúm ad heimbodi, þar spyrja fáir eptir af oss, sem þó látumst kristnir vera, og eg hefi óvída heyrt adspurt í landi voru, hvört einn sem leitar konfángs, óttast Gud; hvört hann rækir hans bodord; hvört hann gæfi ölmusu nema fyrir fordildar skuld; hvört hann væri réttsýnn, ástundunarsamur í sinni kallan edur eigi; hvört hann hefdi sinni edur hjarta til ad voga nockru ómaki edur ödrum munum, uppá sína og annara velferd, eda hefdi adrar kristiligar dygdir til ad bera. En hvört hann ríkur væri, kynni vel ad hræsna fyrir mönnum, kynni ad koma svo ár sinni fyrir bord, ad hann gæti á einhvörn hátt sloppid minkunarlaust fyrir almúga, kynni vel ad hylja úlfinn undir saudargærunni, og í einu ordi ad segja, stela, svíkja, ljúga og ræna, undir hylmíngu gudrækninnar og hóglætisins; þar hefi eg heyrt nærri því med berum ordum umtalad, og svo er farid kristinndóminum hjá allmörgum. Væri þá eigi betra ad taka Jesúm til ráds og heimbods med sér, sem allt vald er gefid, bædi á himni og jördu? Matth. 28. hvör ed allt stundligt eptirlæti kann yfirgnæfanliga ad veita ástvinum sínum, eptir því sem hans alvitra rád sér þeim best haga; og ef hann þad ecki veitir, þá veitir hann þad sem er öllu ædra, öllum þeim sem hann óttast, sem er sjálfur hann og hans vinátta, sem aldrei bregdst, þótt himin og jörd forgángi. Þad var stór virding ad Jesú módir og hans lærisveinar voru ad veitslu þessari, en þad tekur yfir ad menn heyra í Evangélío, ad Jesús hafi hér sjálfur verid. Abraham vard gladur vid, ad hann sá dag Mannsins Sonar, Jóh. 8. og þeckti hann þó valla; enn hvílíkt er þetta? ad Jesús Christus sonur Guds lifanda, Matth. 16. voru holdi íklæddur, sannur Gud og sannur madur, hann virdist ad prýda samkomu þessa med sinni nálægd. O! minn Herra Jesú! Hvad er þó madurinn þess, ad þú minnist hans? eda Mannsins Sonur ad þú vitjir hans? hinn Réttláti þess ránglata, hinn Odaudligi þess daudliga, og Konúngur dýrdarinnar þjóns syndarinnar? En allt hefir þú þetta gjört minn Herra! til þess ad kenna börnum þínum, hvörnin þau eigi ad byrja þad sáttmál, sem þú hefir viljad láta vera líking þinnar guddómligrar elsku til vor aumra manna. Ecki er Jesús einasta nálægur þessum brúdhjónum, heldur eiga allar kristnar manneskjur þann sama kost, sem honum vilja til sín bjóda; þótt Jesús sé oss ecki nálægur sýniliga, svo sem hann var á dögum sinnar holdsvistar, þá eiga þó öll gudhrædd hjörtu kost á hans nálægd, því hann hefir sjálfur lofad, Matth. 28. ad hann vilji vera hjá oss allt til veraldarinnar enda. Ecki hefir hann þad einasta sagt til lærisveinanna, heldur til allra þeirra sem á hann trúa mundu, því Postulanna dagar þrutu laungu fyrir veraldarinnar enda, heldur má hér um ætla, þad sama sem Drottinn sagdi fordum til þeirra: Þad eg segi ydur, þad segi eg öllum, Marc. 13. Bjód Jesú med heitri bæn, til þíns brúdkaups, kristinn madur, og mun hann ad vísu verda þinn gestur; rétt-trúad hjarta þarf eigi leingi ad leita ad Jesú, þad er hans kyrkja, 1. Cor. 6. og mun Drottnarinn ecki tefja ad koma til síns musteris, þegar hann til þess kvaddur er, Mal. 3. Eitt

harmþrúngid og sundurknosad hjarta fyrirlítur hann aldrei, því þad er sú fórnin sem honum líkar, Ps. 51; þad eru þær vistir, er honum skal fagna med, og hans þegnskylda hjá mannanna börnum. Sé því Jesús hinn fyrsti og sídarsti géstur til allra vorra brúdkaupa; þar sem hann er, þángad vill Fadirinn og H. Andi koma, og vistarveru hjá þeim gjöra, Jóh. 14. sem Guds Syni hafa til síns brúdkaups bodid. Adrir vinir og géstir yfirgéfa oss og kannast valla vid oss eptir á, sérdeilis ef nockud skyldi á þeim liggja, svo ad vinskapurinn er úti, þegar af er kønnunni; þeir hafa matar ást á oss, enn einga adra, flest = allir, en Jesús yfirgéfur aldrei þá, er honum treysta. Snarara kann fadirinn ad géfa syninum höggorm fyrir fisk, og stein fyrir braud, Lúc. 11. heldur enn Gud kunni ad neyta þeim um gódar gáfur, er hann med rétt=trúudu hjarta þar um bidja. Heldur kann módirinn ad gleyma sínu barni, ávexti síns kvidar, Es. 49. heldur enn Jesús kunni þeim ad gleyma, sem hann elska. Og fyrst þessi géstur er svo ágiætur, sem nú er sagt, þá séu öll kristin ekta = hjón alvarliga áminnt um, ad skicka sér svo í sínum ektaskap, ad þau fæli ecki í burtu frá sér, svo mildann, svo gjæskuríkann og svo voldugann herra. Páslus leggur heilrædi hér til, Eph. 5. segjandi: Þér menn, elskid ektakonur ydar, svo sem Kristur söfnudinn, og gaf sig sjálfann út fyrir hann. Omøguligt er ad sønnu daudlegum mønnum, ad vera svo fullkomnum í elskunni hvør vid annann, svo sem Kristur hefir vid oss verid, þó kunna menn ad breyta eptir hans elsku, svo mikid sem møguligt er. Mér þykir líkligt, ad sá sem tídt hugsar til þess, hvørsu kjæra ad Jesús hafdi hans sálu, þegar hans sála vard hrygg allt í daudann, Matth. 26. til ad útvega syndugum sálum eylífa gledi, hann muni skyrrast vid ad hata sitt eigid hold, Eph. 5. og afrækja þad, sem á ad vera ein sála med hønum. En Gud nádi, hvad fáir hugsa hér til? Og hvad ólíkur er sumra manna ektaskapar, undirbúníngur og sambúd, Christí elsku til sinnar brúdar. Losta og látgjædi taka margir til ráds med sér, þegar svo vegsamlegan rádahag skal byrja, þeinkjandi lítid um þad hvørt þeir géti veitt sér og sínum ærliga forsorgun, eda hvørt þeir beri vit og menníngu til ad ala børn sín upp í Guds ótta og gódum sidum. Allt ofmargir hlaupa saman med litlu meiri áhyggju, enn hestar og múlar, og þegar girndin er slokt um stundarsakir, þá yfirgéfur hvørt annad, edur lifa í hiónabandinu eins og vargar; frillulifnadur er slíkt, og ecki ærligur ektaskapur, og þótt þad kallist svo yrir mønnunum, þá er Guds dómur ødruvísi enn mannanna dómar. Sá sem lítur eina Konu til ad gyrnast hana, hann hefir allareidu drýgt hór med henni í sínu hjarta, segir Lausnarinn, Matth. 5; þar af ræd eg, ad sá sem ætlar konu sinni einlæti (edur kona sem fegin vildi vera vid manninn skilin) þau hafa allareidu yfirgéfid hvørt annad. Sá sem illa med henni lifir, hann hefir tapad hinum betra hluta ektaskaparins, sem er einíng hjartnanna, og í sundur slitid þad sem Gud hefir skipad ad eitt skyldi vera, Gén. 2. Christur gaf sit líf í daudann fyrir sína brúdi, Eph. 5. ad sønnu er þad valla heimtandi af syndugri náttúru, ad hún svo heitt elski, þó eru þess mørg dæmi annarstadar í heiminum, ad margur vogar lífinu fyrir kvinnu og børn. En hvad gjøra menn í þessu idjulausa landi? Þad sama sem Salómon segir um letíngjann: Eg vil ennþá sofa lítid, og ennú dotta nockud, og ennþá leggja mínar hendur saman litla stund, þángad til ørbyrgdin kémur, svo sem einn ferda=madur, og skorturinn eins og ein

hetja, Próv. 6. Konurnar hafa og bodord af St. Páli í þessum sama kapítula, sem e ádur umgat; hann segir: konurnar veri sínum mønnum undirgéfnar svo semDrottni, þvía madurinn er konunnar høfud, svo sem Kristur safnadarins, þar fyrir svo sem søfnudurinn e undirgéfinn Christó, svo eiga og konurnar ad vera sínum mønnum undirgéfnar í øllu; me elsku á slíkt ad vera, br. m. en eigi med ofbeldi. Madurinn er ad sønnu konunnar høfu og herra, Gén. 3, en hans herradæmi á ad vera innifalid í elsku og ecki ofríki. Høfudi sér fyrir líkhamanum, til þess ad hønum vel vegni, en ecki meidi sig edur steyti; hini adrir limirnir útrétta þad sem høfudid ályktar, en þad á svo fyrir ad sjá, ad eigi sé til skad né hindrunar. Stiórni menn konum eins og Kristur søfnudinum, hann rædur aldrei nema til farsældar, þeim sem vilja láta sér af hans anda stjórna; en sú manneskja, sem eck vill hans rádum hlýda, hún kann ecki ad heita hans brúdur; svo gét eg eigi heldur kalla þá ekta=konu sem ecki vill fara ad góds manns rádum; ecki heldur þann ekta=mann, sem ill rædur, ef hann hefir betur vit á. J Mósis løgum bannadi Gud, ad nockur kallmadu skyldi færa sig i kvenna búníng, og ad ein kona skyldi búa sig eins og kallmadur; þetta e líklegast, ad hinn alvitri Konúngur hafi sett til ad halda góda skickun medal síns fólks, o til ad afstíra lauslæti og hneixlissamri umgeingni millum karla og kvenna; en þó kynn menn þess til ad géta, ad á medal annara væri hérmed teiknad, ad einn kallmadur skyl ecki láta þad vald, er hann eptir Guds bodi hefir yfir konunni, og konan eckert vald tak sér til, yfir manninum, því ein kona sem vill ráda fyrir bónda sínum, hún tekur uppá s kallmanns búníng; og einn ekta=madur er svo mjøg veltist úr sínu bónda=sæti, ad hann læ ur konuna fyrir sig ráda, hann býr sig kvenna búníngi, og má ei framar húsbóndi kallas og er hvørttveggja þetta ad umhverfa Guds skickun, því hvørttveggja hefir hann bannat er þad því ein andstygd fyrir hønum. Þetta segi eg ecki þess vegna, ad eigi sé þad sóm samligt hvørjum manni, ad þeckjast holl rád gódrar konu; hefdi Pílatus hlýdt konu sinn þá hefdi hann ecki gjørst sekur i blódi hins réttláta, Matth. 27; Aurelíanus keysari g þann vitnisburd Zenóbiæ drottníngu, ad med hennar rádum og fylgi, hefdi Odenatus hen ar húsbóndi, Persana sigrad; mundi þad skada Davíd ad hann hlýddi Abígael? 1 Sam. 25. edur Jóab rádi kvinnunnar i Abel Beth=Mahaca? 2. Sam. 20. Því seg og Salómon, Próv. 14. ad ein skynsøm kona byggi húsid. Svo kann og opt til ad bera, a kvinnan sé framar viti borin enn madurinn, og er þá einginn minkun ad fallast á rád hen ar; en þar fyrir á hún ecki ad hefja sig upp yfir manninn. Einn þénari kann ad skyn margt framar enn hans herra, samt er hann þó ecki herra. Þad kann og opt ad hend sig, ad einn rádgjafi sé vísari enn hans konúngur, samt er hann þó ecki nema rádgjafi; s er og ein kona, aldrei nema kona, hvørsu sem hún er vel ad sér um alla hluti; hún kém alldrei hærra enn ad vera høfudprýdi bónda síns, eins og Salómon talar um gód konur; vilji hún meira vera, þá smánar hún bædi sig og hann, og heitir hún þá rotnan hans beinum, Próv. 12. sem er einginn æru=titill. Gud hefir hlutunum næ sta vísliga hagad; manninum hefir hann géfid afl og vitsmuni, konunni fe urd og blídlæti; hvørutveggi eiga svo sínar gáfur ad brúka, ad Gudi þóknist. Kal madurinn á ad brúka styrkleika sinn til erfidis, en ecki til ofstopa, vitsmu

nina til forsjónar, og ecki hreckvísi; konan fegurd sína, til ad þócknast manninum, því þad hefir Gud skapad í náttúrunni, en eigi til lauslætis, því þad hefir Djøfullinn innfært í Heiminn; blídleika sinn til ad ávinna mannsins gédsmuni, en ecki til ad svíkja hann til vondra verka, eins og Jessabel, 1. Reg. 21. Eg ítreka enn-þá aptur hina føgru Páls samlíkíngu um Christum og søfnudinn, því hvørgi er kristiligum ektaskap meiri virdíng gjør, enn í henni. Þótt Sonur Guds lifanda hafi virdt oss þess, ad kalla oss sína brúdi, þá er hans dýrd eingu ad minni, heldur øllu meiri í allra þeirra hjarta sem hann elska; hans brúdir hefir og alla sína æru og virdíngu þar af, ad hún er hans brúdir, og elski hann einn og virdi, og þar fyrir utan hefir hún einga. Konan hefir og einga æru, þegar hún óvirdir manninn. Páll segir, Eph. 5. ad sá sem elski sína ektakonu, hann elski sjálfann sig, og sama er um konuna ad segja, þegar hún manninn virdir, gjørir hún sjálfri sér virdíngu, og sú þad ecki gjørir, hún rýfur Guds skipan og setur skørina upp í beckinn; þvílíkt hiónaband er ecki øllu skickanligra, heldur enn ef einhvør geingi á høfdinu. Salómon segir, ad ein þægilig kona, sé kóróna mannsins, Próv. 12, og er þad í því mest innifalid, ad hún hlýdin sé, og gjøri hønum allt til sóma. Þeir sem nú Jesúm vilja hafa med sér ad heimbodi, þeir skulu med slíku skapi gánga ad eigast, þá mun alltíd vel farnast og aldrei illa; þá mun Christi ok sætt finnast, og hans byrdi létt, Matth. 11. ef hønum þócknast ad spenna sín børn fyrir sinn plóg. Rómverjar sem og Grickir hafa nefndt hjónin med sama nafni sem akneyti þau er draga eitt ok. Nautin verda því svo vøn þegar þau samsveitast, ad eitt hjálpar ødru til, og eitt hegdar sér svo í sínu erfidi vid annad, ad plógurinn kunni sem léttast áfram ad gánga. Sjáum til, Kristnir menn, ad eigi séum vér lakari enn þau vinnudýrin, er Gud hefir sett oss yfir, og géfid oss til ad létta undir vort erfidi, med hvørju vér eigum ad næra oss af jørdunni, þar hann hefir svo miklu meira til vor lagt enn þeirra, ad fyrir utan hinn fagra líkhama, er hann hefir oss géfid, og hina skynsemdarfullu sál, er hønum stjórnar, þá hefir hann endurkeypt oss med sínu eigin blódi, Act. 20. Høfum ráð Jesú módur, er hún sagdi til þénaranna: hvad helst hann skipar ydur, þad gjørid! En hvør eru þá hans ráð? Páll segir oss þad, Gal. 6: eitt beri annars byrdi, og þá munud þér uppfylla Christi løgmál; þad hefir ad sønnu Postulinn øllum sagt, en ecki sízt hjónunum; þá mun hin almáttuga ørlætis hønd, er sedur allar lifandi sképnur, bæta allann vorn brest, og snúa øllu vatni mótlætínganna í sætt vín gledinnar. Og þegar verøld þessi hættir ad dryckja oss, med víni sins munadar, og þad tekur til fyrir yfirburdi þeckíngarinnar Drottinns vors Jesú Christi, ad smacka oss illa, þá vér finnum einga huggun í heiminum, og hann dryckjar oss med galli og ediki eins og vorn brúdguma, Matth. 27. þá mun Jesús géfa hid góda vínid; þá mun hann drecka oss til, af nægdargjædum síns húss, Ps. 36; þá mun hann láta oss smacka sætleik eptirkomandi aldar, hvør ecki er matur né dryckur, heldur fridur og føgnudur í H. Anda, Róm. 14. Hvørs mjótandi ad verda hér í nádinni, og sídan eylíflega í dýrdinni, oss unni og veiti Gud himneskur Fadir, fyrir forþénustu síns eingétins Sonar Jesú Christi, amen!

# Þridja Sunnudag eptir Þrettánda.

Gudspjallid, Matth. 8. Cap.

I þann tíma; þá ed Jesús gêck ofan af fjallinu, fylgdi hønum margt fólk eptir. Og sjá þu, ad líkþrár madur kom, tilbad hann og sagdi: Herra! ef þú vilt, þá getur þú mig hreinsad. Og Jesús rétti út høndina, áhrærdi hann og sagdi: Eg vil, vertu hreinn, og jafnsnart vard hans líkþrá hrein. Og Jesús sagdi til hans: sjá þú til, ad þú seigir þad eigi neinum, heldur far þú, og sýn þig kénnimønnunum og offra þeirri gáfu, er Mójses baud til vitnisburdar yfir þeim. En þá ed Jesús gêck inn í Capernaum, kom til hans Hundrads-høfdíngi nockur, bidjandi hann og sagdi: Herra! þjón minn liggur limafallss sjúkur heima, og kvelst þúngliga. Jesus sagdi til hans: eg vil koma og lækna hann. Og Hundrads-høfdinginn svaradi og sagdi: Herra eg em þess ei verdugur, ad þu gángir inn undir mitt þak, heldur seig þu eitt ord, og mun minn þjón heilbrigdur verda; þvíad eg em madur yfirvaldinu undirgéfinn, hafandi undir mer stríds-fólk, og nær eg seg þessum: far, þá fer hann, og ødrum: kom þu, og hann kémur, og þræli mínum: gjør þetta, og hann gjørir þad. En þá Jesús heyrdi þetta, undradist hann, og sagdi til þeirra er hønum eptir-fylgdu sannliga segi eg ydur: ad þvílíka tru hefi eg ecki fundid í Israel. En eg segi ydur: þad margir munu koma af austri og vestri, og sitja til bords med Abraham, Isak og Jakob í ríki himnanna; en ríkisins synir munu verda útreknir í hin ytstu myrkur, þar sem vera mun óp og gnistran tannanna. Og Jesus sagdi til Hundrads-høfdíngjans: gack þu hédan, verdi þér eptir því sem þu trúdir! Og hans þjón vard heill á þeirri sømu stundu.

## Exordíum.

Valla er nockur sá vitnisburdur í heilagri Ritníngu, er svo kreptugliga votti, ad Gud og madur eru samteingdir í einni persónu Drottins vors Jesú Christi, sem þau ord er skrifud standa í Pistlinum til Cól. 2. Kap. þar Postulinn segir: ad í Christó búi øll fylling Guddómsins líkamliga. Nærsta bermæltur hefir Páľus verid um leyndardóm holdtekjunnar vors Frelsara í þessari máls-grein, þvi hvar Guddomsins fylling býr. þar býr Gud allur, og allur hans kraptur, hans almætti, hans guddómliga speki, hans réttlæti, og hans mikla miskunsemi, og allt annad sem mannlig hyggja kann ad gjøra sér í lund, um Guds óranns sakanliga veru, og þar Gud býr líkamlega þar býr hann svo sem sálin í líkhamanum. Og svo sem sálir vorar eru samteingdar líkhamanum, svo ræd eg af þessum Postulans ordum, ad Gud hafi samteingdur verid Christi manndómligri náttúru; og þvílíka ordsháttu má fleiri lesa í sendi-bréfum hins heilaga Páls og annara Guds-manna. Nú þó ad vor Frelsari hafi allmargt votta sinnar guddómligu hátignar, og hennar íbúdar í voru holdi, þá hefir hann samt enn þá framar viljad styrkja þessi sannindi um sinn guddómliga krapt, med táknum og stórmerkjum hvor einginn kunni ad gjøra nema Gud, sem alleina dásemdar-verkin gjørir, Ps. 136 þetta ætti ecki ad minstu leiti ad styrkja trú vora, brædur mínir! í eymda dal þessum; þv

hann er Gud, sem vort hold og blód hefir uppá sig tekid. Gud er í holdi voru freistadur á allann hátt líka svo sem vér, þó án syndar, Heb. 5; Gud kann ad sampínast vorum eymdum; Gud hefir vora sjúkdóma borid, vorum örkumslum á sig hladid, Esa. 53; Gud er píndur í voru, og þó í sínu holdi, fyrir vorar, en ecki sínar syndir; Gud hefir med sínu eigin blódi Kristnina endurleyst, Act. 20; Gud hefir gefid oss sinn líkhama til nautnar, og med blódi sínu hefir hann dryckjad oss, Jóh. 6; Gud hefir í voru holdi lidid, og í því sama er hann inngeinginn í sína dýrd, Lúc. 24. og hefir sett sig til Kraptarins hægri handar, Heb. 1. Í þessari trú ætti oss ad styrkja medal annara, þad heil. Evangelium er vér strax heyrdum lesid, í hvörju vor blessadi Endurlausnari med tvöföldu kraptaverki auglýsti sinn guddómligan mátt og veldi; en sökum þess, ad eg fyrir víst veit, ad þar er einginn af ydur, sem efar hérum, og eg hefi þennan formála talad, lángtum heldur til uppvakníngar í þacklætinu vid Guds Sonar óummrædiliga gjæsku, heldur enn til ad telja nockrum trú um þá hluti, sem allir játa sanna ad vera, og eingin tvímæli leika á, í nockurs manns hjarta, þá viljum vér heldur, á þessari hálfri stundu, íhuga hvörnin vér eigum þessar Guds dásemdir og velgjörnínga oss í nyt ad færa; og skulum vér því alleinasta í þetta sinn, oss fyrir hendur taka hid fyrra kraptaverkid, um læknïng hins lík-þráa, og þar af yfirvega: 1) Hvad skad-samligur og vidurstyggiligur sjúkdómur ad sé hin andliga lík-þrá, syndin. 2) Hvörnin vér eigum af henni heilir ad verda. En þú gódi meistari Jesú, sem vor kránkdæmi hefir borid, tala þú eitt ord oss til líknar, hjá þínum himneska Födur, ad hann sendi oss sinn Anda, til þessa verks, og munum vér heilbrigdir verda; bænheyr þad, ó, Herra! fyrir þitt dýrmæta blód og forþénustu, Amen!

## Utleggíngin.

Hér stendur í upphafi gudspjallsins, ad þegar Jesús var kominn af fjallinu, hafi honum mætt líkþrár madur. Öllum er oss kunnugt, hvörsu skjædur ad er þessi sjúkdómur, þar hann smígur í gégnum ædar og sinar, hold og bein, eins og nockurskonar eitur, og er svo ad segja almennilig rotnan líkhamans. Hvar fyrir Aron sagdi fordum daga, Núm. 12, er hann bad fyrir systur þeirra Mósis og sína, Maríam, þá hún hafdi möglad sjálf og gint hann til ad mögla á móti Gudi og Mósi, og vard þar fyrir med líkþrá slegin: álít mig, minn Herra, sagdi hann, eg bid, legg ecki á ockur gjöld syndarinnar, med hvörri vid höfum dárliga breytt og syndgad; eg bid, ad eigi verdi þessi, lík hræi því, hvörs hálfur líkhami er uppetin, þá þad útgeingur af lífi sinnar módur. Svo bannvæn sem nú lík-þráin er, þá er þó syndin hálfu verri; bædi sálu og líkhama hefir hennar spillíng inntekid, einginn limur líkhamans, eingin tilhneigíng sálarinnar er sú, ad eigi strídi í gégn Gudi. Augun hlaupa eptir sinni fýsn og drambsömu líferni, 1. Jóh. 2; munnurinn býr yfir höggorma eitri, Róm. 3; hendurnar útrétta menn, til ad ræna og stela, til ad slá og deyda; fæturnar eru skjótar til ad hlaupa hinn breida veg, sem til glötunarinnar liggur, Matth. 7; eyrun daufheyrast vid Drottins ord, Ps. 58. en klæa eptir nýum lærdómum 2. Tím. 4. eptir róg og bakmælgi, eptir náúngans óhródri, og náliga öllu því, er menn vilja þar ílt í bera; nasirnar hitna af fólsku, þegar vér sjáum þann, er vér þykjumst eiga nockrar heiptir ad gjalda, edur ef einhvör virdir þetta fánýta ryk og öskunockru minna, heldur enn hennar mikillæti hlýda þykir, þegar luckunnar svipvindi hefir hvirflad henni um stundarsakir í loptid upp til ad blinda þeirra augu, er oss samfara verda um eymda-dal þennan, edur mæta oss í honum, veit þó ei nær enn þad fellur aptur á jördina, hvadan þad kom, og verdur fótum trodid, þegar vedrinu slotar, sem þó litlu ádur numdi vid skýin, og fávísum

monnum þótti, sem ad færi á vængjum vindanna, Ps. 104. næst Gudi, yfir himin og haudur; skynsemin er afløgud, svo þegar holdid rædur fyrir hana, þá er hún óvinátta í gégn Gudi, Róm. 8; viljinn er hálfu verri, því hann keppir í móti andanum, Gal. 5. og af hjartanu framkoma illar hugsanir, agg, reidi, þræta, mord, manndráp, hóranir, Matth. 15. og annad því=um=líkt. Svo er þessi vesæla tjaldbúd ecki annad, enn eitt hospital daudsjúkra lima, sem af Andskotanum og syndinni eitradir eru. Pad játar Esajas, Kap. 1. þar hann segir: ad allt høfudid sé sjúkt, allt hjartad sé veikt, frá hvirfli og allt til ilja, séu ecki nema sár, kaun, benjar og þroti; adrar sóttir verda flestar med einhvørju móti læknadar, en líkþráin ecki, hún skilur eigi vid líkhamann fyrr enn líkhaminn skilar sálinni. Fúinn í grøfinni, er eydilegging heilbrygdra líkhama; hann má kallast úppbygging þeirra, sem rotna lifandi, því séligri er ein moldar=hrúga, enn líkþrá manneskja. Syndin er í eingu betri, nema midur sé; hún skilur eigi vid oss, æ svo leingi vér berum eptir oss þennan daudliga líkhama; því þótt vér séum fyrir Guds almættis=krapt í helgri vatns=laug endurfæddir, samt grær þó aldrei ad heilu um hid gamla mein Adams spillíngar, og hid eitrada høggorms=bit. Andinn er ad sonnu reidubúinn, en holdid er veikt, Matth. 26, og þau tvø berast bana=spjót eptir, svo eins líf er annars daudi; þótt vér séum greftradir med Christó fyrir skírnina til daudans, Róm. 6. þá lifir þó neisti syndarinnar í moldinni, sem optliga vekur hinn gamla Adam á fætur aptur. Pad geingur eins um vorn eymdar=hag í þessu lífi, eins og Jósúa skrifar um Israels sonu, Jós. 23. ad þeir forsómudu ad útreka hina kananisku eptir, Guds bodi, ad Gud hafi látid þeim eptir nockra af þeim þjódum, er hann formælti, þeim til ásteytíngar, þad er þeim til mótlætis; svo er þad og fyrir oss, sem geingnir erum yfir um Jórdan eptir Jesú, þad er i gégnum heilaga vatns=laug, til ad byggja í því fyrirheitna landinu, sem er ríki Guds Sonar; þar verdur þó alltíd nockud eptir oss til ásteytíngar, helst af því vér erum tómlátir ad støckva þeim ó=aldar flocki, sem Gud hatar, eins og Israel í Canaan, svo ad hér=um hafa einnin heilagir kvartad, og medal annara St. Páll, Róm. 7. þar hann segir, ad hid vonda lodi vid sig, þá hann vilji gjøra hid góda. Nú er þann veg syndinni varid, br. m., og þad má um hana segja, sem Hanníbal sagdi fordum, um Rómverja og þeirra borg, ad bágt mundi úlfum þeim fyrir ad koma, nema skógurinn høggvinn væri, er þeir pløgudu ad flýja í; svo verdur og eigi heldur syndin afmád, fyrr enn þetta hennar hreisi er nidurbrotid; og er med svoddan móti, þess kostur betri, sem daudur er, heldur enn hins, er sig kallar ad lifa, allt eins og hins líkþráa. Pad sýnist mér St. Páll samþycki, þegar hann segir, ad daudinn sé sinn ábati, og ad hann girnist ad leysast hédan og vera med Christó, hvad hann kallar miklu betra, Phil. 1. En í því má líkþráin kallast heilbrigdi hjá syndinni, ad hún skilur vid manninn í daudanum, en syndin fylgir ølium þeim eptir daudan, sem ecki verda med Jesú blódi af=þvegnir í þessu lífi, svo þeirra reykur mun uppstíga um alla eylífd, Apoc. 14; þeirra eldur ecki slockna, og þeirra ormur ecki útaf deyja, Esa. 66. Líkþráin er afskræmiligur sjúkleiki; hún eydir mannsins fegurd, svo adra heilbrigda menn stuggar þar vid, og þeir fordast þeirra nálægd, jafnvel þeir sem af kristiligri medaumkan hrærast miskunar yfir eymdum þeirra. Par fyrir baud Gud, Levít. 13. ad svoddan manneskjur

skyldu hylja ásjónur sínar. Ecki er syndin betri, ef vor augu væru svo skygn, ad vér sjá mættum hennar ó-mynd. Vér höfum vidbjód á þeim líkþráu, af því vér erum ecki allir eins af Gudi plágadir; en vor andlig ilsku-kýli og graftar-mein kyssum vær innbyrdis, og látum vel yfir þeim, nema þau hafist svo illa, ad sádæmi séu slíkra vanheilinda; og ber þad til þess, ad allir vér erum med slíku marki brendir, sumir meira, sumir minna, því einginn er sá ed gott gjöri, og ecki einn, Ps. 14. Gud gæfi vér mættum skynja, hvad illa ad vorar skammir líta út í hans augliti, þar hann fyrir þeirra skuld vill snúa vid oss bakinu, og ecki andlitinu. Hvad segir Gud hjá Esajam, Kap. 1. um mannanna Gudsþjónustu? látid af ad offra hégómligum gáfum, reykelsin eru andstygd fyrir mér; og skommu sídar: ydar túnglkomu-hátídir, og hin vissu helgihöldin hatar mín sála, þær eru mér mædusamar, og eg em þreyttur ad bera. Sé nú þannin vert gudræknis-verk í hans augum, sumra hvörra, hvílíkar munu þá vera hinar verstu syndir og glæpir, sem ad hrópa í himininn? Vér vorum ad sönnu skaptir, eptir dýrdligri Guds mynd, en illyrmi klækja og lasta hefir uppétid vorn andligan frídleik, og holdsúi syndarinnar hefir spilt voru atgjörfi; mætti oss því til hugar koma, ad skýla líkþrá ásjónu vorrar, sem í Guds augliti er ósýn ordin, þar ásjána hins fegursta á medal mannanna sona, Ps. 45. Jesú Christí, sem er ímynd Guds dýrdarfullrar persónu, Hebr. 1. hún var byrgd, medan hann var sleginn fyrir vora skuld, Marc. 14. hvörja Andskotinn slegid hefir med andligum kaunum. O! hvad nádugur ertú líknsami Gud, ad þú svo vægdir syndugum mönnum, ad þeir sem þinn kross á herdum bera, voru adgreindir frá þeim, sem hid sama hofdu forþénad; en þína heilögu Eingla lætur þú ecki víkja frá oss, heldur þjóna oss og á höndum bera, jafnvel þegar vér sem verst útlítum í þínu dýrdarfulla augliti; þinn eingétinn Son hefir þú útrekid frá augliti þínu vor vegna, hann er madkur og ecki madur ordinn, Ps. 22; hans álit var andstyggiligra enn annara manna, Esa. 53. þetta var þinn trúi þjón, sem var hlýdugur allt til daudans, já, allt til krossins dauda, Phil. 2; en til vor útbreidir þú bádar hendur allan daginn, Esa. 65. sem óhlýdugir erum og gjörir oss í hönum þín útvalin börn, Einglunum samlík, Matth. 22, já, samlíka hans dýrdarligum líkhama, Phil. 3. Líkþráir menn hafa illa lyktandi anda, er og þess öll von, þvíad allur náttúrligur vessi líkhamans er spiltur; þvílík er syndin, og þó öllu verri, jafnvel þótt ad vér finnum þar ecki til, hvörjir samdauna erum ordnir hennar ýldu. Páls talar svo um hana í Davíds orda stad, Róm. 3, ad þeirra barki sé ein víd, opin gröf; en um grafir framlidinna talar svo Herrann, Matth. 23 , ad þær séu hid innra fullar med daudra manna bein og alskyns óþeckt; svo er og þeim manni háttad, er grafid hefir sálu sína í syndugum kroppi, sjálfa dauda í syndunum, og varpad ofan á hana fúlum leir girnda og lasta ; hún aflar vidurstyggiligrar andfýlu í Guds augliti, þeim er láta hana drottna i sínum daudligum líkhama, Róm. 6. og leifa henni ad eldast þar inni; hennar straff brennur allt til nedsta helvítis, Devt. 32, en hennar remma uppstígur fyrir Guds hásæti. Er þetta sá fadmur, sem vér eigum Brúdgumanum ad bjóda, þá hann frambrunar af fílabeins höllinni? Ps. 19; er þad sá koss, sem vér eigum ad fagna med þeim vörunum, á hvörjar nádin er úthelt? Ps. 45; er þetta sú fegurd, sem hann á ad gángast fyrir, í hvörs augliti ad ecki himnanna himn-

ar eru hreinir? Job. 15; og hvad á þessi andardráttur skyldt vid harmþrúnginn og sundurknosadann anda, er Konúngur dýrdarinnar vill ecki fyrirlíta? Ps. 51. Vér búum oss í skart, hvør fyrir ødrum, og leggjum kapp á þad, sumir fyrir hæversku skuld, en sumir til lauslætis; en fáir hyrda um þad, hvørt þeir hreinir séu í Guds augum. Vei! vei ydur Skriftlærdum og Pharíseis! segir Lausnarinn, Matth. 23. þér ed hreinsid þad ytra af kérunum, en hid innra er fult af ráni og óhæfu; þú blindi Pharísæus! hreinsa fyrst hid innra af bikarnum og diskinum, svo þeirra ytri partar hreinir verdi. Þessa ættu Guds børn ad gjæta, og þvo dagliga kám syndanna af hjarta sínu med heitri ydran og Jesú blódi, þá væri þess meiri von, ad vér yrdum ecki svo andrammir fyrir Gudi. Og þó margt meigi nú fleira hér um tala, þá viljum vér láta þetta svo sagt vera um skadsemi syndarinnar, en hugleida framveigis, hvørnin vér eigum oss ráda ad leita, svo hún ecki kvelji oss í eylífri hel = sótt; hvar frá Gud vardveiti øll sín børn, í Jesú nafni, amen!

Nú fyrst ad þessi andliga líkþrá, syndin, er svo skadligur, svo hrædiligur, svo vidurstyggiligur, og svo banvænn sjúkdómur, sem nú hefi eg sagt, og þér munud allir med mér sanna, og þad sem yfirtekur, ad hún er svo lángvinn, ad hún mun aldreigi yfirgéfa oss, fyrr enn vér hana yfirgéfum, þá er einsætt ad leita þess medals, sem alleina vid henni á, ádur enn vér erum svo yfirkomnir, ad ecki er von til apturbata. Hvad viljum vér þá hértil gjøra? hvad gjørdi þessi líkþrái madur? Þegar vor blessadi Endurlausnari kom ofan af fjallinu, mætti hann hønum og bad: Herra! ef þú vilt, þá gétur þú mig hreinsad; hans bæn var réttskickud, af því hann bad um líkhamans heilbrigdi, þá beiddi hann med forordi. Vér þurfum ecki þannin ad bidja móti syndinni, því vér eigum fyrir sálum ad sjá, hvørjar hann hefir med sínu dýrmæta blódi endurleyst, Act. 20. Hvar fyrir skyldum vér med forordi bidja, þar vér vitum hann vill vér hreinir verdum, og hann hefir svarid vid sitt líf, at hann ecki vilji syndugs manns dauda, heldur ad hann snúi sér og lifi? Ezech. 33. og þar fyrir er hann í þennan heim kominn, ad allir þeir sem á hann trúa, fyrirfarist ecki, heldur hafi eylíft líf, Jóh. 3. Þessi aumi madur játadi sinn veikleika fyrir Drottni; gjør slíkt hid sama barn Guds! drag ecki dulur á þín afbrot fyrir Gudi, og fegra ecki þína ilsku, í hans augliti. þeink heldur þad sama sem David, þegar hann sagdi, Ps. 32: eg játadi Drottni mína misgjørd, og þá fyrirgafstú mér þad. Kristur hefir algjørla vitad, ad þessi madur var líkþrár, ádur enn hann kalladi til hans, þótt hann ecki hefdi verid audkéndur af sínum búníngi, þá mun hans guddóms=speki ecki sídur hafa þeckt hans meinlæti, heldur enn hennar, sem géck bak til vid hann, Lúc. 8. og valla þordi ad snerta fald hans klæda. Lát þér af þessu til hugar koma, ad hønum muni ecki ókunnug þín andlig líkþrá; en á medan þú þegir, þá er eingin von ad hann útrétti høndina. Holdsúinn og daudinn í sárunum er ad sønnu ljótur ásýndum; en ecki mun þad líta betur út í læknarans augum, þótt hann sé strokinn yfir med purpura farfanum. Hugsa til þess, hvad litid þad gagnadi vorum fyrstu foreldrum, ad skýla sér med fíkjublødunum, Gén. 3. þá náttúran baud þeim, ad þau nakin væru; minna mun þér þad gagna, ad draga ský hyrdulevsisins fyrir skømm þína, því þó ad bædi Djøfullinn og þitt eigid hold géti svæft þig um stund, þá munu þid ecki stínga Israelis Vaktara svefnþorn, þviad ecki syfjar hann, Ps. 121. og hans auga sér hvad í myrkrum

um er hulid, Sýr. 23. Adam vard feginn ad þiggja skinnkyrtilinn af Gudi, Gén. 3. til ad hylja sína blygdun med, og ad verja syndugan líkama sinn fyrir kulda og tímanligu frosti. Þú munt og verda ad kaupa einn nýan klædnad, af hinum ødrum Adam, 1. Cor. 15. svo ad blygdan þíns klædleysis ecki opinberist, Apoc. 3. og ad þú ecki brennir í eylífum eldi. Dyl því ecki þín afbrot fyrir Gudi, kristinn madur, þá mun hann þau hylja, og lypt skýlunni af þínum syndum, svo mun hann draga hana frá sínu augliti, því eingann þann, sem til hans kémur, vill hann frá sér reka, Jóh. 6. Þegar vér viljum ecki sjá edur þeckja vor lýti, þá sér Gud þau hvad best, því vorar heimugligar syndir setur hann fyrir sínu augliti, Ps. 90. en þegar vér sjáum, þá sér hann þær ecki, því hann hefir heitid, ad kasta þeim í haffins djúp, Mich. 7. og minnast þeirra ecki ad eylífu. Verum því ecki svo einfaldir sem fiskurinn, hvør ad væntir sér einskis voda, þegar hann hefir høfudid falid, því þótt vér stíngum vor augu út, nær oss ofbjóda vorir klækir, þótt vér vildum segja fjøllunum hyljid oss, og hálsunum hrinjid yfir oss, Apoc. 6. þá skortir Gud ecki bein-skeyti til ad ramma vorn syndugan kropp, þegar hann hefir spannad sinn boga, Ps. 7. því allir hlutir eru berir og naktir fyrir hans augum Hebr. 4. Þegar hinn líkþrái beiddi, þá dvaldist þad eigi leingi fyrir, ad Jesús bænheyrdi hann, rétti út høndina og sagdi: eg vil, vertú hreinn. Þad var góds þocka merki hjá Persa-konungi, ad rétta ad einhvørjum sinn veldis-sprota; hvad lesa má um Esther Drottníngu, þegar hún géck fyrir konúnginn Assverum, Esth. 5. Hvør er þín veldisspíra, þú Konúngur dýrdarinnar? þad er þín almættis hønd, sem allt verkar, í hvørja Fadirinn hefir allt vald géfid, bædi á himni og jørdu, Matth. 28; af hvørri einginn kann ad grípa saudi þína, Jóh. 10; hún er eigi stutt ordin, ad hún kunni ecki ad hjálpa, Es. 59; hún er eigi apturlokud, þad hún vilji eigi miskuna; hún er eigi aflvana, svo hún megni eigi ad frelsa; þad er Guds sterka hønd, og útréttur armleggur, Devt. 4; þad er hønd Guds, í hvørri ad eru fylsni jardar, og styrkleiki fjallanna, Ps. 95; í hvørri allir heilagir eru, Devt. 33; já, í hvørri ad er øll lifandi sál, og allra manna andi, Job. 12. Þegar syndarinn stíngur hendinni í sinn eigin barm, og dregur hana út aptur hvíta af líkþrá, eins og Móses, Exód. 4. mun hann þá þora ad drepa hendi sinni á odd hins Almáttuga veldis-sprota, eins og Esther? Fjærri sé því, ad nockur beri minna traust til ad mæla vid Fødur miskunsemdanna, enn hún hafdi á konúngi hinum mikil láta; hann hafdi hana ad herfángi tekid, Esth. 2; en Jesús hefir oss af herleidíngunni útþrifid. Hann kvadst fús ad skipta med henni konúngs-ríkinu, Esth. 5; þad kunni hann ecki mørgum ad bjóda, nema hann gjæfi upp sjálfur tignar-nafnid. En Jesús hefir øllum segja látid, sem hann elska: komid blessadir, børn míns Føđurs, og eignist þad ríki, sem ydur er fyrirbúid frá upphafi veraldar, Matth. 25; og er þó sjálfur konúngur ad eylífu, og hans ríkisstóll varir um aldur og æfi, Ps. 2. hann hefir ad fyrra bragdi rétt oss sína hønd, þá hann trúlofadi oss sér í nád og miskunsemi, Ps. 2; réttum hønum aptur vorar trúar-hendur, og trúlofumst hønum í elsku og undirgéfni. Hann réttir ad oss sinn og vorn tryggda-pant, sem er heil. Andi, pantur arfleifdar vorrar, Eph. 1. hvørn hann hefir sendt oss af sínum Fødur; drepum ecki hendinni vid þvílíkri sæmd, og mótstøndum ecki heiløgum anda, svo eigi verdi Guds-ríki frá oss tekid, og ødrum géfid, Matth. 21. Eg vil, vertú hreinn, sagdi Jesús; en

Hvad segir Gud vid oss? Esa. 1: Þvoid ydur, hreinsid ydur, takid ydar illa breytni frá augliti mínu, komum sídan og eigumst lög vid; þótt ydar syndir séu raudar sem blód, skulu þær verda hvítar sem snjór, og þótt þær séu raudar sem purpuri, skulu þær ull hvítar verda. Hvor sem sjálfur vel vill, hann þarf ecki ad efast um Guds vilja. Gud gaf sinn Son í daudan til þess vér kynnum ad hreinsast; því skyldi hann þá ecki vilja oss hreina, þar hann er allareidu útgéfinn? Þad veldur einasta vorum saurindum, ad vér viljum ecki hreinir vera, þykir heldur vænt um, ad velta oss í endemi syndanna, og gleymum því á medan, ad í hina himnesku Jerúsalem má eckert saurugt innkoma, Apoc. 21. Hér stendur í Evangélíó, ad Jesús géck ofan af fjallinu. Hvad mundi vor Herra þar ad hafast? Hann taladi, fyrir fólkinu þá ágjætu predikun, sem skrifud er hjá Matth. Kap. 5.6.7, í hvörri medal annara, ad standa þessi blessudu og huggunarfullu ord: bidjid og mun ydur géfast, leitid og munud þér finna, knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda; því hvör sem ad bidur, hann mun medtaka, og hvör sem leitar, mun finna. Er þar nockur madur af ydur, ef sonurinn bidur hann um braud, at hann géfi honum stein? ellegar ef hann bidur um fisk, ad hann rétti ad honum höggorm? Þar fyrir, ef þér sem vondir erud, kunnid ad géfa gódar gáfur börnum ydar; hvar fyrir mun ecki minn himneski Fadir géfa þeim gott, sem hann þar um bidja? Nú fyrst ad Sannleiksins Munnur hefir þannin talad, því skyldi eg efast um, ad hann vilji mig líkþráan hreinsa, fallinn reisa, villtan leidrétta, og harmþrúngin og sundurknosadan endurnæra? En eptir því eg sé ad Jesús, þegar hann géck ofan af fjallinu, þá stadfesti hann allt þad hann sagt hafdi, med þessum tveimur dýrmætu kraptaverkum, svo veit eg ad skyldan býdur mér, sem er hinn vesælasti ormur, er skrídur á hans fótskör, ad sanna mína vidurkénníngu, med alvarligri vidleitni þeirra verka og athafna, er hann hefir skipad ad dýrka sig med; sérdeilis þar eg heyri hann segir í þessari sömu predikun, ad þeir muni ecki allir sem til sín segi, Herra, Herra, inngánga í Gudsríki, Matth. 7. heldur þeir sem gjöra vilja síns Födurs, þess sem á himnum er. Því svo sem einn gódur læknir nægist ecki þar med, ad gjöra hinn sjúka heilbrigdan, heldur tekur hönum vara fyrir þeim hlutum, sem hans heilsu kunna framvegis ad skada, sérdeilis þeim, af hvörjum hann veit, ad hann hefir haft sín vanheilindi, svo ad ecki falli hann aptur í sömu sótt; svo gjærsktíkur þykist eg vita ad minn heilsugjafari er, ad hann alvarliga vill, ad eg fordist alla þá ólifjan, sem hann veit ad mína sálu kreinkt hefir, svo ad ecki verdi mitt hid sídara argara hinu fyrra, 2. Pet. 2; þad kénnir mér hans líknarfulla tilhlutan, þá hann frelsadi hór-konuna frá áfellis-dóminum, og sagdi: kona! hefir nockur fordæmt þig? en hún kvad ney vid; og hann ályktadi med þessum ordum: svo fordæmi eg þig eigi heldur; gack hédan og syndga ecki framar, Jóh. 8. Drottinn segir til þessa líkþráa manns: far og sýn þig kénnimönnunum, offra þína gáfu, þá er Móses hefir bodid, til vitnisburdar yfir þeim. Í Levít. bókar 14. Kap. stendur, ad þeir sem hreinsadir vóru af líkþrá, skyldu offra tveimur fuglum, hvörra annar átti ad slátrast, en hin dífast í blód þess slátrada, og sídan laus géfast og burtu fljúga. Þetta minnir mig á, ad þeinkja þar um, ad Guds eingétinn Sonur er minna vegna, fyrir utan alla verdskuldan, slátradur, og á krossins altari fórnfærdur, Gudi til eins sætleiks

ilms, Eph. 5, en mér er víst í hans blód, og þar fyrir em eg laus géfinn, sem hann líflátid hefi, og í burtu floginn; samt veit eg þó mína skyldu, ad eg ad nockru leiti skal skírast þeirri skírn, sem hann skírst hefir, Matth. 20; þad er, ad minn gamli madur á med hønum ad krossfestast, Róm. 6. ádur enn sála mín fær uppflogid til himna, og inngeingid í hans dýrd, á land lifandi manna, Ps. 116. Hvørt ad koma, og þar eylífliga med hønum ad fagna, bædi mér og øllum Guds børnum, veiti og géfi miskunsamur og gódur Gud, fyrir forþénustu síns eingétins Sonar, og nád Heilags Anda, amen!

## Fjórda Sunnudag eptir Þrettánda.

Gudspjallid, Matth. 8. Cap.

**Og er Jesús sté á skip, fylgdu hans lærisveinar hønum eptir. Og sjá þú, mikill ókyrrleiki gjørdist í sjónum, svo ad skipid lá undir áføllum, en hann svaf. Og hans lærisveinar geingu til hans, vøktu hann upp, og søgdu: Herra! hjálpa þú oss, vér forgaungum. En Jesús sagdi til þeirra: hvad hrædist þér lítil-trúadir? þá reis hann upp, hastadi á vindinn og sjoinn, og þar vard logn mikid. En menninir undrudust, og søgdu: hvílíkur er þessi? þvíad vindur og sjór hlýda hønum.**

## Exordium.

Hinn óguðligi heimur þessi, hvørs høfdingi ad Satan nefnist, Jób. 14, hann sýnist mjøg svo vel kunna ad samlíkjast vid hafid; sjórinn er ein óstødug høfud-sképna; þegar hann er sem blídastur, veit ecki fyrri til á stundum, enn hann umhverfist nærri í augnabliki og rís fjøllunum hærra. Svo er og eckert í heiminum stadfast; þegar hann fladrar uppá nockurn, eins og þjófgéfinn hundur, þá er Guds børnum af hønum skadinn vís, og jafnvel hans eigin børnum optliga. Þótt ad Satan og hans vinir hati Gud mest, og þá, sem eitt eru med hønum, þá er hann þó í sjálfum sér sundurþyckur. Ecki elskast hans þjónustu-menn leingi innbyrdis, þegar þar er ad keppa um þad, sem þeir hafa gjørt sér ad Gudum. Svo sem Christi þénarar eru vidkvæmir nær þeirra høfud er meidt, svo er og Djøfullinn í sinni kynslód. Þegar Laban vantadi sín skúrgod, þá rann hann jafnskjótt eptir Jakob, Gén. 31. þótt hann væri hans mágur, og svo er heimur þessi innbyrdis; þegar hann má sjá á bak einhvørs þess, sem drambsemin og fýsn augnanna hafa fest sinn trúnad á, þá rýfur hann vinskapinn, jafnvel vid þá sem hann lést hafa hvad kjærasta. Jóab er ecki leingi vinur Amasæ, 2. Sam. 20, þegar hann óttast hann muni nockru tapa af virdíngu sinni; eigi heldur rækir Absalon bródernid vid Ammon, 2. Sam. 23, þegar heiptræknin blæs hann upp. Midt á medal þessarar hreckvísu kynslódar verdur hinn litli hópur Christi ad búa, og mæta adskiljanligum árásum og hneixlunum; svo ad í villu mættu leidast, ef ské kynni, jafnvel útvaldir, Matth. 24. Svo sem Nói og hans hyski var í hinni vantrúudu verøld, Gén. 6; svo sem Loth var í Sódóma, Gén. 19; Abraham í Gérar, Gén. 20; Israel í Egyptalandi og Chaldæa, Exód. 1; svo eru Guds vinir í ó-øld þessari. Hvad er hér til ráds, brædur mínir, svo vel fari og menn séu vissir um, ad þeir eigi lídi skipbrot á sálu sinni? eitt veit eg sem aldrei skal bregdast; þad kénnir Drottinn oss hjá, Matth. 7, þegar hann ádur hafdi tekid sínum lærisveinum vara fyrir fals-spámønnum, segjandi: hvør sem heyrir þessi mín ord, og gjørir eptir þeim, hønnm vil eg líkja vid einn forsjálann mann, þann er bygdi hús

sitt á bjargi, en þar gjørdist regn og vatns=flódin komu, og vindarnir bléſu og féllu yfir þad hús; en þad datt ecki, því þad var á bjargi bygt. Þetta bjarg er Drottinn Jesús; þad er sá hyrníngar=steinninn í Zíon, Esa. 28, sem Gud hefir bygt sína kristni á; hvør sem yfir hann bygdur er, hann mun aldrei kollsteypast, heldur stødugur blífa. Lærisveinar Drottins tóku til ad veikjast í trúnni, þegar hann svaf, en vedrid tók ad hefja sjóinn, svo þeim lá vid ad forgánga; þá tóku þeir þad til ráds, ad þeir vøktu hann, og gáfu hønum til vitundar neyd sína. Kristni Guds er lík einu skipi, sem veltist í ólgu=sjó veraldar þessarar, hún hefir Christum jafnan innan=bords. Tøkum því sama rád og lærisveinarnir hér tóku, þegar sjórinn, þad eru árásir, fjandskapur, illkvittni, hneixlanir, lastmæli og alskonar óhlutvendni þessarar vondu veraldar tekur til ad gánga á þetta Drottins skip, hvørs allir þeir hafa sér ad vænta, sem hjá hønum hafa far tekid; svo þeir meiga finna til þess er Páлus um sig talar, ad þar sé barátta hid ytra, enn strid hid innra, 2. Cor. 7. Vil eg því af þessu h. Evangelió og dæmi lærisveinanna, tala alleina um þá hluti, sem eiga ad gjøra oss fulltrúa, um hans adstod í øllum vorum naudsynjum. Hjálpa oss hér til nádugi Gud og Fadir, med krapti þíns Anda, fyrir Sonarins forþénustu amen!

# Utleggíngin.

Þess má allvida gjæta í æfi=søgu Drottins vors, ad þegar hann hafdi einhvørja merkiliga prédikun flutt, þá stadfesti hann kénnínguna med einhvørju krapta=verki; svo gjørdi hann þegar hann géck ofan af fjallinu, hvar hann hafdi talad eyrindi ríkisins fyrir fólkinu, Matth. 5. og hann læknadi hinn líkþráa; svo gjørdi hann og hér, þar hann allan daginn hafdi ként fólkinu, med þeim føgru eptirlíkíngum, er skrifadar standa Matth. 13, um illgresid, um mustards=kornid, um súrdegid, um perluna og um féſjódinn, og adrar fleiri; en strax á eptir fylgdi þetta dýrdliga kraptaverk, er Gudspjallid umgétur, Marc. 4. Nú var þad ecki alleina gjørt fyrir lærisveinana, br. m., heldur hefir og Guds Andi þvílíkt stór=merki uppteikna látid oss til lærdóms, ad vér, sem høfum tekid vid trúnni á Drottinn Jesúm, og erum í hans nafni skírdir, vér skulum læra ad treysta hønum í øllum vorum naud=synjum. Þessi var nú adferd Drottins, bædi á hans hérvistar=døgum, svo og strax eptir hans himnafør, leingi fram eptir æfi kristninnar; því skrifar Marcus, Kap. 16, um Postulana, ad þeir hafi geingid út, prédikandi allstadar, ad Drottni samverkanda og ordid styrkjanda, med eptirfylgjandi teiknum; en því var misjafnt tekid af heiminum, svo sem augljóst er af gjørnínga=bók Postulanna. Þetta dýrdliga krapta=verk skédi í návist hans elskuligra lærisveina. Mattheus skrifar, Kap. 13, ad margt fólk hafi safnast ad hønum, svo hann blessadur vard ad stíga á skip, fyrir mannþraunginni, en fólkid sat í fjørunni og heyrdi á. Flestir munu þeir hafa verid í þessum mikla hóp, sem meir hefir fýst ad heyra málsnilli hans, heldur enn ad skilja edur geyma krapt ordanna; þad ræd eg af því, ad einginn spurdi hann eptir meiníngu eptirlíkínganna, nema hans lærisveinar, hvad hønum án efa mislíkad hefir, sem von var, því sagdi hann vid þá: ydur er unt ad vita leyndardóm himnaríkis, en þeim er þad ecki géfid, Matth. 13. Svo er kyrkju=gánga vor ástundum; allir flyckjast til ad heyra eins manns prédikun, sem talar snjallt, en rótfesta þó ecki meir í hjartanu þann heimugliga krapt, sem býr í ordinu, heldur enn þótt einn óviti taladi, svo þeir færi ávøxt þar af, og gjørist sannir Christí lærisveinar. Drottinn gjørdi þetta mikla krapta=verk fyrir svo fáum, af því þar voru svo fáir, sem gáfu mikinn gaum ad prédikuninni,

hann taladi fyrir múga manns af skipinu, svo allir heyra máttu og skilja Guds veg, hefdi þeim verid um þad hugad, og þad skédi nærri landi, en krapta-verkid gjørdi hann og í skipinu, midt á sjónum, þar fáir voru hjá hønum innanbords, og eigi nema þeir sem løgdu uppá hjartad, þad hann talad hafdi. Þar fyrir, barn Guds, viljir þú vera fullríss um adstod Guds í sjó-róti veraldar þessarar, þá sjá til fyrst, ad þú sért Christí sannur lærisveinn; heyr hans ord, og lát þér vænt um þad þykja, ecki einasta um stundar-sakir, heldur geym þad í hjartanu; stunda eptir ad fá þess réttan skilníng, laga þinn lifnad þar eptir, fær þar af ávøxt í þolinmædi, Luc. 8, svo þegar andvidri hørmúnganna mætir þér, ad þú sért þá viss um, ad þú hafir Guds Son innan skips borda, þá máttu vera þess fulløruggur, ad Drottinn er øllum þeim nálægur, sem hann ákalla, Ps. 145. Þad er hid helsta á einu skipi, ad því sé vel stýrt, sérdeilis í ólgu-sjónum. Líkhamir vorir eru skip sálarinnar, hvørju hún stjórna á, svo hún nái høfninni umsídir, á landi lifandi manna, Ps. 116. á hinu fyrirheitna landinu; gef hønum ecki ofmikinn taum, þrælka hann eins og St. Páll; ræk holdid ad sønnu, en þó ecki svo, ad þú leyfir því sínar girndir ad rækja, Róm. 13. Lát ecki sálu þinni verda þad, sem Palínúró vard, þegar hann sofnadi vid stýrid, þá datt hann útbyrdis; eins kann sálu þinni ad verda, utan þú vakir og bidjir, svo þú fallir ecki í freistni, Matth. 26; og ef hún kann ad sofna, sem optliga skédur, þá sjá til, ad þú hafir Jesúm í skutnum, ad hann veki þig, nær hann sér þú ætlar ad forgánga. Sála þín sefur opt, þó líkhamans augu vaki; Drottinn sofnadi eptir náttúrligum hætti, því hann var ad allri hegdan fundinn svo sem madur, Phil. 2, svo hann kynni ad sampínast þínum eymdum, Hebr. 5; samt vakti hans Guddómur, því hann er Israels vaktari, hvør ed ecki sefur og ecki syfjar hann, Ps. 121. Og þar hann nú í voru holdi situr til Kraptarins hægri handar, Marc. 16, þá hefir hann vakandi auga yfir sinni kristni, hvørja hann endurkeypt hefir, med sínu eigin blódi, Act. 20, já, á øllum hennar limum, sem hann þeckir fyrir sína lærisveina; bid því med skáldinu: vak þú minn Jesú, vak í mér, vaka lát þú mig eins í þér, sálin vaki þá sofnar líf, sé hún ætíd í þinni hlíf! Þegar þú svo gjørir, og þad af hjarta, og stundar eptir ad halda þér vakandi í hans þjónustu, og lætur ecki Satan dilla þér á kodda syndanna, þá máttu vera fulltrúa þar um, ad svefnlæti veraldarinnar skulu aldrei æra þig, þótt hún veltist um, og berji hæl og hnacka. Djøfullinn, sem er hennar høfdíngi, skal aldrei reisa svo mikla ólgu í henni, ad þér sé hætt vid ad forgánga; þad kénna mér hans fyrirheit, er sagt hefir: óttist ecki, eg hefi heiminn sigrad, Jóh. 16; þad segja mér hans ord, er sagdi: høfdíngi þessa heims er dæmdur, og med mig hefir hann eckert, Jóh. 14. Hafi hann eckert med hann, svo hefir hann ecki heldur med þá, sem í hønum eru, og hann í þeim, þeir sem eru limir hans líkhama, og hvad meira er, ad þeir eru ordnir einn andi med hønum; því segir Jóhannes, 1. Jóh. 5: hvad sem af Gudi er fædt, þad yfirvinnur heiminn. Hvad vill sá óttast sem hefir svoddan einn Fødur? Unglíngum setja menn fjárhalds-menn, og þykist sá gódu bættur, sem ødlast þann einhvørn sem er fullvedja, og líkligur til ad gjøra hønum rétt, og forsvara hann fyrir rángsleitni órádvandra manna, jafnvel þó þad gángi misjafnt til medal vor mannanna, samt láta allir ærligir menn sér

vera um þad hugad; en hvørnin sem því er varid, þá eru allir þeir ed Gud óttast han ómagar, og er þeim miklu betur rádstafad, heldur enn hinum volduguſtu heimsins gjædingum og vildarmønnum. Segid mér, hvad skal eins manns fulltrúi hafa til ad bera, nema máttinn og viljan? um hvørugt kunnum vér ad efast hjá Gudi. Máttinn sjáum vér í þessa dags Evangelió, þótt ecki væri annad til, sem þó fleira og stærra er, enn ad allar Eingla og manna túngur fái þad um allar aldir upptalid. Hann hastadi á vindinn og sjóinn, og þá vard strax logn mikid, svo þeir søgdu: hvílíkur er þessi, ad vindur og sjór hlýda hønum? Enginn hlutur er Gudi ómøguligri enn annar, Lúc. 1; þad kostar hann ecki meira, ad steypa allri verøldinni um koll, enn ad drepa einn titlíng; hann hefir aldrei haft mikid fyrir neinu í allri sinni ríkisstjórnan, nema því, ad leysa syndarann úr helvíti, og þó gjørdi vorum Frelsara elskan til síns óvinar þetta ok svo sætt, ad hann lángadi til ad drecka þann kaleik, er hans Fadir skeinkti hønum, Lúc. 22. og aktadi ecki forsmánina, segir Postulinn. Gud gæfi ad elskan til hans, kynni ad gjøra oss hans byrdi svo létta. Og þar ed øll Guds sképna, er svo eckert í hans hendi, þá má eg fulltreysta, ad hann sem eigi þurfti ad tala nema eitt ord, til hins brúsanda hafs, hønum muni eigi vera um megn, ad vardveita mig hinn vesælasta orm, sem liggur á hans fótskør, í ólgu heims þessa. Hann talar til sjáfar-hafsins: híngad skaltu komast og ecki leingra, hér skulu þínar stoltu bylgjur leggja sig, Job. 38; því mun hønum veita hægt, ad drepa offan í hinum drambláta, svo þar verdi logn mikid, edur og ad slá hønum høgg vid eyra, Ps. 3, svo hans stadur finnist ecki meir, ef hønum svo líkar. Svo mikils máttar er nú þessi stóri Konúngur himins og jardar; hvør vill þrífa mig af hans hendi, Jóh. 10. Kann nockud øxin ad gjøra, nema henni sé beitt, eda søgin ad útrétta, nema henni sé stýrt, eins mikid kunna menuirnir mér ad gjøra, nema Gud leyfi þeim; því vil eg segja med Davíd nær heimurinn hatar mig: Drottinn er mitt ljós og mín heill, fyrir hvørjum skal eg óttast? Drottinn er verndari míns lífs, hvørn skal eg hrædast? Ps. 27; en þad hann leyfir, skal mér kjærkomid vera; hann agar mig, því hann elskar mig, Hebr. 12; hann typtar mig, því hann vill leidrétta mig; hann særir mig, því hann vill græda mig, Os. 6; og er þad dáraskapur fyrir mig, sem læzt ávíta vin minn, ef hønum yfirsést; sem stríki barn mitt, nær þad gjørir þad, sem eigi byrjar; sem læt skéra og brenna eitt fúid sár á mínum ástmanni, svo hann heill verdi, ad eg skuli ecki taka hinn sama af hendi Drottins. Þar fyrir skal eg eigi heldur efast um viljan, þad læri eg og af þessu Gudspjalli. Lærisveinarnir vøktu Drottinn, og þad med umkvørtan nockurri, og mistrausti á hans almætti; því Marcus skrifar Kap. 4, er hann segir frá þessu mikla kraptaverki, ad þeir hafi sagt: meistari! þú hyrdir ecki um þad, ad vér forgaungum. Hvad var þetta ad segja vid hann, hvørs almætti þeir vel máttu þeckja? hvør ed svo mørg kraptaverk hafdi gjørt þeim ásjáandi; samt vard hann skjótari til ad hjálpa þeim, og ad hasta á vindinn og sjóinn, heldur enn til ad átelja þá, fyrir þessa efasemi og trúarleysu. Þetta hendir oss optliga, nær vér bidum eptir Drottni á þurrlendinu segir Davíd, Ps. 63; vér meinum hann sofi þótt vér vitum ad hann syfji ecki; vér køllum ad hans hønd sé stutt ordin, þó oss sé alkunnugt af Guds ordi, ad hún ecki einasta kallast hin sterka hønd Drottins, og útréttur armleggur med miklum undrum, Devt. 4, heldur og

milda hønd Drottins, sem géfur ad vér samansøfnum, og þá hann upplýkur henni, umst vér af gjædum, Ps. 146. Og þótt vér séum nú svo tvílrádir og efasamir, eigi ídur er hann oss hvad nærstur, þegar vér ætlum hann fjarlægan vera. Þegar JósepH em hann ætladi ad taka Benjamín í vardhald, þá gat hann valla tárum haldid; þegar n óttadi brædrum sínum med sinni reidi, þá féck hann þó ecki leynt sér fyrir þeim, Gén.

Ætlum ecki ad Fadir miskunsemdanna muni sídur nádugur vera, edur kénna í fti um sín børn, þótt hann typti þau þeim til góda, því hann straffar, en ecki af hjarta, magr.3. hann burtrekur, en ecki eylífliga. Ohætt er því, aldrei steypir Drottinn nockrum n, sem hinn allra minsta trúar-neista geymir í hjarta sínu, svo djúpt nidur í afgrunn núnganna, ad þeir aldeilis ørvænti sér nádar hans, jafnvel þótt þeir séu á-stundum jt leiddir, því líttlogandi hørkveik mun hann ecki útsløckva, Esa. 42. Gud straffadi ir vorar um skamt med ó-áran nockurri, þar eptir vitjadi hann vor med land-plágu, hvør ók frá oss vora kjærustu ástvini, og hid besta fólk; mundi oss þá ecki þykja horfa til dræda? Hvilík audn var þá í landinu, svo ad þeir sem holdliga voru sinnadir, tóku til efast um, ad vér mundum hér leingi bygdum halda. En hvørsu hefir hin milda hønd ottins sídan kórónad árid? hvørsu hafa hans fótspor af feiti dropid? Ps. 65. Med ikri árgjæsku hefir hann blessad oss, svo ad vér ecki einasta høfum eingann skort lidid, ur flestir búid vid betri kost enn nockurn tíma ádur? er ecki þetta sýniligt almættis og sku merki Drottins? Hvørt skyldum vér leita í hørmúnginni, nema til hans, sem svo vís, máttugur og gjæskuríkur er? Eg vil taka mér orsøk af þessu dýrdliga kraptaverki, til tala nockud vid ydur, sem um sjóin farid, og leitid næríngar ydar í haffins djúpi. Hvør-ypt hefir hinn gódi Gud vardveitt ydur í lífs-háskanum? hvad tídt hafid þér mátt segja Davíd, Ps. 18: hann sendi út af hædinni og sókti mig og dró mig upp úr miklum num. Drottinn hefir optliga gjørt furduverk á ydur, þegar daudans bønd hafa um-ngt ydur, Ps. 18. og þér meintud þér æsludud ad forgánga, þá hefir hann þó rickt ydur úr daudans porti, Ps. 9. og frelsad ydar sálir úr helju. Þar er eigi lángt á ad minn-vér lifum enn nú, sem eigi erum mjøg til ára komnir, og munum þad, ad Drottinn ir á sama degi kollvarpad sumum, en suma hefir hann vardveitt undrunarliga og ólíkliga r manna sjónum, og þetta optar enn einusinni, ecki þar fyrir ad þeir sem týndust, hafi dugri verid enn hinir sem afkomust, meir enn þeir sem turninum féll yfir í Sílóa, edur r ed Pílatus slátradi í Galílæa vóru sekari enn adrir, Lúc. 13, heldur til ad sýna læti sitt á þeim sem hann burt tók, oss sem lifum til eptirdæmis og vorum eptirkomend-, en nád sína á hinum, er hann sparadi, svo hann med bádum høndum leiddi oss rbrotnar manneskjur til ydranar, ad eigi søfnum vér oss reidi á dag reidinnar, og Guds lætis dóms, Róm. 2; en Gud nádi hvørn ávørt þad færir. Eg gét ecki því hrósad, allir þeir ed voga lífi sínu út á sjóin, taki Jesúm í bát med sér; og eg þori ad segja, valla drýgja sumir menn fleiri edur meiri syndir, Gudi til styggdar, enn nær menn þiggja a mestu blessan af hans ørlætis hendi, svo ecki er ad undra, þótt hann megi lykja henni ur á-stundum fyrir oss, og skamta oss úr hnefa, sem menn plaga ad segja, já, þótt hann ffi oss med skipreikum og manntjóni, til ad typta oss lífada kálfa. Alkunnugt er þad

øllum mønnum, hvillíkt framferdi, hvada munnsøfnudur, gjálífi, stráksskapur, lýgi, rán og þjófnadur, ad æfdur er í þvílíkum selsskøpum med lángtum meiri frekju og ósskammfeilni enn annarstadar, svo hann þykist gódu bættur, sem verst gétur látid, og þad þykir kallmenska og snilli ad vera fremstur í flocki, nær menn slíkt adhafast. Þegar þér róid til fiskjar, látist þér bidja Gud fyrir ydur, en hvad mikill þar fylgi hugur máli, er af því audsært, er þér talid og gjørid, sumir hvørjir, nær þér erud undir vad sestir, þá formælid þér ydar veidarfærum, ydar verkfærum, ydar lagsmønnum, þegar ecki er allt eptir vild ydar; og þar þér ættud ad bidja Gud ad blessa, segi þér ad Andskotinn skuli taka. Svo sáir nú Fjandmadurinn illgresinu, Matth. 13. bædi á sjó og landi. Þegar Gud sendir ydur þad á aunguliun, er ydur ecki líkar, forsmái þér þad, blótid því, og kastid því aptur í hans nádar fadm, sem hann er þá hvad mest ad útbreida til ydar. O! þér rángsnúnir og þeckíngarlausir syndarar; láti Drottinn sinn vind blása á sjóinn, svo ydur þykir hætt vid lífstjóni, þá kallid þér ad sønnu til Drottins, sem og vera á, en gjætid ad, hvørt þad muni eigi kunna ad eiga heima hjá ydur allmørgum, sem Drottinn sagdi vid Júda, Jér. Kap. 2: þegar neydin yfirgeingur, þá segja þeir: upp þú og hjálpa oss; en hvar eru þá gudir þínir, sem þú hefir gjørt þér? bjód þeim upp ad standa; lát sjá hvørt þeir kunna ad hjálpa þér í neydinni, þegar svo til ber fyrir ydur; ó! þér gudlausir menn; hvar er þá Andskotinn, er þér svo títt ákallid, og bidjid ad taka bædi ydur og ydar stallbrædur? hvar er hann þá? mun hann nockud hjálpa ydur úr neydinni, þegar þér liggid undir afsøllum? Mér mun saklaust vera ad ávarpa hann med sømu ordum og Elías taladi um Jessabels Bal fordum daga: kallid hátt því hann er einn gud og hefir mikid ad gjøra, 1. Reg. 18. Veit eg, ad hann hefir ríki svo mikid í heiminum, sem Gud ljær hønum, til ad straffa med syndir mannanna; en heldur mun hann uppæsa sjáfarhafid þeim til skada, ef hann þó hefir þad vald, en eigi mun hann hasta á sjóin né vindinn; þá makt gaf hinn almáttki Konúngur Syni sínum, og ecki Fjandanum, sem er fángi og útlagi Guds. Einskis er af hønum nema ills von, því hann rædur ecki fyrir ødru. En þegar þér svo kallid til Guds í neydinni, munud þér géta haft fullt traust á hønum, ad hann útrycki ydur þadan, Ps. 91, nær þér þannin leitid atvinnu ydar; eckert fyrirheit hafid þér þar um, nema þad, ad á hvørjum tíma, sem hinn ógudligi snýr sér frá sínu ógudligu athæfi, þá skuli hans synda ecki ad eylífu minst verda, Ezech. 18, og stendur þad ad sønnu óraskad um alla æfi. En gjætid ad, þér sem svo ógudliga lifad hafid, hvørt ydur muni ecki fyrr koma til hugar, þegar þér ratid í lífsháska nockurn, ad sorga fyrir þessu auma lífi, hvørt þér þó skulud einhvørn tíma missa, heldur enn ad befala ydar sálir Skaparanum af alvøru; ordsøk þá hefi eg til ad efast hér um, ad þar eru svo fáir, sem Gud hefir sýnt daudan, ad þeir lifi betur eptir enn ádur; en hvad er svoddan? Gud er nálægur øllum þeim sem hann óttast; en eg kann ecki ad segja, ad þeir óttist hann, sem hann eitt sinn hefir leyst úr helju, og eru þó eingu betri sídan. Þegar Gud géfur ødrum meira enn ydur, þá øfundid þér þá; þér erud rángeygdir, af því hann er gódgjarn, Matth. 20; Þér spillid veidum þeirra, ef þér gétid, og í því reki þér Satans eyrindi, því hann leitast vid ad koma því til vegar, ad manneskjan hafi sem minst gagn af ørlæti Drottins; ecki gjørdi svo Pétur og félagar hans, er Drottinn gaf þeim hina miklu

blessan, er Lúcas skrifar um, Kap. 5; þeir bendtu sínum félögum, ad þeir kæmu og hjálpudu þeim, og meddeildu þeim af þeirri Guds blessan, er þeir feingid höfdu; en eg þori ad segja, ad nockrir af ydur eru svo lyndir, ad þeir nærri því heldur söckva vilja enn unna sínum nábúa nockurs af því þeir hafa of mikid. Svo og forsmáid þér hina adra, sem minna er veitt, svo sem væri þad ydar atburdum ad þacka, og þér mættud skamta ydur úr Guds hendi þad þér viljid, og gjætid lítid ad því, sem Páll segir: hvad er þad madur, ad þú ecki þegid hafir, 1. Cor. 4; sumir af ydur trúa á sinn fiski-galdur, og hefir þá Andskotinn sýnt kunst sína í hjarta ydar, þegar hann kémur ydur til ad dyrka sig, og þacka sér fyrir Guds gáfur. Ecki gjördi þad Petur; í þínu nafni vil eg netinu útvarpa, sagdi hann til Jesúm, Lúc. 5. En þegar þér brúkid rúnir og ristíngar, med hverjum þér þó minna enn eckert fáid útrétt; kastid þér þá ecki netinu út í Fjandans nafni? ó! minn Herra og Gud! eg gét ecki nógliga dádst ad þinni þolinmædi, ad þú setur ecki krók í nasir Andskotans, Ezech. 29, eins og hvalsins í Egyptalandi fordum, og lætur þá draga Djöfulinn upp á aunglinum, er svo hæda þitt nafn, ad hann gleipi þá lifandi eins og jördin Córe, Datan og Abíram, Núm. 16. Lærid af Petri ad fiska, gódir menn, hann er hinn besti formadur; þótt hann sæti úti alla nóttina og feingi eckert, þá möglađi hann ecki, heldur sagdi: eptir þínu ordi vil eg netinu útkasta. Ecki örvænti hann, þótt Drottin léti hann bida eptir sér, en þegar hann blessadi hann, þá fyrirvard hann sig og gaf Gudi dýrdina. Ecki gjöra þeir svo, er hroka sér upp af Guds láni, svo sem væru þeir þess verdugri enn adrir. Fordist slíkan dáraskap, ef þér viljid vera vissir um Guds adstod í háskanum; takid med allri hjartans audmýkt á móti hans blessan, hvört heldur hún er mikil edur lítil, og sjáid ecki offjónum yfir þeim, sem hann hefir meira géfid; forsmáid og ecki hina, er hann minna lánar, heldur sé hvör ánægdur med sinn deildan verd, og gjaldi Gudi skyldugar þackir þar fyrir; hyrdid og faung ydar skynsamliga, og ónýtid ecki Guds gáfur; ef þér óvirdid þær, og leggid ad litlu, nær þér nægtir hafid, þá óvirdid þér Skaparan, sem þær géfid hefir; verid og minnugir kjærleikans, ad þér gleymid ecki hinum volada og þurfamanninum, og sýnid þacklæti ydar vid Gud, ecki einasta med ordi, heldur og verki, 1. Jóh. 3, vid hans fátæka naudstadda limu. Ecki fái þér honum betur launad, enn med svoddan móti, því jafnvel þótt ad madurinn sé vesæll til þess, ad hann kunni Gudi nockud aptur ad gjalda, þá vill þó Mannsins Sonur á hinum effsta degi segja: hvad þér gjördud einum af þessum hinum minstu, þad gjördud þér mér, Matth. 25; en um alla hluti fram, þá felid Gudi á hendur sál og líkhama, nær þér dragid út á djúpid til ad leita ydar næríngar; hugleidid ad þar eru valla tveir þumlúngar á milli lífs og dauda; hvílíkur vodi er þad þá og sálar-háski, ad trúa svo óstödugum hlut fyrir sálu sinni sem hafid er, nema menn séu þar um ádur fullvissir, ad hvört þeir lifa edur deya, þá séu þeir Drottins, Róm. 14. Sá sem út á sjóin fer, þad er eins og gángi hann í orustu; hann er ecki viss um ad ná landinu aptur; en þótt ad hinum almáttuga Gudi sé ecki um megn ad vardveita sína, eins vel á sjó og landi, þá mætti mér þó til hugar koma, ad vanda mig hvad mest, og leita Drottins hjálpar, þegar eg sé háskan fyrir augunum. Eg hefi um þetta efni nockud lángtala verid, og þad fyrir því, ad eg hygg þess vel vid-þurfi, því margur er ódæll, hyrdulaus og óhlut-

vandur, skeitandi ecki um, nema ad fylla kroppinn, og gildir eina þótt sálin svelti; og vona eg ad Guds børnum muni þad ecki óþægt vera, er eg hér um sagt hefi; hinir verda sínu fram ad fara, er heilsusamligar áminníngar ad eingu hafa, og veldur þó ecki sá ed varir, þótt ad verr fari; þeir munu ad-komast rauninni, er þad forsmá, nær uppskéru-tíminn kémur. Og vil eg svo apturhverfa til hins, er eg í øndverdu hóf um ad tala, sem var, ad menn skyldu varpa allri sinni áhyggju uppá Gud, Ps. 55. og hønum alleina treysta, þá vér rotum í neyd einhvørja edur mótlæti. Ad sønnu er oss ecki bannad, miklu heldur leyst, ad leita mannanna hjálpar, nær oss áliggur, því mennirnir eru skapadir hvør ødrum til adstodar, og hafa Guds bod um þad, ad styrkja hvør annan innbyrdis, Gal. 6. Gud nádi, ad því er á eingan veg svo eptirfylgt sem byrjadi; en ef vér þetta rétt athugum, þá dregur mannlig hjálp oss svo skamt á veg á-stundum; suma vantar efnin, adra viljan, nockrir eru lángt frá oss, og ná eigi til vor þótt vildu, nær í raunirnar rekur; en Gud brestur aldrei máttinn, aldrei viljan, svo sem ádur er sagt, og menn skulu eigi þurfa ad senda lángt eptir hønum, því hann er nálægur øllum þeim sem hann ákalla, Ps. 145; héradauki er sumum vorum meinum svo háttad, ad einginn mannligur kraptur gétur rádid bót á þeim; en þar er eckert þad bøl, sem allra meina Grædari kunni eigi ad lækna. Vel kunna mennirnir ad hjálpa lífi voru optliga; en þó svo, ad hann vilji hafa oss hólpid í þad sinn, annars ecki, því øll lifandi sál er í hans hendi, Job. 12; en þad skilur Guds og manna adstod, ad þótt hann deydi, þá lífgar hann eylífliga; því þad skal ské, sagdi Lausnarinn, Jóh. 11, ad hvør sem trúir á mig, þótt hann deyi, þá skal hann samt lifa. Gjætum og þess, brædur mínir, ad þótt vér af mønnum lidveitslu þiggjum, þá kémur hún samt frá Gudi; edur hvadan er þad, ad oss kémur hjálp á-stundum, þadan sem ólíkligast er, og vér væntum hennar síst frá? Ecki var Móses, þá hann var landflótta, Exód. 2. til þess líkligur, ad leida Ísrael út af Egyptalandi; Gédeons ætt var hin minsta á medal Manassi, og hann minstur medal sinna brædra, Júd. 6; þó sendi Gud hann, til ad frelsa Ísrael af hendi Madíanítanna; hann sendi ókénda menn, af fjarlægu landi, til ad færa syni sínum vega nesti, er hann var enn þá í reifum, Matth. 2; hann sendi hønum einn framandi mann Símon af Cyrenía, til ad bera krossinn med hønum, Matth. 26; hann sendi Nicódemum og Jóseph af Arímathía til ad gjøra hans útfør heidarliga, Jóh. 19. Einginn madur kann um þad høgum ad hyggja, hvørnin Gud fer ad hjálpa, þegar hann er nádugur; hann kann ad géfa Ísrael vatn af hellunni, Núm. 20; hann gétur sendt Elíæ fædslu med hrøfnunum, 1. Reg. 17, og mettad margar þúsundir manna med fáum braudum og fiskum, Jóh. 6; og eg veit, ad þar er nærri einginn af oss, sem til ára erum komnir, ad eigi hafi hann einhvørn tíma reynt svoddan undrunarliga Guds adstod, ef vér hefdum vit á eptir ad taka, og tilreikna þad Gudi, sem hans er; en sumir trúa á mátt sinn og meginn, og þykjast sjálfir afreka alla hluti; jafnvel þótt eg ætli, ad hinum mektuga himnanna Konúngi verdi lítid fyrir því ad gjøra oss þrautirnar svo þúngar, ad mannligur kraptur nái skamt til ad kasta þeim af sér; þad hefir hann optliga sýnt; hvad vard úr þeim fimm konúngum, sem Abraham hrakti med nockrum húskøllum sínum? Gén. 14; hvad vard af øllum risunum í Kanaanslandi, sem hruckn undan Jósúa? Jós. 12; hvad

úr Pharaó er hann treysti á sína miklu makt og sagdi: hvør er Jehóva, ad eg ni hlýda hønum? Exód. 5; hvad vard úr hinum sterka Golíath, er Davíd rotadi ı med steins-hegginn? 1. Sam. 17. Nockrir treysta á vísdóm og framsýni, en þad ʒ hégómi. Hvad stodudn Absalon Achítóphels klókindi? 2. Sam. 16; edur Adónía bs slægvitska? 1. Reg. 1; báda þá slógu þeirra eigin prettir um hálsin; hvar fyrir? d Gud var ecki til rádaneytis tekinn. Sumir gjøra þennan fallvalta mammon, ad athvarfi, 1. Tím. 6, og vilja alla hluti med hønum útrétta, en þad er eitt vesælt st; Guds gáfa er hann ad sønnu, ef hann er rétt feinginn, annars ecki; en eingum þann duga, nema Drottinn hjálpi, og allra sízt má hann sálunni gagna, nema þeirra, gjøra sér vini af hønum, er medtaki þá í eylífar tjaldbúdir, Lúc. 16, og eru þar-fyrir í gódum verkum, 1. Tím. 6; en hvørnin sem øllum þessum er háttad, þá er hinum erst farid, er svo lítt treysta Gudi sínum, ad þeir meina ad høfdíngja og veraldar-ına gunst muni duga þeim framar, enn ást hins mikla alsherjar Drottins, er øllu ur bædi á himni og jørdu, og gjøra því marga óleyfiliga hluti þeim í vil, en móti um, og ætla ad þeir muni kunna ad bera skjøld fyrir sig, er þó eckert eiga undir sjálfum þegar Drottinn er reidur. Ofarir þeirra er svo hafa breytt, má allvída lesa í Rit-unni; svo sem þegar Drottinn reiddist Júda konúngum, er þeir leitudu hjálpar til lands og Egyptalands konúnga, og kjøru heldur ad vera þeirra naudúngarmenn, enn íta Drottinn ríkja yfir sér og heita hans frelsíngjar. Þvílíkt skyldu øll Guds børn ıst, heldur leita hans í allri neyd, til hvørs þeim er varpad í frá módur lífi, Ps. 22, þaga svo líferni sínu, ad hann þecki þá fyrir sín børn, sína ást-menn og brædur síns étins Sonar Jesú Christí. Heyrid þar fyrir ord Drottins, af Esajæ spádóms-ır, 33 Kap.: hvør hann geingur í réttvísinni og talar hvad rétt er, hvør hann hatar jindin og ágyrndina, og heldur sínum høndum frá því ad þiggja skeinkíngar, hvør hann yrgir sín eyru, ad ecki heyri hann manndráp, og lýkur augu sín til, ad eigi sjái hann ilsku-pørin, sá mun í hædunum búa, og bjørgin munu hans virki og verndar-hlíf ı, hans braud mun hønum géfast, sitt vatn mun hann víst hafa. En þú Dómari ır veraldarinnar, sem í himninum býr! vertú sól og skjøldur þinna barna, sem á þig ı, og lát þau aldrei verda hinum skjæda mordíngja Djøflinum, edur hans limum ad ángi; lát þau bída eptir þér med þolinmædi, og sleppa þér ecki þar til þú blessar þau nnleidir í þíns Sonar dýrd. Bænheyr þad nádugi Fadir! fyrir hans forþénustu, n, í Jesú nafni, amen!

# Fimta Sunnudag eptir Þrettánda.

### Gudspjallid, Matth. 13. Cap.

þann tíma; adra eptirlíking lagdi Jesús fram fyrir þá, og di: himnaríki er líkt þeim manni, hvør ed sádi gódu sædi í ır sinn, en þá menn sváfu, kom óvinur hans og sádi illgresi

med í bland hveitinu, og géck í burt. En er grasid spratt upp, og bar ávøxt, þá auglýstist og illgresid. En þjónustumennirnir geingu til hús-fodursins og søgdu hønum: herra! sádir þú ecki gódu sædi í akur þinn, hvadan kémur hønum þá illgresid? og hann sagdi til þeirra: fjandmadurinn hefir þad gjørt; þjónustumennirnir søgdu þá: viltu ad vér førum og útlesum þad? og hann sagdi: nei, svo ad þér upprætid eigi hveitid undir eins, nær þér útlesid illgresid; látid hvørttveggja vaxa allt til kornskurdarins, og á kornskéru-tímanum skal eg segja til kornskurdar-mannanna: lesid fyrst saman illgresid, og bindid þad saman í bindini til ad brenna því; en hveitinu samansafnid í mína kornhlødu.

## Exordium.

Þad eru hrædilig ord sem Esajas Spámadur talar til Gydínga, Kap. 6. er hann segir: heyrid ávalt, sjáid ávalt, og þeckid þó ecki. Gud veri oss líknsamur! hvílíkt er þetta skélfiliga straff? hvad er vesælla enn ad hafa skilníngar-vitin af Gudi þegid, og hafa þó ecki not af þeim til þeirra hluta, sem þau eru til-gjørd? þad er ad vera líkur þeim skúrgodunum, er David umtalar, ad þau hafi munn og mæli ecki, nasir og lycktí ecki, hendur og þreifi ecki, fætur og gángi ecki, Ps. 115. og er þó ecki ad undra þótt svoddan straff kiæmi yfir þá, sem þessa málleysíngja, þessa dauda hluti, stocka og steina gjørdu sér ad Gudum og dýrkudu þá, í stadin hins lifanda Guds, sem bædi þá og alla hluti skapad hefir; því David segir hér strax eptir, ad þeir ed gjøra þau, séu líkir þeim. En þess er ad gjæta, børn mín, ad spádómur þessi Esajæ hefir átt sér leingri aldur, enn um hans daga; því þegar Drottinn Jesús framsetti fyrir fólkid eptirlíkínguna um sædid er féll í fernskags jørd, Matth. 13. og Lærisveinarnir spurdu hann ad, hvar fyrir hann taladi í eptirlíkíngum til þeirra, þá vikur hann þessum spádómi Esajæ til Gydínga er lifdu á hans døgum, og forsmádu Evangélium ríkisins, er hann bodadi þeim, segjandi: þar fyrir uppfyllist á þeim spádómur Esajæ, er segir: ad heyrandi muni þeir heyra og ecki skilja, og sjáandi muni þeir sjá og ei þeckja. Ecki er sú meiníng Frelsarans, ad Gud vilji ecki unna þeim skilníngs sinna heiløgu orda og réttinda, því hann vill ad allir menn hólpnir verdi, og komist til sannleiksins vidurkénníngar, 1. Tim. 2. heldur segir Esajas, og Drottinn eptir hønum, órdsøkina til þessarar andligu deyfu og blindni í sama stad, med þessum ordum: hjarta þessa fólks er hart ordid, og þeir heyra þúngliga med eyrunum, og lykja augunum aptur, svo þeir sjái ecki med augunum, og heyri ecki med eyrunum, og skilji med hjartanu, ad þeir snúi sér og eg lækni þá, Es. 6; hvar af audsært er, ad søkin er hjá mønnunum, og ecki hjá Gudi. Drottinn setti fram margar eptirlíkíngar í þessum sama Kapitula, og medal annara, þá ed samskundis var upplesin, en einginn var sá, ed spyrdi hann eptir hennar þýdíng, nema alleina hans Lærisveinar. Svo lítid økt-udu þeir þessa Guds gjøf, þar fyrir var þeim ecki unt ad vita leyndardóm himnaríkis. Ecki þarf eg þessa føgru eptirlíkíng fyrir ydur út ad skíra; hinn stóri Biskup, 1. Pet. 2. med þá vellærdu túnguna, Es. 50. hefir þad svo vel gjørt, med fám ordum, ad ecki er abótavant, þar hann svaradi Lærisveinunum þannin, Matth. 13: sá er sádi hinu góda sædi, er Mannsins Sonur, en akurinn er heimurinn; en hid góda sædid eru ríkisins synir; en illgresid eru synir hins vonda; en óvinurinn er sádi því, er Djøfullinn; en kornskurdar-tíminn er endir heimsins; en sláttu-mennirnir eru Einglarnir; þar fyrir svo sem illgresinu verdur samansafnad og í eldi uppbrent, svo mun og verda á heims-endirnum; Mannsins Sonur mun senda Eingla sína, þeir ed munu samansafna úr hans ríki øllum hneixlunum, og þeim ed yfirtroda løgmálid, kastandi þeim í elds-ofninn, þar mun verda óp og tannagnístran, þá munu réttlátir skína eins og sól í ríki síns Fødurs; hvør eyru hefir ad heyra, hann heyri. Þessi er útskíríngin, brædur mínir; og er þad mála sannast, ad hún er svo ágiæt, ad Gydíngar hefdu

vel mátt forvitnast nockud framar um skilníng eptirlíkíngarinnar, svo sem Lærisveinarnir gjørdu, hefdu þeir lagt nockurn hug á sitt mál. En þess er ad gjæta, børn Guds, ad fyrst ad spádómur Esajæ nádi til Gydínga, sem lifdu á Christi døgum, meir enn 700. árum sídar, og var þá af þonum stadfestur, þá er audvitad, ad hann einnin nær til vorra daga, sem nú lifum; því svo sem þad ad Guds-ríki er til vor komid frá Gydíngum, søkum þess þeckíngarleysis, sem í þeim var, Eph. 4. svo eru og til vor komnar allar þær vidløgur og bótanir, sem á þeim munu ad fullu hrína, er gjøra sig þess enn-nú í dag óverduga, og forsmá Guds Son og undir fótum troda, Hebr. 10. Nú fyrir því ad eingin þørf er ad útskíra þessa prédikun Herrans, framar enn gjørt er, svo sem ádur er sagt, þá vil eg kvedja ydur þeim dýrmætu ordum er hann endar þessa sína útleggíngu med: hvør eyru hefir ad heyra, hann heyri! og alleina tala um þá hluti af Gudspjallinu, er oss vekja meigi til ad þeckja vorn vitjunar-tíma. Hjálpa oss þar til, ó, þú gódi Gud! med nád þíns Anda, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Frelsarinn segir í øndverdu Gudspjallinu, ad himnaríki sé líkt manni nockrum, er sádi gódu sædi í akur sinn. Af hans eigin útleggíngu er audséd, ad sædid merkir hér annad, enn í næst fyrirfarandi eptirlíkíngu; þar merkir þad Guds ord, en hér mennina, sem Guds ord eiga ad heyra. Þessu góda sædi sádi Drottinn strax í upphafi skøpunar; gott sædi voru þau Adam og Eva, þegar Gud sádi þeim nidur í aldingardinu; margt hefir þar gras fagurt verid, mørg føgur eyk, og margur blómligur ávøxtur, þó einginn nærri til líka vid þau, því madurinn var eptir Guds mynd skapadur, segir Ritníngin, Gén. 1; báru þau þess-vegna lángt af øllum skøpudum sképnum á jørdunni, en jafnskjótt kom þar Fjandmadurinn, Gén. 3, og stack þeim andligan svefnþorn, svo þau tóku nidur fyrir sig, og virdtu meir þá sképnu Guds, sem þeim var miklu óædri heldur enn sjálfa sig, eptir slægdarfullri Djøfulsins áeggjan; sídan hefir hann aldrei vantad sædi, til ad spilla Guds akri med. Strax var þar einn mordíngi í Adams húsi, Gén. 4, og þótt ad Gud setti hann út frá þeim litla safnadi sinna barna, sem þá var á jørdunni, þá vardi þad ecki leingi, þar til Ovinurinn sádi aptur illgresinu á medal hveitisins, og kom Guds sonum, sem voru þeir af nidjum Adams er Guds ótta gjættu, til ad elska mannanna dætur, sem voru Caíns afspreingi, hvar af óx þad illgresi, fyrir hvørt ad Gud uppræ
tti hina vantrúudu verøld, Gén. 6, þegar hønum í þad sinn virdtist kornskéru-tíminn kominn vera, og ecki var eptir nema illgresi eitt á jørdunni, ad fráteknum Nóa og hans hyski, og þó var þar einn spottari, einn óhlýdinn sonur í hans húsi, Gén. 9, svo ad eptir flódid, þegar þar voru ecki nema átta kornstángir í Guds akri, þá var þó eitt illgresi á medal þeirra; og er framlidu stundir, kjæfdi þetta Andskotans sád-verk svo hveitid, ad þess gjætti valla, og þad svo mjøg, ad þad ætladi ad vaxa upp í himininn, þegar þeir bygdu turninn Babel, Gén. 11, og ætludu sér ad taka rádin af hinum Almáttuga, svo ad eigi skyldu þeir adskiljast, og svo hefir þad jafnan geingid fram eptir øldunum. Þegar Gud kalladi Abraham af Ur í Kaldea-landi, Gén. 12, og uppfræddi hann sjálfur í þeirri himnesku speki, þá sádi hinn alvitri Hús-fadir gódu sædi í Kanaans-landi, þó spratt þar upp strax eitt illgresi, einn hád-fugl Ismael, Gén. 21, einn offóknari, ein ambátt sem ad vanvirdti hús-módur sína, Gén. 16; í kvidi Rebeccu voru tvær þjódir, og sá meiri offókti þann minna, Gén. 25. Esaú gudlaus madur, hinn fróma Jakob, Gén. 27, og þó var ecki Jakobs hús fyrir utan

illgresi; þar var ein lauslát dóttir, Gén. 34; þar voru tveir mordíngjar, Gén. 34; þar var einn sonur, er fleckadi síns fødurs sæng, Gén. 35; þar voru níu brædur, er seldu sinn eigin bródur mansali, Gén. 37. Lángt er allt svoddan upp ad telja. Á medal Christi tólf Lærisveina var þar einn Drottins-svikari, Jóh. 6; þegar akur hans kristni var sem blómligastur, svo ad allir hlutir voru sameiginligir med þeim trúudu, og þeir seldu eignir sínar, og báru fram fyrir fætur Postulanna, Act. 4, þá skaut Djøfullinn þar strax illgresinu inn, þegar Ananías og Saphíra leyndu af jardar-verdinu, Act. 5; hvørnin Símon hinn fjølkunnugi, Act. 8, spilti Guds kristni, er ljóst bædi af Postulanna gjørníngum og ødrum kristinndóms søgum, og hvørsu mjøg Pálus kvartar um vanskickunina í Drottins kvøld-máltíd, 1. Cor. 11, svo og skammarligt samrædi med nákomnum sér, er hann segir, ad ecki heyrist jafnvel medal heidíngjanna, 1. Cor. 5; þad má alkunnugt vera af hans bréfum til safnadarins í Korinthó. Fyrst nú ad Djøfullinn fécк slíku til vegar komid ámedan Gud taladi sjálfur vid mennina, eins og madur vid mann talar, á-medan hans eingétinn Sonur voru holdi íklæddur, flutti eyrendi síns himneska Fødurs hér á jørdunni, medan heilagur Andi med sýniligum krapti og jardteiknum auglýsti sitt Guddóms almætti í mønnunum, og á-medal mannanna, þá ætlumst ecki til ad hann muni nú sídur verka í børnum vantrúarinnar, Eph. 2; þar vér meigum gløggliga vid þad kannast, af þeim løstum og skømmum, er dagliga í vøxt fara á-medal vor, ad Satan er ofan kominn, hafandi brædi mikla, Apoc. 12. Því mætti oss vera umhugad ad þeckja vorn vitjunar-tíma, er oss svo optliga bodadur verdur í Guds H. ordi, og vilji menn ecki Guds vitjunar-tíma þeckja, þá þecki menn þó Andskotans, því sídan kristni hófst í landi þessu, hygg eg hann aldrei hafi meira ríki haft vor á-medal í sumum hlutum, enn-nú um stundir. Á øllum øldum hefir hann sád illgresinu á-medal hveitisins, en þó hefir þad optast verid og vídast, ad skømmin hefir skømm heitid, og dygdin dygd, jafnvel hjá þeim sem ecki hafa dygdina elskad né hatad skømmina; en nú heyrist mér ad menn hrósi sér af løstunum, og setji dygdanna nafn uppá þá. Ísmael er tekinn til ad ofsækja Ísak, og Agar ætlar ad reka Sara út úr húsinu; Abímelech er farinn ad drepa hina skilgétnu brædurnar, Júd. 9, svo hann fridlu sonurinn meigi einsamall ríkja. Agirndin er framsýni køllud, drambsemin høfdíngsskapur, hræsnin vitska; þegar menn brjóta réttinn, kalla menn þad ad byggja hann; þegar menn sleppa skálkum og illrædis-mønnum óhegndum, þá nefna menn þad kjærleika og miskunsemi; hyrduleysi og tómlæti í sínu kalli og embætti, heitir spekt og fridsemi. Á døgum Christi ónýttu þeir Guds løgmál med sínum setníngum, Matth. 15, þá høfdu þeir ecki løg-bók nema Mósis løgmál; en þess væri óskandi, ad ecki ónýttu menn nú kongúngsins løg med sínum eiginn þótta, nær þeim rædur svo vid ad horfa. Svo falsar nú Andskotinn Guds stedja á-medal vor, og setur hans mynd og yfirskrift á svikinn málm, og þetta verkar hann med slægd og kunnáttu svo mikilli, ad svo sem ad illgresid er vandþeckt frá hveitinu, ádur enn þad er fullvaxid, Matth. 7; svo þeckja menn ecki þessa úlfa, fyrr enn saudar-gjæran er af þeim dregin, og þeir bíta høfudid af skømminni, svo hún fær ecki leingur dulist. Veit eg ad fjandmadurinn brúkar einfeldni og hugleysi margra til slíkra hluta, og er þad nógu illt, því grátligt er til þess ad vita, ad sákjænskan og óttinn fyrir því sem eckert er, skuli

svo drottna í veröldinni, ad fáir annadhvört viti, hvad þeir eiga at gjöra, edur þeri, þótt vita meigi; en hvörnin sem því er varid, þá vilda eg þess óska, ad þegar Drottinn lítur af himnum ofan yfir mannanna sonu, Ps. 14. ad hann hefdi þá ecki órdsök til ad klaga, eins og Jéremías Kap. 5, er hann segir: nú vel, sá aumi flockurinn er skynlaus, vitandi ecki neitt af Drottins vegi, og af síns Guds réttindum; eg vil gánga til hinna voldugu og tala vid þá, þeir munu vita af Drottins vegi, og síns Guds réttindum; en allir saman höfdu þeir okid brotid og togin ísundur slitid. Hvar fyrir kémur nú öll þessi ólucka? því hefir Fjandmadurinn svo mikinn framgáng? er hann sterkari enn Gud? fjærri sé því, hans Sonur hefir einusinni rænt hann sinni harnesku og sínum vopnum, á hvör hann treysti, Lúc. 11. Hvad þá? hvör er órdsökin? þvíad menn vilja heldur ljá limu sína til íbúdar syndinni heldur enn réttlætinu til verkfæra, Róm. 6. Gud vill láta erfida í sínum víngardi, Matth. 20; þar fyrir vill margur hafa sig undan þeginn, ad ljást hönum til þjónustu, jafnvel þótt ad þeim séu launin vís á himnum, er hönum til handa gánga, en þad er inndælt ad gjörast verk-þræll Andskotans, því hann leggur kodda undir höfud syndarans, Ezech. 13. þótt menn fyrir víst viti, ad hann launi med eldi og brennusteini, Apoc. 14. med ópi og tannagnístran, Matth. 13. svo sem Drottinn adkvedur sídarst í útskíríngu þessarar eptirlíkíngar. Þegar menn sváfu, kom Fjandmadurinn og sádi illgresinu medal hveitisins, segir í textanum. Ecki er med þessu meint ein stétt heldur enn önnur, en alleina tækifæri þad sem óvinurinn brúkadi, til ad fá illgresinu nidursád í akurinn, þad var svefntíminn; samt má eg taka mér ordsök hér af til ad tala þar um, ad eg hygg oss verdi nockud svefnsamt allmörgum í bádum þeim stéttum sem yfirrádin hafa, svo ad fjandmanninum þar fyrir optliga géfist tækifæri til ad spilla Guds akri med illgresinu. Takid fyrst til á mínum helgidóm sagdi Drottinn vid Jerúsalems Eingla, er hann baud þeim ad slá þá alla sem ecki teiknadir vóru, Ezech. 9. Eg vil fyrst taka á oss sem berum Arons skrúda. Hvörnin mun lída um hinar smáu kornsteyngurnar í Guds akri? mun þær ecki vanta ástundum þann heilnæma vökva, er þær eiga ad spretta af, svo ad þeim kynni safnad ad verda í bindini Guds barna, þegar uppskéru-tíminn kémur? Eg hygg ad í þessu sé mikill brestur hjá allmörgum, hvad Gud nádarsamliga lagfæri, og géfi þeim ad ydrast, er í þessu er svo mjög abóta-vant. En segid mér, hvad gjöra þeir ed þannin breyta? sofa þeir ecki? mun ecki Fjandmadurinn hafa nóga ordsök til ad sá illgresinu þegar svo til geingur? þad er hægt ad gjöra hveitid ad illgresi, en ad láta hveitid aptur-hversa til sinnar fyrri náttúru, þegar þad er einusinni ordid ad illgresi, þad heyri eg sagt ad sé ómöguligt; svo er því og varid í Guds Akri; margs úngmennis náttúra kann ad vera gód, en því veldur Fjandmadurinn, og þeir sem eiga hér um ad hyrda, nær þeir forsóma sitt verk, og géfa hönum rúm, ad hún venst á þad illa sem er audnæmt, því hún heyrdi lítid af því góda, og dregst svo únglíngurinn á legg ad bágt kann vera vid ad gjöra, venur svo adra eptir sér, nær hann er gamall ordinn, svo ad þessi drepsótt smýgur svo mann af manni, þar til hún spillir heilum akri. Þeir sem eta þetta illgresi sem hér gétur um í Evangélió, verda blindir edur glámskygnir. Hvad munu þeir verda sem uppalast med þeim, er svo eru uppaldir? blindir af blindum leidtogurum; og þetta sjá nockrir af vorum kénnimönnum

og leggja þar ecki til; sofa menn þá ecki? mun Satan forsóma þetta tækifæri? eg vil e tala um það, hvörsu lítið að sumir af oss vanda kenninguna af predikunarstólnum; finnast munu þeir eð ætla sig vel hafa rekið Guðs eyrindi, ef þeir fylla upp eyru tilheyrendanna með hárevsti nockru, og mælgi þeirri er hvörgi á heima, en gjæta ecki að því, hvört hinn sturlaði finnur huggun þar í, hinn fávísi leiðrétting, hinn dofni og hyrðulausi uppvakning hinn ógudligi og sá eð forsmáir Guð og hans réttindi, það sem hönum tilheyrir, sem e hótun Guðs reiði og eylífrar fyrirdæmíngar. Hvört allir þessir finna það í einni prédik un, það athuga sumir menn ecki svo gaumgjæfiliga ástundum, þegar menn hripsa eitthvað út úr einni bók, til að gjöra affökun sína, gjætandi ecki mjög smásmugliga að, hvört það gagnaði að tala á þeirri tíð, eður í þeim söfnuði, sem hönum er á hendur falinn ti umönnunar; samt þvo menn hendur sínar fyrir fólkinu, og kalla sig saklausa af blóði hins réttláta, Matth. 27, sem þó ecki hrín á þeim er tapast, sökum sáfrædis þessara vesal ínga; en hann, sem í Guðs stað er settur, forsómaði að géfa hans hjúum í réttan tíma það sem byrjar, Lúc. 12, og ætlar að Guð muni ecki krefja þess af sinni hendi síðan, Ezech 33, jafnvel þótt hinn sáfróði megi deya í sínum syndum, nema Guð vilji meiri miskun gjöra, vegna hans tómlætis, er hönum á að undirvísa, og áminna foreldra og húsbændu að gjöra skyldu sína, þar sem hann fær ei sjálfur tilkomist. Segið mér, er ecki þvílíkt a sofa? mun Óvinurinn ecki færa út sinn reit í Guðs akri við allt þetta? Eg vil ei fá m til orða, hvörsu að margur leiguliði er ragur í því að straffa ódygðir og glæpi hjá þei sem eru nockurs málsmetandi, ein máltíð matar, einn bikar áfeings dryckjar, eitt hundraðs virði eður minna ástundum, þvær af allar syndir hins guðlausa, hjá þeim er svo eru lyndi launandi svo skammarliga sínum velgjörða-mönnum, að þeir pretta þá um gagn sálar sinna: og þann mesta velgjörníng er þeir kynnu þeim aptur að sýna, sem er að segja þeim t synda sinna, svo vanhelga þeir Guð fyrir einn mjölhnefa, svo sem Drottinn að orði kémst Ezech. 13; og þótt eckert af þessu í milli komi, þá heldur óttinn fyrir ofríki þess voldug morgum af þeim er sig kalla umboðsmenn Christí svo í taumi, að þeir ecki þora munninum upp að ljúka, hvörjar helst skammir og klæki sem þeir horfa á. O, vei! o, vei! segi mér í Guðs nafni, segið mér, er ecki þvílíkt að sofa? Mun ecki fjandmaðurinn hlæa a þessu, nær Guðs þénarar draga hans plóg svo kappsamliga, og finna að það megi ur vorar tíðir segja, er Drottinn sagði forðum um hyrðarana í Júda: allir þeirra vökumenn eru blindir og vita alls eckert, mállausir hundar eru þeir, og kunna ecki að gélta, þeir er latir, liggja og sofa gjarna, Es. 56; og þessir hinir grádugu hundar, kunna þó aldre saddir að verða; og þetta hið síðarsta veldur, að menn eru svo spakir í því að umvand við aðra í Guðs stað. Balaks fénunir orka þess að asnan verður fljótari til að segj satt heldur enn spámaðurinn sem á henni situr, Núm. 22; svo þegar einn höfðíngi fæ ecki að heyra sannleikan af presti sínum, sem á og má segja hönum til syndanna, án allra misvirðíngar, þá verður hann ástundum að heyra það af fjandmanni sínum, af hinum minsta þénara, af einum bónda, sem að gjörir skömm til kénnimannsins, er þetta ætti a gjöra sér til forsvars hjá Guði, en hinum til sálar-bata og eingrar mínkunar, nema han þykist meiri maður enn Davíð, er þoldi Nathan spámanni sannyrðin reiðilaust, 2. Sam

12; og ef hann heyrir þad af eingum af þessum, þá mun hann þad heyra af Dómara alls holds á sídarsta degi. Og þótt menn séu nú svo spakir vid höfdíngjana og þá hvörra vald menn óttast, þá vantar menn ecki suma hvörja ástundum ad brúka síns embættis-myndugleika vid lítilmagnan, ecki til ad leidrétta hann, edur til ad vandlæta í Guds stad, heldur til ad ótta mönnum med því valdi, er vér höfum til ad leysa og binda syndina á jördu, Matth. 16. og til ad hefna sín á þeim er menn þykjast varhendt eiga; Gud veit ad eg lýg ecki, ad þessi muni dæmin gefast, og þó fleiri enn eitt. En eg bid ydur, ad þér athugid, þér sem þetta adhafist, eg bid, segi eg í Guds nafni, ad þér athugid hvad stélfilig hádung ad þetta sé, og hvörsu ad blód Drottins Jesú, þad dýra sátt-málans blód muni hrópa í himininn, þegar þad er svo almenniligt haldid af einum synda-þræl, er vænist ad þessu Guds umbodi, sem fyrir þeirra og allra manna syndir er krossfestur; segid mér þér dárar! mun Gud hafa nockrum umbodid ad fóttroda þannin sitt eigid blód? hvörs minsti dropi ad er dýrmætari, enn ad himin og jörd megi í nockurn samjöfnud koma. Þessu vil eg hafa vikid til þeirra er setja einn vesæling út frá heilögu altarisins sacramentó fyrir litlar edur eingar sakir, og optliga þær er þeir sjálfir þykjast vid hann eiga. Vitid þér ecki, þér hræsnarar! ad þvílík útsetníng er eitt Drottins reidarslag til þess ad straffa med gudlausa menn, og hans nafns forsmánara; þó skammist þér ydar ecki ad taka ydur þad í hönd til ad slá þá med, er ydur er íllt í skapi vid. Hvörsu vel hafi þér geymt ydar Herra bodords? er hann segir: blessid þá er ydur bölva, gjörid þeim gott er ydur offækja, Matth. 5. ad þér séud börn míns Födur sem á himnum er. En þegar þér brúkid hans dýrdarfullu stórmerki til ad refsa þeim er þér þykist eiga hefndir ad gjalda, hvörs synir erud þér þá? ecki hans er skipadi ad lída illgresid til kornskéru-tímans, heldur hins sem er mordíngi sálnanna, Jóh. 8; ecki hans sem géck íkríng, gjördi gott og græddi alla, Act. 10. heldur hans er geingur umkríng sem grenjandi león, leitandi ad þeim, er hann fái uppsvelgda, 1. Pet. 5. Þegar Drottinn Jesús géck um Samaríam fordum daga, þá sendi hann undan sér lærisveinana, ad tilreida sér herbergi í borginni, en bæjar-menn vildu ecki taka vid hönum, því hann hafdi þann snid á sér, sem vildi hann reisa til Jerú-salem, en Samarítanar hötudu alla þá, er sóktu helgar tídir þángad, þá reiddust þeir Jakó-bus og Jóhannes og sögdu: meistari! villtu ecki ad vér segjum ad eldur komi af himni og fortæri þeim eins og Elías gjördi, en hann blessadur snérist vid, straffadi þá og sagdi: þér vitid ecki hvörs anda þér erud, því Mannsins Sonur kom ecki ad hann tor-týndi sálum mannanna, heldur ad hann þær hólpnar gjördi, Matth. 9. þetta gjördu þeir Jóhannes og Jakóbus af einfeldni og óþörfu vandlæti vegna Drottins, og þó átaldi hann þá svo hard-liga; en af hvörjum anda gjörid þér þetta? ecki Guds, heldur Andskotans. Segid mér, er ecki þad ad kalla eld af himni, ad banna mönnunum hina kröptugustu lækníng sálar sinnar og steypa þeim svo til helvítis, ad svo miklu leiti sem í ydar valdi stendur? O, þér skynlausir vargar! látid af svoddan ædi, nema þér sjálfir viljid þola brædi Drottins um alla eylífd, í því díki sem rikur af eldi og brennusteini, Apoc. 21; vaknid upp og sofid eigi leingur! gjörid ydran, þvíad ydar hjarta er ecki rétt fyrir Gudi, Act. 8. Hvör eyru hefir ad heyra, hann heyri! Eg vildi og fátt eitt vid ydur talad hafa, þér veraldar

höfdíngjar, med ydar gódu leyfi; munu þeir ecki finnast ydar ámedal er svefnhöfgvi renni á í dómara=sæti, edur nær menn eiga ad gjöra verk sinnar kallanar, sem Gud og konúngurinn hafa þeim á hendur falid; eg vil eigi tala um þad, hvörsu menn leita sér fordildar í ad spilla stefnum og vitnum þvert ámóti lögmálinu, nær mönnum rædur svo vid ad horfa ad útleggja lögin eptir því sem menn þykjast vid=þurfa í þad sinn, og aka þeim eins og seglum eptir vedrinu. Þau munu dæmi géfast, ad einn og hinn sami dómari hefir í einni sök dæmt eptir einu lögmáli, og þvert ámóti hinu sama í ödru eins máli, ecki fyrir nockur ólík atvik edur háttalag sakanna, heldur alleina eptir því sem hann hefir unnad þeim til, sem hafa verid fyrir dómi hans. Segid mér, er ecki þetta ad sofa? þykir ydur ecki von á ad akur Fjandmannsins grói vid þetta? hvörsu óhlífnir eru menn í því ad tradka málunum, og þótt eg segdi blygdunarlausir, þá segda eg ecki ofmikid, því menn gjöra þad svo berliga ástundum, ad þad er öllum heilvita mönnum augljóst, ad menn setja þær flækjur í dóma sína, sem einn talsmadur, edur há sem ætti ad verja höfud sitt, skyldi ecki annarstadar þora ad brúka sér til forsvars. Eg vil eigi fá mér til orda um opinbera réttar=neitun, hvörsu slægvitrir menn eru í því ad skjóta málum á frest án allra ordsaka, svo ad hinn fátæki og einstædingurinn, og jafnvel ástundum þótt hann sé málsmetandi, ef dómarinn er hönum mótfallinn, þeir neydast til ad standa af rétti sínum, og þeim leidist edur hafa ecki efni á ad sækja hann framar, og vilja heldur géfa eptir sök sína, enn spilla tídinni og voga góts og ómaki uppá þann rétt, sem menn eiga ad sækja í þvílíkar hendur. Hvad sýnist ydur nú gódir menn? mun ecki skálkurinn og hinn ógudligi vaxa vid allt þetta og æfa sínar skammir óttalaust, og þegar hönum svo hreckur yfir, sökum rángsleitnis þeirra er réttinum eiga ad stýra, þá kallar hinn óhlutvandi ad Gud hafi þócknan á sér, af því hann lætur hann vaxa til kornskéru=tímans; en þeir sem Gud hefir um=bodid, forsóma ad taka hneixlid og hid vonda í burt úr Israel, Deut. 17. Þegar nú svo ber vid, þá kalla eg ad rétturinn sofi, af því einginn er til ad vekja hann; er ecki slíkt ad ráda Djöflinum verk=þræla til handa í sinn akur, sem ad miklu sídur forsóma hans verk enn hinir er Guds plóg eiga ad draga? og væri gott ef hér med væri kyrt látid. En þess væri óskandi, ad ecki lidu menn alleina hinar verstu skammir og óhæfu, heldur og tæki þær ecki í forsvar, svo sem er vanskickun og öl=ædi undir Guds orda heyrn, gudlastanir, vanbrúkun hans dýrdarfulla nafns til ad skémma sinn náúnga med, og margt þvílíkt fleira, sem heidvirdur madur mætti skammast sín ad nefna, en sumir ecki blygdast vid ad forsvara, edur ad minsta kosti nærri óstraffad láta; svo þad sem annarstadar í kristnum löndum er med útlegd, edur og ödrum þúngum álögum straffad, því sleppa menn hér aldeilis, edur og látast straffa þad svo sem litla yfirsjón, en eingan stór=glæp. Eg hefi lesid í guds=manns riti, er lifdi fyrir hundrad árum hér í landi, hvörs sál nú lifir í himninum, en minníngin er ágjæt á jördunni; hann segist hafa talad vid einn mann, er sagt hafi, ad hann ecki vildi sverja rángan eyd, þótt hönum sex hundrud géfin væri, en hefdi hid sjöunda verid í bodi, þá mundi kanské hafa runnid á hann tvær grímur, skrifar þessi Guds=madur. Þetta var ad sönnu ein höfud=skömm er hann talar um, en ecki hygg eg menn þurfi ad kaupa svoddan nú um stundir sumstadar, þad mun fást ókeypis, ef dómarinn er velviljadur þeim er áliggur, sérdeilis ef ecki liggur vid

nema Guds og konúngsins réttur. Segid mér, mun þad ecki eiga hjá þeim heima er svo breyta, sem Drottinn segir vid Júda, Ez. 16: öllum skjækjum verdur fé gefid til, en þú hefir gefid þínum fylgju-mönnum penínga. Er ecki þetta ad sofa? er þad ad undra ad þunnskipad er í Guds akri af hveiti-staunginni, nær svo til geingur, og þótt Guds þénarar kvarti hér um, og færi jafnvel slíkt undir lög ástundum, eptir skyldu síns embættis, þá fá þeir eingu á-orkad, mæta heldur árásum þar-fyrir, og ei blygdast hinir þar vid, þótt þeim sé hér-um brixlad, heldur slá vid því hnackanum, svo sem menn plaga ad segja, og gjöra eins og Salómon segir um skjækjuna, ad hún strjúki sér um andlitid og segi: eg hefi eckert illa gjört, Próv. 30; þeir blygdast þar vid ad sönnu um stundar sakir, en reka ei ad sídur Fjandans eyrindi, svo sem hefdu þeir vald sitt og veizlur af honum þegid, en ecki af Gudi né konúnginum. Þyki nú nockrum svo sem ad þetta hitti á sig, þá mun sá gefa hljód af sér sem ákémur, en margt af þessu er almennara og kunnugra enn ad hérad þurfi mörg vitni ad leida. Eg finn þad ecki med því ad grafast þar eptir, þetta er yfir allt, segir Drottinn um klæki Gydínga, Jer. 2. Bréf og dómar manna skulu þad satt gjöra, er eg ritad hefi, og sjálfir þeir ed æfa þvílíkt, munu þad þeckja, þótt eigi vilji þeir ad-gjöra, nema þeir séu forbrendir í samvitskum og hafi misst alla tilfinníngu, nema hinn grádugi hræ-fugl, Djöfullinn, hafi rigna látid í augu þeim heitum saur, eins og titlíngarnir í augu hins gamla Tobíæ fordum daga, Tob. 2; sagan segir, ad hann hafi læknadur ordid med galli fiskjarins, þegar því var rydid á hans augu, þá datt hreistrid af þeim, Tob. 11; en eg veit ecki hvad þessum muni til lækníngar verda, fyrst Guds blód fær þess ei orkad, og ecki þad beiska gall og edik, er honum var borid, Matth. 27, þegar hann kvaldist fyrir þessar þeirra og allrar veraldarinnar syndir; eg veit ecki hvad þeirra augum muni upp-ljúka, nema hin stæka svæla helvítis elds, hún mun ljúka þeim upp ad vísu. Annara manna augu skémmir reykurinn og sljófgar þau, en þessa mun hin eylífa svæla heilskygna gjöra, ad þeir svo loksins sjái hvör annars skömm, sem hafa gjört samband ámóti Gudi og hans kristni, og ecki vildu upplúta sín augu ámóti hans réttlætis og nádar geislum, medan þeir plágudu hans útvalda í ríki síns födur, sem er höfdíngi þessa heims; og þad er um þá rétt sagt, er Seneca skrifar um Claudíum, ad hann ecki þeckt hafi ad hann daudur var, fyrr enn hann sá líkfor sína. Segid mér nú í Drottins nafni, segid mér, er ecki þvílíkt ad sofa? er ecki þad ad vera sádmadur fjandmannsins, og spilla Guds korneckru af öllum kraptum? hvör eyru hefir ad heyra, hann heyri! svo heyri þér nú ord Drottins sem í landinu búid, þér sem hans umbod er á hendur falid, heyrid þér sem standid fyrir altari hins allra Hæsta, hvad hann býdur ydur, af Ezechíelis spádóms-bókar 33. Kap: eg hefi sett þig fyrir vörd yfir Israels hús, nær eg segi til hins ógudliga: þú skalt dauda deya, og þú varar hann ecki vid, og segir honum þad ecki, svo ad hinn ógudligi kunni ad vakta sig vid sínu ógudligu athæfi, svo ad hann megi lifa, þá skal hinn ógudligi deya fyrir sinna synda sakir, en hans blóds vil eg krefja af þinni hendi. Og svo ad þér kunnid med þess meira frelsi og myndugleika og betri samvitsku ad straffa, ógna og áminna í Guds stad, þá hagid liferni ydar svo sem Christi þénarar og rádsmenn hans leyndardóma, 1. Cor. 4.

[illegible]

gefandi eingum nockra hneixlan, svo ad vor þjónusta verdi ecki lǫstud, heldur í ǫllum hlutum hegdum oss svo sem Gudsþjónustu-menn, eptir bodi St. Páls, 2. Cor. 6. Heyrid þér hinir ríki voldugu í landinu, og þér sem Gud hefir sverdid í hendur feingid! heyrid þér ord Drottins, lærid gott ad gjǫra, leitid eptir réttinum, gjǫrid rétt hinum undirþryckta, látid hinn munadarlausa lǫgum ná, og takid ad ydur málefni eckjunnar, Esa. 1, haldid dóminn og réttvísina, frelsid hinn undirþryckta af hendi ofsóknarans, og sturlid ecki hinn framanda, fǫdurleysingjan og eckjuna, og gjǫrid eingum ofríki, segir Drottinn Zebaoth, Jér. 22; hyxid ecki med ydur, ad nær þér þessar Guds áminníngar ad eingu hafid, ad hann muni þá vera líkur ydur, þótt hann þegi, Ps. 50, og láti ydur vaxa til kornskéru-tímans, því hann mun straffa ydur og tala vid ydur undir augun, nema þér ydrist af hjarta; látid af illu og lærid gott ad gjǫra; vandlætid í Guds stad, og upprætid hneixlid og hid vonda út Israel, Devt. 22; annars mun þad heita fyrir ydur: ó, þér af Mósis og Arons húsi! hver sem mig forsmáir, þann vil eg forsmá, 1. Sam. 2; þín sála skal vera fyrir hans sálu, 1. Reg. 20. Þér erud gudir kalladir, og allir erud þér synir hins Hæsta, gódir menn! en þó munud þér deya svo sem manneskjur, Ps. 82. Heyrid þetta til samans andligir og veraldligir; heyrid hvad Drottinn segir ad ályktun í útleggíngunni, ad illgresinu muni verda kastad í elds-ofninn, þar muni verda óp og tannagnístran. Ef þeirra dómur verdur svo strángur, sem fyrir ydar vanræktar sakir tapast, hvílíkur mun þá ydar dómur verda, nema þér gjaldid varhuga vid. O, þér kristnir menn! ó þér, sem med Guds Sonar blódi erud endurkeyptir og í hans dauda skírdir! Act. 20, géfid gjætur ad sjálfum ydur og allri hjǫrdinni, sem Gud hefir afrekad med sínu eigin blódi, hvǫr í sinn stad; pundid er stórt, reikníngskapurinn er mikill, Guds blód er dýrt, hans reidi er þúng, Dómarinn er strángur, lífid er stutt, daudinn er vís, helvíti er heitt, eylífdin er laung, og þér vitid ecki nær ed Húsbóndinn kémur; en í hvǫrja þá átt sem eykin fellur, þar liggur hún, Eccles. 11. Látid ydur því ecki villa med ógudligum heimsins dæmum, berid ydur eigi saman vid þá sem þér kallid ydur verri, þeirra fordæmíng verdur ecki ydar afbǫtun, því hvǫr einn mun sína byrdi bera, Gal. 6; nema þér ætlid, ad ydur muni þar fyrir verda rórra í helvíti og kvǫlunum, ad adrir sæta þýngri hefndum enn þér þykist hafa tilunnid. Satt er þad ad sǫnnu, ad Guds réttlæti mun skamta hegnínguna eptir tilverknadinum, og vega straffid út eptir þýngd syndanna; en gjæt þess, ad ǫllum mun verda þar óbæriligt, og svo sem ad útvaldir í dýrd himnanna munu ei ǫfunda hvǫr annann, þótt einn skíni fegra enn annar, svo munu eigi heldur fordæmdir hafa neina ró af því, þótt einn kveljist meir enn annar; mæl því ecki vondsku þína saman vid hans, sem forþénad hefir heitara helvíti, heldur gjǫr ydran ámedan þar segist enn-þá: í dag, Hebr. 3, svo ei komir þú í þann kvala-stad, Lúc. 16, heldur skína megir eins og sól í ríki þíns Fǫdurs. Þad veiti hinn gódi Gud, ǫllum þeim sem undir hans merki strída, í útlegd þessari, fyrir Jesúm Christum, amen!

# Á Hreinsunar-hátíd Maríu.

Gudspjallid, Lúc. 2. Kap.

Á þeim tíma; þá dagar hennar hreinsunar fullnudust eptir Mó-

ns løgum, høfdu þau hann til Jerúsalem, uppá þad þau á hend-
ur fæli hann Drottni, svo sem skrifad er í løgmáli Drottins, ad
allt hvad kallkyns var, þad er fyrst opnadi sinnar módur-kvid,
þá skyldi kallast Drottni helgad; og ad þau gjæfi offrid eptir því
sem segist í løgmáli Drottins, tvær turtil-dúfur, eda tvo dúfu ún-
ga. Og sjá, ad madur var þar í Jerúsalem, sá ed Símeon hét,
og þessi mann var rettlátur og gudhræddur, bídandi eptir huggun
Israels, og heilagur Andi var med honum. Símeon hafdi og
andsvar feingid af heiløgum Anda, ad hann skyldi ecki daudan
sjá, nema hann sæi ádur fyrri Krist Drottins. Og hann kom af
andans tilladan í musterid; og þá foreldrarnir høfdu barnid Jes-
úm í musterid, og gjørdu fyrir hønum eptir sidvenju laganna, og
hann tók hann þá uppá sína armleggi, lofadi Gud og sagdi: Drott-
inn! lát nú þinn þjón í fridi fara, eptir því sem þú hefir sagt,
þvíad mín augu hafa séd þitt hjálprád, þad þú tilreiddir fyrir
augliti allra þjoda; eitt ljós til uppbirtingar heidnum þjódum,
og til dýrdar þíns folks Israel.

# Exordium.

Margir veraldar høfdingjar, sem og adrir vísir og gódir menn hafa sér óskad, ad þeir mættu lifa svo leingi í heimi þessum, ad þeir feingi bundid enda á fyrirætlan sína, en þad hefir þeim misjafnt tekist. Augústus keisari er sagt, ad optliga hafi talad þad vid vini sína, ad hann vildi lifa mega, þar til hann hefdi ad fullu skipad ríkisstjórninni í því rómverska veldi, og verdur ecki á móti því sagt, ad hønum tókst þad ad miklu leiti. Eigi verdur því heldur neitad, ad í þessum ásetníngi var mikil hugprýdi. Hinn stóri Sólimann, tyrkjanna høfdíngi, æskti sér ad deya ecki fyrr enn hann hefdi unnid høfud-stadinn í keisárans ríki; en Gud lét þad ecki eptir hønum; daudinn vann á hønum ádur enn hann féck borgina unnid; og hendir þetta marga þá, sem alleina vilja lifa til þess ad seilast á adra, og útrétta gírugar hendur til þeirra hluta, sem eigi eru þeirra. Vísinda-mannanna ósk er sú gjarna, ad þeir mættu lifa svo leingi, þar til heir hefdu aflokid erfidi sínu, skriftum og bókum, og ødru því, er þeir fyrir stafni hafa; og er í slíku tvent ad skoda; eitt er nockurskonar ærligur metnadur, og elska góds nafns og ryktis eptir sig daudan, hvad ecki er lastverdt, því hún hefir mørgum komid til ydni og ástundunar; annad er vilji og ásetníngur til ad kénna ødrum, og sérdeilis eptirkomendunum, sem lofligt er og mikillrar hrósunar verdt, því þad ber eptir sér elsku og hugþocka mikinn til mannkynsins, hvørju eckert er ágjætara, eckert Gudi þeckara, og ef eg má svo ad ordi komast, eckert Gudi líkara, því hann elskar øll sín handaverk. En hvørnin sem øllu þessu er varid, þá er eitt naudsynligt, og eitt er þad góda hlutskiptid, sem einginn má af þeim taka, Lúc. 10, er þad hafa útvalid, sem er ad hafa svo lifad, svo trúad og svo tilreidt sig, ádur enn madur geingur veg allrar veraldar, Jós. 23, ad hann sé fullviss þar um, ad hann í fridi fari af þessum heimi. Því prísa eg hlutskipti hins góda og gamla Símeónis; ecki svo mjøg í því, ad hønum hlotnadist ad sjá heimsins Skapara og Endurlausnara med sínum augum, svo sem hann hér segir í lof-saungnum, og ad taka hann uppá armleggi sína; svo sem hitt, ad hann út af fullu trausti um Guds nád og eylífa vist med hønum, saung svo ad segja þenna glediliga lof-saung yfir sjálfum sér: nú lát þú Drottinn, þjón þinn í fridi fara eptir ordi þínu, þvíad mín augu hafa séd þitt hjálprædi. Svo þad má kalla, ad hans lík-

sálmur, og fædíngar- og fagnadar-diktur Endurlausnaranum tilkvedinn, væri einn og hinn sami. Sæll er sá kvidur er þig bar, og þau brjóst er þú mylktir, sagdi kvinnan fordum vid vorn Herra; en hann svaradi henni: hvad um þad? sælir eru þeir sem heyra Guds ord og vardveita þau, Lúc. 11. Þetta kémur mér til þess, ad mér þykir meir koma til þess, ad Símeon beid med þolinmædi eptir huggun Ísraels, og ad heilagur Andi var med honum, betur enn hins, ad hann sá Jesúm, og tók hann í fáng sér, ádur enn hann skyldist vid þetta líf; því eínginn er þvílík sæla og einginn styrkur í daudanum svo mikill, svo sem ad hafa séd Jesúm med trúarinnar augum, og fadmad hann med hennar örmum; Þad kénnir hann sjálfur er hann sagdi vid Thómam: af því þú sást mig Thóma, trúdir þú; en sælir eru þeir sem ecki sjá og trúa þó, Jóh. 20. Þenna kost eiga allir þeir ed ord Guds heyra, í hvorju Jesús Christus hinn krossfesti er oss fyrir augum afmáladur, Gal. 3. Sá sem eptir því geingur, hann mun med Símeoni allshugar feginn og gladur skiljast vid hreckvísa veröld þessa, og kalla daudan sinn ábata. Og fyrir því ad þessa góda manns er minst í Gudspjallinu, er strax var upplesid, þá viljum vér af honum læra: hvernin vér eigum fridsamliga ad lifa, svo vér kunnum í fridi hédan ad fara. Þar til hjálpi hinn nádarfulli Gud, fyrir forþénustu síns eingétins Sonar Jesú Christi, amen!

## Utleggíngin.

Hvad manna ad Símeon þessi verid hafi, greinir ecki ritníngin um; þeir ed skrifa ad hann hafi kénnimadur verid, færa eckert til síns máls; þad er eigi heldur líkligt, annars mundi Gudspjallamadurinn ecki hafa þagad um þad, heldur enn um Zacharíam, födur Jóhannis skírara, Lúc. 1. Líkligri er þeirra meiníng, er ætla ad hann verid hafi sonur Hillelis er Gydínganna meistarar segja ad verid hafi lærifadir Gamalíelis, hvor ed sagdi hina röksamligu meiníng sína um kristni-bodid, er öldúngarnir héldu rádstefnu um Postulana og þeirra lærdóm, Act. 5. Þetta er ad sönnu ecki víst, en ef svo er, þá var þad ecki ad undra þótt Gamalíel framar ödrum skygndist í þenna lærdóm, þar hann hefir án efa heyrt af sínum meistara, ad huggun Ísraels, eptir hvorri hann beid, mundi ecki fjarlæg vera, hvad hann rádid hefir af spádómum þeim, er voru af Messía, er þá tóku margir fram ad koma Meistarar Gydínga hofdu marga lærisveina, Jóh. 4, sem sjá má af Christó og Jóhanne, Lúc. 10; svo hefir og án efa Símeon haft fleiri enn færri, og er þad víst, ad hann hefi ecki sízt talad fyrir þeim um þessa hofud-grein trúarinnar, er hljódadi um Messíam og hans tilkomu; því ecki hefir hann verid sá einasti, er vænti eptir hinum sanna Messía med áhyggju svo mikilli; þad segir oss Lúcas í þessum sama kapítula, af hvorjum Gudspjallit er tekid, þar hann skrifar, ad Anna dóttir Phanúelis af kyni Áser, hafi talad af honum til allra þeirra, er endurlausnarinnar bidu til Jerúsalem, hvorjir án efa verid hafa af skóla Símeonis, edur hans líka. Hvar-af oss sé þad ként, ad menn velji til ad uppfræda born sín, ecki einasta vísa menn og lærda, heldur sidsama og gudhrædda, þá ed undirvísi þeim í ótta Drottins, og temji þeirra úngu ár á réttvísi og gudrækni, ef þeir vilja ad þau lifi svo í heimi þessum, ad þau séu viss um ad deya réttlátra manna dauda, Núm. 23, nær þau leysast hédan. Þad stendur hér í Gudspjallinu um Símeon, ad hann hafi réttlátur madur verid; ecki meinar ritníngin hér, ad hann hafi af sjálfum sér verid fullkomliga réttlátur; þad er ecki hjá mannligum kroptum ad finna; allir vér megum segja med Job. Kap. 9: vilji eg réttlæta mig, þá fordæmir minn munnur mig; ef eg segi mig saklausan, þá sýnir hann ad eg er ránglátur. Viljum vér fyrir Gudi réttlátir vera, þá megum

vér kasta frá oss bædi voru réttlæti og voru ránglæti; réttlætinu í þann máta, ad madur treysti ecki á það, heldur reikni það þreck ad vera, svo hann ávinni Christum og finnist í honum, hafandi ecki sitt réttlæti, sem er af lögmálinu, heldur það sem er af trúnni á Jesúm Christum eins og Páluss, Phil. 3; en ránglætinu þess-vegna, ad trúin er daud án verkanna, segir Jakob, Kap. 2; og Gud er heilagur, honum líkar ecki ógudligt athæfi, Ps. 5; hvad ecki er í þeirri veru sagt, ad madurinn géti aldeilis afklædst þessum vonda syndarinnar ham, ámedan hann lifir í holdinu, heldur á hann af fremsta megni ad leitast vid ad krossfesta hinn gamla manninn, Róm. 6. Júdar segja í skrok-sögu sinni einni, ad þegar Nói gjördi sonu sína frá sér til ad byggja veröldina, þá hafi hann feingid þeim í hendur nockrar réliqvías edur menjar hins gamla Adams, födur vor allra, kanské líkar þeim ed pápistar hafa þykjast eptir sína helga menn, og eru í miklu gildi hjá þeim. Fávíslig er saga þessi ad sönnu, en þó minnir hún mig á ad hugleida med trega nockrum, ad forfadirinn Nói, sem var réttlátur madur, Gén. 6, og réttlætisins prédikari, 2. Pet. 2, til hvörs ad allir menn í hinni seinni veröldu eiga kyn sitt ad rekja, hann hefir oss eptirlátid nockrar leifar hins gamla Adams, er vér dagliga finnum í vorum limum, svo ad Páluss segir: holdid girnist í móti andanum, og andinn í móti holdinu, og þetta er hvort á-móti ödru, svo ad það þér viljid jafnvel ecki gjöra, það gjörid þér, en ef þér leidist af andanum, þá erud þér ecki undir lögmálinu, Gal. 5; en ef vér ecki erum undir lögmálinu, þá erum vér réttlátir; og þannin var ad sönnu hinn gamli Símeon réttlátur. En ecki meinar þó Gudspjallamadurinn hér þetta réttlæti, edur það oss verdur fyrir Lausnarans forþénustu tilreiknad, heldur merkir þetta ord, réttlátur, í þessum stödum, það sama og vér köllum gódan mann og rádvinnan, þann er vandar ord sín og gjördir, bædi fyrir Gudi og mönnum, og svo merkir það vída í ritníngunni. Vertú frómur og réttvís segir Davíd, Ps. 37, því slíkum mun ad sídurstu vel gánga. Hinn réttláti sá ed framgeingur í einfeldni síns hjarta, mun láta farsæl börn eptir sig segir Salómon, Próv. 28. Þessa réttvísi á hvör kristinn madur ad temja sér, annars er hann ecki kristinn; um hana hefir margur heidíngi vel talad, og hana svo tamid sér, ad lítid hefir sýnst ábótavant fyrir manna augliti, hvar med þeir hafa gjört skömm til kristinna margra hvörra, þeir ed eingan elska nema sjálfa sig, og hirda eckert um hvörnin þeir ásælast lítilmagnan. Aristóteles segir, ad hún sé hin kostuligasta dygd, og allar dygdir séu í henni fólgnar; það er og satt, því án hennar meiga þær ecki dygdanna nafn bera. Vitskan og framsýnin er hreckvísi, ef ecki fylgir henni réttvísin. Hugprýdin er eitt bödulssverd, nema hún stjórnist af réttvísinni. Örlætid hvört allir menn elska, það er þó glópska og athlæi manna, ef það vantar réttvísina; sá sem eys út fénunum sínum til ónýtis, edur géfur þeim er sízt skyldi, en lætur þurfamanninn og daglaunaran missa, mun hann ecki ósvinnur og dári kalladur? Sparsemin er ein ágjæt dygd, en þó er hún best med réttsýni; sá sem sparar ödrum það þeim byrjar ad géfa, hann er kargur og ecki sparsamur, og ef hann sparar sjálfum sér það sem líkhaminn vidþarf, þá er hann sjálfs síns óþocki, ef hann gjörir það af kérgju einni, og ecki til ad temja sitt hold, ad hann þess betur fái Gudi þjónad, eins og Páluss segist þrælka sinn eigin líkhama; en hitt er lofligt og Gudi þægt, ef nockur sparar líkhama sínum, jafnvel leyfiligt eptirlæti fyrir hans

sakir. Eingin dygd er ágjætari enn miskunsemin, med henni kunna syndugir menn all mest ad líkjast Gudi, skapara sínum, Lúc. 6; en ef hún er án réttlætis, svo menn væg þeim sem Gud bídur ad straffa, þá er hún ein svívirdíng og mesti glæpur í augliti hi hærsta Dómara; og í einu ordi ad segja, réttvísin er sú mælisnúra, á hvörja ad stikast ei ord vor og gjördir. Veit eg ad einhvör kann ad segja: eg ber ecki vitsmuni til þess, sjá og þeckja hvad rétt er, hvörnin má eg þá gjöra þad? mér kann optliga ad skjótast í slík Þar til svara eg, ad helst er þad í dómum og ödrum vandrædum, ad menn þurfa svo mi illar skynsemi med, og er þeim rádligt, sem eru sér fávitski sinnar medvitandi, ad þeir s þar frá, og ecki trodi sér inn í dómara-sæti, edur hlaupi til þessa mikla vanda, eins og lífal ur hestur til bardaga, sem þó margur dári gjörir; en hvörnin sem því er varid, þá er þa almenniligt, ad margur gjörir verr enn hann veit, en öllum kann yfir ad sjást, þad mannligt, og má þad hvör madur ödrum játa; en í dagligri umgeingni, í kaupum o sölum, í umtali um náúngan, í spekt og kyrrlæti vid hann, í þeirri virdíngu sem menn eig ad sýna foreldrum og yfirbodurum, þá er einginn heilvita madur svo fávís, ad hann e nockurn-vegin viti hvad hann á ad gjöra, ef hann gefur sér stundir til ad athuga þa Og hvad um gildir, erum vér ecki allir nógu vidkvæmir og granskygnir til ad þeckja þa sem oss sjálfum er á-móti brotid? en þessa hugrenníngu skyldum vér brúka, nær vér eigu nockru vid adra ad skipta, því hér ætla eg dugi sú ágjæta regla, sem Frelsarinn hefir eptirlátid: hvad þér viljid ad mennirnir gjöri ydur, þad gjörid þeim einnin, Matth. og sá sem hana hefir jafnan fyrir augum sér, hann mun sídur syndga. En þetta s smáir nú heimur þessi og þykir í því lítill vísdómur vera; samt ætlar hann sér ad de Síméónis dauda, jafnvel þótt þeim verdi ad skindíngu í burtu svipt á-medan þeir hvo mest eru ad æfa svik, pretti, fédrátt, undirferli, fjandskap, og allra handa rángsleitni, ei og ad þvílíkra sé himnaríki. En eg segi ydur í umbodi Guds, fyrir hvörjum eg stend, nema þér gjörid ydran, leggid af lygar og pretti, ágirnd og undirhyggju, og adra þvílí löstu, sem mótstrída réttvísinni, þá munud þér ecki inngánga í Guds ríki. Þetta kénr mér Jesús Christus, hvör sjálfur er alls holds dómari, og rædur fyrir himninum, er ha sagdi, Lúc. 18: hvör hann ecki medtekur Guds ríki svo sem úngbarn, hann mun ecki in gánga í þad. Verid ydur nú saman vid svoddan eitt barn, og rannsakid hvört þér er þvílíkir í gódlyndinu og einfaldleikanum, og ef þér kunnid ad finna þess nockurn mun, vitid ad þér erud eins lángt frá himnaríki; þar er ei vid ad dyljast, nema þér vilji reyngja ord Drottins. Segid mér, hvörjir munu sitja til bords med Síméóni, m Abraham, Ísak og Jakob í ríki himnanna? Matth. 8, þad segir Davíd oss, í Ps. 1 med þessum ordum: Drottinn! hvör mun búa í þinni tjaldbúd? hvör mun stadnæmast þínu heilaga fjalli? hann sá ed framgeingur flecklaus, og gjörir réttvísina, og talar sann leikan út af hjarta; hvör ed ecki bakmælir med sinni túngu, og náúnga sínum eckert il gjörir, og leggur ecki sínum náúnga neitt lastligt til; hvör ed einkis aktar hinn ógudliga, í heidri hefir hinn gudhrædda; hvör ed heldur þad er hann sver sínum náúnga; hvör han gefur ecki fé sitt út uppá okur, og tekur ecki mútur yfir þann saklausa; hvör ed þetta gjöri hönum mun vel vegna æfinliga. Hér sjáid þér hvörjir ad verda muni bord-gestir í lamb

ins brúdkaupi; ydur hefir fyrir laungu bodid verid; lángt er sídan húsbóndinn lét segja: mínir uxar og alid fé er slátrad, allt er til reidu, komid til brúdkaupsins, Matth. 22; rannsakid nú sjálfa ydur hvørt ad þér erud skríddir brúdkaups klædi, ef hann kann ad koma um midnætti, þad er, nær ydur minst varir. Eg veit þér segid, ad Gud hafi mørgum syndirnar fyrirgéfid; ó já, þad er satt, en þó þeimeinum, sem þeirra hafa ydrast út af hjarta. Látid af illu og lærid gott ad gjøra, Esa. 1; þetta vitid þér hin rángsnúna kynslód, en merkid þad þó ecki, samt uppetid þér þó Guds fólk, og alid sjálfa ydur, en Drottinn ákalla þeir ecki, Ps. 14. Svo snúid aptur í Guds nafni, snúid aptur, eg grátbæni ydur fyrir hid dýra blód Jesú Christí og ydar velferdar sakir, leitid fridarins, og fylgid hønum eptir, Ps. 34; óttist Drottinn og gjørid réttvísina, Act. 10, svo Gud fái velþóknan á ydur, og burtkasti ecki eylífliga. Og er þad svo sagt um réttlæti Símeónis. Í annan máta stendur hér um Símeon, ad hann hafi gudrækinn verid. Svo sem ad øll sú skylda, er vér eigum náúnganum ad sýna, og oss er fyrirskrifud í hinni sídari bodorda-tøblunni, hún er í réttvísinni innifalinn; svo er og hin er vér eigum Gudi ad gjalda, og oss bodin er í hinni fyrri, í gudrækninni fólgin. Hann var gudhræddur madur, segir Lúcas; hann brúkar þad ord, er merkir Guds-dýrkara, þann ed rækir hans bodord, ecki svo af ótta, svo sem af elsku og virdíngu. Þannin á og kristinn madur lyndur ad vera; þótt þad sé ecki ónýtt ad hrædast Gud, af því hann er réttlátur og strángur vandlætari, Exód. 20, þá er þad eigi fullkomin Guds-dýrkun. Óttinn dugar til þess ad reka syndarann til Guds, þegar hann hugleidir þad, ad hann hafi hans reidi forþénad; en íhugan Guds fødurligrar gjæsku, hans speki, hans þolinmædi, uppvekur elskuna í mannsins hjarta, sem lætur oss verda eitt med Gudi, og kveikir svoddann unadsemd í vorri sál, ad menn forsmá alla hluti jafnvel hjá krossi Drottins, eins og St. Páll, Ph. 3; svo eg má segja, ad óttinn er fadir gudhræddslunnar, en elskan til hans er módir ad henni. Óttinn gétur hana í fyrstunni, (því segja gudlausir menn, ad óttinn hafi gudina gjørt) en elskan tekur vid henni, elur hana og nærir í hjarta mannsins, á medan hún er ecki fullburda, eins og ein módir sitt fóstur, þar til hún kémur í ljós, og auglýsir sig í gódum verkum, og smámsaman vex hún eins og annad úngmenni, eptir fullkomnum mælir Christí aldurs, segir Páslus, Eph. 4; svo ad þvílík dásamlig sképna heilagsAnda, skín svo sem eitt ljós ámedal hinnar hreckvísu kynslódar, svo sem ein sól á himninum; ecki eins og sól Ezechiæ konúngs, hvør ed géck til baka, 2 Reg. 20; ecki eins og sól Jósúæ, hvør ed stód kyrr, Jós. 10; heldur eins og sól Davíds, hvør ed gledur sig af ad hlaupa sinn veg, Ps. 19; því sá ed Gud elskar, hønum þykir inndælt ad gjøra þad hønum líkar, og lætur sér jafnan í því framfara. Cicero útmálar gudrækninna þannin, ad hún sé réttvísi ámóti Gudi; hann sagdi vel, því hann sagdi allt þad hann vissi edur vita kunni, og var ecki meira von af heidnum manni, og hefir hann þó enn-þá talad kristiligar (ef eg má svo segja um einn heidíngja) í ødrum stad hér um, þar hann segir: ef gudhrædslan er í burtu tekin, þá gétur þad eigi ødruvís ordid, en ad allur trúskapur og allt samneyti manna ámedal, og hin kostuligasta dygd réttvísin fari og í burt; þetta er vísliga talad, því sá sem ecki Gud óttast, sem ad í augnabliki gétur kastad hønum í afgrunn helvítis, hann mun eigi verda mjøg hlífinn vid sinn jafníngja; þad sjá

menn á hinum gudlausu Satans þrælum, er segja í hjarta sínu: þar er einginn Gud, Ps.
14; hvorki halda þeir ord né gjördir, og eingum hlífa þeir, sem þeir fá hönd yfir. Til
þessa eru dæmi, jafnvel í landi voru ecki mjög gömul, og er hér af audsært, ad þad e
dagsatt er hinn sami skrifar, ad gúdleysid taki allan trúskap í burtu úr veröldinni, og spill
svo sambúd mannanna, ad ecki er vært í heiminum án þess ad menn óttist Gud; og þetta
vald Guds er svo ríkt ámedal mannanna, ad jafnvel afguda-dýrkun heidíngjanna, sem von
án Guds í heiminum, Eph. 2, hefir því valdid, ad þeir ecki uppátu hvör annann; svo eg
vil hér um segja, vidlíkt og Aurelíus Alexander keisari svaradi þeim, er vildu gjöra samkund
ur kristinna manna ad dryckju- og legu-kofum, ad miklu betra væri ad Gud þar med ein
hvörju móti dýrkadist, enn ad þær skyldu brúkast til slíkra ódáda. Þad var röksamlig
og konúngligt svar af heidnum manni; svo vil eg segja, ad betra er til ad halda samvi
mannanna vid í heiminum, ad dýrka Gud med einhvörju móti, þegar eigi eru til þess brúk
adar hinar verstu syndir og glæpir, sem Djöfullinn lætur sér þjóna med, heldur enn haf
einga tru á hönum; því þad mundi gjöra veröldina ad herbúdum Madíaníta, hvar ein
ryckti sverdi ámóti sínum eiginn bródur og lagsmanni, Júd. 7. Satt er þad sem Jóhanne
segir, ad hvör sem ecki elskar sinn bródur, hvörn hann sér, hvörnin kann hann Gud a
elska þann hann sér ecki? 1. Jóh. 4; en eg þori og ad segja, ad hann sem ecki elskar Gu
sem hefir skapad hann, endurleyst og helgad, hvörnin getur hann sinn bródur elskad? Þ
bágt mun oss sem vondir erum og undir syndina seldir, Róm. 7, ad elska óvini vora, bles
þá er oss bölva, gjöra þeim gott, sem vid oss misgjöra, Matth. 5, nema vér gjöru
þad fyrir Guds sakir, og verdur því óttinn og elskan til Guds undan ad gánga, og sé hi
alvarlig, þá er einsætt ad hitt á eptirfylgir, því sá sem hann elskar, hann vardveitir har
bodord, 1. Jóh. 5, og er þetta eitt af þeim h[illegible], sem nú sagda eg, ad elska óvin sin
Hvad sem nú heidíngjar ritad hafa um gudhræðsluna, er alltsaman gódra gjalda verdt, ,
dugar ad vísu til þess, ad sýna oss kristnum mönnum, hvörsu ad hún hafi þótt ómissand
jafnvel þeim er mest litu eptir því nálæga, og ecki svo eptir því sem þar uppi er; en S
Páll kénnir oss hennar nytsemi miklu betur, 1. Tím. 4, segjandi, ad gudhræðslan
til allra hluta þarflig, hafandi fyrirheit, bædi þessa lífs sem nú er, og svo hins komand
Í gamla Testamentinu hafdi þessi höfud-dygd mikil fyrirheit um tímanliga farsæld, svo se
allvída má lesa, bædi í Móses bókum og annarstadar; kanské þess-vegna ad Guds fólk
þeim dögum höfdu fleiri bodorda og setnínga ad geyma enn vér kristnir menn, svo og vo
ecki fyrirheitin svo ljós, um dýrd hinnar eptirkomandi sælu í Guds ríki; en sídan Jes
Christus hefir afmád óvinskapinn, lögmál bodordanna sem var innífalid í setníngunum, fyr
sitt hold, svo sem Páłus ad ordi kémst, Eph. 2; sídan vér höfum feingid ad sjá
heyra þad sem margir kongúngar og spámenn girntust ad heyra og sjá, og sáu þad ecki, Lu
10; sídan hafa Guds ástvinir ecki svo stór fyrirheit um líkhamliga farsæld, og þad
þess, ad sætleiki eptirkomandi aldar, hvörn vér smöckum í hinu góda Guds ordi, Hebr.
hann yfirgnæfi allan tímanligan fögnud og medlæti, svo ad þeir ed Gud elska og lída fyr
Christí sakir, eru gladir í hörmúngunum, og halda þad mikinn fögnud, nær þeir rata
ýmisligar freistíngar, svo sem Jakob bídur, Kap. 1; vitandi þad, ad reynsla trúar vorra

hún aflar þolinmædis. Ekki er vid þad ad dyljast, br. m! ad sá sem vill gudhræddur vera, hann má búa sinn hrygg undir Christí ok, 2 Tím. 3, eins og þegar einn kappi býr sig til orustu, og þótt Gud láti hønum heppnast lucku og heidur í verøldinni, sem hann og hefir mørgum af sínum ástvinum veitt, þá er þar þó alltíd einhvør barátta, annadhvørt hid innra edur hid ytra; sé þar ecki annad, þá er þar Andskotinn og hans þrælar, sem jafnan offækja þá sem geingid hafa á mála med Christó. Satan keppist vid af øllu megni ad nidurbrjóta Guds-ríki, og alldrei lætur hann af ad skjóta sínum ørfum á Guds her í veraldu þessari, svo leingi sem hann heitir Djøfull og Andskoti, og þarf til þess mikla gudhrædslu og alvørugéfni ad sá hønum og hans árum í móti stadid, bædi sýniligum og ósýniligum. En þegar hinn mikli Guds kraptur er svo máttugur í breiskleika sinna ástvina, ad þeir sá stadist áráfir vondra manna; þegar hann styrkir þá og stødugа gjørir í sínum trúum og trúnni allt til æfiloka, þá kalla eg ad hvad mest sannist ord St. Páls, ad gudhrædslan hafi fyrirheit þessa lífs, og hefir hinn almáttugi Gud þad optliga og undrunarsamliga framkoma látid, og lætur enn-nú í dag, á øllum þeim er hønum treysta. St. Páll kallar hina útvøldu Guds, þau kér í hans húsi, er hann hefir til heidurs sett, Róm. 9; á þessi kér fellur dupt nockud ástundum, svo þad hendir sig, ad þau verda jafnvel grómtekin. Vondir menn eru ein þvaga, sem hann hreinsar þessi sín kér med, svo þau verdi hæf til þjónustugjørdarinnar, og setur þau svo aptur inn í Guds hús, nær þau eru hrein ordin, en þvøgunni kastar hann í burt, ad hún verdi fótum trodin. Gud leyfir ad þeir ed hann óttast, verdi ástundum nidurþryktir, en aldrei undirþryktir; sá sem fæst vid einn gudhræddan mann, þad er svo sem berji hann einn klett med vendi, vøndurinn slitnar, en kletturinn verdur hinn sami; eins og sá er vill kjæfa eldinn med olíu, hún fortærist, en eldurinn logar þess gladar; þad er eins og ad binda Samson med streingjum, þeir hrucku í sundur eins og hør-þrádur, er hann rétti sig, Júd. 16. Samson hélt sínum mikla styrk, allt þar til skjækjan feck rakad hans hár af; Guds børn eru ósigrandi, allt svo leingi þau halda sér vid Drottinn Jesúm, hvør ad er safnadarins høfud, Eph. 5; en þegar þeim verdur þad, ad taka hina fláradu Dalíla, verøldina, í fadm sér, þá missa þau allt sitt afl; hún stíngur þeirra augu út og gjørir þá Philistæis, þad er Satans børnum, ad herfángi, já, ad spotti og athlátri, nema menn dansi eptir þeirra pípu, og er þá daudinn vís, nema menn deydi sjálfa sig ad nýu eins og Samson, Júd. 16, þad er, drepi hinn gamla Adam med hans girndum og tilhneigíngum, og burt-kasti fýsn augnanna og drambsømu líferni, ad menn verdi heilskygnir aptur og sjáum ljósid í hans ljósi, er oss hefir fyrir sinn dauda sett til arfskiptis heilagra í ljósinu, Col. 1. Svo er nú gudrækin á sig komin, og svo er hún þorf og nytsamlig, já, ómissandi í þessu lífi, en þó gagnar hún hvad mest í daudanum, því hann verdur þeim inngángur til lífsins, er Gud óttast, til ad medtaka þar fyrirheit eptirkomandi aldar. Sá sem hefir í lífinu tamid sér réttvísina vid náúngan, og óttan og elskuna á Gudi, hann fagnar daudanum, og segir gladur med Símeoni: nú *lættú*, Drottinn, þjón þinn í fridi fara, eptir ordi þínu; því eins og Símeon hafdi andsvar feingid af heiløgum Anda, ad hann skyldi eigi daudan sjá, nema hann sæi ádur Krist

Drottins, svo bera og þessir jafnan med sér vitnisburd heilags Anda í sínu hjarta, ad þeir séu Guds børn, Róm. 8, nær sem þau leysast í burt hédan. Hvørnin kann svoddann einn Guds ástvinur daudanum ad kvída? Daudinn er ad sønnu hrædiligur, því hann er verdlaun syndarinnar, Róm. 6; enn hvørjum er hann hrædiligur? þeim sem ecki eru heiminum daudir, en ecki þeim, hvørra líf Kristur er, en daudan kalla þeir sinn ábata, Phil. 1. Daudinn er oss syndugum mønnum eins og myrkrid er børnunum, þau óttast þad þess-vegna, ad þau ætla í því muni búa nockurskonar vodi; og sérdeilis þau, sem heimskir menn leggja í vana sinn ad fæla med grílum og ófreskjum; svo er daudinn, af því menn heyra svo mikid um hans grimmleika talad, því kvída menn svo fyrir hønum, og veit þó einginn hvad mikill hann er; hvør veit hvørt menn finna meir til í daudanum, enn í fædíngunni? þetta man einginn; einginn er heldur aptur kominn til ad segja oss hitt. Þar er varla nockur svo lítilfjørlig tilhneigíng, ad hún ecki forsmái daudan; heiptræknin aktar daudan ad eingu; þad sýnir oss þeirra dæmi, er selja sitt líf fyrir líf óvina sinna; hvad margur hefir dáid fyrir ást kvenna, sem er hégómi í sjálfu sér. Sýrach kénnir oss, ad hønum sem á-móti geingur, þyki daudinn sætur; ótti fyrir vanvirdu nockurri, gjørir daudan léttan; medaumkan-in gjørir hid sama. Þegar Ottó keisari vildi heldur taka lífid af sjálfum sér, enn ad láta stráhøggva lid sitt nidur med sverds-eggjum, þá vóru margir af hans fylgjurum, er alleina af medaumkan løgdu hendur á sjálfa sig; en ef hégóminn virdir daudan svo lítils, hvad léttur mun hann þá vera þeim, sem fara í fridi hédan, og vita ad hann er inngángur til lífsins? Ritníngin talar um daudan, svo sem endurlausn af fángelsi; allur Israel sá Aron leysast, segir Núm. 20 Kap.; eg girnist ad leysast hédan og véra med Christó, hvad miklu betra er, segir Páll, Phil. 1. Svo þykir og øllum þeim, er heimurinn er krossfestur vegna Krists, og þeir heiminum, Gal. 6; þeir andvarpa med Pauló og segja: æ, eg synd-ugur madur! hvør mun leysa mig frá þessum daudliga líkhama? Róm. 7; óttast því ei ad deya, kristinn madur, heldur ad deya illa, þad mun þér til eylífs lífs gagna. Þad er gott daudan ad óttast, til þess ad fordast þad, med hvørju vér forþénum hinn eylífa dauda. Tímanligur daudi er ecki í sjálfum sér ógnarligur, nema vér segja viljum, ad þad sé illt ad sleppa úr fángelsi, úr þrældómi, úr sjóvolki; því hvad er þetta líf annad? Þad er hrædiligt sem eptir hann kémur, ef ødruvísi fer enn vel. Þad er vitanligt, ad daudinn er Guds børnum inngángur til eylífrar sælu; og því skylda eg þá ei vilja gánga eitt sinn í bar-daga til ad vinna heilt konúngs-ríki? En þeim er tapast, verdur hann leid til eylífra kvala. Nú veit eg ad þjófurinn hrædist ecki stigan, sem liggur upp í gálgan, en snøruna hrædist hann; svo er þad og dárligt fyrir þann, sem hefir leitad eptir helvíti alla æfi sína, ad hann skuli hinn tímanliga dauda hrædast, og ecki miklu heldur hinn eylífa, sem á eptir fylgir; hann mætti óska og feginn verda, ad helsóttin og fjørbrotin mættu vara um alla eylífd, ef hann mætti þar med sleppa frá hinum eylífa eldi, sem fyrirbúinn er Djøflinum og øllum hans einglum, Matth. 25, því þar mun betur bíta. Þar fyrir, ó þú syndugur madur! nær þú sér hinn nakta og vilt ei klæda hann, hinn svánga og vilt ecki metta hann, og hinn þyrsta og vilt ei géfa hønum ad drecka, já, nær þú sér óvin þinn húngra edur þyrsta, og vilt ecki géfa hønum ad eta edur drecka; nær hinn voldugi og hinn vesæli standa bádir

fyrir dómi þínum, nær þú átt ad vandlæta í Guds-stad, edur hjálpa hínum naudstaddа til réttarins, nær reidin tekur þig, nær lostinn blindar þig, nær ágirndin kvelur þig, nær øfundin freistar þín, og í einn ordi ad segja, nær Djøfullinn, holdid og heimurinn vilja locka þig til ad styggja þinn Gud, lát þá daudan vera þér ógnarligan; íminda þér hann þá svo sem einn skelfiligan helvítis-ár, þann er búinn sé til ad gleipa sálu þína og færa í eylífar píslir; lát sem hann fyrir dyrunum standi, og eigi ad heimta þig undir hins voldugа Guds dóm, til ad gjøra reikning fyrir þad, er þú ætlar samstundis ad fremja. Þannin skulu menn daudan hrædast, og hann ed svo gjørir, og temur sér þetta hugarfar, og lifir þareptir í Guds-ótta og trúnni á Christum, hann þarf ei ad kvída, hann mun med Simeoni daudanum fagna; hann mun í fridi burtu leysast og deya réttlátra manna dauda. Hvad oss øllum, já, øllum sínum børnum, hvar helst þau eru um heiminn, unni og veiti, Gud fridarins, Gud fagnadarins og Gud lífsins og daudans, fyrir sinn eingétinn Son Jesúm Christum, amen!

## *) Fyrsta Sunnudag í Níu-vikna-føstu.

Gudspjallid, Matth. 20. Kap.

Í þann tíma; sagdi Jesús til sinna lærisveina þessa eptirlíking: himnaríki er líkt einum hús-fødur, sem útgéck snemma morguns verka-menn ad leigja í sinn víngard. En ad gjørdum samníngi vid verkamennina ad dagligu peníngs-gjaldi, sendi hann þá í sinn víngard. Og nærri þridju stundu géck hann út og leit adra idjulausa standa á torginu, og sagdi til þeirra: farid þér og svo í víngardinn, og hvad réttvíst er, mun eg géfa ydur; og þeir geingu burt þángad. Og hann géck enn út aptur um sjøttu og níundu stund, og gjørdi slíkt hid sama. Nærri elleftu stundu géck hann út, og fann enn adra standa idjulausa, og sagdi til þeirra: hvarfyrir standid þér hér allan dag idjulausir? þeir søgdu til hans: þvíad einginn hefir leigt oss. Hann segir til þeirra: farid þér og í minn víngard, og hvad réttvíst er, skulud þér fá. En þá kvøld var komid, sagdi herrann vín-gardsins til síns rádsmanns: kalla þú verkmennina, og gjald þeim verkkaupid, og tak til frá hinum seinnustu allt til hinna fyrstu. Þá komu þeir, sem nærri elleftu stundu leigdir voru, og medtók hvør þeirra sinn peníng; en hinir sem fyrstir komu, þeir þeinktu ad þeir mundu fá meira; en hvør þeirra medtók sinn peníng. Og þá er þeir høfdu hann medtekid, møgludu þeir á-móti hús-fødurnum, og søgdu: þessir enir seinustu

*) Gudspjallid á 6ta Sunnudag eptir Þrettánda, er sjaldan innfellur, ásamt prédikuninni, sem þar til hlýdir, má lesa þann 26ta Sunnudag eptir Trinitatis.

hafa eina stund erfidad, og þú gjørdir þá jafna vid oss, sem borid høfum hita og þúnga dagsins. En hann svaradi og sagdi til eins þeirra: vinur! eigi gjøri eg þér órétt; ertú ecki ásáttur ordinn vid mig um einn pening? taktú hvad þitt er, og far í burt; en þessum hinum seinasta vil eg géfa svo sem þér. Eda lofast mér ecki ad gjøra af mínu hvad eg vil? eda ertú þar-fyrir rángeygdur, þó-ad eg sé góðgjarn? Svo verda seinastir hinir fyrstu, og fyrstir hinir seinustu, þvíad margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

## Exordium.

Þegar St. Páll, 1 Cor. 2, skírir frá, hvør ad hafi verid atferd sín í kristni-bodinu, er hønum var á hendur falid, þá talar hann svo medal annara orda: þegar eg kom til ydar, brædur! þá kom eg ecki med yfirlæti ordanna edur spekinnar, er eg bodadi ydur Evangelium. Þad má vída sjá í heil. Ritníngu, ad Gud hefir ecki viljad láta sín eyrindi vera bundin vid málsnilli mikla. Þegar Móses afsakadi sig fyrir Gudi, frá sendiførinni til Pharaó, taldi hann þad mest til, ad sér væri þúngt um mál þá svaradi Gud hønum: eg skal vera med munni þínum og kénna þér hvad þú mæla skalt, Exód. 4; vidlíkt féck Jeremías ad heyra, er hann taldist undan ad flytja Guds eyrindi til Jerúsalems manna, og sagdi: ack, Drottinn! eg er úngur og kann ecki ad tala; en Drottinn svaradi: seig ecki, jeg er úngur, heldur til þeirra sem eg sendi þig, skalt þú fara, og þú skalt tala allt hvad eg skipa þér, Jer. 1. Hví mun hinum Almáttuga hafa þóknast ad haga þessu svo? Sjálfur hefir hann manninum munninn géfid, Exód. 4; skyldi hann þá ecki vilja láta brúka gáfur sínar sér til dýrdar og lofs; þar hann eingan hlut hefir í náttúrunni forgéfins skapad, aukheldur málsærid, sem er ein med þeim bestu Guds gáfum? Páll kénnir oss ordsøkina hér til med berum ordum, 1 Cor. 1, segjandi: Kristur hefir sendt mig, ecki til ad skíra, heldur til ad prédika, ecki med spakmælum, svo ad krossinn Christi verdi ecki ad eingu. Hvørnin má krossinn Christi af spakmælunum nockra nidrun hafa? þad kénnir Páll strax eptir í sama Kap.; því sú ræda um krossinn, segir hann, er heimska þeim sem fyrirfarast, en oss sem hólpnir verdum, kraptur Guds. Eingiinn hlutur er svo foraktanligur fyrir heiminum, svo sem Christi kross, svo ad þá sem hann á herdum bera, kallar Postulinn afrak og hreinsun veraldar; eckert er þó kroptugra medal, til ad draga synduga menn til himnaríkis heldur enn hann. Afreks-verk hefir alldrei þvílíkt unnid verid, hvørki á himnum né undir himninum, svo sem þad, er Jesús Guds Sonur vann á krossinum, þegar hann forlíkadi heiminn vid Gud, en nidurbraut Djøfulsins ríki, og tók herleidinguna ad herfángi. Þetta sitt sigurmerki hefir hann feingid sínum strids-mønnum, ad þeir beri þad fyrir hertoga sínum, í hans bardøgum hér á jørdunni. Skyldi nú svo dýrmætur hlutur hafa sitt ágjæti af mannligri speki edur málsnilli, þá væri hønum þad ecki lítid nidurdrep, hins og annars vegna, ad þad má satt um oss játa, sem Páll enn aptur segir: ad vér erum ecki margir skynsamir eptir holdinu, 1 Cor. 1; ecki margir gøfugir, en hjá Gudi er eckert manngreinar-álit, Act. 10, hann þeckir best sína; hann hefir sáfródum látid í sáfrædi undirvíssa, svo hann gjørdi þá hyggna; en þad er þó sú sákjænska, sem er allri mannligri vitsku ædri, 1 Cor. 1; hann hefir med hinu sama sáfrædi leidt þá hyggnu til Guds ríkis, sem hafa viljad fylgja rádum Páls ad verda heimskir, svo þeir vitrir yrdu. Þad sé eg á Nicódemó, Jóh. 3, hvørn Jesús høndladi med svo sem annan brjóst-mylking, jafnvel þótt hann væri meistari í Israel; og ecki hefir þetta einasta verid adferd St. Páls, heldur og annara Christi Postula, hvørjir í þessu hafa fylgt dæmi síns Meistara; því jafnvel þótt ad allvida meigi rekja spor hans guddómliga vísdóms, þá eru þess og mørg dæmi, hvørnin hann tekid hefir líkíngar af almenniligum hlutum, til ad kénna sáfródum Guds gøtu, til þess ad hinn heimugligi kraptur Guds speki, sem í hønum bjó, mætti samfara verda þeim hlutum er þeir best þecktu, og dagliga fyrir augum sáu, er skyldi án afláts minna þá á þau lífsins ord, sem framflutu af hans blessada munni. Til dæmis hér-um, vil eg taka hina føgru eptirlíking, er stendur í þessu h. Evangélió, út úr hvørri margur veraldar-vitríngur

hefir rángar meiníngar spunnid; eg vil med fám ordum tala nockud framar fyrir ydar kjær-leika um hennar réttan skilníng, þad framast eg veit af Guds ordi, og þar med hugleida: hvornin vér eigum ad skicka oss í Guds víngardi, svo oss verdi ecki þadan med skømd í burtu vísad. Jesú! þú blessada vín-tré, á hvørju vér innplantadir erum, send oss þinn Anda, sá ed leidi oss í allan sannleika, og kénn oss réttan skilníng þinna h. orda, amen!

# Utleggíngin.

Allt frá upphafi mannsins skøpunar og inn til þessa dags hefir Drottinn útgeingid, til ad leigja verkamenn í sinn víngard, og enn nú gjørir hann þad med ydranar og syndanna fyrir-géfníngar predikun. Rødd Hrópandans heyrist enn-nú í eydimørku veraldar þessarar hjá oss, segjandi: gjørid verduga ávøxtu ydraninni, øxin er sett til rótar trjánna; hvørt þad tré sem ecki ber gódan ávøxt mun upphøggvast og í eld kastast, Matth. 3. Húsfadirinn hefir leigt verkamenn í sinn víngard, en ecki letíngja; þar á Guds eyrindi ad gjøra, um hvørt Jeremías svo segir, Jer. 48, ad bølvadur skuli sá vera, sem verk Drottins gjørir sviksamliga. Eínginn hefir sig sjálfur leigdan í þenna víngard; þad er sannkvedid hér-um, sem Esajas talar undir persónu Guds, Es. 65: eg er fundinn af þeim sem ecki leitudu ad mér; og mætti þad stór fásinna vera, hvør sem þar rétt ad hygdi, þar vér svo fundnir erum, og í hans víngard, þad er í ríki Guds Sonar settir, ad láta sýslanir þessa heims vefjast svo fyrir sér, ad menn þeinki annadhvørt ecki á Guds verk, edur og gjøra þad med hángandi høndi; þarfara væri þeim ad aldrei hefdu þeir leigdir verid, og stædu enn-nú á torginu idjulausir; því svo segir Endurlausnarinn hjá Lúc. 10, um þá er ecki vildu medtaka Guds ríki: eg segi ydur, ad Sódómæ mun bæriligra vera á þeim degi heldur enn þeirri borg. Hvílíkt er þetta br. m? Húsbóndinn er útgeinginn ad leita þrælsins, konúngurinn ad bjóda hønum, sem hafdi burtu hlaupid, hinn alleina Ríki hinum allsþurfanda, dómarinn útlaganum, brúdguminn henni, sem drýgt hafdi hóranir med mørgum elskuga, og hann sem oss hefir elskad í Jesú Christó, þegar vér vorum hans óvinir, Róm. 5, oss sem ad elskudum þeim þenna, og þad sem í hønum er, fýsn augnanna og drambsamt líferni, 1 Jóh. 2. Þess gétur Jóhannes, 1 Jóh. 4: í því er kjærleikurinn, ecki ad vér elskudum Gud, heldur ad hann elskadi oss, og sendi Son sinn til forlíkunar fyrir syndir vorar; þó fæst hin auma manneskja svo lítid um þá idju, er henni bodin er í Guds víngardi, eins og menn væru þángad leigdir til ad bada í rósum, og ecki til ad bera hita og þúnga dagsins; hefir þá Jesús sveist blódinu, Lúc. 22, til þess ad vér skyldum í syndarinnar eptirlæti lifa? hefir hann vín-pressuna trodid, Es. 65, til þess ad vér skyldum færa súr vínber? hefir hann litad sinn kyrtil í víni, og sinn møttul í vínberja blódi, Gén. 49, til þess ad syndarinn blód sáttmálans almenniligt haldi? Hebr. 10, hefir hann þar-fyrir afdruckid hinn fleytifulla kaleik Guds reidi, ad vér skulum sitja ad heimbodi hinnar vondu Babýlon, af hvørrar hór-dóms-víni ad þjódirnar druckar eru? Apoc. 18. Fjærri sé því! St. Páll kénnir oss þad lángtum ødruvísi, Eph. 2, er hann segir: vér erum ný skepna í Christó, til ad gjøra gódverk þau, er Gud hefir tilbúid, ad vér gaungum í þeim; en hvør eru þau verk er hann tilbúid hefir, eda hvílík idja er oss ætlud í hans víngardi? þad telur Páll upp, Gal. 5: kjærleiki, føgnudur, fridur, þolinmædi, gódgirni, gjæska, trú, hógværd, sparneytni. En

[illegible] plocka mørg þvílík ber, þegar hann inngeingur í aldin- [illegible] med henni, sem hans hjarta elskar? Eg er hræddur um, ad þad [illegible] af mönnum, heldur enn eikinni sem Frelsarinn bølvadi, þegar han [illegible] Matth. 21, nema midur sé, því hún bar einga; en eg hygg [illegible] þeir ed beri illa eina. Gud klagadi Jerúsalem ad hún bæri súr [illegible] Es. 9: en þess væri ad óska, ad ecki yrdi sagt til kristninnar, svo [illegible] ad gjørast, eins og til Jerúsalem fordum: Samaría hefir ecki ad [illegible] þú hefir margfjølgad þínar misgjørdir meir enn þær, og þú hefir [illegible] med þínum svívirdíngum, Ezech. 16. Forum eigi villir vega, br. m., [illegible] ad vér munum því alleina fyrirhlýta, ad vér leigdir séum, þad væri hálfu [illegible]: Abraham høfum vér fyrir fødur, en gjøra þó eingin Abrahams verk, [illegible] vér erum ad sønnu leigdir, vér erum skírdir, vér erum Christó í skírninni innplan- [illegible] Joh. 15: eg er hid sanna víntré, og minn Fadir er akurmadurinn [illegible] á mér, sem ecki ber ávøxt, mun hann burt taka. Hann segir og ecki [illegible] er einu-sinni innplantadur, heldur hvør sem blífur í mér, og eg í hønum, hann [illegible] því án mín getid þér eckert gjørt, en ef nockur blífur ecki í mér, hann e[illegible] og vín-kvistur, og uppþornadur, og þeir samansafna þeim og í eld kasta [illegible] brenna. Adur enn Adam féll frá Gudi, þá var hann af hønum settur [illegible], hvørn hann skipadi hønum ad yrkja, Gén. 2; og fyrst því var svo háttad [illegible] standi, þá er líkligt ad Gud muni eigi vilja láta þad nú ødruvísi vera [illegible] víngardi, þar vér erum syndarinnar vegna, undir þad løgmál skyldir, ad neyta vor[illegible] í sveita vors andlitis, og næra oss med erfidi af jørdunni alla vora lífdaga, Gén. [illegible] En ef þad á svo ad vera í þeim útréttíngum, sem vér nærum á þetta líkamliga líf, [illegible] miklu framar mun þad skyldt í voru sáluhjálpar eyrindi. Vér høfum allir stór- [illegible] af Gudi medtekid, einginn þarf meira med enn hønum tiltrúad er; nockrir hafa aud- [illegible] veraldar þessarar, sumir embætti, nockrir vitsku og speki, og sumir afl og atgjørfi líka- [illegible]. Af øllu þessu byrjar reikníngskap ad standa; en hvørnin fórst hønum þad, er bar [illegible] sitt pund fram ávaxtarlaust, hvørt ed hann hafdi í jørdu grafid? hann fékk þann dóm, ad þeir skyldu kasta hinum ónýta þjón í hin ystu myrkur, hvar vera mundi óp og tanna-gnís- stran, Matth. 25, Hvad mun þá verda um hann, sem ecki einasta skilar ávaxtarlausu pundi sínu, heldur leggur þad á Satans bord, til ad uppbyggja þar med hans ríki? lítt gagnar hønum ad vera leigdur í Guds víngard, því hans idja er sú eina þar inni, ad gjøra Kristis kyrkju ad Belíals krambud, líkur þeim, er Gud talar um, Ez. 16: þú hefir tekid mitt gull og mitt silfur, sem ad eg gaf þér, og gjørt þér manns-líkan af, til ad hórast med. Hinn ónýti þjón sagdi vid húss-fødurinn: medtak hvad þitt er, en húss-fadirinn mun vid þinn vonda þjón aptur segja; tak hvad þitt er, sem er fordæmíng daudans, gack í burtu frá mér í eylífan eld, sem fyrirbúinn er Djøflinum og øllum hans árum, Matth. 25. Dragi því einginn sjálfan sig á tálar, edur ætli þad, ad í Drottins víngardi sé eckert, edur illt ad gjøra, Húss-fadirinn hefdi ecki átalid þá, sem allan daginn stódu idjulausir á torginu, hefdi því eins háttad verid í hans víngardi; þar fyrir er þad ecki nóg ad leggja høndina á

plógin, en lita aptur; því sá ed þad gjörir, hann er ecki hæfur til Guds-ríkis; en þótt þad sé sjálf-sögd skylda vor ad erfida í Guds víngardi, svo mikid sem vér berum mátt og megn til, þá veri einginn svo blindur, ad hann ætli ad hann hafi til skuldar ad reikna hjá Gudi; ad sönnu segir Páll, Róm. 10: ad sá sem gjörir hvad lögmálsins er, hann lifi í því, og þad sama segir sjálft lögmálid. Hvor eru þá launin, ef menn skulu tala eptir Guds réttlæti? ecki annad enn hann lifa skuli, og ecki deya, Levit. 18. Vér heyrum ecki ad vorum fyrstu foreldrum hafi heitid verid launum nockrum, þótt þau vardveittu Guds bodord; en ef þau bryti þad, áttu þaú dauda ad deya; svo kunna vor gódverk alldrei neitt ad forþéna af Gudi; þad kénnir oss Endurlausnarinn, Lúc. 17, segjandi: er þar nockur af ydur, sem hefir einn þræl, er plægir, edur heldur hjörd á beit, ad hann segi til hans, strax sem hann geingur inn af akrinum: kom híngad og sit til bords; en mun hann ecki segja hönum? bú til þad eg snædi, gyrd þig og þjóna mér, þar til eg hefi etid og druckid, sídan skaltú eta og drecka. mun hann þacka þeim þræl fyrir, ad hann gjördi hvad hönum skickad var? eg meina nei. Svo og þér, þegar þér gjört hafid allt hvad ydur bodid er, þá segid: vér erum ónýtir þjónar, því vér gjördum hvad vér áttum ad gjöra. Svo hafa gódverkin eingin verdlaun eptir réttinum, en hinum vondu tilheyrir straff ad réttu. Gódverkin eru jafnan skylda; en þin vondu eru afgjörd á móti skyldunni. Hin bestu gódverk forþéna eckert, því þad er eins og ad betala skuld sína; en hid minsta afbrot vinnur til reidi, því þá vantar svo mikid til skulda-lúkníngar: þess gétur Jakob Postuli, 2 Kap: sá sem heldur allt lögmálid, en verdur brotligur í einu bodordí, hann er sekur vid öll. Ad sönnu stendur hér í eptirlíkíngunni, ad húss.fadirinn hafi gjört samning vid verkamennina, um einn peníng; en ecki er þad svo ad skilja, br. m. svo sem þegar madur semur vid mann, heldur talar Drottinn þetta ad mannligum plagsid. Peníngur þessi er Jesús Kristur, hinn sanni Israels sikill, med hvorjum fórnirnar leystar vóru frá líflátinu á gamla Testamentisins dögum, en syndugar sálir fyrir Jesúm Christum frá eylífum dauda. En samníngurinn skédi í öndverdu vid vora fyrstu foreldra eptir fallid, þegar Gud af einskjærri nád og miskun sinni hét því, ad kvinnunnar sædi skyldi í sundur-merja höggormsins höfud, Gén. 3. Hann verdur ítrekadur svo opt sem vér heyrum af Guds ordi, ad vér séum af nád hólpnir vordnir, og ecki af verkunum, Eph. 2. Ad Gud hafi eptir miskun sinni gjört oss hjálpliga, en ecki af verkunum, sem vér gjördum, Tít. 3; þegar oss sagt verdur, ad hvor sem á Jesú nafn trúir, skuli ecki fyrirfarast, heldur hafa eylíft líf, Jóh. 3; og þessi samníngur hefir einn og hinn sami verid frá hinu fyrsta fyrirheiti, og mun verda allt til veraldarinnar enda vid alla þá, er forláta sig uppá Sonarins forþénustu med hreinni trú, því Jesú þessum bera allir spámenn vitni, ad í hans nafni fái þeir allir syndanna fyrirgéfníng, sem á hann trúa, Act. 10, og er hér af audsært, ad þetta er einginn almenniligur samníngur, heldur líkt því, þegar einn gódur og rádvandur madur heitir nockrum einhvorju gódu án allrar verdskuldunar; þá reiknar hann sig skyldugan þad ad halda, uppá þad ad hans ord bregdist ecki; og ef ad finnast kann einhvor svo lyndur á-medal vor, sem vondir erum, hvad miklu framar mun Gud, sem er alleina gódur, vera bundinn vid sín loford, Lúc. 11, þar hans ord forgánga alldrei, þótt himin og jörd forgángi, Lúc. 21; hvar fyrir einginn kann út af þessu

Lausnarans orda-tiltæki ad reikna til nockurrar verdskuldunar hjá Gudi, heldur blífur h
sama, sem Páll segir, Róm. 3, ad allur heimurinn verdi lögfallinn fyrir hönum. Og s
sem þad, ad þeir sem komu um sjöttu, níundu og elleftu stund, feingu af nád þad þe
feingu; svo er og samníngurinn vid þá fyrstu af einskjærri nád gjördur, því sjálfrádur va
Herrann ad láta sinn víngard audan liggja, nema hans gjæska hefdi knúd hann til ad leit
eptir þeim, er hann mætti hjálpa. Eg veit ad nockrir hafa steytt sig á þeim ordum, e
skrifar Jakob Postuli, 2 Kap. og þannin hljóda: sér þú ecki ad trúin hefir samverkad han
verkum, og trúin er af verkunum til lyfta leidd, og skriftin er uppfyld, er segir: Abraham
trúdi Gudi, og þad vard hönum til réttlætis reiknad; sjáid þér þar fyrir, ad madurinn
réttlætist af verkunum, og ecki af trúnni alleina. Þetta hefir nockrum þótt gagnstætt því
er bædi St. Páll, og öll h. Ritníng med einu hljódi vottar, sem er þeirrar meiníngar, a
madurinn verdi af trúnni hólpinn, og ecki af verkunum, Róm. 4; en þess er gjætandi, hv
ad sé meiníng Jakobs í þessum pistli; hann átti ordastad vid þá er héldu sig vel kristna
ef þeir trydu á Gud, og játudu hann einn ad vera eins og Djöflarnir; er auglýstu ecki tr
sína med kristiligum verkum; þad birta þessi ord, er standa skömmu ádur í sama kapitula
ef bródir edur systir eru nakin, og skortir dagliga næríngu, en einhvör ydar segir; farid
fridi, vermid ydur og mettist, en gefid þeim þó eigi þad líkamanum er þarfligt, hvad gagna
þad? svo er og trúin, ef hún hefir eigi verkin, hún er daud fyrir sjálfa sig. Hér gjöri
Jakob bert fyrir mönnum hvad hann meinar; svo sem þad er ecki miskun ad segja: verm
þig og mettast; svo er þad og ecki heldur trú, ad segja: eg trúi á Gud og hans Son, e
afneita Gudi med verkunum aptur á-mót; svo sem þad er eckert miskunar-verk ad gefa allt
sínar eigur fátækum, en hafa þó ecki kjærleikan, 1 Cor. 13; svo forþéna og eigi heldu
verkin neitt í sjálfu sér; vilji eg segja, ad verkinn vinni til nockurs hjá Gudi, þá vil eg o
segja, ad efnid í einum smídisgrip forþéni laun, af því hann er vel gjördur, en svo se
hann kunni ecki ad gjöra sig fyrir utan hagleik mannsins, svo hafa og verkin allt sitt ágjæ
af trúnni, sem er Guds verk í manninum, Jóh. 6. Segid mér þá, hvar er þeirra ver
skuldan? trúin samverkar verkunum segir Jakob; eg játa þad, því án hennar væru þa
synd, Róm. 14; hún verkar þad med þeim, ad þau syndlaus reiknast, forþénar þó ecke
Trúin fullkomnast af verkunum; menn sjá, ad einn er sterkur, af því, ad hann kann a
lypta miklu, annars vissi eingin þad hann sterkur væri; ljósid þeckist ad vera ljós
birtunni. Abraham audsýndi sig ad vera trúadan, af því hann gjördi hvad Gud ba
hönum; þannin fullkomnast trúin af verkunum, en ecki ödruvísi, nema einhvör vildi segj
ad verkin væri partur af trúarinnar veru, og væri þad eins og ad segja, ad þad væri man
inum vernligt ad gánga og standa. Hitinn fylgir eldinum, harkan jarninu, birtan sólunn
þó er hvörki hitinn eldur, né harkan jarn, né birtan sól, eigi heldur eru verkin trú, þó þ
fylgi trúnni, og ecki réttlæta þau, þó þau framkomi af þeim sem réttlátur reiknast fy
trúna. Abraham trúdi Gudi, og þad var hönum til réttlætis reiknad, segir Jakob;
eckert gott verk getur Skriftin um, Gén. 15, þegar Gud matti hans trú svo mikils, held
alleina um þad, ad hann hafi Gudi trúad til þess, ad hans sædi skyldi verda svo s
stjörnur himins, en Jakob tekur þad saman vid hans trúarverk, þegar hann vildi offra sy

sínum, Gén. 22, til ad styrkja þar med sína meiníngu, sem er sú, ad trúin sé daud án verkanna, af verkunum réttlætist madur, og ecki af trúnni alleina. Um auglýsíngu trúarinnar talar Jakob hér, og ecki um sjálfa trúna, um trúarjátnínguna fyrir mønnum, og ecki um trúarinnar krapt fyrir Gudi; þad kénna mér hans eigin ord í sama kapitula: sýn mér þína trú af verkunum. Og ad þér vitid, br. m., ad þetta er meir en hégómi einn, þá merkir þetta ord ad réttlæta, í h. Ritníngu optast ecki annad enn: ad auglýsa sig edur adra réttláta ad vera. Þú hefir réttlætt þínar systur med þínum svívirdíngum, segir Drottinn um Jerúsalem, Ez. 16; hvørnin kunni hún ad réttlæta, sem sjálf var øllum skømmum vafin? en þad kunni hún ad gjøra, ad sýna ad hún væri sér réttlátari. Ad þú réttlætist í þínum ordum, þegar þú dæmist, segir Davíd um Gud, Ps. 51; hvør vill Gud réttlæta? sem sjálfur er alleina réttlátur; en ad birta hans réttlæti fyrir mønnum, þad kunna menn ad gjøra. Tollheimtumennirnir réttlættu Gud, er þeir skírdir vóru med skírn Jóhannis, Lúc. 7; hvørnin gátu þeir Gud réttlætt, syndugir menn og framar ødrum løstum og lýtum hladnir? en ad þeckja og opinbera réttlæti Guds, þad var þeirra skylda. Jakob segir: madurinn réttlætist af verkunum; en hvørnin kann madur ad réttlætast af því sem er eins og nidurlags-fat, Es. 64, af því sem er synd, Róm. 14, af því sem er skylduverk ónýtra þjóna, Lúc. 17; en þess eru verkin umkomin ad auglýsa, ad Gud býr í manninum fyrir trúna, ad trú mannsins er krøptug fyrir kjærleikan, ad þad sé lifandi og ecki daud trú, hvør ed stjórnist af h. Anda til gódra verka, eptir bodi vors Endurlausnara, Matth. 5: svo lýsi ydar ljós fyrir mønnum, ad þeir dýrki ydar Fødur, sem á himnum er. Nú er þessu svo varid, br. m. ad einginn hefir til neinnar skuldar ad telja hjá Gudi, og þad er þad Endurlausnarinn hér segir í eptirlíkíngunni undir persónu húss-fødursins: vinur, eigi gjøri eg þér órétt, 2c. Fyrst einginn hefir af Gudi neitt forskuldad, er þad þá ecki nógu stór nád, ad hann hefir alla leigt í sinn víngard, þad er, alla kallad til ydranar og syndanna fyrirgéfníngar; en þótt adrir beri þar hita og þúnga dagsins, og séu strax ad morgni kalladir, munu þeir meiga líta raungu auga til þess, þótt hann sem um eingan hlut er nockrum skyldugur, þótt hann, segi eg, miskuni einhvørjum á dauda-stundunni? MunSamúel mega fá ofsjónum yfir Paulo? Jeremías yfir Tollheimtumanninum Matthæo? Matth. 9. Jósías yfir Manassi? Babtista yfir Tító og Tímótheó, edur þessir allir yfir ræníngjanum á krossinum? Lúc. 22. Fjærri sé því, Gudi er í sjálfs valldi ad láta hvørn einn hafa svo mikid fyrir himnaríki, sem hønum þóknast, því allir medtaka af nád og ecki af verdskuldan; og þó einn sveittist blódinu í Guds víngardi frá því fyrsta hann hefir vit á og til þess hann gjæfi øndina upp, þá hefir hann ecki med verkunum meira forþénad af himnaríki, heldur enn hinn sem í andlátinu var kalladur; því á-milli hins eylífa, sem er Guds ríki, og þess er enda tekur, sem eru daudligra manna verk, er eingin jøfnudur, svo eitt meigi med ødru kaupast ad réttum ølum. Svo vill nú Drottinn hafa sýnt, ad hinir fyrstu verdi hinir sídustu, þegar menn vilja gánga í rétt vid Gud og møgla vid húss-fødurinn, og sídastir hinir fyrstu, þegar hann vill nádugur vera, þeim sem hann er nádugur, Róm. 9, og er þó ecki hér fyrir nockurt manngreinar-álit hjá Gudi, því margir eru kalladir, en fáir

útvaldir; Balaam, Sál, Achab, Júdas, og adrir miklu fleiri, þeir vóru kalladir, en þ
breyttu eptir fødur sínum, og stódu ecki í sannleikanum, Jóh. 8. Gud hefir ecki sa
þeim sem kalladir eru, heldur þeim sem er trúr allt til enda, vil eg géfa kórónu lífsin
Apóc. 2; útvalníngin er ad sønnu altíd viss hjá Gudi, því hann hefir útvalid þá se
hann veit í køllunninni stødugir standa munu, en eingan hefir hann kallad med þeim sk
mála, ad hann skyldi eigi kunna frá ad falla, en vér erum ecki vissir um vora útvalníng
med ødru móti enn því, ad svo leingi sem trúin er í oss kroptug fyrir kjærleikan, Gal. 5
svo leingi erum vér Guds-børn, og því rædur Pétur rétt, 2 Pistl. 1, talandi um trúna o
hennar ávexti: fremjid í trú ydar dygdina, í dygdinni vitskuna, í vitskunni sparsemina,
sparseminni þolinmædina, í þolinmædinni gudrækninа, í gudrækninni bródurligan kjærleik
í kjærleikanum elskuna, því nær þetta er hjá ydur, og yfirgnæfir, þá gjørir þad ydur e
idjulausa, edur forgéfins erfidandi, til þeckíngar Drottins vors Jesú Christí; því hvørju
sem þetta eigi fylgir, hann er blindur, og leitar ad veginum med hendinni, gleymandi þ
ad hann er af gømlum syndum hreinsadur; þar fyrir kostid kapps um, brædur, ad gjø
ydar kallan og ydar útvalníngu vissa, því nær þér þetta gjørid, munud þér alldrei fall
Med svoddan móti, en eingu ødru, verdum vér vissir um útvalníngu vora, þar fyrir he
og Gud vísad oss í sinn víngard til ad erfida, en ecki í heimin til ad rannsaka sitt leynda
rád; en svo menn best viti hvørnin þad saman hángir, þá segir Páll þad med fám ordu
Róm. 8, á þennan hátt: hvørja hann ádur þeckti, þá hefir hann fyrirhugad, hvørja ha
fyrirhugad hefir, þá hefir hann kallad, en hvørja hann kallad hefir, þá hefir hann réttla
en hvørja hann réttlætt hefir, þá hefir hann dýrdliga gjørt. Hvørrar dýrdar og eylíf
farsældar oss unni ad njóta um eylífar aldir Gud ríkur af nád fyrir sinn eingétinn S
Jesúm Christum, og sendi þar til sinn h. Anda, amen!

## Annann Sunnudag í Níu-vikna-føstu.

Gudspjallid, Lúc. 8 Kap.

Í þann tíma; þá ed margt fólk var samankomid, og þad dr
til hans úr stødunum, sagdi hann í eptirlíkíngu: sá geck út s
sádi, ad sá sædi sínu; og þá hann sádi, féll sumt utan hjá v
inum, vard fótum trodid, og fuglar loptsins átu þad. Og sum
féll á hellu, og nær ed þad spratt upp, visnadi þad, af því
þad hafdi eigi vøkvan. Og sumt féll á-medal þyrna, og þyrn
nir spruttu upp med og kjæfdu þad nidur. Og sumt féll í gó
jørd, og þad vóx upp og bar hundradfaldan ávøxt. Þá ed ha
sagdi þetta, kalladi hann: hvør eyru hefir ad heyra, heyri han
En hans lærisveinar spurdu hann ad, hvør ed væri þessi eptirl
íng. En hann sagdi: ydur er unnt ad vita leyndar-dóma Gu
ríkis, en þeim ødrum í eptirlíkíngum, svo ad sjáandi þá sjái þ
eigi, og áheyrandi þá skilji þeir þad eigi; en þessi er eptirlíkí

na: sædid er Guds ord; en hinir vid veginn eru þeir sem heyra þad, en eptir þad kémur Djøfullinn og tekur burtu ordid úr þeirra hjørtum, svo ad þeir skuli ecki trúa og verda hjálpligir. En þeir á hellunni eru þeir, sem medtaka ordid med føgnudi, þá þeir heyra þad, og þessir hafa ecki rót, hvørjir um stundar-sakir trúa, og á freistingar-tímanum falla þeir frá. En þad sem féll á millum þyrnanna, eru þeir, sem þad heyra, og velkjast í sorg-um, audæfum og girndum þessara lífdaga, kéfjast og færa eingan ávøxt. En þad sem í góda jørd féll, eru þeir, sem heyra ordid, og behalda því í gódu og sidsømu hjarta, og færa ávøxt í þolinmædi.

## Exordium.

Ef þér varðveitid mína setninga og mín réttindi, sá madur sem þad gjørir, hann skal lifa af því, segir Drottinn, Levit. 18. Réttvíst er þetta løgmál, svo sem allir dómar Drottins, en óbæriligt er þad syndugum mønnum, því hvør er sá ed løgmálid haldid géti? Eingin af øllum Adams nidjum, nema hann einn sem gjørdist bølvan fyrir oss, Gal. 3, er løgmálsins bølvan forþénad høfdum. Bølvadur veri sá sem ecki heldur allt þad sem í løgmálinu stendur, svo hann gjøri þad, segir Móses í Guds umbodi, Devt. 27; þessi kostur var óbæriligur þeim sem ecki géta eitt augnablik syndlaust lifad, og er þad víst ad hinn nádugi Gud hefir ecki sitt h. løgmál útgéfid í þeirri meiníngu, ad nockur mundi þad haldid géta, heldur til þess, ad menn skyldu laga sinn lifnad þar eptir ad svo miklu leiti, sem mannligur kraptur fær orkad, og svo í ødru lægi til þess, ad syndugir menn vita mættu hvad mikid þá brestur á ad uppfylla þad sem løgmálid býdur, svo þad yrdi vor tiptunar-meistari til Christum. Nú þótt ad løgmálid sé strángt, þá hefir hinn gódi Gud látid því altíd fylgja Evangelíum, allt frá því hann útgaf þann fyrsta nádar-bodskap, ad kvinnunnar sædi skyldi í-sundurmerja høggormsins høfud, Gén. 3. Stór var sú nád ad sønnu, og svo stór, ad øll verøldin gétur hana alldrei fullþackad; en svo sem hún er mikil, svo er og mikid þeirra straff, sem hana forsmá. Þegar Israel vildi sig hafa undanþeginn ad tala vid Drottinn í Hóreb, er hann útgaf sitt h. løgmál, Exód. 20, þá sagdi Gud vid Mósen: eg vil uppvekja þeim einn spámann af sínum brædrum eins og þú ert, Devt. 18, og eg vil leggja mín ord í hans munn; hann skal segja þeim allt hvad eg býd hønum, og hvør sem ecki heyrir mín ord, sem hann talar í mínu nafni, af þeim hinum sama vil eg þess krefja. O, vor Gud! vert þú oss nádugur; hvørsu illa er þeim farid, sem Gud vill krefja skuldar sinnar? hønum mun verda í hin ystu myrkur kastad, og mun ecki þadan útfara, fyrr enn hann hefir borgad hinn sídasta penníng, Matth. 18, sem aldrei verdur um alla eylífd. Þótt løgmálid væri bædi strángt og réttvíst, þá géck þó ecki hinn nádugi Gud eptir þeim sektum, sem þad mønnunum á hendur sagdi, vegna þess lausnargjalds, er hann hafdi sjálfur tilbúid oss og fyrirhugad í sínum eingétnum Syni, sem var sú eina bót vid því sári, er Djøfullinn veitti Adam og øllu hans hyski; forsmái hana nockur, þá segir Móses oss í þeim ordum, er eg strax umgat, hvad vid því liggur, sem er, ad Gud muni krefja þess af hendi hins sama. Ef nockur syndgadi á-móti Mósis løgum, þá vard þad þó forlíkad í gamla Testamentinu med offrum og fórnfæríngum, í hvørjum ad Kristur var fyrirmyndadur, svo sem Paulus Hebr. 10, vottar, á-medan syndin var undir Guds þolinmædi; en nú þar skugginn er í burtu horfinn, en vér høfum sjálfa hlutina, Róm. 3, þá verdur syndin burt-tekin med sannri trú á Jesúm Christum. Þetta verdur oss bodid í øllu Guds Evangelió, sem er hid andliga sædid, af hvørju hinn nýi madur gétinn verdur í hjarta voru, um hvørt Frelsarinn talar í þessa dags Evangelió. En þad er grátligt til ad vita, ad þessi nád er svo mørgum frambodin, kénd og prédikud, en svo fáir hafa þess not, sem hér má sjá, fyrir þeirra eigin forsómunar sakir. Vér viljum þetta h. Gudspjall nockud gjørr yfirvega,

og af því hugleida: hvad Drottinn segir um þá fernslags jörd, er tók vid sædinu. O, þ Gud! lát þitt ord, sem í dag verdur kent, falla í góda jörd, svo vér færum þar af ávöxt þolinmædi. Bænheyr þad himneski Fadir! fyrir þinn eingétinn Son Jesúm Christum, amen.

## Utleggíngin.

Vor Endurlausnari talar þannin um hina fyrstu tilheyrendur í upphafi Gudspjallsin ad sumt af sædinu hafi fallid utan hjá veginum og ordid fótum trodid, og fuglar loptsin hafi uppetid þad. Hann leggur þad sjálfur svo út, ad þad séu þeir, sem vid veginn er en eptir á komi Djöfullinn og taki ordid úr þeirra hjörtum. Þeir eru vid veginn segir Jesús, og ecki á veginum. Þad mun valda, ad ordid er Djöflinum svo audsókt í þeirr hjörtu; væru þeir á Guds vegi, mundi þad leingur vefjast fyrir hinum illa óvin ad grafa eptir þessum dýra féfjód. Eg em vegurinn, sannleikurinn og lífid; einginn kémst til Fö ursins nema í gégnum mig, segir Lausnarinn, Jóh. 14; á þessum vegi sáluhjálparinnar eiga ofs Guds h. ord ad leida, annars fálma menn eptir veginum og eru blindir, 2 Pet. en hvörsu má nockur sjá ljósid í hans ljósi, 1 Tím. 6, nema fyrir Christum í hans ljósi sem er Guds ord, ef menn snúa þar vid bakinu og ecki andlítinu, en horfa allir uppá sin veg, Esa. 53. Hjá Matth. 7, rædir Frelsarinn um tvenna vegu á þennan hátt: gángi inn um hid þraunga portid, því hid vída port og hinn breidi vegur leidir afvega til glötun arinnar, og þeir eru margir ed hann gánga. Þessir eru þeir, er vid veginn standa, br. m á hvörra vegum ad býr sorg og armæda, og þeckja ecki veg fridarins, Esa. 59, hvörr vegur ad er háll, og þeir munu dreifast á-fram í þokunni og í henni hrapa, Jer. 2 Lausnarinn segir, ad sædid falli utan hjá veginum; hann meinar akur-reinarnar, þa sem í þær fellur vardveitist, því jördin er plægd, og allir varast ad gánga þar um; e þeir sem vid veginn standa í Guds akri, eru sú jörd, er plógur lögmálsins hefir alldrei geing id um til ad mýkja akurinn, eigi heldur Guds vagn, sem ad er Evangelí í lærdómur, til a feita jördina. Hvad sem þar fellur í, verdur af fuglum himins, þad er vondum öndun uppetid, edur og fótum trodid, því þá er perlum fyrir svín kastad, Matth. 7. Hvörni býr Gud í mannanna hjörtum? í sínu h. ordi. Hvörnin á þad hjarta tilreidt ad ver sem hann vill búa í? ángrad og sundurkramid, Esa. 57. Þad sem ecki fellur í svodda hjarta, þad fellur utan hjá veginum, utan hjá Guds akur-reinum, og verdur fótum trodi því allir vegir Drottins eru miskun og sannleiki öllum þeim, er vardveita hans sáttmá Ps. 25, en vegur ógudhræddra mun fyrirfarast, Ps. 1. Jesús segir ad Jóhannes ha komid med veg réttlætisins, Matth. 21; en hvörnin var sá vegur er Jóhannes kéndi Gjörid ydran, því Guds-ríki er nálægt, Matth. 3. Sá sem ecki geingur á þessum veg hann geingur ecki á Guds vegi, ecki á réttlætisins vegi, ecki á fridarins vegi, í einu ordi a segja, hann geingur utan hjá veginum. Prédikarinn segir Kap. 11, ad hinir ógudlig gángi á vegum síns hjarta; en hvörnin vegur er í þess manns hjarta, sem daufheyrist vi Guds h. ordi? þad er almennilig þjódbraut lasta og verstu klækja, hvar agg, reidi, þræt manndráp, hórdómur, frillulifnadur, sem af hjartanu framkoma, Matth. 15, hafa trodi sér gadd í ískölldu mannsins hjarta, svo Guds ord fái ecki rúm í þeim, og ef nockud af sæd

inn kann ad hrjóta þar inn, verdur þad fótum trodid. Þessir eru þeir, er fyrir sída=sakir gánga inn í Guds helgidóm, til ad birtast fyrir mønnum. Þér hræsnarar! vel hefir Gud um þá talad fyrir munn Ezechíæ, 33 Kap.: þú mannsins son! þeir koma til þín svo sem fólkid er vant ad koma, og þeir sitja fyrir þér svo sem mitt fólk, og heyra þín ord, en þeir gjøra þar ecki eptir, heldur gjora þeir hád=vísur þar af med munni sínnm; þeirra hjarta stundar eptir ábata; þú ert þeim eins og amors=vísa, sú ed lætur vel og er føgur ad leika, því þeir heyra þín ord, en gjøra þar ecki eptir; og er þad skélfilig fásinna, br. m. er hinn slægi Djøfull hefir blindad mannanna hugskots=augu med, ad menn leggja eyrun vid skammarligum ordum og fiflsligu hjali, en byrgja þau fyrir Guds Evangélió; þau standa opin fyrir hafgýu=saungum veraldarinnar, en Brúdgumans raustu heyra þau svo þúngliga, ad ecki er sýnt þau muni bregda vid fyrr enn høfud=eingilsins básúna lætur í skýum himins; dæmafród æfintýri og lyga=søgur láta menn sér inndælt ad heyra, en vilji nockur framm=telja Guds dásemdir, um stórvirki vorrar skøpunar, um miskunarverk vorrar endurlausnar, um leyndardóm vorrar helgunar, þar velgir menn vid svo sem ødru léttmeti, svo eg sé ecki annad í sumra manna fari, enn ad þeir muni þeinkja hid sama um Guds ords þénara, sem Athenuborgar=menn kvádu upp um Paulum, er hann taldi þeim kristiliga trú, en þeir søgdu: hvad mun ord=snápur þessi vilja sér? Act. 17. Gjætid þó ad í Guds nafni, kristnir menn! hvílíkur hlutur ad Guds ord er, þad er fódur sálna vorra, Matth. 4, því án þess munum vér deya; þad er líf og andi, Jóh. 6, því án þess erum vér í syndunum daudir; þad er leidarvísir til himnaríkis, Ps. 119, því fyrir utan þad munum vér ofan fara í hin ytstu myrkur, hvar vera mun óp og tannagnístran. Og fyrst vér þetta vitum, og þad er í hjørtum vorum, fyrir dómi samvitsku vorrar, sannprófad, þá þykir mér sá ecki hvalrádur vera og ecki mikid kvída helvítis=píslum, sem lætur þad eins og annann vind um eyrun þjóta, svo sem þad komi ecki vid hann, sem af Gudi er talad, og altíd muni eitthvad til eylífs lífs verda. Næst þessum talar Endurlausnarinn um þá, er hann samlíkir grýttri jørdu, í hvørja þegar sædid féll og spratt upp, þá visnadi þad, af því þad hafdi ecki vokvan; þessir eru þeir, sem heyra Guds ord og medtaka þad med føgnudi, og hafa þó ecki rót þvíad um stundar=sakir trúa þeir, en á freistíngar=tímanum falla þeir þar frá. Eg kann ecki annad ad segja, enn þessum er ad nockru leiti betur háttad enn hinum; því líkligri er sá til apturhvarfs, sem ad smackad hefir hvad sætur ad Gud er, heldur enn hinn sem ávalt mótstendur h. Anda; þó er þad med því móti, ad þeir láti sig leidrétta af anda Drottins, nær þeir villt fara, annars munu þeir búa vid verri kost enn hinir, því þad ordid, sem þeir heyrdu, mun fordæma þá, Jóh. 12. Pétur féll frá á freistíngar=tímanum, en Jesú blída tillit snéri honum aptur svo hann géck út og grét beiskliga, Matth. 26; Aron féll frá þegar hann óttadist fólksins reidi, Exód. 32, en hann hvarf aptur á Guds veg, svo hans synd var hønum ecki til dauda reiknud. Sjálfur Móses var ecki lángt þar frá, er hann sló tveimsinnum á klettinn, Núm. 20, hvar til hann þó ei hafdi Guds bodord; en allir þessir vóru næsta leiditamir aptur á Guds gotu. Júdas féll og frá, en skipadist ecki vid Christí áminníngu í kvøldmáltídinni, Jóh. 13, ecki vid hans blída ávarp í grasgardin=um, Lúc. 22, og ecki nema til ílls vid hinn harda dóm, er hann sá ad ætladi ad gánga yfir

sinn herra, Matth. 27. Sál féll og frá á freistingar-tímannm, en leitadi ecki Guds sínum mótgángi, heldur galdra-konunnar, 1 Sam. 28, því féll hann á sitt eigid sverd, 3 Kap. Achab medtók ordid med fögnudi, svo hann sat í seck og ösku og grét fyrir Gudi 1 Reg. 21, en ecki ad sídur féll hann frá og sendi til frétta vid Bal, en lét aflífa spámenn Drottins. Því er eg viss um, ad þessir muni óbæriligri kost eiga enn hinir, sem alldrei hafa á Guds vegi geingid; en hvad mun þessu valda, br. m.? ecki annad enn ad hjartad er hardt, svo ad sædid fær eingan vöxva. Guds ord hafa eigi gétad unnid svo á þrjóskuna ad þad hafi smelst í þeim fyrir hreina ydran, ad hid himneska sædid hafi feingid nockra fasta rót. Margir vilja Guds vinir vera þegar allt leikur í lyndi; en þegar sólbruni mótlæt ínganna tekur til ad hafa sínar verkanir í Guds akri, þá visna þeir ávextirnir brádliga, sem ecki eru vel gródursettir. Ef menn láta steininn í eld, þá verdur hann glóandi um hríd, en ecki mýkist hann nema hann ad ösku brenni; eins er þess manns hjarta, sem spámadurinn klagar yfir, Jer. 8, ad sé hardara enn demant. Drottinn typtar þá med vendi síns ords, en þeir finna þar ecki til; hann hellir yfir þá oleó fagnadarins, þad geing ur eigi inn í steininn. Þegar Gud gefur regn á jördina, þá fellur þad eins yfir frjóssam stadi og ófrjóssama, harda og mjúka. Þad er víst, ad hvörirtveggju bera nockurn ávöx medan þad yfirstendur, en þegar sólin tekur ad brenna, þá verdur sú grein þessara, ad hva sem yfir hina hördu og ómjúku stadi féll, þad þornar brádliga upp, því þad fann eckert se líkt í hellu-steininum, sem þad kynni ad vardveita; hin plátsin færa ávöxt þess meiri o meiri sem sólin meir verkar, því þeirra mýkindi halda því er þau hlutu, og hid besta þa af stígur ecki upp í loptid aptur, heldur snýst ávextinum í vöxva og vessa; svo verdur o Guds ord prédikad vondum og gódum, bljúgum og hardsvírudum; í þessum brennir eldu mótlætínganna allann vöxva í burt, en í hinum verkar hann fridsamligan ávöxt réttlætisins Hebr. 13. Aldrei hefir Guds kyrkja meir eflst enn í mótgánginum; þegar Jesú nafn mátti ecki nefna fyrir utan lífs-háska, þá frjófgadist Guds aldingardur best; þegar krap ur Jesú blóds, sem var í ordinu, fann Guds akur mýktan med blódugum ydranar-tárum hjartanu, þá kviknadi kjærleikurinn, þá spratt upp þolinmædin, þá gréri trúin, þá v lítilætid, þá lifnadi miskunsemin, þá dafnadi hógværdin, þá brann elskan til Guds, hva heitast, svo ad hvörki líf né daudi, hvörki Einglar né valdstéttir né höfdingja-dæmi, hvör hid nálæga né þad eptirkomanda, hvörki hæd né dýpt, né nockur önnur skepna kunni a skilja Guds elskendur vid þann kjærleika, sem er í Christó Jesú, Róm. 8. En sída mönnum tók til ad leidast ad draga okid med Christó, þá hefir ecki plógur lögmálsins ri svo djúpt í mannanna hjörtum. Menn vilja allir med honum ríkja, en fáir med honum lída, og hyggja, ad mátulig gudhrædsla dugi nóg til sáluhjálpar; þar-fyrir kólnar hjart mannsins, svo ad Guds ord, þad himneska sædid, verdur ecki í bein og merg inndruckid fyrir því vex og kornid í Guds akri mjög svo þunt, svo ad ein staungin æpir til annara og Andskotinn hefir med báli óleyfiligrar heimsins elsku brent oss marga vila þar inni; þa fyrir tem þér kristiliga ydran, ó, þú Guds barn! sem vilt sáluhjálpina erfa, á-medan Gu lætur þér ad óskum gánga, og lát minníng þinna synda og hans ástgjafa mýkja hjarta þit svo ad h. Andi sem býr í ordinu megi una þar inni, þvíad þú veitst ecki nær ed hiti freis

unganna tekur til ad brenna, og þú þurfir brádliga á ad halda, og þótt þad verdi eigi fyrr enn á daudans stundu, sem hvorn dag yfir hángir, þá þeink ad þær eru þá vísar; en eingum hefir veitt af á þeirri hördu tíd, þeim einum hefir þá best vegnad, vid hvörja Andi Drottins hefir talad í hjartanu, í því ordinu, sem þeir ádur mundu og rótfestu þar inni, til heilnæms veganestis í gégnum hinn myrkva daudans dal, inn á land lifandi manna. Hinum þridju tilheyrendum dregur vor Herra dæmi, af því sædi sem féll á-medal þyrna, en þyrnin spruttu upp med og kjæfdu þad nidur; þad eru þeir, segir hann, er heyra ordid, og velkjast í sorgum, audæfum og girndum þessara lífdaga, kefjast og færa eingan ávöxt. Hvílíka hindrun ad þetta illgresi gjöri akur-löndum Guds, eru fleiri dæmi til, enn segja þurfi. Margan hefir búksorg og áhyggja frá Gudi dregid; þar sem þinn fésjódur er, þar er þitt hjarta, segir Endurlausnarinn, Matth. 6; hvörnin fá menn þá undir eins Gudi þjónad og mammóna? Endurlausnarinn segir, ad þyrnin hafi vaxid upp med og kjæft sædid nidur. Ecki segir hann, ad kornid hafi ecki og nockud vaxid, en þó er þad eigi ad meiru leiti en svo, ad hann reiknar þad fyrir eingan ávöxt; hvar fyrir? af því þyrnin höfdu yfirhönd, en korn-staungin þroskadist aldrei, svo ad axid nædi út ad springa. Líkt er þetta gudhrædslu sumra manna, þeir ed gjarna rækja ord Drottins; þeir hafa þad um hönd; þeir bidjast fyrir; þeir tárast fyrir Gudi; þeir sýngja og lesa; þeir heyra gjarna talad um Gud og hans h. dásemdir, og látast þad sjálfir gjöra med fullri alvöru, en straffa adra sem þá eru tómlátari í sinni þjónustu; en þegar bródir edur systir eru nakin, og hafa skort á tímanligri næríngu, þá géfa þeir þeim þó ecki hvad líkhamanum er naudsynligt, Jakob. 2; þegar þeir sjá þjófinn, hlaupa þeir med hönum ad stela, Ps. 50, ef ecki med almenniligri launúng, þá med yfirvarpi laga og réttinda; sjái þeir nockud girniligt, verdur búksorgin þeim svo óbærilig sem Achab, ad þeir nærri því leggjast upp á sængina, 1 Reg. 21; nær þad er ecki fyrir augunum sem éta skal, þá er ecki trúin á Gud betur grundvöllud enn svo, ad menn spyrja med heidíngjunum: hvad skulum vér eta, eda hvörju eigum vér ad klædast? Matth. 6. Um asnans skugga og um geitar-hárin tönlast þeir og tyggjast innbyrdis, þar til þeir mættu um sídir verda uppétnir, og ef einhvör gjörir nockud af vid þá, þad rækja þeir inn til daudans; sjái þeir veg til ad féfletta einhvörn, spara þeir ecki róg né lýgi; þyki eitthvad indælt vera, þá stendur Guds elska og hans ord til baka, en holdinu er þjónad í þess girndum og tilhneigíngum. Svo vaxa nú þyrnin upp fullum fetum, en sædi Guds orda dempast, og bera ecki ávöxt, og á gudhrædslunni bér ecki fyrir illgresisins ofvexti, hvört hún sé nockur í hjartanu, þad vita eigi adrir nema af ávöxtunum, þitt er deginum ljósara, ad aldrei kémst hún leingra enn í munninn, en hinir limirnir erfida í Satans akri; og sýnist mér ad þessir elski Gud med sömu elsku og hans linu, er þeir segja: vermid ydur og mettist, Jakob. 2, enn géfa þeim þó eckert; slíkt er í raun og sannleika ad hrósa sér af gudhrædslunni, en afneita þó hennar krapti, 1 Tím. 3, og svo sem Jesús sagdi vid Júda, ad útsjúga hús eckna og födurlausra undir hylmíngu lángra bæna, Matth. 23; og kann þad ecki ad fara á annan hátt, því eigi verda vínberin saman-lesin af þyrnunum, né fíkjurnar af þistlunum, Matth. 7. Gudhrædsla svoddan manna, er eins og tal hins heimska fyrir Gudi, um hvört Salómon segir: ad þad sé eins og þyrni-

kvistir í hønd hins druckna, Próv. 26. Þyrnirinn er næsta bráð=þroska; veldur það þv að hann dregur til sín allan vøkva úr jørdunni, svo þau grøsin, er í nánd vaxa, þau í ecki til vidurlífis, og þess betri vøkva sem hann nýtur, þess líkligra er að hann betur blóm gist; svo er hreckvísin, þegar hún er pløntuð í nálægð dygdanna, (svo kalla eg skin guðhræð slunnar) þá tekur hún þess meira afl. Þegar ódygdin er brynjuð með líkíngu Guðs her skrúða, þá hefir hún stóran myndugleika, jafnvel þótt það sé ecki nema hamur einn, og Satans eingill í ljóssins eingil umsteyptur; en eigi að síður mun rætast á' þeim spádómum Esa. 10: eldurinn mun uppbrenna hans þyrna og hans þistla á einum degi. Þyrnirnir eru blómligir næsta; en sárt stínga þeir ef ógjætiliga er á þeim tekið; þannin er áhyggja og búksorg þessara lífdaga; hún lofar øllu føgru, gulli og silfri, fullum kornhløðum, yndi og eptirlæti; en þeir eð slíta hjarta sínu þar með, þeir finna þó eckert yndi, heldur eins og hinn vatnssjúka þyrstir æ þess meir, sem hann meira dreckur; svo er þess frekari ágirndin, sem meiri er auðurinn, og hún étur sjálfa sig, og elur sig þó sjálfa; hún er bæði húngur og fylli, yndi og sorg, og er þó aldrei svo mikið eptirlætið, að ecki sé meira andstreymið, og það sem yfirtekur, að hún kéfur þá unaðsemd, er menn eiga í Drottni að hafa, og mettar sína þræla með harma=brauði einu, og dryckjar þá með óminnis=øli, svo þeim gleymist að safna sér féssjóð á himnum, hvørjum ecki kann molur né ryð að granda, né þjófar eptirgrafast, Matth. 6. O, þú dýrkeypta Jesú brúð, kristilig kyrkja! lát þér það til rifja venna, að þinn unnusti er með þyrnum kórónaður á yckar heiðurs=degi, en þú ræktar þá þyrnana best, sem hans blessaða høfuð hafa hvað sárast stúngið í pínunni, það eru þínar syndir og þitt eptirlæti, þú sem ert afrekuð með Guðs eigin blóði, Act. 20; svo það er ecki all=lítið sorgar=efni, hvør sem þess gjætir, að hið óforgengiliga sæði Guðs orða, sem Pétur talar um, það þróast valla svo hér á jørdunni, að bindini hans barna verði fullt í heiminum. Rómverjar kølluðu það óþacklátan akur, sem ecki svaraði kostnaðinum og erfiðinu; en það má hinn allsvaldandi hús=faðir að réttu segja um sinn akur, því ef nockur vill meta til samans Guðs eingétins Sonar dýrmæta blóð, hvørs minsti dropi að er kostuligri enn øll ríki veraldarinnar og þeirra dýrð, og svo hinn fjórða part af þeim, sem orðið heyra, að hinum óreiknuðum, sem þar fyrir utan eru, þá mun hann játa að Christí erfiði og hans akur ávexti sé ólíkt farið og einganvegin saman að jafna; hvør eyru hefir að heyra, hann heyri það! Hvørjir eru hinir fjórðu tilheyrendur, br. m.? það eru þeir sem Jesús samlíkir því sæðinu, er féll í góða jørð og bar hundraðfalldan ávøxt. Þetta þýðir Drottinn uppá þá, sem behalda orðinu í góðu og siðsømu hjarta, og færa þar af ávøxt í þolinmæði. Guð hefir lofað að sitt orð skyldi ecki koma tómt til sín aptur, því hefir hann ecki lofað, að það skuli hjá øllum verka sáluhjálpina; hvar fyrir? því þar eru svo margir sem því ecki halda í góðu hjarta, og ecki allir sem ljá því rúm í hjartanu; hið sama orð var prédikað Pharaó og øllum hans þénurum; en þó segir Ritníngin, að sumir af þeim hafi óttast orð Drottins, en Pharaó forherdti sitt hjarta; hið sama Jesú Christí Evangelíum kéndi Paulus og Barnabas í Ikonío, og þar trúði mikill fjøldi, bæði Gyðínga og Grickja, en Júðar þeir eð vantrúaðir vóru, æstu upp heiðíngjana í=móti bræðrunum, Act. 14; hið sama Guðs orð kéndi Jesús øllum þeim, er til hans heyrðu og sáu hans krapta=

erk, þó sögdu nockrir ad hann jardteiknir gjördi fyrir Belzebub, Lúc. 11; adrir leitudu eptir teikni af himni, þó fanst þar ein kona, er fagnadi hans kénníngu, og sagdi: sæll er sá kvidur er þig bar, og þau brjóst er þú mylktir. Andsvar Jesú uppá ord hennar minnir mig á ad tala um, hvörsu glediligt ad er Guds h. ord í þess manns hjarta, sem hefir lyst-ing sína í hans lögmáli, Ps. 1; hann sagdi: hvad um þad; sælir eru þeir sem heyra Guds ord og vardveita þau. Eg þykist vita ad mörg muni svo lynd sem kona þessi, er gjarnan lét á sér heyra, ad hún vildi hafa verid Jesú líkhamlig módir, hefdi hún þann kost mátt eiga; en eg heyri ad hvörri einni kristinni sálu er bodinn betri kostur, sem er ad heyra Guds ord og vardveita þau. Ecki hafdi María miklu blídlæti heimsins ad fagna, þótt hún væri módir ad Konúngi himins og jardar; en þad heyri eg, ad hún hafi vardveitt öll hans ord í sínu hjarta, Lúc. 2. Þad heyri eg og, ad Símeon segir í þessum Kap. ad hennar öndu muni sverd í-gégnum smjúga; þad hefir án alls efa verid, þegar hún stód undir krossinum, og hún sá hans hendur og fætur í-gégnum stúngnar, er hún elskadi svo sem sitt eigid hjarta. Af þessu sé eg Maríu sæla ad vera, því þau ord, er hún vardveitti í sínu hjarta, hafa hjálpad henni slík óslöp ad þola; þad sama veit eg ad Guds ord verkar í allra þeirra hjörtum, sem hann elska, og eru Jesú andligar mædur. Mitt ok er sætt og mín byrdi létt, segir Endurlausnarinn, Matth. 11; ecki þykir þad heimsins börnum, þeir ed okid í-sundur brjóta. En hvör mun þad létt gjöra? þad gjörir Guds ord, sem rétt-trúud sála vard-veitir í hjartanu, hvört ed telur henni trú um þad, ad mótlætingar þessara tíma séu eigi verdar þeirrar dýrdar, sem fram vid oss mun koma í eylífu lífi, Róm. 8. Sælir eru þér nær menninrnir hallmæla ydur, og tala í-gégn ydur alla vondsku fyrir míns nafns sakir, þó ljúg-andi, segir hann enn aptur, Matth. 5, fagnid og verid gladir, þvíad ydar verdkaup er ríkugligt á himnum. En hvör mun gjöra oss vissa um þessi verdlaun? þad gjörir h. Andi, sem býr í ordinu, því er einn harmþrúnginn og sundurknosadur andi vardveitir í gódu og sidsömu hjarta, því hann er pantur vorrar arfleifdar, Eph. 1. Svo sem eg er þess full-viss, ad mér verdur eingin skotaskuld úr lánudu fé, á-medan eg pant hefi, svo og lángtum framar er eg þess fullöruggur, ad mér muni öll harmkvæli þessa heims med eylífri gledi endurgoldin verda, (jafnvel þó eg þess óverdugur sé) á-medan eg vardveiti Guds ord í gódu og sidsömu hjarta, því Andi Guds ber vitni mínum anda, ad eg sé Guds barn, Róm. 8. Og færir ávöxt í þolinmædi, segir Herrann; hvörugt gétur annars án verid. Sá sem vardveitir Guds ord, hann færir ávöxt í þolinmædi, og hann sem ávöxt í þolinmædi færir, hann vardveitir Guds ord; þess gétur Jóhannes í hans fyrsta bréfi Kap. 2, med þessum ordum: ef nockur segir eg elska Gud, og vardveitir ecki hans bodord, hann er ljúg-ari. Vilt þú kristinn madur vita, hvört ad Guds ord býr í hjarta þínu edur ei, þá reyn og prófa sjálfan þig, hvört þú manst þad af Gudi er sagt; hvört þú hefir lyst á ad tala um hann; hvört þér misþóknast, er þú heyrir hans nafn lastad; hvört þú gledst af því, í hans ord hefir framgáng; hvört þú elskar þá er hann elska; hvört þú ert fljótur ad gefa misgjördirnar; hvört þú kénnir í brjósti um þá, sem naud lída, og elskar þá ecki einasta med ordi og túngu, heldur med verki og sannleika; hvört þú audmýkir þig fyrir

Gudi med þacklæti þíns hjarta, þegar þér vel vegnar; hvørt þú kyssir á hans vønd, nær hann þig typtar; þegar þú freistast af Andskotans, heimsins og holdsins vélum, en þér kémur þá undir-eins í hug hvad Gud hefir bannad, hvørt þú lætur þá af, og elskan til Gúds rædur meir enn fýsn holdsins; finnur þú þetta hjá þér, þótt þad sé í veikleika og á-stundum megi af-bera, þá er þad víst ad Guds ord og hans Andi drottnar í hjarta þínu, en annars ecki; því svo segir Lausnarinn: ef nockur elskar mig, þá skal hann mín ord vardveita, Jóh. 14. En ef skap þitt býdur þér allt annad, þá segi eg þér í nafni Jesú Christí hins krossfesta og blessada, sem þína sálu hefir frá helvíti endurleyst: tak þér vara og bid Gud ad skapa í þér hreint hjarta, og géfa þér nýan anda; þvíad eg þori ad setja mína sálu í ved, ad þú geymir vanfæra sál í heilbrigdum líkhama, og herbergjar vondan gést í vænu húsi; en veitst ecki nær á vegginn skrifad verdur: þú dári! á þessari nóttu skulu þeir þína sálu frá þér taka, Lúc. 11. Hvad gagnar þad þá manninum, ad hann ætti alla verøld þessa, og lídur svo skipbrot á sálu sinni? O, þú eylífa ord Fødursins, sem varst í upphafi hjáGudi, fyrir hvørn ad aldirnar skapadar eru! endurskapa þú hjarta vort, ad vér verdum ný sképna í þér; lát þú þitt sæta ord vera vort ædsta eptirlæti hér tímanliga, svo ad vér meigum þess óumrædiliga fagnadar njóta eylífliga. Veit oss þad, ó Herra Jesú Christe! fyrir þitt dýrmæta blód og blessada forþénustu. Þér sé med Fødur og h. Anda, dýrd, heidur og lof, frá því nú er, og um aldir alda, amen!

## Sunnudaginn í Føstu-inngáng.

Gudspjallid, Matth. 3 Kap.

Í þann tíma kom Jesús af Galílæa, ad Jórdan til Jóhannem, uppá þad ad hann skírdist af hønum; en Johannes varnadi hønum þess, og sagdi: mér er þørf ad eg skírist af þér, og þú kémur til mín? en Jesús svaradi og sagdi til hans: láttú nú svo vera, þvíad svo hæfir oss allt réttlæti upp ad fylla. Og þá lét hann þad eptir hønum. En er Jesús var skírdur, sté hann jafnskjótt upp úr vatninu. Og sjá, ad himnarnir lukust upp, yfir hønum, og Johannes sá Guds Anda ofan stíga sem dúfu, og yfir hann koma. Og sjá, ad røddin af himni sagdi: þessi er Sonur minn elskuligur, ad hvørjum mér vel þoknast.

## Exordium.

Eg vil uppvekja þeim einn spámann af þeirra brædrum, eins og þú ert, sagdi Drottinn vid Mósen, Devt. 18. Þessi ritning er á vorum Frelsara Drottni Jesú Christó ad fullu uppfyld, þar ed hann, strax eptir sína allra-helgustu skírn í ánni Jórdan, var settur af Gudi sínum Fødur til kénnimannsskapar og spámanns-embættis nýa Testamentisins, og smurdur med olei fagnadarins, fram yfir sína hluttakendur, Ps. 45; svo ad uppfyltist þad sagt er fyrir munn Esa. 61 Kap., og hin eylífa spekin Guds uppá sjálfan sig þýdir, Lúc. 4: Andi Drottins er yfir mér, af því hann hefir smurt mig; hann hefir sendt mig til ad prédika voludum, ad leggja vid þau sundurknosudu hjørtun, til ad prédika þeim herteknu frelsid, þeim faungudu lausnina,

inum blindu, ad þeir verdi heilskygnir, ad eg frelsi hina sundurkrømdu. En hvørnin má eg ad skilja, ad þessi mikli Spámadur sé eins og Móses, þar hann var madur syndugur, en þessi in syndar? Þess er ad gjæta hér í, ad Gud spáir ad hann muni eins og Móses verda, en Móses þó ecki jafn hønum; líkur ad sønnu í allri mannligri hegdan og edli uppáteckinnar nátt-iru, en næsta ólíkur eptir þeirri dýrd, sem hann átti í upphafi hjá sínum Fødur; og í sannleika r vor Endurlausnari Mósi í mørgum hlutum líkur; Móses var einn madur, Kristur er og old af voru holdi, og bein af vorum beinum; Móses var af Gudi sendur, en um sig talar Jesús hjá Jóhanne: svo sem Fadirinn sendi mig, þá sendi eg ydur, Jóh. 20; Móses útleiddi f Egyptalandi, Jesús hefir frelsad oss af syndarinnar þrældómi; Gud úthelti sínum Anda yfir Mósen, og gaf hønum vitsku og speki til ad dæma sitt fólk, miklu framar þó yfir Jesúm Christum, því hønum hefir hann án mælíngar géfid, Jóh. 3; Gud tók af Anda Mósis og lagdi yfir øldúngana í Israel, Núm. 11; af Jesú fyllíngu hofum vér allir medtekid, Jóh. 1; þar var eigi svo plágadur madur sem Móses, Núm. 12, hvør hefir svo plágadur verid sem Jesús; Móses var hertogi í Israel, sá ed leiddi Guds fylkingar í eydimørkunni, Jesús Guds Sonur er hinn mikli hertogi, sem af Bethlehem er útgeinginn, Mich. 5, til ad fæda hans fólk Israel. Israel hræddist fyrir augliti Drottins í Hóreb, Exód. 21, og sagdi vid Mósen: eigi viljum vér framar heyra raustina Drottins Guds, far þú uppá fjallid, og tala vid hann fyrir oss. Af hvørju ráda er, ad Móses í þad sinn hafi verid medal-gángari millum Guds og hans fólks; þeirrar meiníngar hefir og verid Stephanus píslar-vottur Drottins, er hann sagdi um Mósen, Act. 7, þegar hann þýdir þenna merkiliga spádóm uppá vorn Frelsara, segjandi: þessi er hann, ed var í samkundunni í eydimørkunni med Einglinum, sá ed taladi vid hann og fedur vora, sá ed medtók þad lifandi ord, ad hann gjæfi oss þad; en þótt ad Móses í þann máta væri medal-gángari milli Guds og Israels sona, þá hefir þó Sonur Guds eitt ædra embætti ødlast, vordinn árnadar-madur hins betra Testamentis, sem stadfest er, uppá betra fyrirheit, Hebr. 8. Vid þenna mismun á milli Mósis og Christi medal-gaungu hefir Paulus kannast, Hebr. 12 Kap., med þessum ordum: þér erud ecki geingnir til þess fjalls sem þreifanligt er og med eldi brennur, né til þoku edur myrkurs og óvedurs, né til lúdur-þits, edur raddar-ordanna, vid hvørja þeir óttudust, er hana heyrdu. Þad eigi ordi til þeirra ordid talad, heldur erud þér komnir til fjallsins Zion, og til medal-gángara hins nýa Testamentis, Jesúm, og til blódsins ádreifíngar, þad betur talar enn Abels blód. Þetta er þad dýrmæta blód Guds eingetins Sonar, Apoc. 1, Jesú Christi, med hvørju hann þvær oss synduga menn, sem komum í þenna heim, í skírnar-lauginni af øllum vorum syndum; og uppá þad hann helgadi øll vøtn til hjálpsamligs medals endurfædíngarinnar, þá hefir hann látid sjálfan sig í ánni Jórdan skíra, svo sem vér nú samstundis heyrdum af þessa dags Evangélíó; af hvørju vér viljum einasta yfirvega: hvad stór og mikill ad sé kraptur skírnarinnar í framkvæmd vorrar sáluhjálpar, og hvørjir ad séu hennar ávextir. Þú miskunsami Gud! sem bædi hefir plantad og ávoxtinn géfur, géf þú, ad um þenna þinn háleita leyndardóm svo talad og eptirtekid verdi, ad þitt allra-helgasta nafn vegsamist á-medal vor, en vér mættum þinnar eylífu miskunar sáluhjálplig not hafa, fyrir fulltíngi þíns elskuliga Sonar, í krapti h. Anda, amen!

## Utleggíngin.

Drottinn sagdi vid Nicódemum fordum daga, Jóh. 3: ad hvad sem af holdinu fædt væri, þad væri hold; en hvílík ad sé vor holdlig fæding, þad útmálar Guds Andi allra best fyrir munn Páls, er hann segir, Eph. 2, ad vér séum af náttúrunni reidinnar børn. Hvad kann þeim aumara ad vera, sem undir Guds reidi eru, þar hún er einn fortærandi eldur, sá ed brennur allt til nedsta helvítis? Devt. 32. En hvørnin erum vér nú vid þetta volædi kvittir vordnir? Þad hofum vér ødlast í skírnar-sánum; þess getur St. Páll, Eph. 5, segjandi: Kristur hefir hreinsad søfnudinn med vatnslauginni í ordinu; hann seg-

ir enn aptur, ad Gud hafi þrifid oss út af valdi myrkranna og sett oss í ríki síns Son
Col. 1. Nær mun þetta hafa gjørst? ad vísu í skírninni! Hvørt er vald myrkranna? þ
er Djøfulsins ríki, Eph. 6. Hvørt er Guds Sonar ríki? þad er fridur og fognudur í
Anda, Róm. 14. Þér vórud fordum myrkur, segir Páll um heidíngjana, ádur enn þ
voru af Gudi endurfæddir, en nú erud þér ljós í Drottni, Eph. 5. Eins vórum vér all
á oss komnir, ádur enn Guds eylífa miskun endurbætti vorn syndugan gétnad med vat
og anda. Svo mikill munur sem nú er á milli ljóssins og myrkursins, milli dags og na
ur, milli sólarinnar og þeirra hluta sem hún upplýsir; svo mikid djúp sem þar er stadfest
millum Lazarum í fadmi Abrahams og hins ríka sælgætíngs, þar hann píníst í helvíti
kvølunum, Lúc. 16; svo stór mismunur er ad sínu leiti milli þeirra, sem alleina af holdin
og þeirra sem í skírninni verda af Andanum fæddir, því vor Lausnari segir hjá Jóh.
Kap. vid Nicódemum: nema einhvør verdi endurfæddur af vatni og anda, þá kann ha
ecki inn ad gánga í Guds ríki. Þetta tala eg ecki í þeirri meiníngu, ad eg hafi hinn minst
þánka þar-um, ad smá-børnin sem annadhvørt í módurlífi burtkallast, eda deya strax ep
þad þau borin eru í heiminn, edur hindrast á einhvørn hátt frá skírnarinnar blessan,
þau muni ecki eylífs lífs erfíngjar verda, heldur af því, ad Drottinn átti ordastad vid N
códemum, einn fullordinn mann, sem ecki var svo uppfræddur í þeirri Guds ríkis-stjór
sem Kristur hóf hér á jørdunni, med endurgétníngu syndugra manna fyrir vatn og and
er nýúngar þóttu hjá þeim sem af umskurninni voru, sérdeilis Pharísæunum, af hvørju
Nicódemus var, þá eptir því (segi eg) ad hann vildi undirvísa hønum í lærdómi nýa Te
amentisins, þá sýnir hann hønum ad sá ed nú vilji hólpinn verda, hann megi skírast lát
Einn konúngur er ecki bundinn vid þau løg sem hann sjálfur géfid hefir, svo hann megi þei
ecki umbreyta, nær þad ei skédur á-móti Guds løgum; því skyldi þá hinn mikli Stjórna
allrar veraldar vera svo fastur vid sína setnínga, ad hønum leyfdist ecki ad gjøra sínu
sképnum gott med þeim hætti, sem hans alvitra rádi haga þykir? Guds setníngar skyl
oss undir hans hlýdni í øllu því sem í voru valdi er, en ecki sjalfan hann, svo hann þ
ecki útrétta kunni sem hann vill, med þeim hætti sem hann sjálfur vill. Forøktun skír
arinnar og ecki hennar brestur fordæmir syndugan mann, en sá kann ecki ad forakta sem ei
kann ad adgreina íllt og gott. Hjá Gudi er einginn hlutur ómáttugur, Lúc. 1. Þ
mun þá þessi vera? máttugur er Gud ad uppvekja Abraham sonu af steinunum, Matth.
því þá ecki ad flytja þeirra sálir í Abrahams skaut, hvørra lífsstundum hann sjálfur rædu
ef Gud vildi endurfæda manninn án skírnarinnar, mundi hann þad ecki géta edur meig
sannliga! eg sé hann hefir endurfædt þá, sem á gamla Testamentisins døgum lifdu, fyr
medal umskurnarinnar. En ef hønum þóknadist øldúngis fyrir utan nockurt medal
endurgéta manninn til eylífs lífs, mundi þad ecki í hans valdi standa? einginn efi er á þv
St. Páll styrkir mig í þeirri trú, Róm. 4, talandi þar um, med hvørju móti Abraham h
verid reiknud trú sín til réttlætis; med hvørju móti var hún tilreiknud, segir hann, hv
þegar hann var í umskurninni edur yfirhúdinni? ecki í umskurninni, heldur í yfirhúdin
Hafi nú Gud Abraham, fødur trúadra endurfædt, fyrir utan sakramentanna medal, því sk
hann ecki kunna og vilja þad sama gjøra vid þá, sem ecki verdur svo lángs lífs audid,

þeir megi í skírninni endurfædast. Ad eg ecki tala um Adam, Seth, Lamech, Mathúsalem, Enoch og Nóa, med ótal þúsund ødrum, sem menn fylliliga trúa ad nú lifa med Gudi í himninum, og andadir eru ádur enn sakramentin vóru inn-stiptud. Og ad menn viti ad þessu sé eins varid sídan sakramentin inn-sett vóru, þá sé oss vitanligt, ad hann sem kunni hólpin ad gjøra þau børnin í gamla Testamentinu, sem burt-kølludust innan þess áttunda dags, hvør ætladur var til umskurnarinnar, Gén. 17, hann sem miskunadi sig yfir þá, sem deydu í eydimørkinni óumskornir, Jós. 5, hann sem úthelti heilögum Anda yfir Cornelíum og þá sem vóru í hans húsi, ádur enn þeir nockurn-tíma skírdir vóru, svo ad Petur sagdi: hvør má banna þeim vatnid, sem medtekid hafa h. Anda eins og vér, Act. 10. Hans djúpu miskunar-ydur, Lúc. 1, sem eingan botn hafa, þau eru ecki øllsaman útrunnin í skirnar sáinn, heldur renna hans miklu miskunar-lækir einnegin til þessara smælíngja, af hvørjum Fadir miskunsemdanna vill ecki ad nockur fyrirfarist, Matth. 18. Þeim sem trúadir vóru af umskurninni hnickti vid þad, ad h. Andi féll yfir heidnar þjódir, Act. 10, sem eckert af Gudi vissu ádur enn þeir skírdir vóru; svo skédur þad enn nú í dag, ad þad sem ómøguligt er fyrir mønnunum, þad er møguligt fyrir Gudi, Matth. 19.

Davíd konúngur, þótt hann stór-syndugur madur væri, þá er eckert ad heyra annad á hans kvedlíngum, enn ad hann hafi ætlad sér eylífa vist hjá Gudi, þegar hann harmadi sinn son, hvørn hann gétid hafdi med Bersabe, hvør ed framar ødrum hans børnum mátti kallast gétinn og fæddur í syndinni, sá ed og deydi ádur enn hann umskorinn vard; hann huggadi sig med þessum ordum, þegar hann reis upp úr duptinu, þar hann grét synd sína fyrir Gudi: eg kém til hans og hann ecki til mín, 2 Sam. 12; af hvørju audséd er, ad hann hefir verid fulltrúa þar-um, ad hann væri undan sér farinn í þá glediligu vist, hvar ad er sadníng fagnadarins, svo sem hann þad sjálfur kallar. Hvad fjarlægir ad séu Guds og manna dómar, er á-medal annara audséd af Jónæ spámanns søgu, þegar hann nærri því brígsladi Gudi um sína þolinmædi, Jónæ 4, med þessum ordum: eg veit þú ert nádugur og miskunsamur, þolinmódur og næsta gódgjarn; en Gud svaradi hønum þessu medal annara: munt þú réttiliga reidast? þú hlífdir lundinum, uppá hvørn þú ecki erfidadir, og eckert gjørdir þú til hans fullkomnunar, því hann vóx á nóttu og næturgamall visnadi hann; skyldi eg þá ecki þyrma Ninívé, þeim stóra stad, í hvørjum ad eru fleiri enn hundrad og tuttugu þúsundir, er ecki vita til hægri né vinstri handar, og mørg villi-dýr. Hafi nú brunnur miskunsemdanna svo nádugur verid, ad hann vildi þyrma þeim ógudliga stad vegna óumskorinna heidíngjanna barna; hafi hann heldur viljad þola þeirra ílsku, sem í himininn var uppstígin fyrir hann, heldur enn ad eydileggja øll dýrin, sem þar inni vóru, Jón. 1; því skyldi eg þá ecki gánga úr skugga þar-um, ad hann muni miskuna sig yfir eitt ómálga fóstur, sem eckert kann til þess, ad þad ei leingur lifir. Nú þótt ad Gudi vorum sé í sjálfs-valdi ad taka manneskjuna í sátt vid sig og endurgéta til eylífs lífs, med hvørju helst móti sem hønum þad þóknast, eptir sinni almættis gódgirni, samt er þad hinn versti glæpur, ef nockur forsmáir edur forsómar þetta hjálpsamliga medal. Þótt einn hús-fadir megi med ødru móti útrétta þá hluti, er hann skipar sínum þénara, mun hinn þar-fyrir vera sýkn-saka, ef hann forsmáir síns herra rádstøfun? Gud hafdi nóg rád ad slá

í hel konúng Amalekítanna, þótt ecki hefdi hann brúkad Sáls hønd þar til; en af því hann var tómlátur í Guds eyrinda framkvæmd, þá vard Israels-ríki rifid af hans hend og gefid hans þénara, 1 Sam. 15. Mundi nockud Achab og hans hús umflýa óluck una, þá hann forsmádi Drottins vilja í því ad drepa Benhadad Sýrlands konúng? 1 Reg. 20, jafnvel þótt hinn sterki Gud hefdi þúsund vegi til ad tortýna honum. Þat sem umskurnin var í gamla Testamentinu, þad er skírnin í því nýa. En hvørsu mikid hafi vardad um umskurnina, vottar sjálfur Gud, Gén. 17, þegar hann stiptadi þad h. sakramentum, segjandi: allt karlkyns, sem ecki umskér yfirhúd síns holds, hans sál skal upprætast frá mínu fólki, því hann hefir ónýtt minn sáttmála; hvørju samkynja er, þad Drottinn taladi vid Nicódemum, og eg hefi ádur áminst. Nú þótt ad barnanna velferd sé hér undantekin sem ádur er sagt, þá viti þó hinir gømlu, sem forsóma á þeim svoddan hjálpræd-ins medal, ad Gud vill þess krefja af þeirra hendi; þar-fyrir skélfdist og Zippóra, kvinna Mósis, þá hann tafdi ad umskéra sinn son, Exód. 4, annadhvørt fyrir hennar umtølur edur einhvørn annan tilgáng, en Gud mætti þeim í gésta-herberginu og ætladi ad slá Mósen hel fyrir þessa forsómun; því skyldi ecki syndugum mønnum framar øllu ødru þykja mikils verdt um þennan háleita hlut? Sá stadur hvar vor Endurlausnari lét skírast, hefi án efa verid Betabara, þar ed Jóhannes skírdi, sem ráda má þar-af, ad Drottinn gék strax eptir skírnina út í eydimørkina ad freistast, og eptir freistínguna kom hann til Jóhannem í Betabara aptur, hvar hann var ad þessu guds-verki, Jóh. 1. Þetta ord merkir ferju-stad, af því mikla dásemdarverki, sem Gud gjørdi vid sitt fólk, þegar hann leiddi þad, í þessu sama plátzi, þurrum fótum ígégnum ána Jórdan inn í Kanaans-land, o verdur svo hér um skrifad, Jós. 3, ad ørk Drottins hafi stadid midt í fljótinu. Þett ætti ad minna oss á, ad Jesús Christus er hin sanna ørk sáttmálans á milli Guds o manna, hvør ed í skírninni saminn verdur; hann er sá rétti nádar-stóll, hvørn Gud hef sett fyrir trúna á hans blódi, hvar med hann frambýdur þad réttlæti, sem fyrir hønum fullkomid; þar fyrir ert þú, minn Jesú, ofanstíginn í Jórdan, allt réttlæti upp ad fylla; þ hefir stadid midt í vatns-flódinu, svo vér þurrum fótum inngeingjum í Guds-ríki; þ eylífi Jehoschua, sem oss hefir hólpna gjørt í hørstum hødum, þig hefir Gud, þinn Gu dásamliga miklad, lángt fram yfir Jósúam á þínum skírnar-degi, þegar hann gaf þér fyri skírnar-sáinn í ordinu heidnar þjódir og endimørk jardarinnar til arfleifdar, Ps. 2. Þ blessada sáttmáls-ørk! í þér er bundinn sáttmáli gódrar samvitsku vid hinn stránga og rétt láta Gud, 1 Pet. 3, hvørs útlagar vér erum vordnir í Adam, og landrádum vid han sekir med Djøfulsins þjónkan; þú hefir sundurklofid, ecki vatnsføllin, heldur himnanc sem med yfirtrodslu løgmálsins vóru tilbyrgdir; þú ert ádreifdur med því rétta sáttmál blódi, sem í vorn skírnar-sá er útrunnid oss til réttlætis og helgunar. Þú stóri Herto Guds heiløgu þúsunda! þú hefir fyrir þína h. skírn flutt oss yfir um Jórdan, og slitid vo útlegd; þú hefir fært oss frá Egyptalandi til Kanaan, frá myrkrunum til ljóssins, fr Djøfulsins valdi, og sett oss í þitt ríki, Col. 1. Sjái hér nú, kristnir menn, hvad miki oss skírnin gagnar, og þótt Gud rati adra leid inn í þad fyrirheitna landid med þeirr sálir, er hann sjálfur burt kallar, ádur enn þeim þessa medals audid verdur, þá er audvit

hér=af, hvad miklu svoddan Guds rádstofun orkar til vorrar sáluhjálpar, í fám ordum ad segja: hún er þad fyrsta port til sáluhjálparinnar. Endurlausnarinn kallar sig dyr saudanna, Jóh. 10; hér verdur hann allra fyrst á vegi fyrir öllum þeim, er sídan eiga lífsins veg ad gánga inn í Guds dýrdar=ríki, og hún er hin fyrsta trappa til andligs lífs, svo sem hinn líkhamligi gétnadur til þess holdliga. Vér erum í skírninni endurgétnir, því Paulus segir, ad vér svo margir sem skírdir erum, vér höfum í=klædst Christó, Gal. 3; en aptur segir hann, 2 Cor. 5, ad ef nockur er í Christó þá sé hann ný sképna, og fyrir þessa nýu sköpun býr Kristur í vorum hjörtum, Eph. 3. Fyrir hana köllumst vér Guds musteri, 2 Cor. 6; fyrir hana verdum vér innplantadir á hid sanna vín=tréd, Jóh. 15, Jesúm Christum; fyrir hana heitum vér limir Christí líkhama, 1 Cor. 12. Vér höfdum í falli vorra fyrstu foreldra mist hid sanna réttlæti, svo ad vorar bestu athafnir vóru eigi betri í Guds augliti enn nidlags=fat, Esa. 64. Jesús hefir bætt vort rád med sínu réttlæti, en þad kunni ecki þeim til ad reiknast, sem voru Guds óvinir; því hefir hann í skírninni endurfædt oss og gjört oss Guds=börn af Djöfulsinsbörnum, svo hans eingétins Sonar dýrdarfulla og yfirgnæfanliga réttlæti yrdi tilreiknad hans brædrum, en ecki Andskotans limum. Þad er ecki um skör fram ad Drottinn segir vid Jóhannem: lát þú svo vera, þannin byrjar oss allt réttlæti upp ad fylla. Ad Kristur þyrfti ecki sinna vegna ad skírast, er kunnugra medal vor enn um þurfi ad tala, því hvörnin kunna menn ad skygna glasid, eda sólina bjartari ad gjöra? heldur er Kristur skírdur svo vel sem umskorinn, uppá þad ad hann helgadi sakramentin, og forþénadi oss arftöku Guds=barna fyrir þau sömu. Kristur var ad sönnu alltíd vort réttlæti, því Gud sendi Soninn í heimin, ad hann vort réttlæti yrdi, 1 Cor. 1; hann er ordinn bölvan fyrir oss, ad vér yrdum Guds réttlæti í honum, Gal. 3; hann er Jehóva vort réttlæti, Jer. 23, og þetta réttlæti hefir vor Herra med sínum allra=helgasta dauda oss útvegad; en hér vantadi þad medal, med hvörju oss skyldi þetta réttlæti tilreiknast, svo þad kynni á oss ad hrína, hvört eg segi skírnina ad vera, og fyrir skírnina endurgétnínguna; því erum vér og í hans dauda skírdir; því trúi eg þess fastar sem St. Páll heldur styrkir mig í þeirri trú, er hann segir, Tít. 3: ad hann hafi oss hólpna gjört fyrir endurgétníngar vatns=sáinn og endurnýúngar h. Anda, hvörjum hann hefir nógliga úthelt yfir oss, svo vér réttlættir fyrir hans nád, yrdum erfingjar eylífs lífs eptir voninni.

Svo er nú vor skírn bygd á Christí allra=helgustu skírn, en af vorri skírn framkémur réttlætíngin fyrir Gudi, sem er fyrirgéfníng syndanna. Þessu sýnist mér ad Fadirinn lýsi, þegar vor Bródir, sem oss er ad öllu líkur, ad syndinni undantekinni, þegar hann sté upp úr ánni Jórdan, segjandi: þessi er minn elskuligur Sonur, í hvörjum mér velþóknast. Til hvörs er þinn Sonur í heimin kominn? nádugi Fadir! synduga menn sáluhólpna ad gjöra. 1 Tím. 1; því hefir hann í sinni skírn allt réttlæti uppfylt? til ad kalla syndugа og ecki réttláta til ydranar, Matth. 9; því lét hann skírnina vera inngáng síns kénnimannliga embættis? því hann vildi hún yrdi vor inngángur til hins andliga kénnimannskapar; því er herrann af sínum þénara skírdur, skaparinn af sképnunni, Gud af manninum sólin af morgunstjörnunni, hinn heilagi af syndaranum, meistarinn af lærisvein=

inum? svo ad þú fyrir þessa og alla adra hans forþénustu gjørdir synduga menn þína þénara, þínar sképnur, þíns Sonar lærisveina, verduga og hæfiliga í hans nafni ad framkvæma á ødrum sínum líkum þetta sitt eyrindi, og ad skíra med vatni eins og Jóhannes þar Drottinn sjálfur vill med Anda skíra. Þetta hefir hønum þóknast fyrir sjálfan sig ad útrétta, í hvørjum þú hefir alla þína velþóknan. Muntú þá hafa óþocka á þeim, sem hann ecki skammast sín brædur ad kalla fyrir sømu skírn, ef hann hefir í sinni skírn allt réttlæti uppfylt? munt þú þá gánga í dóm við ránglátan, sem í hans dauda er skírdur? ecki er þad ætlandi til þinna heitu miskunar ydra, sem géfid hefir oss Soninn, þegar vér vorum enn=þá þínir óvinir, Róm. 5, ad þú munir ecki géfa oss alla hluti med hønum, Róm. 8. Þar hann hefir í endurgétníngar-lauginni gjørt oss ad þínum børnum; þar fyrir vegsømum vér þína guddómligu hátign í bljúgustu audmýkt vors hjarta, enn-nú í dag standandi í þínu augliti, med þíns þénara St. Peturs ordum, af hans fyrra Pistils 1 Kap. segjandi: blessadur sé Gud og Fadir Drottins vors Jesú Christí, sem af sinni mikilli miskunsemi hefir endurgétid oss til lifandi vonar, fyrir upprisu Jesú Christí frá daudum, til þeirrar arfleifdar sem ecki kann ad skémmast, ecki saurgast og ecki ad rotna, hvør oss er ætlud á himnum. Hvørnin madur sé eptir holdligu edli, þad sýnir oss St. Páll, á þeim sem ad eingu nýta sína endurfædíngu, og ecki hirda um hana ad endurnýa; um skilnínginn talar hann, ad holdsins vitsmunir séu reidi og fjandskapur í=gégn Gudi, Róm. 8; um viljann, ad holdid girnist í móti andanum, Gal. 5; um girndirnar, ad þær strídi í móti sálunni, 1 Pet. 2. Þótt ad þessi vanheilsa sálarinnar verdi nú aldrei fylliliga læknud, svo leingi vér lifum í þessu holdi, svo sem Paulus þad nógliga vottar, med mikilli harmakløgun yfir sjálfum sér, Róm. 7; þá samt verda vorar sálir í skírninni fyrir verkan h. Anda tilbúnar til ad mótstanda því illa, og vorir limir til réttlætisins íbúdar, eptir þeirri mæling sem at þetta forgeingiliga kann ad þola, svo ad þegar h. Andi straffar í oss syndina, uppvekur trúna, eflir þolinmædina, styrkir vonina, kveikir elskuna til Guds og náúngans, annadhvørt fyrir ordsins heyrn, í hvørju hann býr, edur og fyrir gudrækiliga þánka, þá gétur sá hønum samsinnt og aukid sína endurnýúng, sem hønum ecki mótstendur, annadhvørt med hirduleysi, þverúd edur sjálfskapadri vantrú, hvør ad sønnu er í voru valdi, svo sem allt hid illa, en ecki trúin, hvør ad er Guds verk, Jóh. 6; og segir vor Endurlausnari oss allra-best greinarmun á millum þessara tvennslags flocka, þeirra sem nockur, og þeirra sem eingin not hafa sinnar endurfædíngar, Jóh. 15: eg em þad sanna víntré, en Fadir minn er víngards-madurinn; sérhvørn þann kvist sem ecki ber ávøxt mun hann burttaka, og hvørn þann sem ávøxt ber mun hann hreinsa, ad hann beri meiri ávøxt. Svo verdum vér nú í skírninni endurnýadir til gódra verka, hvad Paulus vottar, Róm. 6: vér erum jardadir med Christó fyrir skírnina til daudans, ad líka sem Kristur er upprisinn frá daudum fyrir dýrd Fødursins, svo eigum vér ad gánga í endurnýúngu lífsdaganna; þannin verdum vér nú í skírninni andliga endurfæddir, réttlættir og endurnýadir; og þótt ad vor gódverk, ef nockurværu, séu ófullkomin, og ecki í sjálfum sér betri enn margra heidíngja, þá samt líka þau Gudi betur, því þau framkoma af þeim sem í skírninni eru Guds børn ordnir, og réttlættir í heil. vatnslaug fyrir þann fullnad, sem Gudi er goldinn í Christí saklausum dauda,

en oss tilreiknadur fyrir endurfædínguna. Eg sæ mér ecki til orda um þá sem þar fyrir utan eru, 1 Cor. 5; Gud veit þad sjálfur, sem manninn skapad hefir, af hverjum krapti verkast í þeim þær dygdir, sem oss mundi torsókt eptir ad breyta, og hvert álit þær hafa í Guds dýrdarfulla augliti, er honum kunnugast sem er Dómari alls holds. Eg þacka alleina hans almáttugri gódgirni, ad hann hefir oss, sem á hans nafn trúum, þenna veg tilbúid, og opinberad til sáluhjálparinnar, og sæ mér ordsök hér út af ad þenkja, hvad miklu óbæriligra oss muni verda á dómsins degi heldur enn þeim, ef vér afrækjum þessa Guds nád, og gaungum ecki verdugliga þeirri kallan, hvar inni vér erum kalladir. Dragid ydur þar fyrir ecki sjálfir á tálar, br. m., svo sem mundum vér þar fyrir meira frelsi hafa til ad syndga, ad vér erum endurgétnir. Þessi Guds gódgirni á ad krossfesta í oss hinn gamla Adam, en ecki ala hann á eitri syndarinnar; hún er af Gudi skipud til ad temja holdid, en ecki til þess ad rækja þad svo mjøg, ad þad fremji sínar girndir, Róm. 13. Þad er nógu-stór velgjørníngur, sem Gud oss gjørdi í skírninni, ad hann tilbjó svo vorar sálir daudar í syndunum, ad h. Andi kynni í þeim ad lifa, og verka gudrækiligt athæfi, þótt ecki heimtum vér þad af honum, ad hann láti sér þad allt þóknast sem voru holdi gott þykir; skulum vér þá í syndunum blífa svo ad nádin yfirgnæfi? segir Páll, Róm. 6. Fjærri sé því, segir hann, vér sem daudir erum syndinni, hvernin skyldum vér framvegis í henni lifa? ef vér erum innplantadir líking hans dauda, þá munum vér og verda líking hans upprisu, segir hann; hver St. Páls ord eg svo skil, ad fyrst Gud hefir deydt afl syndarinnar í oss med síns Sonar dauda í skírninni, þá hafi hann gefid oss svo mikinn andakrapt, ad vér gétum upprisid af dauda syndanna, svo þær ecki drottni framar í vorum daudligum líkhama; og væri ecki svo, ad nockud af þessu stædi í voru valdi, sem endurfæddir erum, mundi ritníngin ecki svo tídt skipa oss ad deyda hinn gamla manninn, er sig fordjarfar í girndum villudómsins; edur hvad er þad Páll segir? Róm. 12: samlagid ydur ecki heimi þessum, heldur ummyndid ydur med endurnýúng ydvars hjarta. Í øllum þvílíkum greinum ritníngarinnar sé eg ecki annad, enn ad Guds Andi vorkénni ecki endurfæddum manni ad þóknast honum. Sú er þá meiníngin, jafnvel þótt ad vér í eingan máta algjørdir séum, edur kunnum Guds løgmál upp ad fylla, samt hefir Gud géfid oss í skírninni svo mikla krapta, ad vér gétum viljad hid góda, jafnvel þótt hid vonda lodi vid oss, Róm. 7, og þurfum ecki ad mótstanda h. Anda, en adhyllast holdsins verk. Svo látid ydur nú sagt vera, br. m. ad þér þessum gudrækiligum áminníngum hlýdugir séud, og yfirvegid Guds óútsegjanliga gjæsku, sem ydur í h. vatnslaug hefir andliga endurgétid, ecki til þess ad þér ljáid limu ydar ránglætinu til íbúdar, heldur ad þér helgid Gud í þeim, svo sem nýar sképnur. Alítid þann sóma sem Guds fødurlig gjæska hefir ydur í skírninni veittan, þar ydur er makt géfin Guds børnum ad vera, Jóh. 1, hjá hverri sæmd ad allrar veraldarinnar tign og herradæmi er endemi ad reikna, Gal. 3. Þér erud í skírninni Christó íklæddir; hversu megid þér þann fagra skrúda nída og ata med saurugum holdsins verkum; vitid ad Christur og Belíal eiga eckert hlutskipti saman, 2 Cor. 6; hversu megid þér þá tveimur svo ólíkum herrum þjóna? þér erud í skírninni Christí limir vordnir; varid ydur þad þér gjørid ecki Christí

limi ad Satans limum, 1 Cor. 6; þér erud í skírninni vígdir og helgadir til ad vera Guds musteri, en þann sem þad saurgar vill hann straffa, segir Páłus; þér erud innplantadir á hid sanna víntré, Christum, Jóh. 15; sjáid til ad þér ecki verdid afhøggnir og í eld kastadir. Allt hvad Gud hefir ydur gott gjørt í andligum efnum, ad hann hefir géfid ydur sinn eingétinn Son; ad hann hefir ydur fyrir hann opinberad sinn vilja; ad hann lét hann húngra og þyrsta; ad hann lét hann afklædast, húdstrýkjast, hrákum og sløgum ógudligra manna undirgéfinn, og med þyrnum kórónadan verda, og um sídir þola hinn smánarliga krossins dauda; ad hann hefir tilreiknad ydur ránglátum hans blessada réttlæti, sem alleina fyrir hønum gildir, og útsendt sinn Anda í ydar hjørtu til eins pants og innsiglis þar uppá: þad alltsaman, svo mikid sem þad er, sem er þó svo mikid, ad himin og jørd eru ecki heystrás-virdi þar hjá ad reikna, þad alltsaman, segi eg, er oss í skírninni gefid; því er þad skømm vor, ad afrækja þessa stóru Guds nád og gánga í lid med Fjandanum og hans árum, sem eingu launa þá þjónustu er menn veita þeim, nema eylífri kvøl og píslum, í því dýki sem vellur af eldi og brennusteini, Apóc. 19; hvar frá oss og øll sín børn vardveiti gódur Gud, í nafni Jesú Christí, amen!

# Fyrsta Sunnudag í Føstu.

Gudspjallid, Matth. 4. Kap.

Í þann tíma; þá var Jesús leiddur af anda á eydimørk, uppá þad ad hann yrdi freistadur af Djøflinum. Og þá hann hafdi fastad fjørutygir daga, og fjørutygi nátta, húngradi hann sídan; og freistarinn gékk til hans, og sagdi: ef ad þú ert Guds Sonur, þá seig þú ad steinar þessir verdi ad braudum. En hann svaradi og sagdi: skrifad er, madurinn lifir ecki af einusaman braudi, heldur af sérhvørju ordi, því sem framgeingur af Guds munni; þá tók Djøfullinn hann med sér í borgina helgu, og setti hann uppá musteris-bustina, og sagdi til hans: ef ad þú ert Guds Sonur, fleig þér hér ofan af, þvíad skrifad er: ad hann muni bjóda einglum sínum um þig, ad á høndum beri þeir þig, svo ad þú steytir ecki fót þinn vid steini. Jesús sagdi til hans: en aptur er skrifad: eigi skaltu freista Drottins Guds þíns. Og en aptur flutti Djøfullinn hann med sér uppá eitt mjøg ofurhátt fjall, og sýndi hønum øll ríki veraldarinnar, og þeirra dýrd, og sagdi til hans: allt þetta mun eg géfa þér, ef ad þú framfellur og tilbidur mig; þá sagdi Jesús til hans: far í burt frá mér Andskoti! þvíad skrifad er: Drottinn Gud þinn skaltu tilbidja, og hønum einum þjóna; þá forlét Djøfullinn hann; og sjá þú, ad einglar komu til hans, og þjónudu hønum.

# Exordium.

J 1 Sam. 17; verdur oss ként um Davíd, er síðan vard konúngur í Israel, og risann Golíath, hvørsu þessi var af hinum ad velli lagdur med einum slaungu-steini. Þessi fræk-leikur Davíds var svo mjøg ágjætur, ad kvinnurnar geingu út af Israels borgum, og súngu: Saul vann sigur á þúsund, en David á tíu þúsund, 1 Sam. 18. Nú þótt ad þetta afreks verk Davíds sé merkiligrar hrósunar verdugt, þá hefir þó Sonur Davíds, Matth. 1, Herrann Jesús Christus, eitt annad miklu meira unnid á hinum helvítska Golíath, Andskotanum, sá ed brixladi fylkíngum Guds lifanda, æ síðan hann sveik vora fyrstu foreldra í Paradís, þár hann hefir høggormsins høfud í sundurbrotid, Gén. 3, med þeim steini, sem uppbyggéndur hafa forsmád, þad er med sjálfum sér; því sjáid, hér er meiri en Golíath, hann var einn madur, Satan er einn Djøfull; þótt Golíath væri ógurligur, þá var hann allur þar sem hann var sédur; Satan er ein hambleipa, svo hann bregdur sér jafnvel í ljóssins eingils líki, 2 Cor. 12; Golíath fylgdu ad sønnu mørg þúsund Philistéanna, en Andskotanum fylgir óflýandi her; þridjúng stjarnanna dregur hinn fárligi dreki í sínum hala, Apóc. 12, og mikla sveit ógudligra manna, sem hans merki fylgja. Þennan sterka hervíking, hefir Jesús sonur Davíds sigrad, og afklædt hann sinni hardneskju og sínum vopnum, á hvør hann treysti, Lúc. 11. Hafi nú kvinnurnar í Israel prísad Davíd med þessum dýrdar dikt, fyrir þann sigur, er hann vann á risanum, því skyldu þá ecki Zions dætur, sem eru Guds andlig-ar meyar, síngja og spila í sínum hjørtum fyrir þeirra Konúngi, segjandi: Davíd vann sigur á tíu þúsundum, en Jesús sonur Davíds á óteljandi þúsundum þúsunda, á margra þúsunda høfd-íngja, á þúsund véla meistara, og hefir sínar h. þúsundir af hans valdi hertekid. Medal annara Drottins vors frægdar-verka, heyrum vér í þessa dags Evangelió eitt einvígi, millum þess allra besta og hins allra versta, millum þess stóra Michaels, og hins gamla dreka sem kallast Djøfull og Andskoti; ecki á himninum, svo sem Apóc. 12, verdur umgétid, sem er Guds hásæti, heldur á jørdunni, hvørja Satan kallar sitt ríki. Og søkum þess, ad þetta huggunarríka efni verdur á þessum h. degi prédikad í kristnum søfnudum medal vor, þá vilj-um vér þad nockud framar yfirvega, og af vorum Hertoga læra: hvørnin vér eigum holds-ins, heimsins og Andskotans freistíngum í móti ad standa; en styrk oss hér til Drottinn, med nád þinni, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Vágt er øll véla-brøgd Satans upp ad telja; en Gud nádi oss, fleiri mættum vér þeckja, heldur enn ad vér hyrdum um ad varast. J þessu h. Evangelió heyrum vér, ad hann med þrefølldu athlaupi, rædur á Lausnarann; í fyrstu segir hann: ef þú ert Guds Sonur, þá seig þú ad steinar þessir verdi ad braudum; med hvørju ad líkligt er, ad hann hafi viljad reyna, hvørt hann væri hinn fyrirheitni Messías edur ei, því hann vissi ad Messíæ voru allir hlutir undir fætur lagdir, Ps. 8; og hann var herra og erfíngi allra hluta. Ef þú ert Guds Sonur, segir hinn vondi; þad má ecki satt vera sem þú heyrdir vid Jórdan, ad þú Guds Sonur værir, þar hann lætur þig húngra; hvørsu ágjætliga hefir Gud sína velþócknan í þér ad hann hefir þig yfirgéfid hér í eydimørku á-medal villu-dýra? Marc. 1, og ef svo vera kann, ad hann reyni þig med svoddan móti, þá bind enda hér-á, og reyn aptur hvørsu sannsøgull og haldinordur hann er, og seig ad steinar þessir verdi ad braud-um, svo þú neyta meigir. Eg efast ecki um, ad hold og blód muni og þvílíkar fortølur hafa fyrir þeim, er mótdrægt eiga í heiminum. Gud hefir lofad þad hann vilji minn fadir vera; hvørnin er eg þá vordinn ad hjá-barni? hann segir ad lífid sé meira enn fædslan, og líkhaminn meir enn klædnadurinn, Matth. 6; nú hefir hann mér hvørtveggja í fyrstu

géfid, því fæ eg þá ecki eitthvad þessu til vidurhalds? betra væri mér þad eg hefdi hvørugs hluttakandi vordid, heldur enn eg á hvørutveggja naud lídi; ef eg er hans sonur, því géfur hann mér þá stein fyrir braud, edur høggorm fyrir fisk? Lúc. 11, þar hann hefir þó sagt sig ad vera Fødur miskunsemdanna, 2 Cor. 1, en eg sem vondur er, og mørgum syndum hladinn, vildi þad ecki gjøra vid mitt barn. Þetta prédikar hold og blód, þegar þad er ecki fyrir augunum sem eta skal. Hvad skal hér til segja kristinn madur? þad sem Jesús Andskotanum svaradi: madurinn lifir ecki af einusaman braudi, heldur af sérhvørju því ordi, sem framgeingur af Guds munni. Med þessum ordum hefir ecki Christur sagt þér, ad þú skulir burtkasta allri áhyggju fyrir líkhamligri næríngu, ecki lofad ad géfa þér þitt braud, nema í sveita þíns andlitis, Gén. 3; ecki heitid ad hrafnarnir skuli færa þér fædslu, 1 Reg. 17, þegar þú sefur med hinum lata; heldur svaradi Frelsarinn Andskotanum út-af med þessu móti, og kéndi þér undir eins, ad jafnvel þó hann léti þig lída brest á líkhamligri farsæld, skyldir þú ecki ætla ad hann muni eigi kannast vid þitt faderni, svo leingi sem þú hann óttast, og rænir hann ecki sínum heidri; því hvørn þann son sem fadirinn elskar, þann agar hann, Hebr. 12. Ef Gud vill ad eg lifi, þá gefur hann mér braud til ad lifa af; lætur hann mig lída skort á braudi, þá vill hann samt ad eg lifi í trúnni og voninni. Eg vil bera mig eptir minni atvinnu med øllum þeim hætti sem Gud hefir lofad, og eptir því ordi sem framgeingid er af hans munni; þóknist hønum ad mitt erfidi skuli ecki blessast eptir minni tilætlan, þá veit eg samt ad hann hefir ecki burtkastad mér strax í daudans hendur; géfi Gud mér ecki braud svo eg fái lifad, þá lætur hann mig deya, svo eg eylífliga lifi. Er mér vandara um enn hans eingétnum Syni, hvørn hann lét húngra, svo hann freistadur yrdi? á eg ad láta mig þad undra, þó hann freisti mín um stundar-sakir, sem ecki er nema ættleidíngur? Þad sem hinir Egyptsku søgdu vid Jóseph, Gén. 47, þad sama vil eg vid minn Gud segja, þegar húngurs naudin tók til ad kvelja þá allt til dauda, þá søgdu þeir: lát oss med voru lífi og eignum vera Pharaónis þræla, þad vér lifa meigum og ecki deya. Taki Gud þad hans er, ef hønum svo þóknast, og jafnvel sjálft lífid, hvørt hann sjálfur gaf; eg vil bædi med því og øllu sem mér tilheyrir, vera hans þræll, svo eg æfinliga med hønum ríki; þad vardar mig ad litlu, þótt hann láti mig ecki lifa af braudi, þegar eg lifi af þeim ordum, sem framgengin eru af hans munni, ad hann vilji ecki freista mín yfir megn fram, heldur géfa freistíngunni þann enda, ad eg stadist fái, 1 Cor. 10. Madurinn lifir ecki af einusaman braudi, segir Lausnarinn; ordin eru tekin af Devt. bókar 8 kap., þar Móses sagdi vid Israels sonu: þar-fyrir hefir Gud þvíngad þig og látid þig húngur lída, ad hann gjæfi þér man, hvørt þú þecktir ecki og ecki fedur þínir, svo ad þeir kéndu þér þad, ad madurinn lifir ecki af einusaman braudi, heldur sérhvørju því ordi, sem framgeingur af Guds munni. Eg er hræddur um, ad þetta mál kunni hjá sumum af oss heima ad eiga; hvad munu þeir ed nú allvída í heiminum uppvaxa heyra af fedrunum, svo þeir kénni þeim þad? færid híngad, berid híngad, svo ad vorar hyrdslur fullar verdi, og þar sé einginn skortur í húsum vorum, en ecki ad leita næríngar sinnar eptir því ordi, sem framgeingid er af Guds munni, ecki ad læra nockud þad sómi er í, med

hvörju þeir kunni sjálfir sína næríngu ad útvega, svo þeir viti og megi med gódri samvitsku segja þad þeir eti sitt eigid braud, 2 Tess. 3; svo ad þegar skorturinn uppá-fellur, þá fara menn ad hnoda braud af steinum, þad er af þeim hlutum sem Gud hefir ecki þar til skickad, og aldrei þar til ætlad; því eru svo margir þeir ed med óleyfiligu og ó-ærligu móti leita sinnar næríngar, og bída ecki eptir því ad Gud hjálpi, bædi þess vegna, ad þeir lærdu aldrei nema ódygdir af fedrum sínum til ad leita brauds med, heyrdu og um fátt annad talad, hins og annars, ad þeir hafa á Gudi eckert traust, þar þeir vita, ad hann ecki brúkar slíka atferd til ad fæda sína. Þegar Jesúm húngradi talar Satan um braud, því hann vissi þad var þad helsta sem hann mætti gángast fyrir; þessa slægsmuni hefir hold og blód af sínum meistara lært; þad sem hvör er gefinn fyrir, þar-um þeinkir hann optast, þad sem einhvör vid-þarf, þad brúkar Satan til ad locka manninn til vondra verka; og svo sem einn klókur veidi-madur, hann leggur þad agn fyrir dýrid, sem hann veit því lostugast þykir, og þá, þegar hann hyggur þad hafa mesta eptirlaungun, svo fiskar og Satan med þörfinni, og krydder agnid med vellystíngunni. Seig þú ad steinar þessir verdi ad braudum; þetta sagdi hann vid Guds Son, og hann lætur ecki af ad predika hid sama, fyrir ödrum sem eiga Guds börn ad heita, jafnvel þótt þá dragi einginn naudur til, og er því æ verr og midur, ad honum tekst meir enn skyldi í slíku, hjá allra handa fólki. Eg spyr? hann er uppskér, hvar hann ecki sádi, gjörir hann ecki steina ad braudum? hann sem útsígur hús eckna og födurlausra, Matth. 23, undir hylmíngu laga og réttinda; hann sem svíkur sinn náúnga í kaupum og sölum; hann sem leggur agn ónaudsynligra og skadsamligra hluta fyrir hans óframsýni og fáfrædi, til ad láta hann húngra á hinni vondu tíd, en feitir sjálfan sig þar med; sá ed inniheldur sveita þess er erfidar; sá ed svíkur þann í sínu erfidi sem hann elur, klædir og launar honum: munu ecki allir þessir og þeir ed þeim líkir eru, munu þeir ecki, segi eg, gjöra steina ad braudum? þetta eru kraptaverk Andskotans, er hann verkar í börnum vantrúarinnar, med hvörjum hann stjórnar sínu ríki, og leidir margan einfaldan til sinnar þjónustu. Satan apar eptir Gudi, hvör ed alla hluti gjördi af eingu, og Satans vildarmenn eptir Christó hans Smurda, hvör ed stadfesti sitt ríki med furduverkum. Þegar Fjandinn hefir kent einum ad feita sig af eingu, nema annara blódi, hvört ad þeim ödrum er flotid burt úr ædunum, þá þenur hann sig út sem annar ístrumagi, Ps. 73, svo ad fáfródir menn glápa á hann svo sem annad furdu-verk, og meina þad sé af himnum komid, sem hann talar og býdur, jafnvel þótt einginn sé hégómi slíkur í Guds dýrdarfulla augliti. Ad eg nú ecki tali um þá sem þiggja Guds ölmusu, hvörja hann skipar í sínu nafni ad gefa þeim, er hann virdist ad kalla sína limu, en undir skini þeirrar fögru nafnbótar, stela þeir, ljúga og ræna, eru bakmálugir, ópacklátir, illyrdtir, hádgjarnir, formæla þeim er brjóta þeim sitt braud, og í stadin þess ad sannir Guds limir leita sér ölmusu í hans ótta, hjá þeim sem hann hefir skipad ad medtaka þá, svo sem sjálfan sig, þá fremja þessir allra handa skammir og lesti í hans nafni, ljúga vid þad og svíkja, sverja og formæla, uppá þad þeir fái sínum ódádum skýlt fyrir mönnum; þessir hygg eg framar öllum ödrum gjöri steina ad braudum, verda þó af oss á-stundum jafnframt ödrum, sem rétta tiltölu eiga, bordsettir í því almenniliga hospítali, sem Gud, allsherjar-konúngur, hefir

stiptad í sinni kristiligri kyrkju. Munum vér þessa mikil not hafa, br. m. í upprisu réttlátra, ef vér gjörum þad vísvitandi? eda þykjumst vér trúir rádsmenn vera yfir Guds gótsi, sem hann hefir oss til umráda og ecki æfinligrar eignar feingid, þar vér gjörum eingan greinarmun á þessum, og kostum forsorgun Guds fátækra lima fyrir Andskotans linu, gjörandi þannin ecki steina ad braudum, heldur braud ad steinum í þeirra grádugum munni, hvörjum leindar-braud smackast lystiliga, en sídan uppfyllist munnurinn med smá-steina, svo sem Salómon ad ordi kémst í hans ordskvidum, 20 kap. og sjálfa oss ad þeirra hluttökurum í syndinni, undir skini misskunseminnar og gódrar meiníngar, en allra helst mannords vegna, hvört oss mun þó ecki fylgja eptir daudan, allra sízt inn í eylíft líf, því þar hafa ecki fyrirheit nema þær ölmusur, sem géfnar eru í lærisveins nafni, Matth. 10. Þad má vel skiljast um þá sem eru sannir Christi lærisveinar, takandi sinn kross uppá sig, og fylgja hönum svo eptir. Þetta gjörum vér, brædur, og þykjumst vel gjöra, jafnvel þótt oss megi alkunnugt bodord St. Páls, 2 Tess. 3, er hann segir: þegar vér vorum hjá ydur, budum vér ydur þad, ad ef nockur vill ecki erfida, þá skal hann ecki eta; því vér heyrum ad nockrir gánga á-medal ydar óskickanliga, gjörandi eckert, heldur hnísa fáfeingiliga (hvört mark vér meigum þeckja á nockrum vorum ölmusu-mönnum) þessum bjódum vér, segir Páls, fyrir Drottinn vorn Jesúm Christum, ad þeir erfidi med spekt, og eti sitt eigid braud; en ef nockur hlýdir ecki þessu voru bodi, þá teiknid mér þad til, og hafid ecki umgeingni med hönum, svo hann skammist sín. Um hina fyrstu freistínguna höfum vér nú heyrt þannin talad; en þegar Satan merkir, ad hönum tekst ecki ad locka Jesúm med efaseminni, reynir hann til á hinn veginn, og vill freista hans med oftrausti. Nógu-vel taladi Satan um sjálfan sig, Job. 1, ad hann sagdist hafa gengid um-kríng; því fyrir utan þad hann gengur um-kríng sem grenjandi león, leitandi ad þeim sem hann kunni upp ad svelgja, þá er hönum þessi atferd næsta töm, er hann brúkar hér vid Christum, ad fara um-kríng og leitast vid á allar sídur, eins og einn slægvitur hertogi, þá hann umsitur eina borg, en bæarmenn hafa med öllum lids-afla fyrirbýist í þeim stad, sem þeir ætludu sér mestrar hættu von, þá fer hann ad þeim óvörum í-kríng, og rædst þar til sem eingin er vorn fyrir; svo gjörir Djöfullinn, géti hann ecki flækt manninn í hyrduleysi, leitar hann til med ofmiklum áhuga, ef ecki í mistrausti, þá med oftrausti, ef ecki med hofmód, þá med hugleisi, ef ecki í heimsku, þá med sérvitsku og svo framveigis. Ef þú ert Guds Sonur, þá fleig þér hér ofan af; alkunnugt er oss, br. m. hvad margur er á-medal vor, sem óvarliga fer med sitt líf, svo sem væri þad einn hlutur, er hann kynni strax aptur ad kaupa, eins og adra voru; svoddan apaskap, kalla menn hugprýdi, og hvör dárinn metst vid annann, svo sem væri þad gódur hlutur. Ad spara ecki líf sitt fyrir Guds sakir, þegar hann vill þad svo hafa, og menn hafa Guds ord fyrir sér, ad þad sé hans vilji, þad er hinn ágjætasti hlutur og elskumerki til Guds, því einginn elskar einn meir, enn hann géfi sitt líf út fyrir hann, Jóh. 15; svo er þad og kostuligt, ef nockur vogar lífi sínu landi og lýdum til varnar, því þad er kjærleikans verk; Gud hefir þad og samþyckt, og bodid allvída hjá sínu fólki Israel; og eg sé, ad Lausnarinn ecki óvirdti hundrads-höfdingjan, þótt hann stríds-madur væri, Matth. 8; eigi heldur vísadi Jóhannes strídsmönnunum frá sinni skírn, heldur gaf þeim bodord, hvörnin þeir

lifa skyldu í sínu standi, Lúc. 3. En þad skédur tídast, br. m. ad þeir sem eru djarfastir í heimskunni, þeir eru ragastir í þessum hlutum, og kémur þad ecki til af hugprýdi, heldur af óviturleik og einrædi, af því Gud hefir vardveitt þá svo tídt í háskanum, þá meina þeir ad þad skuli alltíd eins gánga; enn hver vill skylda hinn Almáttuga til þess? hann vill ecki láta trúa sér til þeirra hluta, sem hann ecki lofad hefir. Gud hefir lofad ad hans Einglar bæri oss á höndum sér, Ps. 91; en ecki nema á vegum vorum. Því ordi stal Djöfullinn undan, þá hann taladi vid Christ, og máské hann steli því og úr þínu hjarta, þá hann gyllir fyrir þér háskan, og þú meinar þad sé allt þinn vegur sem þér hefir einusinni fleist yfir; slíkt er ad freista Drottins, hver synd ad hefir hinn vesta vitnisburd í Ritníngunni; en ef þú í burtu deyr, midt í þessari hrædiligu synd, hvad mun þá af sálunni verda? lát því ecki locka þig af fiflsligri ákéfd, edur fánýtu hrósi, (sem þó er ecki nema í heimskra munni) til ad lída skipbrot á sálu þinni, fyrir hverja GudsSonur er dáinn, Róm. 14. Nú þótt dáraskapurinn sé stór hjá mörgum í þessu, þá er hann þó ecki minni í ödrum efnum. Satan vissi, ad skrifad var um Messíam: snart mun sá Drottnarinn koma til síns musteris, Mal. 3; hefir hönum mátt því líkligt þykja, ad ef hann þæktist Messías vera, þá mundi hönum hér flest-allt leyfast. Þegar Gud hefir nockrum stórt umdæmi í hendur fengid, og sett hann uppá þad háa í sinn stad, þá er hætt vid, ad hold og blód megi ad hönum hvísla: hér kann mér einginn ad granda, og hvad eg adhefst, þad má gott þykja. Fyrir þessar Satans umtölur hefir margur hálsinn brotid; og af því hann mundi ecki til þess stadar, er hann var tekinn frá, sem er leir jardarinnar, þegar hönum var lypt upp í hædina, þá vard fallid hærra enn hann vardi, svo ad þad leirkérid, sem óvarliga var med-farid, datt í smámola. Þegar menn eru í Guds stad settir, þá þeinkja þeir lítt þar til, ad þeir eru af sama efni gjördir og adrir menn; þetta hefir mörgum komid til ad ætla, ad hann væri Guds ígyldi, þegar hann réd fyrir ödrum, svo ad nockrir hafa lidid þad hræsninni, ad setja þad háleita nafn uppá eina vatnsbólu, hvar um Calígula, Neró, Domitíanus og adrir, bera ljósast vitni. Þar verdur ecki á-móti mælt, ad madurinn er eitt drambsamt dýr, Jer. 17; strax sem luckunnar svipvindi hefir brugdid vorri mold og ösku í loptid upp um stundar-sakir, þá vilja sumir menn vera eins og ryk í allra manna augum, gjætandi ecki þar ad, ad þegar vedrinu slotar, þá fellur duptid á jördina, hvadan þad kom, svo þeir sem blindir urdu í þessum þyt, verda heilskygnir aptur, og troda þad undir fótunum, fyrir hverju þeir hræddust litlu ádur. Hér vid kannast Davíd konúngur, sem bædi á sér og sínum reynt hafdi, luckunnar mislyndi, er hann segir, Ps. 1, ad þeir ógudligu séu eins og ryk þad, hverju vindurinn feykir, þar fyrir kunni þeir ecki ad standast í dóminum; fyrir því, hafi Gud nockurn hátt settan, og gjört hann ædri ödrum mönnum, er þad í vísdómi eda í yfirvaldi, er þad í aud og ríkidæmi, er þad í líkhamans styrkleika, edur ödru atgjörfi, þá þeinki hann med sér, ad hann á ecki þar med ad höndla, svo sem hönum sjálfum líkar, heldur svo sem Gud hefir bodid, og hafi fyrir augum sér þad Páll segir; hvad er þad madur! ad þú hafir þad ecki þegid? 1 Cor. 4. Þér erud gudir segir Davíd, Ps. 82, en þó skulud þér eins og menn deya. Tökum oss ordsök þar af ad þeinkja, ad þótt Gud hafi sett uppá

oss nockra líking sjálfs síns, edur skugga sinnar tignar í því ad ráda fyrir ödrum, þ
kémur þó sá dagur um sídir, ad menn skulu standa reikníngskap af þeirra rádsmensku, Lúc
16. Pad var vel tilfundid sem tals-madur þeirra í Scytía, sagdi vid hinn stóra Alexan
drum: ef þú ert gud, þá átt þú ad medbíta mönnunum þín gædi, en ecki ad taka þeirr
frá þeim. Ecki var Guds eingétnum Syni ómáttugt ad stíga ofan af musteris-bustinni
en hann vildi ecki gjöra kraptaverk, Andskotanum til eptirlætis, eigi heldur til skémtuna
Heródi edur hans vildarmönnum, Lúc. 23. Hann gjördi sín dásemdarverk aldrei forgef
ins, heldur mönnunum til góda; hann læknadi sjúka, Act. 10; mettadi húngrada, Jóh
6; uppvakti dauda, Jóh. 11; snéri vatni í vín, þegar medþurfti, Jóh. 2. Pú sem a
Gudi hefir, framm yfir adra mikid þegid, gack í hans blessud fótspor, og ef þú vilt sýna
þína yfirburdi í nockru, þá gjör þad til gagns og nota þínum brædrum í heiminum, og lát
eingum illa lída af Guds gáfum fyrir þína vanbrúkun; en sýn ecki fordild þína þar med,
Andskotanum og vondri veröldu til athlátúrs og augna-gamans. Nú höfum vér þannin
heyrt þessar tvær freistíngar; en þegar Satan finnur ad hann ecki neitt orkar, med efasem
inni edur ofttraustinu, med hvörjum hann plagar almenniliga ad pretta manninn í heiminum
og eru hans dagligar veidibrellur, þá tekur hann til þess, sem hann vissi ad sterkast va
sem er óleyfilig girnd til audæfa og metorda. Textinn segir, ad hann hafi fært Herran
uppá eitt ofur-hátt fjall, og sýnt hönum þadan öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrd, sa
sídan: allt þetta vil eg géfa þér, ef þú fellur fram og tilbidur mig. Hér var ærid mik
í bodi, e. G. b.! og er þad mála sannast, ad margur hefir lotid Andskotanum fyrir minni
minna var þad sem Balam vann til þess, ad hann vildi formæla Israel, Núm. 22; mini
var gulitúngan og kápan og þeir 200 siklar silfurs, sem Achan misti lífid fyrir, Jós. 7
eigi var Naboths víngardur svo mikils virdi, sem Achab tapadi fyrir lífinu, ríkinu og all
sinni velferd, 1 Reg. 21; eigi var hátída-klædnadurinn og þau tvö centener silfurs, se
Gezi laug út af Naman hinum sýrlendska, 2 Reg. 5, mikid ad reikna hjá þessu, og hva
vóru þeir 30 silfur-peníngar sem Júdas keypti, Matth. 27, fyrir Skapara himins og jarl
ar? Hvörsu næm ad sé þessi Andskotans snara til ad veida syndugar sálir, þar eru óta
dæmi uppá. En gjæt ad þeim ordum, kristinn madur, sem þinn Endurlausnari segir
hvad gagnar þad manninum, þó hann eignist alla veröldu, en lídi töpun á sálu sinni
Matth. 16. Eg medkénni ad góts og peníngar eru stór Guds gáfa, þegar þau eru
Guds hendi medtekin, en ecki hripsud af munni síns náunga, hins fátæka, eckjunnar
hins födurlausa; en eigi eru þau þess verd, ad falla á kné fyrir Andskotanum, til þess
eignast þad sem ecki er nema til þýngsla, og til ad þrælka fyrir þeim ómaga, sem e
hefir vit á hvad vid hann er gjört; til ad þjóna einum nídingi, sem aldrei saddi sin
þénara, hvad þeir þó allir gjöra, sem annadhvört afla fjárins med ránginndum, edur set
sitt hjarta þar-vid. Hin grimmu villidýrin á mörkinni hafa sinn vissan skamt, og þe
taka ecki brádina nema húngrud; en grædgi hins fégjarna tekur aldrei enda; hann et
altíd, og er þó altíd soltinn; hann óttast ecki Gud, og eigi skammast hann sín fyrir mön
unum; hann þyrmir ecki födur né módur; hann undirþryckir eckjuna og rænir hinn födu
lausa, hvörju eckert er herfiligra meistara-stické Andskotans, enn ad horfa uppá einn Gul

vesæling, sem nauðstaddur er, og slíta þann bita brauðs frá hans húngruðum munni, sem hin milda Drottins hönd hefir hönum rétt til að seðja hann á. Það er satt, sem Páll segir, að fégirndin sé rót alls hins illa, 1 Tím. 6. Vilji menn uppræta illgresið af akrinum, þá skulu menn rótina einnvegin burttaka; eg efast og ekki um, að sá sem ágirndinni hefir útskúfað úr sínu hjarta, hann hefir og girdt fyrir marga lesti; því hvað er það íllt, sem ekki fylgir einum fé-púka? meinsæri, manndráp, lýgi, svik, fals, agg, þræta og annað, sem hér út af fæðist; svo að einn af þeim Spökú forðum, er hann var aðspurður, hvört að væri hið versta dýr á jörðunni? þá svaraði hann: að það væri león og birnir á fjöllunum, en ágjarnir menn í bygðinni. Eg veit ekki líkari skurð-goð enn Mammon og Móloch, svívirðíng Ammons barna, 1 Reg. 11, hvör eð sitt nafn hefir af ríki; þessum afguð offruðu heiðnir menn, og á-stundum Gyðíngar börn sín, og létu þau gánga í gégnum eldin hönum til þjónustu, 2 Reg. 21; hvörjum ekki ólíkir eru þeir, sem kveikja í hjörtum barna sinna strax á únga aldri ólevfiliga elsku til auðs og fjárafla, og kénna þeim að þéna Mammóna fyrr enn Guði, og að hafa sitt yndi og eptirlæti í óþörfum maurum, lángt framar enn í góðum siðum og dygðum, þar til að líf og sál standa í björtu báli. Og þótt nú að metorða-girndin haldist af flestum að vera nær manndygðunum, þá eru þó báðar skaðligar, og haldast gjarnan í hendur, þó svo, að þar sem metorða-girndin er ein-saman, þá er hún þess stærri ef ágirndin henni ekki fylgir; því ágirndin er þúng og dregur þann til jarðarinnar, sem vill képpast uppá það háfa; en í því eru þær svo líkar, sem ein systir kann nockurn-tíma að vera annari, að þær gjöra báðar lækníngana að skjæðari sjúkdómi og saðnínguna að sulti; því eins og hinn ágjarni vill þess meir, sem hann meir hefir, og vantar altíð einnin það, sem hann hefir; svo er og hinn metorða-gjarni aldrei ánægður með það stand, sem hann er í, heldur képpist altíð upp eptir. Það er og fullkomliga satt, að metorða-girndin hefir ekki færrum steypt enn fésínkin; fyrir hana er öll ólucka innkomin í heiminn; þegar Djöfullinn vildi heldur stjórna enn hlýða, þá hrapaði hann mörgum til ólucku. Eg þykist vita að, Eva hafi ekki gengist svo fyrir eplinu, heldur muni það hafa gengið henni í augu, að hún ætti Guði lík að verða, Gén. 3. Hvað miklu illu hefir nú metorða-girndin af stað komið síðan í heiminum? hún sló Maríam Arónis systur með líkþrá, Núm. 12; hún lauk jörðunni upp undir Córe, Dathan og Abíram, Núm. 16; hún heingdi Absalon upp í eikina, 2 Sam. 15 og 18; hún blandaði ösku Zambrí saman við kongúngsins hús-ösku, 1 Reg. 16; og er það nú lítils-verdt og næsta makligt, þó hún slái sinn eiginn mann um háls, en það er miklu hryggiligra og aumkunarverðara, þegar heilum löndum og ríkjum illa líður fyrir eins hroka, og það kostar margra manna góts og velferð, þegar tveir stórir þrátta. Guð gæfi menn vildu þó gæta þar að, að sú æra sem menn hafa af metorðunum, er einganvegin verð þess erfiðis, sem þar er uppá kostað. Annaðhvört komast menn þar til með réttu eður raungu; ef með réttu, þá skulu menn leingi þrælka, áður enn menn koma til nockurs, og fyrir mikið erfiði komast menn til annars stærra, því þá menn eru þar komnir, taka menn vald yfir öðrum, en missa valdið yfir sjálfum sér; því ein kostgæfin yfirvalds-persóna er ekki sjálfráð, heldur allra þeirra þénari

oss nockra líking sjálfs síns, edur skugga sinnar tignar í því ad ráda fyrir ødrum, kémur þó sá dagur um sídir, ad menn skulu standa reikníngsskap af þeirra rádsmensku, !
16. Þad var vel tilfundid sem tals-madur þeirra í Scytía, sagdi vid hinn stóra Alex drum: ef þú ert gud, þá átt þú ad medbíta mønnunum þín gædi, en ecki ad taka þei frá þeim. Ecki var Guds eingétnum Syni ómáttugt ad stíga ofan af musteris-bustin en hann vildi ecki gjøra kraptaverk, Andskotanum til eptirlætis, eigi heldur til skémtu Heródi edur hans vildarmønnum, Lúc. 23. Hann gjørdi sín dásemdarverk aldrei for ins, heldur mønnunum til góda; hann læknadi sjúka, Act. 10; mettadi húngrada, J 6; uppvakti dauda, Jóh. 11; snéri vatni í vín, þegar medþurfti, Jóh. 2. Þú sem Gudi hefir, framm yfir adra mikid þegid, gack í hans blessud fótspor, og ef þú vilt s þína yfirburdi í nockru, þá gjør þad til gagns og nota þínum brædrum í heiminum, og eingum illa lída af Guds gáfum fyrir þína vanbrúkun; en sýn ecki fordild þína þar m Andskotanum og vondri veraldu til athláturs og augna-gamans. Nú høfum vér þan heyrt þessar tvær freistíngar; en þegar Satan finnur ad hann ecki neitt orkar, med efas inni edur oftraustinu, med hvørjum hann plagar almenniliga ad pretta manninn í heimin og eru hans dagligar veidibrellur, þá tekur hann til þess, sem hann vissi ad sterkast v sem er óleyfilig girnd til audæfa og metorda. Textinn segir, ad hann hafi fært Herr uppá eitt ofur-hátt fjall, og sýnt hønum þadan øll ríki veraldarinnar og þeirra dýrd, s sídan: allt þetta vil eg géfa þér, ef þú fellur fram og tilbidur mig. Hér var ærid mi í bodi, e. G. b.! og er þad mála sannast, ad margur hefir lotid Andskotanum fyrir mi minna var þad sem Balam vann til þess, ad hann vildi formæla Israel, Núm. 22; mi var gulltúngan og kápan og þeir 200 siklar silfurs, sem Achan missti lífid fyrir, Jós. eigi var Naboths víngardur svo mikils virdi, sem Achab tapadi fyrir lífinu, ríkinu og a sinni velferd, 1 Reg. 21; eigi var hátída-klædnadurinn og þau tvø centener silfurs, Gezi laug út af Naman hinum sýrlendska, 2 Reg. 5, mikid ad reikna hjá þessu, og h vóru þeir 30 silfur-peníngar sem Júdas keypti, Matth. 27, fyrir Skapara himins og j ar? Hvørsu næm ad sé þessi Andskotans snara til ad veida syndugar sálir, þar eru dæmi uppá. En gjæt ad þeim ordum, kristinn madur, sem þinn Endurlausnari se hvad gagnar þad manninum, þó hann eignist alla veraldu, en lídi tøpun á sálu si Matth. 16. Eg medkénni ad góts og peníngar eru stór Guds gáfa, þegar þau eru Guds hendi medtekin, en ecki hripsud af munni síns náúnga, hins fátæka, eckjunnar hins fødurlausa; en eigi eru þau þess verd, ad falla á kné fyrir Andskotanum, til þess eignast þad sem ecki er nema til þýngsla, og til ad þrælka fyrir þeim ómaga, sem hefir vit á hvad vid hann er gjørt; til ad þjóna einum nídingi, sem aldrei saddi þénara, hvad þeir þó allir gjøra, sem annadhvørt afla fjárins med rángindum, edur sitt hjarta þar-vid. Hin grimmu villidýrin á mørkinni hafa sinn vissan skamt, og taka ecki brádina nema húngrud; en grædgi hins fégjarna tekur aldrei enda; hann altíd, og er þó altíd soltinn; hann óttast ecki Gud, og eigi skammast hann sín fyrir m unum; hann þyrmir ecki fødur né módur; hann undirþrycker eckjuna og rænir hinn f lausa, hvørju eckert er herfiligra meistara-stícki Andskotans, enn ad horfa uppá einn G

vesæling, sem naudstaddur er, og slíta þann bita brauds frá hans húngrudum munni, sem hin milda Drottins hönd hefir hönum rétt til ad sedja hann á. Þad er satt, sem Páll segir, ad fégirndin sé rót alls hins illa, 1 Tím. 6. Vilji menn uppræta illgresid af akrinum, þá skulu menn rótina einnvegin burttaka; eg efast og ecki um, ad sá sem ágirndinni hefir útskúfad úr sínu hjarta, hann hefir og girdt fyrir marga lesti; því hvad er þad illt, sem ecki fylgir einum fé-púka? meinsæri, manndráp, lýgi, svik, fals, agg, þræta og annad, sem hér út af fædist; svo ad einn af þeim Spökn fordum, er hann var adspurdur, hvört ad væri hid versta dýr á jördunni? þá svaradi hann: ad þad væri león og birnir á fjöllunum, en ágjarnir menn í bygdinni. Eg veit ecki líkari skurd-god enn Mammon og Mólóch, svívirdíng Ammons barna, 1 Reg. 11, hvör ed sitt nafn hefir af ríki; þessum afgud offrudu heidnir menn, og á-stundum Gydíngar börn sín, og létu þau gánga í gégnum eldin hönum til þjónustu, 2 Reg. 21; hvörjum ecki ólíkir eru þeir, sem kveikja í hjörtum barna sinna strax á únga aldri óleyfiliga elsku til auds og fjárafla, og kénna þeim ad þéna Mammóna fyrr enn Gudi, og ad hafa sitt yndi og eptirlæti í óþörfum maurum, lángt framar enn í gódum sidum og dygdum, þar til ad líf og sál standa í björtu báli. Og þótt nú ad metorda-girndin haldist af flestum ad vera nær manndygdunum, þá eru þó bádar skadligar, og haldast gjarnan í hendur, þó svo, ad þar sem metorda-girndin er ein-saman, þá er hún þess stærri ef ágirndin henni ecki fylgir; því ágirndin er þúng og dregur þann til jardarinnar, sem vill képpast uppá þad háfa; en í því eru þær svo líkar, sem ein systir kann nockurn-tíma ad vera annari, ad þær gjöra bádar lækníngana ad skjædari sjúkdómi og sadnínguna ad sulti; því eins og hinn ágjarni vill þess meir, sem hann meir hefir, og vantar altíd einnin þad, sem hann hefir; svo er og hinn metorda-gjarni aldrei ánægdur med þad stand, sem hann er í, heldur képpist altíd upp eptir. Þad er og fullkomliga satt, ad metorda-girndin hefir ecki færrum steypt enn fésínknin; fyrir hana er öll ólucka innkomin í heiminn; þegar Djöfullinn vildi heldur stjórna enn hlýda, þá hrapadi hann mörgum til óluckn. Eg þykist vita ad, Eva hafi ecki gengist svo fyrir eplinu, heldur muni þad hafa gengid henni í augu, ad hún ætti Gudi lík ad verda, Gén. 3. Hvad miklu illu hefir nú metorda-girndin af stad komid sídan í heiminum? hún sló Maríam Arónis systur med líkþrá, Núm. 12; hún lauk jördunni upp undir Córe, Dathan og Abíram, Núm. 16; hún heingdi Absalon upp í eikina, 2 Sam. 15 og 18; hún blandadi ösku Zambrí saman vid konúngsins hús-ösku, 1 Reg. 16; og er þad nú lítils-verdt og næsta makligt, þó hún slái sinn eiginn mann um háls, en þad er miklu hryggiligra og aumkunarverdara, þegar heilum löndum og ríkjum illa lídur fyrir eins hroka, og þad kostar margra manna góts og velferd, þegar tveir stórir þrátta. Gud gæfi menn vildu þó gæta þar ad, ad sú æra sem menn hafa af metordunum, er einganvegin verd þess erfidis, sem þar er uppá kostad. Annadhvört komast menn þar til med réttu edur raungu; ef med réttu, þá skulu menn leingi þrælka, ádur enn menn koma til nockurs, og fyrir mikid erfidi komast menn til annars stærra, því þá menn eru þar komnir, taka menn vald yfir ödrum, en missa valdid yfir sjálfum sér; því ein kostgæfin yfirvalds-persóna er ecki sjálfrád, heldur allra þeirra þénari

sem hann er yfirbodinn, og má tídt vaka þegar hinir sofa. En hafi hann gengid [
ránga veg med Satans listum, þá heitir tignar=sætid stóll hádúngarinnar, og er svívirl
bædi fyrir Gudi og mønnum, svo sem Prédikarinn segir, Kapít. 7, ad sá sem ráng
tekur sér valdid til, muni hatadur verda; því hygg eg þad rétt væri sem Jóas, Ísr
konúngur, sagdi vid Amazíam Júda konúng: þú hefir slegid Edom, þar fyrir er þitt hj
upphafid; haf þú þína vegsemd og sit í þínu húsi; hvar fyrir skyldir þú skipta þér
illu, svo þú fallir og Júda med þér, 2 Cron. 25. Svo er nú ágirnd og ofmetnc
næsta skadligir lestir. Þar fyrir, vilji Satan freista þín þar med, kristinn madur, þá
hann med Guds ordi, svo sem Jesús gjørdi: vík frá mér Satan, þvíad skrifad er: D
inn Gud þinn skalt þú tilbidja, og hønum einum þjóna. Nú er þad øldúngis ómøgi
undir eins Gudi ad þjóna og Mammóna, Matth. 6; viljir þú þar fyrir ad þitt hj
sé Guds musteri, þá rek Satan út þadan med hans bølvadri aura=elsku. Satan á
þad hann géfur, heldur er þad allt þjófstolid, sem af hans hendi er þegid. Vei þér (
tan! hvør hefir géfid þér øll ríki veraldarinnar, svo þú megir þau aptur géfa? Þú átt
rád á einni mý=flugu, nema Gud leyfi; og þótt þú mættir nockru hér um ráda, þá vil
vér ecki taka þínu bodi, en sleppa hønum sem bædi himin og jørd hefir í sinni hendi,
oss hefir sál og líkhama géfid, sem oss hefir frelsad frá þínu valdi, Col. 1, sem hefir g
sitt líf í daudan fyrir oss, Jóh. 10, sem hefir sendt sinn Anda í vor hjørtu, Gal. 4,
ad ber vitnisburd vorum anda, ad vér séum Guds børn, Róm. 8. O, þú eylífi Konú
ur dýrdarinnar! sem ad ert hógvær og af hjarta lítilátur kénn þú oss ad eptirfylgja þ
blessada dýrdar=dæmi hér í heimi, svo vér megum þér sídan inn í þína eylífu dýrd fyl
og til þess himneska hábords upphafdir verda, til ad sýngja þeirri háleitu Guddóm
Þrenníngu eylífa dýrd og lof um allar aldir alda, amen!

## Annann Sunnudag í Føstu.

Gudspjallid, Matth. 15 Kap.

Í þann tíma; og Jesús géck burt þadan, og fór í lands=byg
Týri og Sídónis; og sjá þú, ad kanversk kona géck út af þe
sømu takmørkum, kalladi eptir hønum, segjandi: Herra, sonur D
vids! miskuna þú mér, mín dóttir kvelst illa af Djøflinum.
hann svaradi henni eingu ordi; hans lærisveinar geingu til ha
bádu hann og søgdu: láttu hana fara, af því hún kallar ep
oss; en hann svaradi og sagdi: eg em ecki sendur nema til fort
adra sauda af húsi Ísraels. En hún kom og tilbad hann, s
jandi: Herra! hjálpa þú mér. En hann svaradi henni og sag
þad er ecki gott ad taka braudid barnanna, og kasta því fy
hvolpana. En hún sagdi: satt er þad, Herra! en þó eta hvolp
nir af molum þeim, sem detta af bordi drottna þeirra, þá sv
adi Jesús og sagdi til hennar: o, kona! mikil er þín trú; ve

þér svo sem þú vilt. Og á þeirri sömu stundu vard hennar dóttir heilbrigd.

## Exordium.

Vér bidjum í vorri drottinligri bæn, börn Guds elskulig: eigi leid þú oss í freistni. Nú er tvöfold freistni til; önnur kémur af Gudi, önnur af Andskotanum; önnur leidir til lífsins, önnur til helvítis. Sú sem af Gudi kémur, hún er hennar lækníng, sem kémur af Satan. Þad er ecki ótamt hinum almáttuga Konúngi, ad láta Djöfulinn detta á sínu eigin bragdi, og sína freistni hans freistíngar yfirvinna. En þó ad þessar athafnir Guds og Djöfulsins hafi sama nafn, þá eiga þær þó ecki saman nema nafnid; Djöfullinn geingur ecki í berhögg vid mennina, því hann veit þeir fælast sig, heldur hefir hann tvo stallbrædur, sem ecki eru svo uggvænir, en þó ecki öllu sídur skadvænir, annar er hid ytra, annar hid innra; Þessi er vort hold og blód med þess tilhneigíngum, hinn er veröldin med sínum illum dæmum; hinn sídari af því hann er vondur, og liggur í því vonda, 1 Jóh. 5, þá leidir hann til hins illa; sá fyrri er hálfu verri; margur kann sá ad fordast adra, sem ecki gétur fordast sjálfan sig. Hold og blód er gamall skutul-sveinn Djöfulsins, sem framreidir allra-handa sætar, en þó eitradar vistir. Þegar Andskotinn býdur manneskjunni til snædíngs, enn sálin liggur blind í sænginni eins og Isak, og veit eigi hvört þad eru heldur Jakobs edur Esaú hendur, sem hún þreifar á, jafnvel þó hana grilli til ad þeckja raustina, Gén. 27; svo mikid lángar hana í þann fersku rétt, veit þó ecki ad gjöra grein á, hvört heldur hann er med boganum veiddur, eda af hjördinni tekinn. Vei þeirri borg, hvör ed bædi hefir óvinina utan fyrir portunum, og líka inni á strætunum; en eingu betur erum vér á oss komnir í andligum efnum; alla vega umkríngir holdid oss, á hægri sídu med girnd audæfa og metorda, á vinstri hlid med örbyrgd og örvínglan; fyrir framan oss stendur sjálfs-þóttinn og virdíng vors eigin ágjætis; á bak vid oss assókun og þeckíngarleysi syndarinnar, innvortis slög samvitskunnar, illar girndir og tilhneigíngar. Þessi er nú Andskotans freistni og eldligar pílur þess breckvísa, Eph. 6; en sökum þess þær eru syndugri manneskju svo skjædar, ad þar er eingin lífs- edur heilsuvon, ef Djöfullinn, heimurinn og holdid mega sínu fram-fara, þá freistar Gud mannsins, sálunni til heilsubótar; en Gud freistar vor, bædi sjálfra vor vegna og svo náúngans. Þad sem Djöfullinn gjörir med illum heimsins eptirdæmum til ílls, þad gjörir Gud til eptirdæmis med krossburdinum til góds. Margur mundi halda sig saklausann, nema Gud typtadi hann og rydi mótlætínganna vatni á vor blindu augu, svo ad vér sjáum vora ómynd. Þegar Gud birtist fedrunum í gamla Testamentinu, þá skédi þad opt í einu leiptrandi skýi, og svo nú eg þad verdi enn-nú í dag, ad valla fái menn rétt Gud sénan, nema hans dýrd bregdi fyrir oss í þoku mótlætínganna; því á-medan vel geingur, þykist madurinn svo sem sjálfskilid eiga allt þad hann þiggur af Drottni; en þegar hann tekur þad burt, þá leita menn hans med ángist. Kunnugliga talar Davíd hér um, Ps. 30: eg sagdi þá mér vel géck: eg skal aldrei skiljast frá Drottni, því þú Drottinn veitir stadfestu mínu bjargi med þinni þóknan; en þegar þú byrgdir þitt andlit fyrir mér, þá skélfdist eg, þá kalladi eg til Drottins og eg grátbændi hann. Aptur freistar Gud þeirra er hann vill, ödrum til eptirdæmis, svo sem Abrahams og Jobs, hvad ljóst er af hans sögu, er öllum er skrifud til eptirdæmis. Og sjáum vér nú af þessu, ad Gud freistar mannsins bædi þeim til gagns, er hann leggur sinn kross á herdar, svo og ödrum til fyrirmyndunar. I þessu h. dags Evangelió, höfum vér dæmi einnar kvinnu, hvör ed þá fyrst leitadi ad Christó, þegar naudin þrísti henni þar til. Og viljum vér þad nú med þess lærdómum yfirvega, eptir því sem Gud géfur nád til. Hjálpa oss þar til nádugi Gud fyrir þinn son Jesúm, amen!

## Utleggíngin.

Þegar Markús segir frá þessari historíu í hans gudspjalla, kap. 7, þá gétur hann um, ad Jesús hafi svo sem falid sig í þessum stad, því hann hafi geingid inn í eitt hús, og hafi

eigi viljad láta neinn vita þad. Hvar varstú nú minn Herra, sem segir: eg er fundinn af þeim sem ecki leitudu ad mér; þú sem ad hrópadir, Matth. 11: komid til mín allir þér sem erfidid og þúnga erud þjádir, eg vil endurnæra ydur? Hvar varstú þá? er nockud þín hönd stutt vordin ad þú kunnir ecki, eda þitt eyra svo tillukt, ad þú viljir ecki hjálpa? sannliga er þad ecki, heldur kémur þad hér fram sem hin eylífa Spekin segir: eg leik mér vid mannanna sonu, Prov. 8. Svo plagar Fadir miskunsemdanna ad breyta vid sín börn; hann hylur sig um stundar-sakir, svo ad manneskjan leiti hans andlitis. Vissi Jesús ad Lazarus vinur hans lá veikur, Jóh. 11, samt var hann fjarlægur hönum á-medan hann tók hann burtu. Eigi var hönum ókunnugt ad vín-skortur var í Kana, en þó dróg hann undan ad snúa vatninu í vín, þar til hans stund var komin, Jóh. 2. Ymisliga breytir Gud vid sína; hvör hefir nockurn-tíma hans rádgjafi verid? Róm. 11. Hann deildi á konúngs-manninn þá hann leitadi hjálpar vegna Sonar síns, Jóh. 4; hann baud hundrads-höfdíngjanum ad gánga samstundis heim og lækna þjón hans, Matth. 8; hann fann strax krapt út af sér gánga, þá hin blódfallssjúka hrærdi vid hans klæda-faldi, Marc. 5, en fyrir þessari naudstöddu konu hylur hann sig. Þó kann ecki sól réttlætisins ad leyna sér, því segir og Markús, ad þessi kona hafi heyrt af Jesú og þar fyrir til hans komid, því hann hafi eigi gétad dulist. Hvör er þá bón hennar? hún hrópadi og sagdi: Herra, Sonur Davíds! miskuna þú mér. O! hvad dýrmætur hlutur er krossinn, hann kann ad reka manninn út af Tyró og Sidon, þad er af vondri veröldu þessari til ad leita ad Christó. Hann er einn andligur segul-steinn, sem mannanna stál-hjörtum upprickir í hædirnar til Guds lifanda. Herra sonur Davíds! segir þessi kona; stuttord er bæn hennar, en eckert er hér eptirskilid þad sem audmjúkri syndugs manns bæn á ad fylgja; med herra-titlinum játar hún sína undirgéfni; var hann herra, þá var hún hans ambátt, en med nafni Davíds-sonar telur hún sig í ætt vid hann; ecki þad hún væri af Davíd komin, heldur af Adam, hvörs nidji Davíd var. O, minn Jesú! þeir eru þín módir og þínir brædur, sem eru þínir lærisveinar, Matth. 12; en þínir lærisveinar eru allir þeir er þitt ok uppá sig taka, og fylgja þér eptir, Lúc. 14; medal hvörra þessi útlendíngur var eigi hinn sídasti. Þad var henni ecki nóg, minn Jesú! ad þú varst hennar herra, þad er annad ad kunna, annad ad vilja; en þad hún kallar þig Davíds son, þad er: hold af hennar holdi og bein af hennar beinum, þad var biturt skeyti, sem án alls efa hefir stúngid þín miskunar-idur; þetta styrkir St. Páll, Hebr. 2, segjandi: hönum byrjadi brædrunum í öllu samlíkur ad vera, uppá þad hann miskunsamur væri, og trúr biskup í því sem hjá Gudi átti ad gjöra; því sökum þess hann lidid hefir þá hann var freistadur, þá kann hann og ad hjálpa þeim sem freistadir eru. Miskuna þú mér segir konan; hún kémur til Jesúm, ecki svo sem til annars læknirs, þeim er menn bjóda laun fyrir sit ómak, ecki heldur í trausti sinnar forþénustu; miskuna þú mér, segir hún, en ecki minni dóttur; játandi þar med, ad ecki þyrfti hennar dóttir einasta miskunar vid, heldur væri og sjálf hún óverdug í Guds augliti sinna synda vegna, þad hann skyldi hjálpa hennar lífs-afkvæmi, hvört hún eigi einasta hafdi gétid og fædt í syndinni, heldur uppalid medal ógudligra manna vid Satans þjónustu, og í hans dýrkun. Lær hér af, syndugur madur! nær þú framkémur fyrir Gud

ad þiggja nockud af hans ørlætis hendi, ad afneita sjálfum þér og øllum þínum verdugleik, og gjør ecki þín gódverk, ef nockur eru, ad hinni verstu synd, med ofmiklu trausti á þeim, edur dálæti vid sjálfann þig, heldur seig þú med þessari konu og Davíd: miskuna þú mér Gud eptir mikilli miskunsemi þinni, og eptir mikilleik miskunsemda þinna, afmá þú mitt ránglæti, Ps. 51. Þessi fáráda manneskja leggur ordsøkina til, hvar fyrir hún svo grátbæni: mín Dóttir kvelst illa af Djøflinum. Ó, neyd! ó, neyd! ó, sorg! ó, sorg! hvad gódur skóla-meistari ertú? og hvørsu sýnt er þér um ad gjøra hinar fárádu túngurnar vel talandi? eckert er hér eptirskilid, sem eitt manns hjarta kynni ad hræra til medaumkunar, svo hér var á eingan veg hægt undan ad komast fyrir þann, sem allt vald hefir, bædi á himni og jørdu, Matth. 28; og er þó undir eins svo líknsamur sem Fadirinn er børnunum miskunsamur, Ps. 103, hún kallar hann herra, því treystir hún ad hann gjæti; hún kallar hann son Davíds, því vard hann ad vilja; hún bidur um miskun; hvørt vildi þá brunnur miskunarinnar láta sína læki renna, ef ecki í svoddan trúar-skaut? en þetta eykur mjøg svo á, ad hún bidur fyrir sitt eigid lífs-afkvæmi, hvørs sál ad héck af hennar sál, eins og Jakobs og Benjamíns; hún segir: mín Dóttir, þad var sárt; hún kvelst, þad var herfiligra; hún kvelst illa, þad var óbæriligt, og þad af Djøflinum, þad yfirgéck alla tímanliga hørmúng. Líkamligur sjukdómur liggur ærid þúngt á, og næsta hart er ad sjá uppá sína þegar svo tilfellur; en þad geingur nærst hinum bitru helvítis píslum, þegar Andskotinn fær leyfi til med sínum ílsku-krapti ad búa í syndugs manns holdi, og slíta þad og kremja eptir sínum vilja. Hvad fast mun hin heita módur-ást hafa þreyngt ad hans hjarta, er sjálfur segir, Esa. 49: kann nockud módirinn ad gleyma sínu barni, syni síns kvidar, og þó hún gleymi því, þá vil eg samt ecki gleyma þér. Sjá eg kém, vill þessi kona segja: eg er ein vesæl módir eg bid um miskun, ecki um muni þessarar veraldar, ecki um líf óvina minna, alleina bid eg ad mitt barn, sem er Guds volud sképna, ad þad mætti fríast frá Djøfulsins valdi og ofríki. Mun ecki Jesús hafa þeinkt til sinnar módur, sem stód sídan undir hans krossi, þegar hann héck þar svo sem madkur en ecki madur afmyndadur af Djøfulsins þrælum? mún nú ecki hann sem í bitrustu daudans ángíst og helvítis kvølum staddur, sá aumur á sinni módur, mun hann ecki, segi eg, hafa aumkast yfir þessari voludu manneskju? Eigi er þad ad efa, sem sídar gaf raun vitni; en þó segir textinn oss, ad hann hafi ecki svarad henni einu ordi. Hvílíkt er þetta, ofan á alla hennar neyd -eykur þetta næsta miklu. Hin blessada réttlætis sól, Mal. 4, upprann henni um stundar-sakir, en ský þagnarinnar dró fyrir hana aptur. Hvad skal hér til segja? kann ecki þad eylífa ordid ad tala? heyrir hann ecki, sem eyrad hefir plantad? er hann afundinn, sem øllum býdur til sín ad koma? Matth. 11; hvar eru nú þín ord, minn herra Jesú! et þú sagdir fyrir munn Esa. 65 kap.? þad skal ské ádur enn þeir ákalla mig, vil eg svara, og á-medan þeir eru ad bidja, vil eg bænheyra þá. Þetta sýnist hér allt ad eingu verda; en vér viljum hér standa vid um stund, G. e. b.! þad væri ecki gott fyrir oss, ad vér skyldum øllum stundum bænheyrdir verda; þeir eru eigi allir, sem Gud fái til sín leidt med taumi nádarinnar, nema hann slái ødruhvørju med svipu tiptunarinnar. Þegar vel géck, snérum vér bakinu vid Gudi; vér fórum illa med hans gáfur; vér forsómudum ad brjóta vort

braud hinum þurftuga og volada; oss fanst eckert til, þegar Gud lét oss falla allt í kjør og eigi þádu menn Guds ørlæti, svo sem af hønum komid, heldur svo sem af vorum hand afla, vorum atburdum, vorri framsýni: er þá ad furda þótt hann megi þegja um stundar sakir vid oss? svo ad vér høldum oss ecki saklausa, og lærum, ad øll gód gjøf og fullkomin gjøf kémur ad ofan frá Fødur ljósanna, Jac. 1; og ecki gjørir Gud einasta þetta vid hin þrálátu, heldur og vid sín elskulig børn. Sannliga hefir hann ként í brjósti um eymd þessarar konu, en þó svarar hann henni ecki einu ordi; hann vill þeir bidji svo þeir fái, leiti svo þeir finni, knýi á, svo fyrir þeim upplokid verdi, Lúc. 11. Heyrid Davíd konúng, sem var ástvinur Drottins, hvørsu hann klagar yfir hans þøgn vid sig, hvørt heldur hann talar þad undir sinni edur Messíæ persónu: hvar fyrir ert þú fjarlægur mínu hjálprædi, og svo fjærri mínu hrópi, Gud minn! dag og nótt kalla eg til þín, og finn þó einga hvíld, Ps. 22. Nú, þótt ad Gud svo þegi vid oss á-stundum, þá mun hann samt hjálpina ecki leingi undan-draga; svari hann ecki svo sem vér viljum, þá svarar hann svo sem hann vill; vér vitum eigi hvørs vér bidjum, en hann veit hvad oss er fyrir bestu. Ef vér yrdum altíd bænheyrdir, þá kannské hann gæfi oss høggorm fyrir fisk, edur stein fyrir braud, já, høggorms-eyru fyrir umskorin eyru, steinhjarta fyrir kjøtligt hjarta; enn þad sama er á-móti hans fødurligu hjartalagi. Hann bænheyrdi ecki Elíam þá hann bad hann ad taka sína sálu frá sér, 1 Reg. 19; heldur gaf hann hønum krapt til ad mótstanda Jessabel og øllu Achabs húsi; hann heyrdi ecki svo brádliga harmakløgun Jobs, en hann gaf honum yfirmáta mikla þolinmædi, Job. 2; hann tók eigi kaleikin frá sínum elskuliga Syni, heldur sendi honum Eingil af himni, Lúc. 22; og svo gjørir Gud enn nú vid hans sam-arfa, taki hann ecki frá þeim hørmúngina, þá sendir hann þeim þó krapt til ad bera hana. Hvørt er betra ad reka fjandmanninn burt, edur ad géfa megn og mátt til ad sigra hann? Hefdi Golíath á bak aptur hørfad, hvar var þá Davíds sigur? 1 Sam. 17; hefdi eigi Israel barist vid Kananíta, þá hefdi hann ecki eignast þad fyrirheitna landid; hefdi eigi Jakob glímt vid Gud, þá hefdi hann eigi hlotid Israels nafn, Gén. 32; og hefdi ecki þessi kona þreytt med bæninni vid hinn Almáttuga, þá hefdi hún eigi heyrt þessi fagnadar-ord: kona, mikil er þín trúa. Þegar Lærisveinar vors Endurlausnara formerktu, ad hann svaradi henni eingu, þá hrærdust þeir af medaumkan, og segja: lát þú hana fara, fyrst hún kallar eptir oss. O, hvad gott eptirdæmi hefir þú hér, kristinn madur! sælir eru miskunsamir, segir Endurlausnarinn, því þeir munu miskun hljóta, Matth. 5. Guds miskunsemi þurfum vér dagliga vid, og án hennar kunnum vér ecki ad lifa. Viljir þú ad Gud sé þér nádugur, þá vert ecki afundinn vid þann sem þig bidur, eda frásnúinn þeim sem af þér vill lán taka, Matth. 5; því hvørsu má Gud opna þér sína miskunar = brunna, ef þú tilbyrgir þína læk fyrir hinum naudstadda. og sé svo ad þú hafir eigi efni á ad miskuna med verki, svo sem þú vildir, þá álítur þó Drottinn hjartad. Sá sem miskunar meir enn hann hefir rád til hann hefir gjørt sitt miskunar-verk jafnvægt sínum vilja, og hefir miskunad meir enn hann kunni ad miskuna. Ecki er hér talad um einn heldur enn annan af lærisveinunum, heldur hafa þeir allir í einu hljódi meint ad inntaka Drottins miskunar-hjarta. O, Gud gæfi kristnir menn vildu vera samtaka í bæninni! hvad er þad vér segjum í vorri trúarjátningu:

Eg trúi samneyti heilagra. Er það alleinasta að játa einn og hinn sama Guð? að vera með einni skírn skírðir? að koma saman í einu Guðs húsi, og meðtaka einn og hinn sama líkhama og blóð Jesú Christi? Nei, einganvegin, heldur þar að auki að halda eindrægni í andanum, Eph. 4, með bænum og fyrirbeiðslum fyrir øllum mønnum, 1 Tím. 2. Biðjið hvørjir fyrir øðrum, segir St. Jakob, kap. 5, að þér heilbrigðir verðið, því mikið má bæn hins réttláta, þá hún er heit. Sjálfur Drottinn segir, Matth. 18: ef tveir af yður samþyckja á jørðu um hvørn þann hlut, sem þér biðjið, þá skal yður það veitast af mínum Føður, sem er á himnum; og ef Guð heyrir svo teggja bæn, hvað miklu framar mun hans føður-hjarta komast við, þá einn heill søfnuður úthellir sínum bænum í eindrægni andans? Guð elskar mennina þá hann sér að hvør þeirra elskar annan. Einn vatns-dropi, ef hann er einsaman, þá þornar hann bráðliga, en falli hann í sjóinn, þá geymist hann ótíndur; svo eru og tára-dropar kristinna manna, ef þeir falla saman, þá verður þar eitt vatns-flóð af, sem allt upp í himinin vex, þar til það fellur í náðar-strauma hins Almáttuga Guðs, sem framfljóta af hans hásæti, og renna svo aptur ofan til vor á jørðina. Damparnir sem uppstíga af jørðunni, samansafnast í loptinu, þegar þeir verða ofur þúngir og þéttir, þá sundurdreifast þeir af vindinum, sem ecki kann í-gégnum þá að brjótast og falla aptur yfir ýmsar álfur jarðarinnar, henni til frjófgunar. Andvarpanir Guðs barna, sem uppstíga af heitu hjarta, þær samansafnast fyrir Guðs hásæti, þar til þær verða hans miskunar iðrum ofur þúngar, svo að himnaríki líður ofríki, Matth. 11; þar af verður hin hjálpsamliga nátt-døgg Guðs góðgirni og miskunar, sem fellur af því himneska Hermón yfir þá jarðnesku Zíon, Ps. 133, hvørri Andi Drottins sundurdreifir og útskiptir meðal mannanna sona. Það er eigi nóg, þótt einn eður tveir biðji fyrir øllum; þó Guð hafi mikið gjørt fyrir bæn Mósis, Abrahams, Elíæ, Elizei, St. Páls og annara Guðs ástvina, þá er Guð ecki skyldugur að gjøra svo øllu fólki; munu og fáir vera þeim líkir á vorum døgum. Margra trú hygg eg að nú megi leggja við Abrahams og Elíæ trú. Fyrir almenniligri plágu, skal almenniliga biðja, því á-stundum er Guð svo lyndur, að hann vill straffa þá góðu með þeim vondu í landinu. Hafið því ráð Endurlausnarans, m. e. Lúc. 18: biðjið óaflátanliga og letjist ecki, því hvar fyrir skyldi Guð eigi frelsa sína útvalda, þótt hann undandragi hjálpina? sanniliga segi eg yður, hann mun frelsa þá. Hvørt svar géfur nú Frelsarinn sínum lærisveinum hér uppá? eg em eigi sendur nema til fortapaðra sauða af húsi Israels. Þetta sýnist nockuð þúngskilið í fyrsta áliti, en hefir þó sinn staðfastan grundvøll í ritníngunni. Eptir sínu spámanns-embætti var hann eigi sendur nema til Gyðínga; eptir sínu kénnimannligu embætti var hann øllum sendur, því fyrir alla hefir hann forlíkað; hann bannaði að sønnu lærisveinunum að gánga á veg heiðíngjanna eða í samverskar borgir, heldur til fortapaðra sauða af húsi Israels, Matth. 10; þó segir hann hjá Jóhannem, kap. 10: eg hefi og aðra sauði, sem ecki eru af þessu sauða-húsi, þá byrjar mér og hér til að leiða. Ecki heyri eg að Jesús hafi á sínum hérvistar-døgum prédikað meðal heiðíngjanna, því það var hans spámanns-embætti, hans tími var enn þá ecki kominn; fortjaldið var enn nú ecki sundurrifið; þar var enn nú eigi niðurbrotinn sá veggurinn, sem millum var, Eph. 2, eður vorðið eitt af báðum; það skéði allra fyrst í hans pínu, dauða

og upprisu, því skömmu þar eptir baud hann sínum lærisveinum ad fara út um allann heiminn, Matth. 28. St. Páll þorir ad segja, Róm. 3: er Gud alleinasta Gud Gydínga, og eigi Heidíngja? sannarliga og svo Heidíngja, þvíad Gud er einn, hvör ed réttlæta mun umskurnina í trúnni og yfirhúdina fyrir trúna; svo var nú Jesús sendur alleina til Gydínga eptir sínu spámanns=embætti; en svo sem Fadirin sendi hann til Gydínga, svo sendi hann sína lærisveina til Heidíngja. Eptir hinu kénnimannliga embættinu, er hann öllum heimi sendur, því Jóhannes segir fortakslaust: hann er forlíkun fyrir vorar, og ecki einasta fyrir vorar (þad er Gydínganna) heldur og fyrir allrar veraldarinnar syndir, 1 Jóh. 2. Eptir sínu konúngliga embætti var hann og öllum sendur, því hans Gud hafdi géfid hönum endimörk jardarinnar og heidnar þjódir til arfleifdar, Ps. 2, og er þad eptirtekta=verdt, ad þau tvö kraptaverk, sem Drottinn gjördi medal heidinna þjóda, annad þetta, annad hjá Gergesenis, Matth. 8. Þau vóru bædi til ad auglýsa hans almættis herratign, því í hvörutveggja sinn rak hann Djöfulinn út, sem kallar sig Drottinn veraldar þessarar. Hvad gjörir nú þessi kvinna til vid afsvar þetta? hún lætur ecki af, heldur sætir þessu tækifæri, þar hún sér lærisveinarnir tala hennar máli. Lær hér, kristinn madur, ad þreytast ecki í bæninni, þótt Gud hjálpi ecki strax, sem þú kallar, þá hefir hann þó ecki forgleymt miskunsamur ad vera; födurligt hjarta hefir Gud, hann er ecki svo sem stockur eda steinn. Forgéfins hefir hann þá straffad gudleysi mannanna, sem gánga til mállausra skúrgoda, ef hann væri þeim sjálfur líkur. Gud er ecki eins sinnadur og madurinn, ef nockur ölmusumadur liggur jafnan vid dyr hins ríka, þá heitir hann þrábæninn, ósticklanligur, heimtufrekur. Þad verdur svo fyrir oss mönnunum, því vér megnum eigi margra þörf ad fylla; en afgrunni miskunarinnar er ecki svo háttad, þess optar sem hann er bedinn, þess kjærara er þad hönum, því hann kann ad uppfylla alla vora naudþurft, eptir ríkdómi sinnar dýrdar, Phil. 4. Þeir neyddu hann, segir um þá tvo sem til Emaus geingu, Lúc. 24, Gud vill láta þvínga sig med heitri bæn, og þad er hönum inndælt ad þola ofríki af trúudum syndara. Sú þrákélkni er gód, sem Gudi þóknast, og sú orusta mætti létt falla, þar sem madur er viss um sigurinn. Sá sem af tinnunni vill eldin fá, verdur optar ad slá enn einusinni. Viljir þú og ad Guddómsins gjæsku=neistar stöckvi út af hellu hjálprædisins, þá verdur þú optar en einu=sinni ad slá med hamri bænarinnar, og ecki afláta, þar til þú á einhvörn hátt bænheyrdur verdur. Menn skulu og audmjúkliga bidja. Matthæús segir, þessi kona hafi tilbedid hann. Markús segir, hún hafi fallid til fóta Jesú, Marc. 7. Þad ordid er ad eylífu satt sem Davíd segir, Ps. 34: Nálægur er Drottinn þeim harmþrúngnu í hjörtum, og þá sundurkrömdu í anda frelsar hann. Hvör sem vill uppausa vatn af nockrum brunni, hann má beygja sig. Hvör er brunnur þess sjáanda og lifanda? hans ed sér þótt eingin sjái, hans ed lifir í oss, þó ad vér deyum. Hvör sem vill af hönum nád og miskun uppausa, hann krjúpi audmjúkur á sín hjartans kné. Jósúa féll til jardar nidur, og jós moldu yfir höfud sér fyrir Drottni, Jós. 7; Davíd lagdist flatur á jördu fyrir hans tignarveldi, 2 Sam. 12; sjálfur Guds Sonur kastadi sér flötum á jördina fyrir sínum himneska Födur, Matth. 26. Og því skyldum vér þá eigi beygja kné vor fyrir Födur Drottins vors Jesú Christí, Eph. 3. Sá sem vill vera mikill í him-

naríki, hann skal fyrst gjøra sig lítinn hér á jardríki. Þad er ecki vegur til ad ljúka upp Guds miskunar ydrum, ad standa inst í kyrkju og bidjast fyrir, en forsmá tollheimtumanninn sem stendur lángt í frá, Lúc. 18. Tak þín skó=føt af, sagdi Gud vid Mósen, því sá stadur er heilagur er þú stendur á, Exód. 3. Vor bæna=stadur er heilagur stadur, þar er Guds musteri; hvar helst þad er, þar er øll heiløg Guddómsins þrenníng á tali vid oss; øll óhreinindi drambseminnar, allt endemi sjálfs=þóttans á þar í burtu ad vera.

Hvørt andsvar fær nú þessi ángráda manneskja uppá þessa sína audmjúka bæn? Þad er eigi gott ad taka braudid barnanna og kasta því fyrir hundana. Hørd var þessi ræda; hvørsu mátti Drottinn þúngligar svara? en ecki félst henni hugur vid allt þetta, heldur svarar hún: satt er þad Herra, en þó eta hundarnir af molum þeim, sem detta af bordum drottna þeirra. Þótt Abrahams munnur hefdi hér kominn verid, til ad keppa med bæninni vid Gud um Sódóma, Gén. 18, þá hefdi hann ecki kunnad betur ad mæla. Ecki þyckist hún vid sannyrdi þessi, heldur þess meir hún er ovirdt, þess audmjúkari er hún ad bidja; hina hørdustu freistíngu gjørir hún ad sætustu huggun. Þau ordin Christí, er henni bríxludu um sinn óverdugleik, þau brúkar hún sér til forsvars, og þad sem sýndist ad horfa henni til mestu ørvæntíngar vard henni til ædstu blessunar; og er hér af audséd, ad Gud lætur þeim alla hluti til góda verda, sem hann elska, Róm. 8. Hún slær vorn Herra, ef svo mætti ad ordi komast, med hans eigin sverdi: satt er þad Herra, eg em hundur í þínu augliti, og hefi eingan rétt med børnunum; þad er réttvíst ad þau mettist fyrst; þú hefir tilreidt eina mikla máltíd fyrir þeim, og þínir uxar og alid fé er slátrad, Matth. 22; en í slíku géstabodi munu nockrir molar á gólfid falla, sérdeilis þar børnin, sem mett eru, hyrda eigi svo vandliga þar um; þessir molar nægja mér aumri hund=tík, eg em þinn hundur; en mun nockud húsbóndinn slá sinn hund frá sér, þá hann vill fylgja honum eptir? eg er eigi svo væntin, ad eg girnist ad sitja til bords med børnunum; leyf mér þó samt ad tína molana med hundunum, þá braud=mola sem þín børn vilja ecki nýta; leyf mér og minni dóttur þá upp ad tína, og þó vid høfum þá ecki forþénad, þá veit eg ad þú, sem ert einn Herra, og þar ad auki Davíds Sonur, minn Skapari, og þó minn bródir, þú munir eigi ockur allra vesølustu skepnur, en þó þínar skepnur, ad sonna hund=tíkur, en þó þínar hund=tíkur, í húngri og vesøld út=af deya láta. Fyrir þessari svo øflugri trú, lét hinn Almáttugi sigrast; hans hjarta brast í hønum, svo hann hlaut henni miskunsamur ad vera, Jer. 31, og brunnur miskunsemdanna vard ad opnast í slíkri hræríngu, svo ad þadan útflaut einn lifandi nádar=straumur til ad endurnæra þessarar kvinnu sorgbitid hjarta. Þannin verdur hann hér yfirunninn af sinni eigin gjæsku, sem þó er ósigrandi; hann verdur til fánga tekinn, sem hefir herleidínguna ad herfángi tekid; hann þurfti valla eitt ord til ad útreka Djøfulinn, Matth. 4; enn med mørgum ordum fær hann ecki þessa trú frá sér rekid, svo ad altíd verdi sønnur á hans máli; hvørn þann sem til mín kémur, vil eg ecki frá mér reka, Jóh. 6. Athuga þú nú, kristinn madur, nockud um þín efni hér út=af; munt þú í Guds augliti betur vera á þig kominn enn einn hundur? þú ert ad sonnu kristinn, þessi kona var heidin; þú ert skírdur og inntekinn í Guds sáttmála, hún var ecki;

þú heyrir Guds heilögu ord dagliga, en hún alleinasta ryktid af Jesú; en hygg ad hvad Endurlausnarinu segir: Drottníngin af Arabía mun upprísa á efsta degi og dæma þessa kynslód, því hún kom lánga vegu ad heyra speki Salómónis, og sjáid hér er meiri enn Salómon, Matth. 12; svo er eg og hræddur um, ad kona þessi muni dæma marga þá, er kristnir kallast; hún sem hér ber hunds-nafn, taldi ecki eptir sér ad leita ad Christó, og fylgja hönum eptir, þó hún yrdi ecki svo fljótt bænheyrd; en hvör er nú sá er leiti ad Drottni, eda kalli af alvöru til hans í hörmúngiuni? Drottinn typtar oss, en vér finnum þar ecki til; hann slær oss, en vér betrum oss ecki, Jer. 5. Menn hafa hardara andlit enn steininn, og vilja ecki snúa sér. Hundarnir hafa nockra rækt á sínu afkvæmi; þessi heidna manneskja var af instu hjarta-sorg tilknúd ad leita sér hjálpar hjá þeim himneska Lækuir, vegna sinnar dóttur, sem plágud var af Djöflinum; en hvad fáir eru nú þeir, sem færa sín börn til Jesúm med kristiligum aga og umvöndun, og géta eigi jafnvel lidid ad ómennskunnar Djöfull sé frá þeim rekinn, med Guds ords kénníngu og gódri tilsögn. Þessi kvinna géck út af Týró og Sidon, þeim ógudligu stödunum, til Jesúm; en hvad tregt er oss komid til ad gánga út af vondri veröldu þessari og fylgja hönum, jafnvel þó sálin liggi vitstola í ædi syndarinnar. Þessi kvinna reiddist ecki þó henni væri öfugliga svarad; en hvad gjöra þeir, sem mögla á-móti Gudi, þá ecki geingur allt ad óskum, og formæla hans höfud-sképnum, þá þær eptir skipan síns Herra eru oss mótfallnar, hvörjar Gud hefir oss þó géfid af óumrædiligri gjæsku sinni, til ad halda vid voru óþacklátu lífi. Hundar komu og sleiktu Lazari sár, en ecki féck hann ad sedja sig af þeim molum sem duttu af bordi hins ríka, Lúc. 16; svo finnast og margir ómiskunsamir, hardúdugir enn í dag, hvörjir ed hafa gnægt veraldar þessarar, en láta þó sinn náúnga húngur lída, og ef þessir ógudligir lestir skyldu finnast medal kristinna manna, sem ecki er ad efa, hvad erum vér þá betri enn heidíngjar í Guds dýrdarfulla augliti? O, vor Gud og almáttugi Skapari! vert þú oss syndugum líknsamur, og tilreikna oss ecki vorar illgjördir eptir þeirra verdskuldan, heldur minstu þinnar mikillrar miskunsemi. Vor dóttir, þad er vor sála, kvelst þúngliga af Djöflinum, hvörri hann ógnar med hrædiligri minníng illgjördanna. Illa höfum vér lifad, en þú Christe! ert fyrir vorar illgjördir uppheingdur; fleiri eru vorar ránglætíngar heldur enn tár vorra augna, en lángtum fleiri eru þó dropar þinnar miskunar, sem ad upprennur yfir oss syndugum mönnum ný og fersk á hvörjum morgni, Harmagr. Jer. 3. Allra manna syndugasta játum vér oss, hvör í sinn stad, en þeckjum þig þó ad vera hinn allra Helgasta, sem fyrir oss rángláta ert bölvan ordinn. Vér erum eigi betri enn hundar, í þínu dýrdarfulla augliti, þar vér höfum forþénad ad útilokast frá þeirri himnesku Jerúsalem, Apóc. 21; en samt erum vér þó þínir hundar og viljum heldur svo heita, enn Andskotans óska-börn; vér kjörum heldur ad tína molana undir þínu bordi, enn hafa full hús med ógudligum; meigum vér ecki börn kallast, þá gjör oss svo sem einn af þínum leigumönnum, Lúc. 15; meigi og þad ecki, þá lát oss rétt hafa med þínum hundum. Þótt vér teljum oss óverduga ad sitja til bords med Abraham, Isak og Jakob, Matth. 8, þá viljum vér samt í þínu leyfi skrida undir bordid med hinni Kananisku. Gott er oss ad áhanga Drottni, med hvörju helst móti þín eylífa miskun vill þad vera láta; þótt vér fáum

þau kjör sem ríkisins synir, þá höldum vér fullgott ad vera dyraverdir í húsi Drott-
vors, Ps. 84; þad nægir oss, þegar vér alleina ecki útkastadir verdum í hin ytstu
kur. O, þú líknarfulli Gud og nádugi Fadir! þegar vér allra sídarst útgaungum af
ó og Sidon, sem er af heimi þessum fyrir tímanligan dauda, en Andskotinn girnist ad
ja vora sálu med eylífum pínslum; miskuna oss þá fyrir Jesú Davíds sonar skuld, og lát
verda eptir því sem vér viljum, sem er, ad vér frelstir af synd, dauda, Djöfli og helvíti,
gum þér þjóna í réttlæti og heilagleika um allar aldir alda, amen, í Jesú nafni, amen!

## Þridja Sunnudag í Föstu.

### Gudspjallid, Lúc. 11 Kap.

þeim tíma; Jesús rak út Djöful þann er mállaus var; og
d skédi, þá Djöfullinn var útfarinn, ad hinn mállausi taladi,
fólkid undradist þad. En nockrir út af þeim sögdu: fyrir Bel-
ub djöfla-höfdingja þá drífur hann Djöflana út. Adrir freist-
u hans og leitudu af hönum eptir teikni af himni. En er
nn sá þeirra hugrenningar, sagdi hann til þeirra: hvört ríki,
t í sjálfu sér er sundurþyckt, þad mun eydast, og hvört hús
ın yfir annad hrapa. Og ef Andskotinn er í sjálfum sér sund-
þyckur, hvörnin má hans ríki þá standast, fyrst þér segid mig
tr Belzebub útreka Djöflana? En ef eg fyrir Belzebub útrek
öflana, fyrir hvörn útreka þá ydrir synir? þar-fyrir skulu þeir
verda ydrir dómendur. En ef eg rek út Djöflana med Guds
gri, sannliga er þá Guds ríki komid til ydar. Nær ed sterkur
vopnadur vardveitir sitt anddyri, þá er allt med mak hvad hann
en nær annar yfirsterkari kémur og yfirvinnur hann, þá flettir
nn hann öllum hertýgum, á hvör ed hann treysti, og í-sundur-
ptir svo hans herfángi. Hvör hann er eigi med mér, sá er á
oti mér, og hvör sem samansafnar ecki med mér, sá sundurdreifir.
ær óhreinn andi fer út af manninum, ráfar hann um þurra
ıdi, leitar ad hvíld og finnur ecki, þá segir hann: eg vil aptur-
erfa í hús mitt, hvadan eg for út; og þá hann kémur, finnur
nn þad sopad og prýdt; þá fer hann og tekur med sér sjö
ra anda sér verri, og sem þeir eru þar innkomnir, byggja þeir
r, og verdur svo þess manns hid seinasta verra hinu fyrra.
a þad skédi þá hann taladi þetta, ad kona nockur út af folkinu,
f upp sína raust og sagdi til hans: sæll er sá kvidur sem þig
r, og þau brjóst sem þú mylktir. En hann sagdi: já ad vísu;
lir eru þeir sem heyra Guds ord, og vardveita þad.

## Exordium.

Ecki er lán leingur enn léd er, segja menn í fornkvednum ordsbætti, og er hann sannur; því þegar eigandinn aptur-heimtir, þá er hans réttur úti ad brúka, sem lánid tók; og svo sem því er háttad almenniliga á-medal vor mannanna, svo er þad einnin á sig komid á milli Guds og Satans; Andskotinn hefir á-stundum næsta djarftækur verid til ad høndla med hans sképnur, þá hønum fyrir einhvørn tilgáng hefir þad leyft verid, en einganveginn má hann ráda yfir þeim, móti vilja hins Almáttuga. Ad sønnu heyrdum vér ei alls fyrir laungu, ad hinn blygdunarlausi Djøfull baud vorum Herra, ad hann vildi géfa hønum øll ríki veraldarinnar og þeirra dýrd, Matth. 4; en hvad mikid ríki hafdir þú þá í heiminum Satan! er þú þordir ecki ad búa í svínunum, fyrir utan leyfi Drottins vors, Matth. 8. Syni sínum hefir Gud feingid rád yfir verøldinni, hvørn hann sett hefir erfíngja allra hluta, Hebr. 1; hønum hefir hann géfid allt vald bædi á himni og jørdu, Matth. 28, en ecki Djøflinum. Þar-fyrir, þótt ad Drottinn kalli hann høfdíngja þessa heims hjá Jóh. 14, þá er þad ei svo ad skilja, ad hann med frjálsu hafi nockra stjórn á jørdu í þeim hlutum, sem valdstjórninni vidkoma, heldur meinar Lausnarinn þar med heiminn, sem eru þeir ógudligu, þad eru vantrúarinnar børn, Eph. 2, í hvørjum Djøfullinn máttugur er til ad drífa þá eptir vild sinni til allskyns synda og lasta. Ei þordi hann ad granda Jobs líkhama, fyrr enn Gud gaf hønum leyfi þar til, Job. 2; ei gat hann Pétur siktad, því vors Endurlausnara bæn mátti meira, Lúc. 22. Og svo sem Andskotinn hefir eckert med Christum, edur þá sem í hønum eru, svo kunna ei heldur hans børn Guds børnum ad granda, framar enn Gud leyfir; øll vor høfud-hár eru talin, og ecki fellur einn titlíngur á jørdu án hans vilja, Matth. 10. Nú þó ad Satan vel viti, ad hann megnar eckert med øllum sínum illsku-krapti, á-móti einu Guds ordi, þá fær hann ei vid sinni illsku gjørt ad áreita Gud og hans útvalda. Aldrei er svo sterkur kastali, ad ei þurfi ad vaka svo leingi strídid yfir-stendur; nú er líf þetta ecki annad enn sífeld barátta, Job. 7, bædi hid ytra og innra; því er þørf ad sálin vaki í hjartanu, sem er slot líkhamans, og bidji, svo ad vér føllum ecki í freistni, Matth. 26. Eg sagdi fyrir skømmu, børn mín! ad Andskotinn hefdi eckert med þá sem eru Gudi handgeingnir, en þad gyldir á-medan þeir eru í hans þénustu, en ecki annars. Svo margir sem ecki geingu út-af sínu húsi þá nótt, sem páska-lambid var ad kvøldi etid, þeir urdu frí fyrir mord-einglinum í Egyptalandi, Exód. 12. Guds óſýnilig kyrkja hér á jørdunni er hús þad, hvar inni hid saklausa Guds-Lamb, sem burttók heimsins syndir, verdur dagliga slátrad og offrad í rétt-trúadra hjørtum, þeim himneska Fødur til sætleiks ilms; gángir þú út af þessu húsi, kristinn madur, þá kann eg ecki ad segja þig óhultan fyrir dráps-einglinum; en þykir hitt líkara, ad þú meigir í hans hendur falla. Í þessu h. Evangelíó høfum vér eptirdæmi bædi uppá Andskotans illskufulla medferd á syndugum mønnum, og svo hans barna hreckvísi á-móti Gudi og hans børnum. Vil eg því í þetta sinn tala: 1) um Djøfulsins vald yfir syndugu holdi á hinum fyrri døgunum, og svo nú: 2) um hans illsku í því ad spilla vorri andligri velferd. Styrk oss þar-til nádarfulli Gud med krapti þíns Anda, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Mjøg svo aumkunarliga hefir þessi manneskja haldin verid, sem hér umgétur í Gudspjallinu; því hvad kann vesælla ad vera, enn þegar túnga mannsins er bundin í hans munni, svo hann fær ecki talad vid adra menn sér til skémtunar, eigi kvartad um þá hluti, sem hann ángra. Einn málleysíngur er í heiminum svo sem fyrir utan heiminn; hann hefir túngu og talar ecki, og ecki øllu betur enn ein líkneskja er hann á sig kominn. Nú eykur þad þó miklu á, ad ráda er af Gudspjallinu, ad þessi plága hafi verid af Djøflinum, og er því ecki ad neita, ad Gud hefir Andskotanum leyft mikla hluti í líkhamligum efnum á døgum gamla Testamentisins, á hérvistar døgum vors Frelsara, á døgum hans h. Postula, hvørja hann sér-í-lagi útsendi í sínu nafni, til ad planta sinn vín-

gard á medal mannanna sona hér á jördunni, og svo nockra stund fram eptir öldunum, til ad styrkja og auka þessa nýu plantan, med auglýsíngu síns máttar yfir Djöflinum. Hans óútsegjanligri miskunsemi og nád höfum vér þad ad þacka, ad vér finnum ecki svo mjög þar-til á vorum dögum, ad Djöflinum sé leyft ad hafa vald yfir manneskjunni í líkhamligan máta. Fjærri sé því, ad eg segi: þad Gud kunni ecki ef hann vill, ad brúka Andskotann til ad straffa syndir mannanna, því hann er í hans hendi, svo sem öll hans verk; hitt efast eg um, hvört þad sé hans vilji nú um stundir. Sá alvitri Konúngur hefir þúsund vegi og máta til ad stjórna sínu ríki; eins og eitt kóngs-ríki umbreytist á marga vegu eptir tídunum, svo sjáum vér einnveginn, ad þad er skéd í Guds ríki hér á jördunni. Ad sönnu er hann ecki sjálfur í nockru umbreytanligur, heldur umbreytir hann öllum hlutum, eptir því sem hans guddómligu speki haga þykir; hann taladi sjálfur vid fedurnar fyrir flódid; hann gjördi slíkt hid sama vid Abraham og hans eptirkomendur allt til Mósén; Móses tók réttindin af hans munni, og féck þau Israels sonum, og hann gaf þeim, fyrir hans hönd, sitt h. lögmál, skrifad á stein-töblum til ad lifa eptir, Exód. 24; hann stjórnadi sjálfur eins og einn veraldligur konúngur sínu fólki, þar-til þeir vildu ei leingur láta hann drottna yfir sér, og hann gaf þeim Saul konúng í brædi sinni, Hós. 13; hann taladi þó vid hans eptirkomendur fyrir munn sinna Spámanna, og jafnvel í herleidíngunni lagdi hann sitt ord í þeirra munn; en í tímans uppfyllíngu hefir hann talad vid oss fyrir Soninn, Hebr. 1, og látid hann, sem er útgeinginn af hans skauti, Jóh. 1, opinbera mönnunum sinn vilja; en þegar hann sté til himna og inngéck í sína dýrd, þá sendi hann Postulum sínum h. Anda af sínum Födur, Jóh. 15, sá er leiddi þá í allan sannleik, Jóh. 16, og kéndi þeim ecki einasta hvad þeir tala áttu fyrir þeim, sem sáluhjálpina erfa skyldu, heldur og fyrir herrum og konúngum, Matth. 10, sem offóktu Guds Evangelíum. Þessir eru þeir, sem oss hafa Guds vilja skrifadan eptirlátid í Gudspjöllum, sendibréfum og opinberunum, fyrir hvör ad Guds kyrkja stjórnast enn-nú í dag hér á jördunni. Sídan þeirra daga vitum vér ecki til ad Gud hafi talad vid mennina, nema í þessu sínu h. ordi, hvört ed enn-nú dagliga kénnist og prédikast medal vor. Af þessu sjáum vér hvörsu margbreytt ad hefir verid ríkisstjórn þess máttuga alsherjar-Konúngs hér á jördunni. En hvad Satans útréttíngum vidvíkur, þá sé eg, ad hann hefir leyft hönum marga hluti ad fremja á gamla Testamentisins dögum; hönum þóknadist ad láta hann slá sinn þénara Job, med sárum og kaunum, Job. 2, uppá þad hann reyndi hans þolinmædi, og sýndi Andskotanum hvörsu ad Guds kraptur væri í mannsins breiskleika máttugur, 2 Cor. 12; hann leyfdi töframönnum Pharaónis marga undarliga hluti ad gjöra, fyrir Satans krapt, Exód. 7. 8, uppá þad hann med þeim og þeir med hönum yrdu til skammar fyrir Móse Guds þénara; Gud leid hönum ad áklaga Jósúam, hinn ypparsta prest, Zach. 3, svo hann af hinum ædsta Biskupi sálna vorra straffadur yrdi, og annad því-um-líkt er ad lesa í sögum gamla Testamentisins. Hvar fyrir mundi nú Gud gjöra þetta? ecki þess vegna, ad hann ei gjæti med sínum almættis krapti alla hluti verkad, eptir því sem sjálfur vill hann, því fyrir hönum er eckert ord ómáttugt, Lúc 1, heldur eins og hann lét Pharaónem standa og ecki um koll steypast, þar til hann optsinnis aud-

sýndi sína miklu makt á hønum, Róm. 9, svo lét hann á þeim døgum Andskotann brúka á-stundum sína makt til ad láta mannkynid sjá, hvad miklu Gud væri hønum sterkari, svo þeir lærdu ad trúa á einn Drottinn Gud, og eingan annann. Aldrei hefir þó Andskotinn feingid svo mikla makt til ad opinbera sig mønnunum, svo sem á holds-vistar døgum vors Lausnara, og lítur þad eins út, svo sem Gud hafi viljad geyma sínum eingétna Syni þá sterkustu orustu móti hønum, svo hans sigur yrdi þess frægari medal mannanna. Hann taladi vid hann sjálfan eins og madur talar vid mann, Matth. 8; hann kvaldi dóttur þeirrar Kananisku, Matth. 15; hann kastadi þeim Djøful-óda á vatn og eld, Matth. 17; hann bjó í þeim tveimur Gergesenis, Matth. 8; hann gjørdi þennan mállausan, sem vor texti um-talar. Hvar fyrir mun þetta skéd vera, br. m.? mannsins styrkleika sjá menn ecki, nema hann hafi einhvørn ad reyna orku vid; og svo sem Endurlausnarinn segir í þessu Evangelió: þegar einn sterkur hervopnadur vardveitir sitt anddyri, þá er allt med mak, hvad hann á, ꝛc. Þad var vorum Herra fyrir minstu, ad þvínga Djøfulinn eptir sinni vild; annad var hans eyrindi meira í heiminn, sem var ad lúka þá sekt, er mannkynid átti Gudi ad gjalda; en svo sem Drottinn í gamla Testamentinu leyfdi Andskotanum ad sýna megn sitt ødruhvørju, mønnunum til eptirtektar, svo leyfdist og þessu illhveli ad vada hvad mest uppi og brúka makt myrkranna, á-medan Guds Sonur umgékst hér á jørdunni í mynd eins þjóns, þeim øllum til trúarstyrkíngar, sem á hans nafn trúa vildu, ad þeir sjá mættu ad svo audvirdiligur sem hann var, þá væri hann þó sá, sem af Gudi sendur væri til ad nidurbrjóta Djøfulsins verk, 1 Jóh. 3, og med øllu ad sundurmola høggormsins høfud, Gén. 3. Hefdi og Guds eingétinn Sonur strax sem hann var til himna farinn, bundid svo hendurnar á Djøflinum, ad hann hefdi ecki feingid ødruhvørju ad slá sig sjálfan á munninn, þá kann-ské, ad illþýdid í verøldinni hefdi sagt, eins og þessir søgdu, ad fyrir Belzebub hefdi hann útrekid Djøflana á sínum hérvistar-døgum; því gaf hann hønum og nockurn taum um Postulanna daga, sem er ad sjá af þeirra gjørnínga-bók, og á-medal annara þegar Satan mátti til skammar sér medkénna: Jesúm veit eg, og Pál þecki eg, en hvørjir erud þér? Act. 19. Þad er og líkligt, ad fátækum fiskurum, sem héldust fyrir afskúm veraldar, mundi ecki hafa stórum trúad verid í þeim hlutum, sem svo eru gagnstædir holdligri skynsemi, sem Christs Evangelíum er, hefdi hann ei stadfest þeirra prédikun med þessum og ødrum jafnvægum kraptaverkum. Dásamliga hefir Gud uppbygt sína kyrkju hér á jørdunni, hvør sem þar ad vill gjæta, ad hann hefir látid hana vaxa fyrir utan allt mannligt yfirlæti, og alleina af þeim hlutum, sem ecki standa í nockurs manns valdi, nema hønum sé þad af Gudi gésid; og er hún í þessu lík Salómónis musteri, sem bygt var fyrir utan allt hávreysti, svo þar heyrdist ecki axar edur hamars-hljód, 1 Reg. 6. Segid mér, hvørt nockur átrúnadur hefir svo byrjast sem þessi? edur svo leingi stødugur stadid, nema hønum hafi framfylgt verid af mannligu valdi? en sídan hinn alhagi Smidur hafdi svo fastan grundvøll lagt fyrir Spámennina og Postulana, Eph. 2, og allra helst fyrir hinn sterka Hyrníngar-stein, hvørn Gud hefir sett í Zíon, Esa. 28, ad hann yrdi høfud hirníngar um aldur og æfi, svo ad vel mátti ofan á byggja, þá hefir hann látid spádómunum slota og kraptaverkunum linna. Gud gjørir eingan hlut forgéfins, og svo

sem það var ecki naudsynligt að Gud taladi framar vid mennina, edur opinberadi sig eptir Postulanna daga og Spámannanna, þar allur Guds vilji er opinber í þeirra bókum og psálmum; svo lagdi hann og hapt á Andskotann, eptir það hann ei þurfti framar ad auglýsa sína miklu makt á hønum. Eg veit eingin røk til, adGud hafi géfid Satan nockurntíma taum alleina til ad kvelja mennina, því hann hefir nóg ráð til ad straffa syndir vorar án þess, heldur annadhvørt til ad reyna sinna barna trú, edur sjálfum hønum til hegníngar; eda segid mér, nær Satan hefir auglýst sína makt, nema sér til svívirdu og sínu ríki til nidurdreps? Sídan Gudi hefir nú þóknast ad brúka ønnur medøl til ad stjórna med sinni kyrkju, sem er hid skjæra ljós Evangelíí, þá vill Gud ecki leika fyrir mannligri forvitni med opinberunum edur kraptaverkum, þar þeir eru ó-affakanligir, sem eigi vilja Guds ordi trúa. Heródes vænti ad hann mundi sjá teikn af Jesú, Lúc. 23; en Jesús var ecki í heiminn kominn til ad skémta Heródí; Satan vildi einnin ad hann auglýsti sitt almætti á steinunum, Matth. 4, en Christur sýndi hønum ad hann var sá almáttugi Hyrníngar-steinn, sem hans høfud hefir í sundur-brotid. Þetta fólk beiddist eptir teikni af himni, og þótti það ecki nóg ad þeir sáu Djøfulinn útrekinn, en Herrann sagdi þeim skyldi ecki teikn géfast nema Jónæ spámanns, Matth. 12, því eins og Jónas var Niníve, mundi Mannsins Sonur verda þessari kynslód; en þeir sem nú ecki vilja Gudi trúa, nema þeir þykist Djøfulinn sjá, skulu eckert teikn fá, nema Mannsins Sonar, hvørs greftrunar- og upprísu-teikn ad Jónas var; og vilji þeir ecki þar med nægjast, munu þeir sjá hans teikn í skýum himins, er hann kémur med makt og miklu veldi, Matth. 24, ad fordæma bædi þeirra hjátrú og þeirra vantrú, sem á jørdu byggja.

Í annann máta vil eg taka mér ordsøk af þessum mállausa manni til ad skoda, á-samt ydur, hvørt ecki er sumum mønnum í verøldu þessari eins mikid á-fátt í andligri, svo sem hønum var í líkhamligri heilsu. Ei þurfum vér lángt ad leita ad dæmum þar uppá; hvørra kostur var betri, þeirra er søgdu, ad Jesús ræki út Djøflana fyrir Belzebub, edur þessa mállevsíngs? Í hinu fyrsta bodordi hefir Drottinn tilreidt sér eitt musteri í manninum, segjandi: þú skalt ecki hafa annarliga Gudi fyrir mér, Exód. 20; hvad hann útleggur í ødrum stad, segjandi: elska skalt þú Drottinn Gud þinn af øllu hjarta þínu, og allri ǫndu þinni, og øllu hugskoti þínu, Devt. 6; en strax í ødru bodordinu hefir hann skickad kénnimann til þessa musteris, sem er túngan. Þegar kénnimennirnir í gamla Testamentinu fóru til frétta vid Drottinn, þá leitudu þeir hans optast í helgidóminum; svo tekur og túngan af hjartanu allt það hún tala skal, og af þess nægd mælir munnurinn; en segid mér: verdur nockud Guds musteri helgad, þó þar væri hégómlig æfintýr og skrøksøgur þuldar? enn sídur verdur hjartad helgad med fánýtum þaunkum, ad eg tali ecki um skammarlig ord og fíflsligt hjal, sem kristnum sómir ecki, Eph. 5. Svoddan er undarlig þøgn í Guds eyrum. Davíd býdur ad menn séu ecki eins og hestar og múlar, hvørjum menn verda bitil og beisl í munn ad leggja, Ps. 32; en það er sórgligt ad vita hvørsu mállausar sképnur eru fremri mørgum Gud-lausum, sem vanhelga hans h. nafn, forsmá hans ord, hæda ad hans þénurum, spotta hans kénníngar og aldrei edur allsjaldan taka sér hans dýrdarfulla nafn í munn, nema þá þeir ljúga edur sverja. Asnan taladi fordum daga

Núm. 22, þegar Gud sendi sinn Eingil til Balam ad mótstanda hønum og hún taladi rétt; en þau ótømdu villidýrin, sem ad nú uppalast í heiminum á Andskotans stalli, hafa lært annad=hvørt eckert edur íllt ad tala, þá Gud sendir sína Eingla, Mal. 2, þad er sína kénnimenn til þess ad leida þá til himnaríkis; eru ecki svoddan fráleitar manneskjur haldnar af daufum Djøfli? Eg vil nú ei tala um bænræktarleysid í heiminum. Hvør er sá, er leiti ad Drottni og ákalli hann í neydinni, Ps. 59? Menn látast koma saman í húsi Guds, og menn krjúpa þar nidur til ad fridmælast vid hinn Almáttuga; en Gud gjæfi þad væri med sannri trú, lítilæti og audmjúkum anda. Allt þad sem ecki er af trúnni, þad er synd, Róm. 14; sá sem bidur án trúar, hann bidur ecki einúngis forgéfins, heldur gjørir sína bæn ad synd, svo sem Davíd óskar þeim ógudligu, Ps. 109; og menn lasta Gud meir enn dýrka med svoddan bænum, verandi ecki einasta málhaltir, heldur verr enn mállausir fyrir hønum. Ecki þarf mikinn ordasjølda til ad vera málsnjall fyrir Gudi, sem er hjartnanna og nýrnanna rannsakari, Jer. 17; einginn sá Mósis varir bærast, Exód. 14, og sagdi þó Gud vid hann: því hrópar þú þannin til mín? konan sem umgétur, Matth. 9, taladi ecki ord frá munni, heldur sagdi med sjálfri sér: ef ad eg mætti ad eins snerta fald hans klæda, þá munda eg heilbrigd verda; þó vard miskunsemdanna Afgrunn ad birta sig fyrir henni med þessum ordum: vert þú hughraust dóttir! þín trúa gjørdi þig heilbrigda. Hvør kann oss hér=um betur ad undirvísa enn sá eingétni Sonur Fødursins, sem er í hans skauti? þar hann segir til sinna Lærisveina, Matth. 6: þegar þér bidjist fyrir, þá verid ecki margordir svo sem heidíngjar, þeir ed hyggja ad þeir fyrir mælgi sína bænheyrdir verdi. Í anda og sannleika ber oss ad bidja, Jóh. 4; þá tala menn nógu snjallt fyrir Gudi, því þad er sá málsháttur sem hønum þóknast. Allir menn kostgjæfa ad tala þeirri túngu, sem konúngurinn talar; svo eiga vor bænar=ord Guds ordi samlík ad vera, um hvørt Davíd svo talar: Herra! þín ord eru glóandi; og þar eptir vill hann breyta nær hann segir: Herra! mínar varir skulu þínu lofi útfleyta; svo sem heitt vatn í sudunni yfir=geingur og skúmar, hvørt ed ei kann leingur ad halda sér í katlinum fyrir hita; og þad kallar St. Páll, Róm.12, ad vera glóandi í andanum; en þessar glædur hjartans á=stundar hinn vondi málleysis Djøfull ad útslöckva á einhvørn hátt, svo þó vér tølum, þá skuli Gud ecki heyra, og þó vér bidjum, skulum vér ecki bænheyrdir verda, og þó vér útbreidum vorar hendur, þá hylji þó Gud sín augu fyrir oss, Esa. 1; því glepur hann fyrir oss í bæninni med hégómligum þaunkum, med vantrú, med eptirlaungun til vorra uxa og búgarda, eda med velgju andans, svo vér ecki medteknir, heldur útskirptir verdum af Guds munni, Apóc. 3. O, oss auma! vér erum ei betur á oss komnir enn Lazarus, hvør ed ecki kunni ad gánga fyrr enn Christur skipadi ad leysa af hønum bøndin, Jóh. 11; svo erum og vér, ad vér meigum ecki tala rétt vid Gud í bæninni, nema hann uppleysi fjøtur vorrar túngu, og útreki málleysisins Djøful, en leggi eldkol síns Anda á vorar saurugar varir, Esa. 6. Þannin erum vér nú vid Gud, enn vid náúngan eingu betri. Hvør kann stærri ad vera túngunnar brestur enn sá, nær menn gjøra stóran róg af því, sem eckert er? hvad kann vidurstygg iligra ad hugsast edur talast, enn ad brúka túnguna, hvør ad er einn hinn besti limur á mannsins líkhama, sem gjørd er til ad lofa

Gud sinn Skapara, til ad forsvara sinn náúnga, til ad semja frid millum sundurlyndra, ad brúka hana, segi eg, til ad myrda hinn saklausa, og ljúga líf og æru af sínum náúnga? lýgin er verri öllum ödrum Andskotans ílsku öndum; því er sá plágadur med vondum Djöfli og þúngu málleysi, er sér hana temur. Öll synd er lýgi, og fyrir hina fyrstu Andskotans lýgi, Gen. 3, er öll synd innkomin í heiminn, og sídan útrunnin til allra manna, og þótt ad allir séu ecki ad þessu sundnir, þá er þó hér fyrir utan mörg túngunnar vanbrúkan, sem í allan máta er ósæmandi. Þar eru þeir til, er eckert velgjört þykir, utan hvad þeir sjálfir gjöra, og lasta annara gjördir, jafnvel þær, sem ecki lastverdar eru; falli margvísligir dómar um einn hlut, keppast þeir vid ad fylla þann flock, er færir á hinn verra veg; þessir eru gjarnan sjálfir hinir sídstu og ödrum lakari, og af því þeir vita ad þeir eru sjálfir illa ræmdir, þá ætla þeir ad annara óhródur muni þeirra afsökun verda. Þú hræsnari! segir Frelsarinn: drag fyrst bjálkan út úr þínu auga, Lúc. 6. Þad væri vel adgjætandi, ad sá væri heilskygn sjálfur, sem dæmir um annars blindni. Eg veit ad þad er lofligt ad segja einum til sinna lasta, því segir Drottinn Gud, Levít. 19: þú skalt straffa þinn náúnga, svo þú berir ei skuld hans vegna, en þad á ad vera eptir skynsemi, svo ad gaukurinn dæmi ecki um svana-hljódid, eda hrafninn um sundfuglana. O, Herra Gud! hvör kann ad vita hvad opt hann syndgar? Ps. 19. Dæmid ecki, segir Endurlausnarinn, svo þér verdid ecki dæmdir; fordæmid ecki, svo ad þér verdid ecki fordæmdir; því med þeim sama mælir, sem þér ödrum mælid, mun ydur aptur mælt verda, Matth. 7. Hvad margur dæmir sjálfan sig óvitandi, þegar hann adra dæmir fyrir sömu lesti, er hann er mest hladinn sjálfur? og eckert er tídara enn þad, ad menn lýta þad á ödrum, er þeir vita med sjálfum sér, viljandi þannin dyljast fyrir mönnunum. Þar eru og svoddan skynlausar manneskjur til, sem lýta sinn náúnga fyrir þá hluti, sem honum er ecki í sjálfs-valdi ad gjöra vid; svoddan er einn skadligur ílsku-andi, því hvör hann foraktar fátækan, hann hædir Skaparan, segir Salómon, Próv. 17; svo er og um hvad annad. Sé einhvör vitgrannur, vesæll, ófrídur, málhaltur, eda hefir nockurn þvílíkan brest náttúrunnar, sem hann fær ecki adgjört, þá finnast þó svoddan vitstola manneskjur, sem ecki skammast sín ad hafa þvílíkt ad hádi. Heyr þú syndugur madur, er hann fátækur, seig mér, í hvörju ert þú audugri? þar hann vantar fémunina, hvörjum mölur og ryd kann ad granda, en þig vantar þeckínguna á Gudi og sjálfum þér; er hann vanskapadur og ei svo gjörviligur, þorir þú ad segja þad ljótt, sem Gud hefir svo vera látid? en lít þig hid innra, ef þú mátt, og skoda hvörnin Djöfullinn hefir afmyndad sálu þína, þad þú mátt ecki líta réttu auga til Guds skepnu; hann er vitgrannur og veit ei hvad gjöra byrjar, hvörju ert þú vitrari? þar þú med sjálfs-þóttanum og hans nídran gjörir þig honum þess fávísari, sem ódur madur er heimskum argari. Lúcifer, hvörs ad getid er hér í Evangelió, var af þeim í Samaría, Belzebub kalladur, þad er flugna-höfdíngi, og þad af því, ad ílsku-öndunum í loptinu verdur vid flugur samlíkt, Eph. 6; en þad er þeirra art, ad sækja þar mest ad ödrum lifandi skepnum, sem þeim er meinsamast, og hvar sem hörundid er af, þar setjast þær á og stínga; þeim eru hinir ógudligu spottarar líkir, sem eru þrótkir

um annars mein, og una sér illa nema einhvør steyti sig, sverja sig svo í ættina ad þeir séu af Fjandanum, um hvørn Páll talar, Eph. 2: ad hann sé einn høfdíngi, sem vald hafi í loptinu, verkandi í þvermódskunnar-børnum. Þessi málhelti drottnar nú svo mjøg í heiminum, ad þótt allir hati hana á ødrum, sem von er, því hún spillir hinum besta hlut, sem er gott mannord og rykti, þá géta svo fáir vanid túngu sína þar-um, og eru þeir af Djøflinum þúngliga plágadir, sem þannin lyndir eru, og væri øllu betra ad þeim væri túngan úr munni skorin, heldur enn ad þeir séu veltalandi til þess ad safna sér þeim syndum, er því valda, ad þeir ecki fá einn vatns-dropa til ad kjæla hana med, nær þeir pínast í helvítis eldi, Lúc. 16, af hvørjum St. Jakob segir, ad þvílíkar túngur séu upptendradar; því ef Endurlausnarinn skipar ad útstínga þad augad, sem hneixlar, Matth. 18, þá er líkligt ad hid sama megi þess heldur um túnguna segja, sem hún er hæfari til ad drýgja fleiri og verri syndir, nær hún misbrúkud er. O, Herra Jesú Christe! þú saklausa Guds-Lamb, sem ecki upplaukst þínum munni, heldur enn saudur til slátrunar leiddur, Esa. 53, virdst þú ad temja vora túngu til ad lofa og dyrka þitt h. nafn á-medan vér hrekjumst í utlegd þessari, svo ad vér þér eylíft lof sýngja megum í dýrd himnanna, med øllum útvøldum Guds børnum, amen!

## Sunnudaginn í Mid-føstu.

### Gudspjallid, Jóh. 6. Kap.

Á þeim tíma; eptir þetta fór Jesús yfir um sjáfar-hafid Galíleæ, sem liggur vid stadinn Tiberíadis, og mikill mann-fjøldi fylgdi hønum eptir, þvíad þeir sáu hans jardteikn, sem hann gjørdi á þeim sem sjúkir vóru. Jesús géck uppá eitt fjall, og settist þar nidur med sínum lærisveinum; en þá var Páska-hatíd Gydínga nálæg. Og Jesús leit þá upp, og sá ad mikill mannfjøldi kom til hans; þá sagdi hann til Philippum: hvadan kaupum vér braud svo ad þessir neyti? en þetta sagdi hann til ad freista hans þar med, þvíad hann vissi sjálfur hvad hann vildi gjøra. Philippus svaradi hønum: braud fyrir tvø hundrud penínga nægist þeim ecki, svo ad hvør einn fái þá nockud lítid. Einn af hans lærisveinum, sem ad var Andreas bródir Símonar Petri sagdi hønum: eitt úngmenni er hér, sem hefir fimm bygg-braud og tvo fiska; en hvad skal þetta á-medal svo margra? þá sagdi Jesus: látid mennina setjast nidur ad borda, en þar var í þeim stad gras mikid; og þar settust nidur ad borda, kallmenn ad tølu, nær fimm þúsundir. En Jesús tok braudin, þá hann hafdi þackir gjørt, og féck sínum lærisveinum, en þeir feingu þeim sem til bordsins høfdu setst; slíkt hid sama af fiskunum, svo mikid sem hvør vildi hafa. En þá þeir voru mettir, sagdi hann til sinna lærisveina: safnid saman þeim

leifum sem af geingu, svo ad eckert spillist. En þeir søfnudu þeim saman, og fyltu upp tólf karfir medur þessar leifar, af þeim fimm bygg-braudum, hvørjar ad vóru auk þess, sem þeir høfdu neytt. En þá er þessir menn sáu hvørt teikn ad Jesús gjørdi, søgdu þeir: þessi er sannarliga sá Spámadur sem í heimin skal koma. En þá Jesús formerkti þad, ad þeir mundu koma og handtaka hann, og gjøra hann ad konúngi, veik hann einsaman burt, upp aptur á fjallid.

## Exordium.

Einn af þeim gømlu spekíngum sagdi fordum daga, ad náttúran væri ánægd med lítid; en ef vér eigum ad skrifa undir med hønum, þá munar nockru hvørnin náttúrunnar þýding er tekin, því skiljist fyrir þetta ecki nema sál og líkhami í sjálfum sér, þá er þad satt, ad þau þurfa ecki mikils vid af veraldligum munum sér til vidværis. Þegar líkhaminn er ó-soltinn og ó-frosinn, þá er hønum nóg; en þegar sálin girnist ei framar, þá er hún ánægd, og vardar litlu med hvørju þessi naudþurft er uppfyld, því eins vel undi Adam í skinn-kyrtlinum, Gén. 3, og Salómon í allri sinni prýdi, Matth. 6, og Jóhannes øllu betur í úlfalds-feldinum, Matth. 3, heldur en Heródes í sinni purpura-kápu, Act. 12. En sé náttúrunnar glósa tekin fyrir syndum-spilt mannsins edli, þá hefir hún nær því aldrei nóg; hún er eldinum lík, sem þess meir logar sem meir er í hann borid. Blód-sugan sleppir húdinni um sídir, þegar hún er fullordin; en syndum-spilt náttúra sjaldan því er hún legst á; sadníngin er henni ord-søk til æ meira húngurs, og hún verdur aldrei sødd nema med sultinum; vilji nockur sedja hennar fýkn, þá tekst þad ecki med ødru móti, enn ad draga vid hana fódrid, svo hún dragist sjálf upp um sídir. Hvad lítils ad náttúran af sjálfri sér vid-þurfi, þad kénnir oss Frelsar-inn hjá Lúc. 12, medal annara, þar hann segir: verid ecki hugsjúkir fyrir ydru lífi, hvad þér skulud eta, eda fyrir ydar líkhama, hvørju þér skulud klædast; er ecki lífid meir enn fædslan, og líkhaminn meir enn klædnadurinn? En þótt ad vor náttúra þurfi ecki margra hluta eda mikillar umsorgunar vid, þá hefir Gud samt tilskickad, ad madurinn skuli med erfidi næra sig af jørdunni alla sína lífs-daga. Þad gamla løgmál stendur enn-nú í dag óraskad: í sveita þíns andlitis skalt þú þíns brauds neyta, Gén. 3. Gud hefir lofad ad blessa Jsraels erfidi, Devt. 28, en ecki hans idjuleysi; hann géfur ad sønnu þeim er hann elska sitt braud, þá þeir sofa, Ps. 127; hann lætur himininn rigna, jørdina gróa, fénadinn ávaxtarsaman verda og vøtnin af sér géfa allra handa fiska, þótt madurinn sofi; en samt hefir hann þó ecki hér med leyst ad hann skuli aldrei vaka, eingum hefir hann heitid ad steikt gjæs skuli fljúga í munn hønum. Letin er einn lifandi daudi, og vakandi svefn, og vinnur ecki nema til óþocka bædi hjá Gudi og mønnum. Ef nockur réttir einhvørjum ølmusu og hann nennir ecki vid ad taka, hvad kann sá vid því sem géfur? og svo er þad einnvegin, þegar Gud upplýkur sinni mildu hendi, til ad sedja allar lifandi sképnur, og lætur grasid vaxa á jørdunni, fiskin túngast í vøtnunum, fénadinn ávaxtast á landinu, en mennirnir forsóma ad hirda þessar Guds gáfur; er þá nockud skuldin hjá vorum Skapara? lángt frá því. Man lét hann rigna ad sønnu á eydimørkunni, Exód. 16, en sjálfir máttu Jsraels synir þad saman lesa, og aldrei veit eg ad manninum sé atvinnu sinni lofad, nema hann hafi umsorgun þar fyrir med sínu erfidi, þó ecki med heidíngligri búksorg, med hvørri Gud bannar ad þýngja hjørtun, Lúc. 21. J einu ordi ad segja, ad leita fyrst Guds-ríkis og hans réttlætis, svo oss allt annad gott tilleggjist, Matth. 6; þad er sá rétti vegur. En þadan frá liggja tvær villi-gøtur, ønnur til leti og ómennsku, ønnur til ofmikillar áhyggju. Bádar verda oss bannadar í upp-lesnu Evangelió; af hvørju eg vil þad alleina tala í þetta sinn: hvørnin vér eigum kristiliga og ærliga ad leita næríngar vorrar. Hjálpa oss hér til gódi miskunsemdanna Fadir fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Í upphafi þessa h. Evangelíí heyrum vér, b. G. e. ad þegar vor Herra fór yfir um sjóinn, sem liggur vid stadinn Tíberías, þá hafi mannfjøldi mikill fylgt honum eptir, hvíad þeir sáu þær jarteiknir, er hann gjørdi á þeim sjúku. Sannliga hefir þad verid eyriudi þessa fólks, ad heyra Jesúm og hans kénníngar, hvørjar hann stadfesti med kraptaverkunum; þeir telja ecki eptir sér ad fylgja honum eptir, þó hann geingi á eydímørku, því Jesús géck uppá eitt fjall, segirTextinn, og þeir fást ecki um þad, ad þeir høfdu eckert til matar med sér, og ei heldur var þar ad fá í óbygdinni. Lær hér af, kristinn madur, hvørnin þú átt ad haga dagliga þínu framferdi; þessir vóru 5000 ad tølu, en Gud gjæfi ad 5 findust í mørgum þúsundum á-medal vor, sem láta sér umhugad vera, ad leita fyrst Guds-ríkis, og hans réttlætis, ádur enn þeir fara ad þýngja sitt hjarta med sorgum þessarar næríngar. Ecki er hér gétid um ad þetta hafi skéd á sabbats-edur hvíldar - degi; þad hefir og ecki verid, því annars mundi Drottinn hafa birtst í samkundunni, og ecki verid á reisu þann sama dag; þú skalt og ecki meina ad þad sé nóg, ad þú hlaupir til kyrkjunnar hvørn helgan dag; hvørn dag áttu ad offra Gudi þackargjørdinni, því hvørn dag er hans miskun ný og fersk yfir þínu høfdi, Thren. 3; þú medtekur á hvørjum degi þitt dagligt braud med þínum munni, því á og þinn munnur dagliga ad lofa og prísa hann, sem þig og allar lifandi sképnur mettar med sinni velþóknan; en þú ert hirdulítill þar-um, og þér þykir þeirri stundu illa varid vera, sem þú géfur Gudi til ad bidja hann um sína blessan, eins og honum sé veitt í því ad miskuna þér. Hvørn afgud gjørir þú sjálfan þig? meinar þú ad einnar stundar erfidi dragi þér meira enn hans adstod, sem í einu augnabliki snéri vatni í vín, Jóh. 2; sem med sinni blessan mettadi 5000 manns af 5 bygg-braudum? mun þitt vikuverk med allri þinni áhyggju verka meir enn hann, sem á 6 døgum skapadi hid dásamliga stórvirki himins og jardar? Gén. 1; og þó ert þú svoddan sjálfbyrgíngur, ad þú vilt ecki fá hann í lid med þér, ádur enn þú geingur til þíns erfidis. Veitst þú ecki ad madurinn lifir eigi af einusaman braudi, heldur af sérhvørju ordi, sem framgengur af Guds munni, Devt. 8. Tveir vegir liggja til alls-nægta í heiminum; annar í-gégnum mikil umsvif med Martha, Lúc. 10, en annar med María, ad þvo fætur Jesú med sínum tárum, og þerra þær med hár-lockum sínum, Jóh. 11. Ecki segi eg ad þessar leidir kunni ecki saman ad liggja, og þótt sinn fari hvørja, ad þeir kunni ecki bádir ad hafa sama nætur-stad, því Martha og María kunna vel ad forlíkast í einu húsi, þó svo, ad hin gjøri ecki þessa afskipta edur klagi yfir henni, því hún hefir útvalid þad góda hlutskiptid, Lúc. 10. Luckuligt er þad hús, hvar forsjón og gudrækni haldast í hendur, svo ad María bidur, en Martha stydur; en skuli annars-hvørs án vera, þá er sá lángtum beinni, sem liggur réttlínis til Guds, heldur enn hinn, sem lætur oss flækjast í kríngum hans sképnur. Vor áhyggja og erfidi kann ad bregdast; hvad margur vinnur baki brotnu, og þrífst ecki samt? en gudræknin hefir aldrei nockrum brugdist, heldur verda þeim allir hlutir ad gódu, jafnvel sjálfur skorturinn, sem ad Gud elska, Róm. 8; séu þeir líkhamliga voladir, þá eru þeir í Gudi ríkir; séu þeir foraktadir í heiminum, þá eru þeir þó mikils metnir í himninum. Skal eg kalla hann ríkan, sem á mørg naut og saudi, og ecki miklu heldur þann, sem á himins og jardar

Skapara? ef Gud blessar ecki sína þjónustu med ríkdómi, þá bregdst þad þó aldrei, ad hann blessi hana med sjálfum sér. Sá er ecki ríkur sem mikid á, heldur hinn sem lætur sér nægja; en hann sem hefir Gud, hann er altíd ánægdur, því þegar hann hefir Drottinn, þá skeytir hann hvørki um himin né jørd, Ps. 73. Mig skal ecki furda, þó Gud láti á-stundum sína elskendur vanta audlegd heims þessa, því hann hefir gefid þeim lángtum betra, sem er sjálfan sig. Þegar nockur hledur sitt skip med nytsamliga vøru, þá léttir hann á sér barlestinni; hvad skyldi hann, sem fullur er af Gudi, vilja þýngja sig med mammóna? og mun hann ei alla vegana varast Djøfulsins snørur, sem Gud hefir einusinni veiddan í sínu neti? Sá sem Gud hefir, hann hefir meir enn allt, og hann sem ecki hefir Gud, hann hefir minna enn ecki neitt; svo verdur gefid þeim sem hefir, og tekid frá þeim sem ecki hefir, einnegin þad hann hefir edur meinar sig hafa, Marc. 4. Vér heyrum framvegis í Guds-spjallinu, ad Drottinn segir vid Philippum: hvar kaupum vér braud, svo ad þessir neyti? Allt vald hafdi Jesús á himni og jørdu, Matth. 28, þó rádgast hann um þetta vid sinn lærisvein, hvar þeir kunni fædslu ad kaupa; med hvørju ordi hann bendir þér til, kristinn madur, hvørnin þú átt ad leita þinnar atvinnu, sem er í allan leyfiligan máta; ecki ad Andskotans rádi, því hann stelur øllu því hann rædur til, og ert þú þá hans þjófsnautur, ef þú fyrir hans áeggjan útvegar þér fóstur; ecki med okri, því Drottinn segir: þú skalt ei fá þína pennínga þínum bródur til okurs, Devt. 23; ecki med kúgun edur hardbrægni, því Gud hefir andstygd á þeim, sem selur lítilmagnan fyrir einn penníng, og hinn fátæka fyrir einn skó, Amos. 2. Næst þessum sitja í Andskotans ríki þjófarnir, sem útrétta sínar hendur til annarligra fjármuna, um hvørja St. Páll segir, 1 Cor. 6, ad þeir ecki eignist eylíft líf; og í sannleika þá er þjófurinn svívirdíng, bædi fyrir Gudi og mønnum; ad sønnu segir Sýrach, kap. 20, ad lídanligri sé þjófurinn enn lygarinn, þó muni bádir til ólucku verda. En þegar einn ódáda-skélmir tvinnar hvørutveggja saman, mun hann ecki flétta óluckunnar snøru handa sínum eiginn hálsi? og þótt hann meigi umflýa þá tím-anligu, þá er eckert vísara, enn ad hønum sálgad verdi med eylífri kirkíngu í helvíti, því eg hafdi nærri því sagt, ad þad væri þjófsins lucka, ef hann yrdi heingdur, ef ské mætti ad gálginn fríadi hann frá helvíti. Heyrid þér, Satans-børn, ef nockrir erud, sem meigid ord mín heyra, edur til þeirra spyrja: erud þér enn nú ecki óþyrstir vordnir af blódi fátæks almúga hér í landi? nær viljid þér láta af ad útsjúga hús þeirra sem ydur forsorgun veita med sínu erfidi? skulu Guds-børn leingi bera ydar svívirdíngar? á Gud oss leingi reidur ad vera fyrir ydar sakir? geingur ydur þad ecki til hjarta, ad hann straffar þá fyrir ydar skuld, sem ydur ala? hafid þér ecki heyrt, hvørsu Gud vard reidur vid Israel fyrir ein-saman Achans þjófnad? Jós. 7; vitid þér ecki hvad Drottinn segir hjá Zach. 5: þad er sú bølvan, sem útgeingur yfir landid, því allir þjófar verda sagdir frómir eptir þessu bréfi, en eg vil þad framkoma láta, segir Drottinn Zebaoth, ad þad skal koma yfir þjófsins hús, og þess hús, sem sver falskliga vid mitt nafn, og þad skal blífa í þeirra húsi og eyda því med þess stockum og steinum. Þeinkid þér þá, fyrst hann lídur ydur ad plága sín børn, medan ydar tími yfirstendur og makt myrkranna, þad Gud muni vera eins og þér, af því hann þegir, Ps. 50, og sér þó þetta, og ecki vitja um sídir ydar ógudligs athæfis,

sinni reidi, sem ad brennur allt til nedsta helvítis? Devt. 32. Þar fyrir látid af illu, ó, þér eytur=ormar og nødrukyn! og lærid gott ad gjøra, Esa. 1; hvør hann hefir stolid, hann steli ei framar, heldur erfidi med høndunum! Eph. 4. Maurinn er einn veikur hópur, þó utvega þeir sína fædslu um sumar=tíman; kunísinn er og veikur lýdur, þó byggja þeir sitt hús á steinum; gras=hoppurnar hafa eingan konúng, þó gánga þær allar út í hóp; gaungu=rófan vinnur med sínum fótum, og er í konúnganna híbýlum, Próv. 30; þetta gjøra hin vesælustu kvikindi jardar; en hvad gjørid þér, sem Gud hefir géfid skynsemdarfulla sál í heilbrigdum líkhama? O, þér hin hreckvísa kynslód! hvørsu viljid þér umflýja Guds reidi og fyrirdæmínguna? Matth. 23, nema þér ydrist af hjarta. Gudspjallamadurinn segir, ad Jesús hafi talad þessi ord til ad freista hans med, því hann vissi sjálfur hvad hann vildi gjøra; þú skalt og ecki láta þig þad undra, þótt Gud reyni sína, kristinn madur! Gud freistar ad sønnu einkis manns til ílls, segir Jakob, kap. 1; en til góds freistar Gud mannsins, svo ad reynsla vorrar trúar finnist gullinu dýrmætari, 1 Pet. 1, til lofs og dýrdar Christó. Abraham vard freistadur, Gén. 22, svo hann væri fyrirmyndun allra Abrahams sona; sú kananiska, Matth. 15, svo einginn ørvænti, þótt Gud megi þegja um stund vid bænum sinna barna. Merkiligt er þetta, ad Drottinn spyr Philippum ad þessu framar ødrum; sannliga, því hann hefir trúarveikur verid, svo ad, þad dýrdliga kraptaverk, er hann vildi gjøra, mætti þess betur gánga hønum til hjarta; eda hvad segir vor Herra, Jóh. 14, vid sama lærisvein, er hann beiddi ad hann sýndi þeim Fødurinn: trúir þú ecki ad Fadirinn er í mér og eg í hønum? og varla ødruvisi vóru hinir lærisveinarnir á sig komnir, hvar fyrir Endurlausnarinn straffar þá, Matth. 16, þá þeir høfdu braudid eptirskilid, segjandi: ó, þér litiltrúadir! enn þá skiljid þér ecki, munid þér ecki þau 5 braudin, þar ed voru 5000 manna? og hvad margar karfir þér upptókud. Svo vill nú vor Jesús med reynslunni og auglýsíngu síns almættis midt í freistíngunni smámsaman innplanta trúna hjá sínum lærisveinum, og sama gjørir hann enn nú í dag, þá hann hjálpina undandregur, edur lætur venjulig lífs=medøl bresta. Gud nádi, þótt menn séu Christí lærisveinum í flestu ólíkir nú í heiminum, þá finnast þó margir þeirra líkar í þessu; braud fyrir 200 penínga nægir þeim ecki. En hvad gjørum vér? strax sem vér høfum ecki fullan maga matar, þá er þar munnurinn fullur ørvæntíngar; ef þar er ecki allt fyrir augunum sem eta skal, þá segir hinn vantrúadi: þótt Gud gjøri glugga á himininn, þá kann þad ecki ad ské ad menn lifi, 2 Reg. 7; en hinn matvandi gétur ecki lifad vid þad léttmeti sem dagliga fellur, hann segir: hvar vill þessi géfa oss kjøt á eydimørku? Núm. 11; sýnist nockud ómøguligt, þá hædir mannlig skynsemi þar ad. Hvørnin skal þessi géfa oss sitt hold ad eta, og sitt blód ad drecka? Jóh. 6; þessi ørvæntíngarinnar= og óþolinmædis=ord byrgja tídt og opt aptur Guds miskunar idur, svo hann lætur hinum gudlausa verda eptir trú sinni. Heyrid þér mér, er þá nockurt ord ó=máttugt fyrir Gudi? hann sem skapad hefir steininn, kann hann ecki ad géfa vatn af hønum? Núm. 20; hann sem gjørt hefir vatnid, hvad létt veitir hønum ad umhverfa því í vín? Jóh. 2; er hønum nockud bágara ad láta mig finna gull í fiskssins munni, heldur enn í skøúnum jardar? Er ecki hrafninn grádug sképna; þó lét hann Elíam fá af hans munni kjøt og braud, 1

Reg. 17; pressar nockur oleum út af leir-kérum, og þó fylti Spámannsins bæn og eckjunnar trú svo mörg kér allt á barma, 2 Reg. 4. Þú segir Gud gjöri ecki kraptaverk á þessum dögum svo sem Elíæ; eg medkénni þad, því þess gjörist ecki þörf; Gud hefir gjört svo mörg kraptaverk sídan Elíæ-daga, ad sá sem ecki vill Gudi trúa fyrir þau, hann mundi ei heldur trúa, þótt hann sæi Elíæ kraptaverk; þar eru ei heldur margir á vorum dögum, sem þjóna Gudi eins og Elías; væri þar Elíæ trú, hans árvekni og ástundan í Guds þjónustu, þá trú mér til, ad Elíæ Gud er einn og hinn sami, og ecki umbreytist hann. Þú segir: Gud gjörir eingin kraptaverk; en hvört er meira ad gjöra alla hluti af eingu, Gén. 1, eda ad gjöra vatn ad víni, eda steina ad braudum; mér sýnist eckert meira kraptaverk enn þad, ad Gud kann ad forsorga þann vantrúada. Lærisveinarnir gátu ecki útrekid Túnglmeina-djöfulinn fyrir þeirra vantrúar sakir, Matth. 17; en eins mikid vald hefir Gud yfir Djöflinum sem yfir ödrum sínum sképnum; því sýnist mér þad yfir-máta mikid kraptaverk, ad Gud lætur hinum vantrúada og óþackláta nockurn hlut ad nockru gódu verda. Þar fyrir e. G. b. ef mannligur veikleiki kann ad koma inn hjá oss, svo sem Christí lærisveinum, ef vér erum þeim líkir í trúarveikinni, þá verum þeim ecki ólíkir í hlýdninni; þeir gjördu slíkt er þeim var skipad, þeir stódu ecki upp í nösunum á sínum Herra, eins og ad væri þetta ómedal, svo sem ad gjöra vorir þjónustumenn á þessum dögum; sé þeim skipad nockud óvenjuligt, þá hrópar hinn lati, ad þar sé ljón á veginum, Próv. 22. Gjörum því verk kallanar vorrar í Guds ótta, og vörpum allri vorri áhyggju uppá Gud, hann mun því vel til vegar koma, 1 Pet. 5. Jesús tók braudid í sínar hendur, segir textinn: í þær blessudu hendur tók hann þad, í hvörjar Fadirinn hefir lagt alla hluti, Jóh. 3.

Framar segir Gudspjallid ad hann hafi litid augunum til himins og gjört þackir. Ei þurfti vor Jesús þessarar blessunar vid, til ad gjöra kraptaverk fyrir sjálfan sig; þad vottar hann sjálfur hjá Jóh. 11, segjandi: eg þacka þér Fadir, ad þú bænheyrdir mig; en eg vissi þú mundir mig bænheyra, heldur vegna fólksins sem í-kríngum er, svo ad þeir trúi þad þú hefir sendt mig. Þar fyrir skalt þú vita, syndugur madur, hvörjum Gud géfur dagliga sína blessan, ad þinn Endurlausnari hefir géfid þér eitt blessad dæmi hér med, þad þú trúa skyldir, ad þín faung og fæda verdur þá helst til blessunar, þegar hún er í hans nafni blessud. Þad er ei minna verdt ad gjæta feingins fjár enn ad afla; sömu atferd skal og kristinn madur hafa til hvörstveggja; eg sagdi fyrir skömmu þess skyldi í Guds ótta leita, svo segi eg enn-nú ad þess skal í Guds ótta neyta. Hvad segir Drottinn um þá sem treysta á mátt sinn og megin, Esa. 8: verid illir þér lýdir, og rennid þó undan; herklædid ydur, og hlaupid þó á flótta; búid ydur út, og flýid þó undan; ályktid eina ráda-gjörd, og þar verdi þó ecki af; hafid samtök, en þad hafi þó eingan stad; og allt eins eru söfn manna og addrættir fyrir utan blessan Drottins. Margur hirdulaus meinar ad þetta sé ecki nema fánýtt hjal, sá ed ecki einasta hleypur sem annar hundur til sinnar fædu, heldur og lætur sér aldrei til hugar koma ad bidja Gud ad blessa sín efni. Öll sképnan er gód, segir Páll, 1 Tím. 4, og eckert burtkastandi, ef hún er med þacklæti medtekin, því hún helgast fyrir ordid og bænina; en Gud nádi hvada þackir hin eylífa Miskunsemi má

fá fyrir sína dagliga blessan hjá mørgum manni. Eg meina þad sé sannast, ad vér setjumst nidur ad eta á=stundum, og rísum upp til ad dansa, Exód. 32. O, manneskja! er þá Gud leingur ad svipta enn ad géfa, reidur heldur enn miskunsamur ad vera, Sýrach. 5. Láti hann oss nockud mótdrægt tilfalla, þad liggur svo þúngt med oss sem blý; en ef hann opnar sínar miskunar=ríku ørlætis hønd, þad er hjá oss léttara enn fis. Framvegis stendur í vorum Texta: ad Jesús hafi feingid sínum lærisveinum braudid, en þeir feingu þeim, sem til bordsins sátu; slíkt hid sama af fiskunum, svo mikid sem hvør vildi hafa. Þetta sýnist mér vera ein ágjæt lífs=regla fyrir kristinn mann, hvørnin hann á ad høndla med Guds gáfur, sem hønum eru í hendur feingnar. Jørdin er Drottins og allt hvad þar inni byggir, Ps. 24; sína rádsmenn hefir hann sett yfir eigur sínar; hvør er sá trúi rádsmadur, segir Jesús, Lúc. 12, er hans herra setur yfir sín hjú, þad hann géfi þeim í réttan tíma þad sem þeim ber? sæll er sá þjón, sem hans herra finnur svo gjøra, þá ed hann kémur. Eins og Jesús fécк sínum lærisveinum í hendur braudid, til ad útskipta því medal bordsitjandanna; svo hefir hann og þeim, er hønum þóknast, afhendt audlegd þessa heims, til ad útbýta medal þurfandra. Þú skalt ecki meina, kristinn madur, ad þad sé allt þitt eigid sem þú medferdis hefir; þad braud sem afgángs er í þínn húsi, er forsorgun hins volada; sá møttull er þú þarft ecki ad brúka, er klædi hins nakta, Lúc. 3; þau føung sem á annan veg hjá þér skémmast og fúna, eru lífsbjørg hins naudþurftuga; þar fyrir gjørir þú svo mørgum fátækum órétt, sem þú mættir annars þér ad skadlitlu hjálpa, ef þú því inni=heldur, þá hinn voladi, sem er sannur ølmusu=madur, vid þarf. Ei þurfum vér ad brjóta nidur vorar kornhlødur og gjøra adrar stærri, svo leingi vér høfum fátæka hjá oss; kornid liggur idjulaust í hlødunni og verdur kannské um=sídir af ormum uppétid, en hjá hinum fátæka ber þad ávøxt, svo sem á akrinum. Svoddan akurmenn eru næsta þarfir; eg vil heldur sá einu korni í munn hins fátæka, heldur enn tíu í jørdina; eg vil heldur fá hinum volada tíu peninga, enn kasta hundrad á mángarans bord, hann mun því med þúsundføldum ábata apturskila, ef ecki í þessum heimi, samt í upprisu réttlátra, hvar einn vatnsdryckur mun ecki ólaunadur verda, Matth. 10. Hinn rángláti rádsmadur var ófrægdur vid sinn herra, svo sem hefdi hann eydt hans gótzi, Lúc. 16; meinid þér ecki og ad hróp hins fátæka og eckjunnar, muni ófrægja þá í himninum fyrir lifanda Gudi, sem liggja á Gudsgáfum, svo sem ormur á gulli, og ala ágirndina, en fátækur fellur af húngri í frosti og stórri neyd? Því er illa útsóad, sem ofvel er geymt, því slíkt er elds=matur og orma=fæda, en kémur ecki í Guds kistuna, svo þad verdi ad himneskum féssjód, hvørjum mølur og ryd kann ecki ad granda, Matth. 6. Fordum daga í gamla Testamentinu, þá hafdi Gud skilid sér vissar fórnir fyrir syndirnar; ecki í þeirri meiníngu, ad blód uxanna og hafranna kynni ad hreinsa samvitskurnar, heldur vóru þar í fyrirmyndud eptirkomandi gjædi, sem er blódid Jesú Christí, hvørt ed hreinsar oss af øllum vorum syndum; en þessir tída=sidir eru fyrir laungu afteknir, þar Guds eingétinn Sonur er í holdinu opinberadur, og hefir fyrir sitt eigid blód einusinni inngeingid í þad allra=helgasta, ad útvegadri eylífri endurlausn, Ebr. 9; þó eiga vorar fórnir og upplyptíngar=offur dagliga ad uppstíga í himininn fyrir Guds hásæti, ecki einasta med bæn og andvarpan, heldur med ølmusugjørdum vid

fátæka. Þínar bænir og ølmusugjørdir eru uppstignar fyrir Gud, sagdi Postulinn vid Cornelíum, Act. 10. Þad er sú fórn sem Gudi líkar framar enn blód uxanna og hafranna, þá þad framkémur af trúudu hjarta, því segir Páll til Hebr. 13: gott ad gjøra og ad útbýta gleymid ecki, þvíad slík offur þóknast Gudi. Hvar fyrir mun Gud láta suma menn vera ríka, suma fátæka í heiminum? møguligt er hønum ad láta alla vera jafna, og eingan þurfa annars med. Margar eru ordsakir þar til, enn þó ecki hin sízta, ad Gud vill láta sig dýrka af svoddan manneskjum; þad þér gjørdud einum af þessum minstu, þad gjørdud þér mér, segir alls holds dómari á sídasta degi, Matth. 25. Mikid er þad, ad Gud, sem er einkis þurfi, vill þiggja í því, sem hinum fátæku er gott gjørt; þar eigum vér ad sýna vora elsku til Guds; þar er skóli vorrar gudhrædslu; þar er þad altari, sem vér eigum ad leggja vora gáfu uppá. Ein brúdur skémtir sér vid mynd síns brúdguma þar til hann kémur. Vor meistari er nú tekinn frá voru høfdi og hafinn yfir alla himna; mig hafid þér ecki alltíd hjá ydur, en fátæka hafid þér hjá ydur, sagdi hann, Jóh. 12. Þeir eru hans lifandi eptirmynd, og hans limir sem fara út og austur, og ecki hafa hvar þeir kunni høfdi sínu ad halla ad; eg meina ecki þá, sem fyrir ómennsku sakir bidja um ølmusu, edur hina drambsømu leti-maga, sem alla hluti heimta af sjálfs-valdi, og gjalda bølvan og formæling í laun, ef þeirra háls er ecki fyltur, heldur þá, sem annadhvort hafa slitid sinni heilsu med ærligu erfidi, eda Gud hefir sinn kross á herdar lagt (því ecki heyri eg minn Herra hafa nockurn hlut med sjálfskyldu útheimt, þó hann hefdi allt vald bædi á himni og jørdu, Matth. 28,) þá byrjar ad medtaka í Jesú nafni, og minnast þess, er Drottinn baud, Devt. 15: alla tíma munu þar verda fátækir í landinu; því býd eg þér og segi, ad þú skulir uppljúka þinni hendi fyrir þínum bródur, sem þurftugur og fátækur er í landinu. En þá þeir vóru nú mettir (segir Textinn,) sagdi hann til sinna lærisveina: safnid saman þeim leifum, sem afgángs eru, svo ad eckert spillist, og ad þeir hafi fylt upp tólf karfir med afgángs-leifar. Hér kénnir vor Endurlausnari þér, syndugur madur, løgmál kristiligrar forsjónar, sem er ad hirda vel Guds gáfur. Gud sá allt þad hann hafdi skapad, og sjá þad var allt harla gott, segir Ritníngin, Gén. 1; ef þad var allt gott fyrir hønum, í hvørs augliti himnarnir eru ecki hreinir, Job. 15, skyldi þá nockur sképna vera svo audvirdilig í þínum augum, ó, þú saurnga manneskja! ad þú vildir þar ecki um-hirda? Ó, Herra Gud! vorar syndir, vorar syndir, vort óþacklæti og ofmetnadur stendur mér nú fyrir augum. Hvad gjørum vér á þeim gódu tímunum, þegar Drottinn lætur sína blessan án mælingar falla af himnum ofan í vort skaut? munum vér næsta hirtnir vera í landi þessu ad samansafna þeim leifum, sem afgángs verda? er ecki allur annar hégómi dyrmætari í vorum augum enn þad, sem Gud gefur oss til fósturs? velgir ecki vora þjónustumenn vid dagligri fædslu? hirda menn stórt um ad nýta Guds gáfur svo sem gjøra mætti? Þessar syndir berum vér sídan; kann-ské þad kæmi sér ærid vel í dýrtídinni, sem einginn nýtir þegar allt er nóg. Ó, hvad margann kann þá ad húngra eptir því, sem hann nú fóttredur! Þó køstum vér skuldinni uppá Gud, en einginn gáir ad því, ad oss er þessi hefndin næsta maklig, og ad vér høfum þad og annad þúsundsinnum verra forskuldad. Látum oss þess

fá fyrir sína dagliga blessan hjá mørgum manni. Eg meina þad sé sannast, ad vér setjumst nidur ad eta á=stundum, og rísum upp til ad dansa, Exód. 32. O, manneskja! er þá Gud leingur ad svipta enn ad géfa, reidur heldur enn miskunsamur ad vera, Sýrach. 5. Láti hann oss nockud mótdrægt tilfalla, þad liggur svo þúngt med oss sem blý; en ef hann opnar sínar miskunar=ríku ørlætis hønd, þad er hjá oss léttara enn fis. Framvegis stendur í vorum Texta: ad Jesús hafi feingid sínum lærisveinum braudid, en þeir feingu þeim, sem til bordsins sátu; slíkt hid sama af fiskunum, svo mikid sem hver vildi hafa. Þetta sýnist mér vera ein ágjæt lífs=regla fyrir kristinn mann, hvørnin hann á ad høndla med Guds gáfur, sem hønum eru í hendur feingnar. Jørdin er Drottins og allt hvad þar inni byggir, Ps. 24; sína rádsmenn hefir hann sett yfir eigur sínar; hver er sá trúi rádsmadur, segir Jesús, Lúc. 12, er hans herra setur yfir sín hjú, þad hann géfi þeim í réttan tíma þad sem þeim ber? sæll er sá þjón, sem hans herra finnur svo gjøra, þá ed hann kémur. Eins og Jesús fékk sínum lærisveinum í hendur braudid, til ad útskipta því medal bordsitjandanna; svo hefir hann og þeim, er hønum þóknast, afhendt audlegd þessa heims, til ad útbýta medal þurftugra. Þú skalt ecki meina, kristinn madur, ad þad sé allt þitt eigid sem þú medferdis hefir; þad braud sem afgángs er í þínn húsi, er forsorgun hins volada; sá møttull er þú þarft ecki ad brúka, er klædi hins nakta, Lúc. 3; þau faung sem á annan veg hjá þér skémmast og fúna, eru lífsbjørg hins naudþurftuga; þar fyrir gjørir þú svo mørgum fátækum órétt, sem þú mættir annars þér ad skadlitlu hjálpa, ef þú því inni=heldur, þá hinn voladi, sem er sannur ølmusu=madur, vid þarf. Ei þurfum vér ad brjóta nidur vorar kornhlødur og gjøra adrar stærri, svo leingi vér høfum fátæka hjá oss; kornid liggur idjulaust í hlødunni og verdur kannské um=sídir af ormum uppétid, en hjá hinum fátæka ber þad ávøxt, svo sem á akrinum. Svoddan akurmenn eru næsta þarfir; eg vil heldur sá einu korni í munn hins fátæka, heldur enn tíu í jørdina; eg vil heldur fá hinum volada tíu penínga, enn kasta hundrad á mángarans bord, hann mun því med þúsundføldum ábata apturskila, ef ecki í þessum heimi, samt í upprisu réttlátra, hvar einn vatnsdrycknr mun ecki ólaunadur verda, Matth. 10. Hinn rángláti rádsmadur var ófrægdur vid sinn herra, svo sem hefdi hann eydt hans gótzi, Lúc. 16; meinid þér ecki og ad hróp hins fátæka og eckjunnar, muni ófrægja þá í himninum fyrir lifanda Gudi, sem liggja á Gudsgáfum, svo sem ormur á gulli, og ala ágirndina, en fátækur fellur af húngri í frosti og stórri neyd? Því er illa útsóad, sem ofvel er geymt, því slíkt er elds=matur og orma=fæda, en kémur ecki í Guds kistuna, svo þad verdi ad himneskum fésjód, hvørjum mølur og ryd kann ecki ad granda, Matth. 6. Fordum daga í gamla Testamentinu, þá hafdi Gud skilid sér vissar fórnir fyrir syndirnar; ecki í þeirri meiníngu, ad blód uxanna og hafranna kynni ad hreinsa samvitskurnar, heldur vóru þar í fyrirmyndud eptirkomandi gjædi, sem er blódid Jesú Christi, hvert ed hreinsar oss af øllum vorum syndum; en þessir tída=sidir eru fyrir laungu afteknir, þar Guds eingétinn Sonur er í holdinu opinberadur, og hefir fyrir sitt eigid blód einusinni inngeingid í þad allra=helgasta, ad útvegadri eylífri endurlausn, Ebr. 9; þó eiga vorar fórnir og upplyptíngar=offur dagliga ad uppstíga í himininn fyrir Guds hásæti, ecki einasta med bæn og andvarpan, heldur med ølmusugjørdum vid

fátæka. Þínar bænir og ölmusugjørdir eru uppstignar fyrir Gud, sagdi Postulinn vid Cornelíum, Act. 10. Þad er sú fórn sem Gudi líkar framar enn blód uxanna og hafranna, þá þad framkémur af trúudu hjarta, því segir Páll til Hebr. 13: gott ad gjøra og ad útbýta gleymid ecki, þvíad slík offur þóknast Gudi. Hvar fyrir mun Gud láta suma menn vera ríka, suma fátæka í heiminum? møguligt er hønum ad láta alla vera jafna, og eingan þurfa annars med. Margar eru ordsakir þar til, enn þó ecki hin sízta, ad Gud vill láta sig dýrka af svoddan mannesk jum; þad þér gjørdud einum af þessum minstu, þad gjørdud þér mér, segir alls holds dómari á sídasta degi, Matth. 25. Mikid er þad, ad Gud, sem er einkis þurfi, vill þiggja í því, sem hinum fátæku er gott gjørt; þar eigum vér ad sýna vora elsku til Guds; þar er skóli vorrar gudhrædslu; þar er þad altari, sem vér eigum ad leggja vora gáfu uppá. Ein brúdur skémtir sér vid mynd síns brúdguma þar til hann kémur. Vor meistari er nú tekinn frá voru høfdi og hafinn yfir alla himna; mig hafid þér ecki alltíd hjá ydur, en fátæka hafid þér hjá ydur, sagdi hann, Jóh. 12. Þeir eru hans lifandi eptirmynd, og hans limir sem fara út og austur, og ecki hafa hvar þeir kunni høfdi sínu ad halla ad; eg meina ecki þá, sem fyrir ómennsku sakir bidja um ølmusu, edur hina drambsømu leti-maga, sem alla hluti heimta af sjálfs-valdi, og gjalda bølvan og formæling í laun, ef þeirra háls er ecki fyltur, heldur þá, sem annad-hvørt hafa slitid sinni heilsu med ærligu erfidi, eda Gud hefir sinn kross á herdar lagt (því ecki heyri eg minn Herra hafa nockurn hlut med sjálfskyldu útheimt, þó hann hefdi allt vald bædi á himni og jørdu, Matth. 28,) þá byrjar ad medtaka í Jesú nafni, og minnast þess, er Drottinn baud, Devt. 15: alla tíma munu þar verda fátækir í landinu; því býd eg þér og segi, ad þú skulir uppljúka þinni hendi fyrir þínum bródur, sem þurftugur og fátækur er í landinu. En þá þeir vóru nú mettir (segir Textinn,) sagdi hann til sinna lærisveina: safnid saman þeim leifum, sem afgángs eru, svo ad eckert spillist, og ad þeir hafi fylt upp tólf karfir med afgángs-leifar. Hér kénnir vor Endurlausnari þér, syndugur madur, løg-mál kristiligrar forsjónar, sem er ad hirda vel Guds gáfur. Gud sá allt þad hann hafdi skapad, og sjá þad var allt harla gott, segir Ritníngin, Gén. 1; ef þad var allt gott fyrir hønum, í hvørs augliti himnarnir eru ecki hreinir, Job. 15, skyldi þá nockur sképna vera svo audvirdilig í þínum augum, ó, þú sauruga manneskja! ad þú vildir þar ecki um-hirda? O, Herra Gud! vorar syndir, vorar syndir, vort óþacklæti og ofmetnadur stendur mér nú fyrir augum. Hvad gjørum vér á þeim gódu tímunum, þegar Drottinn lætur sína blessan án mælíngar falla af himnum ofan í vort skaut? munum vér næsta hirtnir vera í landi þessu ad samansafna þeim leifum, sem afgángs verda? er ecki allur annar hégómi dýrmætari í vorum augum enn þad, sem Gud géfur oss til fósturs? velgir ecki vora þjónustumenn vid dagligri fædslu? hirda menn stórt um ad nýta Guds gáfur svo sem gjøra mætti? Þessar syndir berum vér sídan; kann-ské þad kæmi sér ærid vel í dýrtídinni, sem einginn nýtir þeg-ar allt er nóg. O, hvad margann kann þá ad húngra eptir því, sem hann nú fóttredur! Þó kostum vér skuldinni uppá Gud, en einginn gáir ad því, ad oss er þessi hefndin næsta maklig, og ad vér høfum þad og annad þúsundsinnum verra forskuldad. Látum oss þess,

ara synda ydrast, børn mín, og þær til hjarta gánga med gudrækiligum ásetníngi ad breyta forsjálliga framvegis. Gud hefir eingan hlut gjørdan forgéfins; svo vill hann og ecki láta illa né ónaudsynliga þar med fara. Svo er og ei heldur Gudi þæg metordagirnd þeirra, er sóa Guds gáfum til ad útvega sér stórt nafn þar med. Hvad talar Drottinn um þá, er gjøra sínar ølmusur fyrir mønnum? sannliga segi eg ydur, þad þeir hafa sín laun úttekid, segir hann, Matth. 6, þad er hégóma-dýrd og fánýtt hrós mannanna. Frelsarinn lét géfa þessu fólki ad eta, þar til þeir vóru mettir, því er af-géck skipadi hann upp ad safna; þad er kristiligt ad metta maga hins húngrada, en ad sedja auga hins grádnga, er ónaudsynligt. Þar eru margir, sem menn gjøra verri med of-miklu ørlæti og altíd reidubúna til ad gapa eptir sama; þad er gudrækiligt ad safna nægtum, þegar vel geingur, svo þar sé til ad hjálpa af í þeirri vondu tíd; þad er ein gód forsjón ad minnast þess umlidna, hugsa um þad nærveranda, og sjá fyrir því ókomna, þó fyrir utan búksorg og ó-kristiliga áhyggju. Jósephs framsýni er hrósad, ad hann fylti kornhløđur Pharaónis á þeim gódu árum, og frelsadi landid af húngri, þá illa géck, hvar fyrir hann kalladist: Landsins Fadir, Gén. 41. Þad er og hálfu verra ad eyda ónaudsynliga uppá sjálfann sig í ofmetnadi klædnadarins og óhófi matar og dryckjar. Ad sønnu hefir Gud ecki bannad ad hafa inndæli af sínum sképnum, þó svo, ad menn gledji sig med ótta, og gleymi ecki hinum þurftuga. Ecki er víst, ad dómur hins ríka hefdi vordid svo skélfiliga strángur, hefdi ei Lazarus legid vatnandi fyrir hans dyrum, Lúc. 16. Sjálfur Gud hefir géfid eitt løgmál hér um sínu fólki, Devt 16: Þú skalt vera gladur fyrir Drottni þínum, þinn sonur og þín dóttir, þinn þénari og þín ambátt, Levítinn, sem er innan þinna portdyra, hinn framandi, hinn fødurlausi, og eckjan, sem er hjá þér í þeim stad, sem Drottinn Gud þinn hefir útvalid þad hans nafn skuli hjá þér búa. Svo hefi eg nú ad nockru leiti sýnt þann rétta veg til ad leita atvinnu sinnar út af þessu h. Evangelíó, eptir því sem eg skil af Guds ordi; svo leitid nú fyrst Guds-ríkis og hans réttlætis, Matth. 6; brúkid leyfilig medøl í øllum ydar athøfnum og útréttíngum; treystid Gudi, ad hann muni ydur og ydar forsorga, þá þér svo gjørid; bidjid þann Almáttuga ad blessa ydar faung, ydar karfir og afgángs-leifar; gleymid ecki hinum þurftuga og volada; látid ydar ølmusur framkoma af trúnni og elskunni til Guds og náúngans; høndlid vareygdarsamliga med Guds gjøf, og verid þacklátir bædi í ordi og verki; gjørid þetta, og munud þér aldrei illa fara! En Drottinn Gud, eylífur konúngur og alleina ríkur! hann uppfylli alla ydar naudþurft eptir sínum dýrdar-ríkdómi í Christó Jesú, Phil. 4, og géfi fyrir hans forþénustu, ad þér ad afstadinni armædu þessa lífs, mættud innleiddir verda í føgnud ydvars Herra, til ad sitja til bords med Abraham, Isak og Jakob, Matth. 8, og mettast af nægdar-gjædum Guds húss: þad bænheyri miskunsamur Gud fyrir sinn Son Jesúm Christum, amen!

## Sunnudaginn eptir Mid-føstu.

Gudspjallid, Jóh. 8 Kap.

Í þann tíma, Jesús sagdi til Gydínganna og høfdíngja kénni-

mannanna: hvør er sá af ydur, þad hann megi straffa mig um nockra synd? En ef eg segi ydur sannleikan, hvar fyrir trúid þér mér þá ecki? Hvør hann er af Gudi, sá heyrir Guds ord, þar fyrir heyri þér þau eigi, þvíad þér erud ei af Gudi. En Gydíngarnir svørudu, og søgdu til hans: segjum vér ecki vel, þad þú ert samverskur, og hefir Djøfulinn? Jesús svaradi: eg hefi ecki Djøful, heldur heidra eg minn Fødur, og þér vanheidrid mig. Eg leita ei ad minni dýrd, sá er sem leitar og dæmir. Sannliga, sannliga segi eg ydur: hvør hann geymir mín ord, hann mun ecki daudan sjá ad eylífu. Þá søgdu Gydíngarnir til hans: nú þeckjum vér, ad þú hefir Djøfulinn. Abraham er daudur, og spámennirnir, og þú segir: ef ad sá er nockur sem geymir mín ord, hann skal ecki daudan smacka ad eylífu; hvørt ertú meiri fødur vorum Abraham, hvør ed framlidinn er, og spámennirnir eru og framlidnir? hvørn gjørir þú sjálfann þig? Jesús svaradi: ef ad eg vegsama mig sjálfur, þá er mín dýrd eingin. Minn fadir er sá sem mig vegsamar, hvørn þér segid ydar Gud vera, og þér þeckid hann þó ecki; en eg þecki hann, og ef eg segdi þad, eg þeckti hann eigi, þá væri eg einn ljúgari, líkur ydur; heldur þecki eg hann, og eg geymi hans ord. Abraham fadir ydar gladdist, ad hann skyldi sjá minn dag, og hann sá hann, og vard gladur vid. Þá søgdu Gydíngar til hans: þú ert enn ecki fimtugur, og þó sástu Abraham? Jesús sagdi til þeirra: sannliga, sannliga segi eg ydur, ad ádur enn Abraham var, em eg. Þá tóku þeir upp steina, svo ad þeir kostudu á hann; en Jesús fordadi sér, og geck út úr musterinu.

## Exordium.

Í annarar Kónganna bókar 9 kap. lesum vér, ad þegar sendimadur spámannsins Elísæi hafdi smurt Jehú til konúngs yfir Israel, þá hafi hans herra þénarar sagt vid hann: hvad vildi þessi vitfirríngur til þín? Svo vóru nú Jórams vildar-menn lyndir, af því þeir ecki þecktu Drottins rád. Eg er og hræddur um, ad þótt eg í dag, eptir Guds skipan, vilji smyrja þeirra sálir til andligra konúnga og kénnimanna, sem af Gudi eru, med himnesku vleó, sem er Guds heilagt ord, þá muni eg ecki betur út-líta í þeirra augum, sem holdliga sinnadir eru, heldur enn einn vitfirríngur, þegar eg tala um þá hluti, sem Guds anda eru og holdligur madur ecki skynjar, 1 Cor. 2; og er mér þad fyrir minstu, ad eg af mannligum degi dæmdur verdi, 1 Cor. 4, því gott er ad eiga hlutskipti med St. Páli, vid hvørn Festús landsdómari sagdi, þá hann taladi um Christi pínu og upprisu framlidinna, ad hann væri galinn vordinn, Act. 26. En þad ángrar mig framar, ad hold og blód géfur sér ecki stundir til ad rannsaka djúpt og hæd Guds vitsku, og þá specki, sem hann hefir mønnum opinberad. Þegar Felix heyrdi talad um trúna á Christum, um hreinlífid, um réttlætid, um eptirkomandi dóm, þá skélfist hann vid og lætur bída ad hlusta til þess fyrr enn hann hefir tómstund, Act. 24; Agrippa konúngi liggur vid ad verda kristinn, en fyrir því ad hann hefir

annad ad sýsla, þá dregst þad undan, Act. 26; hinn ríki ynglingur vil ad sønnu fá ad vita hjá Jesú, hvad hann skuli gjøra svo hann eignist eylíft líf, en þegar hann heyrir ad hann skuli selja allar eiguir sínar og géfa fátækum, þá verdur hann hryggur, Matth. 19. Hvad kémur til þessa? þad alleina, ad menn hafa ecki vel smackad hvad sætur ad Gud er, Ps. 34, og ecki komid auga á þá perluna, sem madurinn sá, og seldi allt hvad hann átti fyrir þá sømu, Matth. 13; því einginn girnist þad sem hann ecki þeckir. Og þad er ordsøkin hvar fyrir ad Guds h. ord verda af svo fáum medtekin. Þad og annad, ad þar er svo mikill óvinskapur á milli holdsins og andans, Gal. 5, ljóssins og myrkursins, réttlætisins og ránglætisins, Christum og Belíal, 2 Cor. 6, Guds kyrkju og skúrgodanna, ad einginn kann til Christum ad koma, nema sá himneski Fadirinn dragi hann, segir Endurlausnarinn, Jóh. 6, hvar til hann brúkar sitt h. ord. En þeir ed ei hirda um ad gánga í ljósinu, eda smacka hid góda Guds ord og krapt eptirkomandi aldar, Ebr. 6, hvørnin mega þeir umflýa þad, ad myrkurin høndli þá ecki? samt eru þó Guds ord líf og andi, svo sem Endurlausnarinn vottar, Jóh. 6, og gullid er gull, þó þat verdi af svínunum fót-trodid. Svo er og þad ordid af krossinum Christí heimska þeim sem tapadir verda; en oss sem hólpnir verdum, er þad kraptur Guds, segir Paulus, 1 Cor. 1. Eckert stríd átti vor blessadi Endurlausnari meira vid syndugu menn hér á jørdunni, enn ad gjøra mismun á milli holdsins og andans, svo ad jafnvel Nicódemus, sem var einn meistari í Israel, Jóh. 3, og gudhræddur madur, hann var í þessu næsta tornæmur, ad eg ecki tali um þann ógudliga hóp Pharísæanna og Skriftlærdra, sem aldrei vildu láta telja sér trú hér-um, og ecki létu sér skiljast þad, þó hann segdi: þér dæmid eptir holdinu, Jóh. 8; þér erud hér ad nedan, eg er ad ofan, og enn nú í þessu samtali, sem Drottinn á vid þann ófyrirlátsama flock Gydínga, heyrum vér, ad á milli ber um þessa spurníngu. Eg vil um þad alleina tala í þetta sinn, hvørnin þeim háttad sé, sem af Gudi eru, út af þessum heiløgu ordum. Hver hann er af Gudi, hann heyrir Guds ord. Drottinn géf oss þinn Anda hér til fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Af Gudi eru allir hlutir í øndverdu e. S. b. svo sem þar stendur Gén. 1: í upphafi skapadi Gud himin og jørd, og enn nú er þad svo, ad allir hlutir mega af hønum segjast, því hann stjórnar og stýrir øllum hlutum, frá því minsta skridkvikendi jardar, allt til þess stærsta dýrs, sem er í náttúrunnar ríki, og í hønum erum vér, lifum vér og hrærumst vér, Act. 17. En ecki er þad þó meiníng vors Endurlausnara í greindum ordum; þeir kallast og af Gudi ad vera, sem í hans nádar sáttmála eru innteknir, svo sem Israel var til forna kalladur Guds fólk, af því þeim var Guds sáttmál og hans ord í hendur fengid eptir Guds fyrirheiti til Abraham. Svo erum og allir vér af Gudi, sem høfum í-klædst Jesú Christó í skírninni, Gal. 3, og eigum ad samteingjast hønum í dýrdinni, heilagleikanum og óstraffanligu framferdi, Eph. 6. En eins og því háttad er í voru líkhamligu edli, ad menn taka ecki alltíd vøxt edur afl né adra kosti í arf eptir foreldrana, og margur er sínum ólíkur þó skyldur sé; svo eru þar fleiri Ismael heldur enn Isak í húsi Drottins, sem ad er kristilig kyrkja, og þeir gánga ecki allir í andanum, sem þó eru í øndverdu af andanum endurfæddir; því er og ecki þetta eiginlig meiníng vors Endurlausnara í þessum ordum, heldur meínar hann þá sem fyrst eru af vatni og anda endurfæddir í skírninni, Jóh. 3, og Jesú Christó fyrir sanna og lifandi trú eru innplantadir, vordnir andligir kvistir á því blessada víntré, sem hann umgétur, Jóh. 15, og bera þar fyrir mikin ávøxt; hvørjum hann hefir géfid makt Guds børnum ad verda; þeim sem á hans nafn trúa; sem ecki af blódinu edur holdsins vild edur mannsins vilja, heldur af andanum eru fæddir, Jóh. 1; þeir ed sýna þad í

sinu framferdi, ad þeir séu fluttir frá daudanum til lífsins af því þeir elski bræburnar, 1 Jóh. 3. Ecki segi eg þeir séu einasta af Gudi sem eru án syndar, því þá yrdi eckert hold hólpid. Ef vér segjum þad vér höfum ecki synd, þá tælum vér sjálfa oss, segir Jóhannes, 1 Jóh. 1; öxin er ecki strax sett til rótar trjánna sem nockur blöd fölna; þó kvisturinn um nockra stund beri ecki ávöxt, þá er hann ecki strax afhöggvinn. Sá himneski urtagards-vördur bidur sinn Födur, ad hid visna tré megi enn-nú standa eitt ár, og hann megi bera myki kríngum þad og rækta þad, Lúc. 13; því mun hann ecki kasta því strax í eldinn sem þad ber lítinn ávöxt. Mun hann nockud útslöckva þann líttloganda hör-kveik, eda þann brákada reyr í sundur-brjóta, Esa. 42; nei, einganvegin! hann mun forsjálliga breyta, svo sem Fadirinn talar um sinn Son, Esa. 53, hann mun auka oss trúna, Lúc. 17, og bidja sinn himneska Födur fyrir oss þad hún þrotni ecki, Lúc. 22. Heldur tala eg hér um þá, sem syndga ad sönnu, en láta þó ecki syndina drottna í sínum daudligum líkhama, Róm. 6, þá sem af mannligum veikleika gjöra hid vonda, er þeir vilja ecki gjöra, en gjöra þó svo mikid gott sem þeir géta, þar ed einn og hinn sami þjónar Guds lögmáli í sínu hugskoti, en þvíng-ast þó til af ofbeldi náttúrunnar ad þjóna syndarinnar lögmáli, Róm. 7; og í einu ordi ad segja, sá sem er syndugur ad sönnu, en þó fyrir Christí forþénustu jafnan í Guds augliti réttlátur, og þótt hann syndgi, þá hefir hann árnadar-manninn á himnum, Jesúm Christ-um hinn réttláta, sem er forlíkun fyrir hans syndir, 1 Jóh. 2. Sá sem þannin er nú af Gudi og Gud í hönum, þegar hann hefir Gud, þá hirdir hann hvörki um himin né jörd, Ps. 73. Vei þeim sem er einsaman! segir Predikarinn, kap. 4, því ef hann fellur, þá er einginn ad reisa hann, en sá er aldrei einsaman sem Gud er med, því Gud er í og med hönum, Róm. 14; fellur hann, þá stendur hann upp aptur, því Gud reisir hann; ratar hann í nockra villu, þá villir þó heimurinn aldrei svo um hann, ad hann rati ecki heim aptur, því Guds nádarfullt tillit ávítar hann. Hinn gudlausi finnur ei til, þó hann syndgi meir enn hinn daudi, þó hann sé barinn; en þad hjarta sem lifir í Gudi, þad er vidkvæmt vid brodd syndarinnar. Ei þurfti Nathan lengi ad telja um fyrir Davíd, 2 Sam. 12. Drottinn leit einasta til Pét-urs, og hann gécк út og grét beiskliga, Matth. 26. Sá sem af Gudi er, hann yfirgéf-ur alla hluti Guds vegna, hann er í heiminum svo sem fyrir utan heimin, svo sem fátækur, og þó marga audgandi, svo sem eckert hafandi, en eignast þó alla hluti, 2 Cor. 6. Sá sem um hafid siglir, hann hugar þó jafnan um hvörnin hann megi komast í góda höfn; hann sem út á akurin gengur til ad erfida, hann hefir þó jafnan sitt hús í þánkanum, og til þess gjörir hann alla hluti, ad hann fái þad vel forsorgad; svo er og hann, sem af Gudi er, þótt hann verdi ad flækjast vid sýslanir heimsins eptir naudþurft líkhamans, þá er hans takmark hjá Gudi, hann sleppir sér ecki svo vid nockurn hlut, ad hann haldi ei hönum; falli hans erfidi hönum létt og vel, þad minnir hann á ad þacka Gudi fyrir sína gjæsku og eptirlæti; vilji þad mótdrægt falla, þá yfirgnæfir þó Guds elska hjá hönum; ok Christí er hönum hunáng í munni, og hans byrdi létt á hans herdum, Matth. 11, því Gud hjálpar hönum til ad bera; hann lærir fyrir Guds sakir bædi hár og lágur ad vera, saddur og húngradur, nóg ad hafa og skort ad lída, og alla hluti formár

hann fyrir þann sem hann styrkir, Jesúm Christum, Phil. 4; þótt hann gángi í gégnum myrkann dal og daudans skugga, þá hrædist hann einga ólucku, Ps. 23; beri svo til ad nockur sé í fángelsi byrgdur, hvad vardar um þad? eg sé Paulus og Silas eru lángtum gladari í fángelsinu heldur enn þeir sem ad dryckju sitja, Act. 16. Sólin uppljómar þennan vorn hórízont edur sjónhverfis-hríng, og gjørir ásýnd heimsins bjarta fyrir vorum augum, þó gétur ský-flókinn byrgt hana fyrir oss; en hvør vill byrgja fyrir mér þá sønnu réttlætisins sól, Mal. 4, kann nockur ad útilykja frá mér Fødur ljósanna? Jak. 1; hann sem kom ad luktum dyrum, og stód midt á-milli sinna lærisveina, og sagdi: fridur sé med ydur! Jóh. 20. Kunna nockur myrkur, nockrir múrar ad loka hann úti frá mínu hjarta, svo hann géfi mér ecki sinn frid, hvørn verøldin kann ei géfa, og hún ætlar muni vera helvíti allra eymda? Ef eg er landflótta, munu þeir nockud reka mig þángad, hvar ecki er hønd Drottins? Ps. 139. Sé eg foraktadur af heiminum, þad er mér nóg, ad eg verd heidradur af Gudi; af bádum kunna fáir undir eins virdtir ad verda. Sælir erud þér, sagdi Lausnarinn, Matth. 5, nær mennirnir hallmæla ydur og tala í-gégn ydur alla vondsku fyrir míns nafns sakir, þó ljúgandi. Hvørt skal eg nú heldur útvelja ad lída íllt med Guds fólki, Hebr. 11, eda ad hafa tímanligt eptirlæti syndarinnar? eg hirdi ei mikid um þá ofundar-menn sem Gud hatar. Hvad létt fellur hønum ad forsmá heimin, sem forsmádur er af heiminum; hafi eg mist ágjæti veraldar þessarar, hvad rídur mér á því? þad vóru eingin úrtøku-gjædi, sem svo fallvølt voru, ad þau kunnu ad missast, og þó eg misti allt þad eg á inn ad húdinni, þá hefi eg þó eckert mist, því eckert af þessu var mitt, þá eg kom nakinn í heiminn, en Gud var altíd minn med einhvørju móti, svo eg lifdi ecki fyrr enn eg átti hann fyrir Skapara, og þad eignar-skjal bættist í skírninni, og vard undirskrifad med Jesú dýrmæta blódi, og innsiglad med h. Anda, svo ad minn vinur er minn og eg em hans, Kant. 6, allt frá módur-lífi eptir skøpunar- endurlausnar- og helgunarréttinum, hønum vil eg aldrei sleppa, fari allt annad sem audid verdur. Taki hann heilsuna frá mér, þá er hønum þad í sjálfs-valdi, eg á þar einga søk á, eg bý í leigu-húsi, og á sá frjálst ad byggja þad og brjóta, sem er húsbóndinn; hvørki sádi eg né plantadi þad heldur enn Jónas lundin, Jón. 4. Þó mín sála kunni um stund ad verda órólig í mér sem Jónæ, þá veit eg ad sú sótt er ecki til dauda, hún stendur upp þegar minn heilsugjafari tekur í hønd hennar og segir: Talítha kúmi, þad er: stúlka, rís upp! og er mér þad nóg þegar minn betri partur er heilbrigdur, þad er sálin. Þad kann ecki stórum ad veikjast, hvørs kraptur ad Gud er, þad sé mér nóg, ad eg veit eg er af Gudi, og hann er mér nádugur, þá hefi eg frelsi í bøndunum, fødur-land í útlegdinni, heidur í forsmáninni, ríkdóm í skortinum, heilsu í sjúkdóminum, allshåttada farsæld í allskonar eymdum og hørmúngum. Hvørnin kann sá ad klaga, ad hann vanti ljós, sem býr midt í sólunni? kann sá ad berja sér um armód, sem einusinni hefir eignast allrar veraldarinnar Skapara? hvad kann mig þad ad vanta, sem Kristur sé mér ecki? vil eg hafa mat og dryck, þá segir Kristur: mitt hold er sannarlig fæda og mitt blód sannur dryckur, Jóh. 6; vil eg klædnad hafa, í-klædid ydur Herrann Christó, segir Postulinn, Róm. 13; er eg sjúkur og þarf lækninga vid, þá er Kristur lífsins tré, hvørs blød ad þéna til heidíngjanna lækn-

íngar, Apóc. 22; ef eg vil ugglaus búa, þá flytur hann mig út í einn sterkan kastala; mín sál vonar uppá hann alleina, því hann er mín von, mitt traust, Ps. 18, mín hjálp og mín hlíf, svo eg mun ei falla. Hjá Gudi er mitt hjálprædi, mín dýrd, mitt styrktar-bjarg og mitt athvarf er til hans, segir Davíd, Ps. 62; kvídi eg vid daudanum, þá er Kristur upprisan og lífid, Jóh. 11; og þó ad eg deyi, þá mun eg samt lifa, eptir því sem hann lofad hefir; vilji eg hafi alla andliga farsæld, hvørs kann eg ad óska, sem ad Kristur sé mér ecki? þar hann er mér af Gudi gjørdur til réttlætis, helgunar og eylífrar sáluhjálpar, 1 Cor. 1. Allt þetta hefir sá hjá sér, sem er af Gudi, ef ecki svo fullkomliga sem vér viljum, þá samt er þar vilji til hins fullkomna, sem er ædri allri tímanligri far-sæld; því ef Guds fullkomin íbúd er eckert annad enn himnaríki, þar Gud er allt í øllu, því skyldi þá ecki hans vistarvera med oss á jørdunni, því skyldi hún ecki vera eitt jardneskt himnaríki? sýnist mér því ad þessar tvær sælur muni ecki í sjálfum sér nema því, ad ein er betri enn ønnur, og ein algjørdari enn ønnur, og eingan annan mun gjørir St. Páll þeirra, þegar hann segir, ad nær þad komi sem algjørt er, þá afleggist þad sem hálf-verk er, og ad vér sjáum nú svo sem fyrir spegil og í rádgátu, en þá munum vér sjá augliti til auglitis, 1 Cor. 13; framar, e. G. b. hvad sannarligt er, hvad ærligt er, hvad réttvíst er, hvad hreinligt er, hvad ástsamligt er, hvad vel sómir, er þad dygd nockur edur gott rykti, Phil. 4, þad hugsar hann eptir sem af Gudi er, og þad veitir hønum léttara ad upp-ausa af brunni nádarinnar, heldur enn þeim, sem leita eptir svoddan í frædi-bókum heidíngjanna, hvørjir þótt, um dygdir og mannkosti hafi skrifad bædi vel og viturliga eptir mannligum hætti, þá er því altíd svo varid, ad sá sem dreckur úr óhreinum farveg, hann má vel vara sig vid, ad ecki fljóti saurindin í munninn med, og þó vatnid sýnist tært ad vera, þá smackar þad altíd af leirnum, svo er og þetta; vilji menn af heims-spekínganna vatns-rennum drecka vísdómin, þá er altíd hætt vid ad þar fljóti í-bland nockrar agnir holdligrar skynsemi, sem ad er reidi og fjandskapur í gégn Gudi, Róm. 8; því þó þær séu útrunnar í upphafi af þeim sanna vísdóms brunni, þá fer þeim eins og ødru vatni, ad þad dregur dám af þeim farveg er þad rennur um. Trúid mér, svo eru og spekínganna lækir, ad þeir tapa sínum uppruna, þá þeir renna um leirveltu syndumspilltrar náttúru. Þad sem adrir hafa med stóru erfidi, þad vinnur sá, sem Gud elskar, med stóru eptirlæti. Einn rómverskur heidíngi, þar ed hann lá í sínum lysti-gardi med kunníngjum sínum, og þótti vænt um sjálfan sig, hann sagdi: Gud gjæfi þetta væri ad gjøra vel, meinandi svo, ad væri þad svo inndælt, þá vildi hann aldrei annad gjøra. Enn því er ecki svo varid fyrir þeim, sem Gud elska; létt falla lostverkin, segjum vér, og svo er þad fyrir þeim, sem elska Gud, því þótt ad spilling náttúrunnar strídi á-móti því, sem Guds anda er, Gal. 5; þá verdur hún þó léttar yfirunnin af elskunni til Guds, heldur enn af náttúrunnar kroptum. Þegar madurinn á einn vin og annan kunníngja, og þeir bidja bádir um sama hlut, þá lætur hann þó sinn vin fyrirsitja, og svo gjørir sá sem elskar Gud, þó hønum þyki torvelt ad láta á-móti holdinu, þá metur hann þó Gud meir. Þar vóru nockrir spekíngar í fyrndinni, er kølludust Stóici, þeir vildu dempa eina tilhneigíng med annari, og setja þær svo í lag; en þad er lángsamt nockud og vinst aldrei vel, því høfudin á þeirri

Hydra *), syndumspiltri náttúru, þau spretta jafnskjótt upp aptur, þó þau séu smámsaman afhøggvin. Elskan til Guds er einn andligur Herkules, sá ed hálsinn á skrímslinu sundurbrýtur, svo þau ná ecki svo fljótt ad vaxa; hún setur tilhneigíngarnar best í lag, ecki ad hún taki þær burt eins og Stóici vildu gjøra, heldur þvíngar hún þær til ad gjøra sína skyldu, og temur þær med frjálsligum og inndælum þrældómi; hún kénnir elskunni ad elska Gud alleina og eckert annad, reidinni ad vandlæta í Guds stad, øfundinni ad keppast sem hærst í Christí skóla, ørvæntíngunni ad vona einkis góds af heiminum, voninni ad þola og bída, gledinni ad hafa sína unadsemd í Drottni, hrygdinni ad ángrast sinna synda vegna, hrædslunni ad óttast Gud, dyrfskunni ad óttast ei mennina, sem ecki kunna nema líkhamann ad deyda; og hvad er hér margt um ad tala, hvørsu ad allar kristiligar dygdir uppspretta af elskunni til Guds og náúngans? hvørjar aldrei kunna ad skilja heldur enn sólin og birtan; þad útmálar einginn betur enn St. Páll, 1 Cor. 13, segjandi: kjærleikurinn er þolinmódur og víngjarnligur, kjærleikurinn er ecki øfundssjúkur, kjærleikurinn gjørir eckert illmannliga, eigi blæs hann sig upp, hann er ecki ofstopasamur, eigi leitar hann þess hvad hans er, eigi lætur hann gjøra sig reidan, hann leitar eigi eptir skada, eigi fagnar hann yfir ránglætinu, en fagnar sannleikanum, hann umber alla hluti, hann trúir øllu, hann vonar allt, hann umlídur alla hluti. Hvad gott má sé med svoddan móti af Gudi ad vera, þad hefir ecki þeirra eyra heyrt né auga séd, og ecki hefir þad í þeirra hug edur hjarta komid, 1 Cor. 2, sem af heiminum eru; en uppá þad sérhvør og einn kunni ad reyna og prófa sjálfan sig, og vita sitt andligt faderni, þá leggur Drottinn hér til eitt kénnileikn þeirra, sem eru af Gudi, sem er þetta, ad þeir heyri Guds ord; en hvørnin á þad ad heyra? ecki svo sem Júdar, þeir ed heyrdu rædu Stephani, og skárust í hjørtum sínum af hatri, Act. 7; ecki svo sem Eutichus, hvørjum vard svo vært undir prédikun St. Páls, ad hann sofnadi og datt daudur ofan úr vindauganu, Act. 20. Drottinn útleggur sína meiníng sjálfur í þessum texta segjandi: hvør sem geymir mín ord, hann mun ecki daudan sjá ad eylífu; en þó allra best í eptirlíkíngunni um sædid, Lúc. 8, segjandi: ad sædid sem féll í góda jørd, séu þeir sem heyra ordid, og vardveita þad í gódu og sidsømu hjarta, og færa þar af ávøxt í þolinmædi. Þetta er nú víst mark á þeim sem ad eru Guds børn; dragi því einginn sjálfan sig á tálar, sem þetta heyrir, og ætli ecki hann muni vera af Gudi, ef hann ecki geymir hans ord; sá saudur er ecki af hjørdinni, sem ecki þeckir raust hirdirsins, Jóh. 10; sú elskar ecki sinn unnusta, sem ecki getur heyrt hann tala; sá magi er ecki heilbrigdur, sem ad velgir vid fædunni. Hvørsu má þá Gud lifa í þeirri sálu, sem býdur vid Guds ordi? Þar fyrir, syndugur madur, ef þér leidast Guds heilogu kénníngar; sért þú tregur til ad gánga þángad, sem Guds ord er um hønd haft; þyki þér fyrir, þá komid er vid þín mein og þínar syndir straffadar; virdist þér þad léttvægt, sem af Guds ordi er fyrirheitid, og þú aktar þad ecki mikils; ef þú hefir ecki ástundun ad framkvæma þad í verkinu, sem þú heyrir med eyrunum, svo sannarliga sem Gud lifir í himninum, þar er

*) Hydra var einn vatns-ormur med morgum høfdum, svo sem skáldin dykta; þó eitt væri afhøggvid, vox þad aptur, en Herkúles hjó á hálsinn svo þau uxu aldrei sídan.

ecki hans andi í þér, og þú ert daudur í syndum þínum; hér-um er ecki ad villast, eg segi sannleika í Christó, og lýg ecki. Sálin er annadhvørt Guds brúd eda Djøfulsins frilla, segir Augústínus, og þó þad þyki gífurliga talad, þá vitnar sjálfur sannleiksins munnur þad satt ad vera hjá Lúc. 11, segjandi: hvør hann er ecki med mér, hann er á-móti mér, og hvør hann ecki samansafnar med mér, hann sundurdreifir, og svo segi eg, sá sem ecki heyrir ordid, og vardveitir þad, hann forakrar þad; en sá sem þad forakrar, þá mun þad fordæma hann á þeim sídarsta degi, Jóh. 12. Eg hafdi nærri því sagt, ad betra væri ad vera kaldur enn volgur í sínum sáluhjálpar-efnum; af hinum stærstu syndurum hafa vordid hinir bestu menn; hvílíkur var Manasses? 2 Paral. 33; hvílíkur Páll? Act. 9; hvílík hin bersyndunga? Lúc. 7. En þad er furduverk, ad af einum volgum skuli verda heilagur madur; hvar fyrir? því hann meinar sig ecki ad vera vondan, hann segir: eg em audugur og ríkur vordinn og einkis þurfi, eins og eingillinn af Laódícea; en Gud segir: þú veitst ecki þad þú ert aumur og fátækur og blindur og nakinn, Apóc. 3. O, Herra Gud! vert þú oss nádugur! Gái hvør ad sjálfum sér, því vær eigum allir fyrir sálu ad sjá. Hvør á ad hugga þig í þínu andláti, ef þú hefir eckert numid af Guds ordi? þú vilt Presturinn komi til þín, þá þú berst vid øndina; seig mér, á hann þá fyrst ad undirvísa þér? þegar eyrun heyra ecki lengur, túngan talar ecki lengur; seint er ad herklæda sig þegar á hólminn er komid. Sá sem saung med bísfugunum veraldar þessarar á sumartíma lífsins, hann má svelta á hinum bitra kulda-degi daudans. O, hvad gott væri þá ad hafa safnad nockru í kornhlødu síns hjarta af því góda Guds orda sædi, svo þar væri nockud til veganestis í-gégnum þann myrkva dal og daudans skugga, sem er vegur allrar veraldar frá þessu auma lífi, Jóh. 20. Svo áminni eg ydur nú í Drottni og grátbæni fyrir lifanda Gud og ydar sáluhjálp: gángid í ljósinu medan þad er hjá ydur, svo myrkurin høndli ydur ecki, Jóh. 12. Þar eru vondir dagar, Djøfulinn er ofan kominn, hafandi brædi mikla, því hann veit hann hefir stuttan tíma, Apóc 12. Afrækid því ecki Guds heilaga ord, hvørt ad er sverd andans, svo ad þér gétid mótstødu veitt á þeim vonda tíma, Eph. 6. Finni nockur sitt hjarta ecki rétt stickad til ad heyra þad, hann bidji Gud ad skapa í sér nýtt hjarta, því þad tekur einginn af sjálfum sér; verdi hann ecki svo fljótt bænheyrdur, þá bidji hann aptur og aptur, og vilji þad undandragast, þá bidji hann daglátanliga, Lúc. 18, dag og nótt, og þreyti vid Gud med bæninni, ad þad Lambid af kyni Júda komi, og taki sjálfur þá læstu bók, og virdist henni sjálfur upp ad ljúka, Apóc. 5. Einginn madur skal telja mér þá trú, ad Gud muni ecki géfa þeim heilagan anda, sem hann þar-um bidja. Komid og med audmjúkum anda undir ordsins heyrn, reidubúnir ad medtaka allt þad, sem Gud hefir befalad, eins og Pétur sagdi vid Cornelíum, Act. 10. Fánýtar og veraldligar hugsanir séu lángt í burtu á þeim tíma, því einginn kann tveimur herrum í senn ad þjóna, Matth. 6, sérdeilis svo ólíkum sem Gud og Belíal eru. Þeinkid ecki svo med ydur: eg veit þetta ádur, eg hefi þad ádur heyrt; því þótt svo kunni ad vera, þá hefir Gud sína tíma til ad verka í hjartanu, og hann er í ordinu, því séu eyrun, sem ad eru dyr hjart-

ans, altíd opin fyrir Konúngi dýrdarinnar. Verid ei Gryckjum líkir, um hvørja Demostenes sagdi: ad þá hann taladi um skugga asnans, þá hefdi hann nóga tilheyrendur, en þá hann taladi um Grycklands velferd, þá stíngi allir fíngrunum í eyrun. Látid svida ránglætínganna taka af ydur þann eyrna-kláda, sem Páll umgétur, 2 Tím. 4, ad þeir vilji heyra þad þeim þóknast og hvad nýstárligt er, Esa. 30; heldur verid lærdómunum og strøffunum h. Anda undirgéfnir. Farid og ei í mannvirdíngar um kénnendanna gáfur edur málfæri, því allt Guds ord er gott, og sá er eckert sem talar, heldur Gud sem verkar; Guds kraptur fullkomnast opt í veikleikanum, 1 Cor. 12. Hvad er Páll? eda hvad er Apolló? 1 Cor. 3; þeir eru þénarar hans, á hvorn þér trúid, eptir því sem hann hefir hvørjum einum géfid. Drottinn var ecki í vedrinu, og ecki í jardskjálftanum, og ecki í eldinum, þá hann taladi vid Elíam í hellirnum, heldur í vindblænum, 1 Reg. 19; svo er og Gud ecki bundinn vid stóra málsnild, og hans ríki er ecki innifalid í ordum, heldur í krapti, 1 Cor. 4. Sá sem alleina tekur eptir falligum ordum og føgrum máls-greinum, hann sleikir nytina, en kjarnan snertir hann ecki. Vær eigum nytina ad brjóta, ef vér viljum rétt fá smackad eptirkomandi aldar sætleik, hvør oss mun sídan án mælíngar frambodin verda í því himneska brúdkaupi, þar hinn fegursti medal mannanna sona, Ps. 45, mun dryckja hana, sem hans hjarta elskar, Kant. 3, med lifandi vatns-straumum, sem framfljóta af stóli Guds og Lambsins, Apóc. 22. Til þeirrar allra-tignarligustu hátídar ad samansafnast, unn þú oss Konúngur eylífrar dýrdar, og þitt vegsamliga nafn þar eylífliga ad prísa. Bænheyr þad gódi Gud, fyrir forþénustu þíns eingétins Sonar, amen!

## Á Bodunar-dag Maríu.

Gudspjallid, Lúc. 1 Kap.

En á hinum sjøtta mánudi var Gabríel eingill sendur af Gudi í þá borg í Galílæa, sem nefnist Nazareth, til þeirrar meyar, er føstnud var þeim manni ed Jóseph hét, af húsi Davíds, og heiti meyarinnar var María. Og eingillinn géck inn til hennar, og sagdi: heil sértú, nádarfulla! Drottinn er med þér; blessud ertú á medal kvenna! En þá hún sá hann, vard hún hrædd af hans ordum, og hugleiddi ad hvílík væri þessi kvedja, Og eingillinn sagdi til hennar: óttast þú ecki, María! þvíad þú fanst nád hjá Gudi. Sjá, þú munt barn géta í kvidi þínum, og munt son fæda, og hans nafn skaltú kalla: Jesús; hann mun mikill verda, og kallast Sonur hins Hæsta, og Gud Drottinn mun géfa hønum sæti síns fødurs Davíds, og hann mun ríkja yfir húsi Jakobs og eylífu; hans ríkis mun og einginn endir verda. Þá sagdi María til eingilsins: hvørnin skal þad ské, af því ad eg hefi eingan mann ként! Eingillinn svaradi, og sagdi til hennar: heilagur Andi mun koma yfir þig, og kraptur hins Hæsta mun

yfirskyggja þig. Af því, og það hid helga, sem af þér mun fædast, skal nefnast Sonur Guds. Og sjá þú, ad Elizabeth frændkona þín, hefir og son gétid í elli sinni, og þessi er sjøtti mánudur hennar, sem kølluð var obyrja, þvíad Gudi er eckert ord ómáttugt. En María sagdi: sjá, eg em ambátt Drottins; verdi mér eptir ordi þínu. Og eingillinn veik frá henni.

## Exordium.

Svo sem kalt vatn er þyrstri sálu, svo er gódur bodskapur af fjarlægu landi, segir Salómon, Próv. 25; þad má í dag segja, ad vér høfum gódan bodskap heyrt af fjarlægu landi. Hvad er fjarlægra hvørt ødru enn himin og jørd, Gud og madurinn, himnaríki og helvíti? en hvad heyrum vér hér í Gudspjallinu, br. m.? Vér heyrum ad Gabríel eingill hafi sendur verid frá Gudi; til hvørs? til einnar meyar, sem føstnud var þeim manni, er Jóseph hét, þad er til daudligrar manneskju, og ecki var hann einasta til hennar sendur, þótt hann í þad sinn átti alleina tal vid hana, heldur til alls mannkyns; því lýsir eingillinn á fædíngarnóttu Drottins, er hann sagdi vid hirdarana: eg boda ydur mikin føgnud, þann er skér øllu fólki, Lúc. 2. Módir Drottins mátti kallast svo sem umbodsmadur alls mannkynsins af Gudi skickadur, til ad taka fyrst allra vid þessari heilsusamligri Guds nád, er sídan var opinberud øllum mønnum, svo sem vor fyrsta módir tók vid því blessada fyrirheiti, ad kvinnunnur sædi skyldi sundurmerja høggormsins høfud, Gén. 3, vegna allra sinna erfíngja; svó tók og Guds módir vid fullkomnan fyrirheitisins, vid hinu fyrirheitna sædinu, vid sjálfum líkhamanum, sem ádur var fyrirmyndadur í skugganum; því kalla eg þetta gódan bodskap af fjarlægu landi og játa þad satt vera, sem einn sagdi um þessa dýrdligu hátíd: ad hún sé blómstur allra hátída; á henni er kvisturinn af rót Jesse tekinn fyrst til ad blómgast, Esa. 11. Veturinn er umlidinn, stórvidrid er horfid og burtuvikid, og blómsturin láta sjá sig í landi voru, segir í Loskvædinu, 2 kap.; já, sá blessadi ávøxtur, er sig kallar blómstur akursins og eina lilju í dølunum, hann spratt upp í Nazareth, er þýdist hin blómliga. Lítid var þetta blómstur í fyrstunni; hann var eitt fóstur í módur-lífi, sídan eitt barn, og sídast æfi sinnar vard hann hinn fyrirlitligasti og forsmánarligasti, sem Esajas vottar, Esa. 53; já, minstur allra þeirra, sem hann med sínum syndum kvalid hafa; en fyrir þad hefir hann ádreift marga heidíngja, og útbreidt sína dýrd um allar álfur heimsbygdarinnar, svo ad vér jafnvel, sem hér liggjum á þessum hala veraldarinnar, vér búum undir hans skugga, og þótt vér séum af øllum heiminum forsmádir, samt hefir þó hinn gódi Gud virdt oss þess, ad hann hefir breidt yfir oss sinn klædafald, þar vér láum alls-naktir á vídavánginum í voru blódi, og sagt, ad vér skyldum lifa, Ezech. 16; því megum vér ei sídur enn hvør ønnur þjód í heiminum kalla þessa hátíd mikla, og hana med gledi og føgnudi halda. Væri ei þessi glediligi bodskapur á jørdu sendur, þá væri Kristur ecki fæddur til ad helga vora fæding, ecki umskorinn til ad taka á sig løgmálsins bølvan, ecki heidíngjunum birtur, ecki dáinn fyrir syndir vorar, ecki upprisinn oss til réttlætis, ecki uppstiginn til ad bidja fyrir oss, og ecki hefdi hann á hvítasunnu døgum sendt sinn Anda yfir sína Postula. Því má eg segja, ad þessi hátíd ber allar hátídir í skauti sínu, og má þeirra módir kallast; hér hefir Gud Fadir tekid til ad halda brúdkaup Sonar síns, Matth. 22; hér hefir Sonurinn trúlofad oss sér í nád og miskunsemi, Hós. 2; hér hefir h. Andi bygt sér eitt musteri, 1 Cor. 6, ecki einasta í hønum, sem er hid allra-helgasta í þessari kyrkju, heldur og í øllum hans limum, øllum þeim andligum steinum, sem hans helgidómur er bygdur af hér á jørdunni, og af hans fyllíng medtekid hafa, og því vil eg kvedja ydur, br. m. med þeim ordum, er hinir líkþráu menn tøludu sín á-milli fordum daga, er Gud hafdi frelsad Samaríam af hendi þeirra sýrlendsku: þessi dagur er dagur góds bodskapar, 2 Kóng. 7. Skyldum vér þegja yfir því? Kunnug má oss vera vor andlig líkþrá, í hvørri vér gétnir og fæddir erum, því skyldum vér þegja yfir þessu mikla hjálprædi Drottins,

heldur enn þeir, þar í dag er Guds barna borg af valdi myrkranna frelsud? því skyldum vér draga vora lofgjørd, vora ydran, vora þackargjørd undan til morguns? Gaungum því nær þessu h. Evangelíó í nafni Drottins, og hugleidum af því um stund, hvørsu háleitur og gagnsamur ad sé þessi leyndardómur. O, Drottinn! styrk oss med krapti þíns Anda, svo ad þetta eyrindi megi vel luckast í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Þad er hægra, br. m. ad lofa einn hlut, sem ecki er meira enn almenniligt hróss-verdur, heldur enn þann, sem afbrygdi er allra annara hluta; veldur þad því, ad menn géta prýdt þá hluti med ordunum, sem ad í sjálfum sér ecki eru svo prýdiligir; en hvad skulum vér um þá segja, hvørra dýrd og ágjæti einginn kann med ordum ad útmála, svo þegar menn hafa sagt um þá allt þad sem hjartad fær uppþenkt og munnurinn úttalad, þá er þó eckert sagt svo sem verdugt er þvílíkri hátign. Á-medal þessara dýrdligu hluta kalla eg ad vera leyndar-dóm holdtekjunnar Drottins vors Jesú Christí. Hvad sendiførinni sjálfri vidvíkur, þá var til hennar valinn Gabríel eingill, ecki einn almenniligur eingill, heldur einn høfud-eingill. Veraldligir kóngar og høfdíngjar, þegar þeir leita konfángs sonum sínum til annara konúnga, þá velja þeir til þess eyrindis sína vildustu menn; svo var og Gabríel valinn í þessa sendifør, einn Guds kappi, svo sem hans nafn hljódar, og hans eingétnum Syni næsta handgenginn, sem ráda má af Daníels spádóms-bókar 9 kap.; hvør og um sig vitnar, Lúc. 1, ad hann standi frammi fyrir Gudi. Þvílíkur sendibodi hæfdi vel svo tignarligu eyrindi. En til hvørrar var hann þá sendur? ad sønnu til einnar konúngs-dóttur, því hún var af húsi og kyni Davíds, en hvørri þá var øll veraldlig konúngs-tign horfin, svo hún var ein umkomulaus fátæk mey, og svo lítils metin af heiminum, ad hún féck ecki annad rúm í gésta-herberginu, enn einn stall til ad leggja í sinn frumgétinn Son, Lúc. 2, himins og jardar konúng. O, hvad satt er þad sem Postulinn skrifar: þad sem ó-gøfugt er fyrir heiminum og þad sem einkis metid er, þad hefir Gud útvald, og þad sem ecki er, svo hann afmádi þad sem er, 1 Cor. 1. Skírlífi og heiløg fátækt Guds módur var miklu dýrdligri í augliti hins hæsta Konúngs, sem er alleina vís og alleina ríkur, heldur enn øll ríki veraldarinnar og þeirra dýrd; annars mundi hann hafa látid hann fædast af keisarans dóttur, sem þá hafdi einvalds-rád í heiminum, en ecki af einni munadarlausri stúlku. Hvad þá? mun hans tign nockud minka vid þad, ad hann hefir lítil-læckad sinn Son? fjærri sé því, þar fyrir er hún hvad mest vordin; hefdi hann ei svo gjørt, þá hefdi Sonurinn ecki fengid þjódirnar og endimørk veraldarinnar til arfleifdar, Ps. 2; fyrir sína holdtekju hefir hann herleidínguna ad herfángi tekid; allur heimurinn var undir Djøfulsins valdi, nema Gud hefdi heitid því blessada kvinnunnar sædi, er í dag var í meyar-lífi gétid, en med því hefir hans eingétinn Sonur brótid stórt skard í Djøfulsins veldi, svo ad Jóhannes, er hann sá himnana opna, þá sá hann þar fjølda svo mikinn ad einginn gat talid, Apóc. 7, og hefir margur sídan vidaukist, já, eykst enn-nú í dag, og mun aukast þar til verøld þrýtur. Þackir séu gódum Gudi ad eylífu! Satt er þad, ad ecki má vid Guds hátign auka; hún verdur í sjálfu sér hvørki stærri né minni af vorum voldum; en þó ad þessu sé svo háttad, þá verdur

því ecki neitad, ad Christí persónu hefir mikill sómi aukist í þeim sigri, er hann fe'ck yfir Andskotanum, er hann fletti hann sínum herklædum, á hvør hann treysti, Lúc. 11, en tók sínar heiløgu þúsundir af hans hendi, og fyrir þennan dýrdliga sigur, hefir Guds Sonur eptir manndóminum ødlast nafn yfir øllum nøfnum, svo ad í nafni Jesú Christí skulu sig øll kné beygja bædi á himni og á jørdunni, og undir jørdunni, Phil. 2. En hvørnin hefir hann þennan dýra sigur unnid, nema í voru holdi? sem i dag var í meyar-lífi plantad af heiløgum Anda; í því hefir hann lidid, í því hefir hann sigri hrósad, í því situr hann til Kraptarins hægri handar, og í því mun hann aptur koma til ad' dæma lifendur og dauda, en innleida oss, sem á hans nafn trúum, í sitt brúdkaup, og því kalla eg nú þessa sendiför mjøg vegsamliga fyrir þeirra skuld, sem þessa bodskapar notid hafa, því Gud auglýsir hvad mest sitt almætti, sinn vísdóm og sína fødurliga gjæsku í því ad gjøra gott af þeim hlutum, sem í sjálfum se'r audvirdiligastir og verstir eru, svo sem var allt mannkyn í synd og dauda fallid. Frá hvørjum er þessi sendiför? frá Gudi, segir Textinn. Þegar eg Gud nefni, þá hefi eg nóg sagt, eingin er þvílíkur og ei kann nockur í samjøfnud vid hann ad koma, þad kann og einginn manna edur eingla skilníngur ad grípa edur íminda se'r, hvad stór munur ad se' milli Skaparans og skepnunnar; hann sem er alvís, almáttugur, eylífur, ómælanligur og órannsakanligr, þar hann býr í því ljósi, sem einginn fær tilkomist, 1 Tím. 6; hann sem ecki einasta skóp himin og jørd af eingu efni, stjórnar þeim, vidheldur og vardveitir þau án alls ómaks og erfidis, frá upphafi skøpunar og inn til þessa dags, heldur kann hann, ef hann vill, ad skapa med einu ordi ótal þúsund veraldir adrar eins og þessi sýniligi heimur er; hann sendir af himnum ofan til syndugra manna, er hann styggt høfdu og til reidi reitt. O, minn Gud! hvad er þó madurinn þess, ad þú minnist hans? Ps. 8. Þegar eg hugleidi þetta, þá smeltist mitt hjarta í me'r út af blygdan, ad svoddan ein ske'lfilig hátign, hann gjørir sendiför ofan af sínu hásæti til vor daudra hunda, til vor syndugra orma, þar ve'r skrídum í leyrveltu þessari, og má he'raf þessa sendiför meiri øllum velgjørdum kalla, þótt eckert annad væri. En hvílíkur er nú þessi bodskapurinn? þad sýnir oss fyrst kvedja eingilsins vid Guds módur: heil se'rt þú nádarfulla! Drottinn se' med þe'r! blessud se'rt þú á-medal kvenna! Hún mátti med øllum re'tti kallast hin nádarfulla, því hún vard módir ad honum, ~~sem er fullur~~ nádar og sannleika, svo sem Jóhannes um hann vottar, Jóh. 1; og ecki einasta hún, heldur allar andligar Christí mædur, sem er hvør ein re'tt-trúud sála, Matth. 12, er af hans fyllíngu medtekid hefir nád fyrir nád. Drottinn er med þe'r, þú hetja! sagdi eingillinn vid Gedeon fordum daga, er hann heilsadi hønum, Dóm. 6; þad rættist og, því fyrir hans hønd sló Drottinn í hel Madíaníta, sem láu eins og eingi-sprettur í Jesreels dal, med þrem hundrudum manns, Dóm. 7. En þótt þad væri mikid Guds furduverk, þá var þad lítid hjá þessu, ad María bar í sínum kvidi þann Drottinn himins og jardar, sem ber alla hluti med ordi síns kraptar, Hebr. 1. Blessud var hún á-medal kvenna, því einginn kvennmadur frá upphafi veraldar hefir svoddan tímanliga sæmd hlotid sem hún, er gjørdist þar módir sem hinn Allra-hærsti var fadir ad hinum Allra-hærsta. En ecki hefir ein re'ttkristin sála, er Jesúm andliga gétid hefir, minni blessun þegid, því lýsir hann sjálfur, er

hann kallar þá sína módur, systur og brædur, er hans ord heyrdu, Lúc. 8. Fyrir því er þessi andligi gétnadur svo miklu meiri hinum líkhamliga, sem ad allar andligar gáfur eru hinum meiri og betri, því forgéfins hefdi módir Drottins borid heimsins frelsara í sínum kvidi, nema hún hefdi og borid hann í sínu hjarta; kalla eg hana því sælli þar af, ad hún vardveitti øll hans ord, Lúc. 2, heldur enn af því, ad hann mylkti brjóst hennar, því hvad um þad: sælir eru þeir sem heyra Guds ord og vardveita þad, sagdi hann sjálfur fordum vid kvinnuna, er prísadi sælu hans módur, Lúc. 11. Og svo gjørir nú þessi kvedja eingilsins sendiførina mjøg svo fræga og vegliga, ad eckert kann glediligra upp ad hugsast. Kvedjunni fylgir strax á eptir høfud-eyrindid, þad flytur Guds sendibodi med þessum ordum: sjá, þú munt barn géta í kvidi þínum og munt son fædi, og hans nafn skalt þú kalla Jesús, hann mun kallast Sonur hins Hærsta ꝛc. Mikid er í þessum ordum innifalid, og meir enn syndug túnga megi þad útskíra; hid fyrsta er, ad hún skuli barn géta, þad er manneskju eins og hún var og hennar fedur ad øllum edlis-háttum, ad syndinni einni frátekinni, þad skilur eingillinn undan, er hann segir: ad þad heilaga, sem af henni muni fædast, skuli kallast Sonur Guds; svo var þá Kristur hlutakandi holds og blóds eins og smá-børnin, Hebr. 2; svo sem børnin hafi sitt hold og blód, þad er mannliga náttúru, sál og líkhama af foreldrunum; svo hafi Kristur af sinni módur og fedrunum eptir holdinu, bædi sál og líkhama. Nú segir Drottinn sjálfur vid Nicódemum: hvad af holdinu er fædt, þad er hold, Jóh. 3, og teiknadi hann þar med spilta mannsins náttúru. Hvad þá? var manndómurinn Christí syndum-spiltur? fjærri sé því! þar fyrir stendur hér í Gudspjallinu: Heilagur Andi mun koma yfir þig og kraptur hins Hærsta mun yfirskyggja þig. Til hvørs? til þess medal annara, ad helga og tilreida hennar blód, af hvørju Drottni var líkhaminn tilbúinn, svo ad øll fylling guddómsins kynni ad búa þar í líkhamliga, Cól. 2. Med hvørju móti þad sé skéd, veit Gud einn, sem er meistari þessa furduverks, um hvørt þad má med réttu segja sem skrifad er um Salómónis hásæti, ad þvílíkt hafi ecki gjørt verid í nockru konúngs-ríki, 1 Reg. 10. Og þad sem eg nú sagt hefi um Christí allra-helgasta líkhama, og þad efni, er hann var myndadur af, þad sama er um hans dýru sál ad segja. Líkhaminn er herbergi sálarinnar, ecki mátti í svoddan herbergi, sem af h. Anda var tilreidt fyrir krapt hins Allra-hærsta, ecki mátti þar byggja nema einn hreinn og heilagur géstur. Mannsins sál hafdi framar syndgad enn líkhaminn; hún var og høfundur syndarinnar í manninum, því mátti hans sála ecki sídur óflekkud vera, sem sálir vorar hefir úr helju leyst, heldur enn líkhaminn. Postulinn segir, ad í hønum búi allir fjársjódir vitskunnar, Col. 2. Bjuggu þeir í líkhamanum edur sálunni? í sálunni ad vísu, eins og skynsemin hjá oss og þad gott sem henni fylgir; svo er allur Kristur hreinn og heilagur, sem ei kunni annars ad vera, þar hann var gétinn af h. Anda; því eptir þad eingillinn hafdi sagt, ad heilagur Andi mundi yfir hana koma, þá leggur hann þetta til: og þad heilaga, sem af þér mun fædast, skal kallast Sonur Guds. Og ad menn gángi úr skugga um þad, ad Kristur sé gétinn í meyar-lífi, eins og annad fostur, ad því frátekn, ad þar komu eingin manns-vøld til, svo sem hún segir hér vid eingilinn: hvørnin kann þetta ad ské, þar eg hefi eingan mann ként? og Guds Andi

samsinnir henni, Matth. 1, segjandi: ad Jóseph hafi ei ként hana þar til hún fæddi sinn frumgétinn Son. Ad menn gángi úr skugga um þad, segi eg, þá vottar Matth. 1, ad hún hafi fundist þúngud af heilögum Anda, og nockru sídar: ad þad sem af henni gétid var, þad hafi verid af h. Anda, og samt er þó ecki h. Andi fadir ad Christó, heldur tilbjó hann og helgadi, sem ádur er sagt, þad efni í lífi Jómfrúr Maríu, sem Drottinn mindadist af, og framkvæmdi svo þennan allra=helgasta gétnad med sínum órannsakanliga guddómsins krapti. Þannin byrjadi allt réttlæti upp ad fylla, Matth. 3, br. m. því þad vard af syndlausu holdi ad lúkast, sem af syndugu var tilunnid; þad musterid vard heilagt ad vera, í hvörri þeirri fórn átti ad offra, sem Gudi líka skyldi fyrir allar veraldarinnar syndir; sá kénnimadur hlaut ad vera óstraffanligur, sem inngánga skyldi, ecki einusinni á ari hvörju (eins og Aron og hans eptirkomendur) heldur öllu einusinni í þad allra=helgasta, ad útvegadri eylífri endurlausn, Hebr. 9; því segir Paulus: svoddan biskup heyrdi oss, heilagur, saklaus, óflekkadur, fráskilinn syndurunum, og vordinn himnunum hærri, Hebr. 7, þad er upphafinn yfir alla himna, hvar þad allra=helgasta er, í hvört hann er inngenginn og seztur Gudi á hægra veg í voru holdi; og sjá menn aptur af þessu, hvad gledilígur ad sé þessi bodskapur, og þessi sendiför vegsamlig. En þad tekur yfir, kristnir menn, ad Gud er hér madur vordinn. Í sama vetfángi sem heilagur Andi tilbjó Jesú manndóm, svo ad hún gat sinn Son, undir eins og í sama augnabliki tók hinn önnur guddómsins persóna manndómin í samfélag med sér med svo föstu sambandi og ecki samblandi, ad þad hefir sídan aldrei slitnad, og mun ecki um alla eylífd slitna. Já, daudinn gat þad ecki slitid, jafnvel þótt hann adskildi sál og líkhama Drottins, því annars hefdi hann ecki sjálfur sína sálu apturtekid, hvörja hann sjálfur frá sér lét, Jóh. 10; þetta vottar Guds Andi, sem sjálfur var verkmeistarinn, tvisvar í þessu h. Gudspjalli; fyrst þar hann segir: ad barnid sem hún géta muni, skuli kallast Sonur hins Hæsta, þad er Guds, því einginn er hönum hærri; aptur ad þad heilaga sem af henni mun fædast, skuli kallast Sonur Guds. Takid eptir þessu, br. m., þótt eg tali í fáfrædi um svo háa hluti, þann sem hún gat eins og Guds Son, þann fæddi hún eins og Guds Son, svo ad einginn umbreytíng hefir vordid frá gétnadinum allt til fædíngarinnar, í eining persónunnar, sem ei er von, því hjá Gudi er eingin umbreytíng né skuggi til umbreytíngar, segir Jakob, 1 kap. hvad þá? er Kristur Guds födurs náttúrligur sonur eptir manndóminum? ad vísu er hann, en ecki eptir náttúrligum hætti, heldur fyrir eining hinnar guddómligu og manndómligu náttúrunnar, sökum þess, ad hin önnur persóna guddómsins, Guds eylífur Sonur tók á sig manndómin, svo gétur þad ecki adskilist, ad sá sem er Guds Sonur frá eylífu, en í tímans uppfyllíngu vard madur, hann er í raun og sannleika ad öllu leiti Guds Sonur, og þar fyrir er hann vor fridur, sem hefir gjört eitt af bádum, Eph. 2. Menn kunna ad segja, ad hér=um sé ei svo naudsynligt ad tala, og ad menn skilji ei þennan leyndardóm, sem satt er; en svo mikid géta menn skilid, sem Gud hefir viljad láta oss skilja, oss til sáluhjálpar.

Þad er ecki lítil huggun fyrir einn syndara, ad Gud er Fadir Christí eptir manndóminum, þar Kristur kallar oss sína brædur, Ebr. 2. Adam var Guds sonur, sem Lúcas

vottar, 3 kap; en í fallinu gjørdist hann Djøfulsins sonur.. Hvørnin átti nú Adams sonur aptur ad verda Guds sonur, nema hinn eylífi Sonur Guds, yrdi Adams sonur, sá ed geingist undir sekt brædra sinna? Pad sem brotid var á-móti Gudi, þad vard af Gudi ad gjaldast; þad sem af manninum var brotid, þad vard af manninum ad bætast. Gud kunni ecki einsaman ad lída; madurinn ecki einsaman ad fullnægja Guds réttlæti. Hvørnin átti þetta ad ské, nema Gud yrdi madur, og lidi fyrir þad, sem vér med vorum syndum høfdum brotid? Því er þetta ecki lítil huggun, og hvad segi eg lítil? þessi er hin einasta huggun syndugs manns, og eingin er ønnur; sá sem hana ecki hefir, hønum er víst helvíti, því eckert nafn er annad géfid mønnunum undir himninum, í hvørju oss byrjar sáluhólpnum ad verda, heldur enn nafnid Jesú, Act. 4, hvørt hønum var hér géfid, hvad og kallad var af einglinum, ádur enn hann var gétinn í módur kvidi, segir Lúcas, 2 kap., er hann segir oss umskurnar-søgu Drottins. O, hvílík djúpt audæfanna og Guds speki! Þetta er ein festi, sem Guds sonur gaf sinni brúdi í trygda-pant, í hvørri eitt furduverk hángir af ødru, eins og einn hleckur af ødrum; Skapari himinsins, er ein sképna vordinn; eylífdin er gétin í tímans uppfyllíngu, Gal. 4; ein Jómfrú verdur ólétt, Esa. 7; hún sem af Gudi er skøpud, verdur Guds módir; hann verdur í módur-lífi inniluctir, sem himnanna himnar ecki tekid fá, 1 Reg. 8; hann sem dunar í himninum, hann grætur í stallinum; sá ed allar lifandi sképnur sedur, Ps. 145, nærist í módur-kvidi; sképnan lætur til þad efni, sem Skaparinn var gjørdur af; solin hefir ljós fengid af stjørnunni; módirinn var yngri enn barnid, en barnid stærra enn módurinn. Minn Herra! þú sagdir, er þú vildir sýna þínum lærisveinum ad þú værir hold af voru holdi: andi hefir ecki hold né bein, svo sem þér sjáid mig hafa, Lúc. 24; en hér sé eg ad andinn er vordinn hold, því Gud er einn andi, Jóh. 4, og vard þó hold; svo segir Jóhannes 1 kap.: ordid vard hold og bygdi med oss, og vér sáum hans dýrd, svo sem eingétins Sonar af Fødurnum. Þetta eru stærri undur enn øll undur, og má hér ad fyrstu og sídustu kalla, ad þessi sendiför og þessi bodskapur sé dásamligur, háleitur og yfir allan máta undrunarligur. Gud géfi oss þar ad koma, sem vér megum eylífliga ad hønum dást, med þeim fagnadi, sem ecki hefir hér eyra heyrt edur auga séd, og ecki í manns hug edur hjarta komid, 1 Cor. 2. En nú viljum vér skoda hvør ad sé nytsemd þessa bodskapar, og er hún ad vísu svo stór, ad hún verdur aldrei fullþeckud. Eylíf ár skal til þess hafa, ad vegsama Guds eylífa gjæsku. Svo elskadi Gud heimin, segir Lausnarinn, ad hann gaf út sinn eingétinn Son til þess, ad allir þeir sem á hann trúa, fyrirfarist ecki, heldur hafi eylíft líf, Jóh. 3. Nær gaf hann oss hann fyrst? á hans gétnadar-degi, en fyrst hann hafdi oss hann einusinni géfid, því skyldi hann þá ecki géfa oss alla hluti med hønum, Róm. 8. Til hvørs gaf hann Soninn? til þess, ad þeir sem á hann trydu, skyldu ecki fyrirfarast, þad er, ad þeim ecki skyldi verda skipad frá Guds dómstóli í eylífann eld, sem fyrirbúinn er Djøflinum og øllum hans árum. Hefdi Gud gjørt oss ad kvikendum jardar og vinnu-dýrum, og látid oss svo út af-slokna eins og fénadarins anda, þá vóru þad gód kjør hjá því ad pínast eylífliga í helvíti, en hann hefir enn þá betur til vor gjørt, þar allir þeir sem á hans Son trúa skulu hafa eylíft líf, þad er, óendanliga dýrdar-víst og sælu med hønum og í hønum, frá einni eylífd til annarar. Hvør

vill þá sá ordum adkomid, hvílík Guds ást oss er veitt í holdtekju Drottins? Vér vitum allir hvílík byrdi ad er Guds h. lögmál, og hvört ad sé straff þeirra, er lögmálid brjóta; þad segir oss Móses, Devt. 27, med svo skélsiligum ordum, ad jafnvel þeim mætti ofbjóda, sem vita ad þeir eru frá lögmálsins bölvan frelsadir, og er þad þó ei nema tímanligt volædi, sem hann uppreiknar, svo eg vil segja, ad sá sem heyrdi lögmálid og þess vidlögur, og ætti sér ecki lausnar-von frá þess bölvan, hann væri ad miklu leiti í helvíti, jafnvel hér á jördunni, og hefdi ei nockra ró um eitt augnablik. En hvad segir Páll? Gal. 4: þegar tímans uppfylling kom, sendi Gud Son sinn gjördan af kvinnunni, lögmálinu undirgéfinn, svo hann leysti þá sem undir lögmálinu vóru, uppá þad vér ödludumst barna-réttinn. Nær skédi þad? á hans gétnadar-degi; en hvad mikid oss sé í því veitt, sjáum vér best, ef vér hugleidum hvílíkur munur sé þess, ad vera samarfi Jesú Christí, og svo hins, ad vera þræll lögmálsins hér í lífi, og svo fángi Satans í ödrum heimi; í einu ordi ad segja: allar lífs og sálar heillir, sem Guds börn þiggja af Drottni, þær eru oss í því augnabliki veittar, er Jesús var gétinn í meyar-lífi. Eingin fegri sól hefir yfir heiminn skinid enn sú, þegar sól réttlætisins Mal. 4, upprann oss syndugum mönnum í hennar kvidi. Vér vórum nidursöktir í afgrunn herfiligustu eymda og volædis, oss vantadi þann sem rétti oss einn streing til ad uppricja oss úr þessu djúpi; þrí-þættur streingur slitnar torveldliga, segir hinn Vísi, Ecl. 4. Þessi streingur var Drottinn Jesús, af líkhama, sálu og Gudddóminum samanspunninn, hann var ofanlátinn í eymdir vors holds, med hönum hefir Guds mektugi armleggur rickt oss út af valdi myrkranna; oss vantadi eina fórn, þá er kynni fyrir Gudi ad gilda, hana var ecki ad fá hjá oss mönnunum, einn bródir kunni ecki annann ad leysa, Ps. 49; og þótt Gud hefdi skapad einn heilagan mann af Adams nidjum, og látid hann lída, þá nádi hann skamt, bædi til ad géta útstadid hinar bitru helvítis-píslir, svo og til ad fullnægja Gudi fyrir syndina; því er Gud madur vordinn, svo Gudddómurinn hjálpadi manndóminum til ad þola píslirnar, og gjöra lausnar-gjaldid dýrmætt í augliti hins stránga Dómara, en manndómurinn Gudi (ef eg má svo ad ordi komast) til ad deya. Vér þurftum einhvörs sáttmála vid, til stadfestíngar þeim fridi, er Gud gjördi vid mannkynid. Sjá! Gud er madur vordinn, hann hefir trúlofad sér vora náttúru í meyarinnar kvidi; med þessum teingdum er fridurinn stadfestur milli himins og jardar, milli Guds og manna, milli réttlætisins og miskunarinnar. Vær þurftum nockurskonar veg til himinsins, hvadan vér útlægir vorum; Gud er madur vordinn, hann er vegurinn, sannleikurinn og lífid, Jóh. 14; hann er Jakobs stigi, sem nær frá jördu allt til himins, Gén. 28, því hann er ofankominn af himni í vort auma hold, en vort hold er uppnumid; fjöllin eru læckud, dalirnir eru uppfyltir, Esa. 40; himininn hefir læckad sig allt til jardar, jördin er upphafin allt til himna, og um þennan Jakobs stiga munu einglar á-sídan bera sálir vorar í Abrahams skaut, til ad fagna þar eylífliga. Vér vórum Gudi mörg tíu þúsund punda skyldugir, Matth. 18; þar lá ecki annad fyrir oss enn ad verda kastadir í hin ystu myrkur, einginn hafdi þad hann gjalda skyldi; því er Gud madur vordinn; Fadirinn gaf oss einn ríkan bródur, sem einn galt fyrir alla. Ad sídustu vildi Gud

ecki einasta frelsa oss af myrkranna valdi í helvíti, heldur og hefja oss til ríkis í himninum; en oss vantadi røksemd og skjal til þess, ad hann vildi svo gjøra. Hans gjæska var altíd til reidu í frá upphafi veraldar, já, ádur enn grundvøllur veraldarinnar var lagdur; en þad var ad ugga, ad vér mundum gjøra hana ónýta á oss, fyrir vantrúarinnar sakir; þad var ecki líkligt ad einn glæpafullur landráda-madur, einn spillvirki, sem allareidu hafdi snøruna um hálsinn og unnid til gálgans, hann mundi ætla ad konúngurinn mundi hann aptur-kalla frá gálganum til ríkis, úr bøduls høndunum til síns hábords, og gjøra hann ættleidíng af útlaga, sitt barn af Djøfulsins þræl, og sinn þénara af drottins-svikara. Þess vegna er Gud madur vordinn; þar fyrir hefir hann géfid oss þad teikn, er hann hét ad géfa á døgum Achas konúngs, Esa. 7, um hvørt ad gétur í þessa hátídis dags venjulig- um pistli, þar svo stendur: fyrir þá skuld mun Drottinn géfa ydur eitt teikn. Sjá þú, ad ein jómfrú mun barn géta, og einn son fæda, og hann mun hún kalla Immanúel, þad er; Gud med oss, Gud í manninum, og ordid í holdinu, þad er Jesús, Lausnari, Frelsari, Sáluhjálpari, því svo kunni einginn ad heita nema Gud byggi í hønum. Þetta er nú fullkomin vissa um sátt vora vid Gud, sá oss reidur var; því hafi hann gefid oss hann, í hvørjum hønum alleina velþóknast, Matth. 3, og ofurselt hann í daudans-píslir, til ad forlíka oss vid sjálfan sig, Róm. 5, þegar vér enn þá vórum hans óvinir: hvørnin kunnum vér þá ad efast um uppgjøf vorra synda? mun hann kasta þeim í eylífan eld, sem á hans nafn trúa, er hann tók svo nærri sér ad géfa oss? Mun hann tilreikna þeim synd- irnar, hvørra syndir hans eingétinn Sonur hefir burtu borid, Jóh. 1, nær vér ydrumst þeirra af hjarta? Mun hann klaga oss fyrir þá handskriftina sem hann hefir alla-reidu á krossinn neglt? Col. 2; fjærri sé þad Fødur miskunsemdanna! og þessi er nú sá glediligi bodskapurinn er eg í øndverdu hét um ad tala; ó, eitt fagnadarsamligt ord! ó, eitt sann-kallad Evangelium! ó, eitt æskiligt fridar-bod! med hvørju heilsan verdur frambodin hinum veika, uppgjøfin hinum seka, lausnin hinum herteknu, frelsid þrælunum, lífid hinum dauda, og þeim sem einkis von áttu nema eylífra kvala í helvíti, med Djøflinum og øllum hans árum, eylíf sæla, eylífur føgnudur og eylíft samneyti, med hinni háleitu Guddómsins þrenníngu og heiløgum einglum í hinni himnesku Jerúsalem, hvørrar sól og túngl ad Gud er, Apóc. 21, og hvar eingin umskipti eru ljóssins né myrkursins, Jak. 1. Þessarar tign- ar, þessarar dýrdar og þessarar full-sælu, unn þú oss njótandi ad verda gódi Gud, fyrir árnan og forþénustu þíns eingétins Sonar Jesú Christí vors Frelsara, Amen!

## Á Pálma-Sunnudag.

Gudspjallid stendur á hinn Fyrsta Sunnudag í Advventu.

### Exordium.

Vér høfum eingan konúng nema keisarann, søgdu Gydíngar fordum daga, Jóh. 19. þá þeir vildu ecki láta Konúng dýrdarinnar ríkja yfir sér, Lúc. 19; en eg þykist vita, ad kristnir menn muni ecki samsinna þeim óguðliga flock; því jafnvel þótt vér eigum Gudi ad þacka fyrir konúnga vora, er hann sett hefir til ad stjórna sínu fólki, sérdeilis vér, er hann hefir

milda og réttvísa konúnga géfid einn eptir annann. þá vitum vér þó, ad Gud hefir sett sinn konúng yfir sitt heilaga fjall Zíon, Ps. 2, hvørs ríki ecki er af þessum heimi, Jóh. 18; og þó er hann heimsins Skapari, Hebr. 1, hvørs herradæmi ad brá fyrir syndugа menn um stundar-sakir, til ad uppfylla spádóm Zachariæ, kap. 9, þegar hann reid inn til Jerúsalem; en hans ríkis-stóll varir þó um aldir alda, Hebr. 1. Vorir høfdíngjar stjórna med makt og miklu veldi, verøldin er svo skipud, ad ecki verdur ødru ákomid; en Kristur í sínu nádar-ríki stjórnar med sínu h. ordi og sakramentunum; því segir Páll, 2 Cor. 10: vopn herfarar vorrar eru ecki líkhamlig, heldur kraptur Guds til ad nidurbrjóta girdíngarnar. Veraldligir herrar taka skatt af sínum þegnum, Matth. 17, og er þad réttvíst, því þessi vor konúngur hefir þad skipad, en hann géfur øllum allt, og upplýkur sinni mildu hendi, til ad sedja allar lifandi sképnur, Ps. 145. Drottinn sagdi vid Petrum: veraldligir konúngar: hvørt taka þeir skatt af sínum børnum, ellegar af annarligum? enn Petur svaradi: af annarligum. Og vor Herra sagdi: þá eru børnin frí, Matth. 17. En þad gengur ødruvísi til í Guds-ríki; hér tekur Konúngurinn skatt af sínum børnum, sem þó er ecki gull né silfur, heldur harmþrúnginn og sundurknosadur andi. Fordum daga mátti einginn mæta Persa-konúngi, nema hann offradi hønum einhvørri gáfu; og er bóndi nockur vard á vegi fyrir einum af þeim, hafdi hann þad ecki til er hann kynni ad bjóda; en í þessu rádleysi tók hann vatn í lúkum sér og færdi konúnginum, og segja menn þad hafi verid vel þegid. Vér mætum vorum Konúngi dagliga, því allann daginn útbreidir hann sinn fadm til vor, Esa. 65; eckert høfum vér þad vér kunnum ad bjóda þessum allsherjar-Drottni; blód uxanna og hafranna þóknast hønum ecki, Ps. 50; allt silfur og gull er hans, jafnvel vor bestu verk eru eins og nidlags-fat, Esa. 64. Gudrækilig tár vorra augna, og þad vatn sem ydrandi manna høfud eru full af, einn audmjúkur andi og lítilátt hjarta er hans offur, Ps. 51. Betur líkar hønum fóta-þvottur hinnar bersyndugu, enn heimbod Símónar, Lúc. 7; betur Maríu audmýkt í hjartanu, heldur enn umsorgun Marthæ í húsinu, Lúc. 10; hinn beiski grátur Peturs, Matth. 26, heldur enn offur Vitrínganna, Matth. 2, þótt hvørutveggja væri þacknæmiligt. Hin besta þegnskylda Guds af mønnunum er þetta, og trúin, sem verkar fyrir kjærleikann, Gal. 5; en þessi Konúngur, svo máttugur sem hann er, svo prýdiligur sem hann er, svo alvaldur sem hann er, svo gjæsturíkur sem hann er, þá er hann þó til vor kominn hógvær, sitjandi á øsnu einni. Hafi nú Konúngur dýrdarinnar verid svo hógvær fyrir vora skuld, þá látum oss gánga nær Gudspjalli þessu, og læra nockud af hønum, sem er hógvær og af hjarta lítilátur, Matth. 11; þad er: hina andligu hógværd, sem oss á ad fylgja inn í himnaríki med smá-børnunum, Matth. 18, og um hana vil eg tala fyrir ydrum kjærleika út af þessu h. Evangelíó. Hvar til oss styrki hinn nádugi Gud í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Fari þér í þad kauptún, sem gagnvart ydur er, og strax munud þér finna øsnu bundna og folan hjá henni, segir Drottinn. Af þessu er audséd, ad hann vissi alla hluti, og ef hann var alvitur, þá var hann og almáttugur, alstadar nálægur og ómælánligur, því Guddómsins eiginligleikar mega ecki adskiljast; hvar fyrir vér sjáum, ad øll fylling Guddómsins hefir búid í hønum líkhamliga, Col. 2. Hvad lángt eru nú allir daudligir menn frá svoddan hátign? ad sønnu hefir Gud lagt mikid til margra, og þar verdur ecki á-móti sagt, ad madurinn er hin ypparligasta sképna Guds, sem vér sjáum med vorum augum; en þad hefir Jesús fram yfir alla adra, ad hann er bædi Gud og madur. Hvílíkt er þá þetta ómumræ̇diliga lítilæti, ad hann sem øll dýr á jørdunni skapad hefir, hann virdir sig svo lítils ad sitja á einum asna, sem er eitt hid audvirdiligasta kvikindi medal dýranna. Sjá hér, kristinn madur, hvad lítils-verd ad sé hoffragt veraldarinnar í Guds dýrdarfulla

augliti. Hér er ecki Pharaónis vagn, sem Jósepħ var í fluttur, Gén. 41; ecki Mardochei hestur, sem Assverus skipadi hønum ad rída, á sínum heidursdegi, Est. 6; ecki hinn eldligi vagn og hestar, sem færdu Elíam til himna, 2 Reg. 2, heldur einn lítilmótligur asni; þó stærir einn syndugur ormur sig af búnínginum, og af því ysirlæti, er hann hledur utan á sig. Pad er allvída ad sjá í æfisøguDrottins, hvad lítils hann hefir metid oflæti veraldarinnar; hann var fæddur í einum stalli, Lúc. 2; hann fór á fæti, þegar hann géck um kríng, gjørdi gott og grœddi alla, Act. 10; hann rídur hér einum asna, og hygg eg þad hafi þó verid hid mesta hans ysirlæti hér á jørdunni. Peink nú um, syndugur madur, hvílík fásinna þad sé, ad metnast í hjarta sínu, þó Gud láti einhvørn skína í prýdi veraldar þessarar; ecki segi eg, ad Gudi misþóknist líkhamligt hreinlæti eda fagur búnadur í sjálfum sér, þegar þau sambjóda þess virdíngu, er þvilíkt brúkar, lángt heldur meina eg, ad Gud hafi eingan misþocka á því, þótt hans sképnum sé haldid til prýdis; þad sýnir mér Arónis búníngur, Exód. 28; þad vottar sáttmáls-ørkin og nádarstóllinn, Exód. 25; þad sýnir Jerúsalems musteri, 1 Reg. 6; þad sýnir Salómon med allri sinni dýrd, 1 Reg. 10, hvørri í Ritníngunni hrósad verdur; en hitt segi eg, ad stæra sig þar af, þad er andstygd fyrir Gudi. Ecki trúi eg ad hønum hafi illa líkad sú bygging, er Nebúcadnezar lét gjøra í Babýlon, en fyrir því hann stærdi sig þar af, þá vard hønum gésid villidýrs hjarta, svo hann át gras med kvikindum á mørkinni, Dan. 4; ecki hefir Gud reidst vid Heródem af því hann var málsnjallur, því sjálfur hafdi hann hønum málfærid gésid, en søkum þess ad hann gaf ecki Gudi dýrdina, þá var hann sleginn af eingli Drottins, Act. 12; kannské ad Gud hefdi látid hvalfiskinn í Egyptalandi vera kyrran í sínu vatni, hefdi hann ecki sagt: mitt vatn er mitt, og eg hefi gjørt mér þad, Ezech. 29; ecki er víst ad hann hefdi sett krókinn í Zenacheribs nasir, hefdi hann ecki lastad nafn Drottins. Pessi er hinn réttláti dómur hins alvalda Konúngs, ad dramblátum hryndir hann af stóli, en lítilátum géfur hann nád, Lúc. 1; betra er ad audmýkjast med hinum hógværu, en ad útskipta herfángi med þeim drambsømu, segir Salómon, Ordskv. 16; hvar af audséd er, ad þó Gud hefdi mikid til hans lagt, og upphafid hann á stól síns fødurs, og gjørt hann vegsamligri bædi ad viti og ríkdómi heldur enn adra konúnga í Austurálfunni á hans døgum, 1 Reg. 10, þá hefir hann kannast vid, ad hann hefdi þad allt þegid og ecki tekid af sjálfum sér; svo var og Davíd hans fadir lyndur, hvørs audmýktar merkiligt dæmi vér høfum í annarar Sam. b. 6 kap., þegar drottníngin Michol brixladi hønum med þessum ordum: hvørsu vegsamligur var konúngurinn af Israel í dag, hvør ed afklæddist fyrir ambáttum þénara sinna, og lék nakinn sem fantar? en hann svaradi: eg vil leika fyrir Drottni þeim sem útvaldi mig, heldur enn þinn Fødur og heldur enn allt hans hús, og hefir skipad mig høfdíngja yfir Drottins fólk, Israel, og eg vil enn-nú minni verda, og eg vil lítilæcka mig í mínu augliti, og vegsamast med þeim ambáttunum, sem þú taladir um. Ad eg tali ecki um Abraham, Jakob, Mósen, Jósaphat, Ezechíam og adra fleiri, hvørjir allir vóru af Gudi med mikilli tign sæmdir, og þeirra audmýkt í andanum er þó hrósad í Ritníngunni. Gud nádi oss! hvad høfum vér ad stæra oss af, syndugir menn? er ecki madurinn ein vatns-bóla? hvør þó ad þjóti upp um stundar-sakir af vindi luckunnar, þá

hjadnar hún jafnskjótt aptur, þegar hinn sami á hana blæs. Er ecki allt hold hey? og allur þess heilagleiki, líka svo sem blómstur akursins? grasid visnadi og blómstrid datt af, þvíad andi Drottins blés á þad. Sannarliga er allt fólkid hey; grasid visnadi, og blómstrid datt nidur, en ord Drottins varir eylífliga, Esa. 40. Hér er einginn undantekinn, ríkur eda fátækur, gøfugur eda ó=gøfugur, smár edur stór, vitur edá vankunnandi, þræll edur herra, og þetta eru Guds ord, hvør æfinliga vara, er oss þetta segja; láti því einginn ofurdátt ad sjálfum sér, því allt hvad vér høfum, hvad gott edur kostuligt sem þad er, þad er þó alltsaman láns=fé, og ecki vort eigid. Segid mér, hvar af skyldu menn þó stæra sig? af aud og ríkidæmi? því skyldi eg hroka mér upp af því, sem luckan kann eins ad gefa einum nídíngi, svo sem besta manni; sem aflad er med mikilli áhyggju á mørgum árum, en fargast í einu augnabliki, ef til vill. Því skal eg gjøra mig stórann, þótt eg hafi einn ómaga medferdis, sem eg hlýt altíd ad þrælka fyrir, og svo er óþacklátur og óréttvís, ad hann sedur aldrei sína fyrirvinnu? Viljum vér athuga, br. m., af hvørju flestir eru í fyrstunni ríkir vordnir; fæstir munu þeir vera, sem náttúran hefir hjálpad þar til ad øllu leiti, edur þeirra eittsaman erfidi, med hvørju Gud hefir skipad ad næra sig af jørdunni, Gén. 3; eg vænti ad svo hafi flestir audgast, ad þeir, eda þeirra forfedur hafi tekid nockud rángliga frá ødrum. En segid mér, er þad réttvíst, ad menn stæri sig upp yfir einhvørjum af því, ad hans forfedur hafa tekid nockud frá hins forfedrum? Eingum manni mun þad þykja, þegar menn gá ad hvørnin hlutur inn er í sjálfum sér; eda hvad er nú framvegis ad stæra sig af? eru þad vitsmunir? Eg medkénni, ad þeir eru hinn kostuligasti hlutur, sem Gud hefir lagt til syndugra manna, en þó eru þeir fallvaltir eins og annad; og hvad lítid er þad vér vitum, hjá því sem vér ecki vitum? madurinn veit ecki sinn sess edur gaungu, segir Ritníngin, og hvørsu vill hann þá meira vita? og þótt ad þeir séu í sjálfum sér gódir, þá verda þeir þó af vorri misbrúkun optliga níddir, allra mest af drambseminni. Rétt gjørdi Gud, svo sem alla hluti, í því hann gaf Nebúcadnezar villidýrs hjarta, Dan. 4, sem ádur er sagt; og sama ætla eg þá hendi, sem forsmá adra hjá sjálfum sér, og þykjast einirsaman vita alla hluti, hvad þá optast hendir, sem minst vita, og þá þeir þykjast øllum hyggnari, verda þeir skiptíngum heimskari. Margur gortari hefir og stært sig af hreysti líkhamans, gjætandi ecki ad því, ad lítill kvilli kann ad svipta manninn sínu afli. Sumir hrósa sér af fegurd líkhamans, og er hún ad sønnu ágjætur hlutur, þá hún ecki er brúkud til lauslætis edur ofmetnadar, en einsaman er hún ágjætislítil, því madur kann ad mála eitt bilæti fagurt, og er þad þó ecki svo gott, sem hinn ljótasti madur. Hvad er nú framvegis verdt ad stæra sig af? dygdir og mannkostir eru mest verdir af øllum þeim hlutum, sem finnast hjá daudligum mønnum, en þeir verda ad ókostum þegar dramblætid þeim spillir. Því segir Salómon: vanvirdan eptirfylgir hinum stórláta, en hinn sem er lítilátur í anda, mun vegsemdin umfadma, Ordskv. 16. Lítilætid er fegursta skart dygdanna, án þess verdur framsýnin ad undirferli, réttlætid ad hardýdgi, hugprýdin ad ofdyrfsku, sparsemin ad nídsku; eg meina hid kristiliga lítilæti, sem er einn audmjúkur andi fyrir Gudi, og kannast vid og þeckir þad, ad menn eru menn og mannligum tilfellum undirvorpnir. Sjá þinn Konúngur kémur til þín hógvær, segir Textinn. Ef Konúngur

dýrdarinnar Ps. 24, svo lítilækkar sig fyrir oss syndugum mønnum, því skyldum vér synd-ugir menn stæra oss upp yfir vorum brædrum? Drottinn himins og jardar kémur til vor aumra manna, sem eckert tøkum med dss í þennan heim, og munum eckert í burtu bera, 1 Tím. 6; hinn fegursti medal mannanna sona, Ps. 45, kémur til vor, sem frá hvirfli og allt til ilja erum ecki nema sár, benjar og þroti, Esa. 1. Látum oss þad til hjarta gánga, hvad stór munur ad er vor og hans; vér erum þeir ed styndum, hann er sá sem misgjørt var á-móti; hann þarf ecki vor med, en vér kunnum ecki eitt augnablik ad lifa fyrir utan hans miskun; látum vort hjarta komast vid af því, ad hann er sjúkur af elsku, Loskv. 2, ofan til vor kominn, þegar vér hann høtudum. Ef vorar syndir ecki ángra oss, ef vér hrædumst ecki þeirra straff, þá látum þó þann óumrædiliga elskunnar bruna smelta vort hjarta, ad hann kémur med svo mikilli hógværd inn til Jerúsalem, til ad láta sig kvelja og krossfesta fyrir mínar og þínar syndir, kristinn madur. Hann grætur yfir borginni, hvørr-ar innbyggjendur ad ecki þecktu sinn vitjunar-tíma, Lúc. 19, af hvørjum hann vissi þó ad hann mundi svo hádugliga útleikinn verda, sem hans píslar-saga vottar. Fyrst hann hefir nú allt þetta unnid fyrir oss synduga jardar-madka, þá látum oss gjøra þad hann oss skipad hefir, sem er, ad læra af honum hina sønnu hógværd, sem Gud álítur, gjørandi eckert af kappi edur fyrir hégóma-dýrd, heldur af lítilæti, hafandi hvør annan sér í vird-íngum ædri, Phil. 2. Audsýnum og vort lítilæti í verkunum, svo ad bædi Gud og menn sjái ad vér leggjum ecki ofmikla virdíng á sjálfa oss. Drottinn sagdi til lærisveinanna í þessu Evangelió, þegar hann skipadi þeim ad taka øsnuna: ef einhvør segir nockud til ydar, þá segid ad Herrann hafi þeirra þørf; allt vald hafdi Jesús, bædi á himni og jørdu, því alla hluti hafdi Fadirinn lagt í Sonarins hendur, Matth. 28; því sýnist ad þad hefdi ecki verid umfram hans rád, þótt hann hefdi tekid þetta dýr ad fornspurdum eigand-anum, þó vildi hann þad ecki gjøra, uppá þad hann sýndi oss hvørnin vér eigum hvør vid annann ad breyta. En hvad gjøra sumir af oss? þykir oss þad mikils-verdt ad gjøra lítilmagnan fornspurdan ad þeim hlutum, er vér eignast viljum? Mun Jessabel virda fyrir sér ad leita ljúgvitna í móti Naboth, og láta grýta hann sídan í hel, þegar Achab vill eignast hans víngard? 1 Reg. 21. O, Gud gjæfi ecki væri þvílík dæmi hjá oss, þótt menn rádist þess minna í, sem vér høfum valdid minna, heldur enn Achab hafdi! ad sønnu er skickanliga og lítiláta umgengni ecki ad lasta; hún kann ecki svo ad kallast dygd, svo sem dygdanna førunautur, og margur hefir sá hana til ad bera, sem ecki hefir sjálfar dygdirnar, og med henni hafa sumir tekid allt frá øllum; en þó er ecki hid sanna lítilæti í því innifalid, ad taka hattinn af fyrir mønnum, jafnvel þó þad sé ecki lastandi í sjálfu sér. Utvortis og innvortis lítilæti er ad sønnu hvørutveggja gott, en skuli annars hvørs án vera, þá vilda eg heldur ad hatturinn sæti kyrr á høfdinu, heldur enn ad aumíngjans kjóll væri rifinn af hans kroppi, svo ad Gud klagadi mig ecki sídan, ad eg félli fram í pant-settum klædum í hans húsi, Amos. 2. Vér heyrum í Gudspjallinu, ad margt af fólkinu sem eptir-fylgdi Lausnaranum, hafi breidt sín klædi á veginn, en adrir høggvid kvisti af trjánum; þad var stórt audmýktar-merki af þessu fólki, og eg veit ad þér, kristnir menn, vildud hid sama gjøra, ef þér mættud hans nálægdar njóta; en trúi mér til, ad hann er

ecki svo lángt í burtu, sem þú hyggur, því hann hefir sagt: eg vil vera hjá ydur allt til enda veraldar, Matth. 28; og ef þar eckert annad er, þá eru þar nógir klædleysíngjar, sem hann kallar sína limi, þad eru sannir ölmusu-menn; breidum vor klædi á veginn fyrir þá, svo ad þeir ecki í klædleysi út-af deyi, sem ad bera teikn Jesú Christí á sínum líkhama, og eru eptir hans mind skapadir, svo vel sem vér adrir, sem betri rád höfum, þá offrum vér hinu sannarliga lítilæti, og látum Gud sjá ad vér þykjumst ecki uppyfir þeim, sem hann hefir minna tillagt. Kristur vill ecki láta lúta sér einúngis med ordum, heldur med verki og sannleika, Eph. 2, ecki heldur sínum limum, því hann er safnadarins höfud, Róm. 12, en vér erum hvör annars limur. Þar mun koma sá dagur, ad sagt mun verda til þeirra, sem hafa medtekid Guds volada í hans nafni, þegar Kristur mun í annad sinn innrída til Jerúsalem, þad er til sinnar kristiligrar kyrkju, ecki grátandi, svo sem nú, heldur med makt og miklu veldi, þegar höfud-eingilsins lúdur mun gjalla yfir þeim sem á jördu búa: komid þér blessadir míns Födur, og eignist þad ríki, sem ydur var tilbúid frá upphafi veraldar; þvíad húngradur var eg, og þér gáfud mér ad eta, þyrstur var eg, og þér gáfud mér ad drecka, géstur var eg, og þér hýstud mig, nakinn var eg, og þér klæddud mig, sjúkur var eg, og þér vitjudud mín, í myrkvastofu var eg, og þér komud til mín; þá munu hinir réttlátu svara hönum og segja: Herra! hvenær sáum vér þig húngradan og söddum þig? eda þyrstan og gáfum þér ad drecka? eda hvenær sáum vér þig géstkominn, og hýstum þig? eda nakinn, og klæddum þig? eda hvenær sáum vér þig sjúkan eda í myrkvastofu, og komum til þín? og Kongúngurinn mun svara og segja til þeirra: sannliga segi eg ydur, ad hvad þér gjördud einum af þessum mínum minstu brædrum, þad gjördud þér mér, Matth. 25; þá mun þad ecki koma í eptir-þörf ad hafa breidt sín klædi á veginn fyrir Christí limu; þad mun verda stór féssjódur á himnum, ad hafa lítils aktad gull og gersemar og kostuligan búnad, þegar allt þetta stendur í björtu báli, og dugar til einkis nema ad kveikja eld undir þeim, sem hafa fest sitt hjarta þar vid. Þyki oss vænt um þad fánýta skart, sem vér vefjum í þenna forgengiliga líkhama, og þad svo mjög, ad sumir af oss væri til frí..., ad flytja med sér nockud úr þessari veröldu, þá er rád þad vid því, ad klæda fátæka, þeir munu oss þad med ábata aptur-géfa, sem er réttlætisins skrúdi, fágadur í Lambsins blódi. Eckert berum vér í burtu med oss hédan, nema þad sem Guds voludum er géfid, þad mun oss aptur ríkugliga goldid verda í upprisu réttlátra. Svo lærid nú af ydar Frelsara, br. m. ad vera hógværir og af hjarta lítilátir, bædi í ordi og verki; hann hefir ecki sagt til vor: lærid af mér ad skapa allann heiminn, ecki ad gjöra kraptaverk í heiminum, ecki ad ráda fyrir velferd allra manna, heldur hefir hann skipad oss ad læra af sér hogværdina. Sá sem vill byggja sitt hús stödugliga, hann þenki um grundvöll lítilætisins, því hvör sá ed sig upphefur, hann skal niðurlægjast, og hvör ed sig niðurlægir, hann skal upphafinn verda, Matth. 23. En þú, ó Herra Jesú Christe! sem ert hid fullkomnasta eptirdæmi lítilætisins og hógværdarinnar, virdst þú ad taka burt frá oss hroka syndumspilltrar náttúru, svo ad vér rata mættum þann rétta veginn inn í þitt ríki; þad veit þú oss, miskunsami Herra! sem hefir lítilæckad sjálfan þig, uppá þad vér vegsamligir yrdum, og bid þinn himneska Födur fyrir oss, ad hann sendi oss þar til sinn heilaga Anda, amen, í Jesú nafni, amen!

# A Skír-dag.

Pistillinn, 1 Cor. 11 Kap.

Gódir brædur! Því eg medtók það af Drottni, sem eg hefi ydur géfid. Af því ad Drottinn Jesus, á þeirri nátt, er hann var svikinn, tók hann braudid, gjørdi þackir, braut það, og sagdi: takid og etid; þetta er minn líkhami, sá fyrir ydur verdur brotinn; gjørid það í mína minníng. Sømuleidis og einnin kaleikinn, eptir það hann hafdi kvøldmáltídina etid, segjandi: Þessi kaleikur er nýtt Testamentum í mínu blódi. Gjørid þetta, svo opt sem þér dreckid þaraf, í mína minníng. Þvíad svo opt sem þér etid af þessu braudi, og dreckid af þessum kaleik, skulud þer kunngjøra dauda Drottins, þángad til hann kémur. Hvør hann etur nú af þessu braudi, og dreckur af þessum kaleik Drottins óverdugur, sá er sekur vid hold og blód Drottins; en hvør madur profi sig sjálfur, og eti svo af þessu braudi, og drecki svo af þessum kaleik. Þvíad hvør hann etur og dreckur óverdugur, sá etur og dreckur sjálfum sér dom, gjørandi ecki greinarmun á Drottins líkhama.

## Exordium.

Sæll er sá madur, sem etur braud í Guds ríki, sagdi fordum Gydíngurinn er sat til bords med vorum Frelsara, þá hann var ad heimbodi eins af Pharísæanna høfdíngjum, Lúc. 14. Hann hefir án efa meint hér med alla þá sælu, er þeim búin er, sem sitja til bords med Abraham, Isak og Jakob í ríki himnanna. Þessi madur sagdi ad vísu satt, en forgéfins vænta menn hinnar eylífu sælu, nema vér fáum hér í lífi nockurn forsmeck hennar; en hvar fáum vér hann? í Guds heiløgu ordi ad sønnu, en þó allra-helst í þeim heiløgu sakramentis. Hvílíkur føgnudur er það einni rétt-trúadri sálu, ad hún veit, ad hún í skírninni er vordin Guds vinur af reidinnar barni, Eph. 2, og hluttakandi allra Jesú Christi velgjørnínga, sem hann med sinni beisku kvøl og dauda hefir oss afrekad, og til styrkíngar trú sinni þar-um, etur hann Guds líkhama og dreckur hans blód, í og med hinum jardnesku hlutum braudi og víni. I ordinu heyrum vér raust Brúdgumans, Loskv. 5, en í þ. kvøldmáltíd Drottins, kyssir hann hana med kossi síns munns, er hans hjarta elskar, Loskv. 1. Þar uppvekur hann elskuna til sín; þar styrkir hann trúna; þar lífgar hann vonina; þar eykur hann gledina og géfur oss forsmeck himnaríkis. Davíd gat ecki meiri æru veitt Mephíbóseth syni Jónathans vinar síns, 2 Sam. 9, edur vin sínum Barsillai, 2 Sam. 19, enn ad þeir skyldu eta braud vid hans eigid bord. O, hvílík æra er þetta þá! br. m. ad Konúngur dýrdarinnar setur oss vid sitt eigid bord? Hann framreidir þar, ecki einn alinn kálf, eins og fadir hins týnda sonarins, sem gétur um í eptirlíkíngunni. Lúc. 15, heldur sjálfan sig. Það saklausa Guds Lamb, sem frá veraldarinnar upphafi slátrad er, Apóc. 5, húngrudum til sadníngar. Nathan spámadur kunni ecki ad fá annad vigtugra til ad sýna Davíd, hvørsu mjøg hinn fátæki madur hefdi elskad þann saudinn, sem hinn ríki tók frá hønum, heldur enn það, ad hann gaf hønum ad eta af sínum braud-bita, og ad drecka af sínu kéri. 2 Sam. 12. O, Jesú! vér erum þínir voladir saudir; þú hefir auglýst þinn brennandi kjærleika í mørgum þínum velgjørníngum, en þó hvad mest í því, ad þú hefir géfid oss þitt hold ad eta og þitt blód ad drecka, það sama hold og blód, sem á krossinum héck og úthelt var, en nú situr til Kraptarins hægri handar, til ad birtast fyrir augliti Guds, til ad afmá syndina

med fórnfæríngu sjálfs þíns, Hebr. 9. Þú hefir til þessa géstabods kallad fátæka, vanada, halta, og blinda, Lúc. 14, þad er: oss aumar syndugar manneskjur, hvørjar syndin og Djøfullinn svo ílla høsdu útleikid, ad frá hvirfli og allt til ilja var þar ei nema sár, benjar og þroti, Esa 1. En eg óttast næsta mjog ad þeirra líkar finnist vor á-medal, er St. Páll svo hardliga átelur fyrir ósidsemi þeirra og vanrækt á þessu himneska bord-haldi, þar hann segir til Corinthíos, 1 Pistl. 11: þessu hrósa eg ecki, ad þér samankomid ecki til hins góda heldur til hins verra eins; því géfur hann þeim og eitt ágjætt bodord, hvørnin þeir skulu tilreida sig undir þessa h. nautn í þessum ordum: hvor madur prófi sig sjálfur, og eti svo af þessu braudi og drecki af þessum kaleik; og ecki einasta hefir hann þeim þad géfid, heldur og øllum kristnum mønnum, er med þessum hætti vilja kunngjøra dauda Drottins; hvar fyrir eg vil og út af þessum h. Pistli tala um þá sérligustu hluti, er heyra til kristiligs undirbúníngs þessarar háleitu Drottins kvøldmáltídar. Hinn gódi Gud virdist ad styrkja oss hér til, med nád síns Anda, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Þad á ad vera oss alkunnugt, br. m. ad í skírninni hefir Gud gjørt einn nádar-sáttmála vid oss auma menn, þar vér fædumst í heim þennan daudir í syndunum. Nú er oss þad vitanligt, ad vér dagliga rjúfum þennan samníng, ecki alleinasta af rasandi rádi, heldur og optsinnis med vilja og ásetníngi; en því valda Guds djúpu miskunar-idur, ad vér eigum kost á ad nýu ad forlíka oss vid hann, og til þess hefir hann sett og innstiptad þad h. altarisins sakramentum, í hvørju vor skírnar-sáttmáli verdur ad fullu endurnýadur, Guds nád ad nýu frambodin sannydrandi manni, og hann ávalt skuldbundinn til ad gjøra verduga ávøxtu ydraninni, Matth. 3; þad vill Drottinn bodid hafa, er hann segir hjá Lúkasi, 22 kap: svo opt sem þér gjørid þetta, dreckid þad í mína minníng, hvad Páll í Textanum kallar ad kunngjøra dauda Drottins. En hvílík á þessi minníng ad vera, br. m.? Ecki svo sem þegar vér dreckum konúngsins skál, edur vina vorra og náunga; þad væri ad gjøra lítin greinarmun á líkhama Drottins og annari fædu, heldur eigum vér þess ad minnast med hjartans ángri og trega, ad vorar blódugar illgjørdir hafa dýrdarinnar hertoga krossfestan, ad oss verdi þær fyrir hans dauda og forþénustu aldeilis tilgéfnar, ef vér ydrumst af hjarta. Svo er nú kristilig ydran, svo ad segja, hin fyrsta trappa sem liggur upp ad þessu hábordi Drottins; en þess er ad gjæta, barn Guds! ad hún sé heit og alvarlig. Kristur gjørdi ecki um grun ad lída fyrir syndir þínar; þú átt og ad láta þig af innstu hjartans rótum ángra þad, ad þú hafir hann módgad og módgir dagliga. Hér til heyrir nákvæm og grandgjæfilig þeckíng Guds h. bodorda; hvørnin má hann þeckja syndina, sem ecki er sannfródur um Guds vilja? en hvørsu má sá ydrast syndarinnar, er hana ei þeckir? og sá sem ecki ydrast, hann etur og dreckur óverdugur; en hann ed þad gjørir, er sekur vid hold og blód Drottins, segir Páll í upplesnum Texta. O, hvørsu hrædilig mun þessi sekt, kristnir menn! Vér kynnum ad leida oss í hug, ad þeir ed vísvitandi, athugalaust og óverdugir gánga til Guds bords, þeir væru ecki øllu minna sekir í augliti hins réttláta Guds, enn þeir sem hann krossfestu, því þeir hafa Christí vitni þar-um, ad þeir ecki vitad hafi hvad þeir gjørdu, Lúc. 23; en þad má hvørjum einum kristnum manni vera vitanligt, ad Gud hefir sendt Son sinn í heimin synduga menn sáluhólpna ad gjøra, og ad hann sjálfur hefir

gefid sitt líf út fyrir sína saudi, Jóh. 10. Hvörju til stadfestu hann gefur oss sitt hold ad eta og blód ad drecka. Edur segid mér, hvad er þad sem Páll til Hebr, 10, kallar ad fóttroda Guds Son? og ad halda sáttmálans-blód almenniligt? med hvörju vér erum endurkeyptir. Mun þad ecki stappa nærri því, sem hér stendur í Textanum, ad gjöra ecki greinarmun á Drottins líkhama? Hvad er þad annad, enn ad halda hann almenniligan? en Páll segir, ad þeir ed þvílíkt gjöra, eti og drecki sjálfum sér dóm, þad er, ad þeir gjöra sig eylífrar fyrirdæmíngar seka, nema þeir rádi bót á slíku og ydrist af hjarta. Komi þér því til hugar, syndugur madur, ad þú ecki hafir svo verdugliga gengid til Guds bords, sem þad hefir byrjad, þá örvænt þér ad sönnu ecki Guds nádar, heldur ydrast, og lát þér ei til hugar koma ad brúka þessa hjálpsamligu nautn, fyrr enn þú hefir lært ad reyna og prófa sjálfan þig, svo sem byrjar, því þú sér hvílíkan háska þú ert vidkomin, nær þú stendur vid Herrans bord, nema þú gjaldir varhuga vid. Drag þó ecki slíkt undan med tómlæti og ödrum umsvifum, því þú sem ert sannfærdur þar um í hjarta þínu, ad þú optliga hefir ónýtt þinn skírnar-sáttmála; þér mætti til hugar koma, sem fljótast og optast ad forlíka þig vid Gud í h. altarisins sakramenti. Þar fyrir, þótt eingin eigi svo ófródur ad koma í þennan h. stad, þá afsakar þad hann ecki, ad hann hefir ei verid sér út-um þeckíngu Guds boddorda og réttan skilníng á sínum sáluhjálpar efnum, því sá sem án lögmáls syndgar, hann mun án lögmáls tapast, segir Páll, Róm. 2. Í skírninni verdur oss uppá-lögd almennilig hlýdni Guds boddorda. Um hana erum vér skyldugir, þá vér drögumst á legg, og gétum lært ad kunna nockra grein ills og góds. Sé þér því fyrst umhugad, kristinn madur, hvört þú ert úngur edur gamall, ad þú gángir smásmugliga í-gégnum öll Guds boddord, med allri athygli, rannsaka hvad í þeim er bodid edur bannad, hvörjar dygdir í hvörju eru bodnar, og hvörjir lestir edur klækir þar eru bannadir. Nockud af þessu er ad sönnu gjört í þeim bókum, er hlýda til vors barna-lærdóms, jafnvel þótt eg óska vildi, ad þad væri nockud greiniligar brýnt fyrir ungdóminum og fáfródum, heldur enn almenniliga gjörist, svo þeir lærdu ad þeckja edli og háttalag kristiligra dygda, hvar af vanart og ó-edli glæpanna er audþeckt. Þeink og ecki ad vondar hugrenníngar séu ecki fordæmanligar syndir. Til hvörs segir Endurlausnarinn, Matth. 5: ad sá sem lítur eina konu til ad girnast hana, hann hafi alla-reidu drýgt hór med henni í sínu hjarta? hvarfyrir segir hann, sá sem reidist bródur sínum, sé ráds sekur? því sagdi hann vid Pharisæana: hvar fyrir hugid þér svo íllt í ydrum hjörtum? Matth. 9. Dragi einginn sjálfan sig á tálar; til þess er hinn alskygni Gud, hjartnanna og nírnanna rannsakari, Jer. 17, ad hann dæmir allt þvílíkt og fordæmir á oss, nema vér þess ydrumst af hjarta eins vel sem orda og verka; og hvad sem hann hefir bannad ad gjöra og tala, þad hefir hann og bannad ad hugsa. Og uppá þad ydranin kunni ad nockru leiti ad sambjóda stærd syndarinnar, þá athugum grandgjæfiliga mismun þeirra, eptir þeirra háttalagi og atburdum, tilgángi og ordsökum, er oss drégu þar til, en einginn kann ad játa edur ydrast réttiliga þeirrar syndar, er hann þeckir ecki stærd hennar og ílsku, og traudt kann madurinn ad láta af þeim glæp, sem hann ecki veit hvörja verkan hefir haft í sér, edur hvad sig hefir tildregid ad drýgja hann. Þar eru til óvitanligar syndir, sem ské annadhvört af því, ad menn vita ecki hvad gjörist, svo sem

Pál, er hann sagdist ei hafa vitad ad þad var hinn ypparsti kénnimadur, til hvørs hann taladi, Act. 23; edur módir þeirra Zebedei sona, er ei vissi hvørs hún beiddi, Matth. 20; þær reiknar Gud ecki endurfæddum manni til syndar, því eingin fordæmíng er á þeim, sem eru í Christó Jesú, Róm. 8. En þó med því móti, ad vanvitskan komi ecki af ásetníngi til ad syndga, svo menn vilji ecki læra Guds vilja til þess, ad ei þurfi eptir hønum ad lifa. Líkar þessum eru þær, er menn gjøra af rasandi rádi, af gleymsku, af brádrædi, svo sem þegar Pétur hjó eyrad af Malchús, Jóh. 18; þegar lærisveinarnir þráttudu um, hvør þeirra mestur væri, Mark. 9: þegar þeir vildu kalla eld af himni, Lúc. 9. Þessum syndum er hinn gódi Gud og svo nádugur, þótt þær í sjálfum sér stórar séu, hvar uppá allstadar dæmi eru; en oss byrjar grandgjæfiliga ad taka vara á lífernis-háttum vorum, og læra ad þeckja bresti vora, annars mun brádrædid og vangjætslan ecki afbata meir þess-háttar syndir, heldur enn vanvitskan hinar. Nú eru þó syndir, sem menn drýgja þvert á-móti samvitskunni, og ad henni naudugri, hafandi ad eingu Guds bod fyrir einhvørs tilgángs sakir; þvílíkar syndir kunna ad verda ad stórum syndum, þótt þær séu smáar í sjálfum sér, og þad sem ecki er synd í sjálfum sér, þad reiknast fyrir synd, nær menn ætla þad muni vera Gudi á-móti, en gjøra þad ei ad sídur, því hann dæmir eptir ásetníngìnum, og ecki eptir vitsmunum. Í selskap þessara synda var Arónis og Maríu, er þau møgludu í-gégn Gudi og Mósi, Núm. 12; Davíds, þegar hann tók húsfrú Uríæ Hetithers frillutaki, en sló bónda hennar í hel med sverdi Ammons barna, 2 Sam. 11. Þessar syndir verda ei afþvegnar nema med heitum ydrunar-tárum, því stór sár þurfa mikla grædslu; en hinn réttláti Gud er vandur ad virdíngu sinni, og lætur ei ad sér hæda, Gal. 6. Þess er og ad gjæta, br. m. ad þær syndir, sem oss ídugliga henda, þær reita hinn miskunsama Gud næsta mjøg til reidi, því þad mætti sýnast, ad menn med svoddan ógudligu athæfi gjørdu leik til þess ad styggja hann. Oss verda syndirnar med því fororði tilgéfnar, ad vér leggjum af vora ílsku-breytni. Látum af íllu og lærum gott ad gjøra, Esa. 1; því ef vér æfum þannin syndina, jafnvel þótt vér látumst ydrast hennar, þá mætti virdast, ad hin sídasta synd hefdi forbrotid fyrirgéfníngu allra hinna, en einginn veit hvørt hann fær tóm til ad ydrast hennar, edur hvørt Gud vill léna hønum ydran til apturhvarfs (sem Páll ad ordi kémst, 2 Tím. 2) er svo lengi hefir gjørt handverk af syndinni; þar fyrir byrjar øllum þeim er til Guds bords gánga ad athuga, ad þær syndir, er oss henda eptir þad, ad vér høfum lofad Gudi betrun lífernisins, þær eru þýngri og orka meiri hegníngar, enn hinar, er vér ádur gjørdum, þvíad í þessu sakramenti verdur skírnar-sáttmálinn endurnýjadur, sem ádur er sagt, og vér verdum ad nýu tryggrofar vid Gud, nema vér af fremsta megni leggjum allt kapp á ad halda vor særi. Vid þessum syndum er flestøllum nockud hætt, jafnvel þeim sem ecki eru lángt frá Guds vegi, og þær henda Guds-børn á-stundum; en um þá vil eg ecki tala, sem eru svo samdauna vordnir ránglætinu, ad þeir ecki þeckja syndina fyrir synd, þótt þeir viti ad Gud hafi bannad hana; þeir leidréttast ecki vid Guds straff og áløgur; þeir taka syndina í forsvar, og vilja réttlæta hana; reidast Guds kénnurum edur og gódum vinum sínum, þá þeir átaldir verda; þeir elska syndina ecki alleina á sjálfum sér, heldur og sam-

sinna þeim er hana gjøra, Róm. 1; það hendir Guðs-børn, að það góða, sem þau vilja gjøra, það gjøra þau ecki, Róm. 7; en þessir elska eckert gott og hafa gaman af illu, bædi hjá sjálfum sér og ødrum, lockandi adra til vondra verka, og eru í því svo sem nockurskonar umbodsmenn Fjandans, því það er hans embætti; þessa nefnir St. Páll, 1 Tím. 4, forbrendar samvitskur, og muni þeir verda íllar apturhvarfs, nema þeim sé í tíma grædslu leitað. Nú er einginn efi á því, að svoddan manneskjur finnast í Guðs kyrkju, fyrir því verd eg hér um að tala, því þá er guðleysið komið á hina efstu trøppu, og gétur varla hærra stígið, og einginn hlutur er þeim vísari enn eylíft helvítis-bál, nema þeir láti sig leidrétta af Guðs Anda. Og er það ecki nóg, kristinn madur, að þú lærir að þeckja syndina af yfirvegan Guðs bodorda, edur hennar háttalag, af því sem nú er sagt; þú átt þar að auki að rannsaka þitt eigið líferni, og gánga ítarliga í rétt við sjálfan þig. Það var ólucka vorra fyrstu foreldra, að þau lærdu að þeckja hið illa, Gén. 3; en Guð er svo hagur, að hann kann að gjøra góða hluti af vondum, og því kann þecking íllskunnar að gagna oss til sáluhjálpar, þó meir á sjálfum oss enn á ødrum. Það er ecki mannvant að þeckja hvað illt er í annars fari, en sá sem dæmir sjálfan sig, hann verdur ecki af Drottni dæmdur; það skédur, nær menn bera líferni sitt, ord, gjørdir og hugrenníngar saman við Guðs løgmál, en þar hlífist margur vid; sumir þess vegna, að þeir ætla, að þar muni ecki svo skarprar rannsóknar við þurfa; adrir hins, að þeir kvída við að ýfa hin fúnu sárin, því þau svída magnliga, nær þau rannsøkud eru med løgmálsins broddi, gjætandi ecki að því, að svoddan verkar þó eptir á fridsamligan ávøxt réttlætisins, Hebr. 12; færa menn því alla hluti sér til umbótar, ecki einasta fyrir ødrum, hvað ecki er svo að lá, heldur og fyrir sjálfum sér og dómi sinnar eigin samvitsku, svo að hann sem lángt er frá því að elska Guð umfram alla hluti, hann kallar sig vel hafa gjørt og aflokið þeirri skyldu, ef hann les bæn sína kvøld og morgna, edur sýngur hønum einn Sálm til dýrdar. Sá sem er gjarn á blót og svardaga, nefnir það hreysti-yrdi; hann sem afrækir Guðs hvíldardaga, nefnir það ástundan og idjusemi; ef menn formæla ecki fødur og módur, jafnvel þó þeir séu þeim óhlýdugir í øllu því sem þeir þora, og ef foreldrarnir klæda børnin og fæda, þó þau lídi að þau alist upp í øllu reidileysi, og jafnvel sumir í skømmum og ódygdum, þá þykjast menn hafa gjørt mikinn part skyldu sinnar; sá sem reidinn er og heiptrækur, hann kallar það hugprýdi; hinn lausláti vill láta óskickanliga umgengni heita mannúdleika og kurteysi; hinn ágjarni nefnir sig framsýnan og forsjálan; þegar menn ecki bera opinberliga falskan vitnisburd edur sverja lýgi uppá sinn náúnga, þykjast menn vera skildir við hið áttunda bodord, og kanské sumir hrædist þó meir dómaran enn Guð; en ecki eru menn svo ljúfir á það altíd að bera sannleikanum vitni, litla smá-skreytni edur svigurmæli um sinn náúnga, lausmælgi, rógburd á millum góðra vina, edur íllt umtal í høfdíngjanna eyru, það reikna menn sumir að eingu, en sumir að hversdags brestum, sem Guð muni audveldliga stíga framyfir, þótt menn ydrist þess ecki mjøg, edur æfi það að gamni sér, eptir það þeir hafi fengið fyrirgéfníng syndanna, athugandi ei það, að þvílíkt er næst til að fordæma syndarann, sem fyrir litla edur einga synd er haldið; því segir Lausnarinn: sá sem upplevsir eitt af þessum minstu bodordum, hann skal minstur kallast í himnaríki, Matth. 5, það er:

hann skal þar aldrei innkoma. Þannin byggja menn ódygdunum, Andskotans dætrum, heima-jørdina, sem er hjartad, af hvørju framkoma: vondar hugsanir, mannsløg, hórdómur, frillulífi, þjófnadur, falsvitni, gudlastanir, Matth. 15; en reka dygdirnar, edur réttara ad segja, mindir dygdanna í hjáleigurnar, sem eru læti vor og útvortis hegdan, til þess ad forsvara heimagardinn, og birtast hvør fyrir ødrum; en menn gjæta ecki ad því, ad hann sem augad hefir skapad, Ps. 94, hann sér hvad í myrkrunum er hulid, því skyldu menn þá vilja fegra sitt mál fyrir hønum? Því dylja menn sjúkdóminn fyrir læknaranum, því strjúka menn purpura-litnum yfir hin fúnu sárin? það heitir ad færa Krist í eina purpura-kápu, ad dylja fyrir hønum meinsemdir sínar, en ætlast þó til lækníngar af hønum, eins og þeir létu sem hann kouúngur væri, en héldu hann þó fyrir illrædis-mann. Guds Sonur má eingann hóru-farfa líða á sinni brúdi, ecki meir enn Gud vildi láta bera skjækju edur hunds-verd inn í sinn helgidóm, Deut. 23. Þar fyrir sé þad álygtan þessa míns máls, ad þegar þú, kristin sála, ætlar ad trúlofast þínum Brúdguma í h. altarisins sakramento, hvar þú átt ad verda einn andi med hønum, og limur hans líkhama, 1 Cor. 6, þá lát alla hræsni fjærri vera. Rannsaka þinn lifnad, sem ádur er sagt, ber eckert í bætifláka fyrir þér hjá hønum, sem veit hvad med manninum býr, Jóh. 2. Skygnst eptir hvad þér hefir framfarid á Guds vegi, sídan þú seinast lofadir þínum Frelsara trygdum, hvørt þú hefir tamid þitt illfúsa hold um nockurn løst, er á þig strídt hefir, og hvørja atburdi þú hast hefir til ad krosssesta hinn gamla manninn Róm. 6. Yfirvega, hvørsu stórHerra þad er, sem þú módgad hefir, ad hann hefir vald til ad kasta lífi og sálu í eylífan eld, Matth. 10; og þó er hann svo þolinmódur og gódgjarn, ad hann hefir sparad þig og látid allt eptir þér midt í syndunum, og kanské valla fengid eitt þacklætis-ord þar fyrir af munni þínum, hvørn þú hefir til alls annars brúkad; hugleid þeirra dæmi, sem ecki hafa meir syndgad en þú, hvørsu Gud hefir hegnt á þeim óvirdíngar sinnar; lát svo þína ílsku kénna þér, og þitt fráhvarf gjøra þig vitrann; þeck og hvørsu ílt og biturt þad er, ad þú hefir yfirgéfid Drottinn Gud þinn, Jer. 2, og þegar þú þannin gjørir, þá gétur þú varla farid á mis vid þad, ad hjarta þitt brádni í þér svo sem annad vax, af íhugan Guds nádar, af þeckíngu syndanna, af eptirbid helvítis písla, sem þér eru búnar, nema þú ydrist af hjarta; en vilji ecki hér med á-orkast, þá lát samt ecki af ad bidja Gud um sinn h. Anda, sá ed skapi hreint hjarta í þér, og géfi þér nýan vissan anda, Ps. 51, hvørs hann má þér ecki synja vegna sinna fyrirheita; því ef madurinn stód upp á náttar-þeli til ad fá vini sínum þad hann vidþurfti, Lúc. 11; ef hinn rángláti dómari, sem hvørki óttadist Gud né menn, ef hann lét skipast vid þrábeidni eckjunnar, Lúc. 18; ef vér, sem vondir erum, kunnum ad géfa børnum vorum gódar gáfur: hvad miklu framar mun vor himneski Fadir géfa þeim h. Anda, sem hann þar um bidja, Lúc. 11. Þetta stendur æfinliga stødugt, því hann er trúr, sjálfum sér kann hann ecki ad neita, 2 Tím. 2; þess heitara sem þetta ángur er, þess þægra er þad Gudi, allt fram til þess ad þú takir til ad efast um Guds nád, en vid því er ecki hætt, hann mun fljótur verda til ad láta trúna lifna, nær þú ert svo á þig kominn, og sýna þér krapt síns Sonar forþénustu, med øllum hans velgjørníngum, þá heitir þad svo: sælir eru þeir sem húngra og þyrsta eptir réttlætinu, því þeir

munn saddir verda, Matth. 5. Þar fyrir, Guds barn, þú hvørs hjarta hans Andi hefir sundurmarid med þeckíngu syndarinnar og Guds gjæsku, þú skalt þess fullvruggur vera, ad hvar sem ad syndin yfirgnæfir, þar yfirgnæfir nádin miklu framar, Róm. 5; fyrir því, nær þú stendur vid Drottins bord, raudur af óvirdíngu vegna þinna synda eins, og Ephraim, Jer. 31, þá lít trúarinnar augum á þad saklausa Guds Lamb, sem burt hefir borid heimsins syndir, Jóh. 1, hvørn Gud hefir þar fyrir sett til nádarstóls fyrir hans blód, Róm. 3; hann er forlíkun ecki einasta fyrir þeirra syndir, er lifdu á hans døgum, heldur allrar veraldarinnar syndir, 1 Jóh. 3; þar fyrir er hann og fyrir þínar, hvørsu mjøg sem þú ert hinum verstu lýtum hladinn, því harmþrúngin og sundurknosadan anda mun hann ecki fyrirlíta, Ps. 51; og til stadfestu þar=um, gefur hann þér í h. altarisins sacramento, þann sama líkhama, sem brotinn var fyrir þig, segir Páll hér í Textanum; þad skedi þegar þínar syndir, er hann bar uppá tréd, þegar þær mørdu hans allraheilagasta líkhama í=sundur á krossins gálga; þegar ógudligra manna hendur nidurbrutu þad musterid, er hann sjálfur uppbygdi aptur á þridja degi, Jóh. 2, þér til réttlætis. Hafi nú hin eylífa Gjæska sparad þig midt í þeim syndunum, sem krossfestu hann, því mun hann þá ecki nádugur vera, þar þú ert á veginum ad hverfa aptur frá þeim? En þótt ad ydranin og trúin séu fullnógar til ad ødlast kvittun syndanna hjá Gudi, þá kann þó hvørug þeirra ad standast fyrir utan nýa hlýdni, því nema svo sé, ad nockur hafi fastliga ásett ad sporna vid þeim glæpum, hvørra minníng ad hønum vard svo beisk í ydraninni, þá á þad heima hjá hønum, er Petur segir, 2 Pist. 2: ef ad þeir, eptir þad þeir hafa umflúid saurganir heimsins, fyrir þeckíngu Drottins vors Jesú Christí, flækjast í þeim aptur og verda sigradir, þá eru þeirra hin sídari kjør verri hinum fyrri, því betra hefdi þeim verid aldrei ad hafa þeckt veg réttlætisins, enn ad þecktum hønum, ad hverfa frá því helga bodordi, sem þeim er í hendur fengid; en þad hendir þá, sem segir í hinum sanna ordshætti, ad hundurinn gengur aptur til spýunnar, og þvegid svín veltir sér í hinum sama saur. Nú fyrir því ad hér er ecki vid ad dyljast, ad syndumspilt náttúra er eitt ótamid dýr, þá er rádligt ad taka til ad leggja vid hana beitslid, nockru ádur enn menn fara ad forlíka sig vid Gud í sakramentinu, nema menn hafi þad ádur gjørt lángvaranliga, sem þó mun sjaldfengid. Eingin vond tilhneigíng, sem ecki er ad nockru leiti deydd, má fylgja oss, kristnir menn, til þessa bords. Ef syndin lifir í oss, þá erum vér daudir í henni, en einginn gefur daudum manni ad eta. Þetta er andlig fæda, og því hlýtur sá andligu lífi ad lifa, er hana medtaka skal. Braudid og vínid medtaka allir og þar med Guds líkhama, en þar hjá er ønnur nautn, um hvørja Drottinn talar, Jóh. 6: sá sem etur mitt hold og dreckur mitt blód, hann skal ecki daudan smacka ad eylífu; hennar verda þeir einir hluttakandi, er sig hafa verdugliga tilreidt, hún skédur opt fyrir utan sakramentid, en þó á hún í sakramentinu helst ad ské; viljir þú hennar njótandi verda, þá sjá til ad þú framkomir skrýddur brúdkaups=klædi, Matth. 22; annars verdur ecki af trúlofuninni vid þann Fegursta medal mannanna sona, Ps. 45. Þad er ei nóg ad hafa um stundar=sakir úthreinsad hjartad med sóplimum ydrunarinnar, heldur byrjar strax ad safna í þad hinum bestu dygdum, svo ef hinn óhreini andi kann aptur ad hverfa med sjø ødrum sér verri, ad hann finni þad þá ecki tómt, og verdi svo þitt

sídara argara hinu fyrra, Lúc. 11. Veit eg ad þetta er einn torveldur hlutur, því þad er sú barátta milli holdsins og andans, er girnist hvørt í móti ødru, Gal. 5; en hvad skulu menn segja? þar sem eingin barátta er, þar er eingin sigurvinníng, þar fyrir, sá sem ætlar sér ad uppbyrja nýann lifnad, hann leggi mest kapp á ad brjóta þær girndir, sem hann er mest til-hneigdur. Þér er ecki ókunnugt, ef þú leggur nockurn hug á þitt mál, af hvørjum hlutum þú mest verdur lockadur til ad gjøra illt; varast þá hina sømu, þótt ei séu þeir vondir í sjálfum sér. Einginn hertogi strídir lengi einsaman, hvørsu vitur eda voldugur sem hann er, og svo eru lestirnir, ef þeir eru einir um sig, þá er hægra ad fyrirkoma þeim. Um fram alla hluti þá lát Gud sjá, ad þér sé alvara ad lifa vel, og þá er hans adstod vís, sem þér dregur þúsundsinnum meir enn allir þínir atburdir, því án mín megnid þér eckert, sagdi Jesús vid lærisveinana, Jóh. 15. Sá sem ecki hatar syndina, hann gengur óverdugur til Guds bords, en sá sem hana hatar, hann hefir alvarligan ásetníng til ad láta af henni, því einginn vill umgengni hafa med þeim, sem hann ad hatri hefir. Lát Gud finna þetta hjá þér, nær hann rannsakar hjarta þitt, og svík ei sjálfan þig; hann gétur þú ecki svikid. Eg veit þad er torveldt ad láta allt á-móti holdi og blódi; en hafir þú nockurn tíma af hjarta ydrast og fundid til Guds reidi og samvitskunnar veiki; hafi þínar syndir gjørt þér nockurn tíma helvíti heitt, þá rádgast um vid sjálfan þig, nær þú freistadur verdur af einhvørri girnd, hvørt þú eigir ad vinna þad til skammvinns munadar, ad þola strax á eptir slíka kvøl; mundi David hafa viljad leika sér ad sømu synd, eptir þad hann hafdi svo lengi tárast fyrir Gudi? mundi Petur ecki heldur hafa í daudan gengid, enn ad afneita Christó, heldur enn ad lída ad nýu átølur samvitsku sinnar, þegar hann géck út og grét beisкliga? Matth. 26. Ætla þér og ecki þad, ad láta eptir þér einn brest, en þjóna Gudi í hinu, því sá sem brýtur eitt bodordid, hann er í øllum sekur, segir Postulinn, Jak. 2. Eingin af þínum dygdum kann ad standast fyrir Guds réttlætis dómi, því munu þær þá réttlæta glæpina? snid því allt ógudligt athæfi burtu, svo mikid sem þú fær orkad, en þar sem þínir kraptar dvína, þá tekur Christí forþénusta vid. Meina og ecki þad sé nóg, ad þú nockra stund gángir á Guds vegi; því þeim sem er trúr allt til daudans, mun eg géfa kórónu lífsins, segir Drottinn í Opinberíngar-bókinni, 2 kap. og eg vil enn framar segja: ad þad vill heldur fordæma þig, enn réttlæta, ad þú hefir einhvørn-tíma Gudi þjónad, ef þú hverfur þar frá aptur, því þad er teikn til þess, ad Gud hefir lént þér svo mikla krapta, ad þú gétur gengid hinn rétta veg, sem til lífsins liggur, verdur svo skuldin hjá þér, en ecki hjá Gudi. Umfram alla hluti sjá til ad þú óttist hann og elskir, þá munt þú eingan sáttmála gjøra vid hans óvini, sem eru holdid, heimurinn og Djøfullinn, heldur munu allar kristiligar dygdir sjálfkrafa spretta í akri hjarta þíns, eins og kornid vex fyrir utan mannsins ómak, þá sædinu er í jørdina kastad; og þad er sá innasti og beinasti vegur til ad lifa gudrækiliga, og sá sem á honum er, fer aldrei villur vegar. Nú hefi eg einfaldliga sagt hid helsta er þeim byrjar ad hugleida, sem vilja verdugliga til Guds bords gánga, en eg hefi sagt þad børnum og fáfródum mønnum, hinar sem vísari eru og kunna Guds veg, þá nægir ad minna á Christí ord, er hann sagdi, Lúc. 2: sá þjón, er veit síns Herra vilja og gjørir hann ecki, hann mun mørgum høggum

sleginn verda. En þú sem fórnfærdur ert fyrir vorra synda skuld, Herra Jesú Christe! styrk þú oss bædi í þessu og øllu ødru verki sáluhjálpar vorrar. Bænheyr þad vor Frelsari; hvørjum med Fødur og h. Anda sé makt og veldi, lof, heidur og prís um aldir, amen!

# A Føstudaginn Lánga.

## Exordium.

Eingri skèpnu sinni hefir Guds gjæska meira veitt enn syndugum manni, og varla er þó nockur tregari til ad þeckja hans gjæsku. Þegar Adam hafdi eckert á-móti Gudi gjørt, og ecki af hønum þegid nema skøpunina, og svo vald yfir hinum ødrum skèpnum á jørdunni, þá er líkligt, ad einginn hlutur hafi hønum inndælli verid, enn ad lofa sinn Skapara, og gledja sig í undran hans dásemdarverka; en sídan Gud hønum meira veitti í fyrirgéfníngu syndanna, og fyrirheiti þess blessada Kvinnunnar=Sædis, Gén. 3, þá eru Adams nidjar bitnir frá þeim hlutum sem heyra til Guds dýrdar. Heilagir einglar, sem frammi fyrir hønum standa, hafa einasta hinn dýrdlíga skapnad og sælu=vist med Gudi af hans hendi þegid. Guds Sonur hefir Abrahams sædi en ecki þá uppá sig tekid, Hebr. 2; samt eru þeir þjónustusamir andar, Hebr. 1; en madurinn, hvørn Gud hefir skapad, skapadan endurleyst, endurleystan endurgétid, endurgétinn med Jesú holdi og blódi mettad og dryckjad, og upplýst med sínum óstgjøfum, hønum finst lítid þar til, og er næsta tómlátur í sinni Guds þjónustu. Einglar komu og þjónudu Christó í hans manndómi. Matth. 4; en hans fólk vildi ecki þjóna hønum; eingillinn bodadi hans gétnad; þeir prísudu hans fædíngu, Lúc. 1 og 2; eingillinn kom af himni og styrkti hann í kvølinni, Lúc. 21; en hans eigin gjørdu hans sálu hryggva allt í daudann; einglarnir bodudu hans upprisu hjá grøfinni; en hans fólk og prestarnir keyptu ljúgvotta til ad mótsegja henni. Matth. 28. Øll skèpnan mænir med útréttu høfdi eptir Guds barna auglýsíngu, segir Páll, Róm. 8, og hún stynur til samans, og er til samans svo sem í barnburdi. Fyrir vora skuld er jørdin bølvud; fyrir vora skuld má hún þyrna og þistla bera, Gén. 3; fyrir vora skuld er hún þrældóminum undirokud; enn í øllu þessu auglýsir hún þó dýrd síns Skapara, hvørn madurinn vanvirdir med óþacklæti og vondum verkum. Ef ad þessir þegdu, þá mundu steinarnir brádliga hrópa, sagdi Frelsarinn vid Gydínga, þá børnin súngu hósíanna Matth. 21. O, Herra Gud! høfdu steinarnir ordsøk til ad hrópa, þá Kristur innreid til Jerúsalem; hvad høfdu þeir ecki þegar hann var af Jerúsalem svo sem bølvan útrekinn? Ef daudir hlutir máttu vakna vid þá lífsins Herra kom til sinnar arfleifdar; hvad máttu þeir ecki þegar lífid dó á krossinum? Skyldu musterisins veggir hafa géfid hljód af sér, hefdu børnin þagad; hvad var þá øll verøldin ecki skyldug ad gjøra, þar allir løstudu, hæddu og brixludu, og á krossins gálga negldu hennar Skapara? Þetta hrópar øll náttúran fyrir óþackl átu og óguðligu mann-kyni á píslar=degi allrar veraldarinnar Lausnara, því sampíniſt hún sínum Skapara í hans pínu, svo sem ecki hefdi hún rænu á ad gjøra síns embættis-skyldu, þar manneskjan var svo affinna, ad hún aflífadi sinn Lífgjafara. Þessi náttúrunnar umbrot hefi eg ásett í dag fyrir ydrum kjærleika ad yfirvega; og viljum vér þar fyrir í þetta sinn hugleida þau sérligustu furduverk, sem ad skédu í pínu vors Endurlausnara, med þeim lærdómum sem vér oss til huggunar og áminníngar taka megum þar af. Styrk oss til þessa verks ó Gud, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Þar urdu myrkur yfir alla jørdina og sólin misti sína birtu, segir í Textanum. Hvørt þessi formyrkvan hafi einasta skéd í Gydíngalandi edur yfir allan heimin, vil eg í þetta sinn ecki fá mér til orda; vér viljum alleinasta færa oss í nyt þetta dásemdarverk, til gud-ræki ligrar umþenkíngar, vitandi ad þetta svo vel sem allir Guds gjørníngar eru skédir oss

il lærdóms. Hvörsu mátti hid blessada heimsins Ljós lýsa mönnunum, þar mannanna Endurlausnari var kvalinn, og þad skjæra Ljós, sem upplýsir alla menn, sem koma í þennan heim, Jóh. 1, tók undir ad gánga? Sól réttlætisins, Mal. 4, var sinni undirgaungu nærri, þar daudans skugga tók til ad slá yfir þau allra-helgustu augu, sem ad eru þúsundsinnum skjærari enn sólin, Sýr. 23; því var þess öll von, ad hin náttúrliga kammadist sín ad lýsa. Þegar menn sjá einn vidurstyggiligan hlut, sem allir blygdast vid augunum ad líta, þá snúa menn sér undan edur jafnvel byrgja fyrir augu sér. Sólina kalla spakir menn auga heimsins; hún hefir aldrei svo blygdunarlaust verk yfir-skinid sem þetta, ad gudlausir heidíngjar og hardsvíradir Gydíngar tóku Konúng dýrdarinnar af lífi; þar sjálft lífid var aflífad; þar daudans daudi mátti dauda deya, Ós. 13; þar dagurinn vard ad nóttu myrkranna verka; því byrgir náttúran fyrir augu sér, ad hún ei skyldi horfa á, ad náttúrunnar Herra væri þannin af dögum rádinn. Í mikilli sorg og harmkvælum plögudu Júdar ad byrgja sínar ásjánir; Davíd géck med huldu höfdi yfir um lækin Kedron, 2 Sam. 15; svo segir Micheas 3 kap: Sjáendurnir munu til skammar verda, og spásagnararnir blygdast, og þeir munu allir byrgja sínar ásjónur, því þar er ei andsvar frá Drottni. Hér byrgir himininn sitt andlit,og þolir þar ecki yfir, ad hann sem uppfyllir bædi himin og jörd, 1 Reg. 8; hann í hvörs augliti himnanna himnar ecki eru hreinir, Job. 15; já, hvörs hásæti ad himininn er, Esa. 66, hann skuli á sinni fótsköр einum madki og ecki manni líkur verda, Ps. 22. Formyrkvun sólarinnar ordsakast þar af, (eptir því sem hinir vísu segja) ad túnglid gengur á-milli sólarinnar og jardarinnar; þó skedi þad ecki í þessari formyrkvan, þar túnglid var í sinni fyllíngu, hvar fyrir hún var á-móti náttúrunni; því géfur þetta mér ordsök til ad þenkja þar-um, ad vorar daudligar illgjördir settu sig á-milli Christí manndóms í pínunni, og þess blída auglits Födursins, hvör ad er sól þeirrar himnesku Jerúsalem, Apóc.21, svo ad geislar hans födurligrar elsku nádu ecki ad skína í-gégnum þær; [illegible] elskuligasta Guds, og sú velþóknan, sem hann hefir í sínum eingétna Syni, Matth. 3, umhverfdist, ef svo mætti ad ordi komast, í hinn stóra byrdar-þúnga hans reidi, hvör ed kvaldi Jesú blessadan líkhama og sál allt til daudans. Sjá hér, kristinn madur, þann brennheita kjærleika lifanda Guds, sem hann hefir elskad þig med, þegar þú varst hans óvinur, Róm. 5. Er ecki þetta skéd til þess ad þínar syndir ecki adskilji þinn Gud og þig? Esa. 59; og þegar ad skuggi myrkranna verka og hinir fúlu dampar þinna illgjörda og bodorda-brota stíga upp í himinin fyrir hinn réttláta Dómara, ad Kristur med sinni forþénustu afmái þær þá svo sem annad ský, Esa. 44, og kasti þeim í hafsins djúp, svo þeirra ecki ad eylífu minst verdi, Mich. 7. Um þessa formyrkvan spáir Amos í 8 kap. á þennan hátt: á þeim tíma vil eg láta sólina undirgánga um middegi, og allt landid myrkt verda á deginum. Minn Herra Jesú! því mundi ecki þad blessada ljós veraldarinnar innibyrgja sinn ljóma, þar ljómi Födursins dýrdar, og ímind hans guddómligrar persónu tæmdi sjálfan sig, svo sem Páll ad ordi kémst, Phil. 2, og Guddómurinn (svo ad segja) huldi sitt auglit fyrir manndóminum, þegar Kristur leid? Því skyldi ecki landid myrkt verda, þegar lífsins tré, hvörs blöd ad þéna til heidíngjanna lækníngar, Apóc. 22, var af heidinna manna miskunarlausum höndum upprætt af landi lifandi manna? Eptir þad

mikla myrkur, sem skéđi forđum í Egyptalandi, Exód. 10, þá fylgdi Ísraels sona frelsun og útleiđsla af því þrældóms húsinu; en þessum myrkrum hefir fylgt eitt eylíft frelsi frá syndarinnar þrældómi; eptir myrkurin í Egyptalandi kom slátrun páskalambsins, Exód. 12; en í þessum myrkrum verđur þađ sanna páskalamb slátrađ á krossins altari, sem ber allar veraldarinnar syndir, Jóh. 1. Gyđíngar höfđu beđiđ Krist um teikn af himni, Lúc. 11; sjá hér er eitt teikn sem skéđ er í augum allrar veraldarinnar. Hvílíkur mun hann vera í dýrđinni, sem svo er kroptugur í pínunni? hvör mun hann vera lifandi, sem er svo voldugur deyandi? hvađ öflugur mun hann drottnandi, er svo drottnar yfir hinum miklu höfuđskepnum í mind eins þjóns líđandi? Í Exód. 10 kap. skipađi Drottinn Guđ Mósi ađ upprétta sína hönd til himins, ađ þar yrđi myrkur yfir allt landiđ, og þar varđ myrkur og þoka í Egyptalandi um þrjá daga, svo einn mađur sá ecki sinn bróđur, en öllum Ísraels sonum var ljóst í þeirra híbýlum; en sjáiđ, hér er meir enn Mósis, hér er Jesús sonur Guđs lifanda, hann útbreiđir báđar sínar hendur á=móti himnum á krossins tré; hér verđur myrkur yfir allt landiđ um þrjár stundir; en í þessu myrkri hefir öllum andligum Ísraels=sonum upprunniđ eitt skjært og sannarligt ljós, svo einn bróđir þarf ei öđrum ađ kénna, heldur verđa þeir allir af Guđi lærđir, Jer. 31, og allir þeir eđ á Jesúm Christum trúa, hvör eđ gaf sitt líf út fyrir sína bræđur, þeckja hvör annann fyrir systur og bræđur, og eru eitt innbyrđis, svo sem hann og Fađirinn eru eitt, Jóh. 17. O, Herra Guđ hvađ skal eg hér til segja? Eg vil brúka þađ sama orđa=tiltæki sem Jeremías í 2 kap., brúkar yfir syndum Ísraels=fólks, segjandi: himininn skyldi grúa þar yfir, hræđast og skélfast mikiliga. Hér sýnist mér ađ himininn og himnanna kraptar gjöri af alvöru þessa befalníng Drottins; en þú, kristinn mađur, sem ert hin veikasta bóla af flóđi þessarar veraldar, kémur þér ecki til hugar ađ byrgja þitt andlit, sem er fullt af óvirđíngu, þegar þú heyrir ađ sólin sem dagliga upprennur yfir þér ránglátum, Matth. 5, hún fortnar í þíns Skapara herfiligustu niđurlægíngu? Veitst þú ecki hvađ St. Páll segir, Eph. 5: þér vóruđ forđum myrkur, en nú eruđ þér ljós í Drottni, gángiđ svo sem ljóssins börn. Í þessum miklu myrkrum, sem þú heyrir í dag vera talađ um, hefir leóniđ af kyni Júda, Apóc. 5, myrkranna höfđíngja sigrađ og herleiđíngunna ađ herfángi tekiđ, Eph. 4, og þig, sem eylífliga áttir ađ kveljast í ystu myrkrum međ ópi og tannagnístran, þrifiđ út af þeirri gryfjunni, hvar eckert vatn var inni, Zach. 9. Páll skrifađi þessi orđ til þeirra í Ephesó, sem af heiđíngjum höfđu kristnir gjörst; þú ert og kristinn af heiđíngjum kominn, hvörjir af Guđi eckert vissu; seig mér! hefir þú aflagt verkin myrkranna, síđan þú heyrđir Jesúm á krossinn fyrir þig upphengdan? þegar þú les ađ þú skulir óttast og elska Guđ, en fremur þó án umþenkíngar þađ hönum vest líkar, sem er syndugt athæfi; eru ecki þađ myrkranna verk? þegar þú hugsar illt í þínu hjarta og fremur allar óđáđir undir skini meinleysisins og guđhræđslunnar, en veitst þó ađ hann sér hvađ í myrkrunum er huliđ, Sýr. 23; heitir þađ ecki ađ vilja blinda hann, sem augađ hefir skapađ? þá þú sér einn vesalíng nauđ líđa, sem eins mikiđ færđi inn í heiminn og þú, og allt eins mikiđ mun burtu bera, en þú byrgir þín augu fyrir hönum, og stíngur þau heldur út enn ađ þú skulir sjá aumur á hönum, er þá ecki ærið myrkt fyrir augum þér? þegar einum gengur í vil, og hans lucka er þér þó eingin afdráttur, en þitt

hjarta gremst yfir því, og þú ert rángeygdur af hans velgengni, munt þú þá fyrir myrkri þinnar øfundar géta ratad þann veg, sem Guds børn feta eiga inn til lífsins? þegar þú elskar þín eigin lýti, og bjálkin í þínu auga skyggir á alla þína klæki, en flísin í náúngans auga er þér ávalt fyrir sjónum, Matth. 7; er þad ecki svartnætti eigin-þóttans? þegar einhvør af mannligum veikleika gjørir edur talar þér nockud á-móti, en þú sést ecki fyrir, jafnvel ad voga þinni eigin velferd hønum til ólucku, mun þá ecki myrkur fólskunnar aptur-byrgja þín augu, svo þau gái ecki ad, ad skamma stund verdi hønd høggi fegin? þegar Satan hefir þig uppá eitt ofurhátt fjall, og sýnir þér øll ríki veraldarinnar og þeirra dýrd, Matth. 4, en þú veitst upp yfir þér stendur Drottinn Gud þinn, sem þú alleina átt ad tilbidja, munu þá ecki renna á þig tvær grímur, hvørjum heldur þú eigir ad þéna Gudi edur mammon? ecki munu þeir allir vera, sem med gódri samvitsku hrósa kunni, ad ecki hafi vordid myrkt fyrir augum sér í þvílíku tilfelli. Þegar dæma á milli bródur og bródur, á-millum blóds og blóds, en hinn voldugi ber fé í dóminn, eda óttinn kvelur, eda vináttan kitlar þá hønd, sem á sverdinu heldur: mun þá ei Andskotinn setja brillur uppá réttarans nasir, svo hann ecki fái rammad þann høggstad, sem hann ætti. Vildum vér nú renna vorum augum frá gjálífi veraldar þessarar um stundar-sakir, og bera þessi verk saman vid ljós Guds heil. orda, þá þykir mér ecki ólíkligt ad andlit vorrar samvitsku mundi rodna fyrir Gudi. Med hvørjum augum skal eg líta þinn bródur Jóab, sagdi Abner fordum daga, þegar Hasael rann eptir hønum í bardaganum, ef ad eg slæ þig í hel? 2 Sam. 2; en hvørju viljum vér Gudi eylífum konúngi og alleina ríkum svara, þar vér høfum hans Son krossfestan? og fyrir vor myrkra-verk er makt myrkranna yfir hann kominn; munum vér þora heldur enn tollheimtumadurinn, Lúc. 18, ad lypta augum vorum upp til himins? munum vér djarfari verda enn vor fadir Adam, sá er faldi sig fyrir Gudi, og þordi ecki ad líta hans auglit? Gén. 3. Þar fyrir, kristinn madur, kannast þar vid, ad þér ber blygdun þíns andlitis, en hønum ber dýrdin og heidurinn, Dan. 9. Í annann máta segir píslar-sagan, ad fortjaldid í musterinu hafi í sundurrifnad frá ofanverdu, allt nidur í gégn. Von var ad þad musterid, sem var med høndum gjørt, mundi ei standast þá ógn, ad hid dýrdliga musteri hans líkhama var nidurbrotid, Jóh. 2. Þetta fortjald adskildi þad allra-heilagasta frá sjálfu musterinu, hvar inni var á døgum Salómonis sáttmáls-ørkin, nádar-stóllinn og vøndur Arónis, sem vóru skuggi eptirkomandi gjæda, Hebr. 9. Því sundurrifnar fortjaldid, ad skugginn yrdi burttekinn, þar vér høfum sjálfa hlutina; ørk sáttmálans milli Guds og manna var uppfest á krossins tré; Jesús sem er einn nádar-stóll í sínu blódi, Róm. 3, var hér øllum géfinn; kvisturinn af rót Jesse var blómgadur, Esa. 11; lífsins braud var af himnum ofankomid og øllum frambodid, svo ad hvør sem æti þar af, skyldi ei daudan smacka ad eylífu, Jóh. 6. Inn fyrir fortjaldid í þad allra-helgasta mátti ei gánga nema hinn ædsti kénnimann eitt sinn á ári, en þad rifnar hér í sundur, til ad audsýna þar med, ad hinn ædsti Biskup vorra sálna, er fyrir sitt eigid blód einusinni inngenginn í þad allra-helgasta, ad útvegadri eylífri endurlausn, Hebr. 9; þar fyrir er oss nú þad allra-helgasta opnad, sem er í himninum, svo vér høfum frían tilgáng til þess

himneska nádar-stóls, af hvörs fyllíngu vér höfum allir medtekid nád fyrir nád, Jóh. 1. Ei mátti almúgi manna inngánga fyrir fortjaldid í musterinu, Levít 16; en hér er þad sundur-rifid fyrir hans dauda, sem hefir fullnægt lögmálinu og lidid fyrir þad, sem vér med vorum syndum höfdum forskuldad, svo ad hvör einn rétt-trúadur er Guds kénnimadur í sínu hjarta, Apóc. 1, sem er hans musteri; hann hefir fortjaldid í sundur-rifid, og þarmed í burtu-tekid þann vegginn, sem milli var, og gjört eitt af bádum, Eph. 2, svo þar yrdi eitt sauda-hús og einn hirdir, Jóh. 10, og ei væri framar karl edur kona, þræll né frelsíngi, Gydíngur né Grískur, heldur allir eitt í Christó Jesú, Gal. 3. Kénnimanna-höfdínginn hafdi ádur rifid sín klædi á-móti Guds bodi, er hann kéndi Frelsaranum gudlöstun; en Gud allsherjar, uppá þad hann audsýndi, ad hann og hans selskapur væru sekir í þeirri óhæfu, hann lætur fortjaldid sundur-rifna. Þessi atburdur ætti nú ad kénna oss, mínir elskanligir, ad sundur-rífa ecki vor klædi, heldur hjörtu vor med heitri ydran, Jóel 2. Gjæt ad syndug manneskja, hvad óvidurkvæmiligt þad er, ad þinn Lausnari hángir á hinum smánarligasta krossins gálga; hans hörund er sundurslitid af höggunum, sundur-rifid af þyrni-broddum, sundur-stúngid af nöglunum, sundurflakandi af sárum og benjum, og lokssins sundurkramid, sundurkreist og sundurmarid af Guds eldligum reidi-svipum og óbæriligum þúnga þinna synda, sem hann hefir borid, og hegníngarinnar, sem á hönum lá, uppá þad þú hefdir fridinn, Esa. 53. Þegar þú vilt þetta fyrir þér virda, þá mætti þér undir eins til hugar koma, ad draga þá skýluna frá augum sálar þinnar, sem þar lengi hefir fyrirhángid, og glepur svo fyrir þínum innra manni, ad þú þeckir hvörki Gud né sjálfan þig; vilt þú vera Guds andligur kénnimadur í þínu hjarta, sem ad er hans musteri, þá byrjar þér ad athuga í hvada herbergi hann vill búa, sem er í einu sundurknosudu hjarta, Esa. 57. Fórnir gamla Testamentisins eru ad sönnu fyrir Jesú dýrmætu fórn á krossins altari afmádar og ad eingu gjördar, en þar fyrir skalt þú ecki meina ad þú eigir einga skuld Gudi ad gjalda. En hvílíkt er þad offrid, sem hönum þóknast? Þar segir Davíd frá í Ps. 40: blód uxanna og hafranna þóknast þér ecki, en harmþrúnginn og sundurknosadan anda munt þú ecki fyrirlíta, Ps. 51. Í þridja máta segja Gudspjallamennirnir, ad jördin hafi skolfid. Hvad hrædiligur hefir jardskjálfti þessi verid, börn mín! þar ecki einasta fjallid Golgatha, á hvörju ad stód Drottins kross, heldur öll veröldin hefir leikid á reidiskjálfi. Plinius, einn heidinn madur, segir frá, ad á valdstjórnar dögum Tiberii keisara, um þetta skeid, hafi 14 stadir í Gricklandi og í þeirri minni Asía í grunn nidur-fallid, hvörra nöfn Cornelius Tacitus í annari bók sinna annála öll upptelur. Hefir nú þessi skélfiligi jardskjálfti verid eitt teikn Guds almáttugs heiptar-reidi, þar hans eingétinn Sonur, í hvörjum hönum alleina velþóknast, Matth. 3, er fyrir annarligar syndir af hinum synduguſtu svo hardliga útleikinn? þad géfur Messías til vitundar í Ps. 18, med þessari harma-klögun: daudans ángist hefir umkríngt mig, og Belíals beckir hafa ógnad mér; eg kalladi til Drottins, og jördin titradi og skalf, og grundvöllur fjallanna hrærdist og umturnadist, því hann vard reidur. Ó, minn Herra Gud! hvad stór er þín þolinmædi yfir syndinni og ógudligu mannanna athæfi? Hér géck svo mikil ógnan á, ad jördin gat ecki stadist undir þeim þúnga, þá hennar Skapari leid; náttúran

tók ad glidna í-sundur, því þær hendurnar vóru á krossinn negldar, sem vega hennar þúngà med einum fíngri og innilykja sjáfar-hafid í sínum hnefa, Esa. 45; hann ber alla hluti med ordi síns kraptar, Ebr. 1; því skyldu þá ecki allir hlutir sundurbresta, þá hann sem hefir ord eylífs lífs, Jóh. 6, mátti deya? Þegar lögmálid var forðum útgéfid, þá skalf jördin og fjöllin bifudust og titrudu eins og eitt strá, Exod. 19; en sjá! hér liggur öll lögmálsins bölvan á þeim, sem lögmálid hafdi útgéfid, en hafdi þó í allan máta uppfylt lögmálid. Því skélfur jördin af ógnan, ad sú handskriftin, sem móti oss var, er borin uppá tréd og á krossinn negld, Cól. 2; en Evangelíum, sem er kraptur Guds til sáluhjálpar, öllum þeim, sem trúa, Róm. 1, er hér undirskrifad med hans blódi, sem vordinn er bölvan fyrir oss, Gal. 3. Córe, Datan og Abíram mögludu móti Gudi, þar fyrir urdu þeir lifandi í jördina nidur ad fara, Núm. 16; en meiri mótmæli hefir þú hér þolad, minn Herra Jesú! því er ei ad furda, þó jördin opni sig og bjódi sig til ad svelgja þá ógudligu skálka, sem þad saklausa Guds lamb höfdu á krossinn neglt; en hér sjáum vér ad þitt blód er forlíkun fyrir allar veraldarinnar syndir; ad þínum kvölurum hefir þirmt verid fyrir þína bæn í þinni bitru pínu, Lúc. 23; en náttúran má sampínast sínum Gudi. Þeir höfdu hrópad til forna: krossfestú hann, krossfestú hann! en hér opnar jördin sinn munn til ad kunngjöra þitt sakleysi og áklaga Syndínga. Þegar Adam neytti þess forbodna ávaxtar jardarinnar, þá var jördunni bölvad, Gén. 3; en sú bölvan linadist fyrir þess fyrirheitna Sædis skuld. Nú má sýnast ad jördin, þar hinn annar Adam, sem er Drottinn af himni, var píndur á henni, ad hún kvídi vid ad henni verdi ad nýu bölvad med eylífri bölvan. O, Herra himneski Fadir! Fadir allrar nádar og miskunsemi! vér megum játa þad um oss, sem Jeremías segir í 5 kap.: ad vér höfum hardar ásjónur svo sem einn steinn, og viljum ecki umvenda oss; vor hjörtu eru hardari enn klettur, þar björgin í-sundur klofna og jördin skélfur, en oss kémur ei til hugar ad láta oss ógna þær syndir, sem hafa þinn Son krossfestan. Grafir framlidinna lukust upp; en vér erum svo daudir í syndunum, og svo djúpt nidur grafnir í ránglætid, ad vér fáum ei risid upp úr hinni fúlu gröf holds og blóds á-móti vorum Herra. Af þíns eingétins Sonar sídu, sem er hella vors hjálprædis, útrennur blód og vatn, Jóh. 19; en af vorum augum gétur ei stockid eitt ydranar-tár. Jördin skalf og björgin í-sundur klofnudu á pínu-degi vors Herra. O, hvad mega vor hjörtu vera steinum hardari, þar minníng Drottins dauda, er vér höldum á þessum degi, kann þau ecki ad mýkja til ydranar og apturhvarfs frá ógudligu athæfi! O, hvad stór munur er þó á-millum Guds og manna, ad hans hjarta brestur yfir einum ydrandi syndara, svo hann hlýtur honum miskunsamur ad vera! Jer. 31; en syndarans hjarta er svo óbifanligt, ad Jesú dýrmæta blód, fyrir hvörju öll veröldin lék á reidiskjálfi, þad fær ecki orkad því, ad madurinn gráti sína synd fyrir Gudi! O, þú almáttugi Gud! sem alla hluti kant framar ad gjöra, enn vér kunnum ad hugsa edur mæla, Eph. 3, umskér þú vor eyru og hjörtu med sverdi þinna h. orda, svo ad þau megi finna til synda sinna og Christí bitru kvalar; lát oss medan nádartíminn enn-nú yfirstendur þenkja þar til, ad hann mun aptur koma í skýum himins, med makt og miklu veldi; eldurinn mun brenna fyrir hans augliti, í hvörjum himnarnir munu forgánga med stór-brestum, og höfudsképnurnar af

hita brádna, ádur enn allt þetta skér, 2 Pet. 3. O, Herra Gud! géf oss þá ad vér upphefjum vor høfud, svo ad vér þeckjum vorn vitjunar-tíma, svo vér lærum ad fela oss í bjargskorunum, sem eru blessadar undir þíns eingétins Sonar, og þar í dyljast medan reidin fram hjá gengur, Esa. 26, svo ad vér á þeirri vondu tíd mættum fráskildir þeim ógudligu, er Jesúm ad nýu krossfesta og fót-troda hans blód, Hebr. 10, þvo vorn skrúda í Lambsins blódi, Apóc. 7, og lát oss med því dýrdliga skarti inngánga í hans brúdkaup og þá himnesku Jerúsalem, til ad lofa þig eylífliga, þú háleita Guddómsins þrenníng! Þad veiti oss Gud Fadir, Sonur og h. Andi fyrir Christí blessada forþénustu, amen!

# A Páska-daginn.

Gudspjallid, Marc. 16 Kap.

Og þá ed þvott-dagurinn var umlidinn, keyptu þær María Magdalena, og María Jacóbi og Salóme, dýrdlig smyrsl, ad þær kjæmi og smyrdi Jesúm. Og mjøg snemma morguns, einn þvott-daganna, komu þær til grafarinnar um sólar-uppruna, og þær sagdu sín á-milli: hvør mun velta fyrir oss steininum af grafar-munnanum? og sem þær litu þángad, sáu þær ad steinninn var afveltur; en hann var ad sønnu næsta mikill. Og þær gengu inn í grøfina, og sáu eitt úngmenni sitja til hægri hlidar, skrýddan sídu-klædi hvítu, og þær urdu óttaslegnar. En hann sagdi til þeirra: eigi skulud þér hrædast; þér leitid ad hinum krossfesta Jesú af Nazareth, hann er upprisinn, og er ecki hér. Sjáid þann stad, hvar þeir løgdu hann; heldur farid þér burt og segid hans Lærisveinum og Petri, ad hann muni gánga fyrir ydur í Galíleam; þar munud þér sjá hann, svo sem hann sagdi ydur.

## Exordium.

Sá steinn, sem uppbyggjendur hafa burtu kastad, hann er vordinn ad høfdi hyrníngar; af Drottni er þessi og er undarligur fyrir mønnum; á þessum degi hefir Drottinn þad gjørt; føgnum og verum gladir á hønum, segir David konúngur, Ps. 118. Ad þetta kvædi sé ordt um mannkynsins Frelsara, vottar sjálfur hann, Matth. 21, er hann þýdir þennan spádóm uppá sig, hvør og svo í hans dauda og upprisu ad øllu leiti framkominn er. Hvørnin þeir hafi hønum burtkastad, þad høfum vér heyrt á umlidnum føstu-tíma. En hefdi Drottinn ad eins vort auma hold og blód uppá sig tekid, og dáid í því sama fyrir allar veraldarinnar syndir, þá hefdi hann ad sønnu ad fullu lokid þá skuld, er vér áttum Gudi ad gjalda; þar fyrir sagdi hann undir sitt andlát, hángandi á krossinum, ad þad fullkomnad væri, Jóh. 19; en ecki várum vér vissir í því, ad hann hefdi goldid fyrir oss hinn sídarsta penníng, nema hann hefdi af fjøtrum daudans leystur verid, og þad sama kunngjøra látid, og sjálfur sig opinberad; og því kalla eg þad rétt sagt, ad Jesús Christus sé ad høfdi hyrníngar vordinn í sinni dýrdligu upprisu. Á þessum degi hefir Drottinn þad gjørt, segir skáldid, føgnum því og verum gladir á hønum; eckert hefir oss þvílíkt til kjæti borid, Guds børn, og eingin sól hefir oss fegri upprunnid enn þessi. Adra daga gjørir hin náttúrliga sólin med sinni upprás, en

þennan, sól réttlætisins sjálf, er hina skapad hefir. Þegar sólin upprennur, formyrkvar hún hin ønnur himintunglin med nálægd sinnar birtu; en þegar hin blessada Sól réttlætisins undirgéck í hinu bitra dauda-strídi, þá gjørdi hún hina myrkva, þegar hún hvad fegurst skein; svo mikid vald hafdi hann bædi á himni og jørdu midt í daudanum, hvad mikla birti mun hún þá bera í allra rétt-trúadra hjørtum í sinni upprisu? Þessi hin fagra sól rann oss upp fyrst allra í hans gétnadi; en strax eptir hans fædíngu dróu brádliga fyrir hana ský vors auma holds veikleika, og sídan daudans, er hann þó ecki forþénad hafdi. Enn á þessum degi er hún svo eitt sinn uprunnin, ad hún mun framar aldrei undirgánga, því Kristur, upprisinn af daudum, deyr ecki meir, og daudinn ríkir ei framar yfir hønum, segir Páll, Róm. 6. Þeir slátrudu hønum svo sem lambi, en hann reis upp aptur svo sem úngt león. Jóhannes Baptista kallar hann þad saklausa Guds Lamb, sem í burtu-ber veraldarinnar syndir í hans nidurlægíngu, Jóh. 1. Jóhannes Evángelista nefnir hann þad leónid af kyni Júda, sem sigurinn unnid hafi, Apóc. 5, í sinni upprisu. Føgnum því og gladir verum, kristnir menn, syngjandi og spilandi Drottni í hjørtum vorum. Guds heilagir Einglar, þeir himnesku andar, hvørjum Guds Sonur eckert hafdi útvegad med sínum dauda, þeir fagna sínum Herra í hans upprisu, Jóh. 20; því skyldum þá ecki vér allshugar-fegnir verda, syndugir ormar, sem vorum daudans menn, hefdi ecki Drottinn upprisid oss til réttlætis. Christí postular trúdu ecki upprisu Drottins fyrir fagnadar sakir, Lúc. 24. Þessi brádi føgnudur var meiri enn svo, ad hann leyfdi þeim ad grunda, hvad sannast væri, í fljótu bragdi; en vér sem trúum fyrir þeirra vitnisburd, látum oss þeim samfagna og glada vera; þad býdur oss Guds heiløg módir og hennar selskapur; þad bjóda oss einglar Drottins; þad bjóda oss hans postular; þad bjóda oss himin og jørd; þad býdur oss sjálfur hann, í hvørs nafni vér sigrinum hrósum, segjandi til sinnar kristni. Vaknid upp og syngid þér sem í duptinu liggid, þegar þér hafid nidurslegid hina andvønu til jardar, Esa. 26. Og uppá þad, brædur mínir, ad vér mættum þad þess betur framkvæma, viljum vér af þessa hátídar-dags Evangelió nockud gjør yfirvega: upprisu Drottins med þeim ávøxtum og áminníngum sem þar af rísa. Í þessu eyrindi hjálpi oss gódur Gud, fyrir forþénustu síns eingétins Sonar, med nád heilags Anda, amen!

## Utleggíngin.

Þackir og lof sé eylífum Gudi fyrir þá nád, ad Jesú dýrdarfullu upprisu þarf ecki med vitnum ad stadfesta, nú sem stendur, því þar er einginn á-medal kristinna manna, sem þad ecki játi; en á hinum fyrstu døgum kristninnar løgdu Guds heilagir menn ecki svo mikid kapp á nockurn hlut sem þennan, og því sagdi Petur fordum daga, Act. 1: þad byrjar ad einn af þeim mønnum, sem med oss verid hafa alla þá tíd, er Drottinn Jesús géck inn og út á-medal vor, byrjandi á skírn Jóhannis, allt til þess dags, er hann var frá oss uppnuminn, ad einn af þeim verdi vottur hans upprisu medur oss; og enn framar, þá ed Petur taldi um fyrir Júdum, hvørjir Jesúm krossfestan høfdu: þér afneitudud hinum Heilaga og Réttláta, en beiddust eptir ad ydur yrdi mordínginn géfinn, en Høfund lífsins deyddud þér, hvørn Gud hefir uppvakid af daudum, hvørs vér allir vottar erum, Act. 3; og um alla postulana til samans ber Lúcas vitni segjandi, Act. 4: og med miklum krapti vitnudu postularnir um upprisu Drottins vors Jesú Christí. Þetta er ecki af mønnum skéd, br. m. heldur af Gudi, svo ad hans sannleiki stadfestur yrdi á-medal þeirra til miskunar þeim og syndalausnar. Svo segir Petur aptur, Act. 10: þennan uppvakti Gud á þridja degi, og gjørdi þad bert ecki øllu fólki, heldur fyrir vottum þeim, sem af Gudi tilskickadir vóru, oss sem ad átum og druckum med hønum. Og uppá þad ad Christí lærisveinar ei kynnu ad fara vilt í þessu, þá hefir hann í heila 40 daga umgengist med þeim hér á jørdunni, ádur enn hann til himna sté, Act. 1, og sýnt þeim klárliga, ecki einasta ad hann upprisinn

væri, heldur med sama líkhama, og þó forklárudum, med mannligum líkhama, og þó dýrdligum, med þeim líkhama sem á krossinum héck, og í grøfina var nidur lagdur, og þó er voldugliga upprisinn, ad luktri grøfinni og steininum óafveltum; ad hann hafdi náttúrligan manns líkhama vottar hann, Lúc. 24: sjáid og þreifid á, því andi hefir ecki hold né bein, sem þér sjáid mig hafa; ad þad væri sá sami líkhami, auglýsir hann nockru sídar í þessum kap. Lúcæ, segjandi: sjáid mínar hendur og fætur, ad eg em þad sjálfur. Hann taladi vid þá, hann braut braudid, hann át og drack med þeim, eins og til forna, hann lét þá þreifa á því sama holdi, og sýndi þeim þær sømu hendur, sem á krossinn negldar vóru, og þá sídu, er med lensunni var í-gégnum stúngin, þar hann þó í sama sinn inngéck til þeirra ad luktum dyrum, svo sem annar andi, ad þeir sjá mættu, ad þad væri hinn sami líkhami sem leid, og þó dýrd óvenjuligri prýddur; já, til þess ad eckert vantadi þeim til trúarstyrkíngar, tók hann til á Móse og øllum spámønnunum, og lagdi út fyrir þeim allar ritníngar, sem af hønum vóru, leidandi þeim fyrir sjónir, ad Christó byrjadi þetta ad líða, og inngánga svo í sína dýrd, svo ad þeirra hjarta brann í þeim, er hann taladi vid þá á veginum, Lúc. 24; en svo ad þeir mættu fyrir víst vita, ad hann bædi Gud og madur væri, og ad manndómurinn væri ecki í daudanum vid Guddóminn skilinn, ítrekadi hann eitt af þeim kraptaverkum, er hann ádur gjørt hafdi, og upp er teiknad hjá Jóh. 21, þegar hann kom til þeirra, er þeir vóru ad fiskiveidum, og høfdu um nóttina einkis aflad, en hann baud þeim ad varpa út netinu til hægri handar, hvad svo tókst, ad þeir gátu þau valla innibyrgt fyrir mergd fiskanna, er í vóru komnir. Nú, þar ed einglarnir hafa Drottins upprisu bodad, heilagar kvinnur þeim trúad, postularnir hafa hann séd, á hønum þreifad, og vid hann talad, Jesús sjálfur sig opinberad, og útlagt ritníngarnar, þær sem af hønum vóru, og í hvørjum hans upprisa spád var og fyrirmindud, og Guds heilagir menn hafa þúsundum saman látid sitt líf uppá þennan sannleika: þá er hann vissari, og á fastari røkum bygdur, enn ad hønum mótsegja megi. En hvørjar munu ordsakir þær, br. m. hvar fyrir ad svo vandliga er búid um þetta dýrmæta efni? ein er sú, ad Guds Sonur í hans upprisu hrósadi sigri yfir dauda og Djøfli, og auglýsti oss syndugum mønnum, vegna hvørra hann þennan dýra sigur unnid hefir, ad hann væri daudans daudi, og helvítis ólifjan, Os. 13, herleidíngin væri ad herfángi tekin, en hann undir eins hefdi fridad fyrir oss hjá Gudi og Fødur. Þessi er hin helsta nytsemi upprisu Drottins. Hina adra segir oss Páll, Róm. 6, med þessum ordum: vér erum jardadir med hønum fyrir skírnina til daudans, ad líka svo sem Kristur er uppvakinn frá daudum fyrir dýrd Fødursins, svo eigum vér ad gánga í endurnýúng lífdaganna. Þar til er Kristur dáinn, ad í oss megi fyrir hans dauda deyddur verda hinn gamli madurinn, þad er uppruna-syndin; ecki ad hún øldúngis út af deyi, heldur deyr hennar illsku-kraptur; ecki ad hún burttekin verdi, heldur hennar sekt fyrirgéfin; ecki ad madurinn í endurgétníngunni heilagur verdi, heldur medtekur hann heilagan Anda, fyrir hvørn hann framvegis dempad gétur holdsins girndir; ecki réttlátur í sjálfum sér, heldur fyrir Christí réttlæti, fyrir hvørt hønum veitist sá andakraptur, ad hann gétur upprisid med Christó, og gengid í endurnýúngu lífdaganna; því segir Páll framvegis: vitandi þad ad vor gamli madur er undir eins krossfestur, svo

ad afmáist líkhami syndarinnar, ad ecki þjónum vér syndinni framar, Róm. 6; ecki segir Páll ad vér syndlausir séum, því þess er ecki ad vænta af holdinu undir syndina seldu, heldur segir hann ad vér ecki þjónum syndinni, þad er, látum hana ecki drottna í vorum daudligum líkhama, ad vér hlýdum henni í hennar girndum, svo sem hann ad ordi kémst í sama kap.; þessi er hans meiníng í ordunum, er vér strax heyrdum, því hann svarar því sem hann øndverdliga í kap. þeim sjøtta framsetur á þennan hátt: skulum vér þá í syndunum dvelja, svo ad nádin yfirgnæfi? fjærri sé því! Tveggja Guds velgjørnínga gétur og St. Páll í greindum ordum: endurgétníngarinnar og endurnýúngarinnar. Vér erum jardadir med Christó fyrir skírnina til daudans, þad er endurgétníngin; svo eigum vér ad gánga í endurnýúngu lífdaganna, þad er endurnýúngin; hin fyrri skédur í einu augnabliki í heilagri vatnslaug; hin sídari á ad framkoma um alla æfi vora, og fara dag-vaxandi, svo ad smámsaman afmáist líkhami syndarinnar, og svo sem vér í kristiligum frædum lesum: ad sá gamli madurinn, þad er uppruna-syndin, dagliga dreckist og deydist, fyrir ydran og yfirbót, en framkomi og upp aptur rísi einn nýr madur, sá ed lifi í heilagleika og réttlæti fyrir Gudi æfinliga. Hin fyrri er alleina Guds verk í oss, svo sem Páll segir, Tít. 3: ecki af réttlætis verkunum, sem vér gjørdum, heldur af miskun sinni hefir hann oss hólpna gjört fyrir endurgétníngar-laugina; hin sídari stendur ad nockru leiti í voru valdi. Þad vottar St. Páll, Eph. 4: endurnýist í anda ydvars hugskots, og íklædist einum nýum manni, sem eptir Gudi skapadur er, í heilagleika og réttlæti. Hvørttveggja kallast umskurn hjartans í gamla Testamentinu; endurgétníngin, Devt. 30: Gud mun umskéra þitt hjarta. Endurnýúngin, Jer. 4: umskérid ydur fyrir Drottni, og burttakid yfirhúd ydar hugskots, þér menn Júda og Jerúsalems-borgarar, ad ecki frambruni mín grimd svo sem annar eldur, þann einginn sløkt fái, søkum ílsku ydar athafna. Hér kunnum vér nú ad sjá skyldu vora, br. m., og hve mikill háski oss búinn er, nema vér gjøldum varhuga vid, og rísum upp med Christó Drottni vórum, í hvørs dauda vér skírdir erum, Róm. 6, og fyrir hvørn vér høfum barna réttinn medtekid, Gal. 4. Ef þér erud upprisnir med Christó, þá leitid þess sem þar uppi er, hvar Kristur er sitjandi á hægri hønd Gudi. Hugsid um þad sem þar uppi er, og ecki þad sem er á jørdunni, segir Páll, Col. 3. O, hvílík er fásinna daudligra manna! þar vér vordnir erum borgar-menn heilagra, og Guds heimilismenn, Eph. 2. Þad menn søckva sér nidur í leirveltu og endemi heims þessa, sem þó mun fyrirfarast med øllu því, sem í hønum er, en yfirgéfa síns ødur heimkynni. Gjætum þess, ad vér erum í skírninni vordnir kvistir á hinu andliga vín-tré, Drottni Jesú Christó, til ad bera mikin ávøxt, en hvørn þann kvist, sem ecki ávøxt ber, mun víngards-madurinn, sem er hans fadir, afhøggva og í eldi brenna, Jóh. 15. O, hvad herfilig ern þau umskipti, af einum himneskum vín-vid, ad gjørast helvítis eldibrandur, af Christí þénara, Satans þræll, af Guds óska-barni, reidinnar barn, og þad fyrir stundligt eptirlæti syndarinnar, hvørrar verdlaun eru í þeim pitti, sem rýkur af eldi og brennusteini! Apóc. 21. En framar segir Páll, Col. 2: þér erud greftradir med Christó í skírninni, í hvørri þér og uppvaktir erud fyrir kraptrúarinnar á Gud, sem hann uppvakid hefir. Hvør mun þessi kraptur trúarinnar vera, br. m.? þad segir Páll oss aptur, Gal. 5, er hann svo

ad ordi kémst, ad í Jesú Christó (þad er í þeim hlutum, sem Jesú Christó vid-koma) gyldi hvørki umskurn né yfirhúd, heldur trú sú, sem fyrir kjærleikann verkar. En hvørjir eru þá kjærleikans ávextir? Páll kénnir oss þad, 1 Cor. 13, segjandi: kjærleik-urinn er þolinmódur og gódgjarn, kjærleikurinn øfundar ecki, kjærleikurinn gjørir ei illmann-liga, hann þýtur ei upp, hann er ei ósidsamur, hann leitar ecki eptir því sem hans er, hann er ei þúnglyndur, hann þenkir ecki illt, hann fagnar ecki yfir ránglætinu, en samfagnar sann-leikanum. Hér telur Páll upp allar kristiligar dygdir, er af kjærleikanum, svo sem ødrum brunni, framfljóta eins og adrir hreinir frjófgandi lækir, til allra þeirra, sem vér eigum nockru vid ad skipta í heiminum, og sá sem temur sér þær og dagliga idkar, hann má þess fullørugg-ur vera, ad hann hefir med Christó vel upprisid, og er hønum fyrir sanna og lifandi trú innplantadur, þvíad elskan er kraptur trúarinnar og hennar lífs-mark; þar fyrir segir Post-ulinn afdráttarlaust, ad trúin sé daud án verkanna, Jak. 2, og St. Páll, sem vard (fyrir þeirra skuld, sem forlétu sig uppá løgmálsins verk) ad hrósa trúnni svo mjøg, ad nockrir hafa steytt sig þar á, þó án ordsakar og meint, ad ei þyrfti góðverkin ad gjøra; hann segir sjálf-ur, 1 Cor. 13: þó ad eg hefdi alla trú, svo ad eg megnadi fjøllin úr stad ad hræra, og hefdi ecki kjærleikann, þá væri eg þó eckert. Viljum vér líta til vors fyrra háttalags ádur enn vér endurfæddir vórum, og heyra hvad Páll þar um segir, Eph. 2: Gud sá ed ríkur er af nád fyrir sinn mikla kjærleika, med hvørjum hann elskadi oss, hefir lífgad oss med Christó, þegar vér daudir vorum í syndunum, og hefir undir eins uppvakid oss, og ásamt Christó Jesú sett oss í himnaríki. Í skírninni rétti Gud oss fyrst allra sína miskunar-hønd, þegar vér minna kunnum ad hjálpa oss í vorum sáluhjálpar efnum, enn einn brjóst-mylkíngur lífi sínu, þá reisti hann oss upp úr saurindum náttúrligrar spillíngar, þá tók hann oss inn í sinn eylífa sáttmála; þá trúlofadi hann oss sér í nád og miskunsemi, Os. 2; þá setti hann oss í ríki síns Sonar, Col. 1. En hvad er þad, br. m., ad vér brjótumst úr fadmi hans ad nýu med idkun vondra verka, er Guds børnum sæma ecki, og forlátum meistara vors úngdóms, sem tók oss upp, þar vér láum í voru blódi, útkastadir á vídivángi-num, Ezech. 16, en gaungum Djøflinum til handa, hvørjum vér afneitad høfum og øllum hans verkum. Er þad ecki ad kasta sér aptur í sama saur, þótt vér einusinni uppreistir séum? edur munum vér þess nockur not hafa, ad Gud hefir med sínum sterka armlegg handdregid oss af Djøflinum í endurgétníngunni, ef vér leggjum lag vort vid Satan apt-ur? Látum oss til hugar koma; br. m., hvad margt og mikid Jesús þolad hefir, þegar hann mátti þó vel sælu hafa, Hebr. 12, ádur enn hann feck upprisid oss til réttlætis. Sá sem heyrir Guds Son yfirgéfinn, Matth. 26, Gud blessadan um aldir, Róm. 9, svo sem bølv-an upphengdan, Gal. 3, og hann, sem galt þad hann ecki rænti, medal ræníngja talinn, Mark. 15, og veit ad þetta er skéd, fyrir alla þá ílsku, sem ad syndarinn hefir unnid til helvítis med, og ecki leitast vid ad krossfesta sitt hold med þess girndum og tilhneigíngum, svo hønum mætti Christí vegna heimurinn verda krossfestur, eins og Páli, Gal. 6, þeim verdur aldrei audid med Christó upp ad rísa í nádinni, svo hann eylífliga med hønum lifi í dýrdinni. Fyrir því áminnir Petur næsta vel, segjandi: med því ad Kristur hefir nú fyrir oss lidid í holdinu, þá brynjid ydur med sama hugarfari, þvíad hvor á holdinu lídur,

hann lætur af syndinni, 1 Pet. 4, svo ad hann þadan í frá, hvad eptir er æfinnar í holdinu lifi, eigi ad mannligum girndum, heldur ad Guds vilja. Hvad er þad ad vér segjumst ydrast vondra verka, nema vér og upprísum med Christó? Vér komum hvert ár, og þrjár, fjórar reisur á ári, eptir því sem hver er lyndur til, fram fyrir kénnimanninn, þar hann situr í Guds stad til ad fyrirgéfa oss syndirnar, ecki þeim sem nálægjast Gud med vörunum alleina, Esa. 29, heldur þeim, hverra hjarta ad rétt er fyrir Drottni. Vér segjumst bera ángur og trega fyrir syndina (Gud gæfi ad hugur jafnan máli fylgdi, og ad vér vildum af henni láta og vid=sjá framvegis) og er hann hefir svo í Guds umbodi tilsagt oss kvittun vorra afgjörda, meinum vér oss ad fara réttlátari heim aptur í vort hús, Lúc. 18; og þad er í sannleika satt á þeim, sem vel hafa reynt og prófad sjálfa sig, og af alvöru audmýkt sig undir volduga Guds hönd, þvíad Christí loford er fyrir því, ad hverjum helst Guds þénari fyrirgéfur syndirnar, þeim séu þær fyrirgéfnar, Jóh. 20, þó ecki nema þeim sem elska sinn Lausnara og rækja hans bod, þvíad St. Páll lýsir bölvan yfir þá, sem ecki elska Drottinn Jesúm, 1 Cor. 16, og eru þeir þá lángt frá syndanna fyrirgéfníngu. Hinni bersyndugu fyrirgafst mikid, þvíad hún elskadi mikid, Lúc. 7. Hvernin viljum vér kallast elska Krist edur med honum upprísa, ef vér afrækjum bod hans? ef hann er vor Fadir, hvar er þá hans heidur? Mal. 1; sá sem ecki tekur sinn kross uppá sig og fylgir honum eptir, Matth. 10, hann er hans ecki verdugur; en kross er varla þvílíkur holdi og blódi, svo sem ad uppfylla Christí lögmál, sem þó er ecki nema í einu bodordi innifalid, sem er, ad bera hver annars byrdi, edur elska hver annann innbyrdis, ad vitni St. Páls, Gal. 6. Því dæmi eg svo, br. m., ad sá sem ecki stundar eptir ad vardveita Christí lögmál, hann elskar hann ecki, sá sem ecki elskar hann, nýtur ecki hans forþénustu, sá sem ecki nýtur hans forþénustu, hann er bölvadur, og er enn=þá í sínum syndum, hversu opt sem presturinn lýsir þeirra kvittun yfir honum, þvíad hann er madur, og veit ecki á=stundum, hverjum hann fyrirgéfur syndirnar, þvíad Guds alleina er ad rannsaka hjartad; þar fyrir eigum vér ecki ad taka þad, sem Gud hefir talad ángrádum sálum til trúarstyrkíngar, ílskunni og prettvísinni til afbötunar. En gjætum ad oss í Jesú nafni! br. m. hvad opt höfum vér syndanna kvittun þegid, en þad mun tilborid hafa, ad vér höfum aptur framkomid ecki einasta med þær sömu, heldur og adrar verri á=stundum? Hvad lítt hefir oss þá verid géfid um ad halda þad loford, er vér gjördum Gudi í játníngu syndanna, ádur enn vér þádum heilaga aflausn af hendi hans þénara? hversu tregir höfum vér verid á heyrn hans orda? hvad ófúsir til ad elska vorn náúnga, ad forláta honum hans afbrot, ad gjöra þeimgott, sem vid oss misgjöra, ad forsvara hann og færa alla hluti á betra veg, ad stilla reidina, ad láta hans eigur kyrrar? og í einu ordi ad segja, ad rísa upp med Christó og bera krossinn eptir honum, þad er, ad deyda þann gamla manninn, er sig fordjarfar í girndum villudómsins? Eph. 4. Já, því verr, ad margur mun finnast sá ed strax sem hann er kominn frá prestsins knjám, veltir hann sér í sama saur, og hefir einga vidleitni til þess ad láta af öllu því illa, er hann strax medkéndi og lofadi umbót á, og þad í oftrausti nádar Guds, og fallvalti von lángra lífdaga. Ecki er slíkt ad upprísa med Christó edur bera krossinn eptir hon=

um, heldur ad gabba hinn Krossfesta. En heyrid hvad Páll til Hebr. segir í 10 kap. Sá sem ad eingu hefir Mósis lögmál, hann skal eptir vitni tveggja edur þriggja vægdarlaust deya; hvad þýngra straffs verdugur meinid þér hann reiknast muni, er fóttredur Guds Son, og sáttmálans blód, med hvörju ad hann endurleystur er, almenniligt heldur og vanvirdir Anda nádarinnar? Hvad er þad, ad vér játum alleina vorar syndir fyrir Gudi! mun honum nockur þóknan í því? hann þarf ei þess vid, hann veit þær betur enn vær, þvíad allir hlutir eru berir og naktir fyrir hans augum, Hebr. 4; þad er nærri því, ad brixla Gudi med Jóna spámanni um sína miskunsemi, Jón. 4, svo sem hann ecki sé undir eins réttlátur, og taki alleina skulda-reikníngin fyrir skulda-lukníngunа, hvad oss mundi þykja ljótt á einum dómara; því kunnum vér þá ad ætlast til þess af Gudi, hvörs stránga réttlæti einga þurdu má lída? Þad sé fjærri, ad eg lítid gjöri úr Jesú forþénustu, hans pínu og dauda, hans upprisu og öllu því hann unnid hefir oss til miskunar, þvíad hvad er jafnvægt Guds réttlæti? hjá hvörju himin og jörd eru minna enn eitt sandkorn ad reikna, nema þessar ástgjafir Frelsarans. Hitt segi eg, ad þad heyrir þeim ecki til, sem ætla sér ad lifa í syndunum, uppá þad ad nádin yfirgnæfi; harmþrúnginn og sundurknosadur andi er alleina þad offrid, sem Gudi þóknast, Ps. 51; hvar fyrir? þvíad Christí forþénusta hrín á því, nær því er svo háttad, en ecki annars, svo ad Gud vill ecki tilreikna manninum gjördar syndir; en ecki er þetta afláts-bréf til ad mega framvegis syndina drýgja, því Kristur er kominn til ad uppfylla lögmálid, en ecki ad upplеysa þad, Matth. 5, til ad forlíka fyrir syndina, en ecki til þess madurinn skuli syndga; til ad deyda syndina í voru holdi fyrir sína upprisu, en ei til þess ad hún skuli drottna í vorum daudligum líkhama. Þú segir: eg ángrast af öllu því illa sem eg hefi móti Gudi gjört; en hvar er þad ángur, þegar þú leikur þér ad sömu syndum eins og ödru tafli? þú segir: eg hata syndina; lát þá sjá ad þú elskir Gud, og drýgir ei þad hann bannad hefir; þú segir: eg elska Gud, sem mér hefir svo margar syndir fyrirgéfid; lát þá sjá undir eins, ad þú elskir ecki þad hann hatar, þvíad þessum tveim herrum má ecki í senn þjóna, Matth. 6. Annad er þad, ad syndin hendir manninn, og hann samþyckist henni um stund; annad þad, ad láta hana drottna í sér, hafa lyst af henni, og gjöra handverk þar af; þad fyrra gétur ecki ad öllu leiti skilid vid oss, á-medan vér berum eptir oss líkhama þessa dauda, svo ad jafnvel Páll segist gjöra þad vonda, er hann þó ecki gjöra vilji, Róm. 7; hitt sídara er hjá börnum vantrúarinnar algengt, um hvörja Páll talar, Róm. 1, er hann uppreiknar skammir þær ed medal heidíngjanna tídkudust, og álуktar med þessum ordum: hvörjir ed jafnvel þótt þeir þektu Guds réttindi (sem er, ad þeir ed þvílíkt gjöra séu dauda verdir), þá gjöri þeir þad ecki ad eins, heldur samsinni þeim er þad gjöra, Róm. 1. Þegar Gud er hvad nádugastur í sínu Evangelíó, þá er þad þó aldrei ödruvísi enn svo sem hann segir, Esa. 1: látid af illu og lærid gott ad gjöra; komid sídan og eigumst lög vid; þótt ydar syndir séu raudar sem blód, þá skulu þær verda hvítar sem snjór, og þó þær séu sem purpuri raudar, skulu þær verda hvítar sem ull, og Páll er því samhljóda, Róm. 8, er hann vottar, ad eingin fyrirdæmíng sé framar yfir þeim, sem eru í Christó Jesú, þeim sem ei gánga eptir holdinu, heldur eptir andanum. Þetta er eitt æfinligt Evangelíum, sem varad hefir í frá heimsins

upphafi, og gengid hefir í gégnum bædi Guds Testamenta, og er svo óumbreytanligt sem hann er sjálfur, hjá hvørjum ecki er umbreyting né skuggi umbreytíngar, Jak. 1; svo þótt ad eingill af himni kjæmi ad prédika annad, sem þó er ómøguligt, þá vilda eg med Páli segja: ad þad bølvad vera skyldi, Gal. 1. Hlýdum þar fyrir rádi St. Peturs, er hann segir: leggid af ílsku alla, og øll svikrædi og smjadur, og øfund og alla bakmælgi, og girnist hinnar skynsamligu og hreinu mjólkur, svo sem nýfædd børn, uppá þad, ad þér þróist fyrir þá sømu, ef þér smackad hafid hvad ljúfur Drottinn er, til hvørs vér komnir erum, svo sem til eins lifanda steins, hvør af mønnum er burtkastadur, en af Gudi er útvalinn og dýrmætur, 1 Pet. 2. Nóttin er umlidin, en dagurinn tekur ad nálgast; leggjum því af verkin myrkranna og í-klædumst herklædum ljóssins, Róm. 13. Jesús Christus er á þessum blessada dags morgni upprisinn; hann er vordinn mørgum til falls og upprisu í Israel, eptir því sem hinn gamli Símeon rád fyrir gjørdi, Lúc. 2; rísum því upp med hønum, ad ecki falli hann yfir oss og í sundurmerji med hinum ødrum, er hønum burtkastad hafa, allra-helst þar vér vitum tímann, ad oss er mál ad rísa upp af svefni syndanna, því nú er hjálprædid oss nær enn vér nockurn tíma trúdum, sagdi Páll, Róm. 13. Vér vitum ecki hvad nálæg ad er vor endurlausn, edur nær høfud-eingilsins lúdur kvedur vid í skýum himins, og þar vort páska-lamb, Kristur, er fyrir oss fórnfærdur, þá høldum hátídina ecki í hinu gamla súrdegi ílskunnar og prettvísinnar, heldur í ósýrdu braudi hreinlyndisins og sannleikans, 1 Cor. 5. Þad saklausa Guds lamb, sem í burtu ber heimsins syndir, Jóh. 1, þad verdur enn-nú fórnfært í himninum, svo opt sem oss verda syndirnar fyrirgéfnar á jørdunni, því segir postulinn, Hebr. 9: hann er í himininn inngenginn, ad hann birtist vor vegna fyrir Guds augliti, sjálfur fórnin, sjálfur kénnimadurinn, og sjálfur Gud, sá ed fórnina þiggur; því ætti kristinna manna líferni ad vera eitt sífelt páskahald, þar til þad fullkomnast í Guds ríki eptir hans lofordi, og vér munum eylífar páskir med hønum halda á landi lifandi manna, þar ed verda mun eylífur hvíldar-dagur, Esa. 66, og vér munum med føstu elskunnar bandi tengjast vid hann, sem oss hefir svo heitt elskad, ad hann dó fyrir oss rángláta, Róm. 5, hvør ad er sjálfur upprisan og lífid, Jóh. 11. Hønum med Fødur og heiløgum Anda sé ó-endanligt lof og dýrd, nú hédan í frá og ad eylífu, amen!

## Annann Dag Páska.

### Gudspjallid, Lúc. 24 Kap.

Í þann tíma; og sjá, ad tveir af þeim gengu á þann sama dag til nockurs kauptúns, þad ed var frá Jerúsalem sextíu skeidarúm, ad nafni Emaus; og þeir voru ad tala um alla þá hluti sín á-millum, sem vid høfdu borid. Og þad skédi þá þeir ræddust vid, og spurdust á sín á-millum, ad sjálfur Jesús nálægdist þá, og geck jafnframt þeim; en þeirra augu voru svo haldin, ad þeir þektu hann ecki. Og hann sagdi til þeirra: hvad er þad fyrir rædu, sem þid høndlid yckar á-milli reikandi, og erud hrygg-

vir þar af? Þá svaradi einn, er Cleóphas var ad nafni, og sagdi til hans: ertú alleina svo framandi til Jerúsalem, ad þú veitst eigi hvad á þessum døgum þar inni gjørst hefir? En hann sagdi til þeirra: hvad er þad? Þeir søgdu til hans: þad, af Jesú af Nazareth, hvør ed var spádóms-madur, máttugur í verkum og ordum fyrir Gudi og øllu folki; hvørnin ad vorir høfud-prestar og høfdingjar seldu hann í fyrirdœmingu daudans, og krossfestu hann. En vér vonudum ad hann mundi endurleysa Israel. Og yfir allt þetta er nú hinn þridji dagur í dag, er þetta skédi. Svo og hafa skélft oss nockrar kvinnur af oss til, þær ed árla høfdu hjá grøfinni verid, og fundu ecki hans líkhama, komu og søgdu sig einnin hafa séd einglanna sjónir, þeir sem segja hann lifa. Og nockrir út af oss gengu til grafarinnar, og fundu eins líka og konurnar høfdu sagt, en hann sáu þeir ecki. Og hann sagdi til þeirra: O, þér heimskir og tregir í hjarta! ad trúa því øllu sem spámennirnir hafa talad. Hlaut Kristur ecki þetta ad lída, og inngánga svo í sína dýrd! og hann tok til frá Mose og øllum spámønnum, og lagdi út fyrir þeim allar ritníngar, þær af hønum voru. Og þeir tóku ad nálgast kaup-túnid þad þeir gengu til, og hann lét þá sem vildi hann lengra gánga, þeir neyddu hann og søgdu: vertú hjá oss, Herra! þvíad kvølda tekur, og á daginn lídur. Hann géck inn og var hjá þeim. Og þad skédi, þá hann sat med þeim til bords, ad hann tók braudid, blessadi þad og braut, og rétti ad þeim; þá opnudust þeirra augu, svo ad þeir þecktu hann, og hann hvarf frá þeirra augum. Og þeir søgdu sín á-milli: brann ecki ockar hjarta í ockur, þá hann taladi vid ockur á veginum og opnadi fyrir ockur ritníngarnar? og þeir stodu upp á sømu stundu og snéru aptur til Jerusalem, og fundu þá ellefu samansafnada og þá sem med þeim voru; hvørjir ed søgdu: Drottinn er sannarliga upprisinn, og hefir birst Simoni. Og þeir søgdu hvad gjørst hefdi á veginum, og hvørnin þeir hefdu þekt hann, í því hann braut braudid.

## E x o r d i u m.

I þessa hátídis-dags Evangelió heyrum vér, ad tveir af Jesú lærisveinum, gengu frá Jerúsalem til nockurs kauptúns, er nefndist Emaus, þad þýdir: kastala. Þad géfur mér þá hugleidíng, ad allir viljum vér, brædur mínir, láta leida oss út í einn sterkann kastala med David, Ps. 108, svo vér kunnum óhultir búa; en þad er vandséd, hvørt vér erum allir svo fúsir til ad gánga med Jesú lærisveinum út af Jerúsalem, eg meina ecki hana, sem er rétt-kristinna manna samkunda hér á jørdunni, Gal. 4, edur hina sem þar uppi er, hvar vor umgengni ætti ad vera, heldur hana sem er í þrælkan med sínum børnum, hvør ed myrdti sinn konúng, og gjørdi hans hús ad ræníngja-bæli, Lúc. 19; þad er, út af hinni vondu Ba-

bylon, Apóc. 17 og 18, hvar ad er líknesqja veraldar þessarar, og ecki lætur af ad krossfesta Drottinn ad nýu, og offsækia hann í sínum limum. Vér heyrum í Gudspjallinu, ad Jesús hafi nálægst þessa sína ástvini á veginum, og gengid jafnframt þeim; sjáum til, brædur mínir, ad vér megum og njóta hans nálægdar á hinni hættu og torveldu leid vorra lífdaga, og ad hann gángi jafnframt oss, þar til vér erum til vors sídarsta herbergis komnir. Vér viljum af dæmi þessara tveggja læra: 1) hvad vér eigum ad gjøra og adhafast, svo Jesús vilji unna oss sinnar nálægdar; 2) hvornin vér eigum honum ad halda svo vér missum hann ecki. Hjálpa oss hér til gódi Jesú, og uppljúk vorum augum, ad vér þeckjum þig; bænheyr þad þad Herra, fyrir þína forþénustu, amen!

## Utleggíngin.

Og sjá ad tveir af þeim fóru þann sama dag til nockurs kauptúns, segir Textinn. Af hvørjum? af hans lærisveinum, sem umgengust med honum, fylgdu honum eptir, heyrdu hans kénníngar, hlýddu þeim, elskudu hann lifandi og hørmudu hann daudann, en vóru ecki vísir í því, ad hann væri upp aptur risinn. Viljir þú, kristinn madur, ad Jesús unni þér nálægdar sinnar, þá breyt eptir þessum á allar lundir, haf þína umgengni med Jesú, tala vid hann í þínum bænum, í þínu hjarta; þá muntú finna ad sú eylífa spekin Guds hefir lyst af ad búa hjá mannanna sonum, Próv. 8; fylg honum eptir, þad er, tak þinn kross uppá þig, annars ertú ecki hans lærisveinn, Lúc. 14; hafi Gud þirmt þér fyrir útvortis krossburdi, þá gjør þad þess heldur til þacklætis vid hann, er svo vægir þínum breiskleika, og krossfest þitt hold med þess girndum og tilhneigíngum; því svo segir Páll, Gal. 5, ad þeir gjøri sem Christó tilheyra, þad eru þeir sem eru Christí lærisveinar, og nær þú kemur þér svoddan krossburd, þá máttu vita ad hann er þér nálægur, því hans kraptur er í breiskum máttugur, 2 Cor. 12. Heyr hans ord, lát þér þad vera sætara enn hunáng og hunángsseim, Ps. 119; gack idugliga þángad sem þad er ként og um hønd haft, og ecki fyrir sidasakir, heldur til ad læra nockud þér til trúarstyrkíngar, til huggunar, til sidbóta, og vert viss um, ad hann er þér nálægur, því hvar sem tveir edur þrír eru samankomnir í mínu nafni, þad er til ad prísa mitt nafn, heyra mitt ord og tala vid mig í sínum bænum, þar vil eg vera midt á-millum þeirra, segir Drottinn hjá Matth. 18; en um alla hluti fram, þá kappkosta ad ná því hlutskipti, sem hædi þessir hans lærisveinar og adrir hlutu, sem var ad elska hann; þad mátt þú sjá á þeirra dæmi, því lýsir sjálfur Drottinn, er hann segir: hvad er þad fyrir ræda, er þid høndlid yckar á-milli, reikandi, og erud hryggvir þar af? Hvar fyrir vóru þeir reikandi? því Gud hafdi slegid hirdirinn, og saudir hjardarinnar vóru sundurtvístradir, Matth. 26; hvar fyrir voru þeir hryggvir? þvíad þeirra Meistari var tekinn frá þeirra høfdi. Hér med sýndu þeir elsku þá, er þeir høfdu á honum, og ecki leynir Cleóphas ordsokinni til sorgarinnar í andsvari sínu uppá spurníngu Drottins. Sjá, hvad kjæran hann hefir haft hann, søgdu Gydíngar er Jesús táradist vid grof Lazari, Jóh. 11; þessir sýndu hvad kjæran þeir høfdu Jesúm, af því þeir syrgdu hann látinn. Gjør sama, kristinn madur, þar þú veitst hann er upprisinn, og situr til Kraptarins hægri handar. Elska Jesúm, þá mun hann þig elska, því svo segir hann, Jóh. 14: hvør hann elskar mig, hann vardveitir mín ord, og Fadir minn mun elska hann, og til hans munum vid koma, og vistarveru hjá honum gjøra. Børn veraldarinnar fást ecki mjøg um, þótt þau vanti

Jesúm, hvar fyrir? því þau elskudu hann aldrei; sá grét ecki fyrir gull, sem ecki átti þad, segir ordtækid. Heimurinn brosir smátt ad því, þótt Jesús hverfi hønum, og þykir svo sem þad komi ecki sér vid, hvørt hann er upprisinn edur ecki, þegar hann hefir sinn gullhnøtt ad treysta á, þá er hann sáttur; þegar hans svín, þad eru hans saurug verk og óhreinar girndir, mega vera ómaksláns, þá er hann til=frids, þótt Jesús víki úr hans landsálfum, Matth. 8; þegar hann hefir sín skurdgod í Dan og Bethel til ad vardveita sín landamerki, og til ad halda stjórn yfir fólkinu, ad ecki falli þad frá hønum til Guds þjónustu sem í Jerúsalem, 1 Reg. 12, þad er í Guds samkundu tídkast, þá þykist hann hafa vísliga um sig búid, en þessir voru ei svo lyndir. Hvad heyrum vér hér í Gudspjallinu? Þeir vóru ad tala á veginum um alla þá hluti, sem til høfdu borid; og framar segir í Textanum: þegar þeir vóru ad bera sig saman og spyrjast á, hafi Jesús nálægst þeim. Hvørt hid sérligasta inntak rædunnar verid hafi, þad má sjá af andsvari Cleóphæ, sem er: ad Jesús hafi verid ofurseldur í fyrirdæmíngu daudans, og sé nú allt hinn þridji dagur sídan, en einglarnir hafi sagt kvinnunum, ad hann lifdi. Þeir hafa án efa verid ad bera sig sundur og saman um þetta, hvad hér=um halda skyldi. O! hvad satt er þad sem Drottinn segir, Esa. 42, um sinn Son Jesúm: þann brákada reyr mun hann ecki í=sundurbrjóta, og þann rjúkanda línkveik, mun hann ecki útsløckva. Mikill var þessi veikleiki lærisveinanna, hvar fyrir hann og átaldi þá hardliga, svo sem hér stendur sídar í Gudspjallinu; en meiri var þó hans gjæska, sem vildi samlaga sig þeim, og vera hinn þridji madur á reisunni, til ad leidrétta þá, ad ei skyldu þeir gánga framar í þessari villu. Lúkas skrifar, ad þeirra augu hafi svo haldin verid, ad þeir þecktu hann ecki, þad hefir án alls efa af Gudi skéd; hefdi Drottinn strax opinberad þeim sig, þá hefdi hann ei fengid svo ordsøk til ad láta þá skammast sín fyrir þeirra vantrúar og þeckíngarleysi á ritníngunum, og ecki til ad kveikja þann bruna í hjarta þeirra, sem ordsakadist af útleggíngu spádómanna; hann hafdi ádur nógu berliga talad fyrir þeim um sína pínu og upprisu, Matth. 16, en þad hafdi þó ecki svo mikin stad í þeirra hjarta, ad þeir trydu kvinnunum er søgdu hann upprisinn. Mikil var blindni þessi, eins og hann sem uppvakti Lazarum, Jóh. 11, dóttur Jaírí, Mark. 5; og son eckjunnar af Nain, Lúc. 7, hann mundi ei kunna ad láta sína sál frá sér, og taka hana aptur, nær hønum þóknadist, Jóh. 10. Nú vildi hann fyrst láta þá þeckja vantrú sína af útleggíngu ritnínganna, og sídan auglýsa þeim ad hann væri hinn sami, er þær høfdu umspád; þar var ad sønnu einn trúar=neisti í hjarta þeirra, en hann var svo djúpt falinn í øsku vanþeckíngarinnar, ad hann sem vissi hvad med þeim bjó, Jóh. 2, vildi fyrst ryđja henni í burtu med útleggíngu spádómanna, og sídan blása ad hønum med sínum anda, svo þar kviknadi einn eldur af, hvør ed sídan brann í þeirra hjarta, hvad þeir sjálfir játudu. Vidlíka atferd brúkar Drottinn enn=nú í dag vid sín børn; hvad opt eru vor augu svo haldin, ad vér þeckjum hann ecki, þegar vér røtum í einhvørn mótgáng, þá køllum vér ad hans hønd sé stutt vordin, og ad hann hafi forgleymt miskunsamur ad vera, jafnvel þótt vér í Guds ordi høfum svo mørg fyrirheit um hans adstod í mótlætinu; þegar oss vantar hans innri hugsvølun, finnum ecki til hans anda, ecki til fyrirgéfníngar syndanna, oss þykja þær stærri vera, enn ad þær kunni svo audveldliga ad fyrirgéfast, þá eru vor augu svo haldin, ad vér

þeckjum hann ecki. Mörg eru slík tilfelli fyrir þeim, sem Gud elska, og þarf þó ei ad alla þad tilfelli eins og lærisveinarnir hér kölludu, því þeir þecktu ei Guds rád; minna endir hans börn án hans vilja, heldur er þad reynsla trúarinnar, þegar menn þykjast aldir í bæninni, kaldir í ydraninni, efast um sína útvalníngu, vantreysta sér ad þeir fái tödugir stadid allt til enda; þegar vér fordæmum öll vor gódverk, ef þau má svo kalla, og ætlum ad Gud muni ei taka þau fyrir ávexti trúarinnar, af því þau séu svo ófullkomin; þegar oss slíkt ad höndum ber, þá eru vor augu svo haldin, ad vér þeckjum hann ecki; já, þegar ein almennilig synd verdur svo stór í þess augum, sem eckert vildi Gudi á=móti gjöra, ad hann ætlar hann muni vera sér reidur, eins og lærisveinarnir, er þeir höfdu gleymt ad taka braudid med sér, Matth. 16, þá þeckjum vér Jesúm ecki; en nær vér höfum þannin yfirgéfid sjálfa oss, þá opnar hann oss fyrst ritníngarnar; í mótlætinu segir hann oss þad sama og lærisveinunum: byrjadi ei Christó þetta ad lída og inngánga svo í sína dýrd? en sá skal med hönum lída, sem med hönum skal dýrdligur verda, Róm. 8; láti hann hinn óguðliga vada uppi og hafa yfirhöndina, þá skipar hann oss med Davíd, Ps. 73, inn í helgidóminn, þad er hans heilaga ord og ritníngarnar til ad skoda þar, hvörnin hann breytir vid hinn gudlausa; ef vor sála er órólig í oss med Davíd, Ps. 42, af einhvörju því er eg strax upptaldi edur ödru þvílíku, þá skipar hann oss ad bída eptir Drottni, edur vér fáum ad heyra med Páli: lát þér nægja mína náð, minn kraptur fullkomnast í breiskum, 2 Cor. 12; og þegar vér svo höfum leitad ad hönum í ritníngunum, þá mun hann vera oss nálægur, þá finnum vér hann, þá blæs hann ad neista vorrar trúar med sínum Anda, svo ad vér þeckjum pant vorrar arfleifdar, Eph. 1, og efumst ecki um Guds vináttu né eylíft líf, svo lengi vér hann höfum, þá brennur vort hjarta í oss, þar kviknar eldur elskunnar, eldur trúarinnar, eldur kjærleikans, sem eru Guds fórnir í hans musteri, sem er vort hjarta: svo er nú Drottinn Jesús nálægur öllum þeim sem á hann trúa, þótt veikir séu. Dumrædilig var gjæska Drottins, í því ad opinbera sig ástvinum sínum strax sem hann var upprisinn af dauda, hvörjir hann þó allir höfdu yfirgéfid og frá hönum flúid, Matth. 26, nema hans módir og Jóhannes med fám=einum kvinnum, er stódu vid krossinn, Jóh. 19; já, Petri, sem hönum hafdi þrisvar afneitad, skipudu einglarnir sér í lagi ad boda hans upprisu, Mark. 16; Maríu Magdalenu, frá hvörri hann hafdi útrekid sjöDjöfla, Lúc. 8, opinberadi hann sig fyrst allra manna, Jóh. 20; án efa því hún hefir verid sorgbitin og veiktrúud, því eptir Christó spurdi hún svo sem framlidnum manni: þeir hafa burt=tekid Herrann minn, og eg veit ei hvar þeir hafa lagt hann; og af samtali Drottins vid hana má hvad mest ráda, hvörsu hönum hefir verid umgéfid ad hugsvala þeirra örmæddum sálum. Snert þú mig ecki sagdi hann, því eg em enn=nú ecki uppstíginn til míns Födurs, heldur far til brædra minna og seig þeim, ad eg fer upp til míns Födur og ydvars födur, &c. Skilji eg þetta rétt, þá er sú meiníngin: María hefir viljad fagna hönum, sem von var, og þreifa á hönum; en hann lét sér svo ant um vera, ad hún flytti sínum brædrum strax þennan fögnud því varnadi hann henni þess, ad ecki skyldi hún tefja sig; því eg em enn=nú ecki uppstíginn til míns Födur: þér verdur nógur tími til ad tala vid mig, og þreifa á mér, þar til eg upp=

stig, far skyndiliga og kungjør mínum brædrum þessa gledi fyrst. Þessi hygg eg sé meiníngin í ordum Drottins; edur því skyldi hann annars banna henni ad snerta sig heldur enn Thómæ og hinum lærisveinunum, Jóh. 20. En hvørnin sem þessu er varid, (eg læt hvørn einn ráda sinni meiníngu hér=um), þá tek eg þetta til dæmis um føðurliga gjæsku Drottins og medaumkun med þeim trúarveiku; þeir høfdu yfirgéfid hann, hann leitar ad þeim ad fyrra bragdi; þeir máttu reiknast burthlaupnir, hann kallar þá sína brædur, Jóh. 20; þessir tveir, sem gengu til Emaus, høfdu ecki nærri verid, þegar hinir adrir fengu bodskapinn um þad, ad Drottinn hefdi birzt Símóni, þó vill hann ecki ad þeir skuli fara varhluta af þessari blessan, heldur medtaka hana samdægris og hann uppreis, eins og hinir; hvar af þad má sjá, ad trúarveikin kann ecki ad hindra nálægd Christí, heldur svo sem gód módir lætur sér mest umhugad vera þad barn, sem veikt er, svo er og Drottinn þeim nákvæmastur, er í trúnni hvad veikastir eru; ein veik trú er og trú; ein vanheil hønd tekur eins vel vid ølmusu og ein fullhraust; ein lítil trú er þó trú; einn vatnsdropi er sømu náttúru og sjórinn; ein lítil perla er þó perla; einn neisti er og eldur; eitt barn er svo vel manneskja, sem einn fullordinn; dvergurinn eins vel og risinn; dóttir hinnar Kananisku, Matth. 15, og hinn tunglsjúki, Matth. 17, bædi vóru þau af Djøflinum plágud, en eins hægt veitti Drottni ad lækna hann, þótt fadir hans væri trúarveikur, svo sem hana, þótt módir hennar væri trú= arsterk; og eins vel hjálpadi Drottinn konúngs=manninum, Jóh. 4, svo sem hundrads= høfdíngjanum, Matth. 8. En hvad skulu þeir nú til marks hafa um þad, sem trúarveikir eru, ad þeir séu í trúnni? hún er svo lítil á=stundum og óljós, ad vér þeckjum hana ecki, þótt hún sé inni hjá oss. Magdalena sá Jesúm og taladi vid hann, en þekti hann þó ecki, Jóh. 20; sama hendir og Guds børn, ad þau ei þeckja Jesúm á=stundum, þótt hann gángi jafnframt þeim, eins og þessum lærisveinum; skodum því dæmi þeirra, og færum þad heim uppá oss; þeir vóru sorgbitnir; hvar af? því þá vantadi Jesúm. Sért þú og hryggur af því, ad þú finnur ecki þinn Lausnara í hjarta þínu, þad er nær þú efast um syndanna fyrirgéfning, þá leita eptir hønum med brúdinni, er gétur um í Loftvædinu, 5 kap. Þú veitst ecki hvar þeir hafa lagt Herrann þinn eins og María, þá brúka þessa sorg til ad lækna sjálfan þig med; hold og blód vekur hana ecki, þad sorgar fyrir því, sem madurinn á ad eta og drecka, en ecki fyrir Christó. Guds Anda verk er hún í þér, og er Kristur þá ecki lángt í burtu, því hann og heilagur Andi eru eitt, og mun hann koma í leitina þegar minst vonum varir. Þessir Guds vinir vóru ad tala um alla þá hluti, sem til=fallid høfdu, um kraptaverk Drottins, þar þeir søgdu hann hefdi verid spádóms=madur máttugur í ordum og verkum; um hans pínu, um hans upprisu, sem ljóst er af gudspjall= inu. Haf og þetta til merkis, sé þér inndælt ad tala um Gud, um hans dásemdarverk, hans stórmerki, hans velgjorníngа, hafir þú þína lyst í þessu og megir gjarnan heyra adra tala þar um, þá býr Kristur í þér; en hafir þú leida á Guds ordi, þyki þér um allt annad meira gaman ad tala; ef þú venur munn þinn til fúllrar rædu, séu skammarlig ord og fíflsligt hjal þitt eptirlæti; haldir þú Guds dýrkun fyrir eckert; þyki þér lítid koma til þess ad þjóna hønum, og metur hans umbun ei ad miklu, heldur forsmáir þá, er til hans vona, þá tak þér vara, því svo sannarliga sem Jesús er þeim nálægur, sem lángar eptir

onum þótt veiktrúadir séu, svo vissuliga er hann þér horfinn, þótt einkis meins þykist þú énna, og fæst ecki aptur nema med heitri bæn og sannri ydran. Nú þótt þad sé heilnæmt og Gudi þóknanligt, ad tala um alla Drottins velgjørnínga, þá er þó eckert huggunarsamigra enn ad tala um hans dauda og upprisu, svo sem þessir gjørdu; þeir tøludu í fástrædi og einfaldleika; en Gud gjæfi, ad vér sem betur erum uppfræddir í þessari himnesku speki, heldur enn þeir vóru í þad sinn, vér vildum þess heldur láta oss þessar háleitu Guds dásemdir til hjarta gánga, og oss í nyt færa, sem vér erum sann-fródari hér-um. Eckert er þad í voru sáluhjálpar verki, ad minníng Jesú kvala, hans dauda og upprisu kunni ecki ad útrétta í því hjarta, sem idugliga þar-um hugsar. Þegar eg minnist á syndir mínar, sem opt hafa stygt frá mér Gud, hinn ypparsta Góda, og mér ecki svo hitnar í brjósti, sem eg gjarna vildi, þá mætti þad koma sudunni upp á hjarta mínu, ad Guds Sonur er fyrir mig ránglátan saklaus kvalinn og deyddur, Róm. 5; þykist eg í bæninni kaldur vera, þá mætti þad smelta hjarta mitt, ad Guds eingétinn Sonur sveittist blódinu, er hann badst fyrir, Lúk. 22, undir minni synda-byrda, og vard þó ecki bænheyrdur, svo hann gjørdi mína bæn kraptuga fyrir Gudi, þótt hún sé veik; hafi eg óþocka á nockrum manni, og gét ecki svo fljótt drepid þá freistíngu, þá hugsa eg til þess, ad Drottinn minn bad fyrir yfirtrodslumønnunum, þeim er hann kvøldu, Lúc. 23, og mun eg brádliga skammast mín, ad rækja þad lítilrædi, er minn bródir mér til-gjørdi; elski eg heiminn edur nockud þad, sem í hønum er, þá rekur hans elska þad brádliga út, sem dó fyrir mínar syndir, þegar eg var hans óvinur, Róm. 5, svo eg megi eylífliga lifa, ef eg forsmái heiminn, en elska hann sem mig hefir svo heitt elskad; ofbjódi mér stærd minna synda, þá minnir heilagur Andi mig á, ad Gud er dáinn í mínu holdi, og hafi eg séd hann dáinn fyrir mínar syndir, þá sé eg hann vel upprisinn mér til réttlætis, Róm. 4. Lærisveinarnir þecktu Drottinn í því hann braut braudid; svo þeckja og kristnir menn hann allra-best, nær hann brýtur oss þad helga braud í altarisins sakramenti, sem ad er meddeilíng hans líkhama, og drecka þann blessunarinnar kaleik, er vér blessum, sem og er meddeilíng hans blóds, 1 Cor. 10; þá er hann oss hvad nálægastur; þá sjáum vér hann hvad best med augum trúarinnar; þá þeckjum vér hans guddómligu elsku, og skodum hans miskunar-idur algjørliga, ad hann ecki einasta hefir géfid sitt líf í daudan fyrir oss og úthelt sínu blódi, heldur og fædir sálir vorar á því hinu sama oss til trúarstyrkíngar um alla sína velgjørnínga, þar kunngjørum vér hans dauda, þar skodum vér hann upprisinn; því lægi hann enn þá í grøfinni, hvørnin mætti hann géfa oss sitt hold ad éta, edur sit blód ad drecka? nú hefi eg svo nockud talad um, hvørnin vér eigum ad skicka oss svo Jesú vilji oss nálægjast. Eptirfylgir ad minnast á med fáum ordum, hvørnin vér eigum ad halda hønum, svo vér missum hann ecki. Þad er ecki minna verdt ad gjæta fengins fjár, enn afla þess, og þad má segja um Jesúm; margur hefir ad sønnu fengid hann einusinni inn til sín, er þó hefir mist hann sídan, og sumir aldrei aptur fengid; Júdas seldi hann eitt-sinn fyrir ágirndarsakir, Lúc. 22, og misti hans svo ad eylífu, hann mun sér marga stall-brædur í heiminum eiga; Petur misti hann og, en feck hann þó aptur med beiskum gráti, Matth. 26; því er þad víst hér-af, ad menn kunna ad

missa Jesúm, þótt menn hafi eitt=sinn notid hans nálægdar. Þar fyrir bannar Páll ad hryggja heilagann Anda, Eph. 4, já, hann segir: vér skulum ei slöckva Andann, Tess.5. Sömu atburdi skal til þess hafa ad sönnu ad halda Jesú, svo sem ad lada hai ad sér í fyrstunni; hvörugt géta menn án Guds Anda, því einginn kann Jesúm Drottin ad nefna fyrir utan hann, segir Páll, 1 Cor. 12; en ad mótstanda ecki heilögum Ani þad er í mannsins valdi, sérdeilis þess, sem endurfæddur er med vatni og anda. E vil ei ítreka þad aptur, sem ádur er sagt, um þad ad njóta Jesú nálægdar; enn ei sé eg hér í fari lærisveinanna, sem batt hann svo, ad hann gécк inn og var hj þeim: hann lét sem hann vildi lengra gánga; en þeir neyddu hann og sögdu: vert hj oss, Herra! þvíad kvölda tekur og á daginn lídur. Hvílík ad hafi verid naudsy þessi, er audséd hér=af, þad var ein audmjúk bæn; svoddan ofríki hefir Drottinn op lidid; svo neyddi hann konúngs=madurinn, Jóh. 4; svo neyddi hann hin Kananiska Matth. 15; svo neyddi Abraham Gud, er hann bad fyrir Sódómítum, Gén. 18 svo neyddi Mósis hann, er hönum tókst ecki annad enn miskuna Israel; svo neydd Jakob hann, er hann sagdi: eg sleppi þér ecki fyrr enn þú blessar mig, Gén. 32 Jesús lætur opt sem vilji hann lengra gánga, þegar hann leggur oss sinn kröss herdar, en vér sjáum ecki, ad hann er oss nálægur, svo sem ádur er sagt. Þegar vo eyrindi luckast ecki, sem vér þó rekum í hans nafni, fyrir mannanna ofbeldis saki en vér þeckjum ecki hans tilgáng. Hvad skal hér=til gjöra? eigum vér þá a sleppa hönum og leita ráds hjá heiminum? fjærri sé því! hvad þá? gjörum ein og þessir gjördu; neydum hann med audmjúkri bæn og andvörpum, ad hann vilj hjá oss vera. Eingum af oss hefir þvílík sorg tilfallid, sem þessum Guds vinum þeir höfdu mist hann, sem þeir höfdu allt sitt traust á, fyrir hvörn þeir kannské höfdi yfirgéfid alla hluti, eins og Petur sagdi um þá tólf, Matth. 19; þeir voru eptir í hers höndum, og þordu valla ad sjá uppá nockurn mann, þar allir vissu ad þeir höfdi verid hans lærisveinar, er svo miskunarsamliga var útleikinn fyrir skömmu, og hvörsi uggvænt þeim verid hafi, þad sýnir oss bædi dæmi þeirra, er forlétu hann í grasgard inum, og St. Peturs, er óttinn þreyngdi hönum til ad kannast ecki vid hann, fyri hvörn hann þó skömmu ádur vildi lífid láta, Matth. 26, sem og þad, ad þeir lol udu dyrunum ad sér, fyrir hrædslu=sakir vid Gydínga, Jóh, 20; samt neyddu þei þennan framandi mann, (því ei vissu þeir þá annars) til ad vera hjá sér: hva fyrir? af því hann taladi um Jesúm, og opnadi fyrir þeim ritníngarnar, svo þeirr hjarta brann í þeim; þessum manni vildu þeir ecki fyrir hvörn mun sleppa. En þú, Guds barn, sem þeckir Jesúm og veitst hann upprisin og seztan til Kraptarin hægri handar, ad hann bidji fyrir þér, Róm. 8; vilt þú ei taka þetta sama rál þegar þér sýnist hann vilji fram hjá þér gánga? ó, jú, Guds barn! födurligt hjart hefir Gud; þann er hægt ad locka, er sjálfur vill dansa; þú tekur aldrei svo fe ins=hendi vid Guds nádar=hugsvölun, nær þig lángar eptir Drottni á þurrlendin eins og Davíd, ad hann sé ecki ljúfari til ad veita þér hana. Þegar Alexand hinn stóri hafdi lagst um borgina, Ty um, med sínum her=flockum, þá skrifar Pl

archus, ad suma af bæar-mønnum hafi dreymt, ad godin vildu flytja úr borginni og í heibúdir konúngs, en þeir bundu þau med hleckjum ad ei skyldu þau í burtu komast. O, hvørsu mikid høfum vér, kristnir menn, Gudi ad þacka! grátligt er til þess ad vita, hvørnin Andskotinn hefir blindad vantrúarinnar børn. Vesælíngs Gudir vóru þad og aumur átrúnadur; ad trúa á þann, sem þeir ætludu ad þeir mundu fá til fánga tekid; en Drottinn Jesús hefir fengid oss adra festi til ad binda sig med, þad er hans eigin bæn, hvør ed ritud stendur hjá Lúcam í 11 kap. og Matth. 6; og skømmu sídar í sama kap. kénnir hann oss, hvørnin vér skulum leggja þessi bønd á sig, med þessum ordum: bidjid og mun ydur géfast, leitid, og munud þér finna, knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda; og enn þá framar kénnir hann oss, hvørsu ad þessi festi sé sterk og óbilandi, er hann segir: því hvør sem bidur, hann skal medtaka, og hvør sem leitar, hann skal finna, og hvør sem ad á-knýr, fyrir hønum skal upplokid verda; en med þessu hefir hann sýnt, ad oss ecki einasta byrjadi óaflátanliga ad bidja, svo sem Lúkas vottar, 18 kap., heldur heitt og ákafliga, eins og Drottinn í grasgardinum, Lúc. 22; eins og Tertúllianus skrifar um kristna í sínum døgum, ad þeir komi saman í eitt, og med nockurskonar fylkíngu og athlaupi taki Gud til fánga. O, hvad ólík er þessi kalda verøld slíku! menn hyggja þad sé nóg, ad falla á knén og halda klútnum fyrir augun, og murra þar eitthvad er þeir ei sjálfir skilja, eins og Esajas skrifar um Phitons andann, og þá sem fóru til frétta vid hina daudu, Esa. 8; er þetta samneyti heilagra? er þetta hin sanna kristiliga kyrkja? mun nockud Andinn bidja fyrir þeim med óumrædiligum andvørpunum? ó, vei! sannliga segi eg ydur, ad betra er aldrei ad bidja, því þeirra bæn verdur ad synd, Ps. 109, og þeirra Guds þjónusta ad offri hins fávísa, Ecl. 5. Þessara lærisveina hjarta brann í þeim, ádur enn þeir neyddu hann med sér inn ad gánga; sjá og til, kristinn madur, ad þú á einhvørn hátt fáir smelt þitt hjarta ádur enn þú krýpur fram fyrir Guds hátign í þínum bænastad: þad er hægt ad gjøra í kyrkjunni undir hans orda heyrn, ef þad er rétt predikad, og þú ljær því eyrun, og þar fyrir utan, strax sem þú augunum upplýkur á morgna, þá íhuga hans gjæsku og þína ílsku, hans tign og þinn óverdugleik, hans velgjørnínga og vernd yfir þér, og þitt hirduleysi og vanþacklæti, og nær þú hefir svo gjørt um hríd, þá gack til bænarinnar og bid Andann ad bidja med þér, því þú vitir ei hvørs þú átt ad bidja, Róm. 8; brúka somu atferd á kvøldunum og lát þessa þánka svæfa þig, þá er þad víst, ad þú verdur á einhvørn hátt bænheyrdur, Act. 7. Mósis var eitt fagurt barn álits, sem ritníngin segir, hann predikadi svo vel fyrir dóttur Pharaónis med barns-grátnum, er hann lá í reyr-kistlinum, ad hún komst vid í hjarta sínu, og sá aumur á hønum, Exód. 2; miklu fegri mun sá vera í Guds augliti, sem med Jesú blódi er ádreifdur. O, hvørnin munu hans miskunar-idur fá leynt sér nær hann heyrir þeirra grát, og sér þeirra tár sem út eru helt í hid rauda haf Guds eingétins Sonar dýrmæta blóds, hvørt miklu hærra kallar enn Abels blód! Hebr. 12; þar fyrir, mínir elskuligir, gleymid ecki ad bidja idugliga og alvarliga um návist Jesú; sleppid hønum ecki fyrr enn hann blessar ydur til fulls; þegar hønum er tapad, þá er øllu tapad; medan þér hønum fast haldid, þá er øllu haldid; þótt þér missid alla hluti, og jafnvel sjálft lífid, þá erud þér jafn-ríkir, þegar þér eigid hann, sem allt vald er géfid bædi á himni og á jørdu, Matth. 28;

hafi þar nockurn tíma verid þørf á ad neyda Jesúm til ad gánga inn til sín, og vera hj
þá er þad á þessum sídurstu og verstu døgum. Vert þú hjá oss Herra, þvíad kvøld
ur og á daginn lídur, søgdu þessir Guds menn. Þad má kalla, ad alla-reidu taki mjø
til ad kvølda í heiminum; myrkur ránglætisins taka til ad byrgja fyrir oss Sól réttlæt
; hin sanna Guds þecking og skilníngur á hans h. ordi, er umsnúinn í kapprædur o
ttanir. Þeir sem eiga ad hafa lykil vitskunnar, stunda þad mest, hvørnin þeir me
kja adra í spurníngum þeim, er þeir ecki sjálfir skilja, og þykjast miklir menn, þegar þe
munnhøggvast, en hinni sønnu þeckíngu Guds og hans lærdóms sleppa menn nú m
ndir, og þad veldur því, ad nockru leiti, ad lífernid er einganvegin svo sem kristnum sóm
Þar menn láta Guds ríki vera fólgid í ordum einum; menn hafa skin gudhrædslunn
afneita hennar krapti, 2 Tím. 3, svo varla er ad finna trú á jørdu, Lúc. 18, eg mein
trú, sem verki fyrir kjærleikann, Gal. 5, svo þad er stór naudsyn øllum Guds børnu
neyda Christum ad vera hjá sér, þar allt teiknar til þess, ad dagur Drottins muni ei láng
urtu vera; og þótt ei væri, þá veit eg ecki nema þad augnablik, sem eg lifi á, sé kvøl
nna lífdaga, því vil eg Jesú halda og hønum ecki sleppa, svo nær sem eg dey, þá de
med Lausnara minn í fadminum, og ad hvørt sem eg lifi edur dey, þá sé eg hans, Róm
. Slepp þú mér, sagdi hann fordum vid Jakob, þvíad nú dagar, Gén. 32; min
rra! eg vil ecki sleppa þér, þvíad nú kvøldar; eg sleppi þér ecki fyrr enn þú blessar mig
eg veit ecki nær enn myrkur daudans byrgir mín augu. Nóttin er umlidin, en dagu
tekur ad nálgast, sagdi Páll á sínum døgum, Róm. 13; þad var og satt, þvíad þá va
l réttlætisins, svo ad segja, nýliga upprunnin, og skein fagurt í heiminum lengi fram ept
unum; en nú ætla eg ad þessu megi umhversa, og segja: dagurinn er hartnær umlid
, en nóttin er í nánd. Vert því hjá oss, Herra! þvíad kvølda tekur og á daginn lí
Já, ó, Herra Jesú Christe! þegar dregur ad røckri æfi vorrar, og vor augu taka t
formyrkvast í daudanum, svo þau sjá ecki lengur, vert þú þá hjá oss, þegar allir hafa fo
d oss, og vér sjálfir høfum yfirgéfid oss, en varpad sálu og lífi í þinn miskunar-fadm; l
þá leggja vora trúar-hønd í þína sídu, og hennar fíngur í naglaførin, og géf ad vér
m trúadir og ecki vantrúadir! uppljúk þá vorum sálar-augum, ad vér þeckjum þig oss
ndi géfinn til réttlætis, til helgunar og til eylífrar sáluhjálpar. Bænheyr þad gódi Jes
ir þitt blód og forþénustu, amen, í Jesú nafni, amen!

## Þridja Dag Páska.

Gudspjallid, Lúc. 24 Kap.

hann tíma, þá lærisveinarnir voru nú enn ad tala um þett
d sjálfur Jesús midt í milli þeirra, og sagdi til þeirra: frid
med ydur! en þeir skélfdust og urdu hræddir, og meintu a
ir sæi anda nockurn; og hann sagdi til þeirra: hvar fyrir skél
þer, og því koma slíkir þánkar í ydar hjørtu? sjáid mín
ndur og mínar fætur, ad eg em þetta sjálfur; þreifid á mér

skodid, þvíad andi hefir ei hold og bein, svo sem þér sjáid mig hafa. Og þá hann sagdi þad, sýndi hann þeim hendur og fætur; og er þeir trúdu enn eigi fyrir fagnadar sakir, og undrandi þad, þá sagdi hann til þeirra: hafid þér hér nockud matarligt? og þeir lögdu fyrir hann stycki af steiktum fiski, og hunángs seim, og hann tók þad og át fyrir þeirra augum. Og hann sagdi til þeirra: þetta eru þau ord, hvör eg taladi til ydar, þá eg var enn-nú hjá ydur, þvíad þad hlaut allt ad fullkomnast, sem af mér er skrifad í Mósis lögmáli og í Spámannanna bókum og psálmum. Þá opnadi hann þeirra hugskot, svo ad þeir skildu ritníngarnar, og sagdi til þeirra: svo er þad skrifad, og svo byrjadi Christó ad lída, og upp ad rísa á þridja degi frá daudum, og prédikast láta í sinu nafni ydran og fyrirgéfníng syndanna á-medal allra þjóda, upphefjandi í Jerúsalem; en þér erud vottar allra þessara hluta.

## Exordium.

Fridur á jördu og mönnum gódur vilji, súngu einglarnir fordum, þegar mannkynsins Endurlausnari var í heiminn borinn, Lúc. 2; þá máttu þeir himnesku andar lýsa þessu fridar-bodi í umbodi síns Herra, þar hann lá eitt ómálga barn í stallinum, og átti þó margt eptir ógjört, sem ad þurfti til ad semja þennan frid milli Guds og manna. En nú, þar hann fyrir krossins dauda hafdi afmád allan óvinskap, sem hans útvalda mátti frá eylífum fridi hindra, þá lýsir hann sjálfur þessum fridi yfir sínum elskuligum lærisveinum, hvörjir ad sídan fóru med þetta fridar-bod út um allann heiminn eptir hans skipan. En fyrir því, ad vér erum og þessa fridar-bods hluttakandi vordnir, þá viljum vér af gudspjallinu hugleida: 1) hvílíkur ad sé þessi fridur: 2) hvörnin vér eigum honum ad taka. Þar til hjálpi oss hinn gódi Gud, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Hvílíkur ad þessi fridur sé, br. m., þad sést, nær menn athuga hvílík ad var sekt mannkynsins, er þad styggt hafdi hinn almáttuga Gud. Er fridur, Jehú? sagdi fordum Jóram Israels-konúngur, er hann mætti hönum á veginum, en Jehú svaradi: hvad gildir þig um frid, þar hórdómar og töfrar módur þinnar vara enn-nú? 2 Reg. 9. Ad vísu er þad satt, ad vor fyrsta módir hafdi ecki þær skammir ad hafst, sem Jessabel, en þó má ecki því neita, ad af hennar fyrstu synd eru komnar allar þær syndir, er í heiminum hafa sídan drýgdar verid; þeirra sekt vardi allt til þess, ad vor Fridar-höfdíngi negldi þá handskriftina á tréd, sem í gégn oss var, undir eins og hans blessudu hendur og fætur vóru á krossinn negldar. Þar var einginn réttkalladur fridur ádur fyrir syndugt mannkyn, jafnvel þótt ad syndin væri allt þángad til undir Guds þolinmædi, Róm. 3. Nóe bygdi Drottni eitt altari eptir þad hann var frelsadur af vatnsflódinu og fórnfærdi þar á allra-handa hreinum dýrum, svo ad Gud lyktadi einn sætleiks ilm og lýsti fridi yfir mannkyninu, segjandi: ecki vil eg framar bölva jördunni fyrir mannsins sakir, Gén. 8. Þessi fridur nádi þó ecki nema til líkham-

ligs frelsis, en þá vóru sálirnar ókvittar vid Gud, nema hann hefdi vitjad vor upprunninn af hædum í sínum miskunar idrum, med sendíngu síns eingétins Sonar í vort hold, þegar þad saklausa Guds Lamb var á krossinum fórnfært, fyrir allar veraldarinnar syndir, med hvørju ad bædi Nóa og allar adrar gamla Testamentisins fórnir eru helgadar og fullkomnadar, þá lyktadi Gud til fulls einn sætleiks ilm; og þegar hann hafdi hjálpad hønum út af daudanum, sem Páll segir, Hebr. 5, út af því reidinnar flódi sem géck inn ad hans sálu í kvølinni, þá hefir þessi mikla hetja, ad uppleystum daudans fjøtrum med øllum rétti lýst þessum fridi yfir sínum brædrum. Þegar brædur Jósephs høfdu fundid féd í seckjunum, er þeir ecki áttu von á, þá urdu þeir óttaslegnir, svo þeir vissu ecki hvad þeir skyldu til ráds taka, Gén. 43, þá sagdi rádsmadur hans til þeirra: fridur sé med ydur, óttist þér, ecki, ydar Gud og ydar fødurs Gud hefir sendt féd í ydar sjódu. Þeir høfdu í þad sinn eckert íllt gjørt, samt óttudust þeir og meintu sér mundi ként verda um þessa varmennsku. En hvad hafdi syndugt mannkyn i=móti Gudi gjørt? þad hafdi rænt hann sínum heidri, þad hafdi líflátid hans eingétinn Son med sínum illgjørdum, og ofan á allt þetta ecki þeckti meir sinn vitjunar=tíma, Lúc. 19, heldur enn Jakobs synir vissu, hvørnin féd var apturkomid í secki þeirra. Veraldligir høfdíngjar, er þeir gjøra frid vid annann, þá stadfesta þeir hann med bréfum og ritníngum, edur og seljast gisla á; þess þurfti ei hér af vorri hendi, því vér áttum vid þann einn ad skipta, sem einga vissu þurfti af vorri álfu og á alls kosti vid oss, ef vér ecki høldum hans fridar=sáttmál. En svo hann tæki allann efa frá sínum lærisveinum um þetta fridar=bod, þá sýnir hann þeim þad, sem øllu sterkara og óbrigdulla var, enn nockurs konúngs=hønd edur innsigli, er hann sýndi þeim sínar hendur og fætur. Gledíligt var þetta fridar=bod lærisveinunum, br. m.; en ecki høfum vér minna þegid í því, hvørra fedur vóru án Guds í heiminum, Eph. 2. Hvílíkur er hann, sem vér høfdum flúid frá, já, frá hvørjum vér dagliga flýum, og brjótum hans nád af oss med syndunum? þad er Konúngur himins og jardar, Drottinn sterkur vandlætari, vitjandi ránglætis fedranna á sonunum í þridju og fjórdu ættkvísl, Exód. 20; já, mundi vitjad hafa í þúsund lidu allt til enda veraldar, nema ad vér réttlættir fyrir trúna hefdum frid vid Gud, fyrir Drottinn vorn Jesúm Christum, Róm. 5. Nú er þad víst, ad syndin reiknast svo stór sem hann er til, sem hún er á=móti gjørd; en um Guds hátign er kunnugra, enn frá þurfi ad segja. Ó, Guds barn! hvílík gledi er þad þá ad hafa frid fengid vid svoddan Konúng, og svoddan einn frid, sem aldrei um æfi má rjúfast, nema hann af oss rofinn verdi? hvar fyrir því er ecki ad gleyma, ad skømmu ádur enn Drottinn féck lærisveinunum í hendur lykla=valdid til ad fyrirgéfa og apturhalda syndunum, þá lýsti hann fridi yfir þeim, Jóh. 20; þar fyrir nær þessi fridur til allra þeirra, sem taka kvittun synda sinna af Gudi fyrir hans rádsmanna þjónustu. Hún er eitt afláts=bréf, sem Kristur undirskrifar med þeirra hendi á høfud allra rétt=trúadra, en innsiglar þad sjálfur í þeirra hjarta med heiløgum Anda, hvør ad er pantur arfleifdar vorrar, Eph. 1; þess gétur Páll, 2 Cor. 5, segjandi: Gud hefir í Christó sætt heiminn vid sjálfan sig, tilreiknandi þeim ecki þeirra yfirtrodslur, og leggjandi oss uppá ad boda forlíkun þessa; því hvørs syndir kvittar eru, hann hefir frid vid Gud, frid vid hans løgmál, og frid vid samvitskuna. Ó, hvørsu fagrir eru þá fætur þeirra, sem

fridinn boda! Esa. 52; og hvad kunni glediligra þeim ad bodast, er sátu í myrkrunum enn þessi fridur, Nah. 1; svo vér megum því fagna er Zach. skrifar, kap. 9: hann mun fyrir Testamentisins blód útleida hina bundnu af þeirri grifjunni, hvar ekkert vatn var inni, og boda heidíngjunum fridinn; og hefir hin eylífa Gjæska ecki látid þar med búid, ad hann hefir géfid oss syndirnar kvittar og gjørt frid vid oss í sínum Syni; þad dýra gjald, sem hin eylífa Hátign lauk í voru holdi á krossinum, mátti enn þá meiri blessan, meiri sælu, og meiri føgnud afreka; þad var, ad hann setti oss í síns Sonar ríki, Col. 1, hvørt ad ecki er matur né dryckur, heldur fridur og føgnudur í heiløgum Anda, Róm. 14. Þegar veraldligir høfdíngjar géfa einhvørjum grid, þá þykjast þeir vel gjøra, ef þeir láta hann halda lífi og landsvist. Davíd gaf Símei líf, 2 Sam. 16, og þótti vel gjørt úr því sem ráda var; Salómon gaf hønum landsvist, þó med því móti, ad hann færi ecki út af Jerúsalem, 1 Reg. 2; Jósúa gaf Gíbeonítunum frid, og þad til ad halda loford sitt er hann vildi ecki bregda, og lagdi hann þeim þó nockurskonar þrældóm uppá, ad høggva tré og bera vatn til þjónustu-gjørdarinnar, Jós. 9; en hvad er Gud skyldugur ad halda vid oss, mennina, sem dagliga brjótum þann eid, er vér unnum hønum í skírninni, nær hann trúlofadi oss sínum Syni fyrir hans blód med heiløgum Anda? Já, hvad opt høfum vér rofid þad heit, er vér svo tídt høfum gjørt hønum í skrifta-stólnum, ad afláta og sjá vid syndunum? og samt hefir hann ecki einasta uppgéfid oss, og dagliga uppgéfur øllum þeim, sem vid hann fridmælast, alla skuldina, og þau mørg tíu þúsund punda, er vér svo tídt verdum hønum skyldugir, Matth. 18, heldur lofar oss ómælanligrar dýrdar eylífri þýngd, fyrir munn síns þénara St. Páls, 2 Cor. 4, øllum þeim, sem bera vilja hid sæta ok Christí og hans léttu byrdi; já, øllum þeim ed sér til hans snúa vilja frá sínu illu athæfi og vondri breytni, allt fram undir daudastundina. Hvílíkur er þá þessi fridur? edur hvør fær hann nógliga prísad. Ecki hefir Drottinn heitid sínum børnum veraldarinnar fridi, miklu heldur segir hann, þeir skuli hafa ángist í heiminum, Jóh. 16; en því hefir hann lofad, ad þeir skyldu hafa frid í sér, Jóh. 15; já, þann frid, sem verøldin kann ei ad géfa, og þann frid, sem einginn kann af oss ad taka, Jóh. 16, svo lengi vér høfum frid vid hann, sem oss þennan frid alleina géfid hefir og géfa kann, en einginn annar. Þar verdur aldrei svo tryggiliga búid um nockra veraldarinnar sátt edur fridar-gjørníng, ad menn kunni ad segja ad hann skuli lengi stad-fastur vera, hann kann ad vara í tveggja kónúnga tíd þeirra á-milli, medan þeir lifa bádir, og þó ecki altíd; hvad lengi héldst sættin á-milli Sýrlands og Samaríam, er Achab og Benhadad gjørdu? 1 Reg. 20; hvørsu vel efndi Ptólómeus þad hann heitid hafdi dóttur-manni sínum Alexandró? edur Rómverjar Gydíngum? 1 Macc. 10 og 11. En uppá þann frid má reida sig, er Gud heitir oss syndugum mønnum, þar er aldrei lýgi fundin í hans munni. Eckert er tídara enn þad í heiminum, ad þegar tveir hafa ósáttir verid, og þeir látast þó sættast heilum sáttum og jafnvel sverjast eida á, ad sá bregdur af, er sídan fær valdid meira, og finnur sér allt til ordsaka heldur enn ad hann ecki hefni síns vansa, sérdeil-is ef hann þykist hafa vordid undir í sættinni; því er þessi málsháttur heimsins: vakta þig fyrir þeim vin, er þú hefir sæzt vid; en þetta er ecki ad óttast hjá Gudi, øll hans verk eru

miskun og sannleiki, Ps. 25; hann er trúr, sjálfum sér kann hann ecki ad neita, 2 Tím. 2; nema ef vér viljum kalla þad brigdmælgi, ad þær hefndir koma ecki strax yfir vondar gjørdir, sem hann hefir hótad þeim; en vér bregdum dagliga af, og ecki gétum vér um eitt augnablik haldid vor særi; þó hefir hann ecki útskúfad oss, ecki hefir hann enn=nú brotid þann frid vid oss, sem hann gjørt hefir vid aumt mannkyn fyrir síns Sonar dauda, Róm. 8, jafnvel þótt þad játa megi, ad á þessum tímum hafi allt hold fordjarfad sinn veg, ei sídur enn á døgum Nóa, Gén. 6, svo menn kunna einga ordsøk til þess ad færa, ad hinn strángi og réttláti Dómari ecki kollsteypi þessari vantrúndu verøld, nema þá, ad hann er Gud og ecki madur, Hós. 11. Þetta munu øfgar þykja er eg tala, en gjætum ad, hvørsu fleiri manneskjur þar eru nú í heiminum enn á døgum Nóa; hvørsu lítill ad er kristindómurinn hjá heidíngjunum; hvad fáir af kristindóminum, sem játa þá réttu trú, og hvad fáir af þeim, sem hana játa, er færa verduga ávøxtu henni. Hvørnin á þessu stendur, veit Gud einn, þad er ei mønnunum unnt ad vita. Verda má ad þar séu fleiri Guds børn enn menn hyggja, því Elías vissi jafnvel ecki ad þar vóru svo mørg þúsund í Israels=ríki, sem ecki høfdu beygt sín kné fyrir Bal, 1 Reg. 19; en ættu menn eptir ytra áliti edur mannligri skynsemi ad dæma, þá kynni einhvør ad vísu ad ætla, ad í øøld þessari mundu ecki øllu fleiri vera réttlátir, eptir því sem tala rennur til, heldur enn fyrir flódid. Þetta skrifa eg alleina til þess, ad menn þecki Guds óumrædiligu gjæsku og trúfesti, ad hann heldur vid oss enn=nú í dag þad sáttmál, er hann gjørdi vid Nóa; hvad miklu framar mun hann þá halda þá sátt, er hann gjørt hefir vid sína útvalda í Christó? Þess er og ad gjæta, br. m., ad þótt vér gjørum frid vid mennina, sem oss voldugri, gøfugri og sterkari eru, þá er ecki trútt um ad þeir kunni ad duga oss, þótt þeir vildu, nær adrir þeim sterkari rísa á=móti oss, því allt hold er hey, segir rødd hrópandans, Esa. 40; lítid gagnadi þad Júda og Ephraim, ad þeir sendu til konúngsins af Assyría og Egyptalandi, því Drottinn sagdi: hann skal ecki kunna ad græda ydur, og ecki ad lækna ydar sár, því eg em svo sem grimt león á=móti Ephraim, og svo sem úngt león á=móti Júda, Os. 6. Svoddan munur er nú á þeim fridi, sem verøldin géfur, og þeim er Gud géfur; séu þeir svo máttugir, svo vinsterkir, svo frændmargir sem þeir vera vilja; eg á einn vin, sem aldrei skal bregdast; eg em hans, og hann er minn, Ljóðlv. 6; hann er megnugur um ad setja krók í Zenacheribs nasir, Esa. 37; hann gétur dreckt Pharaó og hans vøgnum, og reidmønnum, Exód. 14; hann kann ad slá Jeróbóams her, þótt hann hafi umkríngt Abíam. 2 Paral. 13; og þóknist hønum ad láta vonda menn hafa yfirhøndina, þá vil eg segja med Davíd: gjøri hann vid mig hvad gott er í hans augliti, 2 Sam. 15; þad nægir mér ad eg hefi frid vid hann, sem er Gud fridarins, 2 Cor. 13; hann géfur mér frid í ofsóknunum, ríkdóm í armódnum, virdíngu í forsmáninni, heilbrigdi í sjúkdóminum, sadníng í húngrinu, gledi í sorginni; þad nægir mér ad hann er minn vinur, þegar allir mínir vinir hafa mig yfirgéfid. Segid mér, hvad vill verøldin gjøra þeim, er Gud hefir gjørt svo lynda? ecki meir enn eitt barn einum risa, edur skollahvelpurinn leóninu. Ef eg er í landi einhvørju, þar sem herskátt er, en veit þó ad þar er fridur í mínu landi, hvar eg hefi bú mitt, mína vini og frændur og allann líkhamligan varnad, þá er eg þó betur til=frids, þótt eg sé medal óvina staddur, eg er

ei nema ein manneskja, eg vil segja med spekíngnum: eg ber allt mitt med mér, eg vil á einhvørn hátt sjá til, hvørnin eg lífs afkomist og nái mínu føburlandi. Guds børn eru ad sønnu í hers-høndum í útlegd þessari, en þeirra umgengni og þeirra borgar-réttur er á himnum, Phil. 3; allt hvad þau hafa í verøldinni, þad er ecki þeirra, Gud gaf þad ad sønnu þeim til brúkunar og medferdar, en þau hafa ecki fest hjarta sitt þar vid, heldur hafa þau þad Gudi aptur-géfid; eru þad góts edur gardar, metord og virdíngar, gull edur silfur, þad er ecki þeirra eigid, þad er krists-fé alltsaman, og jafnvel sjálft lífid; en þeirra fasta-eign er á landi lifandi manna. Eg vil sjá til hvørnin eg kunni ad ná þángad lífs, hvar einginn skal lífid frá mér taka, hvad mér aldrei mun bregdast, svo lengi sem eg hefi frid vid hann, sem er fridarins Gud, sem er lífsins høfdíngi, Act. 3, Jesús Christus, hvør ed daudur var, og sjá, hann lifir, Apóc. 1; svo lengi eg veit minn Endurlausnari lifir, svo óttast eg eckert stríd; hønum er ecki um megn ad leidsegja mér í-gégnum minna fjandmanna hendur; já, í-gégnum sjálfan daudan inn til lífsins, og ad láta mig lifa þótt eg deyi, því hvørt eg lifi edur dey, þá er eg þó hans, Róm. 14; því vil eg segja: daudi! hvar er þinn broddur, helvíti! hvar er þinn sigur? 1 Cor. 15; Gud er sá sem oss hefir sigurinn géfid, fyrir Drottinn vorn Jesúm Christum; hønum sé lof, dýrd og heidur ad eylífu, amen! Og er nú þetta sagt þar-um, hvílíkur ad þessi fridur sé; eptirfylgir ad tala um, hvørnin vér eigum hønum ad taka.

Þad er ecki nóg, Guds børn, ad þiggja grid af einum konúngi, nema menn haldi þau; Zedechías konúngur tók grid af Nebúkadnezar, hvør ed gaf hønum konúngs-ríki í Júda eptir frænda sinn Jóachim, 2 Reg. 24; en hann gjørdi uppreist á-móti hønum og hélt ecki sáttina, hvar fyrir hann tók hann fánginn, stack hans augu út og flutti til Babylon, 2 Reg. 25; margur hefir sá tekid grid af Gudi í skírninni fyrir Christí blód, sem skýzt undan hønum aptur og gjørist Satans madur med vantrú og syndsamligu athæfi, og verdur þá hin seinni villan argari hinni fyrri, Matth. 27. Hvar med gétum vér þá vid hinn Almáttuga frid haldid? Ef vér erum hans þegnar vordnir, þá eigum vér hønum skyldur ad gjalda; hin fyrsta þegnskylda vor vid hann er audmjúkt þacklæti hjarta vors, fyrir þennan háleita velgjørníng; offrid Drottni lofgjørdinni, segir Davíd. Varla má minna vera, br. m., enn ad vér offrum hønum kálfum vara vorra, Os. 14, þad er lofgjørdinni, er sínum eingétna Syni, því saklausa Guds Lambi lét slátra á krossins altari, til ad forlíka heiminn vid sjálfan sig. Margur þykist ad sønnu þennan skatt lúka Gudi, ef hann sýngur hønum eitt sálm-vers med munninum alleina, en hvørt ad hugur fylgi máli, þad athuga menn ecki svo gjarna; svo hann mun hafa ordsøk til ad segja vid marga þá, sem látast þacka hønum hér fyrir: þetta fólk nálægist mig med vørunum, en þeirra hjarta er lángt þar-frá, Esa. 29. En hvørsu mjøg ad menn brjóti Guds frid af sér med þessu óþacklæti, þad sjáum vér, medal annara, á þeim tíu líkþráu er Jesús hreinsadi, um hvørja hann sagdi: voru ecki tíu hreinsadir, en hvar eru hinir níu? Lúc. 17; fanst einginn sá ed aptur snéri og gjæfi Gudi dýrdina, nema þessi útlendíngur? og hann sagdi til hans: statt úpp og gack burt, þín trú gjørdi þig hólpinn. Hinir vóru alleina á líkhamanum hreinsadir, þessi bædi á sálu og

líkhama, því eckert taladi Drottinn um trú þeirra, og mun sálarinnar heilbrigdi hafa farid þar eptir. Eg er og næsta mjøg uggandi um, ad þar finnist varla einn á-medal tíu, sem þetta hjálprædi, þennan mikla frid, sem oss er í Christí dauda og upprisu bodadur, svo þecki, sem byrjar; flestir láta sér nægja med þad, ad sýna sig kénnimanninum, í kyrkjunni, í skrifta-stólnum, í útvortis játníngu trúar sinnar einusinni edur tvisvar á ári, en hvørt ad samvitskan kémst vid af tilfinníngu syndanna, hvørt elskan til Guds er svo mjøg heit, þar um mætti efast hjá allmørgum, því annars mundu menn hafa meiri vidleitni á ad hafna syndunum, og elskan til Guds mundi framar spretta út med verkunum, svo hann þar med yrdi dýrkadur; þad er ad snúa aptur og géfa Gudi dýrdina, ad snúa sér frá sínu ógudligu athæfi, og taka sína ílsku-breytni frá hans augliti, Esa. 1. Ef hann er vor Fadir, hvar er þá hans heidur? ef hann er vor Herra, hvar er þá hans virdíng? Mal. 1. Þad er minst verdt ad lofa Gud og þacka hønum med munninum, þad gjøra og hrafns-úngarnir, segir Davíd, Ps. 147, og eru þeir ecki med hans Sonar blódi afkeypdir; ecki kostadi þad Gud nema eitt ord ad skapa þá og allann heiminn, Gén. 1; en hvad segir Páll vid oss, 1 Cor. 6: þér erud verdi keyptir, þar-fyrir dýrkid Gud í ydar líkhama, og í ydar anda, hvørjir ad eru Guds. Hvørnin skulum vér hann dýrka í vorum líkhama? hvad segir hann enn aptur, Col. 3: Deydid ydar jardnesku limu, saurlífi, óhreinleika, lauslæti, vonda girnd, ágirni, sem er skúrgoda dýrkan, fyrir hvørt ad kémur reidi Guds yfir børn vantrú-arinnar; leggid af allt þvílíkt, reidi, girnd, ílsku, gudløstun, nídyrdi frá ydar munni; þad er ad dyrka Gud í sínum líkhama, ad afsnída þessa limu hins gamla mannsins. Postulinn segir, ad fyrir þvílíkt komi Guds reidi yfir børn vantrúarinnar; sjáid hvad ómøguligt þad er, ad hafa frid vid Gud, nema menn afleggi þessi verk myrkranna, sem von er á, því ecki hefir Gud látid kvelja sinn Son til þess, ad vér þjónum syndinni í hennar girndum, edur látum hana drottna í vorum daudligum líkhama, Róm. 6; því hann hefir ecki kallad oss til óhreinleika, heldur til helgunar, segir Postulinn, 1 Tess. 4. En hvørnin megum vér Gud vegsama í vorum anda? þad er í sálum vorum; þad er, ef vér færum andans ávexti; hvørjir eru þeir? þad segir oss Páll, Gal. 5: þad er kjærleiki, føgnudur, fridur, þolinmædi, gódgirni, gódfýsi, trú, hógværd, bindindi; og endar hann svo þetta tal med annari máls-grein, sem alla Guds þjónustu í sér innibindur, segjandi: en þeir sem Christí eru, krossfesta sitt hold med þess girndum og tilhneigíngum. Hvør sem þad dagliga gjørir eptir því sem Guds andi fær í hans breiskleika verkad, hann má vera fullviss um Guds vináttu, jafnvel þótt einginn géti fullkominn verid í þessu daudliga holdi, því ef vér gaungum í andanum, þá erum vér ecki undir løgmálinu, Gal. 5; en þetta frelsi eigum vér ecki ad brúka til þess ad láta eptir oss smá-syndirnar, er vér svo køllum, og ætla þad sé nóg ad varast stór-glæpina. Þad er eingin svo lítil synd til, ad ei sé hún nóg til ad fordæma manninn, ef Gud vill í dóm vid oss gánga. Davíd bad Gud forláts á sínum heimugligum syndum, Ps. 19; því mun þad ecki óhult ad drýgja hinar smáu vísvitandi. St. Páll sagdist jafnvel ecki skyldi kjøt eta, ef hann vissi sinn bródir hneixladist, 1 Cor. 8, og mun margur halda þad fyrir litla synd; þad er aldrei lítil synd, sem Guds réttlæti fordæmir, en hann fordæmir allar þær, sem vér litlar edur eingar

follum. Það er allt synd sem helvíti forþénar, en þær forþéna allar það, sem madurinn lætur vís-vitandi eptir sér, og liggur í þeim viljandi, jafnvel þótt ei sé þvílíkt af mønnunum kallad nema Guds barna brestir; smá-regnid vætir eins mjøg og stór-droparnir; þær smáu syndirnar kunna ad verda hvad skadvænastar, því vér reiknum þær ecki, og verda því flestar, og þótt þær séu smáar í vorum augum, þá verda þær þó stórar, nær vér byggjum þeim lengi heima. Einn lítill ormur, þegar hann er svólginn í magann, þá etur hann svo lengi um sig, ad hann verdur stór, nema hann annadhvørt sé drepinn, eda hønum sé upp-selt; einn lítill púki, þegar hann er einusinni innkominn í hjarta mannsins, getur vordid ad stórum djøfli, ef hann er látinn hindrunarlaus, og þegar hann er svo vaxinn, gétur hann tekid sjø anda sér verri, Lúc. 11; menn taka einn lítinn dreing til fósturs, ef hann er skálkur, sem margir eru, þá gjørir hann sig ad húsbónda, nær hann er fullordinn, og rædur sína líka inn í húsid, þar til hann med sínum féløgum drepur húsbóndann, ef hann þorir, og gjørir sig herra af gótzinu. Svo eru hinar litlu syndirnar; þau dálitlu børn Satans, er vér leikum oss ad, medan þau úng eru, þau verda vor ofmenni um sídir, og taka vort andligt líf frá oss, og eyda þeim féssjód úr voru hjarta, sem med Guds blódi keyptur er; sumt gamman og gledskapur, sem heitir kurteysi í fyrstunni, kann ad verda ad hædni og spéskap, svo þegar menn hafa lengi vanid sig á ad hæda mennina, og því er hrósad af þeirra líkum, er leita sér fordildar í slíku, þá fer þeim svo fram í kunstinni, ad þeir fara ad hæda ad Gudi og hans heilaga nafni; þad þykir hjá oss saklítid ad leggja Guds nafn vid hégóma og gamni sér í dagligu tali, edur kalla á Andskotann; en sá sem þetta hefir lengi tamid sér, hønum mun ecki þykja mikid fyrir ad brúka þad sama til ad ljúga líf og æru af sínum náúnga; hann sem reiknar þad fyrir einga synd, ad hann forsómi ad gánga til kyrkjunnar, og leikur sér ad hégómanum á Guds helgum døgum, hann kann ad verda yfirgéfinn í svo fráleitt sinni, ad hann þenki, ad þad sé ecki nema fyrir sída-sakir ad menn brúki helgar tídir. Eg søgi þetta til dæmis um allt þad, er menn gjøra á-móti hinum bodordunum, sem hvør einn kann ad skilja, ef hann vill géfa nockurn gaum ad framferdi sínu, og taka vara á sálu sinni. Fyrir því, ef þér viljid hafa frid vid Gud, br. m., þá drepid þessa smá-púka, edur ad vísu gjørid þá svo vanmeta, ad þeir ecki verdi ydar ofur-efli, annars munud þér ecki frid vid Gud hafa. En sokum þess, ad einginn af oss er svo adgjætinn edur varkár, ad ecki falli blettur á vort skírnar-fat á hvørri stundu, jafnvel þeirra, sem bestir eru, þá eigum vér í hvørt sinn, sem vér af nockurri hrøsun verdum yfirstignir, ad þvo hann af med beiskum ydrunartárum, ef vér viljum frid vid Gud hafa;. já, vér eigum ad gánga streingiliga í dóm vid sjálfa oss, og ecki láta vora ydran stíga fram yfir almenniligar syndir, því þær fordæma eins manninn og hinar stóru, nema menn þeirra af hjarta ydrist; gjætum þess, ad Gud er réttlátur, hann er eptirgángssamur og strángur sóknari, hann heimtir ecki alleina stórsummurnar, heldur vill hann láta gjalda hinn sídasta pening, Matth. 5. Hvar med fáum vér þessa sekt lokid, nema med Christi forþénustu, sem er óendanlig; en hún verdur eingum tilreiknud, nema þeim, sem ydrast af hjarta syndanna. Ad sønnu kunna menn ecki allra ad ydrast sér í lagi; hvør veit hvad opt hann fellur Ps. 19; gétur þú uppreiknad alla þína úngdóms bresti? hvør má telja alla sauruga þánka og ónytju-ord? þad er ad vilja telja

saudinn og bylgjur sjáfarins; en þar vér erum oss þess samvitandi, ad vér svo opt hrösum, svo ad öll vor reisa frá vöggunni til grafarinnar, er varla annad enn einn sífeldur blód-vadall, þá eigum vér ad láta oss þad af hjarta ángra, ad vér erum svo undir syndina seldir, Róm. 7. Já, í samtali vid vora vini og náúnga, edur og nær vér sleppum oss í gaman og gledskap, þá byrjar rétt-kristnum manni ecki einasta adgjætnum ad vera, ad ei styggi hann Gud med munni sínum, heldur og í hvört sinn, nær hann kémur til sjálfs síns aptur, ad hugleida hvört ecki hafi hann rasad med sinni túngu, og finni hann þad, sem án efa opt-liga finna má, ad láta sig þess af hjarta ydra og bidja Gud um nád, ef vér viljum vera full-vissir um hans vináttu; og ecki einasta eigum vér þær syndir ad fordast, sem eru réttlínis á-móti Guds skélfiligri hátign, heldur og, ef vér viljum hans vinir vera, þá eigum vér ad kappkosta ad halda frid vid vora brædur í heiminum, Róm. 12. Hvad er þad fyrir frid-ur, er Drottinn spáir um, ad verda muni í ríki Christí? Esa. 2: Ad þeir muni gjöra sverdin ad plóg-járnum, og sínar stángir ad ljáum, og ein þjód skuli ecki ríckja sverdi á-móti annari, og þeir skuli ei framar læra strídsatferd. Hvad sýnist ydur, börn mín? mun þetta vera sá fridur, sem veröldin géfur? ecki teiknar til þess nú um stundir, þar ein þjód rís upp í-móti annari, og frændur og náúngar berast bana-spjót eptir, heldur er þad fridur Guds sá ædri er öllum skilníngi, Phil. 4; þad er öll andlig farsæld, sem Guds postular, Paulus, Petrus, Júdas og Jóhannes í sínum Opinberunum jafnan óska Guds söfnudum; en ecki er þad sízt eindrægni andans, sem öll Guds börn hafa á-milli sín, hvar helst þau eru í heimin-um; sá sem ecki er í þessum fridar-sáttmála innibundinn, hann er ecki limur hinnar sönnu og ósýniligu Guds kyrkju; vakti sig því hvör og einn, sá er vill Christí limur heita, ad ei ali hann nockurt hatur til síns náúnga; og er þad ecki nóg ad vér höldum frid vid vini og frændur; tollheimtumenn og pútur gjöra og þad hid sama, Lúc. 6; heldur býdur Endurlausn-arinn oss, ad vér elskum óvini vora, Matth. 5; þad lögmál er þúngt ad sönnu holdi og blódi, en ecki svo mjög þeim, sem eptir Gudi er skapadur, og leitast vid ad breyta eptir sín-um Lausnara, hvör ed beiddi fyrir þeim er hann kvöldu, Lúc. 23. Eigir þú nockurn óvin, kristinn madur, þá gjæt þess, ad Gud er þinn besti vinur, og Andskotinn hinn argasti óvin-ur; gjör því ecki þad hinum til stygdar, en þessum til þægdar, ad hatast vid þann, sem er þinn bródir eptir náttúrunni, fyrir hvörn Guds Sonur hefir kvöl og dauda lidid eins og þig; ef þú hatar þinn óvin og þad svo mjög, ad þú vildir hans dauda, þá gjör hönum gott, sjá til ad þú fáir gjört þér hann ad vin med gódu atlæti; fáir eru svo hreckvísir ad þad takist ecki; en ef þú fær því til vegar komid, þá hefir þú drepid óvininn, en frelsad þinn bródur og géfid hönum lífid, 1 Jóh. 5, og afrekad sálu eina Gudi til handa, sem er stærri sigur enn þótt nockur hefdi kóngaríkin undir sig brotid, því hún hefir Guds Sonar blód kostad, hjá hvörju öll veröldin er fis ad reikna; svoddan hefnd er ecki einasta saklaus, heldur og Gudi kjær, og af öllum hans börnum vel álitin. Gud gjæfi ad kristnir menn vildu temja sér þetta hugarfar, þá mundi fridur og eindrægni haldast betur manna á-medal, heldur enn sked-ur nú um stundir, þá mundu menn frid hafa vid sjálfa sig og samvitsku sína, frid fyrir heim-inum, því sá ed þvílíkt gjörir, hann er af Gudi fæddur og yfirvinnur heiminn, 1 Jóh. 5, frid fyrir Djöflinum; því hann er Christí barn, sem Djöflinum hefir útsnarad, og trodid

hann undir sinna barna fætur, Róm. 16; já, frid vid hinn lifanda Gud, sem öllu rædur bædi á himni og jördu, í hvörs ríki ad fridurinn og réttlætid kyssa hvört annad, Ps. 85, hér í tímanum, en í eylífdinni mun á fridnum einginn endir verda, Esa. 9. Þeirrar sælu-vistar njótandi ad verda unn þú oss þínum börnum, ó, þú stóri Gud fridarins! Róm. 16, fyrir hinn sanna fridarins Höfdíngja Jesúm Christum, Esa. 9, amen!

# Fyrsta Sunnudag eptir Páska.

Gudspjallid, Jóh. 20 Kap.

Og ad kvöldi þess sama hvott-dags, þá ed lærisveinarnir voru samankomnir ad luktum dyrum fyrir hrædslu-sakir vid Gydínga, kom Jesús þar, og stód í midid, og sagdi til þeirra: fridur sé med ydur! Og þá hann sagdi þetta, sýndi hann þeim hendurnar og sína sídu. En lærisveinarnir glöddust vid, ad þeir sáu Herrann. Jesús sagdi þá enn aptur til þeirra: fridur sé med ydur! Líka sem Fadirinn sendi mig, svo sendi eg ydur. En sem hann sagdi þetta, blés hann á þá og sagdi til þeirra: medtakid þér heilagan Anda; hvörjum helst þér fyrirgéfid syndirnar, þeim eru þær fyrirgéfnar, og hvörjum helst þér aptur-haldid þær, þá eru þær þeim aptur-haldnar. En Thómas, einn af þeim tólf, sem kalladist Tvíburi, var eigi med þeim, þá Jesús kom; en hinir adrir lærisveinarnir sögdu til hans: vér höfum séd Herrann. En hann sagdi til þeirra: nema ad eg sjái naglaförin í hans höndum, og ad eg láti minn fíngur í naglaförin, og leggi mína hönd í hans sídu, þá trúi eg ecki. Og eptir átta daga voru enn aptur hans lærisveinar þar inni, og Thómas med þeim, kom Jesús ad luktum dyrum, stód í midid, og sagdi: fridur sé med ydur! Sídan sagdi hann til Thómam: réttú þinn fíngur híngad og skoda mínar hendur; lypt upp þinni hendi og legg í mína sídu, og vert ecki vantrúadur, heldur trúadur. Thomas svaradi og sagdi til hans: Drottinn minn og Gud minn! Jesús sagdi til hans: af því þú sást mig, Thoma! trúdir þú; sælir eru þeir sem ecki sjá og trúa þó. Mörg önnur teikn gjördi Jesús í augsýn sinna lærisveina, hvör ad eigi eru skrifud í þessari bók; en þetta er því skrifad, svo ad þér trúid þad, ad Jesús sé Christus Sonur Guds, og ad þér svo trúadir, hefdud lífid í hans nafni.

## Exordium.

Þegar Jesús hafdi læknad hinn limafallssjúka med því ordi, ad hann sagdi til hans: þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, Matth. 9, þá prísadi fólkid Gud, er þvílíka makt hefdi monn-

unum géfid. Ecki hefir þetta fólk svo undrast yfir sjálfu kraptaverkinu, því þeir vóru þessu álvanir af Frelsaranum, annars mundu þeir ecki hafa fært þenna veika mann til hans, heldur yfir því, ad hann læknadi med orda-tiltæki þessu, því þad hafdi á þeim døgum ecki heyrst, ad nockur madur hefdi vald til ad fyrirgéfa syndirnar, hvar-af Pharisæi tóku ordsøk til ad bera sér þá óhæfu í munn; ad hann gudlastadi. En hann sem auglýsti sitt vald til ad fyrirgéfa syndirnar med þessu kraptaverki, svo ad þeir, ed þad sáu, undrudust og prísudu Gud, er þvílíka makt hefdi mønnunum géfid, hann sami hefir og þetta vald í hendur fengid syndugum mønnum, sínum Postulum, svo sem vér strax heyrdum af Gudspjallinu, og ecki einasta þeim, heldur og øllum þeirra eptirkomendum, allt til veraldarinnar enda, Matth: 28, ad þeir í hans nafni fyrirgéfa syndirnar, ecki svo sem af sjálfum sér, heldur svo sem Christi þénarar, og rádsmenn Guds leyndardóma sem Páll vottar, 1 Cor. 4; en svo mikid, svo háleitt og svo guddómligt sem þetta vald er, svo vandfarid er og med þad, bædi fyrir þá, sem þad í hendi hafa, og svo hina, er undir því eru, ad hvørugir forgrípi sig á hans dýrdligri og ógnarligri hátign, sem ad er høfundur þessa mikla umbods; og fyrir því ad á þessu rídur øll velferd kristinna manna, (sem er ad fá kvittun syndanna), þá vil eg nú ad þessu sinni tala um þetta tvent, sem er: 1) hvør ad sé skylda þeirra, er ødrum eiga ad boda þeirra fyrirgéfníng, og 2) hinna, sem hana þiggja eiga. Gud styrki oss í þessu verki med nád síns góda Anda, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Tvent er þad, sem Christí þénarar eiga í þessu Guds eyrindi ad athuga, sem er: 1) ad ecki bodi þeir kvittun syndanna þeim, sem hennar eru óverdugir: 2) ad þeir haldi henni ecki fyrir hinum, er hún med réttu tilheyrir; hinir fyrri eru med tvennu móti; annadhvørt eru þeir fáfródir, edur og ógudligir og hardsvíradir; hverigum af þessum á rádsmadur Christí ad boda syndanna kvittun; ecki þeim fyrri, því sá sem etur og dreckur óverdugur, hann er sekur vid hold og blód Drottins, segir Páll, 1 Cor. 11; en sá étur og dreckur óverdugur, sem ecki reynir og prófar sjálfan sig, en hvørnin má sá reyna sjálfan sig, er ei þeckir syndina? en hvørnin má hann syndina þeckja án løgmálsins þeckíngar? án hvørs ad jafnvel St. Páll ecki þeckti ad girndin var synd, Róm. 7. Þad er øllum mønnum kunnugt, ad einginn fær kvitta syndina í himninum, utan hann beri ángur og trega fyrir hana; en hvernig má hann láta sig ángra þá synd, er hann þeckir ecki? og er þetta þó ecki nema helftin af skyldu vorri. Ecki er þad nóg ad þeckja syndina og ángrast af henni; litlu gagnadi þad Kain og Júdas þótt hinn segdi: mín synd er meiri enn ad hún fyrirgéfin verdi, Gén. 4; en þessi: eg hefi illa gjørt þad eg sveik saklaust blód, Matth. 27. St. Peturs, Matth. 26, Davíds, 2 Sam. 12, hinnar bersyndugu, Lúc. 7, og annarra svoddan manna þeckíngu, skal hafa, til þess ad fá syndina kvitta; þar fyrir, søkum þess ad blódid Jesú Christí hreinsar oss af øllum vorum syndum, 1 Jóh. 1, og ad í eingum ødrum er sáluhjálpin, Act. 4, þá kann einginn ad fá hjá Gudi lausn syndanna fyrir utan hans þeckíngu; og er þad ad sønnu ecki nóg ad menn viti, ad hann sé fyrir syndirnar dáinn, Róm. 4, heldur og ad tileinka sér hans forþénustu, og trúa því fastliga ad þad saklausa Guds Lamb hafi einnig sínar syndir í burtu-tekid, Jóh. 1. Þeim sem ecki er um þetta hvørutveggja aldeilis sannfærdur í hjarta sínu, hønum á Guds þénari ecki ad boda kvittun syndanna, heldur ad undirvísa hønum med allri kostgjæfni veg sáluhjálparinnar, og leida hann til Christum med heilsusamligri kénníngu. O, Gud gjæfi ad þessu vildu gjæta ecki einúngis

kénnimennirnir, heldur og þeir ed börnum og hjúum eiga ad undirvísa og uppala í aga og umvöndun Drottins, Eph. 6; þá væri eg viss um, ad ecki mundu svo optliga verda helgidómarnir hundum gefnir, Matth. 7, né perlum fyrir svín kastad, sem mig uggir ad á-stundum ské muni, fyrir vanræktar-sakir þeirra, er Gud hefir umbodid ad taka vara á slíku. Hvörju vill einn gálaus og tómlátur leigulidi svara hinum alvalda Konúngi á sídasta degi, þegar hann krefur sinna sauda blóds af hans hendi? en hann hefir forsómad ad undirvísa þeim, og ad gefa Guds hjúum í réttann tíma þad hönum byrjad hefir; hann hefir talad fyrir þeim þad sem var hégómi, haft fyrir þeim nockrar fánýtar spurníngar, sem lítt til sáluhjálpar gagna, til þess ad sýnast vid ad gjöra eitthvad, og ad fyrra sig vítum, en aldrei lagt hinn rétta grundvöll sáluhjálparinnar í mannanna hjarta, ei kénnt þeim syndina ad þeckja, ecki útlistad fyrir þeim hennar greinir og tegundir, ecki útmálad hvörsu ad hún er vidurstyggilig fyrir Gudi, ei sýnt þeim veginn til ad fá hennar kvittun, edur vakid ángur og trega fyrir sín afbrot í þeirra hjarta, né krapt hinnar sönnu trúar, er verkar fyrir kjærleikann, Gal. 5; og í þessari fákjænsku hleypur vesælíngurinn inn ad skrifta-stólnum og þiggur kvittun syndanna af prestinum, jafnvel þótt ecki sé hann henni nær, heldur enn einn heidíngi, sem eckert af Gudi veit né hans Christó, og í þessu uppelst hann, í þessu lifir hann, og í þessu deyr hann, og uppvaknar í helvíti og kvölunum, nema Gud vilji meiri miskun á gjöra, og ætlar sig þó ad vera full-kristinn, og ad sála sín muni strax í himininn uppfljúga, sem hún skreppur út af líkhamanum, af því einginn sagdi hönum þad, og einginn ad því fann, hvörsu sem hann var ófródur í sínum kristinndómi; þetta hid sama vil eg sagt hafa foreldrum og húsbændum, hvörjir í þessu vera eiga svo sem prestanna önnur hönd; því ef satt skal segja, þá er þad ofætlun fyrir einn Guds ords þénara, ad hann géti lagt hvört barn sér á kné, og öllum allt þad ként, sem þeir vid þurfa, sérdeilis í þessu fátæka landi; en ad hafa alvarliga umsjón hér-um, rannsaka hvernig þad tilgeingur, áminna þá sem eru hirdulausir, leidrétta þá sem villt fara, straffa þá sem móti mæla, vísa þeim út af Guds kyrkju og samneyti kristinna manna, er ecki láta sig leidrétta med hógværum anda, Gal. 6, þad á þeim ecki ad vorkynnast; en Gud nádi hvörja adstod þeir fá í slíku hjá allmörgum; óskandi væri ad ecki findust þeir ed reidast, ef ad slíku er fundid, og leggja hatur á Guds þénara, nær þeir vilja forda sálum þeirra vid eylífum helvítis píslum; þeir hafa þeirra gudrækiligar áminníngar í skimpi, og kalla þad presta-firrur og hlutsemi; hvar fyrir? af því þeir sjálfir eckert kunna, en skammast sín ad læra þad gamlir, er þeir nentu ecki úngir ad nema, og vilja heldur steypa sér og börnum sínum og hjúum í afgrunn helvítis, enn ad láta sig leidrétta; og er þad allt opkunnugt af fáfrædi hinna úngu í þessu auma landi, hvad lítid ad hinir gömlu kunna muni. O, þér skynlausar manneskjur! kallid þér ecki þad hid argasta mord, ef nockur fargar sínu lífs-afkvæmi vísvitandi, og þó er þad kjærleiks-dygd, hjá því, ad spara þeim þad, er þeim megi verdi til sálar-gagns, því þad er ad myrda sálina, hvör ad er med Guds blódi endurkeypt, Act. 20; og er miklu minni synd ad bera út börn sín nýfædd, sem þó er hinn versti glæpur, því þá eru þau undir Guds miskunsemi, heldur enn ad klekja þeim upp Fjandanum til þjónustu. Hafid þér ecki heyrt, hvörsu ad Drottinn

varð reiður þeim, er offruðu börnum sínum Mólóch fordum daga, Levít. 20, og létu þau gánga í gégnum eldinn þeim andskota til dýrkunar? Devt. 18; en hvað gjöra þeir betur sem láta sín börn uppalast í öllu reiðilevsi? vitið þér ecki að þér hafið þau í syndinni gétið og fædt? Ps. 51; hvað liggur þá annað fyrir hönum sem af náttúrunni er reiðinnar-barn, Eph. 2, heldur enn eylífliga að fyrirfarast, nema hann læri hinn sanna kristindóm, svo að hann megi umflýa tilkomandi reiði? Þér segið vel, þau eru í skírninni endurfædd og Guðs börn vordin; það er vel, en hvörsu illa kénnið þér þeim að halda sinn skírnar-sáttmála, nær þau aldrei fá að vita hvað skírnin er, eður hvað þeim er veitt í henni, hvörju þau hafi þar Guði lofað, eður hvernig þau eigi að bera sig að halda það, eður fá þess kvittun, er þau afbrjóta? O, vei! ó, vei! hvörsu aumur er þessi kristinndómur; bæriligra mun einum Tyrkja verða á dómsins degi, enn slíkum foreldrum; og eg vil hafa þetta sagt til þeirra einúngis, sem hirðulausir eru um velferð sína og sinna, og meina að Guð hafi gefið sér börnin, alleina til að leika sér að, en ecki til hinna sem leggja nockra rækt hér við, er Guð gjæfi að sem flestir væri. Hinir aðrir sem Guðs þénarar eiga syndunum aptur að halda, eru þeir, sem kannské hafa nóg vit á því er þeir eiga að trúa og gjöra, en lifa aldeilis ecki þar eptir, heldur gánga fram í allskonar syndum og glæpum ydrunarlaust, forsmáandi Guð og hans dýrmæta orð, og hafandi að eingu það þeim sagt verður í Guðs stað. Slíkir eiga með réttu eckert samneyti að hafa með öðrum Guðs börnum, hvörjir helzt sem þeir eru, ríkir eður fátækir, vesælir eður voldugir; því ef Páll segir, 1 Cor. 5, að ef nockur sá er bróðir (það er kristinn) kallast, sé frillulífis-maður, lastmáll, ágjarn, skúrgoða-dýrkari eður þess-háttar, þá skuli menn einga umgeingni með þvílíkum hafa, þá er það augljóst, að þvílíkum á ecki synda-kvittun að boða, nema þeir ydrist af hjarta og afláti glæpunum; og sá kénnimaður, er segir þeim sínar syndir kvittar í Guðs stað, hann lýgur uppá Guð, er hann leysir það, sem Guð hafði hönum aldrei umboðið, hann tekur fram fyrir hendur á Krist, sem menn plaga að segja, og gjörir hann að þeim Guði, sem að þóknast óguðligt athæfi, Ps. 5. Stór vandi liggur á einum kénnimanni í slíku, ef hann vill finnast trúr. Ecki segi eg, að þeim skuli frávísa aflausn synda sinna, sem misgrunaður er um einhvörn glæp; það má hinum besta manni gjöra; ein skjæð túnga kann snarliga að ljósta upp einhvörjum óhróðri um góðan mann, hvar til þúsund dæmi eru; slíkt á að eingu að hafa, heldur að afstýra svoddan vondu umtali um náúngan. Einn Guðs þénari á að vera vandlætíngasamur, en þó með skynsemi, og ecki byggja svo viktugan hlut, sem að er lykla-valdsins brúkun, á hvörjum þvættíngi, Róm. 10; en þessa þarf ecki við, br. m., þar eru opinberir lestir og skammir, sem að eingu eru aktaðir, hverki að þeim eð þær fremja, og kanské ecki heldur svo sem vera ætti af sumum, sem það ættu að straffa. Hvernig mun það tilgánga með Guðs heilaga nafns vanbrúkun meðal óhlutvandra manna? með iðkun hans heilaga orðs? munu ei finnast þeir eð hafa þann dýrgrip að athlátri og í fíflskapar-málum? Hvað er tíðara enn óhlýðni og ótrú barna og hjúa við foreldra og húsbændur, vond forlíkun milli hjóna, harðýðgi yfirboðaranna við hina aumu og vesælu, sem undir þeirra valdi eru, svo menn láta vargana hlaupa frí, en straffa dúfurnar. Hatur og úlfbúð eru orðin að kallmensku og hugprýði, menn bera það ecki einúngis heimugliga með sér í hjartanu,

hvar um kénnimadurinn ei kann ad dæma, heldur sýna þad dagliga í verkunum, í ordunum, í umgeingninni, okur og ásælni, miskunarleysi vid hinn volada og naudstadda, bakmælgi og illur munnsöfnudur vid náúngan: allt þetta eru daudligar syndir og má öllum kunnugt vera, ad þær ei verda fyrirgéfnar í himninum, nema menn ydrist þeirra á jördunni, og þad vita Guds þénarar, ad fyrir slíkt kémur hans reidi yfir þá ed þad fremja, Eph. 5. Nú segi eg þad ecki, ad menn skuli strax framvísa þeim, er í þessu kunna. sekir ad finnast, ef þeir sýna á sér nockur ydranar merki, jafnvel þótt betrunin verdi ecki í einu svo merkilig, hitt segi eg, ad þeir eiga þvílíka syndara med allri alúd og kostgæfni ad áminna, og leidrétta þá med hógværum anda, er fundnir verda í nockurri hrösun, Gal. 6; fyrst í ein-rúmi; vilji þeir ecki þar-vid skipast, þá í tveggja gudhræddra manna vidurvist; láti þeir enn þá ecki af, né leitist vid ad betra sig, þá veit eg ei betur enn svoddan þverbrotnum manneskjum eigi syndirnar aptur ad haldast; þad kénnir oss ecki einasta Drottinn Jesús, Matth. 18, med þessum ordum: ef þinn bródir syndgar á-móti þér, þá far þú og átel hann á-milli þín og hans; ef hann heyrir þér, þá hefir þú áunnid þinn bródur; en ef hann heyrir þér ecki, þá tak med þér einn edur tvo, svo ad í munni tveggja edur þriggja verdi öll ord stadfest; en vilji hann ecki þeim heyra, þá seig þad söfnudinum, en vilji hann ecki söfnudinum heyra, þá halt hann svo sem heidíngja og tollheimtumann; heldur er og þessu aldeilis samhljóda konúngligt lögmál í þessum löndum og ríkjum um þau afbrot, sem ecki verda svo hentugliga med veraldligum rétti strøffud; og ef Drottinn skipar einum af söfnudinum þannig ad breyta vid þann, er honum á-móti brýtur, hvad miklu heldur mun þetta sagt vera kénnimönnunum, sem í Guds stad vandlæta eiga; taki því ecki einn Drottins þjón vara á slíku, þá er næsta hætt vid, ad hann gjöri sig hluttakara í annarligum syndum, og hafi samfélag vid ófrjóssöm verk myrkranna, þvert á-móti Postulans bodi, Róm. 1. Og er þetta nú sagt um þá, sem Guds þénarar eiga ad aptur halda syndina; en þar fyrir hefi eg um kénnimannanna skyldu talad í þessum stad, ad einginn hati þá edur óvirdi, þótt þeir gjöri skyldu síns embættis í slíku, þar þeim er svo mikill vandi á hendi.

Hverjir ad hinir séu, er syndina skal leysa hjá, er audsært af því sem allareidu er sagt um hina, sem er alla syndugá menn, hversu herfiliga edur stórkostliga sem þeir syndgast hafa móti Gudi; já, hversu lengi sem þeir hafa velt sér í syndunum, þá sem ad fulla grein hafa á ad reyna og prófa sjálfa sig, og láta sig af hjarta syndirnar ángra, og losa umbót med sannri trú á Christí forþénustu; því hinn nádugi Gjæskunnar-Brunnur vill eingan þann frá sér reka, sem til hans kémur, Jóh. 6; því kalladi hann hárri raustu fordum daga og sagdi: komid til mín allir þér sem erfidid og þúnga erud þjádir, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11; og gyldir þetta ecki einasta um þá, sem enn-þá eru fullhraustir og kunna framvegis ad betra sig, heldur og um hina, sem fyrir daudanum liggja, og jafnvel þá, sem málinu tapad hafa, ef þeir eru med rænu, og einn adgjætinn Drottins þénari merkir þeirra hjartanliga eptirlaungun, ángur og trega fyrir syndirnar; hvíad á hverjum tíma, sem

hinn ógudligi snýr sér frá sínu ógudligu athæfi, þá skal hann lifa og ecki deya; allra hans synda skal ecki ad eylífu minst verda, segir Drottinn, fyrir munn Ezechíelis í 18 kap.; og þótt hinn nádugi Gud, sem allann daginn útbreidir sínar hendur til óhlýdugs fólks, Esa. 65, sé jafnan reidubúinn ad taka vid syndaranum, nær hann ydrast af hjarta, þá eru hans djúpu miskunar idur þó aldrei nákvæmari enn í daudanum, því þá veit hin eylífa Gjæska, sem ecki vill syndugs manns dauda, ad ecki er tími til ad draga nádina undan. Og er þetta nú þannig sagt um þad helsta, sem ad Guds ords þénarar eiga ad taka vara á í þessu háleita efni; en fyrir því ad margur einfaldur, edur og svo hirdulaus kann ad steyta sig á þessu nádarinnar frelsi, þótt aldrei gjöri kénnimadurinn sitt embætti svo athugasamliga, þá verd eg og nockud hér-um ad tala, og þad þess heldur, ad Andskotinn er þúsund véla smidur; vinni hann eckert á þá einu síduna, þá leitar hann á hina: þessir eru og med tvennu móti; annadhvört eru þad þeir, sem af hirduleysi og ofrausti meina, ad þeir fái kvittun syndanna, ef presturinn þeim hana alleina tilsegir í Guds nafni; edur og hinir, sem vegna fjölda og stærdar-sinna misgjörda fá því varla trúad, ad Guds þénari hafi vald hér til, þótt þeir ydrist. Hvad vidvíkur hinum fyrra hópnum, sem vera mun öllu stærri, þá viti þad sérhvör einn, ad líka sem Kristur sagdi vid lærisveinana fordum, Lúc. 10: hvör ydur heyrir, hann heyrir mér, og meinti þó alleina í þeim hlutum, sem þér bodid í mínu nafni og eptir minni skickan; svo er því og varid, ad ef nockur Guds ords þénari, bodar þeim kvittun syndanna, sem ecki ydrast og ecki trúa á Guds Son og hans forþénustu, þá er hans þjónusta ónýt, og verdur bádum þeim til dóms-áfellis; prestinum, ef hann þad veit, en hinum, þótt presturinn þad ecki viti; því má hvörs eins samviska bera hönum ljósast vitni hér-um; en ef presturinn afleysir ógudligan, án vitundar sinnar, þá er hans þjónustu háttad eins og einum dómara, þeim ed gengur rángan dóm eptir fölsku vitni; samt er ecki dómurinn réttur, þótt hinn, er dæmdi, sé saklaus; svo er og þess blód yfir hans höfdi, Ezech. 33, sem játar syndir sínar fyrir prestinum, en þó ecki af hjarta edur med verdugri ydran; en Guds þénari er syknsaka, jafnvel þótt hans þjónusta sé ógild í himninum, sökum þess ydrunarleysis, er hana þiggur. Þad er næsta fávísligt, ad einn syndari meinar, ad sér verdi sínar yfirtrodslur fyrirgéfnar, þótt ecki ydrist hann þeirra, edur hafi nockurn ásetníng edur vidleitni til ad betra sinn lifnad, ef kénnimadurinn alleina leggur hönum hönd í höfud, og bodar þeirra kvittun. Gjær þess, ó, aumur madur! ad einginn hefir meiri myndugleika enn sá vill, er hönum gaf hann. Nú er þad víst, ad Gud tekur ecki vid syndaranum, nema hann láti sig ángra syndirnar og lofi ad betra sig; þad skal aldrei finnast í allri ritníngunni, ad Gud lofi nád sinni nema ydrandi manni; hvernig villt þú þá vænta þess af kénnimannsins hendi, sem Gud hefir hönum aldrei í hendur fengid, og hann ecki sjálfur vill edur kann gjöra vegna síns stránga réttlætis, sem hönum eins skyldt er og miskunsemin; og má þad þér ecki gagna, þótt ad presturinn sé þér samvitandi í hirduleysinu; lát hann ei draga þig á tálar, þótt hann eigi ad vita betur enn þú, því hann gjörir í því And-

skotans og ekki Guds verk, ad boda þeim kvittun syndanna, sem hennar er óverdugur. Þad er Djöfulsins slægd, ad gjöra lítid úr syndinni fyrir manninum, og kalla ad menn megi komast af vid Gud, med eintómri játníngu edur útvortis hegdan líkamans. Vara þig í Guds nafni! vara þig! slíkt vill þér lítid gagna á þinni dauda-stundu; því hinn ógudligi skal deya fyrir sínar syndir segir Drottinn, Ezech. 13, jafnvel þó hinn réttláti Gud vilji krefja hans blóds af þess kénnimanns hendi, er forsómar ad segja hönum til syndarinnar.

Þad er merkiligt, sem hér stendur í gudspjallinu, ad ádur enn Drottinn fékk lærisveinunum í hendur lykla-valdid, þá blés hann á þá og sagdi: medtakid heilagann Anda! Nú þótt Andans gáfa sé ekki svo rík á þessum dögum hjá Guds þénurum svo sem hún þá var, þar vitnisburdurinn Jesú Christí er vidtekinn af öllum þeim, er kristnir kallast, og jafnvel af þeim medkéndur, sem ekki eptir hönum lifa, samt er einginn efi á því ad Guds Andi er í þeim og verkar med þeim, sem hann þar um bidja af hjarta, og rækja sitt embætti. En hver sem ad bodar ydrunarlausum kvittun syndanna, og hann veit þad, hann talar ekki af Guds Anda, því Andans embætti er ad straffa heiminn um syndina, Jóh. 16; en ekkert er stjórnleysi meira, enn ad segja þá synd kvitta sem ei er, og sá þad gjörir, hann stjórnast ekki af heilögum Anda, heldur dregur bædi sjálfan sig og adra á tálar. Nú kann einhvör ad þeinkja: fyrst ad kvittun syndanna er þar í fólgin, ad madur ydrist þeirra og trúi Krists forþénustu, hvad þarf eg þá prestsins þjónustu vid? mér nægir þad, ad eg ydrast og trúi. Eigi er hún þar fyrir gagnlaus, kristinn madur, heldur ómissandi, því fyrir utan þad, ad margur er veikur, margur trúarlítill, margur sturladur, margur freistadur, margur efasamur, þá eru þetta Guds ord og fyrirheit. Hver ert þú þá, sem forsmáir Christí skickan? veitst þú betur hvad syndugum manni gagnar til sáluhjálpar, heldur enn hann sem þér hefir hana afrekad med sínum dauda? Þad er víst, ad Gud bædi vill og kann ad gjöra þann hólpinn, sem ekki nær heilagri skírn, en hvör sem hana forsmáir, þad verdur hönum til fordæmíngar, og vidlíkt er í þessu: sá sem ei kann ad ná prests fundi, þá er hönum þad fullt, ad Guds Andi uppvekur í hönum sanna ydran fyrir syndirnar og trúna á Jesúm, og hann hefir nóg í hinni andligu nautn, er Drottinn um-talar hjá Jóhannem, kap. 6, segjandi: hvör sem etur mitt hold, og dreckur mitt blód, hann skal ekki daudann smacka ad eylífu, undir hvörja ad Andi Drottins afleysir hann med þeim vitnisburdi ad hann sé Guds barn, Róm. 8; en sá sem forsmáir þau medöl er Guds Sonur hefir skickad og innsett hér til, edur þykist þeirra ei vid-þurfa, hann má ei kristinn mann nefna; en þad munu þeir einir þykjast gjöra mega, er syndin ekki mjög til hjarta gengur, og heitir þad þá svo, ad heilir þurfa ekki lækn-arans vid, Matth. 9. Hinir sem ad hún er ofþúng byrdi vordin, svo ad þeir hafa ekki frid í beinum sínum fyrir henni, Ps. 38, þeir munu alls-hugar fegnir verda þessum miskunar ordum: hvad þér leysid á jördu, þad skal á himnum leyst verda, Matth. 16; þeir þyggja med allri hjartans audmýkt eina huggunar-grein af

munni Guds ords þénara, svo sem einn svala-dryck af Guds nádar-brunni uppausinn. En hvørjir eru hinir? eg óttast þad muni meir vera dofi samvitskunnar, heldur enn heilbrigdi, er þeir reida sig uppá. Eg hefi talad vid suma menn, sem hafa látid sér um munn fara, ad þau ord er standa í vorum skriftagángi: eg er hin syndugasta og svívirdiligasta manneskja, sem verda má, bædi fyrir Gudi og mønnum, þau vildu þeir ecki svo vidkannast, því ad þeir væru fríir fyrir sumum glæpum, sem adrir drýgja, og sýnist þess-vegna ad þad sé nockurskonar hræsni fyrir Gudi ad játa sig ad vera hinn stærsta syndara; en eg óttast ad slíkt komi nockud af rannsóknarleysi sjálfs síns; hver þeckir mannanna hjørtu nema sá sem þau skapad hefir? hver kann ad vita hversu mikla krapta einn hefir til ad mótstanda syndinni, nema hann sem þá gefid hefir? hvør veit nema eg sé stærri syndari, sem hann meira lánad hefir, heldur enn hinn, sem ad verr lifir fyrir mønnunum? Eg sé margan drýgja þær syndir, sem eg vil bidja Gud ad vardveita mig frá, en kanské ad minn skapnadur sé þannig, ad eg hafi vidbjód á þeim, og er þad ecki mér ad þacka, en lifi þó eptir girndum mínum í ødru, sem eg er lundlaginn á, og hann er ecki géfinn fyrir; verda má og ad hann hafi ecki þegid svo mikla Andans nád til ad strída í gégn syndinni sem eg. En hvorsu opt mótstend eg nú Guds Anda, þegar hann minnir mig á ad gjøra þad ecki, sem eg kalla litla synd, edur láta af því sem eg er vanur til, en þykir ecki stórt í-spunnid vera? Þegar eg þetta skoda, þá vil eg sjá til hvort þessi synd kann ecki ad verda svo fordæmanlig í Guds augliti, svo sem hid versta mord hjá þeim, sem ad Gud kanské ecki enn þá svo alvarliga tuktad hefir med strøffum síns Anda; og hvernig sem þessu er varid, þá veit eg eitt, ad einginn veit betur hvar skórinn ad hønum kreppir, heldur enn sá, sem hann ber á fætinum. Svo þecki eg og hjá eingum fleiri syndir enn hjá mér, því eg er eingum svo margra samvitandi, og þad munu allir segja, er rannsaka hjarta sitt ítarliga; en séu þar adrir syndugri, þad veit Gud, eg veit þad ecki; og fell eg þá í forundran yfir hans gjæsku og þolinmædi yfir þeim, því mér þykir varla mega á þad auka ad hann mig sparar. Hér segist og ecki: eg hefi allar syndir drýgt, heldur: allskyns. Margur er sá ed ecki hefir mann vegid, ecki kreinkt síns náunga hús-frú, ecki stólid med leynd, ecki fals-vitni borid; en sá sem vill segja, ad hann ei hafi drýgt neitt þvílíkt, hann ségir undir eins, ad hann hafi þessi bodord haldid, sem eg þori ad segja valla muni nockur vera; og því er þessi játníng rétt, og ecki einasta rétt, heldur þarflig hvørjum kristnum manni; og hafi menn ecki annad til dæmis hér-um, þá hafa menn ord Páls, er hann segir: þad er sannarligt ord og í allan máta verd-ugt ad medtakast, ad Jesús Christus er kominn í þenna heim synduga menn sálu-hólpna ad gjøra, á-medal hvørra eg em hinn mesti, 1 Tím. 1. Og er þetta nú sagt um þá, sem ad kald-sinnadir eru í þeirra játníngu og ydran fyrir Gudi; en þótt ad hinir, sem ad ofbýdur stærd sinna illgjørda, og Guds reidi, er þeir forþénad hafa, þótt þeir, segi eg, séu nær Guds ríki, þá er þeim samt næsta hætt, nema þeir stjórnist af Anda Drottins, sem býr í hans ordi, því Djøfullinn er slægur; svo sem hann kann ad minka syndina fyrir hinum tómláta og hirdulausa, svo gétur hann

og styrkad hana fyrir hinum ángráda og hugsjúka. En lát þér til hugar koma, Guds barn! ad þad eru ecki kraptar þinnar náttúru, sem ad uppvekja í þér svoddan trega, heldur er þad Andi Guds, sem ad straffar syndina þér til leidréttíngar, hann sem ad sært hefir hjarta þitt med broddi lögmálsins, Os. 6, hönum er ecki um megn ad græda þig med smyrslum Evangelií. Sá sem vill gjöra einhvörn kostuligan grip af gullinu, hann smeltir þad ádur med eldinum; svo lætur Guds Andi þitt hjarta brádna í þér svo sem annad vax med þeckingu syndarinnar, svo þú verdir þess kostuligri í Guds augliti, nær hann svalar þér aptur med huggun sinni. Sá sem meir er fyrirgéfid, hann elskar meir, sagdi Drottinn fordum vid Símon, Lúc. 7; enn þú veitst ecki hvad mikid þér er fyrirgéfid, nema þér hitni alvarliga um hjartaræturnar, út af tilfinníngu eylífra písla, sem þú hefir forþénad. Vert þvi efalaus um kvittun synda þinna, nær þú ert svo á þig kominn; ad sönnu er þad satt, ad stór sár þurfa mikla grædslu, og ad syndir vorar séu hin verstu sár, þad verdur ei útskafid; en Davíd segir: forlát mér synd mína fyrir þíns nafns skuld, því hún er mikil; séu þær nú miklar, þá er þó hans nafn meira, hvörjum Gud hefir géfid nafn yfir öllum nöfnum, Phil. 2; hvört er hans nafn? eylífur Fadir og Fridar-höfdíngi, Esa. 9. Þar fyrir, svo sem fadirinn er börnunum líknsamur, svo vill hann vera oss miskunsamur. Hans nád yfirgnæfir allan skilníng; þar fyrir kann syndin aldrei ad vekja svo mikla styrjöld í ángrádu hjarta, ad hvar sem ad hún yfirgnæfir, þar yfirgnæfi þó nádin miklu framar, Róm. 5. Gud bó ecki til þess, ad þú skyldir örvænta, heldur trúa. Meira kostadi hann ad gjalda fyrir þínar syndir heldur enn fyrirgéfa sídan. Bæt þess vegna ecki því ofan á allar þínar syndir, ad þú gjörir hönum þann órétt, ad hann sem þoldi hinn smánarliga dauda og bitrustu helvítis-píslir fyrir hinar verstu og hrópligustu skammir sinna óvina, hann muni burtu reka frá sér einn ydrandi syndara sem til hans kémur í nafni hans forþénustu. Hverki ydranina né trúna tekur þú af sjálfum þér; hann sem kveikti í þér ydranina, hann mun ei láta trúna vanta, því hann veit ad hin er ónýt án þessarar. Þar fyrir, nær þú hefir hinn mesta óþocka á sjálfum þér, þá ert þú Gudi hvad þeckastur, því meiri gledi er í himninum yfir einum syndugum, sem ydran gjörir, heldur enn yfir 99 réttlátum, Lúc. 15. Nú þecki eg suma menn, og hefi þeckt, sem ad sönnu ecki efast um krapt og verdugleika Jesú forþénustu, né Guds ómælanliga miskunsemi, ad þeim muni syndirnar fyrirgéfast, ef þeir gjöra verduga ydran, en þad liggur þeim yfirmáta þúngt í skapi, ad þeir fái ei svo heita ydran gjört, ad hún sambjódi stærd og fjölda syndanna, af því þeir eru sér hinna verstu glæpa og bodorda-brota medvitandi, en þeir fái ecki svo hjarta sitt í-sundurmarid med lögmálsins hamri, sem hönum líki, er ecki býr nema í sundurknosudum hjörtum, Esa. 57; og er þetta ad sönnu ecki ófyrirsynju, því eiga svoddan manneskjur ad kosta öllum sálar og lífs kröptum til ad sundurslíta og plága hjarta sitt med idugligri minníngu þeirra glæpa er þeir drýgt hafa, og ecki sídur gjæsku Drottins, er þeir hafa styggt, heldur enn hans reidi, og mun þess-háttar manneskja fyrir idugliga bæn og vana, án alls efa fá girnd

síns hjarta af honum, er þessi fórn alleina líkar, Ps. 51. En þótt ad tárin renni ecki af augunum, þá er þad á stundum náttúrunnar brestur, og heimtar Gud þad af eingum, sem hann hefir ecki géfid honum. Nóg er þad, ef hinn innri madurinn klagar sig, ásakar, sakfellir og straffar; enn ef þér virdast þínar syndir enn þá stærri, enn ad þér líki vid sjálfan þig, þá vit ad þetta er hin þægiligasta og mesta yfirbót hjá Gudi, sem af þinni hendi má framkoma, og munt þú heyra med St. Páli: lát þér nægjast mína nád, minn kraptur er í breiskum máttugur, 2 Cor. 12; og er ei ólíkt, ad hinn alvísi Gud gjøri þér slíkt til góda, því ef þú þættist hafa ad fullu ydran gjørt fyrir syndirnar, þá má ské, ad þér væri hætt vid ad falla til þeirra aptur. Halt þér þess vegna vid hans miskunar fætur, og slepp honum ecki fyrr enn hann hefir blessad þig! Hér er oss gott ad vera, sagdi Petur, þegar Jesús forkláradist á fjallinu helga; vér viljum gjøra hér þrjár tjaldbúdir, þér eina, Mósi eina og Elíæ eina, sagdi hann, Matth. 17. Eg gledst ad sonnu med Petri af þessari dýrdar-sjón, 2 Petr. 1, og dáist ad henni í allan máta, en þori þó ecki ad óska mér hinnar somu, á-medan eg ber eptir mér líkhama þessa dauda, þenna fúla synda-seck, þenna vonda ham, fullan allra girnda og lasta, því eg kvídi vid ad mín syndug augu, er svo margt ílt hafa séd og vænt um þótt, ad þau mundu ecki standast þann himneska dýrdar-ljóma; mér mundi hid sama í hug koma og Manóha sagdi fordum daga vid kvinnu sína: vid høfum séd eingil Drottins, því munum vid eflaust deya, Júd. 13. En mætti mér þad heppnast, ó, Herra Jesú! sem hinni bersyndugu fordum, ad skrída ad þínum blessudu fótum, og þvo þær í tárum míns hjarta, og smyrja med oleó minnar ydranar, Lúc. 7, þá vilda eg segja: hér er mér gott ad vera, þar vil eg flatur liggja, þadan skal mig einginn draga, þar skal mig einginn fordæma, þar skal einginn mér um mínar syndir brígsla, heldur mun eg heyra þau fagnadar-ord: honum fyrirgafst mikid, því hann elskadi mikid; far í fridi, þín trúa gjørdi þig hólpinn. O, Herra! þegar vér køstum oss flatir til skarar fóta þinna, Ps. 110, ecki med óvinum þínum, heldur med þessari saka-konu, þá lát þinn góda Anda mæla þessi huggunar-ord í vorum hjørtum. Bænheyr þad nádarfulli Gud, fyrir Jesú þíns Sonar forþénustu, og géf oss þar til þessa þíns sama Anda styrk, og adstod í hans nafni, amen!

## Annann Sunnudag eptir Páska.

Gudspjallid, Jóh. 10 Kap.

Jesús sagdi til Gydínganna: eg em gódur hirdir. Gódur hirdir gefur sitt líf út fyrir sína saudi, en leigulidinn og hann sem ecki er hirdir, hvers ad saudirnir eru ecki eiginligir, nær hann sér úlfinn koma, þá yfirgéfur hann saudina, og flýr í burt. Og úlfurinn gripur saudina, og sundurdreifir, þeim; en leigulidinn flýr, af því hann er leigulidi, og gjætir ecki saudanna. Eg em gódur hirdir, og eg þecki mína saudi, og eg þeckist af mínum; svo sem Fadirinn þeckir mig, og eg þecki Fodurinn, og eg legg mitt líf út

fyrir mína saudi. Eg hefi og adra saudi, sem ei eru af þessu sauda-húsi, þá byrjar mér og hér til ad leida, og þeir munu heyra mína rødd. Og þar mun verda eitt sauda-hús, og einn hirdir.

## Exordium.

Í fyrra pistli til Tím. 3, segir Postulinn, ad þad sé mikill leyndardómur gudhrædslunnar, ad Kristur sé heidíngjunum prédikadur. Gudhrædslu nefnir hann hér kristindóminn, svo sem vídar annarstadar í sínum pistlum, þad er hinn sanna lærdóm um Frelsara heimsins. Þad er sú glediliga hirdirsins raust, er Drottinn talar um hér í Gudspjallinu, hvør og hefir fagurt látid á medal vor, því segir hann: eg hefi og adra saudi, sem ecki eru af þessu sauda-húsi; í hvørjum hann bendir til spádóms Ezechíelis, 37 kap., hvar Drottinn svo talar: minn þjón Davíd skal vera konúngur yfir þeim, og þeir skulu allir hafa einn hirdir, ad þeir gángi í mínum réttindum. Glediligt er þetta ad heyra, br. m., fyrir þad fólk er sat í myrkrunum, Esa. 9, og fyrir þeirra eptirkomendur, sem erum vér; en svo glediligt sem þad er, svo hrygggiligt er til þess ad vita, ad þeir eru svo fáir, sem þad vill rætast á, nú á þessum verstu og sídurstu døgum, því svo fegins hendi sem ad margir af heidíngjum tóku á-móti hinu fyrsta kristni-bodi, svo fáir eru nú þeir vordnir, sem ecki drepi hendinni vid þessari Guds nád; og svo sem ad Kristur fann varla þann, er hann þeckti í sínni fyrri tilkomu, svo er ad ugga, ad hvad sem hann tefur úr þessu ad koma, þá muni hann valla finna trú á jørdu, Lúc. 18, edur þá, er hann þecki fyrir sína. Og fyrir þad, ad þad er svo almennt vordid, ad daufheyrast vid raustu hins góda Hirdirs, þá vil eg út af Evangelíó tala um þá hluti, er kunna ad uppvekja oss til ad ljá henni vor eyru, svo ad vér ecki út af sofnum í daudanum. Géf oss þar til þinn Anda, himneski Fadir! fyrir Jesú forþénustu, amen!

## Utleggíngin.

Vakna upp þú sem sefur, og rís upp af daudanum, segir Postulinn, Eph. 5, svo mun Kristur upplýsa þig. En hvar vid skyldi sá vakna, er sefur í syndunum? hvar vid skyldi hann upprísa, sem er daudur í þeim? nema vid raust hins góda Hirdirs, er sagdi fordum daga, þá hann framsetti eptirlíkínguna um sædid, Matth. 13, hvørt ad er Guds ord: hvør eyru hefir ad heyra, hann heyri. Guds rødd er þetta en ecki manna, sagdi fólkid, þad er heyrdi á tal Heródes, af því hann taladi svo snjalt, Act. 12; en eg má þad øllu heldur færa heim til þessa góda Hirdirs saudanna, þess Biskupsins med þá vellærdu túnguna, Esa. 50, þad eru Guds ord, en ecki manna er hann talar, og þykist eg nóg hafa sagt, þegar eg segi, ad þad Guds ord séu. Þú syndugur madur, er þetta heyrir, lát þér þad til hjarta gánga, og hugsa hvør sá er, sem vid þig talar; þad er einginn jardneskur høfdíngi, ecki konúngur edur keisari, og mundir þú þó heyra þá med hinni mestu athygli, en þad er Drottinn himins og jardar, sá ed hefir konúnganna hjørtu sér í hendi, og øll verøldin leikur fyrir hønum á reidi-skjálfi, þegar hann talar, Ordskv. 21. Mikill má vera munur Abrahams forfødurs og þín, ad þegar hann taladi vid Drottinn og þó í manns-líki, þá vard hann svo audmjúkur, ad hann sagdi: nú vilda eg þó tala vid Drottinn þótt ad eg sé mold og aska, Gén. 18; og rak sá Guds madur þó annara eyrindi og ecki sitt í þad sinn; en þú, sem ad liggur hrasadur medal ræníngja, Lúc. 10, og getur þér einga bjørg veitt, já, þú, sem veltir þér í syndunum dagliga, eins og einn madur í

sinni hvílu, þú villt ecki heyra þegar Drottinn kallar í sínu heilaga ordi. Hugleid, ad ef þú ættir ad taka eyrindi nockru af høfdíngja einhvørjum, og þú svaradir hønum øllu ødru enn því sem til þess heyrdi, edur þú létist þad ecki heyra, mundi hann ecki brádliga reidur verda og reka þig á dyr, edur láta í fjøtur kasta? O, hvad mikid skilur þá Gud og mennina? hvørsu opt kallar hann oss fyrir sig í sínu heilaga ordi? hvørsu opt verda oss hans eyrindi á hendur falin? hvad tídt býdur hann oss hvad vér gjøra skulum og ógjørt láta? en þad gengur eins fyrir mørgum af oss, eins og Sýrach skrifar um hinn heimska, ad þad er eins vid hann ad tala og þann ed sefur, nær þú hafdir lokid rædunni, spyr hann eptir hvad þú sagdir, Sýr. 22. Eins gengur þad mørgum þeim ed ordid heyra edur lesa; menn muna þad varla medan þad heyrt edur lesid er, auk heldur ad þeir færi þess nockurn ávøxt, rétt eins og St. Jakob talar hér=um, ad ef nockur er ordsins heyrari og ecki gjørari, hann sé líkur þeim manni, er sinn náttúrligan ýfirlit í speigli skodar, Jak. 1; því hann skodadi sig, géck burt og gleymdi hvílíkur hann var; svo sjáum vér (ef vér þó sumir ad því gjætum) í heilogu Guds ordi, hans gjæsku og vora ílsku, hans þolinmædi og vora þvermódsku, hans óútsegjanligan kjærleika og vort hatur og leida, sem vér berum til hans réttinda, en vér gleymum því svo fljótt, ad þad hefir lítinn stad hjá oss til aptur=hvarfs frá syndunum, né lifnadarins leidréttíngar. Gjætum þó ad því í Jesú nafni, gjætum ad hvørsu dýrmætt ad þetta ordid er, og hvad mikid þad hefir kostad oss ad birta; þad er ecki eins og þad ordid, er Gud taladi í upphafi, og skóp þar med himin og jørd, Gén. 1; ecki eins og þad hann taladi til vorra fyrstu foreldra, er hann straffadi þau fyrir syndina, og rak þau út af Paradís, Gén. 3; ecki eins og þad hann taladi til Israels sona í eydimørkinni, og þeir beiddust undan ad heyra þad, Exód. 20: heldur er þad lífsins ord, Jóh. 6, fyrir hvørt ad Guds Sonur hefir uppá sig tekid vort auma hold og blód, og í þessu sama holdi lidid allar eymdir mannligs holds, húngur, þorsta, klædleysi, útlegd, ørbyrgd, hádúngar og brixli ógudligra manna, offsóknir, fjøtur, hráka, húdstrokur, høgg og sløg, og ad sídurstu hinn smánarliga dauda á krossins gálga. Allt þetta vann hin eylífa Hátign til þess ad opinbera þetta lífsins ord sínum fjandmønnum, er gengid høfdu í sveit med Andskotanum; og þó skammast sín ecki einn gjálífur og þverbrot=inn syndari ad troda þessa Guds gáfu undir fótunum, lætur naudga sér til ad heyra þad og læra, og kallar þeim veitt í, sem Guds Sonar umbod á hendi hafa, ef þeir fá þrýst hønum til ad sýna sig undir heyrn Guds orda; seig mér, þú sem ekur þér vid ad sitja undir einni predikun, hvert mun Guds Son hafa kostad meira ad fá sitt ord þér opinberad, edur þig ad heyra þad? þú munt nærri géta, er þú les hans píslar=søgu, hitt veit eg, ad hann lángadi til ad lída allar þær kvalir, sem þar í ritadar eru, þinna vegna, en hvert þig lángar svo til ad heyra þad ordid af krossinum, þad bid eg sjálfan þig ad hugleida. Segid mér enn aptur, hvers vegna mun hinn gódi Gud hafa unnid svo mikid til aumra manna sáluhjálpar? þurfti hann þess sjálfur vid? fjærri sé því! himnarnir útskíra hans dýrd, og festíngin verk hans handa, Ps. 19; mundi hann hafa lidid nockurn skort á dýrd sinni, þótt manneskjan hefdi eylífliga kvalist í helvíti? nei! eins vegsamligt hefdi verid hans réttlæti, svo sem nú er hans gjæska, þótt eingum hefdi hann miskun=

mad; er hønum nockud veitt í vorri þjónustu? lángt frá! þar standa frammi fyrir hønum ótal þúsund himneskra herskara, sem lofa hann og prísa án afláts nótt og dag, hverra dýrdligar raddir og lofsaungvar lángt yfir=gánga vort syndugt kvak, er vér látumst vegsama Gud med hér á jørdunni. Hvar fyrir lætur hann þá sitt dýrmæta ord prédika? hverjum til gagns og góda? þér, þér! ó, þú rænulaus og þverbrotinn syndari! og þad út af einskjærri nád sinni; og þó leggja syndugir menn þenna himneska leyndardóm ad svo litlu, ad menn vilja nálægt allt annad heyra. Sé þad ei annad sem kunni ad þvínga oss til ad hafa mætur á Guds heilaga ordi, þá lítum til vorrar saurugrar fædíngar; hvad vórum vér nær vér fæddumst í heim þenna af módur=lífi? reidinnar børn, Eph. 2, eintómis hold og blód, Jóh. 3, sem ei kann Guds ríki ad erfa, 1 Cor. 15; en hvad erum vér nú? Guds børn og erfíngjar eylífs lífs, Gal. 4, ef vér trúum á Guds Son og vardveitum hans ord; en hvar fyrir er þad skéd? mun ecki fyrir Guds heilagt ord, hvørt ad er í vatninu og med vatninu, nær vér gjørumst Guds børn af reidinnar børnum í heilagri vatns=laug? Svo er þá Guds heilagt ord hin fyrsta mjólk, hvørja vér inndreckum strax med módur=mjólkinni, fyrir hvørja vér ødlumst hid andliga líf, án hvørs hid líkhamliga er eckert annad enn daudi. En Gud nádi oss auma og synduga, ad þegar vér drøgumst á legg, þá velgir oss vid þessari barna=fædu, án hvørrar einginn spekíngur, einginn meistari, einginn doctor hefir þó fullordinn gjørst í Guds þeckíngu. En hvad veldur því, br. m.? þad medal annara, ad margir óvitrir og hirdulausir foreldrar, er sjálfir kannské lítid edur eckert vita sér til sáluhjálpar, þeir leyfa børnunum fyrr ad venjast á brjóst hinnar gjálífu hóru veraldarinnar, heldur enn á hina skynsamligu og sviknu mjólk, er St. Petur dreckur þeim til af, 1 Pet. 2, ad þau vaxi í henni. Gjætid þó ad sálum ydar, kristnir menn, þótt þér ecki mikid hirdid um sálir barna ydar, því Gud mun eflaust krefja þeirra af ydar hendi, Ezech. 33, sem vegna ydar forsómunar eylífliga glatadar verda. En þótt ad þad hafi verid foreldranna skuld ad þau hafi ei uppfrædt nockurn á hans úngmennis=aldri, þá viti hann samt, ad þad verdur hans eigin skuld, þegar hann kémur til vits og ára, ef hann fer áfram í slíku óviti og hirduleysi; þar fyrir ef nockur er sá, ad hann vanti þad er hann vita þarf til sinnar sáluhjálpar, sem eg dylst ecki vid, ad fleiri enn færri vera muni, þá láti hann sér um alla hluti fram vera annt um, ad fá þess leidréttíng hjá þeim sem betur vita, ef hann elskar sálu sína, og skammist sín ecki, því fyrir hvørjum vill hann skammast sín? ecki fyrir sínum sálusorgara, því ef þar er nockur Guds Anda neisti í hønum, þá mun hann fagna því, ad einn fáfródur vesælíngur vill leita ráds til hans í sínum sáluhjálpar=efnum; ecki fyrir neinum gudhræddum edur vitrum manni, því svo lángt er frá því, ad nockur sá sem Gud elskar muni hlæa ad því, ad þeir mundu kalla þad lofs=verdt, og vera eins lyndir og þeir sem í himninum eru, hvar meiri føgnudur er yfir einum syndara, sem ydran gjørir, heldur enn yfir 99 réttlátum, Lúc. 15; fyrir hvørjum skyldi hann þá skammast sín? fyrir gárúngum veraldarinnar, sem jafnvel hlæa ad Gudi og øllu því hønum tilheyrir. En þess er stór munur, ad taka á=móti því spotti, sem einkis er verdt, og ad standa med kinnroda fyrir

Guds dómi á sídasta degi; og hvernig svo øllu þessu er varid, þá hyggid ad, hvørt ad sé minni mínkun ad allir viti þad einn verdi ad fara til helvítis fyrir vanvitsku sakir, ellegar ad leidréttast af ødrum sem betur vita, svo menn kunni ad verda erfíngjar eylífs lífs. Nú er þad ecki nóg, Guds barn, ad þú kunnir þinn barna-lærdóm, og vitir hvad þú átt ad trúa, og nockurn-veginn ad gjøra; þar eru svo mørg tilfelli sem ad oss mæta á hinni hættusømu reisu frá vøggunni til grafarinnar, bædi í andligan og líkhamligan máta, ad sá sem vill fara hina réttu leid, hann getur ecki verid án leidarvísirs Guds heilagra orda, hvørt Davíd segir ad sé ljós á sínum vegum og lampi fóta sinna, Ps. 119, hann sem þó var einn vitur konúngur. Med Guds ordi verdum vér endurfæddir, med Guds ordi uppfræddir; þau temja vorn úngdóm, styrkja fullordins árin, hugga ellina. Hvad er einn úngl íngur sá ed ecki hefir Gud sér fyrir augum? hann er eitt ráðlaust villi-dír, einn galinn foli; því segir Davíd: hvernig kann æsku-madurinn ad gánga sinn veg óstraffanliga? ef hann heldur sér vid þín ord, Ps. 119. Því verdur mørgum þeim, er Guds ord og gódar mentir forsmá í úngdóminum, ad þeir eldast aldrei, þótt þeir áttrædir verdi; en hvar eiga þeir Gud ad finna? hvar eiga þeir hann ad sjá, nema í hans ordi? Hvad er madurinn þá hann er fullordinn án Guds orda? látum hønum ríkdóm hlotnast, hann er Satans og mammons þénari, nema hann læri í gódum verkum ríkur ad vera, sem Páll býdur, 1 Tím. 6; en hvar skal hann þad læra nema í Guds ordi? látum hann setjast í metord og virdíngar, hvad er hann fyrir utan leidsøgn Guds orda? eitt skip fyrir utan stýri, nockurskonar ryk, sem vindurinn upp í loptid feykir; þad sjáum vér (því verr) á mørgum afglapa, sem ad luckan tyllir upp í háan sess, sjálfum sér á-stundum til spotts og og mínkunar, en ødrum til skada og meinsemdar. Ellin er ad sønnu í sjálfri sér heidarlig, jafnvel eptir Guds bodi, Levít. 19; óskandi væri ad hinir úngu hefdi þar eptir vilja edur vit á, ad sýna henni tilbæriligan heidur; en einn gamall madur fyrir utan ótta Drottins, er vidundur veraldar, því Guds ótti er þad, sem hann átti framar øllu ad læra á sínum æfistundum og kunna ødrum ad kénna sem ýngri eru, má því sýnast ad hann hafi lítinn ávøxt æfi sinnar, ef hann er ungum verri í þeckíngu Guds og hans heiløgu orda. Segid mér, í hvørju er vor kristindómur mest fólginn? í þeim þremur hlutum, ad eg meina, ad ydrast syndanna, ad trúa þær verdi sér fyrir Christum fyrirgéfnar, og svo ad láta af þeim framvegis. En hvernig viltú þeckja syndina, nema Guds ord sýni þér hana? þad er einn spegill í hvørjum madurinn kann ad skoda hvílíkur hann sé; arid edur agnirnar í lóptinu sáum vér ecki séd, nema í sólar-geislanum. Gjætum þess, br. m., ad þótt oss sé í bodordunum sagt, hvad vér eigum ad gjøra og ógjørt láta, þá er þad margt smátt í fari voru, sem bodordunum er mótstædiligt, og vér mundum ecki skynja, nema oss væri þad framar sýnt af Guds heilaga ordi, sem ad er hinn fegursti geisli þeirrar blessudu réttlætis Sólar. En einginn er afsakadur, þótt eigi viti hann Guds vilja, því sá sem án løgmáls syndgar, hann skal án løgmáls fyrirfarast, segir Postulinn, Róm. 2. Hvad eigum vér um sjálfan Gud ad tala? lítid til hinna fyrri daganna, sagdi Móses vid Israel; lítum til heidíngjanna, fedra vorra, hverjir ad gengu til mállausra skúrgoda og þjónudu þeim, 1 Cor. 12. O, hvørsu mættum vér þá hinum allsvaldanda Gudi þackir kunna med grátandi

tárum, ad hann hefir oss sína hátign, sína gjæsku, sitt réttlæti, sína þolinmædi og sína guddómliga speki opinberad í sínu heilaga ordi, svo ad nær vér berum vort saurugt líferni, er vér skodum í speigli lögmálsins, saman vid hans guddómligan tignar-ljóma, þá fáum vér vit á ad skammast vor, ad ydrast, ad audmýkja oss undir volduga Guds hönd, og offra hönum þeirri fórninni er hönum alleina líkar af vorri hendi, sem er harmþrúnginn og sundurknosadur andi, Ps. 51. Nú þegar vér höfum svo þeckt syndina, og sjáum oss ecki annad búid enn eylífar helvítis píslir, hvar vildum vér fá bót vid þessu, væri oss þad ecki opinberad í Guds ordi, ad hans Sonur væri í heiminn kominn, til ad kalla synduga og ecki réttláta til ydranar? Matth. 9. Þegar Andskotinn lætur einum glæpa-manni, sem allann sinn aldur hefir í vondskunni alid, ofbjóda þær syndirnar, sem hann hefir lockad hann til, svo hann á skamt til ad örvænta sér Guds nádar, hvar vill hann fá bót vid þessu, ef ei hefdi hann þau lýknar-ord Guds, ad svo sannarliga sem hann lifi, vilji hann ecki syndarans dauda, Ezech. 33, og önnur þvílík? Nú þegar þú átt ad uppbyrja hina nýu hlýdni, og sýna ad þú sért Guds barn vordinn af þræl syndarinnar, en Andskotinn, heimurinn og holdid freista þín, hvar vilt þú fá rád til ad útslöckva öll eldlig skeyti hins prettvísa, Eph. 6, nema í Guds ordi? hver kénnir þér ad krossfesta holdid med þess girndum og tilhneigíngum, Gal. 5, nema Guds ord? hvör yfirvinnur heiminn, nema sá, sem fæddur er af Gudi? 1 Jóh. 5; hvar fyrir? því hans sædi er í hönum, segir Jóhannes, 1 Pist. 3; hvört er þad sædid? þad er Guds ord, segir Drottinn í eptirlíkíngunni hjá Lúkam, kap. 8.

Hér verd eg og ad minnast nockud á vora kyrkjugaungu, og heyrn Guds orda í hans húsi. Þad er oss öllum vitanligt, ad í sínu musteri hefir Gud sett minníng síns nafns, þar vill hann dýrkast og tilbidjast, Exód. 20; þar eigum vér ad tala vid hann í vorum bænum, og heyra hann aptur til vor talandi í sínu heilaga ordi; þar eigum vér ad taka réttindin af kénnimannsins munni, því hann er eingill Drottins, Malach. 2. Ritníngin er ad sönnu brunnur hins lifanda vatns, er Kristur vill oss géfa, hver sem af því dreckur, hann mun ecki þyrsta ad eylífu, Jóh. 4; en vér megum flestir segja eins og hin fávísa samariska kvinna sagdi vid Jesúm fordum, þad er djúpt ofan í brunninn, en vér höfum eckert ad ausa med. Guds ords þénarar eiga ad vera oss í þessu, svo sem Rebecha var Eleazar, Abrahams sendimanni, ad hún jós vatnid upp af brunninum fyrir hann og hans úlfalda, Gén. 24; eins og Jakob var Rachel, er hann velti hinum mikla steini af brunninum, svo hennar födur-hjörd kunni ad drecka, Gén. 29; þeir eiga ad sundurkljúfa ord sannleikssins fyrir oss, 2 Tím. 2, og géfa Guds hjúum í réttan tíma þad þeim byrjar, Lúc. 12; því hvernig mega þeir trúa, nema þeim sé prédikad, segir Páll, Róm. 10. Haf því rád Salómons, er hann segir, Préd. 5: vakta þínar fætur, nær þú gengur í Guds hús, og vert heldur búinn til ad heyra, enn til ad géfa offur hinna heimsku. Svoddan offur má kalla þeirra Guds þjónustu er birtast í hans húsi, alleina fyrir sida sakir, en hugsa allt annad enn um þad sem talad er. Nú veit eg þó, kristinn madur, ad þú segir: þótt mínir þánkar kunni ad hvarfla híngad edur þángad, jafnvel undir prédikuninni, þá fæ eg ecki vid því gjört, hvörsu vel sem eg vildi. Eg veit þad er

satt, og það má hvör madur ödrum játa, því mannsins þánkar eru vondir frá barndómi, Gén. 8, en hitt géta menn vid-gjört, ad þeir séu ei lángdvölum í burtu nær menn undir Guds orda heyrn sitja; því ráð eru nockur vid því, br. m., ad minna verdi af þessu heldur enn kannské almenniliga skédur; eg vil ecki hér tala um ógudligar mann-eskjur, er setja sig til ad hugsa allt annad, enn það sem af Guds ordi talad er, til ad stytta sér med þær stundir, er þeir ættu Gudi ad géfa; um svoddan Andskotans musteri vil eg ecki tala, hinum vil eg rádleggja er gjarna vilja ordid heyra, en fá það ecki gjört sem vildu þeir, fyrir náttúrunnar breiskleika sakir. Hid fyrsta er, ad nær þú gengur í Guds hús, þá gjör það ecki af ysirdrepskap, heldur alvöru; en fyrir því ad svoddan hugarfar tökum vér ecki af sjálfum oss, þá bidjum Gud inniliga um ad géfa oss ástundan og eptir-tekt sinna heilögu orda, nær vér inngaungum í hans hús, hvad nær vér gjörum af hjarta, þá er einginn efi á því, ad hans Andi bidur fyrir oss med ómrædiligum and-vörpunum, Róm. 8, og framkvæmir í oss það góda verkid. Hid annad er elskan til Guds, hvörja vér ödlumst bædi med bæninni, ef hún er alvarlig og iduglig, svo og med sífeldri íhugan Guds tignar og vors óverdugleika, hans örlætis og vorrar þarfar, hans gæsku og vorrar ilsku, hans þolinmædi og vorrar þvermódsku, og kann oss aldrei ad bresta orsök til þessa, því á hvörju augnabliki medtökum vér hans nádar-velgjörnínga, og á hvörju augnabliki syndgumst vér á-móti hönum, svo þegar vér berum þetta saman í hjarta voru, þótt ei sé nema kvöld og morgna, þá kunnum vér ecki ad fara á mis vid það, ad fá eina brennandi elsku til hans, sem oss ógudliga og syndugа orma sparar í nád sinni, og gjörir oss ei ad sídur allt til góda, þótt vér hann vísvitandi til reidi reit-um. Nú er það vitanligt, ad ef vér elskum nockurn og virdum, þá vigtum vér hvört ord er hann talar, og þykir vænt um það, og þótt það sé heimska á-stundum, þá er vor breiskleiki svo mikill, ad vér höldum það gullvægt, hvad sem út af hans munni kémur; og því skyldum vér þá ecki elska Guds ord, ef vér hann elskum, þar þau eru í sjálfum sér dýrmætari enn hid besta gull, og sætari enn hunáng og hunángsseimur, sem Davíd segir, Ps. 119. Enn-þá framar, höfum vér ecki yndi og gaman af ad heyra talad um þá hluti er oss þykir vænt um? sjó-madurinn talar gjarna um siglíngar, strídsmadurinn um örlög, hinum ágjarna leidist aldrei ad heyra rædt um fjáraflan, vísinda-manninum um heims-speki, lögvitríngnum um þess-háttar hygginndi, því hvar ydar fjársjódur er, þar er ydar hjarta, sagdi Jesús, Matth. 6. Allir erum vér ónæmir á hid góda í fyrstunni. Einn úng-língur, þá hann er fyrst settur til menta, þá er honum leid sú idja, en eptir á fær hann svo mikla lyst þar til, ad hann gétur varla annad gjört; svo skal sá vita, ad sér er vel fram-farid á Guds vegi, sem elskar hans ord; fái menn fyrst elskuna, þá er ecki ad ugga um eptirtecktina, því mínir saudir heyra mína raust, segir Guds Sonur hér í Evangelió. Og segid mér, br. m.! um hvad ætti oss vænna ad þykja, enn um sálir vorar, sem vér þó ecki vitum nema frá oss tecknar verdi á hvörju augnabliki; því skyldum vér þá ecki géfa hinn mesta gaum ad því er þeim hjálpa kann, ecki til nockurs stundargagns, heldur til eylífra nota? En þessa elsku og rækt til vorra eigin sálna munum vér ödlast, ef vér venjum oss, á ad bera saman þá dýrdligu vist, sem öllum Guds börnum er fyrirbúin med

Christó í hans ríki, og svo fordæmdra píslir í helvíti, hvar þeir eta sínar túngur út af pínu
og ofraun kvalanna, Apóc. 16. Í þridja máta, barn Guds, nær þér annarligir edur synd
igir þánkar í hug fljúga undir Guds orda heyrn, þá lát þá sömu verda þér til uppvakníngar,
ad þú skammist þín, ad þú hafir þannig saurgad Guds musteri, og slá þannig Andskotann
med sínu eiginn sverdi; því ad vísu mun þig ángra þad, ef þú ert Guds barn, ad þú ert
svo undir syndina seldur, Róm. 7, ad þú getur ecki eina stund vakad med Drottni, Matth.
26; og nær þig þad ángrar, þá munt þú brádliga leita aptur, til ad finna hugsvölun sálu
þinni í því, sem fyrir þér er talad af helgum stad. Vildu menn nú þetta þrent gaum-
gjæfiliga athuga, þá er eg fullkomliga viss um, ad margur færi betri heim aptur í sitt
hús, Lúc. 18, undan Guds orda heyrn, heldur enn mig uggir ad menn almenniliga gjöri,
hvad Gud nádi! Nú er þad þó ecki nóg, br. m., ad menn heyri Guds ord med athygli,
nema menn færi þar af ávöxt í þolinmædi, Lúc. 8; vér eigum ad rótfesta þad svo, og
gródursetja í hjartanu, ad nær vér freistumst af einhvörri synd, ad vér þá strax höfum
trugt vígi, á-móti henni, í því sem vér höfum numid af Guds heilagri kenníngu. Hvad
gjördi vor gódi Meistari nær hann var freistadur, þótt ecki væri hönum hætt vid ad sigrast
af Djöflinum, þá sló hann samt þann óvin med Guds ordi í heilar þrjár reisur, svo ad
hann skammadist sín, og forlét hann, segir Gudspjallamadurinn, Matth. 4. Gjör þú
eins kristinn madur; en hvernig vilt þú fá þad gjört, nema þú hafir numid þad og geymt
í hjarta þínu? og kunnir þú af einhvörri freistíngu yfirstíginn ad verda, hvernig villt
þú fá lækníng þar vid, nema af því sem þú kant af Guds ordi? Í sama máta, nær þú fær
orsök edur tækifæri til ad gjöra nockud gott, þá eiga heilög Guds ord, er þú hefir
safnad í féssjód hjarta þíns, ad minna þig þar-á, og gjörir þú ecki þetta, þá má þér þad
ad litlu gagna, hvörsu bænheitur, hvörsu gudrækinn sem ad þú situr undir einni prédik-
un, því þad vill eins til gánga og um sædid, Lúc. 8, þad er féll í grýtta jörd og á-medal
þyrna, ad svoddan manneskjur annadhvört medtaka ordid med fagnadi, en hafa þó ecki
nockra rót, því um stundar-sakir trúa þeir, og falla frá á tíma freistíngarinnar, edur og
d þyrnin, þad eru sorg, audæfi og girndir heims þessa, vaxa upp med því og kefja þad,
so ad þad færir eingan ávöxt. Eg efast ecki um, ad þar muni nockrir vera, sem ásetja
ér gudrækiligan lifnad nær þeirra syndir eru straffadar í Guds ordi; en hvad fáir þeir
u, er fylli þad med verkinu, er audsært af ógudligu framferdi mannanna í heiminum;
hud gjæfi þar væri einn Samarítan á-milli tíu Gydínga, Lúc. 17, einn Abraham í
lerar, Gén. 20, og tíu gudhrædir í Sódóma, Gén. 18. Þig ydrar af hjarta þess
þú hefir Gudi á-móti brotid, og þú lofar ad syndga ecki vísvitandi framvegis. En
ig mér, kjæri! nær ætlar þú til þess ad taka ad lifa betur? munu þeir ei fáir er
aupa strax úr tollbúdinni med Leví, og fylgja Christó eptir? Lúc. 5; nær ætlum vér
taka til ad elska Gud og hans heilaga ord, ad virda og óttast hans nafn, sem oss
rjar, ad heidra foreldra og yfirbodna, Exód. 20, ad aga börn sín og uppala þau í
ta Drottins, Eph. 6; nær ætlar hinn heiptræki ad taka til ad elska sinn óvin, Matth.
hinn lausláti ad gjöra sáttmála vid sín augu, Job. 31, hinn ágjarni ad láta af ad
la, ræna og svíkja, Eph. 4, lygarinn ad rægja og baktala, 1 Pet. 2; nær ætlum vér

ad hreinsa hjørtu vor af þessum daudligum verkum og svívirdíngum? kanské nær vér get-
um ecki lengur, edur nockru eptir þad vér erum daudir. En Davíd segir, Ps. 115: ad
þeir prísi ecki Gud, sem ofan fara í helvítid, og mun þad þá verda nockud um seinna, ad
gjalda hønum þá skuld, er hønum átti hver ad lúka. O, þú nádugi Gud! skapa þú í oss
hreint hjarta og géf oss einn nýan vissan anda, Ps. 51; snú þú oss, Drottinn, þá er
oss snúid! Jer. 31; lát oss hafa lýsting vora í þínu løgmáli, og tala um þad daga og
nætur! Ps. 1; séu þín heiløgu ord eptirlæti vorra sálna, og þín réttindi framar af oss
metin, enn gnægd allra audæfa! Israel sagdi fordum daga vid Mósen, er Guds reidir slógu
í Hóreb: vér viljum ecki framar heyra raustina Drottins Guds vors; tala þú til vor!
Exód. 20; en Móses hefir ecki forgéfins sagt til þeirra: einn spámann mun Drottinn
Gud ydar uppvekja ydur af brædrum ydar, líkan mér, hønum skulud þér hlýda, Devt.
18; líkan ad sønnu, ó, Móses! en þó miklu betri, miklu ædri, miklu fullkomnari,
hver ed einn líttlogandi hør-kveik mun ecki útsløckva, edur brákadan reyr í-sundur brjóta,
Esa. 42; þad ert þú, ó, Herra Jesú Christe! sannur Gud og sannur madur, þar fyrir
segjum vér med fullu trausti, ecki med Israel, heldur med Samúel: tala þú, Drottinn!
þínir þénarar heyra, 1 Sam. 3; vér viljum hans røddu heyra, er lætur oss segja: gjørid
ydran, því ad Guds ríki er nálægt, Matth. 3; en ecki ofmjøg óttast rødd hans er segir:
bølvadur sé sá sem ecki heldur allt þad sem skrifad stendur í løgmálinu, Devt. 27. Vér
aumir og vesælir jardar-madkar, viljum hønum heyra, er segir: komid til mín allir þér
sem erfidi drýgid, og þúnga erud þjádir, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11; en vér
skélfumst ad heyra hans raust, er segir: hver sem gjørir þetta hann mun lifa í því, Levít.
18. Þar-fyrir tala þú til vor, Drottinn! hvort heldur þad skédur med þrumu løgmáls-
ins til ad straffa í oss syndina, edur í blídvidri Evangelíi til ad hugga oss aptur, þá
viljum vér allshugar fegnir segja: blessadur sé sá sem kémur í nafni Drottins! Matth.
21. Géf oss þad hjartalag, ó, Herra Jesú! fyrir þína forþénustu, amen!

## Þridja Sunnudag eptir Páska.

Gudspjallid, Jóh. 16 Kap.

Í þann tíma, sagdi Jesús til sinna lærisveina: innan lítils tíma munu þér ecki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munud þér enn sjá mig aptur, því eg fer til Fødursins; þá segdu sumir af hans lærisveinum sín á-milli: hvad er þad ad hann segir til vor: innan lítils tíma þá munu þér ecki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munud þér sjá mig aptur, því eg fer til Fødursins? þá søgdu þeir, hvad er þad hann segir oss: innan lítils tíma? vér vitum ecki hvad hann segir. En Jesús formerkti, ad þeir vildu spyrja hann ad, og sagdi til þeirra: þér spyrjid ad þessu ydar á-milli, þad eg sagdi ydur: innan lítils tíma munu þér ecki sjá mig, og þá aptur innan lítils tíma munu þér sjá

mig; sannliga segi eg ydur: Þér munud sýta og gráta, en heimurinn mun fagna, og þér munud hryggvir verda, en ydar hrygd skal snúast í føgnud. Ein kona, nær hún skal fæda, þá hefir hun hrygd, því hennar stund er komin; en þá hún hefir barnid fædt, minnist hún ecki þess harmkvælis fyrir fagnadar sakir, þvíad madur er í heiminn borinn. Og þér hafid nú ad sønnu hrygd; en eg vil sjá ydur aptur, og ydvart hjarta skal fagna, og ydvarn føgnud skal einginn frá ydur taka. Á þeim degi munud þér mig og einskis spyrja.

## Exordium.

Þad verdi mér ecki ad eg hrósi mér af nockrum hlut, nema af krossi Drottins vors Jesú Christi, segir St. Páll, Gal. 6; adrir hrósa sér af audlegd sinni og nægtum, eins og hinn ríki dári, Lúc. 12; nockrir af metordum sínum, eins og Nebúkadnezar, Dan. 4; sumir af afli og kallmennsku, eins og Golíath, 1 Sam. 17; Heródes af sinni málsnilli, Act. 12, og gaf eigi Gudi dýrdina; Pílatus af makt sinni, Jóh. 19, er hann þóktist hafa vald til ad krossfesta Jesúm og ad láta hann lausan; hinir af stórum ættum eins og Gydíngar, er sogdust hafa Abraham fyrir fødur, Matth. 3; og hvad er þad, sem ad drambsemi þessarar gjálífu veraldar telur sér ecki til gildis, jafnvel vonda hluti. Hinn ógudligi Lamech hrósadi sér af fólskunni fyrir kvinnum sínum, Gén. 4, og eru hønum allir þeir líkir, er stæra sig af ódygdunum; þá hefir Andskotinn sýnt meistarastycki sitt í hjarta syndarans, hann fyrst kémur hønum til ad drýgja glæpinn, og sídan ad láta sér vænt um hann þykja; því ef ad hrósunin gjørir jafnvel hina bestu hluti ecki einúngis ónýta, heldur og ad synd, svo sem Lausnarinn vottar, Matth. 6, um þá er gjørdu gódverk til fordildar sér, ad þeir hafa sín laun út-tekid, hvad mun þad vera þá ad stæra sig af klækjunum? en Páll er ecki svo lyndur; hann hrósar sér af því, sem verøldin kallar einkis hóls vert, af því sem hún forsmáir, því sem hún undan flýr med seglum og árum, og skal heldur fremja allar ódygdir, enn ad hún verdi fyrir því, þad er krossinn Drottins Jesú Christi; og því segir Postulinn hér strax eptir: fyrir hvørn mér er heimurinn krossfestur, og eg heiminum. Þad er alkunnugt, ad krossinn var hid smánarligasta píslarfæri í þá daga, og því var þad hønum valid, sem er Konúngur dýrdarinnar, til þess ad bera þar uppá vorar syndir. En svo hádugligt sem þad var, svo mikla andstygd segist Páll hafa á heiminum, og slíkan vidbjód hafi hann á sér. Lítid hér, kristnir menn, hvørnig þeir eru skapi farnir, sem vordnir eru eitt med Christó, og hverra kosta þeir eiga ad vænta sér í heimi þessum. Einga mun hann hafa kjærari haft af mønnunum, enn sína elskuliga lærisveina, sem høfdu yfirgéfid alla hluti fyrir hans skuld, Matth. 19; og þó segir hann þeim fyrir í þessu heilaga Evangelió, ad þeir muni sýta og gráta, en heimurinn muni fagna; sama vill hann hafa sagt enn-nú þeim, er hann af hjarta elska. Og vil eg því alleinasta út af Gudspjallinu tala um þá hluti, sem oss megi leida til ad bera hans ok þolinmódliga. O, þú krossfesti Jesú! hjálpa oss þar til med nád þíns Anda; bænheyr þad ó, Herra! fyrir þína forþénustu, amen!

## Utleggingin.

Þótt eckert annad væri sem kynni ad verka hjá oss þolinmædina í mótlætinu, þá mættum vér þó hugleida, hvadan þad kémur, sem er frá Gudi; hvørt villt þú fyrir hønum flýa? segir nockud leirkérid til þess, er þad gjort hefir: hvar fyrir gjørdir þú mig svo? Róm. 9. Og fyrst ad vér erum í Guds hendi svo sem leir, þá er þad óviturligt ad mægla á-móti hønum, hvad helst sem hann vid oss gjørir; hann typtar oss

sem oss gjört hefir, hann sem oss gjört hefir, hann hefir gjört himin og jörd, stjórnar þeim, rædur þeim, og kann ad eydileggja þau, nær sem hann vill, því mun eg keppa vid þvílíkan Herra? því vil eg glíma vid sjálfan mig, og gjöra mína mædu enn þá stærri med óþolinmædi? öll veraldarinnar ráð duga ecki á-móti hans vilja Próv. 21, og allir helvítis kraptar mega ecki auka hinu minsta vid mína plágu, fram yfir þad, sem hann ásett hefir; því vil eg þá kífa vid svoddan Hátign, svoddan Speki, svoddan Almætti, sem varir, rædur og stjórnar? þegar ótal hundrud þúsund (þvílíkir ormar sem eg), eru ad moldu vordnir, því mun eg þá berja höfdinu vid þann stein, sem á mig er kastadur af svo voldugri hendi? Þar fyrir, br. m., nær mótlætid oss ad höndum ber, þá hugsum til þeirrar skyldu er vér eigum Gudi ad gjalda, sem er ad audmýkja oss undir hans voldugа hönd, 1 Pet. 5, hvad ecki er svo stór kunst í medlætinu, jafnvel þótt vér gleymum því optligana; en í mótgánginum sést þad, hvörja virdíng vér höfum á hönum, og hvad mikid vér viljum fyrir hann vinna. Lítum til Jobs, því hans þolinmædi verdur oss af Postulanum sett til eptirdæmis, Jak. 5; þegar Guds hönd hafdi svipt hann öllum sínum börnum, allri sinni aleigu, þrælum og ambáttum, þá sagdi hann: Gud gaf og Gud aftók; sé nafn Drottins vegsamad ad eylífu! Job. 1; hönum var Davíd líkur, þá hann flúdi fyrir Absalon og sagdi, 2 Sam. 15: segi hann svo, eg hefi ecki þóknan á þér, sjá hér em eg, gjöri hann vid mig hvad gott þykir í hans augliti; hvar-fyrir hann og segir, Ps. 39: eg var mállaus og opnadi ecki minn munn, af því þú gjördir þad. Eins eigum vér skapi farnir ad vera, br. m., ef vér út af grunni hjartans viljum tjá vora audmýkt fyrir Gudi; og ef vér erum nú skyldugir til þessa alleina fyrir því, ad hann er vor Gud og Herra og vor Skapari, hvad miklu framar erum vér þá skuldbundnir, þar ed hann typtar oss aldrei, nema sjálfum oss til hins besta. Segid mér, mun nockud Gud, sá ad er brunnur allrar gjæsku, mun hann nockud hafa yndi af ad plága sín börn, og ecki gjöra þad miklu heldur þeim sjálfum til góda? Látum oss ecki eigna Födur miskunsemdanna, 2 Cor. 1, þá hardýdgi, sem vér köllum hid versta og grimmligasta á Fjandanum og hans limum, sem er, ad hafa gaman af eymdum og mótgángi syndugra manna; Hvad þá? mundi oss þykja þad stefnligt barn, sem flýgi í hárid á födur sínum, nær hann agar þad? og er því verr og midur, ad vér ströffum optliga vor börn og þénara alleina til ad skeita skapi voru á þeim; en hann plágar ecki af hjarta edur straffar mannanna börn, Harmagr. 3, þar-fyrir er þad hid mesta rænuleysi fyrir oss ad mögla undir hans födurligri hirtíngu. Segid mér enn aptur! þegar einn læknir byrlar oss súran dryck til ad gjöra vorn líkhama heilbrigdann, edur hann sker upp sárin, svo ad þau skuli gróa þess fljótara, styggjumst vér nockud vid hann, edur mót-mælum því er hann vill gjört hafa vid oss? þad gjörir einginn sá, sem heilvita er, og elskar heilsu sína, heldur þöckum vér hönum þar fyrir, og gjöldum hönum laun þar á ofan, jafnvel þótt hönum mistakist, sem optliga skédur. Ó, Guds barn! skyldir þú þá espast vid hinn góda læknir, hvers mjúka grædirs-hönd ad ýfir þín daudlig sár, til hverra þú ecki kénnir, fyrr enn hann lífgar þau med beiskju krossburdarins, og ecki miklu heldur taka fegins hendi þar á-mót, og gjalda hönum allar þackir þar fyrir? Ef

einn fadir sæi sitt barn framfara í allri vondsku og illu athæfi, og hann ecki straffadi þad, ef ské mætti ad þad leidréttist þar vid, mundi hönum ecki á hálsi legid vera af öllum mönnum? í sannleika, því hann væri þess verdur, hann væri bödull og ecki fadir, er þannig breytti vid sitt eigid hold og blód; og þó viljum vér heimta af Gudi, ad hann láti oss bada í rósum og lifa ad munudum vorum, já, fara fram í allskonar girndum og glæpum, og heita samt vor Fadir, þar hann er þó sá Gud, er ecki þóknast ógudligt athæfi, Ps. 5; værum vér án typtunar, þá værum vér hjá=börn og ecki synir, Hebr. 12. Dæmid því sjálfir br. m., hvert heldur þér viljid eiga Gud fyrir nádugan Födur og þola hirtínguna, edur ad hann kannist ecki vid ydur, og láti ydur lifa ad eigin vild ydar, og verdi ydur svo einn strángur og ógnarligur dómari, þegar þér eigid hönum reikníngskap ad standa af ordum og gjördum, sem ad er hin allra herfiligasta og skélfiligasta ólucka. Hvad sýnist ydur þá, kristnir menn, mun þad ecki vera tilvinnandi ad þiggja eina náduga refsíng af síns födur hendi? og þótt hún ætti ad vara um allann vorn aldur, sem mjög sjaldan er, til þess ad verda kvittur vid öll þau ósköp, sem ad dynja munu yfir sælkéra veraldar þessarar í helvíti og kvölunum, frá einni eylífd til annarar. Gud nádi oss auma og synduga! vér berum opt og tídum eina vanheila sál í heilbrigdum líkhama; þegar líkhamanum lídur vel, þá hirdum vér á=stundum lítt um sálina, hvör þó ætti ad sjá bædi fyrir sér og hönum, því bædi skulu þau hin sömu kjör hafa um alla eylífd; en ef hún lætur eptir hönum, þad hann vill, þá veltist hún mjög úr tign sinni, bádum þeim til óbætanligs skada. Hver veit nema þroti drambseminnar, edur vatns=sýki ágyrndarinnar, edur kalda óhóffseminnar, edur brjóst=veiki öfundarinnar, edur dofi letinnar, edur ædi reidinnar og heiptrækninnar plági sálu þína, og þú finnir þar ecki til. Varla er nockur sú sál á=medal vor, sem ecki hafi snert af einhvörju þessu, en krossinn er sú eina heilsubót, sem á vid öllu þvílíku; vid líkhamans sjúkdómum eiga adskiljanligir dryckir, eptir því sem hvörjum er háttad; en vid sálarinnar meinum á alleina kross=bikar Drottins Jesú; þótt hann sé beiskur nockud, þad ætti oss einu ad gilda, þegar hann gjörir oss heilbrigda, nema vér elskum meir daudann enn lífid, sóttina meir enn heilsuna, kroppinn meir enn sálina, og er þad þó ecki ad elska hann, ad láta þad eptir hönum, sem henni má til skada verda, því hann skal þess eylífliga gjöld hafa, sem hann í þessu frá henni dregur sér til tímanligs og fáfengiligs munadar; þar fyrir, ef vér elskum vora líkhami, og þad svo mjög, sem ad sýniligt er á flestum, þá gjörum þad þó fyrir þeirra skuld, ef eigi annars vegna, ad vér þöckum Gudi fyrir þad, hann tiptar þá hér, svo þeir ecki sídan mæti eylífum plágum í helvíti, 1 Cor. 11. Þar fyrir, Guds barn, nær Drottins milda hönd slær þig á einhvörn hátt til ad græda sálu þína þar med, þá tak ecki alleinasta þar á=mót med þolinmædi, heldur og þacka hönum fyrir þann nádargjörníng, ad hann ecki vill yfirgefa þig í fráleitt sinni edur í girndir þíns hjarta, Ps. 18; og ef þú vilt þacklátur vera fyrir svo stóran velgjörning, þá sýn þad í verkunum, er þú játar med munninum. Vér höfum allareidu heyrt nockud um þad, hvar til ad Gud sendir oss krossinn, sem er til þess, ad

vér eigi skulum halda oss saklausa, heldur betra vort líferni; sviptum því ecki Gud sínum ásetníngi, edur sjálfa oss þeirri nád, er hann hugdi oss ad veita. O! hvørsu illa er þá farid med þessa heilsusamligu Guds nád, og hvad lítil not munt þú þá hafa þess, syndugur madur, er þú lidid hefir; já, stór gjøld; því þad er ad gjøra Drottins kross ad ræníngjans krossi; þad er rétt svo sem Petur segir, 1 Pet. 4: ad lída svo sem þjófur og illvirki, og svo sem hann, ed fellur inn í annars embætti. Halt þad og ecki nóg ad þú látir af ad syndga þess vegna, ad þú gétir ecki syndgad, annad hvert fyrir heilsubresti, vegna fátæktar, edur fyrir ótta-sakir vid mennina; þjófurinn stelur ecki heldur, þegar hann er bundinn, og ecki fremur hórkallinn sína girnd nær hann er útilokadur, hvad ecki er þeirra dygdum ad þacka; heldur rannsaka sjálfan þig, hvad þér muni hafa áfátt ordid, hvers vegna Gud muni hafa lagt þenna kross á þig, og munt þú þad skjótt finna, þegar þú stíngur hendinni í þinn eiginn barm, Exód. 4; og nær þú þad finnur, þá ráð bót á því, ydrast þess af hjarta, og frem þad aldrei optar, heldur bid Gud ad géfa þér nád sína til ad standa á-móti þvílíkri synd; med svoddan móti verdur þessum himneska Læknir launad, annad heimtar hann ecki af oss. Þegar Jesús sá þann mann gángandi í musterinu, er hann skømmu ádur hafdi læknad hjá vatninu Bethesda, þá krafdi hann einkis af hønum, heldur sagdi alleina: sjá, nú ert þú heill vordinn, syndga ecki framar, ad ecki hendi þig annad verra, Jóh. 5. Þar fyrir, kristinn madur, hafir þú sjúkur verid, hafir þú ratad í armód og fjármissu, hafir þú vordid fyrir árásum og ofsóknum veraldar-manna, en ert aptur vordinn fullhraustur, fullríkur, og hefir fengid makt yfir óvinum þínum, þá gjald eigi þá vanþøck aptur á-móti Gudi þínum, hver ed sendi þér krossinn til ad betra þig, og létta hønum af þér, til ad sýna þér gjæsku sína, gjald hønum ecki svo illa, (segi eg) ad þú brúkir heilsuna til ad drýgja sømu syndir med hverjum þú vanst til sjúkdómsins, audlegdina til óhófs og metnadar, valdid til ad hefna á þeim, sem vid þig ofgjørt hafa, því ef vér slíkt gjørum, þá hefdi þad verid betra fyrir oss, ad vér hefdum legid í kør, og lifad í armód og forsmán alla vora daga, svo ad sálin hefdi kunnad hólpinn ad verda á degi Drottins, 1 Cor. 5. Nú eigum vér ecki alleina ad líta til Guds fødurligrar gjæsku, í því ad lída þolinmódliga allt þad sem hann lætur oss til handa bera, heldur og til hans óraskanligu speki og vísdóms, sem ad yfirgnæfir allann skilníng. Einn fadir kann ad vilja barni sínu vel, en brestur kanské vitsmuni til ad sjá hvad því gagnar, og þó hann beri skyn þar á, þá blindast vor skynsemi optliga af holdligri elsku, en vid þessu er ecki hætt hjá hinum alvísa Gudi. Þar-fyrir látum oss þad sagt vera, ad þótt vér eigi skynjum né sjáum Guds tilgáng, þegar hann neitar oss um þá hluti, er vér óskum eptir, þá er þad oss til hins besta, og eckert kann fyrir oss gagnligra ad vera edur upp ad hugsast, enn þad, sem hann lætur vid oss framkoma, ef vér géfum oss øldúngis á hans vald, og látum hann ráda. Israel beiddi Gud um kjøt í eydimørkinni, Núm. 14, og hann gaf þeim þad til hegníngar þeim; þeir beiddu hann og um konúng, 1 Sam. 8, er þeim leiddist ad vera undir hans allra-vísustu og nádugustu stjórnan, og hann gaf þeim einn konúng í reidi sinni, Os. 13. Þar er einginn efi á, ad ef barnid mætti sjálft ráda, þá færi þad sér optliga ad voda; og eins erum vér fávísir

eins og børn í vorum andligum efnum; vér óskum oss heilbrigdi, audæfa, metorda; allt þetta eru ad sønnu Guds gódur gáfur, en skadsamar þeim, sem ecki kunna med ad fara, svo ad Endurlausnarinn segir: jafnvel ef þín hønd edur þinn fótur hneixlar þig, þá sníd þad af og snara því frá þér, því betra er þér haltur og handarvani inn ad gánga til lífsins, enn ad þú hafir tvær hendur og tvo fætur, og verdir í eylífan eld kastadur, Matth. 5. Ad sønnu heimtar eigi Drottinn af oss, ad vér svo stórt írádumst vid hvørja þá tilhneigíng, er vér freistumst af, því hann hefir gefid oss ønnur medøl til þess, ad krossfesta holdid med, ádur enn til þessa komi; en þad er hans meining, heldur enn ad vér skyldum í eylífum eldi pínast, þá væri oss þarfara ad láta líf og limu. Hversu vís og hversu nádugur er þá hinn gódi Gud, ad hann agar oss í máta, og svo sem oss ad minstum skada verda megi, til þess ad vér kunnum ad umflýa helvítis píslir, en verda hluttakandi Guds barna sælu á himnum med hønum eylífliga? og í þessum Guds órannsakanliga vísdómi høfum vér jafnan eina stadfasta huggun, því hans gjæska og medaumkan verdur hann aldrei vidskila; fyrir því, þótt ad mótlætid ofbjódi oss á-stundum, og vér fáum varla undir því risid, þá látum oss til hugar koma, ad þad er oss af hønum uppá-lagt, sem veit hve mikils ad vér vid-þurfum og þolum. Stór sár þurfa mikla grædslu; en hann er trúr og freistar einkis yfir megn fram, 1 Cor. 10; ecki eitt hár fellur af voru høfdi án hans vilja, Matth. 10; og miklu sídur hefdum vér vid svo margar þrautir ad berjast, nema þad væri eptir hans skamti og eptir hans velþóknan. Vér þurfum og ecki ad efast um, ad vér fáum mótlætid stadist, þótt aldrei þyki oss svo óvænliga áhorfast, þegar vér køstum oss í hans miskunarfadm, og undir hans blessada umsjón og fyrirhyggju. Þar fyrir sagdi Davíd: þó eg ráfi í myrkvum dal og daudans skugga, þá hrædist eg einga ólucku, því þú ert hjá mér, þinn vøndur og stafur hugga mig, Ps. 23; og Drottinn segir vid hann: þótt þúsund falli þér til annarar handar, og tíu þúsund til hinnar hægri, þá skulu þeir ecki nær þér koma, Ps. 91. Svo øruggur kastali er Drottinn þeim er hann óttast, jafnvel midt í hørmúngunum, og þad gengur til eins og hann sagdi vid lærisveinana hér í Gudspjallinu: innan lítils tíma munud þér ecki sjá mig, og aptur innan lítils tíma munud þér sjá mig; og svo sem lærisveinarnir skildu ecki í þad sinn hvad hann sagdi, heldur uppfyltist þeirra hjarta af hrygd, af því ad hann sagdi þad, svo gengur þad og til fyrir Guds børnum optliga í mótlætinu, ad þau meina ad þau séu yfirgéfin, en samt heyrir hann þeirra grátbeidni, og þeirra bæn er þóknanlig fyrir hønum, en hans tími er enn þá ecki kominn, Jóh. 2. Hvørt heldur ad eg lít þenna fagra heim, sem ad er harla gódur, svo sem øll Guds sképna, edur eg þeinki um hinn ógudliga, sem Djøfullinn hefir tilbúid og nidursøkt í hid vonda, þá kann eg hvørki ad ørvænta í mótgánginum, eigi heldur ad efast um kvittun minna synda, sem eru orsøk til mótlætisins, þvíad í hinum og jafnvel á hinu minsta skrid-kvikindi, sé eg augljóst dæmi hins guddómliga almættis, speki og gjæsku, ad því er øllu af hønum svo vísliga stjórnad og niðurskickad, ad hann því øllu vid makt heldur, hvørju í sinni tegund frá heimsins upphafi í svo mørg þúsund ar, ad þar er ecki ein enn-nú undirgengin, og svo veit eg

þá fyrir víst, ad hønum er ecki um megn ad vardveita mig syndugan orm, sem ad eptir hans mind var í Adam skapadur, Gén. 1, og med hans Sonar dýrmætu blódi endurleystur, 1 Pet. 1, jafnvel midt í sorgunum, midt í áráſunum, midt í sálar og lífs sterkasta ofbodi, ef hann vill láta þad yfir mig koma; en nær eg þenna fyrir mér virdi og allar þær ódádir, sem af hønum í frammi eru hafdar, villur, meinsæri, gudlastanir, manndráp, hórdóma, lýgi, þjófnad, ofbeldi, rángsleitni, og alla þá óhæfu, er Satan sær plantad í hjørtum vantrúarinnar barna, þá tek eg mér þar af huggun og fullnadar-traust um hins miskunsama Guds føđurliga gjæsku, ad hann ecki kollsteypir þessari vondu verøldu, heldur med ríkdómi síns lánglundar-gedS, Róm. 2, vill leida svo marga til yfirbótar sem aptur snúa vilja. Því veit eg, ad hann muni ecki útskúfa mér óverdugum synda-þræl, edur láta mig einan í mótlætinu, þótt þad sé straff minna synda og illgjørda, þar eg læt mig fyrir krapt hans Anda út af hjarta ydra synda minna, og á dagliga baráttu vid eitt óstýrilátt hold, sem keppir í-gégn andanum, Gal. 5; því hafi hann veitt mér hid meira, sem er ad ydrast syndanna, þegar eg var enn þá Satans barn, þá mun hann ecki synja mér hins minna, sem er ad vardveita mig í mótgánginum, þá eg er hans þénari vordinn fyrir hans nád, hverja hann ecki hefir géfid mér til þess, ad hún skyldi á mér ónýt verda, heldur til lofs og dýrdar sjálfum sér, en mér til eylífs sálar fagnadar. Drottinn sagdi lærisveinunum fyrirfram þessar hørmúngar, af hverju medal annara sjá má hans gudddómligan vísdóm og gjæsku ecki minni. Heimurinn segir aldrei nema ógjæfu fyrirfram, jafnvel þótt hún sé hønum vís svo vel sem øllum þeim, er hann elska, hann prédikar eins og hinir ógudligu, Ordskv. 1, sem von er á, því hann er ecki annad enn samkunda, Apóc. 2, Andskotans, er hann hefir safnad sér af Guds útløgum og ógudligum synda-þrælum; þeir segja: far þú med oss, vér viljum finna mikid herfáng, og allir einn sjód hafa, Ordskv. 1, en ecki leggja þeir til hins, ad þeir skulu og allir eitt hlutskipti hafa í því dýkinu, sem vellur af eldi og brennusteini, Apóc. 21; þad vill ecki Drottinn, hann sagdi fyrirfram bædi hér og optliga annarstadar lærisveinunum hvad á þeirra daga drífa mundi, og hid sama hefir hann øllum þeim sagt, er hønum vilja eptirfylgja med þessum ordum: hver sem vill minn lærisveinn vera, hann taki sinn kross uppá sig og fylgi mér eptir, Matth. 16. Eckert er þvílíkt rád vid mótgánginum svo sem ad búast vid hønum; sá sem þad gjørir dagliga, hann hefir miklu létt af byrdinni, nær hún dettur á. Búumst vid illu, því hid góda skadar oss ecki, segja menn í gømlu ordtæki; í dag em eg heilbrigdur: eg vil þeinkja med mér hvernig eg verda mundi, ef eg vanheill yrdi; eg vil venja mig á ad láta eigi allt eptir mér þad mig girnir, svo mér bregdi sídur vid, ef þad kynni mér ad høndum koma, sem eg gjæti ecki af mér kastad, þótt eg vildi; í dag em eg full-ríkur; eg vil þó brúka heiminn svo ad eg ecki vanbrúki hann, og svo mikid af því sem Gud hefir lánad, sem mér nægir og mér sómir ad brúka, þá skal fátæktin aldrei kasta mér í neitt hugar-víl, ef eg kann í hana ad rata; eg vil hyrda þad Gud géfur, en ecki festa þar vid hjarta mitt, þá mun mér þykja minna fyrir ad missa þad; í dag ræd eg fyrir ødrum, svo ad allir hlýda minu bodi og banni, sem eg er yfirskipadur; þad vald vil eg brúka í hófi

og ecki med offa neinum, því þar kann ad koma, ad þeir rádi fyrir mér, og kunni eg af þeim nockurn ójøfnud ad þola, þá líd eg þann med betri samvitsku, hafi eg ecki ádur til hans unnid. Svo skal madur búa sér í haginn, á=medan allt leikur í lyndi; komi þad ecki uppá, er vér rád fyrir gjørum, þá er því ómaki vel spiltz. aldrei vissi eg ábata=meiri skada, því ad minsta kosti hugsum vér eigi svo íllt á=medan, og líkligt er ad vér munum ecki stæra oss svo mjøg af velmaktinni, þegar vér búumst vid hvørutveggju. Nú þótt ad allt þetta, sem eg hefi sagt, eigi ad fýsa oss á, ad lída þolinmódliga þann kross, er Gud oss á herdar leggur, þá er þó ad hrósa þeirra kjørum fram yfir alla Drottins krossberendur, sem ecki einasta taka á=móti hans øgun án møglunar, heldur og hafa gledi og yndi af því, ad lída nockud fyrir Christí sakir. Eg vændist í=upphafi St. Páls ordum, ad hann skrifar, Gal. 6: þad verdi mér ecki ad eg hrósi mér af nockrum hlut, utan af krossi Drottins vors Jesú Christí. Þegar Páll brúkar þetta ord, sem her stendur, ad hrósa, þá merkir þad ecki svo ad stæra sig af einhverju, svo sem ad fagna og gledjast af því, og ad hafa yndi þar=af; sama orda=tiltæki brúkar hann, Róm. 5, segjandi: og ecki einasta þad, heldur hrósum vér oss einnig edur gledjum oss af hørmúngunum, vitandi ad hørmúngin verkar þolinmædina, en þolinmædin reinsluna, en reynslan vonina, en vonin lætur aldrei til skammar verda, þvíad elska Guds er úthelt í hjørtum vorum fyrir heilagan Anda, sem oss er géfinn; þetta eru merkilig og gullvæg ord, séu þau rétt yfirvegud. Hvar fyrir gledur hann sig í hørmúngunum? þvíad elska Guds var úthelt í hans hjarta fyrir heilagan Anda, sem hønum var géfinn. Heyrum þad Endurlausnarinn sagdi vid sína lærisveina: eg skal ecki láta ydur munadarlausa, heldur skal eg sjá ydur aptur, Jóh. 14; þad gjørdi sá blessadi Herra ad sønnu eptir sína upprisu, en hans sýnilig vist med þeim, dró þá eckí lángt á veg, hefdi hann ecki sendt þeim h. Anda af sínum Fødur; því sagdi hann: þad batar ydur, ad eg fari í burt hedan, því, nema eg fari í burtu hedan, kémur ecki Huggarinn til ydar. Þessi er hinn sami h. Andi, fyrir hvørn ad Páll segir ad elska Guds sé úthelt í sitt hjarta, hún gjørir Christí ok sætt, og hans byrdi létta, Matth. 11; hún veldur því, ad hans bodord eru ecki þúng, 1 Jóh. 5; hún deyfir alla kvøl, alla hrygd, alla armædu veraldar þessarar; sá ed hana hefir fyrst ødlast, hann þarf ecki mótlætinu ad kvída; hann fóttredur allar hørmúngar; hønum er heimurinn krossfestur og hann heiminum; þad sé eg bersýniliga á Christí postulum, er þeir voru gladir af því, ad þeir máttu lída fyrir Jesú nafns skuld, Act. 5. Þad sé eg á hans h. píslarvottum lángt frameptir æfi kristninnar, ad þeir gengu til herfiligustu kvala og písla, miklu gladari heldur enn adrir til géstabods. O, Herra Gud! fagurt má þeim vera himnaríki á sídan, hvørjum Gud er svo sætur midt í hørmúngunum, ad þeir finna ecki til þeirra fyrir elskunni til hans sem tiptar þá. Ad þetta séu ecki ýkjur, heldur ad þvílíkir Guds vinir séu til, þad votta eg med Páls ordum, er hann segir, 2 Cor. 12: eg em vel til frids í veikleikanum, í forsmáninni, í naudunum, í offóknunum, í ángistinni fyrir Christum; því þá eg em veikur, þá em eg máttugur; og þad er þad sama sem Drottinn heitir hér lærisveinunum, er hann sagdi: ydar hrygd skal snúast í fønud. Ecki meinti hann einasta þá sælu=von, er þeir áttu vísa med hønum eylífliga í hans dýrdar=ríki, heldur og huggun

Guds Anda í mannraununum, því aldrei vóru þeir án mótlætis hér á jørdunni, og samt skrifar Páll, ad þeir séu svo sem hryggvir og þó jafnan gladir, 2 Cor. 6. Nú þótt oss vanti mikid á, ad vera svo algjørdir í elskunni til Guds, sem þessar Drottins hetjur vóru, þá eigum vér samt ad keppast eptir þeirra fullkomnu dæmi, svo mikid sem oss er møguligt, og hugga oss í øllum mannraunum vorum vid eptirkomandi sælu, vitandi þad, ad hin létta byrdi hørmúngarinnar, sem varir um augnablik, hún aflar oss yfirgnæfanligrar dyrdar eylífrar þýngdar, 2 Cor. 4. Og þetta er þad Páll segir, Róm. 5, er eg strax áminntist, ad þolinmædin verki reynsluna, reynslan vonina, en vonin láti eigi til skammar verda; hvar fyrir? þvíad trúin, er voninni jafnan fylgir, hún er vera þeirra hluta sem koma skulu, Hebr. 11. Hvørs vegna þeir ed bera Christí ok, þeir eiga víst himnaríki, þad er pantur eptirkomandi farsældar, vid hvørn hans brúdur gledur sig, þar til hann kémur, og innleidir hana í Lambsins brúdkaup, svo þegar hún hryggist af mótlætinu, þá gledst hún eins mikid edur meira af þeirri dýrd, sem vid oss mun framkoma í eylífu lífi, hvørrar eigi eru verdar mótlætíngar þessara tíma, Róm. 8. Þetta útmálar vor Lausnari med næsta føgru dæmi hér í Gudspjallinu, þar ed hann segir: ein kona nær hún skal fæda, þá hefir hún hrygd, þvíad hennar stund er komin, en þá hún hefir barnid fædt, minnist hún ecki þess harmkvælis fyrir fagnadar sakir, þvíad madur er í heiminn borinn. Hvad vinna menn ecki í þessum heimi fyrir veraldar høfdíngja, og þad fyrir lítil og óviss laun? já, margur vogar lífinu og kanské sinni eylífri velferd á-stundum, og endist ecki til ad njóta þess, er hann ætlar sér til launa. Ó, Guds børn! því skyldum vér þá telja eptir oss ad líða nockud fyrir himnaríki, fyrir hin eylífu launin, fyrir þad dýrmæta hnossid, af hvørju þeir aldrei sleppa kunna sem réttiliga skeidid hlaupa? 1 Cor. 9; fyrir hina kostuligu réttlætisins kórónu, 2 Tim. 4, sem þeim er assídis løgd, er hafa barist gódri baráttu, haldid trúnni og gódri samvitsku? Einn madur, sá ed situr í tign og heidri, mun hann ecki þacka sínum ødur, ad hann hefir hann svo vísliga uppalid, ad hann má reiknast þeirrar æru verdur á sínum fullordins aldri? mun hann nockud telja þau vandar høggin, er hann hefir fleiginn verid? Og hvørsu ættum vér þá allar þackir ad kunna vorum himneska Fødur, sá ed tugtar sín børn upp til eylífs lífs, til himneskrar konúngs tignar, til ad lifa og ríkja med hønum eylífliga? hvør mun þá minnast þeirra táranna, sem hann hefir fellt í þessum eymdar-dal, nema hann, sem ad hefir helt þeim í sinn sjód, Ps. 56, og þá allareidu þerrad þau af sinna barna augum, Apóc. 7; þá mun þad verda uppskorid í dýrdinni, sem hér var sád í hørmúnginni, Ps. 126; þá mun þeirra gledi-saungur fagurt láta í hinni bjørtu Jerúsalem, er Guds dýrd uppljómar, Apóc. 21; hvørra óp og veinan ad heimsins børnum var til spotts og athláturs hjá sorgar-vøtnunum í hinni dimmu Babýlon, Ps. 137, verøldu þessari. Hvørrar æru og vegsemdar oss unni ad njóta hin blessada Guddómsins þrenníng, fyrir Jesú Christí blóds krapt og forþénustu, amen!

# A þann Almenniliga Bæna-Dag.

Pistillinn, Esajæ 55 Kap.

Leitid Drottins, á-medan hann er ad finna, kallid á hann á-
nedan hann er nálægur. Sá hinn ógudligi láti af sínum vegi,
og illvirkinn af sinni hugan, og snúi sér til Drottins, þá mun
hann miskuna honum; og til Guds vors, þvíad í hjá honum er
mikil fyrirgéfning.

## E x o r d í u m.

Í gamla Testamentinu tilsetti Drottinn eina hátíd sem haldast skyldi árliga í hinum sjøunda
ránadi, og á tíunda degi sama mánadar, er menn sídan kallad hafa Hreinsunar-hátíd. Á
eim degi var bodid, ad Israel skyldi þvínga sálir sínar, þad er sjálfa sig, svo sem þar-um
ná lesa, Levit. 16. Þessi hátíd er ad sønnu aftekin í nýa Testamentinu med øllum sínum
brnum; oss nægir sú eina og algjørda fórn, sem einusinni er innborin í þad allra-helgasta
f hinum ypparsta Biskupi sálna vorra, Ebr. 9; en samt er þó ydraniu fyrir syndirnar ecki
ftekin; svo lengi sem vér ecki leggjum af ad syndga, svo lengi megum vér ecki leggja af ad
drast, en þad mun ei verda fyrr enn líkhami syndarinnar verdur med øllu afmádur, Róm.
. Því ætti med réttu allt kristins manns líf ad vera ein hreinsunar-hátíd, edur ad minsta
osti ættum vér ad géfa oss nockra stund á hverjum degi til ad ydrast og játa syndir vorar;
á sem ætlar sér ad syndga nær syndin flýgur honum í hug og ydrast sídan, hann er ecki
etri enn sá, sem ætlar ad draga ydranina undan til daudans, því hann veit ei nær hann
eya muni. Nú erum vér oss medvitandi þess, br. m., ad þar falla svo margir dagar úr
já oss, og kanské, því verr, ad nockrir þeinkja hér allsjaldan til; því er nú þessi dagur af
Konúnginum tilsettur, ad hann sé vor føstu og bæna-dagur. Gud gjæfi, ad hann væri þar
ptir haldinn af oss med allri gudrækni, svo sem hann er naudsynligur, og ad ecki synduft
eir, sem gjøra hád úr føstunni, med hverri þó Guds heilagir menn hafa þreyngt bænum sín-
m í-gégnum skýin fordum daga, medan Guds fólk hét Guds fólk og kristnin kristni; en
ídan hún hét Lóamí, þad er: ecki mitt fólk, og menn yfirgáfu hinn lifanda Gud, margur
ver, en gjørdu magan ad sínum Gudi, þá er fastan vordin ad athlátri, svó vel sem øll
lvørugéfni í Guds þjónkan; menn halda eptir blødunum, en hafa sleppt ávextinum, svo Da-
íd mundi segja, ef hann nú lifdi: eg huldi mína sálu í føstum, og þad vard mér ad brixli,
Ps. 69. O, oss aumar og rænulausar manneskjur! mun honum fastan mislíka, er segir hjá
Jóel, kap. 2: snúist til mín af øllu hjarta med føstum og gráti og harmi? Og svo ad þér
itid ad þad ecki er ødruvís í hinu nýa Testamentinu, þá vil eg spyrja ydur ad, hvert Gudi
iuni ecki hafa þóknast fasta Cornelíí, sem var heidinn madur? er hann sagdi vid Petur, Act.
0: nú er alla-reidu hinn fjórdi dagur ad eg hefi fastad, og er eg beiddist fyrir um hina
íundu stund i mínu húsi, þá stód hjá mér einn madur í hvítu klædi, er sagdi vid mig: Cor-
elí, þinna bæna og olmusugjørda er minnst í Guds augliti. Mun Endurlausnaranum hafa
ótt fastan ónýt, er hann sagdi vid lærisveinana, þegar þeir gátu ecki útrekid túnglmeina-
jøfulinn: þetta djøfla-kyn verdur ecki útrekid nema med føstum og bænahaldi. Verdi Djøfull-
in útrekinn af ødrum med føstum og bænahaldi, Matth. 17, því skyldu menn ei kunna ad
eka hann út frá sjálfum sér? verdi Djøfullinn útrekinn med føstunni, því skyldu menn þá
i kunna ad fá Gudi innbygt med henni? því þad er víst, ad hvadan sem Satan er útrek-
nn, þar vill Gud byggja; þetta segi eg ei þess vegna, ad fastan vinni til nockurs í sjálfri
ér, en þad vitnar allt Guds ord, ad bænin verdi kroptugri fyrir hana; fastan má eckert
n bænarinnar, bænin verkar optliga án føstunnar; fastan hjálpar til ad drepa hinn gamla
manninn, sem er andskoti bænarinnar og alls gudrækiligs framferdis, sé hún ecki í þeirri veru
gjørd, þá er hún hræsni. Heyrum hinn gamla Syrach hér-um: sá sem þvær sig eptir hinn

dauda og snertir aptur daudan mann, til hvers gagnar hans þvottur? Sýr. 35. Svo er og sá madur, er fastar í sínum syndum, og gjörir aptur þær sömu; hvad vann hann med því, ad hann audmýkti sig? hver mun heyra hans bæn? Esajas kénnir oss í upplesnum Pistli hvernig þeirri sönnu föstu eigi háttad ad vera, sem er: ad hinn óguðligi fasti fyrir sín vond verk og illvirkinn fyrir sína hugsan, og þannig stípar hann Drottins ad leita. Vil eg því út af þessum Esajæ ordum hugleida ad þessu sinni: hvernig vér eigum ad leita Guds, hvern vér svo margfaldliga styggt höfum; hjálpa oss ó, Herra! til ad gjöra svo þetta þitt verk, ad vér þig fundid, og fundnum haldid gétum. Bænheyr þad gódi Gud, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Útleggíngin.

Hvernig vér eigum Drottins ad leita, þarf ecki lángt eptir ad leita; þad segir sjálfur Drottinn oss, Jer. 50, med þessum ordum: á þeim dögum skulu Israels synir koma med börnum Júda, þeir skulu gánga án afláts grátandi og leita Drottins Guds síns. Gydíngar leitudu hans á hinni sídurstu kvalanna nóttu med sverdum og staungum, med lyktum og logbröndum, Matth. 26; vér skulum ei þannin leita Drottins, sem medkénnum ad vorar syndir hafa kvalid hann, sem var fráskilinn syndurunum, Ebr. 7; hvernig skulum vér hans þá leita? med harmþrúngnum og sundurknosudum anda, þad er med sannri ydran. Veginn vitum vér ad sönnu allir til Christum, en þad fellur ecki öllum svo létt ad gánga hann; eina kristiliga ydran er hægt ad nefna, en þad veitir mörgum bágt ad gjöra hana, jafnvel þótt oss bresti aldrei efni þar til, sem eru syndir vorar og ránglætíngar, er dagliga stíga upp í himininn fyrir Gud. Margur lætzt ydrast og játa sínar syndir fyrir Gudi; en eg óttast ad þegar Gud lítur af himnum ofan yfir mannanna sonu, þá muni hann finna svo marga Pharaós, Exód. 20, Sauls, 1 Sam. 24, Jeróbóams, 1 Reg. 13, og Achabs, 1 Reg. 21, ydran, þad er, nytur fyrir utan kjarna, ský fyrir utan vatn, visnadar eikur ávaxtarlausar, tvísvarsinnum upprættar, svo sem Júdas postuli ad ordi kémst í sínum pistli; en Davíds, 2 Sam. 12, Jósúæ, Jós. 7, Ezechíæ, Esa. 38, og Peturs, Matth. 26, líkar munu færri vera, hvad Gud nádarsamliga betri. Hvad er þad þá, br. m., sem eins kristins manns ydran á ad hafa til ad bera? tvent er þad sérdeilis; 1) ad hún sé heit og alvarlig, 2) ad hún sé ecki ofséin. Hvad hinu fyrsta vidvíkur, þá veit eg ad sönnu ad hinn nádugi Gud þiggur opt af oss viljan fyrir verkid, því hann þeckir vorn vanmátt og ófullkomligleika; en í ydranar-verkinu heimtar hann af oss, ad vér framleggjum allt þad vér tilhöfum og drögum ecki af. Sá sem kémur fram fyrir Gud til ad játa sínar syndir, og ad bidja um kvittun á þeim, og ecki úthellir sínu hjarta af fremsta megni fyrir hönum, ecki lætur sálar- og líkhamans-krapta verda samtaka í því, ad sundurmerja sitt hjarta med íhugan sinna illgjörda og Guds gæsku, síns tómlætis og hans réttlætis, sinna lýta og helvítis elds, sem þau hafa forþénad, eg veit ecki segi eg, hvad miklu hann er betri enn Ananías og Saphíra sem leyndu af verdi akursins, Act. 5; því eins og þau lugu ad heilögum Anda, er skynbarliga bjó í postulunum, svo mátt þú og vita, ad nær þú kémur í þinn bænastad, þá stendur þú í Guds augliti, sem alla hluti sér, og jafnvel hin innstu fylgsni þíns hjarta rannsakar. Gabba því ecki Gud med eintómri útvortis hegdan, því hann lætur ecki ad sér hæda, Gal. 6;

og hafi þig sá glæpur nockrum sinnum hendt, þá vit, ad þad er ein hróplig synd í Guds augliti, já, stærri enn allar þínar syndir, því hún apturheldur øllum hinum, er þú áttir ad afþvo med heitum ydranar tárum. Gjør því ydran í nafni Drottins, gjør ydran, segi eg, og lát þig ángra þad af hjarta, ad þú hafir kastad høndunum til svo vegligrar Guds þjónustu. Vilt þú vita hvad mikla ydran ad Gud heimtar af þér fyrir syndina, þá vill hann, ad beiskja ydranarinnar skuli sambjóda stærd syndarinnar; þar fyrir, nær þú med sjálfum þér les þitt synda registur fyrir Gudi, þá hugleid, hve mikid gaman edur gledi þú hafdir af sérhverri stór-synd, sem þig rekur minni til, og bid Gud ad slá á hjarta þitt med Móses sprota, ad þú megir hryggjast svo mikid sem þú gladdist ádur, og verdir þú hér-um bænheyrdur, sem án alls efa verdur, ef þú bidur heitt, bidur idugliga, Jóh. 16, og bidur í Jesú nafni, þá munt þú einkis ímissa, því sú gledi, er þú af syndsamligu athæfi hafdir, og afladi þér hryggdar í Guds augliti sídan, hún mun þér med einum ædri og meiri fagnudi endurgoldin verda, nær þú finnur, ad þú ert kvittur vid Gud, en sloppinn úr Djøfulsins neti. Þess gétur Páll, 2 Cor. 7: þér erud eptir Gudi hryggvir vordnir, svo þér hafid eingan skada af oss fengid, þvi sú hryggd, sem eptir Gudi er, hún verkar ydran til hjálprædis, hverrar ei þarf ad ydrast. Þegar þér viljid ydrast, br. m., og þér setjid ydur uppá dóm-stól ydar hjarta, til ad dæma sjálfa ydur, svo þér verdid ecki af Drottni dæmdir, 1 Cor. 11, þá álítid ecki syndina eptir mannligum þánka. Vér fyrirgéfum oss altíd nockud sjálfir, og finnum eitthvad til afsøkunar; konan bar søkina uppá orminn, en madurinn gaf konunni skuldina, Gén. 3; Aron segir: eg kastadi gullinu í eldinn og þar af vard þessi kálfur, Exód. 32; eins erum vér allir skapi farnir enn-nú í dag, ef vér látum oss sjálfráda, og viljum ecki láta Guds Anda vid oss ráda. Metum því ecki syndir vorar eptir vorum þótta, heldur eptir hans heilagleika, hans réttlæti, móti hverjum þær gjørdar eru; metum þær eptir Jesú sáru píslum, eptir því lausnargjaldi, sem Gud hefir lokid í voru holdi, þá munum vér sjá hvad reidur Gud er þeim syndunum, sem oss jafnvel þykir litid í spunnid á-stundum; þótt allur heimurinn flyti í tárum um allan sinn aldur, þá megnadi hann ecki hina minstu synd ad hreinsa í Guds augliti, nema hans Sonar forþénusta gjørdi þau gild. Svo stór, svo afskræmislig er syndin fyrir hans dómi, en Krists forþénusta verdur eingum til lids, nema þeim, sem af hjarta lætur sig ángra syndina; ætla því ecki, ad þú munir komast af vid Gud med eintómis játníngu munnsins, nema hugur fylgi máli; sá sem alleina játar syndina med munninum, en ángrar hana ecki í hjartanu, hann er eins og sá, er tekur umbúdirnar af sárinu, en leggur ecki plásturinn þar-vid. Guds Sonur er ad sønnu í heiminn kominn til ad lækna þad sundurknosada, Esa. 61; en hvernig á hann ad lækna þig, barn mitt, ef hjarta þitt er heilt og óbrotid. Þar er einn gull-kálfur nærri því í hvørs manns hjarta, þad er verøld þessi, sem ad sérhver af oss hefir einhvern átrúnad á, eptir því sem hver er lyndur til; og jafnvel þeir, sem Gud elska vilja, þeim er eins háttad og þeim, er ad sønnu tilbádu Gud í Jerúsalem, en offrudu þó á Hædunum, 1 Reg. 22; svo er þad fyrir oss aumum mønnum, vær seigjumst láta Gud gánga fyrir,

en flestir af oss hafa þó einhverja hjá-trú; sumir ríkdóm, sumir metord og sumir munadi sína, og á-medan vér høfum þá fram-hjá Gudi, þá er hætt vid, ad vér ecki af hjarta ydrumst; því eigum vér ad breyta vid þá eins og Móses gjørdi vid kálfinn, hann brendi hann til øsku, kastadi hønum í vatn, og lét allan Israel drecka hann í sig til blygdunar sjálfum þeim, ad þeir høfdu tekid Egyptalands svívirdíngar fram-hjá hinum lifanda Gudi, Exód. 32; svo eigum vér ad høndla vid Rachels skúrgod, þeim er hún situr á, og leynir, Gén. 31, þad eru heimugligar girndir sálna vorra, sem ecki eru audsénar øllum. Vér eigum ad láta Mósen brenna þær til øsku med elðíngunum af Sýnaí, og kasta þeim í flód vorra ydranar-tára, og drecka þær sjálfir upp, svo þær hverfi, Exód. 32, aldeilis, og verdi ad eingu; þad vardar ad litlu, þótt vér støndum raudir af óvirdíngu í Guds augliti med Ephraim, Jer. 31, því hann sér þær hvørt sem er; Laban og Jakob kunnum vér ad pretta, Gén. 31, en ecki Jakobs Gud, Ps. 94, því hann er hjartnanna og nýrnanna rannsakari, og sér hvad í myrkrunum er hulid. Sundur-rífid ydar hjørtu, og ecki ydar klædi, segir Drottinn, Jóel. 2; Gydíngar pløgudu á þeim døgum ad rífa sín klædi nær þeim rann í skap, annadhvert þegar þeim bar nockur sorg til handa, edur þeir vandlættu í Guds stad, eins og hræsnarinn Kaíphas lézt gjøra, Matth. 26; en hver sorg skyldi oss meiri tilfalla enn sú, ad vér høfum hinn góda Gud styggdan? um hvern skyldum vér meir vandlæta enn um sjálfa oss? því eingum erum vér svo margs ílls medvitandi, ef ecki í verkunum og ordunum, þá samt í hugrenníngunum. Eitt sundur-rifid fat gagnar til lítils; sundurrífum vor hjørtu med ydraninni, og þá munum vér finna, ad jafnvel vort réttlæti er ecki betra enn ridlags fat sem Esajas vottar í 64 kap., þá munum vér hvad best útlíta í Guds augliti; þegar vér athugum hvar frá vér erum fallnir, þá mun hann gésa oss einn nýan klædnad, svo ad mínkun vors fatleysis ecki sjáist. Nú er þad ecki nóg, ad hjarta vort kløckni fyrir Gudi um stundar-sakir; ef vér hverfum þó aptur til sømu synda, þá vill þad lítid gagna, ad vér høfum audmýkt oss fyrir Gudi. Þeirri ydran er illa varid, sem leggur manninum alleina uppá hryggdina en ecki burt tekur sektina. En vid þad er ecki ad dyljast, br. m., ad þeirri ydran er svo háttad sem leyfir manninum ad velta sér aptur í sama saur. Sá hinn ógudligi láti af sínum vondum vegi, og illvirkinn af sinni hugsan, og snúi sér til Drottins, segir Textinn: hér er þad ad merkja, børn mín, ad Spámadurinn kallar ecki ad menn hafi snúid sér til Drottins, nema vér tøkum vora illsku-breytni frá hans augliti. Þad er alkunnugt, hversu ad hinn gudlausi Amnon, sonur Davíds konúngs, breytti skammarliga vid systur sína, Thamar, ad hann rak hana út af húsinu, er hann hafdi vanbrúkad hennar líkhama, 2 Sam. 13; en þó eigum vér eins vid syndina ad breyta, því hún er ecki betra verd; vér þeckjum ecki hennar lýti fyrir blindu holdsins, fyrr enn Guds Andi rydur smyrslum ydranarinnar á augu vors innra manns, Apóc. 3; en nær hann svo gjørt hefir, og vér fyrir nád Guds, þeckjum vora blygdan, þá eigum vér med øllu ad rydja glæpunum burt úr hjørtum vorum, og eingu ad leyna af því Satans herfángi, sem Gud hefir bølvad, Jós. 6, heldur brenna þad upp til kaldra kola, ad svo miklu leiti sem møguligt er í þessum daudliga líkhama, og Guds gjæska fær í oss verkad; og fyrir því ad þessu er svo varid,

þá eigum vér dagliga ad endurnýa vora ydran, því dagliga á hinn gamli Adam í oss ad dreckjast og deydast. Ecki segi eg þad, ad menn géti syndlaust lifad, þad er Guds eins ad syndga ecki; en þad er gudhræddsmanns ad ydrast syndarinnar, og ráda bót á henni; en Gud tilreiknar ecki þeim sem eru í Christó þær syndirnar, sem ad óvilja edur mannligum breiskleika kunna ad henda oss; hitt vill hann, ad menn skuli dagliga ydrast, því dagliga syndgum vér og forþénum ecki annad enn straff. Gud hjálpi oss! ef vér segdum, ad vér hefdum ei synd, segir Jóhannes, 1 Pist. 1, þá drøgum vér oss sjálfir á tálar, og Guds sannleiki er ecki í oss; já, allt vort líf er ei nema synd, væri þad ecki bætt fyrir Guds Sonar dauda; þegar vér hugdum ad lifa einn tíma syndlaust áfram, og vér lítum aptur nær hann lidinn er, þá mætti oss hrylla vid því, sem vér hugdum best ad gjøra, og svo margt augnablik sem er þar í, svo margur þyrni-broddur mundi stínga sálu vora, nema Drottins forþénusta hefdi gjørt athafnir vorar gildar í augliti hins stránga Dómara. Gud nádi oss fárádar manneskjur! hversu ad vér erum undir syndina seldir; sá sem vill skoda stjørnu nockra í einni sjónar-pípu, hann skal leita lengi ad henni, ádur enn hann fær komid auga á hana, og nær hønum hefir þad tekist, er hann svo skjálfhendtur ad hann varla fær vidhaldist, svo ad hann ecki missi hennar aptur; svo erum vér í andligum efnum, vér skulum fyrst lengi þvínga hinn gamla manninn ádur enn vér fáum hina blessudu Jakobs stjørnu, Núm. 24, Jesúm rétt séna, og nær vér þad ødlast høfum, þá eru vorar trúar-hendur svo óstyrkvar, ad þar er næsta hætt vid, ad hún kunni ad hverfa oss aptur, nema Gud styrki vora armleggi. Já, hinir bestu af oss eru eins og fylgispakur hundur, hann rennur ad sønnu veginn eptir sínum húsbónda nockra stund, en ef hann sér eitt dýr, einn saud, einn hest, einn titlíng, þá hleypur hann eptir því; svo eru og vorar hugrenníngar, vér rennum þeim til Guds í vorum bænum undir hans orda heyrn, á vorum ydrunar-tímum, og kanské nockrir optliga þar fyrir utan, en strax sem þar flýgur fyrir oss eitthvert glis veraldarinnar, einhver ábata-von, eitthvert reidi-efni, eitthvert brosligt, sem oss þykir skémtan ad, jafnvel þótt þad á-stundum sé náúnganum til hneisu og óhródurs, þegar þetta edur annad þvílíkt, sem verøldin er full af, bregdur fyrir oss, þá bregdum vér opt af veginum, og hlaupum eptir þessu, og gjætum vér þá lítt undanfarinna synda, er oss urdu svo beiskar í ydraninni, ad þar var ecki fridur í vorum beinum fyrir Guds ógnan, Ps. 38, ef vér látum oss villa oflángt eptir slíkum hégóma. Nú er þar þó einginn, sem kunni ad vardveita svo vel sitt hjarta, já, eg má segja munn og hendur, ad ecki verdi á fyrir hønum í þessháttar hlutum, og þad dagliga; fyrir því sjáum vér og, ad vér hvern dag, já, á hverri stundu høfum nóg ydranar-efni, og er þess betur þess optar, því sá er sér temur þad hugarfar, hann lærir bædi ad sjá gjørr eptir athøfnum sínum, svo og er líkligt, ad hann muni ecki hverfa aptur til stór-glæpanna, því ef hann svo lærir ad ydrast dagliga þeirra bresta, sem hann fær varla edur ecki vidgjørt, þá mun hønum í hug koma, hvad sárt þad muni kvelja hans samvitsku, ef hann skyldi rata í nockurn ógjørníng; svo eigum vér nú ad leitast vid ad afmá líkhama syndarinnar, Róm. 6. Þad er illa bygt, ad brjóta eitt gamalt hús nidur, og tylla því upp aptur af sømu rofum; menn skulu ecki einasta deyda hinn gamla manninn,

er sig fordjarfar í girndum villudómsins, heldur á þar ad upprísa einn nýr madur, sá ed lifi í heilagleika og réttlæti fyrir Gudi æfinliga, annars geingur hinn aptur, og einn Djøfull, sem einusinni er útrekinn, hann tekur sjø adra anda sér verri, Lúk. 11, og hverf- ur aptur í þad hús, hvadan hann út fór. Gjætum ad hvernig þeir hafa breytt sem af hjarta hafa ydrast; Petur var miklu trúarsterkari eptir þad hann hafdi til fulls grátid þad hann hafdi trúna mist, Matth. 26, og fékk svo meiri nád enn hann mist hafdi, Act. 2; einn stór syndari, sem af hjarta ydrast hefir, hann er miklu líkligri til ad standa stødugur, heldur enn einn sem meinar ad sér hafa eckert áordid, og er af mønnum gódur haldinn. Gudi er og miklu þægri svoddan stórbrota-manns ydran og elska til Guds, sem optast mikil er, af því hønum fyrigafst mikid, Lúk. 7, heldur enn ydrunar- laust meinleysi þess, er lítid edur eckert finnur til synda sinna; þar fyrir sé ydranin svo heit, svo kreptug og svo alvarlig, ad þad beiskist í vorri sálu, sem ádur þótti sætt í lífs- erninu, og ad þad kvelji oss í hjartanu, er ádur gladdi í holdinu, svo opt sem vér minnumst á vorar eigin syndir, edur heyrum þær af ødrum drýgdar, og þá munum vér sídur aptur á-ný samþyckjast þeim glæpunum, er Drottinn hefir oss eitt-sinn kvitta géfid. Í Exód. 29, stendur ritad um brenniförnirnar, sem og vóru syndafórnir, ad þær ættu med heilu líki ad uppbrennast; í Levít. 1, er kénnimønnunum skipad, ad þvo inníbli sodd- an brennifórna og svo fæturnar; nú býdur St. Páll oss Róm. 12, ad vér skulum offra Gudi líkhami vora, eina lifandi fórn heilaga, Gudi þægiliga, þad er sú brennifórn, er hønum líkar í hinu nýa Testamentinu; þvoum því inníblin, þvoum hjarta vort, bleytum þad út í heitum ydrunar-tárum; þvoum fætur vorar af þeim saurindum, er þær hafa atast í á hinum breida veginum, sem liggur til gløtunarinnar, Matth. 7. Drottinn sagdi vid Petur Jóh. 13: sá sem þveginn er, hann þarf ecki ad þvo nema fæturn- ar; Frelsarinn dró hér dæmi af þeim, sem laug edur bad taka, þeir þvo fæturnar sídarst, þegar líkhaminn er allur þveginn. Ó, Guds børn! vér erum ad sønnu allir þvegnir í skírnarlauginni, í hverja Jesú dýrmæta blód er útrunnid, en vorar fætur hafa sídan gengid á vondum vegi, og dagliga eigum vér leid í-gégnum fen og óvegi þessarar veraldar. Einginn er svo vel skófatadur, Eph. 6, svo reidubúinn ad framfylgja Evangelió fridar- ins, ad ei slettist nockud uppá; forgéfins erum vér í skírninni afþvegnir, nema vor innri madur skírist dagliga í tára-flódi vorrar ydranar; þad er ecki nóg ad vera skírdur í Jórd- an, vær skulum og skírast í Mara, Exód. 15; þvoum því hjartad, sem er brunnur illsk- unnar, af hverju fram-koma vondar hugsanir, Matth. 15, med kristiligri ydran, hreinsum fæturnar med sama hætti, og hinn ógudligi láti af sínum vegi, leggjum svo þessa fórn uppá Drottins altari. Þegar Aron hafdi helgad samkundu tjaldbúdina og verkfæri þjónustugjørdarinnar og lagt brennifórnina uppá altarid, þá géck eldur út frá Drottni og fortærdi því, Levít. 9; þegar hin nýa tjaldbúd Guds, sem er hjarta eins ángrads synd- ara, þegar hún er hreinsud og helgud med ydraninni, þá mun h. Andi í því birtast í einum elds-loga, og uppkveikja í þess manns hjarta, eina brennandi elsku til Guds, er hønum svo margar syndir hefir tilgéfid; sá sem henni hefir eitt sinn nád, hann hefir nád því góda hlutskiptinu, hønum mun hægra ad mótstanda syndinni, svo lengi hún ecki

slocknar, þá er ecki hætt vid ad hann láti syndina í sér drottna; hún uppbrennir allt sorp veraldligra girnda í hjartanu. Þegar Gedeon hafdi lagt brennifórnina uppá klettinn, eptir því sem eingill Drottins baud hønum, þá rétti eingillinn sinn staf út, er var í hans hendi, og snerti fórnina, og þar spratt eldur upp af bjarginu, og fortærdi kjøtinu og hinum ósýrdu braudunum, Júd. 6; legg þína fórn, kristinn madur, uppá þann stein, sem uppbyggendur forsmádu, Ps. 118, þann útvalda hyrníngar-stein, er Gud hefir sett í Zíon, Jesúm Christum, Esa. 28; þar mun eldur út frá hønum gánga, já, einn brennandi elskunnar og trúarinnar eldur, sem upptendrar þína fórn, svo Gud sem býr í hædunum lukti einn sætleiks ilm þar af; og hefi eg nú svo um þad nockud talad, hversu ad ydranin eigi kroptug ad vera til apturhvarfs frá syndunum, og til mótstødu þeim. Nú þótt ad menn séu um þad sannfærdir í hjarta sínu, ad einginn kunni ad eignast eylíft líf nema sá, sem af hjarta ydrast syndanna og lætur af þeim, þá erum vér svo tregir til þessa verks, og vér látum oss allt annad meir umhugad vera. Segid mér, hver er sá ed segi: þar er nógur tími til ad verda ríkur, til ad taka veitslur og virdíngar, til ad reisa til géstabods; segir ein Jómfrú? þar er nógur tími til ad giptast, ef henni býdst þad rád, sem henni líkar; edur sá, hvers asni edur naut ad fellur í pitt, ad þad sé nógur tími til ad draga þad upp? eda ef eldur kviknar í eins manns húsi, ad nógur tími sé til ad sløckva hann? en til þess ad kveikja vora lampa, til ad fagna brúdgumanum Christó, Matth. 25, til ad draga sjálfa oss upp úr feni syndanna, til ad sløckva bál girndanna, sem Djøfullinn hefir upptendrad í hjarta voru, til þess køllum vér ad altíd sé nógur tími, eins og hefdum vér festi-bréf, af Gudi uppá lífdagana. Þér vitid hvad St. Páll segir, Gal. 5: holdsins verk eru opinber, sem eru: hórdómur, saurlífi, óhreinleiki, lausúng, skurdgoda dýrkan, fjølkýngi, fjandskapur, þrætur, kappgirni, þráttan, sundurþyckja, flockadráttur, øfund, manndráp, ofdryckja, ofneytsla, og þessu líkt, hvad eg segi ydur fyrir, og hefi ádur sagt, ad þeir ed þvílíkt gjøra erfa ecki Guds ríki, segir hann. Nú hafa allir af oss framid eitthvert af þessu edur þvílíku, kanské lengst aldurs síns, og sumir ecki enn-nú aflátid; en vér vitum ecki nær sagt verdur: þú dári! á þessari nóttu munu þeir þína sál frá þér taka, Lúk. 12, og sumir fá einga advørun; ecki kastar daudinn øllum fyrst í bana-sængina; margur deyr svo hann sér ecki daudan fyrir augum sér; í einu augna-bragdi, í svefni, midt í syndunum kippir hann sumum í burtu; en þú veizt ecki hvad helst af þessu ad þér muni ætlad. Seig mér þá í Guds nafni, seig mér, er þar altíd nógur tími til ad ydrast? er þad viturligt, ad draga sína umbót undan í trausti lángra lífdaga, eins og hefdum vér gjørt sáttmála vid daudann? vor dauda-stund er altíd, því skyldi vor ydrunar-stund altíd vera; þú segir: þad tekst mér ecki, því medan eg syndga gét eg ecki ydrast; þad er satt, því ydranin kémur ecki fyrr enn eptir syndina; Gud gæfi ad hún kjæmi þó jafnan strax ad henni drýgdri, og mundum vér sjaldnar syndga, fyrst því verdur ecki ákomid, ad vér hugsum til þess, nær syndin grípur oss, hvad beiskt ydran þar verdi á eptir ad fylgja, ef syndin á ad verda oss fyrirgéfin. Gud gæfi vér vildum gjøra eins og dúfa Nóa, Gén. 8: hún flaug út, og kom aptur strax med einn olíu-kvist í munninum, sem var fridar-

merki. Gud gjæfi, segi eg, ad vér vildum eins gjøra þegar vér fljúgum út af Guds ørk med syndsamligu athæfi, ad vér vildum þá hverfa strax aptur í ørkina, og fridmælast vid Gud, og ecki líkjast hrafninum, er aldrei kom aptur, Gén. 8. Br. m., svo lengi sem vér erum í syndunum, svo lengi erum vér undir Guds reidi, Jóh. 3; svo lengi vér án ydrunar lifum, erum vér undir Satans valdi, Act. 26. Virstola má sá vera, sem þetta vill eiga yfir høfdi sér! en Gud frambýdur sína miskunsemi med þeim skilmála: í dag, í dag medan þú heyrir mína rødd, þá forherd ecki þitt hjarta, Ps. 95. Djøfullinn heitir oss og Guds miskunsemi med þessu skilyrdi: á morgun, á morgun, en ádur enn þessi morgun kémur, þá kannt þú ad vera uppvaknadur í helvíti og kvølunum; Esaú kom seint med brádina, því fór hann á mis vid blessanina, Gén. 27; Pharaó þusti eptir Israel út í Hafid Rauda, Exód. 14, en vildi flýta sér aptur til sama lands er sjórinn gein yfir høfdi hønum, en þad var þá allt um seinna. O, þú syndug manneskja! þú sem meinar ad þar sé altíd nógur tími til ad ydrast, þeink á þetta dæmi, ef þú gengur óttalaust áfram í hinu rauda hafi blódugra synda og illgjørda, og þeinkir aldrei til apturhvarfs, hvad veizt þú nær Guds reidi-flód steypist yfir þig, ad þér óvørum, svo þú gétir ecki aptur-snúid. Sparid tímann, segir Páll, Eph. 5. Þegar vér høfum mikid ad sýsla, br. m., er oss þykir á-liggja, þá køllum vér hvern tíma, hvert augnablik ad vera dýrmætt; ó, segid mér, liggur oss á nockrum hlut svo mjøg sem ad komast í sátt vid hinn Almáttuga, þó látum vér oss svo lítid þar-um ant vera; ef nockur sleppir gódu tækifæri til ad framkvæma einhvern hlut sér til gagnsmuna, þá hlæum vér ad hønum, ef vér ecki hyrdum um hann, aumkum hann og áteljum, ef hann er vor vinur; hendi þad oss sjálfa, þá ydrumst vér eptir; en Djøfullinn hlær ad oss, ad vér forsómum ad taka á-móti Guds gjøf, medan hún er fyrir høndum. Margt kalla menn heimsku í verøldinni, og hver af oss hlær ad ødrum, en einginn er þvílíkur dáraskapur sem sá, er oss marga hendir, þad er ad skjóta ydraninni á frest; hann er syndgar í því trausti, ad hann muni gamall verda, hann er líkur þeim, er brýtur skip sitt í þeirri von, ad hann muni komast til lands á flaka einum. Eg hefi ádur sagt, ad syndin verdi ecki fyrirgéfin, nema ad ydranin ad nockru leiti sambjódi henni; hverjum degi nægir sín þjáníng, segir Endurlausnarinn, Matth. 6; mundi þad ecki verda oss nógu þúngt ad ydrast á hverju kvøldi fyrir hvers dags syndir, ef vér hefdum þeirra registur vel uppskrifad í hjartanu; þótt ecki skjótum vér því á frest dag eptir dag, ár eptir ár? mun ecki þessi byrdi verda nockud þúng um sídir? sá sem er ødrum hádur og á ad vinna dags-verk, ef hann forsómar framan af deginum, mun hann ecki þess betur mega herda á sér þegar hann tekur til verksins? sá sem hefir í úngdóminum lítils aktad syndina, mun ecki ydranin verda hønum þess þýngri í ellinni, ef hann á Guds ríki ad erfa? Vér vitum ecki hvad gamall Davíd var, þegar hann sagdi ad syndirnar væru sér of-þúng byrdi vordnar; hvad mundu þær ecki vordid hafa, hefdi hann dregid þær undan allt til daudans? Einginn er sá af oss, ad hann leggi hinar þýngstu klyfjar á hinn veikasta eik, og þó viljum vér kasta allra vorra lífdaga syndum uppá vorn hrygg, þegar vér erum svo ellimódir, ad vér høfum nóg ad bera sjálfa oss. O, hversu vísliga var þad því gjørt af Davíd, er hann

beiddi Gud ad láta sig ecki gjalda sinna úngdóms synda; Ps. 25. Eitt sár er hægast ad græda medan þad er nýtt; svo er og syndin, hún verdur best læknud ad ferskum gjorníngi. Á morgnana taka menn læknisdóm inn á tóman maga; ydranin er lækníng syndarinnar, tem þér hana, barn mitt, á morgni þíns aldurs, medan þú fullhraustur ert; þeink á þinn Skapara í úngdómi þínum, ádur enn þeir vondu dagarnir koma og þú segir: þad líkar mér ecki, Eccl. 12. Páll skipar oss ad krossfesta holdid, Gal. 5; en þad er lítill kross fyrir hinn gamla Adam ad banna hønum þad sem hann getur ecki haft skémtan af lengur; þad er ad vísu ad offra Gudi því halta og lamada, Mal. 1, og mæla hønum med mælir hins framanda, en Fjandanum med Israels mælir; þirm elli þinni, ef þú kant hennar ad bída, og bídir þú ecki, þá munt þú finna, ad þú hefir eingan skada, nær kvøld þinnar æfi kémur, þótt þad sé um middegi þíns alburs edur jafnvel fyrr. Veit eg ad Gud hefir mørgum snúid á síuum gømlum aldri, en undir því er ecki ad eiga, þótt hann sé miskunsamur, hann hefir aldrei lofad ad láta þann kasta ellibelgnum til ad ydrast, sem aldrei þeinkir til ad afklædast hinum gamla Adam medan hann fullhraustur var. Þú gjørir mig úngann aptur svo sem einn ørn, segir Davíd, Ps. 103; þad er án efa þess vegna, ad Davíd endurnýjadi sína ydran dagliga. Eru ecki tólf stundir í deginum? segir Endurlausnarinn, Jóh. 11; og heyri víngardsHerrann lét verkamenn leigja um elleftu stund, Matth. 20, en sídar ecki. Veit eg, ad Gud hefir mørgum í andlátinu miskunad, og hann miskunar øllum, sem hans nádar leita; en þau munu dæmin færri vera, ad sá hafi snúid sér af hjarta til Guds í andlátinu, sem hann forsmád hefir alla æfi sína. Spámadurinn segir í Textanum: leitid Drottins, medan hann er ad finna, kallid á hann, medan hann er nálægur, svo sem gjøri hann rád fyrir því, ad sú tíd kunni ad koma, ad hann láti sig ei lengur finna, ad hann vilji ecki framar vera nálægur, ad hann vilji ecki heyra, þótt vér margtaladir séum, og útbreidum bádar hendur vorar, Esa. 1, ad hann inniloki sig í einu skýi, sem eingin bæn kémst í gégnum, svo sem Jeremías ad ordi kémst, Harmagr. 3. O, Guds børn! látum oss, látum oss ecki bída eptir þeirri tíd, hver veit nær hún er? hver veit nær mælir syndanna er uppfyltur? hver veit nær høfud-eingilsins lúdur kvedur vid í skýum himins? snúid ydur því til Drottins úngir og gamlir, ríkir og fátækir, voldugir og vesælir, þá mun hann miskuna oss, og til Guds vors, því hjá hønum er mikil fyrirgéfníng. Einginn hlutur er hønum ómáttugur, Lúk. 1, svo er og einginn mælir hans miskunar; frá hans knjám hefir einginn synjandi farid, sem hans leitad hefir med ángri og trega; svo fljótt sem Davíd játadi afgjørd sína, svo fljótt lét Drottinn segja hønum: Gud hefir þína synd í burttekid, 2 Sam. 12; Manasses stynur ecki fyrr í bøndunum, 2 Par. 33, enn ad hans misgjørdir eru fyrirgéfnar í himninum. Minn Herra Jesú! þú sagdir fordum vid Símon, Lúk. 7: þeim sem litid er fyrirgéfid, hann elskar lítid. Herra! þar er einginn af oss, sem hér liggjum á þinni fótskør, sem lítid er fyrirgéfid. Mørg tíu þúsund punda eru oss uppgéfin hinum verstu skulda-þrjótum. Herra! ef þad er møguligt, þá géf oss ad vér elskum svo mikid, sem oss er tilgéfid. Vér erum fortapadir synir,

sem høfum sóad vorri fødurleifd, en leitum þó aptur til fødur=húsa, Lúc. 15. Drottinn! þú hefir runnid á veg fyrir oss, og breidt út þinn fadm á=móti oss, þú hefir mætt oss á midri leid og tekid fagnandi í=móti oss; lát oss því aldrei gleyma, og aldrei verda í svo fráleitt sinni ýfirgéfna, ad vér hverfum burt aptur til ad eta draf med svínunum, heldur ad oss smackist svo þínar vistir, þínir uxar og alid fé, Lúk. 14, er þú tilreidir oss hér í nádinni, ad vér megum sitja til bords med Abraham, Isak og Jakøb í dýrdinni, Matth. 8. Bænheyr þad gódi Gud, fyrir Jesú Christí forþénustu, amen!

# Fjórda Sunnudag eptir Páska.

Gudspjallid, Jóh. 16 Kap.

Jesús sagdi til sinna lærisveina: nú fer eg til hans, sem mig sendi, og einginn af ydur spyr mig ad, hvørt fer þú? heldur af því ad eg taladi þetta til ydar, þá uppfyltist ydar hjarta af hrygd. En eg segi ydur þó sannleikann, ad þad batar ydur, ad eg fari hédan. Því ef ad eg fer ei í burt hédan, þá kémur eigi Huggarinn til ydar; en ef eg fer í burt hédan, mun eg senda hann til ydar; og þá ed hann kémur, straffar hann heiminn um syndina, og um réttlætid, og um dóminn; um syndina, af því þeir trúdu ecki á mig; en um réttlætid, þvíad eg fer til Fødursins, og eptir þad sjáid þér mig ecki; en um dóminn, þvíad høfdingi þessa heims er dæmdur. Eg hefi enn-nú margt ad segja ydur, en þér kunnid ecki ad sinni ad bera þad; en nær ed sá sannleikssins Andinn kémur, þá mun hann kénna ydur allann sannleik, þvíad hann talar ecki af sjálfum sér, heldur hvad hann heyrdi, þad talar hann, og hvad eptirkomandi er, þad kunngjørir hann ydur; hann sami mun og auglýsa mig, þvíad af mínu mun hann þad taka og kunngjøra ydur. Allt hvad helst Fadirinn hefir, þad er mitt; þar fyrir sagda eg ydur, ad af mínu mun hann þad taka, og kunngjøra ydur.

## Exordium.

Eg mun bidja minn Fødur, segir Endurlausnarinn, Jóh. 14, og hann mun senda ydur einn annann talsmann, þann er blífi hjá ydur eylífliga, Anda sannleikssins, hvern heimurinn fær eigi medtekid, því hann sér hann ecki, og þeckir hann ecki, en þér þeckid hann, því hann mun blífa hjá ydur og í ydur vera. Lærisveinar Herrans vóru sorgbitnir af því ad hann sagdi þeim fyrir sína burtfør til Fødursins, Jóh. 16, svo sem vér strax heyrdum af Evangelíó. En til þess ad þeir skyldu ecki allt ofmjøg sturlast þar=af, þá gaf hann þeim þetta blessada fyrirheit, hvert hann efndi strax eptir sína himnafør, þar hann sendi heilagan Anda yfir þá med miklum krapti og undrunum, Act. 2, er fylgdi þeim æ sídan í øllum þeirra embættis=útréttingum, og kann hinni þridju Guddómsins persónu eckert huggunarsamligra nafn ad géfast enn þetta, ad hann sé vor talsmadur, Róm 8; því ef Gud er med oss, hver er þá á=móti oss? segir Postulinn. En ad h. Andi sé Gud, ber skirnin vor ljósast vitni um,

þótt eigi væri þar til önnur rök, þar vér verdum í hans nafni skírdir ásamt Födur og Sonar, Matth. 28; hann er vor talsmadur í hörmúngunum, því hann kennir oss ad fyrir þær byrji oss inn ad gánga í Guds-ríki, Act. 14; vor talsmadur í vorum veikleika, því hann ber vorum anda vitni um, ad vér séum Guds börn, Róm. 8; vor talsmadur hjá Gudi, því hann bidur fyrir oss med óumrædiligum andvörpunum; vor talsmadur í því ad undirvísa oss, því hann leidir oss í allann sannleika; vor tals-madur í efasemdinni, er oss optliga hendir, sökum vors óverdugleika, því hann er pantur vorrar arfleifdar, Eph. 1. En svo sem þad, ad einum talsmanni heyrir ecki alleina til ad forsvara og afsaka þann, er hann ad sér tekur, og hughreysta hann og undirvísa, hvernig hann skuli haga sér fyrir dómaranum edur sínum herra, heldur og er þad hans embætti, ad mótstanda hans óvinum, og ad sannfæra þá sem á móti mæla; svo er þad og heilags Anda verk, ecki alleinasta ad hugga Guds börn, og leida þau í allann sannleika, heldur og ad straffa og byrgja munninn á þeirra óvinum. Þetta embætti h. Anda er innifalid í þeim ordum, er Guds Sonur talar hér í Evangelió, ad hann muni straffa heiminn um syndina og um réttlætid og um dóminn; og fyrir því, ad þau þykja ecki svo audskilin, þá vil eg láta þad vera inntak minnar einfaldrar rædu í þetta sinn, ad útskíra þau. Drottinn hjálpi þar til med nád síns Anda, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Nær hann kémur, mun hann straffa edur sannfæra heiminn um syndina, segir Endurlausnarinn. Einginn efi er á því, br. m., ad þetta á ad skiljast um hina stóru vantrúarinnar synd, hver ed drottnadi í heiminum framar venju á hérvistar-dögum vors Lausnara; eg segi í heiminum, þad er í vantrúarinnar börnum, Eph. 2, svo ad bædi Gydíngar og heidíngjar vóru undir þessari synd, þar Gydíngar óskudu teikns, segir Páll, 1 Cor. 1, en Grickir (þad eru heidíngjar) leitudu ad speki; hinir vildu ecki trúa nema þeir sæi teikn og stórmerki, og þótt þeir mörg sæi, óskudu þeir samt teikns af himni; þessir leitudu ad speki og meintu ad þeir med náttúrunnar skilníngi fengi gripid hinn órannsakanliga Guddómsins dýrdar ljóma, sem uppfyllir bædi himin og jörd, hvern Guds Sonur var sendur til ad opinbera. En fyrir því ad hann vard Gydíngum ad hneixlan, en Grickjum ad heimsku fyrir þeirra vantrúar sakir, þá var heilagur Andi útsendur til ad sannfæra héiminn um þennan Guds sannleika. Ad þetta svo eigi ad skiljast, er deginum ljósara af orsökinni, er Drottinn færir hér til, sem er þessi: af því þeir trúdu ecki á mig. Hann talar um þetta svo sem einn undan-farinn hlut, en þá var allareidu komid ad hans burtför til Födursins. Nú er þad kunnugt hversu ljósir ad vóru spádómarnir og ritníngarnar, sem af hönum vóru, hverjar hann baud þeim ad rannsaka, Jóh. 5, samt vildu þeir ecki láta hann drottna yfir sér. Þeirra eigin sendi-menn báru vitni um, ad aldrei hefdi nockur madur talad svo sem þessi taladi, Jóh. 7, þó sögdu þeir ad hann gudlastadi; þeir sáu hans kraptaverk, og játudu ad einginn kynni þvílíkt ad gjöra, nema Gud væri med hönum, Jóh. 3, samt báru þeir sér þá óhæfu í munn, ad hann væri Samverskur og hefdi Djöfulinn, Jóh. 8. Þeir höfdu fyrir augunum hans allra-heilagasta líferni; þó kölludu þeir hann ofneytslu-mann og vínsvelgjara, vin tollheimtumanna og bersyndugra, Matth. 11. Þeir kunnu ecki ad straffa hann um nockra synd, Jóh. 8; þó klögudu þeir hann, svo sem þann ed frásnéri fólkinu og bannadi ad géfa keisaranum skatt, Lúk. 23; þessi var sú gudlausa vantrúarinnar synd, sem Jesús hér um talar; hún verdur og

á=stundum kølluð synd í ritníngunni framar ødrum syndum. Um Jeróbóam stendur vída í Kónganna bókum, að hann hafi komið Israel til að syndga, 1 Reg. 12, það er til vantrúar og afguða=dýrkunar; ef þér værud blindir (segir Lausnarinn vid Gyðínga) þá hefðuð þér ecki synd, en nú þar þér segið: vér sjáum, þá blífur yðar synd, Jóh. 9 Hvar eigi kann annað meint að vera enn synd vantrúarinnar, því fyrir utan hana høfðu þeir þó margar syndir; já, þessi er sú hræðiliga synd, er hann umtalar, Jóh. 15, 22 24 kap.: hefði eg ecki komið og talað til þeirra, þá hefðu þeir ecki synd, en nú hafa þeir ecki það þeir kunni að skýla synd sinni með; hvar fyrir? minn Herra! því hefði þessi eina synd í burtu verið, þá hefðu allar hinar afmáðar orðið. Já, enn aptur, hefði eg ecki gjørt þau verk á=meðal þeirra, sem einginn kann að gjøra, þá hefðu þeir ecki synd, en nú hafa þeir séð þau, og hata bæði mig og minn Føður, og þetta er sú stóra vantrúarinnar synd, sem øllum ødrum framar synd kallast í ritníngunni; hvar fyrir? því að meðan hún blífur, blífa allar aðrar. Lækníng sálarinnar og allra vorra meina er alleina sú forlíkun sem Jesús gjørt hefir, er hann bar vorar syndir uppá tréð, 1 Pet. 2. Hver sem því ecki trúir, þann vill Drottinn að h. Andi sannfæri, því að með því að trúa réttiliga á hann verða allar aðrar syndir í burtu=teknar; vill hann því að heimurinn verði sannfærður um þessa einu synd, því að fyrir hana eina verða allar hinar bundnar og aptur haldnar; það gjørir Jesús bert, Jóh. 3, segjandi: sá sem ecki trúir, hann er þegar dæmdur; og aptur segir hann í sama kap.: sá sem ecki trúir Syninum, hann mun ecki sjá lífið, heldur blífur Guðs reiði yfir hønum; já, enn framar: ef þér ecki trúið því að eg sé, þá munuð þér deya í yðar syndum, það er, að eg sé ljós heimsins, svo sem hann hafði skømmu áður um sig vitnað, Jóh. 8. Sjáið hér, br. m., að vantrúin er ein høfuð=synd, og øllum ødrum meiri, og er nú auðsært hér af, að húr er sú synd, er Drottinn umtalar hér í Evangelíó; og þótt ecki væri annað til vitnis hér um, þá eru þau undur og stórmerki, er h. Andi birti með sinn guðdóms = krapt undir eins og sakleysi, almætti og guðdóm Christí, strax eptir hans himnaför, til að sannfæra heiminn um þessa skélfiligu vantrúarinnar synd; eður hvað sýnist yður um hina miklu raust, er kom af himni svo sem þjótandi stormviðris, og fyllti upp húsið, þar postularnir inni vóru; um þær eldligu túngur, er settu sig yfir sérhvørn þeirra; um þau aðskiljanligu túngumál, er þeir tøluðu, eptir því sem h. Andi gaf þeim út að tala? Act. 2; segir ecki Lúkas, að þeir ed það heyrðu, hafi vorðið frá sér numdir og tvílráðir, segjandi hver við annan: hvað er þetta? Hvað virðist yður um hina fyrstu prédikun St. Peturs, er hann gjørði í sama sinni? hvernig hann sagði þeim, að Jesús af Nazareth hefði øðlast anda fyrirheitisins af Føðurnum og úthelt því, er þeir þá sáu og heyrðu, og hvernig að þeir skárust í sínum hjørtum, er þeir heyrðu þetta og søgðu: góðir bræður, hvað skulum vér gjøra. Segið mér, var ecki þetta að sannfæra þá um hina hræðiligu synd, að þeir høfðu ecki trúað hønum, heldur krossfestu Høfðíngja lífsins? að eg tali ecki um øll þau undur og jarðteiknir, er fylgdu kristni=boðinu í þá daga, svo að hinir grimmu heiðíngjar, sem vóru án Guðs í heiminum, Eph. 2, gengu Drottni til handa og meðtóku hans vitnisburð; því hrósar Páll, segjandi: eg hefi allt frá Jerusalem og þar um=kríng

illt til Illyríkum fullkomnad Evangelíum Christí, Róm. 15. Nú þótt ad þetta sé
iginlig meiníng Lausnarans í þessum ordum, sem nú hefi eg sagt og sýnt med nockrum
okum, þá eigum vér þó ad vita, br. m. ad þetta embætti h. Anda nær einnig til vor,
vi Frelsarinn sagdi vid þá, ad þessi h. Andi skyldi vera hjá þeim æfinliga, Jóh. 14;
n þeir eru fyrir laungu komnir til hvíldar Drottins, samt hefir Gud ecki yfirgéfid sína
ristni; því eigum vér enn=nú ad leita ad honum í hans h. ordi, sem í fyrstunni var
redikad ad honum samverkanda og styrkjanda med eptir=fylgjandi táknum, segir Markus,
16 kap., hvert hann er enn=nú ecki vidskila ordinn. O, hversu værum vér fávísir ad
þeckja syndina, nema h. Andi sannfærdi oss þar um í Guds ordi! já, enn þá eptir
þad vér hofum lært vorn kristindóm í barna=lærdóminum, þá köllum vér margt þad
syndlaust ad vera, sem þó er ein fordæmanlig synd fyrir Gudi, ef hann vill í dóm vid
oss gánga; og þar ad auki, þá má þad kunnugt vera, hversu ad kristinndóminum er
almenniliga háttad manna á=medal, þad sumir kalla sig vel kristna, ef þeir trúa á Gud,
og því ad Kristur hafi pínst fyrir syndir heimsins. En St. Jakob heldur þad lángtum
odruvísi, þar hann segir: ad trúin sé daud án verkanna, Jak. 2. Nú ef sú trú er
daud, sem ad ecki verkar fyrir kjærleikann, Gal. 5, svo sem Páll gjörir rád fyrir hinni
smu trú, er þad þá ecki vantrú? já, í sannleika, hún er vantrúnni verri, því sú trú,
af hverri madurinn alleina þeckir Gud, og veit ad hann er bædi gódur, og þó undir eins
ttlátur, en forsmáir þó hans vilja og ecki á=stundar ad læra hann, svo hann ad minsta
osti þeckja megi hvad lángt ad hann sé frá því, ad hann géti honum fullnægju gjört,
in hjálpar meir til ad fordæma einn heldur enn sáluhólpinn ad gjöra, þvíad Djöflarnir
ta því einnig og skélfast þar=af, segir St. Jakob, 2 kap. En segid mér, hvar á hold=
ur madur ad fá slíka þeckíngu nema hann sannfærdur sé þar=um af h. Anda? Petur
ir til safnadanna í Asía: þér fórud allir villt sem saudir, en nú erud þér umhverfdir
Hirdirs og Biskups sálna ydar, 1 Pet. 2; med honum tekur Páll undir, segjandi:
: vórud myrkur til forna, en nú erud þér ljós í Drottni, Eph. 5; hvar fyrir mundi
d ské, nema fyrir verkan h. Anda, sem bjó í ordinu og straffadi heiminn um syndina.
ld og blód hefir ecki opinberad þér þetta, sagdi Drottinn vid Petur, heldur minn
dir, sem er á himnum, Matth. 15; og hid sama má eg segja um þeckíngu syndar=
nar. Fyrir Guds Anda erum vér endurfæddir í skírninni, Jóh. 3, endurnýadir í
gskotum vorum. Hann skapar í oss nýtt hjarta, Ps. 51. Hann leidir oss til
sum Christum, án hvers vér fengjum ecki til hans komist, svo sem vér medkénnum í
nni þridju grein vorrar trúarjátníngar; en hvar=med gjörir hann þetta? án efa í fyrst=
nni med þeckíngu syndarinnar. Segid mér, hvert er þad offrid, sem Gudi þóknast?
þad ecki harmþrúnginn og sundurknosadur andi? sem Davíd segir, Ps. 51; sú sála,
m ad hrygg er út af stærd íllskunnar og gengur bogin og veik? þau augu sem þreytt
u; ein húngrud sál mun géfa þér dýrdina og réttlætid, Drottinn, segir Barúch, kap.
. En hvar viljum vér fá þessa hrygd, hver vekur í oss þetta andliga húngur? þad
jörir Andi Drottins med þeckíngu syndarinnar, bædi í Guds h. ordi og svo med sínum
eptugu innvortis hræríngum, þegar hann dregur þá skýluna frá augum sálarinnar, sem

á-stundum kölluð synd í ritníngunni framar ödrum syndum. Um Jeróbóam stendur víða í Kónganna bókum, að hann hafi komið Israel til að syndga, 1 Reg. 12, það er til vantrúar og afguða-dýrkunar; ef þér værud blindir (segir Lausnarinn við Gydínga) þá hefðud þér ecki synd, en nú þar þér segið: vér sjáum, þá blífur ydar synd, Jóh. 9. Hvar eigi kann annad meint ad vera enn synd vantrúarinnar, því fyrir utan hana höfdu þeir þó margar syndir; já, þessi er sú hræðiliga synd, er hann umtalar, Jóh. 15, 22., 24 kap.: hefdi eg ecki komið og talað til þeirra, þá hefdu þeir ecki synd, en nú hafa þeir ecki það þeir kunni að skýla synd sinni með; hvar fyrir? minn Herra! því hefdi þessi eina synd í burtu verið, þá hefdu allar hinar afmádar ordið. Já, enn aptur, hefði eg ecki gjört þau verk á-medal þeirra, sem einginn kann að gjöra, þá hefdu þeir ecki synd, en nú hafa þeir séð þau, og hata bædi mig og minn Födur, og þetta er sú stóra vantrúarinnar synd, sem öllum ödrum framar synd kallast í ritníngunni; hvar fyrir? þvíað meðan hún blífur, blífa allar adrar. Lækníng sálarinnar og allra vorra meina er alleina sú forlíkun sem Jesús gjört hefir, er hann bar vorar syndir uppá tréð, 1 Pet. 2. Hver sem því ecki trúir, þann vill Drottinn að h. Andi sannfæri, þvíað með því að trúa réttiliga á hann verda allar adrar syndir í burtu-teknar; vill hann því að heimurinn verði sannfærdur um þessa einu synd, þvíað fyrir hana eina verda allar hinar bundnar og aptur haldnar; það gjörir Jesús bert, Jóh. 3, segjandi: sá sem ecki trúir, hann er þegar dæmdur; og aptur segir hann í sama kap.: sá sem ecki trúir Syninum, hann mun ecki sjá lífið, heldur blífur Guðs reidi yfir hönum; já, enn framar: ef þér ecki trúið því að eg sé, þá munuð þér deya í ydar syndum, það er, að eg sé ljós heimsins, svo sem hann hafdi skömmu ádur um sig vitnað, Jóh. 8. Sjáið hér, br. m., að vantrúin er ein höfud-synd, og öllum ödrum meiri, og er nú audsært hér af, að hún er sú synd, er Drottinn umtalar hér í Evangelió; og þótt ecki væri annad til vitnis hér um, þá eru þau undur og stórmerki, er h. Andi birti með sinn guddóms-krapt undir eins og sakleysi, almætti og guddóm Christí, strax eptir hans himnaför, til að sannfæra heiminn um þessa skélfiligu vantrúarinnar synd; edur hvad sýnist ydur um hina miklu raust, er kom af himni svo sem þjótandi stormvidris, og fyllti upp húsið, þar postularnir inni vóru; um þær eldligu túngur, er settu sig yfir sérhvörn þeirra; um þau adskiljanligu túngumál, er þeir töludu, eptir því sem h. Andi gaf þeim út að tala? Act. 2; segir ecki Lúkas, að þeir eð það heyrdu, hafi vordið frá sér numdir og tvílrádir, segjandi hver vid annan: hvað er þetta? Hvad virdist ydur um hina fyrstu prédikun St. Peturs, er hann gjördi í sama sinni? hvernig hann sagdi þeim, að Jesús af Nazareth hefdi ödlast anda fyrirheitisins af Födurnum og úthelt því, er þeir þá sáu og heyrdu, og hvernig að þeir skárust í sínum hjörtum, er þeir heyrdu þetta og sögdu: gódir brædur, hvað skulum vér gjöra. Segið mér, var ecki þetta að sannfæra þá um hina hræðiligu synd, að þeir höfdu ecki trúað hönum, heldur krossfestu Höfdíngja lífsins? að eg tali ecki um öll þau undur og jarðteiknir, er fylgdu kristni-bodinu í þá daga, svo að hinir grimmu heidíngjar, sem vóru án Guds í heiminum, Eph. 2, gengu Drottni til handa og meðtóku hans vitnisburd; því hrósar Páll, segjandi: eg hefi allt frá Jerusalem og þar um-kríng

lt til Illyrikum fullkomnad Evangelíum Christí, Róm. 15. Nú þótt ad þetta sé
ginlig meining lausnarans í þessum ordum, sem nú hefi eg sagt og sýnt med nockrum
kum, þá eigum vér þó ad vita, br. m. ad þetta embætti h. Anda nær einnig til vor,
í Frelsarinn sagdi vid þá, ad þessi h. Andi skyldi vera hjá þeim æfinliga, Jóh. 14;
þeir eru fyrir laungu komnir til hvíldar Drottins, samt hefir Gud ecki ysirgéfid sína
istni; því eigum vér enn=nú ad leita ad honum í hans h. ordi, sem í fyrstunni var
édikad ad honum samverkanda og styrkjanda med eptir=fylgjandi táknum, segir Markus,
5 kap., hvert hann er enn=nú ecki vidskila ordinn. O, hversu værum vér fávísir ad
ckja syndina, nema h. Andi sannfærdi oss þar um í Guds ordi! já, enn þá eptir
d vér hofum lært vorn kristindóm í barna=lærdóminum, þá kollum vér margt þad
ndlaust ad vera, sem þó er ein fordæmanlig synd fyrir Gudi, ef hann vill í dóm vid
s gánga; og þar ad auki, þá má þad kunnugt vera, hversu ad kristinndóminum er
menniliga háttad manna á=medal, þad sumir kalla sig vel kristna, ef þeir trúa á Gud,
því ad Kristur hafi pínst fyrir syndir heimsins. En St. Jakob heldur þad lángtum
ruvísi, þar hann segir: ad trúin sé daud án verkanna, Jak. 2. Nú ef sú trú er
ud, sem ad ecki verkar fyrir kjærleikann, Gal. 5, svo sem Páll gjorir rád fyrir hinni
mu trú, er þad þá ecki vantrú? já, í sannleika, hún er vantrúnni verri, því sú trú,
hverri madurinn alleina þeckir Gud, og veit ad hann er bædi gódur, og þó undir eins
tlátur, en forsmáir þó hans vilja og ecki á=stundar ad læra hann, svo hann ad minsta
sti þeckja megi hvad lángt ad hann sé frá því, ad hann géti honum fullnægju gjort,
n hjálpar meir til ad fordæma einn heldur enn sáluhólpinn ad gjora, þvíad Djoflarnir
ia því einnig og skélfast þar=af, segir St. Jakob, 2 kap. En segid mér, hvar á hold=
ur madur ad fá slíka þeckíngu nema hann sannfærdur sé þar=um af h. Anda? Petur
ir til safnadanna í Asía: þér fórud allir villt sem saudir, en nú erud þér umhverfdir
Hirdirs og Biskups sálna ydar, 1 Pet. 2; med honum tekur Páll undir, segjandi:
r vórud myrkur til forna, en nú erud þér ljós í Drottni, Eph. 5; hvar fyrir mundi
d ské, nema fyrir verkan h. Anda, sem bjó í ordinu og straffadi heiminn um syndina.
ld og blód hefir ecki opinberad þér þetta, sagdi Drottinn vid Petur, heldur minn
dir, sem er á himnum, Matth. 15; og hid sama má eg segja um þeckíngu syndar=
nar. Fyrir Guds Anda erum vér endurfæddir í skírninni, Jóh. 3, endurnýadir í
gskotum vorum. Hann skapar í oss nýtt hjarta, Ps. 51. Hann leidir oss til
súm Christum, án hvers vér fengjum ecki til hans komist, svo sem vér medkénnum í
ini þridju grein vorrar trúarjátníngar; en hvar=med gjorir hann þetta? án efa í fyrst=
ni med þeckíngu syndarinnar. Segid mér, hvert er þad offrid, sem Gudi þóknast?
þad ecki harmþrúnginn og sundurknosadur andi? sem Davíd segir, Ps. 51; sú sála,
t ad hrygg er út af stærd íllskunnar og gengur bogin og veik? þau augu sem þreytt
; ein húngrud sál mun géfa þér dýrdina og réttlætid, Drottinn, segir Barúch, kap.
En hvar viljum vér fá þessa hrygd, hver vekur í oss þetta andliga húngur? þad
rir Andi Drottins med þeckíngu syndarinnar, bædi í Guds h. ordi og svo med sínum
ptugu innvortis hræríngum, þegar hann dregur þá skýluna frá augum sálarinnar, sem

Andskotinn hefir heingt þar=fyrir, og ve'r sjáum hversu ve'r høfum hinn góda Gud til reidi reitt med margra ára óhlýdni, og sýnir oss undir eins Guds óumrædiliga gjæsku og þolinmædi yfir øllu þessu, sem mørgum þeim hefir ad sk̄yndíngu í burtu kipt, sem kanské ecki hafa meir syndgad enn vær. Hvad meinid þe'r, br. m.? munum ve'r taka þessar hugrenníngar af sjálfum oss? ó, nei! því ve'r erum ecki megnugir um af sjálfum oss til neitt gott ad hugleida, 2 Cor. 3, auk=heldur ad framkvæma; hvadan þá, nema af h. Anda; hver ed sannfærir oss um syndina? Gydíngar høfdu løgmálid, af því þecktu þeir þó ecki syndina; eigi meintu þeir sumirhverjir ad illar hugsanir væru synd, jafnvel þótt løgmálid segdi þeim: þú skalt eigi girnast, Exód. 20. Þar fyrir líkir Drottinn þeim vid grafir framlidinna, sem utan vóru prýdiligar, en innan fullar af allra handa óþeckt, Matth. 23; þeim mundi hafa þótt þad undarligt, ad sá sem reiddist bródur sínum, skyldi vera ráds=sekur; sá sem liti eina kvinnu til ad girnast hana, hann hefdi alla=reidu drýgt hór med henni í sínu hjarta, Matth. 5; edur ad madurinn væri skyldugur til ad gjøra þeim gott, sem vid hann misgjørir. Svo mikill er nú munur bókstafsins og andans; hinn deydir, ef hann er einsaman; þessi lífgar, en brúkar løgmálid fyrst til ad deyda, þad er ad sundurmerja, og kénna syndaranum, ad hann sé dauda=sekur, og þannig innilykur Gud alla undir óhlýdninni, uppá þad hann miskuni øllum, Róm. 11. Vitid þe'r ecki, ad þe'r erud musteri Guds? segir Páll, 1 Cor. 3. Eg ætla ad svo fari best Guds þjónustan í þessari kyrkju, ad Móses hafi bassann í løgmálinu, en Kristur tenórinn í Evangelíó, því hins góda Hirdirs raust mun þó yfirtaka og hærra láta enn Móses reidarþruma. Þad er einn glediligur tvísaungur í eyrum mæddrar samvitsku, og þá rætist þad med fullu og øllu, er Drottinn sagdi fordum daga: Guds ríki er inni hjá ydur, Lúc. 17. Jafnvel ángrid fyrir syndina er Guds børnum þeckara, enn øll heimsins kjæti hans sonum, og þau tárin, er einn syndari fellir í Guds sjód, þau smacka hønum betur enn vín hinnar flárádu Dalílæ, veraldarinnar, hennar fylgjumønnum. Og því segir Lausnarinn hér strax eptir: ad h. Andi muni sannfæra heiminn um réttlætid, af því hann fari til Fødursins. Kristur meinar hér í fyrstu sitt eigid réttlæti og sakleysi; þad hlaut á eptir ad fylgja, þegar Guds Andi hafdi straffad heiminn um þá skélfiligu synd, ad þeir trúdu hønum ecki, heldur festu hann uppá gálgann, er þeir kunnu þó ecki ad straffa um neckra synd, þá hlaut þad á eptir ad fylgja (segi eg), ad hann sannfærdi þann sama heim um hans réttlæti, ad þeir høfdu lífsins Hertoga krossfest, svo sem Petur sagdi þeim, Act. 3; þá kunnu þeir ad segja, ad hann væri timburmannsins sonur, Matth. 13; ad þeir þecktu fødur hans og módur; ad hann væri Samverskur og hefdi Djøfulinn, Jóh. 8; ad hann fyrir Belzebub Djøfla=høfdíngja ræki út Djøflana, Lúc. 11; þá kunnu þeir ad géfa hønum þad ad dauda=søk, ad hann kalladi sig Konúnginn Christum, Lúc. 23; já, ef hann væri Guds Sonur, ad hann skyldi stíga ofan af krossinum, Matth. 27; þá var þad tími fyrir þig ó, þú hinn gudlausi Biskup Caipha! ad rífa þín klædi, af því hann játadi sig Guds Son ad vera, Matth. 26; þá var tími til alls þessa, þegar hann ad sigrudum dauda, Djøfli og helvíti, upphafinn yfir alla himna, hafdi sett sig til Kraptarins hægri handar, og til vitnisburdar

um sitt almætti, sitt réttlæti og dýrdarfullu hátign, sendi hinn h. Anda yfir sína þjóna og ambáttir med stórum undrunum og táknum, já, yfir sína fjandmenn og ofsóknara, svo ad margir af kénnimønnunum hlýdnudust trúnni, segir Lúkas, Act. 6; þegar umkomulausir fiskimenn ráku út djøflana, læknudu sjúkdóma, opinberudu leynda hluti, sem einginn manna kunni ad vita, svo sem Ananíæ og Zaphíræ dæmi vitna, Act. 5, og þetta skédi allt í hans nafni, sem hinir ádur høfdu kvalid, húdstrýkt og á gálgann uppheingt milli tveggja spillvirkja. Med øllum þessum guddómligu furdu=verkum sannfærdi nú h. Andi verøldina í þá daga. Því eg fer til Fødursins, segir Herrann; þetta hid sama brúkadi h. Andi fyrir munn Peturs til ad sannfæra þá um Christí réttlæti, er heyrdu á tal hans, Act. 2, er hann vitnar af spádómi Davíds konúngs um upprisu og uppstigníng Drottins Jesú, segjandi: ecki er Davíd uppfarinn í himininn, er hann segir sjálfur: Drottinn sagdi mínum Drottni: sit þú mér til hægri handar, þar til eg legg óvini þína til skarar fóta þér; viti því allt Israels hús fyrir víst, ad Gud hefir gjørt hann ad Krist og Herra, þenna sama Jesúm, er þér krossfestud; og ad þessi sé meiníngin í ordum Drottins, vottar þad sem hér eptirfylgir: og eptir þad sjáid þér mig ecki. Ad sønnu sáu hann lærisveinarnir eptir hans upprisu, en ecki med sømu ásýnd og ádur; ecki í þjóns=mind, heldur svo sem einn sigurvegara; ecki svo sem þeir sáu hann í grasgardinum bundinn og fjøtradann, heldur einglunum líkann, þar hann géck inn ad luktum dyrum til þeirra, Jóh. 20; ecki svo sem eina bølvan á krossinn uppheingdann, Devt. 21, heldur upprisinn af daudum, ad daudans pínu uppleystri. Allt þetta vottadi hans réttlæti og sakleysi, því þad var ómøguligt, svo sem Petur sagdi, ad hann kynni af daudanum haldinn ad verda, Act. 2. En allra=helst meinar Drottinn hér sína himnafør, ad þeir mundu hann ecki sjá úr því, ad hann gjørdist fyrir þeim ósýniligur, og skýid tók hann burt frá þeirra augum, Act. 1. Og er nú af þessu øllu réttlæti Drottins sannbevísad, fyrir vitnisburd h. Anda, sem fám døgum þar eptir kom yfir postulana med sýniligum Guds krapti, svo ad þeir túngur tøludu, Djøfla útráku, løgdu hendur yfir sjúka og þeim batnadi, søgdu fyrir óvordna hluti, svo sem hann ádur fyrir sagdi og segir berliga hér í gudspjallinu med þessum ordum: nær ed sá sannleiksins Andi kémur, þá mun hann kénna ydur allann sannleik, því hann talar ecki af sjálfum sér, heldur hvad hann heyrdi, þad talar hann, og hvad eptirkomandi er, þad kunngjørir hann ydur; hann sami mun og vegsama mig, því af mínu mun hann þad taka og kunngjøra ydur. Hvad sýnist ydur br. m.? er ecki þvílíkt ad sannfæra heiminn um réttlæti Drottins Jesú? og af þessu Jesú Christí allra=helgasta réttlæti hángir vort réttlæti, eg meina þad oss tilreiknad verdur, því þad er raunar hans réttlæti; og þar fyrir heyrir oss og svo til þetta embætti h. Anda eigi sídur enn þeim, sem lifdu á postulanna døgum; og byrjar oss hér fyrst ad athuga þau ord, er hann taladi til lærisveinanna skømmu sídar, Jóh. 16: innan lítils tíma munud þér ecki sjá mig, og aptur innan lítils tíma munud þér sjá mig aptur, því eg fer til Fødursins; af hverjum ordum þad audsært er, ad Drottinn kallar sína pínu, sinn dauda, sína greftran og upprisu í þessum stad, sína burtfør til Fødursins ásamt himnaførinni.

Nú er þad öllum mönnum augljóst, ad réttlæti syndugs manns er í því fólgid, ad Kristur er fyrir oss dáinn, upprisinn og til himna farinn; því segir og Páll, ad hann sé dáinn fyrir vorar syndir, og upprisinn oss til réttlætis, Róm. 4. En forgéfins væri hann dáinn og upprisinn, væri hann ecki til himna farinn og seztur til Kraptarins hægri handar, til ad bidja fyrir oss, hvadan hann og hefir sendt oss sinn Anda, sá ed trúna í oss verkar, fyrir hvörja madurinn alleina verdur réttlátur fyrir Gudi, Róm. 3. Alt þetta kénnir hann best sjálfur med fám ordum, Lúc. 24, er hann sagdi vid lærisveinana undir sína himna-för: svo er þad skrifad og svo byrjadi Christó ad lída og upprísa af daudum á þridja degi, og predika láta í sínu nafni ydran og syndanna fyrirgéfníng hjá öllum þjódum; og kémur þessi partur embættis h. Anda mjög vel saman vid hinn fyrra, þvíad í þeckíngu syndarinnar er ydranin fólgin, en réttlætid í fyrirgéfníngu syndanna, og því vil eg taka mér hin gledilígu St. Páls ord í munn um þetta efni, er hann segir, Róm. 8: hver vill ásaka Guds útvalda? Gud er sá sem réttlætir; hver er sá ed fordæmi? Kristur er sá sem dáinn er, já, en framar, upprisinn, hver einnig er á hægri hönd Gudi, sá einnig er medalgángari fyrir oss. Sé því mitt réttlæti ecki betra enn nidlags-fat, Esa. 64. Guds heilagur Andi hefir sannfært heiminn, sannfært lögmálid, sannfært Djöfulinn, já, sannfært mína ángráda og skurlada samvitsku, sem klagar mig um fjölda minna synda dagliga, hann hefir sannfært þau, segi eg, um Jesú Christí réttlæti, sem vordid er mitt, því hann er Jehóva vort réttlæti, Jer. 23, og bædi mér og öllum stór-syndurum af Gudi géfinn til réttlætis, til helgunar og eylífrar endurlausnar, 1 Cor. 1. Hafi Adam forþénad med hinni fyrstu synd ad verda útrekinn úr Paradís med sínu ránglæti, hafi hann lokad henni aptur eptir sér og öllu sínu afkvæmi, hafi eg hans syndugur nidji fylgt hönum eptir í ránglætinu, svo þar er eckert nema fordæmanligt í mér, þad eg hefi af hinum fyrra Adam medtekid, hvern Lúkas kallar Guds Son, Lúk. 3, en gjördi bædi sig og mig og allt sitt hyski ad Djöfulsins börnum fyrir yfirtrodsluna: þá sannfærir þó Guds gódur Andi mig um þad, ad hinn eylífi Guds Sonur, hinn annar Adam, sem er Drottinn af himni, 1 Cor. 15, hver ad hefir Davíds lykil, og upplýkur svo einginn kann aptur ad láta, Apóc. 3, hann hefir bædi mér og öllum þeim upplokid ríki himnanna, sem med ángri síns hjarta skrída ad fótum hans og segja: Fadir, eg hefi syndgast í himininn og fyrir þér, eg em ei verdur ad kallast þinn Sonur, gjör mig svo sem einn af þínum leigu-mönnum, Lúk. 15. Hverjir eru mínir óvinir? hvar eru mínir áklagendur? þad er lögmálid, þad er heimurinn, þad er Djöfullinn, þad er mín eigin samvitska; eg óttast þá ecki, þegar Drottinn er mér nádugur fyrir míns Endurlausnara réttlæti; þeir eru bödlar Guds, nær hann er reidur, en þeim sem í Jesú Christó er vid hann sáttur og kvittur, géta þeir eckert mein unnid; ecki lögmálid, því hann er kominn lögmálid upp ad fylla, Matth. 5; ecki heimurinn, því hann segist hafa heiminn sigrad, Jóh. 16; ecki Djöfullinn, þvíad höfdíngi þessa heims er dæmdur, Jóh. 14; ecki mín samvitska, því Jóhannes segir: ef ydar hjarta fordæmir ydur, þá er þó Gud meiri ydar hjarta, 1 Jóh. 3; og Petur segir um skírnina, ad hún sé sáttmáli gódrar samvitsku, 1 Pet. 3; þótt eg hafi hann yfirtrodid, þá veit

og þó ad hans blód er útrunnid í skírnar-sáinn, sem mig óverduganu þræl hefir elskad meir enn sjálfan sig. Jesús er bædi Gud og madur, Guds eingétinn Sonur og þó Davíds sonur, Matth. 1; þar sé eg Gud hefir straffad á Gudi mínar syndir, og þann mann og minn bródur eptir holdinu, í hvørjum ad býr øll fylling Guddómsins líkhamliga, Col. 2, hefir hann ad afrekadri minni endurlausn, sett sér til hægri handar; þar fyrir gétur hann ecki straffad hans réttlæti á mér, hvers ránglæti hann straffadi á hønum, þegar hann gjørdist bølvan fyrir mínar syndir, Gal. 3, sem eylífa bølvan forþénad hefi. Gud hefir aldrei unnid meira frægdar-verk, heldur enn þá hann leysti oss synduga orma úr eylífu banni. Ødrum sinnum hefir hann átt ad skipta vid þad sem eckert var, svo sem þegar hann gjørdi himin og jørd af eingu efni, Gén. 1; edur vid sképnur sínar, svo sem þegar hann lét sólina standa kyrra, Jós. 10, klauf hafid í sundur, Exód. 14, sendi plágur yfir Egyptaland, og annad þvílíkt; en í vorri endurlausn átti hann ad býta vid sjálfan sig og sitt réttlæti, hverju eigi má raska; því er eg þess fullvruggur, ad hann lætur ecki svoddan stórvirki til ó-nýtis verda á þeim, sem treysta á forþénustu hans eingétins Sonar þótt ad syndugir séu, þvíad synduga og ecki réttláta er hann kominn ad kalla til ydranar, Matth. 9. Hvad skulum vér þá hér-til segja, segir Páll, Róm. 6; skulum vér dvelja í syndunum, svo ad nádin yfirgnæfi? fjærri sé því. . Drottinn segir hér í gudspjallinu, ad heilagur Andi muni sannfæra heiminn um dóminn, af því ad høfdíngi þessa heims sé dæmdur. Hver ad sé þessi høfdíngi er audvitad, þad er Satan, hver hinn sami kallast Djøfla-høfdíngi, Matth. 12; en þar-fyrir kallast hann svo, ad heimurinn liggur í hinu vonda, 1 Jóh. 5, en hann er alls ílls høfundur; hønum þjónar mikill herskari í heiminum, allra-helst manneskjan, med adskiljanligum syndum og glæpum, svo ad hann er mektugur í børnum vantrúarinnar, segir Páll, Eph. 2, þad er í heimsins børnum; hann er dæmdur; tønn fyrir tønn, auga fyrir auga, segir løgmálid, Levít. 24. Satan var øll ordsøk í því ad Kristur var deyddur, kvalinn, húdstrýktur og mátti helvítis píslir þola, er syndin hafdi tilunnid; þar-fyrir er hann dæmdur til myrkranna hleckja eylífliga í helvíti, 2 Pet. 2, hann er dæmdur, þad er sigradur og útrekinn; svo segir Drottinn hjá Jóh. 12, undir sína pínu: nú er dómur heimsins, nú mun høfdíngi þessa heims verda útsnaradur. Þad er alkunnugt, hversu ad Satan drottnadi í verøldinni ádur enn Jesús kom í heiminn, já, ádur enn hann sigradi Djøfulinn á krossinum, hversu ad øll lønd voru full af hinni verstu afgudadýrkan, og sjálfri Guds þjónustu á-medal Israels barna hafdi hann svo spilt, ad þegar hann, sem løgmálid hafdi útgéfid kom í heiminn, hann þeckti ecki Guds løgmál hjá sínu fólki; þar yfir klagar hann, Mark. 7, segjandi eptir Esaja: þeir dýrka mig forgéfins, er þeir kénna þann lærdóm sem eru manna setníngar, því þér gángid fram hjá Guds bodordum, og haldid manna setníngar; þvott bikara og kéra, og margt annad þvílíkt gjørid þér. En þegar Guds Andi var úthelltur yfir allt hold, svo sem Jóel hafdi fyrir spád, Jóel, 2, þá urdu hér á snøgg umskipti, svo sem Lúkas skrifar í postulanna-gjørníngum, 2; svo hefir nú Drottinn Jesús útrekid Djøfulinn úr sínu ríki med Guds fíngri, Lúk. 11, sem er h. Andi, vordinn sjálfur høfud alls høfd-

íngjadæmis, og hefir flett hinn sterka hervopnada øllum sínum herklædum á hver hann treysti, Matth. 12, svo Djøfullinn hefir sjálfur naudugur borid vitni um hans almætti og Guddóms krapt; því lysti hann medal annara af munni stulkunnar, sem rann eptir þeim Páli og hans førunautum í marga daga, og hrópadi: þessir menn eru þjónar Guds hins hærsta, sem boda ydur veg velferdarinnar, Act. 16; þannig át Djøfullinn sjálfur ofan í sig allar gudlastanir sinna verkfæra; og þegar þeir flettu hinn Heilaga og Réttláta sínum klædum, og heingdu hann nakinn uppá tréd, þá hefir hann undir eins afklædt høfdíngjadæmin og maktar-vøldin, og þau opinberliga til skodunar framleidt, Col. 2, hrósandi sigri yfir þeim á krossinum. Og um þennan dóm sem nú þannig er yfir Djøflinum genginn, sannfærdi Guds h. Andi heiminn, ecki einasta þá ógudligu, sem máttu þreifa á slíku, heldur og alla þá, sem hann umsnéri til hlýdnis Christó, og gjørdi hønum þjónustu-bundna, og þad sama verkar hann enn nú í dag í Guds h. ordi, þegar þad er hreint og klárt, og med alvøru nockurri og røksemi kénnt og prédikad, því jafnvel þótt adDjøfullinn sé bundinn, þá lætur hann þó ecki af ad skjóta sínum ørvum á Guds hér. Þar-fyrir kristnir menn, fyrst ad vorKonúngur hefir svo mikinn sigur unnid á Djøflinum, og svo vegsamligan dóm yfir hønum fengid, þá látum oss ecki þá skømm henda, ad vér yfirgéfum Hertoga lífsins, en gaungum í lid med Fjandanum aptur, edur þjónum hønum framvegis í syndinni og ógudligu athæfi, á-móti samvitskunni; verum minnugir þess eids, er vér sórum hinum lifanda Gudi í skírninni, ad vér játudum hønum og øllum hans stórmerkjum, en afneitudum Fjandanum og øllum hans svikum og vélum. Ecki hefir Guds Sonur þenna dýra sigur unnid fyrir sjálfan sig; þeirrar háleitu Guddómsins þrenníngar óraskanliga réttlæti var fullnægt fyrir hina fyrstu synd Djøfulsins, þegar hann var útsnaradur af himni; Gud tók rétt sinn af hønum fyrir sjálfan sig í eylífum kvølum; fyrir oss synduga orma og Guds óvini, er þessi frægi sigur unninn; sínu lífi, sinni bitru kvøl og dauda hefir hin eylífa Gjæska til þess kostad ad fá herleidínguna ad herfángi tekid, Eph. 4, og oss sigurinn géfid; med þessu dýrmæta lausnar-gjaldi hefir hann oss heil. Anda afrekad, til ad kénna oss ad þeckja syndina, ad þeckja hid sanna réttlæti sem er af trúnni, og til ad endurnýa vort hugskot, svo ad vér gétum, ef viljum Gudi þjónad. Verum því eigi svo óþacklátir edur sjálfum oss vondir, ad vér sløckvum h. Anda, 1 Tess. 5, med vísvitandi glæpum og illgjørdum í-gégn vorum Frelsara, sem oss hefir svo dýru verdi keypta, og þar hann hefir úthelt hønum í vor hjørtu fyrst í skírninni, sídan dagliga nálægt í sínu h. ordi, ef vér forsmáum þad ecki, þá segjum ecki ad þad sé oss ómøguligt Gudi ad þóknast, 1 Cor. 3, því hann kann alla hluti framar ad gjøra, enn vér kunnum ad hugsa edur mæla, þar sem hann finnur gódan vilja. Þad er slægd Djøfulsins, ad hann breytir vid oss eins og þeir, sem Móses gjørdi frá sér inn í Kanaans-land, þeir søgdu illa af landinu, Núm. 13; svo breytir og Satan, hvar sem hann hefir vanid holdid á sínar kræsíngar, þad eru skammir og lestir, ad hann kallar þad ómøguligt Gudi ad þóknast, þar hann sé einn strángur herra, sem ad uppskéri þar hann ecki sádi, Lúk. 19. Þad lýgur þú, Satan, því fyrir utan þad ad allt hvad vér gjørum er ecki utan hálfverk, sem Postulinn vottar, 1 Cor. 13, og verdur þad svo af Gudi þegid, þá styrkir Andinn vorn vanmátt,

segir Páll, Róm. 8, og hann bregdst aldrei þessum, sem bidja um hans adstod, og allt hvad vér gjörum gott, ef svo má nockurt heita, af því vér gjörum, þad er hans verk í oss; hann verkar þad ad Guds bodord eru eigi þúng, 1 Jóh. 5; hvar fyrir? þvíad elska Guds er úthelt í vorum hjörtum fyrir h. Anda, sem oss er gefinn, Róm. 5; hann gjörir Christí ok sætt, og hans byrdi létta, Matth. 11; hvar fyrir? þvíad elskan til Jesúm yfirvinnur alla hluti, og þad er eins og St. Páll segir: eg forsmá alla hluti fyrir hann, sem mig máttugan gjörir, Christum, Phil. 4. J. kristiligu líferni er miklu meiri gledi og unadsemd, jafnvel í þessum heimi, heldur enn í allskyns fullsælu veraldarinnar; en ef vér eigi til þessa finnum, þá veldur þad því, ad vani syndarinnar er allt ofríkur í oss vordinn; reynum til fyrst og tökum til ad berjast kallmannliga, sjáum til hvert vér ei finnum adstod h. Anda, og þegar vér fyrir Guds nád höfum yfirunnid, hvad án alls efa skédur, ef vér leggjum nockurn hug á vort mál, þá munum vér ecki vilja umskipta þótt allur heimurinn í bodi væri, og kalla strídid lítilsverdt hjá þeirri gledi er vér finnum í vináttu Guds og í gódri samvitsku; en þad má eigi undandraga, kristinn madur!' Tef ecki ad snúa um til Drottins, segir hinn gamli Syrach. 5 kap., og skjót því ecki á frest dag frá degi. Gjörum oss vidskila ógudliga veröld þessa og hennar athæfi, strax sem Andinn kallar til vor af opinberíngar bókinni, segjandi: gángid út af henni mitt fólk, ad þér verdid ecki hluttakandi í hennar syndum, og medtakid af hennar plágum, Apóc. 18; og þetta lætur Gud á hverjum helgum degi klíngja fyrir vorum eyrum. Þegar Loth fordum daga tafdi ad gánga út af Sódóma, þá tók eingillinn í hönd hönum, og dró hann hálfvegis naudugan út þadan, svo ad hann ecki tíndist í bálinu med ödrum, Gén. 19. O, hversu opt tekur hinn nádugi Gud í hönd vora med krossinum, med eptirdæmunum, med hinum straungu lögmálsins hótunum, og dregur oss nauduga út af vondri veröldu þessari, ad vér ecki fyrirforumst med henni! Loth beiddi leyfis ad hann mætti búa í Zóar, sem var nálæg Sódóma, Gén. 19; en hann tafdi þar ecki lengi, hefir og ecki þorad sökum þess hrædiliga straffs, er kom yfir hinar borgirnar. Gjör slíkt hid sama, barn Guds, þegar þú ert einusinni fyrir Guds nád útgenginn frá heiminum, sem er rétt ein Sódóma, þá stadnæmst ecki í nágrenninu, þad er, kappkosta ad deyda aldeilis hinar fornu girndir; rek út ambáttina, Gal. 4, þad er syndumspillta náttúru med syni hennar, vondum vana, ad svo miklu leiti sem þér er mögguligt; drep hinn gamla manninn, svo ad Kristur megi í þér lifa, annars er hætt vid, ad þótt Zóar sé lítil, þá kunni hún ad verda ad Sódóma fyrir nágrennis sakir, og þig megi aptur lánga til kjöt-katlanna í Egyptalandi. Og hefi eg nú svo talad um þetta þrefalda embætti h. Anda, hvad eg hygg Guds ordi samhljóda vera, og undir því er falinn allur vor kristinndómur, sem er í fyrstu, ad þeckja syndina til ad ydrast, Jesú Christí fullkomna réttlæti til þess ad trúa ad oss verdi hún fyrirgéfin, og dóm Andskotans til þess ad afneita hönum og öllu hans athæfi; og hángir þetta svo hvert af ödru, ad eckert má annars missa, ef vor kristinndómur á' fullkominn ad vera: En þú vor Gud sem ríkur ert af nád, kénn þú oss ad þeckja syndir vorar, og ad ydrast

þeirra af øllu hjarta, og nær þú reisir oss á fætur aptur úr voru dupti og øsku, med trúnni á þinn eingétinn Son, þá gjør oss hinar fyrri syndir svo leidar, ad vér stuggum vid þeim, svo sem annari óþeckt, en kénn oss ad lifa sparsamliga, gudrækiliga og réttferdugliga í heimi þessum, ad vér mættum óstraffanligir finnast í tilkomu Jesú Christí vors Frelsara, og af honum innleiddir verda í hid fagnadarsæla lambsins brúdkaup. Géf oss þar til þinn h. Anda, nádugi Fadir! fyrir þann sama þinn eingétinn Son Jesúm Christum, amen!

## Fimta Sunnudag eptir Páska.

Gudspjallid, Jóh. 16 Kap.

Og Jesús sagdi til sinna lærisveina: sannliga, sannliga segi eg ydur, hvørs þér bidjid Fødurinn í mínu nafni, þad mun hann géfa ydur. Híngad til hafi þér einskis bedid í mínu nafni; biddjid, þá munu þér medtaka, svo ad ydar føgnudur sé fullkomligur; þetta hefi eg talad í ordskvidum til ydar; sá tími kémur, ad eg tala eigi lengur í ordskvidum til ydar, heldur mun eg kunngjøra ydur opinberliga af mínum Fødur. Á þeim degi munu þér og bidja í mínu nafni. Og eigi segi eg ydur, ad eg muni bidja Fødurinn fyrir ydur, þvíad sjálfur Fadirinn elskar ydur, af því þér elskid mig, og trúid þad, ad eg sé af Gudi útgenginn. Eg em af Fødurnum útgenginn, og kominn í þennan heim; eg fyrirlæt og aptur þennan heim, og fer til Fødursins. Og hans lærisveinar segja þá til hans: sjá, nú talar þú berliga, og mælir einga ordskvidu; nú vitum vér, ad þú veitst alla hluti, og þú þarft eigi ad nockur spyrji þig. Fyrir þad trúum vér, ad þú sért af Gudi útgenginn.

### Exordium.

Drottinn Gud þinn er einn fortærandi eldur, sagdi Móses fordum daga vid Israels sonu, Devt. 4. Kvída mætti einn aumur syndari fyrir, sem eckert annad gjørir enn ad forþéna daudan, ad koma fram fyrir svo dýrdarfullan, svo ógnarligan Gud, hvers reidi ad brennur, yfir þeim sem hann hatar, allt til nedsta helvítis, Devt. 32. Hvernig mun eitt hálm-strá, ein vatns-bóla kunna ad búa vid svoddan einn fortærandi eld; þó skulum vér fram fyrir hann koma, því hver vill dyljast fyrir hans augliti? Nú þótt ad þad vitanligt sé, ad vorar syndir adskilji millum vors Guds og vor, Esa. 59, þá hrópadi þó Fadir miskunsemdanna: komid til mín allir þér sem erfidid og þúnga erud þjádir, eg vil endurnæra ydur. Matth. 11. Hvar fyrir þótt ad Gud sé einn fortærandi eldur, sem Páll ad ordi kémst, Hebr. 12, þá megum vér játa þad um oss satt ad vera, er hann skrifar Gydíngum til í sama bréfi og sama kap.: þér erud komnir til fjallsins Zion, og borgar Guds lifanda. Jerúsalem hinnar himnesku, og til margra þúsunda einglanna; af hverju vér sjáum hvad mikid oss er veitt í Christó Jesú Drottni vorum, ad vér sem fjærri vorum, hverra fedur ad voru án Guds í heiminum, Eph. 2. Vér erum fyrir hann vordnir Guds heima-menn. og vor borgar-réttur er á himnum, svo sem Páll segir, Phil. 3; en med hverju móti sáum vér þá, saurugar

manneskjur, helst nærri komid þessum Guddómsins dýrdar-ljóma, sem ad býr í því ljósi, sem einginn fær til komist? 1 Tím. 6; þad skédur í hans h. ordi og sakramentunum, en ecki sízt í einni audmjúkri kristins manns bæn, þar hinn vesæli talar vid hinn voldnga, hinn líflausi vid Dómarann, þrællinn vid Herrann, einn syndugur ormur vid himins og jardar Skapara, svo sem þá madur vid mann talar, og einn vinur vid annann, Exód. 33, hvar einn harm-þrúnginn og sundurkraminn andi, þreyngir sér í gégnum skýin med óumrædiligum andvørpunum, fram fyrir Guds tignar-stól í himninum. og verdur af hønum bænheyrdur, svo ad himnaríki lídur ofríki, Matth. 11; og til þessa samtals býdur oss nú hér í dag Eingill hins mikla ráds, þar hann segir hér í gudspjallinu: sannliga segi eg ydur, hvers þér bidjid Fødurinn í mínu nafni, þad mun hann géfa ydur. En hér er nockur vandi á, br. m., sem er, ad vér høgum svo bæninni, ad vér séum vissir um bænheyrsluna, og finnum til hennar, (því hans fyrirheit bregdast aldrei). Og því vil eg nú tala nockud þar um á þessu stundarkorni, hvernig bæninni eigi háttad ad vera, og er sérdeilis í því tvent ad athuga, sem er, 1) ad hún sé heit og alvarlig, 2) ad hún framkomi af trúudu hjarta. En hann, sem alla hluti kann framar ad veita, enn eg kann fyrir ad mæla, hann styrki oss hér-til med nád síns Anda, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Þegar vér viljum offra Gudi bænum vorum og þackargjørdum, þá hugleidum fyrst allra, hversu skélfilig hátign þad er, sem vér komum fyrir, sem er Konúngur konúnganna og Drottinn drottnanna, 1 Tím. 6, sá ad er allrar veraldarinnar Dómari, Gén. 18, og í hvers augum ad himnanna himnar eru ecki hreinir, Job. 15. Svo lángt er frá því, ad nockurt saurugt megi nærri hønum koma, þegar hann reidur er; en vér erum allir svo sem sá óhreini, segir Esajas, 64 kap., og jafnvel vort réttlæti er svo sem nidlags fat. Hvad helst sem ad snertir þetta fjall, þad skal dauda deya, þar skal eingin hønd snerta þad, annars skal þad grýtast edur í hel skotid verda, hvert heldur þad er madur edur kvikindi, sagdi Drottinn fordum vid Mósen, undir þad hann útgaf sitt h. lögmál á fjallinu Sínaí, Exód. 14; svo hrædiligt, svo ógnarligt er hans tignarveldi, þegar hann vill þad sýna. Nú viljum vér segja, ad hann sé blídkadur fyrir Sonarins forþénustu, sem satt er; en þess er ad gjæta br. m., ad þeim einum mun hann blídliga taka, sem fyrir Christí blód fram-koma; en þeim einum mun Christí blód og hans forþénusta þar til gagna, sem hennar leita med ángrádu og sundurknosudu hjarta. Lát þér því til hugar koma, syndugur madur, þegar þú fellur fram fyrir Gud í þínum bænastad, hvílíkur háski þad sé ad koma nærri þessum brennanda eldi, nema þú ádur svo tilreiddur sért, ad þú fáir hann slöcktan med tárum þíns hjarta. Þegar þú hefir nú íhugad hvílíkur ad Gud sé, og hversu reidur syndsamligu athæfi, þá athuga hvílíkur ad ert sjálfur þú, mold og aska, svo sem Abraham sagdi, Gén. 18, gétinn og fæddur í syndinni, Ps. 51, og af náttúrunni til reidinnar barn, Eph. 2; ad sønnu endurfæddur í skírninni fyrir Christí blód, og Guds vinur kalladur. En hversu opt hefir þú nú rofid þinn skírnar-sáttmála, og ecki lokid þín særi hinum allra Hæsta? þú hefir verid búinn til ad gjøra allt þad, sem hann hefir bannad, og næsta tregur til ad framkvæma þad hann bodid hefir, og hafi Guds nád verkad nockud gott med þér, þá hefir þad þó af þinni hendi verid, ófullkomid, og gétur eingan-veginn stadist í hans auglití, sem er fullkominn og heilagur; svo lángt er frá því, ad þad megi sambjóda því illa sem þú gjørt hefir, edur afplána þad, því þú gjørdir þó eckert

annad enn þad þú áttir ad gjöra, Lúc. 17, og er þó vel ef þad svo er, þegar þú hefir hvad bestur verid; en reikna nú upp med sjálfum þér, allt ydjuleysi í Guds víngardi, alla hégóma-þánka, öll ónytju ord, fyrir utan stórglæpina, ógudligan verknad, ord og hugsanir; og þótt ad Guds reidi og hans dómur sé enn-nú ecki seldur yfir þínar vidurstyggiligar og klækjafullar athafnir, þá er hann ecki þér líkur, þótt hann sjái þad og þegi, Ps. 50, heldur er þad annadhvert ad hann med þolinmædi sinni vill draga þig til ydranar, Róm. 2, ellegar og ad hann lætur þig vaxa til kornskérutímans, þar til þú ásamt hinu illgresinu verdur upphöggvinn og í eld kastadur, Matth. 13, til ad gjalda hönum þar, med eylífum píslum, þad sem þú ecki vildir lúka hönum hér í nádinni, med ángri þíns hjarta og afláti vondra verka, á-medan þar sagdist enn þá í dag, Ebr. 3. Ber nú allt þetta saman vid hans guddómliga hátign, nær þú villt bidjast fyrir, hversu hann er voldugur en þú vesæll, hann heilagur, enn þú allur í synd, hann hreinn, enn þú hefir saurugar varir; og þegar þú þetta gjörir med athygli nockurri, þá er líkligt ad þér muni heldur enn ecki, renna í skap vid sjálfan þig, ad þú syndugur ormur hefir svo módgad hann, á hvers fótskör þú liggur, og vald hefir til ad spyrna þér med lífi og sálu ofan í eylífan eld, Matth. 10. Og framar þessu, þá hugleid hans gjæsku vid þig framkomna, því, ad þú óttast alleina hans makt og veldi, þad er þræls ótti einn, er jafnvel djöflarnir hafa og skélfast þar af, Jak. 2; en þótt hann sé ecki ónýtur manninum, sem alltíd á apturkvæmt til Guds, ef hann ydrast, og er í því öllu betur varid enn djöflunum, þá er hann þó ecki einhlýtur til sáluhjálpar, því menn eiga ecki einúngis ad óttast Gud, heldur ad elska hann einnig, og kémur óttinn helst af íhugan hans mattar og réttlætis, en elskan af tilfinníngu hans gjæsku. Viljir þú því audmýkja þig fyrir hönum út af hjarta í bæninni, þá lát þér í hug koma, hvílíkur þú varst, þegar þér var kastad inn í heiminn svo sem ödru hræi, í andligan máta daudum í uppruna syndinni, og hvernig hann hefir þig med vatni og anda endurgétid í skírninni, Jóh. 3, til einnar lifandi vonar, 1 Pet. 1, og gjört þar vid þig sáttmála gódrar samvitsku, 1 Pet. 3; eg vil eigi fá mér þad til orda, hversu ad hann gódur er, og ad hans miskunsemi varir eylífliga, Ps. 118; og ecki einasta fædir allar lifandi sképnur, Ps. 145, heldur og manninn, hvör ed af sjálfum sér til, er hinn allra versti og óþacklátasti af öllum Guds handaverkum, sem hann er yfir skipadur. Og þótt ad vér allt þetta heimtum af hönum, svo sem med sjálf-skyldu, og möglum þegar nockud kann ad bresta, þá minnist hann ecki á vorar illgjördir, ecki á þá glæpina, sem ad hans eingétinn Son kvalid hafa, heldur á sína miklu miskunsemi, sem verid hefir í frá upphafi, Ps. 25, og álítur forþénustu Sonarins, hverja syndarinn þó marg opt forsmáir, og sviptir oss ecki í burtu midt í voru ógudligu athæfi, til þess ad hann fái dregid oss til ydranar, já, sparar margan þann, sem hefdi forþénad ad eiga sálu-félag med Córe, Datan og Abíram, hverja jördin svalg í sig lifandi, Núm. 16, af því þeir forsmádu hans bodord. Lát þessa óumrædiliga gjæsku þíns Skapara, smelta þitt hjarta, nær þú kémur fram fyrir hann, ad bidja þér fridar af hönum, er þú svo stórkostliga hefir til reidi reitt, og dagliga módgar, og halt þad fyrir víst, ad þú munir erindisláus fara, um hvad-helst sém þú bidur, nema

þú fyrst af alvøru bidjir um kvittun syndanna; því hér um má eg segja það, sem hann sagdi, er blindur var borinn og Jesús lœknadi, Jóh. 9: eg veit ad Gud bœnheyrir ecki syndugа, og meinti hann þar med: heidíngja og ógudliga menn. En hvad skulum vér segja? þar er einginn kristinn svo heilagur, ad hann sé ecki heidíngjum verri, nema hann þiggi kvittun syndanna af Gudi med sannri ydran, því hann veit veginn til lífsins og geingur hann ecki, Lúc. 12. Drottinn hafdi þann formála fyrir þeim hálfvisna er þádi heilbrigdi líkhamans af hønum: þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, Matth. 9; en miklu sídur megum vér ødlast lœkníng sálarinnar, nema vorar syndir verdi í burtu-teknar; og þessar hugrenníngar œttu nú ad bleyta vor hjørtu fyrir Gudi, þegar vér offrum hønum vorum bœnum, svo ad ecki hendi oss það, sem Davíd bidur hinum ógudliga, Ps. 109: ad hans bœn verdi ad synd; hvad þó án efa skédur, nær vorar bœnir eru eigi nema flapur munnsins, og ecki af rót hjartans. Eg vil eigi um það tala hvada þørf ad syndarinn hefir á ad bidja Gud; vitum vér ecki ad allar vorar lífs og sálar heillir hánga alleina af hans miskunsemi? Hvad er madurinn? ein vatns-bóla, ein gufa, er sést um stundarsakir og hjadnar sídan, Jak. 4; en hve miklum háska er þessi vatns-bóla, þessi reykur undirorpinn? þar er ecki svo vesæl sképna í heiminum, ad eigi kunni hún ad vinna oss mein, nema Gud sæi fyrir rádi voru; ein mýfluga kann ad taka af oss lífid; það vér etum og dreckum kann ad sálga oss, ef til vill; en hvad viljum vér þá tala um hina mektugu óvini sálna vorra, Djøfulinn, sem er þúsund véla smidur, heiminn, sem er hans eyrinds-reki, og vort eigid hold, hvers girndir ad í-móti sálunni strída, 1 Pet. 2; hvernig kunnum vér þessum ad verjast nema med bœninni? Vér sjáum það á hinum bœnarlausu, hverja Gud hefir yfirgéfid í fráleitt sinni, og einskis svífast ad gjøra Gudi á-móti, sleppandi taumnum vid Andskotann, heiminn, og sitt eigid hold, leyfandi því sínar girndir ad rækja, Róm. 13, þar til þeir munu um sídir af því skadsemd, já, eylífa fyrirdœmíng uppskéra, Gal. 6; og því mundi Endurlausnarinn leggja svo ríkt á vid sína lærisveina um þenna hlut, hefdi hann eigi vitad, ad þeir mættu ecki þess án vera ad bidja? vakid og bidjid, svo ad þér fallid ecki í freistni, Matth. 26; og aptur: vakid og bidjid, því þér vitid ecki nær tíminn er, Mark. 13. Nú kann einhver ad þeinkja: eg gét ecki ydrast syndanna, og ecki ræk-iliga eda heitt bedid, nema Gud géfi mér það, og verd eg það af hønum med bœn ad þiggja í fyrstu, en þá er eg syndugur, kaldur og hardur, og í allann máta illa skickadur til ad bidja Gud; allt kann þetta satt ad vera, en seig mér, kristinn madur, gétur þú ydrast þess er þú tilgjørir mønnunum? víst gétur þú, það sjá menn, jafnvel á mørgum skálk, ad hann ydrast eptir, þegar hann er búinn ad fremja glæpinn; því skyldir þú þá ecki láta þig ángra það, þú hefir Gudi á-móti brotid, ef þú nentir einhvørn tíma ad hugsa um framferdi þitt og Guds réttlæti. Gétur stórbrota-madurinn bedid kónúnginn um líf sitt? edur sá húngradi um mat? það géta bádir þeir, og það af alvøru, jafnvel med grátandi tárum; hvad mun því valda, ad þú gétur ecki bedid hinn almáttuga Gud þannig? það gátu þó heidíngjar, þeir tárudust fyrir sínum afgudum, þegar húngur edur drepsótt þrísti þeim þar til; svo ad Livíus skrifar, ad jafnvel þeirra hofdíngs-kvinnur hafi

sópad godahofin med sínum hárlockum, med vidlíkri atferd, þótt ólíku sé saman ad jafna, svo sem þegar hin bersyndúga kraup ad Jesú fótum, og þvodi þær med tárum sínum, og þerradi þær med hárlockunum, Lúk. 7. Nú er oss kristnum mønnum í slíku øllu betur varid, þar vér høfum medtekid heilagan Anda í skírninni; svo ad eg þori ad segja, ad þar er einginn til vits og ára kominn, hvers hjarta ad Guds Andi hafi ecki einhvern-tíma, já, optliga snert og skorid med þeckíngu syndanna, og síns eiginn óverdug-leika; en hvad veldur því, ad hér er ecki meira af vordid hjá sumum? þad ad vér hirdum ecki um, ad fóstra andan med bæninni, miklu heldur sløckvum hann med ógudligum þaunk-um, svo hann fær ecki rúm í oss, þeirra hluta vegna, sem hønum eru svo gagnstædir, og hann hefir andstygd á, ágirnd, øfund, heipt, hatur, losti, drambsemi, elskan til þessa fallvalta heims, og þvílíkir gestir, sem hann vill ecki eiga samsæti med, en vér høfum einga vidleitni á ad rýma út úr hjarta voru, hvad þó mørgum heidíngja hefir tekist ad miklu leiti. Ecki var hundrads-høfdínginn umskorinn svo menn viti, og þó verkadi Gud audmýktina og trúna í hans hjarta, já, þvílíka trú, sem ad Høfundur trúarinnar hafdi ecki fundid í Israel; en hvern vitnisburd hafdi þessi madur af øldúngum Gydínga? þad segir oss Lúkas, kap. 7: verdur er hann þess, (søgdu þeir), ad þú veitir hønum þad, því hann elskar þjód vora, og hefir vora samkundu uppbygt; ecki var Cornelíus skírdur, þegar hans bænir og ølmusugjørdir stigu upp fyrir Gud, Act. 10. Sjá hér, hversu reidubúinn ad Gud er til ad hjálpa gódum vilja; lát vera ad þín bæn sé køld í fyrst-unni, meinar þú ecki ad Gud þecki, ad mannsins þánkar eru vondir í frá barndómi, Gén. 8; en lát hann finna viljan hjá þér, sýn hønum ad þú hafir ástundan til ad bidja, og vert þess fullørúggur ad hann muni hjálpa þér med nád síns Anda. Heid-in var hin Kananiska, Matth. 15, samt þreytti hún med bæninni vid Jesúm; eigi hefir hún tekid þad af sjálfri sér, en þad ord stendur støduft, segir Postulinn, 2 Tím. 2: Gud þeckir sína; hann þeckti hjartans girnd hennar og eptirlángan, og því hefir hann hjálpad henni til ad strída vid sig; ørvænt þér ecki slíkrar miskunar af hønum, þar þú ert hans barn vordinn og Christó innplantadur í skírninni. Þú segir, eg vildi gjarna af alvøru bedid geta; seig mér, hefir þú bedid Gud um ad hjálpa þér til ad bidja? þú segir: já, eg hefi bedid; en eg má spyrja, hvad opt? hvad marga daga? vikur? mánudi? ár? edur hversu opt á degi hefir þú bedid? hefir þú þreytt vid Gud med bæninni? hefir þú kostad til þess øllum sálar og lífs kroptum ad bidja? vera má ad svo sé; en eigi trúi eg því, ad þú sért þá ecki bænheyrdur, og finnir þú ecki til þess, þá er ad vísu nockurs ábóta-vant, af því sem þú átt til ad leggja; þvíad ef hinn rángláti dómari, sem Jesús tekur dæmi af hjá Lúkam, kap. 18, ef hann lét þó sigrast af eckjunnar bæn til ad gjøra henni rétt, þá gjør þú ecki Fødur miskunsemdanna, 2 Cor. 1, þann órétt, þad þú ætlir ad hann sé hardúdigri, enn þessi gudlausi madur var. Minn tími er enn þá ecki kominn, en ydar tími er jafnan til reidu, sagdi Lausnarinn, Jóh. 7. Madurinn er nockud grunnsær til þess ad skygnast í undirdjúp Guds leyndar-ráds, edur ad þeckja tíma og hentugleika, sem Fadirinn hefir í sinni hendi, Act. 1. Þú segir: Drottinn bannadi sínum lærisvein-um ad bidja mørgum ordum, eins og heidíngjar, Matth. 6; þad gjørdi hann blessadur

til ad vorkynna þér og mér, því hann vissi ad hjarta mannsins er frasnúid Gudi, en fúst á hégóman; en ecki misþóknast hønum lángar bænir, þær sem af truudu hjarta framkoma; þess vegna var hann og sjálfur allar nætur á bænum, Lúk. 6; þar fyrir segir og Lúkas 18, ad hann hafi framsett þessa eptirlíkíngu um dómaran til þess, ad þeim byrjadi idugliga ad bidja og ecki tómlátum ad vera. Eg segi ecki heldur, ad þú skulir svo mjøg lengi í einu bidja, því ilska mannligs hjarta þolir þad ecki; en bid þá þess optar, og heitir þad samt idugliga ad bidja. Þú segir: eg fæ eigi vid því gjørt, ad mér fljúga í hug margir annarligir þánkar nær eg bid; þad er íllt; bid Gud ad taka slíkt frá þér, ad ecki verdi þín bæn ad synd, því svoddan er ad vanhelga hina beztu Guds þjónustu. En seig mér, þegar þú lídur húngur og þorsta, edur hefir brest á líkamligum munum, getur þú þá ecki bedid svo, ad þú ecki um annad hugsir? ad vísu getur þú; en trú þú mér, ad hid sama mundi verda, ef þú létir þig húngra og þyrsta eptir réttlætinu, Matth. 5, hvad þú munt brádliga ødlast, ef þú af hjarta rannsakar hversu stóran skort þú hafir á þeirri hrósan, sem fyrir Gudi gildir, Róm. 3; og hver sem ad þessum veikleika er undirorpinn, hønum vil eg ráda til ad bidja heldur optar enn lengi í einu, því nockud af slíku kann ad orsakast af skapsmunum, sem ecki er svo hægt vid ad gjøra, jafnvel þótt Guds kraptur kunni alla hluti ad verka í þeirra breiskleika, sem hann af hjarta óttast; og einginn efi er á því, ad sá sem elskar Gud umfram alla hluti, hann hefir yndi af því ad tala vid hann í sínum bænum, og þarf ecki stórum ad þvínga náttúruna þar til, þegar hann hefir fyrst eignast elskuna á Gudi; og hann kann aldrei ad vanta orsøk til ad bidja Gud; elskan minnir hann á sérhvern Guds velgjørníng til þacklætis, á sinn eiginn vanmátt til ad bidja um hjálp, á sínar syndir til ad ydrast þeirra, og á Guds dásemdarverk hønum til lofgjørdar; svo ad þótt ecki hafi hann lángar bænagjørdir, sem og kanské eigi leyfi sumra manna umsvif og annríki, jafnvel þótt eitt ætti ad vera naudsynligt, Lúk. 10, þá samt bidur hann óaflátanliga, og er þolugur í bæninni eptir bodi Postulans, Róm. 12, hver þegar hann íklædir rétt-trúadan mann Guds herskrúda, Eph. 6, þá gefur hann hønum þessa yfirhøfn ad endíngu, segjandi: med allri bæn og fyrirbeidslu, bidjandi á hverjum tíma í anda, og verandi árvakrir til þess sama med øllu þolgjædi. Og er nú svo út-talad um þad fyrra, er eg hét á ad minnast; en þad sídara eptirfylgir med fám ordum af ad segja.

Ecki þyrfti rétt-kristinn madur annad til þess ad taka frá sálu sinni allan efa um bænheyrsluna, heldur enn þessi blessud ord, er vor Endurlausnari hér taladi til sinna lærisveina: hvers þér bidjid Fødurinn í mínu nafni, þad mun hann veita ydur; en fyrir því ad Jesús taladi þetta til sinna ástvina, hverjum hann gaf þann vitnisburd, ad Fadirinn elskadi þá, af því þeir elskudu sig, Jóh. 16, þá kynni syndaranum, sem dagliga reitir Gud til reidi, ad fljúga í hug, ad þetta blessada fyrirheit nái ecki til sín, þvíad hann sé þess óverdugur; en eg mun framvegis sýna, ad þad øllum þeim tilheyrir er hans leita med ángrádu hjarta, øllum þeim er hann bidja í anda og sannleika, Jóh. 4, øllum þeim, sem eru stadfastir í bæninni, Róm. 12, svo sem eg nockud umtaladi í

hinum fyrra parti rædu minnar. Pad kénnir Jesús sjálfur oss, er hann sagdi í bæninni til síns himneska Födur fyrir lærisveinunum: eg bid ecki einasta fyrir þeim, heldur og fyrir þeim, sem fyrir þeirra ord munu á mig trúa, Jóh. 17. Guds Sonur kom ecki í heiminn til þess ad kalla réttláta, heldur syndugа til yfirbótar, Matth. 9; því vill hann allar ydrandi manneskjur bænheyra, og hvad meira er, ad þar er meiri gledi í himninum yfir einum syndara sem ydran gjörir, heldur enn yfir níu og níutíu réttlátum, Lúk. 15. Ecki hömludu syndirnar hór-konunni, sem Júdar vildu grýtt hafa, ad fá þeirra kvittun hjá Guds Syni fordum, er hann sagdi vid hana: svo fordæmi eg þig eigi, far burt og syndga eigi framar, Jóh. 8; ecki bægdu syndirnar tollheimtumanninum frá, ad gánga réttlátari heim aptur í sitt hús, heldur enn Phariseinn, Lúk. 18; ecki leit Jesús til synda hinna annara tollheimtumannanna og bersyndugra, ad hann ecki þar-fyrir æti og drycki med þeim, Matth. 9; hvar fyrir? af því þeir ydrudust syndanna; svo er þad nú víst, ad syndin gétur ecki hindrad bænheyrsluna, þegar hún er játud fyrir ydranina, og afþvegin fyrir forþénustuna; því þad ord blífur æfinliga stödugt: hvern þann sem til mín kémur, vil eg ecki frá mér reka, Jóh. 6. Nú þótt ad þessu sé svo varid, br. m., þá eigum vér ad gjæta ad, hvar um vér bidjum, ef vér viljum ad trúin sé bygd á hinum rétta grundvelli, og ad vér ecki bidjum af Gudi þeirra hluta, sem annadhvert í sjálfum sér eru óleyfiligir edur oss skadsamligir, svo ad vér ecki reyngjum sannsögli Guds, þótt vér ecki bænheyrdir verdum, nær vér þannig bidjum. Pad sem vér eigum um ad bidja, er annadhvert líkhamligt edur andligt. Um líkhamliga hluti eigum vér med forordi ad bidja, svo sem vér optliga heyrt höfum; þad ber til þess, ad vér ecki vitum hvers vér eigum ad bidja; vér megum og ecki alls þess bidja af líkhamligum hlutum sem holdid edur líkhaminn heimtar; rétt er ad bidja um heilsu og heilbrigdi, föt og fædi, vernd og vardveitslu fyrir líkhamligum óvinum vorum, lucku og framgáng í voru erfidi, þvíad allt þetta á ad skiljast undir dagligu braudi í Drottinnligri bæn; en um allt þetta á med forordi ad bidja, því jafnvel þótt ad ecki sé þad lagt til hinnar fjórdu bænarinnar, þá stendur þar þó strax fyrir framan: verdi þinn vilji svo á jördu sem á himni; svo ad ef hinum góda Gudi, sem veit hvad oss er fyrir bestu, ef honum þóknast ad vér skulum hafa nockurn brest á þessu, á heilsunni, á dagligri atvinnu, ef vér hljótum órétt ad lída og vera forsvarslausir í heiminum, þá eigum vér samt eingan veginn ad efast um Guds trúfesti, því hann hefir án efa heyrt vorar bænir, þar eckert hendir oss án hans vilja, og komandi mun hann koma og ecki tefja, Hab. 2; og þetta á ad vera grundvöllur trúar vorrar, þegar á-móti blæs; því ef vér viljum í því bænheyrdir verda, ad hans vilji verdi á oss svo sem í öllu ödru, þá eigum vér ecki ad vantreysta því, ad vér séum bænheyrdir, þótt oss nockud vanti; og þad þess sídur ad værum vér án tiptunar, hverrar allir eru hluttakandi vordnir, svo sem Páll segir, Hebr. 12, (hann meinar Guds vinir) þá hefdum vér orsök til ad efast um, hvert vér værum af honum elskadir edur eigi; því hvern þann son sem hann elskar þann agar hann. Páll segir enn aptur, ad vér værum aumastir allra manna, ef vér trydum alleina á Christum í þessu lífi, 1 Cor. 15; en eg vil því vid bæta, ad

vér værum og allra manna heimskastir, ef vér elskudum Gud alleina fyrir þessa heims velgeingni, eins og hann hafi ecki þúsundsinnum betra tilbúid þeim sem hann elska, 1 Cor. 2. Þar er ecki nema svikrædi á þeim hædunum, sagdi Jeremías vid Júda, kap. 3, talandi um skúrgoda-hofin; og svo er því varid um velgeingni þessara tíma; þegar hún geingur sem hærst, þá er hún á-stundum eigi nema svik og prettir, hverja þó margur dári gjörir ad sínum Gudi, edur ad minsta kosti þeir, sem gudhræddir þykjast vera, elska hinn sanna Gud alleina fyrir þá hluti, sem hann jafnvel géfur óvinum sínum, og verda þeim orsøk til eylífrar glötunar, sem þad misbrúka; þar-fyrir óttast eg, ad þeir, sem alleina elska Gud fyrir slíka hluti, ad þeir elski hann ecki réttiliga, jafnvel þótt hann eigi fyrir allar sínar gáfur ad elska; eg veit og hvergi í Ritníngunni bodid, ad menn skuli bidja um mikinn veraldar aud, edur metord, og allra síst um fall edur slis óvina sinna, er margur heiptrækur virdir þó meir enn stóra féssjódu, já, kostar øllu því hann á til ad svala gédi sínu á þeim, hann hatar. Miklu heldur sé eg, adGudi féll vel í géd bæn Salómons, er hann beiddi hann um speki til ad dæma fólkid med. Svo veit eg nú hverki leyft né bodid í Guds ordi, ad bidja um þvílíkt, og ecki er þad í hinni stuttu en þó fullkomnu bæn, sem Drottinn hefir oss eptirlátid: géf oss í dag vort dagligt braud; þad er hans atkvædi, hvad Páll best útleggur, 1 Tím. 6: nær vér høfum fædi og klædi, þá verum ánægdir þar med. Miklu heldur sé eg hitt bodid, ad menn eigi skuli vera hugsjúkir um hvad þeir skuli eta edur drecka, edur hverju vér skulum klædast, þvíad vor himneskur Fadir veit, ad vér høfum alls þessa þørf, Matth. 6; já, ad vér skulum leita fyrst Guds ríkis og hans réttlætis, þá muni oss allt gott til-leggjast; því eigum vér ad trúa, því Gud kann ecki ad ljúga, og girnast eigi framar; vilji Gud veita oss meira, þá tøkum þad med þacklæti, og brúkum svo, ad vér séum ríkir í gódum verkum eptir Postulans bodi, 1 Tím. 6; og sá sem nú bidur Gud um tímanliga muni, hann hafi þetta fyrir grundvøll trúar sinnar, og þeinki undir eins til þess, er Jakob skrifar: þér girnist og þér hafid þó ecki; þér øfundid og metist, og megnid þó ecki ad hreppa; þér strídid og berjist, og hafid þó ecki, af því þér bidjid ecki; þér bidjid, og fáid þó ecki, af því þér bidjid illa, til þess ad þér hafid til ad kosta uppá ydvarn munad, Jak. 4. Hvad hinum andligu gáfunum vidvíkur, trúnni, voninni, þolinmædinni, kjærleikanum og ødrum gódum dygdum, sem þar af spretta, þá eigum vér þeirra ad bidia án forords; hvar fyrir? þvíad þar-af má allan efa draga, ad þær eru Gudi þacknæmiligar; þad er vilji Guds, ydar helgan, segir Páll, 1 Tess. 4; en vor helgun gétur ecki framkvæmst nema fyrir h. Anda; þar fyrir hver sem vill heilagliga og kristiliga lifa, hann bidji Gud af øllu hjarta um sinn Anda, og trúi ordum Frelsarans án allrar efasemi, er hann sagdi: ef ad þér, sem vondir erud, kunnid ad géfa børnum ydar gódar gáfur, því mun ecki Fadir minn himneskur géfa þeim heilagan Anda, er hann þar um bidja, Lúk. 11; hér um talar svo Jakob postuli, kap. 1: en ef nockur af ydur þarf skynsemdar vid, þá bidji hann Gud, hver ed géfur øllum einlægliga, og telur ecki eptir, og mun honum géfid verda, en bidji hann í trúnni, efandi um eckert. Hver er þessi skynsemi, er Jakob talar hér um?

þad er á þeim hlutum, er hann framan til í sama kap. eggjar kristna menn á, segjandi medal annara, v. 2: haldid þad fyrir hinn mesta fögnud, br. m., þegar þér fallid í ad-skiljanligar freistíngar; og þótt hann meini hér sérdeilis, útvortis mótlætíngar, þá verdur þó Guds börnum hid mesta mótlæti ad þeirra eigin holds og blóds freistíngum og tilteigíngum; en guddómliga speki h. Anda skal til þess hafa ad yfirvinna slíkt, og til ad skynja hvílíkt gagn ad freistíngin eptir sig leidir, nær hún er sigrud; en þá skynsemi er ecki ad finna hjá holdligum manni, því hann skynjar ecki þad, sem Guds Anda er, segir Páll, 1 Cor. 2, og eigi verdur hún fengin nema med bæn af Gudi; og er þad nú án alls efa víst, ad sá sem bidur Gud um h. Anda þar til, hann gétur ecki hjá því sneidt ad verda bænheyrdur, því hann, sem því lofad hefir er Jehóva, Mal. 3, og umbreytist ecki, og eckert hans ord mun á jördu falla. Hvad veldur þá því, br. m., ad þar finnst skortur hjá allmörgum á slíkum ástgjöfum Andans? hvar er hin forna trú? elskan til Guds, kjærleikinn, þolinmædin og adrar kristiligar dygdir? menn verda svo lítt varir vid þær í heiminum, svo ad hætt er vid ad Mannsins Sonur muni eigi finna trú á jördu, Lúk. 18, nær hann kémur hvad af hverju. En hvad mun því valda b. G.? nema ad menn eru svo almenniliga tómlátir í því, ad bidja Gud um hinn heilaga Anda, sá ed planti þessi himnesku aldini í akri vors hjarta. Svo sem þad ad gudhrædslan (þad er hinn sanni kristindómur) er einn hlutur, sem er til allra hluta nytsamligur, 1 Tím. 4, svo verdur hún ecki fengin nema med rétt-trúadri bæn af Gudi. Þetta djöfla-kyn verdur ecki útrekid nema med föstum og bænum, sagdi Drottinn, Matth. 17, um mein hins túngl-sjúka, hvern hans lærisveinar gátu ecki læknad, sökum vantrúar sinnar, v. 20; og svo er því háttad um þvermódskunnar djöful, er syndugir menn eru plágadir med, hann verdur ecki útrekinn nema med bæn og andvarpan. Þú læst vel bidja Gud, en hve mikil alvara því fylgi, èr af bænheyrslunni audséd, því ecki eru Guds fyrirheit ónýt vordin, segir Páll. Pharísæarnir vildu hafa grýtt Herrann, er hann sagdi þeim sannleikan, Jóh. 8; en hversu opt segir hann þér satt í sínu h. ordi, um sína reidi, sitt réttlæti, sitt vandlæti yfir syndinni, og aptur um sína gjæsku, sína elsku og miskunsemi vid þá, sem ydran gjöra; sjá til, ad þú ecki grýtir Krist Drottins er þú tekur á-móti öllu þessu med einu stein-hjarta; edur hvernig vilt þú bænheyrdur verda ef þú svo gjörir? Hvad veldur þessu, nema ad menn rannsaka ecki lifnad sinn, svo þeir megi ydrast, ecki rótfesta Guds ord í hjarta sínu, svo þeir megi trúa, og ecki keppast vid ad lifa þar eptir svo menn færi ávöxt í þolinmædi, og þó undrast menn ad þeir ecki bænheyrdir verda, Jóh. 4. Jesús kom til hinnar Samarisku fordum daga vid Jakobs brunn, og beiddi hana um ad drecka, Jóh. 4; hann kémur enn-nú til sálar þinnar í dag, hann þyrstir eptir hennar velferd, og girnist ad dryckjast af tárum þíns hjarta, svo hann megi gefa þér lifandi vatn, ad þig eigi þyrsti eylífliga. Vid Mósen ad velta steininum af brunninum med hendi lög-málsins, og mun höfudid verda brádliga fullt af vatni, og þig lánga eptir Drottni sem er þinna meina grædari; því betra er þér ad ormur samvitskunnar stíngi sálu þína hér í nádinni, svo hún vakni vid og fái litid uppá hann, sem fyrirmindadur var í eyr-orminum, er Móses heingdi uppá tréd, þeim til lækníngar, sem af eitur-ormunum bitnir vóru, Núm.

21, heldur enn ad hinn eylífi ormur kvelji þig, sá ed aldrei deyr, og sá eldurinn píni þig, sem aldrei slocknar um aldir alda, Esa. 66. Gjæt þessa, barn Guds, og hreinsa hjarta þitt af daudligum verkum med sannri ydran, ef þú villt bænheyrdur verda, því nema þú leitist hér vid af øllu hjarta, þá hefir þú eckert fyrirheit um bænheyrsluna í andligum efnum, sem þú kunnir ad styrkja trú þina vid, verdur svo bænin forgéfins, því án trúarinnar er ómøguligt Gudi ad þóknast, Ebr. 11; og hér sjáum vér orsøkina hvar fyrir menn ecki um andliga hluti bænheyrdir verda. Þar fyrir, nær þú kémur í Guds hús, edur hvern annann bæna-stad, til ad færa Gudi þitt offur, þá sjá til ad þú flytjir eigi þángad med þér nockurt þad, sem Gudi mislíkar; syndlaus gétur þú eigi framkomid, og þad er þar fyrir ad þú kémur til Guds, ad þú ert syndugur, en lát eckert gróm ilskunnar drottna í þínu hjarta; rannsaka þau innstu filsni þinnar samvitsku, hvert þar er eingin girnd, einginn syndsamligur ásetníngur, og einginn sá géstur, sem h. Andi ecki vilji búa vid, og finnir þú nockurn, þá rek Djøfulinn frá þér med reidi-svip, svo ad þú Guds vinur verdir. Og nær þú svo gjørir, mátt þú vera fulltrúa um ord Drottins, er hann sagdi, Matth. 21: hvad helst sem þér umbidjid, ef þér trúid, þá skulud þér þad ødlast; og er þad mála sannast, br. m., ad þetta eru ecki lítil fyrirheit, ad hafa svoddan frelsi hjá hønum, sem øllum hlutum stjórnar bædi á himni og jørdu; en svo sem þad er mikid, svo skal og mikid til þess vinna; himininn er hærri enn svo, ad þar sé svo audstockid upp-í hann; Guds Jerúsalem er rambygdari enn svo, og hennar port þreyngri enn ad einn veraldar asni, klyfjadur af gyrndum og sorgum þessa heims, géti brotist þar inn; og því er þad óska-rád er Syrach géfur, kap. 18 segjandi: ádur enn þú bidst fyrir, þá tilbú þitt hugskot, ad ecki sért þú eins og sá madur sem freistar Drottins; og þad med því móti sem nú strax sagdi eg, því svo sem Gud géfur einlægliga, svo vill hann og bedinn vera af einlægu hjarta. Edur segid mér í Guds nafni, segid mér! hvad er þad, ad menn bidja Gud ad taka frá sér hinar vondu gyrndir, øfund, drambsemi, ágyrni, reidi, heiptrækni, en bera kanské hjartad fullt fram fyrir hann af øllu þessu? þad er ad gabba Gud, og rétt ad freista Drottins svo sem Syrach segir; aldrei hefir Gud heitid þvílíku skapi neinni bænheyrslu, þar er ecki vid ad dyljast. Páll skipar oss ad bidjast fyrir í øllum stødum, upphefjandi heilagar hendur án reidi og efasemi, 1 Tím. 2; Postulinn fráskilur þad tvennt, sem hann vissi ad mest hindrar bænina, sem er reidina og vantrúna; og er sjálfsagt um reidina, því þad er vor gamall skilmáli vid Gud, sem á hverjum degi endurnýast, ad Gud fyrirgéfi oss vorar skuldir, eins og vér fyrirgéfum vorum skuldunautum, og vil eg ráda hinum hefnigíruga, ad hann aldrei lesi Drottinnliga bæn, á-medan hann er þannig skapi farinn, því einginn af øllum hans bænum mun verda heyrd, nema sú eina, og hans syndir med svoddan móti ecki ad eylífu fyrirgéfnar. Vér bidjum Gud fyrir allan þann órétt, sem hans eingétinn Sonur saklaus þoldi, ad hann ecki vilji minnast vors ránglætis, en vér látum oss aldrei úr minni falla þad lítilrædi, sem vor bródir oss tilgjørdi; er ecki þetta ad heimta af sínum samlags-þjón þad, sem miklu minna er, enn Drottinn hafdi oss uppgéfid, Matth. 18; hvílíkt ránglæti er þetta? Því er einsætt fyrir þann, sem vill þiggja bæn sína af Gudi, ad hreinsa vel hjarta sitt af slíku;

því ef vér eigum ad bidja fyrir óvinum vorum, Matth. 5, undir eins og vér bidjum fyrir sjálfum oss, ef vér viljum kallast børn vors Fødur sem á himnum er, þá er líkast ad vér munum ecki eiga ad ala hatur til þeirra í hjarta voru; og er þeim best sem hætt er vid slíku, ad hann snúi þessu hatri á sjálfan sig og metnad sinn, þad hann syndugur ormur dyrfist ad koma fram fyrir hid hrædiliga tignarveldi hins lifanda Guds med hvílíku skapi. Ad sonnu er efasemin til mikillar hindrunar í bæninni, en þó er líkligt, ad hinn gódi Gud vorkynni henni meir og hjálpi henni, sérdeilis ef hún framkémur af hugleidíngu vors óverdugleika, því honum er vor vanmáttur kunnur; ecki rak Drottinn frá sér fødur hins túnglsjúka er sagdi: eg trúi, Herra! en hjálpa þú vantrú minni, Mark. 9; ecki lærisveinana er þeir bádu: auk þú oss trúna, Lúk. 17; ecki konúngs-manninn, þótt hann ávítadi hann um vantrúna, Jóh. 4. Ein veik trú, hún er þó trú, en hann vill ecki brákadan reyr í sundurbrjóta, né líttlogandi hør-kveik útsløckva, Esa. 42. Svo heyrid nú þetta, br. m., og látid ydur mál mitt í eyrum loda. En þú, fyrir hvern ad allar vorar bænir eru já og amen, Herra Jesú Christe! bid þú þinn himneska Fødur fyrir oss, ad vor trúa þrotni ecki, Lúk. 22, og veit oss eptir afstadna baráttu þessa heims, ad ødlast verdlaun vorrar trúar, 1 Pet. 1! Þér med Fødurnum og h. Anda sé lof, prís, heidur og þackargjørd, nú hédan í frá um alla eylífd, amen!

# Á Uppstigníngar Dag.

Gudspjallid, Mark. 16 Kap.

En seinast er þeir ellefu sátu til bords, opinberadi hann sig, og ávítadi þeirra vantrú, og hjartans hardúd, þad þeir hefdu eigi trúad þeim, sem hann høfdu séd upprisinn. Og hann sagdi til þeirra: farid út um allan heiminn, og predikid Evangelíum allri sképnu. Hvør hann trúir og verdur skírdur, skal hólpinn verda; en hvør eigi trúir, sá skal fordæmdur verda. En teiknin, er þeim munu fylgja er trúa, eru þessi: í mínu nafni skulu þeir Djøfla útreka, nýar túngur tala, høggorma upptaka, og ef þeir drecka nockud baunvænligt, þá skal þad þeim ecki granda, yfir sjúka munu þeir hendur leggja, og þá mun þeim batna. Og eptir þad, ad Drottinn Jesús hafdi talad vid þá, vard hann uppnuminn til himins, og situr til Guds hægri handar. En þeir gengu út, og prédikudu allstadar, Drottni samverkanda, og ordid styrkjanda, med eptirfylgjandi teiknum.

## Exordium.

Þad er réttvíst hjá Drottni segir Páll, 2 Tess. 1, ad endurgjalda þvíngunina þeim sem ydur þvínga, en ydur sem þvíngadir erud, endurnæríng medur oss í opinberan Drottins vors Jesú Christi af himnum med hans mektugum einglum. En ef þad er réttvíst hjá Gudi ad

endurgjalda oss þannig sem þó til einkis unnid høfum, nema fyrir hans forþénustu, sem hefir ervidad í vorum syndum, Esa. 43, hversu var þad þá makligt og réttvíst, ad Kristur inngengi í sína dýrd eptir þad hann hafdi lidid þad, sem vér med vorum syndum høfdum forþénad? Ef þér elskudud mig, þá mundud þér gledjast af því, ad eg segi ydur þad: eg fer til Fødursins segir Drottinn, Joh. 14. Vér høfum heyrt, br. m., á fyrirfarandi hátídum og helgum døgum, hversu Drottinn var í fátækt alinn, Lúc. 2; ad hann var landflótta fyrir ofríki Heródes, Matth. 2; ad hann var lastadur, þá hann gott gjørdi, Matth. 12, ofsóktur, þá hann taladi sannleikan, Joh. 8; hvernig hann var bundinn, húdstrýktur, þyrnum krýndur, hrakinn út af Jerúsalem berandi sinn kross, og ad sídustu á gálgan uppfestur svo sem annar illrædis-madur, og midt í þessum bitru píslum hæddur, og med galli og ediki dryckjadur, og øll þessi hegníng lá á hønum til þess ad vér hefdum fridinn, Esa. 53. O, hversu byrjadi oss þá ad fagna og gledum ad vera, þar vér heyrum í dag, ad hann er inngenginn í sína dýrd, vordinn himnum ædri, og seztur á hægra veg Gudi Fødur; sérdeilis þar hann ecki einasta er í hædirnar uppstíginn, Ps. 68, heldur og gáfur ødlast handa mønnunum, Eph. 4, hvers vér høfum notid, yfir hverja líkligt er ad heims endirinn sé kominn, 1 Cor. 10; hverjum hann ecki sídur enn nockrum ødrum hefir búid braut til himnaríkis og eylífrar Guds barna sælu, med sinni himnafør. Og þar oss verdur nú slíkur føgnudur bodadur á þessari dýrdligu hátíd, þá látum oss gánga nær Evangelíó, og af því hugleida: hina sérligustu velgjørninga og ávexti Drottins uppstigníngar. Hjálpa oss til þessa gudhrædslunnar eyrindis, nádugi Fadir! med krapti þíns Anda, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggingin.

Þessir dýrmætu ávextir uppstigníngarinnar vors Drottins, eru med tvennu móti; adrir koma mest hønum vid, en adrir oss alleina. Hvad vidvíkur þeim fyrri, þá er þad ecki mín meiníng ad Drottinn Jesús hafi sjálfum sér nockud forþénad med sinni kvøl og annari þjáníngu hér á jørdunni; oss er hann fæddur, oss er hann géfinn, segir Esajas, kap. 9; fyrir oss er hann bundinn, húdstrýktur og á krossinn negldur; hans eyrindi á jardríki var ecki ad afreka sjálfum sér nockurt ágjæti; því hann kunni ecki ágjætari ad verda enn hann var í upphafi sinna vega, heldur ad leysa mannkynid úr eylífum þrældómi. Þá vegsemd, er hann auglýsti í sinni dýrdarfullu himnaført, hana meddeildi hann manndóminum strax sem hann var gétinn í módur-lífi, þótt hann sýndi hana mjøg sjaldan á sínum hérvistar-døgum, svo hann yrdi oss ad øllu samlíkur, ad fráteknni syndinni. Því er hann þá med dýrd og heidri kórónadur? Ebr. 2; því þad var ómøguligt ad hann kynni af daudanum haldinn ad vera, Act. 2. Þegar Gud blessadur um aldir, hafdi aflokid hinu stóra þrekvirki mannkynsins endurlausnar í voru holdi, þá var allt fullkomnad, þá þóknadist Gudi ad upphefja vort hold, er hans Sonur í-klæddist, á sinn tignar-stól sér til hægri handar. Hverjir eru þá ávextir þessir, er Kristur eptir manndóminum hefir ødlast í sinni himnaført? þad segir oss Markus í Gudspjallinu, ad hann hafi verid uppnuminn til himins og sitji til Guds hægri handar. Þetta er ei svo ad skilja børn mín, ad Drottinn sé uppfarinn í þenna sýniliga himin, er vér lítum med augum vorum, jafnvel þótt hann eptir alvísri rádstøfun Guds, sýniliga uppnuminn væri frá jørdunni allt þar til skýid tók hann, frá augum lærisveinanna, Act. 1; vor Lausnari er uppfarinn yfir alla himna, sem Páll skrifar, Eph. 4, þad er í þann dýrdliga himin, hvar Guds óumrædilig hátign ljómar, hverja einginn madur kann ad sjá og lifa, Exod. 33, því er hann ecki í þenna sýniliga himin uppstíginn; hann er uppfarinn í þann

himin, hvar hann uppfyllir alla hluti sem Páll vottar, Eph. 4; en allir hlutir eru ecki í hinum sýniliga himni; því skulum vér ecki meina ad hann sé vid hann bundinn, jafnvel þótt hann uppfylli hann, svo sem allt annad. Hann er seztur til Guds hægri handar sem hér stendur. Nú er Guds hægri hönd allstadar, því þad er hans dýrd og hans almætti, þad er hann sjalfur, sem ecki er nema máttur og dýrd; en himnanna himnar taka hann ecki, svo sem Salómon vottar, 1 Reg. 8. Nú fyrst Drottinn Jesús er upphafinn til Guds hægri handar, þá er hann ecki svo í þenna sýniliga himin uppfarinn, ad hann ecki undir eins sé allstadar; í þann himin hvar Gud bjó ádur enn himininn var skapadur, þángad er Kristur upphafinn; hvernin kann hann þá ad vera innilucktur í þeim skapada himni? Í þann himin hvar Gud mun um aldur og eylífd stjórna, ráda og skína, þegar hinir sköpudu himnar forgánga, og hann hefir þá eins og annad fat saman brotid, Hebr. 1, í þann sama himin er Guds Sonur uppstíginn; því er þad of-smátt ad hugsa um þá tign sem Gud hefir sinn eingétinn Son prýddan med, ad ætla ad hinn skapadi himin sé alleina hans hásæti. Vér skulum og ecki þad meina, ad þótt svo kvedi ad hér í Textanum ad vor Frelsari sitji til hægri handar Guds, ad Gud hafi hendur, edur ad hann sitji, svo sem madur, ad vér ei föllum í þá villu sem Páll ber uppá heidíngjana, Róm. 1, ad þeir hafi breytt dýrd óforgengiligs Guds í mynd forgengiligrar mannesskju; því jafnvel þótt Ritníngin tali þannig á-stundum, þá talar hún svo ad manna plagsid; og þótt ad Gud hafi sig í manns-líkan opinberad, svo sem Esajæ 6, og í opinberunum Jóhannes og vídar, þá eru þad ókvædi ad hugsa, ad hann svo í raun og sannleika sé, heldur er Gud einn Andi, svo sem Jóhannes vottar, 4 kap. Hvernig viljum vér þá íminda oss nockud hægra edur vinstra hjá honum, sem uppfyllir himin og jörd, og er allt í öllu ómælanligur, ósýniligur og órannsakanligur; heldur er þetta sagt til ad útmála þá tign, sem Guds eingétinn Sonur hlaut í uppstigníngunni eptir manndóminum; hin hægri hlid var hjá öllum þjódum virdugligri á þeim dögum enn sú vinstri; þegar Bersabe géck inn til Salómons konúngs, fagnadi hann módur sinni, og setti hana á hægra veg sér, 1 Reg. 2, án efa þess vegna, ad hann hefir viljad veita henni hinn mesta heidur næst sjálfum sér; drottníngin stendur þér á hægri hönd, segir Davíd, Ps. 45, er hann kvedur um brúdkaup Christí og hans unnustu kristninnar. Svo er nú med þessu meint, ad Frelsarinn eptir manndóminum sé Gudi næstur ad allri tign, makt og veldi; Gud Fadir og Guds Sonur eru jafnir eptir Guddóminum ad allri tign, þeirra hásæti, þad er þeirra dýrd, hún er ein, því Fadirinn er í Syninum, og Sonurinn í Födurnum, Jóh. 14. Því næst er Guds Sonur eptir manndóminum, er situr hönum á hægra veg, sjálfum Gudi næstur, sjálfur sjálfum sér næstur; hann er sjálfum sér ædri og sjálfum sér lægri, því hann er bædi Gud og madur, og er þó hans manndómur öllum skepnum ædri; því hverjum af einglunum hefir hann nockurn-tíma sagt? sit þú mér til hægri handar, segir Páll, Ebr. 1; og þessa tign manndómligrar náttúru Christí útmálar hann greiniliga med fögrum ordum, Eph. 1 segjandi: Gud Fadir hefir sett Christum á hægri hönd sér í himninum, lángt fyrir ofan allan höfdíngsskap, vald, makt og herradæmi, og öll þau nöfn sem nefnast, ecki einasta í þessari öld, heldur og í hinni sem verda mun. Svo er þá Drottinn

Jesús sitjandi til Födursins hægri handar, afklæddur öllum þeim eymdum og harmvælum, er hann bar í voru holdi, vordinn konúngur og kénnimadur ad eylífu, svo ad í hans nafni skulu öllu kné sig beigja, bædi á himni og jörd og undir jördunni, Phil. 2; þad er ad hann lifir og ríkir ad eylífu; því þad sem Davíd kallar ad sitja á hægra veg Gudi, Ps. 110, þad kallar Páll ad ríkja, segjandi, 1 Cor. 15: hönum byrjar ad ríkja, þar til hann leggur alla óvini til skarar fóta hans. Og er nú þetta sá ávöxtur og nytsemi, er Drottni sjálfum tilheyrir, jafnvel þótt ad ei séum vér heldur hlutlausir af henni, sem sídar mun sagt verda.

En hvad vidvíkur þeim ávöxtum, sem oss syndugum mönnum til gagns og nytsemi spretta af Drottins himnaför, þá er hinn fyrsti, sendíng h. Anda; svo segir hann sjálfur: nema eg í burtu fari, þá kémur ecki sá Huggarinn til ydar, Jóh. 16. Þetta sitt fyrirheit efndi Drottinn á Hvítasunnudögum, svo sem alkunnugt er, og er þad ecki lítill velgjörníngur br. m., ad hann sendi sinn h. Anda yfir sína postula; hann leiddi þá í allann sannleika, svo ad þeir skyldu leyndardóma Guds ríkis, ad oss yrdu þeir sídan opinberadir; hann gjördi kraptaverkin fyrir þá, og styrkti þar med kristni-bodid, svo ad þad hjálprædid sem fyrst var bodad af Jesú Christó, yrdi og stadfest hjá þeirra eptirkomendum sem Páll vottar, Hebr. 2; hann kéndi þeim ad forsmá alla hluti hjá Drottins krossi, og halda þá fyrir þreck ad vera til ad ávinna Christum, oss til eptirdæmis, svo ad þeir uppfyldu leyfar Jesú Christí písla á sínum líkhama, sem er hans kristni, Col. 1. Nú þó ad þetta sé einn háleitur velgjörníngur, ad hann úthelti sínum Anda svo ríkugliga yfir postulana, þá höfum vér eingu minna þegid ef vér rétt adgjætum. Hid mesta erfidi skal til þess hafa, ad leggja grundvöllinn undir eitt hús, svo var og ad Krists kyrkju; hinn fyrsta stein lagdi Gud í pínu síns Sonar, þegar hinn dýrmæti hyrníngarsteinninn var af uppbyggendum útkastadur, 1 Pet. 2; þar uppá bygdu postularnir og adrir helgir menn, er vördu lífi sínu og allri tímanligri velferd sinni til þessarar byggíngar. Þess gétur Páll, Eph. 2, segjandi: ad vér séum bygdir uppá grundvöll postulanna og spámannanna, þar Kristur er sjálfur hyrníngar steinninn. Gjætid ad þessu er eg segi, br. m., þess meira sem lídur á byggínguna, þess minni þúnga hefir þad ad bera sem fyrst var lagt. Þótt vér eigum dagliga ad þjá vorn eiginn líkhama fyrir Guds ríki, hvad er þad hjá því, sem postular Guds og adrir helgir menn urdu ad lída oss til eptirdæmis; þeir báru hita og þúnga dagsins, Matth. 20, medan heitast var, medan hádegi var kristninnar; vér erum um ellestu stundu kalladir; Gud úthelti yfir þá sýniligum ástgjöfum Andans, til ad styrkja kénnínguna, til ad styrkja þá, svo þeir gjæti offóknirnar þolad; þú hefir ecki minni ástgjöf þegid kristinn madur. Fagnid ecki yfir því, sagdi Jesús, ad andarnir eru ydur undirgéfnir, heldur hinu, ad ydar nöfn eru skrifud á himnum, Lúk. 10; Bíleam, Núm 22, Saul, 1 Sam. 10, og Júdas, Matth. 10, höfdu og þvoddan gáfur um hríd, þar-fyrir vóru þeir þó ecki fullsælir. Sú var hin ædsta gáfa Drottins, ad hann gaf sínum þénurum ad vera eitt med sér, eins og Fadirinn og hann eru eitt, ad hann vardveitti þá fyrir heiminum, þótt hann tæki þá ecki burt úr heiminum,

Jóh. 17; og þessa gáfu hefir hann þér og sendt, kristinn madur, ef þú vilt móti taka; hann hefir svo endurgétid þig í skírnar-lauginni med heilögum Anda, ad þú gétur samsinnt hans ordi; hann endurnýar þig dagliga med hinum sama Anda, (nema þú mótstandir honum) svo þú gétur trúad á Gud, heyrt hans ord, tamid þitt hold, borid hans kross og elskad náúngan. Mér virdist Drottinn hafi sömu atferd vid sín börn í sendíngu heilags Anda enn-nú í dag, svo sem hann hafdi vid sína lærisveina, sem von er til, því Drottinn hét þeim því, þar hann segir hjá Jóh. 14: eg mun bidja Födurinn ad hann sendi ydur einn annann Huggara, ad hann blífi hjá ydur eylífliga. Þegar hann kom til þeirra ad luktum dyrum og opinberadist þeim, þá blés hann á þá og sagdi: medtakid þér h. Anda, Jóh. 20. Ecki var þessi blástur heilagur Andi, heldur hefir hann búid í hönum, eins og í hinum mikla stormi á Hvítasunnunni, þó var mannligur veikleiki svo mikill hjá þeim, ad þeir ecki trúdu fyrir fagnadar sakir; já, þótt hann opinberadi sig fyrir þeim níu-sinnum eptir upprisuna, þá trúdu þeir varla, svo ad Matthæus segir, ad þegar hann taladi vid þá á fjallinu í Galílea, þá hafi sumir efast, Matth. 28; og undir hans uppstigníngu vóru þeir svo ófródir í þessu, ad þeir spurdu hann: hvert hann þá vildi upprétta Israels ríki, Act. 1; en er hann hafdi meddeilt þeim ad nýu heilagann Anda, og blessad þá, og þeir sáu hann til himins faranda, þá jókst þeim svo kraptur, ad þeir gengu gladir heim og prísudu Gud, segir Lúkas, Act. 2; en eptir 10 daga úthelti hann yfir þá hinum sama Anda med miklum undrunum og táknum, svo þeir efudust aldrei sídan. Svo fer madurinn enn-nú ad vaxa, þar til hann verdur fullordinn eptir máta fullkomins aldurs Jesú Christí, sem Páll adkvedur, Eph. 4; í skírninni medtökum vér heilagann Anda; ecki er vatnid Andi, heldur býr hann í ordinu, hvert ed samlagast vatninu; hans gjætir ecki mikid í hjarta úngbarnsins, þó vita menn ad hann býr þar, þvíad slíkra er Guds ríki, segir Jesús, Lúk. 18. Þegar vér drögumst á legg, verdur hann jafnan samfara ordinu, hjá þeim sem þad læra, þótt ei þecki börnin Jesúm grant, heldur enn lærisveinarnir hér; þegar oss aukast vitsmunir, og vér fáum eptirtekt nockra, þá samverkar hann jafnan Guds ordi. O, börn mín! er ecki þetta ein stór ástgjöf h. Anda, ad eitt úngmenni lætur sér skiljast þad, sem ei gátu skilid edur vildu skilja hinir vísu heims-spekíngar, Philó, Celsus, Phorphyríus, Lúcianus, og adrir miklu fleiri? og þótt þad ecki skilji svo grant, þá temur Guds Andi svo mannliga skynsemi, og verkar svo í einfeldni barnsins, ad þad gefur sinn skilníng fánginn undir hlýdni trúarinnar, 2 Cor. 10, svo því dugar til sáluhjálpar. Er þad ecki ein stór Guds gjöf, ad vér sem fæddumst reidinnar börn, Eph. 2, vér sjáum þó hvílíkan kjærleika Fadirinn hefir oss gefid, ad vér megum Guds börn kallast? 1 Jóh. 3; hver kénnir oss þad? mun ecki heilagur Andi sá, ed ber vitni vorum anda hér-um? Róm. 8; er þad ecki ein óumrædilig Guds gáfa, ad þegar vér syndgumst, og höfum forbrotid vora arfleifd, jafnvel med stórglæpum, sem vorri sálu verda á-stundum ofur þúng byrdi, ad vér höfum þá tals-manninn á himnum, manninn Jesúm Christum, hinn réttláta, 1 Jóh. 2, sem oss sendir sinn h. Anda af sínum Födur, til ad straffa í oss syndina svo vér ydrumst, til ad kénna oss ad hann sé forlíkun fyrir allar veraldarinnar syndir

svo vér trúum, til ad endurnýja oss í anda vors hugskots, svo vér gétum lifad nýum lifnadi? Þegar tveir konúngar sættast, þá seljast þeir gisla á, svo ad vinátta þeirra skuli tryggvari vera, edur sá meiri tekur af þeim minna til þess ad treysta sér hann; en Gud nádi oss fáradar manneskjur, hvad þurfti Gud ad taka pant af oss þrælunum, útlægunum, óbótamønnunum? hvad þurfti hann oss pant ad setja? og þó hefir hann svo gjørt; hann hefir tekid af oss einn pant, sem er vort hold og blód, og sett þad á hægra veg sjálfum sér, ecki til þess ad hann trydi oss betur, því hann vissi ad vér dagliga mundum rjúfa vor særi, heldur ad vér kynnum hønum þess betur ad trúa. Einginn hefir um aldur sitt eigid hold hatad, heldur fóstrar hann þad og nærir, segir Páll um mann og konu, Eph. 5; fyrst Guds eingétinn Sonur hefir gjørt vort hold ad sínu holdi, fyrst hann hefir trúlofad sér kristnina svo sem adra brúdi, þá er þad víst, ad hann elskar þá, sem eru hold af hans holdi og bein af hans beinum, er svo heitt elskadi oss, ad hann gaf sitt líf í daudan fyrir sína óvini, Róm. 5. Hann mun ei forsmá sína brúdi, sem skipar fyrir munn St. Páls, syndugum mønnum ad elska sínar ekta-kvinnur eins og Kristur søfnudinn, Eph. 5, heldur láta drottnínguna standa sér á hægri hønd ískrýdda hinu besta gulli, Ps. 45; og til frekari stadfestu hér-um, hefir hann, upphafinn á sinn tignar-stól, sendt oss einn pant af sinni hendi, þad er heilagur Andi, sem er pantur vorrar arfleifdar, Eph. 1, hver og bidur fyrir oss med ómrædiligum andvørpunum, segir Páll, Róm. 8; ó, hvílík er ástgjøf þessi! hver vill skipta henni vid læknisdómana? vid túngumálin? vid jardteiknagjørdina? og sjáum vér af þessu, ad Guds Sonur hefir eingu minna veitt oss í sinni uppstigníngu enn postulun-um, hønum sé dýrd og prís ad eylífu, amen!

Hin ønnur nytsemi sem vér høfum af Christí uppstigníngu, er sú, ad hann situr til Fødursins hægri handar og bidur fyrir oss. Drottinn baud í gamla Testament-inu Aróni og hans sonum, ad þeir skyldu blessa fólkid, Núm. 6; þeirra embætti var og ad bidja fyrir því. Lúkas skrifar, kap. 24, ad þessi vor ædsti Kénnimadur, (hvers fyrirmind ad var Aron í mørgum hlutum) ad í því hann var ad blessa þá, hafi hann verid numinn frá þeim. O, einn glediligan vidskilnad! ó, eina elskuríka kvedju! ó, eina kroptuga blessan! þessi dýrmæta blessan liggur enn-nú í dag yfir hinum andliga Israel, þegar hann tilbidur Gud í anda og sannleika, Jóh. 4, svo ad hvers vér bidjum Fødurinn í hans nafni, þad vill hann gjøra, Jóh. 16. Drottinn sté upp af fjallinu Olíveti, Act. 1, því hann hafdi þá út til Bethanía (segir Lúkas kap. 24) er stód á sama fjalli; frá þessu fjalli reid Drottinn sídarst inn til Jerúsalem, ad hann offradi sinni dýrmætu fórn síns líkhama, med hverri hann verøldina endurkeypti, fridstilti Gud, en braut undir sig Djøfulinn og allann hans her, og tród hann undir sinna barna fætur. Med þá sømu fórn uppstígur hann hér, vordinn kénnimadur ad eylífu, Ebr. 7, ecki eptir skickan Arónis, heldur Melchisedechs, og birtist med henni fyrir Guds augliti jafnadarliga, svo opt sem einn ydrandi syndari vid-þarf. Þess gétur St. Páll, Hebr. 9, segjandi: ei er Kristur inngenginn í þad heilaga sem med høndum er gjørt,

hvert ad er fyrirmyndan þess sannarliga, heldur í sjálfan himininn til ad birtast nú augliti Guds fyrir oss; hann birtist nú Guds augliti, segir Postulinn, og var þad nockru eptir hans uppstigníngu, teiknandi þar med, ad þetta sé eitt sífelt offur, ólíkt því sem umgétur, Núm. 28, hverju Israels synir á-stundum ræntir voru af sínum óvinum, 2 Paral. 36; en þetta kann einginn ad hindra, einginn frá oss ad taka, Djøfullinn med allri sinni makt fær því ecki spilt svo lengi vér trúum á Guds Son. Nøfn Israels sona vóru ritud á brjóst-skjøld Arónis, Exód. 28, med hveru hann inngéck í þad allra-helgasta, svo sem til eins minnis-teikns fyrir Gudi. Minn Herra Jesú! þú eylífi Kénnimadur! þú blessadir þína elskuliga lærisveina med kénnimannligri blessan, ádur enn þú inngéckst í himininn; þú barst þá ecki á þínu, heldur fyrir og í þínu brjósti til eylífrar minníngar fyrir þínum himneska Fødur; já, ecki einasta þá, Herra! heldur og alla þá sem á þig sídan trúad hafa og trúa munu allt til enda veraldarinnar, þar þú ert einn kénnimadur freistadur á allann hátt líka sem vér, þó án syndar, Ebr. 5, uppá þad þú kunnir ad sampínast vorum eymdum. O, hversu er þessi Guds gjøf ælskilig! hvad má glediligra veitast einum syndara, sem eckert hefir annad enn daudan og helvítis píslir forþénad, þegar hann á ad mæta fyrir þeim hrædiliga dómi, hvar ed tebla er um hans eylífu sáluhjálp, hvad má hønum, segi eg, glediligra veitast enn þad, ad hann hefir dómaran fyrir fødur, og sinn bródur fyrir tals-mann? hver vill láta sér þar hug-fallast, hver vill mistreysta søk sinni; því vil eg álykta þetta med Páls ordum: hver er sá ed fordæmir? Kristur er sá sem dáinn er, já, hver ed upprisinn er, hver og situr á hægri hønd Gudi og bidur fyrir oss, Róm. 8. Hin þridja gagnsemi er vér syndugir menn høfum af uppstigníngu vors Frelsara er sú, ad hann þar med hefir afrekad og tilbúid oss eylífa dýrdar-vist í himninum; svo segir Drottinn sjálfur hjá Jóhannem, kap. 14: í míns Fødurs húsi eru margar verur, annars segda eg ydur: eg fer burt og tilbý ydur stad, en eg mun koma aptur og taka ydur til mín sjálfs, ad þér séud þar sem eg er; þad er merkilegt ad hann segir: ad þér séud þar sem eg er; nú er þad vitanligt, ad hann er í Guds himin uppfarinn, og situr til Kraptarins hægri handar; þad er ad sønnu hønum einum ætlad ad sitja á hægra veg Gudi, samt erum vér þess fullvissir, ad hver og einn af oss hefir sína deild í Christí líkhama, 1 Cor. 12; hvar fyrir þar sem mitt hold ríkir, þar kalla eg mig ríkja, þar sem mitt høfud drottnar, þar drottna eg sem er limur þess sama líkhama. Þad er einn undrunarligur hlutur, og ein stór dýpt audæfanna og Guds speki, ad manneskjan gétin og fædd í syndinni, já, sú ed aldrei kann syndlaust ad lifa hér í líkhamanum, já, margur sá ed veltir sér í endemi syndanna hinn mesta hluta æfi sinnar, hún skal þó ef hún ydrast og trúir á Christum, verda einglunum jøfn, segir Postulinn, þeim himnesku øndum, er sinn Skapara ecki hafa í hinu minsta styggdann, og sjá hans auglit án afláts, Matth. 18; já, hvad meira er, ad vér skulum samlíkir verda Christí dýrdligum líkhama, Phil. 3, sem án efa ber lángt af einglanna dýrd. Hverju sætir þetta br. m.? hver fær þad skilid? Drottníngin stendur þér til hægri handar, skrýdd hinu besta gulli, segir Davíd í brúdkaups vísunni, Ps. 45; Kristur eptir manndóminum situr á hægra veg Gudi, þad merkir ad hann sé hønum næstur ad tign og heidri, en hønum til hægri hand-

ar stendur og ecki situr brúdurin, Ps. 45, kristilig kyrkja; svo miklu er hún ó=ædri sem von er til, og þó næst hønum ad tign og heidri, svo ad hér má sjá ad manneskjan í dýrdinni verdur einglunum jøfn ad vísu. Hvad ætti kristinn madur um þetta ad hugleida? mætti ecki hjartad brádna af audmýkt svo sem annad vax, nær hann þetta heyrir? mun hønum ecki til hugar koma med Abraham þad hann sé dúpt og aska, Gén. 18, og ecki þess verdur, ad sjá inn fyrir himnaríkis dyr, auk heldur ad standa á hægra veg Guds Syni í hans dýrd. En hvar fyrir er syndugum jardar=leyr þvílíkur sómi veittur? fyrir Drottins uppstigníngu til himins, fyrir þá dýrmætu fórnina er hann hefir einusinni innborid í þad allra=helgasta. Br. m.! køllum vér ecki einn hlut svo mikils verdan sem hann kostad hefir? nú er Guds blód med hverju syndarinn er endurkeypt=ur, Act. 20, þess miklu ædra og kostuligra einglunum, sem hann hefir þeim ædra nafn, þad er heidur og virdíngu øðlast sem Páll ávíkur, Hebr. 1; en nú hefir hann ecki einglanna heldur Abrahams sædi uppá sig tekid, í því hefir hann lidid, í því er hann upprisinn, uppstíginn og seztur til hægri handar Gudi Fødur; er þá ad undra børn mín, þótt hann gjøri oss einglunum jafna, þar hann hefir oss med sínu eigin blódi end=urleyst? Act. 20, hverjum hann og géfur sitt hold og blód til ad eta og drecka, Jóh. 6, hvert nú situr á hægra veg Gudi í dýrdinni. Plaga ecki kónúngarnir ad hefja ættmenn sína til virdínga, alla þá sem í hlýdni vid þá standa, og sjá ei gjarna adrir séu þeim fremri? því mun ei Drottinn Jesús hverjum allt vald er géfid bædi á himni og jørdu, Matth. 28, vera eins lyndur vid oss, sem erum limir hans líkhama, 1 Cor. 12, hverja hann skammast sín ecki brædur ad kalla, Ebr. 2. Þannig hefir nú Gud upplokid oss himninum í síns Sonar uppstigníngu, og géfid oss ad sitja ásamt med Christó á hønum, segir Páll, Eph. 2. O, hversu eru allar heimsins virdíngar, audur og eptirlæti, hé=gómi ad reikna hjá þessari tign, þessari sælu, þessum himneska fésjód, og þó er manneskjan svo dárlig, ad hún tekur allt þetta fram fyrir þessa dýrdar=vist med Gudi og hans út=vøldum! Þar er í flestra manna náttúru nockurskonar hugprýdi, ef eg má svo kalla, jafnvel þótt flestir hana vanbrúki, þad er ad komast sem hærst, og eru þad sérdeilis tvø fjøll, sem menn eru ad klyfrast uppá alla sína æfi, þad er maktarinnar og vitskunn=ar; en þar eru svo fáir sem leitast vid ad komast uppá Zions=fjall, Ebr. 12, og ná þén=ustu hjá hinum alvalda Kónúngi, sem Gud hefir þar yfir sett, Ps. 2. Hversu aum=kælis gengur þetta br. m., jafnvel fyrir þeim, sem eru kóngbornir í skírninni? þeir taka ecki betur vara á tign sinni enn svo, ad þeir selja hana fyrir glis veraldarinnar, eins og børn þau, er kaupa vilja þad er þeim vænt um þykir fyrir dýra dóma. O, hversu vísari og voldugri munu þá hins eylífa Kónúngs synir og brædur verda í hans ríki, því þeir munu einglana dæma segir Páll, 1 Cor. 6, þad er djøflana, þeir munu Gud þeckja svo sem þeir verda af hønum þecktir, og sjá hann og hans dýrd, ecki svo sem í spegli edur rádgátu eins og hér, heldur augliti til auglitis, 1 Cor. 13; og er þó hin minsta þecking sem einn einfaldur Guds dýrkari hefir á Christó hér í lífi, miklu vísari enn allt mann=vit heims=spekínganna, því Páll segir, 1 Cor. 1: ad Gud hafi gjørt speki verald=ar þessarar ad heimsku, og ad heimska Guds sé mønnum hyggnari, og veikleiki Guds, mønnum øflugri. Þegar makt heidinna manna geck sem hærst, og vísdómur

Gydínga stód í blóma sínum ad þeirra hyggju, þá voru hinir svo voldugir, og þessir svo vísir, ad þeir heingdu Konúng dýrdarinnar uppá gálgan, hverirtveggju sér til skammar og, síns høfdíngja, Fjandans ríki til nidurdreps, svo hann hefir aldrei vidrétt sídan. Þannig er makt myrkrauna og skynsemi holdsins, þau eru volædi hjá Guds barna veikleika, og heimska hjá þeirra einfeldni í Guds augum, sem einn er vís og alleina voldugur, Róm. 16; og þótt nockur væri einvalds Drottinn yfir øllum heimi þessum, og vissi alla náttúru hlutanna, hvad mundi þad vera hjá þeirri dýrd, þeirri speki og þeirri sælu, sem hinn minsti í himnaríki er prýddur med? því ef hann er meiri enn Jóhannes Baptista, hvers líki ei var af konu fæddur, Matth. 11, þá munu hinir ná skamt til þess, jafnvel í hádeigi maktar sinnar. Og hefi eg nú svo talad fyrir ydur, br. m., um hina sérlegustu ávexti Drottins uppstigníngar, hverrar hinn fyrsti heyrir hønum sjálfum til, sem er, ad hann er inngenginn í sína dýrd; og eigum vér ad gledjast þar-af, ad hann er farinn í burtu hedan, ef vér elskum hann svo sem hann sagdi fordum vid lærisveinana, sérdeilis þar vér erum ecki hlutlausir þessarar dýrdar; hann svo sem frumgétinn og eingétinn Sonur hins Hæsta, hefir tekid hinn mesta arf, má oss ei nægja þad ættleidíngunum, ad vér erum samarfar Christí og erfíngjar eylífs lífs? Róm. 8; má þad ei duga oss landráda-mønnunum, ad vér høfum arfs-von í ómælanligrar dýrdar eylífri þýngd? 2 Cor. 4. Gud hefir géfid sínum Syni endimørk veraldarinnar til arfleifdar, Ps. 2, ecki svo fjøll og dali, jørd og skóga, vøtn og sjó, og allt hvad þar inni byggir, svo sem hans elskuliga brúdur sem hann hefir útvalid af øllum þjódum og túngumálum, ádur enn grundvøllur veraldarinnar var lagdur, Eph. 1; þess høfum vér notid aumíngjarnir, sem liggjum undir hinu ytsta heims-skauti þessu; vér erum hans arfur, og høfum vér sjálfum oss aldrei betur varid. Hinir adrir ávextirnir heyra oss mønnunum til; hann hefir ríkugliga úthelt yfir oss heiløgum Anda, svo vér réttlættir fyrir hans nád yrdum erfíngjar eylífs lífs, Tít. 3; hinn situr til Guds hægri handar, og bidur fyrir oss, Róm. 8, svo ad allar vorar bænir eru Já og Amen; hann hefir opnad oss himininn, og tilbúid oss þá sælu-vist er eg fyrir skømmu umtaladi. Nú þar Gud Fadir í sínum Syni, Guds Sonur af Fødurnum sendur, og heilagur Andi, sem af bádum þeim framgengur, þad er øll heiløg Guddómsins þrenníng, hefir audsýnt oss þvílíkan kjærleika, sem ádur er sagt, í Drottins uppstigníngu, þá stígum nú upp aptur á-móti hønum í vorum hugskotum; hann hefir vort hold upp-hafid; látum hann ecki forgéfins hafa sendt ofan sinn Anda til vor aptur; ef vér erum upprisnir med Christó, þá leitum þess sem þar uppi er, hvar Kristur situr til hægri handar Fødursins, Col. 3. Þar sem ydar fésjódur er, þar er ydar hjarta sagdi Endurlausnarinn, Matth. 6. Ef vér høfum medtekid heilagan Anda, sem hann hefir ríkugliga úthelt yfir oss í endurgétníngar vatns fánum, hvar skyldi þá vor féjódur vera? nema í hønum, í hverjum ad byggja allir féjódir vitskunnar, Col. 2. Postular Drottins horfdu upp í himininn eptir hønum, Act. 1. Lyptum og augum vorum upp frá þessum jardneska hégóma, og skynjum þad sem þar uppi er, lyptum þeim til hædanna hvadan oss kémur hjálpin; forsmáum heim þenna med-øllu því sem í hønum er, því

hann mun fyrirfarast; gaungum því út af heiminum, ad ecki tortínumst vér med honum.

Drottinn hafdi lærisveinana út til Bethanía, þegar hann sté til himins, Lúk. 24; hvert hann er farinn, þad vitid þér og veginn þeckid þér, Jóh. 14. Bethanía merkir fátæks manns hús; ef þér viljid eptir honum uppstíga, þá gjørist andliga voladir, því ad slíkra er himnaríki, Matth. 5; falli ydur ríkdómur til, þá festid ei hjarta ydar vid hann; gjørid fátækum gott, svo þér séud í Gudi ríkir, og þeir medtaki ydur í eylífar tjaldbúdir, Lúk. 16. Elías fór nakinn til himna, 2 Reg. 2. Svo megid þér og slíta frá hjarta ydar allt veraldligt ysirlæti, ef þér viljid honum fylgja. Drottinn var nakinn krossfestur, nakinn var hann í lífblæunni vafinn, hana skildi hann eptir í grøfinni, nakinn hefir hann upprisid, nakinn uppstígid, jafnvel þótt hann hafi klæddur sýnst fyrir lærisveinunum; þú átt og ad krossfesta hinn gamla manninn, þú átt ad greptrast med Christó, og upprísa med honum, Róm. 6, ádur enn þú fær uppstígid. Afklæd þig og svo med honum; lát ecki eina slík veraldligra muna þýngja hjarta þitt, svo þú megir fljúga upp í hædirnar eins og annar ern eptir þínum Frelsara; brúka svo heiminn, ad þú ecki vanbrúkir hann; slít frá þér alla elsku til veraldarinnar; lát ecki hennar þúnga-voru draga þig nidur þegar þú átt ad stíga til himins, hvar vor borgar-réttur er, hvadan vér og væntum Drottins Jesú Christí, Phil. 3; honum med fødurnum og h. Anda sé lof, prís og heidur um aldir alda, amen!

## Sjøtta Sunnudag eptir Páska.

### Gudspjallid, Jóh. 15 og 16 Kap.

Jesús sagdi til sinna lærisveina: en þá ed sá Huggarinn kémur, hvørn eg mun senda ydur af mínum Fødur, sem ad er sannleiksins Andi, hvør af Fødurnum framgeingur, hann mun bera vitni af mér, og þér munud mér vitni bera, því ad þér hafid í frá upphafi hjá mér verid. En þetta tala eg því til ydar svo ad þér hneixlist ecki, því þeir munu forboda ydur, og sá tími kémur, ad hvør hann líflætur ydur, sá meinar sig ad gjøra Gudi þægt verk. Og þetta gjøra þeir ydur, af því þeir þeckja hvørki Fødurinn né mig. En þetta tala eg því til ydar, ad nær sú stund kémur, ad þér minnist þess, ad eg sagdi ydur þad. En þetta sagda eg ydur eigi í upphafi, því eg var hjá ydur.

### Exordium.

Einginn kann tveimur herrum ad þjóna; því annadhvørt hatar hann þann eina, og elskar hinn annann, edur ad hann adhyllist þann eina, og forsmáir hinn annann; þér getid ecki undir eins Gudi þjónad og mammóna, segir Endurlausnarinn, Matth. 6. En þad sem hann hér segir um mammon, hver ad er Gud þessa heims og hans barna, þad vill hann sagt hafa um sjálfan heiminn. Ómøguligt er undir eins Gudi ad þjóna og svo heimi þessum; þad eru

tveir svo ólíkir húsbændur, ad hvør þeirra rekur annars þénara í burtu frá sér, og þad þess vegna, ad þeir svo ólíkir eru; þar fyrir ávarpar St. Jakob Postuli veraldarinnar páfugla þannig, 4 kap: þér hór=kallar og hór=konur! vitid þér ecki, ad heimsins vínátta er Guds óvinátta? fyrir því, sá sem vill vera vinur heimsins, hann gjørist Guds óvinur. Og fyrir því ad þessu er nú svo varid, þá hljóta Guds børn adskiljanlig mótlæti og hørmúngar ad lída, um hvert efni eg hefi nockud fyrir skømmu talad, er eg ósk ad gódan stad fundid hafi í ydar hjørtum. En søkum þess, ad margur sá ed vill Gudi þóknast, hann þolir ljúfliga þad sem Gud leggur sjálfur á, svo sem eru sjúkdómar, fátækt, ástvina-missir og annad þvílíkt; en þad sem af mannanna hendi kémur, þad er oss bágara ad þola, og optliga upptendrast vort hjarta af reidi og hatri til þeirra, af hverjum vér megum nockurn ójøfnud lída, sérdeilis nær þad fram vid oss kémur fyrir sakleysi, edur og í stadinn þess, er vér gott hugdumst gjøra; slíkt er ad sønnu mannligt, og einginn láir þad ødrum, manna á-medal, hvíad flestir eru svo lyndir; en ef vér adgjætum, ad þad kémur eckert fram vid Guds børn, sem ad ecki sé eptir hans forsjá og tillátsemi, þá eigum vér því eins vel ad taka, sem kémur af mannanna hendi, svo sem hinu, er hann sjálfur á oss leggur, því ecki einn titlíngur fellur á jørdu án vors himneska Fødurs vilja, Matth. 10; því mun oss þá nockurt þad henda, sem ad hann ecki vill ad vid oss framkomi? Og þetta er þad sem ad Drottinn Jesús fyrirsegir sínum lærisveinum í þessu heilaga Evangelió um offóknir vondra manna, og segist þess vegna tala þad til þeirra, ad þeir hneixlist ecki, og ad nær sú stund kæmi, ad þeir þá minnust þess, ad hann sagdi þeim þad; og vill hann þad sama sagt hafa øllum sínum børnum um allan heiminn. Því vil eg út af þessum spádómi Drottins sérdeilis tvent hugleida í þetta sinn, sem er: 1) ad vér séum skyldugir til ad gégna því med þolinmædi, er vér lídum af vondum mønnum sakleysisins og Guds vegna; 2) ad vér eckert rángt gjørum til ad umflýja þeirra ofbeldi. Hér-til hjálpi oss gódur Gud, fyrir sinn Son Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Þeir munu forboda ydur, segir Drottinn, og sá tími kémur, ad hver hann líflætur ydur, hann meinar sig ad gjøra Gudi þægt verk. Vid hverja sagdi Frelsarinn þetta? vid sína elskuliga lærisveina, hverjir hønum án efa hafa af mønnum kjærastir verid, hverjir ad høfdu hans vitni um þad, ad Fadirinn elskadi þá, af því þeir elskudu sig, og allt þetta rættist á þeim, sem vonligt var. Hver sem athugar húdstrokur St. Páls, 2 Cor. 11, fángelsi Peturs, Act. 12, líflát hins eldra Jakobs, Act. 12, og beinbrot hins yngra, já, hversu ad allir Guds heilagir menn og vottar Jesú píslar eru herfiliga útleiknir, svo sem ljóst er af kristindóms-søgunum, hann mun þad játa, ad eckert ord Drottins sé á jørdu fallid. Nú fyrst hønum þóknast hefir ad láta sína kjærustu vini þetta lída af vondum mønnum, því skyldir þú og ecki fyrir Guds sakir lída vilja, þad sem einhvør óhlutvandur vid þig aflaga gjørir, og taka því svo sem ødrum krossi af Drottins hendi? Ad sønnu reynir ecki á þad fyrir oss í þessu fátæka landi, ad þola offóknir edur líflát fyrir Evangelií lærdóm edur Christí vidurkénníngu, samt eiga menn þó Gud ad dýrka med gódum verkum, med því ad hjálpa hinum saklausa, og þeim sem óréttinn lídur til réttarins, mótstanda þeim sem illa gjøra; og margur lídur órétt fyrir sakleysi, og fyrir þad sem hann med svoddan hætti gott gjørir, en allir þeir ed þann veg lída, þeir líta fyrir Guds sakir. Gud hefir bodid ad hjálpa þeim sem rángindin lída, og undir-þrycktir eru af ofríkis mønnum; villt þú ecki frelsa hinn fángada sem til dauda er dæmdur og hann sem ad liggur vid lífláti, þar þú segir: sjá, vér þeckjum ecki þenna; meinar þú ecki, ad hann, sem rannsakar hjartad, hann merki þad? og hann sem tekur

vara á sálu þinni, hann þecki það? mun hann ecki gjalda hverjum manni eptir verkum sínum, segir Salómon, Orðskv. 24. Þetta vill nú hinn æðsti Dómari hafa sagt þeim, sem meiri máttar eru og kunna að hjálpa þeim sem órétt líða; segið mér, mun hann sýknsaka vera, ef hann gjörir það ecki? nei, litlu betri enn hinn sem óréttinn gjörði; en þótt hann megi árásum mæta þar-fyrir, þá á hann það að líða með þolinmæði fyrir Guðs sakir. Guð hefir boðið að elska náúngann, og það ecki einasta með orði og túngu, segir Postulinn, heldur með verki og sannleika, 1 Jóh. 3; en hvað er tíðara í heiminum, heldur enn vanþacklæti fyrir góðgjörðirnar? Drambsemi óhlutvandra manna er svo há-vør og svo ríklunduð, að hún þykist eingum vera um neitt skyldug, hversu miklar velgjørðir sem hún þiggur, og alla hluti vill hún með sjálf-skyldu hafa, en geldur hin verstu laun fyrir allt undanfarið, ef ecki er græðgi hennar fullnægt í hverjum þeim hlut, er hún hafa vill; full er verøldin af slíkum sjálfbyrgíngum. Þeir sem nú fyrir slíku verða, sem margur er, þeir líða Guðs vegna, því þeir líða fyrir það sem Guð hefir boðið, hvert þeir mega ecki ógjørt láta, ef þeir vilja kristnir menn heita og Guðs vinir, því hver sem sér sinn bróður nauð líða og apturlýkur sitt hjarta fyrir hønum, hvernig má Guðs kjærleiki í hønum vera? segir Jóhannes, 1 Píst. 3; og mega þeir það ecki reikna, þótt að heimurinn gjaldi illu á-móti góðu; því Páll segir, Róm. 12: ef óvin þinn húngrar, þá géf hønum að eta, og þyrsti hann, þá géf hønum að drecka; og megum vér ecki vera vandari hér um, enn Faðir miskunsemdanna, hver að í gégn sinni óútsegjanligri góðgirni þolir hina mestu óþøck af syndugum mønnum, og lætur þó rigna yfir vonda og góða, og sína sól upprenna yfir rángláta og réttláta, Matth. 5. Því skulum vér ecki meina, br. m., að þetta sé alleina sagt til postulanna, eður þeirra sem lifðu á þeim døgum, því einginn er sú stétt sem að nockur maður lifir í, að eigi mæti hann andstreymi og aðkasti veraldar, ef hann leggur kapp á að gjøra verk Drottins Guðs síns trúliga. Því er æ verr og miður, að þeir eru flestir, sem skjóta þessu ómakinu hjá sér, uppá það þeir megi í friði vera; hvað er ecki einn Guðs orðs þénari, ef hann er vandlætíngasamur í sínu embætti? mun hønum ecki óvild og mannhatur búið vera? en segið mér, mun hann þar-fyrir mega láta af að straffa, ógna og áminna? eður elska þá og þeirra velferð, er hønum svo illa launa hinn mesta velgjørníng, er af syndugum manni kann við annann gjørður að vera? mun hann ecki mega þeinkja hið sama og Páll? er hann sagði, Gal. 1: hefði eg híngað til mønnum þóknast, þá væri eg ecki Krists þénari; og þetta er rétt að taka sinn kross uppá sig og fylgja Jesú eptir, Matth. 10. Sá gjørir vel sem líður með þolinmæði það Guð á hann leggur, og hann gétur ecki af sér kastað, en sá gjørir enn þá betur, sem með fúsum huga gengur í bardagann á-móti Fjandanum og hans verkfærum, þar hann kynni þó að skjóta sér undan, sem margir gjøra; hann er einn Guðs kappi, og má vænta sér þeirrar kveðju sem Gedeon féck af englinum forðum: Drottinn er með þér, þú hetja! Júd. 6. Hvað skulu menn tala um einn réttvísann dómara, ef menn eiga þó fyrir mørgum þvílíkum ráð að gjøra í hreckvísri og skynlausri øld þessari. En ef nockur er sá, er vanda vill sitt embætti

med røksemd og stjórnsemi nockurri, og halda uppi kristiligum réttindum, þá er hønum ecki einasta á hálsi legid af þeim er því mæta, sem ecki er svo ad undra, því blindur er hver í sjálfs síns søk, heldur og af þeim, er þad eckert vidkémur og eigi skynja hvar um þeir dæma; já, mætir árásum af þeim er sjálfir ættu hvad mest réttinum fram ad fylgja, hverjir ad brúka løgin eins og reikni-peninga, þá er menn láta merkja svo mikla edur litla tølu, sem menn sjálfir vilja. Allir þeir ed nockrum óskunda fyrir verda af svo hreckvísum og heimskum mønnum, þeir líða fyrir Guds sakir, því hann er sá, ed sagt hefir fyrir munn hins vísasta konúngs: sá sem réttlætir hinn ógudliga og sakfellir hinn réttláta, þeir eru bádir eins svívirding fyrir Gudi, Ordskv. 17; og eru ecki alleina þeir, ed í Guds stad vandlæta eiga med ordum, edur þeir sem yfir réttinn skipadir eru; þessum mótgángi vondra manna undirorpnir, heldur hefir Djøfulinn sín verkfæri nærri því í hverju húsi, til ad spilla kristninni og gódum sidum; einn vandlátur húsbóndi má slíku mæta af sínum hjúum, af sínum børnum á-stundum, já, af ødrum út í frá, sem ecki hirda um ad vanda rád sitt, og ámæla þeim, er adra vilja hafa aptur af illu, gefa þeim stýfin ord, og kalla ad þeir eigi eckert med sig, þeir muni brúka sína sidu þeim ad þackarlausu. Þetta er ecki lítil skap-raun, børn m., fyrir þá, sem óttast Drottinn og ángrast af ad sjá ógudligt framferdi, og sjá fyrir þeirra tímanligar og eylífar ó-farir, en fá þó eigi vid þeim gjørt søkum þvermódsku og strákskapar hinna, er þeir vildu leidrétt hafa, já, þad er þeim meira ángur heldur enn margt þad, er á sjálfum þeim liggur. En allir þeir, ed fyrir þvílíkt líða mega nockurt adkast, illyrdi edur annad verra, þeir líða fyrir Christí sakir, því Gud hefir skipad ad uppala sín børn í lærdómi og umvønd-un Drottins, Eph. 6; hann hefir bodid ad vér skulum leidrétta þá, er villir fara, med hógværum anda, Gal. 6; já, sá ed þad ecki gjørir nær hann sér sinn bródur vilt fara, hann samþyckist hønum, og gjørir sig hluttakara í annarligum syndum, 1 Tím. 5. Og hefi eg nú þannig sýnt br. m., ad sérhver einn af oss getur átt hlut í þessum alvísa spádómi Drottins, ef vér viljum þyckja fyrir Gud edur vandlæta í hans stad, því aldrei þrýtur þar Andskotans børn þau, er gefi þeim orsøk þar til, er Drottinn óttast, og eyra því illa, ad hans dýrdarfulla nafn sé vanvirdt, hans ord forsmád og hans setníngar vísvitandi undir fótum trodnar; og þótt ad mønnum sé óhætt uppá líf og landsvist, þá er þad eigi þeirra gjæsku ad þacka, sem allt gudligt skick og réttindi forsmá, því hann, sem ad hatar einn Guds ords þénara fyrir heilsusamliga kénníngu, edur einn yfirvalds-mann fyrir réttann dóm, já, hann sem bølvar fødur og módur, húsbændum edur ødrum þeim, sem hann leidrétta vill, hann er ecki lángt frá því ad taka lífid af hønum, edur reka hann úr landi, ef hann þad þyrdi vegna hefndarinnar. Nú er þessu svo varid sem eg sagt hefi, br. m., og því verdur eigi mótsagt, en allt þetta eigum vér þolinmódliga ad líða fyrir Guds sakir, og ecki hatast vid þá, er vér megum þola þad af, heldur gjøra skyldu vora med þolinmædi. Gjætum þess, er Frelsarinn segir hér í Gudspjallinu: ad þeir ed gjøri þetta, meini sig ad gjøra Gudi þægt verk; svo kunna og hinir skynlausir ad vera, ad þeir ætli sér sé óréttur gjør, og þeir ed þeim vel vilja, gjøri þetta af ossa og illgirni; lát þér þó til hugar koma, syndugur madur, ad þad er órétt fyrir Gudi þ'num, hverjum

þú þjónar, ad hatast við svo fáráðar mannesskjur, því þeir eru eckt haturs, heldur med-aumkunar verðir; hversu voldugir edur vísir, hversu ríkir edur sterkir sem þeir eru, þá eru þeir allra skepna vesælastir, er svo hafa gleymt Guði og sinni velferð, ad þeir skynja ecki hvad þeim er til gagns edur ógagns. Þetta gjøra þeir, segir Frelsarinn, af því ad þeir þeckja hverki Føðurinn né mig. Ef ad hundur bítur nockurn, edur hestur slær hann, hønum kann madur ecki svo ad reidast svo sem einum manni, sem Gud hefir vit og skyn gefid; en hinn ógudligi, sá ed segir í sínu hjarta, þar er einginn Gud, Ps. 14, hann er argari enn hestar og múlar, hverjum menn hljóta beitsli og bitil í munn ad leggja, Ps. 32; og því skylda eg þá vilja hefna míns vansa á svoddan Audskotans vinnu-dýri, sem ei veit hvad þad gjørir? Menn láta óds manns verk vera saklaust vid konginn eptir løgunum, og því skyldu menn þá ecki hafa vidlíka miskun vid hann, sem svo er yfirgefinn í fráleitt sinni, ad hann hverki þeckir Gud né hans Krist, og ecki miklu heldur leitast vid ad leidrétta hann, heldur enn vilja hans ólucku? Lít til þíns Endurlausnara, þar ed hann héck á krossinum, og beiddi fyrrir yfirtrodslu-mønnum, já, þeim, er gjørdu á-móti hønum þá allra-stærstu svívirdíng, sem nockurn-tíma hefir fram-in verid á-milli himins og jardar, og þó vildi Brunnur Gjæskunnar láta þetta fyrir afbøtun gilda: þeir vita eigi hvad þeir gjøra, Matth. 27; og hversu lítid er þad nú, sem þú mátt líða af þeim, sem ecki eru kanské øllu syndugri enn þú, fyrir hans skuld, hjá því sem hann leid saklaus þinna vegna. Þar-fyrir, nær sem einhver veraldarinnar son-ur mótmælir oss, þegar vér gjørum Guds verk, þá hugleidum hvílík vegsemd þad er, ad líkjast hans eingétnum Syni í þvílíku, og spillum ecki þeim heidri med óþolinmædinni, því ef vér gjørum þad viljugir, þá høfum vér laun, en gjørum vér þad naudugir, þá er oss þad þó uppálagt, segir Páll um sig, 1 Cor. 9; og þeinkjum ecki ad lærisveininn sé yfir Meistaranum; hafi þeir Húss-føðurinn Belzebub kallad, hvad munu þeir gjøra vid hans heima-menn? Matth. 10. Og þessa íhugan munum vér láta spekja hjarta vort, ef vér meir ángrumst af því, sem Gudi er í þessu á-móti gjørt, heldur enn sjálfum oss, og blønduðum ecki hverutveggju þessu saman; og má þad ecki letja oss, þótt ad lítid vilji áorkast vid vora tilhlutan í Guds stad. Heyrum hvad sjálfur Kristur segir, Esa. 49: en eg sagdi, eg erfidadi forgéfins, og fyrirkæmi svo mínum styrkleika fyrir eckert og til ónýtis, þó ad mitt málefni sé Drottins, og mitt embætti míns Guds; en þar um ber raun vitni, hvernig hann blessadur, holdinu íklæddur, lagdi allan hug á Guds eyrindi; hver hefir þvílík mótmæli, hádúngar, brixlanir, og allra handa óvirdíngar þolad fyrir Guds verk sem hann? Eckert er tídara í heiminum, enn þad, ad hann skipast ecki vid þeirra adgjørdir, sem Guds eyrindi reka, samt vill Gud þad þó gjøra láta sínu nafni til dýrdar, og þeim til nota er þad medtaka, en hinum til þess stærri fordæmíngar, og má þig einu gilda, syndugann mann, med hverju móti þú Gud dýrkar. Drottinn Jesús vissi ad Júdas var gløtunarinnar sonur, samt taladi hann Guds eyrindi fyrir hønum, advaradi hann þad sama kvøld og hann sveik hann um nóttina, Jóh. 13, áminnti hann í því hann sveik hann, Matth. 26. Þú

verdur fyrir óverdíngu af heiminum, en seig mér: er nockur virdíng stærri? nockur nafnbót svo føgur, svo sem Guds barn ad heita? nú segir Endurlausnarinn, Matth. 5: blessid þá er ydur bølva, gjørid þeim gott sem ydur offækja, svo ad þér séud børn ydar Fødur, sem á himnum er; þar=fyrir, hver sem hugleidir eylífa himnaríkis gledi og føgnud Guds barna, og ecki reyngir sannsøgli Christí, hønum mun litid þykja fyrir ad lída nockur hallmæli og árásir af vitlausum mønnum hér í heimi, fyrir þad dýrdliga verdkaupid, sem er nógligt á himnum, Matth. 5; hér til lítur Davíd, er hann segir, Ps. 27: eg mundi snart hafa yfirgéfid mig, ef eg eigi trydi, ad eg sjá mundi gjæsku Drottins á landi lifandi manna. Og viljum vér þeirra dæmum fylgja, er Jesús taladi þetta vid og þeirra samþjóna, þá skulum vér ecki finna, ad þeir hafi stórum óþolinmódir edur reidir vordid, nær þeir vóru falskliga áklagadir fyrir herrum og landsdómurum. Hvad skal eg tala um hid saklausa lambid, Guds eingétinn Son? þegar þeir søgdu hann væri Samverskur og hefdi Djøfulinn, Jóh. 8, svaradi hann alleina þessu: ecki hefi eg Djøful, heldur vegsama eg minn Fødur; þegar Júdas sveik hann: vinur! hvar til komst þú híngad? Matth. 26; þvodi svikarans fætur, Jóh. 13, skømmu ádur enn Djøfulinn fór í hann; þegar biskups þénarinn sló hann, Jóh. 18: hafi eg illa talad, þá bevísa þad, og hafi eg satt sagt, hvar fyrir slær þú mig? O, þér allir hans vinir! øll hans børn! allir hans lærisveinar! allir sem viljid hønum í dýrdinni eptirfylgja! komid híngad og lærid af hønum, því hann er hógvær og af hjarta lítilátur, Matth. 11; svo var hann þolinmódur, sem ecki vissi af synd, 2 Cor. 5, og átti þó alls vald, bædi á himni og jørdu, Matth. 28; en þú sem dagliga syndgar og ecki forþénar annad enn straff, munt þú ecki játa, ad Gud hafi allan rétt til ad straffa þig? já, þad munt þú ad vísu játa; en seig mér, mun hann þá ecki frjálst eiga med hverju móti ad hann typtar þig? mun barnid nockud sýsla um vid fødurinn, hvert heldur ad hann straffar þad med hendi edur vendi? þad heyrdist ecki á Job., kap. 1, hver oss er settur fyrir þolinmædinnar eptirdæmi, hvert heldur ad Gud lét eldinn falla af himni og brenna hans eigur, ellegar ad þeir af Kaldea og Saba ræntu hans gótzi; í øllu þessu syndgadi ecki Job segir Ritníngin, heldur sagdi hann: Gud gaf og Gud aftók, sé nafnid Drottins lofad ad eylífu. Þad er ein hræsnisfull þolinmædi, ad segjast vilja þola allt þad, sem Gud leggur á, en vilja eckert mønnunum lída, eins og þeir gjøri nockurt þad, er hann leyfir þeim ecki; sá sem líflátast á, hann fyrirgéfur bødlinum, en slær allri skuldinni uppá dómarann; nú gétum vér ecki géfid Gudi skuldina, því vér játum, ad vér høfum til alls þessa unnid, sem hann á oss leggur, og því skyldum vér þá reidast hans bødlum, sem eru vondir menn, þótt hann leyfi ad þad á oss framkomi, sem hann vissi ad þeir af sjálfs dádum mundu órétt gjøra, sérdeilis þar vér erum sjálfir vondir? þar fyrir, hversu sem þad er óréttvíst af þeirra hendi, þá er þad af Guds álfu rétt, og eckert annad enn vor forþént laun; og vilji einhver því ecki trúa, ad Gud stjórni á þann máta verkum ómildra manna sínu nafni til dýrdar, en sínum børnum til leidréttíngar (því allt verdur þeim til góda er Gud elska, Róm. 8), hann lesi þad er stendur í bæn postulanna, Act. 4: í sannleika komu þeir saman yfir þinn h. Son Jesúm, hvern þú smurt hefir,

Heródes og Pontíus Pilatus med heidíngjunum og Israels fólki, til ad gjøra allt þad, er hønd þín og þitt rád hafdi ásett ad ské skyldi. Hafi nú Guds voldnga hønd, eptir sínu alvísa rádi, stjórnad ógudligra manna verknadi og athøfnum í fordæmíngu síns eingetins Sonar þér til sáluhjálpar og miskunar, kristinn madur, þá lát þig ecki undra þótt hann stýri þeim, til ad aga þitt lausláta og drambsama hold, til ad temja þig lífadan kálf, eins og Ephraim, Jer. 31, þér til andligrar heilsubótar, heldur minnst þess, nær ed vondir menn þér rángt tilgjøra, ad þú hafir þad med þínum syndum forskuldad, og munt þú brádliga snúa því hatrinu, er þú fær til hans, er vid þig afgjørdi, á þína eigin synd, med harmþrúngnum og sundurknosudum anda, þad er þad offrid, sem Gudi líkar, Ps. 51; svo gjørdi Davíd konúngur, 2 Sam. 16, er Simeí bølvadi hønum, og kastadi steinum á hann, en Abísai sagdi: því skyldi þessi daudur hundur bølva mínum herra, konúnginum? eg vil fara og taka hans høfud af; en konúngurinn svaradi: hvad hefi eg med ydur, þér børn Zerúja? hafi Drottinn skipad hønum: bølva þú Davíd! hver vill segja: því gjørir þú þannig? Og er nú svo úttalad um hinn fyrra partinn.

Hvad hinum sídari partinum vidvíkur, þá á oss þad sagt ad vera, ad vér eigum fyrir eingum manni svoddan virdíngu ad bera, edur ad nockurs manns elsku edur ótta svo mikid ad láta, ad vér þess vegna styggjum vorn Gud á-móti samvitskunni. Þad er oss vitanligt, br. m., ad nógu eru margar syndir vorar, sem oss henda af vors eigin holds og blóds tilteigíngu til ad fordæma oss, þótt ad ecki styggjum vér hinn góda Gud med því ad taka syndnga menn fram fyrir hann. Gud býdur í sínu h. løgmáli: þú skalt ecki hafa annarliga Gudi fyrir mér, þad er hid fyrsta og hid ædsta bodord, Matth. 22, og þegar þad er brotid, þá eru øll brotin; en hvad gjøra menn, þegar þeir gjøra alla hluti ad mannanna vild, hversu ógudligir sem þeir eru, en kasta Guds bodordum á bak sér aptur? er þad ecki ad dýrka eitt lifanda skúrgod? já, þann sem er verri enn eitt skúrgod, því einn tré-stobbi er saklaus, þótt hann sé dýrkadur, hjá-trú mannanna gjørir hann ad svívirdíngu; en sá sem óttar ødrum til ad gjøra ódygdir og sérhvad þad, sem Gud hefir bannad, hann er Djøfull, og sá ed hann dýrkar, hann dýrkar Djøfulinn. Þú segist ecki dýrka hann þótt þú gjørir þad sem hann býdur, þú vitir ad Gud sé ædri og øllu betri, og hann einn eigi ad dýrka; þad er íllt ad þú veizt þad, þad vill fordæma þig enn-þá meir, heldur enn ef þú þad ecki vissir. En seig mér, í hverju er nú Guds dýrkun innifalin? í því ad trúa á hann, elska hann og óttast, og gjøra eptir hans bodordum; en seig mér aptur, hvern óttast þú meir, Gud edur manninn, nær þú hrædist hann, sem ecki kann ad deyda nema líkhamann, en forsmáir Gud, sem lífi og sálu getur kastad í eylífan eld? Matth. 10; á hvern trúir þú meir, nær þú þykist einkis-þurfi, er þú hefir mannsins vináttu, á-medan þú hræsnar fyrir hans bordi, en svo lítid reidir þú þig uppá Gud, sem þig skapad hefir, fædt og forsorgad, ad þú vinnur þad til ad missa hana ecki, ad þú gjørir alla hluti, sem Gud bannad hefir? hvern elskar þú meir, er þú villt jafnvel fara til helvítis fyrir manninn, en fyrir Guds sakir stendst þú ecki ad sjá hans reidi-svip, er þú meinar

ad hafi nockud af þinni tímanligri velferd í hendi sér? O, vei! ó, vei! er ecki þvílíkt ein hrædilig afguda-dýrkun, og miklu verri enn øll svívirdíng heidíngjanna, þeirra er af Gudi eckert vissu? Páll segir, 1 Cor. 8: ad skúrgodid sé eckert, og hræddust þeir þó skúrgodin, er þau dýrkudu; en kristnir menn, hverjum Gud er í holdinu opinberadur, þeir óttast mennina meir enn Gud, jafnvel þótt hann sé allt í øllu, og þykjast vel hafa komid kaupi sínu, ef þeir fá selt Guds vináttu fyrir mannsins kjærleika, edur til ad umflýa hans óblídu. Drottinn segir fyrir munn Hóseæ spámanns, kap. 2, um Gydínganna samkundu: hún þeckir ecki ad eg er sá, sem géf henni kornid og mustina og olíuna, og eg fæ þeim ánægjanliga silfrid og gullid, af hverju þeir gjøra Bal; hversu vel á þetta heima hjá þeim, er hinn gódi Gud veitir alla hluti yfirfljótanliga til notkunar, en þeir ecki einasta útsjúga hús eckna og fødurlausra, Matth. 23, og selja hinn volada fyrir einn skó, Amos. 2, heldur og gjøra sér einn afgud af þessu í hjarta sínu, hvert ed vera ætti musteri h. Anda? 1 Cor. 6; þad er svívirdíng foreydslunnar í helgum stad; og þad er þeim ecki nóg, ad þeir dýrki hann einsamlir, heldur eins og Nebúkadnezar lét úthrópa, ad hver madur undir lífs-straff skyldi dýrka Bel, svo vilja þeir fyrir þessa svívirdíngu af øllum heidradir verda, og ad allir hlýdi þeirra bodi og banni, hversu sem þad er órétt og ógudligt, og þessi varmenni óttast menn framar enn Gud og hans sannleika; edur hvad er tídara enn þad, ad nær einn litilmagni á vid einn maktar-mann, þorir einginn munninum upp ad ljúka, einginn sannleikan ad vitna; þeir hlaupa í felur, og hafa adskiljanlig undanbrøgd til þess ad ódygdin verdi ecki strøffud, en sannleikurinn í ljós leiddur, já, géfa sig heldur Fjandanum sínum fødur, heldur enn ad þeir styggi hinn volduga, og jafnvel á-stundum þann, sem þeim kann eckert mein ad vinna. Ecki er þetta kristindómur; bæriligra mun einum ærligum heidíngja verda á dómsins degi, Matth. 11, heldur enn þvílíkum Djøfulsins hamhleypum. Hvad kunna ménn þó ad sjá þad, á einum daudligum manni, hversu voldugur sem hann er, ad menn óttist hann meir enn Gud? hann kann ad firra þig allri þinni aleigu, þad gétur og Gud á augabragdi; hann kann ad steypa þér úr heidri þínum, mun Gudi nockud bágt um þad vera? hann gétur sett þig í fjøtur og járn, Gud gétur slegid þig med skjædum sjúkdómi; hann gétur tekid lífid af þér, og er þó ecki hætt vid því í landi voru, en Gud kann ad deyda eylífum dauda, og setja þá er hann forsmá, í þad fángelsi hvadan eingin endurlausn er, Matth. 18; hvert er nú meira? eg vil taka til þess mesta skadrædis, er menniruir kunna ad gjøra, þad er daudinn; en hvad er hann hjá helvíti? þad er svo ógnarligt, ad eg er viss um, ad ef nockur mætti sjá píslir fordæmdra, mundi hann hlaupa út í þúsund daudans hættur, til þess hann sæi þær aldrei optar; og þó flýa menn med seglum og árum undan einni vatns-bólu, sem þó kann ecki ad skada oss nema á líkhamligri velferd, og þad þó ecki framar enn Gud leyfir honum. Nú ef þú ættir allt þad, er þú kjærast hefir, ad missa; fyrir hvern er þér skyldara ad missa þad, fyrir Gud edur hinn ógudliga? mun madurinn hafa skapad þig? hefir hann géfid þér lífid? hefir hann forsorgad þig frá módur-lífi? hefir hann géfid þér gótz og peninga? hefir hann upphafid þig til heid-

urs? hefir hann verndad þig og allt þad þér vidkémur? mun eigi líkara ad þú missir þad hans vegna, ef missast skal, sem gaf þér þad í fyrstunni; og því hefir öllu vid makt haldid allt til þessa dags, heldur enn hins, sem þér gaf eckert af þessu? því þad hann kanské gaf þér, þad tók hann af Guds, og jafnvel þótt hann hafi stolid því frá náúnganum, og er vísastur til ad taka þad frá þér aptur og lángtum meira, þad fyrsta hönum rennur í skap vid þig, því svo er vinátta heimsins. Eg vil eigi þar um tala, ad sá sem hrædir einn til ad gjöra órétt einusinni, hann hefir hann fyrir skuldbundinn þræl í öllum skömmum og ódygdum sídan, og vilji hann ecki, þá er hönum óluckan búin, því svo plagar heimur þessi ad launa sínum þénurum; já, hann skal ecki vinna sér hinn minsta óhagnad til ad forsvara hann, ef hann yrdi af ödrum þar um sóktur, heldur mun hann svara eins og Gydíngar Júdas: hvad kémur þad vid oss? sjá þú fyrir því, Matth. 27; og kunna þeir sér ecki betri sidi, heldur enn þeirra foríngi Djöfulinn, því svo breytir hann vid þá, er hönum ljást til þjónustu, hann teigir þá fyrst til syndarinnar, og launar þeim sídan med eylífu helvítis báli; og þannig er þad, ad óttast mennina framar enn Gud. En hvernig launar nú Gud aptur þeim, er stödugir standa í hans þjónustu, og ecki óttast manninn? þad má oss af dæmunum kunnugt vera; hann launar öllum gódum launum bædi hér og eylífliga; satt er þad, ad mörg eru til þess dæmi, ad hann hefir géfid sína ástvini i mannanna vald, þó aldrei svo, ad hann ecki hafi verid þeim til annarar handar. Eg er viss um ad St. Páll, er hann stód fyrir Festó og Agrippa, Act. 26, hefir unad miklu betur hag sínum, heldur enn hver af hans áklagendum, hverja reidin og hatrid svo plágadi, ad þeir eyrdu eingu, nema þeir fengju hönum í hel komid, annars hefdi hann ecki óskad þeim ad þeir væru þvílíkir sem hann; þegar hann hafdi í 14 daga hrakist í sjáfar-ólgunni, og allir örvæntu sér lífs, sendi Drottinn sinn eingil til hans, Act. 27, og lét segja hönum: óttast ecki, Páll! þér byrjar ad koma fyrir keisarann; og hversu ad hinn máttugi Gud hafi máttugur í hönum verid fyrir keisarans dómi, því lýsir hann, 2 Tím. 4, segjandi: í mínu fyrsta forsvari var einginn hjá mér, heldur yfirgáfu mig allir, eg óska ad þad verdi þeim ecki tilreiknad, en Drottinn var hjá mér og styrkti mig, svo ad Evangelíi bodskapur yrdi fullkomnadur fyrir mig, og þad heyrdu allar þjódir, og eg vard frelsadur af munni leónsins. Og þótt ad Gud tali ecki svo bersýniliga vid oss á þessum dögum, svo sem hann þá taladi vid Pál, þá talar hann samt í sínu h. ordi, og dregur allan efa af því, ad sá sem hönum treystir í öllu ærligu, öllu réttvísu, öllu Guds eyrindi, hann mun aldrei til skammar verda, þótt hann sýnist ad hafa oss í mannanna vald géfid um stundar-sakir; því þad ord stendur stödugt: Gud þeckir þá, sem hans eru, segir Postulinn, 2 Tím. 2. Drottinn er minn styrkur, eg óttast ecki, hvad mun mér madurinn gjöra? segir David, Ps. 117. Einn gódur fadir, þegar hann hefir strýkt barnid, þá kastar hann á-stundum vendinum í eldinn og brennir hann, og svo breytir Gud vid skálkana, hverja hann brúkar optliga til ad hirta sín börn med; því skyldu menn þó óttast þá, nær menn hafa svo sterkan, svo réttvísan og svo gjæskuríkan forsvars-mann sem Gud er? Þad mun gánga þeim eins og St. Páll spáir, 1 Tím. 3, um villu-mennina á sínum

dögum hvernig hann samlíkir þeim Jannes og Jambres er mótstódu Móse, svo standa þessir í-gégn sannleikanum (segir hann) fordjarfadir menn í hugskotum, fráhverfir trúnni; en þeir munu eigi meiru framkoma, þvíad þeirra fásinna mun öllum opinber verda svo sem og hinna vard. Og þótt ad Guds ástvinir ecki eigi ad fagna yfir ólucku fjandmanna sinna, miklu heldur bidja Gud ad géfa þeim leidréttíng til ydranar, sem Páll býdur, 2 Tím. 2, og segja: verdi þinn vilji, þá samt er þetta ein óbrygdul huggun fyrir þá, sem reka Guds eyrindi, nær þeim mótmælt verdur, ad hann er þeirra styrkur, sem ad jafnvel segir til sjáfar-hafsins: híngad skalt þó komast og ecki lengra, hér skulu þínar stoltar bylgjur leggja sig, Job. 38. Nær vér erum í vináttu vid hann, þá kann einginn óvinur ad granda oss, og nær hann er óvinur, kann einginn vinur ad hjálpa oss, því skyldi einginn voga hid minsta móti Gudi ad gjöra fyrir ótta edur elsku sakir vid hans óvini, þeir vega allir minna enn eckert, Ps. 39. Í mér hafid þér frid, en í heiminum hafid þér ángist, verid ótraudir! eg hefi heiminn yfirunnid, segir Frelsarinn, Jóh. 16. Hvad kunna oss menninir ad gjöra? offsækja oss, féfletta, hallmæla, brixla og vanvirda; eg vil þad allt þúsundsinnum heldur lída, enn ad vita mér í minsta máta von hans óblídu, því ad flýa undan mannsins valdi undir Guds reidi, þad er ad hlaupa undan snæ-ljósinu til ad verda fyrir reidarslaginu; hversu miklu betra er, já, miklu glediligra alla hluti ad þola fyrir Christí nafns sakir, eptir þeirri mælíngu sem hann veit ad sérhver einn borid gétur, og oss mun þarfligast, já, dýrdarsamligast og fagnadarsælast verda, þá vér munum í hans ríki med hönum eylífum sigri hrósa; því hver sem hitt útvelur, hann má ad þessu tvennu vísu gánga, annadhvert eylífliga ad fyrirfarast med heiminum, edur ad taka svo mikla ydran fyrir þad, sem hann lét eptir heiminum á-móti Guds vilja, sem kann ad sambjóda þeirri óhamíngju er hann hugdist ad umflýa. Þad sé fjærri, ad eg selji þér mína födurleifd, sagdi Naboth vid Achab fordum, 1 Reg. 21, er hann faladi hans víngard til kaups; þad forbjódi Gud, minn Herra Jesú, ad eg selji þann himneska arf, sem þú hefir mér afrekad med þínu allra-helgasta blódi, fyrir veraldarinnar frid, hver ad er reidi og fjandskapur í-gégn Gudi. Hvad er einn vatns-dropi hjá sjáfar-hafinu? hvad er eitt sandkorn hjá allri heims-bygdinni? hvad eru mótlætíngar þessara tíma hjá þeirri dýrd, sem vid Guds börn mun opinber verda? Róm. 8; hvad er hin létta byrdi þessarar stundligu armædu hjá eylífri þýngd dýrdarinnar? Gud gæfi menn vildu hér um þeinkja, þá mundi þeim sídur ofbjóda allt yfirlæti og skarkali veraldarinnar sona, hverjir ad eru ein gufa, er sést um stundar-sakir, segir Jakob, kap. 4, og hverfur sídan; en sá einn er stadfastur sem varpar allri sinni áhyggju uppá hann, sem altíd er hinn sami, og hvers ár ad þrotna ecki, Ps. 102; þar-fyrir vil eg segja med Postulanum: eg em vel til frids í veikleikanum, í forsmáninni, í naudunum, í ofsóknunum, í ángistinni fyrir Christum, því þá eg em veikur, þá em eg máttugur. Þetta sinni og hjartalag virzt þú ó, Gud! ad veita öllum þínum börnum sem á þig vona, og berjast undir merkjum þíns Sonar í útlegd þessari, þar til þú innleidir oss í eylífa himnaríkis vist til ad medtaka þín nádar-fyrirheit med öllum Guds börnum. Veit oss þad og géf himneski Fadir, fyrir árnan og forþénustu þíns eingétins Sonar Jesú Christí, amen!

# Á Hvítasunnu-Hátíd.

Gudspjallid, Jóh. 14 Kap.

Og Jesús sagdi til sinna lærisveina: hvør hann elskar mig, sá mun vardveita mín ord, og Fadir minn mun elska hann, og til hans munum vid koma og hjá hønum vistar-veru gjøra. En hvør hann elskar mig eigi, sá vardveitir ecki mín ord, og þad ordid, sem þér heyrdud, er ecki mitt, heldur Fødursins, þess sem mig sendi. Þetta taladi eg fyrir ydur, á-medan eg var hjá ydur. En huggarinn, sem er hinn heilagi Andi, þann er minn Fadir mun senda ydur í mínu nafni, hann sjálfur mun kénna ydur alla hluti, og minna ydur á allt þad, sem eg sagdi ydur. Minn frid læt eg hjá ydur, minn frid géf eg ydur, eigi svo sem heimurinn gefur, þá géf eg ydur. Ydvart hjarta hryggist ei né skélfist. Þér heyrdud þad eg sagda ydur: eg fer burt og kém aptur til ydar; ef þér elskudud mig, þá gleddust þér vid þad, ad eg sagda ydur, ad eg fer til Fødursins, þvíad Fadirinn er mér meiri. Og nú sagdi eg ydur þad, ádur fyrri enn þad skédur, svo ad þér trydud því, þá ed þad værí skéd. Hédan í frá mun eg ecki tala margt vid ydur; þvíad þessa heims høfdíngi kémur, og med mig hefir hann eckert. Heldur svo ad heimurinn þecki þad eg elska Fødurinn, og þad eg gjøri svo sem Fadirinn hefir mér bodid.

## Exordium.

Í Exódi-bókar 25 kap. talar Drottinn þannig um sína vist medal Israels sona: þeir skulu gjøra mér einn helgidóm, og eg skal búa á-medal þeirra. O, minn Gud! hvílíkir eru þessir þínir velgjørníngar? Þad mætti nóg þykja ad øll náttúran ber vitni um Guds ó-útsegjanliga gjæsku, ad himnarnir framtelja hans dýrd, og ad festíngin kunngjørir hans vegsemd, Ps. 19, svo ad menn kynnu ad leita ad hønum af hans sképnum, og ad hann hefir ecki látid sig vera án síns vitnisburdar, þar hann veitir oss góda hluti, géfandi oss regn af himni ofan, og hagkvæma tíma til ad bera ávøxt, uppfyllandi hjørtu vor med fædslu og føgnudi sem Páll segir, Act. 14; nóg mætti allt þetta þykja, segi eg, þótt ecki hefdi hin ógrípanliga Hátign sett bólfestu sína medal syndugra jardar-madka, sem eru dupt og aska. Nú þykir oss þessi vegsemd Israels sona forkunnar-væn og veglig, br. m. svo sem hún og í raun og sannleika er; en vér høfum þó í Christó øllu meira þegid, því dýrd hins sídara musterisins, sem er hans kristni hér á jørdunni, hún er vordin miklu meiri enn hins fyrra, svo sem Drottinn spádi fyrir munn síns þénara Haggæi, kap. 2; edur hver hlutur má þar vid jafnast, ad ordid vard hold og bygdi med oss? Jóh. 1; ad í einum Adams Syni býr øll fylling Guddómsins líkhamliga? Col. 2; ad Guds eingétinn Sonur er hluttakandi vordinn holds og blóds, eins og smá-børnin? Ebr. 2. En þótt ad þetta sé upphaf og grundvøllur heilsugjafarinnar, þá mundi oss ecki ad fullu stoda holdtekja Drottins, nema hans fødurlig gjæska hefdi gjørt enn framar vid oss, og efnt þad, er hann lofadi hjá Zach. kap. 6, segjandi: sjá einn mann, hvers heiti ad er grænn kvistur, hann mun blómgast í sínum stad og uppbyggja Drottni eitt

musteri, 1 Cor. 3; þad er Guds kyrkja í mannanna hjørtum, í hverjum Kristur býr fyrir trúna, Eph. 3, og hann er þar sjálfur kénnimadur í sínu básæti og ród fridarins á=milli beggja, Zach. 6. Nú þótt ad þessi návist Guds sé øllum mønnum frambodin, þá nádi þad Drottinn, ad svo fáir verda hennar hluttakandi; en hvad veldur því, nema ad menn leggja ei mjøg kapp þar á ad innbjóda þessum gésti? vér høfum hans óvini inni hjá oss, med hverjum hann vill ecki samsæti eiga, þeim vilja menn ecki úthýsa, og því missa þeir hans nálægdar og velgjørnínga, er svo lyndir eru; en svo ad allir þeir ed leggja nockurn hug á þetta, megi vita med hverjum kostum hønum megi innbjóda, þá hefir Jesús þad sagt med berum ordum í upplesnu gudspjalli, þar hann segir: hver hann elskar mig, sá mun vardveita mín ord, og Fadir minn mun elska hann, og til hans munum vid koma, og hjá hønum vistarveru gjøra. Þessi dýrmætu ord vil eg nockud framar yfirvega fyrir ydrum kjærleika, og af þeim framtelja þá helstu hluti, er eiga ad locka hjørtu vor til ad elska Gud, hinn upparsta góda, fram yfir allt annad. Hann virdist ad kveikja í oss sína elsku, svo vér þetta eyrindi svo framkvæmt gétum, ad hønum sjálfum líki, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Tvær eru veraldir br. m., ønnur sýnilig, í hverri vér lifum, ønnur er þar uppi, hvadan vér væntum Frelsarans Jesú Christí, um hverja St. Petur talar, ad í henni muni réttlætid byggja, 2 Pet. 3. Hina sjáum vér med líkhamligum augum, þessa med trúarinnar, því trúin er vera þeirra hluta, sem koma munu, Hebr. 11, og hún sýnir þad sem ecki er sýniligt. Hvert sem vér nú heldur rennum sálarinnar edur líkhamans augum, og lítum í kríng oss med athygli nockurri og gaumgjæfni þeirra hluta, er fyrir oss bera, þá gétur kristinn madur ecki hjá því sneidt, ad elska Gud allra hluta skapara fram yfir alla hluti. Lít, kristinn madur! á hinn fagra skapnad heimis þessa, hversu kostuligur hann er, hann hafa heidnir menn á látínu kallad mundum, fyrir hans fegurdar sakir, og Grickir í sama máta cosmon, søkum hans prýdi. Athuga hin føgru himinsins ljós, hversu þeim er vísliga nidurskipad, þau hafa sinn afmarkadan gáng allt frá veraldarinnar upphafi, allt til þessa dags, svo aldrei hefir enn=nú þrotid nótt né dag, vetur né sumar, hita edur kulda í hagkvæman tíma, Gén. 8; vird fyrir þér náttúru dýranna, fuglanna, fiskanna, grasanna, hver svo eru prýdilig, ad Salómon í allri sinni dýrd var eigi svo skrýddur sem eitt af þeim, Lúk. 12; en segid mér, fyrir hvern hefir Gud allt þetta skapad? segir ecki Davíd, Ps. 8: þú hefir sett hann (manninn meinar hann) yfir þín handaverk, og lagt alla hluti undir hans fætur; sagdi ei Drottinn Gud í upphafi skøpunar: drottnid yfir fuglum loptsins og fiskum sjáfarins, Gén. 1; ítrekadi hann ecki hid sama eptir flódid vid Nóa og hans eptirkomendur? Gén. 9; sagdi ei St. Páll, ad hann hefdi af einu blódi gjørt allt mannkyn? Act. 17, ad þad bygdi alla jardar=kringluna, og hann hafi afmarkad tímana med sínu blódi og sett endimørk bygdum manna? Seig mér, kristinn madur, hvern skyldir þú heldur elska enn þann, er svo vel hefir til þín gjørt út af einskjærri gjæsku sinni, en eingri þinni forþénan? Þykir þér nú nockud inndælt edur elskuverdt á þessum Guds sképnum, sem hann hefir lagt undir þínar fætur, til nota og eptirlætis, þá gleym ecki ad elska hann þó um fram alla hluti, sem þetta hefir þér géfid, þad heitir ad fara aptan ad sidunum, ad þacka þénaranum, sem færir þad sem húsbóndinn géfur, edur ad virda ambáttina meir enn

drottníngunna; en stærri óréttur er Gudi gjør í því, ad elska hans sképnur fyrir þad góda, sem hann hefir sæmt þær med, fram yfir hann, sem er brunnur og uppspretta alls hins góda. Lát því sjá, kristinn madur, ad þú temjir þér lunderni St. Páls, er hann sagdi, Phil. 3: ad sønnu reikna eg alla hluti skada ad vera fyrir yfirburdi þeckíngarinnar Jesú Christí míns Drottins, vegna hvers eg hefi alls á=mis farid, og reikna þreck ad vera, svo eg ávinni Christum. Þegar þú hefir nú þannig hinn meira heim ígégnum skodad, og þú sér eckert í hønum þad er ei dragi þig jafnvel naudugan, til ad elska hinn góda Gud fram yfir alla hluti, þá skoda og hinn minni, sem er madurinn, þad ert sjálfur þú, hann er og med tvennu móti andligur og líkhamligur. Lít fyrst til þess líkhamliga; hver hefir mindad þig í módur=lífi? hver hléypti þér þar saman eins og ødrum osti? Job. 10; þad gjørdir ecki sjálfur þú, ecki foreldrar þínir; þínar hendur hafa gjørt mig og tilbúid mig, segir Davíd, Ps. 119; hver hefir leidt þig út þadan svo dásamliga í ljós þessa heims? hver hefir géfid þér heilbrigda sál í heilbrigdum líkama? álít hversu þinn skapnadur er vegsamligri enn allra annara dýra á jørdunni, hver só ecki hafa Gud á neinn veg styggdan, en þú reitir hann til reidi dagliga. Þóknist þér nú nockud á sjálfum þér, og þyki þad vænt og vegligt sem Gud hefir til þín lagt, svo sem þad og er í allan máta, þá lát hann þó fyrir gánga, er gjørdi þig svo vegligan, og gjørdi drottnara allra hluta undir himninum, med sinni eigin mind í fyrstu skøpun. Athuga hvad hann hefir þér meira gjørt; hann hefir ecki slept þér forstødulausum inn í verøldina; í hønum lifir þú, ert þú og hrærist þú, Act. 17; hann hefir géfid þér alla hluti ánægjanliga til notkunar, Act. 14; hann lætur sína h. eingla, Ps. 91, þá himnesku anda þjóna þér og vardveita frá øllu vondu, øllum slisum, allri ógjæfu, jafnvel midt í syndinni, hverja þú gétur ecki vid þig skilid allt svo lengi ad þú ert í holdinu; eru þeir ecki allir þjónustusamir andar, segir Postulinn til Hebr. 1, útsendir þeim til þjónustu er sáluhjálpina erfa skulu? já, Andskotinn sjálfur sagdi eptir Davíds munni vid vorn Frelsara, Matth. 4, þad sem satt var, og þó í illri meiníngu; skrifad er, sagdi hann, ad hann muni bjóda einglum sínum um þig, ad þeir beri þig á høndum sér, ad ecki steytir þú fót þinn vid steini. Seig mér, hver þinna vina edur vandamanna lekur svo vara á þér? hverjum er svo mjøg um þig hugad? skyldir þú ecki hata fødur og módur, syni og dætur fyrir hans skuld, Lúk. 14, ad þú mættir verda hans verdugur? Elska því ecki jafnvel þitt líf allt í daudan hans vegna, sem þér hefir líf og líkhama géfid, og vert minnugur þess er Kristur segir, Matth. 10: sá sem finnur sína sálu, hann mun tapa henni, og sá sem tapar sálu sinni minna vegna, hann mun finna hana. Eg vil ei margt tala um sálina, sem er hinn ædri partur vors skapnadar; minnst á kristinn madur, hvadan þú ert, líkhaminn er ad sønnu af leir jardar, en sálin af Gudi, (med hverju móti, veit hann best sjálfur) og mest fyrir þá skuld segir Lúkas 3 kap., ad Adam hafi Guds sonur verid, því sjálfur Gud blés lifandi anda í mannsins nasir, Gén. 2. Ef vér erum nú skyldugir ad elska fødur og módur, af því þau hafa oss gétid og fædt heim þenna, hvad miklu framar er þad skyldugt, ad vér leggjum alla ást á hann, af

hvers dýrdar-ljóma vér og vor andi í fyrstunni kveiktur er? Vel talar St. Páll hér um, Act. 17, segjandi: nú, þar vér erum Guds afsprengi, þá byrjar ad vér ei þeinkjum, ad Gud líkur sé gulli og silfri edur steinum, né vel smídadri líknesskju edur manna þaunkum. En svo sem þad er óvidurkvæmiligt, sem Postulinn hér um talar, svo er þad og afgudadýrkan stór og merkilig gudløstun, ad elska nockud af þessu jafnframt hønum, og má þad øllum heilvita mønnum sjálfsagt vera, hvílíkur glæpur þad sé ad ljá svo gøfugan hlut sem sálin er til þrælkunar syndinni, edur veraldarinnar munum, hver ed mun fyrirfarast med øllu því sem í henni er; þar-fyrir áminnir Jóhannes næsta heilnæmliga, segjandi: elskid ecki heiminn, né þad sem í heiminum er; ef nockur heiminn elskar, þá er ecki kjærleiki Fødursins í hønum, 1 Jóh. 2; en Gud, af hverjum sála vor innblásin er, hann blífur og hans ár þrotna ecki, Ebr. 1. Athuga hin skynlausu dýrin, þótt þau séu dásamliga skøpud, þá hafa þau ecki skyn á þeim hlutum, er fyrir þau bera, ei rannsaka þau sitt edli, ecki er framsýni hjá þeim mikil, eingin hæverska, sidsemi, adgreining góds edur ills, og allra-síst þecking Skaparans; skyldir þú nú ecki syndugur madur! elska hann fram yfir allar skepnur, er svo mikid meira hefir lagt til þín heldur enn annara skepna, sem ad sólin er saurnum bjartari, þar madurinn er eitt dýr fullt af rádi og skilníngi, hann kann grein á illu og gódu, hann getur útvalid hvert hann vill, hann veit hvad sómir edur ei, hann einn kann ad læra ad þeckja vilja síns Herra, hann hefir uppfundid allan hagleik, allar kunstir og listir í heiminum, hann hefir útreiknad himinsins hlaup, og veit tíma og stundir fyrirfram, hann skygnist inn í leyndadóma náttúrunnar, svo ad Guds óútsegjanlig vitska, sem náttúruna hefir skapad, útbrýtur sig í skynsemi mannsins um allt náttúrunnar ríki, eptir þeim máta, sem hún fær viddekid í þessum daudliga líkhama, en þó er þad fyrir øllu, ad hún þeckir Gud sinn skapara, og á þann kost ad trúa á hann sér til miskunar og sáluhjálpar, í hverju ad er innifalin endurskøpun hins innra edur andliga mannsins. Þeink til þess, kristinn madur, ad þú fæddist í þenna heim reidinnar barn, og daudur í syndunum, Eph. 2; því hvad sem af holdi er fædt, þad er hold, Jóh. 3, en hold og blód erfa ecki Guds ríki, 1 Cor. 15; en Gud hefir af óumrædiligri elsku til þín, endurgétid þig til einnar lifandi vonar, 1 Pet. 1, og sett þig í síns Sonar ríki, Col. 1, svo þú megir Guds barn kalladur verda og samarfi Jesú Christí, og til þessa hefir hann ecki varid gulli né silfri, heldur síns eingétins Sonar dýrmætu blódi, því svo segir Páll, Act. 20: ad Gud hafi med sínu eigin blódi hjørdina endurleyst, og þetta gjørdi hann þegar þú enn varst hans óvinur, Róm. 5. Madurinn mátti segjast án Guds í heiminum eptir fallid, svo sem Páll um heidíngjana talar, Eph. 2, ádur enn Gud tók Adam í sátt aptur, allt hans hyggi mátti kvída vid ad deya, en skammast sín ad lífa; en hans óútsegjanligu gjæsku, og hinum djúpu miskunar idrum, í hverjum hann vitjadi vor upprunninn af hædum, Lúc. 2, þeim er ad þacka, ad vér høfum frían tilgáng til ná-stóls Miskunarinnar, Act. 5, og skømmumst vor ecki, því hann skammast sín ecki ad kalla oss sína brædur, Ebr. 2; vér kvídum ecki vid daudanum, því hvert sem vér lifum eda deyum þá erum vér Drottins, Róm. 14, og þótt vér deyum

em á hans nafn trúum, þá skulum vér samt lifa; svo vér erum þess fullvruggir, 
ð hverki dauði né líf, hverki einglar né høfdíngja-stétt, né veldi, hverki hæd né 
ýpt eda nockur önnur skøpud skepna fær oss skilid vid þann kjærleika sem er í Christó 
Jesú Drottni vorum, Róm. 8. Hvad sýnist ydur, br. m., skyldum vér ei bjóda 
onum allar ástir, er vér høfum svo óteljandi velgjørdir þegid af? hann ed fyrir-
éfur oss dagliga svo margar syndir, hann ed ecki vill gleyma oss, þótt ad módir-
n gleymi sínu einasta barni, Esa. 49, hvers hjarta ad brestur svo hann hlýtur 
ss miskunsamur ad vera, Jer. 31, þad fyrsta vér snúum oss til hans af øllu hjarta. 
Þannig breytir hann vid vorn innra mann, og svo sem hann forsorgar þann ytra 
dur líkhaman, svo lætur hann ecki heldur hinn án forsorgunar. Þad kénnir Jesús 
ss í Textanum er hann segir: hvør sem elskar mig, hann vardveitir mín ord. 
Natur er mannsins megin,' segir ordtæki gamalt; en svo sem líkhaminn ecki þríf-
st kann án fædslunnar, svo kann og ecki sálin án Guds orda, því þau eru hennar 
ódur; þar-fyrir segir Endurlausnarinn ad þau séu líf og andi, Jóh. 6. Er sá nock-
ur, er elskar einhvern ad hann hati hans mál? fjærri er því; heldur keppumst vér 
ið ad eiga sem optast tal vid þá, er vér unnum vel;' þar-fyrir, ef vér segjumst 
Gud elska, þá afrækjum ecki hans ord. Menn halda ad sá líkhami sé ecki heilbrigd-
ur, sem velgir vid matnum, og hverjum hann verdur ecki til notkunar; dylst og ecki 
ar vid kristinn madur, ad þín sála er ecki heilbrigd, og ecki elskar þú Gud, svo sem 
yrjar, ef þú hefir leida á hans ordi, og þykja þeir tímar lengstir, er þú átt ad hlýda 
ví; en hvad segir Páll hér um? 1 Cor. 16: bølvadur veri sá, sem ecki elskar Drott-
nn vorn Jesúm Christum, þad er, hann mun eylífliga fyrirfarast; og ecki einasta er 
ad merki þeirra, er Gud elska, ad þeir vardveita hans ord, heldur er þad ávøxtur 
ans elsku; en hvad er ad vardveita hans ord? þad er ad gjøra eptir þeim, ef ecki ad 
llu, því þad er syndugum manni ómøguligt, samt eigum vér ad leggja allt kapp 
ar á, en elskan til Guds er ecki idjulaus, hún orkar því, ad Guds bodord verda ecki 
ung svo sem Jóhannes segir, 1 Pist. 5, svo ad hver sem Gud elskar, hann hefir 
na lysting í løgmáli Drottins og talar um hans vegu daga og nætur, Ps. 1; verd-
ur svo idkanin ad náttúru fyrir þeim sama manni, og hann um sídir einn andi med 
Gudi, 1 Cor. 6, endurnýadur eptir mind þess er hann skapad hefir, Col. 3; en því 
eldur elskan til Guds, ad oss þykir fæda þessi sætari enn hunáng og hunángs-seim-
r, Ps. 19, sem von er til, þar vér finnum í því krapt eptirkomandi aldar, Hebr. 
, nær vér tinum þá molana er detta af því himneska bordi, med trúarinnar munni; 
ví skyldum vér þá ecki um alla hluti fram stunda elskuna til Guds, er svo margt 
ott med sér færir.

Eg vil ei tala um þad, er hér stendur í Gudspjallinu: og Fadir minn mun 
lska hann. Einginn kann ad segja þad, hvad gott þad sé ad vera elskadur af 
Gudi, nema hann, sem Gud elskar; því ef nockur elskar Gud, hann er fæddur af 
onum, segir Páll, 1 Cor. 8; og þegar rétt-trúud manneskja hefir sína unadsemd í 
Drottni og gledur sig í hans elsku meir enn í nockru gestabodi, þá finnur hún hversu

gott er ad vera af Gudi elskadur, þvíad vor elska á Gudi, er ávøxtur hans elsku til vor, þær kunna ecki ad skilja heldur en sólin og birtan, þad vottar sá lærisveinn sem Jesús elskadi, 1 Eph. 4: vér elskum hann þess vegna, ad hann elskadi oss fyrri. Hver sem þenkir med sér, hversu vís, hve máttugur, hve gjæskufullur, hvad óbrigdull, hversu trúr ad Gud er, hann mun segja ad Abraham hafi gódur hlutur í skaut fallid, þegar hann var Guds vinur kalladur, Jak. 2; en ecki átti Abraham, ecki Lazarus, Jóh. 11, ecki postular Christi, Jóh. 15, alleina þetta nafn, heldur allir Abrahams synir eptir andanum, Róm. 4, þad eru allir rétt-trúadir sem elska Gud, þeir eru eins vel til þess bornir, þeim tilheyrir um aldur og æfi þad fyrirheit er Gud gaf Abraham, Gén. 17, ad hann vildi vera hans Gud og hans sædis eptir hann; þann vantar fátt sem konúngurinn elskar, hann getur sæmt hann med tign og heidri, hann getur veitt honum fullsælu fjár, hann getur látid hann lifa ad munudum sínum, eptir því sem hann er lyndur til, en þó getur hann ecki gjørt hann fullsælann, ei megnar hann ad fá honum altid heilsuna aptur ef hún missist, ei getur hann gefid honum samvitskunnar frid, og allra-sízt má hann honum himnaríkid veita; en hvad vill hann vanta sem Gud hefir til vinar, hann rædur einn fyrir øllu þessu. Eg veit menn segja, ad Guds vinir séu optliga vesælir, sjúkir, sárir, ofsóktir, undirþryktir, og á alla vegu adþreyngdir; en þad er eckert stórmerki fyrir Gud, ad hann láti vini sína una vel hag sínum, nær þeim ad óskum gengur eins og Abraham, Isak, Jakob, Davíd, Salómon og adrir fleiri, en þegar hann lætur postulana gánga glada út frá rádinu, nær þeir húdstrýktir vóru, Act. 5; þá Daníel sýngur Gudi lof í leona-grøfinni, Dan. 7; þá Páll og Sýlas eru kátir í myrkva-stofunni, Act. 16; þá sjá menn hversu gódur hann er, hversu hans elska vinnur alla hluti, hvílíkur sá fridurinn er sem veröldin má ei gefa, og hvad máttugur hans kraptur er í breiskleikanum. Gud nádi oss aumra synduga menn! hvad vinnum vær ecki fyrir hégóman í veröldinni, sem oss lystir til? hvad sparar hinn stórláti fyrir metord? hinn ágjarni fyrir aud? hinn heiptræki fyrir tøpun óvina sinna? og sinn er vid hverja heimskuna bundinn, og þegar menn eru svo med miklu erfidi komnir til annars meira, þá geta þeir þó ecki sagt: et og dreck sála mín, Lúk. 11; og dýrid á mørkinni sem hefir sitt fóstur, er sællra enn þeir, því þad ber ei áhyggju fyrir morgun-deginum; en ad ná Guds vináttu, hirda svo fáir um, jafnvel þótt þá sé allt fengid, þá hún er fengin, því hann elurønn fyrir sínum og veit hvers ad þeir vidþurfa. Allt þetta færir Guds elska med sér; en uppá þad ad Frelsarinn láti oss vita, hversu heitt hann elskar þá ed hann elska og vardveita hans ord, þá segir hann hér: og til hans munum vid koma og vistarveru hjá honum gjøra. Er ei svo, br. m. ad vér heimsækjum þá gjarna er vér kjæra høfum? eptir þessum mannliga plagsid talar Kristur, hann þarf ecki ad ferdast lánga vegu til ad heimsækja oss, því hann er Gud, hann er allstadar, hann er ecki lángt frá sérhverjum einum af oss; en Frelsarinn kallar hér ad koma til vor, þegar hann kémur med sinni verkan og ástgjøfum í hjartad; hann hafdi skømmu ádur sagt í þessum kapitula: og mun bidja minn Fødur ad hann sendi ydur anda sann-

leiksins, sá eð blífi hjá ydur að eylífu, Jóh. 14; en hér segist hann ásamt Födurnum vilja sjálfur koma, svo sem von er til, því hvar Fadir og Sonur er, af hverjum Andinn framgengur, þar er og sjálfur Andinn. Kristur segist vilja sýna sig þeim eð sig elska, en hann sýnir sig ecki nema fyrir h. Anda, því hann er það, er vitnar um hann og leidir oss í allan sannleika. Þegar þú nú, kristinn madur, situr undir heyrn Guds orda, og þú fellst á það sem þar er af Guds álfu talað; þegar þú ydrast þinna synda sem þér verda þar-fyrir augun leiddar, þegar þú trúir þó, að hvar sem syndin yfirgnæfir, þá muni nádin yfirgnæfa miklu framar, Róm. 5; þegar þú fær leida á syndinni og kappkostar að lifa nýum lifnadi; þegar þú í mannraununum fær huggun nockra af þeirri sælu-von, sem þeim er heitin, er bera krossinn eptir Christó; þegar þú hrærist til medaumkunar yfir hinum volada, og til vandlætíngar móti hinum ógudliga, nær þitt hjarta brennur í þér, Lúk. 24, er hann talar við þig í sínu ordi, og þú við hann í þínum bænum, þegar þú úteys þínu hjarta fyrir hönum, og hann eys þar inn aptur hugsvölun síns Anda; og í einu ordi að segja, þegar þú finnur í hjarta þínu elskuna til Guds og náúngans, sem aldrei kunna að skilja, þegar þú allt þetta finnur, þá mátt þú fullviss um það vera, að öll heilög Guddómsins þrenníng er að vistum með þér, og þú kant ecki að fara á mis við það, að þú sért Guds barn, Róm. 8. Ecki einasta segist Endurlausnarinn ásamt sínum Födur vilja koma til vor, heldur vistarveru hjá oss gjöra; ó, hvílíkt er þetta! br. m. Hvadan kémur mér það að módir Drottins míns kémur til mín? sagdi Elizabeth fordum vid Maríam, Lúk. 1; en meir er það að sjálfur Drottinn drottnanna vill til vor koma; ecki svo sem hann kom í holdið með þræls-mind, heldur með sínum Guddóms krapti í vor hjörtu; en það er enn þá mest að hann vill vistarveru hjá oss gjöra. Þegar vorir vinir heimsækja oss, þá tefja þeir sjaldan lengi, og þess kjærari sem þeir eru oss, þess meira ángur láta þeir oss eptir að skilnadi, en Kristur hefir lofað, að hann vilji ecki láta oss eptir eina, heldur vera hjá oss allt til veraldarinnar enda, Matth. 28; ef vér yfirgéfum hann ecki, þá mun hann oss aldrei yfirgéfa, nema vér slöckvum andann, 1 Tess. 5, þá mun hans ljós í oss æfinliga brenna, og vér í vorum anda glóandi verda. Vorir vinir gjöra oss kostnað, þá þeir vitja vor, jafnvel þótt það telji eínginn eptir þeim sem hann elskar; en hinn almáttugi og alleina ríki Konúngur dýrdarinnar er ecki kostnadarsamur þar sem hann er að heimbodi; hann færir alls nægtir með sér, því allt silfur og gull er hans, og öll dýrin á mörkinni, Ps. 50; ecki vill hann neinum tilsegja ef hann húngrar, en ef hann lætur sína elskendur vanta þetta svo sem hann opt gjörir, þá géfur hann þeim í stadinn allsnægta það sinni er lætur sér sína luckú nægja, hvað St. Páll kallar ávinníng gudhrædslunnar, Tím. 6, og þau þiggja eins vel af hönum einn bita brauds, svo sem full hús audæfa. Þegar Kristur umgékst hér á jördunni, kom hann aldrei svo í nockurs rétt-trúads manns hús, að hann ei kjæmi með blessan; hann var enn ecki í heiminn borinn, þá hann kom í hús Zacharíæ og Elizabethar, og þau ásamt barninu í módurkvidi fyltust af heilögum Anda, Lúk. 1; hann kom í hús Peturs, og færdi módur hans heilsu sína, Matth. 8; hann kom í Kapernaum, og gaf hinum

limafallssjúka sínar syndir kvittar, svo hann spratt upp og gék, Matth. 9; hann kom í Jairí hús, og færdi hans dóttur lífid aptur; hann kom í landsálfur Tyrí og Sidónis, og rak Djøfulinn út af dóttur hinnar kananisku, Matth. 15; hann kom í hús Zachæi, og gaf því húsi velferd á þeim sama degi, Lúk. 19; svo þad má satt um hann játa sem Petur sagdi, ad hann hafi gengid um-kríng, gjørt gott og grædt alla sem undirþryktir voru af Djøflinum, Act. 10. En ef hann þvílíkt gjørdi þegar hann bar vorar syndir og erfidadi í þeim, Esa. 43; hvad miklu stærri hluti mun hann nú gjøra, þar hann sitar til Kraptarins hægri handar, og er þó ad vistum med oss ásamt Fødur sínum og h. Anda? hér um má eg segja eins og Páll, Róm. 5: ef vér erum sættir vid Gud þegar vér vórum hans óvinir, fyrir dauda hans Sonar, þá munum vér enn framar nú í sátt komnir hólpnir verda fyrir hans líf. Gud blessadi ObedEdom, medan ørk Drottins var í hans húsi, 2 Sam. 6; hér er ørk sáttmálans á-millum Guds og manna, Jesús Christus, sem er nádarstóll fyrir hans blód, Róm. 3. Hvada blessan mun hønum ecki fylgja? mig skal þad ecki undra þótt ad Guds børnum, í hverjum hann byggir, þyki lítid koma til ysirlætis veraldarinnar, þar hann sem býr í himninum, hverjum ad þjóna þúsund og tíusinnum hundrad þúsund h. eingla, hann hefir búid sér vist í þeirra hjarta hér á jørdunni sem hann elska og hans ord vardveita. Þessi er sú ønnur verøld, er eg í upphafi taladi um, hver ed uppbyrjast hér í nádinni, en fullkomnast sídar í dýrdinni, þá Gud verdur allt í øllu, um hverja Esajas spámadur kap. 64, og Páll postuli samsaga verda, 1 Cor. 2, ad þad hafi ecki auga séd og ecki eyra heyrt, og ei hafi þad í nockurs manns hug edur hjarta komid, hvad Gud hafi þeim fyrirbúid er hann elska. Hana ad byggja, hennar njótandi ad verda, og í henni eylíft lof ad sýngja vorum Gudi, sem oss hefir sigurinn géfid, unni oss sjálfur hann fyrir Son sinn Jesúm, amen!

# Annann Dag Hvítasunnu.

Gudspjallid, Joh. 3 Kap.

Jesús sagdi til Nikodemum: Svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf út sinn eingétinn Son, til þess ad allir þeir sem á hann trua, fyrifaristi ecki, heldur ad þeir hafi eylíft líf. Því eigi sendi Gud Son sinn í heiminn, ad hann fyrirdæmdi heiminn, heldur ad heimurinn frelsist fyrir hann. Hvør á hann trúir, fyrirdæmist eigi; en hvør hann trúir eigi, hann er nú þegar dæmdur, því hann trúir ecki á nafn eingétins Sonar Guds. En þessi er dómurinn, ad ljósid kom í heiminn, og menninir elskudu meir myrkrid en ljósid því ad þeirra verk voru vond. Hvør sem illa gjørir, hann hatar ljósid, hann kémur og eigi til ljossins, ad eigi straffist hans verk. En hvør sem sannleikan gjørir, hann kémur til ljossins, svo hans gjørdir verdi kunnar, því þær eru í Gudi gjørdar.

# Exordíum.

Trúudum er allt moguligt, segir Ritníngin, Marc. 9. Pad hefir kristindómurinn fram yfir adra speki, ad hann verkar alla hluti med Guds krapti. Sýnast mætti ad Abraham, fadir trúadra, hafi verid nockud holdliga sinnadur, þegar hann sagdi vid Gud, er hann hét honum síni gjæsku: hvad villt þú géfa mér? eg em barnlaus, Gén. 15; þvíad í pad sinn hefir Guds vinur ecki litid nema eptir tímanligri farsæld, en Gud gjordi betur vid hann, því hann þekti hans hjarta, og gaf honum ecki einasta einn son vid einni aldradri kvinnu, Gén. 21, heldur og þar ad auki einn Son af hans lendum, í hverjum ad blessadar eru allar þjódir, Gén. 22; þad er Jesús Christus, Matth. 1, Gud blessadur um aldir, en þó fæddur af fedrunum eptir holdinu, Róm. 9; sá sem hann á, hann er aldrei barnlaus, aldrei arflaus, aldrei hjálparlaus, því hann á þann, hver ad er Drottinn, sem er máttugur til ad hjálpa, hverjum Gud hefir géfid endimork veraldarinnar til arfleifdar, Ps. 2; þad barn, sem oss er fædt og þann Son, sem oss er géfinn, á hvers herdum ad er hofdíngja dómurinn, hvers nafn hann kallar, undarligur, rád, hetja, sterkur, fadir eylífdarinnar, fridar-hofdíngi, Esa. 9, þenna sinn eingétinn Son, segir sjálfur Sonurinn, ad Fadirinn hafi útgéfid fyrir heiminn í þessa dags Evangelió, til þess ad allir þeir, sem á hann trúa, skuli ei fyrirfarast, heldur hafa eylíft líf; af hverjum dýrmætu ordum eg vil tvent hugleida: 1) hvorsu veglig ad sé þessi gáfa; 2) hvar til hún gagni oss. Þú gódi Gud, sem oss hefir hann sjálfur óverdugum géfid, styrk oss med nád þíns Anda, ad vér mættum þetta dýrmæta eyrindi svo framkvæma ad þér líki, fyrir Jesú Christi forþénustu, amen!

## Utleggíngin.

Menn plaga ecki alleina ad virda eina gáfu af því, hversu dýrmæt hún er í sjálfri sér, heldur og hinu, af hverjum hún er géfin, og med hverju gédi ad hún er útilátin; eg virdi meir þann steink, sem géfinn er af konúnginum, heldur enn af mínum líka, og sá er mér hvad kjærastur, er eg þigg af fodur mínum edur vin þeim, sem er eins og sjálfur eg. Nú heyrum vér í Textanum, ad þessi ástgjof sé frá Gudi komin; eckert kann þvílíkt ad segjast edur nefnast; svo miklu ædri sem Gud er ollum sínum sképnum, svo miklu er þessi steinkur dýrdligri ollu því er adrir géfa, eigi sízt fyrir hans skuld, sem géfid hefir. Landstjórnarinn í Ephesó, er hann vildi stilla til frids borgar-múginn, sem Demetríus hafdi uppæst á-móti þeim St. Páli, Act. 19, hann fann eckert gyldara til ad sefa þá med enn þad, ad hann sagdi, ad bílæti hinar miklu Díanæ í Ephesó væri af himnum ofanfallid; svo var nú Andskotinn kroptugur í bornum vantrúarinnar, ad heidíngjar skipudust alleina vid þad, sem ádur vóru svo ólmir ad ærslum gégndi, af því þeim þótti þad sómi svo mikill, ad þeirra fulltrúi skyldi frá himnum kominn vera. Ættum vér þá ecki, kristnir menn, ad leggja hina mestu virdíngu, ást og elsku á þad, sem vér vitum komid vera frá hinum sanna Gudi, hver ed ollu stjórnar bædi á himni og jordu, og jafnvel þad, sem vér kollum hans minstu gáfur, sem þó eingar litlar eru, auk-heldur þad, ad hann hefir géfid oss sinn Son. Jakob segir, ad oll góð gjof og oll fullkomin gjof komi ad ofan frá Fodurnum ljósanna, Jak. 1. En af hverju gédi ad Fadir ljósanna hafi oss géfid þessa gjof, sem er ollum meiri, þad segir hann oss sjálfur í Gudspjallinu med þessum ordum: svo elskadi Gud heiminn. Lángt

vórum vér frá því syndugir ormar, útlægir frá Gudi og hans helgidómi, ad þad væri nockurt hjá oss nema eymdin ein, er mætti hræra Gud til medaumkunar, ank-heldur hann kynni ad elska oss fyrir nockra vora verdskuldan edur ágjæti. Mann-esskjan var svo á sig komin eptir synda-fallid, ad Ritníngin talar þar svo um eptir mannligum plagsid, Gén. 6: Gud ydradi þess, ad hann hafdi manninn skapad; og samt elskadi hann oss þó svo, ad hann gaf oss ecki nockra almenniliga gáfu, svo sem þegar hann lætur rigna yfir vonda og góda, og sólina upprenna yfir ráng-láta og réttláta, Matth. 5, heldur sinn eingétinn Son, og þad ad fyrra bragdi, ádur enn vér høfdum vit á, edur nockra atburdi til ad elska hann. J því er kjær-leikurinn, segir Jóhannes, 1 Pist. 4 kap., ecki ad vér elskudum Gud, heldur ad hann elskadi oss og útsendi sinn Son til forlíkunar fyrir syndir vorar. Eg ætla ad vorum fyrstu foreldrum yrdi næsta rádfátt í Paradís, þegar þau høfdu Gud styggdan; mundu þau hafa nockra vidleitni ad blídka hann? mundu þau géta hitt uppá þetta guddómliga vísdóms rád, ad Gud skyldi madur verda til þess ad forlíka heiminn vid sjálfan sig? fávís vóru þau til þess, atburdirnir vóru þeir einir ad fela sig, því þau vóru nakin, Gén. 3, og ad bera skuldina af sér hvert um sig, þessi vóru úrræd-in einasta. O, hvílík dýpt audæfanna og Guds speki, Róm. 11! Snemma braust út hin guddómliga elska af hans hjarta, strax er hann hafdi lagt hinn réttvísa dóm á manninn, ad hann skyldi deya, lagdi hann þá líknarfullu bót med, ad kvinnunnar sædi skyldi í-sundur-merja høggormsins høfud, Gén. 3. Þetta sitt miskunarríka fyrir-heit hefir hann efnt í sendíngu síns eingétins Sonar híngad í vort auma hold, fædd-ann af kvinnunni, enn-þá þegar vér vórum hans óvinir, Róm. 5. Þegar vér enn þá vórum daudir í vorum syndum; þessi er hin guddómliga elska, er Drottinn prísar hér í Gudspjallinu, og þad ecki um skør fram, því Páll talar hér um, Róm. 8: ad Gud hafi ecki þirmt sínum eingétnum Syni, heldur géfid hann út fyrir oss alla; hann sparadi hann ecki til ad fædast í armód, ecki til ad verda landflótta, ecki til ad þola skammir og hádúngar af þeim, sem hann tók undan eylífri skømm og hádúng, ecki til ad lída krossins dauda fyrir þá, er hann deyddu, og ecki til ad þola helvítis píslir fyrir þá, sem høfdu gjørt samband vid daudann og sáttmála vid helvíti, Esa. 28; hann sparadi hann ecki fyrir syndina, sem Gudi alleina illa líkar, Ps. 5, heldur gjørdi þann, í hverjum hønum alleina vel þóknast, ad synd, jafnvel þótt ecki vissi hann af synd, 2 Cor. 5. Einginn elskar nockurn meir enn þad, ad hann géfur sitt líf út fyrir hann, segir Lausnarinn; en Gud elskar sinn Son eins og sitt eigid líf, þvíad hann er ljómi hans dýrdar, Hebr. 1; hann er sá sem er í hans skauti; en fyrir því, ad Gud kunni ecki einsaman ad deya, lét hann sinn Son deya í mannligu holdi, í mannligri náttúru, er hann af fedrunum hafdi, hver fyrir því ad í hønum býr øll fylling Guddómsins líkhamliga, Col. 2, þá heitir hann sá madur, sem hønum er næstur, Zach. 13; já, hans sonur, jafnvel eptir manndóminum, ecki einn sonur, er sé ættleidíngur, svo sem vér erum fyrir hans skuld, heldur Guds himneska Fødur náttúrligur Sonur fyrir íbúd Guddómsins, því Textinn segir, ad hann hafi útgéfid

sinn eingétinn Son; hvad ecki á ad skiljast eptir Guddóminum alleina, heldur og eptir manndóminum eingu sídur, þvíad í hönum hefir hann kvöl og dauda lídid, og allt þad, er hann vann til árnadar og miskunar syndugu mannkyni. Einginn vill missa sinn son; Jakob vildi ei voga sínum ýngsta syni í þá hættu, ad láta hann fara med sínum brædrum ofan til Egyptalands, þótt þeir neyddu hann þar um, Gén. 42, og þeim lægi lífid á; en Gud gaf oss sinn Son óbedinn, og ofurseldi hann í daudans kvöl fyrir oss, sem ecki vorum synir, heldur reidinnar börn, og af náttúrunni til Satans þrælar, Eph. 2. Kvinnan sú sem umgétur, 1 Reg. 3, hún vildi heldur ad sú, sem ecki var módir skyldi eignast sinn son, heldur enn lífid væri af hönum tekid, svo mjög elskadi hún sitt lífs-afkvæmi, hún vildi vinna þad til, ad óvina sín mætti hafa gledi af barninu, svo þad mætti þó lífi halda, því hennar idur tendrudust upp síns sonar vegna, segir Ritníngin. En hinn eylífi Brunnur Gjæskunnar vitjadi vor fyrir sín miskunar idur, og elskadi svo heiminn ad hann útgaf sinn eingétinn Son í daudann, uppá þad, ad allir þeir sem á hann trúa hefdu eylíft líf. Þegar Drottinn spáir um gjæsku sína, er hann vilji audsýna sínu fólki fyrir Christum og í Christó, þá tekur hann svo til orda, Malach. 3: eg skal tjá þeim miskunsemi, svo sem einn tjáir miskun sínum syni, þeim er stundar hann. Minn Herra og minn Gud! vér megum þad med kinnroda medkénna, ad þú hefir sýnt oss meiri miskun enn þínum eingétna Syni á hans dauda-degi; hann vard ecki bænheyrdur, er hann beiddi ad reidinnar kaleikur mætti frá sér takast, Matth. 26, já, ecki þótt hann beiddi, í heilar þrjár reisur; en hvörs vér bidjum þig í hans nafni, þad vilt þú veita oss, Jóh. 16; þad skal ské, (þad eru þín eigin ord) ad ádur enn vér bidjum þá vilt þú bænheyra, Esa. 65; þinn eingétinn Sonur fékk einga vægd, jafnvel þótt einginn kynni ad straffa hann um nockra synd, Jóh. 8; en vér höfum miskun ödlast sem til alls ills höfdum unnid; þinn Sonur fékk eckert ad svala sér med í hinni bitru pínu nema gall og edik, Matth. 27; látir þú oss nockud til handa bera, til þess ad líkjast hönum, látir þú oss drecka hans kaleik, Ps. 119, hér í nádinni, þá kryddar þú hann med svölun þíns h. Anda, þú dreypir á oss med sætleik eptirkomandi aldar, og leidir oss fram ad ferskum vötnum; svo miklu betri kosti höfum vér nú þrælarnir ad búa vid, enn þinn eingétinn Sonur; hver er sá af oss, ad hann ecki hafi þar, hann megi höfdi sínu ad-halla? Matth. 8; hver er svo offóktur, píndur og kvalinn sem hann var? á hverjum hefir þvílík hegníng legid? Satt er þad, ad hann er inngenginn í sína dýrd, Lúk. 24, ad öllu þessu afloknu; en vér sem ad varla drepum hinu minsta vors fíngurs í þinnar reidi-flód, Lúk. 16, sem gékk yfir höfud hönum, vér skulum og inngánga í hans dýrd, ef vér trúum á hann; og er þad mála sannast, ad vér vinnum svo lítid sem eckert til þeirrar dýrdar, sem hann hefir oss med sinni kvöl afrekad, þótt vér bærum Jobs kaun, Job. 2, og Sihesi líkþrá allt frá vöggunni til grafarinnar, hjá því sem hann þolad hefir fyrir vorar syndir; hönum sé lof, dýrd og heidur um aldir, amen! Svo hefi eg nú allt

híngad til nockud talad um ágjæti þessarar himnesku gáfu; eptirfylgir ad tala um hennar gagnsemi.

Nytsemi eins hlutar metum vér af tvennu, annadhvert ad hann gagnar oss til ad umflýa hid vonda, edur til ad ødlast hid góda; hverttvegja finnum vér í útsendíngu Guds eingétins Sonar; þad fyrra kénnir hann oss í Gudspjallinu med þessum ordum: ad allir þeir sem á hann trúa fyrirfarist ecki. Tvent hefir og Drottinn til þess gjørt, ad þeir skuli ecki fyrirfarast sem á hann trúa. Fyrst þad, ad hann hefir lidid þeim til eptirdæmis; þad annad, ad hann hefir lidid þeim til forlíkunar; um hid fyrra talar St. Petur, 1 Pist. 2, segjandi: Kristur er dáinn fyrir oss, og hefir oss eptirlátid þad dæmi, ad þér gángid í hans fótspor. Þegar hinn gamli Adam, sem býr í oss, á ad leggja út þau dýrmætu ord, sem Páll skrifar, Róm. 8, ad sá sem ecki þirmdi sínum eiginn syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla, hvar fyrir skyldi hann ecki géfins veita oss alla hluti med hønum? þá skilur hann þau um þad sem hønum líkar; hønum þykir ecki mikid koma til þess líssins braudsins, sem af himnum er ofan komid, Jóh. 6; hann vill kjøt hafa, Núm. 11, og er ecki til fridsella, þad er sælgjæti holdsins og þess munadur, hann etur sig fullann þar af, þar til þad gengur út um hans nasir og sálgar þeim, er ala hann svo kappsamliga, svo þeir drepast þúsundum saman, og verda helvítis elds-matur ad sídurstunni; en þegar Páll nefnir hér alla hluti, þá meinar hann þá, ed sálunni gagna; þad er audsært af øllum þessum sama kapitula, hvadan ordin tekin eru; hvar af vér sjáum, br. m. ad ecki er Guds Sonur oss til þess sendur, ad vér skulum láta eptir holdinu þess girndir ad rækja, Róm. 13, ef vér viljum á Guds Son trúa, svo vér fyrirførumst ecki, heldur svo sem hann er einusinni dáinn syndinni, segir Páll, Róm. 6, þad er fyrir syndina, og deyr ecki framar, svo eigum vér henni dagliga ad deya, og med hønum dagliga ad upprísa, ad vér ei framar lifum í henni; svo sem hann hefir sigrad heiminn, svo eigum vér ad forsmá heiminn, og svo sem hann hefir útsnarad Djøflinum og trodid hann undir sinna barna fætur, Róm. 16, svo eigum vér ad reka hann út úr hjarta voru, med øllu hans hyski; vér eigum ecki ad hafa eina klauf eptir á Egyptalandi, Exod. 10, heldur brenna upp þann Amalechíta med øllu hans gótzi, kviku og daudu, 1 Sam. 15, med sannri ydran og afláti syndanna, svo ei verdi Israels ríki frá oss tekid. Þad kénnir oss Páll, 1 Cor. 11: ef vér dæmdum sjálfa oss, þá yrdum vér ecki dæmdir, en þegar vér dæmumst af Drottni, þá verdum vér leidréttir, svo ad vér ecki fordæmumst med heiminum. Þannig er oss nú Kristur sendur til eptirdæmis, bædi í lifnadinum og svo í krossburdinum; hverutveggja er ómissandi til þess ad umflýa tøpunina; en forgéfins hefdi hann lidid oss til eptirdæmis, nema hann og hefdi lidid oss til forlíkunar; hvar fyrir til forlíkunar? því vér vorum missáttir vid Gud; hvers vegna? fyrir syndina; hvad hafdi syndin forþénad? eylífan eld med Djøflinum og øllum hans árum; hver hefir syndina burttekid? þad hefir Guds Sonur gjørt, er hann bar hana uppá tréd, segir Petur, 1 Petr. 2; því sagdi Jóhannes skírari, er hann leit Christum koma til sín: sjáid þad Guds Lamb, sem í burtu ber heimsins syndir,

1. Til þessa þykir heiminum lítid koma; eg trúi hann dyljist vid ad þar
ai svo heitt í Satans badstofu, sem prestarnir segja, annars mundu menn ecki bidja
og ødrum svo optliga helvítis, sem menn gjøra; en viljid þér ecki trúa þeim,
á trúid Guds ordi, trúid Ritníngunni. Eg veit ad ydur þykir þad lítid heimsins
ørnum, ad þér skulud aldrei um æfi Gud sjá í dýrdinni, því þér hafid aldrei séd
hann né hirdt um ad sjá í nádinni; en svo þykir Páli þad mikid, ad hann segir: ógudligir munu straffast med eylífri gløtun, fjarlægir augliti Guds og mætti hans dýrdar, 2 Tess. 1; en hlustid til hins, ad þar mun verda óp og tanna-gnístran, Lúk. 13, þeir munu eta sínar tungur út af pínu, Apóc. 16; þessar píslir eru vægdarlausar, Jak. 2, og ecki svo sem þessa heims mótlæti, hvar menn fá nockra linun á-stundum; þeirra ormur mun ecki deya, og þeirra eldur ecki útsløckna, Esa. 66, þad er eylíf smán, Dan. 12, eylíf hegníng, Matth. 25, og þoka myrkranna, Júd. v. 13, sem um eylífd er tilbúin hinum ógudligu, 2 Pet. 2. Ef þér nú hafid nockra líkamliga tilsinníng, ef þér varla lifad gétid, þá ydur vantar sælgjæti ydar og venjuligan adbúnad, ef þér gétid ecki af ydur borid, nær þér fáid høfudverk edur sídu-stíng; hvad mun þá verda í elds-dýkinu sem vellur af eldi og brennusteini, Apóc. 21; ef ein lítil vanvirda, er þér svo kallid í þessu lífi, kvelur svo ydar hjarta, ad þér svífist einkis til ad hefna ydar, hvad mun þa verda hin eylífa skømm? þér munud þeinkja ad eínginn hafi yfir ødrum ad stæra sig á þessu forsmánarinnar landi, en gjætid þess ad þér munud kveljast í augsýn h. eingla, Apóc. 14, hverra lagsmenn ad eru Guds útvaldir, er þér fót-trodid hafid í ydar velmakt. Þér munud sjá alla heilaga í Guds ríki, Lúk. 13, en ydur útkastada, já, margan þann, sem þér órétt gjørt og uppsvelgt hafid, og ecki reiknad verdugan ad þurka ydar skó, þá munud þér sjá til bords sitja med Abraham, Isak, og Jakob í ríki himnanna; þegar hinir fordæmdu gløtunarinnar synir sjá þetta fyrst, þá mun ømundar ormurinn taka til ad bíta af alvøru, þá mun ecki duga ad sefa hann med lífláti Abels, Gén. 4, né mansali Jósephs, Gén. 37, edur drápi Naboths, 1 Reg. 21, því hann mun aldrei deya, Esa. 66; og viljid þér ecki ødrum Guds mønnum trúa hér til, og segid, ad hverki Esajas, Jakob, Petur né Júdas hafi verid í helvíti, ad þeir kunni þar frá ad segja, svo sem margur glópur lætur sér um munn fara, þá trúid þó Guds Syni. O, þér hin vantrúada kynslód! hann var í helvíti, þegar hann kvaldist fyrir ydar syndir, svo þér skyldud ecki fyrirfarast, heldur hafa eylíft líf. Eínginn kann betur ad segja oss hvernig þar er háttad, heldur enn hann, sem þad hefir tilbúid handa Djøflinum, hann ed sjálfur hefir þolad helvítis píslir, hann ed sjálfur er þángad ofanfarinn til ad predika øndunum í fángelsinu, 1 Pet. 3, þad er til ad straffa þá; hann er Guds Sonur, hann ber alla hluti med ordi síns kraptar, Ebr. 1; allt vald er hønum géfid bædi á himni og jørdu, Matth. 28, og vard helvíti hønum þó svo heitt, ad hann sveittist blódinu, Lúk. 22, og hrópadi á krossinum: Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig? Matth. 27. O, vatns-bóla! ó, hey-strá! munt þú þá géta búid vid þennan fortærandi eld? og þú skallt þar þó eylífliga búa, nema þú ydrist og trúir á Soninn, Jóh. 3. Viljid

þér nú ecki Guds Syni trúa, því þad er svo gamalt, ad hønum er lítt trúad af heim-inum, þá trúid þó Djøflunum, þér erud vanir þeim ad trúa, þótt þeir ljúgi, gjørid þeim ecki þann óréttt ad trúa þeim ecki, nær þeir satt segja. Þegar Drottinn rak hina mørgu djøfla út af hinum óda Gadareno, Marc. 5, þá bádu þeir hann ad skipa sér ecki í undirdjúpin, Lúk. 8, þad er, í helvíti, því svo kallast þad, Apóc. 9, og vídar, svo kvidu þeir vid þeim loga, sem alvanir voru kvølunum. Seig mér, mun þér ecki bregda vid, ef þér yrdi ad skyndíngu burt kippt úr øllu þínu sælgjæti og steypt í helvíti og kvalirnar eins og hinum ríka? Lúk. 16. Í þetta sinn tøludu djøflarnir alvøru, því þeir ráku sitt eigid eyrindi; en ad þér ljúga þeir, syndugur madur, og mála upp fyrir þér helvíti eins og adra konúngs-høll; trú þeim ecki, því fadir þeirra er lygari í frá upphafi, hann stód ecki í sannleikanum, ei heldur þeir, þar-fyrir eru þeir í helvíti ofan steyptir, og bundnir myrkranna hleckjum, 2 Pet. 2. Til ad frelsa oss frá þessum ósköpum er nú Guds Sonur útgéfinn, til þess ér hann fæddur, húdstrýktur og á krossinn negldur; en gudspjallid segir oss enn nú meira: heldur ad hann hefdi eylíft líf, stendur hér. Þad er vitanligt af St. Páls ordum, Eph. 2, ad vér færdumst daudir í syndinni; þad náttúrliga líf færir med sér andligann dauda. Nær tøkum vér til ad deya? þegar vér lifnum í skírninni, finnur módir vor kristilig kyrkja med oss fyrst eitt andligt lífs-mark; fyrir hvern? fyrir hann, sem af Gudi er útgéfinn til þess ad heimurinn skyldi hafa eylíft líf; svo segir Páll, Tít. 3: ad Gud hafi ríkugliga út-helt yfir oss heiløgum Anda fyrir Jesúm Christum vorn heilsugjafara, svo ad vér réttlátir fyrir hans nád yrdum erfíngjar eylífs lífs; en sá, sem skal eylífs lífs njóta, hann verdur hér í lífi fyrst ad lifa andligu lífi; þad hljótum vér í skírninni, sem sagt er. Þess gétur St. Petur, er hann segir, ad Gud hafi endurgétid oss til lifandi vonar, 1 Pet. 1; en þad kann audveldliga aptur ad missast, svo vel sem þad líkhamliga, nema hinn innri madurinn, sem í fyrstunni er eins og brjóstmylkíngur á sig kominn, nema hann sé dagliga nærdur og endurnýadur; því lætur Páll þetta fylgja hvørt ødru segjandi, Tít. 3: ad Gud hafi oss hólpna gjørt fyrir endurgétníngar laugina og endurnýúngar heilags Anda. Þennan andliga vøxt og þroska ødlumst vér eins vel fyrir Christum, svo vel sem hid andliga líf í fyrstunni; þad kénnir oss Páll, Eph. 2, segjandi: vér erum Guds verk skapadir í Jesú Christó til gódra verka, hvør Gud hefir tilbúid ad vér gaung-um í þeim. Sálin veldur því ad líkhaminn vex, ecki gjørir þad fædslan alleina, held-ur er hún svo sem nockurskonar medal, í hverju ad verkar mannsins andi hønum til þroska, þar til hann fullvaxinn er. Kristur er vort andligt líf, hann er líf hins innra mannsins. Fædan er Guds ord, í því verkar hann med sínum Anda, þar til vér náum ad vaxa eptir fullkomnum mælir Christí aldurs, sem Páll ad ordi kémst, Eph. 4; og þetta andliga líf, er mest fólgid í deydíngu holdsins; þau tvø eru hvørt á-móti ødru; eins líf er annars daudi; hinn gamli madurinn og hinn nýi, sem eptir Gudi er skapadur, þeir berast bana-spjót eptir, en sá er munurinn, ad hinn gamli fær sálgad hin-um nýa í einu, svo hann á-stundum aldrei vidraknar aptur, en hinn nýi fær aldrei svo drepid hinn gamla, ad hann ecki aptur-gángi; til fánga verdur hann tekinn fyrir Guds

krapt, en aldrei verdur hönum svo fyrirkomid, ad ei brjótist hann um, svo lengi vér erum í holdinu. Vel sé þeim er géta lagt hin sterkustu fjötur á hann, og því kallast hann daudur, þegar hann náir ecki ad framkvæma sínar girndir; þegar menn hepta reidina og girndina og adrar tilhneigíngar, sem af þeim vaxa, med Christí Anda, þá heitir hinn gamli Adam daudur; því lýsir Páll er hann segir, Col. 3: þér erud daudir og ydar líf er fólgid med Christó í Gudi. Hver hefir nú afrekad oss þetta líf? þad hefir Kristur, sem ad er vort líf, en var útgéfinn í daudan fyrir oss, svo vér hefdum eylíft líf; þad vottar Páll enn aptur, Gal. 2, segjandi: eg em krossfestur med Christó, en lifi þó samt, ecki eg nú, heldur lifir Kristur í mér, en þad eg lifi í holdinu, þad lifi eg fyrir trú Guds Sonar, er mig elskad hefir og útgéfid sjálfan sig fyrir mig. Af þessu lífi framkémur hid eylífa líf, sem ádur er sagt. Menn bjóda ecki daudum mönnum til bords, heldur lifandi, svo mun og einginn bordsettur verda med Abraham, Isak og Jakob, nema daudinn, hver ad er sendibodi, hitti hann lifandi í Christó. Hér segir í Gudspjallinu, ad Gud hafi svo elskad heiminn, þad er alla menn, því allir vill hann ad hólpnir verdi, og komist til sannleikskins vidurkénníngar, 1 Tím. 2; en því veldur fjandmadurinn sem er mordíngi sálnanna, ad hans guddómligi kjærleiki fær því ei til vegar komid, ad allir hólpnir verdi. Því stendur hér, ad þetta eylífa líf hlotnist þeim alleina sem á Guds Son trúa; en hvílík gáfa er þetta líf born mín? vér kunnum ecki ad leida oss í hug né hjarta hvílíkt þad sé, nema hvad vér af Guds ordi heyrum, nema hvad Guds Andi sýnir oss svo sem fyrir spegil og í rádgátu, 1 Cor. 13, þegar hann lætur oss þad smacka, og vekur í oss sætleik eptirkomandi aldar, þad er gnógt fagnadarins og glediligt líferni til Födursins hægri handar, Ps. 16; vorir líkhamir verda einglunum jafnir, Lúk. 20, já, samlíkir Christí dýrdligum líkhama, Phil. 3; þeir munu einkis vidþurfa, ei fædslu, ei fatnadar, því Guds ríki er ecki matur né dryckur, heldur fridur og fögnudur í h. Anda, Róm. 14; þeir munu dýrdinni íklæddir verda, og skína eins og sól í ríki síns Födur, Matth. 13; vorar sálir munu í óumrædiligum fögnudi lifa, 1 Pet. 1. Dýrdligir hlutir verda í þér taladir, þú borg Drottins, segir Davíd, Ps. 87, er hann spáir um kristnina, en Páll segist hafa heyrt í hinum þridja himni óumrædilig ord, sem einginn fær út-talad, 2 Cor. 12. Veraldarinnar sælgjæti er aldrei svo mikid, aldrei svo margvísligt ad ei fái menn leida á því; þeir sem hafa sína unadsemd þar í, verda þó ad krydda þad med afláti nockru; einn skal húngra, ádur enn maturinn smackar vel, hann skal þyrsta, ádur enn dryckurinn þykir hönum gódur, en í sælu himnanna er eckert afslát, einginn bíd eptir nockru; því svo sem einglarnir sjá jafnan Guds Födur andlit, Matth. 18, svo munum vér og gjöra, þar vér erum einglunum jafnir, í hverju öll sæla er fólgin. Job í öllum sínum mannraunum huggar sig þar vid einasta, ad hann muni sinn Endurlausnara sjá med þessum augum (segir hann) Job. 19, þad er med sínum líkhamligum augum; þegar Páll hafdi eitt sinn verid í himninum og séd Guds dýrd, þad var hönum svo minnisstædt, ad hann úr því vildi alla hluti lída fyrir Christí sakir; og þannig eru þeir lyndir, sem Gud opinberar sína dýrd í hjartanu med von eptirkomandi dýrdar. En ef þannig er vort fángelsi, br. m., hvílíkt mun þá kóngs-ríkid verda? Þad er ecki ad undra,

þótt hin sanna Guds kyrkja styni og andvarpi í himininn eptir Guds barna sælu, Róm. 8, þar Guds andlit lýsir yfir henni, þótt ei sjáum vér hann hér augliti til auglitis, heldur svo sem í spegli og í ráð=gátu, 1 Cor. 13. Arístóteles var eitt sinn spurdur að, hvað fríðleikinn væri? en hann svaraði, að það væri fyrir blindann mann að spyrja að. O, oss auma! þótt oss af öllu hjarta lángi eptir að sjá hinn lifanda Gud, þá fá menn það ecki fyrir blindu holdsins, og er þó eptirlaungun þessi miklu inndælli enn allur fögnudur veraldarinnar. Gud hafði lagt mikið til Mósen, og prýdt hann með kostuligum gáfum fram yfir aðra menn, og þó var hann ecki ánægdur, nema hann mætti sjá Gud; það var hönum ecki nóg að tala við hann, eins og madur við mann, Exód. 33, heldur vildi hann og sjá hans dýrdar ljóma, hefði hann það mátt, og lifa. Hvílík er nú Guds barna sæla í eylífu lífi, og miklu meiri, ædri og dýrdligri, en að nockur syndug túnga fái út=talað. Hugleidið nú kristnir menn, hvílíka ástgjöf menn þegið hafa í útsendíngu Guds eingétins Sonar; hann er útgéfinn til þess að ei skyldud þér fyrirfarast, ecki brenna í hinum glóanda helvítis ofni, ecki verda lagsmenn djöflanna í myrkranna fángelsi, ecki bera eylífa skömm og forsmán, sem þér með ydar syndum hafið forþénað; hann er útgéfinn til þess, að þér hafið eylíft líf, eylífa sælu, eylífan fögnuð og unaðsemd um aldir alda, hvar þér sjá munud svo sem þér erud sénir, og þeckja svo sem þér fræddir verdið, 1 Cor. 13; þér munud sjá Guds hátign, er ydur hefir skapað, gledja ydur í hans elsku, er knúði hann til að géfa ydur þenna sinn Son. Þér munud sjá ydar Frelsara, er ydur hefir leyst með sínum dauda úr eylífu banni; þér munud sjá ydar hold og blód upphafið á Guds tignar=stól hönum til hægri handar; þér munud sjá h. Anda framgángandi af Födur og Syni, þann góða Anda Guds, sem ydur hefir endurgétið, endurnýað, leidt í allan sannleika, straffað í ydur syndina, huggað ydur aptur, styrkt ydur í mótgánginum, og þá munud þér fyrst sjá að harmkvæli þessara tíma vóru ecki verd þeirrar dýrdar sem ydur er þá auglýst, Róm. 8. Börn mín! hverju viljið þér nú gjalda fyrir þessa stóru elsku? hvers krefur hann af ydur? einkis nema að þér elskið hann aptur í=mót; hvar með verdur það gjört? ecki með ordi og túngu, heldur enn náúngann, heldur með verki og sannleika, 1 Jóh. 3. Gudi var alvara að géfa oss sinn Son; látum oss vera það alvöru að elska hann aptur. Ef þér elskið mig, þá vardveitið mín bodord, segir Kristur, Jóh. 14; gjörum svo, þá látum vér hann sjá, að vér elskum hann, edur ef rétt skal segja, vér sjáum það sjálfir og finnum það; því ecki þarf hann að leitast eptir hvert vér elskum, hann sem rannsakar hjörtun og nýrun, en ef vér viljum vita sjálfir hvert vér elskum Gud edur ei, þá spörum eckert fyrir hans skuld, eins og hann þirmdi ecki sínum eingétnum Syni fyrir vora skuld, hvíað í því auglýsti hann sína elsku. Brennum upp allar vorar tilhneigíngar með elskunni til hans, hún er einn eldur; ef vér erum Abrahams synir, Jóh. 8, ef vér höfum trú Abrahams, þá gjörum Abrahams verk, Jak. 2; hann vildi fórnfæra sínum eigin syni og trúði Gudi að hann mundi kunna að gjöra hann lifandi af daudum, Róm. 4; gjörum eins, offrum Gudi því sem oss kjærast er, það er viljinn vor; látum ecki eptir hönum eins og Davíd syni sínum Adóníæ, þegar hann sá að hann vildi ríkja, hann var svo barnsár að hann nenti ecki að ángra hann; breytum í ödru eptir

David, en ecki í þessu, heldur drepum vorn vilja þegar hann vill gjøra uppreist á=móti Guds vilja, og segjum: verdi þinn vilji, þá mun Gud hann aptur lifandi gjøra med sínum vilja, svo ad vér viljum þad, sem hann vill, og ad hans vilji framkvæmist á oss, sem er sá, ad vér eignumst eylíft líf; þad veiti oss Gud Fadir af nád sinni og miskun, í Jesú nafni, amen!

## Pridja Dag Hvítasunnu.

Gudspjallid, Jóh. 10 Kap.

Jesús sagdi til Pharíseanna: sannliga, sannliga segi eg ydur: hvør hann geingur ei inn um dyrnar í sauda-húsid, heldur stígur hann inn med ødrum hætti, sá er þjófur og spillvirki; en sá sem geingur inn um dyrnar, hann er hirdir saudanna; fyrir hønum lýkur dyravørdurinn upp, og saudirnir heyra hans rødd; og hann kallar sína saudi med nafni og leidir þá út; og þá hann hefir sína saudi útlátid, geingur hann frammi fyrir þeim, og saudirnir fylgja hønum eptir, þvíad þeir heyra hans rødd; en ødrum annarligum fylgja þeir ecki eptir, heldur flýa þeir frá hønum, þvíad þeir kénna ei annarliga rødd. Þessa máls-grein taladi Jesus til þeirra, en þeir vissu eigi hvad hann sagdi þeim. Þá sagdi Jesus enn aptur til þeirra: sannliga, sannliga, segi eg ydur, ad eg em dyr saudanna; og allir hverjir helst sem fyrir mér komu, þeir voru þjofar og spillvirkjar, og saudirnir hlýddu þeim eigi. Eg em dyrnar, ef nockur geingur inn um mig, sá mun frelsast, hann mun og gánga út og inn, hann skal og finna sitt fodur. En þjofurinn kémur ei til annars, enn hann steli, drepi og fordjarfi; en eg er kominn til þess, ad þeir hafi líf og fulla nægd.

## Exordium.

Ert þú sá sem koma mun, edur eigum vér ad vænta eins annars? søgdu Jóhannes lærisveinar vid Christum, Matth. 11, er þeir vóru sendir frá sínum Meistara til ad spyrja ad, hver hann væri; í hverjum ordum þad er ad athuga, ad Messías hefir nefndur verid á þeim døgum: sá sem koma mun; annars hefdi þessi spurning verid nockud myrk og óskiljanlig. Þú ert Kristur Sonur Guds, hann sem koma skal í heiminn, sagdi Martha fordum vid Lausnarann, Jóh. 11; og mundi hún ecki hafa ávarpad hann þannig, hvern hún þekti kominn ad vera, nema Messías hefdi svo almenniliga kalladur verid. Þetta má vídar sjá í nýa Testamentisins bókum; og hafa vísir menn Gydínga í þessu litid til spádómanna í gamla Testamentinu, hvar ed svo adkvedur um Messíam: ad hann muni koma; svo segir Esajas: sjá ad Gud ydar hefnd kémur, ydar endurgjald, hann kémur til ad frelsa ydur, þá munu og augu hinna blindu uppljúkast, og eyru hinna daufu opnast, þá mun hinn halti dansa svo sem hjørtur, og túnga hins mállausa syngja, Esa. 35; til hvers spádóms medal annara Frelsarinn bendir Jóhannes lærisveinum, er þeir fréttu hann ad: hvert hann væri sá sem koma mundi. Þetta upplýsir þau ord, er vor Endurlausnari talar í þessa dags Evangelió, er hann segir:

ad allir þeir, sem fyrir hann komu, hafi verid þjófar og spillvirkjar; hvar hann meinar, eptir mínum sáfródum skilníngi, þá, sem fyrir hann komu og eignudu sér nafn hins mikla Hirdis og vildu frelsa Gydínga af valdi Rómverja, en bønnudu ad gefa keisaranum skatt; þvílíkir vóru Tevdas og Júdas Galilæus, um hverja Gamaliel talar í postulanna Gjørnínga-bók. 5 kap. En hvernig sem því er varid, þá talar Drottinn hér ecki um spámennina, er vóru réttlætisins predikarar og spádu um hans tilkomu, og tøludu af hans Anda, heldur annadhvert um þessa, sem nú hefi eg nefnt, edur einhverja þeirra líka, þótt søgurnar greini ecki um þá; en fyrir því ad Drottinn vissi fyrir, ad eptir sína hérvist á jørdunni mundu upprísa fals-spámenn, ecki sídur enn fyrir sína tilkomu í heiminn, þeir ed koma mundu til Guds barna í sauda-klædum, en innra vóru þeir glepsandi vargar, Matth. 7, þá segir hann hér í Gudspjallinu, hvert ad sé merki hins sanna og mikla Hirdis saudanna, eptir hverjum adrir hirdarar eiga ad breyta, er hann sett hefir yfir hjardirnar, Act. 20, svo og á sína saudi, er hans raust alleina eptirfylgja. Vér viljum af Gudspjallinu þetta tvent hugleida: 1) hvernig kénnendunum eigi háttad ad vera, 2) hvernig tilheyrendurnir eigi ad skicka sér. O, þú sem ert hinn mikli Hirdir saudanna, fyrir blód þess eylífa Testamentis, Herra Jesú Christe! styrk oss hér til, med fulltíng þíns góda Anda; bænheyr oss fyrir þína forþénustu, amen!

## Utleggíngin.

Þar vor Endurlausnari nefnir hirdir í Gudspjallinu, þá meinar hann í fyrstu sjálfan sig, því hann er Høfdíngi hirdaranna, sem Pétur vottar, 1 Pet. 2; allir adrir hirdarar hafa sitt embætti af hønum, þeir sem ad hans vilja eru settir yfir hjørdina, því byrjar øllum þeim hans blessudu dæmi ad fylgja; og er þad sérdeilis þrent, sem þetta heilaga Gudspjall vísar oss til, sem er: 1) ad þeir séu inn um dyrnar gengnir, þad er réttiliga kalladir, 2) ad þeir láti saudina heyra sína raust, 3) ad þeir gángi undan þeim. Hvad hinu fyrsta vidvíkur, þá segir Páll ad sønnu, Hebr. 5: einginn taki sér þennan heidur til, heldur sá sem kalladur verdur af Gudi, svo sem Aron. Þvílík kallan brúkast ad sønnu ecki nú, og jafnvel ecki í gamla Testamentinu eptir þad Gud skipadi konúngana yfir sitt fólk; spámennina kalladi hann ad sønnu, en kénnimennirnir vóru af konúngunum settir; svo skickadi Salómon kóngur Zadoch kénnimann í stad Abíathars, 1 Rég. 2, og Jósaphat tilsetti prestana í húsi Drottins, 2 Chron. 17; olli þad því, ad á-medan Gud hafdi sjálfur stjórnina í Israel, þá skipadi hann øllum hlutum fyrir medalgaungu Móses og annara sinna þénara, sídan hefir hann fengid konúngunum þvílíkt í hendur og ødrum valdstéttum, eptir því sem hverju landi hagar; svo var og Aron bædi kalladur og vígdur fyrir medalgaungu Móses, Exód. 28. Drottinn Jesús kalladi ad sønnu sína postula sjálfur, Matth. 10, en eptir hans dýrdarfullu himnaför voru hans kyrkju-þénarar af mønnum kalladir, því Matthíam og Barnabam útvøldu postularnir, jafnvel þótt hluturinn ad Guds vilja félli yfir Matthíam, Act. 1; biskuparnir í Ephesó voru af mønnum kalladir, ecki sídur enn þeir, sem Títus Krítar biskup niburskipadi um borgirnar, Tít. 1, og kallar St. Páll ad þeir séu af h. Anda settir yfir hjardirnar, Act. 20; svo skickudu þeir Páll og Barnabas øldúngana í Lystris og Icónío, Act. 14, og þessi skickan hélst allt þángad til Gud gaf sínum søfnudum kristin yfirvøld. Þetta segi eg til þess, ad einginn Guds þénari efist um sína kallan, þegar hann er af kristiligu yfirvaldi kalladur, sem Gud hefir þetta umbodid, nema hann hafi med svikum og prettum, gáfum og mútum stolist

inn í sauða-húsið, þá er hann eingu betri enn þjófur og spillvirki, og hefir sér eingrar Guðs aðstoðar að vænta í sínu kalli og embætti, hversu vel sem hann þykist að sér vera. Svo eru þeir nú af Guði kallaðir, sem eru af konúnginum kallaðir, eður þeim, sem hann hefir það vald í hendur fengið, því hann er Guðs umboðs-maður á jörðunni, en þeir hans, sem af honum settir eru, þó með því móti, að þeir ekki brúki nein ólevfi-lig meðöl hér til; og er það ekki lítil huggun fyrir þann, sem á dagliga mótstöðu að veita Satan og vondum mönnum hans þénurum, að hann er af Guði kallaður í þá h. stétt, því máttugur er Guð að varðveita sína þénara, er honum treysta, og ei brestur hann viljann til þess, þeir eru skrifaðir í hans höndum, Esa. 49; hver vill þeim granda fram yfir það hann leyfir? Eg vil um þá segja eins og Bíleam sagði um Ísrael forðum: því skyldi eg bölva honum? hinn sterki Guð bölvar honum ekki, því skylda eg styggja við honum? Jehóva styggar ekki við honum, Núm. 23. Enn hann leyfir ekkert, nema það sem er til hans mikla nafns dýrðar, og þeim fyrir bestu, er honum af trú og dygð þjóna, og er sæmd að taka því af hans hendi, hverjum sem honum líkar því að skipa; þeir mega að vísu tilreikna sér það, sem Páll um sig skrifar, er hann segir: eg veit hverjum eg hefi trúað, og eg em fulltrúa, að hann er máttugur að varðveita það, sem eg hefi honum til-trúað, 2 Tím. 1. Nú er þá ekki nóg, br. m., að menn séu kallaðir, nema menn gjöri og Guðs verk með allri athygli; Júdas var kallaður, Matth. 10, og gékk í fyrstu inn um dyrnar, því hann hafði meðtekið þetta embætti með þeim, sagði Pétur, Act. 1, en hans setur varð í eyði, og hans biskups-dóm meðtók einn annar; og því vil eg tala um í öðru lagi, hvernig oss byrji að fóstra Guðs sauði. Sauðirnir heyra hans rödd, segir í Textanum; Drottinn talar hér eptir siðvenju Gyðíngalands og annara landa, þar eð hirðararnir brúkuðu og enn-nú brúka í dag eina hljóð-pípu til að kalla saman sauðina, svo að þótt margar hjarðir séu á beit í einu haglendi, samt þekkir hver ein hjörð síns hirðirs raust, og skilur sig úr öðrum sauða-flock nær hún lætur. Ef röddin skal heyrast, þá skulu menn hrópa; þetta orð, rödd, þýðir optliga kénníngu í Ritníngunni; þar er rödd eins hrópanda í eyðimörku, segir Esajas 40, hvað Jóhannes Baptista þýðir uppá sig og sína kénn-íngu, Jóh. 1; því skipar og Guð kénnimönnunum að upphefja sínar raddir svo sem aðrar básúnur, Esa. 58. Það er hin andliga hirðirs pípa, hverja að hann, sem er hinn mikli Hirðir sauðanna, Hebr. 13, hefir oss sínum smala-mönnum í hendur fengið, hvers eign að sauðirnir eru, en til þessa heyrir mikil kostgæfni og ástundan, br. m.! ætlið ekki að það muni einu gilda, hvað þér hrópið; nóg háreysti mega menn heyra á-stundum, það þýtur um eyrun eins og annað stórviðri; en því er ekki svo háttað sem þytnum, er kom yfir postulana, Act. 2, í hverjum að bjó h. Andi, því það er ekki Guðs orð sem sumir menn tala í helgum stað; en hann byggir altíð sínu orði er hann í fyrstu innblés í hjörtu postulanna og annara Guðs manna; það er eins og sterkviðrið sem Elías fann í hellrinum á Guðs fjalli Hóreb, 1 Reg. 19, það klauf í sundur fjöllin og braut klettana, en Guð var þó ekki í veðrinu; svo eru kénníngar sumra

manna, þær skafa innan eyrun á fólkinu, en eckert kémst í hjartad, því þar er eckert af skynsemi, eckert af rádi og eckert af Guds ordi; þad er ský fyrir utan regn, svo sem Júdas postuli talar um Guds dýrkun sumra manna. Hvad mun valda þessu, br. m.? því menn hirda svo lítid um, ad safna því í kornhlødu hjarta síns, er Guds hjúum byrjar ad géfa. Drottinn kallar þann þjón sælann, Lúk. 12, er géfur þeim sinn verd í réttan tíma; hér af má sjá, hvad stór framsýni og árvekni ad heimtast af einum Guds ords þénara; sá sem á ad géfa hverjum einum í réttan tíma þad hønum ber, hann má adgjætinn og ecki tómlátur vera; sé nockur sturladur, sé hann ófródur, sé hann hirdulaus, sé hann þverbrotinn, sé hann efasamur, ad øllu þessu á einn Guds þjón ad gjæta, og láta eckert verk, einga sýslan edur umsvif tímanligra hluta sig hindra frá, ad géfa sérhverjum af þessum í réttan tíma þad sem þeim ber, ef hann vill gjøra verk Drottins Guds síns trúliga; og nema vér svo gjørum, þá er ecki ad dyljast þar vid, ad vér munum ecki einasta launin missa, heldur og þar á ofan straffadir verda, svo sem hinn vondi þjón, er gróf sitt pund í jørdu, Matth. 25. Verid því kostgæfnir, og ætlid ecki ad þad sé nóg ad vér høfum hrós af mønnum, því ef vér leitum eptir því, þá erum vér ecki Christi þénarar, Gal. 1; og um allt fram, þá lærum sjálfir Guds vilja ad þeckja, af hans ordi; þar í á eins Guds þénara kénníng fólgin ad vera, ad kénna mønnunum ad þeckja syndina, ad fá hana kvitta og ad fordast hana. Høldum vér ecki svo í búskap vorum, ad þótt fódrid sé gott, þá vardi mikid um, hvernig því sé hagtært? ætlum ecki ad þad muni vera ødruvís í andligum hlutum. Menn segja, ad fólkid skuli ecki syndga, en þó gjøra menn á-stundum ecki svo skilmerkiliga grein á-millum góds og ills, svo hinn fáfródi læri ad þeckja syndina, og þad veldur því, ad margt þad, sem ljótt er verdur dygd haldid, edur ad minsta kosti einginn ókostur. Menn segja þeir skuli ecki syndga, en ei segja menn svo gløgt hvernig þeir skuli varast syndina, edur leggja þeim rád af Guds ordi, hvernig þeir skuli sjá sig vid þeirri edur þeirri synd, er einhver kann ad vera hneigdur til; menn segja ad þeir skuli ecki syndga, en tala næsta daufliga þar-um, hvad hver synd eptir sig leidir; Guds reidi nefna menn ad sønnu, en ræda ecki svo skilmerkiliga um þad, fyrir hver verk hún opinberast af himnum ofan yfir mannanna børn, jafnvel þótt menn sjái þau dagliga fyrir augum sér; og nær menn þannig breyta, ætla sumir ad sé vel predikad Guds ord, og ad þeir séu gódir verka-menn í Christí akri, eins og hann hafi ecki sjálfur merki sett uppá sín ord, þar ed hann segir: ad þau séu líf og andi, Jóh. 6; en sumra manna kénningar eru daudt hégóma-rugl, og afla meir bana enn lífs. Þegar St. Páll er ad tala máli voru, 1 Cor. 9, ad menn skuli hafa uppheldi af þjónustunni, þá færir hann til síns máls þá løgmáls-grein, er stendur Devt. 25: þú skalt ecki múlbinda þad naut sem þreskir; en eg ætla ad ei þurfi ad múlbinda oss suma, þegar Guds eyrindi á ad tala, vær gjørum þad sjálfir á-stundum, edur og óttinn edur fé-girndin, en þegar eta skal, rífum vér múlinn af, og uppfyllum svo þad sem Drottinn segir, fyrir munn Ezechíelis, um vøku-mennina í Júda: allir eru þeir mállausir hundar og kunna ecki ad gelta, Ezech.

56; en þessir grádugu hundar verda þó aldrei saddir. Þetta vil eg hafa sagt þeim ed brúka nafn Evangelíí til ábata alleina, og þad er þó allt annad enn Evangelíum er þeir tala. Ecki þannig br. m., heldur fylgid bodi Peturs er hann segir, 1 Pet. 5: fóstrid Guds hjörd sem ydur er á hendur falin, og gefid gjætur ad henni, ecki af naudúng heldur fúsliga, verandi ecki skémmiligs ávinníngs gírugir, heldur med fúsum huga, og ecki svo sem drottnandi yfir söfnudunum, heldur svo sem þeir ed séu fyrirmindan hjardarinnar. Gud hefir sett oss yfir hjörd sína, því eigum vér hirdarar ad vera og ecki drottnar, því einn er vor Drottinn Jesús Christus hinn mikli hirdir saudanna; þad má og eingin afsökun vera þótt sumir hafi lítil laun; hvad hafdi Páll og Barnabas, og hinir postularnir? sá sem þjónar Christó fyrir lítid, hann hefir stærra lén af Gudi þegid enn hinn sem hefir yfirfljótanligt, svo eg þori ad segja, ad hann mun fegur skína í dýrd síns Herra enn hinn, þótt bádir gjöri þeir eins vel skyldu sína. Gjætum og í þridja máta þess, sem Petur minnir oss á, ad vér séum fyrirmindan hjardanna. Þad er almenniliga haldid, ad af óheilum foreldrum kunni ecki heilbrigdt afkvæmi gétid ad verda; nú eru kénnimennirnir andligir fedur allra þeirra sem þeim til-trúad er, en ef þeir eru lítt vandir ad hlut sínum, og hirda ecki um hvernig þeir lifa, og eru í þann máta andliga vanheilir, hvernig, mega þeir Gudi andlig börn fæda. Sona-korn mín, segir Páll vid þá í Galatía, med hverja eg aptur ad nýu þúngbúinn er, þar til Kristur mindadist í ydur, Gal. 4; en hvernig gétur Kristur vordid í þeim mindadur, hverra módir, þad er kénnimannsins sál, afneitar öllu kristiligu athæfi, en hlýdir Djöflinum í ógudligu framferdi, og þótt ad Gud kunni ad framkvæma sitt verk í sumra tilheyrenda hjörtum fyrir nád síns Anda, sem ad verkar í ordinu, þá er þad ecki hinum rángsnúna kénni-födur ad þacka; ad sönnu hefir hann med sinni þjónustu verid medal til, ad hún er í skírninni endurfædd; verda má og ad hann tali þad eitthvad af predikunarstólnum, er heyrir til sáluhjálpar og lifnadarins betrunar, en hvad gagnar þad? þegar hann hvad mest áminnir og eggjar á hinar andligu dygdir, kjærleikann, miskunsemina, hógværdina, og í einu ordi ad segja, á deydíngu síns holds og blóds, þá sýnir hann þó í verkunum, ad þeim hlutum sé ómöguligt af stad ad koma, er hann býdur af predikunarstólnum, leggjandi svo þad ok á herdar lærisveinanna, er hann ecki snertir med hinum minsta fíngri, Matth. 23. O, vei! ó, vei! hvílík gudlöstun er þad, nær embætti forlíkunarinnar er þannig brúkad Andskotanum til þjónustu? þetta er hin mesta landráda-sök í-gégn Gudi, því þad er ecki einasta hans þegna undan honum ad ráda, heldur brúka þá á-móti honum, en géfa sig í lid med Satan, hver ad er svarinn óvinur hins alvalda Konúngs. O, hversu skélfilig mun þeirra pína verda um alla eylífd, er þannig vanbrúkad hafa myndugleika síns embættis! svo eg er viss um, ad hver sem kynni ad leggja eyrad vid helvítis munna, og mætti heyra óp og tanna-gnístran hinna fordæmdu, þá mundu þó kénnimannanna hljód yfirtaka, eg meina þeirra sem hafa leidt hans hjörd, sem med Guds eigin blódi er endurkeypt, Act. 20, á veg glötunarinnar, bannandi svo mönnum inn í himnaríki, og sjálfir koma þeir þar ecki inn, Matth. 23. Fyrir því Drottins

kénnimenn, verum ecki eins og vordur þær ed standa á heidum uppi, og vísa ad sönnu veginn, en ecki fara þær úr stad svo þær leidi hinn vegfarandi til híbýla; ecki eins og klucka, sú er hángir fyrir kyrkju-dyrum, hún kallar fólkid til samans til Guds orda heyrnar, en sjálf heyrir hún eckert; treysti og einginn þar uppá, ad hans embætti sé heidarligt, edur ad hann hafi Guds umbod á hendi, nema hann gángi verdugliga þeirri kallan, hvar inni hann er kalladur, Eph. 4. Málmurinn í einni brostinni klucku kann gódur ad vera, en samt er hún ecki mjög hæf til-þjónustugjördarinnar; svo er og embættid jafnan heidarligt, en þad lídur vanvirdu á-stundum fyrir óskickun og illa breytni þess, sem þad starf er á hendur falid. Edur segid mér! hvad kunna tilheyrendurnir ad þeinkja annad um hann, sem ei gjörir nema bendir med fíngrinum til Guds vegar, en sjálfur gengur hann ecki, heldur enn þad, ad annadhvert meini þessi madur eckert af því hann talar, edur og ad sá Gud, er hann kénnir, muni ei vera svo mjög vandur ad lifernis háttum syndugra manna sem hann segir? Láti menn sér því ecki nægja þar med, ad þeirra kénníngu er hrósad, já, ecki þótt hún sé mikillar hrósunar verd í sjálfri-sér, nema menn framkvæmi þad í verkunum er menn tala med munninum. Eg vil hér um vidlíkt segja, og Endurlausnarinn fordum vid lærisveinana, Lúk. 10: fagnid ecki af því ad andarnir eru ydur undirgéfnir, heldur af því, ad ydar nöfn eru skrifud á himnum. Svo vil eg segja: gledjist ecki svo þar af, ad þér hafid af Gudi þegid gódar gáfur til ad kénna, heldur meir af því, ef ydar söfnudur leidréttist, gengur á Guds vegi, elskar Gud og hans ord, ef hans ríki uppbyggist á-medal ydar, en Audskotans verdur nidurdrepid. Gledjist af þessu br. m. og leggid allt kapp þar á, hvad ydur audveldliga takast mun, ef þér fylgid bodi St. Páls, er hann skrifar til Tímotheum: vert fyrirmindan hinna trúndu í ordinu, í umgengninni, í kjærleikanum, í andanum, í hreinlífinu, 1 Tím. 4; og hefi eg nú nockud talad um skyldu kénnimannanna, eptirfylgir med fám ordum ad segja um tilheyrendanna skyldu, hún er tvöföld, ein vid Gud, og önnur vid hans þénara, hin sídari hángir af hinni fyrri; og því vil eg fyrst þar um tala.

Hér stendur í Gudspjallinu: saudirnir fylgja hönum eptir, því þeir þeckja hans raust. Eg hefi nockrum sinnum þar um talad í bók þessari, mínir elskanligir, hvad oss eigi ad knýja til þess ad heyra raust Drottins, sem er hans ord, því vil eg þess færra þar um tala í þessum stad, jafnvel þótt aldrei sé gód vísa of opt kvedin. Hér stendur ad saudirnir fylgi hirdirnum eptir, af því ad þeir heyra hans raust; hvad er þad, hönum eptir ad fylgja? Hirdirinn er Kristur, þad er ad fylgja hönum eptir, ad lifa kristiliga. Hvad er ad lifa kristiliga? þad er ad halda Guds bodord, ef ecki fullkomliga, sem ómöguligt er, þá þó ad því leiti sem oss er möguligt; hans matur og dryckur var ad gjöra hans vilja sem hann sendi; svo á oss eckert svo kjært ad vera sem ad gjöra hans vilja, Jóh. 4: elska skalt þú Drottinn Gud þinn, þad er hid ædsta og mesta bodord, Matth. 22; en hvad segir Kristur? Jóh. 14: ef þér elskid mig þá vardveitid mín bodord; hann vegsamadi Guds h. nafn fyrir mönnunum; ef vér viljum hönum eptir fylgja, þá látum oss þad fjarlægt vera ad misbrúka hans nafn

til ad leggja þad vid hégóma, en þó miklu sídur ad ljúga vid þad, sverja edur fjölkýngi fremja; í einu ordi ad segja, Kristur sem ecki var lögmálinu undirgéfinn, hann uppfylti allt lögmálid; svo eigum vér af fremsta megni ad æfa oss í hlýdni allra Guds bodorda, og ecki skamta oss sjálfir hvad mikid edur lítid vér viljum halda þar af; ecki ad elska alleinasta födur og módur, en hata alla adra, ecki ad vera einasta meinlaus í umgengni, og gódvikinn vid náúngann, en kreinkja hans húsfrú edur frændkonur; ecki alleina ad vakta sín augu fyrir lauslæti, en stela þó náúngans gózi og svíkja hann í kaupum og sölum. Ecki er þad nóg ad láta hans fémuni kyrra, en baktala hann þó og ófrægja, já, ljúga uppá hann lýtum og skömmum, bera falsvitni á-móti hönum, edur neita hönum sannleikans vitnis, sem er allt hid sama. Ecki dugir þetta br. m., ecki er þad Christó eptir ad fylgja, því sá sem er sekur í einu af bodordunum, hann er brotligur í öllum, Jak. 2; þar-fyrir, er ad því vísu ad gánga, ad sá sem lætur eptir sér nockud af þessu, og drýgir þad vísvitandi á-móti samvitskunni, hann er ecki af Christí sauda-húsi. Hvad er hann þá? hann er brád úlfsins, sem er Andskotinn, og mun hönum ad eylífu hérfángi verda, nema hann snúi aptur, en hvernig vill hann fá þad gjört, nema hann heyri raust hins góda Hirdirs, nær hann kallar: þvoid ydur, hreinsid ydur, takid ydar illsku breytni frá mínu augliti, látid af illu og lærid gott ad gjöra, Esa. 1. Þessi er hans raust, og ef þér af hjarta ydrist ydar vondra verka, og látid ydur ángra ad þér hafid Gud styggdan, þá lætur hún enn þá hærra, er hann segir: komid til mín allir þér sem erfidid og þúnga erud þjádir, eg vil endurnæra ydur; takid á ydur mitt ok og lærid af mér, því ad eg em hógvær og af hjarta lítilátur, og munud þér finna hvíld sálum ydrum, Matth. 11; þessi er raust hins góda Hirdirs í allri ritníngunni, í öllu Guds ordi, og þannig á eins hrópanda, eins predikara raust ad vera í eydimörku veraldar þessarar. Þér vitid, br. m. ad vér dagliga syndgumst; lastanna greinir spretta idugliga út úr þeirri mold, sem vér erum gjördir af, sídan Fjandmadurinn sádi þar illskunnar sædi, þær verdur af ad höggva, svo ódt sem þær vaxa; med hverju þá? med Guds ordi sem er eitt tvíeggjad sverd og framgéck af hans munni, er Jóhannes sá gánga á-milli ljósastjakanna, Apoc. 1. Guds ord er einn eldur, sá ed brennir upp öll saurindi girnda og lasta, sem oss eru medfædd, þad er einn hamar, er sundurmer hjörtu vor, svo þau verdi bústadur Guds, og sundurknosar vorn anda, svo hann verdi þad offrid sem Drottni líkar, Ps. 51; hér um talar hann svo hjá Jeremíam, 23: er ecki mitt ord svo sem eldur, segir Drottinn, og svo sem einn hamar sá ed klettinn í-sundurmolar? Guds ord er einn eldur sem sagt er. Aron sagdi fordum sér til afbötunar: minn herra, eg kastadí gullinu í eldinn, og vard þar af þessi Kálfur, Exód. 32. Rétt-trúads manns hjarta er hverju gulli dýrmætara, köstum því í þennan eld, þar af mun sjálfkrafa vaxa einn kálfur, ecki svívirdíng Egyptalands, svo sem Arons kálfur, heldur ein lifandi fórn og Gudi þacknæmilig, sem eru kálfar vara vorra, Os. 14; þessi er sú skyldan, er vér eigum Gudi ad gjalda, og gjöldum vér, ef satt skal segja, br. m. ecki í hans, heldur í vorar þarfir. Jardneskir hirdarar fæda saudina fyrir ullina og mjólkina,

en Drottinn fædir sína saudi fyrir alls eckert; einkis krefur hann af þeim, nema ad þeir skuli óttast sig og elska, og ætti þad ecki ad vanta, kristnir menn, því ef vér elskum vora lánar-drottna fyrir þad þeir gefa oss føt og fædi, og vinnum þeim altíd þó nockud til þarfa. O, því skyldum vér þá ecki elska hinn góda allsherjar Drottinn, er ecki einasta fædir og fóstrar líkhama vora, heldur og elur sálir vorar á þessu himnesku manna, já, á síns eingetins Sonar holdi og blódi, sem er lífsins braud af himnum ofan komid, Jóh. 6. Verum því ecki svo illgjarnir á-móti sjálfum oss, ad vér daufheyrumst vid þessa góda Hirdirs raust, hver ed fóstrar oss í lystiligum grashaga, og leidir oss ad ferskum vøtnum, Ps. 23. Øll syndugs manns ólucka kémur þar af, ad hann ljær ecki Guds raustu eyru; hvernig mega þeir trúa, nema þeim sé predikad? segir Páll, Róm. 10; en eg má spyrja, til hvers skulu þeir predika, nær einginn vill heyra? og hvernig á Guds ord ad verka í hjartanu, nær þad kémst ecki í gégnum eyrun, sem eru dyr hjartans. Lamparnir vóru fyrst kveiktir í gamla Testamentinu ádur enn reykelsid var tendrad, Exód. 27, og svo verdur skilníngurinn fyrst ad upplýsast, ad manneskjan þecki Gud og sjálfan sig ádur enn girndin kvikuar, og audmýktin lifnar til ad afneyta sjálfum sér, en elska Gud; en hvar er slíka Guds gjøf ad fá, nema í hans h. ordi, þau eru lampar þeir, Ps. 119, sem reykelsi vorrar ydranar, vorrar trúar, vorrar bænar, reykelsi elskunnar til Guds og náúngans skal tendrast med, svo þeirra ilmur stígi upp fyrir Guds hásæti og samtengist þar Drottins forþénustu oss til forlíkunar; og er nú svo út-talad um skyldu vora á-móti Gudi vorum í þessu. En hvad vora skyldu áhrærir vid kénnendurnar, sem oss eru í Guds stad settir, þá er hún næsta mikil. Eg mun þykja bermæltur verid hafa um þeirra skyldu í hinum fyrra parti rædu minnar, og vil eg því vikid hafa til þeirra, sem ecki taka vara á sínu embætti, og lítid hirda um hvernig þeir kénna edur lífa; en Gudi eru þackir ad kunna, ad hann hefir géfid oss marga síns ords kénnendur, þá ed bædi predika þad hreint og klárt, og svo prýda kénnínguna med lastvøru framferdi; þessir hafa stóran mindugleika af Gudi, børn mín! hjá þeim á þad heima, sem Drottinn segir, Lúk. 10: hver hann forsmáir ydur, hann forsmáir mig! Ecki er oss ad þeim ad leita, sem ecki finnist mannligur breiskleiki hjá. Gud hefir næsta vægdarsamliga høndlad vid oss í því, svo sem øllu ødru, ad hann hefir ecki sendt oss eingla af himnum til ad kénna oss, því vér mundum ecki standast þeirra nálægd, heldur syndnga menn eins og vér erum, og hefir prýdt þá med einglanna nafni, Malach. 2, til ad láta oss vita, ad þeir séu hans sendibodar til vor, hverja hann vill láta medtaka í sínu nafni. Hverki Pétur né Páll edur nockur annar af postulunum vóru án mannligs veikleika. O, hvad munum vér þá vera, sem eingan-vegin erum þeirrar líkar? Kénnimennirnir í gamla Testamentinu áttu ad forlíka fyrir sínar eigin, ádur enn þeir offrudu fyrir fólksins syndir, Hebr. 7; en ei ad sídur vildi Drottinn ad fólkid skyldi þeim hlýdid og undirgéfid vera, svo ad hann segir: hver sem ecki vill kénnimanninum hlýda, hann skal deya, Devt. 16. Nú þótt ad þetta løgmál sé af-tekid, ad svo miklu leiti sem líkhamans straffi vidvíkur, þá er þad samt og ádur víst,

ad hver sem ecki hlýdir einum Drottins kénnimanni, í öllu því sem hann honum í Guds nafni réttiliga býdur, hann deyr andligum dauda, hann er ecki kristiligrar kyrkju lifandi limur, hann er daudur í synd þeirri, er hann vill ecki ráda bót á, og nema hann hlýdnist Drottins þénara og ydrist af hjarta, ádur enn hann deyr, mun hann eylífum dauda deya. Þér vitid hvad Drottinn sagdi fordum daga um Pharí-sæos og Skriftlærda, Matth. 23: ad menn skyldu gjöra eptir því sem þeir segdu, en ecki eptir því sem þeir gjördu, af því þeir sæti á Móses stóli; hversu miklu framar byrjar oss þá ad hlýda rádvöndum kénnimönnum, er undan oss gánga í ótta Drottins, og eru óstraffanligir, sem Páll ad ordi kémst, 1 Tím. 3, þad er, hverja menn ei kunna ad straffa fyrir nockurn glæp edur hneixlissama umgeingni, þótt ei séu þeir fyrir Gudi syndlausir; svo eigum vér nú vorum kénni-fedrum ad hlýda, í því þeir oss bjóda Guds og síns embættis vegna, eins og sjálfum Gudi, því þeir eru verk-anautar Christí, og rádsmenn hans leyndardóma, sem Páll vottar, 1 Cor. 4; þar-fyrir segir og sjálfur Kristur, Lúc. 10: hver ydur heyrir hann heyrir mér. Í ödru lagi eigum vér ad heidra og ad elska vora kénni-fedur; þad býdur Páll oss, 1 Tím. 5, segjandi: þeir öldúngar, sem vel forstanda, haldist tvöfaldligs (þad er mik-ils) heidurs verdugir, allra helst þeir, sem ervida í ordinu og lærdóminum, svo sem eru trúlyndir kénni-fedur medal vor, br. m.; og því skyldum vér ecki heydra Guds sendi-boda, ef vér hann heydrum? Hvílíkt er þá rænuleysi sumra manna, er þeir hatast vid sína kénni-fedur, af því þeir straffa hjá þeim syndir og lesti, og vilja hafa sálum þeirra hólpid úr glötuninni? þar finnast ógudligir skálkar, er ecki svífast ad leggja hendur á sinn sálusorgara, þeir ed skémma hann út í ordum sínum leynt og ljóst. Hvad er ad gjalda illu gott ef þvílíkt er ecki? hvad er ad gjöra uppreist á-móti Gudi, ef ecki er þetta? og eru þeir eingu betri, sem maktina hafa og svoddan glæpi ecki einasta óhegnda láta, heldur og taka slíka óhæfu í forsvar, sem dæmi munu til géfast. Vel er þad satt, ad Guds þénari á alla hluti ad líða fyrir hans sakir, en þó má hann beidast réttar síns nær svo vid ber, því ecki einasta hann, heldur og hans Herra er í slíku vanvirdtur. O, hvílíkt nidurdrep er þad Christí ríki, þegar svoddan gudleysi er ecki straffad af þeim, sem þar til vald hafa af Gudi og konúnginum. Egyptskir straffudu þann á lífinu, sem ecki hjálpadi einum ferdamanni úr ræníngjans höndum ef hann kynni; gjæti þeir ad því, sem makt hafa til ad straffa þá, sem Guds þénur-um ofbjóda med ordi edur verki, hvílík Guds reidi yfir þeim hángir, í hverju fári þeirra líf og sál vera muni, þegar hans hefnd vaknar einhvern tíma, nær þeir ecki hjálpa þeim í réttri sök, sem af Gudi eru settir til ad hjálpa sálum óhlutvandra manna úr kverkum Satans, sem er ræníngi sálnanna. Svo eru þeir og nockrir, sem Andskotinn hefir svo blindad med sólskunni, ad nær einn Christí þénari segir þeim til syndanna, vilja þeir ecki þiggja Guds líkhama af hans hendi, þeir gjöra sér þúsund mein fyrr enn þad skuli á þá gánga, og sæta gjarna þeim tíma, nær einhver annar flytur Guds þjónustu í kyrkjunni. Þessa eru mörg dæmi, því verr, og þetta gjöra

sumir af þeim, ed segjast vera nockud, þótt ei kunni þeir prestinn um nockra sök ad klaga, og nefna þetta samvitsku-veiki sína, hvar í þeir fara ei mjøg villt, því Djøfullinn plágar sálir þeirra med heiptinni, sem þeir leggja á þann, er þeir ættu nærst Gudi og konúnginum ad elska. Segid mér, mun ecki Satan hlæa ad slíkum dáraskap? og mun ecki Drottins líkhami fordæma þá merkiliga, nær þeir stelast til ad medtaka hann med svoddan hjartalagi móti sínum kénni-fødur? mun ecki hans dýra blód, med hverju syndarinn er endurkeyptur, hrópa bølvan í himininn yfir þeim? Það auga, sem spottar sinn fødur, edur forsmáir hlýdni módur sinnar, það munu hrafnarnir útkroppa, segir Salómon; en segid mér, eru ecki réttsinnadir kénnendur fedur vorir? Próv. 30; segir ecki Páll, 1 Cor. 4: eg hefi gétid ydur í Jesú Christó fyrir Evangelíum. Þeir eru og rétt-kalladir þessu nafni, sem góda forskødu veita, því svo sem vorir líkhamligir foreldrar eru medal til ad framkvæma náttúrunnar verk, svo eru og hinir andligu, sem eru réttsinnadir ordsins þénarar, medal til þess ad framkvæma Guds verk í oss, sem er øllu ædra, því á þá eingu sídur ad elska og virda; en það kalla eg ad hinn grádugi hrafn, Djøfullinn, hafi alla-reidu þeirra sálar-augu útkroppad, sem hata svo nockurn Guds ords þénara, sem er hans fadir, ad hann vill ecki þiggja af hønum þá Guds þjónustu, er hann á øllum Christí limum ad veita, og gjørir sig þannig Guds ríkis óverdugan. Heyrid því St. Páls ord, af pistlinum til Hebr. kap. 13: hlýdid ydar leidtogurum og heyrid þeim, þeir ed vaka yfir ydar sálum, svo sem þeir ed þar-fyrir eiga reikníngskap ad gjøra, svo þeir gjøri það med fögnudi og ecki med andvarpan, því það er ydur óþarfligt. Það er hinn ædsti føgnudur Guds ords þénara, sem vilja trúir finnast, ad þeir fái nockud áorkad med sínu ervidi, og því kallar Páll þá í Philippis sinn føgnud og sína kórónu, Phil. 4, því segist hann ecki þurfa hóls-bréfanna vid, er hann skrifar Korinthíis til, þvíad þeir séu sitt bréf skrifad í hjarta sínu, sem skilid og lesid verdi af øllum møunum, 2 Cor. 3. Aptur er það hin mesta sorg, nær þeir fá eingu til leidar komid vid suma menn, nær þeir sjá fyrir fram, ad þeirra saudir vegna þvermódsku sinnar deya út af frá því heilnæma fódri Guds orda, ecki tímanligum, heldur eylífum dauda. Augústus keisari sagdi um børn sín, er skickudu sér illa, og midur enn hans tign sómdi, ad þau væri sínar þrjár ákomur; svo mega trúir Guds þénarar segja um það illgresid, er Djøfullinn sáir nidur í Guds akri, sem þeir eru yfirsettir; það eru þeirra ákomur, þeirra meinsemdir, það eru illsku-kýli og graftrar-mein, sem eta í kríngum sig med vondum dæmum, og eitt súr-deig, sem spillir øllu deiginu ef til vill, nema þau læknud séu. Í þridja máta eigum vér sálusorgurum vorum ærligt uppheldi ad veita; það baud sjálfur Drottinn hjá Matth. kap. 10, er hann sendi þá út ad predika: verdur er verka-madurinn sinna launa, sagdi hann; það hefir hann ítrekad fyrir munn St. Páls, hver þó ervidadi sjálfur med sínum eigin høndum, svo hann ecki legdi þýngsli á søfnudinn í Korinthó; hann segir í hinu fyrra sendi-bréfi til þeirra, kap. 9: hver fer nockurn tíma í hernad uppá sinn eiginn kostnad? hver plantar víngard og etur ecki af hans ávexti? hver fædir hjørdina og etur ecki af mjólk hjardarinnar? Þér

id vel br. m., vér gjörum svo, vér gjöldum kénnifedrunum þad lögin oss tilsegja;
d er satt; mörgum fer vel í því, þeir eru og sumir er meira gjöra enn lög-skyldan
dur, og hafa þeir hjá Gudi launa ad vænta, sem ekki vill láta einn vatns-dryck
unadan vera sem gefinn er í lærisveins nafni, Matth. 10, þad er, jafnvel hid
nsta, sem hans þénurum er til góda gjört, um hverja hann sér-í-lagi talar í þess-
i stad, þótt þad og megi til fátækra heimfærast; en svo munu aptur á-mót finnast
r, sem ecki eru svo mjög adgjætnir í slíku, þeir ed greida þad þeim greida byrjar med
i, med eptirtölum, med rángsleitni, í því er sízt hagar, og á hinum óhentugasta
ia, og þykir þad nærri því verst allra skulda lokid, sem goldid er Drottins þén-
im, og kalla ad prestur hafi ecki mikid fyrir sínu braudi. Ecki gét eg sagt ad
líkar manneskjur elski mjög sálir sínar, því annars mundu þeir hirda meir um
n sálusorgara; lítid vita þeir af hvad kénnimanligu embætti fylgir, hver mæda,
er umhyggja, hver ástundan, ef þad af alvöru nockurri gjört er. Segid mér,
in þad lítil mæda ad þeir vaka yfir ydar sálum med bæninni til Guds, med
kgæfni í hans heilögu ordi sem ydur skal prédikast? munu þeir hrista þad fódur út
erminni, er sérhverjum ydar géfa skal í réttan tíma? mun ei þurfa ómak og ad-
tni til ad þeckja svo hvern einn af þeim, sem Guds þénara er tiltrúad, ad hann
eti bodid þad hverjum einum sem hönum er haganligast? leggja ydar kénnifedur
i optliga sitt líf í hættu fyrir ydar velferdar skuld? mega þeir ecki taka á sig þá þyckju
óvild vondra manna, nær þeir segja þeim til syndanna? byrjar þeim ecki ad
inga sinn eiginn líkhama ad ecki prédiki þeir ödrum, og verdi sjálfir rækir? 1 Cor.
og hvad allra þýngst er, ad þeir skulu gjöra hinum alvalda Dómara himins og
dar reikníngsskap fyrir sálir ydar á degi alls holds, og svara til ef nockur tapast,
ert þad er af hans sjálfs vöntum edur kénnimannsins vanrækt. Viljid þér segja mér
, ad einn prestur vinni ecki fyrir sínu braudi? edur hönum sé ofgéfid þad hann
tur? Þér segist gjalda þad þér erud skyldugir; svo er þad fyrir mönnum, einginn
in meira út ad heimta. Eg segi ecki heldur ad þér skulud géfa þeim fram yfir skyld-
iar, sem nóg uppheldi hafa, og sjálfir ættu heldur ad leggja af vid adra enn taka
þeim; en hina er vinna þurfa baki brotnu, þeir og þeirra börn og kvinnur
ir lífs-næríngu sinni, sökum lítils uppheldis, sem vída er, þá ættu menn ad þeckja
mar ödrum, svo sem Páll býdur, 1 Tess. 5, segjandi: eg bid ad þér þeckid þá, sem
ida á-medal ydar, og ydur forstödu veita, og kénna ydur, og ad þér hafid þá yfir
ta kjæra fyrir þeirra verks skuld. Ad þeckja, merkir hér ad elska, svo sem Postul-
i leggur þad sjálfur út, ecki einasta med ordi og túngu, heldur med verki og sann-
ka, 1 Jóh. 3; eg þecki mína saudi, og eg þeckist af mínum, segir Jesús, Jóh. 10.
vo sem Gud þeckir oss, þad er elskar, svo eigum vér ad þeckja vora kénni-fedur; en
ernig þeckir Gud oss? þannig ad hann géfur oss alla hluta ánægjanliga til not-
iar, 1 Tím. 6; svo eigum vér ad meddeila þeim öllum gjædum, sem oss uppfræda í
inu, Gal. 6. Hvad medtökum vér af Guds hendi fyrir þeirra medalgaungu? and-
fódur sálna vorra. Heyrid þá hvad Páll segir hér-um, 1 Cor. 9: ef vér höfum

sád ydur hid andliga, er þad þá mikid, ad vér uppskérum ydvart hid líkhamliga? Þú géldur allar skyldur prestinum, þad er gott, hann kann ei meira ad heimta; en ef þú sér þinn sálusorgara naud lída, húngra, þyrsta edur klædlítinn vera, og þú hjálpar honum ecki, ef þú hefir rád þar til, þá hefir þú eingan-veginn lokid þína skyldu Gudi, sem er bædi þinn og hans Drottinn; því ef Postulinn segir, ad Guds kjærleiki sé ecki í þeim, ed svo breytir, vid einhvern annann sem naudstaddur er, 1 Jóh. 3, hvernig má hann vera í þeim, er svo gjørir, vid sinn kénni-fødur, sem hønum er framar ødrum vanda-bundinn? Hugsa því ecki med þér, ef þú átt fátækan sálusorgara, þann er rækir sitt embætti: hvad er mér vandara enn þeim, sem lifa í ødrum søfnudum? þegar eg géld og géf eins og þeir, þá hefi eg aflokid skyldu minni, því Gud hefir gjørt betur til þín en hans, sem eckert þarf af ad leggja vid sinn kénni-fødur, þar hann hefir géfid þér orsøk til ad leggja skuld iun hjá sjálfum sér, ecki þess vegna, ad hann kunni nockrum skyldugur ad verda, heldur sakir sinna fyrirheita. Eg Páll hefi skrifad med minni eigin hendi, eg skal betala, sagdi hann fordum í sendi-bréfinu til Philemónem; en eg er Gud alleina ríkur, eg hefi talad fyrir munn míns eingétins Sonar, ad einn vatns-dryckur í lærisveins nafni skuli ei ólaunadur vera, segir Drottinn, Matth. 10. Sá sem vill sjálfum sér vel, hann gjøri vel vid sinn kénni-fødur; sá sem sjálfan sig elskar, hann elskar sálu sína; hver ed sína sálu elskar, hann elskar Gud, sem hana skapad og frelsad hefir; sá ed Gud elskar, hann elskar hans þénara; sá ed hans þénara elskar, hann sér ógjarna ad þeir naud lídi, ef hann fær vid því gjørt; þar-fyrir, sá sem vill sjálfum sér vel, hann vilji undir eins sínum sálusorgara, sem hønum er í Guds stad settur. En Gud allsherjar, sá ad er Fadir vor allra, hann stjórni oss svo hér í nádinni, bædi yfirbodnum og undirgéfnum, ad vér þeckjum svo hver annann, ad vér um sídir af hinum ædsta Biskupi og Hirdir sálna vorra mættum þecktir verda og innleiddir á land lifandi manna, svo þar verdi eitt sauda-hús og einn hirdir. Þad bænheyri hinn nádugi Gud, fyrir Jesúm Christum, amen!

---

# Mag. Jons Thorkelssonar Vidalins

(Fyrrum Biskups í Skálholts-stifti)

# Húss-postilla

innihaldandi

# Predikanir

yfir

## øll Hátída og Sunnudaga Gudspjøll
árid um kríng.

---

## Sidari Parturinn
frá Trinitatis hátíd til Adventu.

---

11ta Útgáfa.

---

Prentud í Kaupmannahøfn hjá C. Græbe.

1828.

# Á Trínitatis Hátíd.

Gudspjallid, Jóh. 3 Kap.

Í þann tíma var þar einn madur af Pharíseunum, Nicodemus ad nafni, einn höfdíngi Gydínga. Hann kom til Jesú á náttarþeli, og sagdi til hans: rabbí! vér vitum ad þú ert einn lærimeistari kominn af Gudi, því enginn getur gjört þau teikn, sem þú gjörir, utan Gud sé med hönum. Jesús svaradi og sagdi til hans: sannliga, sannliga segi eg þér, þad enginn, nema hann, sá ed fædist ad nýu, fær ad sjá Guds ríki. Nicodemus sagdi til hans: hvornin má madurinn endurfædast, þá hann er gamall? hvort getur hann horfid aptur í sinnar módur kvid, og fædst svo ad nýu? Jesús svaradi: sannliga, sannliga segi eg þér, nema þad nockur verdi endurfæddur út af vatni og anda, þa kann hann ecki inn ad gánga í Guds ríki. Hvad af holdi er fædt, þad er hold, en hvad af andanum er fædt, þad er andi. Undrast þú ecki, ad eg sagdi þér, ad ydur byrjar ad fædast ad nýu. Vindurinn blæs hvar er hann vill, og þú heyrir hans þyt, en eigi veitst þú hvadan hann kemur, eda hvort hann fer; svo er og sérhvor af andanum fæddur. Nicodemus svaradi og sagdi til hans: hvornin má þetta ské? Jesús svaradi hönum og sagdi: ertú einn meistari í Israel og veitst ecki þetta? sannliga, sannliga segi eg þér, ad vér segjum þad vér vitum, og vitnum hvad vér séd höfum, og vorn vitnisburd medtakid þér ecki. Hafi eg sagt ydur jardneska hluti og þér trúid ecki, hvornin munud þér þá trua, ef eg segda ydur himneska hluti? enginn uppstígur til himins, utan sá, sem ofan sté af himni, Mannsins Sonur, sá sem er á himni; og svo sem Moyses upphóf höggorminn á eydimörkinni, líka svo byrjar Mannsins Syni upp ad hefjast, svo ad allir þeir, sem á hann trúa, fortapist eigi, heldur ad þeir hafi eylíft líf.

## Exordium.

Mikil var blindni heidíngjanna fordum daga í Guds dýrkan; hinir vísustu af þeim segdu, ad eitt mikid ríki kynni ecki lengi ad standa fyrir utan einvalds-dæmi; þó skopudu þeir sér ótal gudi til ad stjórna allri veröldinni, svo sem einn væri ecki fær um ad ráda fyrir því, er þeir þó af náttúrunnar ljósi þeckja máttu, ad hann sjálfur skapad hefdi; og svo ad þeir á einhvern hátt fengju smídad sér einvalds-dæmi í heiminum, þá trúdu þeir, ad einn væri þeirra mestur, sá ed ödrum stjórnadi, átti þó slíkt ad vera eptir mannligum plagsid, svo ad hann þurfti þeirra vid á stundum, eins og Agamemnon sinna undirkonúnga, þó hann héti hjá Grickjum konúnganna konúngur. Þegar eg athuga þetta, þá kemur mér í hug þad sem Pálus skrifar, 1 Cor. 3, ad speki veraldar þessarar sé heimska [illegible] Gudi; og undir eins brennur mitt hjarta í mér af elskunni til míns Skapara, ad hann hefir opinberad oss, sínum vesælingum, þad sem hulid var fyrir spekíngum og vitríngum, þar vér trúum á einn Gud þrennan í eíningu og einan í þrenningu, hver ed einkis vidþarf, en allir hans, og er sjálf-

rádi allra hluta bædi á himni og jørdu, svo sem Davíd segir í Ps. 115: vor Gud er á himnum og gjørir hvad honum líkar. Þessarar háleitu Guddómsins þrenníngar vegliga hátíd egum vér nú í dag ad halda, á hverri oss verdur prédikad þad evangelíum, sem innibindur þá helstu velgjørnínga, er Fadir, Sonur og heilagur Andi hafa veitt oss syndugum mønnum til miskunar, þad er endurgetníngin og endurlausnin, af hverjum allt annad hángir, sem hinn nádugi Gud vill láta oss þjéna til sálubjálpar. Um sjálfa hlutina hefi eg ádur í þessari bók vída talad; en þad er merkiligt í þessu Gudspjalli, ad hér kemur einn høfdíngi Gydínga, einn meistari í Israel, til ad læra þessa himnesku frædi af honum, sem til þess var sendur úr Fødursins skauti ad opinbera hana syndugum mønnum. Því viljum vér nú hér af athuga: einn fróman, en þó fávísan lærisvein, og undir eins einn gódan og svo alvísan meistara, med þeim lærdómum, er þeirra samtal med sér færir. Styrk oss til þessa verks, gódi Gud! med nád þíns Anda, fyrir Sonarins forþénustu, amen.

## Utleggíngin.

Þar var einn madur af Pharíseunum, segir textinn. Hvílíkan vitnisburd Drottinn gefur þesum flock, má allvída sjá í Gudspjallamannanna bókum, og þó ecki sídst hjá Matth. 23 kap, hvar hann medal annars kallar þá eyturorma og nødrukyn; þó fannst þesi gudhræddi madur medal þeirra. Þad ord stendur stødugt um æfi, ad þeckir Gud þá, sem hans eru, segir Postulinn. Lær þad af þessa góda manns dæmi kristinn madur, ad ei samlagir þú þig vondri verøldu þesari, þótt þú hljótir í henni ad lifa. Þar var þó einn Abraham í Gerar, einn Loth í Sódóma, einn Hóbadía í Achabs húsi, einn Símeon, einn Zacharías, þesi Nicódemus og Jóseph af Arímathía á Christí døgum, hverjir hinir sídustu tveir ecki samþycktust Gydíngum í lífláti Drottins, Lúk. 23. Svo varid ydur og, børn mín! þér sem lifid í hreckvísri øld þesari medal vor, en viljid þó Drottinn óttast, ad ecki dragid þér ok med henni, svo þér ei medtakid af hennar plágum, heldur skýnid svo sem ljós í myrkvum stad á medal þesarar prettvísu kynslódar, og treystid því, ad sú alvoldugu bæn, er Frelsarinn beiddi fyrir sínum lærisveinum, hún nær og til ydar, ef þér óttist Gud, þar hann sagdi, Jóh. 17: eg bid þig, Fadir! ecki ad þú takir þá burt úr heiminum, heldur ad þú vardveitir þá fyrir hinum Vonda. Sjórinn er saltur, en fiskarnir, sem þar inni lifa, þeir eru þó ecki saltir. Svo ega Guds børn ad vakta sig fyrir spillíngu þeirri, sem í heiminum er af gyrndinni, svo sem Pétur ad ordi kemst, þótt þau verdi ad synda í gégnum þenna fúla damm, á medan Gud vill reyna þau med því ad horfa uppá alla þá óhæfu, sem þar inni framin verdur. Þesi madur var einn høfdíngi Gydínga; án efa einn af þeim 70 øldúngum þess mikla ráds; samt var hønum svo mjøg gefid um velferd sálar sinnar, ad hann þóttist ecki of-gódur til ad læra af Jesú, hvern hans lagsmenn kølludu vínsvelg, vin tollheimtumanna og bersyndugra. Hvad gjøra þeir hér á mót, er sig kalla høfdíngja medal vor, og eru þó vesælíngar ad reikna hjá Nicódemó? eg voga ad segja, þeir vita ecki sumir hvad þeir ega ad trúa; frædin hafa þeir lært ad sønnu, en eg þecki þá, sem ecki skilja øllu meir í þeim, heldur enn géldíngur drottníngarinnar Candaces í spádómi Esajæ; en hvert þeir eru svo leiditamir til ad láta sér undirvísa, svo sem hann var, þegar Philippus til hans kom, Act. 8, þad bid eg þá ad hugleida, sem jafnvel hata sína sálusorgara fyrir heilsusamligar kénníngar og þótt sumir af þeim megi vita ad neckru leiti,

hvad þeir ega ad trúa og gjøra, þá mega þeir þó ecki sauuleikann heyra af Prestsins munni reidilaust; medan hann þegir yfir lýtum þeirra og skommum, þá er hann Guds eugill, en tali hann um nockra óhlutvendi, þá sturlar hann Israel, eins og Elías, 1 Reg. 18; hann skýtst undir Chaldeos, eins og Jeremías, Jer. 37, og verdur allt til saka fundid. Gud betri þessa tíma! Talid þad sem oss er þóknanligt, søgdu Júdar fordum; sú øld er apturkomin, spádómur St. Páls er rættur, þeir samanhrúga sér lærendum eptir því sem eyrun klæja; menn láta svo dátt ad løstum sínum, eins og módir ad einasta syni, jafnvel þótt þeir séu bædi margir og ljótir; menn elska sinn eginn þreck, eins og sjáaldur auga síns, svo eru menn vidkvæmir, nær hann snertur er, svo sem væru þad sár; og ad mestu leiti eru vorir høfdíngjar svo lyndir, eins og Jóachim kóníngur, þá hans þénari Júdí hafdi lesid honum þrjú eda fjogur blød af spádómi Jeremíæ, þá skar hann bókina í sundur og kastadi henni í eldinn, Jer. 36; eg ætla þá einu gildti, þótt allar bækur væri brendar, sem hljóda um Guds ótta, og allir munnar tilbyrgdir, sem þar um tala.

Nicódemus kom til Jesúm á náttarþeli; án efa fyrir ótta sakir, eins og Jóseph af Arimathía, er var heimugligur Christí lærisveinn, søkum hrædslu vid Gydínga, Jóh. 19. Veikleiki fannst nockur hjá þessum gódu mønnum í slíku, og þó var þad upphaf til þeirra hjálprædis. En þú, sem engan þarft ad óttast í því ad fylgja Christó eptir, tak þér dæmi af Nicódemó í því ad vilja læra af honum, og þeim sem hann hefir í sinn stad sett, en ecki í því ad fordast veraldina ad slíku. Þad er audrádid af samtali Drottins vid hann, ad hann hefir ecki verid mjøg fródur i kristinndóminum, þegar hann fyrst kom, en ecki vardi þad lengi, þar til hann vogadi ad forsvara Christum berliga í rádinu, er hann sagdi: dæmir nockud vort løgmál manninn, nema hann sé ádur heyrdur, Jóh. 7; og mátti heyra þar fyrir: ert þú og vordinn Galíleus? sem var hin mesta smán medal Gydínga. Þad mátti sýnast, ad úti væri med Christ, þegar hann var svo sem illrædismadur til dauda dæmdur og á gálgann uppfestur, hvar hann lét sitt saklausa líf. Ecki er líkligt, ad þeir Jóseph muni hafa verid fródari um upprisuna, heldur enn lærisveinarnir, samt vogudu þeir ad greptra hann, og vordu þar til fémunum sínum; svo er Gud kroptugur í gódum vilja, þótt veikur sé. En þú, sem vordinn ert sannfródur um dýrd Drottins í hans upprisu, og veitst, ad hann situr til Kraptarins hægri handar, breit eptir Nicódemó í þessu, og lát þér einkis mál svo skyldt vera, ad þú afrækist rétt ad gjøra; lát enga veraldar magt svo ofbjóda þér, ad þú í minnsta máta skérdir dýrd þíns Guds, í því ad fremja þad eptir mannanna bodi sem hann bannad hefir. O! hversu fávísir og ónýtir eru allir þeir, ed kalla sig óhulta, nær þeir gjøra allt hvad hinn voldugi býdur þeim. Heyri þeir hvad Drottinn segir, fyrir munn Zóphóníæ, kap. 1: eg skal á þeim degi straffa alla þá, sem støckva yfir þrepskulda, hverjir ed uppfylla hús drottna sinna med ráni og svikum. Sama er um allt annad ad segja, sem nockur ofríkismadur býdur á móti Guds bodi, hvert hann er hærri eda lægri stéttar. Þannig var nú Nicódemó háttad, sem ádur er sagt, þá hann kom til Jesúm; en hvert eyrendid verid hafi, er audsært af Lausnarans andsvari, þó ecki standi hans spurníng útþryckiliga í Gudspjallinu; hann hefir án efa viljad frædast af Drottni, med hverju móti hann kynni Guds ríki ad erfa; en Drottinn, sem allt vissi hvad med honum bjó, hann

svarar honum ecki eins og hinum ríka ýngismanni, hjá Matth. 19, er frétti hann ad, hvad hann gjøra skyldi svo hann mætti eignast eylíft líf, hverjum hann vísadi til løgmálsins, af hvers verkum enginn kann þó hólpinn ad verda; hvar fyrir? af því hann þóktist løgmálid uppfyllt hafa; ecki svo sem Pharíseis og Heródis þénurum, er komu til hans med vidlíkum formála og Nicódemus, en þó fullir af undirhyggju og fláttskap, og spurdu ad, hvert ad leyfdist ad gefa Keysaranum skatt edur ei; ecki svo sem kennimønnunum og øldúngunum, er spurdu hann ad, af hverjum myndugleika hann kendi, Matth. 21. Drottinn vissi, ad Nicódemus var í løgmálinu nógu fródur ad Gydínga plagsid, því hann var einn meistari í Israel; þar fyrir tekur hann ecki ad undirvísa honum í því, sem honum var ábóta vant, og opnadi honum enar fyrstu dyr lífsins vegar, sem er endurfædíngin, med þessum ordum: nema ad einhver fædist ad nýu, þá kann hann ecki ad sjá Guds ríki. Hér af má sjá, hversu megnt fáfrædi ad drottnad hefir medal Gydínganna í andligum efnum þegar Christur kom; þad sýnist, ad þeir hafi ecki þeckt upprunasyndina, jafnvel þótt þeir mættu lesa hjá David, Ps. 51: í syndinni em eg alinn, og í syndinni hitnadi minni módur med mér; ecki endurfædínguna, edur ætlad, ad umskurnin mundi vera hennar medal af Gudi tilskickad, heldur svo sem nockurskonar útvortis teikn, med hverju Israels fólk væri adgreint frá ødrum þjódum, þar þó Moyses segir þeim berliga, Deut. 30: Drottinn mun umskera þitt hjarta og þíns sædis hjarta, til ad elska Drottinn Gud þinn af øllu hjarta þínu og af allri øndu þinni, svo ad þú lifir; hvar ei kann ad vera annad meint, enn þad, sem Páltus umtalar, Róm. 2, er hann nefnir umskurn hjartans, sem er í andanum og ecki í bókstafnum, hverrar lofstír ecki er af mønnum, heldur af Gudi. Ur þessari villu vill nú Drottinn fyrst hjálpa Nicódemó; og megum vér kristnir menn ódaudligar þackir Gudi kunna, ecki einasta fyrir þad hann hefir endurgétid oss til einnar lifandi vonar, sem Pétur ad ordi kémst, 1 Pet. 1, heldur og þad, ad hvert barnid á medal vor á kost á, ad nema þá himnesku speki um endurgétnínguna og hennar krapt, sem þessi hálærdi øldúngur vissi eckert af. Gud gæfi ad bædi kénnifedur og foreldrar hefdu svo mikla ástundan á ad brýna þvílíkt fyrir sínum børnum og hinum einføldu, svo sem þad er ljóst í Guds heilaga ordi, þá mundu menn ecki svo optliga flecka sitt skírnarklædi, sem menn gjøra, þá mundum vær hafa meira traust í mótgánginum og í freistíngunum af því, ad vér erum Christó innplantadir og settir í hans ríki, og kraptur skírnarinnar mundi framar auglýsa sig í endurnýungu lífdaganna og deydíngu holdsins, heldur enn almenniliga skédur. Þad er merkiligt, ad Endurlausnarinn brúkar þetta ord: ad fædast ad nýu. Skírnin er ecki neinn stundar þvottur, er gjøri mann hreinan um sinn fyrir Gudi, heldur verdur hinn skírdi ný skepna í Guds augliti; og þar fyrir kallast þad endurgétningar laug, Tít. 3, hverrar kraptur varir um allan þess aldur, er ecki afrækir sinn skírnar sáttmála, heldur kostar kapps um ad endurnýa hann, med betrun lífernisins, dagligana. Sjáid til, børn mín! madurinn fædist í heiminn daudur í uppruna syndinni, blindur í sínum sáluhjálpar efnum, því holdligur madur skynjar ecki hvad Guds Anda er, segir Páltus, 1 Cor. 2; er þad ecki þá ad fædast ad nýu, ad heilagur Andi í skírninni upplýsir hugskotid, endurskapar viljann og gefur oss nýar andligar gáfur, ad vér sáum séd Guds ríki, þeckt þad í trúnni, samsinnt því er um

það talað verður, að vér leitum þess, lángar eptir því og ødlumst það um síðir? hvað ómøguligt er holdi og blóði, svo sem Postulinn vottar, 1 Cor. 15. Spekíngarnir segja, að madurinn sé maður fyrir sálarinnar skuld, því annars beri hann ekkert af kvikindunum; svo er hann og Guðs maður alleina fyrir heilagan Anda, er vér í skírninni meðtøkum, annars er hann ekki einasta skynlaus, heldur og dauður í andligan máta; því er þetta Guðs verk rétt kallað endurfæðíng. Í annan máta er oss kunnugt, að vér fæðumst í heiminn þenna børn reiðinnar, sem Páluus skrifar; þannig er vor náttúrlig fæðíng; en í skírninni verðum vér Guðs børn, þar verða oss fyrir alls ekkert, alleina fyrir Jesú Christí forþénustu, syndirnar fyrirgefnar, en vér réttlættir fyrir hans náð og til arfs teknir með Guðs Syni, því svo útmálar Páluus endurfæðínguna, Tít. 3; segið mér, er ekki slíkt að nýu fæddur að vera? Í þriðja máta innibindur og skírnin í sér ávøxt endurfæðíngarinnar, sem er endurnýúngin, hver eð dagliga á fram að koma og í vøxt að fara, fyrir hverja madurinn endurfæddur verður ein ný skepna, 2 Cor. 5, skapaður í Christó til góðra verka í skírninni, en íklæðist dagliga einum nýum manni, sem endurnýast eptir hans mynd, er hann skapað hefir; og í þessu þrennu er endurgétníngin fólgin, hverja Drottinn vill teiknað hafa, með því orði: að fæðast að nýu. Þó skal enginn svo dárslegur vera, að hann meini, að það nóg sé, að færa børnin á kyrkjuna og láta þau þar vatni ausa og tala Guðs orð yfir, en aldrei síðan vekja í þeim krapt þessa himneska meðals með guðrækiligri uppfræðíngu; þolanligra væri að kasta þeim út á mørkina og láta uppeta af vørgum, sem þó er hinn versti glæpur, heldur enn að ala það upp, sem Guð skapaði í móður-lífi og endurskapaði með heiløgum Anda í skírnarlauginni, Fjandanum til þjónustu, og hønum í bráð, sem er Guðs svarinn óvinur. Umskorinn var Nicódemus, endurgétinn var hann eptir þeirri Guðs skickan, sem varði allt til Christum, en þó var hann svo ófróður um sjálfs síns endurfæðíngu. Meinar þú að barni þínu, sem kannské aldrei fær að heyra nema fávitskuna, því muni betur farnast, enn þessum lærða manni, nema þú alir það á hinni hreinu og skynsamligu mjólk Guðs orða, sem Pétur umtalar, 1 Pet. 2, ef þú ert fær þar um? og sért þú ekki, sem eg dylst ekki við að margur muni vera, hvað Guð betri, þá skammast þín ekki að gánga með Nicódemó, iafnvel á náttar-þeli, það er heimugliga, ef þú blygðast við að gjøra það opinnberliga þar þú ert gamall vorðinn, til Christí þénara eður annara, sem betur vita, til að læra fræði þá, er þú mátt ekki án vera, svo þú fáir hólpið bæði þinni og svo þeirra sálum, er þér er tiltrúað, nema þú viljir kveljast ásamt þeim í eylífum helvítis loga, sem Guð hafði boðið þér með kristiligri uppfræðíngu til himnaríkis að leiða. Ekki fær Nicódemus þetta svo brádt skilið, er Jesús sagði hønum, og því talar hann um holdliga fæðíngu; hønum þótti það øfgar, að madurinn skyldi hverfa aptur í sinnar móðurkvið, nær hann er gamall, og fæðast svo að nýu; en þótt það væri svo lángt frá hans þánka og yfirgengi hans skynsemi, er Jesús talaði, samt forlætur hann ekki Drottinn að heldur, og vill heyra meira hér um talað. Ólíkur var hann þeim, sem á vorum døgum ekki vilja láta sér í Guðs orði undirvísa; St. Páls spá er rætt á þeim, er hann segir, 2 Tím. 4, að þær tíðir muni koma, að þeir muni ekki líða heilsusamligan lærdóm; þeir hlaupa í felur nær þeirra kristinndóm á að rannsaka; þeir skjóta børnum sínum undan, nær

hvílíkt skal um hønd hafa; þeir hærda ad kénnendunum, nær þeir í slíku vilja gjøra sitt embætti, og hrósa því hver fyrir ødrum, ad þeir á einhvern hátt hafi gétad sloppid frá því ad láta leidsegja sér til himnaríkis. Þetta gjøra nockrir af þeim á medal vor, sem bædi eru skírdir og gánga til Guds bords þrisvar, fjórumsinnum á ari hverju, en reidast Guds þénara, ef hann vill ecki leifa þeim og børnum þeirra ad eta og drecka hold og blód Drottins sér til fordæmíngar. Þú vitfyrríngur! munt þú þá heldur vilja til helvítis fara og þar eilífliga brenna, enn ad ljá eyru þín heilsusamligri kenníngu, svo þú megir þinna sálu-hjálpar medala verdugliga njótandi verda? edur villt þú leida þinn kénnifødur í þann sálarvoda, ad hann hafi altarid til ad syndga, eins og Ephraim? Þad gjøra þó allir þeir, ed þá vísvitandi til altaris taka, sem þess óverdugir eru. Ecki styggist Drottinn vid þessa einfeldni Nicódemí, hann vill ecki þenna brákada reyr í sundur brjóta, heldur til þess ad uppræta þessa fávitsku úr hans hjarta um líkamliga fædíngu, þá segir hann hvernig þessari andligu endurgétníngu sé varid, med þessum ordum: nema ad einn endurfædist af vatni og anda, þá kann hann ecki ad inngánga í Guds ríki. Hann blessadur hafdi þá allareidu skírast látid nær þetta skédi, og Jóhannis skírn hefir Nicódemó alkunnig verid; þá var og løgmál umskurnarinnar afmád, svo ad í Christó gyldti hverki umskurn né yfirhúd, því tími endurbótarinnar var kominn, sem Páлus umgétur, Heb. 9; en skírnin var aptur í hennar stad innsett, og Drottins kvøldmáltíd skømmu sídar í stadinn páskalambsins, hver ed vara mun ásamt skírninni þar, til verøld þrýtur; þess getur Pálus, 1 Cor. 11, er hann býdur, ad vér med þessu himneska géstabodi skulum kunngjøra dauda Drottins, þar til hann kémur. Til þessarar alvísu rádstøfunar hinnar háleitu Guddómsins Þrenníngar, vísar nú Frelsarinn þessum sínum lærisvein, og leggur orsøkina til, sem þessi gódi madur hefir ecki ádur skynjad: hvad sem af holdinu er fædt, þad er hold, en hvad sem af andanum er fædt, þad er andi. Þad er upphaf kristinndómsins, ad madurinn viti ecki einasta, ad hann sé spiltur ad nockru leiti af upprunasyndinni, heldur og øldúngis í syndinni daudur, svo ad vor náttúra verdur ad endurfædast med øllu, hvad ómøguligt er ad ské kunni, nema fyrir almættis krapt Guds er manninn í fyrstu skapadi réttan edur heilagan, svo sem hinn vísi Salómon ad ordi kemst, Préd. b. 7; og þeissvegna hefir vor gódi kénnifadir Lútherus látid løgmálid undan gánga ødrum pørtum kristiligs lærdóms, ad vér af því kynnum ad sjá vorn holdligan saurugleik, svo þad yrdi þannig vor tiptunar-meistari til Christum. En hvad sem af andanum er fædt, þad er andi; þad er, þad sem endurfædt er og af Gudi fædt, Jóh. 1, í hverjum Guds sædi er, 1 Jóh. 3, þad er andi; ecki svo, ad holdid umbreytist í anda, heldur verdur sá hinn sami andligur madur, eins og Adam vard ad lifandi sál, 1 Cor. 15, þad er, lifandi madur; hann verdur einn andi med Gudi, ef hann áhángir hønum, 1 Cor. 6, og fóttredur ecki Guds sáttmála, jafnvel þótt ecki sé þess von í þessu daudliga holdi, ad vér aldeilis andligir verdum; því er sú glíman á milli holdsins og andans, er Pálus svo optliga talar um. Þad skedur fyrst í upprisu réttlátra, ad vér andligir verdum til fulls, þá munu vorir líkhamir andligir og englunum jafnir verda, og vorar sálir eitt med Gudi, sem verda mun allt í øllu á því gledinnar landi; því nefnist hún og endurfædíng hjá Matth. 19 kap, þad

er, uppreisn allra hluta, svo sem Pétur þad kallar, Act. 3. Vissi Drottinn ad ei mundi Nicódemó skiljast þetta enn nú, því segir hann hér strax eptir: undrast ecki, ad eg sagda þér, ad ydur byrjadi ad nýu ad fædast; og ecki einasta segir hann þad, heldur þar ad auki framsetur hann eitt ómótmælanligt dæmi uppá fávitsku hans og annara daudligra manna, sem lángt eru frá því ad skilja þá hluti, er þeir dagliga umgángast, aukheldur ad þeir skynja muni þá himnesku, er svo lángt yfirgánga mannligan skilníng: vindurinn blæs og þú heyrir hans þyt, o. s. fr. Drottinn blés á lærisveinana og sagdi: medtakid þér heilagan Anda! H. Andi kom í sterkum vindi yfir postulana á hvítasunnudøgum. Svo tekur nú Frelsarinn hér dæmi af þeim hlut, sem andanum var líkastur, til ad hjálpa fáfrædi þessa einfalda manns. Vér heyrum allir vindinn þjóta, vér finnum hans megn á líkamanum, enginn sér hann þó, enginn veit hvar hann hefir sín upptøk; vindurinn blæs á sømu stundu í ýmsum støduni, af austri og vestri, af nordri og sudri; seg mér, hvar hafa þessir vindar sín upptøk? hvört fara þeir? hvar slotar þeim? fyrst enginn hefir enn nú fundist svo vís, ad hann géti sagt oss þad, hversu munum vér þá skynja þad, sem miklu meir yfirgengur vorn skilníng? En svo eru og allir þeir, sem af andanum eru fæddir; þeir finna Guds anda hræríngar í sálu sinni, þegar hann straffar syndina, uppvekur ydranina, lífgar trúna, kveikir elskuna, eblir þolinnmædina og verkar adrar kristiligar dygdir. Vér vitum og, ad hann er frá Gudi kominn, af því ritníngin hefir sagt oss þad; en hvernig hann er frá Gudi útgenginn og í hjartad komminn, þad vitum vér ecki, því Guds ríki kémur svo þad verdur ecki adgætt, segir Frelsarinn, Lúk. 17; ecki heldur vitum vér hvört hann fer, því andinn fer í burt og kemur inn aptur. Vér vitum ad hann færir oss inn í eylíft líf, ef vér slockvum hann ecki; en þad líf þeckjum vér ecki, nema svo sem fyrir spegil og í rádgátu, því þad er ósýniligt enn nú, hvad vér verda munum, og vort líf er fólgid í Gudi, Cól. 3. Þar fyrir, sá sem finnur verkanir H. Anda í sálu sinni, og vill þó ecki endurfædíngunni trúa, þad er eins og vildi hann neita því ad vindurinn blési, en gæti þó ecki sjálfur á jørdinni stadid fyrir ofvidri; ef vér því neydumst til náttúrunnar verkan ad trúa, þótt ei skiljum vér hennar orsøk eda upptøk, því skyldum vér ecki géfa vora skilníngu fángna undir hlýdni trúarinnar í andligum efnum, sem svo miklu eru óskiljanligri.

Ecki ber Nicódemus á móti þessum vísdómsfulla sannleika, er Drottinn taladi, en þó vill hann frædast giørr hér um, og því segir hann: hvernig má þetta ské? Þar fyrir tekur Lausnarinn til þess, sem sterkast var, þad var hans eginn vitnisburdur, sem er í Fødursins skauti: sanpliga, sanpliga segi eg þér, vér vitum hvad vér segjum, og vitnum hvad vér séd høfum. Engin røk edur vitni eru svo sterk sem þetta, Gud hefir þad talad; því sagdi Jesús fordum vid Gydínga, Jóh. 8: þótt eg beri vitni af sjálfum mér, þá er þó mitt vitni stødugt. En þetta vissi Nicódemus ennþá ecki; hann sagdi ad sønnu í ondverdu samtalinu: meistari! vér vitum þú ert einn lærifadir af Gudi, því enginn kann ad gjøra þau verk, sem þú gjørir, nema Gud sé med hønum. Hefdi hann sagt: í hønum, þá hefdi hann rétt talad, en svo var hann enn þá ecki upplýstur; þó byrjadi hønum ad trúa Christó, þar hann játadi, ad hann væri af Gudi, og gjørdi svo mikil kraptaverk. En Drottinn lét hann ecki lengi vada í villu þessari, heldur skírir hønum berliga frá, hvert

hann sé, segjandi: enginn mun uppfara til himins, nema hann, sem ofan sté af himni, Mannsins Sonur, hver ad er á himni. Þetta ord, ad uppstíga til himins, merkir í ritníngunni ad rannsaka Guds leyndarrád; svo segir Agúr um Ethíel og Ucal, Ordskv. 30, það er um hann, sem heitir Gud med oss, og sá máttugi, það er Christur: hver mun uppfara í himininn og ofan þadan? það er, hver mun Guds leyndardóma rannsaka; þar um talar svo Moyses, Devt. 30: það bodord, er eg býd þér í dag, það er ecki hulid fyrir þér, edur lángt í burtu, það er ecki í himninum, svo þú segja þurfir: hver mun fara fyrir oss upp í himininn? þau ord útleggur St. Páll, Róm. 10, þegar hann hefir ádur talad um leyndardóm mannsins réttlætíngar fyrir Gudi, kap. 9: þú skalt ecki segja í hjarta þínu: hver mun fara fyrir oss upp í himininn? það er ad toga Christum ofan úr hædunum; hvar fyrir? því hann var einusinni ofan til vor kominn, og færdi oss þessa himnesku speki úr skauti Födursins, því þurfti enginn upp aptur ad fara í himininn til ad rannsaka Guds vilja um mannsins sáluhjálp. Það er hid sama, sem Drottinn segir hér Nicódemó: eg, sem ad vid þig tala í líkíngu syndugs holds, ad hegdan fundinn sem madur, og er ofankominn af himni af míns Födurs skauti, eg veit hvad eg segi og vitna hvad eg séd hefi: enginn annar mun uppfara í himininn til ad rannsaka Guds vegu nema eg, sem nú er á himni, þótt eg hér vid þig tali, því byrjar þér mínum ordum ad trúa, ef þú villt hólpinn verda. Þessi er efalaust meiníng Frelsarans, því enginn hefir um aldur Gud sénan; sá eingetni Sonur Födursins, sem er í hans skauti, hann hefir oss það opinberad, segir Jóh. kap. 1. En líka sem Moyses upphóf höggorminn á eydimörku, svo byrjar Mannsins Syni upp ad hefjast, segir Frelsarinn. Einhverr mætti adspyrja: hvad kemur þessi fyrirmyndan hér vid? Enginn er betri, kristinn madur! í öllum fjársjódum ritníngarinnar, enginn sem betur hlýdi uppá það efni, sem hér var umtalad; því valdi Frelsarinn hana til ad sannfæra Nicódemum med, hver hann vissi ad var uppfræddur í lögmálinu. Páls segir, Heb. 9, er hann þydir gamla testamentisins fórnir uppá Christum, sjálfur Gydíngur fyrir ödrum Gydíngum: hversu miklu framar mun þá blódid Christi, segir hann, sem fyrir hinn eylífa anda hefir fórnfært sjálfan sig óflekkadan Gudi, hreinsa samvitsku vora af daudligum verkum til ad þjóna Gudi lifanda. Segid mér! hvar verda vorar samvitskur fyrst hreinsadar? í skírninni; þar fyrir kallar Petur hana sáttmála gódrar samvitsku; fyrir hvad verda þær hreinsadar? fyrir Jesú blód, sem vitanligt er af Postulans ordum, er strax voru lesin; hvar gaf Frelsarinn það út? í grasgardinum; í þíng-húsi Pílati, en allra helst á krossins gálga, því þar blæddi sjálfu lífinu til ólífis, og daudi hans var fullkomnan vorrar hreinsunar; því sagdi hann undir andlátid: það er fullkomnad. Hver fyrirmyndan gamla testamentisins hlýdir nú bezt uppá krossfestíngu Drottins? engin betur enn þessi, nær Moyses eptir Guds bodi upphóf eyrorminn á eydimörku. Moyses heingdi orminn uppa tréd; svo er og Jesús á gálganum uppheingdur; uppá tréd bar hann vorar syndir, og festi þar handskriftina, þá sem móti oss var, Col. 2. Í þeim ormi var eckert eytur, þótt hann væri hinum ödrum líkur; Guds Sonur er ad allri hegdan fundinn sem madur, þó án syndar;

hann er fyrir oss syndugа orma madkur og ecki madur vordinn, jafnvel þótt hann væri hreinn og heilagur og fráskilinn syndurunum; já, þótt hann ecki vissi af synd, þá gjördi Gud hann ad synd, svo vér yrdum Guds réttlæti í honum, 2 Cor. 5. Allir þeir ed litu þann eyrorminn, sem Moyses uppsetti, þeir urdu læknadir af eyturorma bitinu; þú minn herra, Jesú! ert á tréd upphafinn, svo ad allir þeir ed þig líta trúarinnar augum, þeir verdi læknadir af því biti, er hinn slægi höggormur, Djöfullinn, beit vora fyrstu módur med, og oss sídan dagliga bítur; því segir hér og í gudspjallinu: svo byrjar Mannsins Syni upp ad hefjast, svo ad allir þeir, sem á hann trúa, fyrirfarist ecki, heldur hafi eylíft líf. Þú hefir sagt, Drottinn minn! ef eg upphafinn verd, mun eg draga alla til mín, Jóh. 12; þad er ecki Gydínga einasta, heldur alla þá, af öllum þjódum, sem þinn Fadir hefir þér gefid. Svo drag oss þá, herra Jesú! sem búum í þessu fátæka landi, hverja þú eins vel leyst hefir med þínu dýrmæta blódi og adrar þjódir, drag oss, segi eg, undir þinn kross, ef þér svo líkar, já, uppá krossinn med þér, ef þad má til þinnar dýrdar gagna og vorrar sáluhjálpar, þad er oss fyrir minnstu þínum minnstu vesælíngum. Vér vitum þú sagdir vid Gydínga: þegar þér hafid Mannsins Son upphafid, þá munud þér þeckja ad eg em hann, Jóh. 8. Því trúum vér ad þú ert, Drottinn minn! ad sigrudum dauda, Djöfli og helvíti, yfir alla himna hafinn í þína dýrd, til ad búa oss þar víst í þíns Födurs húsi. Drag oss þángad med þér, ó, herra Jesú! svo ad hvar sem þú ert, þar megi og þínir þénarar vera. Þér, med Födur og heilögum Anda, sé vald, heidur, dýrd og kraptur, þú háleita Guddómsins þrenníng! um aldir alda, amen!

## Fyrsta Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Lúk. 16 Kap.

Í þann tíma; Jesús sagdi til Pharíseanna: þar var einn ríkur mann, sem klæddist perli og purpura, og lifdi hvern dag í vellystíngum praktugliga; og þar var einn þurfa-madur, Lazarus ad nafni, hver ed úti lá fyrir hans dyrum, fullur kauna; hann gyrntist ad sedja sig af þeim molum, sem féllu af bordi hins ríka; þá komu hundar og sleiktu hans sár. En svo skédi, ad hinn voladi andadist, og vard borinn af englunum í fadm Abrahams; en hinn ríki andadist líka, og var greftradur. En sem hann var í helvíti og kvölunum hóf hann upp sín augu, leit Abraham álengdar og Lazarum í fadmi hans; því kalladi hann og sagdi: ó, fadir Abraham! miskunna þú mér og send Lazarum híngad, ad hann drepi hinu fremsta síns fíngurs í vatn, og kæli túngu mína, því eg kvelst í þessum loga. Og Abraham sagdi til hans: sonur! hugleid þú, ad þú medtókst hid goda í lífi þínu og Lazarus líka hid vonda, því hlýtur hann nú ad huggast, en þú ad kveljast. Fram yfir allt þetta er á millum vor og ydar mikid djúp stadfest, svo

ad þeir, sem hédan vilja fara til ydar, géta þad ei, og eigi þeir heldur þadan frá ydur upp til vor komist. Og hann sagdi þá: eg bid þig, fadir! ad þú sendir hann í míns fødurs hús, þvíad eg hefi fimm brædur, þad hann skíri þeim frá, svo ad eigi komi þeir í þenna kvalastad. Og Abraham sagdi til hans: þeir hafa Moysen og spámennina, heyri þeir þeim! En hann sagdi: nei, fadir Abraham! heldur ef nockur framlidinna færi til þeirra, þá mundu þeir ydran gjøra. En hann svaradi hønum: ef ad þeir heyra ecki Moysi og spámønnunum, þá munu þeir ecki heldur trúa, þo ad nockur framlidinn upprísi.

## Exordíum.

Vilji ydur audur til, þá heingid ecki hjartad þar vid, segir Davíd, Ps. 61; ecki fordæmir hann audinn í sjálfum sér, heldur ofmikla elsku á hønum. Ríkdómurinn er gódur, þeim er rétt kann ad brúka hann. Audur er abl þeirra hluta sem gjøra skal, segir Cíceró; örlátur madur félaus, hann er eins og einn kappi vopnlaus. Eckjan, sú er lagdi einn pening í Guds kistuna, hún lagdi ad sønnu meira, enn allir hinir ríku, því hún gaf af fátækt sinni, en hefdu þeir eins mikid géfid af sinni audlegd, eptir því sem tala rann til, þá mundi þad og af Drottni ecki sídur vel hafa þegid verid. Væri ríkdómurinn ecki Guds blessan, þá mundi hann ecki hafa heitid hønum til launa sínum elskendum, er vardveita hans bodord, og ecki sæmt ástvini sína þar med. Abraham, Isak, Jakob, Jóseph, Barzelaí, hin Súnamiska, Jóseph af Arímathía og adrir miklu fleiri, voru ríkismenn og þó Guds vinir kalladir; eru því audæfin stór ástgjøf Drottins; því segir Salómon, Ordskv. 10, ad blessan Drottins gjøri ríka, og hørmúngin muni ei nálgast þá; þau eru rettvísum manni til mikils heidurs; því segir hann ennþá aptur, Ordskv. 14: audæfi hins vísa eru hans kóróna; med þeim kunnum vér løndum og lýdum ad hjálpa; med þeim fáum vér sett børn vor og náúnga til menta og mannkosta; med þeim kunnum vér ad bjarga náúnganum í sinni ángist; med þeim gétum vér ablad oss fésjóda á himnum, ef vér stundum eptir ad vera ríkir í gódum verkum, 1 Tím. 6, svo þeir medtaki oss í eylífar tjaldbúdir, ef vér gjørum gott þar af í sannri trú og í Guds nafni; hvar fyrir ad sá, ed fátækum géfur, hann lánar Drottni, og hafa menn aldrei betur varid fé sínu. Svo eru nú audæfin stórt Guds lán og hans elsku merki, nær þau rétt-fengin eru og rétt brúkud. En svo sem þau eru hinum frómu og réttvísu til mikils heidurs, svo eru þau og hinum ógudliga og ágjarna nærsta óþørf og skadsamlig; því segir Drottinn, ad ránglætisins fé-sjódir séu eldur í húsinu. Já, þótt einn sé vel kominn ad aud sínum, en brúkar hann þó Gudi til styggdar, til óhófs og metnadar, til ad undirþryckja hinn vesæla og lítilmagnan, og heldur hønum til okurs og inni fyrir verkamanninum og hinum fátæka, sem Gud hefir skipad ad ala, þá er hann bølvaninni undirvorpinn; þess gétur hinn Vísi med þessum ordum: sá ed prettar hina réttlátu á vondum vegi, hann mun í sinni gløtun hrapa og hinir einføldu munu eignast hans góts; já, svoddan audlegd er hverju volædi argari, svo þad er kóngdómur ad fara á vonar-völ alla æfi sína hjá svoddan ríkdómi. Í þessa dags evangelíó verda oss fyrir sjónir settir tveir menn, einn ríkur, annar fátækur. Vér viljum í Guds nafni skoda: 1) dæmi hins ríka, og svo hans afdrif; 2) hins fátæka, og svo hans endalok. Þú gódi Gud! sem alleina ríkur ert, hjálpa oss med ríkdómi nádar þinnar, ad gjøra þetta verk í þínum ótta, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Þar var einn ríkur madur, segir textinn. Ríkdómurinn kann engum af sjálfum sér ad banna inn í himnaríki, svo sem í inngánginum sagt er; því sjáum vér og í gudspjallinu

hinn fátæka Lazarum í skauti hins ríka Abrahams. Tökum vanbrúkunina í burt, og mun audurinn ecki skada; gjörumst ríkir í gódum verkum, og mun þad nockud til himnaríkis gagna; en þad vantadi þenna ríka mann. Hann klæddist pelli og purpura, segir textinn. Pell var einn vefnadur forkunnar vænn og gullvægur haldinn, hann er nú ecki ad fá í heiminum; sama er um purpurann ad segja; þad var einn litur forkostuligur, tilbúinn úr skélfiskjar blódi, og er nú ecki ad finna í veröldinni. Hverttveggja þetta var konúnga búnadur og annarra höfdíngja, og leifdist ei múgamönnum ad bera; þannig var Arónis búnadur og höfudpresta Gydínga, Exód. 28; svo var Jósephs klæddur, Gén. 41; þetta skart bar Daníel, Dan. 5; þannig var Mardochéus búinn, Est. 8. En um þenna ríka mann stendur ecki í gudspjallinu, ad hann hafi nockur þess háttar madur verid; þad er og ecki líkligt, því Frelsarinn mundi ei hafa til þess tekid, ad hann hefdi svo verid í skart búinn, hefdi hann verid höfdíngi nockur, þeim er sómt hefdi ad bera svo dýrmæt klædi, og var í þessu ecki lítill ofmetnadur. Satt er þad, ad klædin gjöra engan vondan né gódan af sjálfum sér, en fatnadurinn er manninum gefinn til ad skýla blygdan sinni og vardveita líkhamann frá kuldanum; því mætti þad sýnast, ad sá sem keppist vid ad búa sig tígugligar, heldur enn virdíngu hans sómir, ad hann gjöri þad annadhvert fyrir lauslætis edur metnadar sakir, og er hverttveggja stór synd í Guds augliti; fyrir því mun þad ei syndlaust vera, er menn brúka til þess ad efla þessa lesti med. Mismunur í klædnadinum á ad vera, og var fordum til ad adgreina virdíngar manna, og svo er rád fyrir þessu gjört í landslögum vorum; hvad sem þar fram yfir er, þad er ósidsemi og ránglæti, því þad er ad taka sinn rétt frá þeim sem ædri eru, ad svo miklu leiti sem þessum hégóma nemur. Eg vil segja, hvert sem ad einn er kostum búinn edur ei, þá syndgar hann, ef hann klædir sig betur enn hans standi sómir; sé hann vel ad sér um marga hluti framar ödrum, þá spillir hann mjög svo ágjæti sínu, ef hann meinar þad verdi ágjætara fyrir búníngsins skuld, því Salómon í allri sinni dýrd var ecki svo skrýddur sem eitt af akursins liljugrösum, og vér vitum þó, ad Gud hefir meira virdt hinn aumasta og heimskasta vesalíng á medal vor enn þau, en vér egum ad bera sömu virdíngu fyrir hlutunum og hann, sem þá skapad hefir; en sé nockur ei nema almenniliga kostum búinn, og vill þó leita sér fordildar af klædnadinum, þá er mikil fávitska í því; eg veit ad einn asni verdur þó aldrei hestur, þó menn setji gullsödul á hann, og svo verdur einn dári aldrei vís, hvernig sem hann málar sig utan. Þessi ósidur fer mjög svo í vöxt í landi voru smámsaman nú nockur ár; ambáttinn vill eins klædd vera og húsmódurinn, þénarinn eins og herrann, sonurinn betur enn hans gamli fadir. Formegunin, mannskapurinn og vísdómurinn eru í burtu úr landinu, en búníngur og klædasnid eblist dagliga; einn skóladrengur kostar öllu til þess ad fá vænan kjól, en ad kaupa sér eina bók, hvar af hann nockud gott megi læra, þar hyrdir hann ecki um. Og um alla hluti fram, þá skulu vor klædi skorin vera eptir framandi þjóda snidi, gætandi lítid ad því, sem Drottinn segir ské skuli á sínum slátrunardegi, ad hann vilji straffa alla þá, sem búast útlendskum búnadi, Zóph. 1. Hvad vill hér af verda um sídir? eg ætla Drottinn þurfi ecki ad leggja höndina á oss, vær erum vorir eginn bödlar í slíku; svo ad líkast er, ef þessu skal lengi

framfara, ad þad muni gánga oss eins og þad geck Júdum, er þeir tóku upp sidu Grikkja, ad þeir urdu þeim ad brád, hverrà sidum þeir breyttu eptir, 2 Macc. 4.

Framvegis stendur hér um þenna munadarkropp, ad hann hafi etid dagliga skýnandi krásir. Eptir textans ordum er þad svo: hann hélt sig forkostuliga gladværan dagliga; þetta má skilja, ad hafi verid í mat og dryck og ødru óhófi, sem heyrir til líkamligs munadar. Nú er þad hér ad segja, ad Drottinn hefir ecki bannad ad hafa inndæli af sínum sképnum í réttan tíma og med hófi og sidsemi. Sjálfur var Frelsarinn ad heimbodi manna á sínum hérvistardøgum, í Kana í Galíleá, hjá Símóni Pharíseara, hjá Zacheó, og optar; hvar fyrir, þótt hann væri hid fegursta sparneytninnar og hóffseminnar dæmi, sem nockurn tíma hefir skinid í verøldinni, þá var hann þó af illgjørnum Pharíseis ofneytslumadur og vínsvelgur kalladur. Já, hann lét sitt blessada høfud smyrja med dýrmætu salve; og þótt hann væri allra hluta Drottinn bædi á himni og jørdu, þá mundi hann þad ecki gjørt hafa, nema slíkt væri leyfiligt, nær þad er í hófi og med gódri skickan brúkad. Drottinn baud sjálfur í sínu løgmáli um laufskála hátídina, Levit. 23: þér skulud vera gladir fyrir Drottni Gudi ydar í sjø daga; hvert løgmál ad Moyses ítrekar, Devt. 12: Þér skulud eta fyrir Drottni Gudi ydar og gladir vera, þér og ydar hyski, af øllu því sem þér réttid ydar hønd til, af hverju Drottinn Gud hefir blessad þig; og framvegis í hinu átjánda versi segir hann, ad þeir skuli ecki eta innan sinna porta á laufskála hátídinni sínar korn-tíundir, eda tíundir af mustinni edur olíunni, en hann segir: þér skulud eta þad þar í þeim stad, sem Drottinn Gud útvelur, þú og þinn sonur og þín dóttir, þræll þinn og ambátt þín og Levítinn, sem er innan þinna porta, svo skalt þú gledja þig fyrir Drottni Gudi þínum; hvert løgmál Nehemias og Hezras kénnimadur aptur innleiddu eptir herleidínguna, Nehem. 8, er þeir budu fólkinu á laufskála hátídinni: etid hid feita og dreckid sætan dryck, og sendid þeim einn part, sem eckert tilbúid hafa. Af þessu er audsært, ad hinn gódi Gud hefir ei bannad ad gledja sig í hófi, þó svo, ad menn dýrki hann med virdíngu og gledji sig med ótta, sem Davíd býdur, Ps. 2. Vín og vistir eru fyrir manninn skapadar, ecki forgéfins, heldur hønum til unadsemdar og skickanligrar brúkunar, en vanbrúkunin kémur af holdinu og af Fjandanum. Vid þetta Guds eptirlæti á nú metnadur og óhóf ens ríka sælgætíngs eckert skyldt. Hér stendur, ad hann hafi haldid sig forkostuliga gladværan dagliga, þad er ad skilja, hann var allur sockinn í munad veraldar þessarar, hyrdti eckert um Gud, eckert um sínar syndir, eckert um hid komanda líf edur sinn dauda, heldur hafdi hann magann fyrir sinn Gud, svo sem Postulinn ad ordi kémst, Phillip. 3; já, rétt eins og Esajas segir í 56 kap: komum, látum oss fylla oss af sterku víni, og morgundagurinn skal þessum líkur verda og enn þá kostuligri; og vantar oss ecki þá í landi voru, er hid sama gjøra mundu, hefdu þeir ráð eins og þessi; eckert hyrda þeir um sitt embætti, eckert um sitt framferdi, eckert um landsins gagn, eckert um sína sáluhjálp, eckert um sína burtfør af heiminum, svo sem hefdu þeir festibréf af Andskotanum, ad þetta skuli æfinliga vara, já, um engan hlut, nema um munn og maga og þad, sem þeir kunni ad hafa til ad þjóna þeim med, jafnvel þótt þad skuli verda hripsad út af munni náúngans med ofbeldi og ránginndum. Nú voru

þessir lestir hins ríka sælkéra svo vondir og fordæmanligir, sem allareidu er nockud umtalad; en þad jók ofmiklu á, ad hinn vesæli Lazarus, fullur sára og kauna, lá húngradur fyrir hans dyrum, og er líkligt, ad hann hafi næsta klædfár verid, því sá sem eckert hafdi til ad sedja med sinn húngrada maga, hann mun ecki hafa mikid haft til ad klæda hinn sára líkhama. O, hvílík skélfilig hardýdgi var þetta! eckert þurfti þessi gudlausi kroppur ad missa af sínu bordi til ad sedja þenna vesæling med, því hann gyrntist ad sedjast af molum þeim, er féllu þar af; eckert af sínu pelli og purpura, þótt hann hefdi kastad einni slík á hann (sem hans þrælar vildu ecki bera) til ad hylja sín kaun med; en því var ei svo varid; hundarnir voru mystunsamari heldur enn hann, sem Gud hafdi géfid vit og skyn og þar ad auki fullsælu fjár, því þeir komu og sleiktu kaun hans, og mátti líkliga segjast, ad þeir mundu fyrr inngánga í þá himnesku Jérúsalem, Apóc. 22, hefdu þeir þar til skapadir verid, heldur enn þetta villudýr.

O! Gud gæfi, ad þeir sem hann hefir blessad med audlegd veraldar þessarar, þeir vildu þó, segi eg, einhvern tíma hugleida, hvad mikid þeir eru Guds voludum limum skyldugir. Seg mér, þú sem veltir þér í maurunum, og varla veist hvad þú skalt af þeim gjöra: þegar þér var kastad inn í heiminn undir eins og fátækis barninu, hvad hafdir þú til meira unnid af Gudi heldur enn þad? vorud þid ecki bádir eins í syndinni gétnir? hafst þú nockud meira med þér inn í veröldina heldur enn hann? edur muntu meira í burtu bera? hvar fyrir var Gud þá skyldugur til, ad gjöra þig ríkan, en hann fátækan? ecki til þess, ad þú skulir kappala þinn syndugan búk eins og þessi dári; ecki til ad búa þig í skart eins og hann; ecki til þess ad upphefja þitt hartja edur festa þad vid audinn, en gleyma þínum bródur, sem ad naudstaddur er; heldur til ad dýrka sig þar med, og leggja svo mikid af vid hann, sem krefur, því hann er húsbóndinn; en hann krefur svo mikils, sem hinum volada má verda hólpid med og þú kant vel ad missa, og þad jafnan nær þú sér edur heyrir einn naudstaddan; og nær þú þad sér edur heyrir, þá vit, ad þar er kominn einn skuldamadur frá Gudi til ad beidast þess er hann lánad hefir og þú hefur ofmikid, en hann má vel bjargast vid. Þegar þú krefur skuldar þinnar hjá aumíngja nockrum, og hann hefir þad ecki til, sem hann skal gjalda, edur hann má þad ei missa, án síns stórs baga, þá krefur hann þig undir eins í Guds umbodi þeirrar skuldar, er þú átt honum ad lúka en hann hefir vesælíngnum géfid; látir þú hana ecki til, þá verdur þú skuldaþrjótur Guds, já, þjófur í hans augliti, þar þú stelur úr sjálfs þíns hendi, og hinn strángi húsbóndi mun krefja þig ávaxtar fjár síns í tollbúdinni hjá þeim ríka manni, nær þú uppvaknar í helvíti og kvölunum eins og hann, nema þú brúkir rád Daníelis, er hann gaf Nebúchadnezar konúngi, Dan. 4, og afplánir ránglæti þitt med ölmusugjördum vid fátæka. Heyr því Salómónis ord, er hann segir, Próv. 3: gleym ecki ad gjöra þeim gott sem byrjar, nær þín hönd hefir efni þar á; seg ecki til þíns náúnga: gack burt og kom aptur, á morgun vil eg géfa þér, og þú hefir þad þó; og lát þér þad sagt vera, ad hinn voladi hefir miklu meiri rétt til þess, er þú eignar þér, heldur enn sjálfur þú til ad brúka Guds lán til óhófs og metnadar, hvert hann margfaldliga bannad hefir. Drottinn segir fyrir munn Hóseæ, um Gydínganna samkundu, Hós. 2: hún veit ecki ad eg er þad, sem gef

henni kornid og mustina og olíuna, og fæ henni ánægjanliga silfrid og gullid, er hún gjørir Baal af; þetta á mjøg svo vel heima hjá þeim, sem Gud hefir fengid í hendur alls nægtir fjár, en þeir draga þad af hans fáráduim limum, í hverjum hann skipad hefir ad dýrka sig, en brúka þad til ad ala sinn lauslátan kropp, til nidurdreps honum sem. ránginbin lídur, til ad hefna á óvinum sínum; þessir gjøra Baal úr þeim hlutum, sem gódir eru í sjálfsumi sér, og setja þann í Guds kyrkju, sem vera átti hjarta þeirra, þad er hina ørgustu svívirdíngu foreydsluunar í þann stad, sem ætti ad vera hinn allra helgasti. O, Gud betri vorar tídir. Satan hefur kaupmenn sína í Guds kyrkju medal vor, þad er í mannanna hjørtum, hverja hann gjørt hefir ad ræníngja bæli, ei sídur enn Gydíngar fordum musterid; en hvad selja þeir þá og kaupa? þeir selja hinn réttláta fyrir peníuga, og hinn volada fyrir einn skó, þeir troda høfud fátækra í saurinn, og umturna vegum þeirra hæglátu, Amos 2; en um sídir selja þeir sínar egin sálir. Þess getur Sýrach í 10 kap. med þessum ordum: eckert er ránglátara fégjørnum manni, segir hann, því hann lætur fala sálu sína; þar fyrir segir Frelsarinn, ad lítid gagni þad manninum, ad hann eignist allan heiminn, og lídi tøpun á sálu sinni, hvar um þessi ríki madur má øllum þeim ljóst dæmi vera, er elska kroppinn meir enn sálina. Ecki stendur hér í gudspjallinu, ad hann hafi verid illa kominn ad aud sínum; þad var hans fordæmíngar søk, ad hann brúkadi hann til óhófs, en gleymdi hinum naudstadda og fáráda. Nú ef hann féck svo skélfiligan dóm, hvad vilja þeir þá segja á medal vor, sem ecki einasta stínga úr sér augun, nær þeir sjá einu þurfamann, edur annann, sem vinnur baki brotnu fyrir því, er þeir brúka til munadar sér, heldur og rýa Guds volada saudi og eta sitt braud í þeirra andlitis sveita? hvad munu þeir segja vilja? hvers munu þeir vænta sér, nær þeir eiga ad skilja vid allt þad, er þeir med rángindum hafa samandregid? Drottinn segir vid konúnginn af Týró, Ezech. 28: þú segir, eg em sterkur Gud, eg bý í einu guddómligu herbergi; en skømmu sídar verdur honum sagt: muntu nockud segja vid þinn veganda, eg em sterkur Gud? lángtum eru þeir minni máttar enn konúngurinn af Týró hjá oss, er sig gjøra nærri því ad gudum, þegar þeir upphefja sig yfir Guds ord og konúngsins løg, þegar þeir fella hinn saklausa, en hefja skálkinn, og þykir svo sem þad standi í sínu valdi ad ráda fyrir hvers manns gæfu og ógæfu; en þegar daudinn kémur svo sem ein voldug hetja og kastar þeim í banasænginna, þegar samvitskan tekur til ad bíta, þegar minníng glæpanna tekur ad ofbjóda þeim, þegar Satan, sem hefir slekad þá til allskonar ódáda, þegar hann reidir svipuna til, og sýnir þeim helvítis loga, hvar hinn ríki kvelst og kveljast mun um aldir alda, en Guds reidarþruma slær af himnum ofan, mun þá vesæl manneskja segja: eg em sterkur Gud? Heyrid þetta, ó, þér sem útsjúgid hús eckna og fødurlausra, og leitid Drottins á medan hann er ad finna! Hinir ágjørnu og ofríkismennirnir eru med tvennu móti; sumir færa fórnir neti sínu og brenna reykelsi fyrir sínum veidarfærum, því ad fyrir þau er þeirra hlutur feitur vordinn, og þeirra matur hinn besti, svo sem Habakuk ad ordi kémst í 1 kap. Þetta eru þeir sem reikna þad til sinni gódri forsjón (réttara ad segja, rángsleitni sinni og undirhyggju) ad þeir eru ríkir vordnir, og feitir af annara braudi. Adrir eru þeir ed segja: blessadur sért þú Drottinn, þad eg em ríkur vordinn, en

drepa þó sláturfaudina med ofbeldi, og enginn er sá, sem ad fædi þá, edur brúki medaumkun med þeim, eins og þessi sami spámadur ad ordi kémst. Þetta eru þeir, sem af Gudi og enn hærsta valdi eru yfir adra settir til þess ad þeim lídi vel, en gjora þó eckert það, sem Gud og konúngurinn bodid hafa, heldur eta í kríngum sig eins og úlfar og byrnir, og sýna þeim enga myskun, er undir þeirra valdi stynja, heldur kalla: ber híngad, ber híngad! og nær þeir hafa svo druckid blód vesalínganna, þacka þeir Gudi svo sem fyrir réttfengin sofn. Hverjir af þessum verri séu er eigi svo audvelt ad segja, nema þad, ad hræsnin gjorir hina sídari andstyggiligri í Guds augliti, því af tvennu illu, þá er skárra ad eigna hreckvísi sinni klækina heldur enn Gudi. Hitt veit eg, ad hann segir um þessa hveru-tveggju, Hab. 2: vei þeim er safnar því sem ecki er hans (hvar skal þad lenda), og þeim ed samandraga hinn þétta leyr! vei þeim sem er géfinn fyrir rángfengnum ábata fyrir hús sitt, ad hann búi hreidur sitt í hædunum, ad hann verdi frelsadur af valdi hins vonda; þú hefir eitt skammarligt rád tekid fyrir þitt hús, og upprætt margt fólk, og hefir syndgad á móti sjálfum þér, því steinninn í vegnum hrópar þad, og kvisturinn í trénu vitnar þar um! Eg veit þar er margur er segir: eg safna ecki til þess ad gjora eins og þessi ríki madur, eg held mig sparliga, eg er ecki eydslusamur; þad er gott, ef þú safnar réttiliga, og gjorir gott hinum volada, en ef þú safnar einasta fyrir erfíngja þína, og þad med réttu og raungu, þá má álíka gylda hvert ad Móab liggur á dreggjum sínum, edur og ad hann fagnar í sinni spýu og verdur til athláturs, Jer. 48. Því skylda eg steypa mér til helvítis fyrir minn erfíngja, í þeirri von, ad hann skuli lifa vel eptir mig daudan, og eg veit þó ecki hvert af því verdur edur ei, því kannské mín ógudlig búsorg gjori hann verri í því, ad hann misbrúki þad til óhófs, er eg med ránginndum safnadi, og eg kynni þar med ad leida hann til helvítis med mér, þótt þad verdi ecki um sama veg og eg fór. Og hvernig sem því er varid, þá plagar Guds straff ad fylgja svoddan rángfengnum aud; þar eru þúsund melir í hverju álnarvirdi, sem ecki verda í burtu teknir, nema erfínginn gjori sér vini af þessum ránglætis Mammóna, og vil eg þá heldur gjora þad sjálfur medan eg lifi, svo þeir medtaki mig í eylífar tjaldbúdir, heldur enn eiga þad undir honum, sem þó getur ecki leyst sálu mína úr helvíti med ollu því sem eg honum eptirlét. Þad segist um hinn ríka purpura-gick, ad hann hafi pelli klæddur verid; þad verdur ecki svo greiniliga sagt á vora túngu hvad þad ord þýdi, er í textanum stendur; en um vidlíkan vefnad skrifar Plinius, ad hann brenni ecki í eldinum; því voru lík konúnganna sveipud þar í á hinni gomlu brenni-old, ad ei blandadist þeirra aska med vidaroskunni. Megi eg skémta um hinn óskémtilig-asta hlut, þa vildi eg segja, ad þessi dári hefdi gjort vísliga, hefdi hann tekid nockud af þessum dýra vefnadi med sér til helvítis, hefdi þad mátt hlífa honum fyrir loganum, sem hann kveldist í; en einglarnir voru fúsari til ad bera Lazari sál í Abrahams skaut, heldur enn djoflarnir til ad færa hans pell og purpura og allt annad oflæti med honum. Lazarus skildi sinn armód eptir vid dyr hins ríka, en hinn ríki sína fédíngju í sínum kostuliga gardi, og hrapadi svo fullr ogsélaus í þad díkid, sem ríkur af eldi og brennisteini; svo munu og allir þeir gjora, er láta hans látum í þessum heimi, en forsmá hinn naudstadda og óreigann, og

[illegible]

láta hann jafnvel í húngri út af deya, á medan þeir ala sinn gjálífan kropp til ad verda helvítis eldsmatur og brennifórn Andskotans, og er svo þannig úttalad um hinn ríka.

Nú eptirfylgir ad tala med fám ordum um hinn volada Lazarum. Gudspjallid minnist hans á þenna hátt: þar var einn þurfamadur, ad nafni Lazarus, hver ed uti lá fyrir hans dyrum, fullur kauna. Allt þad volædi sem einni manneskju kann til ad falla hefir á þessum manni legid; hann var fátækur, þad var mikil vesøld; þad er þad, sem flestir af oss verja sig hvad mest fyrir, og nockrir selja sína arfleyfd í himninum til þess ad vera ecki fátækir í heiminum, svoddan ein hørmúng þykir ørbyrgdin manna á medal, því segir Salómon, Próv. 15: allir dagar hins fátæka eru illir. Textinn segir: ad hønum hafi verid kastad nidur hjá dyrum hins ríka, eins og ødru hræi, sem enginn hyrdti um, meir enn þó daudum hundi væri útkastad. Svo breyta menn vid Guds mynd, þegar hún býr í ljótu húsi, og virda húsbóndann eptir herberginu. Þessi forsmán hefir og mátt auka mykla ofan á volædi þessa fáráda mans, og hefir þad gengid hér eins og Salómon segir, Ordskv. 19: brædur hins fátæka hata hann, og vinirnir víkja í burt frá hønum; en þad tók yfir alla hans eymd, ad hann var fullur kauna, og svo aumur, ad hundar sleiktu hans sár; maginn hefir kann ské verid heilbrigdur, og því hefir hann gyrnst ad sedjast af molum þeim, er duttu af bordi hins ríka, en allir adrir líkhamans limir svo plágadir, ad hann gat enga bjørg sér veitt, og hefir magans heilbrygdi ecki annad gjørt, enn ad abla hønum þess meiri píslar med húngrinu og matarlystinni, þar hann féck eckert ad sedja sig af. Sá sem heilbrygdur er, hann gétur unnid sér mat, þó hann sé fátækur. Forsmán veraldarinnar er ecki svo þúngt ad lída; þeim er hægt ad forsmá heiminn, sem heimurinn forsmáir, og er þad þá kaup kaups, sem menn plaga ad segja; því vottar og Páll um sig, Gal. 6, ad hann sé krossfestur heiminum og heimurinn sér, þad er, ad hver forsmái annann; en þad er hverjum mótgángi meira, þegar Gud tekur svo heilsuna af nockrum, ad hann gétur ecki borid edur rádid sjálfum sér; þad gengur næst því ad vanta hugsvølun Guds Anda, og finna ei til hennar, nær mann lángar þar eptir, því svoddan er helvítis píslum líkast. Þessu gat Satan nærri fordum daga, er hann sagdi vid Gud um Job, Job 2: snert þú hans bein og hans kjøt, og sjá hvert hann bølvar þér ecki undir augun; skuli menn og satt segja, þá fécks þessi Guds madur ecki svo mjøg þar um, þótt hann missti fjárhluti sína, syni og dætur sínar, edur þótt þeir af Saba og Chaldea veittu hønum yfirgáng; en þegar Gud leid Andskotanum ad slá hann med hinum verstu kaunum frá hvirfli og alt til ilja, þá tók þessi Drottins vinur heldur enn ecki ad láta sér hug fallast. Svo var nú Lazarus aumur, sem sagt er, og øll hin þýngstu mótlæti veraldarinnar láu á hønum, ørbyrgd, klædleysi, húngur, forsmán og líkhamans vanheilsa. En þú, syndugur madur! sem ert heill og hraustur, hefir nóg til ad klæda og fæda líkhamann med, og ert af engum óvirdtur í neinu, munt þú ecki hafa orsøk til ad þacka hinum lifanda Gudi, þegar þú álítur þetta vesæla hræ, nidurkastad fyrir dyrum hins ríka, og eckert auga myskunadi hønum, ad hann svo vel gjørir til þín ad þig vantar eckert af því, sem hann allt vantadi? munt þú nockud vera heilagri heldur enn hann? eg veit ecki hví-

ikur hann verid hefir, þad sé eg, ad hann hefir Guds vinur verid, annars hefdi ecki sál hans verid borin af englum í Abrahams skaut; en hitt veit eg, ad ecki ert þú heilagri enn Job, hver ed hefir Guds vitni um þad, ad hann ecki hefdi sinn líka í landinu, Job 2. Hverju mun þá vera ad þacka, ad þú ert ecki eins plágadur sem Job og Lazarus, nema Guds óransakanligri gjæsku og miklu þolinnmædi, sem med ríkdómi sinnar lánglundar dregur þig til ydranar? Seg því ecki eins og Ephraim: eg em ríkur vordinn, allt mitt erfidi nægir mér, Hós. 12; ecki þeir ed syndga bera straff syndarinnar. Miklu heldur nær þú stígur á þín hraustu bein, þá hugsa til þess, ad Gud hefir ecki velþóknan á þeirra styrkleika, heldur á þeim, sem hann óttast. Nær þú telur fé þitt, edur skodar þinn dýra klædnad, þá hugleid, ad Lazarus á af því svo mikid, sem hann vid þarf; og ef þú hefir tvenn klædi, þá heyra hinum nakta önnur til, ef þú vilt vera Jóhannis Baptistæ lærisveinn, Lúk. 3. Þegar þú hefir hid mesta gaman af skilníngarvitunum, sem Gud hefir gefid þér til naudsynligrar brúkunar, þegar túngan, augun, eyrun og adrir þínir limir eru þér til hinnar mestu skémtunar, þá lát jafnvel þessa Guds skapnadar misbrúkan minna þig á Lazarum, þar hann liggur nidurkastadur eins og annad daudíbli fyrir dyrum hins ríka, og hefir enga værd fyrir sárum og verkjum; þecktu hann, medan hann er hjá þér, ad ecki þurfir þú ad kannast vid hann fyrst, nær þú uppvaknar í helvíti og kvölunum, sem þú ecki þeckja vildir á medan þú lékst þér ad allri fullsælu í heiminum; já, medan þú hefir hina mestu skémtan af syndsamligri gledi þessarar veraldar, þá lát þér í hug koma hversu ad hún sé eckert hjá sælu Lazarí, þar hann badar nú í Abrahamsskauti; því hann, sem bezt þeckir þá eylífu dýrdar-vist, hver og hefir keypt oss hana til handa med sínu dýra blódi, hann býdur oss, ad vér allan þenna hégóma skulum affnída, svo vér kunnum ad eignast hana: já, hugsa til þess, ad sælliſi þessa heims má ei lengi vara, og þótt þú yrdir allra kalla eldstur, þá skal þad þrjóta, og þad er ecki lángvinnt, sem einhvern tíma enda tekur, segir Augústínus, en Lazarí géstabod tekur engan enda. Vísliga hefir hinn stóri konúngur því tilskickad, svo sem öllu ödru í sínu ríki, ad hann lét píslir fordæmdra verda eylífar, því væri þar endurlausn úr helvíti, þá efast eg ecki um, ad margur gudlaus dári mundi vinna þad til stundligs munadar, ad fremja alla þá óhæsu, er honum í hug kémur, þótt hans hreinsunar eldur ætti ad vara um allan heims aldur; og svo sem hann hefir í því vísliga gjört, svo hefir hann á hina síduna vægdarsamliga breytt vid þá, sem hans ok bera hér á jördunni, og haldnir eru afrak veraldar, og svo sem nockurskonar hreinsunar-fórn, eptir Páls ordum, þar hann ecki einasta lofad hefir ad þurka öll tárin af þeirra augum, og ad daudinn skuli ecki framar vera til, og ecki sorgin og ecki hrópid, og mædan skuli ecki vera framar, því ad þad umlidna sé í burtu, svo sem Jóhannes ad ordi kémst í hans Opinberunum, í 21 kap.; heldur þar ad auki skuli þessi arfur ecki skémmast kunna, ecki saurgast og ecki rotna; svo sem von er á, því Christí ríki mun engan enda taka, Lúk. 1, en vér munum med Christó lifa og ríkja, og med Drottni ávalt vera, svo sem Guds Andi hefir oss heitid fyrir St. Páls munn, 1 Thess. 4, því hefdum vér ecki þessi Guds fyrirheit, þá mundu þeir brádliga yfirgéfa sig, sem eru Guds börn, en hjábörn veraldarinnar. Takid ydur þad til huggunar, Drottins vinir! sem erud stallbrædur

Lazarí! þér erud fátækir eins og hann, vardar mikid um þad, nær þér erud í trúnni ríkir? Hvad gyldir ydur audlegd veraldarinnar, nær þér hafid hann eignast, sem Gud hefir gefid öll endimörk veraldarinnar til arfleifdar? Er eg þér ecki betri enn tíu synir? sagdi Elkana vid konu sína, módur Samúelis; þegar þér hafid Christum í ydar hjörtum getid, mun ydur þá nockud vanta? mun hann ei verda ydur betri enn öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrd? Lazarus edur Eleazar, sem er hid sama nafn, þad merkir þann, sem Gud er til adstodar. Barn mitt! ef Gud er med þér, hver kann þá ad vera á móti þér? mun nockud járnid brjóta þad stálid af nordrinu, segir Drottinn vid Jeremíam, þegar hann heitir hönum lidi sínu á móti Jerúsalems ossa, Jer. 15; svo vil eg segja med Davíd: þegar Gud er med þér, hvad vill þér madurinn gjöra? þeir vega allir minna enn eckert, þeir kasta þér út af dyrunum, þeir vilja ecki unna þér vidtals; hvad þá? munu þeir kunna ad banna þér ad tala vid konúng himnanna í bænum þínum? munu þeir kasta þér út af dyrum himnaríkis? á medan þeir ecki þetta geta, barnid gott, þá ætla eg þú standir jafnréttur upp í Guds augum, þótt þú liggir flatur fyrir dyrum hins ríka. Hvad er nú framar? þú ert forsmádur, lídur órétt, enginn vill kannast vid þig; þad er ecki nýtt í heiminum; Salómon, sem ecki vissi af mikilli óvirdíngu ad segja, hann gjörir rád fyrir því, svo sem hér ad framan er fyrir skömmu sagt. Seg mér, af hverjum verdur þú óvirdtur? af vondum mönnum; þad er ecki þúngt ad vera hæddur af þeim, sem jafnvel ad Gudi hæda, og undir eins og þeir forsmá þig, þá forsmá þeir Skapara þinn og þinn Endurlausnara, hvers ok þú ber. Þú verdur af heimskum mönnum óvirdtur, því enginn er fávitska meiri enn sú, ad forsmá þann, sem Gud hefir virdt med teikni síns Sonar; þetta sýnist mér létt ad bera, því eg mun ei fást mikid þar um, þótt einn skiptíngur hlæi ad mér. Þú verdur af svo mörgum óvirdtur, eg játa þad, þvíad fleiri eru vondir enn gódir, heimskir heldur enn vitrir, en þó ecki af öllum; nockrir eru þeir, sem gjæta Guds og síns óverdugleika, vitandi ad þeir hafa hid sama verdskuldad, og eins þeirra dómur á ad gylda meira hjá þér, heldur enn alls hins skynlausa múga; þar eru gódir menn í veröldinni, er sama hafa til brunns ad bera og þú, og getur þú þá huggad þig med Postulans ordum, ad þínir brædur í heiminum mega lída slíkt hid sama. Hversu lángt mun rykti þessarar óvirdíngar útberast? varla lengra enn um þad land er þú lifir í; ef rykti hins stóra Alexandri, og hans skólameistara Aristótelis ecki nádi yfir um fjallid Kaucasum, edur fljótid Gangem, hvad lítill partur mun þad verda þá af heimsbygdinni, sem þín óvirdíng getur flogid um? hversu fáir eru þeir ed til hennar vita, hjá hinum óteljandi skara heilagra engla og útvaldra manna, á medal hverra þú munt dýrdligur skína, ef þú lídur þessa stundar minkun þolinmódliga. En hvad lengi skal hún nú vara? allt til grafarinnar; hversu minna er þad enn eitt augnablik, ef þad er samanborid vid eylífdina? Eg vil ei fá mér til orda um svo margra heilagra manna og Guds píslarvotta dæmi, sem hlóu ad óvirdíngu veraldar þessarar, en þeirra vegsemd og heidur uppvaknadi svo eptir daudann, ad hjátrú fávísra manna hefir þá nærri því ad gudum gjört, hvörja veröldin ecki hélt verduga til ad þurka sína skó í lífinu, og var þó ecki þeirra verd, Hebr. 11. Svo hlæilig er nú aldar þessarar virdíng edur óvirdíng; edur seg mér, hver er nú meir lofadur í heiminum, Laz-

arus edur hinn ríki magans þræll? eg trúi flestir hrósi Lazaró meir, og jafnvel þeir sem hinum eru hvad líkastir.

Nu kém eg til þess, sem flestum sárast þykir, sem er heilsubresturinn, hann hefir margan kappa yfirbugad; en þér sem Guds hetjur erud, og strídid undir Frelsarans merkjum, gjætid þess, børn Drottins, af hverjum ydur er sjúkdómurinn uppálagdur, sem er af ydar Skapara, hann hefir fengid sálum vorum líkhamina, svo sem annad herbergi til ad búa í, og á hann frjálst ad umbreyta því, og jafnvel aldeilis nidurbrjóta eptir vild sinni. Hvad vilt þú képpa vid soddan hátign, og ecki miklu heldur þolinnmódliga lída hvad helst hann áleggur? kannské þú hafir og sjálfur verid orsøk í þinni vanheilsu med gjálifum og óvørum lifnadi, og seg mér þá, hvad hefir þú ad klaga? mun þá ei rádligast ad þú ydrist synda þinna og lídir þad med kristiligu umburdarlyndi, er þú fyrir þeirra skuld lída mátt, og látir þannig jafnvel syndina gagna þér til sáluhjálpar; en ef ødruvísi er, þá vit þó ad Gud leggur eckert á neinn fyrir sakleysi. Sért þú því ecki orsøk í þinni vanheilsu med óvarligum lifnadi í mat edur dryck, edur annari háttsemi, er plagar ad kreinkja heilsuna, þá hefir þú forþénad sjúkdóminn med ødrum syndum, því ef ad jafnvel hin minsta synd vinnur til helvítis, vilji Gud hana tilreikna, því mun hún þá ecki vinna til líkhamligra meinlæta, sem vara svo skamma stund? en tilgángur Drottins er allur annar á stundum; kannské sál þín sé vanheil, og hann plági líkhamann henni til heilsubótar, og því skylda eg þá reidast læknirnum, þótt hann skéri þad sár upp sem fúid er? Heilsan er altíd góð, en þó er hún dýrust þegar hana vantar, og þykir mest til hennar koma, nær hún er aptur fengin; því tekur Gud hana í burt á stundum til ad vekja vor dofin og sofandi hjørtu til þacklætis og lofgjørdar vid sig, og tídt leggur hann krossinn á þá, sem eru hvad saklausastir, ødrum til eptirdæmis, ad sýna þeim hvad þeir forþénad hafi, og hvad mikla orsøk þeir hafi til ad lofa Gud, sem þyrmir þeim, sem meira hafa syndgad, fyrir þvílíkum ørkumslum. Skammast þín ecki þar fyrir ad vera settur ødrum til þolinmædinnar eptirdæmis med Job, og vert gladur af því ad líkjast Christó, sem og hefir oss til eptirdæmis lidid, 1 Pet. 2; og fyrst þú skalt þad þó lída, þá hugleid, hvad miklu betra er ad lída eins og Guds barn og hreppa eylífa sælu og føgnud til launa, heldur enn ad brjóta okid í sundur med møglan og óþolinmædi, og ecki einasta sleppa af laununum, heldur ad hrapa úr hinni tímanligu eymd í þá eylífu, sem aldrei mun enda taka. Eg vil ei hér tala um þad, sem Cícero skrifar, ad enginn mótgángur sé sá, ad tímalengdin ecki lini hann, því vér høfum eina ædri huggun, ad vor líkhami er aldrei svo veikur, ad Guds kraptur ecki sé í vorum breiskleika máttugri, því hann er trúr og freistar einkis yfir megn fram. Og um alla hluti fram, þá hugga þig vid þá sæluvon og dýrdar auglýsíngu Guds barna, hverrar ecki verd eru þessa heims mótlæti; svo nær verkirnir stínga þig, og þú stynur af ofraun, þá hugsa hvad fagur ad sé englanna saungur; nær þú sér þinn líkhama afmyndadan af sárum og kaunum, þá hugleid þad, ad hann skal á sídan verda englunum jafn, já, samlíkur Jesú Christí dýrdligum líkhama; nær þér enginn hlutur er til skémtunar í heiminum, þá lát þér í hug koma, hvad fagur ad sé Abrahams fadmur, já, hin himneska Jerúsalem, hverrar sól og túngl ad Gud er, og hans dýrd uppljómar hana. Þángad ad komast, og þar ad búa um eylífar aldir, unni oss

n heilaga Guddómsins þrenníng, Fadir, Sonur og H. Andi, hábléssud um aldir alda, men.

## Annann Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Lúk. 14 Kap.

Í þann tíma; Jesús sagdi til eins af Pharíseunum, þessa eptir-kíng. Nockur madur var sá, sem gjørdi mikla kvøldmáltíd, og illadi marga þar til, og sendi út sinn þjon um kvøldmáls tímann, d hann segdi þeim, sem bodnir voru: komid, þvíad nú eru allir lutir til reidu. Og þeir toku allir til í einu hljodi ad afsaka g. Hinn fyrsti sagdi til hans: akur keypta eg, og hlýt eg ad fara t og skoda hann, eg bid þig afsaka mig. Og hinn annar sagdi: mm pør akneyta keypta eg, og fer nú út ad reyna þau, eg bid þig fsaka mig. Og enn annar sagdi: konu hefi eg mér festa, og fyr- : því má eg ecki koma. Og sá þjonustumadur kom, kunngjørdi etta sínum herra. Þá vard húsbondinn reidur, og sagdi til síns jonustu-manns: far þú snarliga ut á stræti og gøtur borgarinn-r, og leid volada, vanada, blinda og halta hér inn. Og þjon-in sagdi: herra! þad er gjort hvad þú skipadir, og þó er enn ieira rúm. Og herrann sagdi til þjonsins: far þú út á þjod-rautir og túngarda, og naudga þeim hér inn ad gánga, svo ad mitt ús verdi fullt; því eg segi ydur þad, ad enginn þeirra manna, m kalladir voru, munu smacka mína kvøldmáltíd.

## Exordíum.

)rsøkinn til þessarar dýrmætu eptirlíkíngar, sem Jesús framsetur í þessu heilaga evangelíó, ir sú, ad þegar hann var ad heimbodi med einum af Pharíseanna høfdíngium brauds ad yta á þvott-degi, þá var þar einn af bordgéstunum, er sagdi: sæll er sá madur, sem etur aud í Guds ríki; og er í þenni sérdeilis tvennt athugandi, sem er: hvad meint sé med þess-i kvøld-máltíd, og í annann máta, hvørjir þeir séu, sem bodnir voru. Fyrir máltídina nna vel ad skiljast allir þeir andligir velgjørníngar, sem oss veittir eru í Jesú Christó, ern Gud í heiminn sendi á kvøldi veraldar þessarar, og lét honum slátra á krossins altari, ; steikja í bruna sinnar heiptar-reidi; í honum hefir hann allri verøldu alla hluti tilreidt, m duga til þeirrar eylífu veitslu í himninum, sem fyrst verdur þegin hér í nádinni, sídar mun fullkomnast í dýrdinni; hann er lífsins braud, sem af himnum er ofan-mid, Jóh. 6; hans hold er sannarlig fæda, og hans blód er sannarligur dryckur, hvert vér ít einasta medtokum med trúarinnar munni dagliga, heldur og líkamans í heiløgu alt-isins sacramentó. En fyrir því, ad Drottinn svaradi þessum Gydíng uppá sitt tal med ssari eptirlíkíngu, þá er líkligt, ad hann sérílagi meint hafi þad himneska bordhald med brabam, Isaac og Jacob, og lendir þó allt í sama stad, því einn og hinn sami er hristur, hvern vér smøckum hér í nádinni, en munum hans algjørliga þar í hans dýrd-ríki njótandi verda; sømu eru vistirnar; þad skilur alleina, ad þær eru ecki med sama óti framreiddar; hér sjáum vér fyrir spegil og í rádgátu, þar munum vér sjá augliti til iglitis; hér gaungum vér í trúnni, 2 Cor. 5, en þar munum vér gánga í sjóninni. Trú-er vera þeirra hluta, sem vér vonum eptir, hver ed sýnir þad sem ecki séd verdur í þessu

líst, en í hinu ødru munum vér þeckja, svo sem vér þecktir verdum; og svo sem fórnir gamla Testamentisins voru ei nema skuggi eptirkomandi gjæda, svo er og forsmeckur himnaríkis í hjørtum Guds barna í þessum heimi ecki nema ein skuggsjá þeirrar eylífu dýrdar, sem vid oss mun opinber verda. Fyrir þá mørgu, sem ad í gudspjallinu segir, ad kalladir séu, ega allir menn ad skiljast, því svo segir Endurlausnarinn, Matth. 20, ad Mannsins Sonur sé til þess kominn, ad útgéfa sálu sína til lausnargjalds fyrir marga; hvad Páls svo útleggur, 1 Tím. 2, ad Christur hafi géfid sig til endurlausnar fyrir alla; þá er líkast, ad hid fyrsta bod sé þad, sem kom til Gydínganna, sem voru ríkisins synir, já, kannské til þeirra høfdíngja, Pharíseanna og skrift-lærdra, því Drottinn hefir án efa bendt þeim hér med, er til bordsins sátu, og þad er augljóst, ad stórmenni hefir þar verid samankomid, því annars mundi hann ecki hafa talad fyrir þeim skømmu ádur í sama sinn, ad nær þeir gjørdu géstabod, skyldu þeir kalla fátæka, veika, halta og blinda, Lúk. 14. En hina sídari meina eg ad vera fávísan almúga Gydínga, sem ráfudu á strætum og gøtum borgarinnar, hverja sjálfir høfdíngjarnir kølludu bølvadan lýd, sem ecki vissi af løgmálinu, Jóh. 7. En hid sídarsta kalla eg ad heyri oss til, børnum heidíngjanna, er sátu á þjódbrautum og túngørdum, fjarlægir Ísraels borgarrétti og án Guds í heiminum, svo sem Páls talar. Ad þessu svo fyrirmæltu, vil eg géfa mig til ad hugleida textann nockud gjørr, og af hønum tvennt yfirvega, sem er: 1) hvad oss allra mest hindri frá ad þiggja þetta heimbod, 2) hvad oss egi mest ad leida til ad þiggja þad. Styr þú máli mínu, Drottinn minn, og hjørtum barna þinna, til lofs og dýrdar þér, en oss til sálar nota, í Jesú nafni, amen.

## Utleggíngin.

Hjá Matth. í 13 kap. upptelur Drottinn sérdeilis þrennt, sem bægi manninum frá ad heyra Guds ord med áverti; þad er, sorg veraldarinnar, audæfi og gyrndir hennar, og þetta þrennt segir sá lærisveinn, sem hann elskadi, ad heimurinn sé fullur af, sem er drambsamt líferni, fýsn augnanna, og gyrnd holdsins, 1 Jóh. 2. Allt þetta er ad sjá hjá þessum fávísum mønnum, er ecki vildu þiggja máltíd þessa er í gudspjallinu talar um. Hinn fyrsti segir: búgard hef eg mér keyptan, og hlýt eg ad fara út ad skodan hann. Þad kalla eg sama og sorg veraldarinnar, sem Lausnarinn nefnir hjá Mattheum, en Jóhannes drambsamt líferni, því til hvers kaupa menn stóra garda edur byggja þá, nema ad þeir vilja sýnast ødrum meiri, og auglýsa þar med, ad svo sem þeirra hjarta er stærra enn annara, svo skulu og þeirra hýbýli vera. Nebúchadnezar konúngur stærdi sig af hinni miklu Babýlon, er hann hafdi byggja látid til heidurs vid sinn herradóm, en þar fyrir vard hann ad villudýri og át gras med þeim; svo verda og allir þeir, er stæra sig af yfirlæti veraldar þessarar, þegar þeir vilja vera meiri enn menn, þá verda þeir hestum og múlum argari, og þeckja ecki Gud himnanna, hverju engin er fásinna meiri.

Þegar mennirnir upprenstu Babel, til ad gjøra sér nafn á jørdunni, svo sem þar ad kvedur, Gén. 11, þá voru þeir straffadir af Gudi, svo einn braut þad er annar bygdi; þeir vildu byggja hann upp til himna, svo sem þar segir, en himnanna Drottinn sló þá med rádleysu, svo þeir og þeirra afkvæmi skridu út um alla verøldina, því mun þad ei vegurinn vera til himnaríkis, ad búa sér fasta bólfestu hér í heimi. Þetta segi eg ecki þess vegna, ad allur metnadur sé þar í fólginn, ad eignast góts og garda, ei heldur, ad þad ecki leyfiligt sé, nær menn eru vel ad því komnir, heldur tekur Lausnarinn til þessa, svo sem ens helsta, er menn plaga ad stæra sig af, jafnvel þeir ed ødrum þykjast hugprúdari, því þeim þykir ecki til þess koma ad stæra sig af hégómanum, svo sem, af føgrum búníngi, af

hreysti líkhamans, af áliti, af gøfugu foreldri, því þad sé einum nærst, sem hann sjálfur er; en þeir ed mikid góts og garda eiga, þeir hafa optast manna forrád, og þykir í því ríki nockud, en margir af þessum hjá oss eru svo lyndir, ad þeir vilja ad allir þeir, sem lønd þeirra byggja, skuli vera svo sem þeirra eignar þrælar, án hverra þeir væru þó ecki meira enn einn af þeim, því þeir eru þad, sem ala dramb þeirra á sveita sínum, og skyldu hinir missa þad, þá mundu þeir snart brjóta odd af oflæti sínu, því fæstir af þessum veraldar sonum hafa nockurn tíma drepid hendi sinni í kaldt vatn, mundu því koma til ad bidja, þar þeir ei duga til ad grafa, hvar uppá menn hafa og nockur dæmi, ef vel er leitad. En hvernig sem því er nú varid, þá er varla nockur syndari fjær himnaríki, enn einn drambl átur; mikilátur madur kann ecki ad þeckja synd sína, því hann þykist allt rétt gjøra, og á medan syndin er ecki þeckt, þá er ecki von á himnaríki; Drottinn mótstendur dramblátum, Jac. 4, en hvernig vill sá inngánga í himnaríki, sem Gud fyrir óvin hefir, hver alleina á þess vald, en enginn annar. Hafi Andskotinn verid rekinn út úr himninum vegna drambseminnar, þá er líkligt, ad sá muni þar ecki innkoma, sem hønum vill í þessum skammarliga glæp líkur vera. Salómon segir, Ordskv. 16, ad sá sem er stór í hjarta sínu, sé andstygd fyrir Gudi, og þó hann slái hønd í hønd (þad er, þó hann taki annann med sér, og aldrei svo marga) þá muni hann þó ecki óhegndur verda; og til hvers skal þá sá þóttinn, sem ei gjørir nema abla manninum hegníngar af Gudi, frá hverjum ómøgulegt er ad flýa. Nema þér verdid eins og þetta úngbarn, þá kunnid þér ecki inn ad gánga í Guds ríki, segir Frelsarinn, Matth. 18; nú vitum vér ad smábørnin eru ecki dramblát, eins leikur kóngs sonurinn sér vid fátækis barnid, sem vid sinn líka, ef hann má ráda. O! hversu lángt er þá einn dramblátur asni frá himnaríki, þegar hønum þykir enginn standa jafnfætis sér, hafi hann edur hans forfedur svælt nockud út af ødrum. Sælir eru hógværir, því þeir munu landid erfa, segir Frelsarinn, Matth. 5; ad vísu er þad í fyrstu meint um líkhamliga farsæld, svo sem sjá má af hinum 37 Davíds Psálmi, hvadan ordin tekin eru, því þeir sem hæglátir eru, og ecki áleitnir vid adra, þeir hafa optast sitt kyrdum, jafnvel þótt misjafnt beri til um þad, nær Gud lídur Fjandanum ad vada upp í dramblæti oflátúnganna; en verdi þeir arfi sínum ræntir hér, og lída þad þó med hógværd, þá eiga þeir hann vísan á landi lifandi manna, sem aldrei mun skémmast, 1 Pet. 1. Sjái hinir til, ad þótt þeir blási sig upp, eins og nadran, af því sem þeir hafa stolid frá aumíngjanum, hvert þeir munu ná til ad verda samarfar Christí, sem var hógvær og af hjarta lítilátur, Matth. 11. Pad port er þraungt sem til lífsins liggur, og vegurinn er tæpur sem þángad leidir; hvernig mega þeir gánga þar um, hverjum ecki dugir allt landid til ad búa í, þótt ei séu þeir ad líkhamans háttum fyrirferdar meiri enn adrir menn, en hjartid er varid upp úr skýunum, kémst þó aldrei í himnaríki, nema þad líti svip sinn í moldinni, ádur enn þeir ad moldu verda. Hér um talar Drottinn merkiliga hjá Esaj. 5 kap: Vei þeim er samandraga eitt hús til annars, og leggja einn akur vid annann, þángad til ad þar er ecki meira rúm, svo ad þér búid einsamlir í landinu, þad sama er fyrir eyrum Drottins Zebaoth, segir hann. Fimm pør akneyta keypta eg, og fer eg nú út ad reyna þau, eg bid þig affaka mig, segir hinn annar. Med þessari grein af eptirlíkíngunni vill

Drottinn teiknad hafa hina skadligu búsorg og óleifiligu auraelsku; og ber hann sjálfur ljós-ast vitni um þad, hvad mikinn farartálma audurinn gjöri þeim, er hafa fest hjarta sitt vid hann á reisunni til himnaríkis, er hann sagdi vid lærisveinana um hinn ríka ýngismann, ad hægra væri úlfaldanum ad gánga í gégnum nálaraugad, heldur en ríkum manni inn í himnaríki, Matth. 19; og er þessi sami ýnglíngur eitt ljóst dæmi þar uppá, hversu ad fégyrnin og elskan til jardneskra muna banna manninum ad eptirfylgja Christó inn í Guds ríki. Hann vildi frædast af Drottni, hvad hann gjöra skyldi, ad hann mætti eignast eylíft líf; Frelsarinn neitadi ecki því, ad hann hefdi bodordin haldid allt í frá barnæsku sinni; en er hann heyrdi, ad hann skyldi selja allt þad hann ætti, géfa þad fátækum og fylgja sér eptir, þá vard hann hryggur og géck í burt. O, hvad gódu bodi hafnadi þessi fávísi madur! líkur var hann mjøg svo þessum veraldarsonum, er hér talar um í Gudspjallinu; hvad lengi átti hann audi sínum ad fagna? kannské ecki til morguns, og þó yfirgaf hann hid góda hlutskiptid, og lét þenna veraldar saur draga sig frá himnaríki í Satans vald. Markus skrifar, ad Lausnarinn hafi start á þenna ríka mann og elskad hann, Mark. 10, hvad nockrir útleggja, ad hann hafi tekid vel á móti hønum, og hafa þeir nockud til síns máls; en hvert sem var, Drottinn minn! þá sé eg hér þína fødurliga gjæsku í því, ad leita allra bragda vid manneskjuna; svo elskadir þú Sál, minn Herra! á medan hann géck á þínum vegi; svo varst þú med Jehú, allt svo lengi ad hann rak þitt eyrindi; svo mykunadir þú Achab, er hann klæddist í seck; en ecki er ad furda, børn mín! þótt Drottinn hrygdist í anda og taladi svo skorinnordt til lærisveinanna hér um, er hann sá þennavesælíng adkominn himnaríkis dyrum, falla þadan aptur í Satans net, og hefir hann hér fært sønnur á mál sitt, er hann ádur talad hafdi, ad ómøguligt væri undir eins Gudi ad þjóna og Mammóna, Matth. 6. Mammon er einn vesæll Gud, og þeir hønum þjóna eiga auman húsbónda; hann getur ecki haldid sjálfum sér kyrrum, því hversu opt sjáum vér ad stórar fédýngjur hrapa í einu, svo egandinn veit eckert af; svo er hann útfús þegar til vill, ad þrælar hans géta ecki haldid hønum, og ei þótt þeir gjøri vid hann, eins og þeir í Týró gjørdu vid sinn afgud Herkúlem, er þeim barst í drauma, ad hann vildi frá þeim hlaupa í herbúdir ens stóra Alexandrí, ad þeir bundu hann med hleckjum. Þad er eins og Jeremías segir um skúrgodin, 10 kap: þeir gjøra þau fogur med silfri og gulli, þeir festa þau med nøglum og hamri, ad þeir missi þau ecki; en Gud gjæfi menn vildu hugleida, hvad lítid þeir hafa mist, þegar þeir hafa tapad øllu þessu, ef Gud vill svo vera láta, því þá hafa þeir fengid orsøk til ad varpa allri sinni áhyggju uppá Gud, sem er alleina ríkur, og vill ala þá er hann elska, jafnvel sofandi; þá mundi Laban ecki renna eptir Jacob, þó hann vantadi sína afgudi. Eg hefi talad nockud um þetta efni fyrir skommu, og því vil eg enda med St. Páls ordum, er hann segir, 1 Tím. 6: þeir ed ríkir verda vilja falla í freistíngar og snørur og margar gyrndir heimskuligar og skadvænar; hvad lángt eru þeir þá frá himnaríki, sem allareidu fastir eru í þessu Satans neti! og er hér af audsært, hversu mjøg ad fégyrndin og ofmikid aurasafn bægi þeim frá Guds ríki, er nálægt eckert annad stunda. Konu hef eg mér festa, og fyrir því má eg ecki koma, sagdi hinn þridji. Hann vildi ecki hafa sig undanþeginn, því hann þóttist løgliga affakadur; hann sem búgardinn hafdi keypt gat látid

bída til morguns ad skoda hann, og hinn ad reyna akneytin; en fyrir því ad hér má skiljast, ad brúdkaupsdagurinn hafi verid tilsettur, þá vill þessi brúdgumi ecki eynda mørgum ordum til ad afsaka sig, þar hann hafdi til annars géstabods ad gánga, sem hønum væri hvad kjærast og hann mætti ecki forsóma. Líkliga lítur þetta út fyrir mannligum dómi, því Drottinn hefir bodid, ad madurinn skyldi jafnvel yfirgéfa fødur og módur, en samtengjast sinni egtakvinnu; en þó mun þessi eins sekur verid hafa í Guds augliti og hinir. Hér stendur í textanum, eptir því sem eg hann skil, ad þeir afsøkudu sig allir med sama gédi, þad er, ad hver þeirra vildi hafa sína sýslan meir metna en þessa kvøldmáltíd; nú vildi þó húsbóndinn enga af þeim gylda taka, og því vard sú alyktunin ad sídurstunni: enginn þeirra manna sem bodnir voru, skulu smacka mína kvøldmáltíd. Sú er þá meiníngin, ad enginn hlutur skuli oss svo kjær vera, ecki virdíngar vorar, ecki vor audur, ecki fadir né módir, ecki systur né brædur, ecki vorar eginkonur, sem oss ættu hvad kjærastar ad vera, já, ecki vort egid líf, ad þad hindri oss frá þeirri stóru kvøldmáltíd, sem hinn alvaldi Húsfadir hefir oss tilreidt í sínum Syni; þad vottar Frelsarinn sjálfur skømmu sídar í þessum sama Kapítula, segjandi: ef nockur kémur til mín, og ecki hatar fødur sinn og módur, og konu og børn, og brædur og systur, og jafnvel sína egin sál, hann kann ecki minn lærisveinn ad vera? Hvad er þetta, børn mín! hann kann ecki minn lærisveinn ad vera? þad er: hann skal ecki í mitt ríki koma. Gud gaf manninum konuna í fyrstunni hønum til eptirlætis og til ad fjøldga kyni sínu, en ecki til þess ad hann skyldi leyfa henni ad draga sig af Guds vegi, edur brjóta á móti bodi sínu; því segir hann og, Devt. 13: ef þinn bródir, sonur módur þinnar, eda þinn sonur, eda þín dóttir, eda þín kona er þú fadmar, vill koma þér til ad dýrka annarliga gudi, þá skal þín hønd vera hin fyrsta, ad þú deydir hana. En skodum nú oss, brædur mínir! mun oss ecki verda vidlíkt og fødur vorum Adam ad bera skuldina uppá konuna, þó þad sé med ødru móti. Segid mér, þegar hinn voladi bidur um hjálp og hinn naudstaddi, þenkjum vér ecki: þad má eg ecki fyrir konu minni og børnum, ad leggja mikid af vid hann, annars munu þau kannské fara á vonarvøl; þegar Guds eyrindi á ad gjøra og brjótast nockud í móti Satan og hans ofsinnum, látum vér þá ecki hugfallast, jafnvel þeir sem hugprúdir vera þykjast, og segjum med sjálfum oss: gjøri eg þetta, munu þeir sídan konu minni og børnum allt íllt gjøra, eins og skálkurinn sé ecki í Drottins hendi, og hann kunni ei ad vernda sína, þá er setja allt sitt traust á hann. Þegar vér nú þetta gjørum, þá erum vér engu betri enn hann, er sagdi: konu hefi eg mér festa og fyrir því má eg ecki koma. Eg vil ecki fá mér til orda um þeirra hjónaband, sem locka hvert annad til lasta og synda, til ágyrni, hofmóds, øfundar, hardýdgi, og eru samlynd í því, en gjæta eckert þeirrar elsku sem þau eiga á Gudi og náúnganum ad hafa, ei heldur þeirra háttalag, sem ad í egtaskapnum búa saman eins og hundar og kéttir, edur hinna, sem ad sønnu eru samanvígd til hjónabands, en lifa þar inni réttum skjækju lifnadi. Lángt er frá ad soddan manneskjur hlýdi Postulans bodi, í því ad halda egtaskapinn heidarligan og hjónasængina óflekkada, Hebr. 13, og munu þeir þó hafa þykjast fulla orsøk ad ei komi þeir til Drottins kvøldmáltídar, því þeir hafi konur sér festar; og kann eg ecki annad ad segja, enn ad þessi afbøtun er gyld, því ad

D

Djöfullinn heldur med þeim sæng og sess; en Páluš segir, 1 Cor. 10, ád vér kunnum ecki undir eins ad drecka Drottins kaleik og djöflanna, og ecki undir eins ad vera hans bords hluttakandi og þeirra. Taki engin svo mál mitt, ad eg lasti þessa heilögu stétt; hún er af Gudi í fyrstu innstiptud, Frelsariun hefir prýdt hana med sinni nálægd, med henni hefir hann teiknad þá guddómligu ást, er hann hefir á sinni elskuligri brúdi, kristninni; en þad lasta eg, ad menn gleyma Gudi fyrir líkhamans munad, og lifa þar inni þvert á móti hans bodi, gjörandi hjónabandid ad frillulifnadi margur hver. Frelsarinn vill og ecki hjónabandid lastad hafa, þótt hann segi um hina gudlausu veröld fyrir flódid, ad þeir hafi gipt sig og gipta látid, heldur hitt, ad þeir voru svo drucknir í munudum sínum, ad þeir ei hlýddu prédikun hins réttláta Nóe. Og er nú svo úttalad um hid fyrra, er eg hét á ad minnast.

En hvad hinu sídara vidvíkur, þá er þad margt, er oss ætti ad leida til ad taka þessu vegsamliga heimbodi. Hver er sá, ef konúngurinn býdur honum til bords, ad hann þiggi þad ecki allshugar feginn, og mundi ósvinnur þykja, ef hann dræpi hendinni á móti slíkri sæmd; en hér er ecki nockur jardneskur herra, ecki Assverus, ecki Baltazar, ecki Alexander hinn stóri, hverra veitíngar urdu á stundum géstunum ad hefndar gjöf; en hér er hinn nádugi Konúngur himins og jardar, sá ed hefir konúnganna hjörtu í hendi sér, hann ed sedur allar lifandi sképnur med sinni blessan, og allt hvad jardneskir höfdíngjar veita sínum géstum, þad mega þeir af hans örlæti þiggja, annars væru þeir ecki megnugir um ad fæda sjálfa sig, auk heldur fjölmenni svo mikid. Ecki sedja veraldar höfdíngjar nema líkhamann alleina; hvers fylli á stundum verdur ad sálar húngri; en Drottinn mettar sálir vorar med svo gódri og heilnæmri fædu, ad sá ed hennar nýtur, hann þeinkir lítid um veraldligar kræsíngar, því hann hefir þann mat og dryck, sem adrir sjá ecki, Jóh. 4; þeir kunna ad halda eitt géstabod í heila viku edur lengur, sídan húngrar þá og þyrstir, er bodnir voru; en hver sem etur og drecur af þessum vistum, hann skal ecki húngra né þyrsta ad eylífu. Þad skédur í höfdíngjanna géstabodum, ad þeir, sem ad veitslunum eru, verda mætti sínum firnari þegar kallad er hvad bezt veitt, svo þegar vínid er rokid úr höfdinu, vildu menn þar aldrei verid hafa, og ecki betala þurfa þad sem til góda var gjört med því illa sem á eptir fylgir; en í þessu heimbodi munu menn aldrei ofmikid eta né drecka, þess meir þeir drecka, þess vísari verda þeir; engan skal hér dryckjan hvessa til brædi, ecki hreifa hann til óþarfrar mælgi, ecki hvetja hann til lauslætis edur nockurrar fíbligrar háttsemi, né gantaskapar, sem alltíd er, því verr, í sumra manna géstabodum, en hér er fridur og fögnudur í heilögum Anda, sá fridur, sá fögnudur, sem yfirgnæfir allan skilníng. Eg hefi nockrum sinnum ádur borid mig ad tala í þessari bók um þa dýrdligu vist heilagra med Gudi og hans englum, og má eg medkénna, ad þar verdur ecki umtalad af mér á nockurn veg, svo sem verdt er, og ecki af nockurri syndugri túngu, því ef madurinn kann ecki ad sjá Gud og halda lífinu, svo sem Drottinn sagdi vid Móysen, Exód. 33, þá munu menn ei heldur kunna ad útskíra hvad vegsamligt þad sé, ad sjá hann svo sem hann er, og þeckja hann svo sem vér erum af honum þecktir; í einu ordi ad segja: þar um verdur ecki annad sagt, enn þad, sem Esajas í 64 kap. og Páluš, 1 Cor. 2, hafa lagt oss í munn, ad

ð hafi ecki auga séd, og ecki eyra heyrt, sem Gud hafi tilbúid þeim, er hann elska; og
r þó Páll uppnuminn í hinn þridja himin, svo ad líkast er, ad enginn lifandi manna
fi gjørt séd þá himnesku vistarveru, þó mátti hann ecki med ordum útskíra hvílík hún var,
í hann segist hafa heyrt þar þau ord, sem enginn fær úttalad, 2 Cor. 12. Hvad segid
r nú, brædur mínir! finnid þér nockra þá affsøkun í heiminum, er ydur gyld þyki til ad
fna þessu géstabodi? Stórir høfdíngjar láta bera vistirnar og dryckinn fram í gull og silfúr-
'um, þeir hafa marga rétti, og ýmisligan tilbúning, eptir því sem steikarans kunnátta
tur hræsnad fyrir þeirra góm, sem bodnir eru; en hér er ecki nema einn réttur, þad sak-
ısa lamb Guds, hvert ed slátrad er í frá heimsins upphafi; hann er steiktur á krossins
ari í Guds reidi-eldi, á þeim kolunum, sem brunnid hefir af, sídan Adam braut, þad
ı syndir vorar, sem erum nydjar hans; hann er lækníng þeim sjúku, huggun þeim ång-
ðu, ríkdómur þeim voludu, uppreisn þeim, sem verøldin hefir nidurdrepid, sadníng þeim,
n húngra og þyrsta eptir réttlætinu; hvar sáud þér svoddan í einu géstabodi, kristnir
nn? já, hann er eins og Esajas um hann spáir: sýn þeim blindu, fætur þeim holtu,
einsun hinum líkþráu, heyrn þeim daufu, upprisa hinna framlidnu, og þad sem yfirtek-
, nádarbodskapur hinum fátæku, hvern spádóm hann þýdir uppá sjálfan sig, hjá Matth.
. Heyrid þér mér nú, sem búid í landi þessu! erud þér margir vitrir, erud þér margir
sjálir, erud þér margir gøfugir, ef eg má spyrja ydur med St. Páls ordum? þér mun-
segja, nei, ef þér takid hendi í ydar egin barm, og þó hefir hin gudddómliga elska látid
s fátækum gudspjøllin boda; en hver gégnir vorri raust? hver tekur þessu bodi? hinn
ı hrósi sér ecki af skynsemi sinni, hinn voldugi ecki af valdi sínu, og hinn ríki stæri sig
i af audi sínum; en sá sem vill hrósa sér, hann hrósi sér af því, ad hann þecki mig og
lji, ad eg sé Jehóva, sá ed gjøri gódgyrni, réttinn og réttvísina á jørdu, því þad líkar
r, segir Drottinn, Jer. 9. O! sjáid nú hér, þér sem hrokid ydur upp af því, sem
ert er í spunnid, en forsmáid þessa miklu kvøldmáltíd, ad þar má ecki stæra sig í Guds
gliti af hinum mestu hlutum, viti, magt og audæfum. En hvad skulu menn segja vid
ıa dramblátu húsgángsherra vor á medal, þegar vitfirríngurinn hrósar sér af Daníelis
ki; þegar hann sem gétur nidurdrepid þeim, sem er vesælli honum, þá ætlar hann sig
úng vera, og þorir þó ecki ad geispa á móti þeim, sem honum máttkari er; ef hann
ı einhvern tíma lá vid húsgángi, ef hann, segi eg, med følskum kaupeyri, med præls-
i hondlan, já, med allra handa svikum og prettum hefir dregid undir sig góts náúnga
s, og selt honum á stundum annadhvert sína egin þørf edur fávitsku, þá stærir hann
af þeirri audlegd er hans framsýni hafi ablad honum. Þetta er svo almennt og opinn-
t, ad ei þarf eptir ad grafast, svo sem Drottinn segir fyrir munn Jeremíæ; og þetta gjør-
vér, sem þó erum af ødrum þjódum lítils virdtir, um hverja med øllum rétti má segja
u St. Páls ord, er eg fyrir skømmu las, ad vér erum ecki margir vísir, ecki margir
sjálir, ecki margir gøfugir, og þó tyggjumst vér og tonnlumst innbyrdis, já, bítumst um
ta volædi, er vér milli handa høfum, eins og gaddhestar um illt fódur; en þad er allra
mast, ad þad sem verst er á hinum farsælu þjódunum, er lifa í þeim gódu løndunum,

og þad, sem Guds brædi hvad mest uppæsir, sem er, ad þær hyrda lítt um Gud, og fá sér ei stundir fyrir vellystarinnar sakir ad dýrka hann sém byrjar, þad, segi eg, skilur ecki heldur vid eymdir vorar, sem þó ættu ad neyda oss inn ad gánga til þessa géstabods; og svo sem ad nægtirnar og allra handa tímanligt eptirlæti ætti ad draga adrar þjódir til ad elska og prísa Skaparans gjæsku, svo ætti og vor þørf og ørbyrgd ad reka oss til ad dást ad hans mildi, ad hann í øllu þessu hefir unnt oss þeirrar sælu, ef vér hana rétt brúkudum, sem allar þjódir mættu øfunda oss af, og alla svo mjøg eptirlángar, sem er fridur og rósemi; en Gud gjæfi ad hér vantadi ecki allt ofmikid á, og ad þeir, sem hjá oss eru ødrum fæti fremri, þeir ecki hæddu ad Guds ordi, forsmádu og ofsæktu hans þénara, svo lángt er frá því, ad þeir leiti Drottins, edur komi þegar þeir bodnir eru. Þá vard húsbóndinn reidur, segir textinn, og sagdi til þjónustu-mannsins: far þú snarliga út á stræti og gøtur borgarinnar, og leid volada, vanada, blinda og halta hér inn. Þessir munu vera almúga menn Gydínga, þeir ed skipudust vid Christí lærdóm, því færstir voru þeir af hinum, sem gengu hønum til handa; þad er bert af Pharísearanna ordum, er þeir søgdu: trúir nockur af høfdíngjunum á hann, edur af Pharíseis, en þessi almúgi sem ecki veit løgmálid er bølvadur, Jóh. 7. Gydíngum byrjadi og fyrst ad prédika Guds ord, svo sem Páluls og Barnabas vottudu fyrir þeim í Antíochía, Act. 13, en nær þeir ráku þad frá sér, og héldu sig Guds ríkis ómakliga, þá hafa þeir snúid sér til heidinna þjóda, svo sem þar stendur; því segir og hér í gudspjallinu, ad nær þjóninn sagdi, ad þar væri enn meira rúm, þá hafi húsbóndinn sagt: far þú út á þjódbrautir og túngarda, og naudga þeim hér inn ad gánga. Hverjir munu þessir vera, br. m! nema vér heidinna manna børn, hverra fedur voru án Guds í heiminum, já, ecki vér síst sem búum hér undir hinu ytsta heims skauti? á oss er ad fullu rættur spádómur Guds, er hann segir vid Soninn, Es. 49: þad er oflítid, ad þú sért minn þénari til ad upprétta Jakobs kyn, og aptur ad sækja þad tapada af Israel, heldur hefi eg gjort þig til ljóss heidinna þjóda, svo ad þú sért mitt hjálprædi til veraldarinnar endimarka. Sjáid því og, þér kristnir menn! hvílíkan kjærleika ad Fadirinn hefir oss géfid, þad vér Guds børn kalladir verdum eingu sídur enn ríkisins synir. Þessi er Jesús Christur, sonur Guds lifanda, hann sem er vor fridur og gjørir eitt af bádum, og gyrdíngu midveggjarins hefir brotid, svo sem Páluls ad ordi kémst, Eph. 2; hvad er oss þá til hindrunar, børn mín! ad framgánga til nádarstólsins, þar vér høfum frían tilgáng fyrir hann? segir Postulinn til Hebreos. Trúid mér, ad þad er ecki lítill velgjørníngur sem vér þegid høfum í kristnibodinu; eg vil ei tala um þau glediligu umskipti ad vera leystir undan Satans valdi, en settir í Guds Sonar ríki, en hitt ætti oss aldrei úr mynni ad lída, ad hinir náttúrligu kvistirnir eru afbrotnir, en vér innplantadir, ríkisins synir eru útreknir í hin ytstu myrkur, en vér eigum kost á ad sitja til bords med Abraham, Isak og Jacob. O, børn mín! eg grátbæni ydur fyrir Jesú sáru kvøl og blódugar undir, já, fyrir ydar eylífrar velferdar sakir, takid vara á þessari ydar kallan, og líkist ecki hinum í því ad gjøra ydur Guds ríkis óverduga. Þad er dásamligt ad horfa á hina alvitru Guds rádstøfun í sínu nádarríki; fyrst setti hann þeckíngu síns nafns, svo ad segja, midt í verøldina, þegar þeir ráku hana frá sér, þá hefir hún færst smámsaman nordur

eptir þessari heimsins álfu, svo ad hún einnig er komin til vor hinna yztu heims-búa, og varla er hina sönnu Guds dýrkun ad finna nú í heiminum, nema í þessum nordustu löndum. Segid mér nú, kristnir menn! ef vér nú forsmáum þessa Guds gjöf og ei þeckja viljum vorn vitjunar tíma, hvert á Gud þá ad fara, eda fyrir hverjum á hann sitt ord ad prédika láta? á hann ad fara út úr heiminum, edur prédika láta fyrir jöklunum, bjarndýrunum og refunum í Grænlandi? Litlu munar, virdist mér, hjá mörgum hverjum medal vor, þar hjarta mannanna er svo fredid, svo ískaldt vordid, ad þad brádnar ecki vid Guds straungu hótanir, ecki vid hans nádar bodskap og ecki vid minníng hins sídarsta dóms, nær höfudsképnurnar munu af hita brádna; Kjærleikurinn og trúskapurinn eru burtu úr landinu, en ágyrni og fédráttur taka yfirhönd; þeir sem mega sér nockud eta í kríngum sig eins og byrnir og león, þegar þad tekur sína brád, og hinir einföldu dansa eptir þeirra pípu og stöckva yfir hvern þröskuld, til ad uppfylla hús drottna sinna med ráni. Og þótt vér megum játa oss hverri þjód heimskari, þá erum vér þó nógu vitrir í slægdinni, já, falskir eins og refar. Ein med hinum stærstu syndum, hvar fyrir Gud rak sitt fólk út í herleidínguna, var fláræði og ótrúskapur; heyrid Jeremíam þar um talandi, 9 kap: enginn trúi vin sínum og enginn trúi nockrum bródur, því sérhver bródir er einn svikari, og sérhver vinur umgengst falskligana og tala ecki sannleikann, þeir kénna túngu sinni ad tala lygd, og þeir erfida sig þreitta í því ad höndla sviksamliga; segid mér, ef Jeremías mætti lifna upp aptur, mundi hann kunna betur ad útmála vora öld, enn med þessum ordum? og hvad erum vér þess, ad vér skyldum vænta oss betra af Gudi, nær vér uppfyllum þeirra mælíng, nema vér ydrumst af hjarta og leggjum af klæki þessa. O, hversu mikid hefir oss hnignad, ecki einasta í öllum mannskap og hygginðum, heldur og í sakleysinu og rádvendninni! hvar er hin forna trúfesti, stödugleiki, röksemi, vísdómur í rádsløgunum, hugprýdi í útréttíngunum, sannsögli í ordunum, réttvísi í dómunum, sem á dögum forfedra vorra var svo mjög lofud og elskud; þetta höfum vér í útlegd rekid og förum dagvesnandi, svo ad þeir, sem ecki eiga mörg ár til baka ad telja, þeir þeckja ei landid edur stjórnina hjá því sem hún var, hvert ed sýnast mætti ad vera eitt víst teikn til undirgángs og eydileggíngar. Guds þolinmædi vardveiti oss frá Jeremíæ og Ezechíelis tímum, hverjir ed bádir sáu ófarir Gydíngalands, og bádir mjög svo hörmuliga klaga um þessa og þvílíka stórglæpi skömmu fyrir herleidínguna; og megum vér kannast þar vid, ad Gud hefir bendt forfedrum vorum med vidlíku móti, sem eg þó voga ad segja, ad voru miklu betri enn vær. Utlegd hefir jafnan haldin verid hid mesta volædi, en eg veit ei hvad eg segja skal; betra er hvervetna útlægur ad vera medal kristinna manna, enn ad lifa í því landi, hvar dygdin er fyrir skömm haldin, en klækirnir í forsvar teknir, jafnvel af þeim, sem hvad mest ættu ad afstýra vondu framferdi. Nær eg hugleidi þetta, þá gét eg ei bundist ad taka undir med Jeremía, er hann segir í Guds orda stad í 16 kap: tak þér ei konu til egta, og al ecki syni né dætur í þessum stad. Þarfyrir, ó, Guds börn! takid vara á velferd ydar; lángt er sídan þér bodskapinn heyrdud og enn nú er nádartíminn, en enginn veit hvert þetta bod stendur lengur enn til morguns; leggid því af alla illsku og prettvísi og allan óhreinleik, en íklædist svo sem útvaldir Guds, heilagir og elskuligir, hjartgróinni

mÿskunsemi, góðgyrninni, lítilætinu, hógværdinni og þolinmædinni. En hinn nádugi Gud virdist ad vardveita sín børn í solli þessarar ógudligu aldar, svo þau óstraffanlig finnast mættu á þeim tilkomudegi Jesú Christi! Bænheyri þad gódur Gud fyrir síns Sonar úthelt blód og sáru píslir, amen í Jesú nafni! amen.

## Þridja Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Lúk. 15 Kap.

Í þann tíma; en allir tollheimtarar og bersyndugir nálægdust sig til hans, svo ad þeir heyrdu hønum. Og hinir skriftlærdu og Pharíseí møgludu og søgdu: þessi medtekur bersynduga menn, og etur med þeim. En hann sagdi til þeirra þessa eptirlíking, svo segjandi: hvør sá madur af ydur, sem hefir hundrad saudi, og ef hann glatar einum af þeim, yfirgéfur hann ecki þá níu og níutígir á eydimørku, og ferr eptir þeim sem glatadist, þángad til hann finnur hann? og þá hann hefir fundid hann leggur hann þann sama (med føgnudi) sér á herdar, kémur heim og kallar saman viní og nábúa, og segir til þeirra: samgledjist med mér, þvíad eg hefi minn saud aptur fundid, þann sem glatadur var. Eg segi ydur, ad líka svo mun føgnudur vera á himnum yfir einum syndugum sem ydran gjørir, meir enn yfir þeim níu og níutígir réttlátum, sem eigi þurfa yfirbotar vid. Eda, hvør er sú kona, sem hefir tíu peninga, ef hún týnir einum, er eigi svo, ad hún kveikir ljos, og sopar húsid, og leitar vandliga, þángad til ad hún finnur hann? og þá hún hefir hann fundid, samankallar hun vinkonur sínar og grannkonur, segjandi: samgledjist med mér, þvíad eg hefi minn peníng aptur fundid, hvørjum eg týnda. Líka svo eg segi eg ydur, þad føgnudur mun vera fyrir englum Guds yfir einum syndugum, þeim ed yfirbot gjørir.

## E x o r d í u m.

Eg em auglýstur þeim, sem ecki spurdu eptir mér, eg em fundinn af þeim, sem ecki leitudu ad mér; eg sagdi: sjáid mig! sjáid mig! vid fólk þad, sem ecki nefnist eptir mínu nafni, segir Drottinn. Esa. 65. Þessi spádómur á ad skiljast um heidnar þjódir, þad fólk, sem sat í myrkrunum og var án Christs, fráskildir Israels borgarrétti, framandi í sáttmálum fyrirheitisins, hafandi enga von, og gudlausir í heiminum, svo sem Páluſ vottar, Eph. 2; hvar Postulinn meinar alleina þau fyrirheit, sem Gydíngum voru sérílagi géfin, svo sem ad þar skyldi upprenna einn kvistur af rót Jesse, og adrir þvílíkir spádómar, sem høndla þar um ad Messías skyldi fædast af Gydíngum, en ecki hin almenniligu, sem øllum géfin voru, svo sem þegar Gud hét Abraham, ad í hans sædi skyldu blessast allar þjódir, Gen. 22; hvad ljóst er, ecki einasta af hinum mikla framgángi evangelií strax eptir himnafør Drottins, er hann ad sigrudum dauda, Djøfli og helvíti, tók einvalds-stjórn í sinni kyrkju um allan heiminn, heldur og spáir Gud þar um fyrir munn Hóseæ, 2 kap., segjandi: ad tala Israelis skuli verda svo sem sjáfar-sandur, hvern enginn géti mælt né talid; en svo sem á døgum Hóseæ var

rael svo lángt nidursockinn í gudleysisins afgrunn, ad hann vildi þeim ecki framar myskuna,
d þeir ecki smámsaman herleiddir yrdu, svo og er ad óttast fyrir á þessum verstu og síd-
tu dögum, ad kristnin, hverja Guds Sonur hefir med sínu blódi afrekad, hún megi verda
lud Lóruchama edur nádarlaus, og ad margir hennar sýnlligir limir muni verda konúngi
rkranna ad brád, nema menn bæti sinn kristinndóm og taki sér annad háttalag, heldur enn
nenniliga tídkast. Snemma hóf Brunnur myskunarinnar ad auglýsa þad, ad eckert mann-
inar álit væri hjá sér, þegar hann tók vid bersyndugum og tollheimtumönnum, hverjir ed
:u af Pharíseis bölvadar manneskjur haldnir, og enginn vildi med þeim sess né samneyti
a; en ecki skédi þad þessvegna, ad þeir voru bersyndugir og tollheimtumenn, því alltíd er
d samur vid sig í því, ad ei líkar honum ógudligt athæfi, heldur hins, ad þeim lá hvad
st á, og þegar allir höfdu fordæmt þá, vildi hann ecki fordæma, sem alleina hafdi vald til
réttlæta. Svo skulum vér og ecki meina, ad vér edur fedur vorir hafi myskun hlotid af
, ad þeir voru heidíngjar, því heidíngja og tollheimtumenn leggur Drottinn ad jöfnu,
tth. 18, heldur eptir mikilli myskunsemi sinni hefir hann oss hólpna gjört, svo sem Páluss
tar, Tít. 3; ad gjörir Jesús hert í þessu gudspjalli med eptirlíkíngunni um hinn tapada
d og týnda pening. En ef vér afrækjum þessa nád, er oss svo lengi hefir frambodin verid,
tum-forgéfins kanské (hvad Gud nádi og betri, þá dyljumst ecki vid, ad vor dómur muni
s þýngri verda, heldur enn hinna náttúrligu kvistanna, sem ad þeim heldur tilheyrdu fyrir-
in, enn oss. Eg vil út af gudspjallinu alleina hugleida í þetta sinn: 1) hversu nádugur
Gud sé í því ad leita eptir oss; 2) hversu tregir vér séum í því ad láta oss finna.
rk oss hér til, gjæskurîki Fadir! med krapti þíns Anda, fyrir Jesú Christi forþénustu,
ien.

## Utleggíngin.

Leiníngin í þessum fögru eptirlíkíngum hlýdir sérílagi uppá þá, sem stórsyndir hafa
gt, eru fallnir frá Guds vináttu í hans óblídu, og þannig forbrotid Guds barna rétt
hans faderni, sem sjá má af eptirlíkíngunni um hinn fortapada son, er í þessum sama
ítula strax á eptir fylgir. Nú ef vér rannsökum vora lífernis háttu, kristnir menn! þá
n enginn vera sá af oss, ad ecki finni hann í samvitsku sinni, ad hann hafi Guds nád
falliga af sér brotid, og ad hann þarfyrir sé daudans sekur. Ecki er þad nóg, ad vér
rýgjum þá glæpi sem vinna til útsetníngar af kyrkjunni; þad er betra ad vera útrekinn
amkundunni, heldur enn frá Guds nádarstóli; margur mun sá innst í kyrkju, sem ei
idi inn fyrir himnaríkis dyr koma, ef hann dæi í sama háttalagi. Hvad vardar um
, þó enginn viti, ef þín samvitska veit? lítid gagnar ad dyljast fyrir mönnum, þar allt
ó opid fyrir Guds auga; viljir þú þarfyrir sjá Guds gjæsku í því ad leita ad þér, og
i þig syndugan til ydranar, þá skoda hvar frá þú fallinn ert, Apóc. 2. Drottinn
líkir svoddan týndri manneskju glötudum saud, og er þad nærsta vel tilfundid, því
n er sá gódi hyrdir, Jóh. 10, en vér fórum allir villt sem saudir, segir Esajas, 53
og förum dagligana; saudunum erum vér líkir í einfeldninni og fáfrædinu, en ecki í
ilensinu, börn í vitskunni, en ecki í hreckvísinni, þvert á móti því, sem Postulinn býd-
1 Cor. 14. Hér má sjá í gudspjallinu, ad madurinn hefir haldid hjörd sinni á beit
imörku; og hvad mun einn voladur saudur Guds vera í eydimörku veraldar þessarar,
inn villist frá hinum góda Hyrdir, hver ed gengur undan sínum saudum. Þegar
ttinn var reidur Israel fordum, og hét ad úthella yfir hann brædi sinni, þá segir hann
Hóseam í 4 kap, ad hann vilji fæda Israel, svo sem eitt lamb á vídlendinu; en hvad
tt lamb í svoddan plátzi? eckert annad en brád varganna; og þó er þeim midur farid,

sem med syndum og glæpum hefir gjørt sig vidskila hinn ósýniliga Drottins sauda-flock, hvørjir ad þeckja sinn Hyrdir og af hønum þecktir verda, Jóh. 10; þad er hin sanna Guds kristni og søfnudur hans rétttrúadra barna. O, hvílík er þá gjæska hins blessada Hyrdirs, ad hann virdist til ad leita ad svoddan týndum saud! nákvæmliga útmálar Drottinn sitt fødurligt hjartalag í þessari eptirlíkingu. Ecki yfirgéfur Gud hina réttlátu, ei þarf hann heldur ad yfirgéfa þá til ad leita ad þeim sem tapadur er; en uppá þad, ad þú vita megir, syndugur madur! hversu gjarna ad hann vill, ad hinn ógudligi snúi sér og lifi, þá jafnar hann sinni brennandi elsku saman vid þann mann, sem lætur sér hvad sárast vera til þess, sem villt hefir farid, já, sárara til eins af þeim, heldur enn til allra hinna sem vísir eru. Þessa Guds fødurliga gjæsku ættum vér ad láta smelta hjarta vort, þegar hann leitar ad oss dagliga í sínu heilaga ordi, oss, sem ad dagliga syndgumst og ei vinnum nema til hegníngar. Nær gjørir hann þetta? þad gjørir hann nær hann sýnir oss í løgmálinu, hversu mjøg vér høfdum vikid af hans vegi, þegar hann lætur sinna bodorda, sinna straungu hótana þrumu lemja um eyru syndarans, nær hann daufheyrist vid hinni blídu raust þess góda Hyrdirs, og ecki vill láta sig med Guds nádar fyrirheitum leida á hinn rétta veg; þad gjørir hann nær syndaranum vid þetta reidarslag ofbjóda sínir glæpir, og hann segir med Davíd: þar er eckert heilt á mínu holdi fyrir þinni ógnan, þar er enginn fridur í mínum beinum fyrir mínum syndum, mín sár lykta illa og fljóta af grepti fyrir minnar heimsku sakir. Þegar hinn frávilta saudarkynd ecki rædur sér þannig fyrir ofbodi helvítis písla, þá mun Guds hjarta bresta í hønum, svo hann hlýtur hønum myskunsamur ad vera, Jer. 31, þá mun Christí andi bidja fyrir henni med óumrædiligum andvørpunum, Róm. 8, þá mun hún og brátt heyra: þótt ad þínar syndir séu raudar sem blód, þá skal eg þær snjóhvítar gjøra, og þótt þær séu sem purpuri raudar, skulu þær ullhvítar verda, Esaj. 1. Og þannig fer nú hinn gódi Hyrdir ad leita eptir hinum týnda saud. O, hvílík fødurlig gjæska! ó, hvílík brennandi elska! ó, þad órannsakanliga afgrunn Drottins mysk-unar ydra! komid híngad allir þér, sem erfidi drýgid, og þúnga erud þjádir, hann vill endurnæra ydur, Matth. 11. Þar mun verda meiri gledi í himninum yfir einum syndara, sem ydran gjørir, heldur enn yfir níu og níutíu réttlátum, segir Drottinn; hjá hverjum mun sú gledi vera? hjá Gudi og hans blessudum englum; þar munu gledjast englar fridarins, Es. 33, ad þeir sjá sitt erfidi hefir ecki forgéfins verid; þar munu fagna vorir vardhaldsenglar, sem eru þjónustusamir andar, útsendir þeim, er sáluhjálpina erfa skulu, Heb. 1, nær þeir merkja, ad þeirra verk færir svo gódan ávøxt, ad þeir fá aptur bættann þann skada, er Satan vann þeim, nær hann dró þridjúng stjarnanna, þad er englanna þeirra stallbrædra í afgrunn myrkranna med sér, þá hann féll af himni, ad þeir fá hann bættann, segi eg, med fyllíngu útvaldra Guds barna, sem ydran gjøra; þar gledst engill hins mikla ráds, nær hans dýra blód hrín á einum sárádum syndara, sem ydran gjørir; hann reiknar ecki þau bøndin, þau høggin, þá hrákana, þá húdstrokuna, þann þyrnikransinn, þann hrakníngin, þá bitru písl og helvítis kvalir, er hann saklaus leid fyrir þverbrotinn syndara, nær hann ydrast af hjarta og lætur af glæpunum; sú gledin yfirgnæfir, ad hann hefir saud sinn aptur fundid, þann er glatadur var, já, øll guddómsins

'enníng fagnar yfir apturhvarfi syndarans; Fadirinn, því hann elskar oss í sínum elsk-
iga syni, Sonurinn, af því hann hefir oss verdi keypta, Heilagur Andi, af því hann
pantur arfleifdar vorrar; því segir og Drottinn, Hós. 6: á mykunsemi hefi eg þóknan
, ecki á offri; til hvers líknarorðs Drottinn vísadi Pharíseunum, er þeir mögludu um
ad, ad hann æti med tollheimtumönnum, Matth. 9; farid þér, sagdi hann, og lærid
vad þad er: mykun vil eg, og ecki offur, því ei kom eg ad kalla réttláta, heldur syndugа
l ydranar. Og hvad er þad, sem auglýsi meir Guds guddómliga ást til syndarans, heldur
m þad, sem hér stendur í Gudspjallinu: og þá hann hefir hann fundid, leggur hann þann
ıma med fögnudi á herdar sér; hann slær hann ecki né lemur, ei rekur hann med hardri
endi undan sér, heldur leggur hann á herdar sér, þar til hann nær til hjardarinnar, ad
ann ecki aptur týnist. Svo er og Gud vid syndarann nádugur; hann gleymir öllu því
m undan er farid, hann skilur ecki hinn vilta saud eptir í rádleysu og hugarvýli, heldur
nir honum med vitnisburdi Heilags Anda, ad hans syndum sé kastad í hafsins djúp, svo
eirra minníng ei skuli uppkoma ad eilífu. Þessa grunnlausu ást útmálar Drottinn merk-
iga, Esa. 46, segjandi: heyrid þér mér af húsi Jakobs, og allir hinir, sem eptir eru af
úsi Israels, þér, hverja eg ber í mínu lífi, og med hverja eg geng, já, eg mun bera
dur allt til ellidaga, og þángad til þér gráir af hærum verdid, eg vil upphefja, bera, og
elsa! Hvad opt lesum vér í heilagri ritníngu, ad Gud hafi ydrad þess illa, sem hann
tladi ad leggja, edur hafdi lagt, á mannkynid (svo útmálar hann sín brennandi mykunar-
dur eptir mannligum plagsid) en sjaldnar skulum vér lesa, ad hann hafi ydrad þess góda
m hann hafdi gjört, því svo miklu yfirgnæfir nádin reidina og mykunsemin réttlætid; þar
rir segir hann og, fyrir munn Hóseæ í 13 kap. um þá nád, er hann hugdi syndugu mann-
ni ad veita í Christó: ydranin er huld fyrir mínu augliti, þad er, eg skal þess aldrei
drast. O, hversu er Gud oss syndugum mönnum þá ólíkur! hönum leidist aldrei gott
d gjöra, en oss aldrei ad fremja hid illa. Hann segir hjá Jóel, 2 kap., er hann úteys
num djúpu mykunarydrum yfir syndarann: eg em nádugur og mykunsamur, mykillrar
ódgyrni, og sá ed ydrar þess illa; hvar hid illa merkir Guds réttferduga hefnd yfir glæp-
m mannanna, en manneskjan lætur sig svo lítt ydra þeirra fúlu skamma, er hún reitir
ann til reidi med. O, hvilík er þá gjæska Drottins, ecki einasta í því, ad hann hefir
olinmædi med illgjördum vorum, heldur og leitar eptir oss á allar lundir, og tekur á
nóti einum syndugum sem ydran gjörir med allskonar blídu! Mikil var ydran Jónæ
pámanns, og þó ecki minni hans trú, ad hann eptir þad hann hafdi játad misgjörd sína,
ogadi þó ad láta kasta sér út í hid brúsanda haf; en þó var enn stærri Guds födurlig
jæska, er hann, sættist svo brádt vid hann og svo algjörliga, ad hann tilbjó hönum vist í
valfiskjarins kvidi. Þessi Guds undrunarliga hjartagjæska ætti ecki einasta ad leida oss
il ad sættast vid hann svo opt sem vér hönum á móti brjótum, heldur er þetta ein óbrygd-
ıl huggun fyrir þá, sem undir sitt andlát ydrast. Stórliga hafdi þessi Guds madur syndg-
ıst, þar ed hann þeckti Guds mátt, og taladi vid hann, eins og madur vid mann talar,
Jón. 4, og setti sig þó upp á móti hans bodi; en hann, er svo brádliga tilgaf hönum

þessa hróplign synd, mun hann ei bædi kunna og vilja forláta þér þínar illgjordir, ef þú ydrast þeirra af hjarta, þótt ei hafir þú lángan frest til ydranar? Varla mun nockur syndari vera meiri háska vidkominn enn hann var þá, og þó vogadi hann svo á Guds myskun, ad hann sagdi, 2 kap: eg em útkastadur frá þínu augliti, en þó skal eg ecki láta af ad horfa á musteri þíns helgidóms; hvert var þad musterid? þad var Guds myskunar hjarta; hvar var þad? þad var jafnvel í fiskjarins kvidi. Lát þér því sagt vera, ad þú ert aldrei í þeim stad staddur, hverki á sjó né landi, hverki í vatni né eldsvoda, ad ei sé hann þér nádugur, nær þú af hjarta fridmælist vid hann; og í einu ordi ad segja, þar er musteri hans guddóms, sem þú ákallar hann í anda og sannleika; en þessa Guds nád átt þú ecki ad brúka til ad draga sjálfan þig á tálar, svo sem þú vildir hafa þad fyrir lífatkéri sáluhjálpar þinnar, ad Gud hefir eptir sumum leitad alla æfi þeirra, en fundid þá kannské ecki, fyrr enn á daudastundunni, og lagt þá svo sér á herdar, og borid inn á land lifandi manna; ertu þarfyrir rángeygdur þótt hann sé gódgjarn? þótt hann hafi svo vid nockra gjørt sem nú er mælt, þeirra orsaka vegna, sem hann sjálfur veit, er hann þarfyrir skyldugur ad gjøra eins vid þig, sem forsmáir ríkdóm hans lánglundar í ofttrausti hans nádar, af því þú veitst hann er myskunsamur? Spámadurinn er eg strax umgat, hann var Guds madur, hann þeckti bædi Guds gjæsku og hans réttlæti, og þó honum yrdi þad á ad syndga svo stórliga, þá vard honum þad og fyrir ad ydrast, strax sem Gud lét hann þeckja synd sína; en þér mun bágara um ad gjøra svo fljóta ydran, sem aldrei þeinktir nema um glæpina, og hvernig þú kynnir þeim sem best í verk ad koma. Þad hendir Guds børn, ad þau falla í stórar syndir, annadhvert af gáleysi, eins og Móses, af brádrædi, eins og Davíd, af ótta, eins og Petur; þetta skédur þegar viljinn rædur fyrir skynsemina, andinn lætur sigrast af holdinu; en þau ydrast aptur af hjarta, þau væta sína sæng í tárum med Davíd, og gráta beiskliga med Petri; en sá gudlausi hefir enga hvíld, hann þeinkir ei annad, enn hvernig hann megi hinu illa framkoma, og eydir øllum sálar og lífskroptum til ad fylla gyrnd sínr illfúsa hjarta. Þótt nú ad Guds fødurlig ást til mannkynsins sé jafnan búin til ad taka vid syndaranum, nær hann snýr sér til yfirbótar, þá kann eg ecki ad segja, ad þesshættar manneskjum muni vera létt um apturhvarf, því Guds raust er mjøg svo hardtølud á móti þeim, er hann segir, Mich. 2: vei þeim sem hugsa ránglætid, og þeim, sem stunda uppá hid illa í svefnhúsum sínum, ad þeir vilji framkvæma þad þegar byrtir, nær sem þad er í valdi þeirra. Sjái nú þeir til, sem ásetja ad temja sér þvílíkt hugarfar allt fram í daudann, hvert þeir muni eiga hlut í þessari Guds gjæsku, um hverja eg læt nú ad svo støddu úttalad vera, jafnvel þótt hún aldrei úttølud verdi edur nógliga prísud um alla eylífd, og vil svo koma til hins sídara, er eg hét um ad ræda. Svo er nú Gud nádugur til ad leita eptir oss, sem eg hefi sagt; en hversu erum vér nú audveldir til ad láta oss finna? Gud hrópadi á Adam, er hann hafdi syndgast, og sagdi: hvar ert þú? og enn nú hrópar hann á oss dagliga í sínu h. ordi, nær vér ad dæmi þessa vors fødur brjótum hans skipanir; þad fáum vér ad finna í hans tíu laga bodordum, sem vér allir læra egum strax á únga aldri. Adam og Eva føldu sig, er þau merktu Guds raust í aldingardinum, en strax sem hann kalladi manninn vid nafn, þá ansadi hann og játadi synd sína. Svo er þad enn nú fyrir oss, ad á ung-

mennis-árum vorum heyrum vér ad sønnu raust Drottins í hans løgmáli, vidlíkt og Adam þitinn af hans ferd um aldingardinn, en þá verdur oss þad fyrir, ad skýla oss á medal eikanna, þad er, í fávitsku barndómsins, og meinum, ad vér kunnum ad dyljast fyrir Gudi, ef vér gétum dulist fyrir þeim, sem oss er til trúad og vid oss eiga um ad vanda; svo er nú spillíng náttúrunnar frábær í því, ad láta sig ecki finna af Gudi, þótt eptir manninum sé leitad; en þess væri óskandi, ad þegar vér erum komnir til vits og ára, og Gud kallar oss med nafni, ad vér þá ecki ætthlerar værum, heldur breyttum eptir fødur vorum í því, ad dylja ecki lengi med oss synd vora. Þú munt adspyrja, hvad þad sé, ad Gud kalli einn med nafni; þad kalla eg ad vera, nær hann í sínu ordi straffar þær syndirnar, sem þú ert sekur í, en þú vilt ecki vid þær kannast, annadhvert af því, ad þú kallar þad litla edur enga synd, er þú vel mátt þeckja synd ad vera, edur og ad þú ert svo forherdtur í þeim stóru syndunum, sem allir glæpi kalla, ad þú ecki ydrast þeirra; vaninn er vordinn svo ríkur í þinni spiltri náttúru, ad þú ei þeckir armód þinn og fátækt í Guds augliti, edur ad Gud er svo smár í þínum augum, ad þú ætlar hann muni ecki forsmá þann, sem hann vanvirdir, 1 Sam. 2; þegar menn hafa nú grein af einhverju þessu, erum vér þá ecki nærsta torveldir til ad láta oss finna? Þegar vorir fyrstu foreldrar, af gyrndinni til ad þeckja hid illa, neyttu þess ávaxtar, er þeim bannadur var, þá hlutu þau ósk sína, en þad fyrsta íllt er þau þecktu, voru sjálf þau og þeirra satleysi. Af þessari fyrstu gyrnd hins fyrsta manns er innsmoginn til allra manna nockurskonar þorsti til ad vita þad sem íllt er, hvadan flestar ódygdir og lestir spretta; en þess væri óskandi, ad fyrst vér einusinni høfum ratad í þetta spillíngarinnar háttalag, ad oss þá yrdi hid sama fyrir, eins og vorum fyrstu foreldrum, ad vor augu lykjust upp, svo vér þecktum sjálfa oss og vora blygdan, vorn veikleika og vora ørbyrgd, og ad vér stadfastir værum í hugleidíngu þessarar vorrar ómynd-ar, þá mundi hinn gódi Hyrdir ecki einasta finna oss, týnda saudi, heldur mundum vér leita hans andlitis strax sem hann kallar, hann mundi breita vid oss eins og þau, og klæda oss, ecki med skinnklædum, eins og foreldra vora, heldur med þeim réttlætis kyrtlinum, er hann útvegadi oss, þegar hann húdflettur var; en fyrir því ad vér erum svo tómlátir í slíku, þá fylgir þad á eptir, ad vér sneydum himininn þeirri gledi, sem hann hefir af einum syndara, sem ydran gjørir, og sjálfa oss þeirra samneyti, sem í hønum búa, þar vér kjósum heldur ad eta drafid af svína tróglinum, já, ad hverfa aptur, eins og þau, til leyrvelt-unnar, heldur enn ad leita til hýbíla vors Fødur og mettadir verda med Abraham, Isak og Jakob af nægtum Guds húss eylífligana. Þegar einn syndari ydrast af hjarta og lætur af glæpunum, þá kallar Drottinn ad hann hafi saud sinn fundid; en hversu tregkomid ad sé til þess mørgum manni, þad er audséd af glæpunum, sem heimurinn er fullur af. Drottinn segir fyrir munn Zóphóníæ, 3 kap., er hann talar um þá nád, er hann heitir ad veita oss í Jesú Christó: eg vil umbreyta vorum fólksins, ad þær séu hreinar; og skømmu þar eptir segir hann: eptirleifar Israelis skulu ei ránglætid fremja, og þeir skulu enga lýgi mæla, og í þeirra munni skal ei følsk túnga finnast. Þessi dýru spádóms ord heyra og vorum tídum til, og munu ei þrjóta þartil verøld þrýtur, því svo lengi hefir Frelsarinn lofad

ad vera hjá oss. En hlustid til, hvernig Drottinn í þessum ordum útmálar hinn andliga Israel, kristnir menn! Munu þeir vera af því saudahúsi, sem lasta Gud med ordi og verki, þeir sem eckert lof syngja honum med munni sínum, þeir ed falska eida vinna vid hans hrædiliga nafn, ljúga, baktala, rægja og brugga svik med túngu sinni sínum bródur, sem med Guds Sonar blódi er endurkeyptur? lángt er frá því, þeir eru engu sídur án Guds í heiminum, og fjarlægir Israels borgarrétti, heldur enn hinir verstu heidíngjar, um hverja Páλus talar, Róm. 1. Gjörid því ydrau í Jesú nafni, ó, þér hin fráfuúnu börnin! og leitid Drottins á medan hann er ad finna, svo þér af honum fundnir verdid. Eckert er þad, sem meir hindrar gudrækni vora, heldur enn undandráttur ydranarinnar; hvernig kann Guds ást í honum ad búa, sem ei dagliga lætur sig þad ángra, ad hann hafi svo nádugan Gud styggdan, hver ed í svo mörg ár hefir leitad á allar lundir eptir hans velferd, og viljad leida hann med gjæsku sinni og ríkdómi sinnar þolinmædi til apturhvarfs. Vér þeckjum ad sönnu glæpi vora, vors Guds födurligt hjarta kunnunst vér og vid, í því, ad lída þá; vér játum og vitum, ad ei verdur þeirra sekt burttekin, nema þeir verdi med beiskum tárum afþvegnir; en hversu fáir eru þeir, ed gjöra svoddan ydran, sem þeim ad nockru leiti megi sambjóda. Vær erum nærri því eins lyndir og Guds fólk, eptir þad Gud hafdi leidt þá aptur úr herleidíngunni, um hverja skrifad stendur, Hag. 1: þetta fólk segir: þar er ei kominn tími til ad byggja hús Drottins; en hann segir: er þar tími til ad þér skulud búa í þiljudum húsum, og þetta hús skal svo standa í eydi? Oss hefir hinn gódi Gud af ómælanligri gjæsku sinni frelsad frá Djöfulsins herteknungu í endurgétníngar lauginni; en hversu tregir erum vér og hysknir í því ad uppbyggja hans kyrkju, sem er vort hjarta, med endurnyúng vors innra manns, en fyrir voru jardnesku húsi berum vér nóga umhyggju, eg meina kroppinn, þann ham sálarinnar, þar hún, sem er hússbóndinn, fer þó í öllu reidileysi. En hvad segir Drottinn um sitt fólk skömmu sídar, í sama kapítula: þér sáid mikid og safnid litlu inn, þér etid, en engan veginn til sadníngs, þér dreckid og verdid ecki druckuir, þér klædist og verdid þó ecki varmir, og sá ed laun tekur, hann leggur þau í rifinn sjód. Sama hendir þá hálfkristnu á medal vor, þá volgu, um hverja Guds Andi talar í Opinberíngar bókinni, 3 kap; þeir vilja ad sönnu Guds born heita, en þó forgéfins, nema þeir brjóti nidur þá Satans kapellu, í hverri hinn gamli Adam þjónar honum og er hans prestur þar inni, en byggi Gudi eitt nýtt musteri i sínum limum med sannri trú, lifandi trú, sáluhjálpligri trú, hver ed verki fyrir kjærleikann; þeir sá mikid; þeir lesa Guds ord, heyra þad, en þó med hángandi hendi, því safna þeir litlu inn, svo varla nockud þar af verdur geimt í kornhlödu hjartans þeim til nota, nær á þarf ad halda; þeir eta og drecka hold og blód Drottins, en ecki til sadníngar, miklu heldur til fordæmíngar, Christó hafa þeir ad sönnu íklædst, en affært sig honum aptur med gudlausu athæfi og þverbrotnu hjartalagi; þeirra kristinndómur er frosinn og hefir engan náttúrligan varma, og þau laun, er þeir meina sig ad hafa fyrir líkíng sinna gódra verka, hver þeir gjöra sjálfum sér til hrósunar, en ecki Gudi til dýrdar, þeim hella þeir í rifinn sjód, því hin sanna audmýkt hjartans, er lángt þar frá, og svo trúin, án hverrar ómöguligt er Gudi ad þóknast. Breytum ei þannig, kristnir menn! breytum ei þannig, heldur látum

oss ydra þess, sem undanfarid er; sundurkremjum vor hjørtu med ángri og trega, án hræsnis og ecki um stundarsakir, heldur alvarliga, idugliga og dagliga, því dagliga syndgumst vér og vinnum ávalt til hegníngar, annars mun kristinndómsins nafn ad engu gagna oss, eckert heyrn ordsins, og eckert vor kyrkjugángur, vorar ølmusur, né ønnur gódverk, heldur mun þad verda eins og Drottinn segir, fyrir munn Haggeí, 2 kap: spyrjid prestana ad, ef nockur ber helgad kjøt í sínu kápuskauti, mun hann heilagur verda? hverjum prestarnir svørudu, nei; og enn aptur sagdi hann: ef nockur sá, sem óhreinn er af daudýsli, snertir eitthvad þvílíkt, hverjum þeir svørudu: þad mun óhreint verda. Sama mun framkoma vid þá, sem ei ydrast af hjarta, og eru svo volgir og tómlátir í verki sálar sinnar; þad ordid er þeir heyra, Guds líkhama og blód, er þeir medtaka, bænirnar, er þeir flapra út af munninum, kyrkjan, í hverri þeir byrtast fyrir Guds augum, munu ecki helga þá, miklu heldur, þar þeir eru sjálfir óhreinir, og ecki þvegnir med laug sannrar ydranar, þá munu þeir vanhelga þessa helgu dóma til fordæmíngar sér og eylífrar gløtunar, nema þeir betur vandi ydran sína og apturhvarf frá syndunum; en vid þessu daufheyrast menn almenniliga, jafnvel þótt þad sé Guds eigin raust í allri ritníngunni; svo tregt veitir Heiløgum Anda ad koma oss í leitina, þegar hinn gódi Hyrdir ad oss leitar. O, hversu létt gjøra menn sér ydranar verkid! vér meinum ad lygar, stuldur, hórdómar, gudlastanir, meinsæri og hinir verstu lækir og skammir, sem Djøfullinn fær tilbúid í vantrúarinnar børnum, verdi med einu ári afþvegnar, og jafnvel þótt ei sé þad svo mjøg af grunni hjartans; en Niníve borgar menn grétu syndir sínar í heila 40 daga; Davíd, sem var hinn kjærasti Guds vinur, ann grét þó beiskliga í seck og øsku; Nebúchadnezar mátti afþvo sitt ránglæti med sjø ra ydran. En hvad meinar þú þér byrji ad gjøra, sem ert þér svo margra synda medvitndi, og þó eru þær fleiri, sem þú ecki veist, ecki manst og ecki athugad hefir, og sumar innské haldid fyrir litla edur enga synd, en ert þó ecki viss um, ad þú hafir svo lángan eft til ydranar, sem ad fjølda glæpanna sambjódi? mun þér ei þørf á, ad láta þig finna Hønum, sem øllum stórsyndurum tollheimtumønnum og pútum hefir til sín bodid? Reid ð ecki uppá ølmusur Pharíseanna, jafnvel þótt ølmusur séu af Gudi skipadar, þad heitir vilja kaupa sáttmálans blód; med ydran og sannri trú á hinn Krossfesta verdur þad fengen ecki med fémunum, því øll verøldin med allri sinni dýrd er léttari en fis hjá einum opa Guds Sonar blóds, og dugir eckert til ad endurkaupa sál mannsins, svo sem Frelsinn vottar, Mark. 8; lát þér þarfyrir allra mest hér um hugad vera, þá munu hin dortis verkin sjálfkrafa á eptir fylgja. Ydranin og trúin eru þær tvær hendur, er þú t ad breida á móti þínum Lausnara, nær hann finnur þig villuráfandi á eydimørku; gjør d, þá munt þú leiditamur verda til allra gódra verka, því sá sem hefir plágad hjarta sitt med minníngu sinna illgjørda, hann mun skirrast vid ad vinna þad til hinnar raudu vellugar, Gen. 25, er hinn slægi bragdarefur, Djøfullinn, vill kaupa hans frumgétníngu med, d standa út ad nýu slíka plágu, er syndin hafdi ablad hønum, edur ad pínast eylífliga í helvíti ad ødrum kosti; og hann, sem trúir á Guds Son, og er viss um, ad hønum eru svo margar syndir uppgéfnar, hann elskar meir enn svo, ad hann láti sér finnast hans bodord þúng, er hann svo heitt elskadi, ad hann bar alla Guds reidi, þá hann var saklaus kval=

inn fyrir hans syndir. Veit eg ad hverugt þetta stendur í veru valdi; enginn kann til Jesúm ad komast, nema hans Fadir dragi hann, Jóh. 6, og hér stendur í gudspjallinu, ad madurinn hafi leitad eptir þessum týnda saud; svo leitar Jesús ad þér, þad mundi hann ei gjora, nema honum væri alvara ad hjálpa þér; hann leitar ecki forgéfins ad neinum, nema þeim, sem ecki vill láta sig finna, eins og Pharísei og Skriftlærdir; þarfyrir leitadi hann ad tollheimtumonnum og bersyndugum, sem voru tapadir saudir, því hann var kominn til ad frelsa þad sem tapad var; hann leitadi ecki lengi ad Matthæó, ádur enn hann lét sig finna, ecki ad Zackéó, ecki ad hinni bersyndugu, ecki ad hórkonunni, er hann afleysti í musterinu; engum af þessum bægdu syndirnar frá ad láta sig finna, en Pharísei mótstódu H. Anda, Act. 7; því gengu og tollheimtumenn og pútur inn í Guds ríki, þar sem þeir voru útreknir. Madurinn tók þenna saud á herdar sér; hvar fyrir? því ad hann hafdi svo lengi ráfad í villunni, ad hann hefir ei sjálfur gánga kunnad; svo gjorir og Gud vid syndarann; af því vér megum eckert gott af sjálfum oss ad hugleida, aukheldur ad framkvæma, þá ber hann oss á hondum sér, eins og einn madur ber sinn son, sagdi Móses um Guds fólk í eydimorkunni. Nú þar vér hofum svo nádugan Gud, ad hvar sem syndin yfirgnæfir, þar yfirgnæfir þó nádin miklu framar, og svo mildan, ad hann vill sjálfur géfa oss krapt ad þóknast sér, þá lát aldrei synd þína svo vaxa þér í augum, ad þú efist um hans myskun, né vantreyst svo þínu máttleysi, ad þú ei strax fylgir honum eptir, því hans kraptur er í breiskum máttugur. Satt er þad, ad Drottni mislíkar vondskan svo mjog, ad enginn hlutur er odrum svo gagnstædur; vatnid er eldsins vinur og úlfurinn saudanna, hjá því hatri, sem Gud hefir á því illa, annars mundi hann ecki hafa unnid þad til ad forlíka heiminn vid sjálfan sig, ad ofurselja sinn eingétinn Son í svo bitrar kvalir; þetta lætur hann oss skilja, er hann segir: þó ad Móses og Samúel stædu frammi fyrir mér, þá væri ecki mitt sinni til þessa fólks, Jer. 15. En hér er ecki Móses né Samúel, Drottinn minn! hér er einn fárádur syndari, ein ormædd sál, einn harmþrúnginn andi, einn týndur saudur, er þinn Sonur hefir þó aptur fundid, hver ad er meiri en Móses og Samúel; munt þú burtkasta honum, Drottinn! nær hann framber þad dýra gjald, er hans Frelsari lauk fyrir hann á trénu? fjærri sé þad þér, brunnur gjæskunnar, sem ecki vilt syndarans dauda; þad sé lángt frá þér, Konúngur alls landsins! ad þú straffir hinn góda med þeim vonda, sagdi Abraham; en eg em gódur vordinn, þegar Sonar þíns blód er útrunnid í mitt táraflód; þad er lángt frá þér, sem engan vilt burtureka þann er til þín kémur, ad þú látir mig ecki njóta hans bæna, sem þú burtu rakst, þegar hann kvaldist fyrir mínar syndir, eda munt þú taka gjold af bádum ockur? Og því skylda eg þá ei láta mig finna, nær minn hyrdir leitar ad mér, þótt syndir mínar væru stærri en Sódómæ og Gómorræ syndir? því mun eg vantreysta mér ad betra minn lifnad, til at fylgja honum eptir, þar eg megna alla hluti med Páló, fyrir hann, sem mig máttugan gjorir Christum, Phil. 4, og er viss um, ad hvers eg bid Fodurinn í hans nafni þad mun hann veita mér, Jóh. 15. Þegar eg kém fyrir mángarans bord, þá em eg þó ecki viss um, ad eg fái þad mig gyrnir, jafnvel þótt eg hafi nóg fyrir ad gjalda; stundum skortir hann voruna, stundum verda menn ecki kaupsáttir, og þad ber til, ad annar býdur meira enn eg vid

í, sem eg fala; en þegar eg kém fyrir þínar nádar dyr, Herra minn! þá er ecki hætt vid í, ad eg fari erendisláus. Þess eru ecki dæmi, ad þær bænir, sem eru í himininn ıdar, hafi tómar aptur komid; eg kaupi þar med skortinum; nær eg hefi eckert af sjálfum ér fram ad leggja, þá fæ eg alla hluti fyrir alls eckert; þar brestur ecki þad hver gyrnist, í þar eru nægtir Guds húss; þar skal enginn hlaupa í kaup vid mig, því þar er nóg fyrir la, eins fyrir Manassen, svo sem fyrir Davíd, eins fyrir ræníngjann á krossinum, svo n fyrir Guds módur undir krossinum, eins fyrir þann, sem ecki hefir erfidad nema eina ınd, svo sem hinn, er borid hefir hita og þúnga dagsins, nær menn bjóda þad, med sund-knosudum anda og trúudu hjarta, sem alleina fyrir Gudi gyldir, þad er hans Sonar r þénusta í hverjum honum vel þóknast. Honum, med Födur og Heilögum Anda, sé lof, ís, ríki og magt, styrkleiki og dýrd, frá því nú er og ad eylífu, amen.

# A Jóns messu Baptistæ.

Gudspjallid, Lúk. 1 Kap.

Og þá ed sá tími var kominn, þad Elízabeth skyldi fæda, og ún fæddi son; og er nágrannar hennar og frændur heyrdu þad, d Drottinn hafdi miklad mylkun sína vid hana, samglöddust þeir enni. . Og þad skédi, ad þeir komu á hinum áttunda degi ad mskéra sveininn, og nefndu hann síns födurs nafni, Zacharías. n módir hans svaradi og sagdi: aungvanveginn! heldur skal hann ohannes heita. Og þeir sögdu til hennar: þar er þo enginn í ıni ætt, sem ad heitir þessu nafni. En þeir bendtu födur hans, ad hann vildi ad hann héti. En hann beiddist knefaspjalds, ifadi og sagdi: Johannes er hans heiti; og þeir undrudust allir. n jafnsnart laukst hans munnur upp, og túnga hans leidréttist, hann taladi, lofandi Gud. Og otti kom yfir alla þeirra ná-anna, og um allar fjallbygdir í Júdea vídfrægdust öll þessi ord. g allir þeir ed þad heyrdu, settu þad sér í hjarta, og sögdu: ær grunar þig ad þessi sveinn verdi, þvíad hönd Drottins var ed honum? Og Zacharías, fadir hans, fylltist af Heilögum Anda, ádi og sagdi: blessadur sé Drottinn, Gud Israels, þvíad hann tjadi og gjördi frelsan sinu folki, og hann uppreisti oss eitt hjálp- horn í húsi Davíds, þjons síns, svo sem hann hefir talad fyrir unn sinna heilagra spámanna frá aldaodli; hann frelsadi oss frá óvinum vorum, og af hendi allra þeirra, sem oss hata; hann gjördi g mylkunsemd vid fedur vora, og mynntist á sinn heilaga sátt-mála, og á þad særi, er hann sor födur vorum Abraham, ad hann gæfi oss þad, ad ver leystir af hendi ovina vorra, þjonudum hon-m án otta, í heilagleika og réttlæti, fyrir honum sjálfum, alla

vora lífdaga; og þú sveinn munt kallast spámadur hins Hærsta, þviad þú munt fyrir renna augliti Drottins, ad tilbúa hans vegu, ad géfa hans fólki skilníng sáluhjálparinnar í fyrirgéfníngu synda þeirra, fyrir myskunar-ydur Guds vors, í hveriuin hann vitjadi vor upprunninn af hædum, ad lýsa þeim sem í myrkrum og daudans skugga sitja, til ad greida fætur vorar fram á veg fridarins.

## Exordium.

Sjá! eg mun senda minn engil fyrir mér, sá er tilreidi veginn undan mér, segir Drottinn, hjá Malach. 3 kap. Ad þessi spádómur hlýdi uppá hinn fyrsta nýa Testamentisins spámann, Jóhannem Skírara, hvers minníng vér í dag höldum, þad er audvitad af vitnisburdi sjálfs Frelsarans, er ritadur stendur hjá Matth. 11 kap., hvar hann berliga þýdir hinn sama uppá hann; þad er og ljóst, ad eins og morgunstjarnan gengur undan sólunni, svo rann þessi Guds vinur undan sínum Herra, Lausnara heimsins. Hann var ádur gétinn í módurkvidi, og ádur í heiminn fæddur; því lýsir engillinn, er hann bodadi módur Drottins gétnadinn, Lúk. 1, med þessum ordum: sjá þú, ad Elísabeth frændkona þín hefir og barn gétid í elli sinni, og þessi er sjötti mánudur hennar, sem kölluð var óbyrja. Drottinn var í heiminn fæddur af hreinni og óflekkadri meyju, og þótt þad væri hid mesta furduverk, sem Gud hefir nockurn tíma gjört í öllu náttúrunnar ríki, þá var og þad mjög svo undarligt, ad Jóhannes var alinn med þeirri konu, er svo mjög var til ára kominn. Jóhannes skírdi med vatni til ad búa Christó veg, sem eptirá kom og skírdi med H. Anda og eldi, Matth. 3; Jóhannes hóf sinn lærdóm med ydranar prédikun, og fyrirgéfníngar syndanna, þar hann sagdi: gjörid ydran, því Guds ríki er nálægt; þetta var og inntakid í öllum Christí lærdómi, er sídan á eptir fylgdi, og svo mun þad verda allt til enda veraldar; því sagdi hann fordum vid læresveinana, Lúk. 24: svo er þad skrifad, og svo byrjadi Christó ad lída, og upp aptur rísa á þridja degi, og prédikast láta í sínu nafni ydran og syndanna fyrirgéfníng hjá öllum þjódum, hver nádarbodskapur ad einnig er til vor kominn. Nú géfur Frelsarinn þessum sínum forgaungumanni þann vitnisburd hjá Matth. 11 kap., ad hann sé meiri enn nockur spámadur; og mætti þad sýnast, ad Drottins alvísa forsjá hafi sett þetta stóra ljós í öndverda Krists kyrkju, þad er í fordyri nýa testamentisins, til ad sína öllum þeim, sem þar inni eru, edur inngánga vilja, hversu vegligt ad sé embætti forlíkunarinnar, sem Guds þénurum er tiltrúad. Vil eg því á þessari blessudu hátíd taka mér fyrir hendur ad yfirvega: 1) hversu vyrduglig ad þeirra þjónusta eigi af öllum haldin ad vera; 2) hversu mjög þeir eigi sjálfa sig ad vanda. Hjálpa oss hér til, gódi Gud! fyrir Jesúm Christum, amen.

## Utleggingin.

Og þú sveinn munt kallast spámadur hins Hærsta; þetta embætti var mjög svo vegligt á dögum gl. testamentisins, svo þad fylgdi kóngdóminum á stundum. Móses var spámadur, og þó höfdíngi yfir Guds fólki; Davíd var konúngur yfir öllum Israel, og þó spámadur, sem ljóst er af hans psálmum; þeir voru og mjög svo tignadir af gudhræddum konúngum; svo var Nathan í hávegum hjá Davíd, Hazaría hjá Aza konúngi og Esajas hjá Ezechía. Nú eru þad Guds kénnimenn í nýa testamentinu, sem ádur voru spámennirnir, því þetta ord ad spá, merkir ecki alltíd ad segja fyrir ókomna hluti, svo sem gjördu þeir á gl. testamentisins dögum, heldur í því, ad flytja Guds erendi og vídfrægja hans nafn. Hver mun géfa mér, ad allt þetta fólk kynni ad spá? sagdi Móses, Núm. 11; synir ydar og dætur munu spá, sagdi Jóel, 2 kap., þad er, Gud dýrka, lofa og vegsama.

Jóhannes Baptista verdur hér nefndur spámadur ens Hærsta, og þó getur ecki um þad ad hann hafi fyrirsagt óvordna hluti; Drottinn segir, ad hann sé meiri enn nockur spámadur; án efa medal annara þess vegna, ad allir spámenn spádu til Christum, en Jóhannes bendti til hans med fíngrinum, og sýndi mønnum Guds Son holdinu íklæddan. Hans eptirkomendur eru vorir kénnifedur; þeir boda oss Jesúm Christum dáinn fyrir vorar syndir og upprisinn oss til réttlætis; þeir sýna oss hann í ritníngunum fyrir augunum afmáladan med øllum hans ástgjøfum og velgjørníngum. Hver er sú fórn gl. testamentisins, er jafnast megi vid hans dýrmæta hold og blód, sem hans þénarar útdeila í heilögu altarisins sakramentó? hvert er vald svo mikid á jørdu, svo sem ad leysa syndina hjá þeim ydrandi, og ad binda hana hjá þeim, sem ecki vill ydrast né af henni láta? Jóh. 20. Sjáid þá, brædur mínir! hversu vegligt ad er þetta embætti, sem þó af mørgum dára verdur lítils metid; ecki tók spámanns embættid svo mikla virdíngu af valdstjórninni, þótt eg fyrir skømmu segdi, ad Gud hefdi sæmt hana med því, nær honum svo líkadi; hverutveggju eru hans umbodsmenn á jørdunni, og eiga hønum þar inni ad þjóna, eptir því sem hann hefir hverjum bodid. Þar voru og flestir af gl. testamentisins spámønnum, sem engin mikilmenni voru fyrir heiminum: Elíseus var frá plógnum tekinn; Jeremías var únglíngur, þá hann var kalladur; Amos segir í sinnar bókar 7 kap., ei var eg spámadur og ecki spámanns sonur, heldur var eg nautahyrdir og leitadi eptir mórberjum; því tekur þetta vegliga embætti engan mindugleika af nockurs manns persónu, ætt, atgjørfi, ríkdómi, né ødrum veraldar hlutum, þar í er øll sæmdin fólgin, ad þeir eru Drottins þénarar, allur ríkdómurinn, ad hann vill vera þeirra arfur, Núm. 18, allur mindugleikinn í því, ad þeir eru rádsmenn hans leyndardóma, og er þad ecki lítid, børn mín! hver sem álítur þad ókomna, meir enn þad nærveranda. Eg þykist vita, ad þar er enginn af ydur, sá er ei haldi Guds Son alls heidurs verdugan; en hvad segir Kristur vid postulana: hver hann forsmáir ydur, hann forsmáir mig. Ad vísu er þad satt, ad vorir kénnifedur ná ei tánum þángad, sem þeir høfdu hælana, svo sem vér pløgum ad segja; mikid skortir oss á vid þeirra hugprýdi, þolinmædi, kjærleika, bindindi, røksemi og adrar kénnimannligar dygdir, þó eru þeir samt Christí þénarar, og þeir ed vaka yfir sálum ydrum, nær þeir gjøra sitt embætti eptir þeirri nád, sem þeim veitt er, med kostgjæfni; mun því Kristur ecki halda þann saklausan, sem vanvirdir hans aumasta og veikasta þénara, því hann stendur og fellur sínum Herra. Eg vil nú í þetta sinn ecki fá mér til orda, hversu vér egum þá ad elska og virda fyrir þeirra eigin persónu, því eg hefi einhverju sinni ádur um þad talad; þeim er þad og fyrir minstu, ad þeir af ydur dæmdir verdi, edur af mannligum degi, Drottinn er sá sem dæmir þá, 1 Cor. 4; þeirra óvirdíng hjá mønnunum er þeim heidur hjá Gudi, þad hatur, sem veroldin leggur á þá, ablar þeim elsku í himninum; sá afdráttur, er þeim skér í sínum tekjum, hann verdur ríkdómur í Guds féhyrdslu; einn peníngur, sem þá vantar hér, ablar hundrad peninga þar; en um hitt vil eg nú tala, ad þér ecki forsmáid þeirra þjónustu, þótt þeir séu lítilmótligir í ydar augum sumra hverra, þad er, kénníngarnar og ordsins prédikun, því ef þér svo gjørid, þá forsmáid þér ecki þá,

heldur þann, sem þá sendi, og ef þér hatid þá fyrir sannleikann, þá hatid þér sálir ydar og stofnid þeim í hinn mesta voda. Eg bid ydur, brædur! segir Páluſ, 1 Theſſ. 5, ad þér þeckid þá, sem erfida á medal ydar, og standa fyrir ydar andliti og kénna ydur, ad þér hafid þá yfirmáta kjæra, fyrir þeirra verks sakir. Hvert er þad verkid, kristnir menn? þad segir oss Zacharías hér í gudspjallinu: ad tilbúa hans vegu; hvers þá? hins Allra-hæsta, þess Drottnarans, nær hann kémur til síns musteris, sem er þitt hjarta, þad er, nær hann krefur þess, og hin heilaga Guddómsins þrenníng vill þar inngánga og vistarveru hjá þér gjøra; til þess eru Guds þénarar settir; seg mér, eru þeir þá ills verdir fyrir sitt verk, nær þeir gjøra þad trúliga, og vilja fá þér soddan gésti til hýsíngar? En þetta skilst ecki hinni vantrúudu kynslód; hún er eins og skjækjan, sem Terrentíus gétur um í skrøksøgunni, eins og hún sagdi um hinn drambláta strídsman, ad ei hefdi leyfst vid hann ad tala, nema þad sem hann hefdi ádur fyrirmælt. O já, talid þad sem oss er þóknanligt, eptir því sem eyrun klæja! Er ecki þad hid sama, sem Drottinn segir hjá Amos, 2 kap: þér hafid fyrirbodid spámønnunum, segjandi: þér skulud ei spá; þessi Guds madur mátti og af því segja, Amos 7, þegar Amatzía, Jeróbóams prestur í Bethel, sagdi vid hann: þú sjáandi! far burt í Gydíngaland og et þar braud og spá þar, en halt ecki áfram ad spá í Bethel, því þad er kóngsins helgidómur og hans hús. O, þér villudýr! þegar leónid øskrar, hver mun ecki skélfast, og þegar Drottinn skipar, hver mun ecki prédika? Amos 3; en hann skipar svo opt, sem ad hans þénarar sjá, ad ydar glæpir og ógudligar athafnir taka yfirhønd, en hver af hans trúlyndum þénurum mun skélfast fyrir ydar óþocka edur reidisvip, nær menn eru vissir um hans vináttu, í hvers hendi þér erud, eins og hid súna spámannsins belti, sem þó aldrei hafdi í vott komid. Eg skal gjøra mín ord í þínum munni svo sem eld, en þetta fólk svo sem tré, þau er hann eydir, segir Drottinn fyrir munn Jeremíæ, 5 kap; en þad ordid, sem gudhræddir Drottins þénarar hafa í munninum, þad er og hans ord. En svo sem þad, ad Jerúsalem ecki strax uppbrann vid Spámannsins ord, samt var báleldurinn ecki lángt í burtu; svo viti hinn gudlausi heimur, sem ecki vill leyfa þessum eldi inngáng í hjarta sitt til ad brenna þar upp sorp og endemi holdligra gyrnda, viti hann, segi eg, ad hins eylífa loga mun skamt ad bída, sem um aldir mun brenna þá, nema þeir ydrist af hjarta. Allir látumst vér til kyrkjunnar koma, allir heyrum vér ordid og brúkum sakramentin, og svo sem ein hermikráka gjørum oss læti í kristinndóminum, en nær vér þetta hvad mest gjørum, þá gjæfi Gud ad ecki ætti heima hjá sumum af oss þad, sem Drottinn segir um Júda, fyrir munn Jeremíæ, 5 kap.: þar byrtast rángsnúnir menn á medal míns fólks, þeir sem liggja til lægis, og setja snørur fyrir fólkid ad veida þad, svo sem þad fuglarinn gjørir med sínum veidibrellum, og þeirra hús eru af prettum full, eins og eitt fuglabúr er fullt af tálfuglum, þar út af verda þeir megtugir og ríkir, feitir og fríjálsligir, þeir fara med ilskupør, þeir halda engin réttindi, þeir framkvæma ecki málefni hins fødurlausa, og þad luckast þeim; og almúgin er á stundum ecki betri ad sínu leiti. Þad er ad sønnu grátligt til ad vita, ad heilir safnadir heyra svo margar prédikanir, svo margar áminníngar af Guds ordi, en þegar menn krefja, ad þeir gjøri grein á trú sinni, þá er varla tíundi hver, sem kunni ad gjøra þad, svo sem kristnum manni byrjar; þad er

eins og einn ókunnugur hlutur fyrir þeim, og eins og draumur Nebúchadnezars, Dan. 2, er hann sagdi, ad ordid væri horfid sér; ó, hversu lítid er þetta ad virda embætti forlíkunarinnar! Þú segir, ad ordid sé horfid þér, þú gétir því ecki í minni haldid; med þessu dæmir þú sjálfan þig; barn mitt! enginn er svo minnissljór, ad hann af svo mørgum prédikunum, svo mørgum fortølum, hvar hid sama verdur optsinnis ítrekad, ad hann ei géti svo mikid minnst, ef hann vantar ecki eptirtektina, sem ad duga megi hønum til sáluhjálpar, heldur valda því umsvif veraldarinnar og holdligir þánkar, ad menn ecki ítreka med sjálfum sér, edur brýna fyrir sínum børnum og hjúum þad, sem sagt hefir verid, því kémur Djøfullinn og stelur ordinu úr hjartanu, svo undir eins og þú flýgur út úr kyrkjunni, svo flýgur þad úr huga þér. Nær mun túnglkomu hátídin lída, ad vér kunnum ad selja fædsluna? søgdu Gydíngar fordum, Amos 8; en þess væri óskandi, ad nockrir gárúngar segdu ecki í hjarta sínu, nær þeir undir Guds orda heyrn sitja: nær mun þessi ordsnápur hætta, svo vér megum fara ad skémta oss med vorum líkum? hversu vel verdur prédikunar embættid virdt af svoddan vitstola manneskjum? Gjætid þess, kristnir menn! ad þau dýrin voru í gl. testamentinu einasta hrein kølluð, sem ad jórtrudu; sjá þú og til, ad þú helgir hvíldardaginn; en hvernig verdur hann helgadur? ecki er einn dagur af sjálfum sér ødrum helgari, heldur verda þeir svo eptir Guds og yfirvaldsins bodi, en þú helgar hann, ef þú helgar sjálfan þig, ecki einasta med því, ad heyra Guds ord, heldur og hinu, ad ítreka þad med sjálfum þér, er þú heyrt hefir, og veltir því fyrir þér eins og dýrin fódrinu í maganum og munninum, og viljir þú til fulls halda því og aldrei sleppa, þá breyt eptir því í lifnadinum; lát þad vera hjá þér svo sem eitt mót, hvar í gjørdir þínar jafnan steyptar séu, þá mun þad vera svo sem stafur sá, sem á bókfell er ritadur, og þínar gjørdir munu hrósa þér, svo sem eitt bilæti úr gulli steypt, og nær þú svo gjørir, þá kalla eg, ad þú af alvøru virdir og elskir þetta heilaga forlíkunarinnar embætti. Og hvad stodar þad manninn, ad hann ordid heyri, nema hann øldúngis leggi þad uppá hjartad og lifi þar eptir; edur mun þetta heilaga embætti vera innstiptad fyrir sidasakir? edur eiga Guds þénarar ad vera ydur eins og børn, þau á strætum sátu og køllubu til hinna: vér høfum fyrir ydur í pípur blásid, og þér hafid ecki dansad, vér þuldum ydur harma vora, og þér hafid ecki grátid? Lúk. 7. Þeir Guds ord heyra athugalaust, og ecki hyrda um ad færa ávøxt þar af, þeir draga sjálfa sig magnliga á tálar, ecki einasta í því, ad þad mun rísa upp í dóminum á móti þeim á sídarsta degi, Jóh. 12, hvad þó er hid skélfiligasta, og vill gjøra þeirra fordæmíng miklu hrædiligri enn Sódómæ og Gomorræ, heldur eru þeir dárligir í því, ad þeir ljá eyru sín til ad heyra þann hlut, sem þeim er hinn mesti leidi á, alleina til ad hræsna fyrir mønnum, og hafa þess þó engin not í þessum heimi, sem er þeirra himnaríki, en eylíf gjøld annars heims, svo sem eg fyrir skømmu sagdi. Gjætid ad, hvad þad er, sem Zacharías segir framvegis um þenna únga svein: og til ad gésa hans fólki skilníng sáluhjálparinnar til fyrirgéfníngar synda þeirra. Til þess hins sama eru ydur og kénnendurnir settir, br. m.! ecki þad, ad þeir gési ydur skilnínginn, heldur enn Jóhannes; hann skírdi med vatni alleina, svo gjøra og þeir; Páll má planta svo sem hann vill, og Apolló vøkva, 1 Cor. 3,

en það er þó forgéfins, nema að Guð ávöxtinn géfi; en samt færða þeir sálir yðar á því heilnæma lífsins orði, sem að er kraptur Guðs til sáluhjálpar öllum þeim, sem trúa, og þegar Guðs Andi samtengist því í réttrúuðu hjarta, þá kann manneskjan ecki að fara á mis við það að vaxa eptir fullkomnum mælir Christí aldurs, sem Páluś að orði kémst, Eph. 4, og þykir mér svo sem að hann ecki mjög elski sálu sína, sem ecki vill það vinna til, að henni hólpið verði, að þiggja nauðsynliga uppfræðíng af presti sínum, og heyra hann í Guðs stað talandi með hinni mestu athygli. Ecki liggja syndirnar mjög þúngt á honum, sem að ecki með allri sálar og lífs auðmýkt og kristiligum undirbúníngi framkémur fyrir Guð í skriptastólinn, til að þiggja af honum kvittun synda sinna fyrir meðalgaungu hans þénara; en Guð náði! að þar er varla nockur hlutur sá, eð sumir menn hafi á hvílíkan viðbjóð svo sem á þessari heilsusamligu þjónustu, svo nær eð annaðhvert hræsnin eður óttinn dregur þá undir Guðs orða heyrn, þá er það svo sem þeir ættu að gánga til píslar, aðgjætandi það lítið, að þeir eiga þar að finna sálum sínum fóður, svo þeir megi umflýa eylífar helvítis píslir. En segið mér þó, ef Kain, Achítóphel, Júdas og hinn ríki sælgætíngur mættu eiga kost á að hverfa úr kvölunum og sitja undir einni prédikun, mundu þeir ecki kalla það hinn stærsta velgjörníng, og óska að sú prédikun aldrei þryti? hvílíkur dáraskapur er það þá, að fráfælast það, meðan náðartíminn er, fyrir hvert maður gétur kvittur vorðið við þær óumræðiligu hörmúngar, er þeir nú pínast í. Hlýðið því raustu hrópandans í eyðimörku: gjörið yðran, þvíað Guðs ríki er nálægt! þöckum Guði, að hann hefir ecki sendt oss engla af himni til að fræða oss, hverra nálægð vér mundum ei standast, heldur syndugа menn, vora líka; þarfyrir, sá sem elskar sálu sína, hann elski sinn sáluforgara, og þiggi hans þjónustu með allri hógværð og undirgéfni; og er það nú svo um hið fyrra úttalað.

Af Jóhanni hafa allir Christí þénarar það fyrst að læra, að forsmá heiminn með öllu því sem í honum er, og sérdeilis auð og mannvirðíngar. Jóhannes var nógu ættstór, burðir hans vóru til þess, að hann kunni að verða ríkur höfðíngi meðal síns fólks; faðir hans var einn kénnimaður, já, ecki einn almenniligur kénnimaður, heldur af röð Abíæ (svo sem Lúkas hér um skrifar, 1 kap.), hver eð var hinn áttundi meðal niðja Eleazars Arons sonar, höfuðprests, svo sem þar um má lesa í Kron. 24; hans móðir Elízabeth var og af Arons dætrum, svo sem Lúkas einnig vottar, hverjum ættlið að kénnimannsskapurinn fylgdi, sem var ein stór tign meðal Gyðínganna. Nú þótt hann væri svo ættgöfugur, sem sagt er, þá útvaldi hann heldur að þjóna Guði í eyðimörku, heldur enn að bera tign feðra sinna; að vísu er það satt, bræður mínir! að enginn er skyldugur til þess að hafna öllum tímanligum munum, eins og Jóhannes, því hann var sérilagi kallaður til þessa embættis; Guð hefir breytt vægðarsamliga við oss, og leyft oss að búa í landinu meðal bræðra vorra, og hafa þess not, er hann og konúngurinn hafa oss úthlutað, en þó ecki að seilast þar fram yfir. Jóhannes yfirgaf alla hluti fyrir Christí sakir, það sama gjörðu og hans Postular, svo sem Pétur vottar, Matth. 19; en þess væri að óska, að ei fyndust þeir á meðal vor, sem yfirgéfa Christum fyrir veraldliga hluti. Þessu vil eg til þeirra vikið hafa, er lítið eður eckert hyrða um sitt embætti, en eru allir sócknir ofan í

fjárplég og aurafafu, brúkandi jafnvel síns embættis mindugleika til síns eigin ábata, en ecki Christs kyrkju til eblíngar, svo hætt er vid, ad þar finnist eins margir Júdæ líkar, þeir ed selji sinn Herra fyrir fácina peníngá, svo sem Petrí stallbrædur, þeir ed yfirgéfa alla hluti hans vegna, og ad þad meigi vid nockra segja, er Drottinn talar hjá Micheam 3 kap: nær þeir hafa ad tyggja med tonnunum, þá hrópa þeir fridinn, en þeim sem ecki lætur upp í munn þeirra, boda þeir stríd; þeir eta syndir míns fólks, segir Drottinn fyrir munn Héseæ 4 kap., og þeir reisa hug sinn vid þeirra ránglæti. Med sama móti talar Drottinn um þessa leigulida og um daglaunarann, Devt. 24, er hann segir þeir reisi hug sinn vid launin; og er þad næsta vel sagt, því einn hyrdulaus kénnimadur, nær hann hefir þad hann eta skal, þá skeitir hann lítid um fólksins syndir, því reisir hann hug sinn alleina á móti launinum, en leggur ad litlu hans umbót edur framfør, sem hann þiggur launin af, og fagnar jafnvel af vondu athæfi, ef syndarinn vill þad leysa med nockru prestsins gagni, gjørandi svo Bethel ad Bethaven, þad er, Guds hús ad hégóma húsi. Enginn brúki þad fyrir afsøkun, ad hann neydist til þvílíkt ad gjøra fyrir vanefna og fátæktar sakir; hver er sá af ydur, ad hann láti aptur dyrnar fyrir eckert, edur kveiki á mínu altari fyrir eckert? segir Drottinn vid kénnimennina, Mal. 1; svo má og um oss segja; enginn er sá ed þjóni Christó ókeypis, þótt ei séu margra laun svo ríflig, svo sem kyrkju-þénaranna í gl. testamentinu, og vanti hér nockud, mun þad þúsundfaldt apturgjaldast í upprisu réttlátra; edur hvad mun verda af þeim launum, er þér ætlid ydur af Christó fyrir ydar starf, ef þér takid þau fram fyrir hendur á honum í þessu lífi? trúid mér til, ad þad mun ecki verda audveldt ad vera Júdas hér, en Petur þar, og er þá betra hér lítid ad hafa, og þar fullríkur ad vera, ef annadhvert vera skal; fyrir því látum oss þad sagt vera, er Jóhannes sagdi strídsmønnunum þeim, er komu til hans skírnar, og þad þess heldur sem vér erum Christí strídsmenn: gjørid engum ofríki og prettid engan, heldur verid ánægdir med ydar mála, Lúk. 3. Þad annad, sem Guds kénnimenn eiga ad nema af Jóhanni, er hans skynsamligt vandlæti í hans embætti. Þar komu til hans skírnar tollheimtumenn, Lúk. 3, sem haldnir voru hid versta fólk, þeim sagdi hann med hæglæti, ad þeir skyldu eckert gjøra fram yfir þad, sem bodid væri; þar komu til hans strídsmenn, þeim sagdi hann og med spekt þad sama, er eg fyrir skømmu umgat; en þar komu og til hans skírnar Pharíseí, sem haldnir voru hinir vísustu, hinir heilagustu, og Sadúceí, hinir réttlátustu; þessir voru engir smælíngjar, því allt fólkid hné ad þessum tvennum flockum, voru og margir høfdíngjar Gydínga af þeim; en af því ad þeir voru hræsnarar, þá vogadi þessi Guds madur ad segja vid þá: þér nødrukyn, hver hefir ként ydur ad umflýja tilkomandi reidi? gjørid því verduga ávøxtu ydraninni, og segid ei med sjálfum ydur: Abraham høfum vér fyrir fødur; hann vogadi ad segja hinum gudlausa Heródí konúngi: þér byrjar ecki ad hafa þíns bródurs egtakvinnu. Teljandi munu þeir nú vera medal vor, brædur mínir! sem svo alvarliga tali til þeirra, er sig kalla høfdíngja á medal vor, jafnvel þótt ad missmídin séu svo mørg í fari sumra þeirra, ad ecki þurfi sjónhagan mann til ad þeckja þau. O, Gud veri oss líknsamur, og gjæfi ad menn vildu til þess hugsa, hversu landid er fullt af svívirdíng! ágyrnd, ránglæti, gripdeildir, forsøktun

Guds, forsmán hans orda, lauslæti, hatur til náúngans, lygar og rógur gánga skýunum hærra og hrópa í himininn, svo ad nærri því sýnist liggja, ad hinn Almáttugi muni ítreka þau ord fyrir eyrum vorum, er hann í fyrstu taladi vid Ezechíelem, 7 kap: haf snöruna til reidu, því landid er fullt af höfudgjörníngum og sjálf borgin af ofríki; og þetta verdur þó annadhvert ecki, edur med hángandi hendi, straffad af þeim, sem þó eiga ad gjöra reikníng hinum alvalda Dómara fyrir sál hins ógudliga á sídarsta degi, allra síst hjá þeim, sem megtugir eru, jafnvel þótt þeir annadhvert séu fremstir í flocki, bædi ad æsa þvílíkt, edur og ad forsvara þá, ed þad gjöra. Pér segid: þad gyldir ecki, ei ad sídur heyra þeir oss eins og dvergmál fjallanna; en hvad vitid þér af því, brædur mínir! hafid þér til þess reynt? hafi þér hlýdt bodi Páls í því, ad kalla í ákafa og vægja ecki, ad straffa, ógna og áminna í tíma og ótíma med allri þolinmædi? 2 Tim. 4; nema þér svo gjörid, þá vitid þér ecki hvad Gud kann fyrir ydar þjónustu ad útrétta. Ætlid ei til ad þad sé nóg ad leggja höndina á plóginn, en líta svo aptur til þess, sem til baka er; þeir ed svo gjöra, eru ei hæfir til ad leida sjálfa sig né adra til himnaríkis. Gud vil ecki láta hætta vid sitt verk þótt lítid áorkist; skodum dæmi Elíæ, skodum Jónæ dæmi; Gud vill láta sitt ord vondum og gódum prédika, svo þad annadhvert frelsi edur fordæmi; heyrid hvad hann segir vid Ezechíelem, 2 kap: eg mun senda þig til þeirra og ad þú segir þeim: svo segir Drottinn, hvert heldur þeir heyra þad, edur þeir mótstedu veita, því þeir eru eitt þverbrotid hús; óttast ecki, þótt þeir séu mótviljugir og þirnum vaxnir, og ad þú búir á millum höggorma. En Gud gjæfi, ad óttinn edur fégyrnin héldi ecki sverdi andans í skeidunum hjá oss á stundum, svo menn ecki vanhelgudu Gud fyrir einn hnefa byggmjöls og einn bita brauds, og saumudu svo kodda undir hvern armlegg, eins og hinar fölsku spákonur gjördu undir Jérúsalems eydileggíngu, Ezech. 13, til ad teikna þar med frid, hvar þó enginn fridur var. O, brædur mínir! því skyldum vér þó hrædast þá rjúkandi eldibranda, og ecki miklu framar hinn lifanda Gud, hvers umbod vér á hendi höfum? látum oss heyra þad hann segir vid Jeremíam, 1 kap: vert ecki óttasleginn fyrir þeirra augum, ad eg ei sundurmerji þig í þeirra augliti; hvert er þá nú betra, ad sjá skálkinn ýgla sig, og hann fái þó engu til vegar komid, elligar ad mæta Guds óblídu, og ad hann sundurmerji oss ad þeim ásjáendum? Gud kann ad troda Andskotann undir fætur hins minsta vesælíngs, sem honum treystir og gjörir verk sinnar kallanar í hans ótta, aukheldur þá smá-púkana, sem vér höfum ad berjast vid; upphefjum því vorar raddir sem adrar básúnur, segjum Israel til sinna synda og Jakob til sinna misgjörda, svo ei verdi þeirra blóds af oss krafist á hinum mikla degi alls holds, nær hver einn mun hafa nóg med sínar syndir, þótt ei gjöri hann sig hluttakandi í annarligum. Í þridja máta hefir Jóhannes med sínu dæmi kent oss, ad vér skulum vera árvakrir og kostgæfnir í lærdóminum. Hans kyrkja var eydimörkin, því Jerúsalems musteri höfdu þeir gjört ad ræníngjabæli; hann fór í kríngum allt þad land, er lá vid Jórdan, og prédikadi skírn idranarinnar til fyrirgéfníngar syndanna, Lúk. 3; út þángad fór til hans Jerúsalem og allt Gydíngaland, svo sem Mattheus vottar, 3 kap.; þetta var stór sókn, brædur mínir! fyrir einn mann, og skulum vér ecki meina, ad hans verk hafi einasta verid ad skíra, því Lúkas segir, svo sem eg strax áminntist, ad

hann hafi prédikad ydranar skírnina; þad skilst mér ad sé, ad hann hafi útlagt og útlistad fyrir þeim, er komu til hans skírnar, hvílíkur ad væri sá lærdómur, uppá hvern þeir skírdust, og hvernig eptir honum ætti ad lifa; þad sýna þessi ord af hans prédikun: gjørid ydran, þvíad Guds ríki er nálægt, item: gjørid verduga ávøxtu ydraninni; svo er eg viss um, ad hann engan hefir til sinnar skírnar tekid, af þeim sem hafa verid komnir til vits og ára, sem ecki hefir verid fullnuma í þessum lærdómi, nærsta ólíkur þeim af oss, sem setja vid bord Drottins í heilagri kvøldmáltíd ecki einasta únglínga, heldur og afgamla á stundum, sem ecki kunna ad reyna og prófa sjálfa sig, né gjøra skil á líkhama Drottins og annari fædu. Stór var þessi sókn Jóhannis, brædur m.! og gaf hann þó øllum í réttan tíma hvad þeim byrjadi, annars mundi Drottinn ecki sagt hafa, ad frá hans døgum hefdi himnaríki lidid ofríki, Matth. 11. Vorar sóknir eru lángtum minni, þó vantar þær á stundum hvad þær naudsynliga vidþurfa; þér segid: hvad vantar þær? eg vil hér til svara, ecki øllum, en þó mørgum: þær vantar sjaldnast sakramentin, þó vita menn, ad af því ber á stundum hjá sumum hverjum, en þá vantar kostgjæfna undirvísun, bædi um sakramentin, og um adrar trúarinnar greinir, sem eru ómissandi til sáluhjálpar. Zacharías spáir um sinn son, ad hann muni gefa Guds fólki skilníng sáluhjálparinnar til fyrirgéfníngar synda þeirra; svo eigum vér ad gjøra, annars er verkid ónýtt. Hvad gagnar þeim skírnin, sem vér høfum veitt hana, nema vér grandgæfiliga útskírum fyrir þeim hennar krapt, nær þeir dragast á legg, minnum þá á, hvad þeir hafa þar Gudi lofad, kénnum þeim ad endurnýja þann gjæskuríka náparinnar sáttmála dagliga med sífeldri ydran og endurnýúng lífernisins. Hvad stodar þeim hold og blód Drottins, nema vér fyrir hans adstod íklædum þá einu brúdkaups klædi, ádur enn þeir framkoma fyrir svo skélfiliga hátign, kénnum þeim ad ydrast syndanna, ad vita hvad þeir þar medtaka, ad trúa því, og ad brjóta ecki framar endurnýúng síns skírnar sáttmála vísvitandi. Þetta og annad þvílíkt er ad géfa Guds fólki skilníng sáluhjálparinnar, og nema vér þetta gjørum, þá vanhelgum vér þessa dýru dóma, svo ad þeir verda til fordæmíngar, bædi þeim sem þá handtéra, og hinum sem vidtaka. Þú vilt kannské segja: eg em ecki fæddur med H. Anda eins og Jóhannes, því er ei von, ad eg svo miklu afstad komi; eg játa þad, þar heimtist og ecki svo mikid af nockrum einum af oss, svo sem af honum, vér mundum og skamt komast med ad afkasta svo miklu; samt høfum vér allir H. Anda medtekid, og allir høfum vér vit og skyn þegid af Gudi, oss hafa foreldrar vorir til menta sett, svo vér kynnum ødrum ad kénna. Hefdi Gud fyrirséd, ad til mannanna sáluhjálpar þyrfti sérílagi Andans gáfur, eins og Jóhannes og Postularnir høfdu, þá hefdi sú Andans gáfa jafnan samfara vordid kristninni; en hennar Meistari, sem bezt veit, hvad þessari byggíngu hagar, hann vill nú láta sína þjóna nægjast med almenniligar náttúrunnar gáfur, hverjar hann þó jafnan styrkir med krapti síns Anda, þar sem ástundan og árvekni er fyrir. Segid mér, hver er sá af oss, ef hann hefir einhvern kostgjæfinn eyrendisreka, ad ecki leggi hann honum allt í hendurnar til ad framkvæma þad eyrendi? viljum vér þá ætla, ad Brunnur gjæskunnar, sem svo mjøg elskadi sáluhjálp mannanna, ad hann gaf sinn Son í daudann fyrir oss, hann muni láta sína þénara vanta sína adstod, nær hann sér þeirra

kostgjæfni; en þad er grátligt til ad vita, hversu tómlátir ad sumir menn eru í þessari ydju, og láta sér um allt annad meira géfid vera, en gjøra Guds verk ad hjáverki; já, þad er aumkunarverdur hlutur, svo almúginn, sem ad ecki veit Guds réttindi, hann fær þau ecki ad heyra sumstadar af fávísum edur hyrdulausum ordsins þénurum; fari þeir villt, þeir verda ei leidréttir, syndgi þeir, þar verdur ei adfundid, forherdist þeir í syndunum, þá verdur þó ecki þeirra forstockad hjarta sundurmarid med Guds ordi, hvert ad er einn eldur og einn hamar, segir hann fyrir munn spámannsins, sem ad klettinn í sundurmolar, Jerem. 23; dygdin verdur á stundum hotud, løstunum hrósad, edur þeir verda assakadir, sérdeilis séu þeir gjørdir oss í vil; mun þad ei vera hid sama og Drottinn segir, Ezech. 13: fólkid byggir upp einn vegg af leyr, og þeir klína hann med ónýtu kalki; vei þeim heimsku spámønnum, segir Drottinn, er gánga eptir sínum anda, þínir spámenn eru líkir refum á eydimørku, ó, Israel! segir hann; Gud gjæfi, ad þessi þestilentía ecki dræpi sér nidur hjá oss! Þad má kalla, ad þeir fylgi sínum eginn anda, er tala hvad þeim í hug kémur, þad þeir aldrei í ritníngunni sáu, edur jusu upp af Israels brunni, heldur þeirra egin drauma, og þó skammast þeir sín ecki ad segjá: Drottinn hefir sagt þad, þó Drottinn hafi þad aldrei talad, segir Ezechiel spámadur, 22 kap; svo kalla og þessir Guds ord, hvad sem þeir rugla, ef munnurinn alleina freydir, eins og á skeidmæddum hesti. Refarnir eru soltnir í eydimørkunni, svo ráfa og nockrir kénnendur um þurra stadi og finna ecki, hvar med þeir kunni sitt edur annara líf ad næra; þeir snikja út úr óþørfum og fávísum bókum þad sem engum er til nota: skrøksøgur, heimskuligar samlíkíngar og rángar útleggíngar á stundum, til ad tefja af tímann, svo þad verdur ei varid, ad menn meiga heyra þær sumar prédikanir, af hverjum enginn er nockru nær í sínu sáluhjálpar verki. O, Guds menn! látid ydur þó einhvern tíma til hugar koma ad fóstra hjørd Drottins, er hann afrekad hefir med sínu egin blódi, og yfir hverja H. Andi hefir ydur tilsjónarmenn setta, Act, 20. Pharaó vildi ecki géfa Israels sonum hálm edur múrstein til ad gjøra þad verk, er hann hafdi bodid þeim, og þó heimti hann verkid af þeim; eins virdast mér lyndir þeir kénnimenn, er eckert hyrda um Christí arfleyfd, sem þeim er til vøktunar fengin; þeir heimta af fólkinu, ad þeir lifi kristiliga og gjøri kjærleikans verk, en ecki kénna þeir þeim adferd slíkra hluta, og ecki gánga þeir undan ødrum í því, sem þeir bjóda, já, sumir jafnvel þvínga af þeim, þad sem þeir kynni ad gjøra verk kjærleikans med; er þetta ad vera Christí og hans Postula eptirbreytari og eptirkomari, af hverju vér þó stærum oss? Látid ydur þad ecki heldur nóg þykja, brædur mínir! þótt þér hafid þegid gódar gáfur til ad kénna, edur þótt ydar kénníngu sé hrósad af mønnum; þad er ad sønnu stór Guds ástgjøf, og hans þénurum mjøg svo þorf til ad uppbyggja hans kyrkju, en láti menn sér þad í hug koma, er sagdi fordum hinn gódi Hyrdir vid sína lærisveina: fagnid ei yfir því, ad djøflarnir eru ydur undirgéfnir, heldur af því, ad ydar nøfn eru skrifud á himnum, Lúk. 10; svo vil eg og segja í vidlíkum hlut, þó ecki øldúngis hinum sama: fagnid ecki yfir því, ad menn hrósa ydur, því ydur kynni ad henda hid sama og Heródem, hvern engillinn sló, af því hann gaf ei Gudi dýrdina, Act. 12, heldur fagnid af því, ef safnadir ydar leidréttast, ef þér med kristiligu dæmi og roksamri kénníngu leidid nockurn

á Guds veg, svo ad þér séud vissir um, ad þeir med ydur og þér med þeim munud Guds ríki erfa; gledjist af þessu, því til þess erud þér settir, þar í eiga allir ydar athurdir, allir sálar og líkhamans kraptar ad reyna sig, og ecki til ad útvega hrós málsnillinnar hjá mønnum, því eigi gagnadi þad hinum vondu Pharíseis þótt Kristur segdi, ad menn skyldu gjøra eptir øllu því sem þeir tøludu, og ei ad sídur voru þeir blindir, blindra leidtogarar, hræsnarar, eyturormar og nødrukyn; því kalla eg ecki þann ad vera hinn bezta prest, sem hefir hid mesta alþydulof af sinni talsgáfu, heldur þann sem hefir hina beztu tilheyrendur og bezt til himnaríkis uppfrædda, sem elski Gud og náúngann, og vardveiti sjálfa sig flecklausa frá heimi þessum; hann les sitt festibréf fyrir himnaríki, svo opt sem hann sér, ad hans tilheyrendur gánga á Guds vegi og verka sína sáluhjálp med ugg og ótta. O, þú mikli Hyrdir saudanna! bid þú þinn himneska Fødur fyrir oss, ad bædi kénnendur og tilheyrendur mættu svo taka vara á sálu sinni hér í lífi, ad vér í Lambsins brúdkaup til samans innleiddir verdum; þad bænheyri hinn nádugi Gud, fyrir Sonarins forþénustu, amen!

## Fjórda Sunnudag eptir Trinitatis.

### Gudspjallid, Lúk. 6 Kap.

Og Jesús sagdi til sinna lærisveina: verid myskunsamir, líka sem ydar Fadir er myskunsamur. Aungvan skulud þér dæma, svo ad þér dæmist eigi; fordæmid ecki, svo ad þér fordæmist eigi; fyrirgéfid, og þá mun ydur fyrirgéfid verda. Géfid, og þá skal ydur géfast; goda, samþryckta, velskékna og yfirfljotanliga mæling munu þeir géfa í ydar skaut; þvíad med þeirri hinni sømu mælingu hvørri þér mælid út, mun ydur inn aptur mælt verda. Og hann sagdi þeim eina eptirlíking: hvørt kann nockud blindur blindan ad leida? falla þeir ecki bádir í grøfina? lærisveinninn er eigi yfir sínum meistara, en hvor helst sem fullkominn er, hann mun vera sem hans meistari. Hvad sér þú øgnina í þíns brodurs auga, en ad þeim bjálkanum, sem í þínu auga er, gjætir þú eigi? eda hvørnin máttu segja brodur þínum: brodir! leyf þú ad eg í burt dragi øgnina úr þínu auga, þar ed þú sér ecki sjálfur bjálkann í þínu auga? þú hræsnari! drag fyrst út bjálkann úr þínu auga, og sjá þú þá svo til, ad þú fáir útdregid øgnina, sem er í þíns brodurs auga.

### Exordium.

Dæmid rétta dóma, segir Gud til síns fólks hjá Zacharíam í 7 kap. Hvernig segir þá Drottinn hér í gudspjallinu: dæmid ei, svo þér ei dæmdir verdid; fordæmid ei, svo þér verdid ei fordæmdir. Í þessu ber þad ad athuga, ad þegar Drottinn bydur sínu fólki ad dæma rétta dóma, þá er audséd, ad hann gjørir rád fyrir þeim sem rángir eru, og bannar þá; svo gjørir

og Frelsarinn hér í gudspjallinu. Guds er dómurinn, segir Drottinn. Þad hefir jafnan verid háttur Andskotans, sídan hann datt úr heidrinum, ad apa eptir Guds hátign, og svo vill hann og setja sig á dómstólinn á stundum; svo sem Gud situr á millum gudanna í dóm-unum, Ps. 82, svo er ecki trútt um, ad Fjandinn megi stelast þar inn, eg vil ecki segja ad hann gángi þar berliga, þótt ei verdi hann sédur líkhamligum augum, samt mega menn þó sjá hans verk, þegar svo ber vid, því af þeirra ávøxtum skulud þér þeckja þá, segir Lausnar-inn; og þetta tekst hønum eptir því, sem þeir eru lyndir til, sem dómana sitja, og ad því leiti, sem þeir hafa Gud fyrir augum sér, og óttast hinn alvalda himins og jardar Dómara. Dómurum er missfarid, eins og ødrum mønnum; þar situr Móses á dómstóli, þar situr og Elí; þar sat Salómon, þar sat og Achab; þar sat Lýcúrgus, þar sat og Pílatus, og eru þau dæmi óþrjótandi. Gud gæfi menn hefdu færri af Elí, Achabs og Pílatí brædrum, en hinir væru fleiri, þá mundum vér ecki svo berliga sjá þad teikn hins sídarsta allsherjar dóms, sem Lausnarinn segir oss fyrir hjá Mattheum, 24 kap., ad fyrir því, ad rónglætid vex, þá kólni kjærleiki margra, svo sem þad nú sjá má af øllum þeim, sem ad því gjæta, en finna hvad mest af þeim, sem fyrir því verda. Þar eru og dómar hmisligir; 1) er þar dómara em-bætti, sem tilheyrir kyrkjunnar þjónustumønnum, hverjum alvarliga bannad verdur ad segja hid illa gott, Esa. 5, og skipad, ad þeir adgreini hid laka frá því dýrmæta, ad ei bodi þeir frid, hvar enginn er, til ad villa sálirnar; þannig dæmdi og fordæmdi Lausnarinn ógudliga Pharíseos; 2) er þad hinn almenniligi lagaréttur, hver af Gudi er tilsettur mannkyninu til góda og vidurhalds; 3) eru þeir, ed menn almenniliga kalla dagdóma, hverja Frelsarinn sérílagi bannar hér í evangélíó, um hverja eg vil nú í þetta sinn nockud framar tala, eptir því sem Gud géfur nád til. En þú alls holds dómari, herra Jesú Kristi! styrk þú mig hér til med nád þíns Anda, fyrir þína forþénustu, amen.

## Utleggíngin.

Þessir skadligu dagdómar verda med morgu móti og margra orsaka vegna; fyrst, þegar menn nidra því, sem náúnganum er vel géfid, og meiga ei þola ad því sé á lopt haldid. Þetta illgresi sprettur af þeirri fúlu drambsemi og ofund, er liggur í blódinu hjá oss Adams sonum, sumum meir, en sumum minna; vel sé þeim, sem géta drepid þetta eytur med þeck-íngu síns eginn óverdugleika, ádur enn þad blæs upp sálina, henni til eylífrar glötunar, sem vís er þeim, ed hroka sér upp og þykir ad enginn standi sér jafnfætis, því Gud mót-stendur dramblátum, segir ritníngin, og hvar vill sá heimvon eiga, sem hefir Konúng himn-anna fyrir óvin, nema med hønum, sem Drottinn steypti af himni í eylífar píslir, vegna hinnar fyrstu drambsemi. Heyr þú mér, mold og aska, þú vesæll ormaseckur! er nockud annars ágæti þín nidran? ef þú ert kostum búinn, á ecki Gud frjálst ad gjøra annann þér jafnan edur fremri, ef hann vill? því hrækir þú þá Gudi í andlitid og smánar hans mynd, sem er dygdin, med þinni saurugri og óhlutvandri túngu? en munt þú ná því, sem þú eptirleitar, kjæri! og ecki heldur tapa virdíngu þinni med annars nidran, hverri þú ella mundir haldid hafa? Ad vísu; ef hrafninn þegdi, þá misti hann ecki brádina á stundum. Þegar eg heyri einn lasta þad sem vel er gjort, þá flýgur mér strax í hug, hvad mun þessi madur vilja lofad hafa, fyrst hann lastar góda hluti? eg gét ecki annad meint, enn ad hann kunni ecki grein ílls og góds, edur ad hann tali af hatri, þar hann ecki ann náúnga sínum sannmælis, edur og í þridja lagi, ad hann uggir fyrir ad hønum sé hrósad framar sér, og sé eg þá, ad hinn er fremri, jafnvel ad sjálfs hans dómi, þótt ecki vilji hann dóminn uppsegja; svo skérdir nú hans mælgi virdíngu hans, ad minni hyggju, á

hverja lund sem þetta tekid er, hvern eg ella hefdi kannské fyrir gódan mann haldid. Enginn leiti eptir því, sem hans er, heldur eptir því sem annars er, segir Páll, 1 Cor. 10; lángt eru þeir frá því, er vilja taka sæmdina frá ødrum, til ad auka sína med. Einn þjófur er vidurstyggiligur í mannanna augum, og verdur ei móti því sagt, ad þetta er nockurskonar þjófnadur í Guds augliti, því hann sem nidrar ødrum, hann stelur virdíngunni frá náúnga sínum, og er þad svo miklu argari þjófnadur, sem heidurinn er hénu dýrmætari. Hann sem lastar þad sem vel er gjørt, hann er lygari, því hann segir hlutinn ødruvísi enn hann er; enn hvad segir Sýrach, 20 kap: betri er einn þjófur enn einn sí-seldur lygari, þó munu þeir bádir óluckuna hreppa. Hafi hver annann sér í virdíngu ædra, segir Páll enn aptur; vel gjøra þeir þad, sem verda nærri því sjúkir, ef adrir eru ágjætt-ir jafnframt þeim; þad er vel tilfundid á vora túngu, ad menn géfa þvílíku sjúkdóms nafn, því menn kalla þann øfundsjúkan, sem plágadur er af þessum djøfli. Engu éru þeir betri, sem þegja yfir því, sem lofsverdt er; þeir ræna eins dygdina sínum launum, sem er heidurinn, og væri hún ecki sín egin verdlaun, þá mundi hún verda eins og verka-madur sá, er leidist ad vinna ókeypis; þad er einslags lagaleysi og réttar neitun ad vilja ecki hrósa því, sem lofsverdt er, og ecki skilur þetta tvent ødruvísi, enn þad ad dæma rángt og ad neyta réttarins, og er hverttveggja svívirdíng bædi fyrir Gudi og mønnum, svo varla má uppá millum sjá, hver skømmin ad hærra situr í Fjandans ríki. Í ødru lagi eru þeir, sem drepa út hinar minstu náúngans ávirdíngar og gjøra úlfalda úr mýflugunni, þad er stórglæpi úr litilli yfirsjón. Um þessa rángsnúnu dóma talar Frelsarinn hér í gudspjall-inn, þar hann segir: hvad sér þú øgnina í þíns bródurs auga, en þann bjálkann, sem í þínu auga er, adgjætir þú ecki. Varla er nockur løstur tídari í heiminum enn þessi; menn eru svo géfnir fyrir ad leita upp annarra misgjørdir, svo grandskygnir í ad sjá þær, svo málsnjallir í ad drepa þær út, þar vér erum þó sjálfir lýtum hladnir, ef vorar hugsanir, ord og gjørdir ættu ad stikast á hinn réttvísa alsherjar kvarda; edur hver er sá ed segja kunni: mitt hjarta er hreint? Verda má, ad þú sért ecki svo laginn á þann løst, er þú svo lastar á ødrum, en elur kannské adra verri, og samsinnir þeim, sem eru þínir stallbrædur í slíku; þér þykir vænt um þína egin klæki, eins og apinjunni um únga sína, þótt þeir séu allra kvikinda ljótastir (ef þad má nockud ljótt kalla, sem Drottinn skapad hefir), og þó ecki sé annad, þá er þetta glæpur nógu stór, ad þú gjørir þíns náúnga ávirdíng svo stóra, en afsakar þína egin, sem kannské er miklu stærri. Hinn drambláti lýtir hinn ágjarna, en sig kallar hann hugprúdan; hinn ágjarni lastar hinn eydslusama, sig nefnir hann forsjál-ann; hinn eydslusami brýzlar hinum adsjála, en hann vill ørlátur heita, og svo þykir hverjum af oss sinn fugl fagur; og ecki einasta þetta, heldur þad, sem vér erum sjálfir hvad mest géfnir fyrir, þad drepum vér út á ødrum, (sem er stakt blygdunarleysi) jafnvel á gódum mønnum og heidvirdum, ef þá kann eitthvad þvílíkt ad henda, sem vér sjálfir høf-um gjørt ad handverki og daglegri idju, til þess ad gjøra þá eins svarta og oss, og ad þeirra dæmi skuli bera skuggann á vora glæpi; en fáir hyrda um ad draga fyrst út bjálkann úr sínu auga, ad þeir megi sídan útdraga øgnina úr síns bródurs auga, þad er: ad vanda

og temja fyrst sjálfan sig, ad madur sídan megi áminna sinn bródur med þess meira frelsi og ávexti; hér um talar Páls røksamliga, Róm. 2, segjandi: í því, ad þú annann dæmir, þá fordæmir þú sjálfan þig, því þú gjørir hid sama sem þú dæmir; en meinar þú, ó, madur! sérhver sá, er dæmir þá ed þvílíkt gjøra (segir hann), og þú gjørir hid sama, ad þú munir umflýa Guds dóm? hvert ad er samhljóda því, sem hér stendur í gudspjallinu: dæmid ecki, svo þér verdid ecki dæmdir; og er þad merkiligt, sem Postulinn segir hér: í því, ad þú dæmir annann, þá fordæmir þú sjálfan þig, þad er: med því ad þú gjørir þig ad dómara í annars ávirdíngu, í hverri þú þó sjálfur sekur ert, þá ablar þú þér fordæmíngar, því Gud vill þínar syndir dæma í reidi sinni fyrir þessa hlutsemi þína, þar þú fellur inn í hans embætti, sem dómurinn alleina tilheyrir, svo sem Jakob vottar segjandi, Jak. 4: einn er løggjafarinn, sá ed kann ad frelsa og tortýna, en hver ert þú, sem annann dæmir? og þetta skédur optast í þeim hlutum, sem oss aldeilis ecki vidkoma. Eg kann ecki ad segja, ad mér ei leyfist ad kalla þad illa gjørt, sem mér er tilgjørt; ef þad er illa gjørt, þá vil eg heldur láta løgin dæma milli mín og míns mótstødumanns, heldurenn leggja sjálfur dóm á hans tilgjørd, því hverki gildir minn dómur mikid, nema ad gjøra mig sekan fyrir Guds dómi, svo og tek eg hann fram fyrir hendur á valdstjórninni, hver ad er sett gódum til forsvars en vondum til hegníngar. En hvad á eg med ad dæma um þad mig ei snertir í enu minsta? hvad vardar mig um ad dæma þá, sem fyrir utan eru? segir Páls um heidíngjana, 1 Cor. 5; syndgar nockur, þá syndgar hann móti Gudi og móti sjálfum sér, móti ødrum, en mér ecki; eg vil dæma hann ad svo miklu leiti, ad eg varist hans dæmi, og áminna hann og leidrétta, ef eg fæ því vidkomid, þó svo, ad eg dragi fyrst út bjálkann úr mínu auga, en ecki vil eg úthrópa synd hans, og allra síst gjøra hana stærri enn hún er, hvar frá Gud vardveiti mig, heldur afsaka, ef hún er þannig, ad hún verdur afsøkud, og sá ødruvísi dæmir sinn náúnga, hann tekur Guds rétt frá hønum, og gjørir sig ad þess herra, sem hann dæmir, þar hann er þó ecki nema sampjón. Merkiliga talar Páls hér um, segjandi, Róm. 14: hver ert þú, sem fordæmir annarligan þjón? hann stendur og fellur sínum drottni. Jakob segir, 2 kap; um þá sem fara í mannvirdíngar, ad þeir séu vordnir vondra hugsana dómarar; en eckert er manngreinar álit verra edur heimskuligra, enn þad ad kalla sig hoskan og heilagan, jafnvel þó vér allir hrøsum í morgu, en nída sína brædur fyrir sømu lýti sem vér leikum oss ad, eins og ødru tabli, edur kannské ødrum verri; veldur þad því, ad menn gjøra sér svo annt um ad hnísa eptir náúngans gjørdum og óvirdíngum, ad menn fá ecki tóm til ad rannsaka sínar egin, til hvers Drottinn bendir hér í gudspjallinu, því ef textans meiníng er rétt athugud, þá heitir þad svo: þú starir á kvistinn, sem er í þíns bródurs auga, en þann bjálkann, sem í þínu auga er, hugleidir þú ecki, þad er: oss verdur svo starsýnt á þad, sem vér ljótt sjáum á vorum náúnga, og høfum svo mikid ómak fyrir ad gjøra þad enn þá ljótara á stundum, ad oss kémur ecki í hug ad eins, ad vér séum í hinu sama valdir; svo lángt er frá því, ad vér rannsøkum vorn lifnad, edur leitum í fylsnum vors hjarta eptir því, sem þar kynni fólgid ad vera, og fyrir því vér horfum rétt áframm, þá sjáum vér ecki skreppuna, sem á bakinu hángir (svo sem í hinum griska ordshætti segir), veldur þessu hin bølvada sjálfselska, er

liggur í voru spiltu blódi; og þessi grein af dagdómunum er nú þess skadligri, sem hún er almennari, og varla fyrir nockra synd haldin manna á medal. Menn koma saman til svoddan dóma, svo sem til annars géstabods, og í sjálfum géstabodunum hygg eg ad þessi rétturinn smacki hvad bezt á stundum; en þad er ad óttast fyrir, ad Satan hafi tilbúid þeim einn rétt í myrkra salnum, er skémta sér ad þessu, þad er, ad þeir eti sínar túngur út af ofraun, Apóc. 16, sem þær brúkad hafa til slíkra rángsnúinna dóma, nema þeir þecki synd sína, ydrist hennar og láti af henni á medan enn þá er tími til ad dæma sjálfan sig. Hlýdum því raustu Jakobs er hann segir, Jak. 4: talid ecki hver á móti ødrum, sá ed talar á móti sínum bródur, og sá ed fordæmir bródur sinn, hann talar á móti løgmálinu og fordæmir løgmálid, en ef þú fordæmir løgmálid, þá ert þú ecki løgmálsins geymari, heldur dómari. Í hinni þridju rød eru þeir, sem lasta og úthrópa þá glæpi, sem bædi eru opinberir og svo hrópligir, ad þeirra ljótleik gétur ad sønnu enginn affakad og enginn heidvirdur madur vill þeim hrósa, er slíkt adhafast; en þad gjøra sumir, ecki af því ad þeir hati svoddan lesti, edur til ad lagfæra þann, sem ad þeim fundinn verdur, edur ødrum til vidvørunar, heldur þess vegna, ad eitt íllt skap hefir gaman og inndæli af ad lasta og fagnar hverri orsøk er hann kann ad fá þar til, svo lángt er frá því, ad hann manninn elski edur leidrétta vilji, edur og í þridja lagi, ad hann med þess fordæmíngu, sem illa breytir, vill smída sjálfum sér nockurskonar ágjætis edur afbrygdis mynd í annarra þanckum, svo hann géti sagt: eg em ecki svo sem þessi tollheimtumadur, Lúk. 18; svo lángt er hann frá því ad bera mikid af þeim, sem hann dæmir um, því hann, sem þarf annarra saurinda med til ad fegra sig, hann má ecki vera mjøg bjartur sjálfur. Þú gudlaus madur! hafir þú gaman af ad lasta ávirdíngar þíns náúnga, þó þær stórar séu, hvernig ert þú þá betri enn hann? þad hefir og Andskotinn, og er hann þó verri enn hinn argasti syndari. Sá sem drýgt hefir einn glæp, hann kann ad ydrast, því máttugur er Gud ad reisa hann, segir Páluus, Róm. 14; þad sé eg af dæmi Manassis, Davíds, Peturs, hinnar bersyndugu og hórkonunnar, er Drottinn afleysti í musterinu; en hvernig vilt þú, Satans engill! umflýja Guds reidi og fyrirdæmínguna, þar þú hefir skémtun af annarra løstum, þótt ei drýgir þú sjálfur þá? Hver verdur svo hneixladur, ad eg stikni ecki? segir Páluus; þad sagdi hann þessvegna, ad hann hatadi lestina, en elskadi mennina; en hver verdur svo brotligur, ad þú fagnir ecki? þú elur flugu hatursins og øfundarinnar á þreck annarra, og gengur þannig í lid med flugnahøfdíngjanum Belzebub og sver honum trúnad, en skýtst undan merki þíns Frelsara, í hvers holdi Gud fordæmdi þína synd, sem Páluus vottar, Róm. 8, med því ad þú fordæmir þinn bródur, hvern Gud hefir skipad þér ad áminna og leidrétta, en aldrei féck hann þér nockurn svoddan dóm edur vald yfir hønum. Já, þar eru þeir til, er svo ríkt umbod hafa tekid af Fjandanum, ad þeir locka náúngann fyrst til ad syndga, ad þeir sídan hafa megi þad þeir kunni ad lasta og dæma um; þessi er Djøfulsins atferd; svo gjørdi hann í øndverdu vid vora módur Evu, en sídan hefir hann ei látid af ad brixla Guds hersflockum og ásaka þá; svo klagadi hann Job fyrir Gudi, svo stód hann til hægri handar Jósúa, hinum ædsta presti, til ad mótstanda hønum, Zach. 3, og þetta sparar hann ecki enn nú í dag ad útrétta fyrir sína umbodsmenn,

vantrúarinnar børn, í hverjum hann kroptugur er; en Gud straffi þig Satan, hann lifir enn nú, sem Babýlons konúng vóg á vigt, Dan. 5; máttugur er hann enn í dag ad þrífa sína branda út af hennar eldi, eins og Jósúam, en troda þig undir fætur vorar, hundurinn þinn! og ad støckva þínum óaldar flocki. Svo er nú þessi rángsnúna dóma adferd ein Satans idja, og þeir ed sér temja hana mega þar um vissir vera, ad hann géldur þeim í skileyri, þad er med eylífum brixlum og eylífri smán, nema þeir gángi úr þénustunni á medan þar segist enn þá: í dag, því annad hefir hann ecki sínum mønnum í mála ad géfa. Fleiri eru ad sønnu greinir þessara dagdóma, en eg vil hér med kyrt láta í þetta sinn. En hvad skulu menn þá hér til segja? eiga menn alla ad jøfnu ad leggja, og eckert um þad hyrda, hvernig náúnginn skickar sér? fjærri sé því. Drottinn Jesús géfur oss hér í evangélío hin skírustu løg, eptir hverjum náúngann á og má ad saklausu dæma, segjandi: þú hræsnari! drag fyrst út bjálkann úr þínu auga, og þá munt þú sjá til ad útdrega kvistinn úr þíns bródurs auga; sem vildi hann sagt hafa: medan kvisturinn er í þínu auga, þá ert þú ecki svo skarpsýnn, ad þú gétir séd hvert þad er bjálki, edur ei, sem er í auga bródur þíns; ecki bannar hann, já, hann býdur, ad madur skuli átelja sinn bródur, þegar hannn syndgar, og aftelja hann þeim løstum, sem hann er gjarn á og kannské þeckir ei sjálfur, edur hyggur ecki svo ljóta ad vera, því vér fyrirgéfum sjálfum oss jafnan meira enn ødrum, og því er þad velgjorníngur og Gudi þægt verk ad vanda um vid sinn bródur í slíku, en þó svo, ad dómurinn byrji fyrst á voru egin húsi, og því segir hann: drag fyrst út bjálkann úr þínu auga. Hvad mun einn, sem veikur er í einhverju, leidréttast vid þad, þótt einn glæpamadur deili á hann? mun hann eckl lángtum heldur géfa hønum orsøk til ad br;xla sér um sínar egin skammir. Hinn heilfætti spotti hinn skacka, og sá sem hvítur er, blámanninn, segir hid latínska skáld; hid sama er ad segja um þann, sem ødrum vill segja til glæpa sinna; þótt enginn af oss sé heilagur og þar vanti mikid á, þá skal hann ad sønnu rádsvinnari vera, sem annann vill áminna, heldur enn hinn, edur ad minsta kosti ecki í þeim lesti fundinn, sem hann átelur um, annars mun hann brádliga heyra: læknir! hjálpa sjálfum þér; og Pálus segir hønum beiskan sannleika, Róm. 2: þú kénnir ødrum, segir hann, þú prédikar, ad ei skuli stela, og þú stelur; þú segir ei skuli hórdóm drýgja, og þú drýgir hór; þú hefir andstygd á skúrgodum, en stelur helgum dómum; þú hrósar þér af løgmálinu, en vanvirdir Gud med løgmálsins yfirtrodslu. Af þessu sjáum vér, hversu ómissandi þad er, ad vanda sjálfan sig, fyrir þann sem vid annann vill umvanda, og gjorir hann med því tvo hluti góda, sem er, ad hann vardveitir sig óstraffanligan og ávinnur Gudi eina sál til himnaríkis, hverju enginn er þægari fórn hønum, og ei þótt einn bitadi allar sínar eigur nidur fyrir fátæka, 1 Cor. 13; svo naudsynligir og Gudi þeckir eru nú svoddan dómar. Og hvad segir løgmálid, Levít. 19: þú skalt ecki vera einn lastmunnur eda baktalari medal þíns fólks, og ei heldur skalt þú hata þinn bródur í þínu hjarta, heldur skaltu átelja þinn bródur, ad þú berir ecki skuld hans vegna; hér sýnist mér ad hann, sem rannsakar nýrun, kalli þad ad hata sinn bródur í sínu hjarta, ad segja hønum ecki til vamma sinna, ef madur sér þá, og ad hver einn gjøri sig hluttakandi í þeirri synd, er hann sér ad strídir á náúngann, en vill þó ecki vara hann vid; þessa bid eg

þeir gjæti, sem gjora einn nærri því ad Gudi, medan hann heyrir til, en tala um hann allar skammir, jafnvel ljúgandi, nær hann snýr vid bakinu; en hvernig sem því er varid, þá sjáum vér, hversu vel ad þessi lögmáls grein kémur saman vid hid algjörda nýa testamentisins lögmál, því hid fyrra, sem er lastmælgi og óhródur, þad bannar Drottinn hér í gudspjallinu med þessum ordum: fordæmid ecki, svo þér verdid ecki fordæmdir, en hid sídara, þar hann segir: drag sídan kvistinn út úr þíns bródurs auga. Frelsarinn géfur oss eitt bodord, Matth. 18, segjandi: ef þinn bródir syndgar á móti þér, þá far og ávíta hann millum þín og hans; ef þinn bródir heyrir þér, þá hefir þú áunnid þinn bródur; ef nú Drottinn býdur, ad menn skuli svo gjora, nær einn brýtur ödrum á móti, hvad miklu heldur mun hann vilja þad skuli ské til ad leidrétta þann, sem fer villur vega og oss gjörir þó eckert á móti í því sem hann syndgar; þad er svo miklu meira kjærleiks verk öllum ödrum kjærleiks verkum, sem ad sálin, med Guds Sonar blódi endurkeypt, er öllu ödru dýrmætari.

Eina vareygdarsemi hefi eg á ad minnast, ádur enn eg skilst vid þetta mál, sem er, hvad helst sem vér í þessu gjörum, þá framkomi svoddan dómar af elskunni til náúngans velferdar, og ad þeir beri hana eptir sér; dæmum og ecki heldur eptir alþýdu rómi, edur um þad, sem vér ei skynjum, heldur um þá hluti, sem oss alþeckir eru og vér höfum vitskunni á. Margur fer villt í þessu; sumir átelja einn, af því þeir vilja taka sér til nockurskonar vald yfir hönum, og sýna þar med stórmennsku sína, þad ablar opt forsmánar og óþhláturs alleina; nockrir eru beiskiundadir og hardmæltir, jafnvel þótt þeir vilji vel, en þad skilur ecki hinn, sem vid á ad taka. Menn verda ad fara med einn viltan syndara, þann sem ecki er forherdtur í vondskunni, eins og med hrátt egg, sérdeilis þá, sem luckan hossar í veröldinni; erti menn þeirra íllt skap med berYrdum, þá verda þeir eins og hús ad er hrynur, ad þad brotnar sjálft, en brýtur í sundur allt þad, sem undir því verdur. Þetta vil eg þeim sagt hafa, sem Gud hefir ecki sérílagi umbodid ad segja Jakob til sinna synda og Israel til sinna misgjorda; hinir sem Guds umbod er tiltrúad, þeir hafa frelsi til ad straffa, ógna og áminna, allra helst hina þverbrotnu, og þegar ilskan og ógudligt athæfi tekur til ad drottna í landinu (og þó vill Páhus ad Guds vandlæti skuli vera med hógvænsemi), Róm. 12, því þeir gjora slíkt í Guds stad, en ecki undir sinni persónu; og trúi eg ad enginn sé svo dárligur, ad hann þyckist vid Guds ord, þótt þad væri framborid af einum aumasta vesalíng, nema sá, sem vildi engil fyrir prest hafa; og gjöri einn Drottins madur þad ecki, þá mun hann brádliga heyra med Jeremía: þú skalt ecki hrædast fyrir þeirra augliti, ella mun eg sundurmerja þig fyrir augum þeirra; og mun eg öllu heldur kjósa ad sjá skálkinn ýgla sig, enn ad Guds reidi tortýni mér ad hönum á sjáanda; edur svo sem segir Páhus, Gal. 1: hefda eg híngad til mönnum þóknast, þá væri eg ecki Christí þjénari. En hinum ödrum, sem ecki hafa neinu þvílíku ad skipta vid annann, þeim vil eg gefa þad sama rád, er gaf fordum St. Páll þeim í Galatía, 6 kap., segjandi: brædur! ef nockur madur verdur yfirstíginn af einhverri hrösun, þér sem andligir erud, leidréttid hann sama med hógværum anda; gégni einn veraldar sonur því med hofmód og forsi, svo sem þeirra er venja til, og segi eins og hinn Hebreski vid Mósen, Exód. 2: hver hefir sett þig dómara í millum ockar? þá vardar þad litlu; eg hefi samt frelsad sálu mína, en hans

blód er yfir hans høfdi, er ei vildi þola heilsusamliga áminníng, Ezech. 33. Svo hugleidid nú þetta, kristnir menn! og látid ydur mál mitt í eyrum loda, allir erum vér syndugir og enginn sá ed gott gjøri og ecki einn, látum því dóminn byrjast fyrst á sjálfum oss, og munum vér sídur adra dæma; sé þad endir vorrar idju á kvøldum og støndum upp til þess sama á morgna; Dómarinn stendur fyrir dyrunum, hver mun standast fyrir hans dómi, ef hann vill í dóm gánga vid þræla sína, en hann vill alla þá dæma í brædi sinni, er sinn bródur dæma; því segir hann: dæmid ecki, svo þér ecki verdid dæmdir. Annadhvert vill Gud dæma þá, er vér tøkum oss dóms vald yfir, ellegar hann vill þá ecki dæma; vilji hann dæma nockurn, þá gyldir vor dómur eckert, nema til ad fordæma sjálfa oss, því hans er dómurinn; vilji hann ecki dæma, þá er þad hrædiligt ad vilja dæma þann, sem Gud heldur saklausan, og honum er þad gjørir, er fordæmíngin svo vís, sem himni er myskunin. Athugum þetta, en gleymum þó ecki ad áminnast innbyrdis med hógværum anda til leidréttíngar og uppbyggíngar, og samvitskum vorum til frelsunar, ad ei gjørum vér oss hluttakara í annarligum syndum, edur hofum samfélag med ófrjóssømum verkum myrkranna. En þú stóri alsherjar Dómari! þú sem dæmir verøldina med réttvísi, þú sem alleina munt réttlátur fundinn verda, nær þú dæmist, géf þú ad vér svo dæmum sjálfa oss, ad vér ecki verdum af þér fordæmdir, heldur inngaungum frá daudanum til lífsins; bænheyr þad, myskunsami Gud! fyrir þíns Sonar, alls holds Dómara forþénustu, amen!

## Á Vitjunar dag Maríu.

Gudspjallid, Lúk. 1 Kap.

Á þeim døgum stod María upp, og for med flýti til fjallbygda í borgina Júda, inngéck í hús Zachariæ og heilsadi Elízabeth. Og þad skedi svo, þá er Elízabeth heyrdi heilsun Maríu, ad barnid spratt upp í hennar kvidi. Og Elízabeth uppfyltist af heiløgum Anda, kalladi hárri røddu og sagdi: blessud ertu á medal kvenna og blessadur er ávøxtur kvidar þíns, og hvadan kémur mér þetta, ad modir Drottins míns kémur til mín? sjá þú, þá er rødd þinnar kvedju kom mér til eyrna spratt barnid upp af føgnudi í mínum kvidi; sæl er hun, sem trúdi, þvíad þad mun fullkomnast, hvad henni var sagt af Drottni. María sagdi: mín ønd miklar Drottinn, og minn andi gladdist í Gudi, heilsugjafara mínum, þvíad hann leit á lægíng ambáttar sinnar; sjá! af því munu mig hédan af allar ættir sæla kalla, þvíad hann gjørdi vid mig mikla hluti, sá sem máttugur er, og hans nafn er heilagt, og hans myskunsemi varir frá einni kynslod til annarar yfir øllum þeim sem hann ottast; hann framdi magt, med sínum armi sundurdreifdi hann dramblátum í þeirra hjartans huran; volduga setti hann af stoli, og upphof lítiláta; hungrada fylti hann gjædum,

og hinum ríku slepti hann örbirgum; hann endurminntist myskunar sinnar, og medtok sinn þjon Israel, svo sem hann taladi til fedra vorra, Abrahams og hans afkvæmis, ad eylífu. Og Maria var hjá henni svo nær sem um þrjá mánudi, og for sídan aptur til síns heimkynnis.

## Exordium.

Þad var sidur á dögum gl. testamentisins medal Guds fólks, ad þegar hann hafdi gjört eitthvert merkiligt dásemdar verk á medal þeirra, þá prísudu þeir hann med lofsaungum, til þess ad eptirkomendurnir kynnu med þeim sömu ad tigna hans dýrdarfulla nafn, þegar þeir minntust á svoddan Guds störmerki. Þegar Móses hafdi leidt allan Israel í gégnum hafid audu þurrum fótum, en drekt Pharaóni og öllu hans lidi þar í, þá prísadi allur Israel Gud med nýum lofsaung, og María spákona, systir Arónis, tók sér bumbu í hönd, og allar konurnar gengu út eptir henni med bumbum og hljódpípum, og hún saung fyrir þeim: syngid lof Drottni, þvi hann hefir störliga miklad sig, hestinum og riddaranum hefir hann í sjóinn nidurkastad, Exód. 15. Stórt var þetta furduverk Drottins, er hann hér gjördi vid Israel, þó er þad miklu meira, sem hin blessada mey og módir ad Christí júngfrú María, prísar hér í þessu heilaga evangélió med þeim dýrdliga lofsaung, er vér strax heyrdum í gudspjallinu; Móses leiddi Israel út af Egyptalands þrældómi, Guds Sonur hefir oss af syndarinnar og Djöfulsins þrældómi útleyst; Gud steypti Pharaóni og hans hermönnum ofan í sjóinn, en Jesús hefir hinn sterka hervopnada Djöful afklædt sinni hardnestju, og trodid hann undir sinna barna fætur; sjórinn klaufst í sundur, þegar Israel fór af Egypto, en í holdtekju Guds Sonar eru himin og jörd samtengd, og öllum Guds börnum í honum tilbúinn einn nýr og lifandi vegur, ekki inn í Canaan, heldur til himnaríkis, á þad land lifandi manna, hvar ad er gnótt fagnadarins og glediligt líferni til Fodursins hægri handar. Anna, Elkanæ húsfrú, saung Gudi einn þakklætis saung fyrir þann son, er hún hafdi fengid med bæn af Gudi, en Guds módir prísar nafn ens allra Hærsta fyrir þann son, er hverki hún, né nockur syndugra manna, kunni um ad bidja; Lea Jakobs húsfrú sagdi fordum, er Silpha ól henni Asser: nú munu allar konur mig sæla kalla, en María segir hér med öllu meira rétti: hédan af munu mig allar ættir sæla kalla, því hún bar þann í sínum kvidi, í hverjum allar ættkvíslir jardar blessadar eru. Og fyrir því, brædur mínir! ad vér höfum einnig af hans fyllingu medtekid, þá látum oss nú fagna med módur Drottins, og skoda á þessu stundarkorni: hvad ágjætt þad sé, ad mikla hann, og ad gledja sig í Gudi sínum heilsugjafara; hver ord eg vil nú alleina hugleida í þetta sinn. Styrk oss hér til, ó, þú Brunnur alls fridar og fagnadar! med nád þinnar gjæsku, í Jesú nafni, amen!

## Utleggingin.

Dýrdin og vegsemdin er svo stór hlutur, ad flestir gyrnast hana framar ödrum hlutum; jafnvel þeir, sem eckert lofsverdt vinna, þeir vilja þó láta tigna sig; og svo er manneskjan gefin fyrir heidrinum, ad sumir tapa hinum rétta heidri til ad útvega sér fánýtt hrós, en sumir vilja láta sér hrósa, jafnvel af ódygdunum; svo er þó ærugyrndin rík í vorri mold og ösku; en enginn af öllum þeim, er eptir vegsemdinni keppast, er þó verdur hennar fyrir sjálfan sig, ef menn skulu sannleikann tala. Þér ber dýrdin og heidurinn, segir spámadurinn undir allra manna persónu, ad engum fráskildum, en oss ber blygdan vors andlitis. Þad er ad sönnu skyldt, ad hrósa dygdum og mannkostum, en enginn á þó sjálfum sér í því vegsemdar ad leita, heldur Fodur ljósanna, frá hverjum ad kémur öll góð og

øll fullkomin gjøf, Jak. 1. Enginn er meira lofs verdur, enn einn gódur konúngur, sá ed óttast Gud og vel stjórnar sínum løndum og ríkjum, en allra helst Guds kyrkju; um hann má eg segja þad, sem Páll sagdi fordum um þá øldúngana, sem vel forstódu, ádur enn Guds søfnudir høfdu kristna veraldar høfdíngja, ad þeir séu tvøfalds heidurs verdugir; en þó fellst eg á þad, er sagdi hinn gamli Tóbías: leynda dóma konúngsins er gott ad dylja, en Guds verk ad birta og játa er heidarligt, Tób. 12; konúnganna rád verdur ad dylja, því jafnvel þótt þeir séu øllum ødrum mønnum ædri, þá eiga þeir jafníngja sér, adra konúnga sína líka, en Konúngur konúnganna á engan sér jafnan, og þarf því ecki ad dylja fyrir neinum, hvad hann ætlar ad gjøra, svo hann vill segja til hinnar mestu heims magtar, þad sem hann sagdi fordum til síns fólks, Zach. 1: þau ord og setníngar, er eg umbaud þénurum mínum, spámønnunum, hafa þau ecki nád ydar forfedrum? svo ad þegar þeir aptur snéru, søgdu þeir: svo sem Drottinn hugsadi ad gjøra oss eptir vorum vegum, og eptir vorum athøfnum, svo hefir hann gjørt. Hvern skyldum vér þá heldur prísa, enn hann, er svo máttugur er og svo alvaldur, ad hann situr í himninum og gjørir hvad hann vill? Ps. 115; því hrósar módir Drottins hér í gudspjallinu, segjandi: hann gjørdi vid mig mikla hluti, sem ad máttugur er; í hverju gjørdi hann þad? í því, ad hann leit á lægíng ambáttar sinnar. Þad þykir ecki mikid ad gjøra mikid af miklu; þad er ei ad undra, þótt sá géti byggt mørg hús, sem á marga skóga, þó hann brjóti mørg lønd undir sig, sem mørgum hefir á ad skipa; en þad má guddómligt þykja, svo sem þad og er, ad gjøra allt af engu, svo sem Gud gjørdi í øndverdu skøpunar; en þótt þad sé eckert lítid, sem ad hann gjørir, þá var þad þó lítid, svo stórt sem þad er, hjá því, sem María prísar Gud fyrir í þessum lofsaung, þad er, ad Gud vard madur; og fyrir því, ad hinum Alvalda hafdi þóknast ad láta þad ské í hennar kvidi, sem var ein umkomulaus stúlka. þá prísar hún Gud med þessari saungvísu: hann gjørdi vid mig mikla hluti, sem ad máttugur er; þess hefir allt syndugt mannkyn notid; þad var verra enn eckert, eptir þad madurinn hrapadi í afgrunn fordæmíngarinnar, því betra var aldrei fæddur ad vera, enn eilífliga ad kveljast; en hann minntist sinnar miklu miskunsemdar, og í sínum djúpu miskunar ydrum vitjadi hann vor, upprunninn af hædum. Þessu er verdt ad hrósa fram yfir allar ástgjafir Drottins, já, þótt ad allar engla og manna túngur séu skyldar ad vegsama þenna ómælanliga velgjørníng Drottins, þá er þad oss þó skyldugt framar mørgum ødrum, hverra fedur ad voru myrkur, en vér, þeirra synir, erum vordnir ljós í Drottni, Eph. 5; allir þeir, sem gánga vilja eins og ljóssins børnum hæfir. Jómfrúin sýngur hér í gudspjallinu: hans miskunsemi varir frá einni kynslód til annarar yfir øllum þeim, sem hann óttast; þad mátti Israel játa, er hans guddómliga trúfesti reynt hafdi á fedrum sínum allt frá heimsins sköpun, allt til þess Jesus kalladist Jésús, og svo æ sídan, ecki einasta yfir Abrahams sonum eptir holdinu, heldur yfir øllum þeim, sem nú kallast hinn andligi Israel, hverja Gud hefir Abraham af steinum uppvakid, þad er, af þeim, sem dýrkudu stocka og steina og voru þeim sjálfir líkir, sem Davíd vottar, Ps. 115, oss, sem ad ei vorum hans fólk, en hann hefir þá kallad svo sem sitt, hverjir ecki eiga kyn sitt ad rekja til Israels. O! hversu megum vér gladir undirtaka med hinni sælu Guds módur, þar hann hefir oss

samansafnad af austri og vestri, en ríkisins synir eru útreknir í hin ytstu myrkur, svo ad vér játa megum, ad þad hafi á oss sannast, sem Davíd segir um Gud, Ps. 103, ad hans miskunsemi vari ecki einasta frá einni kynslód til annarar, svo sem Guds módir hér segir, heldur frá einni öld til annarar, yfir öllum þeim sem hann óttast. Þyki ydur nú nockud koma til þessara glediligu umskipta, já, þyki ydur svo sem himin og jörd, já, allar engla og manna túngur séu offáar, til þess ad fullþacka Drottni fyrir svo háleitan velgjörníng, þá látum oss þykja þad glediligt ad þacka Drottni og lofsýngja þínu nafni, þú hinn allra Hæsti! því þad er þad einasta, sem hann af oss krefur, ad vér dýrkum hans nafn med ordi og verki. Veraldligir konúngar skilja sér úr sínum löndum og ríkjum þá hluti, sem eru fágjætir og nockrar mætur eru á, er vér köllum regalia, edur konúngs gérsimar, og er þad ecki um eign þeirra, sem dag og nótt hafa umhyggju fyrir svo margri sálu, og þar ad auki eru prýddir med nockurskonar líkíngu Guds hátignar; en Konúngur konúnganna hefir sér alleina dýrdina skilid; hans þegnskylda var engin önnur af Israel, enn ad þeir skyldu óttast hann og elska, Devt. 10, og svo er hún enn í dag af hinum andliga, því med svoddan móti verdur honum réttiliga dýrdin géfin; allt hvad vegsamligt er á himni og jördu, þad er hans vegna vegligt, sem er sjálf dýrdin, og eckert utan dýrd og vegsemd. Hinn vísi hrósi sér ecki af sínum vísdómi, og ecki hinn voldugi af sínu valdi, og hinn ríki hrósi sér ecki af sínum ríkdómi, heldur hver sem vill hrósa sér, hann hrósi sér af því hann skilji og þecki mig, ad eg sé Jehóva, sá ed fremji gódgirnina, réttinn og réttvísina á jördu, þvíad þar í hefi eg velþóknan, segir Drottinn, Jer. 9; hver vill þá eiga tiltölu til nockurrar vegsemdar fyrir utan hann, fyrst þeir mega ecki hrósa sér, sem ad eru hvad vegsamligastir kalladir hér á jördu. Þessari vegsemd, þessari gódgirni og þessari réttvísi hins góda Guds hrósar María í lofkvædinu, er hún segir: dramblátum hratt hann af stóli, en upphóf lítiláta. Skodid hér ydur í speigli, ó, þér stoltu gjædíngar veraldar þessarar! og hversu fánýtir þér erud, nær þér viljid troda litilmagnann undir fótum, þann sem Gudi treystir; vitid þér ecki, ad þér færid her Drottni á hendur. Bjóda ecki lög vor, ad einn fjárhaldsmadur skuli verja sök ómaga síns, og sækja ef vid þarf? ætlid þér ad Guds fyrirheit muni binda hann minna, heldur enn lögin skuldbinda ydur, hver þér rjúfid, nær sem ydur býdur svo vid ad horfa, fyrir ávinníngs edur haturs sakir; en hversu opt lofar nú Drottinn í sínu ordi, ad hann vilji vera forsvar hins munadarlausa? svo ad allir undirþryktir, allir þeir ed ránginndin lída, þeir eru ómagar Drottins; er þar nockur limur á vorum líkama, er oss sé vidkvæmari enn augun, og þó sagdi Gud um sína vesælínga, sem stundu undir ofríki heidíngjanna í Babýlon, sem er líkíng ydar fósturmódur veraldarinnar: hver ed snertir ydur, hann snertir sjáaldur míns auga, Zach. 2. Hugleidid nú med ydur, ó, þér hin skynlausu börnin! vid hvern þér egid ad skipta; ecki vid hann, sem þurfti ad setja sig nidur og reikna, hvert hann med tíu þúsundum géti mætt þeim sem kémur á móti honum med tuttugu þúsund, Lúk. 14, þvíad allar sálir eru hans, heldur vid hann, vid hvers einustu bendíngu ad Sódóma brann til ösku, Jericho hrapadi, Jerúsalem vard ad steinhrúgu, Týrus hrundi í grunn nidur, hver ed drecti Pharaóni

med hans lidi í hafinu rauda, hver ed dró hans eptirkomara út úr sínu fljóti, med øllum þeim fiskunum, sem loddu í hans hreistri, Ezech. 29, hver ed setti sinn krók í Senachéribs brennandi nasir, hver ed hans eptirkomara, konúngana af Assyría, þeir ed voru eins og einn kostuligur vínvidur, svo ad allar eykurnar í gardinum Heden øfundudu hann, hver ed þá, segi eg, upprætti á einni stundu, hver ed sedur fugla loptsins og dýr merkurinnar med holdi óvina sinna og uppfyllir dalina og vatnsføllin med þeirra blód, Ezech. 32; og þótt þér ætla kunnid, ad þetta ei muni fram vid ydur koma, þá má ydur þad alkunnugt vera, ad hann er sá, sem vald hefir til ad kasta lífi og sálu í eylífan eld, sem ber svo lángt af þeirra hørmúngum, sem þér nidurdrepid med ofríki ydar, svo sem Guds barna sæla, sem þeim er ætlud, ber af allri ydar fullsælu. O, hversu erud þér þá fávísir, nær þér hefjid óløg á móti slíkum herra! vei ydur, þér munud øskra og ýlfra, þér munud eta ydar túngur út af ofraun, Apóc. 16, nær hinir munu skýna, svo sem sól í ríki síns Fødur; ó, hversu gott væri ydur þá, ad líkhamir ydar, hverja þér svo kappsamliga alid hafid á blódi hins volada, ad þeir, segi eg, aldrei upprísi til dómsins; en nú er því ei svo varid, því Gud segir, fyrir munn Ezechíelis, 32 kap., ad ydar ránglæti liggi í ydar beinum eptir daudann. Heyrid því ord Drottins, þér, sem meinid ad þér hafid búid ydur hreidur í skýunum! heyrid, segi eg, ord Drottins af Davíds munni, sem var miklu megtugri enn þér, og þó miklu lítilátari: géfid Drottni dýrdina þér synir hinna sterku, géfid Drottni dýrdina og prísinn, géfid Drottni dýrdina hans nafns; bugtid ydur, segjandi: Drottni sé heidur í prýdinni síns helgidóms, já, gjøri svo øll verøldin, háir og lágir; hinn lítilmótligi bródir hrósi sér í sinni upphefd, þad er, í því, ad Gud hafi hann þess virdt, ad líkja hann Syni sínum, hver ed gjørdist fátækur þar hann var þó ríkur, segir Postulinn, 2 Cor. 8, en sá hinn ríki í audmýkt sinni, því eins og blómstur grassins mun hann forgánga, segir Jakob, og þannig géfum vér bezt Drottni dýrdina, kristnir menn! ecki er þad nóg ad síngja hønum lof med munninum, en afneita hønum med verkunum; eg elska réttinn, segir Drottinn, eg hata ránid, þad sem tengist vid brennifórnina, Esa. 61. Enginn af oss, sem vill hlut sinn vanda, hann skeitir mjøg um þad, ad hønum sé hrósad af einhverjum órádvøndum, og hvad mun Gud þá dýrkadur verda af skálkinum, ef hann þylur hønum eina saungvísu, kannské sjálfum sér til gamans og til ad skémta sér med raustinni, sem eg hygg, því verr, ad opt muni henda, jafnvel þá, sem ecki mjøg vondir eru, en hjartad er þó ecki alltíd búid til Guds dýrdar. Lofsýng þú ønd mín Drottni, og allt hvad í mér er hans heilaga nafni, segir Davíd, þad er: allt hvad oss fylgir og Gud hefir oss géfid, þad á ad prísa Gud; hjartad med elskunni, munnurinn med ordunum og raustinni, hinir adrir limirnir med útvortis útréttíngum, svo ad allt hvad vér gjørum med ord og verk, þad gjørum vér í nafni Jesú Christí, og þøckum Fødurnum fyrir hann. Jafnvel hinir úngu hrafnarnir ákalla Drottinn, segir Davíd, Ps. 147, af því hann hefir skapad þá; og munum vér þá ecki vera margra hrafnsúnga virdi, sem ecki einasta verum eptir Guds mynd í fyrstu skapadir og eigum kost á, ad endurnýast eptir henni, heldur og med hans Sonar dauda frá helvíti endurkeyptir? á þessa skyldu vora minnir oss Páll, segjandi, 1 Cor. 6: þér erud verdi keyptir, dýrkid því Gud í ydrum líkhama og í ydrum anda, hver-

jir ad eru Guds; nú þar vér erum Guds eign, bædi eptir rétti sköpunarinnar og endurlausnarinnar, þá erum vér hinir mestu drottinssvikar, ef vér ecki af fremsta megni kostgjæfum ad fylla þessa skyldu vora; en hvad er þá ad dýrka Gud í sínum líkhama? það segir hann oss, Cól. 3: deydid ydar jardneska limu, saurlífi, óhreinleika, vonda girnd og ágyrni, sem er skúrgoda dyrkan, og í einu ordi ad segja, ad menn stíngi út þad augad og afsnídi þá hønd edur fót sem hneixlar, þad er ad deyda fyrir andann holdsins gyrndir. Hvad er ad dýrka Gud í sínum anda? hér meinar Postulinn sálina, því hún má fyrst og sídarst heita verdi keypt, hennar dýrkun skilur Gud sér hvad mesta; því segir hin heilaga mey: mín ønd miklar Drottinn; hún gjørdi og svo bædi med ordi og verki, því nema svo verid hefdi, þá mundi ecki hinn alskigni Gud hafa valid hennar líkhama Syni sínum til bústadar; hún segir: því hans nafn er heilagt. Íhugan þessara orda gagnar oss til tveggja hluta, sem bádir eru kristnum manni ómissandi. Þad er vitanligt, ad med þessum Guddómsins hátignar eginlegleika, heilagleikanum, útmálar ritníngin optliga hans yfirburdi yfir allar hans sképnur; þar fyrir kallast hann sá heilagi í Ísrael; þess vegna eru allir hlutir, sem hønum vidkoma edur eignadir eru, heilagir kalladir, svo sem er: hans ord, hans kyrkja, hans frumburdir í gl. testamentinu, þad er alltsaman heilagt kallad; Guds dýrdarfullu herskarar, sem þar uppi eru, þeir hafa engan lofsaung, sem vér af vitum, fegri enn þenna: heilagur, heilagur, heilagur ert þú Drottinn Gud! Esa. 6. Nú þar hann er svo heilagur, ad syndugra manna skynsemi fær þad ei gripid, þá á þessi íhugan ad gagna oss til, ad dýrka hans hátign med blygdan vors andlitis, og afþvo dagliga vorn saurugleika med tárum ydranar vorrar, þar vér dagliga framkoma skulum med vorar bænarfórnir fyrir þenna fortæranda eld, vid hvern eckert saurugt má búa; og í ødru lagi, þar hann svo heilagur er, sem ádur er sagt, þá megum vér kannast vid skyldu vora, ad oss byrjar af fremsta megni ad burtkasta øllum óhreinleika, ef vér viljum hans þjónar vera, sem svo yfirmáta hreinn og heilagur er, og ad vér lifum hóflamliga, réttvísliga og gudrækiliga í heimi þessum, Tít. 2. Hann endurminntist myskunar sinnar, og medtók sinn þjón Ísrael, segir Gyds módir; þad gjørdi sá blessadi Herra, þegar hann sendi sinn Son í heiminn til ad frelsa þad sem tapad var, til ad gjøra hina blindu heilskigna, til ad lækna hina høltu, hreinsa hina líkþráu, til ad géfa daufum heyrn og til ad uppreisa hina daudu, en allra helst til ad prédika fátækum evangélium; látum nú og sjá til, ad vér minnumst vorra heitorda, er vér gjørdum í skírnar sáttmálanum, ad trúa á hina heiløgu Guddómsins þrenníngu, en afneita Djøflinum og øllum hans svikum og vélum; ef vér nú þetta med allri kostgjæfni og alvøru høldum, ad svo miklu leiti sem vér afkastad fáum fyrir adstod H. Anda, þá vegsømum vér Drottinn réttiliga í vorum líkhama og í vorum anda, og eigum fulla von á med jómfrú Maríu ad gledja oss í Gudi vorum heilsugjafara, hvar um nú framvegis er nockud ad tala. Minn andi gledst í Gudi heilsugjafara mínum; þetta er sálarinnar gledi, børn mín! en ecki líkhamans sælgjæti; þad er í Gudi, segir hin blessada mey, hver ad er brunnur og uppspretta allrar sælu og sjálfur alleina sæll, því kalla eg þann alleina fullsælan, en engan annann, sem smackad hefir hvad sætur ad hann er. Hvad eru vorar óskir í heiminum? margar eru þær, og flestallar heimskuligar, skadsamar,

fullar af sorg og armædu, en allar lúta þær þángad, ad vér bidjum um þá hluti, sem oss eptirlángar. En hvad segir Davíd; haf þína unadsemd í Drottni, og mun hann gefa þér hvad þitt hjarta gyrnist; hvad er þad, børn mín? eckert annad enn hann sjálfur, því svo sem holdligar gyrndir verda aldrei saddar: (fyllin ablar þeim, er þær elska, æ meira húngurs), svo er og laungunin eptir Drottni þvert á móti sír egin sadníng; og þeir ed velta sér í holdligum munadi, þeir gyrnast nú þetta, nú hitt, þegar sadníngin ablar þeim leida á einum hlut, svo lángar þá í annann, en sá sem er í Gudi gladur og til fulls hefir smackad krapt eptirkomandi aldar, Heb. 6, hann girnist ecki annad enn Gud, hans matur og dryckur er ad gjøra hans vilja, sem hann elskar umfram alla hluti, því þar er allur sem unir, segir ordsháttur gamall. Verøldin kallar aud, metord, sælgjæti og annad þvílíkt, hina mestu sælu, en eg hefi ádur nockrum sinnum med røkum sýnt, ad í þessu er engin rétt køllud sæla, heldur blønduð med ángri, erfidi, hugsýki, ótta, þrældómi, og jafnvel hinn mesta sálarháska vidteingslud. En hvad segir Davíd, Psálm. 1: sæll er sá madur, sem hefir sína lyst í løgmáli Drottins, og talar um hans vegu daga og nætur; hvar fyrir, brædur mínir? því hann, sem ad Guds ord og hans réttindi svo mjøg idkar og svo mjøg kjær hefir, hann getur ecki farid á mis vid þad, ad elska Gud, hjá hverju allur annar føgnudur og gladværi er sorg og armæda ad reikna, því sá er þessu hlutskipti nád hefir, þeim heitir Lausnarinn, ad hann og hans Fadir vilji til hans koma og vistarveru hjá hønum gjøra, Jóh. 14; ó, hvernig má þar vanta alla gnógt fagnadarins, hvar þvílíkir géstir eru ad heimbodi, jafnvel þótt einhver væri í Daníels ljóna grøf! Þeir hebresku sveinar, Chananía, Mísael og Hazaría, hverjir ad leyfi stallarans í hinu Babýloniska hofi neyttu alleina jardar ávaxta, svo ad ecki brytu þeir á móti síns Guds løgmáli, þeir urdu þó sælligri og fegri álits enn adrir, Dan. 1; svo eru og þeir, sem í hjarta sínu líta Guds ásjónu, yfir hverra innra mann hún fegur skýn, enn nockur óreyndur kann nærri ad géta; jafnvel þótt þá vanti eptirlæti heims þessa, og sýnist aumir og sorgbitnir, samt búa þeir vid hinn mesta føgnud og rósemi hjartans, sem enginn má af þeim taka. Þegar Drottinn Gud sætti mannkynid vid sjálfan sig í annad sinn, þá tilbjó hann sinn boga í skýinu, til eins sáttmáls á milli sín og jardarinnar, Gén. 9, þad er allra þeirra, sem á jørdu búa; Ezechíel segir, 1 kap., ad líkíng dýrdar Drottins, er hann sá vid fljótid Cebaris, hafi verid eins og bogi sá, sem verdur í skýunum þegar rignir; dýrdlig var þessi opinberan, er spámadurinn sá, en miklu er sú vegligri, ædri og inndælli sem birtist í kristins manns hjarta, nær hann sér Gud nádugan, nær hann gledur sig í þeim sáttmálanum, sem gjørdur er á millum hans og Drottins, í Guds eingétnum Syni, hvers búníngi Jóhannes regnboganum samlíkir, Apóc. 10, hvar ed gjørir hann þess fullørugan, ad hans syndir séu hønum fyrirgéfnar. Drottinn segir, Gén. 9, ad hann vilji minnast síns sáttmála, þegar boginn sést í skýinu; en hversu feginn mun syndarinn verda, Drottinn minn! þegar hans augu rigna tárum ydranarinnar, og þinn nádarsáttmáli mindast í þessu skýi fyrir verkan H. Anda, sem ber hans anda vitni um, ad hann sé Guds barn, sem kallar Abba! þad er, Fadir sem hrópar: vert þú hughraustur, sonur! þér eru þínar syndir fyrirgéfnar. Þegar Guds menn sáu þessar dýrdligu sjónir, þá urdu þeir máttþrota, svo þar

var ei megn í þeim framar, svo sem Daníel um sig talar í hans málabókar 10 kap; en þegar Guðs náðarljómi skýn í ydrandi manns hjarta, þá fær hann nýan dug; það geng- ur honum eins og það gékk Ezechíel, er hann sá þessa miklu sýn, er eg fyrir skømmu um- gat, að hann lifnaði við aptur og stóð upp á sínar fætur þegar Drottinn baud hønum, eins bregður sannydrandi manni við Guðs anda blíðlætis ávarp, nær hann telur hønum trú um, að hvar sem að syndin yfirgnæfir, þar yfirgnæfi þó náðin miklu framar; hinn nýi maður sprettur upp af fagnaði hans hjarta, eins og Jóhannes í móðurkviði, nær hønum til eyrna kémur þessi kveðja, og kann enginn jarðneskur fǫgnuður að komast í nock- urn samjøfnuð við þessa himnesku gleði; eg má vel kalla hana himneska, ecki einasta þess vegna, að hún frá himnum kémur, heldur og hins, að meiri gleði er í himninum yfir einum syndara sem ydrau gjørir heldur enn yfir níu og níutíu réttlátum. Móðir Drott- ins segir hér orsøkina til þessa guðdómliga fagnaðar: því hann leit á lægíng ambáttar sinnar; stóra orsøk hafði hún til þessa, því margar munu hafa gøfugri og meirihátttar verið enn hún, sem ecki var meir metin af heiminum enn svo, að hún ei fékk annað rúm í gésta- herberginu, heldur enn einn stall, til að leggja í himins og jarðar Skapara; hún mátti segja eins og Gédeon forðum sagði við engilinn, Jud. 6: hvernig skal eg frelsa Is- rael, þar mín ætt er hin minsta í Manassis kyni, og eg hinn minnsti í húsi míns føður? Ecki er það ofsøgum sagt um hinn máttuga Guð, sem Pétur segir, að dramblátum mótstendur hann, en upphefur lítiláta. Hversu mørg dæmi høfum vér þar uppá, að hann hefir útvalið það, sem eckert er fyrir heiminum, svo sem hann valdi Gédeon til að frelsa Israel af hendi Madíanítanna, sem var hinn minnsti meðal síns fólks, svo kjøri hann og þessa ørsnauða og fáráða stúlku til móður allrar veraldarinnar Frelsara, og var því øll von að hún fagnaði slíkri upphefð, hjá hverri allrar veraldarinnar høfðingskapur er þrældómur að reikna; en hvernig sem þessu er varið, þá hugsa með þér, syndugur maður! hversu auðvirðilig að sé sála þín í Guðs augliti, þegar þú gjørir hana að þræl Andskotans með ldkun verstu glæpa og misgjørða, sem upptendra Guðs réttferðuga reiði; Guð náði, að hún gétur ei sagt, eins og María við engilinn sagði: eg em ambátt Drottins, verði mér eptir orði þínu! heldur verður hún að játa: eg hefi verið fridla Satans og drýgt hóranir með mørgum elskuga, straffa mig ecki í reiði þinni, og typta mig ecki í þinni bræði! Seg mér! hver er þá svo lág, sem sál þín, og hver hefir meiri uppreist hlotið enn hún, nær hann segir til hennar: kom þú aptur til mín, þótt að syndir þínar séu rauðar sem blóð, þá skal eg gjøra þær hvítar sem snjó, og þótt þær séu purpura rauðar, skal eg þær ullhvítar gjøra, Esa. 1. O, hversu miklu meiri orsøk hefir þú þá til að gleðjast í hjarta þínu, heldur enn Guðs móðir, af því að hún var hans líkhamlig móðir! hún var alltíð Guðs barn, þú hefir optliga gjørt þig að Djøfulsins barni; Drottinn var hennar holdgétinn sonur, en hann býður þér, ef þú vilt láta af illu og læra gott að gjøra, að hann vilji myndast í þér aptur að nyu, sem Páls að orði kémst, Gal. 4, svo þú verðir hans andlig móðir, og er þessi føgnuður æðri øllum skilníngi, ef þú kant við að taka og með að fara svo sem Guðs barn; þetta vottar hann sjálfur, er hann sagði forðum við konuna, er prísaði sælu móður hans: hvað um það? sælir eru þeir sem heyra Guðs orð og varðveita það. Nú

svo sem þessi fögnudur í Gudi er svo gott hlutskipti, ad eckert er þvílíkt, þá er þad ecki í hvers manns hjarta ad finna, því trúin er ecki allra, segir Páls, 2 Thess. 3, jafnvel þótt þad standi öllum til boda, sem vilja þad til þess vinna ad hafna gledi veraldarinnar, og ecki selja þessa sælu fyrir stundligt eptirlæti syndarinnar; þad er ecki nóg, kristnir menn! ad vilja ná þessum fögnudi; mikid skal til mikils vinna, segir hinn forni ordskvidur; keppist vid ad gánga inn um hid þraungva hlidid, segir Frelsarinn, Lúk. 13, því eg segi ydur, margir vilja þar inngánga og fá þad ei komist. O, hversu mjög syndgum vér, jafnvel í voru gudræknis verki; margur hver! ef ad Gud veitir oss einhvern líkhamligan velgjörníng, sem hann dagliga gjörir, þá elska þeir hann kannské og þacka hönum þar fyrir, sem gudhræddir vera vilja, og er þad skyldugt ad sönnu, en þau himnesku dásemdarverkin, svo sem útsendíng hans Sonar, ástgjafir H. Anda, fyrirgéfníng syndanna, þetta allt, segi eg, svo mikid sem þad er, sem þó er yfir allan máta mikid, þad orkar ecki svo mikils hjá oss, ad vér fyrir hans skuld, er oss allt þetta hefir géfins veitt, viljum forsmá alla veraldar muni; hvad ætli þér ad hinn Alskigni, hvad ætli þér ad hjartnanna og nýrnanna Rannsakari muni dæma um svoddan gudrækni? eg vil segja þad eg meina, ad hann vill segja vid þá, sem alleina finnst til þess, sem kroppnum gagnar, og dugar til ad lifa vel og ríkmannliga í þessum heimi, en meta lítils þad sem þar uppi er, þau stórmerki guddómligrar elsku, sem ei mátti afreka nema med hans Sonar dauda, vid þá vill hann segja, segi eg, eins og vid Pharíseos ádur, Matth. 23: vei ydur skriftlærdum og Pharíseis! þér hræsnarar! þér ed tíundid myntu, anís og kúmen, en gleymid því, sem meira er í lögmálinu, trúnni, dómnum og myskunseminni, þetta byrjar ad gjöra, en hitt ecki eptir ad skilja. Svo egum vér Gudi ad þacka, hann ad elska og dýrka fyrir líkhamliga hluti, og þad af allri alúd, en þó lángtum framar ad mikla hann, elska, heidra og gledja oss í hönum fyrir þau dýru stórmerki hans födurligrar gjæsku, fyrir hver hann hefir þrifid sálir vorar út af Andskotans valdi. Heyrid hvad Drottinn segir, fyrir munn Hósea, 7 kap: þeir ákalla mig ecki af hjarta, þegar þeir emja í svefnhúsum sínum, fyrir kornid og mustina samansafnast þeir, en eru mér þó óhlýdugir; hid sama er ad segja um alla adra Guds þjónustu, er vér látumst veita hönum, alleina fyrir tímanliga muni; svo blanda menn saman Guds þjónustu og Mammons, vatni og vidsmjöri, sem alldrei kunna ad þýdast hvert annad, menn sverja vid nafn Drottins og þó undir eins Malcom, eins og Júdar, og dýrka Gud í hans kyrkju, en sérhver færir fórnir sínu skurdgodi á hædunum, eins og þeir, þad er sérhverjum þeim hlut, er hann metur meir edur jafnt vid Gud; svoddan kristinndómur er líkur fótunum á Nebúchadnezars líknesku, er sumpart var af leir og sumpart af járni. Drottinn sagdi vid Ezechíel, 44 kap: þessar dyr (hann meinti hins allra helgasta) skulu læstar vera, enginn gángi inn um þær, þvíad Drottinn Israels Gud hefir þar um inngengid; þú skalt og minnast þess, sem ert einn andligur Israels madur, hvad Gud lofad hefir um sinnar kyrkju vígslu, sem er þitt hjarta: eg skal géfa ydur nýtt hjarta, og einn nýjan anda skal eg setja medal ydar; þetta endir Gud ad vísu vid alla þá, sem hönum eru helgadir í skírninni, og ecki saurga aptur hans musteri med ydrunarlausu framferdi; en sídan þú hefir hans hásæti og stad hans fóta, Ezech. 43, þad er Guds ríki, inni hjá þér,

ik þeim dyrum aptur, hvar hann inngéck, og leif engum þar inn ad koma til gistíngar, a hønum og hans Kristi, sem er hinn ædsti prestur, og hans umbodsmønnum (því m ypparsta presti og hans umbodsmanni leyfdist inn ad gánga í þad allra helgasta); ar því innkoma gudrækiligar áminníngar og holla lærdóma Guds ords þénara, og ırra gudhræddra manna, med hvílíkum géstum má hann gjarna sess eiga. Þú munt ıské segja: hvernig má eg fá því vidkomid, ad hugsa eckert annad enn um Gud, á med- g ber eptir mér þetta veika hold? Halt kyrru um stund, barn mitt! í Jerúsalems eri voru stadir heidíngjunum ætladir fyrir utan þann midvegginn, er Drottinn nid- aut, þegar hann kom til síns musteris, þar var og stadur fyrir þá, sem Gydíngar u gjørst, fyrir fólkid og fyrir Levítana og kénnimennina, sem voru af hinni lægri rød, inn ypparsti prestur, edur og hans umbodsmadur, géck alleina inn í þad allra helgasta; eru og í Guds musteri, sem er þitt hjarta, margar verur, þad kann ad vera fyrir hé- a veraldarinnar, er þú dagliga heyrir, lát þær alldrei komast inn fyrir midvegginn, ur haldt þær fyrir einn heidingja, sem ei megi saurga Guds musteri; þar er og stadur : naudsynliga umhyggju þessa fallvalta lífs, fyrir náúnganum og fyrir embættis útrétt- ım vorum; en hid innsta af hjarta þínu skalt þú Drottni helga, þad skalt þú dagliga nsa med sannri ydran, þad skalt þú uppfylla med reykelsi bænarinnar, þad skalt þú a med skarti vonarinnar, trúarinnar, kjærleikans; en um alla hluti fram med elskunni ıans, þá vill hann til þín koma og vistarveru hjá þér gjøra; þar munt þú sjá hans ) svo sem í nockurskonar skuggsjá, þar mun hann láta þig smacka, hvad sætur hann er, ıar mun hann jafnvel í hinu mesta volædi kénna þér, ad mótlætíngar þessara tíma séu verdar þeirrar dýrdar, sem vid oss mun framkoma í eylífu lífi; hverrar njótandi ad ıa oss unni og veiti hinn nádugi Konúngur eylífrar dýrdar, fyrir Jesúm Christum, en!

## Fimta Sunnudag eptir Trinitatis.

### Gudspjallid, Lúk. 5 Kap.

þann tíma; og þad skédi, þá ed folkid flycktist ad hønum til heyra Guds ord, og hann sjálfur stod vid sjoinn Génezareth, hann leit tvø skip standa vid sjoinn, en fiskararnir voru stignir skipunum og þvodu netin; hann sté þá uppá annad skipid, d sem var Símonar, og bad hann ad draga nockud frá landi; hann sat og kéndi folkinu af skipinu. Og sem hann gaf upp kénna, sagdi hann til Símonar: drag þú ut á djúpid, og leysid p ydar net til fiskidráttar. Símon svaradi og sagdi til hans: ıstari! í alla nott høfum vér erfidad, og fengum eckert, en í ıu ordi mun eg netinu útkasta; og þá er þeir høfdu þetta gjørt, ıiluktu þeir mikla mergd fiska, svo ad þeirra net rifnudu; og ir bendtu sínum féløgum, sem voru á hinu ødru skipinu, þad þeir

kjærni þar og hjálpudu þeim; og þeir komu, og hlodu bædi skipin full, svo ad þau sucku ad mestu. Þá ed Símon Petur sá þetta, féll hann til knjánna Jesú og sagdi: gack frá mér, lávardur! þvíad eg em madur syndugur, af því ad felmtur var yfir hann kominn og alla þá, sem med hønum voru, af þeim fiskidrætti, er þeir fengu til samans, líka og einnin yfir Jakobum og Johannem, sonu Zebedei, sem ad voru lagsmenn Símonar. Og Jesús sagdi til Símonar: óttast þú eigi, þvíad hédan í frá skaltu menn veida. Og þeir drogu sín skip ad landi, yfirgáfu alltsaman og fylgdu hønum eptir.

## Exordium.

Blessan Drottins gjørir ríkan fyrir utan mædu, segir Salómon, Ordskv. 10; ecki meinti hinn vísi konúngur þad, ad ei skyldu syndugir menn hafa ómak og erfidi fyrir nærínau sinni; þad var ecki hans ad rafka því løgmáli, er hinn alvaldi Konúngur setti strax eptir syndafallid, ad med erfidi skyldi madurinn sig af jørdunni næra, og í sveita síns andlitis brauds síns neyta, Gén 3; hitt er hans meiníng, ad hvert sem hinn gódi Gud lætur einum aud edur armód tilfalla, þá sé hann samt ríkur, ef hann óttast Drottinn, leitar hans blessunar og næríngar sinnar í hans nafni; hinn ríki ad sønnu, því þótt hønum audur blotnist, þá festir hann ecki hjarta sitt þar vid, svo sem Davíd býdur, Ps. 62, ef hann er Guds barn, heldur stundar eptir ad vera ríkur í gódum verkum, svo sem Páluś fyrir mælir, 1 Tím. 6, og etur svo braud sitt med gledi og gódri samvitsku, hans erfidi fellur hønum létt, og hann þiggur blessan Drottins med audmýkt og þacklæti af hans ørlætis hendi; svo gjørdi Abraham, Isaak og Jakob, forfedur, og margir af þeirra nidjum hafa fetad í þeirra spor; eins er hinum fátæka varid, ef hann elskar Gud, hann stundar ad verda í hønum ríkur; þegar hann hefir Drottinn, þá skeitir hann hverki um himin né jørd; hønum þykir sér borgid vera, þegar hann hefir eignast hann, sem alla verøldina hefir ad erfdum tekid, Christum, Psálm. 2, því temur hann sér med Páló, bædi hár og lágur ad vera, bædi nóg ad hafa og skort ad lída; hannin hrósar hinn audvirdiligi bródir sér í upphefd sinni, og hinn ríki í sinni nidurlægíngu, Jak. 1. Dæmi uppá svoddan ríkdóm og fátækt høfum vér í þessa dags h. evangélió á St. Petri og hans féløgum, þar þeir høfdu alla nóttina erfidad og eckert fengid, en sídan inniluktu þeir mikla mergd fiska. Hér útaf vil eg tvent athuga í þetta sinn: 1) ad oss byrji þolinnmódum ad vera í ørbyrgdinni; 2) þacklátum og audmjúkum í velgeingninni. Hjálpa oss til ad hugleida þetta svo sem ber, þú alleina ríki Konúngur og skapari himins og jardar! fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Í alla nótt høfum vér erfidad og fengum eckert, segir Petur; textinn brúkar hér þad ord, sem merkir: ad erfida sig þreittan, og fyrir því hefir Guds madur hér nockra afsøkun, og vildi svo sem hafa sig undanþeginn ad reyna til framar, nema Drottinn hefdi hønum þad bodid. Vidlík freistni hendir, jafnvel margan þann, sem vill óttast og elska Gud, þegar hans erfidi og athafnir luckast ecki; hann þeinkir med sér: eg vinn baki brotnu, eg bid Gud mér til hjálpar, eg slæ engin vindhøgg í mínum atburdum, svo eg skynjad fái, og er fráśneiddur allri óráddvendni, ad eg vilji taka míns náúnga braud frá hans munni, edur eta mitt braud í annara sveita, þó luckast ecki mitt verk, en annarra, sem midur bera sig ad, hefir gódan framgáng og þeim áorkast, þótt þeir yrki ecki, og hinn Almáttugi hann elur

þá sofandi, Gud mun mér án efa reidur vera, og hann setur mínar heimugligar syndir fyrir sitt augliti; hvílíkt kann mønnum í hug ad fljúga, jafnvel þótt Guds vinir séu, þegar ecki verdur framgengt þad þeir hyggja sér til beztu nota; en lærid þad af dæmi Peturs, kristnir menn! og hans verkanauta, ad þér ei látid slíka þánka koma í ydar hjørtu. Í ødrum af þessum fiskibátum var Petur og bródir hans Andreas, en í ødrum þeir Zebedeí synir, frændur Drottins, Mark. 1; hversu dátt hann hafi elskad þessa fiskara, þad gaf sídar raun vitni um, og medal annarra, þegar hann þvodi fætur þeirra, þegar hann taladi fyrir þeim hina hjartnæmu predikun, sem ritud stendur, Jóh. 14, 15, 16 kap., eptir kvøldmáltídina, þegar hann leisdi þeim ad sofa og hvílast, þá hann sveittist blódinu undir þeirra og allra manna syndum, þegar hann bad þeim orlofs úr mordíngja høndunum, þegar hann leitadi ad þeim, upprisinn af dauda, er hann þó skømmu ádur yfirgéfid høfdu, og sérdeilis Petri, er mest hafdi tilunnid, þó lætur hann þá hér alla nóttina forgéfins erfida; og ef hann breitti svo vid þá, því megum vér þá kunna hinn Alvísa fyrir þad, ad hann sýnir oss sømu nád, sem hinum kjærustu vinum sínum, hverra skóþvengi vér erum ei verdugir upp ad leysa, edur ad þurka af dupt fóta þeirra. Ætli því enginn, ad sá muni vera hinn bezti Guds vinur, sem hann lánar mest af veraldar munum, en ad hann hafi skotid hinum frá sér, er hann lætur þá vanta, annars badadi Nabal í Guds skauti, en Davíd, sem nærri því fór á vonar vøl med sveit sinni fyrir ofríki Sáls konúngs, hann væri útrekinn frá hans augliti, Lazarus væri burtkastadur, en hinn ríki sælkéri inntekinn í Guds vináttu. Dæmum því ecki eptir holdinu, Jóh. 8, kristnir menn! heldur lærum af þessum Guds hetjum ad varpa allri vorri áhyggju uppá hann, því hann mun því vel til vegar koma, Ps. 37, hvad sem hann lætur oss til handa bera. Þad hjálpar ecki til ad hlaupa, ad vera skjótur, ecki til bardaga ad vera sterkur, svo hjálpar þad og ecki til ríkdóms ad vera áhyggjusamur, því þad er satt, sem Sýrach segir, 11 kap., ad lucka og ólucka, líf og daudi komi af Drottni, og hann géfur þad hverjum hann vill. Hver vill segja vid hann: hvad gjørir þú? Meistari! í þínu nafni mun eg netinu útkasta, stendur í gudspjallinu; þetta ord, meistari, þýdir verkstjóra eptir textanum, edur og høfdíngja, edur forráda mann; ef hann er herrann, má þá banna hønum ad skipa mér ad erfida, jafnvel forgéfins, ef hønum svo líkar? eg á ecki meira af idju minni, heldur enn hann mér skamta vill svo sem ødrum verkþræl, en eg veit, ad hann er trúr og freistar einkis yfir megn fram, og ecki má eg svo vid hann breita, svo sem sumir af vorum verkamønnum vid húsbændur sína, nær þeir þykjast þreyttir vera, vilja þeir eckert verk framar vinna; ecki má eg heldur svo rángeygdur vera ad sjá ofsjónum yfir því, ad hann lénar ødrum meiri hamíngju í sínu erfidi, því hann tók þad ecki af mínu, sem hann gaf hønum frekar enn mér, sérdeilis þar eg veit ecki hans tilgáng; hann hefir tíma og hentugleika sett í sínu valdi, Act. 1, en ecki mínu; hver hefir nockurn tíma hans rádgjafi verid? Róm. 9; hitt sé eg af dæmunum, bædi fornum og nýum, ad Gud lénar audinn sumum mønnum, til þess ad hans þolinmædi og gjæska dragi þá til ydranar, en nockrum, þad er, þeim feitíngjunum, sem upp hafa fyllt mælir syndanna, til straffs og hegníngar, svo sem menn ala einn uxa til sláturs.

Aptur má þad þeckja, ad Gud sviptir sín børn þessum veraldar hégóma til þess, ad deyda þar med holdsins girndir, til þess ad reyna stødugleik trúar þeirra, eins og Jobs, ecki fyrir því, ad hann þecki hann ecki sjálfur bezt, heldur ad þeir, sem hann elskar, læri ad þeckja sjálfa sig og treysta ecki ofmjøg mætti síuum í andligum efnum, og læri ad segja med Pá-ló: þá eg em veikur, þá em eg máttugur; þad gjørir sá blessadi Herra og svo til þess ad venja oss af brjóstum hinnar flárádu skjækju, veraldarinnar, og ad menn þecki allt þad sem í heiminum er, þad er ecki annad enn fýsn holdsins, lysting augnanna og drambsamt líferni, 1 Jóh. 2, og læra ad skynja þad, sem þar uppi er, og ad vor borgar-réttur er á himnum, hvadan vér væntum Frelsarans, Jesú Christí, Phil. 3, hver þótt hann væri ríkur, segir Postulinn, gjørdist hann fátækur, svo ad vér fyrir hans fátækt ríkir yrdum, 2 Cor. 8. Því skylda eg møgla á móti hønum, sem ad veit alla hluti? allir eru þeir opnir og naktir fyrir hønum, segir Postulinn; eru ecki þetta Guds Sonar ord hjá Matth. 6: ydar himneskur Fadir veit, ad þér hafid alls þessa þørf, og ecki einasta veit hann þad, heldur og skortir hann ecki mátt til ad hjálpa; er hans hønd nockud stutt ord-in, svo hann ei hjálpa kunni? Esa. 59; jørdin er hans og allt hvad þar í er, jardar-kringlan og allir þeir ed á henni búa, Ps. 24; nær hann talar, svo skédur þad, nær hann býdur, verdur þad, Ps. 33; edur mun hann gjæskuna bresta til ad vilja hjálpa? hafi hann skapad sál og líf, og furduliga þeim vidhaldid allt til þessa dags, og géfid oss þad bezta, er hann átti, sinn eingétinn Son, til ad frelsa oss úr kvølunum, sinn H. Anda til ad helga oss, ad hann sé pantur vorrar arfleysdar og eylífs lífs, mun hann þá ecki géfa oss þad vér vidþurfum til þessa lífs næríngar, þótt hann láti stundum misbrest á því verda, þeirra orsaka vegna, er hann sjálfur veit, en vér fávísar manneskjur skynjum ecki? eda segir ecki Postulinn berliga: hann sem gaf oss Soninn, mun hann ecki géfa oss alla hluti med hønum? Hann hefir sjálfur látid oss búa vid þann kost er hann vill, er oss skapad, endurleyst og helgad hefir; ef hann nu elur fuglana undir himninum, svo ad einn titl-íngur af þeim fellur ecki á jørdu án hans vilja, ef hann prýdir grasid, þad í dag er á akri, framar enn Salómon konúng í allri sinni dýrd, og verdur þó á morgun í ofn kastad, Matth. 6, mundi hans gjæska þá neita oss þess, er vér skulum neyta og klædast med, oss, sem fyrir hans Sonar dýra blód og sáru kvøl erum hans børn ordnir? mundi hann, segi eg, neita oss þessara hluta, nema ad hann vissi, ad oss gagnadi á stundum ad missa þá; og jafnvel þótt hann tæki lífid af oss, med hverju móti sem hønum þóknast, þá verum þess fullørnggir, ad hann gjørir þad til þess, ad vér skulum finna þad eylífliga, því þad skal ské, ad hver hann trúir á Soninn, þótt hann deyi, þá skal hann samt lifa, Jóh. 11; og høfum þad fyrir víst, ad hverki líf né daudi, hverki englar né høfdíngjadæmi, hverki hid nálæga né hid eptirkomanda, hverki hæd né dýpt, né nockur annar skapadur hlutur muni fá oss skilid vid kjærleika Guds, sem ad er í Christó Jesú, Drottni vorum, Róm. 8, hversu óvænliga sem oss horfa þykir. En þó ad Gudi þocknist ad láta vort erfidi og ástundan misfalla, kristnir menn! þá letjumst ecki í því, ad hvad vér gjørum, þad gjørum vér í nafni Jesú Christí, og þøckum Fødurnum fyrir hann. Þótt Petur hefdi ecki fiskad alla nóttina, né hans félagar, og voru svo afstignir skipunum, úrkula vonar um frekari fiskiveidar

í þad sinn, samt heyrdu þeir Guds ord og hina ágjætu Drottins prédikun; breytum eg þannin: þó vort erfidi luckist ecki á stundum, þá gleymum ecki Gudi, því eitt er naudsynligt; leitum þar fyrir hans ríkis, og hans réttlætis, þá mun oss allt annad tilleggjast, Matth. 6, ef ecki svo sem vér viljum, þá svo sem hann vill, hvers vilji ad vér dagliga bidjum ad verda skuli, og gjörum verk vorrar kallanar í ótta Drottins, eptir hans bodi; svo gjördi Petur: í þínu ordi, þad er: eptir skipan þinni, vil eg netinu útkasta. Máttugur var Jesús ad láta fiskana hlaupa lifandi upp í skipid, ecki sídur enn ad láta Petur finna penínginn í fiskjarins munni, Matth. 17, þó skipadi hann hönum ad draga út á djúpid, eptir þad hann hafdi hlýdt Guds ordi. Tvent er hér ad læra: eitt, þad sem eg fyrir skömmu áminntist, ad menn byrji öll sín verk í Guds nafni, og ad hönum med sér tilkölludum; svo gjördi Petur, því á virkum degi hefir þetta verid, annars hefdu þeir ecki farid til fiskiveida; hitt annad, ad menn brúki þau medöl, sem Gud hefir kénnt og bodid, í útvegum næríngar sinnar, en grípi ecki til óleyfiligra hluta, þegar ecki vill áorkast. Í þínu ordi vil eg netinu útkasta; net þýdir marga hluti í h. ritníngu; þad merkir svikrædi og vélar óráðvandra og gudlausra manna, þeir ed stela, ljúga, svíkja, ræna, kúga, hræsna og á tálar draga einfaldar sálir til ábata sér; þessir kasta netinu út í Andskotans nafni, og þó þad megi luckast um stund, þá munu þeir um sídir óluckuna veida; um suma af þeim talar Salómon, Ordskv. 29: sá sem hræsnar fyrir vin sínum, hann breidir net fyrir hans gáng; en Davíd segir, hver útförin muni verda, Ps. 9: í því neti, er þeir falid hafa, er þó fótur þeirra fánginn. Þad merkir og ofbeldi þeirra, er draga alla hluti til sín med valdi og ofriki; svo segir ritníngin um konúnginn af Babýlon, Habak. 1, ad hann hafi fært fórnir fyrir neti sínu, þad er: hann hafi þackad magt sinni og atburdum allan sinn sigur, og þad vald, er hann fengid hafdi yfir ödrum kóngaríkjum, hver ed hann dró til sín, svo sem þegar fiskar veiddir eru; þessir kasta netinu út í sínu egin nafni, og eru hinum fyrri engu betri, því þeir gleyma Gudi himnanna, frá hverjum ad sigurinn kémur, en treysta á mátt sinn og meginn. Þetta ord þýdir og: Guds bráda hefnd yfir hinum stoltu veraldar sonum, hver ed yfir þá kémur á stundum, nær þeir minnst hyggja, svo sem netid yfir fiskinn, svo sem jódsótt yfir óletta konu, 1 Thess. 5; þetta net er víst öllum þeim er upphefja sig á móti Gudi, og ecki géfa hönum dýrdina; þess gétur hjá Ezech. 17, þar ed segir: eg skal útþenja mitt net yfir hann, og hann skal í mínu neti fánginn verda; því vil eg nú í hinum sídara partinum med færstu ordum hugleida: hversu ad vér egum í medlætinu audmjúkir og þacklátir ad vera.

Gudspjallid segir, ad þegar þeir fengu þenna mikla fiskidrátt, þá hafi Petur kropid ad knjám Jesú; þetta var þacklætis merki hans, annad hafdi hann ecki Guds Syni ad gjalda, annars krefur hann ecki heldur af neinum, því hann er einkis þurfi; þad sýndi hann optliga, jafnvel í hans lægíngarstandi, þegar hann vildi brúka vald sitt, og þad ecki sízt med þessari dýrdligu jardteikn. Svo sem þad Gud segir fyrir Davíds munn, Ps. 50, ad hann vilji ecki segja manneskjunni til, ef hann húngrar, þvíad allt silfur og gull sé hans, og öll trén á mörkinni og öll dýrin á skógnum; svo er af þessu dæmi ljóst, ad Drottinn Jesús hefir, eptir manndóminum, þegid af sínum Fodur vald yfir öllum sképnum

Guds, og allt hvad vér medtøkum af Guds hendi, þad veitist oss fyrir hans skuld, á hønum þar fyrir skyldugar þackir ad gjalda, og í hans nafni ad bidja um allt þad vér þiggja þurfum af hinni almáttugu hendi; þar fyrir segir Páluś, 1 Thess. 5: bidjid óaflátanliga og gjørid þackir í øllum hlutum, því þad er vilji Guds fyrir Christum Jesúm í øllu vid ydur. Petur var svo þacklátur vid Drottinn fyrir einn fiskidrátt; en hvad marga høfum vér nú þegid? satt er þad, ad hinn stóri allsherjar Drottinn hefir látid eitt edur tvø ár á stundum vorar fiskiveidar misfalla, eins og Peturs í þetta sinn, um nóttina fyrir þetta mikla happ, en sídan hefir hann yfirfljótanliga á mørgum árum uppfyllt oss med blessan sinni af sjónum, svo ad høfdum vér haft framsýni Jósephs og safnad á þeim gódu tímunum, þad oss og náúnganum hefdi kunnad ad hjálpa á þeim vondu, er vér svo køllum, þá hefdu ecki þær hinar møgru kýrnar uppetid þær feitu. En hvert þacklæti høfum vér nú goldid Gudi þarfyrir? þad finnur hver einn, þegar hann athugar grandgjæfiliga med sjálfum sér, hversu lítt hønum hafi verid hugad um ad offra Drottni lofgjørdinni, þegar hann hvad mesta blessan hefir af hans hendi medtekid, jafnvel þótt ad allir kristnir menn viti, ad þeir séu skyldugir til ad þacka hønum eins vel fyrir mótlæti sem medlæti. Segid mér, er hann nockrum nockud skyldugur? hver hefir hønum géfid? hver hefir hønum lánad ad fyrra bragdi? og hvad segi eg, ad fyrra bragdi, hver hefir hønum nockud nockurn tíma géfid? því þad er vér látumst útiláta vid þá, er hann skipad hefir, þad tøkum vér þó ecki af voru, heldur af hans, sem bædi á oss og allt þad, er vér køllum vort; hvílík er þá sú fásinna, ad vér ecki dagliga skulum ad Guds knjám krjúpa til ad offra hønum þacklætinu, fyrir þær ómetanligu velgjørdir, er vér á hverri stundu þiggjum af hans ørlætis hendi, ecki einúngis líkhamligar, er oss þykir mest tilkoma, heldur og andligar, sem eru miklu dýrari, ef vér høfdum rækt, edur vitsmuni méti ad taka. Ecki þókti Drottni svo mikils verdt um þenna fiski-abla, því hét hann Petri ødru, sem var miklu ágjætara, er hann sagdi: hér eptir skaltú menn veida; eg skal gjøra ydur ad manna fiskurum, sagdi hann skømmu sídar vid þá Zebedei sonu, þad er, ad þeir skyldu bædi sig og sína tilheyrendur hólpna gjøra, svo sem Páluś sagdi vid Tímótheum, 1 Tím. 1. Þessa høfum vær adnotid, þar hljómur þeirra er og oss til eyrna kominn, vér sem búum hér á útskjækli veraldarinnar, útlægir, svo ad segja, frá ødrum løndum, og þarfyrir egum vér hinum góda Gudi hvad mestar þackir ad gjalda, og ecki einasta ad heidra hann fyrir kornid og mustina, þad er fyrir mat og dryck, eptir hverju ad leita heidnar þjódir, Matth. 6, heldur fyrir þad lífsins braud, sem er af himnum ofan komid, og fyrir þad vatn, eptir hvert ad engan mun þyrsta, þann sem af því dreckur, Jóh. 4, þad er sjálfur Jesús, sem gáfur hefir mønnunum géfid, uppfarinn í hædirnar; en þad er ecki nóg ad látast þacka Gudi med munninum alleina, hjartad á ad fylgja med, og hin mesta audmýkt og undirgéfni andans. Þegar þeir Petur høfdu fengid þenna mikla fiskidrátt, þá stendur í gudspjallinu, ad hann hafi sagt vid Jesúm: vík frá mér, lávardur! mundi hann nockud kvedja hønum bygd, svo sem Gadarení, Matth. 8, edur yfirgéfa hann, svo sem Kapernaums borgar menn, Jóh. 6, edur úthýsa hønum, svo sem hinir Samarisku, er hann ferdadist til Jerúsalem ségnum bygd þeirra? fjærri er því; hin mesta hjartans audmýkt og þecking síns óverdugleika hefir þrist hønum

til ad tala þessi ord; þad er, audsært af orsøkinni, er hann færir hér til: því ad eg em madur syndugur. Svo er nú mannlig náttúra veik, ad hún stendst ecki Guddómsins nálægd, hún álítur heldur í fyrstu sinn óverdugleika, heldur enn Lausnarans forþénustu; í heilt ár hafdi Petur þeckt Jesúm og heyrt hans kénníngar, þegar þessi dýra jarteikn var gjør, og þó var hér svo sem hann mistreysti í fyrstunni hans nád, er hønum þó skømmu ádur hafdi svo nádugur verid. Þú ert inngenginn til mín, Guds madur! sagdi eckjan í Sarepta, til ad minnast ránglætínga minna og deyda son minn, 1 Reg. 17; hvar fyrir? þvíad hún taldi sig óverduga vegna synda sinna, og þóttist ecki svo lifad hafa, sem hæfdi Guds sendiboda; Manóah sagdi vid húsfreyu sína, Júd. 13: vid munum vissuliga deya, því vid høfum séd Drottinn. Hvad veldur þessu? þvíad samvitskan, nær hún er skélfd og ángrud vegna syndanna, þá gleymir hún forþénustu Medalgángarans, en hugleidir Gud alleina, svo sem strángan dómara og hegnara ránglætisins; svo meinti og Petur í þetta sinn, ad réttlátir einir mættu búa med Christó, hinum ødrum væri hann einn fortærandi eldur, jafnvel þótt hann væri í heiminn kominn til ad kalla synduga, og ecki réttláta til ydranar. Þetta verkar nú umþeinkíng syndanna og réttlætisins í fyrstunni hjá Guds børnum, og þótt ad í slíku sé veikleiki nockur, þá þénar hann, svo sem allt annad, þeim til góda sem óttast Gud. Fyrir því, nær þú framkémur í þinn bænastad til ad þacka Gudi fyrir velgjørdir sínar, edur ad bidja nockurs af hønum, þá ber saman hans hátign og þitt volædi, hans gjædsku og þína vondsku, hans réttlæti og þínar mørgu syndir, hans þolinmædi og þína þvermódsku, hans almætti og þinn vanmátt, og mun brádliga felmtur yfir þig koma, ecki sídur enn þá Petur, og þitt hjarta smelta í þér, svo sem annad vax, af tilfinníngu Guds reidi yfir syndunum og helvítis kvala, sem þær hafa unnid til; og nær þú þannig staddur ert millum vonar og ótta, þá muntu heyra med Petri af Guds álfu: óttast ecki! já, vertu hughraustur, sonur! þér eru þínar syndir fyrirgéfnar. O, vor Gud! nær hin kalda og bitra daudans stund oss ad høndum ber, og samvitskan tekur ad áklaga oss, minníng syndanna ofbýdur oss, Djøfullinn hrellir oss med þeirra minníngu, og gjørir hvad mest úr þeim, en lítid úr þíns Sonar verdskuldan, sem þó er øllu meiri, þá lát þinn H. Anda mæla þessi føgru ord í hjarta voru, og bera vorum anda vitnisburd þar um, ad vér séum Guds børn; bænheyr þad, himneski Fadir! fyrir Jesú blessada forþénustu, amen!

## Sjøtta Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Matth. 5 Kap.

Í þann tíma; Jesús sagdi til sinna lærisveina: eg segi ydur, nema svo sé, ad ydvart réttlæti yfirgnæfi meir, enn þad hinna skriftlærdu og Phariseanna, þá munud þér eigi inngánga í himnaríki. Þér hafid heyrt hvad sagt er til þeirra gømlu: ecki skaltu mann vega, en hvør hann vegur mann, sá verdur doms sekur; en eg segi ydur þad, hvør hann reidist brodur sínum, sá verdur doms

sekur; en hvør sem ad segir til brodur síns: raka! hann verdur ráds sekur; en hvør sem segir: þú afglapi! hann verdur sekur helvítis elds. Þarfyrir, nær ed þu offrar þína gáfu til altaris, og þér kémur þar til hugar, þad þinn brodir hafi nockud á móti þér, þá láttu þar þína gáfu fyrir altarinu, og far ádur ad sætta þig vid brodur þinn, og kom þá ad offra þína gáfu. Vertu snarliga samþyckur þínum motstødumanni á medan þú ert enn á vegi med hønum, svo ad eigi selji þig þinn motstødumadur domaranum, domarinn selji þig þénaranum, og verdir svo í dýblissu kastadur; sannliga segi eg þér, ad eigi muntu þadan út fara, þángad til þú hefir borgad hinn sídasta pening.

## Exordium.

Þér villist, þar þér vitid ecki ritníngarnar, sagdi Drottinn vid Sadúceos, Matth. 22; med vidlíku móti ávarpadi hann Pharíseos, Mark. 7: þér ónýtid Guds bodord, svo ad þér haldid setnínga ydar, og þad gjørir hann satt, bædi í greindum kapítula Marci, og svo hinum 23 Matthei. Þad er hverju ordi sannara, sem Páll skrifar, ad holdligur madur skynji ecki hvad Guds anda er, og þad sé hønum heimska, 1 Cor. 2; þad er ljóst af dæmi hinna skriftlærdu, er kølludu sig ad hafa lykil vitskunnar, en útløgdu þó ritnínguna eptir sínum eginn þótta; þad auglýsir hinn stóri Biskup med þá vellærdu túnguna í þessa þessa h. dags evangélío, þar hann sjálfur útleggur løgmálid lángtum ødruvís enn Gydínganna vitríngar héldu; hver hans útskíríng ad mestu leiti er vidtekin af flestum þeim, ed kristnir kallast, þó er þar í ein grein, sem ecki kémur øllum saman um, þad er þessi: vertu snarliga samþyckur þínum mótstødumanni, á medan þú ert enn á vegi med hønum, svo ad eigi selji þig þinn mótstødumadur dómaranum, og dómarinn selji þig þénaranum, og verdir þú svo í dýblissu kastadur. Ut af þessum ordum Drottins hafa einþyckir og skynhelgir menn þad spunnid, ad ei leyfist kristnum mønnum ad eigast løg vid fyrir sínu yfirvaldi; og því verr, ad í landi voru eru þeir, er leggja þad út á hinn versta veg, ef nockur er vandlætíngarsamur í því, ad sækja Guds og konúngsins rétt, ad forsvara virdíngu sína og fjárhluti fyrir ásælni vondra manna, ad styrkja málefni eckjunnar og hins fødurlausa, og kalla, ad þad komi ecki einum vid, og jafnvel þótt ad løgrænínguriun sé hønum vandabundinn, og nefna slíkt óróa og fridar-spillir. En eg mun med fám ordum sýna: ad ei sé þad Lausnarans meiníng, ad banna kristnum mønnum ad sækja rétt sinn, og þar hjá: ad vor réttargángur eigi ad vera án alls hatrurs og reidi. Þú réttláti fridarins Gud! géf oss nád þíns anda þar til, ad þetta eyrendi vel luckast megi, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Þótt ad ecki væru adrar røksemdir til þess, ad Lausnarinn ei tali hér um veraldligan rétt, heldur um þad réttlæti, sem fyrir Gudi gildir, þá er sú nóg, ad hann segir í øndverdu gudspjallinu: nema ad ydar réttlæti yfirgnæfi framar, enn hinna skriftlærdu og Pharíseanna, þá kunnid þér ecki inn ad gánga í Guds ríki. Vitanligt er þad af gudspjalls-søgunum, ad ecki høfdust þessir skynhelgu menn þá hluti ad, sem veraldarréttur kynni ad fella þá fyrir; en fyrir því, ad Guds dómar eru ecki eins og mannanna dómar, þeir dæma eptir gøgnum og vitnum, en hann ecki eptir því sem hans auga sér, edur hans eyra heyrir, heldur rannsakar hann hjørtun og nýrun, Ps. 7, fyrir því, segi eg, tekur Lausnarinn til ad

útskíra hid fimta bodord fyrst, og sýnir, ad ecki einasta manndráp edur útvortis misþyrmíngar séu fyrir Gudi saknæmar, heldur og reidin í hjartanu, og óvirdíngar ord þau, er framkoma af munninum. Ef menn nú þetta fyrir satt halda, sem eg hygg ad allir gjøra muni, sem þessa ritníngu vel rannsaka, hver vill þá segja, ad Frelsarinn meini í þessum kapítula fyrr edur sídar, veraldligan réttargáng? Ad þessu lýtur þad, er sídar stendur í gudspjallinu: nær þú offrar þína gáfu fyrir altarinu, og þér kémur þar til hugar, þad þinn bródir hafi nockud á móti þér, þá láttu þar þína gáfu fyrir altarinu, og far ádur ad sætta þig vid bródur þinn og kom þá ad offra þína gáfu. Segid mér, hver á ad þiggja Frid, Gud edur sýslumadurinn? hvada dómari mun þá meintur í þessum ordum: ad eki ofurselji hann þig dómaranum? eg meina Gud, því á mýskunsemi hefir hann þóknan og ecki á offri, Hós. 6, en veraldar høfdíngjar, því verr, þeir hafa margur hverr þóknan á offri, en ecki á mýskun, nær þeir taka fé til ad réttlæta hinn rángláta, en fordæma hinn saklausa án allrar vægdar og mýskunar; og svo sem þad Drottni ecki þóknadist offur hinna heimsku, Pred. b. 5, ødruvísi enn svo hann segir, Esa. 66, ad hver hann slátrar nauti, þad er sem hann slæi í hel, hver hann lógar saud, þad er sem hann afhøfdadi einn hund, hver hann færir fórn, svo sem offradi hann svínsblódi, sá ed reikelsi brennir, svo sem hann lofi þad skúrgodi, svo vill og Frelsarinn segja, ad øll Guds þjónusta þess, sem er missáttur vid sinn náunga, þann er hann hefir afgjørt vid, hún sé andstygd fyrir Gudi, ef hann má annars sáttum ná, og því ályktar hann med þessari grein: vert snarliga samþyckur þínum mótstødumanni, á medan þú ert enn á vegi med hønum, svo ad eigi selji þig þinn móttstødumadur dómaranum, o. s. fr. Ad dómarinn sé Gud, allsherjar konúngur, þar er enginn efi á, hann einn á vald á ad kasta þeim hann fordæmir í þad fángelsid, hvadan ecki er endurlausn, sem er helvíti, og ad þad sé hér meint, vottar eptirlíkíngin um hinn vonda þjón, er ritud stendur Matth. 18, hann á og alleina himnaríkis vald. Fyrir hvers réttlæti vér inngaungum í Guds ríki er alkunnugt, ecki Pharíseanna, ecki vort sjálfs, edur heilagra manna, heldur hans, sem er Jéhóva, vort réttlæti, Christus, en hans réttlæti má enginn ná, fyrir utan þad, ad hann sé vid sinn bródur sáttur, í sínu hjarta ad minnsta kosti, og vilji ofgjørt hafa þad afgjørt var. Nú er enginn heilvita madur sá, ef hann hefir misgjørt vid nockurn, ad hann ecki heldur leiti sátta til hans, heldur enn ad mæta fyrir dómaranum, hver ed, auk þegnsins réttar, fellir á hann konúngsins søk, sérílagi þar konúngarnir hafa eptir látid slíkar sáttir, nær málum er svo háttad, ad ecki snertir Guds æru, né tign þeirra. Nú hygg eg sú sé meiníng Drottins í þessari grein: þad sem framsýni þykir í veraldligum málum, því skyldi þad ei þykja í efni sáluhjálpar ydar? Frá veraldligum dómi má komast á einhvern hátt, einhver kann ad gánga í borgun fyrir mig, mér kann arfur til ad falla, svo eg géti lokid skuld mína, vinir og náúngar géta fridstillt minn mótstødumann, en frá Guds dómi einganveginn, nema eg verdi sáttur vid minn mótstødumann, á medan eg er enn þá á vegi med hønum, þad er, á medan eg lifi, ádur enn eg kém fyrir hinn stránga allsherjar dóm, og verd í myrkvastofu kastadur, hvadan eg mun ecki útfara, þángad til eg hefi borgad hinn sídarsta peníng, þad er: aldrei, því úr

K

helvíti er engin endurlausn; þarfyrir er einsætt ad sættast vid náungann, medan tíminn er, sérdeilis þar eg veit ecki hvad mikid er eptir vegarins, Gud rædur mínum sídarsta nætur stad, og ecki sjálfur eg; og hér af hygg eg þad audsært, ad ei tali Frelsarinn í þessum stad um veraldligan rétt. Veit eg ad Drottinn segir í þessum sama kapítula: ef nockur vill vid þig løg þreyta og þína yfirhøfn af þér taka, lát hønum og þinn kyrtil eptir; eg vil nú ei fá mér þad til orda, ad margir lærdir menn leggja þetta svo út: vilji nockur keppa vid þig um yfirhøfn þína, þad er, taka hana af þér med ofbeldi, eg vil láta hitt standa, samt hefir þó Drottinn ecki í þessum ordum laga réttinn fyrirbodid; þad var ecki hans ad banna mønnum løg og rétt, sem ad er hefundur réttar og laga, hvers ad er dómurinn, hver og er medal dómaranna í dómunum, ad vitni Jósaphats konúngs, 2 Kron. 19, heldur þeirra, sem neita mønnum réttra laga, tradka málum manna med flækjum og rángsleitni, spilla løgligum vitnum og stefnum ad raunarlausu, hverja Drottinn vill sídan dæma. En eg vil aptur taka til hins fyrra máls; engum bannar Drottinn í þessari grein ad beidast réttar síns. Þad er alkunnugt, ad Frelsarinn talar í ordskvidum og eptirlíkíngum þráliga í kenníngum sínum; hann samlíkir kristnina víngardi, akri, brúdkaupi, þó er kristnin hverki víngardur, akur né brúdkaup; hann kallar Heródem ref, mundi hann þar fyrir refur vera? þá Jóhannem og Jakóbum þrumusyni, mundu þeir þá ecki vera Zebedei synir? hann segir, ad hægra sé úlfaldanum ad gánga í gégnum nálaraugad, heldur enn ríkum manni inn í himnaríki, Matth. 19, nú er þad ómøguligt, hvar munu þá Abraham, Isak og Jakob vera? í þessum sama kapítula Matthei segir hann: ef þín hønd edur fótur hneixlar þig, þá sníd þau af og snara þeim frá þér, mun hann þá vilja ad menn skuli meida sig edur vana, eins og Baals prestar, og ecki miklu heldur, ad þeir skuli krossfesta sitt hold og deyda sína jardnesku limu, svo sem Páluz ad ordi kemst, Col. 3; hann segir og í sama kapítula: ef nockur slær þig á þína hægri kinn, þá snú ad hønum hinni annari; en ef hann slær á hina vinstri fyrst, þá hefir þú ecki adra vinstri kinn ad bjóda, segir Agústínus, og Lúkas getur hverki um hægri né vinstri kinn; því meiga menn ecki alltíd hánga í ordum ritníngarinnar, heldur leita ad meiníngunni, hver ad í þessum ordum er engin ønnur enn sú, ad menn ei skulu hefna sjálfir sín, heldur lída óréttinn med þolinmædi og hatursláust; þad vil eg satt gjora med Frelsarans egin dæmi, hver þegar hann var kinnhest sleginn, Jóh. 18, þá baud hann ecki hina adra kinn, heldur átaldi med hógværd þann er hann sló, ei heldur St. Páll, nær prestahøfdínginn baud ad slá hann fyrir dómi, heldur beitti hann løgum fyrir sig, og sagdi: Gud straffi þig, þú forfágadi veggur! þú situr og dæmir mig eptir løgunum, og býdur ad slá mig á móti løgmálinu, Act. 23. Sama vil eg nú segja um þad, ad láta þeim sinn kyrtil eptir, er vili þrátta vid nockurn um hans yfirhøfn; þeirra orda er engin meiníng ønnur enn sú, ad minni hyggju, ad nær madur lídur nockurn órétt, skuli hann ecki hefna sín sjálfur, heldur skuli vera svo skapi farinn, ad hann sé búinn til ad þola annann stærri reidi og hatursláust, ef hann nær ecki rétti hjá valdstjórninni, þvíad af sjálfshefudinni kemur tídum stærri ólucka; eldurinn verdur ecki med eldi slocktur, heldur med vatni, svo er þad engin lækníng órettarins ad gjalda illu íllt, heldur ad leita valdstéttarinnar, hverja Gud hefir sett hinum frómu til

forsvars, en ránglátum til hegníngar, en þó reidilaust, því madur á ad snúa vánganum í hjartanu, og ecki á höfdinu. Fyrir því bannar Frelsarinn í þessari grein ecki lögligan réttargáng, heldur enn Pálus, þótt hann segi, 1 Cor. 6: vogar nockur af ydur, sá ed á sök vid einhvern, ad eiga dóm undir ránglátum og ecki undir heilögum, ad sönnu er brestur hjá ydur, ad þér hafid dóma medal ydar, því lídid þér ecki heldur óréttinn, því takid þér ei heldur skada? ecki bannar Pálus hér réttargánginn, heldur ad eiga sök fyrir ránglátum, (svo kallar hann heidíngja, en heilaga nefnir hann hér kristna menn, eins og vídar); svo vill hann þá ecki allan réttargáng bannad hafa, heldur ad eiga mál fyrir heidíngjum; hvar fyrir? svo ad engum gjæfu þeir neina hneixlan, ad þjónustugjördin ei löstud yrdi, 2 Cor. 6, og þeirra hógværd kunnug öllum mönnum, Phil. 4; en vitni til þess, ad hann ecki vildi hafa réttargánginn afmádan, er þad, ad hann ei bannar, ad eigast lög vid fyrir kristnum, og sýnist láta þad eptir, ef vid þarf, þar hann segir: er enginn sá á medal ydar, sem vitid hefir, sá ed kunni ad dæma millum brædra sinna; og fyrir því, ad kristnir höfdu þá eckert vald til ad dæma opinberliga um veraldar mál, þá sýnist ad hann vilji, ad þeir nefni menn af sjálfum sér, til ad dæma mál sín, heldur enn ad bera þau undir vantrúada, edur þola óréttinn ella, heldur enn ad gjöra þrætur sínar augljósar þeim, er hötudu kristinndóminn, og lögdu þeim allt til lýta, er þá trú og þjónustu tekid höfdu; og svo sem Frelsarinn segir hér í gudspjallinu: nema ydar réttlæti yfirgnæfi, meir enn hinna skriftlærdu og Pharíseanna, þá kunnid þér ecki inn ad gánga í Guds ríki, svo vill og Páll, ad hinir kristnu skýna skuli svo sem ljós, á milli rángsnúinnar heidíngjanna kynslódar. Þessi sami Guds madur segir í ödrum stad: látid ei sigrast af hinu illa, heldur yfirvinnid hid illa med gódu, Róm. 12; en hver vogar ad kalla skipan hins Almáttuga vonda? edur er valdstjórnin ecki af Gudi sett? er hún nockud svo sem annad bílæti innsett í Krists kyrkju til prýdis alleina? lángt er frá því, heldur til ad skipa réttindum manna; fyrir því kalla eg þann sigra hid vonda med gódu, sem nær rétti sínum fyrir lögligum dómi, en þolir án haturs og möglunar, þótt af því beri. Drottinn segir í lögmálinu, Exód. 21: auga fyrir auga, tönn fyrir tönn; þarfyrir hefir hann þó ecki leyft þeim, er augad misti, ad stínga út augad á hönum, er stack, ecki heldur hefir hann tekid sverdid af dómaranum, þótt hann banni þad þegninum. Eckert nýtt lögmál hefir Kristur sett í þessum greinum, því sjálfs hefndin er og bönnud í lögmálinu; sá sem sagdi dómaranum, Devt. 19: þitt auga skal ecki þyrma hönum, líf fyrir líf, auga fyrir auga, tönn fyrir tönn, hönd fyrir hönd, fót fyrir fót, hann hefir og sagt hverjum einum þarfyrir utan, Lev. 19: þú skalt ecki sækja eptir hefndinni, og ecki vera minnugur óréttarins; hann ed segir í greindum kapítula Devt., um hinn falska vott: þér skulud aldeilis gjöra hönum, svo sem hann leitadist vid ad gjöra sínum bródur, hinn sami hefir talad fyrir munn Salómónis, Ordskv. 20, þessi ord, um alla þá, sem ecki hafa Guds umbod í dómara sæti: þú skalt ecki segja, eg skal endurgjalda íllt, bíd eptir Drottni, hann mun frelsa þig; þessu er Páll samþyckur, er hann segir, Róm. 12: þér egid ecki ad hefna sjálfir ydar, því skrifad er: mín er hefndin, eg vil endurgjalda; en þegar valdstéttin hegnir vondra verka á þeim, sem gjört hefir á annars

hlut, þá frelsar Gud hinn saklausa, því hún er hans þénari til hegníngar þeim, er íllt adhafast, Róm. 13. Hvervetna þar, sem hinn stóri allsherjar Dómari hefir valdstjórninni réttinn í hendur fengid, þar hefir hann med þad sama leyft sérhverjum, sem vanhaldinn er, ad sækja rétt sinn fyrir henni, því hún ber ecki sverdid forgéfins, segir Páluss; og Petur býdur, ad menn séu undirgéfnir stjórnendunum, svo sem þeim af konúnginum eru sendir til straffs hinum glæpafullu, en til lofs hinum, sem gott adhafast, 1 Pet. 2; mun nú ecki þessa vid þurfa, kristnir menn! edur er veröldin svo einlit, ad ecki finnist í henni bædi svart og hvítt? svo heilög, ad ei finnist bædi vondir og gódir? Því er einsætt fyrir þá, sem rángindin þola, ad leita forsvars hjá valdstéttinni; edur mundi ecki Páluss leita lids í lögunum, þegar Lysías vildi hafa refst honum? Act. 22, mundi hann ecki skjóta sér undir keysarans dóm, þegar hann ottadist ofbeldi Gydínga? Eg þori framar ad tala: þad er ecki Gudi þægt, og gagnar ecki til hans dýrdar, ad menn alltíd géfi rétt sinn eptir, því þad gjörir óhlutvanda menn optast þess verri og ásæknari, svo ad þad má sýnast, ad sá efli illsku þeirra, sem lætur hlut sinn fyrir þeim, ef hann má ná honum med lögum og rétti. Sá sem vill taka frá mér æru mína og gott mannord, mun þad Gudi á móti, ad eg forsvari mig lögliga fyrir áaustri hans? hann lýgur uppá mig lýtum og skömmum, sem eg aldeilis ecki er valdur af; mun mér ei leyfiligt ad bera hönd fyrir höfud mitt, þar svo ástendur? einhver rænir mig fjárhlutum mínum, ódölum og arfagózi, edur ödru því, sem eg er vel adkominn, og þad annadhvert med ofríki, edur yfirvarpi laga og réttinda, svo eg líd skort á forsorgun minni og þeirra, sem mér eru vandabundnir, konu, barna og hjúa, hefi ecki, þad eg megi fátækum géfa og bjarga naudstöddum med, en hann brúkar fé mitt til óhófs og ofmetnadar, því svo gjöra þeir optast, er láta þénara sína flöckva yfir hvern þröskuld, til ad fylla hús drottna sinna med ráni og svikum, Zéph. 1; mun Gud banna mér ad verja mitt med lögum á móti slíkum offstopa? fjærri sé því, annars hefdi hann ecki girdt í kríngum frelsi mitt og eigur mínar med laganna múr; ecki sé eg ad ritníngin leggi þad Nabot til lýta, þótt hann neitadi Achab um sinn víngard, en sá gjörir hid sama, sem ver sitt med réttum lögum. Gud hefir bodid mér, ad eg skuli elska minn náúnga sem sjálfan mig, en ecki framar; óskandi væri, ad menn gjætu þad vel haldid; þad heyrir Gudi einum til, ad elska hann framar öllum hlutum og jafnvel lífinu, þad á og ad gjöra vid brædurnar, segir Jóhannes, hans vegna, 1 Jóh. 3, en sú elska er í því fólgin, ad hjálpa honum og forsvara fyrir ómildum mönnum, en ecki í því, ad láta skálkinn ræna sig og féfletta, ef eg má laganna njóta, þad er engu betra, enn ad forsmá Guds gáfur, er hann veitir mér til uppheldis, en eg vil þær ecki nýta; eg veit og, ad eg er skyldugur ad styrkja mál eckjunnar og hins fodurlausa; mun eg þá ei mega gánga í rétt fyrir þau, kunni þeim þar med hólpid ad vera, ef mér þad lögin leyfa? Af öllu þessu hygg eg nú audsært vera, ad þad ecki einasta er leyfiligt, heldur og gott verk á stundum, ad leita laga og réttar á móti áráfum vondra manna, en þad á ad ské med allri hógværd, án haturs og reidi, svo sem ádur er sagt, því hann, sem réttinn sett hefir, hann hefir og sagt: elskid óvini ydar, Matth. 5, og nær þad ecki sídur til réttargángsins, heldur enn til hvers annars vidskiptis vors og umgengnis í heiminum. Sá sem elskar óvin sinn, hann elskar

jálfan sig, því undir eins og hann fyrirgéfur sínum bródur hans misgjørdir, þá auglýsir hann sig þar med ad vera barn síns Fødur, sem á himnum er, hann tekur undir eins aflát og kvittun af Gudi fyrir sínar egin syndir, ef hann gjørir þad af hjarta, Marc. 11. Drottinn hefir ecki bannad sjálfan hlutinn, heldur ránga atferd hlutarins, þad er, ad brúka réttinn til ad hefna sín, en ecki til ad ná rétti sínum, ad bera fé í dóma, ad útvega falsk vitni, ad brúka lagakróka og adskiljanliga rángsleitni, ad erta upp íllt skap med hríxlum og skútyrdum, jafnvel í réttu máli, til þess ad fá meiri hefnd yfir sínum mótstødumanni, enn hann í fyrstu hafdi tilunnid, allt svoddan er af hinum vonda, þad hefir Gud og aldrei leyft í neinum réttargángi ad brúka, heldur strengiliga bannad, en allra helst ad hatast vid sinn mótstødumann, og sá þad gjørir, hann verdur eins sekur fyrir Gudi, svo sem hinn, þótt aldrei eigi hann svo gott mál; og hvad hefi eg þá gott af því, ad eg spilli mýskun Guds yfir mér, til ad hatast vid hann, er vid mig afgjørdi, því Gud kann ad mýskuna hønum, ef hann ydrast, en eg á engrar vægdar von, svo lengi sem eg el hatur til hans. Drottinn segir og ad sonnu hér í gudspjallinu, ad sá, sem hefir gjørt á annars hlut, hann skuli sættast vid bródur sinn, ádur hann offrar gáfu sína, en um hinn, sem misgjørt er vid, segir hann med álíka móti, Mark. 11: og þegar þér standid búnir til ad bidjast fyrir (þad er, ad offra Gudi bæn sinni), þá tilgéfid, ef þér hafid nockud á móti einhverjum, svo ad ydar Fadir, sem á himnum er, forláti ydur ydar misgjørdir; skylda eg þá bera hatur til hans, sem eg á málstad vid, þótt aldrei ætti eg um svo sárt ad binda? þad væri ærs manns ædi, og ecki þess, sem heilvita er í sínum kristindómi, þar eg á dagliga ad bidja þessa bæn: fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér fyrirgéfum vorum skuldunautum, og veit, ad eg ecki fæ kvittun synda minna, á medan eg høndla ecki reidilaust vid minn náunga, hvert þad er í réttargángi, edur utan réttargángs; þad er og víst, ad vor besti réttur er enginn réttur fyrir Gudi, ef hann vill dæma eptir sínu réttlæti; svo segir Job, 9 kap: eg veit vel, ad engin manneskja kann réttlát ad standast fyrir Gudi; og því skylda eg þá hata óvin minn, fyrst hann hefir skipad mér ad elska hann, sem á svo mikil rád á mér, ad hann gétur fordæmt mig, nær hann vill. Þess er og ad gjæta, ad ecki hlaupi menn til dómarans um hvern hégóma; þad kénnir ágyrni og óróa ad vilja þrátta um smámuni, og sæmir ecki þeim, sem vill láta sig hugprúdan kalla, aukheldur réttkristnum manni, hverjum ad byrjar ad vera ljúfum á ad sættast, jafnvel med nockrum skada sínum, heldur enn ad draga sinn mótpart fyrir dómarann hønum til meiri skada og hneisu þeirrar, er hinn hefir ecki gagn af, þótt ei hafi menn alltíd haldinn hlut, sérdeilis ef ad keppa er um þá hluti, sem lífsnæríngu ei vidvíkja, hverja Páls sýnist ei vilja hafa undir dóm heidíngjanna, 1 Cor. 6, einkum þar Frelsarinn hefir bannad oss ad syrgja fyrir henni, Lúk. 21, og brúkar þad sama ord í þeim stad, sem Postulinn hér, og því áminnir hann alla kristna menn med þessum ordum, Cól. 3: íklædist, svo sem útvaldir Guds heilagir og elskanligir, hjartgróinni mýskunsemi, lítilætinu, hógværdinni, þolinmædinni, umberandi hver annann og fyrirgéfandi hver ødrum, ef nockur hefir á móti einhverjum sakir, svo sem Kristur hefir ydur fyrirgéfid, svo gjørid og þér. Gud géfi øllum sínum børnum þetta hjartalag ad stunda og því fast ad halda, þar til vér komum fyrir hinn stóra

alsherjardóm, hvar vorir stærstu óvinir, synd, daudi, Djøfull og helvíti skulu oss eckert mein gjora, aukheldur nockur veraldar magt; því hverr vill færa kjærumál í gégn útvøldum Guds, þar Gud er sá sem réttlætir, Kristur er sá sem dáinn er, já, enn framar upprisinn, hvør og er á hægri hønd Gudi, hvør og er medalgángari fyrir oss, Róm. 8; þessa hlutskiptis unn þú oss ad njóta, eylífi Konúngur dýrdarinnar! fyrir hans forþénustu, sem er alls holds dómari, Jesús Christus, amen!

## Sjøunda Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Lúk. 8 Kap.

Á þeim døgum, þá þar var enn margt folk komid saman, og hafdi ecki til matar, kalladi Jesús sína lærisveina til sín og sagdi til þeirra: mig aumkar yfir folkid, þvíad í þrjá daga hafa þeir hjá mér verid og eckert til matar haft, og ef eg læt þá fastandi heim til sín fara, þá vanmegnast þeir á leidinni, þvíad sumir voru lángt ad komnir. Og hans lærisveinar svørudu hønum: hvadan fáum vér þau braud hér á eydimørku svo ad vér fáum þá mettad? Og hann spurdi þá ad: hvørsu mørg braud hafid þér? þeir søgdu hønum sjø. Og hann skipadi folkinu nidur ad setjast á jørdina, og tok þau sjø braudin, þackadi, braut og féck sinum lærisveinum, ad þeir legdu þau fram; og þeir søgdu þau fram fyrir folkid; þeir høfdu og fáeina smáfiska, og þá hina sømu blessadi hann, og baud fram ad leggja. En þeir neyttu og urdu mettir; og þeir toku upp þad yfir var, sjø karfir med afgángs leyfar. En þeir, sem neytt høfdu, voru nær fjorar þúsundir, og hann lét þá í burt fara.

### Exordíum.

Madurinn mun ecki lifa af einusaman braudi, heldur af sérhverju ordi, sem framgengur af Guds munni, sagdi Móses vid Israel fordum, Devt. 8; þessum sømu ordum kastadi Frelsarinn Andskotanum í nasir, þegar hann freistadi hans til ad gjøra steina ad braudum, Matth. 4, þau eru og sønn, svo sem allir adrir Guds vitnisburdir, því þad má ei líf kalla, sem er án Guds orda, jafnvel þótt einn hafi hold og hamsa og líti nógu sælliga út. Christi ord eru líf og andi, og án þeirra er madurinn, eins og Páll segir um eckjuna, þá í girndum lifir, hann er lifandi daudur; þó hefir Gud géfid manninum fæduna, svo sem annad medal til ad lifa af, þarfyrir stendur hér: ecki af einusaman braudi. Vitanligt er þad, ad Gud er ecki um megn ad halda líkhømum vorum vid án matar og dryckjar; þad sýna oss dæmi Mósis, dæmi Elíæ, Lausnarans, er føstudu í heila 40 daga, og má sýnast ad þeir Móses og Elías hafi verid Drottins fyrirmindan í þessu; og því skyldi hann ei kunna ad ala manninn án fædslunnar, sem ad í eydimørku saddi 5000 manns med fimm byggbraudum og tveim fiskum, Jóh. 6, og í þessa dags h. evangélío heyrum vér, ad hans mikla almættis hønd mettar 4000 med eins litlum kosti. Ut af því fyrsta kraptaverkinu hefi eg nockud ádur talad í þessari bók, um þad, hvernig vér í Guds ótta egum ad leita næríngar vorrar, hvad eg ósta ad

finni gódan stad í hjørtum þeirra, sem lesa edur heyra; en nú vil eg út af þessu h. gudspjalli alleina þar um tala: hvad oss eigi ad styrkja í trúnni, til ad treysta Gudi, og varpa allri vorri áhyggju uppá hann, nær oss vantar þessarar veraldar muni. Hjálpa oss til þessa, Drottinn minn! fyrir þitt dýra nafn og Sonarins forþénustu, amen!

## Utleggíngin.

Þad er grátligt til ad vita, hversu ad náttúra mannsins eptir spillínguna er bág til ad treysta Gudi, þegar þad er ecki fyrir augunum sem eta skal. Móses sló á klettinn í Hóreb, og þar flaut vatn út af, svo ad allur Israel drack, Exód. 17, en er Gud baud honum í eydimørku Zín ad gjøra hid sama í annad sinn, þá efadist hann og sló tvisvar á bjargid, Núm. 20; hann sá dagliga, ad Gud fæddi þá med manna af himnum ofann, en er fólkid møglaði og beiddi um kjøt, en hann bar þad fyrir Gud, sem hét ad gefa þeim kjøt ad eta allt til leidinda, þá var þó ecki trúin sterkari hjá sjálfum Mósi enn svo, ad hann sagdi Núm. 11: þetta fólk er sex hundrud þúsund manns, og þú segir: eg skal gefa þeim kjøt, svo þeir eti í heilan mánud. Lærisveinarnir høfdu séd þad mikla kraptaverk, er Jesús hafdi gjørt, skømmu ádur enn þessi jarteikn skédi, nærri því í þessum sama stad, er hann saddi 5000 manns med fimm byggbraudum og tveim fiskum, Jóh. 6, þá taldi Philippus tormerki á spurníngu Drottins, og sagdi: braud fyrir 200 penínga nægir þeim ecki; en hér fór ecki betur, nema midur væri: hvadan fáum vér þau braud hér á eydimørku, ad vér fáum þá mettad; og eptir þad þeir høfdu séd bædi þessi kraptaverk og mørg ønnur fleiri, þá ætludu þeir hann mundi braudsþurfi vera, er hann tók þeim vara fyrir súrdegi Heródis og Pharíseanna á skipinu, svo sem lesa má í þessum sama 8 kap. Marcí, af hverjum og ráda má, ad þad hafi skéd strax eptir þessa dýrdligu jarteikn. Gud betri, ad þad hendir oss á stundum kristna menn, sem Lausnarinn segir um heidíngjana, Matth. 6: hvad egum vér ad eta, eda hvad egum vér ad drecka, edur hverju egum vér ad klædast? en þar til verdur ei betur svarad, enn sjálfur hann svarad hefir: er ecki lífid meir enn fædslan, og líkhaminn meir enn klædnadurinn? Seg þú mér, Guds barn! skóp hann þig ecki dásamliga í módurlífi? gaf hann þér ecki sál og líkhama? endurleysti hann þig ecki med síns Sonar dýra blódi? hefir hann ecki endurgétid þig daudan í syndunum? hefir hann ecki fóstrad þig med sínu h. ordi? hefir hann ecki alid þig á síns Sonar holdi og blódi? heldur hann ecki øllu þessu vid magt enn nú dásamliga og undrunarliga á stundum? eg vil taka til þess, sem dýrast og dásamligast er: hafi hann géfid oss Soninn, því mun hann þá ecki gefa oss alla hluti med honum? og ef hann géfur oss alla hluti, þá géfur hann oss einnig forsorgun líkhamanna; hafi hann alid ønn fyrir oss, bædi í módurlífi og allt upp þadan, í andligan og líkhamligan máta, mun hann þá ónýta sitt egid verk, nema ad manneskjan gjørdi Guds almætti vanmáttugt á sér med trúarleysunni, eins og lærisveinarnir, er þeir gátu ecki læknad hinn túnglsjúka? Þú segir: eg finn opt brest á atvinnu minni; húngur og dýrtíd mega menn stundum þola, hvad veldur því? spyr Ezechíel ad, hann mun svara þér ordum Drottins: ef eitt land syndgar mjøg á móti mér, þá vil eg útrétta mína hønd yfir þad sama og í burt svipta brauds nægtunum, og eg vil

senda þángad hallæri og uppræckja þar inni bædi mönnum og fénadi, Ezech. 14; mun þad nockud raska sannsögli Drottins, þótt menn gjöri sig hans örlætis óverduga? þegar ad allra handa lestir og klækir, Guds ords forsøgtun, vanbrúkun hans hvíldardaga, rángläti, meinsæri, lygar, þjófnadur, ágyrni, drambsemi, ofbeldi, agg, reidi, þræta, svik og undirferli og annad þessu líkt, þegar allt þetta gengur fjöllunum hærra í landinu, er þá ad furda, þótt hann apturlyki sinni mildu hønd á stundum? eda segir ecki Páulus, ad fyrir þesshattar glæpi komi Guds reidi yfir børn vantrúarinnar? Cól. 3; hver vill þá skylda hann til, ad hann skuli nádugur vera. Leitum því Drottins á medan hann er ad finna, køllum á hann á medan hann er nálægur, sá hinn ógudligi láti af sínum vegi og illvirkinn af sinni huxan, og snúi sér til Drottins, þá mun hann myskuna hønum, og til Guds vors, þvíad í hjá hønum er mikil fyrirgéfníng, Es. 55. Eg skal endurgjalda ydur þau árin, sem grashoppan, kálormurinn, trémadkurinn og grasmadkurinn hafa frá ydur tekid, segir Drottinn, Jóel 2; ó, minn Gud! hver hefir þér nockurn tíma géfid? hver hefir þér lánad, þad þú skyldir hønum endurgjalda? þad megum vér játa í þessu fátæka landi, ad hafi Gud einhverju sinni straffad syndir vorar med óáran nockurri, þá hefir hans mildi oss þad endurgoldid med mikilli árgjæsku bædi til sjós og lands. En hvad fylgir á eptir hjá spámanninum í sama kapítula: nær þér etid óaflátanliga og erud mettir, þá munud þér lofa nafn Drottins Guds ydar; en sjáum til, hvert Fadir myskunsemdanna muni ecki hafa fundid skort á þessu hjá mørgum af oss, og hvert þad muni ecki miklu heldur eiga heima hjá sumum, er stendur hjá Hóseam, 13 kap: undir eins og þeir mettir urdu, þá er hjarta þeirra upphafid og hafa gleymt mér. Einhverr vill segja: eg finn ecki þessa glæpi hjá mér, eg óttast Gud og elska, svo sem mér er møguligt og gjöri hønum þackir, samt má eg og mínir þola húngur og þorsta, kulda og klædleysi; heyr mér um stund, barn mitt! muntu vera sá einasti af Guds børnum, sem hann leggur þvílíkt uppá? máttu ecki þeir Abraham, Isak og Jakob verda landflótta fyrir húngurs sakir? Gén. 12, 26 og 46; mátti ecki Elías fasta í 40 daga? 1 Reg. 19, hvad margt segist Páll hafa mátt íllt þola fyrir evangélíum? en þetta máttu þeir líða, til þess ad þeir vissu hvad þeir væru, sem er, syndugar manneskjur, hvar þeir væru, þad er, í heiminum, í útlegdinni og ecki í födurlandinu, hvernin þeir vera skyldu, sem er, stødugir í trúnni, þolinmódir í hørmúnginni og gladir í voninni; sama gjörir hann vid þig, því ecki er hjá hønum manngreinar álit, Act. 10. Þykist þú nú betri enn svo, ad þér sé fullgott ad hafa líkan kost med þessum Guds køppum? því ángrar sig þá sála þín, og því er hún óróliga í þér? vona þú á Drottinn, því þú munt enn nú prísa hann, Ps. 42; edur viltu ecki heldur hafa þríngan med Guds fólki, eins og Móses, heldur enn lifa í alskyns sælu med heiminum og fyrirfarast med hønum? hversu betra er þér, ad þú girnist ad sedjast af molum þeim, er detta af bordum hins ríka hér í heiminum, enn ad þig lángi eptir einum vatnsdropa af fíngri Lazarí í helvíti og kvølunum? og hvad veitstu, hversu lengi Drottinn vill láta þenna þinn skort vara? hann er einn stór kongúngur, ecki er hann lengur ríkan enn fátækan ad gjöra; Jakob fór med einn staf út af síns födurshúsi, Gen. 32, en hvad mikinn fjølda nauta og sauda, geita, asna, þræla og ambátta kom hann heim aptur med. Dæmi þessa

fólks má furdanligt þykja nú á þessari köldu og vantrúudu öld; þeir fylgdu Christó eptir á eydimörku, til ad heyra kénníngar hans, jafnvel heidíngjar af Týró og Sídon, og eckert tóku þeir med sér ad neyta, svo sem sjá má af evangélío; einhver mun segja, ad þeir hafi ei búist vid svo lángri dvöl á eydimörkinni, þó fannst enginn sem aptursnéri, svo menn viti, og ad vísu voru hér 4000 manns, sem neyttu; þad má sýnast, ad Drottins ord hafi svo vel smackast þeim í hjartanu, ad þeir hafi ei fundid til húngursins í maganum, og varla gétur þad ödruvísi verid, enn ad þeir hafi treyst því, ad Jesús mundi á einhvern hátt sjá þeim farborda, þar til hefir án efa hjálpad hid fyrra kraptaverkid, sem enn þá hefir öllum í ferskfu minni verid, en í því gétur Jóhannes ecki um tímalengdina; hér af kalla eg þad satt, er Davíd segir, Ps. 32: augu Drottins líta til þeirra, sem hann elska og vona á hans gjæsku; og þó finnast þeir, æ, því verr! á medal kristinna manna, sem vidlíkt eru lyndir og hofudsmadurinn í Samaría, er sagdi: þó ad Drottinn gjöri glugga á himininn, þá kann þetta ecki ad ské, 2 Reg. 7, annars mundu menn bída eptir Drottni, en ecki hlaupa til ad ræna, stela, ljúga, svíkja, hripsa braudid út af náúngans munni og brúka adskiljanliga rángsleitni í kaupum og sölum, og annari vidhöndlan. Mig aumkar yfir fólkid, segir Drottinn, því í þrjá daga hafa þeir hjá mér verid, og ecki til matar haft; margur fastar skémur, ádur hann verdur óþolinnmódur. Mig aumkar yfir fólkid, segir hin eylífa Gjæska; hans myskunar idur komust vid í hönum, svo sem í höfud-sprokinu stendur, svo hann hlaut þeim nádugur ad vera; þad segir ecki hér, ad þeir hafi kvartad um húngur, hann vissi vel, ad þeir höfdu þessa þörf; en segid mér nú, börn mín! munu idur hans myskunar umbreytt vera? mun hin ríka örlætis hönd stutt vordin? fjærri sé því, samur er Gud og hann hefir verid; en ef vér viljum sömu medaumkunar njóta, þá lærum tvent hér af: eitt af fólkinu, annad af Lausnaranum: af fólkinu, ad heyra Guds ord ljúfliga, meta þad öllu tímanligu framar, og ad treysta Gudi og þacka hönum midt í skortinum og örbyrgdinni: af Frelsaranum, ad sjá aumur á hinum volada og naudþurftuga, ad brjóta húngrudum vort braud, ecki af fordyld, edur ad útvega oss nafn þar med, svo sem hræsnarar þeir, ed gjöra ölmusur sínar fyrir mönnum, heldur af trúnni, af kristiligri medaumkan, af elskunni til Guds og náúngans. Breyti nú nockur þannveg, ad hann heyrir Guds ord og vardveitir þau, treystir Gudi í öllum sínum vandrædum og leitar næríngar sinnar í Guds ótta, þá vil eg þad segja, ad fyrr munu englarnir færa hönum braud af himnum ofan, fyrr munu hrafnarnir bera hönum fædslu, fyrr munu steinar ad braudum verda, og fiskarnir flytja hönum gull og silfur í munninum, já, Kristur má fyrr afneita sjálfum sér, hvad Páls kallar ómöguligt, heldur enn ad hann láti sál hins réttláta húngur þola, Ordskv. 10, nema hann vilji reyna hann þar med, og sjái hönum þad fyrir einhverju gódu verda. Minn matur og dryckur er, ad gjöra hans vilja, er mig sendi, sagdi Frelsarinn, Jóh. 4; en ef þad er hans vilji, ad þú lídir um hríd skort á næríngu þinni, þá vert eins lyndur og þinn Lausnari var, og ætla þig ecki yfirgéfinn, þótt þú megir ad Guds vilja nockud íllt lída, er vér svo köllum, en þad er aldrei íllt, sem gott af sér géfur; ecki verda vínberin samanlesin af þyrnunum, edur fíkjurnar af þistlunum, Lúk. 6. Gjæt ad dæm-

L

um heilagra: hversu sárliga klagar Job í sínum mannraunum, er hann segir, Job 30: þú ert vordinn hardúdigur á móti mér, eptir styrkleika handar þinnar brúkar þú grimt hatur í gégn mér; mundi Gud þarfyrir hafa yfirgéfid hann? fjærri var því, hinn fertugasti og fyrsti kapítuli sömu bókar hann ber þar um ljósast vitni, og sjálfur Guds madur játar veikleika sinn og fávitsku í því ad þeckja Guds rád, nær hann endurvitkadist og kom til sjálfs síns aptur, med þessum ordum, Job 42: eg auglýsi ad eg skylda þad ecki, þad var furdanliga hátt fyrir ofan mig, svo eg gat ecki þeckt þad, því ydrar mig í mold og ösku; eins var Davíd lyndur, því segir hann, Ps. 77: mun Drottinn þá eylífliga burtkasta, og enga nád framar audsýna? en nockru þar eptir vegsamar hann Gud med fagnadi, segjandi, Ps. 103: hann hefir frelsad mitt líf út af fordjörfuninni, og mig med nád og mysk-unsemi kórónad. Því skyldi enginn örvænta um Guds vináttu, þótt ei leiki allt í lyndi, þar vér sjáum hér, ad hans beztu vinir hafa mátt þvílíkt reyna; edur meinid þér, kristnir menn! ad Fadirinn hafi minna elskad sinn Son, þegar hann hrópadi á krossinum: Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig? heldur enn þegar Kristur stód á Jórdanar böckum og röddin af himni sagdi: þessi er minn elskuligur sonur, í hverjum mér velþók-nast, Matth. 3? nei, brædur mínir! þá hafdi hann í hönum hvad mesta velþóknan sína, er hann á gálganum héck, því fyrir hans dauda erum vér vid Gud forlíktir, segir Pálus, Róm. 5, fyrir hans sáru kvöl og bitran dauda hefir hann elskad oss í sínum elsk-uliga, Eph. 1; Gud hafdi velþóknan á sínum Syni frá upphafi vega sinna, og í öllum Christó frá hinu fyrsta augnabliki gétnadarins fyrir einíngu guddóms og manndóms, en fyrir Christí dauda á öllum þeim, sem á hans nafn trúa, hverjum hann hefir og magt géfid Guds börnum ad verda, segir Jóh. 1 kap; og fyrst hann hefir nú þannveg yfirgéfid hann um stundarsakir, en sídan aptur med dýrd og heidri kórónad, viljid þér þá láta ydur þad undra, þótt hann breyti med sama hætti vid ydur, sem í hönum og fyrir hann erud arfleiddir til eylífs lífs? nei, kristnir menn! ecki þótt ad mótlætid og skorturinn ætti ad vara alla æfi vora, því hún er svo litid ad reikna hjá eylífdinni, og þad vér lídum hér ad Guds vilja, þad verdur oss endurgoldid med ómælanligrar dýrdar eylífri þýngd, 2 Cor. 4, mótlætingar þessara tíma eru ei verdar þeirrar vegsemdar, sem vid oss mun framkoma í eylífu lífi. Þad er víst, ad hinn nádugi Gud spennir aldrei sín börn fyrir síns Sonar ok, nema til þess, ad þau dragi þad á þá leid, sem til himnaríkis liggur, þess meiga og öll hans börn fullörrugg vera, ad annadhvert burttekur hann mótlætid edur linar því, edur géfur oss krapta til ad bera þad, því hann er trúr og freistar einkis yfir megn fram, 1 Cor. 10; segid mér! er hann þá ámælis verdur fyrir þad, ad hann snýr eylífri fyr-irdæmíngu í tímanligan krossburd, til ad afreka oss eylífa gledi? Einn fadir sendir son sinn í eitt framandi land, ein módir lætur barn sitt í skóla til ad lída íllt, svo þad verdi ad manni, munu þau þarfyrir hafa gleymt þeim? kann nockud módurin ad gleyma barni sínu, ávexti síns kvidar? og þó þær gleymi, þá skal eg samt þér ecki gleyma, segir afgrunn mysku narinnar, hjá Esajam, 49 kap. Gullsmidurinn kastar málminum í eldinn, svo hann hreinsadur verdi, og gjörir þar af sídan hinar kostuligustu gersemar; svo breytir Gud vid sín börn, hann situr og brædir og silfrid hreinsar, og hrein gjörir börn Leví, Mal. 3,

þad er, hinn andliga kénnimannskap, svo ad reynsla trúar vorrar miklu dýrmætari fundin verdi gullsins reynslu, hvert ed forgengur og verdur þó med eldinum reynt, til lofs og dýrdar og heidurs, nær Jesús Christus opinnberast, 1 Pet. 1. Þetta er nú svo talad, til huggunar þeim, er lída skort á atvinnu sinni og meina sig þarfyrir vera af Gudi yfirgéfna vegna synda sinna og óverdugleika; en þar eru nockrir, sem ecki eru ánægdir þar med, ad þeir hafa þad þeir skulu eta og drecka, og þad þeir mega klædast med, hvad þó Páll býd-ur kristnum manni, ad hann skuli láta sér nægja, 1 Tím. 6, vid þessa vil eg fátt eitt talad hafa.

Þad er satt, sem hinn vísi Sýrach skrifar í 11 kap, ad audlegd og fátækt koma af Drottni; ef þau koma af Gudi, hver vill þá segja vid hann: hvad gjörir þú? segir nock-ad leyrkérid til smidsins: því gjördir þú mig svo? Róm. 9; vill nockur efast um vitsku hans, ad hann ei skynji, hvad hans börnum er hagligast, edur klaga yfir hans réttsýni, bad hann gjöri einum órett? Vissi Gud þad, ad þér gagnadi ríkdómurinn, betur enn fá-tæktin, þá mundi hann þig audugan gjört hafa; rannsaka skap þitt, hvert þú mundir hæf-ari vera til Guds ríkis, þótt þú hefdir meira enn dagligt braud; Gud gjördi vel, ad hann gaf ecki ægum uxahorn, segir í ordshættinum, margur mundi brúka audinn til ofmetnadar, ofríkis, óhófs, til ad hefna sín og brjóta adra undir sig, ef hann ríkur væri, sem ad lætur hægt af því hann er fátækur; en þótt ad Gud géfi audinn vondum mönnum á stundum, hvad kémur þad vid þig? fylg þú Christó eptir, hver þótt hann ríkur væri, gjördist hann fátækur, 2 Cor. 8; viltu vinna þad til audsins, ad vera svo sem einn af þeim? Vissi Gud ad þér audur gagnadi, segi eg enn aptur, mundi hann ecki géfa þér hann, sem hefir géfid þér þad, sem er lángtum betra? einn nádugur Gud, gód samvitska, heilvita sál, ótti Drottins med því hugarfari, sem lætur sér sína lucku nægja, er þad ecki nógu stór audlegd? adrir óttast fyrir því, ad þeir kunni ad missa fjárhluti sína, en kynni nockur þessar Guds gáfur af mér ad taka, þá vilda eg fyrst gráta, þá vilda eg bera mig hörmuliga, því á med-an eg þad hefi, þá hefi eg allt, og nær eg missi þad, þá missi eg allt, jafnvel í alls nægt-um; því segir Davíd, Ps. 34: hina ríku brast og þeir sultu, en þá, sem ad Drottni leita, mun eckert gott vanta. Láti Gud mig ecki eta hvern dag skínandi krásir, þá er eg þó Ssoltinn, eg uni betur vid dagliga fædu, heldur enn sælkérinn vid hans útvöldu rétti; skorturinn gjörir mér á stundum matinn sætan, eg þarf ecki ad kaupa hann dýrt, en fyllin gjörir honum þad leidt, sem hann kostadi til dýrum dómum, vefji Gud mig ecki í pell og purpura, þá er mér eins heitt í minni klædavod, svo sem honum í sínu skarlati. Fátæktin hefir stór fyrirheit í Guds ordi, er sá ecki nógu ríkur, sem hefir Gud fyrir fjárhaldsmann? en hvad segir Davíd, Ps. 9: hann er forsvar hinna fátæku, forsvar í neydinni, hann gleymir ecki hrópi hins fátæka; hvad segir hann enn þá aptur: hann mun frelsa hinn fá-tæka, nær hann kallar, og hinn auma, þann er engan hjálparmann hefir, Ps. 72, og svo segir sjálfur Drottinn, Ps. 132: eg vil blessa fædslu þeirra, og þeirra fátækum ánæg-janligt braud géfa. Gud gjæfi, ad menn vildu skilja, hvad mikill skattur ad er ein ærlig fátækt þeim, sem una vel vid þann kost, er Drottinn lætur þeim hlotnast; hún varnar vid

mørgum syndum, drambsemi, óhófi, sjálfhælni, reidi, ofríki og sjálfri ágyrndinni, því aldrei verdur hinn ríki saddur, sá ed fest hefir hjarta sitt vid audinn, vid búksorg og áhyggju, sem draga manninn frá Gudi í snørur Djøfulsins, og þýngja hjarta hans med óttanum ad missa eigur sínar, því sá grét aldrei fyrir gull, sem ecki átti þad; hún gjørir reikníngsskapinn audveldari fyrir hinum ædsta og stránga Dómara, því jafnvel þótt ad øllum verdi hann nógu torveldur, þá ecki þeim þó sízt, sem hafa gleymt Gudi og náúnganum í velmagt sinni, en sett gullhnøttinn fyrir sitt athvarf. O, þú eylífi Gud, dýrdarinnar konúngur! hjálpa oss á þeirri straungu tíd, lát oss ei þýngja hjarta vort med sorgum þessarar næríngar, metta oss med þeim molum, er detta af þínu hábordi, dryckja oss med sætleik eptirkomandi aldar, svo ad ei vanmegnumst vér á veginum til fødurlandsins; og nær vér erum ad þrotum komnir og tøkum hin sídustu andvørp, þá dreyp þú á vora ørmæddu sál med því vatninu, eptir hvert engann mun þyrsta ad eylífu; bænheyr þad, nádugi Fadir! fyrir lausnarans, Jesú Christí, skuld, amen!

## Attunda Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Matth. 7 Kap.

Í þann tíma, Jesús sagdi til sinna lærisveina: vaktid ydur fyrir fals-spámønnunum, sem koma til ydar í saudaklædum, en hid innra eru þeir glepsandi vargar, út af þeirra ávøxtum megid þér þeckja þá. Verda nockud vínberin samanlesin af þyrnunum, eda fíkjurnar af þystlunum? svo ber og hvørt gott tré godan ávøxt, en hvørt rotid tré vondan ávøxt; gott tré getur ecki fært vondan ávøxt, og ei heldur rotid tré fært godan ávøxt; og hvert þad tré, sem ecki gjørir godan ávøxt, skal upphøggvast og í eld kastast; þar fyrir megid þér út af þeirra ávøxtum þeckja þá. Þeir munu ei allir, sem til mín segja: Drottinn! Drottinn! inngánga í Guds ríki, heldur þeir, sem gjøra vilja míns Fødurs, þess á himnum er. Margir munu til mín segja á þeim degi: Herra! Herra! høfum vér ecki spád í þínu nafni? høfum vér ecki í þínu nafni djøfla útrekid, og gjørdum í þínu nafni mørg kraptaverk? og eg mun þá játa þeim, ad aldrei þeckta eg ydur, farid frá mér allir illgjørda menn!

### Exordium.

Spámadur nefnist í h. ritníngu, ecki einasta sá, sem ad óvordna hluti fyrir segir, heldur og sérhver einn, sá ed kennir réttan lærdóm; svo sagdi Gud vid Abímelech um Abraham: hann skal bidja fyrir þér, því hann er spámadur, Gén. 20; sá er spáir, hann talar fyrir mønnunum til uppbyggíngar, til áminníngar og huggunar, segir Páll 1 Cor. 14; þeirra apar voru fáls-spámennirnir, hverja Frelsarinn bídur, ad menn varast skuli hér í gudspjallinu, því þeir komi í saudaklædum, en hid innra séu þeir glepsandi vargar, og er enginn efi á því, ad skriftlærdir og Pharísei hafa ad nockru leiti átt sneid þessa, en þó ecki ad øllu, því ecki voru

þeir af Christí saudahúsi, heldur meinar og Drottinn hér med þá, er sídar uppkomu og spiltu kénníngu Guds í kristinndóminum, þá nefnir Pálus falska brædur, 2 Cor. 11, og til Galat. 2 kap., talar hann um heimugliga innsmogna falska brædur, sem ad vildu reyna frelsi þad, er þeir trúudu høfdu í Jesú Christó, svo ad þeir hneptu þá í þrældóm. Svoddan illgresi sádi fjandmadurinn nidur, medal hveitisins í Christí akri, fram eptir øldunum, svo sem af kristinndóms søgunum ljóst er, og sáir enn nú vída í heiminum; en þarfyrir fáum vér aldrei Gudi fullþackad, ad vér vitum ecki af slíku ad segja; enginn er sá, ed leitist vid ad spilla réttri trú í landi voru, þad er stór velgjørníngur Drottins, ad hann hefir unt oss ad verka sáluhjálp vora í einfaldleika vors hjarta; því vil eg ecki hér um framar tala í þetta sinn, heldur taka mér fyrir hendur, ad útskíra þá grein af evangélío, sem øllum ætti hugføst ad vera, sem er þessi: þeir munu ecki allir, sem til mín segja: Herra! Herra! inngánga í Guds ríki, heldur þeir, sem gjora vilja míns Fødur, þess á himnum er, og af henni tvennt hugleida: 1) hvad þad merki, ad kalla Herra! Herra! 2) hvad þad sé, ad gjora Guds vilja; styrk oss hér til, minn Gud! fyrir Jesúm Christum, med nád H. Anda, amen!

# Utleggíngin.

Þad er ágjætt, sem ad Bernhardus lærifadir segir í einum stad: kristnir hafa af Christó nafn fengid, þad væri mikils verdt, ad svo sem þeir eru erfíngjar nafnsins, svo væru þeir og heilagleikans. Engin nafnbót er fegri, engin stærri, enn ad heita kristinn, ef nockur ber hana réttiliga; kristiun og heilagur var sama nafn á medan kristinndómurinn var enn þá í blóma sínum; heilsid øllum heiløgum, segir Pálus, þad er, øllum kristnum; en ef engin renta fylgir þessu vegliga nafni, þá er sá ecki heilagri, sem þad ber, heldur enn vínid edur vidsmjørid, edur einhver matur vard heilagur af því í gl. testamentinu, þótt ad einhver snerti þad, sá ed bar helgad kjot í kjóllafi sínu, Hagg. 2. Sá sem ecki hefir Christí anda, segir Pálus, hann er ecki hans, Róm. 8; hver ed prýdir sig med hinu fagra kristinndóms nafni, en lifir þó ecki kristiligu líferni, hann er líkur eyk þeirri, er hefir græn blød og frid, en ávexti enga, því segir Lausnarinn í gudspjallinu: af þeirra ávøxtum skulud þér þeckja þá; og svo sem Drottinn formælti trénu því, er engar voru fíkjur á og ecki nema bløðin tóm, Matth. 21, svo vill hann og til hinna segja, er ránglætid æfa á hinum efsta degi: aldrei þeckta eg ydur, svo sem hér stendur í gudspjallinu. Þeir munu ecki allir sem til mín segja, herra! herra! inngánga í Guds ríki, segir Drottinn; þegar ad ritníngin tvítekur eitt ord, þá vill hún láta skiljast eitthvert merkiligt þar med; þeir segja, herra! herra! svo eru þeir ákafir í hinni útvortis þjónustu. Ecki vantadi Gud né hans Krist fagra titla hjá Gydíngum, þeir nefndu Fødur hans, sinn Gud, en þecktu hann þó ecki, þeir kølludu Drottinn Rabbí edur meistara sinn, en sóktu þó eptir ad lífláta hann, þeir tídkudu lángar bænir í samkundunum og á gatnamótum, en undir hylmíngu þeirra útsugu þeir hús eckna og fodurlausra, Matth. 23; þad verdur valla med ordum sagt, hversu ad hræsnin gjørir alla Guds þjónkan ónýta í hans augliti; þeir fostudu tvisvar í viku og gáfu tíundir af øllu því þeir áttu, en létu þad þó ógjørt, sem þýngra var í logmálinu, dóminn, myskunsemi og trúna, Matth. 23; þad olli því, ad svo sem þeir afmindudu ásjánir sínar, nær þeir føstudu, til þess ad láta sjá, ad þeir væru fastandi, svo afmindadi hræsnin þeirra beztu verk fyrir Gudi, svo ad Frelsarinn segir, ad þeir hafi sín laun í burtu tekid, Matth. 6, þad er, ad þeir hlutir, er í sjálfum sér gódir voru og høfdu fyrirheit gódra launa

hjá Gudi, ef þeir af trúnni gjørdir væru, þeir skyldu til engra launa vinna hræsninnar og yfirdrepskaparins vegna, miklu heldur abla þeim dóms áfellis, er vanvirda þannveg hinn alskygna Gud med tómri útvortis hegdan og látædi, svo sem von er á, þvíad øll hræsni er lýgi, en Gud er sjálfur sannleikurinn, kann honum því eckert svo gagnstædt ad vera; edur hvad segir Drottinn um þessa hræsnara, Matth. 23: þarfyrir munud þér fá þess þýngri fordæmíngu. Nú høfum vér heyrt dóminn yfir Gydíngum, kristnir menn! af alls holds Dómara; en ef þvílíkt og skyldi finnast á medal vor, mun vor dómur léttari verda enn þeirra? fjærri sé því, ef Gud þyrmdi ecki hinum nátturligu kvistunum, mun hann þá oss þyrma, Róm. 11, ef vér uppfyllum þeirra mælíng? engin er von á því; hvad gjøra þeir þá, ed gánga í Guds hús og heyra hans ord, forsóma varla nockra prédikun, og hafa þad í munni og tala um hans vegu? allt þetta er gott í sjálfu sér, en hvar eru nú ávextirnir, þegar þeirra leitad verdur hjá allmørgum? þegar hinn voladi naud lídur, byrgja menn sitt andlit fyrir hønum, þegar menn sjá eitthvad gyrniligt, hætta sumir ecki fyrr, enn þeir hafa svælt þad undir sig, þegar einhver ljóstar upp óhródri um náúngann, þá taka menn í þann strenginn, sé nockrum af yfirbodurunum, edur foreldrunum eitthvad bodid, hversu møglunarsamir, hversu tregir eru menn í ad hlýda því? hvad tómlátir eru foreldrarnir, sumir hverjir, í því ad færa børnin til Jesúm? til kyrkjunnar koma þau ad sønnu, þar í er ei svo mikill brestur, en hversu sumum sé umgéfid, ad brýna fyrir þeim, þad er þau heyrdu í kyrkjunni, þar ber raun vitni um, nær þau eiga ad gjøra grein á sínum kristinndómi, óskandi væri, ad ei fyndust þeir, er varla hafa nockud annad fyrir þeim, enn skammarlig ord og fíblsligt hjal, sem sjálfir þeir eru vanir til. Engillinn sagdi vid Abraham, er hann ætladi ad offra syni sínum: halt þinni hendi frá sveininum, því nú veit eg ad þú óttast Gud, ad þú þyrmdir ecki þínum eginn syni; en Andskotinn gétur og sagt vid marga hverja, sem ecki þyrma afkvæmi sínu vid eylífum þíslum, heldur láta þad uppalast í hans skóla: nú sé eg ad þú elskar mig, þar eg sé, ad þú svo uppelur son þinn, ad hann géti ordid einhvern tíma mín fórn, halt því ecki hendinni frá sveininum, þar til hann verdur fullur og feitur, og hæfur til ad offra. Menn blessa Gud og látast lofa hann og dýrka, en gjøra þó ecki þad hann bodid hefir, en Andskotanum formæla menn og atyrda hann, en gjøra þó hans verk, er ecki þetta ad segja: herra! herra! en gjøra þó ecki Fødursins vilja? er þad ecki ad kalla Gud sinn fødur, en ræna hann þó heidri sínum? Menn gánga til heilags altarisins sakramentis þrisvar, fjórumsinnum á ári hverju, þar ætlumst vér til ad forlíka oss vid Gud og taka sátt af hønum fyrir afbrot vor, og bjódum hønum í sektina Guds Sonar dauda og hans forþénustu, en þess er vel ad gjæta, ad menn taki ecki þángad med sér gésti þá, er hann ecki má eiga sess med, allra sízt hatur til náúngans; en ad þad hendi þá suma, er audséd af því hatri og úlfbúd, er tídkast manna á medal, á stundum ecki laungu eptir þad menn hafa minnst vid Krist, er ecki slíkt ad kalla: herra! herra! en gleyma hans bodi, er hann sagdi hjá Markum, 11 kap: þegar þér standid búnir til ad bidjast fyrir, þá tilgéfid, ef þér hafid nockud á móti einhverjum, svo ad ydar Fadir, sem á himnum er, forláti ydur ydar misgjørdir; er þad ecki, segi eg, ad bidja um frid med reiddu sverdi? er þad ecki ad sídurstu ad segja: heill vertu Rabbí! en hafa bak vid sig sverd og



stángir? mun það nú nóg, kristnir menn! að kalla: herra! herra! það er, að látast Gudi þéna, en fremja þó allt þetta vondskunnar athæfi. Þar eru engin ber á þessum vínviði, engar fíkjur á þessu fíkjutré, jafnvel sjálf blödin eru nidurdottin, allt hvað eg legg vid þau er forgéfins, segir Drottinn, Jer. 8; hvað mörg ár hefir þú komið, Drottinn minn! og leitað ávaxtar af oss og engan fundið? hversu kröptugliga hefir Sonur þinn fyrir oss bedið, að vér mættum enn þá eitt ár standa? fyrir hans árnan er það skéð, að vér ecki með öllu erum upprættir; þarfyrir, kristnir menn! takið vara á ydar vitjunar tíma; gjörið ydran medan Guds ríki er nálægt, öxinn er sett til rótar trjámna, hvert það tré sem ecki ber ávöxt, það skal upphöggvast og í eld kastast, Matth. 3; bidum ecki eptir Jerúsalems hegníngu, um hverja Gud sagdi vid spámanninn: þú skalt ecki bidja fyrir þessu fólki og ecki upphefja raust edur bæn, edur forþída fyrir þá, því eg mundi enganveginn bænheyra þig, Jer. 7. Með mikilli alvöru og gaumgjæfni byrjar manni að rannsaka sjálfan sig, hvert að hann hefir vitnisburð H. Anda, að hann sé Guds barn, edur að hann leidist af falskri innbirlíngu um arfarétt Guds barna, hvað margan hendt hefir, sem Gud nádi, og er það audsært, ecki einasta af dæmi Pharíseanna og hinna skriftlærdu, um hverja sjálfur Frelsarinn vitnar, hvað fjarlægir þeir verið hafi Guds ríki, heldur margra annarra, sem að eckert efast um Guds náð, en lifa þó hvergi nærri svo sem kristnum ber, jafnvel þótt að ei séu þeir verstu klækjum hladnir, hverjum eckert er betra ráð enn það, sem Pálus géfir, er hann segir, 2 Cor. 13: reynið hvert þér erud í trúnni; hvað ei gétur með betra móti skéð, heldur enn ef vér rannsökum vora lífernis háttu, því trúin er aldrei ávaxtarlaus, heldur verkar hún fyrir kjærleikann, allar kristiligar dygdir hefir hún í sér fólgnar, hvar um eg vil nockud framar tala í sídari greininni, en láta um hið fyrra úttalað að svo stöddu.

St. Petur sagdi, að hjá Gudi væri ecki manngreinarálit, heldur á öllu fólki, af sérhverri þjóð, sem gjörir hans vilja, hefdi hann velþóknan, Act. 10; nú er það ómöguligt syndugu holdi að gjöra Guds vilja að fullu, því það er hið sama og að uppfylla lögmálið, en það er oss um megn, sem að í syndinni erum gétnir, hverrar spillíng að dagliga brýtur sig út um þenna dauðliga líkhama, svo að þegar vér viljum gjöra hið góda, þá lodir hið vonda vid oss; það játar Pálus um sig, Róm. 7, með mikilli harmaklögun, og mun engum af oss betur varið. Nú heyri eg Drottinn tala á þá leið hér í gudspjallinu, að sá meigi enginn inn í Guds ríki koma, sem ei gjörir Födursins vilja, en hverr mun þá hólpinn verda? Gjæt þess nú, barn mitt! er Pálus segir, Róm. 8; hinn sami Pálus, sem taldi vankvædi sín á að uppfylla lögmálið, hann segir: það sem lögmálinu var ómöguligt, af því það veiktist fyrir holdið, það hefir Gud gjört, sendandi sinn Son í líkíngu syndugs holds, og fyrir syndina fordæmt syndina í holdinu; til þessarar réttarbótar vísar Drottinn oss sjálfur hjá Jóhannem, 6 kap: það er vilji hans, er mig sendi, að hver, sá ed sér Soninn og trúir á hann, hann hafi eylíft líf, sem er hið sama og að inngánga himnaríki. Guds vilja er ómöguligt að gjöra svo honum líki; þótt þér gjördud allt það vér ættud að gjöra, segir Frelsarinn, þá játið samt: ónýtir þjónar erum vér, Lúk. 17; en hversu mikið oss bresti á það, til þess finna allir þeir, ed rannsaka sinn lifnad og bera

hann saman vid Guds h. lögmál, jafnvel hinir réttlátu, er vér svo köllum; Nói, Abraham, Ísak, Jakob, Elías, Samúel, Job, Daníel, mega forláts bidja, þegar Gud heldur dóminn, í hvers augum þad himnanna himnar ecki hreinir eru; trúin á Guds Son er þad alleina, sem oss réttlætir, því sagdi Petur fordum, ad þar væri eckert annad nafn undir himninum mönnunum gefid, í hverju oss byrjadi sáluhólpnum ad verda. Væru ecki allir affallnir og allur heimurinn sakfallinn fyrir Gudi, Róm. 3, þá væri-ecki hans Sonur í heiminn kominn ad kalla synduga og ecki réttláta til ydranar; en alla hefir hann kallad, öllum segja látid fyrir Jóhannem: gjörid ydran, þvíad Guds ríki er nálægt, Matth. 3, öllum hefir hann í sínu nafni prédika látid ydran og syndanna fyrirgéfning, er þann hljóm heyrt hafa, sem út er genginn um alla heimsbygdina, öllum hefir hann boda látid: gjörid ydran og trúid evangélió, Mark. 1. Þessi er minn elskuligur sonur í hverjum mér velþóknast, sagdi Guds födurs raust af himnum vid ána Jórdan, Matth. 3; þarfyrir er sérhver sá velþocknadur hjá hönum, sem trúir á nafn eingétins Sonar Guds, og hann kémur ecki til dómsins, Jóh. 5, þad er, hann verdur ecki fordæmdur, því hann hefir elskad oss í hinum elskuliga, og þessi er lögmálsins uppfylling, þessi er sá Guds vilji, er Frelsarinn talar um í gudspjallinu, ad trúa á hann, en med hvílíkri trú, kristnir menn! ecki hans, sem trúir, ad Gud er til alleina, því trúa og djöflarnir og skélfast þar af, ecki hans, sem kallar sig trúa á Gud, en nær hann sér bródur edur systur skort lída, géfur hann þeim þó ecki þad, sem líkhamanum gagnar, Jak. 2, jafnvel þótt hann hafi audlegd heims þessa, því sá, sem segist elska Gud, en hatar sinn bródur, segir Jóhannes, hann er lygari, því ef hann ecki sinn bródur elskar, þann er hann sér, hvernig má hann Gud elska, þann er hann sér ecki, 1 Jóh. 4, sá dregur sig á tálar, er hann meinar sig ad trúa á Gud, en sýnir enga trúarinnar ávexti. Páll segir, ad í Christó gyldi hverki umskurn né yfirhúd, heldur trú sú, sem verkar fyrir kjærleikann, en kjærleikurinn er lögmálsins uppfylling, Róm. 13, þad er, hann innibindur í sér allt þad, sem í lögmálinu bodid er, en þótt hann sé ófullkominn hjá oss, þá verkar trúin þad í hönum, ad hann gyldir í hans augliti, sem hefir sett Jesúm Christum til eins nádarstóls í hans blódi, til ad auglýsa sitt réttlæti, ad hann sjálfur sé réttlátur, og réttlætandi þann, sem er af trúnni Jesú Christí, Róm. 3, þad er, sjálfur réttlátur í því ad taka eckert ófullkomid fyrir gyldt, en réttlætandi þó ránglátan fyrir trúna á Kristum, og gjörandi þau verkin gyld, sem af henni framkoma og í Gudi gjörd eru; og má hér af sjá, hvílíkri þeirri trú byrjar ad vera, sem er eptir Guds vilja; í einu ordi ad segja: sýnid mér ljós fyrir utan birti, sól fyrir utan ljóma og eina manneskju fyrir utan sál, og skal eg sýna ydur rétta trú fyrir utan ávexti. Tvöfaldt er embætti trúarinnar; eitt er þad, ad trúa því, ad Gud sé hegnari vondra verka, annad, ad forláta sig þar uppá, ad Gud muni syndirnar fyrirgéfa; en þad er varla möguligt, ad sá trúi hinu fyrra, sem ad framfer í glæpunum ydrunarlaust, því segir Davíd, ad hinn heimski segi í hjarta sínu: þar er enginn Gud, Ps. 14, og hann trúir forgéfins, ad sér verdi syndirnar uppgéfnar, sem liggur í þeim vísvitandi, hafandi enga vidleitni, edur atburdi, til ad krossfesta sitt hold med þess girndum og tilhneigíngum; ofraust er þad Guds nádar, en ecki sú trú, er manninn hólpinn gjörir. Þú segir:

mín trú er veik, því veldur sjálfi synda minna, að eg er ecki aldeilis fulltrúa um, að Guð muni síns réttlætis vegna géta fyrirgéfið mér þær, en eg er ecki einasta ófullkominn, heldur óstöðugur í mínu apturhvarfi og í því að gjöra Guðs vilja; heyr mér barn! er Lausnarinn þá kominn, til að kalla réttláta og ecki syndúga til yðrunar? Þínar syndir eru Djöfulsins verk; mun ei Guðs Sonur kominn til að niðurbrjóta þau? 1 Jóh. 3; þetta mistraust er eitt af þeim, það mun Guðs Sonur fyrir hvörn mun í burt taka, því hann veit, að á því ríður sáluhjálp þín að trúa á Guð og þann, er hann sendi, Jesúm Christum; mun ecki náðin yfirgnæfa, þar sem syndin yfirgnæfir? Róm. 5. Hefir ecki Guð alla undir óhlýðninni innilukt, (það er, undir þeckíngu syndarinnar) uppá það hann myskunaði öllum? Róm. 11; ef þú nú þeckir synd þína og vilt hana af hjarta afgjört hafa, hvernin kanntú þá að efast um Guðs myskunsemi eður fyrirgéfníngu syndanna, þar Guð vill ecki, að nockur maður tapist, heldur komist til sannleiksins viðurkénníngar? 1 Tím. 2. En þó að trúin sé veik, þá er það þó trú; einn neisti er eins vel eldur, svo sem mikið bál, einn dropi er eins vel vatn, svo sem allur sjórinn, svo var og trú föður hins túnglsjúka eins vel trú, svo sem hinnar Kanaanisku, svo sem hinnar blóðfallssjúku, svo sem hundraðs höfðíngjans. Bið með lærisveinunum: Herra! auk þú oss trúna, Lúk. 17, og með föður hins túnglsjúka, er eg strax umgat: eg trúi að sönnu, Herra! en hjálpa þú vantrú minni, Mark. 9; en þótt ei bregði strax við, sem þú biður, þá lát þér á meðan nægjast Guðs náð með Pálo, því hans kraptur fullkomnast í breiskleikanum, 2 Cor. 12, og vissi Guð, að þér ecki nægði um sinn það litið, sem þú hafa þykist, þá mundi hann án efa að skyndíngu viðauka, því án trúarinnar er ómögulígt Guði að þóknast. Trúin er verk H. Anda, en ecki þitt; kalla það aldrei lítið, sem Guð hefir gjört; gjæt þess og, barn mitt! að hinn náðugi Guð heimtar það ecki af syndugum manni í evangélío, sem hönum er um megn; þar er enginn af öllum Adams niðjum, sem að fullu hefir Guðs vilja gjört, nema hinn annar Adam, sem er Guð af himnum, sá eð í heiminn er kominn að gjöra hans vilja; hann er ánægður með guðrækni hjartans, og alvarliga viðleitni til að lifa eptir sínum vilja, því þeir, sem eru í Christó Jesú, þeir eru ecki undir lögmálinu, Róm. 6, og ecki er fordæmíng í þeim, Róm. 8; Guð höndlar við þá svo sem börn og ei svo sem þræla, því hann veit hvaða verkefni vér erum, og þeinkir á, það vér erum mold, Ps. 103; sagði ecki engillinn við Abraham: eg veit að þú óttast Guð, þó hafði hann sína bresti, er hann tvisvarsinnum missagði um konu sína, að hún væri hans systir; Jakob, er hann á tálar dró sinn blinda föður, og hversu mjög kvartar Páls um þá synd, sem í hönum bjó, Róm. 7; þessi dæmi hefir andi Drottins uppteikna látið til huggunar þeim, sem af efaseminni freistaðir verða, af því þeir synna skort á þeirri hrósan, sem fyrir Guði gyldir. Vér höfum í Christó þann höfuðprest, sem kann að sampínast veikleika vorum, Hebr. 5, hann er brunnur þess vatns, sem að uppvellur til eylífs lífs, Jóh. 4, af hans fyllíngu höfum vér allir meðtekið náð fyrir náð, Jóh. 1, í hönum finnur hinn strángi allsherjar Dómari allt, það hann brestur hjá oss, hann er oss af Guði géfinn til réttlætis, til helgunar og til endurlausnar; hönum, með Föður og H. Anda, sé veldi og kraptur, ríki og máttur, dýrð og heiður, frá einni eylífð til annarar, amen!

# Níunda Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Lúk. 16 Kap.

Á þeim tíma, Jesús sagdi til sinna lærisveina: nockur madur audugur var þar, sa ed hafdi einn rádsmann, sá sami var ofrægdur vid hann, svo sem hefdi hann eydt hans gotzi; og hann kalladi þann sama til sín, og sagdi til hans: hvad heyri eg þetta af þér? gjør þú reikníngskap af þinni rádsmennsku, þvíad þú mátt eigi lengur rádsmennsku hafa. En rádsmadurinn sagdi med sjálfum sér: hvad skal eg til gjøra, minn herra svíptir af mér rádsmennskunni? eg dugi ecki til ad grafa, en skammast mín ad bidja; eg veit hvad eg skal gjøra, nær ed eg verd settur af rádsmennskunni, svo ad þeir medtaki mig í sín hús. Þarfyrir samankalladi hann einn og sérhvørn skuldamann síns herra, og sagdi til hins fyrsta: hvørsu mikid ertú skyldugur mínum herra? en hann sagdi: hundrad tunnur vidsmjørs; og hann sagdi þá til hans: tak þitt bréf og sezt nidur, og skrifa snarliga fimmtígir. Eptir þad sagdi hann til hins annars: en hvørsu mikid ertu skyldugur? sá sagdi: hundrad mælikérøld hveitis; þá sagdi hann til hans: tak þitt bréf og skrifa áttatígi. Og herrann lofadi þann rángláta rádsmann, þad hann hafdi gjørt svo forsjálliga, því þessa heims børn eru kjænari sonum ljóssins í þeirra kynslód. Og eg segi ydur: gjørid ydur vini af þeim rángløtis mammona, svo ad nær ydur þrýtur, ad þeir medtaki ydur í eylífar tjaldbúdir.

## Exordium.

Marta! Marta! þú ert áhyggjusøm og mædist í mørgu, en eins er þørf, María hefir útvalid þad góda hlutskiptid, sem ecki skal frá henni takast, sagdi Lausnarinn fordum, Lúk. 10. Þad eru stór vanheilindi sálarinnar hjá oss, daudligum mønnum, ad hún syrgir svo mjøg fyrir líkhamanum, en lítid fyrir sjálfri sér, og verdur því ecki á móti sagt. ad hún veltist nærsta mjøg úr tign sinni, þegar svo ber vid, því hvad er kroppurinn hjá henni ad reikna? hann er mold og aska, hún er einn lifandi andi; hann skynjar eckert af sjálfum sér, hún er full ráds og skilníngs; hann deyr og rotnar í grøfinni, þar liggur hann til þess hún vitjar hans aptur eptir Guds alvísu rádstøfun, og sídan skulu þau bædi þess not edur gjøld hafa, sem hún hefir séd fyrir sjálfri sér og hønum, á medan þau voru bædi saman í lífinu; en Frelsarinn segir, hjá Matth. 16 kap: hvad gagnar þad manninum, ad hann eignist allan heiminn, og lídi tøpun á sálu sinni. Þetta skilst ecki sumum mønnum, svo eru þeir áhyggjusamir um þad nálæga, en syrgja lítt fyrir hinu eptirkomanda; og jafnvel finnst þessi breyskleikur hjá þeim, sem Gud vilja óttast, hverja og Frelsarinn kallar ljóssins børn í þessa dags evangélió, af því þeir eru í skírninni Guds børn vordnir, hver ad er fadir ljósanna, Jak. 1, Christí brædur eptir endurgétníngunni, hver ad er ljós heimsins og upplýsir alla menn, sem koma í þenna heim, Jóh. 1, og upplýstir af H. Anda, sem er ljóssins andi og ecki myrkursins; en tómlæti þeirra og óframsýni straffar Drottinn hér í gudspjallinu med eptirlíkíngunni um hinn rángláta rádsmann, um hverja margur hefir margt talad, og fært hana heim uppá oss,

*sem á stundum erum ótrúir rádsmenn yfir því pundi, sem Gud hefir oss til medferdar fengid, og er þad ad sønnu vel til fundid; en ásetníngur Frelsarans er, ad kénna børnum sínum gudrækiliga framsýni í þeirra sáluhjálpar efnum, þad sýna oss þau ord, er sídarst standa: og eg segi ydur: gjørid ydur vini af þeim ránglætis mammóna, svo ad nær ydur þrýtur, ad þeir medtaki ydur í eylífar tjaldbúdir. Þessi ord vil eg nockud gjørr yfirvega í þetta sinn, hvar til hinn gódi Gud virdist ad hjálpa, med styrk síns Anda, í Jesú nafni, amen!*

## Utleggíngin.

Hér stendur medal annars í gudspjallinu, ad herrann hafi lofad hinn rángláta rádsmann, þad hann hafi svo forsjálliga gjørt; ecki er þad meiníngin, ad Kristur hrósi þessum óhlutvanda manni, heldur segir hann frá því í eptirlíkíngunni, ad hans lánardrottinn hafi prísad, ecki rángsleitni hans eda prettu, því enginn af oss hrósar slíku á sínum þénara, heldur slægvitsku hans í því, ad sjá sér farborda, nær hann væri affettur rádsmennskunni, svo hverki þyrfti hann ad erfida, né fara á vonarvøl; og þetta dæmi brúkar Frelsarinn til ad eggja sína þénara á kristiliga framsýni í sínu gudræknis eyrendi, ad líka svo sem þessi veraldar sonur var forsjáll í því, ad búa um tímanliga atvinnu sína, svo skuli þeir og vera í því, ad sjá sér borgid í andligum efnum; því fylgir eptirlíkíngunni nockurskonar umkvørtun, er svo hljódar: þessa heims børn eru kjænari sonum ljóssins í þeirra kynslód, og þar á eptir bodord Frelsarans, hvernig þeir breyta skuli, sem vilja eiga víst med Gudi og øllum heiløgum í eylífum tjaldbúdum. Gjørid ydur vini af þeim ránglætis mammóna, segir Frelsarinn, svo kallar hann audlegd heims þessa; þad ber til þess, ad varla er nockurt ránglæti í heiminum, sem ad audurinn sé ecki vidridinn med einhverju móti; hvada ránglæti hafa menn ecki vid í því, ad afla hans í kaupum og sølum med yfirvarpi laga og réttinda, til ad svæla undir sig eigur annarra, med féburdi í dóma, med ráni og stuldi, med ofríki og ásælni, med lygum og prettvísi? En svo sem þad er ecki minna vert, ad gæta fengins fjár, enn afla þess, svo skédur og ecki minna ránglæti í medferd audsins, heldur enn í safninu; edur hvad gjøra þeir, ed brúka hann til ofmetnadar, stæra sig þar af, þacka sjálfum sér fyrir sitt luckulán, færa fórnir fyrir sínu egin neti, brúka fé sitt til ad yfirdrepa hønum, sem ránginden lídur, til ad réttlæta hinn rángláta, en fella ránglátan dóm yfir hinn saklausa, til óhófs í mat og dryck og annars bilífis, en láta hinn fátæka og nakta þorsta og húngur lída, innihalda lánudu fé, og svíkja daglaunarann og þann, sem slegid hefir lønd hins ríka, um sitt verdkaup, svo ad þeirra hróp er inngengid í eyru Drottins Zebaoth? Jak. 5. Eru þad þá undur, þótt hann nefnist ránglætis mammóna? Þótt ecki æfi allir allt af þessu, þá er hverr partur þar af nógur til ad fordæma þann, ed ad fremur, því hvert ad einn tapar lífinu fyrir lausláti, eins og hann, er samlagadi sig kvenkjunni af Móabs børnum, Núm. 25, edur fyrir ágyrni og nídsku, eins og Nabot, edur fyrir asnaleitina, eins og Símeí, edur frumgétníngu sinni med laungun inni eptir hinum sæta rétti, eins og Esaú, edur himnaríki fyrir myskunarleysi og hardýdgi, þá má einu gylda; litlu vardar um hvern veg ad einn steypir sér til helvítis. Nú er svo ástatt um audinn, sem eg sagt hefi, ecki þad, ad hann sé illur í sjálfum sér, Guds blessan er hann,

og nærsta þarfur þeim, er vel vita med hann ad fara, og brúka hann Gudi til dýrdar og náúnganum til gagns, og til þess ad vera ríkur í gódum verkum, annars er hann skadligur sökum vanbrúkunarinnar, og því segir Páluss, ad þeir, ed ríkir vera vilja, falli í Djöfulsins snörur; þarfyrir sögdu og hinir gömlu, ad hinn ríki væri annadhvert ránglátur, edur rángláts arfi; nú getur þad ecki ad öllu leiti satt verid, því ei veit eg hversu stórríkur ad Abraham var, þegar hann fór út af Ur í Kaldea landi, ádur enn hann kom til Haran, Gen. 11; ecki var Jakob ríkur, þegar hann kom med einsamlan gaungustaf sinn til Labans, og ecki var Davíd sjölfkrúdugur, þegar hann fór landflótta fyrir ofríki Sáls, og mæltist til matarverdar fyrir sig og fólk sitt af Nabal, 1 Sam. 25; svo kunna og margir ad vera enn nú í Dag, sem vel eru komnir ad fé sínu, svo sem þeir ed audgast af örlæti konúnga sinna og annarra höfdíngja, ef þeir ei vanbrúka gunst þeirra ödrum til skada, þeir ed med bindindi og sparsemi audlegd safna, svo framt ad hann sé ecki óþocki fjár síns, edur neiti hinum þurfanda um þad, sem Gud hefir hönum bodid ad gefa. Margur verdur audugur af embættislaununum og kunnáttu sinni, verji hann þar til ydju sinni og ástundan, og taki ei framar enn Gud og yfirvaldid bodid hefir, þá má hann eiga sitt med gódri samvitsku; margur grædir af handabla sínum og brúkar náttúruna, sem er rík, til útvega sinna, þad er saklaus gródi, ef allt er annad rétt; en fyrir því, ad í öllu þessu er hófid vandhitt, svo ad enginn er ad fullu viss þar um, ad eckert sé rángfengid í búi hans, þar audurinn er fagur, en menn eru ecki alltíd adgjætnir í slíku og fyrirgefa sjálfum sér mikid, þá kalla eg þad stóra nád fyrir alla, ad menn eiga kost á, ad gjöra sér vini af þessum ránglætis mammóna. Tveir liggja vegir til þess sérdeilis, sá eini er, ad gjalda aptur þad, sem einhver af ödrum rángliga dró, annar, ad gefa ölmusur fátækum; báda kennir oss Zacheus tollheimtumadur, er hann sagdi vid Drottinn, Lúk. 19: helmínginn af eigum mínum gef eg fátækum, og hafi eg prettad nockurn, gef eg ferfaldt aptur; Gud hjálpi oss vel. Lítill var þessi tollheimtumadur vexti, en mörgum stórum manni mun hann kenna mega adferd kristiligs apturhvarfs; Drottinn gaf hönum þann vitnisburd, ad hann væri Abrahams sonur, líkast er, ad hann hafi svo verid ad burdum, þad sýnir nafnid, og margir Gydíngar voru tollheimtumenn Rómverja, en hann hafdi tapad Abrahams barnarétti med tollheimtunni, því heidíngja og þá leggur Frelsarinn ad jöfnu, Matth. 18, en því olli audmýkt hans og ávextir trúarinnar, ad Drottinn kallar hann Abrahams son; eg segi enn nú, ad þetta smámenni getur kennt mörgu stórmenni sannan veg ydranarinnar; hann dæmdi sjálfan sig í þjófsbætur, því svo segja Mósis lög, Exód, 22, ad þjófurinn skuli gjalda fjóra saudi fyrir einn, sem stolinn er; nú er þó straffid herdt af kristnu yfirvaldi eptir því, sem glæpirnir varid hafa, en þess væri óskandi, ad hinir stóru þjófarnir létu ei heingja þá smáu, eins og hvalfiskarnir gleipa litlu fiskana; ef öll þvílík varmenni ætti undir gálgann ad draga, þá mundi bödla vanta, þá mundi snörulaust verda, svo ad gaungumadurinn fengi varla þad hann kynni ad vefja um tötur sín; en hér er þó ecki svo mjög hætt vid; hinn réttláti Dómari hefir séd þvílíkum mönnum bædi fyrir bödli og snöru, þar ed hver heingir annann á stundum. Stundum kvelur einn gjálífur sonur, ein lauslát dóttir síns födurs hjarta, stundum plága þá opinberir þjófar, ödrum sendir hann eld og

n, vind og óvedur til ad tugta þá; en fyrir því, ad þessir fépúkar ecki taka því, svo sem Drottins hendi komnu, annadhvert fyrir hans lídun edur tilhlutan, þá kyrkir búksorgin og auraelskan, jafnvel midt í daudanum, nema þeir ádur séu afhuga heiminum, og i goldid þad aptur á einhvern hátt, er þeir med raungu frá ødrum tóku; svo fyrirfarast sir aumíngjar, og verda heingdir jafnvel fyrir utan bødul og snøru, og í sannleika, kristmenn! þá er þad einsætt hverjum einum, ed erfa vill himnaríki, ad gjalda þad aptur, hann hefir svælt undir sig frá ødrum, því jafnvel hinn minnsti peníngur, er hann veit med óréttu halda, hann er pantur Andskotans uppá hans sálu, sem géfur hønum rétt hennar, svo fljótt sem hún skreppur út af kroppnum, nema hinn hafi ádur bætt fyrir sig, hann má því vidkoma, og fyrir því ad enginn veit, hvad mikil umsvif ad daudinn lætur num eptir, þá er ei rád, nema í tíma sé tekid; Gud hefir aldrei heitid þeim kvittun syndna, sem ecki lætur af illu og lærir gott ad gjøra, Esa. 1. Sá ed stolid hefir hann i ecki meir, segir Pálus, Eph. 4; tak ecki svo ord hans, ad hann banni alleina ad stela mvegis, en leyfi ad fela þad, sem allareidu stolid er, því Gud býdur ecki alleina ad láta illu, heldur og ad gjøra hid góda, og skyldi þad vera fyrst af gódgjørdunum, ef svo kalla, ad géfa þad aptur, sem einn rángliga innihelbur, og sá, sem ecki hefir leida á dinni, hann gétur varla ætlad til fyrirgéfníngar, en hann sem ecki hefir andstygd á fé, er hann rángliga tók, hann hefir og ecki heldur leida á hinum rángláta gjørníngi: enn vilja segja, ad þad sé ómøguligt, ad gjalda øllum aptur þad, sem med óréttu tekid ; hann er daudur er þú tókst frá, þá lifa þó kannské erfíngjar hans, gjald þeim slíkt, þú varst hønum skyldugur, annars ertú engu betri enn hann, ed svælir undir sig annars ; vera má þú vitir ei hvar hann er ad finna edur arfa hans, þá høfum vér þó fáa jafnan hjá oss, þeir taka vid arfinum, þegar enginn er erfínginn. Þú manst ecki ad mørgum, edur um hvad mikid sérhverjum þú hefir órétt gjørt; þetta er líkligt, serlis hafir þú til margra ára saman safnad; þetta er líkligt, segi eg, því vér skrifum þad svo á minnistøbluna, sem vér tøkum frá ødrum, en þad sem, frá oss kann tekid ad a, því gleymum vér ecki svo brádliga; en áttú þar fyrir ad vera hyggjulaus hér um? ; barn mitt! þess meira, sem þú hefir frá ødrum rángliga tekid, þess fleirum, sem þú ir órétt tilgjørt, þess meiri hug skaltu leggja á mál þitt, þad er og ecki ómøguligt ad ra nockurn jøfnud í slíku; til dæmis: þú veitst hversu frekt þú hefir byggt lønd þín, ad mikid þú hefir dregid af verkamønnum þínum, hversu ofmikinn ábata þú hafst hefir á þú seldir og keyptir, gjør svo smásmugligan reikníng vid sjálfan þig hér um, sem kannt, annars vill Gud reiknast vid þig; dæmir þú ecki sjálfan þig, þá verdur þú af num dæmdur, 1 Cor. 11, hann hefir ecki gleymt þó þú gleymir; og nær þú hefir svo rt, þá kasta nockru framyfir, og þó meira enn minna, svo þú sért viss um, ad Satan i ecki eina klauf eptir í búi þínu, heldur enn Israel á Egyptalandi; sé þá nockud ofbid, þá er því ecki spillt, þad verdur ad féjód á himnum, þad verdur ad ølmusu, og er rétt, ad gjøra sér vini af hinum rángláta mammon. Ecki einasta galdt Zacheus ur, þad hann rángliga tekid hafdi, heldur og gaf hann helmíng eigu sinnar fátækum, gedjadist Frelsaranum svo vel, ad hann sagdi: á þessum degi er húsi þessu heilsa skéu;

haldt sál þína svo dýrmæta, barn mitt! ad þú sjáir ecki eptir nockrum forgengiligum ölnum til ad njóta sömu blessunar, því jafnvel þótt ecki vinni vorar ölmusur edur önnur verk til neins hjá Gudi, þar vér gjörum eckert fram yfir þad, sem vér eigum ad gjöra, þá eru þær Gudi þó hvad kjærastar af öllu því vér bjódum hönum, nær þær af trúnni framkoma og af kjærleikanum, annars gylda þær ecki, því þótt eg bitadi allar eigur mínar nidur fyrir fátæka og hefdi ecki kjærleikann, þá væri eg eckert, segir Páll, 1 Cor. 13. Þarfyrir, sjái menn til hvernig menn ölmusur géfa, ef þeir vilja ad þeir taki þá í eylífar tjaldbúdir, sem þær þiggja, ecki til fordildar sér, eins og Pharísei, þad heitir ad láta blása í básúnur fyrir sér, ad géfa ölmusur til ad taka virding af mönnum, og sérdeilis þeir, ed útsjúga hús eckna og födurlausra, meinandi þó ad afþvo allt soddan med nockrum ölmusugjördum; þótt þad sé bezt úr vondu ad ráda, ad géfa af því, sem illa er fengid, eins og Zacheus gjördi, og láta svo af ránglætinu, eins og hann, þá ætla ecki ad þínar ölmusur muni gylda mikid, ef þú heldur áfram í prettunum; lát þér umhugad vera, ad þad sé vel fengid, sem þú géfur af. Eg elska réttinn og hata ránid, þad er samteingist vid brennifórnina, segir Drottinn hjá Esaíam, 61 kap.; hér af kunna menn ad sjá, hvad þær ölmusur gylda muni í augliti Drottins, sem einn ætlar ad betala sjálfum sér aptur med féráni af náúnganum, þær eru eingu betri enn hunds verd edur skjækju, sem Gud vildi ecki láta bera inn í helgidóminn á tímum gl. testamentisins, Devt. 23. Þarfyrir, nær þú ölmusu géfur, þá sjá til, ad hún sé í Gudi gjörd; sértu ríkur, þá géf ríkugliga, og gjæt þess, af hverjum þú aud þinn fengid hefur, þó svo, ad þín vinstri hönd viti ecki hvad hin hægri gaf, gjæt og þess, ad þú géfir ecki oflítid ef þú mátt vel; þad er stór synd ad hafa alls nægtir, en láta hinn voláda svo frá sér fara, ad hann hafi varla magann fullan, auk heldur til næsta máls. Þér sundurmerjid andlit hinna fátæku, segir Drottinn, Es. 3; þótt þad sé talad í annari meiníngu í þessum stad, þá heitir þad rétt ad sundurmola andlit hins volada, ad láta hann horfa á audlegd sína, en skamta hönum svo naumt, ad hann sé litlu nær; ecki gjördi þad Drottinn, er hann saddi 5000 manns í eydimörku, því gudspjallamadurinn segir, hann hafi géfid, svo sem hver vildi hafa, Jóh. 6; ef þú vilt segja þad nídskunni til umbótar, ad hann hafi haft betri rád enn þú, þá vil eg segja: gétur þú ecki trúad hönum, er þad gjördi, ad hann kunni ad géfa þér tíufallt aptur vid þad, sem þú gafst vesalíngnum. Sértu fátækur, þá géf þó af fátækt þinni slíkt, er þú af mátt leggja, og lát þad vera af gnægd hjarta þíns, því Gud álítur hjartad; lausnarinn sagdi, ad eckjan sú, er lagdi tvo smápenínga í Guds kistuna, hún hefdi meira lagt, enn allir hinir ríku, því hún gaf af leyfum sínum alla lífsnæríng sína, Mark. 12; vit því, ad þad lítid, er þú gafst, þad er Gudi eins þægt og hid mikla, er hinn ríki gaf, því báda yckur gjördi Gud; en hvernig sem þér háttad er, þá géf med gódu skapi, því hýran gjafara hefir Gud kjæran, segir Salómon, Páluo býdur þad skuli gjörast, ecki med naudúng, heldur med fúsum huga; sá sem med illu gédi útilætur þad hann géfur, hann hefir bædi tapad því, er hann gaf, og svo þeim launum, er hann kunni ad vænta af Gudi. Géf strax, ef þú géfur, því hann, sem skjótt géfur, hann géfur tvisvar; seg þú ecki náúnga þínum: far burt og kom aptur, því á morgun skal eg géfa þér, ef þú hefir þad, Ordskv. 3; þad gjörir vesalínginn lángeygdan eptir



gjöfinni, sérdeilis ef þörf hans er bráð, og Guð kann að láta þig bíða eins lengi eptir hjálpinni, nær þér áliggur, því með þeim sama mælir, er þér mælið, mun ydur aptur mællt verða, segir Frelsarinn, Matth. 7. Ölmusur hafa stóra náð í Guðs augliti; bænir þínar og ölmusugjörðir eru uppstignar fyrir Guð til minnis, sagði engillinn við Kornelíum, Act. 10. Bænin er offur það, sem vér eigum dagliga Guði að færa, það eru kálfar vara vorra, Hós. 14, sem koma í staðinn fórnfæringa gl. testamentisins, ölmusurnar eiga þeim að fylgja, ei síður nú enn þá; ölmusan blíðkar Guð meir enn fórnin, því á mykunsemi hefir hann þóknan, en ecki á offri. Haf ráð mitt, konúngur! sagði Daníel við Nebúchadnezar, gjör syndir þínar að réttlæti og ránglæti þitt að myskunsemi við hina aumu, Dan. 4, líkligt er, að hann hafi það gjört, og kannské ecki apturhorfið úr vargshamnum til mannligrar rænu og skickunar ella. Að endíngu vil eg minnast á það, er hér síðarst stendur í guðspjallinu: svo að nær ydur þrýtur, þá meðtaki þeir ydur í eylífar tjaldbúðir; hverjir þá? Guðs voladir sauðir; nær þrýtur oss? þegar vér förum naktir burt úr heiminum, eins og vér í hann komum; nær meðtaka þeir oss? veginn leggja þeir til þess hér í heimi með bænum sínum og andvörpunum til Guðs, að það megi oss endurgoldið verða í upprisu réttlátra, er menn gáfu í Guðs nafni. Jóhannes sá í opinberaninni einn engil standa frammi fyrir altarinu, hann hafði reykelsis kér af gulli í hendi sér, og var gefið reykelsi mikið, að hann offraði því með bænum heilagra, Apoc. 8, eg efast ecki um, að hér með eru og teiknaðar bænir voladra þurfamanna, sem eru réttir Christi limir, þetta reykelsi skyldu menn dýrum dómum kaupa, því það gagnar meir enn mörg þúsund stycki gulls og silfurs, nauta og sauða, en um síðir munu þeir meðtaka oss í eylífar tjaldbúðir, þegar Konúngurinn segir á efsta dómi til þeirra, sem eru á hægra veg: það sem þér gjörðuð einum af þessum mínum minnstu bræðrum, það gjörðuð þér mér, komið þér hinir blessuðu míns Föður, og eignist það ríki, sem ydur er fyrirbúið frá upphafi veraldar; þess njótandi að verða unn þú oss eylífur Guð og alleina ríkur, fyrir hann, sem vor vegna fátækur gjörðist, Jesúm Christum, vorn Frelsara, amen!

## Tíunda Sunnudag eptir Trínitatis.

### Guðspjallið, Lúk. 19 Kap.

Í þann tíma, og þá eð Jesús kom nær, að hann sá borgina, grét hann yfir henni og sagði: ef að þú vissir hvað til þíns friðar heyrði, þá mundir þú á þessum þínum tíma þar vaktan á hafa, en nú er það hulið fyrir þínum augum; þvíað þeir dagar munu koma yfir þig, það þínir óvinir munu byggja hervirki í kríngum þig og umkríngja þig, og á alla vegu að þér þreyngja, og niður í grunn kollkasta, og þínum börnum með þér, og ecki munu þeir í þér láta stein yfir steini vera, af því þú þecktir ecki þinn vitjunar tíma. Og hann gécк inn í musterið og tók til að reka út þá, sem seldu og keyptu þar inni, og sagði til þeirra:

skrifad er, ad mitt hús sé bæna hús, en þér hafid gjørt þad sem annad spillvirkja inni. Og hvørn dag kénndi hann í musterinu; en kénnimanna høfdíngjar og skriftlærdir, og þeir yppurstu lídsins, leitudu fast eptir ad fyrirkoma hønum, og gátu þad ecki fundid, hvad þeir skyldu gjøra hønum, þvíad allt folkid hné ad hønum, og hlýddi hans ordum.

## Exordium.

Vel útmálar h. Páłus þad skrímsli ágyrndina, er hann segir, 1 Tím. 6: þeir sem ad ríkir vilja verda, þeir falla í freistni og snørur, og í margar girndir vitlausar og skadligar, hverjar ad steypa manninum í tøpun og fordjørfun; þetta er deginum ljósara, því undir þenna skapløst þénar svo mikid illþýdi annarra lásta, ad varla er nockur sú ódygd, ad ei þurfi hún lid af ad þiggja, nær hún er møgnud; eins og einn stór herra þarf margra þénara, svo er og óvættur þessi; hún tekur heila sveit af sinni kynslód í lid med sér: lýgi, rógur, bakmælgi, meinsæri, flátttskapur, undirhyggja, ofríki og jafnvel mord og manndráp eru hennar førunautar; þad vottar Póstulinn skømmu sídar í þessum sama kapítula, er hann segir, ad ágirndin sé rót alls ills, í hverja þegar nockrir fíkst hafa, þá hafi þeir villst frá trúnni og sjálfa sig í gégnum lagt med harmkvælum mørgum. Hinn ágjarni hefir ótal veidibrellur til útvega sinna, en ecki hefir Djøfullinn færri snørur til ad veida hann; hvad drap Achan? Jós. 7, hvad rænti Achab ríki og fjøri? hvad sálgadi Júdæ? Matth. 27; alltsaman gjørdi þetta ágirndin, og ótal fleira, sem ei verdur uppreiknad og kunnugra er, enn med mørgum ordum segja þurfi. Nú eru þá margir vegir til ad verda ríkur, sumir leyfiligir, sumir óleyfiligir, hinir fyrri eru blessan Drottins, ástundan í sínu embætti og kristilig fyrirhyggja, og annad þvílíkt, sem eg hefi nockud drepid á í næst fyrirfarandi prédikun; hinir óleyfiligu eru svo margir, sem ágirndin fær uppdiktad, en med þeim hættustu er óráðvønd kauphøndlan, hverrar vegna ad Drottinn kallar, ad Guds hús sé ordid ad ræningjabæli hér í gudspjallinu, því segir Sýrach 27 kap: einn kaupmadur gétur varla varid sig órétti, né einn kramari fyrir syndinni. Nú fyrir því, ad eg hefi ecki til forna í bók þessari neitt merkiligt um þenna hlut ritad, sem þó er harla naudsýnligt ad vita nockud um, þá vil eg taka mér orsøk af vandlæti Drottins til ad hugleida tvennt hér af, sem er: 1) hvør ad sé leyfilig kauphøndlan; 2) hvør ad sé óleyfilig. Hjálpa oss gódi Gud til þessa verks, fyrir Jesúm vorn Drottinn, amen!

## Utleggíngin.

Þad er víst, ad ecki gétur verøld þessi stadist án kauphøndlunar; mismun hefir hinn alvísi Skapari gjørt bædi landanna og mannanna, en engum hefir hann géfid allt, því hann ætladi sjálfum sér allt; ríkur og fátækur mættu hvør ødrum, segir Salómon, en Gud hefir gjørt þá báda, Ordskv. 22, hann meinar ríkan ríkan, en fátækan fátækan, því hvørttveggja kémur af hønum; hvarfyrir mun nú hinn Almáttugi svo gjørt hafa? gat hann ecki alla fullríka gjørt, sem á alla jørdina og þad, sem þar inni byggir? ad vísu gat hann; hvarfyrir er þad svo skéd þá? enginn hefir ad sønnu hans rádgjafi verid, en þó má þad skilja, ad hann hefir gjørt þenna mismun til ad láta dýrka sig af bádum, af þeim, sem nóg hafa, med kjærleikans verkum, af hinum, sem skortinn líða, med þolinmædinni, en þó ecki síst til ad láta dauðliga menn æfa sig í réttvísinni og kjærleikans verkum í allri høndlan og vidskiptum, þar enginn er sjálfum sér fullnægur um allt, ad ei sé hann annars þurfi í einhverju. Brúki því nockur kaupmannskap, þá æfir hann engan illan hlut, heldur

ur naudsýnligann; Gud hefir ecki fyrirbodid sjálfann hlutinn, heldur vanbrúkun hlutarins; vigt og mælir eru þeir hlutir sem kauphøndlan má ecki án vera, þad hefir Gud ecki bannad, en ránga vigt og mælir hefir hann fyrirbodid, Lev. 19, og þetta er ecki sídst ad taka vara á í vidskiptum manna; rétt er og hverjum manni ad kaupa þá hluti, er hann vid þarf, til þessa lífsnæríngar, edur slíckanligrar brúkunar, sem Gud hefir ecki í sínu heilaga ordi fyrirbodid; svo keypti Abraham landid af Hephron til ad grafa kvinnu sína, Gen. 23; Jakob keypti land undir bú sitt af sonum Hemors, Gen. 33; Jóseph keypti fé hinna Egyptsku til handa Pharaó fyrir atvinnu, Gen. 47; Jeremías akurinn af Chanameeli syni fødurbródur síns, og gjørdi gjørníng þar um, Jer. 32; og Lamúel samlíkir forsjálli konu og ydinni vid kaupskip, því ad hún sæki fædslu sína lángt ad, Ordskv. 31; fyrir því er þad saklaust ad brúka kauphøndlan um þvílíka hluti. Allir þessir menn, er eg strax upptaldi, voru Guds vinir, og kunna menn ecki annad um þá ad ætla enn ad þessi hegdan þeirra hafi leifilig verid; en ef þeim var saklaust ad kaupa, þá var og hinum syndlaust ad gjøra þad falt, er þeir seldu, því ecki er kaupandi nema seljandi sé. Lydía, sú er Pálus skírdi í borg þeirra Thýatírórum, Act. 16, hún seldi purpura, og heyrist ecki ad Postulinn hafi bannad henni høndlan sína, og var þetta þó ecki svo mjøg naudsýnligur hlutur til lífs næríngar, sem hún hafdi med ad fara. Sá ed selur handaverk sín, hverju nafni sem heita, hann brúkar saklausann kaupmannskap, því hann neitir brauds síns í sveita síns andlitis, ef hann ecki falsar verkefnid, edur brúkar í því adra rángsleitni, fyrir hvílíku mun hér eptir ráð gjørt verda í sídara partinum; hann ed selur þad, er hann missa kann úr búi sínu, þeim ed vid þurfa, hann gjørir gódan hlut, sérdeilis ef hann ecki innihelдur því, er hann má án vera, nær hinn er naudstaddur; svo gjørdi Jóseph, þegar Gud sendi húngur í Egyptaland, og þótt ad Heródes konúngur Aschalónita væri hinn versti madur, þá var þad þó lofs verdt á hønum, sem Jóseph sagnameistari skrifar, ad hann hafi sellt jafnvel gersemar sínar fyrir atvinnu handa þegnum sínum. Þeirra adferd er og saklaus, sem hafa fé í høndum, og kaupa naudsýnliga hluti, á medan nægtir eru af þeim, til ad selja ødrum sem fátækari eru, og ei høfdu ráð til ad kaupa til margra ára, og þótt þeir ábatist nockud þar af fyrir ómak sitt, þá er þad ecki synd, nær þad skédur med jøfnudi og án okurs, og þad hygg eg ad sé hid sama, sem Pálus býdur, 1 Cor. 7: ad þeir sem kaupa, séu svo sem ad ecki eigi þeir, þad ræd eg af því, er hann segir strax eptir, ad menn skuli brúka svo heiminn, ad menn ecki vanbrúki hann, þad skil eg svo, ad menn færi sér í nyt þá hluti, er Gud hefir lánad, þó svo, ad þad ei verdi med ásælni vid náúngann, til ad gjøra sig ríkann enn hann fátækann, sérdeilis þar hann í þessum stad er ad tala um þá stuttu tíd, er menn eiga ad fást vid þetta tímanliga. Þeirra atburdir eru og réttvísir, og nærsta þarfir, er færa þá voru yfir hafid, sem eitt land má ecki án vera, nær þeir gjæta þess er St. Páll bídur, 1 Tess. 4: enginn yfirstígi edur ásælist sinn bródur í nockurri høndlan, því Gud er hegnari alls þessa; en nær þeir gjøra þad til ad hafa þar af sitt ærligt uppheldi, en ecki til þess alleina ad verda ríkir af þørf annarra, þá er þeirra verk enganvegin lastandi, og má um þá segja eins og um hvern annann, sem ver erfidi og ydju

sinni til ad hjálpa náúnganum, ad verdur er verkamadurinn launa sinna; fyrir því á ekki kaupandinn ad sjá ofsjónum yfir því, þótt þeir ábatist, ef þeir gjøra hann ekki ad løgtæníngi, sérdeilis þar hann vogar lífi og gótzi til ad sjá hinum borgid, því hvortveggja þetta eru dírmætari hlutir, og lífid ad vísu hinn kostuligasti af veraldar munum, jafnvel ad vitni Satans, er hann sagdi, Jób. 2: húd fyrir húd, og allt hvad madurinn á, mun hann géfa fyrir sjálfann sig; því á ekki ad misunna þeim nockurs ágóda, er svo mikid leggja í sølurnar; þad kann og til ad bera, ad þesshàttar kaupmadur, gjøri þeim engann órétt, er hann selur vøru sína frekt, ef hann má hana annarstadar kaupa dírum dómum, og þad kémur eitt hvad á milli, sem hindrar ásetníng hans, því þad er eins og hvert annad tilfelli í útréttíngum vorum, og er þad margt sem kaupandi kann ecki ad vera svo fródur um, ad hann viti hvørt hinn gjørir órétt edur ei, má hann því ei strax vita hinn þarfyrir, og þótt hann vissi sér órétt gjørdann, þá gjørir hann sjálfann sig eins sekann, ef hann vill rétta hluta sinn med ødrum órétti, því þad heitir ad gjalda illu íllt, hvad Gud hefir bannad. Þetta er nú svo sagt um þá kauphøndlan, sem leifilig er, eptir því sem í stuttu máli sagt verdur, hvert þó betur skiljast mun af því, er í hinni sídari greininni talad verdur um þad, sem er óleifiligt í nockurri kauphøndlan.

Þér erud eins og snara í Mizpa og útþanid net yfir Tabor, segir Gud vid Israel, Hos. 5, af þessum Drottins dómi áttu kénnimennirnir ecki hinn minsta hlut, vegna ágyrni sinnar, svo sem ráda má af textanum; en ecki voru þeir rádvandari, þegar sá Drottnarinn kom til síns musteris, sem rak út þadan seljendur og kaupendur, svo sem í gudspjallinu stendur, þad verdur sannad med ordum Héronými lærifødurs, hverra meiníngu eg vil setja hér ad nedan, til fródleiks þeim er eptirtaka vilja, en øllum til vidvørunar, því sérhver kristinn madur á ad vera Guds kénnimadur í hjarta sínu, sem er musteri H. Anda, hann skrifar á þá leid í sinni útskíríngu yfir Matthei 21 kapitula: kénnimennirnir uppþeinktu hvernin þeir gjætu ábatast af almúganum, og seldu allan fénad þann, er þurfti til fórnanna, svo ad þeir seldu þeim er ecki høfdu, og tækju sjálfir aptur þad þeir selt høfdu; en þenna prett þeirra hindradi fátækt margra, sem ecki einasta ei høfdu þad þeir kynnu ad offra, heldur og ecki þad þeir mættu kaupa med, því tilsettu þeir þá ed lánudu peninga; en fyrir því ad í løgmálinu var bannad ad taka rentu, og lánad fé kunni ecki ad gagna fyrir utan ávøxt, þá uppþeinktu þeir annad bragd, ad þeir tilsettu þá, er í stadinn fyrir peníngarentu tækju adskiljanliga ávexti, svo ad þad sem ei leyfdist ad taka í peníngum, þá tækju þeir í þeim hlutum, sem med peníngum keyptir eru; fyrir rángsleitni þessa og hrekkvísi rak Drottinn út þá ed med þessu móti seldu og keyptu í musterinu, af hverjum flestir voru þénarar kénnimannanna, edur þeim áhángandi. Hugleidid nú, kristnir menn! hvad miklu gøfugri og dýrdligri ad er Guds kyrkja medal vor, heldur enn Jerúsalems musteri, þar hún er bygd uppá grundvøll Spámannanna og Postulanna, hvar sjálfur Jesús Kristur er hyrníngarsteirninn, Eph. 2; sjái því til hver og einn, ad ecki verdi hann útrekinn úr hinni sønnu og ósýniligu Guds kyrkju, fyrir svoddan rángsnúinn kaupmannskap, en því er æ verr og midur, ad eg hygg ad margur temji sér þessa óhlutvendni, sem ætlar sig vel kristinn; Gydíngum vard þeirra hús í eydi látid, fyrir þessa og adra glæpi; en væru þeir allir

útreknir úr Guds kyrkju, sem þvílíkt adhafast nú í heiminum, þá uggir mig ad verda mundi þunnskipad þar inni; edur hvad er þad, kristnir menn! þegar einn selur sínum náúnga einn hlut, en dylur þá lesti er hann hefir, já, hrósar hönum í mesta máta, þó ljúgandi, og á stundum sver vid Guds skélfiligu hátign, ad þad sé svo sem hann segir, og hversu margir klækir eru þá samankomnir, til ad steipa eins syndara vesælli sálu í helvítis afgrunn? hér er þjófnadur, hér er lýgi, hér er meinsæri, ef til vill, minna nægir; sérhvert af þessu, er nóg til ad fordæma syndarann; hefir ei Gud bannad ad stela, ad ljúga, ad leggja nafn sitt vid hégóma? þér skulud öldúngis ecki sverja, segir Lausnarinn, en ydar ræda sé já, já, nei, nei, Matth. 5; hvad vill þad þá verda, ad leggja þad vid svik og prettu, svo þad er næsta undarligt, ad nockur skuli meta sál sína svo lítils, og voga henni fyrir svo lítinn hégóma, og nærri því fyrir eckert á stundum? ad ei tali eg þar um, ad hann sem veit ad Gud er til, skuli svo berliga forsmá hans stóru hátign fyrir einkis verdann hlut; engu betri er hann, sem gyllir vonda vöru med einhverju táli því, jafnvel þótt ecki ljúgi hann sjálfur, þá lætur hann hlutinn ljúga, en þjófnadurinn er allur hinn sami. Þessu er þad líkt, ef nockur selur einhverjum þad hann þeckir ecki, og hefir ei vit á ad dæma um, hvert þad er íllt edur gott, þad eru bannvæn svik, því sá þad gjörir, hann selur ödrum heimsku sína, og veidir hann í neti fákjænsku sinnar; þetta er altítt þeim, er leina því, sem gagnligt er fyrir hinum einfalda, en bjóda þeim hid ónýta, og af þessum prett vaxa tvær adrar stórskammir, sem er, ad hann er þvílíkt æfir, fagnar í hjarta sínu, hversu forsjáll hann verid hafi, og þackar ábatann svinnu sinni, en hins ósvinnu forsmáir hann, og skammast sín ecki ad hrósa þessu fyrir sínum líkum, leggur svo drambseminnar og sjálfhælninnar synd til þjófnadarins, og er þá ecki von á ödru verra, nær Djöfullinn hefir svo blindad einn, ad hann stærir sig af klækjunum, eins og Lamech er hann hrósadi sér af fólskunni vid kvinnur sínar, Gén. 4; med þessum eiga þeir sess í Andskotans ríki, sem brúka falska vigt og mælir, um hverja eg hefi nóg sagt, þegar eg segi þad med Salómons ordum: ad þvílíkt sé andstigd fyrir Gudi, sá þad gjörir, hann uppsker hvar hann ecki sádi, og selur einum þad hann aldrei féck. Þeir ed setja vöruna ofdírt, og miklu hærra enn ad svarar þeim ábata, er þeir med réttu hafa mega fyrir ómak sitt og umhyggju fyrir sínum kaupmannskap, þeir meina ad sönnu ad vera saklausir, og helga sig gjarna þar med, ad enganu bidji þeir ad kaupa ad sér, og vara þeirra sé ósvikin; en hér í er þó margt athugavert, sé svo ad eg hafi einhvern hlut, þann eg má ecki missa án míns skada, en hann ætladi sér mikinn hagnad af, er kaupir, þá er þad ad sönnu réttvíst, ad eg selji hann nockru dírara enn eg keypti; en ef eg hefi þann sama hlut til sölu og vil hann falann láta, þegar mér líkar andvirdid, en bródir edur systir eru naudstödd, svo þau géta ecki án hans verid, og eg brúka neyd þeirra vöru minni til gyldis, þá er þad stór synd, og engu betra enn þad, sem ádur er upptalid, því þad heitir ad selja einum þörf sína; en hvernin kann hann ad gjöra hlutinn betri edur dírmætari í sjálfum sér, heldur enn hann væri þar fyrir utan? kann nockud húngur náúngans ad gjöra þinn mat betri, og ef ecki betri, þá ecki heldur dírmætari, edur hans berleiki, þad fat er þú selur hönum kostuligra? þetta er

nockurskonar hæglætisofríki, og úlfur undir saudargjæru, því hvert eg svík fé út af einhverjum, sem ecki má ræna mig því sem honum áliggur, edur og ræni hann fé sínu, því er eg hefi engann rétt til, þad er allur hinn sami óréttur í Guds augliti. Í þessum flocki vada þeir ed kaupa upp alla voru, þá sem hinn fátæki má ecki án vera, nær þeir hafa nóg í höndunum, en selja hana svo dírt aptur, sem sjálfir vilja þeir, nær neydin þreyngir, og þó eru hinir hvad verstir, sem hafa á bodángi gyrniliga hluti, og þó aldeilis óþarfa, en láta þá svo dírt, sem ágyrndin bídur, nær dárinn sparar ecki fyrir ad géfa, til þess ad flockva gyrndina um stundar sakir, en sveltur sídan; þetta er ad selja einum synd sína, sem er hinn versti kaupmannsskapur; þetta er ein Andskotans svipa, af mörgum streingjum, mörgum syndum fléttud, því fyrst kaupir hann þessháttar voru til ad leggja tálbeitu fyrir hinn heimska, sídan flettir hann fé sínu, og eptirá hædir ad honum, en prísar sjálfan sig og kjænsku sína, og þad er ecki öllu betra enn Bíleams rád, hver ed lét Israels sonu glæpast á Móabítanna konum, Núm. 31; allir heilvita menn, sem þetta lesa edur heyra, þeir munu nærri géta, hvar um eg tala, og er allt ofmargt af þessu illþýdi í landi voru. Þetta er nú svo talad um hann ed selur, en þótt ad kaupandi og seljandi séu nærri því hid sama, þar enginn selur nema hann kaupi, og enginn kaupir nema hann selji, þá gjöra menn þó mismun þann í dagligu máli, ad sá heitir seljandi, er hefir voru til kaups, en hinn kaupandi, er ad honum kaupir, og því hefir hann og nockurs ad gjæta. Einhver kann á stundum ad selja þad hann ecki veit hvad kostar, og er þeim þá vant, sem ad honum kaupir, ad ecki ásælist hann sinn náúnga í sinni höndlan; já, í sannleika, géfi hann minna fyrir hlutinn enn ad hann verdur er, þá er hann eins sekur í Guds augliti, svo sem hinn, er seldi þeim ofdírt nockurn hlut, er ei veit hvad hann kaupir; einn neydist til ad selja eigu sína fyrir húngurs sakir, edur einhvern atvinnu brest, svo hann gétur ecki bedid eptir þeirri tíd, sem hann kunni ad fá lífsnæríngu med ödru móti, fái hann ecki jöfnud af þeim er kaupir, þá gjörir kaupmadurinn stóra synd, og er eins sekur og hinn, er selur ödrum þorf sína. Vágt er allt þvílíkt upp ad telja í stuttu máli, en gjæti menn þess, er Drottinn sagdi fordum; hvad þér viljid ad mennirnir gjöri ydur, þad sama gjörid þeim einnig, Lúk. 6; svo og þess Sýrach skrifar, 27 kap.: eins og fleigurinn klemmist á millum múrsteina, svo þreingist syndin á millum kaups og sals, fyrir því er þeim einsætt, er gjört hafa slíka höndlan ad handverki, kannské lengur enn skémur, sumir hverjir, þeim er einsætt, segi eg, ad ransaka nockud atferd sína í þessu, og ef þeir finna ránglæti hjá sér, ad bæta þad med sannri ydran, en hún er aldrei af alvoru, nema menn géfi þad aptur, sem rángliga var tekid, hvar um eg hefi nockud talad í næst fyrirfarandi prédikun, og vil þad ecki hér aptur ítreka; alleina vil eg ransaka tvennslags afsakanir, sem menn plaga ad gjöra sjálfum sér í þvílíkum tilfellum: ein er sú, ad nockrir látast géfa ölmusur af þessu rángfengna gótzi, og þurfi því ecki aptur ad leggja, en gjæt þess, ad þad sem fátækum er géfid, þad kallast Gudi lánad, en Gud vill ecki þjófsnautur vera, þad sem honum er géfid má velfengid vera, ef þad á honum ad líka; því er þad rétt, er Sýrach skrifar, 34 kap: sá sem færir fórn af eigu hins fátæka, þad er svo sem hann slátri syninum í augsýn födursins; braud hins þurftuga er líf hins fátæka, sá ed svíkur hann, sá er blódgírugur.

Olympías módir hins stóra Alexandrí, hún helgadi afgudi sínum þad sverd, er madur hennar Philippus konúngur var drepinn med; Alexander Phereus gjørdi hid sama vid lensuna, med hverri hann vo fødur bródur sinn Polyphrónem, og sømu aferd hafdi keysarinn Antoníus Caracalla, er hann lífléť bródur sinn Getam; allir menn kalla þetta illa gjort, en ecki mun vera svo stór munur á þessum ódáda verkum í Guds augliti, og hinu, ad svíkja náúngans braud út af hans munni í kaupum og sølum, en látast gefa Gudi þar af aptur, edur hans vesælíngum, svo mikid sem þeim sjálfum líkar; þad gengur nærst því, ad kasta blóds verdinu inn í kyrkjuna med Júda; en þó vil eg segja þad sem eg hefi ádur sagt, ad ef madur fær ecki aptur skilad þeim sama, er nockur hefir órétt tilgjort, þá er ecki annad rád enn ad géfa svo mikid fátækum, sem einn meinar sig, eptir smásmuglegt rannsak samvitsku sinnar, ad hafa med óretti tekid; dyljist og enginn vid þad ad syndin verdur ecki tilgéfin, nema aptur sé goldid hid rángfengna, því svo segir Drottinn fyrir munn Ezechíelis, 33 kap: ef hinn ógudligi géfur pantinn aptur, og lætur ránid af hendi, og gengur eptir lífsins bodordi, og gjørir eckert óréttvíst, þá skal hann lifa og ecki deya; med þessum skilmálum hefir Gud syndaranum vægdinni heitid, en annars ecki; hér um hefir Augústínus lærifadir vel talad í einum stad: ef ad annars fé (af hverju syndin kémur) kann aptur ad gjaldast, en verdur þó ecki goldid, þá er þad ecki sønn ydran, heldur læti hennar; syndin verdur ecki fyrirgéfin, ef ei er aptur fært þad burt var tekid. Ønnur er þeirra afbøtun er segja, ad ei megi þeir apturláta, þad þeir med raungu tekid hafa, søkum óvirdíngar þeirrar, er af því fylgir, og ad fjárhlutir séu minna verdir enn gott mannord; en þessi er og svo nærsta ógyld. Fyrst er þad, ad slíkt verdur aldrei af nockrum ærligum né gudhræddum manni misvyrdt, en dóm hinna órádvøndu má sá ad litlu hafa, sem ætlar sér Guds barn ad verda, hann má segja med Páli: þad er mér fyrir minnstu, ad eg af ydur dæmdur verdi, edur af mannligum degi, Drottinn er sá sem dæmir mig, 1 Cor. 4. Þar ad auki, eru svo margir veigir til ad bæta þeim er rángindin lidid hafa, svo ei verdi þad heyrum kunnugt; og hvernig sem þessu er varid, þá er betra ad missa virdíngu sína hér í tímanum, heldur enn eylífliga. Þegar Drottinn rak út seljendur og kaupendur úr musterinu í fyrra sinni, Jóh. 2, þá gjørdi hann svipur af streingjum, er hann brúkadi til þessa vandlætis; hann vantar enn nú ecki svipur til ad reka út þá, er med svoddan hætti kaupa og selja í hans kyrkju medal vor; þar er svipa løgmálsins er segir: þú skalt ecki stela, á henni er einn hnútur ridinn med þessum hætti, bølvadur sé sá ed ecki heldur allt þad í løgmálinu ritad stendur, Devt. 27; þar er ein svipa jafnvel í evangelío, er slær med þessu høggi: gjørid ydran, því Guds ríki er nálægt, hvert þad tré sem ecki ber gódan ávøxt, skal upphøggvast og í eld kastast, Matth. 3; þar er hin skarpa svipa hans hegníngar, sem er tilbúin þeim ed erja á hrygg hins vesæla og naudstadda, og eta ránglætisins braud í hans sveita. Eg segi enn þá aptur, Drottinn rak út úr musterinu þá er seldu og keiptu, þad var stundligt vandlæti, margur af þeim sømu mun sídan hafa á hann trúad sér til mýskunar, en ad vera útrekinn úr þeirri himnesku Jerúsalem, þad er eitt straff øllu þýngra, þad er eylíf smán, og óbætanligur skadi, frá hverjum oss og alla kristna menn vardveiti hinn gódi Gud fyrir Sonarins forþénustu, og géfi oss svo ad rækja þetta jardneska, ad vér

ecki afrækjum þad himneska, heldur stundum eptir hinu góda hlutskiptinu, sem enginn má af oss taka; þess géfi oss njótandi ad verda hinn mysknnsami Gud, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Ellefta Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Lúk. 18 Kap.

**Á** þeim døgum; Jesús sagdi til nockra þeirra sem treystu uppá sjálfa sig, líka sem mundu þeir réttlátir vera og forsmádu adra, þessa eptirlíking: tveir menn gengu upp í musterid ad bidjast fyrir, einn var Phariseus, en annar tollheimtumadur. Phariseainn stod og badst nú þannin fyrir med sjálfum sér: Gud! eg þacka þér, þad eg em eigi svo sem adrir menn, ræníngjar, oréttvísir, hordoms menn, eda svo sem þessi tollheimtumadur; eg fasta tvisvar í viku, og eg géf tiundir af øllu því eg á. Og tollheimtumadurinn stod lángt í burtu frá, og vildi ecki upplypta sínum augum til himins, heldur bardi hann sér á brjost, og sagdi: Gud! vertu mér syndugum líknsamur. Sannliga, segi eg ydur: þessi for réttlátur framar hinum í sitt hús. Þviad hvør sá sem sig sjálfann upphefur, hann skal nidurlægjast, og hvør sem sig sjálfan nidurlægir, hann mun upphafinn verda.

## E x o r d i u m.

Enginn hlutur er svo vidurstyggilegur í Guds augliti, svo sem dramblátt hjarta, og enginn svo þægur hønum, svo sem audmjúkur andi. Drambláum hratt hann af stóli, en upphóf lítiláta, segir Guds módir í lofkvædinu, Lúk. 1; Gudi alleina tilheyrir tignin, hann hefir sinn stól á himnum settann, en jørdin er hans fótskør, þar situr hann uppi, og sér á þad lága, Jehóva er hans heiti, og sína dírd vill hann engum géfa, Esa. 42; allt hvad vyrdugligt er, hvad gott er, hvad ágjætt er, hvad prídiligt er, hvad heilagt er, þad kémur allt frá hønum; en vilji nockur tileinka sjálfum sér nockud af þessu, svo sem sjálfum sér, þad er, sem vildi hann ræna Gud sínu, þad er rétt ad stela helgum dómum, og þad er afgudadýrkan, því valla veit eg hvert þad er meiri synd í Guds augliti, ad falla fram fyrir tréstobbanum, heldur enn ad gjøra sjálfann sig ad Gudi, og segja med Pharao: hvør er Jehóva, þad eg skuli óttast hann? Exod. 5, edur med hinum blindu Júdum: Gudi skeitum vér ecki, og hvad vildi oss konúngurinn gjøra? Menn halda sumir, ad þad hafi verid svívirding foreydslunnar, sem Drottinn talar um, Matth. 24, ad bílæti hins Rómverska keysara hafi sett verid inn í Jerúsalems musteri, en þad er svívirding foreidslunnar rétt køllud, þegar madurinn setur sitt egid bílæti inn í Guds kyrkju, sem ætti ad vera hans hjarta, eins og Phariseus þessi, svoddan manni er gløtunin búin, nema hann audmýki sig brádliga undir volduga Guds hønd, því Gud mótstendur drambláum, og þarf sá ecki ad vænta sér annars verra, sem hefir konúng himnanna fyrir óvin. Drottinn taladi eptirlíkingu þessa, segir Lúkas, til nockurra þeirra, er treystu á sjálfa sig en forsmádu adra; svo sem eckert er vidurstyggiligra í Guds augliti enn hofmódurinn, svo er hønum valla nockurt þægra enn audmjúkur andi, þad sýna oss dæmi Ephraims, dæmi Manassis, og ecki sídst Davíds konúngs allvída í hans Psálma bók; eg játadi Drottni synd mína, og þá fyrirgafstu mér þad, segir hann, Ps. 32; og enn aptur: Drottinn vardveitir lítilmagnana, eg audmýkti mig, og þá vard eg frelsadur: og þad sýnir

oss dæmi tollheimtumannsins, hvern Lausnarinn sýnist frammsetja hér í eptirlíkíngunni, øllum sorgbitnum afbrotamønnum til huggunar. Viljum vér því tvennt af gudspjallinu hugleida: 1) einn skynhelgann hræsnara; 2) einn ydrandi syndara. Styrk oss hér til, Drottinn minn! í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Inngángur til þessa máls hjá gudspjallamanninum, er þannveg: en hann taladi til nockurra, er treystu uppá sjálfa sig, ad þeir væru réttlátir, en forsmádu adra, þessa eptirlíkíng; án alls efa eru hér med Pharísei meintir, þarfyrir setur Drottinn einn Pharíseum í eptirlíkíngunni, svo sem dæmi eins sjálfbyrgíngs, er ei þyrfti mikid af Gudi ad þyggja; þess vegna eru þeir í grein þessari med sínum egin lit afmáladir; þeir vildu vera frásskildir ødrum mønnum, þad sýnir þeirra nafn, Pharíseus, þad merkir adgreindann edur frásskilinn; í mørgu var þetta fólgid, sem ecki er naudsýnligt hér upp ad telja, en þó var þad helsta, ad þeir þóttust ødrum heilagri, þad dylur ecki þessi þeirra bródur, er hann segir: eg þacka þér, Gud! ad eg em ecki eins og adrir menn, því kølludu þeir almugan jardarinnar fólk, enn sjálfir þóttust þeir himneskir vera, og borgarmenn heilagra, svo sem Pálus nefnir kristna menn; edur hvad var þad þeir søgdu í rádinu fordum, þegar Nicodemus vildi hafa mælt Frelsaranum lids yrdi? Jóh. 7: trúir nockur af høfdíngjunum á hann, edur af Pharíseis? en þetta fólk, sem ecki veit løgmálid, þad er bølvad. Þeir vildu ecki samneiti eiga med tollheimtumønnum og syndurum, því løstudu þeir Frelsarann, ad hann gjørdi svo, Matth. 9, já, þeir meintu ad þeir saurgudust, er snertu þá; svo sagdi hræsnarinn Símon fordum, þegar hin bersynduga sat grátandi vid fætur Drottins, Lúk. 7: ef þessi væri spámadur, þá mundi hann vita hver og hvílík ad þessi væri, er hann snertir, því hún er syndug. Um þvílíka drambsemi, þvílíka skynhelgi talar Esaías undir svoddan manna persónu, 65 kap: kom ecki nærri mér, og snert mig ecki, því eg em þér heilagri. O, minn Jesú! er ecki þetta ad gjøra sig Gudi líkann, nærri hverjum eckert saurugt má koma; ecki breyttir þú svo, Drottinn minn! þegar þú átst og drackst med tollheimtumønnum og syndugum í húsi Matthei, Matth. 9, þegar þú gjørdir hann jafnvel ad þínum lærisveini, þegar þú mæltist ad fyrrabragdi til dagverdar af Zacheo, þegar allir tollheimtumenn og bersyndugir flycktust ad þér, til ad heyra þig, og þú máttir lída brigsl Pharíseanna þar fyrir, Lúk. 15; þú varst Guds mynd, sem er einn fortærandi eldur, Devt. 4, þó héltstu þad ei fyrir rán, ad þú Gudi jafn varst, heldur lítilæckadir sjálfann þig, tókst á þig þræls mynd, vordinn mønnum líkur, Philipp. 2. Tveir menn gengu upp í musterid ad bidjast fyrir, einn var Pharíseus, en annar tollheimtumadur. Vér viljum fyrst hugleida Pharísearans bæn, af því hann þóttist vera madurinn meiri, og hvad hann taldi sér til gyldis fyrir Gudi; hann stód út af fyrir sig; þess var og øll von, ad hann mundi vilja ødrum frásneiddur vera í þessu, sem øllu ødru; hvernig badst hann þá fyrir? eg þacka þér, Gud! ad eg em ecki eins og adrir menn; hvílíkur var hann þá? ad vísu betri mørgum ødrum í útvortis lífernis háttum, en hid innra mørgum verri í Guds augliti; þad sanna eg med ordum Frelsarans, er hann sagdi, Matth. 21: tollheimtumenn og skjækjur munu fyrr inngánga í Guds ríki enn þér, því Jóhannes kom til ydar med veg réttlætisins,

og þér trúdud hønum ecki, en tollheimtumenn og skjækjur trúdu hønum. Þetta er dagsanna, því tollheimtumønnum sagdi Jóhannes, Lúk. 3, er þeir komu til hans skírnar: takid eckert framar enn þad sem bodid er; en vid Pharíseos sagdi hann: þér nødrukyn! hver hefir sýnt ydur ad umflýa tilkomandi reidi? fyrir því, gjørid verduga ávøxtu ydrannar inni, Matth. 3; en þad gjørdu fæstir af þeim, svo var hugþóttinn ríkur í gedi þeirra. Hvad er nú framar? hann segist ecki vera eins og ræníngjar; ecki talar Frelsarinn um einn heldur enn annann í þessu máli, heldur er einn settur til dæmis fyrir marga, svo sem í hverri annari eptirlíkíngu; munu því allir hafa átt óskilid mál af þessum flocki. En hvad er þad þá, sem Frelsarinn segir, Matth. 23: ad þeir útsjúgi hús eckna og födurlausra, undir hylmíngu lángra bæna? er þad ecki hid versta rán? hvad er þad hann aptur segir: ad hid innra hjá þeim sé allt fullt af ráni og óhófi? verda má ad sumir af þeim hafi ei verid svo mjøg sekir í þessu, en fáir af þeim munu hafa skyrst vid ad segja naudstøddum foreldrum, þad er korban, edur gáfa sem eg kynni ad hjálpa þér med, Mark. 7, eins og ad hønum, sem engum vill segja til ef hann húngrar, hafi þægari verid gáfa þeirra, heldur enn hlýdni hans bodords, ad heidra fødur og módur. Hann segist ecki vera eins og óréttvísir, þad kann ad vera; en hversu réttvísir voru þeir, þá er þeir fordæmdu Guds son allir, aflífudu hertoga dyrdarinnar, þegar þeir grýttu Stephánum í hel, Act. 7, og vildu Pál hafa af døgum rádid. Ecki segist hann vera eins og hórdomsmenn; verda má ad hann hafi í verknadinum saklaus verid; en mun hann aldrei hafa litid eina konu til girnast hana? Matth. 5; edur hvad var þad, ad þeir skømmudust sín, og gengu í burtu, þegar Drottinn afleysti hórkonuna í musterinu, og sagdi vid þá: hver ydar sem er án syndar, hann kasti fyrstur steini á hana, Jóh. 8. Þessi oflátúngur sagdist ecki vera svo sem tollheimtumadur þessi, þad er satt, því miklu var hann verri ad dómi sjálfs Guds Sonar, sem sídar mun sagt verda. Tollheimtumenn voru haldnir hid versta fólk medal Gydínga, og ecki munu þeir rádvandir verid hafa, því Drottinn tekur þá saman vid heidíngja, en aldrei var þeim um þad kénnt, ad þeir færu í kríng land og sjó, og gjørdu einn ad Gydíngi, en sídan ad helvítis barni, ei heldur ad þeir bønnudu mønnunum inn í himnaríki, Matth. 23; nú þótt ad allt þad hefdi satt verid, sem Pharíseus þessi taldi til gildis sér, þá var þó einn lösturinn, sem spilti øllum kostunum, þad var drambsemin og sjálfhælnin í Guds augliti, svo hafdi hún blindad þenna vísa mann, ad hún hafdi gjørt hann ad óvita, og líkann smábørnunum, hver ed plaga ad rífa þad í sundur, er þeim vænt um þykir; því viljum vér nú skoda í hverju hønum áfátt verid hafi; hann þóttist vera løgspakur, treystandi því ad hann væri leidtogi blindra, og ljós þeim sem í myrkrunum eru, typtanarmadur fáfródra, lærimeistari heimskra, hafandi form skynseminnar og sannleikans í løgmálinu, og kéndi svo ødrum, en sjálfum sér kéndi hann ecki, því hann vantadi þad sem mest á reid í undirbúníngi réttlætíngarinnar, sem var ad þeckja Gud og sjálfann sig; ecki þeckti hann Gud, því audsært er, ad hann ætlad hefir, ad hann mundi ánægdur vera med hina útvortis helgi, föstur og tíunda gjørdir; en þad þeckti hann ecki, ad Gud rannsakar hjartad, Ps. 7, ecki heldur þad hann hefir allt undir óhlýdninni innilukt (þad er undir þeckíngu syndarinnar) svo ad hann miskunadi øllum, Róm. 11; og ad hann

finnur jafnvel brest hjá englum sínum, Jób. 4; sjálfann sig þeckti hann ecki, því jafnvel þótt hann væri fródur í rituníngunni, þá hafdi hann gleymt þessum ordskvid Salómonis, er ritadur stendur í 21 kapítula: manninum þykja sínir vegir réttir, en Drottinn vegur hjartad; edur þess ed Davíd segir: ad fyrir Gudi sé enginn manna réttlátur, allir séu þeir affallnir, þar sé enginn sá sem gott gjøri, og ecki einn, Róm. 2. Mun þessi hræsnari hafa þóckst vera undanskilinn þessum Davíds dómi? hann var fráskilinn ødrum mønnum til ad æfa sig í løgmálsins skilníngi, og þess útskíríngu, en mjøg svo vard hønum á í því, ad hann hljóp yfir þessar greinir, og adrar miklu fleiri í gl. testamentisins bókum, er sakfella allan heimin fyrir Gudi, Róm. 3, og þar ad auki forsmádi hann, já, hann fordæmdi sinn náúnga; edur svo sem þessi tollheimtu madur, segir hræsnarinn: herra Gud! hvad mundi hinn gamli Páll hafa sagt, hefdi hann þetta heyrt, mundi hann ecki hafa brotist út med þessum ordum, Róm. 2: meinar þú, ó, madur! er dæmir þá, er þvílíkt gjøra og gjørir þad þó, ad þú munir Guds dóm umflýa, í því þú annann dæmir, þá fordæmir þú sjálfann þig, hver ert þú sem annarligann þjón dæmir, hann stendur og fellur sínum herra? Eg fasta tvisvar í viku, segir Pharíseus þessi; ecki hafdi Gud bodid þad ad sønnu; einn føstudag hafdi Gud bodid á ári í løgmálinu, þad var hinn tíundi dagur hins sjøunda mánadar, þó kunna menn ecki ad neita því, ad þetta var vel gjørt, hefdi þad framkomid af trúnni, því fastan er Gudi kjær, og má mikid hjá hønum; því sagdi Frelsarinn: þetta djøfla kyn verdur ecki útrekid, nema med føstu og bænahaldi, og hjá Zacharíam, 8 kap., er gétid um føstu á hinum fjórda, á hinum fimta, sjøunda og tíunda mánudi, sem Drottinn spáir ad skuli umbreytast í gladværdar hátídir, en þó býdur hann þar jafnframt, ad þeir skuli sannleikann og fridinn elska; því segir hann hjá Esaíam, 58 kap., hver ad sé sú fastan, sem hann útvelur, sem er, ad menn úthluti hinum hungrada braudi sínu og leidi hina fátæku, sem útreknir eru, í hús sitt, ad menn klædi hinn nakta, þá menn sjá hann, og byrgi sig ecki fyrir holdi sínu; en hvert ad Pharísei edur þeirra líkar hafa gjært þessa, þad sýnir vitnisburdur Christí, er hann segir, ad þeir útsjúgi hús eckna og fødurlausra, Matth. 23. Hann segir: eg géld tíundir af øllu því eg á; ecki hafdi Drottinn heldur þetta bodid í løgmálinu; hann baud ad gjalda tíundir af korni, víni og vidsmjøri, af nautum, saudum, og eplum, Devt. 12, en ecki af ødru því ed óx í aldingørdum; þetta var þó í sjálfu sér vel gjørt, ad þeir tíundudu allt hvad þeir áttu, hefdu þeir ecki viljad reikna til skuldar hjá Gudi þarfyrir; en þegar fara á betur enn vel, þá fer verr enn illa, segir máltækid, því segir Frelsarinn, Matth. 23: vei ydur skriptlærdum og Pharíseis, þér hræsnarar, sem tíundid mintu, anís og kúmen, en undanfellid þad sem þýngra er í løgmálinu, trúna, dóminn og mylkunsemina, þetta byrjar ad gjøra, en hitt ecki eptir ad skilja; vakti þeir sig, hverra gudhrædsla ad er alleina þar í fólgin, ad gánga í kyrkju, ad tala margt um Gud og hans ord, og kristiligar dygdir, en undir skyni þessu fremja þeir á móti samvitskunni og ydrunarlaust marga þá hluti, sem Gud bannad hefir. En lærum nú af þessum sjálfbyrgíng, kristnir menn! ad þegar vér gjørum vort ydrunar verk, þá berum oss ecki saman vid adra, sem oss verri þykja, eptir vorum dómi, því hver

einn mun sína byrdi bera, segir postulinn; munu nockud annars glæpir þvo mína af, edur ránglæti hans réttlæta mig, þótt eg ecki væri svo mørgum lítum hladinn? fjærri sé því, og allra sídst ef eg forsmádi hann hjá mér, því máttugur er Gud ad reisa hann; þad er eins og ad skoda sig í óhreinum speigli, ad vilja sjá mynd sinna athafna í annara gjørdum, Guds ord og hans løgmál eru sú skuggsjá, er vér eigum ad skoda oss í, þad er ljós á vorum vegum, og lampi fóta vorra. Þess er og ad gjæta, børn mín! ad ef þessi madur var fordæmdur vegna þess, ad hann hrósadi sér af góðverkum sínum, hvad mun þá um hina verda, sem hrósa sér af klækjunum, og þykir vænt um þá; ef hinn réttláti verdur naumast sáluhólpinn, hvar mun þá hinn ógudligi og syndarinn byrtast, segir Petur, 1 Pet. 4. Þar eru ecki margir, sem géta stært sig af miklum føstum og bindindi, hinir eru fleiri, sem gledja sig í ofáti og ofdryckju sinni, edur ad minnsta kosti þykir þad lítil synd vera, jafnvel þótt Páls segi, ad þeir ed slíkt adhafast erfi ecki Guds ríki, 1 Cor. 6. Ecki ætla eg menn þurfi ad hrósa sér mjøg af tíundargjørdum í landi voru, lángtum heldur er þad førullt sumum mønnum, ad svíkja Gud og hans volada, og konúnginn, svo vel sem Guds og hans þénara, med ráugri tíund, og þykist sá gódu bættur, sem hvad mestu gétur undanskotid, jafnvel þótt valla sé meiri bølvan vid nockra synd løgd í Guds løgmáli, enn vid þessa. Eg vil ei fá mér til orda hvad margur dári ad hrósar sér af því, ad hann hafi féflett annann, edur unnid sigur á hønum med raungum dómi, lagaflækjum, og følskum réttargángi, þvílíkir snápar eru fleiri enn telja megi, um hverja Davíd sýnist talad hafa, er hann segir, Ps. 52: hvad stærir þú þig af illsku þinni, sem megtugur ert í ránglætinu. Ei vil eg heldur margt tala um þá gárúnga, er stæra sig af lauslæti sínu, þad er, hrósa synd sinni eins og Sódóma, Esa. 3, og jafnvel ljúga á sig skømmunum til ad vanvirda adra, hafi Pharíseinn gjørt øll sín góðverk ógyld med hrósinu, þá viti þessir gudlausu menn, ad þeirra fordæmíng er vís, nema þeir ydrist af hjarta og ad ydranin verdi þeim svo beisk, sem ádur var þeim syndin skémtilig. Þykist nú nockur vera sekur í þessu, og vill þad ofgjørt hafa, hann læri sannann veg ydranarinnar af tollheimtumanninum, og gángi hann, ef hann vill hólpinn verda; og vil eg svo nockud þar um tala í hinni sídari greininni.

Þessi tollheimtumadur géck í musterid, svo sem textinn vottar, ecki fyrir sidasakir, ecki til ad láta skoda sig edur skoda adra, né ad sýna þar fordild sína í klædaburdi, svo sem kannské nockrir gjøra medal vor; ecki er þad alltíd Gudi edur helginni til virdíngar gjørt, ad menn búa sig hvad mest í skart á þeim døgum, edur til ad minna oss á þad, ad vér eigum ad klædast einum nýum manni. Hvert var hans eyrindi þá? til ad bidjast fyrir, segir Textinn, ecki eins og Pharíseinn, til ad hrósa sér í bæninni, þad sýna oss ord hans og atvik, sem hér uppteiknud standa; hann hefir adgjætt løgmálstøblurnar, sem héngu í musterinu, og yfirvegad þær ødruvísi enn skriftlærdir og Pharísei, sem héngu í bókstafnum, og løgdu hann út eptir eginn þótta sínum, þarfyrir ónýttu þeir løgmálid fyrir setnínga sína, svo sem Drottinn segir; Spámennirnir voru lesnir hvern sabbatsdag í musterinu, svo sem Páls vottar, er hann flutti Guds eyrendi til þeirra í Antíochía, Act. 13; þar hefir hann mátt heyra útskíríngu løgmálsins ad miklu leiti, og er hann þar af

berliga séd hefir, ad Gud fordæmir okur, rángindi, undirferli, rángsleitni, gripdeildir, hardýdgi og mysikunarleysi, og hann vissi sig í öllu þessu sekann, þá hefir hönum ofbodid stærd syndanna, og Guds heyptar reidi, já, honum hefir ógnad hvad mörg volud sál ad mundi hrópa í himininn yfir sér, og óttast ad þeirra hróp mundi inngengid vera í eyru Drottins Zebaoth, þessi þúnga byrdi hefir á hans hjarta legid, sem er brunnur allrar illsku og ógudligs athæfis, Matth. 15; því ber hann sér á brjóst, svo sem vildi hann þad straffad hafa, sem mest hafdi tilunnid, og mest klagadi sína egin vondsku, med slögum og biti samvitskunnar; illa var varid þessum vesælíngi í sjálfum sér, en Gud gæfi ad vér sem betri þykjunst, ad vér, segi eg, gengjum med sama hjartalagi í Guds hús, og sætum undir hans orda heyrn eins og hann, þá mundum vér ecki svo kaldir vera í voru ydrunar verki, svo sem berliga má sjá ad margur er. Hann stód lángt frá, segir textinn, án efa þess vegna, ad hann hefir reiknad sig verri enn adra menn, og óverdugann ad koma nærri þessum heilaga Pharíseó, hann hefir skolfid af kvída vid Guds reidi, er hann hugleiddi sinn óverdugleik, og hans lögmáls straungu hótanir, ecki sídur enn Israel þegar ad dunadi í Hóreb, nær hid sama lögmál var útgéfid, Exód. 19. Hvad gjöra þeir þá, sem jafnvel í Guds húsi képpast eptir hinum fremstu sætum, og útvelja sér þau, en þótt ei ridi svo mjög á þessu útvortis háttalagi, þá gjætum þess, ad í kyrkjunni byrtunst allir vér fyrir Guds augliti, þar er sá mestur madurinn, sem minnstur er í sínum þánka, sá er bezt búinn, sem sundurrífur hjarta sitt med tollheimtumanninum; enginn er svo heilagur, ad ecki skilji hans syndir milli Guds og hans, ef hann vill þær tilreikna; og hversu egum vér þá ad audmykja oss undir voldugа Guds hönd, nær vér inngaungum í hans helgidóm, til ad fridmælast vid hans guddómligu hátign, fyrir hverri öll veröldin leikur á reidiskjálfi? en vér erum dupt og aska, og hvad meira er, allir svo sem hinn óhreini, og jafnvel réttlæti vort svo sem nidlags fat, svo ad allt holdid er sjúkt, allt höfudid veikt, frá hvirfli og allt til ilja, er þar ecki nema sár, kaun, benjar og þroti og þessa vora sjúkdóma hefir Guds Sonur borid, þessum örkumslum hefir hann á sig hladid, svo ad vér fyrir hans benjar heilbrygdir yrdum, Es. 53; en vér höfum látid oss þad lítid til hjarta gánga; ecki hafa þeir naglarnir er í gégnum grófu hans hendur og fætur, ecki hafa þeir enn nú til fulls krossfest hinn gamla Adam í oss, og ecki sú lensan, er opnadi hans sídu, vid hjarta vort svo mjög snortid, ad vér höfum látid portin vídopin fyrir konúngi dýrdarinnar, þegar sá drottnarinn hefir vitjad síns musteris, miklu heldur hefir optliga vid því legid, ad vér mundum hertoga dýrdarinnar ad nýu krossfesta. Æ, minn Gud! æ, minn Frelsari! hver af oss er þá svo heilagur, svo fullnógur sjálfum sér, ad ei skyldi hann berja sér á brjóst med tollheimtumanni þessum, og segja: Gud vertu mér syndugum líknsamur, og med hinum tapada syni: fadir! eg hefi syndgast í himininn og fyrir þér? nú, þótt ad vesælíngur þessi væri svo lítt staddur, þá örvæntir hann ecki, ei grípur hann til knífsins, eins og Sál til sverdsins, ecki til snörunnar med Júda, og ecki ofbjóda hönum svo mjög syndirnar, ad hann örvænti sér Guds miskunar; ad vísu skammadist hann sín ad líta augum sínum til himins, því hann hafdi styggt þann svo mótþróanliga, sem í himninum býr, en þó rædur

hann þad af, ad leita líknar hjá honum, af hvers gjæsku ad öll jördinn full er, og meinar sig vesælann orm ecki fráskilinn vera eins og Pharíseinn ödrum monnum. Gjör hid sama, barn mitt! nær þér med Davíd ofbjóda syndir þínar, svo þú hefir ecki frid í beinum þínum fyrir þeim, þá vit þó þad og treyst því, ad syndin kann aldrei ad vera svo stór í illsku sinni, ad Gud sé ei meiri í gjæskunni, þad vottar Jóhannes, er hann segir, 1 Jóh. 3: ef vort hjarta fordæmir oss, þá er þó Gud meiri hjarta voru, og Páls hefir oss eptirlátid eina dírmæta huggun, dírmætari enn veröldin er, þar hann segir, Róm. 5: hvar sem ad syndin yfirgnæfir, þar yfirgnæfir þó nádin miklu framar; Kristur er forlíkun fyrir allar veraldarinnar syndir, því mun hann ecki og svo vera fyrir þínar, nema þú sért fyrir utan veröldina? í honum hefir fadirinn alleina velþóknan. Ef Páls þordi ad segja vid Philemonem um Onesímum: hafi hann þér nockurn skada gjört, edur sé þér skyldugur, þá reikna mér þad til; eg Páll hefi skrifad þad med minni hendi, eg skal betala; hvad miklu meiri rétt hefir Guds Sonur til ad tala þannig oss til fridar vid sinn himneska födur, já, vid sjálfann sig, ad honum skuli tilreiknast sá skadinn, sem vér höfum gjört, sú skuldin, er vér lúka áttum; þú minn herra! þú hefir neglt þá handskriftina á krossinn, sem móti oss var, Cól. 2; hver vill þá áklaga Guds útvalda, þú ert sá sem dáinn er, Róm. 8, þú hefir eina kvittan géfid í umbodi allrar guddómsins þrenníngar, er svo hljódar: hver sem trúir á Soninn, hann kémur ecki til dómsins, Jóh. 3; já, sendt oss eitt aflát med þénara þínum Páló, skrifad med Guds fíngri, sem er H. Andi, ad engin fordæmíng sé hjá þeim, sem eru í Christó Jesú, Róm. 8; þú hefir betalad þad þú rændir ecki, Ps. 69, því skyldi þá einn ránsmadur kvída fyrir þeim betalíng, sem þú hefir lokid? því mun eg þá mistreysta Gudi? er hann ecki trúfastur? kunna hans ord ad forgánga, þótt himin og jörd forgángi? Honum sé dýrd og heidur um aldir, amen. Nú hafid þér heyrt af tollheimtumanninum hinn rétta veg apturhvarfsins frá vondskunni, hver sem hann gengur, sá mun med honum réttlátur verda. Eg segi ydur, ad þessi fór réttlátur framar hinum í sitt hús, segir Frelsarinn í textanum: hver ord ecki þannveg skiljast eiga, svo sem ad Pharíseinn hafi ad sönnu réttlátur heim aptur farid, en tollheimtumadurinn þó réttlátari, heldur var sá munur réttlætisins, ad Pharíseus þessi var réttlátur í sínum þánka, og fyrir monnunum, um hvert réttlæti Drottinn segir, Matth. 5: nema ydar réttlæti yfirgnæfi meir enn hinna skriftlærdu og Pharíseanna, þá kunnid þér ecki inn ad gánga í Guds ríki; en tollheimtumadurinn, sem játadi syndir sínar, og afneitadi sínum verdugleik, en beiddi um miskun, hann vard réttlátur fyrir Gudi, med því réttlæti, sem Páls segir, ad sé af trúnni, og því var hann framar réttlátur, ad hann hafdi þad réttlæti, sem fyrir Gudi gyldti, en hinn fyrir monnunum. Heim aptur í sitt hús, stendur í textanum: nockrir meina ad hann hafi yfirgéfid tollheimtuna, þar hann fór ecki til tollbúdarinnar, heldur heim í sitt hús; en ecki er þad víst, ad hann hafi látid sýslan sína, þess var og ecki þörf, því hún var réttvís í sjálfri sér, ef þad er réttvíst fyrir yfirvaldid ad taka skatta og tolla, svo sem þad í allann máta rétt er, því Páls segir, Róm. 13: gjaldid öllum hvad þér skyldugir erud, þeim toll er tollur heyrir; þá er þad ecki óréttvíst fyrir þénara þeirra ad safna tekjunum; ecki bannadi heldur Jóhannes þessum monnum tollheimtuna, alleina, ad

ei skyldu þeir taka meir enn bodid væri, Lúk. 3; gjæti þeir þess, er slíkt starf á hendi hafa, því hvad sem þar er fram yfir, þad er af hinum vonda. En hvernig sem þessu er varid, þá er þad víst ad kvittun syndanna einusinni fengin, hún er ónít, nema syndarinn láti af illu og læri gótt ad gjøra, og hér til heyrir þad, ad bæta þad órétt var gjørt, ef bæta má, hvar um eg hefi nockud talad í tveimur næst fyrirfarandi prédikunum, en minnist enn nú á þad hér í þridja sinn, af því, ad svo mikid rídur á þessum hlut, því sé þad ecki gjørt, þá er ydranin aldeilis ónít. Þad er ei nóg, ad stínga á einu meini, nema hinn vondi vessi, sem í því er samandreginn, hann verdi útdreginn, svo er þad ei heldur nóg, ad mønnum svídi einusinni af broddi løgmálsins, nema því illa sé frá sér kastad; drecki nockur eytur inn, þá er honum einsætt ad æla því upp aptur, en engin ólifjan er svo banvæn kroppnum, svo sem rángfengnir munir sálunni, því er þad ómissandi, ad skilja sig af med þá, ádurinn þeir fálga henni í daudanum, þegar menn skulu þó vid þá skilja, og þeir vid oss hvert sem er, en enginn veit nær hann ber ad dyrum, og hvad hefir þú þá þess, madur! er þú hefir med áhyggju og órétti safnad. Drottinn minn! kénn þú oss ad hugsa þad vér hljótum ad deya, lát oss ecki deya med mammóna, heldur med vorn Frelsara í hjartanu, géf oss ad hafa fésjód á himninum safnad, framar enn í heiminum, svo þegar hin forgengiliga tjaldbúd vors líkhama í sundurglidnar, ad vér þá høfum svo fyrir oss gjørt í tímanum, ad þeir medtaki oss í eylífar tjaldbúdir, bænheyr þad, Drottinn minn og Gud minn! fyrir Jesú sáru kvøl og blessadar undir, amen!

## Tólfta Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Mark. 7 Kap.

Og þá Jesús géck í burt aptur úr landsálfum Tyrí og Sídonis, kom hann til sjáfarins í Galílea, í midjar bygdir þeirra tíu stadanna. Og þeir leiddu til hans þann mann, sem daufur og málhaltur var, og bádu ad hann legdi hendur yfir hann. Og hann veik honum affsídis frá folkinu, lét sína fíngur í hans eyru, hrækti út, og áhrærdi hans túngu, leit upp til himins, andvarpadi og sagdi til hans: hephatha, þad er, opna þig; og jafnsnart upplukust hans eyru, þá uppleistist og eirnin fjøtur hans túngu, svo ad hann taladi rétt. Og hann skipadi, ad þeir segdu þad eigi neinum, en því meir sem hann fyrirbaud þeim þad, þess meir þá vídfrægdu þeir þad út, og þá sjálfa undradi þetta næsta mjøg, segjandi: allt gjørdi hann vel, þvíad daufa lætur hann heyra, og málausa tala.

## Exordium.

Margt á vid morgu, segir í fornkvednum ordshætti; þótt ad Drottinn hafi straffad syndina eptir fallid med adskiljanligum sjúkdómum, til ad aga vort gjálífa hold, þá hefir þó hans

gjæſka lagt þá lýkn med þraut þeſſari, ad náttúran er rík af þeim hlutum, ſem bætt gêta mein manna, þegar þar med er ſkynſamliga høndlad, þvi ſegir Syrach, 38 kap: ad hinn hærſti hafi framleidt læknisdóminn af jordunni, og um læknirinu ſegir hann í ſama kapítula: heidra þú læknaran fyrir naudþurſtarinnar ſakir, þvi Drottinn er hans høfundur, þvi allir læknisdómar koma af hinum hærſta. Nú misfellur þó þetta á ſtundum, þvi jafnvel þótt læknirinn kunni margt og mikid ad gjøra, og hans verk ſé gott, þá er þó ecki heilſa né vanheilindi, líf edur daudi í hans hendi, heldur Guds, ſem er allra meina grædari, og ſá Drottinn Drottinn, ſem frá daudum frelſar. En Guds Sonur, á ſínum holdsviſtar døgum, hann auglýſti þad øllum heimi, ad hann ſannur Gud væri, med þvi ad hann læknadi allrahanda mein og kránkleika, ecki med náttúrunnar medølum, þvi hann var náttúrunnar herra, heldur med einu ordi á ſtundum: kona! mikil er þín trúa, ſagdi hann vid hina kanaaniſku: vert hughrauſt, mín dóttir! þér eru þínar ſyndir fyrirgéfnar, vid hina blódfallſſjúku: far þú, Sonur þinn lifir, vid koníngsmanninn: verdi þér eptir trú þinni, vid hundrads høfdíngjann: eg vil, vertu hreinn, vid hinn líkþráa: farid og ſýnid ydur kénnimønnunum, vid þá tíu: og er þeſſi dæmi nærſta mørg ad leſa í gudſpjalls søgunum. A ſtundum brúkadi hann nockurskonar ceremoníur til ad lækna hina ſjúku, ſvo ſem hér í gudſpjallinu verdur frá ſagt, hverjar þó ecki munu forgéfins uppteiknadar, þvi allt hvad ſkrifad er, þad er ſkrifad oſs til lærdóms, Róm. 15; heldur til ad þýda þær uppá vor andlig vanheilindi, og þeirra lækníngu. En nú vil eg í þetta ſinn einúngis hugleida: þenna auma mann, og ſvo vort háttalag í andligum efnum, ſem ecki erum betur á oſs komnir ad þvi leiti, heldur enn hann, margur hver. Send oſs þína nád og adſtod til þeſſa eyrendis, vor Gud! fyrir Lauſnarans forþénuſtu, amen.

## Utleggíngin.

Og þeir leiddu til hans þann mann ſem daufur og málhaltur var: þeſſi manneſkja hefir þúngliga haldinn verid. Þegar David útmálar mótgáng ſinn, þá ſegiſt hann heyra ſína mótſtødu menn, ſvo ſem daufur, og ſvo ſem einn málleyſíngur ecki uppljúka munni ſínum, Pſ. 38, eins og hefdi hann valla nockurn lakari koſt vid ad jafna. Illa er hinum dauſa farid í mørgum hlutum; einn daufíngi er nærri því eins í verøldinni, og útlægur madur í framandi landi, hvar hann einkis mál ſkilur, hann hefir eckert gagn edur ſkémtun af því ed adrir tala, varir þeirra ſér hann bæraſt ad ſønnu, en þad má vera ſtór hugraun ad ſjá þad, en hafa þeſs þó engin not, ſem Gud hefir gjørt til ad vidhalda ſelſkap mannanna í heiminum, gángi nockud ad hønum, þá gétur enginn huggad hann, en þó tekur þad yfir, ad þeir ei géta Guds ord heyrt til ſáluhjálpar ſér, því fyrir heyrn Guds orda kémur trúin, ſegir Poſtulinn, en án hennar er ómøguligt Gudi ad þóknaſt, Heb. 11; og hverſu er hønum þá illa varid fyrir mannanna ſjónum, er hefir breſt á þeſſu ſkilníngar viti. Nú eru þeir þó med tvennu móti er þenna ſkort meiga lída: ſumum fellur þad til, nær þeir komnir eru til vits og ára, þeir meiga þeſs not hafa ad ſønnu, er þeir numdu á medann þeir høfdu hluſtir heilar, bædi í dagligri umgengni, og hvad meſt árídur í verki ſáluhjálpar ſinnar, og ſatt er þad, ad ei glepur fyrir þeim huldran heimſins, þeir hafa valla ad ſkémta ſér nema vid Gud ſinn, ef þeir eru lundlagnir þar á, og bera ſinn harm í hljódi; og reyndar þá er betra daufur ad vera, enn ad heyra margan þann óþarfa, ſem taladur er í heiminum, ſérdeilis ſkammarlig ord og fíblsligt hjal, ſem kriſtnum ſómir ecki. Adrir eru þeir ed daufir eru bornir, því þar á eptir fylgir mállcyſid, hvernig kann ſá ad nema manna mál, ſem ei gétur heyrt á tal þeirra, og hafa menn þeſs dæmi nockur hjá oſs; þad má og marka ad þeſſi aumi madur ſem hér talar um

í gudspjallinu, hann hefir án efa heyrt einhvern tíma, því jafnvel þótt hann málhaltur væri, þá hefir hann þó nockud talad; þessara kostur sýnist miklu þýngri ad vera, enn hinna í fljótu áliti, því sá sem daufur er enn hefir þó málid, hann gétur sagt til þess, er hann vardar um, og lofad Gud med túngunni, hafi hann nockud af Guds ordi numid, en hinn ecki, þó er þad hér aptur ad segja, ad engann lángar til þess sem hann þeckir ecki, svo kann og ei heldur þeim ad leingjast svo mjøg eptir ad heyra á tal manna, sem þad aldrei heyrt hefir. En hvad sálarinnar efnum vidvíkur, þá hygg eg ad enginn kunni ad fordæma þessa Guds vesalínga, já, kann vera ad þeir séu miklu nær Guds ríki enn hinir, sem engann brest hafa á skilníngar vitunum, en bruka þau Fjandanum til þjónustu, og náunganum til ógagns; Gud er réttlátur; og þó undir eins myskunsamur, þad er ecki líkt hønum, fødur gjæskunnar, ad hann muni heimta reikníngsskap af því pundi, er hann ecki féck einum í hendur, og hver vill efast um mátt hans edur vísdóm, hann sem gat látid Jóhannem fagna tilkomu sinni í módur lífi, Lúk. 1, mun hann og ecki géta verkad undarliga hluti í þesshátt-ar manneskjum? satt er þad, ad án trúarinnar er ómøguligt Gudi ad þócknast, Heb. 11; en hann sem gétur innplantad trúna í hjørtum smábarnanna, mun hann ecki med óran-sakanligum hætti géta tilbúid hana í þessara hjørtum? þad sem ecki er af trúnni þad er synd; en af munni smábarnanna og brjóstmylkínganna hefir hann sér lofid tilreidt, því mun hann og ecki géta opnad skilníng þessara sképna sinna, svo þær þecki hann til myskunar sér? er nockurt ord fyrir hønum ómáttugt? Lúk. 1, kann hann ecki alla hluti framar ad gjøra, en vér kunnum ad hugsa edur mæla? eg vil hér um segja, þad sem Kristur sagdi vid lærisveinana, er þeir søgdu: hver mun þá hólpinn verda? þad sem ómøguligt er fyrir mønnum, þad er møguligt fyrir Gudi, Matth. 19. Nú sökum þess, ad fyrir hinum daufa verdur ecki talad, Gud verdur sjálfur fyrir hønum ad prédika í hans hjarta, og er enginn slíkur, þá tala eg þetta til huggunar þeim sem ángrast þar af, ad børn þeirra edur kjærustu náúngar hafa slíkann brest, og efast kannské um velferd þeirra, og þar ad auki leida sér í hug, ad þetta komi fram vid þá vegna synda sinna. Til hins fyrra hefi eg ad nockru leiti allareidu svarad, en þó vil eg þessu vidauka sem eptirfylgir: Gud hefir skapad afkvæmi þitt í módurlífi, Job 10, edur þíns náúnga; hver hefir manninum munninn géfid? hver hefir gjørt hinn mállausa edur daufa? edur hinn sjáanda, edur blinda? hefi eg þad ecki sjálfur gjørt? segir Drottinn vid Mósen, Exód. 4; og fyrst hann hefir þetta sjálfur gjørt, mun þá ecki hann, sem vill ad allir menn verdi sáluhólpnir, mun hann ecki sjá þeim farborda til himnaríkis, sem ecki hafa skuld í því, ad þeir géta ecki Guds ord heyrt? hann sem gjørdi allt vel, því daufa lét hann heyra og mállausa tala, á døgum holdsvistar sinnar, nún hønum vera apturfarid sídan hann sestur er til Kraptarins hægri handar, hann er uppfarinn í hædirnar, og hefir mønnum gáfur géfid, Eph. 4, mun hann þá ecki géfid géta barni þínu heyrn og mál, nema ad hann gjæfi sálu þess heyrn, og gjørdi þad vel talandi fyrir sjálfum sér, med því móti sem ecki skilur þú, eda nockur annar? barn þitt er í skírninni inntekid í Guds sáttmála; hver sem trúir og verdur skírdur, hann skal hólpinn verda, segir Kristur; hér stendur: hver sem trúir, en ecki hver sem heyrir og talar; mun hann þá kalla afbrugdid sáttmálanum fyrir þessa orsøk, er vesalíngurinn sjálfur

gjørdi, og gétur þó trúna í honum verkad? Gud láti oss aldrei meir afbregda, sem mál og heyrn hofum. Seg því med Davíd: eg vil þegja og munni mínum ecki uppljúka, af því þú gjørdir þad, og hallt barn þitt ad vera einn lim á Christí líkhama, musteri H. Anda, og erfingja himnaríkis, ef eckert annad í vegi stendur, enn þessi brestur, sem Skaparinn alleina og enginn annar læknad gétur. En hvad því vidvíkur, ad margur freistast af, ad vanheilindi barnanna orsakist af syndum foreldranna, þá verdur því ad sønnu ecki neitad, ad allt mótlæti er verdlaun syndarinnar, svo sem daudinn er, svo er og allur sá her, sem undir hann þjónar, en þad heitir ecki svo straff, svo sem reynsla hjá Guds børnum, hverri Jakob postuli skipar oss ad taka fegins hendi, Jak. 1; því orsakast þetta ecki af því, ad foreldrar þessarar vesælínga séu verri í Guds augliti enn adrir menn; þar fyrir svaradi Endurlausnarinn fordum lærisveinunum, er þeir fréttu hann ad, hvert þessi hefdi syndgad edur hans fadir: hverki syndgadi þessi né fadir hans, sagdi hann, heldur svo, ad Guds dýrd yrdi opinber, Jóh. 9; og vidlíkt skédur í þessu; Gud setur oss þessi dæmi fyrir sjónir, oss sem hann géfid hefir heilbrigda sál í heilum líkhama, til ad sýna oss hvada vald hann hafi yfir manneskjunni, til þess, ad þacka sér og lofa sig þar fyrir, ad oss og vorum børnum og náúngum er betur varid í líkhamans háttalagi, til ad minna oss þar á, ad ei brúkum vér skilníngu vora til þeirra hluta, sem Gudi til styggdar eru, miklu heldur til vegsemdar honum, og náúnganum til þarfa. En Gud nádi, ad út af þessu ber nærsta mjøg á stundum, og þad er nú hin andliga deyfa, sem miklu hættari, miklu skadsamligri, og þó miklu almennari, enn sú sem á líkhamanum er, yfir hverri ad Davíd klagar, er hann segir, Ps. 58: ad þeir tilbyrgi eyru sín, eins og hoggormurinn fyrir raustu særínga mannsins; margfallt er þetta heyrnarleysi, og í mørgu fólgid, en rótin til alls er þad, ad menn daufheyrast vid Guds ordi, svo þad fær ecki rúm í þeim, heldur enn tal Christí í Pharíseis. Allir menn lasta þá fyrir þetta, sem vert er; en þótt ad enginn madur talad hafi, edur en nú tali svo sem hann, jafnvel ad vitni þeirra, sem voru útsendarar hans fjandmanna, þá eru þad þó Guds ord, er hans þénarar tala í hans umbodi, nær þeir byggja mál sitt á ordum hans spámanna, og postula, yfir hverra grundvøll ad hans kristni er bygd, því svo segir Drottinn vid Jeremíam, 1 kap: eg hefi lagt mín ord í þinn munn, og vid Esajam, 59 kap: minn andi sem í þér er, og mín ord, er eg hefi sett í þinn munn, þau skulu ecki úr þínum munni víkja. Nú þótt ad ecki sé andans gáfa svo rík hjá oss, sem hún var hjá spámønnunum og postulunum, þá eru þad þó Guds ord, sem hans þénarar tala, nær þad er af þeirra toga rétt spunnid, og þeir tala eckert án ritníngarinnar; Guds ord eldist ecki, þad blífur eylífliga, segir Esajas, 40 kap; því er þad eins gott í munni hins vesælasta Jesú Christí þénara, nær þad er hans ord, svo sem í munni Peturs, edur Páls, því vil eg hérum segja þad hid sama, sem Páluss sagdi vid þá í Tessalóníca, ad þeir hafi medtekid þad Guds ord, er þeir heyrdu af honum, ecki svo sem ord mannanna, heldur svo sem þad var, eins og Guds ord, 1 Tess. 2, en ef þad Guds er, hvern forsmáid þér þá, þér hinir daufu veraldar synir! nær þér þad ecki heyra viljid af hans þénara munni, né láta undirvísa ydur og børnum ydar í kristinndóminum, ecki láta straffa ydar syndir, og ecki lifa eptir því, er ydur af Guds álfu

bodid verdur. Hvern forsmáid þér þá, segi eg, Gud edur mennina? segir hann ecki, Lúk. 10: hver hann forsmáir ydur, hann forsmáir mig, hver hann heyrir ydur, hann heyrir mér? svoddann er rétt skélsiligt heyrnarleysi. Munu þessi Frelsarans ord ná alleinasta til postulana, edur þeirra er lifdu á þeim dögum, og ecki til vor sem nú lifum? mun han ecki hafa lofad ad vera hjá oss, allt til veraldarinnar enda? Matth. 28; hvernig er hann þá hjá oss? med sínum H. Anda í ordinu og sacramentunum. Nú, ef menn vilja njóta nálægdar hans, því láta menn þá svo tregt vid ad heyra hans ord? í ordinu talar Gud vid oss, vid hann tölum vér í bænum vorum, en sá sem ecki vill heyra hann talanda, þann vill hann ecki heyra bidjanda, því hver sem forsmáir mig, þann vil eg forsmá, segir hann, 1 Sam. 2; eg em gladur af því, segir Davíd, ad til mín verdur sagt: vér skulum gánga í hús Drottins, Ps. 122; þetta sagdi hann, sem í ritníngunni er nefndur madur eptir Guds hjarta; en margur gárúngur, margur skalkéri, margur fépúki, sem er madur eptir sínu hjarta, hann verdur þeirri stundu fegnastur, ad hann þurfi ecki í Guds hús ad gánga, edur hans ord ad heyra, og þótt þeir gángi edur heyri, þá gengur ordinu eins og sædinu því, er Frelsarinn talar um hjá Lúkam í 8 kap., hvert ed féll utan hjá veginum, ad þad verdur fótum trodid, og fuglar himinsins átu þad, Djöfullinn tekur þad í burtu úr hjörtum þeirra, svo þeir ecki trúa skuli, og verda hólpnir; hvar fyrir? því þeir hyrdtu ecki um ad taka á sig Guds alvepni, til ad mótstanda prettum Andskotans, Eph. 6. Guds ord skal til þess hafa, ad varðveita Guds ord, en þeir gleymdu sverdi andans, sem ad er hid sama ord, ad þeir kynnu ad beita því fyrir sig, nær óvinurinn ad gardi géck, til ad ræna þá dírgrip þessum; óskandi væri, ad ei hugsudu þeir hid sama, er Júdar sögdu fordum vid Jeremíam: vér skulum ecki heyra því ordi, er þú sagdir oss í nafni Drottins, heldur skulum vér gjöra eptir sérhverju ordi, er framkémur af vorum munni, Jer. 44. Í svoddan gyldi er Drottins ord hjá sumum mönnum; munu þeir þá ecki nærsta þyckheyrdir vera? heyr mér þó um stund, barnid gott! þú ert ósképtur á hlustum þínum, og en nú ert þú svo í dag; þarfyrir, í dag, í dag, ef þú heyrir rödd hans, þá forherd ecki hjarta þitt, Heb. 3; seg mér, hefir þú bréf frá Gudi, ad hann lídi þín skilníngarvit til morguns, meir enn þessi daufi og málhallti madur. Gud steypti hinni vantrúudu veröld um koll í einu; í einu drekti hann Pharaó med öllu hans lidi; í einu fargadi hann Kanaanítum fyrir hönd Jósúæ; í einu augnabliki stack hann augun út á Elímas, sem mótstód Páló, er hann fór med kristnibodid, Act. 13; mun hann ei kunna ad gjöra hid sama vid þig, ef þú mótstendur hans þénurum og villt ei heyra þeim, nær þeir tala Guds eyrindi og ecki sitt? eda hvad villtu gjöra, nema þú hafir eitthvad þér til sálargagns numid af ordi Drottins, á medan þú hafdir eyrun heil, ef hann kynni ad láta þér tilfalla þvílíkann brest, eg vil þad í stuttu máli segja, þú hefdir eckert til ad kénna þér ad þeckja syndina, eckert til ad fá bót hennar, og eckert til ad hugga þig í þessu voladi? og fyrir því, ad þú aldrei hafdir smackad hid góda Guds ord, svo sem þad er, þá gétur ecki á þér sannast málsháttur sá, ad enginn viti hvad hann átt hefir fyrr enn hann missi. Einhver vill segja: eg gét lesid Guds ord, þótt ecki heyri eg þad; því er verr, ad

þeir eru svo fáir, sem lesa kunna, já, þótt sjálfir kunni, þá hyrda sumir ecki um ad kénna þad börnum sínum, og er þad gudlaust ræktarleysi, en hvernig sem því er varid, hvad veitstu nema Gud taki undir eins frá þér sjónina og heyrnina, og hvar stendur þú þá, ef þú hefir forsmád ríkdóm hans lánglundargeds, Róm. 2, í því, ad vilja ecki hans ord heyra þér til sáluhjálpar, og þótt Gud spari eyru þín allt fram í daudann, þá vita menn, ad ecki sjá þá augun leingur, og ecki heyra þá eyrun lengur, hjartad verdur þá ad tala vid Gud, og H. Andi ad vera vor prestur í sínu musteri, en ef menn hafa styggt hann med vanrækt Guds orda, og slöckt hann med forögtun þeirra, hvar í á hann þá ad lifa, ef eckert var numid sem hann kunni ad lifa í, og er þetta eitt skadligt heyrnarleysi. Margur leggur þad ad litlu, ad gánga í Guds hús, og heldur þad fyrir eintómis ceremóníu, því er verr, kannské þad sé og svo hjá allmörgum, sem þar byrtast, alleina fyrir sida sakir, en gæti menn þess, ad fyrir utan þad, ad Gud hefir skuldbundid sig til ad vera midt á millum tveggja edur þriggja, sem eru samansafnadir í hans nafni, Matth. 18, þá er þad ei svo mjög vída í landi voru, ad almenníngur fái Guds ord heyrt nema í kyrkjunni; ó! hvad miklu gódu fyrrir sá madur sig, er byrgir eyrun fyrir Guds ordi, þau eru líf og andi, segir Frelsarinn, Jóh. 6, því er hann andliga daudur sem án þeirra er. Vér trúum, ad fyrir trúna verdi madurinn hólpinn án verkanna, segir Pálus, en trúin er af heyrninni, en heyrnin af Guds ordi, segir hann, Róm. 10; hvar vill hann lenda þá, sem er trúarlaus, nema í eylífri glötun, utan hann betri sig. Mínir saudir heyra mína raust, segir Frelsarinn, Jóh. 10; en hvers munu þeir vera, sem ei vilja heyra röddu hans? munu þeir ecki settir verda med höfrunum á vinstri hlid, og þá um sídir heyra hina skélfiligu raust alls holds dómara: farid frá mér bölvadir í eylífann eld, sem fyrirbúinn er Djöflinum, og öllum hans árum, Matth. 25; sá sem er af Gudi, hann heyrir Guds ord, segir Lausnarinn, Jóh. 10, en þeir sem þad ecki heyra vilja, og þó heyra kunna, af hverjum eru þeir? af födur þeirra Andskotanum, svo sem Drottinn sagdi vid Gydínga fordum. Ut af þessari deyfu fædist margfaldur eyrnadofi; hvad gjöra þeir ed heyra vein hins naudstadda og volada, en byrgja sig þó fyrir sínu egin holdi, þad er fyrir þeim, sem ad eru sömu náttúru og vér, og géfa þeim eckert, jafnvel þótt sumir hafi audlegd heims þessa? enginn hefir um aldir sitt egid hold hatad, segir Guds Andi, heldur fóstrar hann þad og nærir, og hvad er þad þá, ad eg skuli sjá mitt egid hold, einn Guds vesæling, minn bródir í Christó, ad eg skuli sjá hann frjósa edur svellta í hel, þar eg hefi þó nóg, jafnvel til ad kosta uppá munadi mína? þetta er skakt heyrnarleysi. Sá sem óskunda og óréttinn lídur, hann flýr til dómarans, og bidur um adstod, en hann sem af Gudi og kongínum er settur til ad skipa réttindum manna, hann stíngur fíngrinum í bædi eyrun, og vill ei heyra kvein lögræníngsins, annadhvert fyrir leti, fyrir vináttu, fyrir hrædslu edur ágyrnis sakir, svo hinn fer jafnnær frá honum; verr er honum farid enn hinum rángláta dómara, er Frelsarinn talar um í eptirlíkíngunni hjá Lúk. 18, hver þótt hann óttadist hverki Gud né menn, þá lét hann sig þó samt leida af þrábeidni eckjunnar, til ad álíta mál hennar. Ein gömul kona beiddi Augustum keysara eitt sinn, ad heyra mál sitt, en hann kvadst ecki tóm hafa; hún svaradi: svo legg þá af stjórnina; vid þessi sannyrdi brá svo

þeim vísa höfdíngja, ad hann leit strax á mál hennar, og dæmdi þad; en þad væri rádligt, ad þessi varmenni, sem ádur er umtalad, ad þeir legdu af sér þetta starf, þar þeir valla eru hæfari til þess, enn asninn til hörpusláttar. Menn nema þann lim í burtu af kroppnum, sem er daudur, og líkligur til ad spilli ödrum, sæmra væri og þeim er svo þyckheyrdir eru, sem nú hefi eg sagt, ad eyru þeirra væri afskorinn, heldur enn þau stædu þeim til vanheidurs, en engum til gagns á höfdinu. Þar er enginn kéndur sem hann kémur ecki; ef þér blindir værud, þá hefdud þér ecki synd, en nú segid þér, vér sjáum, þarfyrir blífur synd ydar, sagdi Lausnarinn vid Pharíseos, Jóh. 9; svo væri og hinum betra, ad hlustir þeirra byrgdar væru, heldur enn ad hafa eyru og heyra ecki, eins og önnur líknesskja. Margt mætti hér um fleira tala, þó læt eg þetta duga ad svo stöddu; en þad eg hefi ad framan talad um heyrnarskortinn, þad sama vil eg um málheltina tala, ad sönnu er hún stór vansi líkhamans, margur óhlutvandur forsmáir þann, sem er svo málifarinn, þeir hæda ad honum, herma eptir þeim, og láta miklu verr optast, enn hinir sem þeir eptir herma: þetta heitir ad lasta Skaparann, því hann hefir manninum málid gefid, og sá ed fremur þvílíkt gudleysi, hann er nærsta illa talandi í hans eyrum, sem allt heyrir, hann gjörir málsnilli sína þúsundsinnum argari enn brest hins málhalta; ecki heldur bannar túnguhaftid nockrum ad gánga framm fyrir nádarstólinn, sem Gud hefir sett í hans blódi, hann sem ecki upplauk sínum munni, heldur enn eitt lamb til slátrunar leidt, hann gétur vorként þessum sínum vesælíngum, er hann sjálfur skapad hefir, géti hann ecki ödrum ként, géti hann ecki brúkad málid til ad tala máli eckjunnar og hins födurlausa, þá gétur hann þó losad Gud, hann skilur mál hans, sem adgreindi túngurnar, og allar hefir gjört af einni, hann gétur bedid Gud sér til hjálpar og mýskunar, hann er nógu snjallur í Guds eyrum, sem bidur í anda og sannleika, Jóh. 4; eins vel ákalla hinir úngu hrafnarnir Gud og svanurinn, og hverutveggju þessa fædir hann, því stendur nú eingum þessi túngubrestur fyrir neinu gódu hjá honum, sem bædi hefir skapad hinn málausa, og hinn veltalandi; hin er málheltin meiri og skadlegri, þegar menn brúka munninn til ad lasta Gud, hans nafn, hans ord, rángfæra þad, og ad hádi hafa, til ad skémma náúngann, til ad rægja hann, ljúga á hann lítum og skömmum þó saklausann, brixla honum, leggja haft á túngu sína þegar hann á ad forsvara, þegar sannleikanum á vitni ad bera, og færa hlutina til betri vegar; þetta er skélfiligt málleysi, þad er ein höfudskömm í Guds augliti, þarfara væri þeim manni, ad hans túnga væri frá rótum uppskorin, enn ad brúka hana til slíkra ódáda, því svo segir Frelsarinn: betra er ad þú haltur og handarvani inngángir til lífsins, enn ad þú hafir tvær hendur og tvo fætur, og verdir í eylífann eld kastadur, Matth. 5, hver ed vís er þeim, sem temja sér þögn þessa, og þessa málhelti, og nema þeir ydrist af hjarta og láti af slíku ædi, þá munu þeir eylífliga med honum verda, er vér rægikall nefnum, og hefir sitt nafn af því, ad hann áklagar Guds útvalda dag og nótt, þar elda þeir sálum en eta túngur, eldurinn er nógur, kosturinn er mikill, blástur Drottins upptendrar hann svo sem annad brennisteinsflód, Esa. 30, frá hverjum óskopum hinn gódi Gud vardveiti alla kristna menn; en þú sem allt gjördir vel, þú sem lést dausa heyra

og mállausa tala, vík þeim assídis frá fólkinu, frá vondri veröldu þessari, hverra eyru ad allt osmjøg klæja eptir hennar glaum, hverjum eckert mál líkar, nema þad sem henni er þóknanligt; rek þá út af Babýlon, Drottinn minn! jafnvel med svipu þíns krossburdar, svo ad ecki medtaki þeir af plágum hennar; snert eyru vors hjarta med fíngri þínum, sem er þinn andi, svo ad vér høfum vora listíng í løgmáli þínu, og uppleys fjøtur túngu vorrar, svo ad vér tølum rétt, þad sem Gudi sé til lofs og dýrdar, hans kyrkju medal vor til uppbyggíngar, en Andskotans ríki, og allri hans ydni til nidurdreps. Bænheyr þad, vor Lausnari! fyrir þína forþénustu; þér med Fødur, og H. Anda, sé vald og kraptur, ríki og máttur, æra og dýrd, frá einni eylífd til annarar, amen!

## Þrettánda Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Lúk. 10 Kap.

Og Jesús, hann snéri sér til sinna lærisveina, og sagdi þeim einsliga: sæl eru þau augu sem sjá þad, hvad þér sjáid, þvíad eg segi ydur, þad margir spámenn og kongar vildu hafa séd hvad þér sjáid, og sáu þad ecki, og ad heyra hvad þér heyrid og heyrdu þad eigi. Og sjá, ad nockur løgvitríngur stod upp, freistadi hans og sagdi: meistari! hvad skal eg gjøra, svo ad eg eignist eylíft líf? enn hann sagdi til hans: hvad er skrifad í løgmálinu? hvørninn les þú? hann svaradi og sagdi: elska skaltu Drottinn Gud þinn af øllu hjarta þínu, og af allri øndu þinni, og af øllum mætti þínum, og af øllu hugskoti þínu, og þinn náunga sem sjálfann þig. Jesús sagdi til hans: þú svaradir rétt, gjør þad og muntu lifa; en hann vildi réttlæta sjálfann sig, og sagdi til Jesú: hvør er þá minn náungi? Jesús svaradi og sagdi: madur nockur for frá Jerusalem, ofan til Jericho, og hrasadi á medal ræníngja, hvørjir ad rændu hann klædum, og lemstrudu hann sárum, gengu sídan í burt, og létu hann þar eptir hálfdaudan liggja. En svo bar til, ad kénnimadur nockur for ofan þann sama veg, og er hann leit hann, géck hann fram hjá honum; slíkt hid sama Levitinn, þá hann kom nærri þeim stad, og sá hann, géck hann þar fram hjá. En Samverskur madur nockur for um farinn veg, kom þar nærri honum, og sem hann sá hann, þá hrærdist hann af myskun vid hann, og géck ad hønum, batt um sár hans, helti þar í vidsmjøri og víni, og lagdi hann uppá sinn eyk, og flutti til herbergis, gaf og gjætur ad hønum; en annars dags þar eptir þá hann for í burt, tok hann upp tvo peninga, og féck husbuandanum, og sagdi til hans: haf þú gát á honum, og hvad þú leggur meira út, þad skal eg borga nær ad eg kém aptur. Hvør þeirra

þriggja sýnist þér vera þess náúngi, sem hrasadur var á medal ræníngja? en hann sagdi: sá sem gjørdi myskunarverkid á hønum. Jesús sagdi til hans: far þú og gjør slíkt hid sama.

## Exordium.

Hvílíkt óeiníng ad verid hafi millum Gydínga og Samaritskra fordum, þad vottar heilög ritníng í nockrum stødum: hvernig bidur þú mig um ad drecka, þar þú ert Gydíngur, sem er ein Samarisk kona, sagdi hún er taladi vid Frelsarann hjá Jakobs brunni, því ecki samneyta Gydíngar Samaritanum? Jóh. 4. Seigjum vér ecki vel, ad þú ert Samverskur, og hefir Djøful, søgdu þeir gudlastararnir fordum, Jóh. 8; og svo mikid hatur báru Gydíngar til þeirra, ad einn heidíngi mátti Gydíngur gjørast, enn ecki Samariskur, jafnvel þótt þeir brúkudu marga Gydínga sidu í þjónustu sinni, svo sem einn af þeirra meisturum skrifar, og sannast hér medal annars, þad er Frelsarinn taladi vid Phariseos, ad þeir bønnudu mønnunum inn í himnaríki, en sjálfir kjæmu þeir þar ecki, Matth. 23. Af þessu innbyrdis hatri, sem í þá daga var millum Gydínga og Samariskra, tekur Frelsarinn sér orsøk til ad sannfæra þenna løgvitríng, sem gudspjallid umgétur, og má hér rekja spor hans guddómligrar speki, svo vel sem í øllu hans tali. Hefdi hann ecki tekid hinn Samariska til dæmis um myskunarverkid, heldur látid hann vera þann, sem hrasadur var medal ræníngja, þá hefdi þessi gydíngur sagt, ad hann ei verid hefdi náúngi hins, og gydíngurinn þarfyrir ei skyldugur til ad lidsinna hønum í neinu; end fyrst hann var Samaritan, sem myskunsemina framdi, en hinn var Jerúsalems madur, þad er gydíngur, og mátti því myskunar verdur þykja, þá gat hinn ecki frá því gengid, ad hann væri hans náúngi, sem gjørdi gott verk á hønum. Ecki á þessi eptirlíking svo ad skiljast, ad sá sé einasti náúngi, sem gjørir eins og þessi Samaritan, þad gjørir Frelsarinn bert, er hann segir: hver laun hafid þér þess, ad þér elskid þá, er ydur elska, gjøra ecki tollheimtumenn hid sama? Matth. 5, heldur er þessi meiníngin: fyrst þessi Samaritan gjørdi þetta vid einn gydíng, þá far þú, sem ert gydíngur, og gjør slíkt hid sama vid einn Samaritan, edur þinn mesta óvin, þvíad hver ein manneskja er þinn náúngi, nær hønum áliggur. Ut af þessu tali Drottins, vil eg taka mér orsøk til ad tala um kjærleikann, og hvad lángt hann eigi ad ná. Vert þú í verki med oss, Drottinn! svo ad þetta vel luckist, amen!

## Utleggíngin.

Margar dygdir eru bodnar í heilagri ritníngu, og mørgum hrósad, þó engum meir enn kjærleikanum; nú blífa þessi þrjú, trúin, vonin og kjærleikurinn, en kjærleikurinn er þó mestur af þessum, segir Pálus, 1 Cor. 13. Þetta er stór vitnisburdur af hønum, er svo var kjært til ættmanna sinna Gydínganna, ad hann æskti sér ad vera útrekinn frá Christó fyrir þeirra skuld, Róm. 9, hann mun meint hafa, ef þad kynni ad gagna þeim, og þad moguligt væri, því sídarst í hinum 8 kapítula segist hann vera þess fullvíss, ad enginn hlutur muni géta skilid sig vid kjærleika Guds, sem ad er í Christó Jesú. En því hrósar hann nú svo mjøg kjærleikanum fram yfir trúna, án hverrar hann þó segir, ad ómøguligt sé Gudi ad þóknast, Hebr. 1, og ad fyrir hana verdi menn hólpnir, án verka løgmálsins? þad veldur því, ad trúin er daud án verkanna, segir Jakob postuli, Jak. 2, hann meinar án kjærleikans verka, sem þó af henni framkoma, því trúin sýnir abl sitt hvad mest í þeim; satt er þad, ad enginn verdur hólpinn án þess, ad hann trúi á Gud, og hans Krist, og treysti því, ad hann endurkeyptur sé fyrir Guds Sonar blód, en því gétur sá ecki trúad, til sáluhjálpar sér, sem er án kjærleikans; Páluss bidur, ad menn skuli

reyna hvert þeir séu í trúnni; en hvar með ega þeir að reyna það, nema með kjærleikanum, án hvers trúin er engin trú? svo sem kjærleikurinn gétur ecki verið án trúarinnar, svo gétur ei trúin án kjærleikans verið, það vottar Páls, 1 Tim. 1, er hann segir: endir lögmálsins er kjærleikurinn af hreinu hjarta og góðri samvitsku, og trú hræsnislausri. Lögmálið er ómögulígt upp að fylla, það vottar Páll, er hann segir: af lögmálsins verkum mun eckert hold fyrir honum hólpið verða, Róm. 3, þó segir hann aptur í sama pistli: sá ed elskar annann, sá hefir lögmálið uppfyllt, Róm. 13. Hvað ber til þessa, kristnir menn? að vísu svaraði Jesús lögvitríngnum, er spurði hann að, hvert ed væri hið mesta af öllum boðorðunum, Mark. 12, hann svaraði honum: hið æðsta allra boðorðanna er: elska skalltu Drottinn Guð þinn af öllu hjarta þínu, og af allri sálu þinni, og af öllu hugskoti þínu, og af öllum mætti þínum, þetta er hið æðsta boðorð, og annað er því líkt: elska skalltu náúnga þinn, sem sjálfann þig; og í þessum tveimur boðorðum, segir Lausnarinn, að fólgið sé allt lögmálið og spámennirnir, Matth. 22; en svo sem oss er ómögulígt allt lögmálið upp að fylla, svo er oss það og lángt um megn fram, að fullnægja þessum tveimur boðorðum, svo sem vera byrjar, með vorum tilverknaði. Hvilíkur er þá sá kjærleikurinn, sem er lögmálsins uppfylling? það má eg fyrst og fremst hér til svara, að það er hans guðdómligur kjærleiki, sem gaf sitt líf í dauðann fyrir syndarann, Róm. 5, svo hann mætti lifa, 1 Jóh. 4; sú elskan, sem varð honum svo sterk sem dauðinn, og vandlætíngin svo hörð, sem helvítið, hin miklu vötnin kunnu ecki að útslöckva þann kjærleika, og ecki bylgjurnar að kéfja hann, segir brúðurin í Ljóðkvæðinu, 8 kap; þessi óumræðiligi kjærleiki og bruni elskunnar, hann er fyrst og síðarst lögmálsins uppfylling, það vottar Páls, er hann skrifar, Róm. 8: það sem að lögmálinu var ómögulígt, af því það veiktist fyrir holdið, það hefir Guð gjört, sendandi sinn son í líkíngu syndugs holds, og fyrir syndina fordæmt syndina í holdinu; en þótt að gjæska Guðs hafi svo yfirgnæft til vor í Christó Jesú, þarfyrir vill hann ecki að vér skulum hlutlausir vera af kjærleikans verkum innbyrðis meðal vor, því Jóhannes segir með berum orðum: í því er kjærleiki Guðs auglýstur við oss, að hann hefir gefið sál sína út fyrir oss, svo egum og vér að utgéfa sálina fyrir bræðurnar, 1 Jóh. 4; elskan til náúngans er ómissandi, og án hennar er enginn réttnefndur kristinn; hver sem segist elska Guð, en hatar sinn bróður, hann er einn ljúgari, segir Jóhannes, því ef hann ei elskar sinn bróður, þann ed hann sér, hvernig má hann Guð elska, þann ed hann sér ecki? og þar af skulu allir þeckja yður, að þér séuð mínir lærisveinar, að þér elskist innbyrðis, segir Drottinn sjálfur, Jóh. 13. Hér af vill það fylgja, að hann sem ecki elskar sinn bróður, hann er ecki lærisveinn Christi, sá sem ecki er hans lærisveinn, hann er ecki kristinn, og hann sem ecki er kristinn, hann hefir ecki hlutdeild með honum; með hverjum þá? með vantrúuðum mun hann setja hans hlutskipti, í því díki, sem vellur af eldi og brennisteini, já, með Djöflinum og öllum hans árum, þeir ed hata bæði Guð og menn; í einu orði að segja: þar er einkis góðs von á þeim manni, í hverjum kjærleikurinn ecki býr, jafnvel þótt hann sýnist gjöra nockuð gott, kannské til að firra sig vítum, til forðildar sér, og til að þyggja hrós af mönnum, eins og Pharísei gjörðu ölmusur sínar; þar um tekur Páls tvímælin af, er hann segir, 1 Cor. 13:

þótt eg bitadi allar eigur mínar nidur fyrir fátæka, en hefdi ecki kjærleikann, þá gagnadi mér þad ecki; og hér þvert á móti: hver sem kjærleikann í sér hefir blífanda, hann er til allra gódra verka hæfur. Svo segir Jóhannes: Gud er kjærleikurinn, og sá sem blífur í kjærleikanum, hann blífur í Gudi, og Gud í hønum, 1 Joh. 4; þetta hefir sá Guds madur án efa lært af sínum meistara, hver hann elskadi, því svo segir hann blessadur hjá sama gudspjallamanni, 15 kap: sá sem blífur í mér fyrir kjærleikann, og eg í hønum, hann ber mikinn ávøxt, því án mín getid þér eckert. Sjáid hversu ómøguligt er án kjærleikans Gudi ad þócknast, og hversu ad hann er sál allra dygda og mannkosta, því ef sá blífur í Gudi, sem í kjærleikanum blífur, svo sem strax var sagt, þá eru hans verk í Gudi gjørd; því segir og Páls, Col. 3: um alla hluti fram þá hafid kjærleikann, því þad er band fullkomlegleikans; án trúarinnar er ómøguligt Gudi ad þócknast, sem ádur er sagt, en sønn trú er aldrei án kjærleikans, því má eg svo kalla, ad þau séu eins og Fadir og módir allra þeirra athafna, sem nockud ega fyrir Gudi ad gylda. Esaías skrifar svo um Gud, ad eldur hans sé í Zíon, og hans ofn í Jerúsalem, Esa. 31, teiknandi þar med Guds þjónustu í þeim heilaga stad, hvar enn Allrahæsti hafdi sett minníng síns nafns, en sú dyrkan hefir enda tekid, sól réttlætisins hefir skuggann afmád, Zíon er eydiløgd, Jerúsalem er uppbrend, og Gydíngum sitt hús í eydi látid, Matth. 23, því kalla eg ad nú búi Guds eldur og hans ofn í nýa testamentisins musteri, sem er réttkristins manns hjarta, hvar Gud hvílist yfir Cherúbim, yfir þeim nádarstólnum, er hann framsett hefir í hans egin blódi, Róm. 3, í einum glóandi anda, í einni lifandi trú, sem verkar med kjærleikanum, því hún gyldir fyrir Gudi í Christó, en hverki umskurn né yfirhúd, Gál. 5, í elskunni til Guds og náúngans, þad kalla eg hinn ævarandi eld, og sífellt ofnur, þad nefni eg Guds ofn í mannsins hjarta. Þessi høfuddygd, kjærleikurinn, er nú í mørgu fólginn, og alla umgengni vora upptendrar hann til hins góda, ecki sídur enn túngan til hins illa, nær hún er upptendrud af helvíti, svo sem Jakob ad ordi kémst, Jak. 3; en Páls hefir í stuttu máli uppteiknad alla hans edlisháttu svo merkiliga, ad þad verdur ecki af syndugri túngu betur gjørt, svo skrifar hann, 1 Cor. 13: kjærleikurinn er þolinmódur, segir hann, alla hluti þola menn fyrir þad, sem þeir elska; hvad vinna menn ecki fyrir muni veraldar þessarar, fyrir audinn, fyrir metordin, til þess, ad fá hefnd yfir óvinum sínum? þad sama gjørir kjærleikurinn vid Gud og náúngann, Guds vegna, hann er gódgjarn, eckert má hann aumt sjá, hann er ad sínu leiti eins lyndur og Gud, af hverjum hann er, 1 Jóh. 4, hann gjørir gott ef hann getur bædi vinum og óvinum, Matth. 5; kjærleikurinn øfundar ecki, þad er á móti hans náttúru, ad sjá øfsjónum yfir nockurs manns velgengni, sem øllum vill vel; kjærleikurinn gjørir ei illmannliga, þad er, med ødru ordi ad segja, hreckvísliga; hann geymir engann vondann mann, ei talar hann annad med munninum, enn hann hefir fólgid í hjartanu; hann þýtur ecki upp, hann er ecki drambsamur, því sá sem elskar einn, þann vyrdir hann, en kjærleikurinn elskar alla, svo mikid sem elska má med réttu; hann er ecki ósidsamur, þar er valla frá ad segja hvílíks óþocka og mannhaturs ad vanskickunin ablar í heiminum, og útvortis ósidir, jafnvel þótt sumum mønnum þyki lítid í kurteisina spunnid, samt er hún þó optast dygdanna førunautur, og hún prýdir

þær, eins og fagur búníngur mannsins álit, þetta vill ecki kjærleikurinn sig vanta láta, svo ad engum géfi hann neina hneixlan; hann leitar ecki eptir því sem hans er, því hann leitar almenniligs gagns hvad mest, og ecki svo mjøg síns egin; hann er ecki þúnglyndur, verdi hønum þad, ad hann reidist, þá lætur hann þó ecki sólina undirgánga sína reidi; hann þeynkir ecki íllt, ecki á hjá hønum heima þad gamla ordtæki: margur ætlar mig sig, og mátuliga dyggvann, né hitt: ad illur veit hvar ódyggur situr, af því hann ætlar engum íllt, þá dylst hann vid í fremstu løg, ad hreckvísin muni ætla sér þad; hann ber allt, allt hvad hønum er uppálagt, þad ber hann eins og máttartré í húsum, þau bera allt þad sem á þau er lagt, hvadan og málsháttur þessi dreginn er, svo rís hann og undir øllu, sem hann má umbera, Guds og þeirra vegna, sem hann er hvad mest skyldugur; hann trúir øllu, hann vill heldur trúa því, sem hønum er saklaust ad trúa, heldur enn ad væna einn lýgi ad naudsynjalausu, edur ófyrirsynju; hann vonar allt, hann ørvæntir ecki um neinn, ad ei kunni hann ad betra sig, þótt óvænligt megi um hann þykja, ólíkur þeim sem ecki vilja neina tilraun gjøra vid einn, sem af einhverri hrøsun verdur yfirstíginn, eins og Gud sé ecki máttugur ad reisa hann, og þess vegna lídur hann allt, hann sparar eckert þolgjædi til ad bída eptir betran þeirra, þarfyrir talar Salómon vísliga er hann segir, Ordskv. 10: hatrid uppvekur þrætur, en kjærleikurinn hylur misgjørdirnar. Hvad er nú líkara Gudi enn þetta hjartalag? og þessir eru nú kjærleikans ávextir, sem upp eru taldir; en sér í lagi vill Frelsarinn hafa kénnt med þessari eptirlíkíngu miskunsemina og gódgyrnina vid sérhvern þann sem naudstaddur er, því hann svarar hinum skriftlærda uppá spurníngu sína: hver þar væri hans náúngi? þad er ádur hér ad framan sýnt, hversu ad Gydíngar og Samaristir hafi hatast á innbyrdis, og hverugir meintu adra sína náúnga ad vera; en Drottinn snart hér nockud biturt vid kaun hinna skriftlærdu og Faríseanna, þar ed hann tekur til dæmis í eptirlíkíngunni prestinn og Levítann; þessir heiløgu menn, sjálfir gydíngar, þeir gengu fram hjá gydínginum, þar hann lá svo illa farinn sem í gudspallinu segir, en fjandmadur hans, hverjum einkis gydíngsauga mundi miskunad hafa, hann gjørdi miskunarverk á hønum; hann sá aumur á hønum, segir textinn; fyrst vaknadi kjærleikurinn í hjartanu, svo egum vér og lyndir ad vera, því nema ad gódgjørdir vorar framkomi af gnægd hjartans, þá eru þær ónýtar, þad er ádur vottad af Páls ordum, er hann segir, 1 Cor. 13: þótt eg bitadi allar eigur mínar nidur fyrir fátæka, og hefdi ecki kjærleikann, þá gagnadi mér þad ecki; og aptur býdur hann, ad menn skuli gjøra gott, ecki af naudúng, heldur af fúsum huga; en hann lét gódgyrni sína ecki alleina vera fólgna í medaumkuninni, heldur brautst hún út med verkunum. Hann batt hans sár, helti þar í víni og vidsmjøri, med ødru fleira sem textinn upptelur, og ei þarf framar ad uppreikna; en í einu ordi vil eg þad segja: engin módir hefdi kunnad betur ad gjøra vid barn sitt, enginn fadir vid sinn einka son, enginn brádur vid annann, heldur enn þessi útlendíngur gjørdi vid óvin sinn í slíku tilfelli. Far þú nú, kristinn madur! og gjør slíkt hid sama, sem heidíngi þessi gjørdi; elska ecki med ordi og túngu, heldur med verki og sannleika, 1 Jóh. 3, nær þú sér bródur edur systur nakta, og hafa skort á dagligri næríngu, þá lát ecki þinn kjærleika vera þar í fólginn, ad þú segir: lifid heil, vermid ydur og mettid ydur, en géfid þeim þó

ecki hvad líkhamans naudþurft tilheyrir, Jak. 2; þetta er hræsni eintóm, og þad mun eins lítid gagna sálu þinni, nær þú skallt fara eins nakinn í burt úr heiminum, og þú í hann komst, svo sem ad þín fagurmæli gögnudu hinum nakta og húngrada, á medan þú hafdir audlegd heimsins; þad er merkiligt, ad á hinum efsta degi, þegar reikníngurinn skal haldast, þá verdur oss þessi póstur sér í lagi fyrirlagdur: hvert menn hafa mettad hinn húngrada, gefid hinum þyrsta ad drecka, hýst hinn framanda, klædt hinn nakta, vitjad sjúkra, edur þeirra sem voru í myrkvastofu, svo sem Frelsarinn kénnir oss sjálfur hjá Matth. 25 kap; og er þad ecki nóg ad vitja þeirra, þad er eins gott og ad segja vid hinn nakta, klæd þig, og vid hinn húngrada, mettast, enn géfa honum þó eckert; vor vitjun á í því ad vera fólgin, ad hugsvala þeim, hjálpa þeim med rád og dád, annars eru menn ecki betri enn presturinn og Levítinn, þeir sáu ad sönnu hinn auma mann, er hrasadur var medal ræníngja, en gengu fram hjá honum; já, vér egum ad hjálpa þessum krossberendum, jafnvel med skada vorum, og þótt vér megum nockurs í þarfnast. Hér stendur í gudspjallinu, ad Samaritaninn hafi lagt hinn sára mann uppá sinn eyk: líkast er, hann hafi látid hann sitja á dýrinu en gengid sjálfur, því í textanum stendur, ad hann hafi sett hann uppá sinn eginn eyk, já, ef vér ecki berum kunnáttu edur vitsmuni til ad hjálpa þeim sjálfir, þá egum vér ecki ad spara til þess fémuni vora, ad þeim megi hólpid verda; því ef Jóhannes vill ad vér skulum géfa lífid út fyrir brædurnar, þá er þad víst, ad hann ecki vill ad vér þyrma skulum hinum rángláta mammon, er oss mun þó yfirgéfa í daudanum, því þad stendur fast, sem Lausnarinn sagdi: ad alltíd er lífid meira verdt enn fædslan, og líkhaminn meir enn klædnadurinn, og meira hofum vér ecki af öllu því vér egum, og á þetta ecki ad gjöra svo naumt, ad þeir séu litlu nær, sem vid þurfa. Ecki var þessi gódi Samarítan ánægdur þar med, ad koma þessum vesælíng til manna bygda, heldur gaf hann gjætur ad honum, og um morguninn er hann reisti, fékk hann húsbóndanum tvo penínga, og sagdi: haf þú gát á honum, og hvad þú leggur meira út, þad skal eg borga, nær eg kém aptur; ó, hvad mörgum þeim, er sig kristinn nefnir, gétur útlendíngur þessi kinnroda gjört á þessum verstu og sídurstu tímum, um hverja Drottinn hefir talad hina sonnu spá, ad sokum þess, ad ránglætid vex, þá muni margra kjærleiki kólna, Matth. 24. En þessa gódvild egum vér ecki alleina ad audsýna náúngum vorum edur kunníngjum, þad sé eg berliga af því, er Frelsarinn sagdi vid þann, er honum bodid hafdi, Lúk. 14: nær þú heldur middagsverd edur kvöldmáltíd, þá bjód ei vinum þínum, edur brædrum þínum, edur ættmönnum þínum, edur ríkum nágrönnum, svo ad þeir bjódi þér aptur einhvörn tíma, og þad verdi þér endurgoldid; heldur, nær þú gjörir heimbod, þá bjód fátækum, vönudum, höltum og blindum, og muntu sæll verda, því þeir hafa þér ecki aptur ad géfa, því þad skal þér aptur goldid verda í upprisu réttlátra; þarfyrir, ef þú kristinn madur ert, ef þú villt í þeirri upprisu hlutdeild hafa, þá sjá til, ad þú náir hlutskipti í hinni fyrri, svo þú verdir sæll, og fel þig ecki fyrir holdi þínu, þad er, fyrir þínum náúnga, hver sem hellst hann er, og nær þú sér einn naudstaddann, er þú hjálpad gétur, þá lát svo sem hid sídarsta lúdurs hljód kvedi fyrir eyrum þér, og tak þad fyrir bod

frá Gudi, til ad minna þig á, ad gjøra skyldu þína med kjærleikans verki vid hinn naudstadda; lát engann vera undan skilinn, þó þér óþeckur sé; gleymid ecki géstrisninni, segir Páll, því fyrir hana hafa sumir englana hýst óvitandi, Hebr. 13; hann meinar án efa Abraham, Gén. 18, og vard hønum þad ad mikilli blessan; þú veist ecki hvørjum Guds þøck er ad gjøra, en þad veistu, ad hann þacka vill alt þad, sem í hans nafni gjørt og géfid er. Framandi var eg, og þér hýstud mig, segir Dómari alls holds; þú skallt ecki gjøra ofríki hinum framandi, því þú varst framandi í Egyptalandi, segir Gud, Exód. 22; þú skallt og hugsa þad, ad þú ert framandi í hinni vondu Egyptó, veraldu þessari, í þeirri leyrveltunni, því þrældómshúsinu; í hinni eylífu Canaan er þitt fødurland, þángad áttu inn ad gánga til hans hvíldar, þángad á þig ad leida, ecki Jesús sonur Nún, heldur Jesús sonur Davíds; forsmá ecki þá, sem hann hefir med sínu blódi endurleyst, er sjálfur framandi var medal sinna egin, og hvad minnst vyrdtur á sinni fósturjørdu fyrir þína skuld, sem varst útlægur úr himnaríki, og svo þú vitir, ad þad sé ecki nóg, ad gjøra hinum framanda, edur naudstadda eckert mein, þá leggur Drottinn sjálfur best út sín eigin ord, þar hann segir, Lev. 19: svo sem hinn innlendi, svo skal útlendíngurinn vera, sá ed reisir um hjá þér; og enn framar: þú skallt ecki upptaka leifar kornskéru þinnar, þú skalt láta þær eptir hinum fátæka, og hinum útlenda, Levit. 23; já, þér skulud elska hinn framanda, því þér vorud framandi í Egyptalandi, segir hinn alvaldi Konúngur, Devt. 10. Ecki eru undan þessari skyldu óvinir þínir skildir, Guds barn! heldur í henni tilskildir, svo segir Drottinn, Exód. 23: ef þú finnur naut óvinar þíns, edur asna villuráfandi, þá skaltu endiliga færa þad til hans. Vilji nú Drottinn ad einn skuli vera sínum óvin skuldbundinn í svo litlum hlut, hvad þá ecki, ef hønum meira áliggur, og þótt eckert væri annad, sem kynni ad hræra oss til ad gjæta þessarar skyldu vorrar, þá er hid algjørda og alkunnuga løgmál Christí, er ritad stendur hjá Matth. 5 kap: elskid óvini ydar, blessid þá er ydur formæla, og bidjid fyrir þeim ed smána ydur og ofsækja; til hvers? svo ad þér séud børn Fødur ydar, sem á himnum er, hver ed lætur sól sína upprenna yfir réttláta og rángláta, og rigna yfir vonda og góda. Jesús mátti hér djarft um tala, hann var í Guds mynd, Phil. 2, já, sjálfur Gud, eylífur fadir og fridarhøfdíngi, Esa. 9, þó lítilæckadi hann sjálfann sig, takandi þjónsmynd, vordinn hlídugur allt til daudans, já, allt til krossins dauda, sídan er hann uppfarinn í hædirnar, og hefir mønnunum gáfur géfid; en hvílíkar gáfur? nád Guds og vingan, syndanna fyrirgéfníng, H. Anda, og eylíft líf; hverjum hefir hann þessar gáfur sendt? óvinum sínum, þeim sem hann hæddu, fjøtrudu, húdstrýcktu, med þyrnum kórónudu, og á gálgann uppheingdu, ecki einasta þeim, er stódu ad verkinu, heldur og øllum ødrum, hverra syndir ad dýrdarinnar hertoga krossfest hafa, því fyrir alla er hann dáinn, og øllum er Guds heilsusamlig nád frambodin; þetta gjørdi hann, sem er ljómi fødursins dýrdar, þegar allt mannkyn var statt í hinu herfiligasta volædi. Skammastu þín þarfyrir, syndarinn! nær þú sér óvin þinn húngra, ad géfa hønum ecki ad eta, edur þyrsta, og géfa hønum ecki ad drecka, og nema þú svo gjørir, þá þeink aldrei til þess, ad þú sért kvittur um syndir þínar fyrir Gudi, því valla hefir Guds andi í nýa testamentinu lagt svo ríkt á vid mennina um nockurn hlut, sem þenna. Allir

øllum vér Gud vorn herra, en ef hann er vor herra, hvar er þá hans heidur? Mal. 1; hvar er hlýdni sú, er vér eigum hønum ad audsýna? því kallid þér mig herra, og gjørid þó ecki þá hluti, er eg býd? segir Kristur, Lúk. 6; hans bodord eru ecki þúng, segir Jóhannes, en eg vil segja, ad þetta er eitt af þeim léttustu, af þeim audveldustu, fyrir þann sem hugleidir hvad lítil sé náúngans misgjørd vid sig, hjá því sem hann sjálfur hefir gjørt Gudi í mót, og hversu þad er eckert, sem hann gétur lidsint bródur sínum, hjá øllu því gódu sem Gud hefir hønum gjørt, og tekur hann þad þó ecki af sínu, heldur hans, sem á allar eigur. Drottinn útsløck þú í oss bál illskunnar, og heiptræknínnar, en kveik oss elskuna til þín og náúngans; þér sé lof, dýrd og heidur, um aldir, amen.

# Fjórtánda Sunnudag eptir Trínitatis.

## Gudspjallid, Lúk. 17 Kap.

J þann tíma; og þad skédi svo, þá ed Jesús géck til Jerúsalem, id hann ferdadist í gégnum midja Samaríam og Galíleam; en em hann géck inn í nockurt kauptún, mættu hønum tíu líkþráir nenn, hvørjir ad stodu lángt frá, hofu upp sínar raddir, og søgdu: Jesú godi meistari! myskuna þú oss. En sem hann leit þá, sagdi hann til þeirra: farid þér og sýnid ydur kénnimønnunum. Og þad skédi svo, þá er þeir géngu þadan, ad þeir urdu hreinir. En inn út af þeim, nær hann sá þad, ad hann var heilbrigdur vordnn, snéri hann aptur, lofandi Gud med hárri raust, féll fram á ína ásjonu fyrir fætur Jesú, gjørandi hønum þackir, og þessi var Samverskur. En Jesús svaradi og sagdi: hvørt voru ecki tíu reinsadir? en hvar eru hinir níu? fundust aungvir þeir apturnéri, ad géfa Gudi dýrdina, nema þessi útlendíngur? og hann sagdi il hans: statt upp og far hédan, þvíad þín trú gjørdi þig hjálpigann.

## Exordium.

Hversu stór ad sé mismunur Guds og manna, þad kann engin túnga út ad skíra, og engin hugur ad skilja: hver manna veit hvad mannsins er, nema mannsins andi sem í hønum er? svo og hvad Guds er veit enginn, nema Guds Andi, segir Pálus, 1 Cor. 2. En þó ad vor náttúrligur skilníngur nái skamt til þess, ad ransaka Guds undirdjúp, þá kynnum vér þó á þessum mismun nockud skírari grein ad gjøra, ef vér legdum meiri hug á, ad samanbera hans almætti og vorn vanmátt, hans réttlæti og vort ránglæti, hans vísdóm og fáskjænsku vora, en þó allra hellst hans þolinmædi og vora þvermódsku, hans gjæsku og vort óþacklæti; hans almætti þeckjum vér ecki svo sem þad er; sitt réttlæti sýnir hann oss ecki svo opt, nema í gjæskunni, því veldur ríkdómur hans þolinmædis; hans vísdóm skynjum vér ecki, en hans lánglundar géd, hans gjæsku og myskunsemi meigum vér hvad best þeckja, því hún er ný og fersk yfir oss á hverjum morgni, jørdinn er full af henni, á hverri vér orstum, syndugir ormar, og meigum dagliga rekja þar hans spor, sem drjúpa af feiti. Eg

skal ecki fullkomna mína brennandi reidi, eg skal ecki tortína framar Ephraim, þvf eg em Gud og ecki madur, segir Gjæskan sjálf fyrir munn Hóseæ spámanns, 11 kap; og þó vill syndarinn ecki kannast vid þessa guddómliga elsku, myskunsemi og þolinmædi, jafnvel þótt hann sé madur, þad er, ein gusa, ein vatnsbóla, og ecki Gud, og ecki þacka honum edur kannast vid hans födurliga gjæsku, margur hver; já, Gud gjæfi ad færri væru enn fleiri. Dæmi hér uppá sjáum vér í textanum, á þessum tíu líkþráu mennum, sem hreinsadir voru, hverra einn alleina aptursnéri, og gaf Gudi dýrdina, en hinir níu gleymdu því ad bragdi er gjört var. Eg vil skipta gudspjallinu í tvo hluti, og hugleida: 1) óþacklæti hinna níu; 2) þacklæti hins eina. Jésú gódi meistari! hjálpa oss hér til med krapti þíns Anda, amen!

## Utleggíngin.

Ecki er trúin allra, segir Pálus, 2 Tess. 3, öllum er hún þó frambodin sem ordid heyra, því heilsusamlig Guds nád er opinber vordin öllum mönnum, segir Postulinn aptur, Tit. 2, er hann talar um kristnibodid, í hverju ad trúin er eitt höfudstycki; margur trúir um stundarsakir, en á freistíngartímanum, þá fellur hann þar frá, svo sem Lausnarinn kénnir hjá Lúkam, 8 kap. Ad vísu er þad satt, ad freistíng merkir optliga í ritníngunni þær hörmúngar, er Gud lætur börnum sínum mæta, til ad reyna þau; ydur hefir ecki hendt nema mannlig freistni, segir Pálus, þad er mótlæti þad, sem mönnum er bæriligt; svo nefnir og Jakob mótlæti Guds barna, 1 kap; en Gud freistar mannsins á stundum med eptirlæti sínu: þegar Gud lét Davíd allt ad ósku gánga, þá vard hann svo freistadur, ad hann taldi fólkid, 2 Sam. 24; þegar Ezechias konúngur hafdi luku í öllu sínu verki, þá freistadist hann til ad sýna Babýlons höfdíngja sendimönnum fjársjódu sína og gersemar, 2 Cron. 32; svo ad þad má allt syndugt hold játa, ad ecki er minni freistínga von í medlætinu enn í mótlætinu, svo sem móttgángurinn steypir sumum í örvænting, svo þursa og sterk bein til ad þola góda daga. Mörgum hefir velgengnin komid til óhófs, til ofmetnadar, til óþacklætis vid Gud, og jafnvel til afgudadírkunar, já, þeim og, sem Gud hafa ádur vel þeckt, og hann úr duptinu hafid hefir, en sett til mikillrar tignar, hvar um ljóst vitni bera Jeróbóam og Jehú Israels konúngar, sem ecki voru kóngbornir, en Gud þó upphóf á tignarstól drottna sinna. Ecki verdur því neitad, ad allir þessir líkþráu menn, þeir hafa í fyrstunni trúad á Krist, því upphófu þeir raddir sínar, og sögdu: Jesú meistari! myskunna þú oss, þad hefdu þeir ei gjört, nema þeir hefdu heyrt ríktid af Drottni, og treyst því, ad med honum væri guddómligur kraptur; er eg Gud sá ed kunni ad deyda edur lífga, sagdi Israels konúngur, þegar konúngurinn af Syría sendi Naaman hinn sýrlendska til hans, þad eg géti hreinsad þenna mann af sinni líkþrá, 2 Kóng. 5, hvar af audsært er, ad þad hefir verid ad jöfnu lagt í þá daga, ad lækna þesshattar sjúkdóm, og ad uppvekja af daudum, sem er Guds alleina, svo sem Davíd vottar, og er því audvitad, ad þessir veiku menn hafi tillagt Frelsaranum nockurskonar guddómligann heidur, þótt ei hafi þeir verid sannfródir um hans persónu, samt dugdi þessi trú til líkhamans lækníngar. Drottinn læknadi þá ecki strax, eins og hinn líkþráa, er gétur um hjá Matth. 8 kap., vid hvern hann snart og sagdi: eg vil vertu hreinn; heldur sagdi hann alleina: farid og sýnid ydur kénnimönnunum, og áttu þeir þó lánga leid til þeirra úr Samaría upp til Jerúsalem, en á leidinni hafa þeir hreinsadir vordid, því Gudspjallid segir: og þad

skèdi er þeir voru á ferdinni, ad þeir hreinsudust; þetta sýnir trú þeirra, ad þeir efudust ecki um, ad gjøra Frelsarans skipan, heldur í trausti hans orda byrjudu ferd sína til kénnimannanna, sem eptir løgmálinu ættu ad dæma um, hvert þeir væru hreinir edur ei; ólíkir voru þeir í þessu mørgum þeim, er ei vilja Gudi treista, verdi þeir ecki strax bænheyrdir, um þá hluti er þeir þurfa þykjast. Vantrúin segir: þótt Gud gjørdi glugga á himininn, þá kann ecki þetta ad ské, hún skítur sér inn jafnvel hjá Guds børnum, og prédikar: hvar fáum vér brand hér í eydimørku, svo ad þessir neyti, Mark. 8; hvad títt hendir oss þvílíkt nær oss þykir eitthvad ólíkligt? og er margur af oss í þessu mjøg ólíkur þessum líkþráu mønnum; en í hinu erum vér þeim nærsta líkir, ad þegar Drottins almáttuga hønd hefir útrykt oss af neydinni, þá erum vér þess svo skamm=minnugir, og hans ótti er valla lengur hjá oss enn snjórinn á steinunum, þegar regnid ofan kémur, svo sem spámadurinn segir; og hvad er tídara enn þad, ad nær ángistin þreyngir ad oss, ad vér þá køllum til Drottins, þá er vort sinni til hans, svo sem Esaías ad ordi kémst, 26 kap. Hver er sá, nær hann sjúkur er, edur af einhverjum líkhamans meinum plágadur, ad ecki sé hann reidubuinn til ad géfa Gudi handskrift sína, ef hann mætti, uppá betran lífernisins, og ad hann vilji láta af øllum þeim syndum, er hann veit og vidkannast, ad hann hafi hinn góda Gud styggdann med? þetta er ad vísu alvara flestra manna, því enginn hygg eg ad vilji gabba Gud, þegar svo ástendur; ásetníngurinn er ad sønnu gódur, og gengur þad fyrir fullt, ef Gud lætur einn burtkallast í sjúkdóminum; en þá er efndanna vant, þegar heitid er komid, segir ordtækid, hvernig þeim sé varid á stundum, þad sjáum vér af þeim mørgum sem hætt hafa legid, en Guds þolinmædi og gjæska hefir aptur á fætur reist, ad þeir lifa engu betur sídan enn ádur, nema midur sé á stundum, og láta jafnvel ecki af þeim løstum, er verid hafa orsok til meinlætis þeirra, edur annars mótgángs, og brúka svo mysku Guds til eblíngar syndanna; svo lángt er frá því, ad þeir láti ríkdóm hans þolinmædis draga sig til ydrunar, Róm. 2. Menn hafa á medal vor eina skroksøgu um barn nockurt, þad er féll í pitt, og er þad meinti sér daudavon, beiddi þad Gud ad hjálpa sér til lífsins, en er þad slapp úr díkinu upp á backann, þá segir æfintírid, ad barnid hafi sagt: ecki þarftu, eg gat; einfaldlig er saga þessi, en þó er hún mátulig til þess, og þar til mun hún diktud vera, ad gjøra þeim kinnroda, sem eru børn í skynseminni, en ecki í hreckvísinni, 1 Cor. 14, og leita Guds alleina nær þeim áliggur, en annadhvert þacka sér, edur gjalda hønum litlar þackir, nær þeir sloppnir eru úr vandrædunum; þetta er almennara, en vitni þurfi til ad leida, jafnvel hjá þeim, sem hvad best ættu ad vita síns herra vilja, Lúk. 12, og ødrum ad vera til eptirdæmis, er þó mættu óttast fyrir hinum flestu sløgum, nær mælir syndanna er uppfylltur. Til eru þeir sem meina, ad prestarnir hafi umsnúid þessum níu gydíngum, og talid þeim trú þar um, ad Jesús hefdi ei gjørt jarteikn þessa af Guds krapti, og því hafi þeir ecki aptur horfid. Ills var ad sønnu ills von af þeim í þá daga, serdeilis þegar Kristur átti hlutinn ad, og var ecki ólíkt því er hann mátti heyra, ad fyrir Belzebub ræki hann út djøflana, Lúk. 11; þad getur og skéd, ad þeir hafi talad þetta fyrir gydíngum, løndum sínum, en ecki hyrdt svo mjøg um hinn útlenda mann, þeim hefir þad í engu rúmi legid, þótt hann snéri aptur til hans, er þeir

kölludu Samaritkann og hefdi Djöfulinn, Jóh. 8; en gátu þessarar er enginn þörf; hold og blód er nógu bannvænt til ad vekja í oss syndina, og ad letja oss til ad gjöra Gudi þackir fyrir myskun sína, er þó dagliga upprennur yfir oss ránglátum á hverjum morgni. A medann þessir veiku menn láu undir krossinum, þá voru þeir gódir vinir, og allir í einum flocki, en þegar Drottinn hafdi gefid þeim öllum heilsuna aptur, þá könnudust hinir níu vid þad, ad þeir voru gydíngar, en hinn Samverskur, því ecki vildú þeir verda hönum samferda í apturhvarfinu til Frelsarans; þannveg er vort þackláti vid Gud, er hvad mest hefir bodid ad dírka sig med kjærleikanum, mykunseminni og eindrægninni. Þegar skeinkjari Pharaónis hefir nád aptur síns herra gunst, þá gleymir hann Jósepþ, því hann var útlendur; þegar skuldaþrjóturinn, sem átti 10000 pund ad gjalda, þegar hann er útgenginn frá húsfödurnum, sem gaf hönum upp alla skuldina, þá grípur hann fyrir kverkar sínum verkanaut, er hönum var miklu minna skyldugur. Svo gengur þad til fyrir mörgum af oss; hafi Gud upphafid einn vesæling til heidurs, til ríkdóms, til embættis, þá vill hann ecki kannast vid brædur sína, er skömmu ádur voru hans jafníngjar, og kannské höfdu gjört vel til hans; þegar hinn Almáttugi hefir lagt einhvern undir líma med nockru mótlæti, annadhvert heilsubresti, fémissir, ofbeldi og ofsóknum vondra manna, er hann lídur ad fljúga á suma, sem minni máttar eru, til ad typta einhvern, en látid hann þó rata úr þessu, og sett hann aptur í sinn stad, þá stíngur hann bædi augun út, og vill ecki myskuna hönum, sem hann þó sér, ad má lída hid sama, sem hann mátti þola, og Gud hafdi agad hann med, til ad þeckja vanmátt sinn, og Skaparans gæsku, og þegar hann sér óvin sinn, er hann þykist eiga heiptir ad gjalda, þá segir hann med sjálfum sér: eg skal gjöra hönum, svo sem hann mér gjördi; svoddan er hid mesta óþackláti. Voru ecki tíu þeir ed hreinsadir voru, en hvar eru þá hinir níu? segir Endurlausnarinn í gudspjallinu. Betra hefdi þessum óþacklátu mönnum verid, ad sjúkleiki þeirra hefdi fylgt þeim inn til daudans, enn ad þeir yrdu heilbrygdir á líkhamanum, en fyrir vanbrúkun Drottins gæsku, á sálunni vanheilir. Þeir skildu sig frá þessum útlenda manni í því, ad þeir snéru ecki aptur til síns læknara, og sýndu þar med, ad ei væru þeir af hinni ósýniligu Guds kyrkju, þótt ad þeir væru limir hinnar sýniligu; svo vil eg segja: ad þeir, sem eg hér ad framan hefi talad um, er vilja frásskildir vera Christí limum, og ecki þeckja þá, þeir eru stallbrædur þessarar óþacklátu manna, og ecki limir á hans líkhama, sem er höfud safnadarins, og ecki einasta géck kríng, gjördi gott og grædddi alla, heldur og leid fyrir óvini sína, jafnvel þá, er hann sjálfir kvöldu. Vér vorum til forna útlendir, án Guds í heiminum, og fjarlægir Israels borgarrétti, svo sem Páus ad ordi kémst, Eph. 2; hvert ad þessir níu gydíngar hafi nockurn tíma aptur nád sinni andligri heilbrygdi, þad veit hann einn, sem alleina veit tölu sinna útvaldra barna; en sjáum vér til, útlendínganna synir, ad vér heldur líkjumst þessum útlendíng, heldur enn Abrahams sonum þessum, eptir holdinu, svo ad spádómur Frelsarans mætti rætast á sérhverjum af oss, þar hann sagdi: margir munu koma af austri og vestri, og sitja til bords med Abraham, Isaak og Jakob, en ríkisins synir munu útreknir verda í hin ytstu myrkur, Matth. 8. Vér erum ad sönnu komnir í stadinn gydínga, svo sem ad Drottinn útrak heidíngja fyrir þeim,

vegna synda sinna og stórglæpa, svo hefir hann útrekid þá fyrir oss, sökum hardýdgis þeirra og vantrúar, þeir eru afbrotnir, en vér innplantadir, svo sem Páluss ad ordi kémst, Róm. 11; en Gud géfi, ad fleiri enn einn Samarítan finnist á medal tíu Israels manna, þad er þeirra, sem eiga ad vera, og kalla sig Abrahams syni eptir trúnni. Díógenes spekíngur var eitt sinn adspurdur, hver hlutur ad mest fyrntist á medal mannanna, en hann svaradi: þad væru gódgjördirnar; því má ei neyta, ad hann sagdi satt, daglig reinsla kénnir þad; en hvernig sem þessu er varid á medal vor mannanna innbyrdis, þá ætla eg þó, ad velgjörníngar Drottins, og þacklætid fyrir þá, þau eigi hinn skémsta aldur hjá sumumhverjum, og eg má segja, hjá allmörgum; þar um hygg eg þad satt sé, er hinir spöku segja: ad sumir vanþacki þess meir, sem þeir meira skyldugir eru, sökum þess, ad vér sjáum hver annann, og þar sem oss er eitt sinn gott gjört, þadan væntum vér meira, þá látumst vér þacka mönnunum, ecki svo af hjarta sumirhverjir, svo sem til ad örfa þá til, ad halda áfram gódvildinni, þad sést á stundum, nær þeir eru í einhverjum þrautum staddir, sem hvad best hafa til vor gjört; en födur ljósanna, frá hverjum ad kémur öll gód gjöf, og öll fullkomin gjöf, Jak. 1, og allt hvad frá mönnunum kémur, þad kémur í fyrstunni frá Gudi, hönum þacka menn svo lítt, af því vér sjáum hann ecki, en þreifum þó á hans gjæsku, hans velgjörníngum og dásemdum, hvern dag, hvern tíma, og hvert augnablik; og skal þad nú svo úttalad um þad fyrra.

Nú er sídan ad tala um þacklæti útlendíngsins, og hvad vér egum af því ad læra; drottníngin af sudri mun upprísa og fordæma þessa kynslód, sagdi lausnarinn, Matth. 12, hún var framandi, og þó dádist hún svo ad speki Salómónis, ad lausnarinn hrósar henni í þessum ordum: en öll Salómónis dýrd var lítil ad reikna hjá þessu kraptaverki Drottins; því má eg þad segja, ad þessi útlendski madur mun géta kénnt mörgum atferd þacklætisins vid Gud, fyrir medtekna velgjörnínga. Hvernig gjörir hann þad? gudspjallid segir: hann hafi prísad Gud med hárri röddu; lof seg þú önd mín Drottni, og allt hvad í mér er hans h. nafni, segir Davíd, hvar af sjá má, ad hann vill ad allir partar skapnadar vors skuli Gud lofa, á medal hverra ad raustin er ecki hinn minnsti. Alla hluti hefir Gud gjört sér til dírdar, og til vorrar sáluhjálpar; óskandi væri, ad menn brúkudu þá þar eptir. Hvad opt bídur Davíd, ad menn skuli Gudi lof síngja? Móses saung Gudi nýann lofsaung, María systir þeirra Arons gékk út og prísadi Gud med bumbum og hljódfærum, þegar Gud hafdi gjört hina stóru endurlausn sínu fólki af Egyptalandi, Exód. 15; svo er þad en nú hjá oss bædi skipad og venjuligt, ad prísa Gud med sálmum og lofsaungvum, eptir Páls bodi, Cól. 3. Ecki segi eg, ad þessi Samarítan hafi kvedid vid raust, en þetta, ad hann prísadi Gud med hárri röddu, þad minnir mig þar á, ad vér látum lofsaungva vora ecki alleina vera fólgna í hljódunum, heldur þar med í gudrækni hjartans, því hér stendur, ad hann hafi prísad Gud, af hverju audsært er, ad hugur hefir máli fylgt. Ecki verdur Drottinn med því prísadur, ad nálgast hann med vörunum, ecki heldur med raustinni alleina, hversu sem hún fögur er, hann vegur hjartad, sem er hjartnanna og nírnanna rannsakari, gjæti þeir þess, er fara med andligar vísur og sálma, alleina ad gamni sér, brúka þær fyrir ölvísur, edur til annars gjálífis, hyggi menn ad, hvert ecki er

í þessu nockur gudlastan; í þetta mun þykja lítid spunnid, því þad er alment, en Gud lætur ecki ad sér hæda, þótt ordin séu góð, þótt dyckturinn fallegur, þótt raustin sé væn, þá eru soddan lofsaungvar ecki annad enn nyt fyrir utan kjarna, ský fyrir utan regn, og meir til þess ad styggja Gud, enn ad prísa hann; vilji menn því síngja Gudi lof, edur prísa hann med roddu sinni, þá síngi menn eins og Pálus og Sílas í fángelsinu, Act. 16, eins og Guds módir, eins og St. Páll um sig segir, 1 Cor. 14: eg skal síngja med andanum, eg skal og síngja med hugskotinu, þad er, eg skal láta hug máli fylgja, án þessa er raustin ónýt til ad prísa Gud; miklu betur lætur þögn Mósis, er hann hrópadi til Guds, Exód. 14, en ecki gétur um, ad nockur hafi séd hans varir bærast; miklu betur þegjandi grátur Önnu módir Samúelis, og miklu betur trú og heimuglig andvarpan hinnar blódfallssjúku í hans eyrum, sem eyrad plantad hefir. Hann féll til fóta Jesú, segir í gudspjallinu: þetta var hid mesta audmýktar merki; ad sönnu plögudu gydíngar ad bidjast fyrir standandi í samkundunni; tollheimtumadurinn stód og badst fyrir, sama gjördi Pharíseinn, því segir og Lausnarinn, Mark. 11: nær þér standid og bidjist fyrir, þá fyrirgéfid, ef þér hafid eitthvad á móti nockrum, svo býdur og Pálus, 1 Tím. 2, ad menn skuli upphefja heilagar hendur, þó var þad sidur gydínga, nær þeir sér í lagi vildu audmýkja sig, ad þeir köstudu sér flötum fram fyrir Gud: þanninn gjördi Jósúa, Jos. 7, svo breytti Davíd, og sjálfur Frelsarinn í sinni mestu ángist. Audmýktin gengur undan vegsemdinni, segir Salómon, Ordskv. 15, enginn hlutur er Gudi þægari, enn einn audmjúkur andi; í vorri audmýkt minntist hann á oss, segir Davíd, Ps. 136, já, hann lítur á tal hins audmjúka, og forsmáir ecki hans bæn, segir hann enn aptur, Ps. 101; hversu vel þócknadist Gudi audmýkt Abrahams, er hann sagdist vera dupt og aska, Önnu húsfrú Elkanæ, Gedeonis, er hann sagdist vera hinn minnsti í síns födurs húsi, Jud. 6; þad stendur fast sem Salómon skrifar: hinum drambláta fylgir nidurdrepid á eptir, og þann sem audmjúkur er í anda, mun vegsemdin upphefja, Ordskv. 29. Og því skyldi manneskjan ecki audmýkja sig fyrir Gudi? einn syndari fyrir hinum heilaga, einn ormur fyrir Konúngi himins og jardar, einn skuldaþrjótur fyrir þeim er dagliga uppgéfur hönum svo mörg tíu þúsund punda, hvers gjæska ad er hærri enn himininn, hvers reidi ad brennur allt til nedsta helvítis yfir hinum dramblátu, hver ed voldugum hrindir af stóli, en lítilátum géfur hann náð; og hversu eru menn ecki audmjúkir í annara manna augsýn, jafnvel á stundum fyrir einn bita brauds; o, hvílík lotníng ber þá hönum, sem dagliga upplíkur sinni mildu hendi, og sedur allar lifandi skepnur? Gjörandi hönum þackir, segir í textanum: þessi framandi madur hafdi ádur sýnt Drottni gudligann heidur, þar hann féll til fóta hönum, hvad Gudi alleina tilheyrir, jafnvel þótt sumir veraldar höfdíngjar hafi látid sig svo tigna, einkum Persanna konúngar í fyrndinni, því ecki vildi eingillinn taka slíku af Jóhanne, er hann sagdi: sjá til ad ei gjörir þú þetta, tilbid þú Gud, Apoc. 19; nú fyrst hann þeckti hans guddómligann krapt og vald, þá offrar hann hönum þackargjördinni. Svo sem enginn hlutur meir styggir Gud enn óþacklætid, hvar um ádur er nockud talad, svo er og þacklætid hans kjærasti skattur, og snart ad segja, sá einasti, af mennunum, því ad þessi skylda á ad sýna sig í öllu því, er vér leitumst vid ad gjöra

Gudi til þócknunar, þarfyrir segir Páluß: allt hvad þér gjørid med ordi og verki, þad gjørid í nafni Jesú Christí, og þackid Gudi og fødur fyrir hann, Col. 3. Þacklætinu er svo varid, nær þad framkémur af elskunni til Guds, og trúudu hjarta, ad þad ecki einasta géldur Gudi undanfarnar velgjørdir, því annad heimtir hann ecki, heldur og býdur ødrum heim af hans myskunar hendi; ecki þrýtur hjá hønum, ef oss þrýtur ecki þad sem hann hefir á oss skilid, og syndugum manni er hægast úti ad láta, sem er audmjúkt þacklæti. Et eg nockud kjøt hinna sterku uxanna, edur dreck blód hafranna? segir Gud fyrir Davíds munn, Ps. 50. Offra þú Drottni lofgjørdinni, og gjald hinum Hærsta þín heit, og er manneskjan nærsta hyrdulítil um sín egin efni, ad hún ecki skuli leggja allann hug á þetta, þar Gud krefur svo lítils hlutar af henni, í hverju henni ecki einasta eru engin útlát, heldur er þad í sjálfu sér hid mesta yndæli, þeim sem vordinn er einn andi med Gudi, þad er sá fagnudur í H. Anda, sem vér egum ad byrja hér fyrst í Guds nádarríki, en sídan skal fullkomnast í dýrdinni, þegar þad tekur enda sem hálfverkid er, því þad mun í hinni eylífu sælu verda hid mesta eptirlæti Guds barna, ad lofa hann og þacka hønum fyrir allar hans dásemdir og velgjørnínga, hverja vér þá fyrst þeckjum, svo sem vér þecktir verdum, en hér ecki nema svo sem fyrir spegil í rádgátu, 1 Cor. 13, nú er þad ecki nóg, ad menn gjøri Gudi þackir med munninum alleina, hjartad á med ad fylgja. Hversu inniligar þackir ad madur þessi hafi gjørt Frelsaranum, þad sýna oss ord Drottins, er hann sagdi: þín trúa gjørdi þig hólpinn. Og ecki einasta á þacklætid ad frammkoma af hjartanu, þad er létt fyrir þann, sem hugleidir, ad hann er Gudi um sál og líf skyldugur, ad þacka Gudi af alvøru, heldur á og gnægd hjartans ad brjótast út med verkinu í betrun lifnadarins, í idkun hinna bestu dygda og mannkosta, og øllu því er vér Gudi þócknanligt vitum vera; þad býdur Páluß, er hann segir: eptir því Kristur er dáinn fyrir alla, þá er þad réttvíst, ad vér ecki framar skulum lifa sjálfum oss, heldur hønum sem fyrir oss er dáinn, 2 Cor. 5; en þó á þessi vidurkénníng Guds gjarsku hvad mest ad láta sjá sig í myskunarverkunum vid þá, sem bera Drottins kross. Frelsarinn sá aumur á þessum veiku mønnum, og læknadi þá: gjør slíkt hid sama, vert myskunsamur, svo sem hann var myskunsamur, og nær þú sér þvílíkt eitt lifandi hræ, þá hyxa til þess, og lát sjá þad í gjørníngnum, ad þú vidkannist, ad þú ert í skírninni hreinsadur, af hinni andligu líkþrá syndinni, sem er øllum sjúkdómum skjædari. Minn herra Jesú! eg hefi ecki gledi af nockurs manns hørmúngu, nema þinni; hvar fyrir? þvíad allra manna harmkvæli eru straff syndarinnar, en nær eg sé, ad þeir eru typtadir, en eg em heill og hraustur, þá kémur mér í hug, ad eg hefi hid sama forskuldad, eg, sem ad er hinn mesti á medal syndaranna; en þegar eg álít þínar hørmúngar, Drottinn minn! er þú ecki hafdir forskuldad, en leidst þó saklaus minna vegna, þá stend eg upp med þessum útlendíng, þá hressist hugur minn, þar eg trúi, ad mínar illgjørdir séu þarfyrir kvittar, ad Gud hefir lidid í holdinu, svo gjørir mín trúa mig hólpinn, og þess fullørugganu, ad þinn himneskur Fadir hefir kastad syndum mínum í hafsins djúp, svo þeirra minníng komi ei upp ad eylífu. Þér med hønum, ásamt H. Anda, sé veldi og kraptur, dýrd og heidur, um aldir alda, amen.

# Fimtánda Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Matth. 6 Kap.

Á þeim tíma, Jesús sagdi til sinna lærisveina: enginn kann tveimur herrum ad þjona, annadhvert hann afrækir þann eina, og elskar hinn annann, eda hann adhillist þann eina, og fyrirlítur hinn annann; eigi gétid þér Gudi þjonad, og Mammona. Þarfyrir segi eg ydur: verid eigi hugsjúkir fyrir ydru lífi, hvad þér skulud eta og drecka, og eigi heldur fyrir ydrum líkhama, hvorju þér skulud klædast; eda er ecki lífid meir enn fædslan, og líkhaminn meir enn klædnadurinn? lítid á fugla himins, þeir ed hvørki sá né uppskéra, og ecki heldur safna þeir í kornhlødu, og ydar himneskur fadir hann fædir þá; eda erud þér ecki miklu framar enn þeir? en hvør ydar gétur med sinni áhyggju aukid eirnri alin vid sína leingd? og hvar til erud þér hugsjúkir fyrir klædnadinum? hyggid ad akursins lilju grøsum, hvornin þau vaxa, þau vinna ecki né spinna; en eg segi ydur, þad Salomon í allri sinni dýrd, var eigi svo skríddur sem eitt af þeim, og ef Gud klædir svo grasid þad í dag er á akri, og á morgnu verdur í ofn kastad, skyldi hann ecki miklu framar þad sama vid ydur gjøra, o, þér lítiltrúadir? Þarfyrir skulud þér ecki hugsjúkir vera, svo segjandi: hvad eigum vér ad eta, eda hvad eigum vér ad drecka, eda med hvørju eigum vér ad klædast? þvíad eptir þessu øllu leita heidnar þjodir, og ydar himneskur fadir, hann veit ad þér þurfid alls þessa vid. Þarfyrir leitid fyrst Guds ríkis, og svo hans réttlætis, og mun ydur allt þetta tilleggjast. Fyrir því skulid þér ecki áhyggju bera fyrir morgundeiginum, þvíad morgundagurinn mun fyrir sjálfum ser umhyggju bera; hvørjum degi nægir sín þjáning.

## E x o r d í u m.

Þótt ad hugur vor sé hin dásamligasta sképna Guds undir sólunni, þá gétur honum ecki tvískipt vordid, til ad rækja þá hluti, sem gagnstædir eru hver ødrum, svo er hann kreinktur af spillíngu þeirri, sem vér eptir Adam erfdum; en ádur enn vondskan innkom í heiminn, þá var eckert Gudi mótstædiligt, allar sképnur hlíddu honum, þad var allt harla gott, er hann skóp, illskan ein er honum óhlídin, og þeir hlutir, sem af henni framkoma, hverra hofundur ad Djøfullinn er, og hans þénari hinn gudlausi heimur þessi; medal Guds og hans er eylífur fjandskapur stadfestur, sídann hann var út úr himninum rekinn, svo er og heimurinn, því segir Jakob, 4 kap: hann, sem er heimsins vinur, hann gjørist Guds óvinur; hægra er vatni og vidsmjøri saman ad blanda, enn þessa ad sorlíka, svo ad hverugs þénarar géta annars verid; þad vill Frelsarinn kénna oss í upplesnu gudspjalli, er hann segir: ad enginn kunni tveim herrum ad þjóna, og ad vér gétum ecki undir eins þjónad Gudi, og Mammóna. Þetta ord Mammóna, þýdir ábata, eptir sumra vísinda manna útleggíngu, en allskonar nægtir og fullsælu fjár, eptir sumra; hún er ad sonnu stór Guds gáfa, nær hún er af honum þeg-

in, og ecki af Fjandanum edur ad hans rádum útvegud, brúkud edur medfarin, því segir Frelsarinn ecki: þér kunnid eigi Gudi ad þjóna, og þó leita næríngar ydar í sveita ydar andlitis, edur taka vid því, er Gud vill láta ydur í skaut falla; ecki heldur segir hann: þér kunnid ecki Gudi ad þjóna, og ríkir ad vera; margur Abraham, Isaak, Jakob og Jóseph, ecki einasta hann sem var forvista Egyptalands í tíd Pharaónis, heldur og hinn af Arimathía, er Drottinn gróf, þeir hefdu verid útreknir úr þénustu hins stóra konúngs himins og jardar, ef svo væri; heldur sekum þess, ad audurinn er Gud veraldar þessarar, og hennar børn leita hans framar enn Guds ríkis og hans réttlætis, þá vill Frelsarinn kénnt hafa í prédikun þessari, ad ómøguligt sé bádum ad þjóna, og þad ord er hér í textanum stendur, ad þjóna, þad merkir ad vera ánaudugur þræll einhvers. Nú þarf einga adra roksemd til þess ad sýna, ad þessu tvennu sé ómøgulegt saman ad koma, heldur enn Drottins eginn ord, hvlad í hans munni eru aldrei svik fundin. En eg vil út af gudspjallinu tvennt hugleida, sem er: 1) hversu gott þad sé Gudi ad þjóna; 2) hvílík plága þad sé, ad vera Mammons þræll. Þú alleina ríki gódi Gud! stjórna þú hjørtum vorum, þér til þjónustu hér í tímanum, svo vér meigum þér eylífliga þjóna, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Hversu gott sé Gudi ad þjóna, þad kann einginn nógliga ad skynja, nema sá, sem af alvøru er Guds þénari. Allir menn képpast vid ad ná þénustu hjá tignum mønnum, því þad þykir heidarligt; sælir eru menn þínir, og þénarar þínir, er standa ydugliga frammi fyrir þér, og heyra speki þína, sagdi drottníngin af Saba vid konúnginn Salómon, 1 Kóng. 10; en sjá, hér er meiri enn Salómon, því, ef ad Drottinn segir hér í gudspjallinu, ad Salómon í allri sinni dýrd, hafi ecki svo skrýddur verid, svo sem eitt af akursins liljugrøsum, hversu lángt var hann þá frá því, ad koma í nockurn samjøfnud vid Himnanna Konúng, hann sem þá hefir útþanid, og prýdt med hinum fogru ljósum og dægiliga himinsins her, sem vér augum lítum; og er þad þó svo sem myrkur ad reikna hjá sjálfri hans dírd, sem uppljómar hina fogru Jerúsalem Guds barna borg, sem er þar uppi, hverrar sól og túngl hann sjálfur er, og sjálfur býr í því ljósi, sem enginn fær tilkomist; hann sem loptid hefir útbreidt, og skapad alla fuglana þar inni, forsorgar þá, vidheldur þeim, géfur þeim sína fædu í hentugann tíma, svo ad Lausnarinn segir hér í gudspjallinu: ad ecki einn af þeim falli á jordu án síns fødurs vilja; hann hefir sjóinn gjørt og alla fiskana þar inni, smáa og stóra, og innilykur hann í sínum hnefa, segjandi til hafsins: hingad skalltu komast, og hér skulu þínar stoltu bylgjur leggja sig, Job. 38; hann ed sjálfur hefir tilbúid akursins liljugrøs, prýdt jordina med skógum, dýrum, fjøllum, hálsum, dølum, og árliga framleidir af henni allrahanda ávoxt og aldini, hinum lifandi sképnunum, og þó allra helst manninum til nota og uppheldis; og allra sídarst skóp hann hid vegligasta og dásamligasta dýr undir sólunni, eptir sinni egin mynd, sem er madurinn, já, endurskóp hann í synd og dauda fallinn, og tók hann í sátt aptur, endurleysti hann, ecki med gulli og sylfri, heldur med síns eingétins Sonar díra blódi, 1 Pet. 1, helgadi hann óhreinann, af óhreinum kominn, endurnýar alla þá, sem sinn skírnarsáttmála ecki vísvitandi undir fótum treda, fyrirgéfur oss dagliga margar syndir, því dagliga syndgumst vér, og vinnum ecki nema til hegníngar; hverjum er oss sæmra, hverjum skyldugra og vegsamligra ad

þjóna, enn hönum, í hvers hendi ad er öll lifandi sál? hver ad er vor styrkleiki, vor prís, og er vordinn oss til hjálprædis, Esa. 12. En svo sem þad er ágjætt og vegligt, ad þjóna Konúngi Dýrdarinnar, svo er þad ecki sídur gagnsamligt. Þad er oss öllum kunnugt, hversu mikil umsvif ad daudligir menn hafa fyrir þessa fallvalta lífs næríngu, sem þó lítils vid þarf í sjálfu sér, og þrítur nær allra minst vonum varir, og þó eru sumir menn ecki ánægdir, fyrr enn þeir hafa kornhlödur sínar fullar, svo þeir géti sagt med hinum ríka mauraþegn, Lúk. 12: et og dreck sála mín, þvíad þú hefir til margra ára samansafnad. En hvad segir Frelsarinn hér í gudspjallinu? verid eigi hugsjúkir fyrir ydru lífi, hvad þér skulud eta og drecka, og eigi heldur fyrir ydrum líkama, hverju þér skulud klædast, med ödrum fleiri ordum, sem þar á eptirfylgja, og eru full af guddómligri speki. Med miklu snarrædi hefi eg þá aflokid allri áhyggju minni, sem kvelur hinn vantrúada og ágjarna, þegar eg hefi kastad henni uppá hann, sem á öll dýrin á mörkinni, Ps. 50, og allt silfur og gull er hans; mun hugsýki mín draga mig leingra á leid, enn hans fyrirhyggja? og fyrst um máttinn er ecki ad efast, þá kann eg ecki viljann ad ugga. Nóg er þad, ad Drottinn segir, hér í gudspjallinu: ydar himneskur fadir veit, ad þér hafid alls þessa þörf. Ef Gud er minn Fadir, mun hann þá ecki forsorga mig? ef eg, sem vondur er, kann ad géfa barni mínu gódar gáfur, mun þá minn himneski Fadir géfa mér stein fyrir braud, edur höggorm fyrir fisk? en þótt hann á stundum láti mig vanta þessa lífs næríngu, eptir sínum þægiligum vilja, mun hann þarfyrir hafa gleimt mysckunsamur ad vera? mun hann samt ecki vera minn Fadir? eg kalla þad ecki gódann födur, og ecki forsjálann, sem ad elur barn sitt svo kappsamliga, ad hann undir eins elur upp í því matvendni og annann ósóma, má eg þá kunna Gud fyrir þad, ad hann neitar mér um þær nægtir, er mig skadar; nóg er þad, ad eg veit ad hann er minn fadir, trúr er hann, og freistar einkis yfir megn fram. Þegar mér allt ad óskum gengur, þá finn eg kannské valla til þess, ad hann er minn Fadir; eg kynni ad gjörast lauslátur þegar eg er fullur og feitur eins og Israel, Devt. 32, af því veit eg, ad eg ecki er hjábarn, ad hann typtar mig, af því sé eg ad hann elskar mig, Heb. 12; í allri þeirra ángist, þá ángradi hann þá ecki, heldur verndadi þá engill hans auglitis, og forsvaradi þá med mildi sinni, segir Esaías 64 kap.; hver er sá auglitisins engillinn, minn herra Jesú! nema þú Christi? þú byrtist án aflátz fyrir augliti vors Födur á himnum, svo sem einn eylífur kénnimadur, þú ert mynd hins ósýniliga Guds, Col. 1, þú ert í Födursins skauti, Jóh. 1, þín medalgánga verkar þad, Drottinn minn! ad jafnvel í hinni mestu ángist, finna börn Födur þíns til einkis ángurs, þvíad þinn vondur og þinn stafur hugga oss, Ps. 23, vitnisburdur þíns Anda telur oss trú þar um, ad vér Guds börn séum, Róm. 8, þar fyrir reiknum vér ecki mótlætíngar þessara tíma verdar þeirrar dýrdar, sem vid oss framkoma mun í eylífu lífi, og hér af kémur þad, ad svo vegligt og svo þarfligt sem þad er Gudi ad þjóna, svo er þad og yndælt og ununarsamligt. Hvad er þad sem menn allra mest sækja eptir í heiminum? þad er ad vera ánægdur, og una vel hag sínum, en þar er valla nockur sá, er nái þeirri fullsælu af veraldar munum, edur munudum, ad hönum þyki sig eckert vanta. David kénnir oss eitt ædra og betra ráð, er hann segir: haf þína unadsemd í Drottni, og mun hann géfa þér þad

sem þitt hjarta gyrnist, Ps. 37. Satt er það, að vegna þeirra nákvæmu teingda, sem eru á millum sálar og líkhama, þá hryggist hún eður gleðst af því, sem hönum gott eður illt til fellur, en þó eru þau ecki svo mjög skyld, að ei sé Guð henni skyldari; ecki er hún af sama efni gjörð og líkhaminn, sem af moldu var skapaður, Guð blés lifandi anda í mannsins nasir, segir ritníngin, Gén. 2, hún er af engu sköpt eins og englarnir, hverjir í Jobs bók, 1 kap., kallast Guðs synir; svo kallar og Lúkas Adam föður vorn, Lúk. 3, og Páluls segir, vér séum hans kyns, það er líkrar veru, en þó ecki hinnar sömu; Guð er einn andi, segir Jóhannes, andi hefir ei hold né bein, eins og þér sjáið mig hafa, segir Frelsarinn; hér af kémur það, að þótt Adam yfirgæfi sinn uppruna, þá hefir hinn allra hærsti svo bætt ráð vort aptur fyrir hinn annann Adam, sem er Guð af himnum, að hvað elskar sér líkt, svo þegar einn er vorðinn einn andi með Guði, og ummyndaður eptir hans mynd, er skapaði hann, þá fær sálin krapt af hæðum, sem er henni miklu skyldari, og sterkari þeirri elsku sem hún hefir á líkhamanum, svo að hún reiknar alla hluti þreck að vera hjá Jesú Christó sínum Drottni, eins og Páluls, hún hrósar sér af engu, nema af hans krossi, fyrir hvern henni er heimurinn krossfestur og hún heiminum, Gal. 6. Svo yndælt er það nú Guði að þjóna, að það er unnunarsamligt, jafnvel í hörmúngunum; Páluls talar þannig um hinn sanna kristindóm, 1 Tim. 4: að guðhræðslan sé til allra hluta nytsamlig, hafandi fyrirheit bæði þessa lífs, og hins komanda. Þessi er hin rétta Guðs þjónusta; en hvað þá? ecki hefir Guð í nýa testamentinu heitið sínum þjónustumönnum svo mikilli veraldar farsæld, jafnvel þótt hann veiti þeim hana á stundum; hvar í er þá fyrirheitið innifalið? í því að hann gefur þeim sjálfan sig, sem er öllu æðra, sá sem hann á, hann hefir eignast allt, og sá sem ecki hefir hlutdeild í hönum, hann hefir minna enn ecki, hann vantar jafnvel það hann hefir, því Guðs ríki er ecki matur né dryckur, heldur friður og fögnuður í H. Anda, þar fyrir segir Páluls enn aptur, 1 Tim. 6: að guðhræðslan sé mikill ábati með því skapi, sem lætur sér sína luckn nægja. Nú er það ecki einasta vegsamligt, þarfligt og yndælt Guði að þjóna, heldur og er það einsætt og ómissandi, svo að án þess kunna menn ecki Guðs börn að heita, né sáluhjálpina að erfa, og sjá þá allir þeir sem trúa því, að himnaríki og helvíti sé til, þeir sjá hvað miklu að tapað er, ef menn skjétast úr Guðs þjónustu; bölvaður veri sá sem ecki elskar Drottinn vorn Jesúm Christum, segir Páluls, 1 Cor. 16; en að elska hann, og að þjóna hönum, það er allt hið sama, hönum verður aldrei þjónað fyrir utan elsku, og aldrei verður hann elskaður fyrir utan þjónustu, því í þjónustunni skulu menn sýna elskuna, og af elskunni þjónustuna; þess vegna spurði Drottinn St. Pétur að, áður enn hann bauð hönum að fæða lömb sín og sauði sína, hvert hann elskaði sig, Jóh. 21; sama er að segja um hvern einn, hvaða starf sem hann á hendi hefir af Guðs álfu; en allir hafa nóg; enginn er sá, að ecki hafi sitt pund af Guði, eins vel bóndinn á akrinum, svo sem presturinn í kyrkjunni, eður dómarinn í sínu sæti, og allir þessir eru hönum eins kjærir, nær þeir gjöra verk sinnar kallanar trúliga í ótta Drottins, því sjálfur hefir hann þeim verkið í hendur fengið; á ecki smiðurinn leirsins vald, má hann ecki gjöra þar af hvað hann vill? Róm. 9; því er einsætt að þjóna hönum af allri trú, eptir því sem hann hefir sérhverjum umboðið, annars

erum vér ecki hans réttir þjónustumenn; einn stridsþegn á ecki þar ad standa í fylkíngunni, er hann sjálfur vill, heldur þar sem höfdínginn baud. hönum; eg em madur yfirvaldinu undirgéfinn, hafandi undir mér stridsfólk, sagdi hundrads höfdínginn í Kapernaum vid Frelsarann, Lúk. 7, og nær eg segi þessum, kom þú, þá kémur hann, og hinum, far þú, og hann fer, og þræli mínum gjör þetta, og hann gjörir þad; eins á þad ad vera í Christí herfor hér á jördunni, þar skal hver sitja, sem hann hefir hann settann, þar inni skal hann Gudi þjóna, ef hann vill þócknast hönum sem valdi hann til bardagans, 2 Tim. 2, því ecki er þad nóg, ad leggja höndina á plóginn, en líta aptur til þess sem til baka er, sá þad gjörir, hann er ei hæfur til Guds ríkis, segir Lausnarinn. Segid mér, til hvers hefir Gud manninn skapad, nema til þess, ad hann skuli þjóna sér? allir hlutir adrir eru mannsins vegna skapadir, því alla þá hefir hann lagt undir hans fætur, Ps. 8, en madurinn er Guds vegna gjördur, ecki þess vegna, ad hann þyrfti hans med, heldur ad hann skyldi þjóna sér, til ad lifa þar af eilífliga; hverjum er oss skyldara ad þjóna, enn hönum sem oss skapadi? hefir Mammon nockurn skapad? vesæll er hann til þess, vanskapad gétur hann suma menn, en engann hefir hann skapad né endurskapad. Kalla menn þad ecki gudlaust ræktarleysi, ef börnin ei vilja ljást foreldrunum til þjónustu? og hvad skulum vér þá um hann tala, sem er Fadir yfir allt þad sem börn kallast bædi á himni og jördu? til hvers hefir Guds Sonur endurleyst oss? segir ecki Lutherus oss þad í frædunum? til ad þjóna hönum í réttlæti og heilagleika alla vora lífdaga; til hvers hefir Andi Drottins kallad oss, helgad og upplýst med sínum ástgjöfum? mun ecki til þess, ad vér gaungum verdugliga þeirri köllun, hvar inni vér kalladir erum? Eph. 4; Því álykta eg svo, ad sá sem ecki vill Gudi þjóna, hann er ecki hans barn, ecki Christí lærisveirn, og ecki limur Guds kyrkju; hvad er hann þá? Djöfulsins barn, þræll syndarinnar, og helvítis eldibrandur; nú er þetta svo sagt um þad fyrra, er eg hét um ad tala.

Hvad hinu sídara vidvíkur, þá hefi eg til forna í inngánginum sagt, hver ad sé meiníng Frelsarans í þessum ordum, þó vil eg því hér vidauka um sama efni, ad þar Drottinn segir: enginn kann tveimur herrum ad þjóna, þá meinar hann tvo, þá sem eru hver ödrum gagnstædir; þjóna kunna menn foreldrunum, yfirvaldinu, og náunganum, í öllu því sem Gud hefir bodid, og þó undir eins Gudi; hvar fyrir? þvíad svoddan þjónusta og Guds þjónusta eru eitt? sá sem þjónar þeim sem af konúnginum sendir eru, hann þjónar konúnginum; sá sem konúnginum þjónar í því sem Gud bodid hefir, hann þjónar Gudi. Eins er á hina sídnna, sá sem þjónar Mammóna, hann þjónar heiminum, sá sem þjónar heiminum, hann þjónar syndinni, hver ed syndinni þjónar, hann er þræll syndarinnar, en hann sem er þræll syndarinnar, hann er undir eins þræll Andskotans, og er þessu ómöguligt saman ad koma, þetta vottar Páls, er hann segir, Róm. 6: vitid þér ecki, ad hverjum þér gjörist þjónustulundnir, til hlýdnis, hans þénarar erud þér, hvert heldur syndarinnar til daudans, edur hlýdninnar til réttlætisins. Og þetta ord, herra, merkir hér svoddan yfirrád, nær einn selur sig einum svo aldeilis á vald, ad hann á ad mestu hans öll rád; vel kann eg ad þjóna einum, þótt ecki sé hann minn herra, svo hefir og Gud aldrei bannad, ad þjóna ad gáfum sínum, heldur leyst ad brúka heiminn, en ecki

.d vanbrúka hann, ecki bannad ad eignast audinn, heldur ad festa hjartad vid hann, því á þad gjörir, hann er réttur mammonsþræll, hans herra er ábatinn og audurinn, því alla luti vill hann til hans vinna, og jafnvel ad tapa sálu sinni, sem mörg munu dæmi géf-st, og er þá engin þjónusta argari; hún er sérdeilis med tvennu móti: fyrst, nær madur afnar audnum med hverju móti, sem hann kann, hyrdandi eckert um, hvert þad er rétt dur rángt, edur hversu þrælsligt edur óhreinligt þad er, þetta er skaplöstur sá, er vér gyrni köllum; Páls segir um hana, ad hún sé afgudadýrkun, Eph. 5, þad er hverju rdi sannara, því hinn ágjarni hefir ecki annann Gud enn Mammóna, hann svífist ecki ad hja Guds volada saudi, til ad fylla púng sinn, ecki ad sverja vid hans nafn, og þó ráng-iga á stundum, ef hann gétur ábatast um eitt álnarvirdi; ecki þyrmir hann kyrkjum né énnimönnum, konúnginn svíkur hann gjarnann, ef hann má, sem er ein höfudskömm, g í einu ordi ad seigja: hann tredur öll Guds bodord undir fætur sér; hvad vantar þá il skúrgodadýrkunarinnar? betra er af illu ad tilbidja líknesk juna, enn ad vera svo seldur Mammóna í þrældóm, því margur sá sem einn afgud hefir, hann ætlar þó, ad hann muni egna vondra verka, en launa hin gódu, og svo hafa flestir heidíngjar meint, en ágyrnd-a hefir engann Gud, og er þá ei von á verra. Þú segir: eg vil dýrka Gud, heyra hans rd, síngja honum lof; eg geng til hans bords, trúi á hann, ydrast synda minna, verda á, ad svo sé; en ef þú dírkar Gud, þá lát mig sjá ad þú gjörir þad ei, sem hann bann-d hefir, edur verdur hann nockud dýrkadur med ráni og stuldi, med svikum og prettum, ied lygum og méinsæri; ef hann er þinn Gud, ef hann er þinn Fadir, hvar er þá hans eidur? þú seigist heyra hans ord, hvar eru þá ávextirnir? eru þeir þad sem strax var pptalid? sjá til, ad þú ecki heyrir þad til dóms áfellis þér, þú heyrir þad, svo er þetta. Sádmadurinn géck út ad sá, en þad hann sádi, féll á medal þyrna, þar sem þú áttir lutinn ad, og þyrnin uxu upp, og kæfdu þad; hvad þad sé, máttu læra af útleggíngu frelsarans, er hann segir, Matth. 13: þad sem sád var medal þyrna, er sá ed ordid eyrir, og umsorgun þessarar aldar, og villa audsins kéfur ordid, og hann verdur ávaxt-rlaus; þú lofar Gud ad sönnu med vörunum, en hjartad er lángt þar frá, þad er út á úgardi þínum, og hjá aknautum þínum; þú gengur til Guds bords, en tekur þó med ér gésti þá, sem hann ecki má lída; sjá til ad ecki etir þú og dreckir þér dóm; þú trúir á Gud, sýn mér trú þína af verkunum, segir Jakob; þú ydrast syndanna, lát þá af illu, g lær gott ad gjöra, Es. 1, annars meina eg þú viljir undir eins þjóna Gudi og Mamm-na, og er þín Guds þjónusta þá engu betri enn Gydínga fordum, þeir ed færdu Gudi órnir í Jerúsalems musteri, en offrudu þó á hædunum, og í öllu þessu launar Mammon énnurum sínum illa, hann sedur þá med harmabraudi. Páll segir, ad ágyrndin sé rót lls ills, 1 Tim. 6, fyrst er hún rót lastanna, svo sem ádur er sagt; Gud forsmáir hún, ans nafn skyrrist hún ecki vid ad misbrúka vegna ábatans, hvíldardaga Drottins hefir ún til ávinníngs, þá gengur hennar plógur hvad kappsamligast, svo ad hún jafnvel kén-r þá ödrum til ad syndga, foreldrum, bornum og náfrændum þyrmir hún ecki. Margur efir veigid mann til fjár, ecki ætla eg ad sumir menn séu vandir ad hlut sínum í skirlífinu, ·gar fed er í bodi. Um sjounda bodordid vil eg ei tala, hun á þar heima, og hvad er

tídara, enn ad ljúga vegna ábatans, og gjøra sig falann til ad bera ljúgvitni; en ecki einasta fremur hún þetta móti Gudi og náunganum, heldur kvelur hún sinn eginn þræl, svo þad má um hana segja, sem Davíd segir um hinn ógudliga, á medal hverra sépúkinn er hinn mesti, ad hans plágur séu margar. Helvíti og glötunin verda aldrei fyld, segir Salómon, Ordskv. 27, svo eru og augu hins ágjarna, þess meira hann dreckur, þess meira þyrstir hann; eins og hinar møgru Pharaónis kýr, svo er hinn ágjarni, þegar þær høfdu uppetid hinar feitu, þá sást þad ecki, ad þær hefdu komid í maga þeirra, segir ritníngin, Gén. 41, rétt eins og Ovidíus skáld kvedur um Erisichthónem gudníding, ad þess meira sem hann át, þess meira svalt hann, fyllin vard hønum orsøk til æ meira húngurs, svo þegar hann hafdi selt aleigu sína fyrir mat, þá seldi hann dóttur sína, og sídarst allra tók hann ad naga sína egin limu; svo er og hinum ágjarna varid, þad hann fær, þad fyllir hann ecki, hann er eins soltinn eptir sem ádur, ecki sparar hann vini né frændur, og þegar hann nær engu, þá etur hann sitt egid hjarta, af því, ad hann gétur ei uppetid hús eckna og føðurlausra. Mørgum af þessum mammonspúkum lídur Drottinn ad fylla kornhløður sínar, og adrar hyrdslur med auranægt, en þess vita menn og nockur dæmi, ad þess meira þeir nidur sá í ránglætinu, þess minna uppskéra þeir, nema í skadseminni, svo ad hyrdslur þeirra eru eins og óþétt lagarfat, sem ecki heldur því, sem í þad er látid; þess gétur Salómon, Ordskv. 11, er hann segir: einn útbýtir sínu egin, og verdur ríkari, annar innihaldur þar sem ecki skal, og er jafnann fátækur; þetta er rétt ad eta, og verda þó ecki mettur, og ad drecka, og verda þó ecki druckinn. Hin ønnur þjónusta Mammons er sú, ad liggja of fast á því, sem einn á, eins og Móab á dreggjum sínum, jafnvel þótt velfengid vera kunni; ad sønnu eru þetta adgreindir lestir ad nockru leiti, en þó nærsta skyldir hver ødrum. Til eru þeir ad vísu, sem taka allt frá øllum, sem þeir ná, en láta þó eckert af hendi rakna vid nockurn, þeim er hvad verst varid, og optliga plagar slíkt ad haldast í hendur; hins eru og dæmi, ad sumir menn eru ecki mjøg ásælnir, en vilja þó eckert útiláta, þessa kalla menn nídska, og er hann ad sønnu illskárri enn hinn, en þó samt mammonsþræll, ecki munar þá nema í því, ad þegar Mammon skipar, þá fer hinn ágjarni, en níðíngurinn hefir ecki svo mikid vald yfir hønum, ad hann géti rekid hann úr stad, jafnvel þótt hann eigi øll hans rád, þá lætur hann svo dátt ad hønum, svo sem módir ad einka syni, og vill ecki gjøra hønum ómak; líkir eru þeir Saduceis, er ecki vildu gjøra á annars hlut, ecki vildu þeir heldur neinum gott gjøra; þeir eru brædur Nabals, er ei vildi géfa Davíd mat, þegar hann mælti til þess í naudsýn sinni, og hafdi þó til matar unnid, 1 Sam. 25; já, þeir eru argari enn Nabal, því hann tímdi ad láta eptir sér og hyski sínu, en þessum er svo audurinn sár, ad þeir neita sínum eginn líkhama um naudsýnliga hluti; ecki hafa þeir lesid þad er Salómon skrifar, Ordskv. 3: hinn réttláti etur svo mikid sem hann vidþarf, en maga hins ófróma vantar altíd; og enn sídur þad hann ritad hefir í Prédikunar bókarinnar 6 kap: þar er ein ólucka er eg sá undir sólunni, og hún hin mesta yfir mønnunum: einn madur sá ed Gud géfur ríkdóm og audæfi, og heidur, hvers hjarta ad eckert vantar, og Gud géfur hønum þó ecki magt til ad neyta þess hins sama; svoddan óþocka sjálfs síns eru þó nockrir, svo lángt er frá því, ad þeir klædi edur

i bródur edur systur, nær þeir sjá þau nakin edur húngrud, og er þetta hinn mesti dómur, þad er rétt køllud afgudadýrkun; þad sem kristnir menn ættu ad gjøra Gudi þjónustu, sem er ad þvínga líkhama sinn og gjøra hann ad þræl, þad sama gjøra vid Mammóna, segid mér: er hann þá ecki þeirra gud? Veri þeir nú saman, sem þetta, hverjum betra sé ad þjóna, Gudi edur ábatanum; hvernig ad Gud ali ønn fyrir n þénurum, þad er ádur sagt í hinum fyrra partinum, en hvernig Mammon fari med þad hefi eg í hinu sídara talad um med fám ordum; því vil eg segja vid ydur, sti børn! hid sama og Jósúa sagdi vid Israel skømmu fyrir andlát sitt, Jós. 24: segid, t þér viljid þjóna Jehóvæ Gudi ydar, edur ei; en þeir svørudu allir: vér viljum þjóna ttni Gudi vorum; Drottinn minn og Gud minn! géf þú oss þad sinni, ad þad, sem játudu med munninum, megum vér med hjarta, ordi og verkum uppfylla allt til vors lífs, svo vér megum úr bitum bera kórónu lífsins, hverja þú Konúngur nádar- r géfa munt øllum þeim, sem elska tilkomu þíns Sonar; bænheyr þad fyrir hans og forþénustu, amen!

## Sextánda Sunnudag eptir Trínitatis.

### Gudspjallid, Lúk. 7 Kap.

þann tíma, og þad skédi svo, eptir þad ad Jesús géck til þeirr- borgar, sem kallast Naín, og hans lærisveinar gengu margir ) honum, og mikill fjøldi annars folks; þá er hann tok ad ægjast borgarhlidid, sjá þú! þad framlidinn madur var bor- ut, einka sonur sinnar modur, og hun var eckja, og mikill di borgarmanna géck ut med henni. En þá ed Drottinn leit a, hrærdist hann myskunar yfir henni, og sagdi til hennar: t þú eigi; og hann géck þar ad og áhrærdi kistuna; en þeir, báru, stodu vid; og hann sagdi: þú ungmenni! eg segi þér, þú upp! og sá settist upp, sem framlidinn var, og tok til ad la; og hann gaf hann aptur sinni modur. En allir urdu otta nir, lofudu Gud og søgdu: spámadur mikill er á medal vor risinn, og Gud hefir vitjad sins folks; og þessi saga barst ut honum um allt Gydinga land, og um øll kríngum liggjandi ðd.

## Exordium.

ımmu ádur enn Drottinn gjørdi þetta mikla kraptaverk, sem þessa dags evangélium ir oss, þá flutti hann þá ágjætu prédikun fyrir lýdnum, sem ritud stendur í nærst fyr- andi kapítula, Lúk. 6, hver og er af Mattheó uppte.knud í hans gudspjalla 5 kapítula; ıni standa, medal annara, þessi ord: sælir eru þeir sem harma, því þeir munu hlæja; theus segir oss þad á þenna hátt: þeir skulu huggadir verda, sem er allt hid sama, því

þar heyrir engin sorg til ad gjøra sig gladan, segir ordtækid, og enginn hlær, nema hønum sé gladt í hug, og gladur er enginn, nema hann huggadur sé. Þad er addáanligt ad hugleida, hvernig Frelsarinn á døgum holdsvistar sinnar hefir vísliga hagad síns embættis útréttingum; margt þad, sem ad í greindri prédikun stendur, þad er gagnstædt holdi og blódi. hvørju ad øll typtan þykir sorg og engin gledi ad vera, medan hún áliggur, segir Páluś, Hebr. 12, og gjætir ecki þess, ad eptir á géfur hún fridsamligan ávøxt réttlætisins; en til þess, ad hinn gódi Meistari færdi sønnur á mál sitt, þá gjørir hann sér ferd úr Kapernaum til borgarinnar Naín, til ad styrkja med þessari jarteikn, hvad hann ádur talad hafdi. Enginn skal meina ad þetta hafi skéd af hendíngu, ad Drottinn mætti þessari líkfør, heldur fyrir því hann vissi alla hluti, þá hefir sá án efa verid tilgángurinn, sem nú hefi eg ádur sagt, og þar ad auki ad géfa øllum sorgbitnum eckjum og munadarlausum eitt æfinligt huggunarinnar dæmi, og fullrar vonar og trúnadartrausts um sína hjartgróna myskunsemi yfir þeim, ad hann vilji vera fadir fødurlausra, og forsvar ecknanna, Devt. 10, Ps. 68. Og fyrir því, ad þetta heilaga gudspjall er nærsta glediligt ad hugleida fyrir alla þá, sem þreya eptir ástvini sína, sem þeim í lífinu hafa til gledi og adstodar verid, þá vil eg af því tvennt yfirvega: 1) hvad eckjurnar eigi ad hugga sig vid í sínum einstædíngskap; 2) hvad þeim eigi til huggunar ad verda, er missa børn sín, jafnvel á únga aldri. En þú, sem ert Fadir yfir allt þad, sem børn kallast, bædi á himni og jerdu, styrk þú mál mitt, og tilbú svo hjørtu barna þinna, ad þetta þitt eyrindi megi vel takast, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Hér stendur í gudspjallinu um módur þessa úngmennis, ad hún hafi eckja verid; þad stand hefir jafnan haldid verid aumt og óskémtiligt, sem og ad líkindum lætur; Davíd veit varla annad líkara ad óska, hvert heldur sínum edur Guds óvin, enn ad børn hans skuli verda munadarlaus og hans kvinna eckja, Ps. 109; vondir ómagar eru fødurlausir, og mædur vorar svo sem eckjur, segir Jeremías í harmagrátnum, 1 og 5 kap. Nú er þad víst, ad slíkt er reidi teikn Drottins á stundum og straff syndanna, eins og hvert annad mótlæti, en hvergi nærri alltíd, því varla er nockurt stand í heilagri ritníngu umgétid, sem hinn Almáttugi vill heldur taka í forsvar, enn eckju-dóminn, því fyrir utan þad, ad hann vill sjálfur vera þeirra forsvar og fæda þær, þá hefir hann sérílagi géfid þeim verndar bréf í sínu h. løgmáli á þenna hátt: engri eckju edur ómyndugum skaltu þjáníng gjøra, ef þú sýnir hønum þjáníng nockra, (því, ef hann ad eins kallar til mín, þá vil eg bænheyra hann), þá skal mín reidi brenna og eg skal slá ydur í hel med sverdi, svo skulu ydar konur eckjur verda, og ydar børn fødurlaus, Exód. 22; og enn segir hann: eckjunni og ómyndugum skaltu engan skada gjøra; hefir hann ecki skickad þeim sinn hlut af tíundum? Devt. 14; býdur hann ecki ad kalla þær framar ødrum til almenniligrar máltydkju fyrir Drottni? 16 kap; já, hann hefir sérílagi umbodid valdsstéttinni, ad þeir skuli dæma mál hins únga manns og forsvara eckjuna, Esa. 1, jafnvel þótt eg ætli, ad varla sé nockru Guds bodordi midur hlýdt enn þessu af sumum mønnum. Óskandi væri, ad ei fyndust þeir, ed sjálfir hafa eckjurnar fyrir fé og gjøra þær sér ad ráni, svo sem Esajas ad ordi kémst, 10 kap., hefnast á þeim og þeirra munadarlausum børnum, ef þeir þóttust eiga fødur þeirra nockrar heiptir ad gjalda, en fengu ecki stolid hefndinni frá Gudi á medan hann lifdi; soddan er hin mesta løðurmennska, sem einn hugprúdur Tyrki ei vildi verda fundinn ad, og þó skammast ecki sumir kristnir menn sín, ad æfa þetta blygdunar laust; svo hoppa

þessir mýslíngar á einu daudu leóni, sem þeir þó ecki þordu ad geispa á móti, á medan þad hafdi munninn opinn; lítid muna þeir til hinnar skélfiligu bølvunar, er Drottinn leggur yfir þá, sem umhverfa rétti eckjunnar, Devt. 27, edur hins, ad ritníngin telur þad med hinum helztu orsøkum hinnar Babýlonisku herleidíngar, ad þeir dæmdu ei málefni eckjunnar, Jer. 22. Nú vil eg sleppa þessu, en hverfa aptur til hins, er eg skildist vid; þessi kvinna var eckja; líkligt er, ad madur hennar hafi burtkallast á sínum bezta aldri, hvad þar af ráda má, ad hann hafdi henni eptirlátid einn einasta son, sem ad enn þá var úngmenni; þetta var stór sorg, hverja hún gat ecki dulid, því sagdi Frelsarinn vid hana: grát þú ecki; og þetta mótlæti hennar var svo mikid, ad bæjarmenn sampíndust henni, því segir í textanum, ad mikill fjøldi þeirra hafi gengid út med henni. Lærum þad af þeim, ad gráta med grátendum og hafa medaumkun med þeim, er í slíkar raunir rata; svo gjørdi hann, sem bezt kann ad sampínast eymdum vorum, því gudspjallid segir, ad þegar Drottinn leit hana, þá hrærdist hann myskunar yfir henni, og fáum vér jafnan orsøk þar til, því ecki lídur á stundum lángt á millum þess, ad svoddan tilfellur, mørg volud eckja á þvílíkt til brunns ad bera; en út af þessari medaumkun Frelsarans taki eckjurnar sér hina mestu huggun. Strax, sem hann sá þessa sorgandi konu, þá hrærdist hann af innstu medaumkun, segir textinn; ecki gjørir hann þad sídur nú, heldur enn þá hann umgékkst í voru holdi, sem nú er upphafid til Kraptarins hægri handar; hann hefir lykil lífsins og daudans, barn mitt! hafi því daudinn gripid hendinni inn í hús þitt, og veitt þér eitt mikid sár, þar hann hefir tekid helmíng þíns hjarta burtu og gjørt børn þín munadarlaus, þá vit, ad þad er ecki skéd án hans rádstøfunar, enga magt hefdi daudinn haft yfir þínum kjæra egtamanni án hans leyfis, í hvers hendi ad er øll lifandi sál; audmýk þig þess vegna undir voldnga Guds hønd og seig med Davíd: eg vard mállaus og taladi ecki, af því þú gjørdir þad, sérdeilis þar þú hefir þó ecki tapad þínum egta manni. Meinn ecki, barnid gott! ad sjálfur gjæskunnar Brunnur sé eins lyndur og sumir óþockar í heiminum, þeir ed apturtaka þad þeir gáfu, heldur vil eg hér um segja, eins og Páll sagdi um Onesímum vid Philemónem: hann er um stundar sakir vidskilinn, svo þú haldir honum eylífliga; hann er ecki daudur, ad því leiti sem vidvíkur sálunni, því Gud Abrahams, Isaaks og Jakobs, hann er ecki Gud daudra, heldur lifendra, segir Frelsarinn; þarfyrir er hann ecki daudur, heldur kalladur frá daudanum til lífsins, frá volædi þessa heims til eylífrar sælu, frá selskap vondra manna til samfélags heilagra engla, já, hann er ecki heldur daudur, þad líkhamann áhrærir, heldur sefur hann, svo sem Drottinn sagdi um høfdíngjans dóttur, Matth. 9; þad stendur ævinliga stødugt, er Frelsarinn sagdi: hver sem trúir á mig, þad skal ské, ad þótt hann deyi, þá skal hann samt lifa, Jóh. 11. Þarfyrir, þótt ad þad sé nátturligt ad syrgja ástvini sína, þá er ecki svo stór orsøk þar til, því vér høfum ecki mist þá, heldur eru þeir undan oss farnir í eylífa sælu, en líkhaminn hvílist af erviði sínu inn til þess dags ad Drottinn uppvekur hann og gjørir englunum jafnan, já, samlíkan sínum dýrdligum líkhama, Phil. 3. Nú er þad víst, ad eckert Guds barn misunnar sínu egtahjarta þvílíkrar sælu; en þad er veikleiki vor, ad menn syrgja sinn eginn hág og skulla

eptirlátinna, þeinkjandi meir á hid nærveranda, enn hid eptirkomanda; en hyxa til þess, barn mitt! ad Gud hefir kannské þinn egtamann í burtu tekid til sinnar dýrdar, uppá þad þú skyldir hafa allt þitt traust, alla von, alla gledi og unadsemd í sér einum, og fögnud af því, ad sjá og reyna sína nád á þér og vid þig og þína, nær öll mannlig hjálp er úti; gjör svo, þar af hefir þú tvöfalda nytsemi, þá einu, ad þín sála gledur sig í Gudi heilsugjafara þínum, hver fögnudur ad yfirgnæfir allan skilníng, og drepur alla sorg, allt mótlæti gjörir hann létt; hina adra, ad á medan þú ert svo skapi farinn, þá er þad festibréf uppá Guds ríki, þad er pantur þess, ad þú munir fagna med þínum egtamanni í himneskri sælu eylífligana, med Gudi og hans heilögum; lát því sjá, ad þú tileinkir þér þad, sem Drottinn segir vid Israel, Esa. 54: sá sem hefir skapad þig, hann er þinn madur, Drottinn Zebaoth er hans heiti, og þinn Lausnari, sá heilagi í Israel, hvern öll veröldin Gud nefnir. Hvar fyrir grætur þú, og því ber þitt hjarta sig svo illa, er eg þér ecki betri enn tíu synir? sagdi Elkana vid konu sína Önnu, 1 Sam. 1; og hvad miklu betri er þá Gud himnanna, heldur enn einn daudligur madur; vilji hann gánga þér í manns stad, hvada naud hefir þú þá? hann er nógu vís til ad rádleggja þér, nógu ríkur til ad forsorga þig, nógu máttugur til ad forsvara þig, nógu gjæskuríkur til ad hugsvala þér; hvers viltu framar æskja? Eckjur og munadarlausir hafa stóran rétt í himninum, svo sem ádur er sagt; þegar Drottinn leit þessa eckju, þá hrærdist hann af innstu medaumkun yfir henni; hún hefir kannské ecki þeckt Drottinn, edur ecki séd hann, því sorgandi manneskjur gengu med huldu höfdi hjá Gydíngum, hún hefir og ecki ordi útkomid fyrir harmi, svo hún gjæti bedid hann, og þó gat ecki Brunnur gjæskunnar haldid sér, hans hjarta brast í hönum, svo hann hlaut henni myskunsamur ad vera, strax sem hann leit eymd hennar, med einu ordi, einu atviki þurkadi hann öll tárin af augum hennar. Þegar þær Rúth og Naemí voru aldeilis munadarlausar, þá sendi Gud heim Bóas, Rúth. 2; þegar eckjan í Sarepta og hennar sonur voru adkominn dauda í atvinnuleysi, þá baud Gud Elíæ ad bæta brest hennar; mun hans hönd enn nú stutt vordinn? er hönum nockud aptur farid, sídan hann er hafinn yfir alla himna? nei, nei, útrétt er hún enn nú í dag til allra þeirra, sem á hann vona, og þótt hann reyni sína á stundum, þá efist enginn um sannsögli hans, edur ætli sig yfirgéfinn; hann gat haldid manni þessarar eckju vid lífid, hann gat læknad son hennar á bana sænginni, en hér færdi Drottinn sönnur á mál sitt, er hann skömmu ádur talad hafdi, ad sælir væru þeir, sem harma, þvíad þeir muni huggadir verda, því miklu meiri var fögnudur þessi, ad hann gaf henni aptur son sinn, sem daudur var, heldur enn, þótt hann hefdi læknad hann daudsjukan. Lát því þér til hugar koma, Guds barn! ad þótt daudinn hafi slitid þad band um stund, sem var á millum þín og þíns egtamanns, þá er þó ecki slitid þad einíngarinnar band, sem hefir bundid hjarta þitt vid Gud, hver alleina hefir ódaudleikann, hver og hefir trúlofad þig sér ad eylífu í nád og myskunsemi, í réttlæti og í dómi, Hós. 2; ef þú elskar hann, þá er ecki ad ugga hans elsku til þín, hann vill vera hjá þér í neydinni og þér þadan útrycja, allar þínar andvarpanir heyra, öll þín tár reikna og hella þeim í sinn sjód, og sídan af þurka med eylífri gledi; og þótt ad þú megir sjá á bak þíns kjæra egtamanns um hríd, þá

er þad stutt hjá eylífdinni, hvar þid munud um aldir alda samfagna án nockurs kvída fyrir því, ad skiljast framar. Seg því ecki: eg er af öllum forlátinn; medan þú hefir ecki Gud forlátid, mun hann þig aldrei forláta; treyst því ad fullu, ad þad sem Drottinn segir vid kristnina, hjá Esaíam 54 kap., þad vill hann til þín sagt hafa, svo sem eina forlátna konu og sorgbitna, þá kallar Drottinn þig aptur: fyrr skulu fjöllin úr stad víkja, og þessar hædir nidurfalla, enn ad mín nád víki frá þér, edur minn sáttmáli nidurfalli, segir Drottinn þinn myskunari, já, hann sem er trúr, og sjálfum sér ei kann ad neita, segir Postulinn. Öll umsorgun og umhyggja búskaparins liggur nú á þér, sídan Gud tók þinn mann frá sídu þinni; hugsa til þess, er Davíd segir, Ps. 68: Gud leggur oss eina byrdi uppá, en hann hjálpar oss ad bera; vantreyst hönum ecki, sem bar allan Israel í eydimörkunni, svo sem ein módir ber sinn son, segir Móses, edur hans Syni, hver ed ber alla hluti med ordi síns kraptar, ad hann géti ecki hjálpad þér til ad bera þad hann hefir sjálfur þér á herdar lagt. haf þína unadsemd í hönum, hann hefir lofad ad géfa þér, hvad þitt hjarta girnist; synnist þér byrdin þúng, þá varpa allri þinni áhyggju uppá hann, sem því mun vel til vegar koma; og er þad nú svo um hid fyrra úttalad.

Hvad hinu sídara vidvíkur, þá reyna menn þad optliga, ad foreldrunum fellst ecki minna um þad, nær þeirra börnum verdur fyrir tímanligan dauda burtu kippt, heldur enn þó ad hvert missti annars, sérdeilis, ef þad eru einka börn, svo sem hér á stódst, því hann var einka sonur sinnar módur, segir í textanum, og þar ad auki, ef ad þvílík börn eru líklig til gjæfu og menníngar, svo þau gjæti sídan Gudi og födurlandinu med sæmd og æru þjónad; og ecki verdur því móti sagt, ad stór hörmúng lá á kvinnu þessari, þar daudinn hafdi rænt hana fyrst sínum hjartkjæra egtamanni, og þó á hennar bezta aldri, og þar ad auki sínum einasta syni, einnig í sínu æskublómi, hver án efa hefir verid hennar einasta yndi og adstod í hennar munadarleysi; en þad eykur miklu hér á, ad þad var eitt brixli haldid á þeim dögum fyrir kvinnurnar, ad láta ecki sædi eptir í Israel, því allar girntust ad vera mædur ad Messía; og ecki hefir þad einasta læging þótt óbyrja ad vera, heldur og hitt ein stór sorg, ad missa börn sín, og eiga kannské ecki von til annarra, þad sé eg á dæmi hinnar Súnamítisku, er sagdi vid Elíseum, nær sonur hennar lá andvana, 2 Reg. 4: beidda eg minn herra nockud um son? sagda eg ei: pretta mig ecki! svo sem hefdi henni þótt sá kostur léttari, aldrei ad hafa barn fædt, heldur enn ad syni hennar hefdi verid í burt svipt, og má sá vera af járni gjörr, sem ecki vorkénnir þeim svoddan mótgáng, sérdeilis, þar Guds Andi setur oss þetta til dæmis um hina mestu sorg, þar hann segir, Amos 8, ad harmkvæli Gydínga skuli verda eins og harmur eptir einn einasta son, þad sama ítrekar hann hjá Zachariam, 12 kap; því er svoddan mjög náttúrligt og engum ad lá, þó skulu kristnir menn haga sér í þessu svo sem Guds börn, og láta hann ráda, sem alls rád á bædi á himni og jördu. Hinar sömu röksemdir skal ad sönnu til þess hafa, ad bæta sorg sína í þessu tilfelli og hinu, er í fyrri greininni var um talad; seg mér, kristinn madur! hefir þú ecki barn þitt af Gudi ödlast? svo segir Davíd, Ps. 127: börnin eru Guds gáfa og lífsins ávöxtur er einn skeinkur, þau eru ecki svo aldeilis vor börn, ad þau séu ecki miklu framar hans, sem er Fadir yfir öllu því, er börn kallast

bædi á himni og jördu, því nær hann gaf oss þau, þá gaf hann þau med þeim skilmála, ad hönum væri frjálst ad taka þau til sín nær hann vildi; eda gjörum vér ecki svo hver vid annann? þótt einn láti barn sitt til vinar síns um stund, mun þad ecki standa í hans valdi, ad láta þad til sín aptur hverfa, nær hönum líkar? ætlumst því ecki til, ad Gud muni hafa minni rétt yfir oss og börnum vorum, enn vér þykjumst yfir þeim hafa; seg því midt í sorginni, midt í harminum eins og Job, hvern Gud svipti ecki einasta öllum börnum sínum, heldur og allri aleigu sinni í einu vetfángi, Job 1: Gud gaf og Gud aftók, sé nafn Drottins blessad. Ef þú ert Guds barn, (því fyrir þeim vil eg sérílagi þetta talad hafa), ef þú ert sjálfur Guds barn, segi eg, þá veit eg, ad þér hefir umhugad verid ad fela þessa Guds gáfu hönum sjálfum á hendur, ad barn þitt mætti hans mylkunar og forsjónar í öllu njóta; en allra helst muntu hafa umhyggju borid fyrir þess eylífri velferd, ad þad mætti Gudi sem kjærast vera, og sem mest vardveitt fyrir Andskotans, heimsins og holdsins vélum, þar um muntu Gud bedid hafa í öllum bænum þínum, meir enn um lánga lífdaga; seg mér, hefir þá Gud ecki bænheyrt þig, er hann hefir tekid þad burt úr þrældómi heimsins í sælu himinsins, frá umsátrum Djöfulsins til Guds barna frelsis, frá ofríki holdsins til þíns og þess Fodurs ríkis, hvar þad mun skína svo sem sól um aldir alda? þér skilst þetta lítt kannské, á medan sorgin er sem brádust, en lát þá svo sem Kristur segi vid þig hid sama, er hann sagdi vid Petur fordum, þá hann ei vildi láta Drottinn þvo fætur sína: hvad eg gjöri, þad veitstu ecki nú, en þú munt þad sídar þeckja, Jóh. 13. Þér mundi vænt um þykja, þú mundir af hjarta gladur verda, ef Gud gjæfi þér barn þitt aptur, eins og eckju þessari; en eg vil svara þér, eins og hann svaradi þeim í Nazareth fordum: margar eckjur voru á dögum Elíæ, en til engrar var Elías sendur, nema til eckjunnar í Sarepta í Sídons landi, Lúk. 4. Gud veit hvad hann vill gjöra, eckert gjörir hann til ónýtis; tilgángur Drottins í þessu kraptaverki er audsén: fyrst er sá, ad hann sýndi bædi þér og öllum sorgbitnum, ad hann bædi vilji og kunni ad sampínast eymdum þeirra: hinn annar, ad hann auglýsti þad hann Gud væri, sem ad hefir vald yfir daudanum, því þessi var hinn fyrsti af hinum daudu, er hann uppvakti á sínum hérvistardögum, en sídan ad hann hefir hvertveggja þetta med mörgum rökum stadfest, hver naudsyn ber þá til þess, ad hann umbreyti sínu lögmáli? Og þótt þú mættir þann kost eiga, ad barn þitt hverfi aptur í veröldina, hvílík fávitska væri þad; ad selja ríkdóm fyrir armód, heilbrygdi fyrir sjúkdóm, gledi fyrir sorg og hina allra sætustu ró og hvíld fyrir allskonar andstreymi og erfidi. Þad væri ad hata og ecki ad elska barn sitt, ef rétt er álitid, sérdeilis, þar hinir útvöldu Guds, sem í Drottni dánir eru, þeir lofa Gud óaflátanliga fyrir sína endurlausn í himninum, því skyldu menn þá syrgja þeirra burtför af heiminum, allra helzt þar vér höfum eckert mist, heldur undan oss sendt, og munum fynna eitt heilagt barn fyrir syndugt, ódaudligt fyrir forgengiligt, og englunum samjafnt fyrir þad, sem ádur var þó ecki nema mold og aska; leyfid því börnum ydar til Drottins ad koma, kristnir menn! og bannid þeim þad ecki, og segid eins og Barúch vid hina herteknu í Babýlon, Barúch 4: eg hefi látid ydur burt med harmi og gráti, en Gud mun skila ydur mér aptur med gledi og fögnudi eylífliga. Eg veit ad mörgum er þad stór harmur, ad missa eitt

einasta barn, sem var gjæfuligt og vel ad sér um alla hlutí, en hugleid þó, kristinn madur! ad Gud gaf sinn eginn og einasta Son út fyrir þig, í hverjum hann alleina hefir sína vel-þóknan, ecki til ad bada í rósum, heldur til þess, ad ecki hefdi hann þar hann mætti höfdi sínu halla ad, Lúk. 9, ecki til ad láta sér þjóna, heldur til ad þjóna ødrum, ecki til ad lifa í sælu nockri, jafnvel þótt hann mætti þá velsælu hafa, heldur til ad þola krossinn, Heb. 12, þetta gjørdi hann, sem þér var um eckert skyldugur; ójafnt hafist þid ad, sem ert hønum skyldugur bædi um þig og barn þitt, ad þú ángrast af því, ad hann flutti þad í eylífa sælu, sem hans Sonur hefir því med sinni kvøl afrekad; hversu gjørfugligt sem þad var, þad var þó aldrei svo vegligt, svo sem hinn frídasti medal mannanna barna, ef Gudi og Fødur þótti hann ecki ofgódur í kvalirnar, hvar fyrir skyldi þér þá þykja sonur þinn ofgódur til dýrdarinnar; þú vildir hafa hønum stórfé eptirlátid í verøldinni, mun þad vera betra enn hans arfahluti í landi lifandi manna? misjafnt fer um arfana hér í verøldinni, en Petur segir oss, ad þessi arfur skémmist ecki, 1 Pet. 1; nógir eru erfíngj-arnir, þótt einn deyi barnlaus, sén ecki adrir, þá er fødurlandid, þá eru Guds voladir, gjør þeim gott medan þú lifir, og hefir þú féssjód á himnum. Sonur þinn dó burt í sínu æskublómi, en enginn veit æfi sína fyrr enn øll er; vor fyrsta módir fagnadi nærsta mjøg hinum fyrsta manni, sem í heiminn var fæddur, en þad vildi ecki svo rekjast úr fyrir hønum; Elí høfudprestur lét dátt ad sonum sínum, 1 Sam. 2, þó voru þeir skálkar; vænt þókti Davíd um Absalon, hvernig hann launadi hønum, þad er alkunnugt; þú þykist vita, ad ei var barni þínu hætt vid slíku, svo er þad, hverjum af oss þykir sinn fugl fagur, en þegar ad Gud hefir ad fullu rádid son þinn sér til handa, þá hefir hann tekid þessa umsorgun af þér, hann er þángad kominn, hvar hann ecki skal vega sinn bródur, ecki van-virda Guds þjónustu, og ecki gjøra uppreist í móti fødur sínum. Þú vildir hafa sett hann til menta, ad hann lærdi alla heims speki og øll túngumál; heyr mér, Guds vinur! eng-in er þvílík speki, sem ad deyja vel, og þar ad á øll speki ad lúta, annars er hún ónýt; hann kunni ecki svo margar túngur, sem þú vildir, þótt hann kunnad hefdi, mundi þad hafa gagnad hønum til himnaríkis? þacka Gudi, ad hann er þángad kominn, hvar túng-umálunum slotar, en kjærleikurinn varir eylífliga, 1 Cor. 13, nógur vísdómur er þad, ad hann þeckir Gud, svo sem hann er af hønum þecktur, og talar englanna túngu; adgrein-íng túngumálanna er straff syndarinnar, en þad er nád Guds, ad túnga hinna málhøltu skal tala rétt, Esa. 32; svo veit eg og, ad hver útvaldra mun skilja annann og ad þetta fullkomnast í himnaríki; þar skal ecki barn mitt þola mørg høgg fyrir sinn lærdóm, ecki óttast fyrir, hvert þad muni vinna edur tapa í einu þrætumáli, ecki heldur æra sig í reikn-íngi stjarnanna, edur mælíngu himinsins, nær þær eru dottnar, en hann samanvafinn eins og annad klædi, Heb. 1, jafnvel þótt menn verdi ad flækjast vid þenna hégóma eptir naudsyn spillíngarinnar háttalags. Þú meinar, ad Gud sé þér reidur, af því hann leysdi þér ecki ad uppala þad, er hann svo vel skóp, sínum brædrum í heiminum til nota og gagn-semdar; géf þig til frids, barn mitt! þacka Gudi, ad þú med hans adstod hefir uppalid þad til himnaríkis, hann á margan gódan, lát hann sorga fyrir løndum og lýdum, sem þad lengst hefir gjørt. Svo hyggid nú ad þessu, kristnir menn! hver í sinn stad; látid

hann ráda, sem ráda á, og aldrei rædur sínum börnum nema til hins bezta, og ætlíst ei til, ad þér sjáid betur fyrir ydar rádi, edur barna ydar og ástvina, heldur enn hann, til hvers ad bædi ydur og þeim er varpad allt í frá módurlífi. En þú, eylífi Fadir! sem ecki einasta talid hefir alla daga vora, heldur og öll vor höfudhár, kénn þú bædi foreldrum og börnum ad hyxa þad vér hljótum ad deya, svo vér forsjálir verdum, ad aldrei lifum vér svo, sem ættum vér í þessu volædi æfinliga ad lifa, heldur géf þú oss, sem ert Gud lífsins og daudans, ad hvert vér lifum edur deyjum, þá séum vér Drottins; bænheyr þad, Drottinn minn! fyrir Jesú pínu og dauda, og géf oss þar til styrk H. Anda, amen! í Jesú nafni, amen!

# Seytjánda Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Lúk. 14 Kap.

Á þeim tíma, og þad skédi svo, ad Jesús kom í hús nockurs Pharíseara höfdíngja á þvottdegi brauds ad neyta, og þeir höfdu vardhald á hönum. Og sjá þú! ad madur nockur vatnssjúkur var þar frammi fyrir hönum; og Jesús andsvaradi og sagdi til lögspekínganna og Pharíseanna, svo segjandi: hvort leyfist nockud ad lækna á þvottdögum? en þeir þögdu vid. Og hann tók á hönum, læknadi hann og lét hann í burtu fara, svaradi og sagdi til þeirra: hvörs ydar asni eda naut, sem fellur í pitt, er þad eigi jafnsnart utdregid á þvottdegi? og þeir gátu hönum þar til aungvu svarad. En hann sagdi þessa eptirlíkíng til þeirra, sem bodnir voru, þá ed hann merkti, hvörnin þeir mettust eptir hinum fremstu sætum, segjandi svo til þeirra: nær ed þú verdur bodinn af einhvörjum til brudkaups, þá set þig ecki í hid ædsta sæti; kannské þad annar, heidarligri enn þú, sé bodinn af hönum, og komi sá, sem þér baud og hönum, og segi til þín: géf þessum rum, og hljotir þu þá med kinnroda ad hafa hid ytsta sæti; heldur svo, nær ed þu verdur bodinn, þá far þú og set þig í hinn ytsta sess, svo ad þá, nær ed sá kémur, er þér baud, þá segi hann til þín: vinur! þoka þér upp betur, þá mun þér virding veitast hjá þínum sessunautum, þvíad hver sig sjálfur upphefur, hann mun nidurlægjast, og hvör sig lítilætir, hann skal upphafinn verda.

## Exordium.

Á medal hinnar vegligustu Guds þjónustu, er vér egum ad dýrka hann med, þá er helgun Sabbats dagsins, hún er í fyrstunni ecki bodin syndarinnar vegna, heldur ádur enn spillíngin innkom í heiminn; svo segir í Genesis bókar 2 kap: Drottinn blessadi hinn sjöunda dag, og helgadi hann, þar hann á hönum hvíldist af öllu sínu verki, er hann skapad hafdi, þad er, ad hann hætti þá ad skapa himin og jörd, og allt hvad þar er inni; þetta bodord er

aptur itrekad í Mósis løgmáli, og er eitt af þeim tíu Guds laga bodordum; þess getur í Exódí bókar 20 kap: minnstu ad helga hvíldardaginn Drottins Guds þíns, og er þetta bodord optliga stadfest í Gl. Testamentisins bókum; á sex døgum skulud þér verk vinna, hinn sjøundi dagur skal helgur kallast, því þad er hvíldardagur, þér skulud eckert verk á honum vinna, segir í Lev. 23 kap. Hin fyrsta orsøk til þessa hvíldardags í Gl. Testamentinu var sú, ad endurminnast hins mikla stórvirkis, er Gud gjørdi í sköpun allra hluta, því nefnir Drottinn þad eitt teikn á millum sín og Israels barna, Ezech. 20; ønnur var sú, ad á þeim degi skyldi almennilig Guds þjónusta haldinn verda med fórnfæringum, med kénningu Guds orda og ødrum þvílíkum gudrækuis eyrendum í helgidóminum; um fórnirnar má lesa Núm. 28, en um Guds orda kénníngu vottar Lúkas 4 kap. med dæmi Frelsarans: hann kom til Nazareth, hvar hann var uppalinn, og geck inn ad venju sinni á Sabbatsdeginum í samkundunna og stód upp ad lesa; hin þridja var, ad menn og vinnudýr skyldu hvílast af sex daga erfidi, þad er bert af Exód. 23 kap., og hin fjórda var sérílagi fyrir Israels fólk, ad endurminnast lausnarinnar af Egyptalands þrældómi, svo sem segir í Devt. bókar 5 kap. Nú, þótt ad Gud setti svo í øndverdu, ad hinn sjøundi dagur skyldi brúkast til þessarar helgi, þá er hún nú, og hefir verid sídan himnaført Lausnarans, haldin á hinum fyrsta degi vikunnar, er vér í minning Christí upprisu helgum, í minning endursköpunar heimsins, sem fyrir hans dauda er skéd, og minning hins eylífa Sabbats, er øllum Guds børnum í hans upprisu fengid er. Þetta skulu menn ecki ætla ad séu manna setningar, heldur svo sem Móses flutti Guds løgmál á millum hans og Israels barna, svo hafa og Christí postular gjørt þessa skickun, án alls efa eptir hans bodi, því eckert segjast þeir mundi þora ad gjøra fyrir utan hans skipan, Act. 15; þad er og kunnugt, ad þeir afmádu sumar greinir af kyrkjuløgunum í samkomunni í Jerúsalem, þegar Páluš og Barnabas voru til þeirra sendir frá þeim kristnu í Antióchía, og er þenna flutning Sabbatsdagsins ecki meira í spunnid. Eg vil ecki ætla, ad nockur gjøri sér í lund, ad Kristur hafi ei haft vald til þessarar færslu, því hann segist vera herra Sabbatsdagsins, og ef þad var ecki á móti hans guddómligu hátign ad afmá sakramenti hins Gl. Testamentis, þá var ei heldur þetta; en ad þessi rádstøfun sé af hans postulum gjør, er þad til vitnis, ad þeir komu saman á hvítasunnudegi, Act. 2, sem innfellur á vorn Drottinsdag; Lúkas skrifar, Act. 20, ad þann fyrsta dag vikunnar hafi lærisveinarnir samankomid til ad brjóta braudid, og ad Páll hafi þá rædu haldid; og sjálfur Páll skrifar Corinthu borgar mønnum til, 1 Cor. 16, ad á hinum fyrsta degi vikunnar skuli þeir leggja afsídis ølmusur sínar, er naudstøddum kristnum mønnum ætladar voru; þenna sama dag kallar Jóhannes postuli og gudspjallamadur Drottinsdag í sínum opinberunum, 1 kap., og svo hefir kristilig kyrkja nefnt hann frá þeirri tíd allt til þessa; þad ber til þess, ad nær postularnir ecki nefna Frelsarann sínu egin nafni, þá kalla þeir hann Drottinn í stadinn fyrir Guds heiti, sem er Jehóva í Gl. Testamentinu; því kalla eg þad víst, ad þessi rádstøfun sé frá Gudi komin. Og ad þessu svo fyrirmæltu, þá vil eg nú taka mér orsøk af spurníngu Drottins til Gydínga, hvert þar leyfdist ad lækna á Sabbatsdegi, af henni vil eg taka mér orsøk ad tala um þetta tvennt: 1) hvad kristnum mønnum sé óleyfiligt ad fremja á Sabbatsdøgum; 2) hvad þeim byrji ad gjøra og leyfiligt sé. Þú stóri herra Drottins dagsins og hins eylífa Sabbats! lát oss svo gjøra þitt verk á þessum degi, ad vér um sídir megum inngánga til þinnar hvíldar, amen! í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Hid fyrsta, sem bannad var á Sabbatinu, þad var ad vinna nockurt verk á þeim degi; svo segir Drottinn í sínu løgmáli, Devt. 5: vardveit þú hvíldardaginn, ad þú helgir hann, eckert verk skaltu á honum vinna, og svo strengiliga var þetta bannad Israels sonum, Exód. 35, ad þeir ecki máttu eld kveikja í hýbýlum sínum á þessum døgum, hvar fyrir þeir ecki heldur máttu matreida, og er varla nockurt bodord svo optliga itrekad í heilagri ritn-

íngu, svo sem þetta; og hversu ad Gud hafi frekliga straffad vanhelgun hvíldardagsins, þad sýnir oss straff hans, er tíndi upp smælkid á Sabbatsdegi, ad hann matti deyja eptir lögmálinu, Núm. 15; fyrir vanhelgun þessa hótar Gud sínu fólki, ad hann vilji uppbrenna borgir þeirra, hjá Jeremíam 17 kap., og hjá Ezechíelem 22 kap. sverdi konúngsins af Babýlon, og er þeir aptur komnir úr herleidíngunni tóku til ad vanhelga Drottins hvíldardaga, þá átaldi Nehemías þá hardliga og leiddi þeim fyrir sjónir, ad fyrir þessa sömu synd hefdi ógjæfan komid yfir fedur þeirra, segjandi: þegar forfedur ydar gjördu svo, mundi ei Gud vor leida yfir oss alla þá ólucku og yfir þessa borg? og þér viljid upperta Guds heiptar reidi móti Israel! med því ad vanhelga Sabbatsdaginn Nehem. 13. Nú er þó um Sabbatsdaginn tvennt ad hugleida, þad eina, er sidalögmálinu vidvíkur, þad er helst í því fólgid, ad lofa Gud og dýrka á þeim degi, og svo ad gefa bædi sjálfum sér og hjúum sínum tóm og stundir til þessarar þjónustu, svo og ad halda einhvern vikudag til þessarar idnar, og þad er svo ríkt í nátturuna innskrifad og medfædt manninum, ad hinir örgustu heidíngjar tóku sér vissa daga, nærri svo marga sumir hverjir, svo sem vér kristnir menn, til ad fremja blót sín og adra godanna þjónustu, hverri skipan þeirra þótt ad mannkynsins óvinur hafi spillt med sinni dýrkun, þá er þó audsært hér af, ad nátturan hefir bodid þeim, ad slíkt væri ein sjálfbodin skylda vid Gud, og hafa ad því leiti og med þessum setníngi sannad þad, sem Páll skrifar, Róm. 2, ad heidíngjarnir, sem ecki hafa lögmálid, þeir gjöri af nátturunni þad lögmálsins er; annad er þad, sem fyrkjulögum Gydínga sérílagi vidkom, sem er, ad halda Sabbatid á hinum sjöunda degi, hvar um ádur er nockud í inngánginum talad, svo og ad vinna aldeilis eckert verk á þessum dögum, sem þó án efa hefir nockurn skilmála haft, sem sídar mun sagt verda. Nú þótt ad kristinna manna frelsi hafi nockra linkind hér í gjört, svo og linad straff þeirra, er Drottinsdaginn vanhelga, þá viti menn samt, ad þad er ein hrópandi synd, ad brjóta hann med ónaudsynligu erfidi; til Guds dýrkunar var hann helgadur í fyrstunni laungu ádur enn lögmálid var útgéfid, kristiligt frelsi hefir ei afmád hann, heldur flutt á hinn fyrsta dag, hann er í sidalögmálinu bodinn, aldrei er hann af Christó fyrirbodinn, heldur hræsni og sú hjátrú, er Gydíngar um hann höfdu, hún er stroffud af Frelsaranum. Þetta bodord um helgun hvíldardagsins er ályktun hinnar fyrri bodorda töblunnar, hvers vegna ad sýnast má, ad hann, sem þad mótþróanliga brýtur, hann neiti allri Guds dýrkan, fyrir utan þad, ad þad stendur alltíd stödugt, er Jakob skrifar, 2 kap., ad sá, sem brýtur eitt af bodordunum, hann er vid öll sekur; sá sem brúkar hvíldardaginn til sinna útréttínga ad þarfslausu, fyrir ágirnis sakir, edur af forsmán vid Gud, hann er einn afguda dýrkari, því Gudi einum, en engum ödrum, tilheyrir sá heidur, ad halda hann helgan, þarfyrir segir hann, Exód. 31: sjáid til, ad þér haldid minn hvíldardag, því þad er teikn á millum mín og ydar. Vanbrúki því nockur þenna dag med því móti, sem ádur er sagt, þá rænir hann Gud sínum heidri og tileinkar sér, þad honum alleina tilheyrir, hann vanhelgar og hans nafn, því á þessum degi á ad prísa og lofa þad med hinni mestu audmýkt, en sá, sem ecki er med mér, hann er á móti mér, segir Kristur, Matth. 12, svo vil eg segja, ad hann, sem ecki Guds nafn helgar á þessum degi, hann vanhelgar þad. Og í sannleika,

kristnir menn! þykir oss það oflítið, að Guð hefir gefið oss hina sex dagana til útréttínga vorra, að hann hefir blessað vort erfiði, vora lífs næríngu, vorar karfir og vorar afgángs leifar, þótt vér gjöldum honum þjónustu sjöundarinnar, svo sem einn skatt af öllum tímanum? það væri stakt óþakklæti að skora sig undan því. Eg vil ei þar um tala, að Guð er lángtum vægðarsamari við líkhami vora, enn vér erum sjálfir; þar finnast þeir, eð svo eru ákafir í búsorginni, að þeir mundu engan tíma gefa sér, hjúum sínum og vinnudýrum til hvíldar, nema þessi dagur væri tilsettur, svo eyða þeir sjálfum líkhamanum fyrir líkhamans næríngu að þarflevsu, hvar með Guði er engin þjónusta gjör, þvíað hann, sem að bauð manninum, að í sveita síns andlitis skyldi hann síns brauðs neyta, Gén. 3, hann hefir og boðið, að á hinum sjöunda degi skyldi hann hvílast af sínu erfiði. Og þótt nú að stritvinna og önnur þvílík veraldar umsvif séu bönnuð á helgum dögum, þá meini þó enginn, að Guð verði með eintómis iðjuleysi dýrkaður; iðjuleysið er orsök til margra lasta; þegar Davíð gékk iðjulaus uppá hús þaki sínu, þá freistaði Djöfullinn hans til að girnast Bersabe, og var hann þó Guðs-maður; ætla ecki að þú sért óhultari fyrir honum ef til vili, því talar Heróným us vísliga og guðræknliga, er hann segir: haf alltíð eitthvað að sýsla, svo Djöfullinn hitti þig ecki iðjulausan, því iðjuleysið færir með sér lestina, menn læra íllt að gjöra, af því að gjöra eckert; þarfyrir segir og einn af þeim kristnu fornmönnum: betra væri Gyðíngnum að vinna eitthvað til þarfinda á akri sínum, heldur enn að gjöra upphlaup á akrinum, og betra væri konum þeirra að sitja að ullarverki, heldur enn að dansa opinberliga á sínum túnglkomu hátíðum; og er það mála sannast, að oss kristna menn vantar aldrei verk á helgum dögum til að þjóna Guði með, ef vér værum lundlægnir þar á, þótt vér hvílumst af dagligu erfiði, hvar um eg vil framar tala í hinni síðari greininni. En ef það er ecki leyfiligt, að vinna ofmikið eður eckert á þessum dögum, þá er það víst, að það er ein höfuð skömm, að hafast það að, sem íllt er og í sjálfu sér óleyfiligt, því það er að dýrka Djöfulinn í staðinn þess menn ættu Guð að dýrka; þetta gjöra allir þeir, eð brúka Guðs helga daga til lauslætis, til ofneytslu og ofdryckju, til ljótrar skémtunar, til okurs og ágirni, til að vinna sér inn fé með dubli og teninga kasti, hvar af þráliga orsakast svardagar, agg og þræta, áflog og ryskíngar, til íls samtals, til að baktala, rægja og ljúga uppá náúngann, til að atyrða hann og gjöra íllt í skapi; óskandi væri, að ecki kjæmu menn saman til slíks á helgum dögum undir því skyni, að gánga í Guðs hús, um hverja Páll segir, 1 Cor. 11: að þeir samansafnist til hins verra eins, og er enginn vanhelgun argari enn þessi, því ef það eru í sjálfu sér þvílíkir klækir, að Páls segir, að með slíkum skuli menn ecki umgengni hafa, og að þeir eð þvílíkt fremja, erfi ecki Guðs ríki, hvílíkur glæpur mun það þá vera, að aðhafast svoddan á þeim tímum, sem Drottinn helgað hefir? Á meðal þessara klækja er ecki hinn minnsti Guðs húss forsómun og hans heilögu orða, sem mörgum veraldar syni þykir lítil synd og allt annað þarfara að vinna, þykjast sjálfir nógu vel uppfræddir, svo að ei muni þeir læra mikið af einföldum prestum; herra, Guð! ólíkir eru sjálfsbyrgíngar þessir heilögum Davíð, hann var svo vel uppfræddur af H. Anda, að hann hefir mörgum öðrum

himnesska speki kénnt í psálmum sínum, þó segir hann, Ps. 27: eins hefi eg bedid af Drottni, þess krefst eg af honum, ad eg sitji í húsi Drottins alla mína lífdaga til ad sjá fegurd Drottins og leita hennar í hans musteri; hvad sýnist ydur, mundi Davíd ecki géta fundid Gud heima í húsi sínu eins vel og þér? jú miklu betur, því eg efast um, hvert þér finnid hann nockurstadar, sem svo tómlátir erud, ad þér viljid ei ljá fætur ydar til ad gánga í Guds hús, til ad leita hans þar, edur eyrun til ad heyra hans ord. Hvad fann þó Davíd í Guds húsi annad, enn nockrar fórnfæringar, í hverjum ad fyrirmyndud voru eptirkomandi gjædi, vid hverjar hann þó huggadi sig og var gladur af voninni; en þér, hverjum Kristur er med öllum sínum velgjörníngum krossfestur afmáladur í hverri rétt-skickadri prédikun, þér forsmáid þó líkhamann, þar sem Davíd undi sér vid skuggann; hér af spretta adrir ávextir, líkir rótinni, sem er bænræktarleysid, því Guds hús er bæna hús: vantrúin, því hvernig mega þeir trúa, nema þeim sé prédikad, segir Páls, Róm. 10: kjærleiksleysid, því þeir yfirgéfa safnadinn á móti Postulans bodi, Hebr. 10, og samneyti Guds barna, sem hvad mest eblist í Guds helgidómi; hér af fylgir hans þénara forsmán, þeir eru soddan mönnum eins og ein gaman vísa, sem er fögur ad leika, svo sem Drottinn sagdi vid Ezechíelem, þeir eru þeim nockurskonar eptirlíkínga edur ordskvida smidir, eins og hann, Ezech. 21; en hvad vill hér af fylgja, ó, þér hin fávísu börnin? þad án efa, ad hver sem þá forsmáir, hann forsmáir Krist, en hver sem Krist forsmáir, hann forsmáir þann, er hann sendi, en þann ed Gud forsmáir, þann vill hann forsmá, 1 Sam. 2, og er þá ecki lengra ad leita ad glötuninni, sá finnur hana í eylífum eldi, sem ei vildi leita ad Drottni í hans húsi. Hér um mætti margt fleira tala, en eg læt þetta nægja ad svo stöddu, og vil koma til hins, er eg ádur lofad hefi um ad tala.

Hvert ad vera eigi vort hid sérligasta verk á Drottinsdögunum og ödrum helgum tídum, þad er audvitad af skickun Sabbatsdagsins í Gl. Testamentinu, hvar fólkid átti saman ad koma til helgidómsins, til ad dýrka Gud med offrum og fórnfæríngum, svo sem ádur er sagt, því jafnvel þótt dagurinn sé umbreyttur og fórnirnar afmádar med þeirri einu fórn, sem hinn ædsti nýa Testamentisins Kénnimadur hefir innborid í þad allra helg-asta í himninum ad útvegadri eylífri endurlausn, þá er þó ecki hans vilji umbreyttur í því, ad láta þjóna sér af kristnum mönnum. Fyrir syndafórnirnar offrum vér því saklausa Guds lambi, sem frá upphafi veraldar slátrad er, vor upplyptíngaroffur eru bænir og þackargjördir, þetta eru kálfar vara vorra, þad eru vorir frumburdir, sem Drottni eru helgadir, þá egum vér fram ad bera, ad sönnu alltíd og allstadar, en þó sérdeilis í hans húsi á þeim dögum, sem þar til helgadir eru, þar til er hinn fyrsti dagur vikunnar bodinn, sem ádur er umgétid, sem og adrar hátídir, þær ed kristiligt yfirvald hefir sett og eiga ad haldast í jöfnu gyldi, því hann, sem baud ad helga hinn sjöunda daginn, hann hefir og bodid ad hlýda yfirvaldinu, og á þad þó hvad mest ad framkoma í þeim hlutum, sem Guds dýrd áhræra og hans sérligustu velgjörnínga, hvar fyrir hinn fyrsti af kristnum keysurum, hinn stóri Konstantínus, lét halda föstudaginn helgan í minning krossfestíngar Drottins, og vardi sá sidur lengi nockud. Nú er þad þó ecki nóg, ad koma saman til kyrkjunnar, nema menn gjöri þar Guds eyrindi med allri alúd, annars er vor kyrkjugángur ecki nema

eintómis hræsni, og væri af illu skárra ad koma þar aldrei (sem þó er stór synd í sjálfu sér, nær því má vel vid koma), því hitt er ad nálægjast Gud med vorunum, en hjartad er þar lángt frá; og hvad gagnar þad til Guds dýrdar og vorrar sáluhjálpar, ad menn sitji í kyrkjunni, eins og Gud segir um tilheyrendur Ezechíelis, 33 kap: þeir koma til þín hópum saman, og sitja fyrir þér svo sem mitt fólk og heyra ord þín, en þeir gjøra þau ecki; þad er teikn til þess, ad eptirtektin hefir ecki mikil verid. Og ecki einasta er þad nú skylda vor, ad koma saman á helgum døgum til ad lofa Gud, heldur er þad einn glediligur hlutur; þad er mysklun Guds, ad hann hefir ætlad þessa daga til sadníngar sálum vorum, þar hefir hann tilreidt eitt mikid géstabod í Syni sínum; þar vid huggar Davíd sig í sinni mestu sorg, er hann kvedur þanninn, Ps. 42: eg úthelli hjarta mínu í sjálfum mér, þar eg mun med þeim flocknum burtgánga og med þeim fara til Guds húss med gledskap og þackargjørd, med þeim hópnum, sem helgina heldur; eg fagna af því, segir hann enn aptur, Ps. 122, ad til mín verdur sagt: vér skulum gánga í hús Drottins; þetta sagdi hann, konúngurinn í Israel, og einum verkþræl á medal vor má varla núa til þess, ad sækja sóknarkyrkju sína á stundum, edur og húsbóndi hans hefir svo lúd hann í erfidi, ad hann gétur þad varla, hvad og er ein hrépligs synd. Nú er ecki þar med búid, kristnir menn! ad menn heyri Guds ord í kyrkjunni, allan daginn á Gudi ad géfa med réttu, ef þad gjøra má stórnaudsynja vegna; þegar menn eru frá kyrkjunni gengnir, þá eiga menn ecki strax ad hætta sínu gudrækinsverki, edur lifa svo sem aldrei hefdu þeir komid þar og hugsa ecki framar þar til; hvad á þá ad gjøra? rétt er ad sedja líkhamann eptir þørfum, þad er og ecki bannad, ad halda skickanligar máldryckjur á þessum døgum, þó svo, ad menn gledji sig med ótta og dýrki Drottinn med virdíngu, Ps. 2; þetta gétur og verid eitt af kjærleikans verkum, ef þad er gjørt án óhófs og metnadar; svo søgdu þeir Nehemías og Hezras kénnimadur og Levítarnir, er kéndu fólkinu: etid hid feita og dreckid sætan dryck, og sendid þeim einn part, sem ecki hafa tilbúid, því dagur þessi er helgadur Drottni vorum, Nehem. 8; þetta budu þeir ecki af eginn myndugleika, heldur eptir løgmáli Drottins, er ritad stendur í Deuterónómí bókar 16 kap., hvar fyrir slíkt er leyfiligt, sérdeilis ef menn gleyma ecki náúnganum og hinum fátæka, því þeim býdur Drottinn med svoddan hætti gott ad gjøra, Lúk. 14; en þótt ad Skaparinn hafi látid þetta eptir líkhømum vorum, þá eiga menn ecki ad láta sálina hlutlausa vera, heldur æfa hana í umþeinkíngu Guds orda, er menn heyrt hafa, og þess lestri, þeir sem á bækur kunna, og mega fyrir ødrum lesa. Ecki høfum vér, kristnir menn! færri edur smærri velgjørnínga Drottins ad minnast á vorum døgum, enn Gydíngar, eins er oss skyldt ad minnast á verk skøpunarinnar og þeim, og øllu meir á vora endurlausn af helvítis og syndarinnar þrældómi, enn þeim á lausnina af Egyptalands ánaud, ad hverri fullendadri (eg meina vorri endurlausn) ad Drottinn, sem dó fyrir syndir vorar, er upprisinn oss til réttlætis; á vora endurskøpun og helgun í skírninni, hverrar fyrirmyndan ad var gángur Israels sona yfir um hafid rauda úr Egyptalandi, því megum vér tileinka oss þad, sem Drottinn býdur í sínu løgmáli: geymid mína Sabbatsdaga, svo ad þér vitid, ad eg er Drottinn, sem ad helga ydur, Ezech. 20; á deydíngu holdsins, ad vér ei gjørum þad oss lystir á hans degi, né gaungum á

vorum vegum, Esa. 58. Um þetta egum vér ad hyxa á þessum helgum tímum, þad egum vér ad brýna fyrir bernum vorum og hjúum, ecki sídur enn Israels synir lögmálid, og skuli menn satt tala, þá er engin idja Gudi þeckari á Sabbatsdögum, enn ad uppfrœda úngdóminn og hina fáfródu í þeirra kristinndómi, því til þess má eg segja, ad kristinna manna Sabbat sé gjört sérílagi; gjœti þeir þess, ed af Gudi settir eru til slíkrar idnar, bædi kénnimenn, foreldrar og húsbændur, og hugleidi, hvad stórum reikníngi þeir eigi ad svara fyrir þenna dag, ad ödrum fráteknum. Nú fyrir því, ad svo er varid spilltu edli voru, ad fæstir af oss, já, svo fáir sem engvir af þeim, sem lifa á þessari köldu og sídurstu öld, þeir géta allan dag til enda Gudi þjónad í hjarta sínu, án þess ad hugur þeirra hvarfli frá, þá meina eg ad leyfiligt sé, ad hressa hjarta sitt med sidsamri og hœverskri skémtan á þessum dögum. Drottinn og hans lærisveinar gengu út um kornakur á Sabbatsdegi, Matth. 12; því veit eg, ad hann bannar ecki ad gjöra sér eitthvad til dægurstyttíngar, hvert heldur þad er med litilli vinnu edur meinlausum leik, nær þad ecki skédur af gjálífi, af lauslæti, af hreckvísi, edur ödrum hlutum, sem Guds háleita nafn verdur lastad med, svo og eru naudsyninni engin lög sett. Hvers ydar asni edur naut, sem fellur í pitt á Sabbatsdegi, er þad ecki jafnskjótt uppdregid? segir Frelsarinn hér í gudspjallinu; því veit eg, ad ecki á svo lögmálid ad skilja, ad öll vinna hafi Júdum bonnud verid á Sabbatsdegi, hvernig sem ástædist, þad kénnir Kristur sjálfur med þeim ordum, er strax voru lesin, og aptur med því, ad hann segir, ad kénnimenninnir í musterinu vanhelgi Sabbatid, hann meinar eptir Pharíseanna útleggíngu; eins mikil vinna var ad slátra fórnunum fyrir altarinu, svo sem í heima húsum, en fyrir því, ad þessir Pharíseí kynnu ad hafa sagt, ad slíkt helgadist af musterinu, þá leyfdi hann lærisveinunum axina ad plocka fyrir utan musterid á akrinum, og sagdi: hér er sá, sem meiri er enn musterid, Matth. 12, hvad ed satt var, því hann var musterisins Herra, svo vel sem Sabbatsdagsins, Lúk. 6; þad var og af guddómligri speki talad, er hann taladi undir eins: Sabbatid er gjört fyrir manninn, en madurinn ecki fyrir Sabbatid, Mark. 2; þetta er satt, svo sem öll hans ord, því madurinn var skapadur ádur enn Sabbatid var sett; hvar fyrir skyldi þá hin ædsta sképna Guds, sem er undir sólunni, vera svo mjög bundin vid kyrkjulögin, sem ecki áttu ad vera lengur enn til Kristum, ad ei mætti bregda út af lögvitrínganna útleggíngu? Guds lögmál útleggur og sjálft sig í þessari grein, þvíad í Levitíci bókar 23 kap. stendur optliga: þú skalt eckert þrældóms verk vinna; þad er ítrekad aptur í Núm. 28 og 29 kapítulum; hvílíkt þad sé, kénnir bædi Esaías og Jeremías, ad ei skuli bera byrdir inn um Jerúsalems port á Sabbatsdögum, og má þar af ráda, hvad í þessu hafi mest bannad verid. Nú er þó frelsi vort kristinna manna meira, því vér erum ecki ad öllu leiti bundnir vid Gydínganna Sabbat, nockud hefi eg ádur þar um sagt, nockud vil eg hér eptir segja. Þad er nú öllum kunnugt, ad kyrkjulög Mósis eru fyrir dauda Drottins afmád, en þad er ádur sýnt, ad forbod alls erfidis á Sabbatsdegi heyrir til kyrkjulögunum; satt er þad, ad Gud skipar, ad þetta lögmál um Sabbatsdaginn skuli vera þeim eitt æfinligt lögmál í þeirra kynslódum, en þær rugludust ei lángt eptir himnaför Drottins, og nú veit enginn af þeim af hverri ætt hann er, því er þad bert, ad þetta lögmál hefir ei ad

öllu leiti verid géfid nema Gydíngum; umskurnin kallast og eitt æfinligt sáttmál, þó er hún aftekin med skírn kristinna manna, því ber þess ad gjæta, ad ritníngin kallar þad æf- inligt á stundum, sem lengi á ad vera. En hvernig sem þessu er varid, þá vil eg adspyrja: hvar fyrir mun Páulus strafta þá í Galatía segjandi, Gal. 4: þér takid vara á dögum og mánudum og tímum og árum? hvar fyrir mun hann aptur segja vid þá í Cólossis, 2 kap: enginn skal dæma ydur í mat edur dryck, edur um hátídardags hald, edur nýmánada helg- ar, edur hvíldardags, sem ad er skuggi þeis eptirkomanda, en Christi er líkhaminn; hvad er þetta annad, enn ad Sabbatsins lögmál er ad nockru leiti linad, og ecki svo strengiliga bodid kristnum mönnum, svo sem þad var Júdum; eg vil og þad til leggja, ad þad kall- ast teikn í Exódí bókar 31 kap., hvad mundi þad þá teikna? þad ævarandi Sabbat, sem Drottinn byrjadi med sinni upprisu hér í nádinni, en mun fullkomna í upprisu allra manna, hvár eptir ad útvaldir munu eckert annad verk vinna, enn ad lofa Gud; fyrst menn nú hafa sjálfan hlutinn allareidu ad nockru leiti, því trúin er vera þeirra hluta, sem menn vænta eptir, Heb. 11, og ad vísu hver einn fullkomliga, sá ed í Drottni deyr, því skyldu menn þá svo mjög halda uppá teiknid? þegar eg líkhamann hefi, hvad gildir mig þá um skuggann? Svo er nú kristnum mönnum leyfiligt ad vinna á sunnudögum allt hvad stór naudsyn vid liggur, þó svo, ad menn heyri ádur Guds ord, ef heyra má, svo sem er ad bjarga atvinnu sinni frá skémdum, ef þær vidliggja, ad gjöra naudsynligar reisur, ad hjál- pa því, sem ad landi ber, ef annars er hætt vid ad missist, ad róa til fiskjar í hallæris tíd, þó svo, ad ei sé fátækum gleymt, eptir því sem lögin bjóda, og annad þessu líkt; þetta er leyfiligt ad vinna, og jafnvel þótt ecki beri brád lífsins naudsyn til, þá er þó ecki svoddan bannad. Ecki liggur mannsins líf vid ad draga nautid upp úr dýkinu á Sabbatsdegi, og þó má sjá, ad Gydíngar hafa þad leyfiligt haldid; ecki hefdu lærisveinar Drottins af húngri dáid, þótt ecki hefdu þeir plockad axinn á hvíldar deginum, og tók hann þá samt í forsvar móti illkvittni Pharíseanna, hann gat og sadt þá med ödru móti, hefdi þetta ecki leyfiligt verid, því ecki var hann kominn til ad uppleysa lögmálid, Matth. 5. Nú er þetta og annad kristnum mönnum lofad med sögdum hætti, en þess á enginn ad dirfast ad naudsynjalausu, edur ad brúka frelsi Guds barna til ágirni, edur gjöra þad af van- trausti vid Gud, edur forsmán vid hans helga daga. En hvad hér um er framar ad tala, þá er Gudi enginn hlutur þeckari ad gjöra á Sabbatsdögum, nærst sinni þjónustu, held- ur enn kjærleikans verk; hér stendur í gudspjallinu, ad hann hafi tekid á þessum vatnssjúka manni, læknad hann og látid hann í burtu fara; og hversu ad hann hafi Pharíseana sannfært hér um, er augljóst ecki einasta af hans tali í þetta sinn, heldur og af andsvari hans vid samkunduhöfdingjann, er vandlætti um þad, ad hann læknadi hina veiku konu á Sabbatsdegi, Lúk. 13: þú hræsnari! sagdi hann, leysir ecki hver ydar sitt naut og asna af stalli á Sabbatsdegi og leidir til vatns, byrjadi þá ecki þessari, sem er Abra- hams dóttir, hverja Andskotinn hefir bundid, sjá! í átján ár, ad leysast af þessu bandi á Sabbatsdegi? ecki erum vér megnugir um ad gjöra kraptaverkin, samt eiga þeir, ed læknis konstina vita, ad gjæta þessa, og allir ad gjöra vidlík kjærleikans verk hvad mest á þessum degi eptir því, sem hver hefir orsök og efni til. Eg veit þar er engin sú prédikun, ad eg

fái ecki ad heyra þar talad um syndir mínar, um gjæsku Guds og hans velgjørnínga, um ávøxtu trúarinnar og betrun lifnadarins, og þótt aldrei sé predikunin svo einfaldlig, þá veit eg, ad eg er ecki svo lærdur sem Lútherus, er sagdist aldrei hafa heyrt þá predikun, ad hann ecki hefdi eitthvad af henni lært, og mun hann þó hafa heyrt þær misjafnar á þeim døgum; sé eg nú Guds barn, þá vil eg sýna þad í verkinu, sem eg numdi af ordinu, annars er þad fallid utan hjá veginum í grýtta jord, edur medal þirna. Altíd egum vér kjærleikans minnugir ad vera, en þó helst á þessum døgum; Gud gjæfi, ad kristnir menn nú vildu gjøra sér þad ad skyldu-løgmáli, sem Páuls réd þeim í Korinthó um tillagid til heilagra: hinn fyrsta dag vikunnar, sagdi hann, þad er á sunnudaginn, þá leggi hver einn hjá sjálfum sér, safnandi í sjód, þad sem hønum hefir heppnast; fátæka høfum vér jafnan hjá oss, en þó høfum vér sérílagi orsøk til ad gjøra þeim gott á þessum døgum, því þeir koma ásamt oss fram fyrir Gud í helgidóminum, þar fáum vér bezt ad heyra naudsynjar þeirra, þar getum vér rádid bót á þeim, vér, sem Gud hefir gefid audlegd heims þessa, þar kunnum vér ad gjøra oss vini af hinum rángláta mammón, þá er medtaka oss í eylífar tjaldbúdir. Svo og egum vér ad vitja sjúkra, húsa eckna og føðurlausra á þessum døgum, því þad kallar Petur gudrækins verk, hugga þá, rádleggja þeim og ecki koma tómhendtir, ef vér megum afleggja en þeir eru naudstaddir, annars gengur þad nærri því, ad segja: farid í fridi, vermid ydur og mettist, en gefa þeim þó ecki hvad líkhamanum gagnar, Jak. 2. Svo gjærid nú þessa, kristnir menn! og gjørid ei hégóma úr Drottins-døgum, hans ordi, edur hans húsi, því hann lætur ecki ad sér hæda, og hvern sem hann forsmáir, þann vill hann forsmá. En þú gódi Gud og Konúngur dýrdarinnar! verka þú þad med oss, ad vér svo rækjum þína Sabbatsdaga, þitt ord, þína þjónustu og allar þínar helgar tídir, ad vér megum med þér óendanligt Sabbat halda fra einni eylífd til annarar med øllum heiløgum; bænheyr þad nádugi Fadir! fyrir Jesúm Christum, amen!

## A Michaelis Messu.

### Gudspjallid, Matth. 12 Kap.

Í þann tíma, gengu lærisveinarnir til Jesú og søgdu: hvør er mestur í himnaríki? Jesús kalladi eitt barn til sín, og setti þad midt í millum þeirra og sagdi: sannliga segi eg ydur, nema þér umsnúist og gjørist svo sem smábørn, munud þér ecki inngánga í Guds ríki. Hvør sjálfur sig lækkar, svo sem úngmenni þetta, sá er mestur í ríki himnanna, og hvør sem medtekur eitt þvílíkt úngmenni í mínu nafni, sá medtekur mig; en hvør hann hneixlar einn af þessum smælíngjum, sem á mig trúa, þarfara væri hønum ad mylnusteinn heingdist um hans háls og væri í sjáfardjúp søcktur. Vei sé heiminum fyrir hneixlanir! þar hljota þo ad koma hneixlanir, en vei þeim manni, fyrir hvørn ad hneixlanin kémur!

En ef þín hönd edur þinn fótur hneixlar þig, sníd hann af og snara honum frá þér, betra er þér inn ad gánga til lífsins halt-ur og handar vani, enn þad þú hafir tvær hendur og tvo fætur, og verdir í eylífan eld kastadur; og ef auga þitt hneixlar þig, þá slít þad út og snara því frá þér, betra er þér eineygdum inn ad gánga til lífsins, enn þad þú hafir tvø augu og verdir í hel-vítskan eld kastadur. Sjáid til, ad þér forsmáid ecki einn af þess-um smælíngjum, þvíad eg segi ydur, ad þeirra englar á himnum sjá jafnan míns Fødurs auglit, sem er á himnum.

## E x o r d i u m.

Þessi vegliga hátíd, er vér í dag høldum, er tileinkud hinum stóra høfudengli, Michael, hvers nafn ad merkir, jafn Gudi, eda, hver er svo sem Gud, ecki þess vegna, ad hann sé Gudi jafn edur nockur ønnur sképna, heldur hins, ad hin ønnur Guddómsins persóna, Guds eingétinn Sonur, hann ber þetta nafn sumstadar í ritníngunni, og medal annars hjá Daníel-em í 10 og 12 kapítulum; ecki heldur er þessi dagur helgadur Guds engli í þeirri veru, ad menn skuli dýrka hann þar med, því Drottinn Gud þinn skaltú tilbidja og honum einum þjóna, segir ritníngin, Matth. 4; þad bannar Páløs, er hann tekur oss vara fyrir, ad vér ei skulum láta villa oss med dýrkun englanna, Cól. 2, og ecki vildi engillinn, sem birtist Jó-hanni, ta kaá móti þvílíkri lotníngu, þegar Postulinn féll honum til fóta ad tilbidja hann, er hann sagdi, Apóc. 19: sjá til, ad ei gjørir þú þetta, eg er þinn samþjón; heldur er þessi hátídis dagur þar til gjørdur, ad þacka Gudi fyrir vernd h. engla, hverjum hann umbodid hefir, ad þeir beri oss á høndum sér, svo ad ei steitum vér fót vorn vid steini, Matth. 4. Í ritníngunni høfum vér mørg dæmi uppá varatekt h. engla; Gud, Drottinn himinsins, mun senda sinn engil fyrir þér, sagdi Abraham vid Eleasar þjón sinn, Gén. 24, er hann reisti í Mesópótamíam til ad bidja syni hans konu til handa; Jakob segir, ad engillinn hafi frels-ad sig frá øllu illu, Gén. 48; Petur segir: Drottinn sendi engil sinn, hver ed frelsadi mig, Act. 12. En þótt ad ei sjáum vér englanna sjónir nú á þessum døgum, þar hinn stóri Michael, hinn stóri engill þess mikla ráds, hefir búid svo um vor sáluhjálpar efni og svo ljósliga opinberad oss síns Fødurs vilja, ad vér þurfum ecki englana af himni til ad kénna oss hvad til vors fridar heyrir, þá samt skulum vér vita, ad þeir blessudu andar eru oss nálægir til ad afstýra skadrædi og árásum fjandmanna vorra, og þad vottar Pálus, er hann segir eptir Davíd, ad þeir séu allir þjónustusamir andar, útsendir þeim til þjónkunar, er sál-uhjálpina erfa skulu, Hebr. 1; nú viljum vér allir í þeirra tølu vera, þarfyrir egum vér ad leggja allan huga á, ad vér styggjum þá ecki frá oss med hneixlanligum og ógudligum lífnadi, hvar um ad þetta h. evangélíum géfur oss orsøk ad ræda, út af þeim ordum, er Drottinn talar um hneixlid, hvert ad er tvøfaldt, 1) þad menn géfa ødrum af sér; 2) nær menn hneixla sjálfa sig; um hvørttveggja vil eg med fám ordum tala; en þú gódi Gud! styrk oss hér til med nád þíns Anda, í Jesú nafni, a m e n!

## U t l e g g í n g i n.

Hver sem hneixlar einn af þessum smáu, segir Frelsarinn; þad ord, er í textanum stendur, er dregid af ødru ordi, sem merkir ad haltra, og þad þess vegna, ad sá sem hneixladur verdur, hann er ecki heilfættur, hann haltrar á Guds vegi og gengur ecki rétt fyrir Drott-ni; þetta á vel samau vid vora túngu, því hneixli drøgum vér af því ordi, ad hníga edur

hneigja, því sá, sem hneixli af sér gefur, hann kémur ødrum til ad hníga edur rasa, og hnegir hann til vondra verka; þetta ord merkir á grisku túngu þad tré, sem snørunni heldur, á hvert þegar dýrid rennur, fellir þad hana yfir sig og verdur veidimanninum ad brád; svo brúkar og Djøfullinn sína eyrindsreka í heiminum til ad veida einfaldar sálir, þeir halda snørum hans yfir høfdi þeim; svo kallar Páłus hans véla brøgd, er hann segir, ad þeir sem ríkir vilja verda, falli í Djøfulsins snørur; þar fyrir segir og Drottinn, fyrir munn Hóseæ, um hina ótrúu kénnimenn í Júda: þér erud snara í Mitzpa og útþanid net á Tabor, Hós. 5, dragandi dæmi af þeim veidiskap, er brúkadist á þessum fjøllum. Nú er þessi hin fyrri grein af hneixlinu med tvennu móti: annadhvert verdur þad med ordum edur verkum; med ordum skédur hneixlid, þegar þeir, sem eiga ødrum ad undirvísa, þeir kénna villur og rángan lærdóm, þann ecki er á Guds ordi bygdur og leidir til glötunar; fyrir þessari drepsótt hefir Guds fodurlig mildi þirmt landi voru, sídan hid klára ljós evangélií skein í hans kyrkju medal vor, lofad sé hans dýrdarfulla nafn um aldir alda! þetta verdur og, nær þeir, sem í Guds stad eru settir, prédika þad, sem er hégómi, ecki sundurkljúfa ord sannleiksins svo sem byrjar, ecki géfa Guds hjúum í réttan tíma þad þeim tilheyrir, og tala þad fyrir fólkinu, sem ei er til sadníngar sálu þeirra, svo hún er litlu edur engu nær, ecki segja hinum ógudliga til synda sinna, ecki leidrétta þann, sem fer villur vega, ecki undirvísa hinum fáfróda, ecki hugga þann sorgbitna og ángráda, já, þegar menn í Guds nafni og undir hans persónu reka sitt egid eyrindi til síns ábata og ad leita sjálfum sér virdíngar, en láta Guds dýrd fara, og eru ei mjøg hugsunarsamir þar um, hvad henni vid lídur, þessa kallar Páłus ótrúa erfidara og Esaías mállausa hunda, sem ei kunni ad gélta, en þó sterka hunda til ad eta; hvar fyrir? því þeir segja þeim stríd á hendur, sem ecki leggja í munn þeirra, en boda frid, nær þeir tyggja med tønnunum, Mich. 3; þeir eru hverfulir, ósannsøgulir og ljúga, segjandi: eg skal drjúpa, þad er, kénna þér fyrir víníd og fyrir áfengan dryck, svo sem Drottinn ad ordi kémst hjá Micheam 2 kap., og eg veit ecki hverju þeir betri eru þeim følsku spámønnum, er Drottinn talar um í gudspjallinu, er koma í saudaklædum, en innra eru þeir glepsandi vargar, því einu má gylda med hverju móti menn draga Audskotans plóg til ad spilla Guds akri, og er þetta eitt skélfiligt og bannvænt hneixli. Næst þessum tel eg þá, sem bædi sjálfa sig og adra venja á skammarligar ordrædur og fiblsligt hjal, sem eru blót, munneydar, dárlig skémtan, hróp og níd, ljótir kvedlíngar og þó allra helst illar umrædur og hneixlanligar um náúngann, sérdeilis dauda menn edur fjarlæga, af hverju ad þráfaldliga framkémur agg, reidi, þræta, mord, manndráp, og allra handa fjandskapur og daudligt hatur; þetta kalla sumir óhlutvandir menn litlar syndir, aukheldur ad þeir varist, ad láta jafnvel sín eginn børn og adra fáfróda þetta til sín heyra, en Páłus segir oss, ad íllt samtal spilli gódum sidum, 1 Cor. 15, og framar segir hann, ad þvílíkt ecki kristnum hæfi, Eph. 5; en hvad er þad? eckert annad, enn ad sá sé ecki kristinn ad Postulans dómi, sem ad temur sér þvílíkt edur um hønd hefir, en ef hann ecki kristinn er, þá er hann ecki Guds barn, og hefir forbrotid hans nád og tapad velferd sálar sinnar, nema hann ydrist af hjarta, en forþénad ecki einasta, ad mylnusteinn heingdist um háls hønum og yrdi í sjáfardjúp sockt ur,

svo sem hér stendur í gudspjallinu, heldur og, ad honum yrdi í eylífan eld kastad; og af þessu er nú audsært, hvad skélfilig hádung þad sé fyrir Gudi og øllum heidvirdum mønnum, ad hafa þenna ósóma fyrir smábørnunum, edur ødrum einføldum, og draga þá med svoddan hætti frá Gudi undir Satans vald, hverutveggjum bædi þeim sem hneixlar og hinum sem hneixladur er, til eylífrar gløtunar. Þeir eru og ecki saklausir af þessu, er hrósa vondum verkum og þeim er þau í frammi hafa, forsvara þá og tala þeim alla hluti til umbótar, því hér af leidist hinn einfaldi og barnid til ad gjøra hid sama og elska þad, sem þad lofad heyrir af ødrum sér eldri og vissari; þad er satt, ad manninn skal elska, en verkin hata, og færa alla hluti á betra veg, en því skal eg lofa hann, sem hatar Gud og góda sidu? jafnvel þó margur kalli þad hæversku og spaklyndi, ad gjøra þanninn; eg voga ad segja, ad þar er engin meiri drepsott í einni bygd edur landi, enn þeir menn, sem ógudliga lifa og einkis svífast hvad þeir gjøra, en eru þó heidradir í ordum, og hvad þeir tala edur gjøra, þad er tekid svo sem af himnum ofan komid, og jafnvel klækir þeirra eru dygdir kalladir; þessir eru eitt átumein alls heidurligs athæfis og gódrar skickunar, snara hins vonda heims, tálfuglar Djøfulsins, og svo eg þad í einu ordi segi, þeir eru meistarar til ad fordjarfa, svo sem Drottinn talar um Babýlon hjá Ezechíelem, því kalla eg þá litlu betri, sem ala ósóma þeirra ófánýtu hrósi; þó vil eg hér hafa fráskilid þann heidur, er menn eiga valdstjórninni ad veita, ecki einasta gódum og frómum, heldur og hreckvísum, segir Petur, og skrifad er: høfdíngja þíns lýds skaltu ecki bøls bidja, segir Páluss; en hitt annad, er eg fyrir skømmu umtaladi, þad orsakar stórt hneixli, því þad er nockurskonar rángdæmi og réttlætir hinn rángláta, edur ad minnsta kosti leggur vonda og góda ad jøfnu. Nú er allt þetta íllt, sem allareidu er upptalid, en kunstin stígur enn þá hærra upp í Djøfulsins háskóla. Þar eru þeir, sem ad hafa vald yfir ødrum, svo sem eru foreldrar yfir børnum sínum, húsbændur yfir sínum þénurum, stórherrar og magtarmenn yfir þeirra undirsátum, nær þessir bjóda eitthvad þad, sem ógudligt er, svo ad hinir voga ei annad enn hlýda, þad er eitt fullkomid ofríki og yfirgángur Satans í sínu ríki; svo baud Nebúcadnezar sínum undirsátum ad dýrka sitt gullbílæti, Dan. 3; svo skipadi Jessabel ad útvega falsvitni á móti Naboth; svo baud Heródías dóttur sinni ad bidja um Jóhannis høfud; svo kom Jeróbóam Israel til ad syndga, er hann baud ad dýrka þau skúrgodin í Dan og Bethel, og þó ad í øllu ødru sé ólíku saman ad jafna, þá var sjálfur Davíd hinum líkur í því, er hann lét slá Uríam í hel med sverdi Ammons barna. Þessa eptirmynd høfum vér á landshøfdíngjum þeim, er bjóda ødrum þá hluti, sem Gud hefir andstygd á, meinsæri, ofbeldi, gripdeildir, og í hvern helst máta, sem þeir locka þá edur hræda til ad vinna Djøflinum, en móthægja Gudi; á húsbændum, er þeir gjøra slíkt hid sama, ad því leiti, sem í þeirra valdi stendur, til dæmis: nær þeir bjóda þeim edur tæla þá til ad gjøra ødrum órétt sér til ábata, ad forsóma Guds ord og helgar tídir fyrir sín eyrindi, ad hefna á einhverjum, er þeir þykjast eiga heiptir ad gjalda, edur ad þeir brúka þá á einhvern hátt til ad framkvæma sínar girndir; þetta er eitt skadsamligt hneixli; og hid sama er ad segja um foreldrana, edur adra þá, sem yfir børnin eru settir, edur

umgángast med þeim, og er þeim þó miklu meiri vandi á hendi, enn öllum ödrum, fyrst þess vegna, ad foreldrarnir eiga hina mestu rækt á börnunum ad hafa, og er þad mála sannast, ad þeir eru færstir, sem vilja þeim íllt gjöra í líkhamligum hlutum, og sumir eru allt ofhlífnir í þvílíku, sumir steypa sjálfum sér til helvítis fyrir þeirra skuld, er þeir safna þeim rángfengnum audi og kénna þeim ad gjöra hid sama; en trúid mér, ad betra er ad gjöra barn sitt arflaust ad saklausu, betra er ad slá þad og lemja til óbóta, betra er ad myrda þad, enn ad hneixla med því, ad vísa því á nockurt forrædi, hvar af því kynni ad orsakast einhver sálar vodi, því allur líkhamligur skadi er hégómi ad reikna hjá meinum sálarinnar; hin önnur orsök til þess, ad oss er vandast vid börnin, er sú, ad þau eru hvad næmust á hid vonda, og hvad þau úng numdu, þad verdur þeim torveldara ad láta nær þau dragast á legg, og því tekur Frelsarinn þau til dæmis hér í gudspjallinu; hann virdti þau blessadur svo mikils, ad hann sagdi: leyfid börnunum til mín ad koma, hann setur þau til eptirdæmis þeim sem inn vilja gánga í Guds ríki, hann tók þau uppá sinn armlegg, hann blessadi þau, hann segir hér í gudspjallinu, ad þeirra englar sjái jafnan síns Födurs andlit, sem á himnum er; meinid þér eckí, ad hann taki þad sárt, þegar þau eru hneixlud, er hann svo mjög virdir og elskar, þegar þau eru dregin frá himnaríki, sem eiga þess vissa von á medan þau þanninn eru? munu ei Guds heilagir englar klaga þá sárliga, þegar þeirra hjörd, er þeir eru settir til ad vakta, þegar hún er svo illa útleikin af þeim, er sídst skyldi, edur ödrum óhlutvöndum, er vilja sem flesta jafnsvarta sér? þvíad ef þar er gledi í himninum yfir einum syndara, sem ydran gjörir, því skyldi þá ei Guds heilögum englum líka þad stórilla, nær svo er höndlad med þeirra fósturbörn? því kann hver einn nærri ad géta, sem nockra rækt hefir á því barni, sem honum er ástfólgid. Og þó nú Frelsarinn tali sérílagi um börnin í gudspjallinu, þá vitid ad allir adrir eru þar inni faldir; géfid engum neina hneixlan, segir Páll; en sérdeilis eru þad þeir, sem eru hans, einkum voladir, einfaldir og þeir, sem bera hans kross, því hann géfur þeim sömu meiníngar nafn hjá Matth. 25, þar hann kallar þá hina minnstu, já, sína minnstu brædur í sama kapítula; því skulum vér nú vita, ad hinn annar máti til ad hneixla med ordum er sá, ad ráda einhverjum til nockurrar syndar, þegar hann er sorgfullur og mótlættur. Jobs kona segir vid hann í hans stóru mannraunum: bölvadu Gudi og far ad deyja; henni eru állir þeir líkir, er ráda harmþrúngnum manneskjum til ad leita óleyfiligra medala, hinum sjúka til ad leita fjölkýngis manna, edur brúka adra hjátrú og afgudadýrkan, hinum fátæka til ad stela, edur vinna sér inn fé med prettum og rángsleitni, þeim sem óréttinn lídur ad hefna sjálfur sín, en forsmá lögin og stela hefndinni frá Gudi; hafi nockur eitt ódáda verk í sinni, eins og Absalon, þá vantar ecki einn Achítóphel til ad ráda honum ad kreinkja fridlur födur síns, 2 Sam. 16, og nær Ammon lítur girndaraugum til sinnar egin systur, þá verdur jafnvel hans brædrúngur, Jónadab, til þess, ad géfa honum rád til ad fremja sinn ógudligan vilja, 2 Sam. 13. Eg vil ei tala um þá, sem fleka adra einfalda til ad gjöra sér selskap í því, ad féfletta adra, til ad útsjúga hús eckna og födurlausra, til ad draga undir sig annars góts med yfirvarpi laga og réttinda; enginn hefir þá betur útmálad enn Salómon, er hann segir, Ordskv. 1: son minn! nær syndugir

menn vilja locka þig, þá kom ecki, þegar þeir segja: gack med oss, vér viljum umsitja blód, vér viljum umsitja hinn saklausa; og skømmu þar eptir segir hann oss, hvada tálbita þeir brúki til svoddan veida: vér skulum finna allra handa kostulig audæfi, vér skulum fylla vor hús med herfáng, vér skulum allir hafa einn sjód; ó, já, þér Satans englar! verda má þér hafid allir einn sjód í ydar fødurs ríki, sem er høfdíngi þessa heims, en svo munud þér og einn sjód hafa med honum í hinu vellanda díki, þegar Guds vesælíngar ljóma í ríki síns Fødur eins og stjørnur himins, þér munud segja eins og Israel fordum, nær þér fagnid ydar rángsengnum audi: þessi eru þau laun, er mínir elskugar hafa géfid mér, Hós. 2; en nær þér uppvaknid í helvíti og kvølunum med øllum þeim, er þér leidt hafid til gløtunarinnar med ydar falskri áeggjan, munud þér þá segja: þessi eru mín laun, er mínir elskugar, holdid, heimurinn og Djøfullinn hafa géfid mér? svo er nú þetta hin skadligasta og hneixlanligasta tálsnara, og þad þess heldur, ad slíkt er haldid framsýni og skynsemi af børnum veraldarinnar. Menn hneixla og sinn náúnga, nær menn bríxla hønum um einhvern hlut, jafnvel þann, sem ecki er í hans valdi: um fátækt sína, um fávitsku, um líkhamans skapnad, herma eptir hønum og spotta hann; allir þeir, ed svo gjøra, þeir ecki einasta hæda ad Skaparanum, heldur koma hinum til ad syndga, í því hann reidist slíku og leitast vid ad hefna sín, og fái hann ei hefndinni framkomid, þá hatar hann þann, sem hann lídur slíkan órétt af, en hatrid er ein synd, sem bannar manninum inn í himnaríki. Eg vil enn framar segja: hver sem bríxlar einum um bætta synd, hann géfur stórt hneixli af sér, því náttúran er svo illgjørn, ad sannindunum verda menn reidastir, en vér egum ecki ad géfa náúnganum orsøk til neinnar syndar, annars gjøra menn sig hluttakandi í annarligum syndum, og hver vill upptelja allt þad, sem túngan hneixlar med, nær hún er upptendrud af helvíti, segir Jakob. Eins vil eg géta, ádur enn eg skilst vid þetta mál, sem er þad Satans ædi, er margur gárúngur brúkar, ad spotta Guds þjónustu og hlæja ad þeim, er hana idka; þetta er rétt ad gabba Gud og hæda ad Christó í sínum píslum, því svo sem ad hinir ógudligu kénnimanna høfdíngjar med þeirra hádugligri medferd leiddu þad fólkid, sem skømmu ádur hafdi sín klædi breidt á veg-inn og kallad: hósíanna syni Davíds! þeir leiddu þad, segi eg, til ad hrópa litlu sídar: tak burt þenna og géf oss Barrabam lausan; svo fyrirverdur sig margur einfaldur og ístødulítill, þegar þeir sjá, ad kristiligt líferni ablar þeim haturs hjá mønnunum, og þetta er verra enn allt annad, sem ádur er upptalid, því nær hneixlid hefir þríst einhverjum til ad burtkasta Guds ótta og láta meir ad mannanna dómi enn Guds, þá fylgja þar allar skammir á eptir; og þanninn verdur nú hneixlid med ordunum; en med verkunum skédur þad ecki minna; vei heiminum fyrir hneixlanir! segir Drottinn; þetta vei talar hann af medaumkan, álíka og þegar hann grét yfir Jerúsalem; hvar fyrir? því hann sá, ad þar yrdu ad koma hneixlanir, ecki af Guds tilstilli, hverjum ecki líkar ógudligt athæfi, heldur af heiminum, sem ad liggur í hinu vonda, og hefir hans alvísa speki ad vísu einnig litid til illsku þessara tíma, sem er svo mikil, ad í villu kynni ad leidast, ef ské mætti, jafnvel út-valdir. Nú kémur hneixlid af verkunum þegar menn drýgja opinberar skammir og lesti, sem eru þvert á móti Guds bodi og løgunum, svo sem okur, ránglæti, ágirni, óhóf,

ofmetnadur, og þad svo blygdunarlaust, ad menn ecki einasta fremja þad sjálfir, heldur samsinna þeim, ed þad gjöra. Þetta eitur skadar med tvennu móti: fyrst, ad þad leidir bædi adra eins vonda, svo og þá, sem af náttúrunni eru þó ecki illgjarnir, til ad gjöra þad illt er; sá sem umgengst med hinum halta, hann lærir ad haltra, sá sem gefur eina ljóta forskrift, hann veldur því, ad annad eins ljótt verdur eptirskrifad, og menn hafa allt of mörg dæmi til þess, ad almenníngur lockast til ad gjöra þær syndir, sem særstir mundu gjöra, nema þeir sæi adra gjöra þad fyrir sér, og ad þad væri sidvani og tídska manna á medal; en á annann veg hneixlast og þeir, sem frómir eru og rádvandir, ad þeir verda óþolinmódir yfir slíku, eins og Elías yfir Achabs húsi og Páll yfir ránglæti Ananíæ höfudprests, svo hann rasadi med túngu sinni, já, þar kviknar í þeim nockurskonar leidi og óskickanligt vandlæti, svo þeir taka þad til ráds, sem Gudi er stygd í, eins og Jónam hendti, er hann flúdi undan Guds bodi; og enn nú munu þeir finnast, er leita svoddan óyndis úrræda, nær þeir sjá, ad allt gengur andhælis, annadhvert ad þeir slást í selskap med þeim, er þannin breyta, edur ad þeir yfirgefa sjálfa sig og skyldu síns embættis. A öllum er þetta hneixli skadsamligt, en þó hvad mest á þeim, sem eru máls metandi og bodnir yfir adra. Kénnimennirnir hneixla, nær þeir gjöra allt annad enn þeir prédika, svo ad þegar almúginn ber kénnínguna saman vid lifnadinn, þá verdur þjónustugjördin löstud, og þeir fallast miklu heldur á þad, er þeir sjá fyrir augunum, sem er ein þegjandi prédikun, heldur enn þad þeir heyrdu med eyrunum, því bædi gleymist þad fljótt, og þykir engin alvara, nær því er hvad síst eptirfylgt af þeim, sem þad helst áttu ad gjöra, því ecki eru allir, þeir ed gjört géta þad, sem Frelsarinn býdur, ad hlýda því er þeir tala, sem sitja á Mósis stóli, en breyta þó ecki eptir gjörníngum þeirra; en hvad verdur þá? þad sama sem Frelsarinn segir, er hann kalladi lærisveinana salt jardar, en ef saltid skémmist, í hverju verdur þá saltad? Matth. 5; og ef Guds þénarar lifa illa, hver er von á því, ad tilheyrendurnir gjöri þad betur? Hid veraldliga vald hneixlar stórliga, nær þeir dæma rángliga, taka sé til dóma, umhverfa gódum lögum og gjöra réttinn ad malurt, svo sem Spámadurinn ad ordi kémst, taka ránga eyda vísvitandi, tradka málum og draga þau til ad þreyta þann, sem rángindin lídur; af öllu þessu framkémur eitt skélfiligt hneixli, því þad elur ósóma upp í skálkinum og venur hann af ad hrædast lögin, en tekur allan dug frá hinum fróma, svo hann verdur hinum ad bráð, edur og, ad hann tekur þad óráð, ad ræna réttinn sínum rétti og hefna sjálfur vanvirdu sinnar; og framvegis skédur þetta hneixli, nær þeir, sem völdin hafa, brjóta sjálfir lögin hvad mest, eru lauslátir, órádvandir, ágjarnir, svíkja daglaunarann, fleka eigur sínar út af hinum einfalda, eru baráttusamir, ofbeldnir og fremja allra handa skammir og óhæfu, er þeir straffa á ödrum, svo sem væri ecki lögmálid gjört nema fyrir almúgann. Foreldrar og húsbændur hneixla börnin og hjúin, ecki einasta, nær þeir leggja einhverja synd í vana sinn, heldur og fremja eckert gott, eru tómlátir í ad heyra Guds ord, yfirvaldinu óhlýdugir, latir, hirdulausir, reidigjarnir og lifa í þvílíkum syndum, því þá meina hinir, ad ei sé sér vandara, og þad heitir rétt ad hneixla Krists hina smáu, svo sem hér stendur í textanum. Hinir ríku hneixla hina fátæku, nær þeir lifa í allskonar óhófi, en hinir svelta; fátækir hina ríku, nær þeir fara illa med

ølmusuna og eru óþackátir, gefa svo hinum orsøk til, ad halda því inni, sem annars ætti úti ad láta; og þar verøldin er nú full af þessu, þá er ei undur, þó Frelsarinn segi: vei sé heiminum fyrir hneixlanir! Framvegis rís þar á stundum hneixli af þeim hlutum, sem hverki eru gódir né vondir í sjálfsum sér, en verda þó ødrum til hneixlis; eg vil taka þad til dæmis, ad á St. Páls døgum leyfdist allan mat ad eta á medal kristinna, eins og nú í vorri kyrkju, sá, sem át allan mat og hinn, er hélt sig frá sumum, bádir voru þeir Gudi eins kjærir, og hverugur vill hann ad annann dæmi, þó segir hann: ef ad þinn bródir hriggist vegna fædslunnar, þá gengur þú ecki eptir kjærleikanum, tortýn hønum ecki med fædslu þinni, fyrir hvern Kristur dáinn er, Róm. 14; þó nú lítid þyki í þetta spunnid, þá metur Postulinn þad svo mikils, ad hann heldur þad kunni ad verda einum til gløtunar, sem Guds Sonur hefir þó endurleyst, og hans dýra blód svo til ónýtis á hønum, því segir hann og í ødrum stad: vissa eg, ad minn bródir hneixladist, skylda eg aldrei kjøt eta. Hvílíkir eru nú margir hlutir medal vor, svo sem er ein og ønnur sérgjædi í umgengni, er vér køllum affarasnid á vora túngu, eitt og annad látgjædi þeirra, sem annadhvert í klædaburdi edur annari hegdan vilja vera ødruvísi enn adrir menn, hvad jafnvel sumir af oss brúka á helgum tídum, nýar uppáfyndíngar í ýmsum hlutum, sem ecki eru verri enn hid gamla skick, ecki heldur betri, og annad þvílíkt, sem adgjætnir menn fá vel athugad; þetta er ad sønnu engin synd í sjálfu sér, en þad verdur ad synd, ef náúnginn hneixlast þar af til ad tala edur þeinkja illa um hann, er svo gjørir ad þarflausu, og því bannar Páls, ad gjøra þad nockud, á hverju ad nockur bródir kunni ad hneixla sig edur steita, Róm. 14.

Hvad hinu ødru vidvíkur, sem eg hét um ad ræda, þá kunna menn hvad mest ad hneixla sjálfir sjálfa sig; þad kémur af þeirri synd, sem í oss byggir, voru spiltu holdi og blódi; þess gétur Frelsarinn hér í textanum, er hann segir: ef þín hønd edur fótur hneixlar þig, þá snid hann af og snara hønum frá þér; ecki er þad Frelsarans meining, ad menn skuli vana sig edur limlesta, heldur sú, ad vér skulum eckert svo kjært hafa, ad vér ei høfnum því, edur frá oss køstum, fyrr enn þad hneixli oss, svo ad vér føllum í freistni, og dregur hann hér dæmi af læknurum. Oss er enginn hlutur kjærari enn vorir limir, og þó, ef nockur af þeim er svo rotinn, ad hætt er vid, ad hann megi fengja hina, þá lídum vér þad lækninum, ad hann skéri hann af, því skyldum vér þá ecki deyda vora jardnesku limu, saurlífi, óhreinleika, illa tilhneigíng, vonda girnd, ágirni, hver ad er skúrgoda dýrkan, svo sem Páls ad ordi kémst, Cól. 3, og þad sem hann hér segir um þessa lesti, þad vill hann sagt hafa um allt hid vonda, sem í gégn sálunni strídir, hvert hann upptelur í pistilinum til Galatas 5 kap; þessi er líkhami syndarinnar, sem umgétur Róm. 6, þad er hinn gamli madurinn, hver ed brúkar sína limu, vondar girndir til ad reka Andskotans eyrendi, eins og einn verkamadur brúkar hendur og fætur til ad þjóna náttúrligu lífi, þá byrjar oss ad deyda, þá egum vér ad affnida og snara þeim frá oss, svo þeir hneixli oss ecki. Hversu opt verdum vér hneixladir af høndunum, þegar fólskan blæs þær upp til ad meida hold náúngans, þegar ágirndinn réttir þær út til ad grípa hans góts og peninga, þegar letin svæfir þær til ad leggja sig saman, Ordskv. 24, svo menn géta ecki etid sitt egid braud og verda því ad leita þess í annara andlitis sveita. Fæturnar hneixla oss, nær

leidinn á Guds ordi og tómlætid í vorum sáluhjálpar efnum gjörir þá trega til ad gánga í hans hús, en fúsa til ad hlaupa þángad, sem þeir hlutir eru idkadir, hverja Gud hefir bannad, þá er hinn gamli madurinn skjótur á fæti, en hinn nýi haltur, og þá hneixlum vér oss og hneixlum nærsta mjög sjálfa. Sama er um augun ad segja, hverra Frelsarinn og gétur hér í gudspjallinu; hvad er í heiminum? þad er girnd holdsins, fýsn augnanna og drambsamt líferni; hversu opt festa sig vor augu á þeim hlutum, sem eru fullir af þessu? fögur ásýnd, audæfi, metord og svoddan tál veraldarinnar, þad er vor augnavodi; ó! hvad miklu betur væri þad auga útstúngid, er lætur sig blinda af þessum hlutum, en hverfur af Gudi sínum og hans bodordum; þess vegna gjördi Job sáttmála vid augu sín, ad ei liti hann þeim til meyjarinnar; því bidur Davíd Gud: snú þú augum mínum, ad ei líti þau á hégómann, lát mig gánga á þínum vegum! gefandi þar med til vitundar, ad sá sem starir á glis veraldarinnar, hann kunni ecki Guds veg ad rata. En þad, sem Drottinn hér segir um þessa limu hins gamla manns, þad vill hann sagt hafa um allt þad, sem oss má frá Gudi draga. Sá, sem virdir meir födur og módur, systur edur bródur, edur eigin konu sína og jafnvel sitt líf, heldur enn Kristum, hann hneixlar sjálfan sig. Sá sem girnist þad embætti, sem hann er ecki madur fyrir (hvad margur dári gjörir á þessum dögum), hann hneixlar sjálfan sig, því hann gjörir sig verri med því, ad hann fer illa med Guds umbod sökum fákjænsku edur annars duglejsis, þar hann hefdi annars kannské gódur madur verid. Sá, sem tekur sér hneixli af þeim hlutum, sem ecki eru hneixlanligir, heldur gódir og Gudi þeckir, svo sem er skynsamligt vandlæti í kénníngunni, röksemi yfirvaldsins í stjórninni, alvörugéfni skólameistara, foreldra og húsbænda í tiptaninni og umvönduninni, hver sem steitir sig á þessu, hann sami hneixlar merkiliga sjálfan sig; svo hneixludu þeir sig á Mósi Guds manni, því hann rak Guds eyrindi sköruglıga; á Elía, Michea og Jeremía, af því þeir vandlættu í Guds stad; á sjálfum Christó, því hann heidradi sinn Födur, en þeir vanheidrudu hann; á hans postulum, því þeir hlýddu framar Gudi enn mönnum. Sá, sem steitir sig á annars hæglæti, og meinar sér leyfist allt vid hann ad gjöra, því hinn er ecki heiptrækur, hann hneixlar sjálfan sig; svo hneixludust Israels synir á Mósi, því hann var hinn þolinmódasti madur á jördunni, á Christó, því hann hrópadi ei né kalladi, hann át og drack med tollheimtumönnum og bersyndugum. Sá sem er rángeygdur, ef nockur er gódgjarn, hann hneixlar sjálfann sig, svo voru þeir ed fyrstir voru leigdir í víngardinn, en öfundudu hina, sem ecki höfdu nema eina stund erfidad; svo var háttad bródur hins fortapada sonar, er ecki gat lidid ad hans fadir miskunadi sig yfir hann; svo eru og allir þeir, ed sjá ofsjónum yfir annara velgengni og luckuláni, svo sem hefdu þeir af Gudi eins mikid, edur meira, forskuldad. Sá ed vegar sér í nockurn selskap, sem honum er ofvaxinn, edur leggur lag sitt vid þá, sem hann kann ad hljóta skada af, hann hneixlar sjálfan sig; því bannadi Gud sínu fólki ad taka til egta Kanaans dætur, edur ad gjöra sáttmála vid þá, er hann útrak frá þeim, ad ei yrdi þeir þeim ad snoru; því bannar Salómon ad hafa umgengni med reidigjörnum manni; þad máltæki er satt: ef nockur tekur á tjörunni, þá lodir hún vid hann; hefdi Israel ecki samlagad sig skjækjunum í Móabs landi, þá hefdi ecki svo skélfilig Guds hegníng yfir þá komid;

hefdi Samson ecki bundid svo fasta ást vid Dalíla, þá hefdi hann augunum haldid, og hefdi Petur ecki gengid inn í biskups høllina, mundi hann ecki hafa sínum Meistara afneitad. Sá sem reidir sig uppá sjálfann sig edur sitt atgjørfi, abl, vitsmuni, magt, ríkdóm, edur nockurn annann hlut, en gleymir því, ad hann hafi þad þegid, hann hneixlar hvad mest sjálfan sig, og kann ecki óluckuna ad umflýa; þad kénna oss dæmi Egyptalands, Assyríæ og Kaldealands konúnga, er á augnabliki urdu upprættir, því þeir gáfu ecki Gudi dýrdina. Og hefi eg svo nockud um hneixlid talad; en hvert ad sé þess straff, þad segir Frelsarinn med þessum ordum: vei þeim manni, fyrir hvern ad hneixlanin kémur; en hvad þad sé, kénnir hann oss sjálfur, er hann sagdi: vei þeim manni, sem mannsins Son forrædur! og hér í gudspjallinu má þad sjá, ad hann, sem ecki kastar frá sér þeirri hønd edur fæti, sem hann hneixlar, hann hefir forþénad ad kastast í eylífan eld; sama er ad segja um hinar adrar greinir af hneixlinu, því ecki skulum vér meina, ad sá, sem børnin hneixlar edur adra Guds vesælínga, hann muni sleppa þar med, ad mylnusteinn heingdist um háls hønum og verdi í sjáfardjúp søcktur, heldur tekur Drottinn til þessa, eins og hins smánarligasta lífsstrafs á medal Gydínga, til ad sýna stærd þessarar syndar. Þarfyrir, kristnir menn! gefid nú gjætur ad þessari voldugu Drottins prédikun og látid ydur hana í eyrum loda, ransakid ydar undanfarid líferni og spyrjid samvitsku ydar ad, hvern þér hafid dregid med ordi, verki, edur eptirdæmi, á vondan veg, med gjálífi, med lauslæti, med fégirni, med hofmód og oflæti, og í einu ordi ad segja, med dýrkan veraldarinnar og hennar muna, og ef hann gengur enn nú á hønum, þá leggid allan hug á ad leida hann á hina réttu leid, ef þér viljid lifa, og ydrist hins af hjarta. Sá, sem nockru stolid hefir, hann á eptir Mósis løgmáli ferfaldt ad gjalda; Sacheus sagdi vid Krist, þegar hann ætladi sér kristinn ad verda: hafi eg nockrum rángt gjørt, þá géld eg þad ferfaldt aptur; en svo miklu dýrari sem sálin er fénu, svo miklu þýngri sem Guds reidi er mylnusteininum, svo miklu fegra sem himnaríki er stundligu eptirlæti, svo miklu meiri hug skyldum vér leggja á, kristnir menn! ad bæta þeim aptur, sem vér rænt høfum sínum andligum féssjód. Nær þér sjáid eitt úngmenni, einn vesæling, einn, sem Drottinn býdur ad medtaka í sínu nafni, þá hugsid med ydur: smáir eru þessir ad vísu, en hann er stór, sem er þeirra fadir og þeirra bródir: smælíngjar eru þeir ad sønnu, en hneixlid er stórt, syndin er mikil og straffid óbæriligt: vesælíngar eru þeir, en sæll er sá, sem ecki hneixlar sig á þeim, því hann hneixlar sig á Christó, en vei sé hinum! Þarfyrir, ef þér viljid Guds vinir vera, ef þér viljid sáluhjálpina erfa, ef þér viljid heilagra engla þjónustu njóta, ef þér viljid helvítis kvalir umflýja, þá gefid þeim eckert hneixli, hverki med ordi, verki, né eptirdæmi, því nær þér hneixlid þessa, þá hneixlid þér sjálfa ydur; þarfyrir, medtakid þá í Christí nafni, svo medtakid þér hann og fáid ad heyra á hinum efsta degi: þad þér gjørdud einum af þessum mínum minstu brædrum, þad gjørdud þér mér! þess unni oss ad njóta hin eylífa Guddómsins hátign, fyrir Jesú blessada forþénustu, amen!

# Atjánda Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Matth. 22 Kap.

Í þann tíma, þá Pharísearnir heyrdu þad, ad hann hafdi nidur þaggad þá Saddúceos, samansøfnudust þeir í eitt; og einn løgvitríngur af þeim spurdi hann ad, freistandi hans, og sagdi: Meistari! hvørt er hid hæsta bodord í løgmálinu? en Jesús sagdi til hans: þad, ad þú skalt elska Drottinn Gud þinn af øllu hjarta þínu, og af allri øndu þinni, og af øllu hugskoti þínu, þetta er hid fyrsta og stærsta bodord; en hitt annad er þessu líkt, þad, ad elska skaltu náúnga þinn svo sem sjálfan þig; í þessum tveimur bodordum er innibundid allt løgmál og spámenninnir. En þá Pharísearnir voru svo til samans komnir, spurdi Jesús þá ad, og sagdi: hvad virdist ydur um Krist, hvørs son hann sé? þeir søgdu hønum: Davíds; hann sagdi þá til þeirra: hvørninn kallar Davíd hann þá í anda einn herra, þar hann segir: Drottinn sagdi mínum Drottni: sit þú mér til hægri handar, þángad til ad eg legg óvini þína skør fóta þinna; nú ef Davíd kallar hann einn herra, hvørninn er hann þá hans sonur? og enginn gat svarad hønum einu ordi, og eigi dirfdist nockur upp frá þeim degi hann framar ad spyrja.

## E x o r d í u m.

Tveir eru partar kristiligs lærdóms, løgmálid og evangélium; løgmálid er fyrir Mósen útgéfid, en nád og sannleiki er fyrir Jesúm Christum vordinn, Jóh. 1; af løgmálinu verdur enginn hólpinn, því þad verkar reidi; fyrir trúna í evangelíó verdum vér réttlátir; Móses segir oss, hvad vér egum ad gjøra, Kristur, hvørninn vér egum ad trúa; Móses fór med skugga eptirkomandi gjæda, í Kristó er sjálfur líkhaminn oss veittur. Nú er þetta þó ecki svo ad skilja, ad fedurnir í G. Testamentinu hafi af evangélíó hlutlausir verid; sjá, eg kém, í upphafi bókarinnar stendur skrifad af mér: þinn vilja, minn Gud! gjøri eg, segir Messías fyrir Davíds munn, Ps. 40; hver er sá hans vilji? sá, ad kvinnunnar sædi skyldi í sundurmola høggormsins høfud; fyrir þad blessada fyrirheit hafa þeir allir hjálpast eins og vér, sem hólpnir eru vordnir, allt þar til ad Kristur leiddi sannleikann í ljós. Fyrir trúna vard Abraham réttlátur, og fyrir trúna segir Pétur, ad fedurnir hafi hólpnir vordid; en svo sem þeir voru ecki án evangélíí og þess ástgjafa, svo skulum vér þad og vita, ad vér ecki erum án løgmálsins, því Drottinn kom ecki til ad upplevsa, heldur ad uppfylla løgmálid, Matth. 5. Satt er þad, ad þeir sem Kristó tilheyra, þeir eru ecki undir løgmálinu, þad er, undir løgmálsins bølvan, en þó krossfesta þeir sitt hold med þess girndum og tilhneigíngum, Gal. 5; þad heimtist ecki af þeim, ad þeir uppfylli løgmálid, en þess krefur Gud, ad menn lifi eptir því sem fremst vér megnum; edur því mundu hans postular svo opt bjóda oss ad lifa gudrækiliga, sparsamliga og réttvísliga í heimi þessum? því mundi Jakob segja, ad trúin sé daud án verkanna? því mundi Frelsarinn sjálfur útleggja løgmálid, og vísa mønnum til þess, ef ecki ættum vér eptir løgmálinu ad lifa. Þetta sjáum vér í þessa h. dags evangélíó, í hverju oss verdur fyrir sjónir sett øll skylda kristins manns, sem fólgin er í þessu tvennu: 1) ad elska Gud og náúngann; 2) ad þeckja Christum og hans persónu réttiliga; um þetta hefi eg ósett mér framar ad tala; en þú, gódi Gud! styrk oss hér til med nád þíns anda, í Jesú nafni, a m e n!

## Utleggíngin.

Í hinu fyrra höfum vér tvö boðorð að athuga, sem er, að elska Guð, og annað, að elska náúngann; það fyrra kallar Drottinn hið æðsta og mesta boðorð í lögmálinu svo sem von er á, ecki einúngis þess vegna, að eckert er svo ypparligt, svo dásamligt, svo mikillar elsku verdt, sem Guð, heldur og þess vegna, að öll önnur boðorðin hafa sinn krapt og myndugleika af því, þar allt hvað vér gjörum með orð og verk, hversu vel sem það sýnist gjört, það er ónýtt, utan það framkomi af elskunni og virðíngunni til Guðs. Allt það, sem Guð hefir boðið, það egum vér að gjöra, af því vér óttumst og elskum hann, en hann egum vér að elska fyrir þá ómetanligu yfirburði, er hann hefir yfir allar sínar skepnur, hans magt, hans dýrð, hans réttlæti, en þó allra mest fyrir hans gjæsku, því vér höfum ei svo skynbragð á öðrum greinum hans dýrðligu hátignar, en hana finnum vér og þreifum á henni á hverju augnabliki, því hann uppfyllir vora eptirlaungun með gjæðum, segir Davíð, Ps. 103. Og ef vér fyrst viljum hugleiða gjæsku hans í líkhamligan máta, er hann þá ecki sá, ed hefir gefið oss önd og líkhama? því skyldum vér þá ecki elska hann af allri öndu vorri? hefir hann ecki innplantað ráð og skilníng í sálir vorar? því skyldum vér þá ecki elska hann af öllu hugskoti voru? hefir hann ei gefið oss hjartað, sem er bústaður elskunnar? á hverjum skyldi hún heldur festa sig, enn á hönum, sem hana hefir sjálfur tilreidt og búið svo dásamliga um hana? mun hann ei vera sá, í hverjum vér lifum, erum og hrærumst? Act. 17, uppfyllir hann ecki hjörtu vor með fæðslu og fögnuði? upplýkur hánn ecki sinni mildu hendi og seður allar lifandi skepnur? Ps. 145, og hvað mest hina óþacklátu manneskju. O, vor Guð! eg hyxa til þess, er Drottinn brixlar sínu fólki hjá Jeremíam, segjandi: hefi eg verið Israel svo sem eyðimörk, eður jörð sú, er tapar ávextinum? Jer. 2; Guð gjæfi, að vér vildum og láta oss til rifja renna þessa hans föðurliga hjartagjæsku, og athuga, hvað örlát hans mildi hefir verið, hversu vísdómsfull hans guðdómliga forsjón, að hann hefir alið oss á þessum árum, ei síður enn frjóssöm jörð akurkarlinn að hönum sofandi, á hverjum vér höfum þó hvað verst lifað; ef vér hugleiðum þetta, að minnsta kosti í hvert sinn, er hann veitir oss nockurn sérdeilis velgjörníng, þá mundum vér heldur leiðast til að elska Guð, og ecki segja með guðlausum Júðum: vér drotnum og viljum ei framar til þín koma, Jer. 2. Og þó nú að Drottinn láti oss kénna hardt á stundum, annaðhvert alla almenniliga, eður og nockra sérílagi, til að tipta oss þar með, lífaða kálfa, Jer. 31, eður til að reyna sín börn, þá egum vér samt að elska hann, því hvern þann son, sem Faðirinn elskar, þann agar hann, segir Páluus, Hebr. 12; en ef þetta er hans elskumerki, hvílík fásinna er það þá, að elska hann ei aptur á móti, og Guð náði, það eru þó svo fáir, sem gjöra það. Svo sem það er lítill heiður haldinn, að elska vini sína meðan þeir kunna að duga oss, svo er það lítið ræktarmerki við Guð, að elska hann alleina meðan allt að óskum gengur; en svo sem gullið reynist í ofninum, svo prófast og elskan til Guðs í mótgánginum; og hvað mörgum hefir hann þrist til að elska hann, sem því áður fjarlægir voru, og hafa menn til þess

fulla orsøk, nær menn gjæta þess, ad hvad sem hans elskendur vantar hér, þad mun oss margfaldliga endurgoldid verda í upprisu réttlátra; þad vottar sjálfur Drottinn, er hann segir: hver, sem ad yfirgéfur hús, og brædur, og systur, edur fødur, edur módur, edur eginkonu, edur børn, edur akra, fyrir míns nafns sakir, hann skal fá hundradfaldt aptur og eignast ad erfdum eylíft líf, Matth. 19, en hvern, sem ad hann sviptir øllu þessu, edur svo miklu edur litlu, sem hønum þóknast, og hann elskar samt Gud sinn og kyssir á hans vønd, hann gjørir allt hid sama. Munum vér þá nockud minnast harmkvæla þessara tíma, nær vér skínum eins og sól í ríki vors Fødurs? Matth. 13; mun sonurinn reikna þau høggin, er fadir hans sló hann, nær hann situr í tign og heidri? því er þad fávísligt, ad vilja ei kaupa þessu, og því skyldum vér þá ei elska vorn himneska Fødur, jafnvel midt í hørmúngunum. En hvad almenniligri tiptan vidvíkur, þá gæfi Gud, ad vér vildum eins lyndir og samhuga vera í því, ad elska Gud, þó hann agi oss, sérdeilis þar vér í þessu fátæka landi megum játa þad, ef vér adgjæta viljum, ad hann burtrekur ecki eylífliga; vér møgum þeckja þad vid oss framkomid vera, sem hann heitir sínu fólki fyrir munn Jóels spámanns: eg skal endurgjalda ydur þau árin, sem ad engisprettan, tréormurinn og grasmadkurinn hafa eydt fyrir ydur, Jóel 2; ó, vor Gud! því skyldir þú manninum betala? hver hefir þér nockurn tíma géfid, svo þú þurfir hønum aptur ad géfa? Róm. 11; viljir þú gjalda oss eptir verdugleikum, þá eru vor laun daudinn; vér høfum ecki annad medtekid í straff syndarinnar, enn hvad vér tilunnid høfum, og þad med nærsta smáum mælir, en því veldur þín gjæska, þín fødurlig elska, ad þú vilt svo ad ordi komast. Þarfyrir hugleidum nú, kristnir menn! hafi Gud tiptad oss óhlýduga synda-þræla med óáran nockurri, edur ødrum landplágum, hefir hann oss þad ecki margfaldliga aptur goldid med hinni mestu árgjæsku og ødru blídlæti sínu? skyldum vér nú elska nockurn jafnframt hønum, er svo leikur vid oss, eins og børn sín? En hvad segir Drottinn, fyrir munn Jóels, sídar í þessum sama kapítula: nær þér etid jafnadarliga og erud mettir, munud þér lofa nafnid Drottins? en hvert ad hinn gódi Gud hefir ei optliga fundid brest á þessu hjá mørgum af oss, þad bid eg þá ad hugleida, um hverja eg hygg þad rétt talad sé, er stendur hjá Hóseam spámanni í 13 kap: undir eins og þeir saddir urdu, hófst upp hugur þeirra, þarfyrir hafa þeir gleymt mér. En øll þessi líkhamlig blessan, svo mikil sem hún er, sem þó er svo mikil, ad aldrei verdur hún fullþøckud, þá er hún þó smámunir hjá hinum andligu gjædum ad reikna, er oss veitt eru í Jesú Christó. Fáum oss er tamt ad elska Gud fyrir þær gáfur, sem allir jafnt njóta: fyrir hans sól, er hann lætur skýna yfir vonda og góda, fyrir þad regnid, er hann falla lætur yfir rángláta og réttláta, Matth. 5; hvar fyrir? þvíad allir meina sig þess verduga, fyrst allir hafa þess somu not, en ávøxturinn verdur þó meiri hjá sumum, en sumum minni, jafnvel þótt ad tveir hafi hina somu atburdi, því blessan Drottins er þad, sem húsid byggir; en hans heilsusamlig nád í Christó er augljós vordin øllum mønnum, Tít. 2, hún er aldrei ávaxtarlaus hjá þeim, sem hana medtaka vilja, og þar er enginn mismunur á øllum þeim, sem jafnt bera sig eptir henni, því hjá hønum er eckert manngreinarálit; þar er hverki Gydíngur né Griskur, þræll edur frelsíngi, heldur allir eitt í Jesú Christó, Gal. 3; en fyrir þessa háleitu Guds velgjørnínga

elska flestir hann hvad minnst; hvar fyrir? því menn dæma eptir holdinu, en holdid skinjar ecki hvad Guds anda er, 1 Cor. 2. Athugum þó hvert meira er, ad skapa himin og jørd, edur ad láta Gud, sem hverttveggja skóp, taka á sig líkíngu syndugs holds, Róm. 8; ad skapa manninn, edur ad endurskapa hann; ad gjøra hans líkhama af moldu, og blása lifandi anda í hans nasir, edur ad skapa í hønum einn nýan mann, og géfa hønum H. Anda; ad leggja alla hluti undir hans fætur, Ps. 8, edur ad géfa sinn eingétinn Son út fyrir hann, ad hann fyrirfarist ecki, heldur hafi eylíft líf; ad géfa hønum jardneska fædslu, edur ad ala hann á síns Sonar holdi og blódi; ad géfa hønum þrótt og atburdi til ad útvega næríngu sína, eda géfa hønum styrk í mótgánginum, freistíngunum og ofsóknunum; hvert er meira, ad géfa hønum vit og rænu til ad sjá fyrir þessu líkhamliga lífi, edur sitt heilaga ord, sem hann uppfrædir til eylífs lífs, og ad upplýsa bædi viljann og skilníngínn, ad hann geti bædi þeckt Gud og elskad? hvert er meira, ad géfa hønum málid til ad tala vid sína líka í heiminum, edur ad gjøra hans túngu vel talandi, svo hann fái vid sjálfan Gud talad? og ad sídurstu, hvert er meira, ad géfa hønum gull og silfur, akur og kvikfénad, edur ad útvega hønum þann fésjód, sem er á himnum, hverjum ei kann mølur né rid ad granda, Matth. 6, hver ed Guds egid blód og hans dýran dauda kostad hefir? sá sem þetta saman ber, hann mun finna, ad svo miklu ædri sem sálin er líkhamanum, svo miklu fegri sem himnaríkis dýrd er forgengiligu glisi veraldarinnar, já, svo miklu ædri sem Gud er øllum sínum sképnum, svo miklu heitara egum vér hann ad elska fyrir hina andligu velgjørnínga heldur enn þá líkhamligu, þvíad í þessum veitir hann hvad forgengiligt er, enn í hinum sjálfan sig, sem ad blífur, sem er einn og hinn sami, og hans ár þrotna ecki, Heb. 1; og hver, sem Gud alleina fyrir jardneska muni elskar, hann hefir alleina matar ást á hønum, eins og einn hræsnari, sem tilbidur hinn ríka á medan hann elur hann. Og fyrir þessar ómetanligu Guds ástgjafir, egum vér hann nú ad elska hvad mest, af øllu hjarta voru, og allri øndu vorri, og øllu hugskoti voru, þad er: af øllum sálar og lífs kraptum, svo sem Davíd býdur: lof seg þú ønd mín Drottni, og allt hvad í mér er hans heilaga nafni. En sú elska, er vér á Gudi høfum fyrir tímanliga muni, hún á ad vera svo kraptug, ad hún nái því máli, er hann tilætlad hefir, sem er, ad hún leidi oss til ad elska hann í Christó og fyrir Christum, hvers elska ad Páluş segir ad sé betri enn allt ad vita, og hann lýsir bølvan yfir þeim, sem ecki elska Drottinn vorn Jesúm Christum; og þetta er nú svo talad um hid mesta og ædsta bodord í løgmálinu. Hitt annad er þessu líkt, segir Frelsarinn: elska skalt þú þinn náúnga sem sjálfan þig. Sér hefir Gud sjálfum hinn fyrsta og mesta heidur skilid; en fyrir því, ad sá, sem segist elska Gud, en hatar sinn bródur, hann er ljúgari, segir Jóhannes, 1 Jóh. 4, þá er audsært, ad náúngans elska fylgir Guds elsku jafnan á eptir; þess vegna samtengir og Lausnarinn þessi tvø bodord, því hverugt má annars missa, sá, sem elskar Gud, hann elskar sinn bródur, og enginn elskar sinn bródur réttiliga, nema hann elski hann fyrir Guds sakir; hér til þarf og mikla alvøru, og þar bodord þessi eru svo skyld, þá ridur eins mikid á bádum. Svo sem helvíti er víst þeim, sem ecki elskar Gud, svo segir og Kristur, ad sá, sem reidist bródur sínum, hann sé sekur helvítis elds, Matth. 5; þetta bodord þykir mørgum

nærsta þúngt, og sérdeilis eptir því, sem Kristur útleggur það hjá Matthæum segjandi: elskið óvini ydar, blessið þá er ydur bølva, gjørið þeim gott, sem hata ydur, og bidjið fyrir þeim, sem eru ydur mótfallnir og ofsækja ydur; en Jóhannes segir þó, að hans boðorð séu ecki þúng; eg vil og segja, að eckert boðorð er réttvísara og eckert nytsamligra til velferdar: réttvíst er það, því hann hefir oss það boðið, sem er sjálf réttvísin, sem á vald á að bjóða oss hvað hann vill, sem elskaði oss, þá vér vorum hans óvinir, sem að engum er um neitt skyldugur, en vér erum hønum skyldugir um sál og líf, og allt hvað vér erum; gagnsamt er það, því sá, er svo gjørir, hann vinnur hinn bezta hlut, því hann verdur af Gudi elskadur; hver er þvílíkur hlutur, sem að vita syndir sínar kvittar? en það veit hann, sem svo elskar óvin sinn, að hann tilgéfur hønum hans misgjørdir, að vitni Frelsarans, er hann sagði: ef þér fyrirgéfið mønnunum þeirra misgjørdir, þá mun minn Faðir tilgéfa ydur ydar syndir; því vil eg segja hið sama hér um, og Páll sagði um mann og kvinnu: sá sem elskar sína eigin konu, hann elskar sjálfan sig, Eph. 5, og allt hið sama gjørir hann, sem elskar sinn bróður, og hver, sem hann hatar, hann hatar sjálfan sig. En þessa elsku til náúngans egum vér að auglýsa, ecki með orði og túngu, heldur með verki og sannleika, annars elskum vér ecki réttiliga. Guð einn veit, hvað í hjartanu byggir, því hann ransakar nýrun, það veit madurinn ecki, hann dæmir af ávøxtunum; því kann eg ecki að segja, að sá elski sinn náúnga, sem eckert gott lætur af sér leiða; þar til géfur Jakob mér orsøk, er hann segir: ef systir edur bróðir eru nakin, og vantar dagligt viðværi, en einhver ydar segir: farið í friði, vermið ydur og mettist, en géfið þeim þó ecki það líkhaminn við þarf, hvað gagnar það? Og þetta er nú svo framsagt um þessi tvø stóru boðorð, í hverjum Frelsarinn segir, að allt løgmálið og spámenninnir séu innifaldir; en þegar vér nú ransøkum hvað mikið oss vantar á, að fylla þessi Guðs boð, þá mun oss til hugar koma að leita eins annars lærdóms, hvar fyrir vér kunnum hólpnir að verða; til hans vísar oss Kristur í sinni spurníngu til Gydínga, er hann sagði: hvað virdist ydur um Krist, hvørs son hann sé? hvar um vér viljum nú með fáum orðum tala í hinni síðari greininni.

Gydíngar høfðu framsett fyrir Drottinn tvær ónytju spurníngar, áður enn þessi kom til um boðorðin; aðra báru Pharísei og Heródis þénarar fram, hvert að leyfðist að géfa keisaranum skatt edur ei; þeim svaraði hann útaf, ef eg má svo að orði komast, sem verdugt var, því madurinn skal ei svara einum dára uppá sitt tal; aðra Saddúcei, er þeir spurðu, hvørs að konan skyldi verda í upprisunni af sjø bræðrum, sem allir høfðu haft hana; þá niðurþaggaði hann, og straffaði þeirra óvitarleik; þessi var hin þriðja, og voru um hana ýmsar meiníngar hjá Gydíngum: aðrir héldu hin helztu vera um fórnirnar, aðrir umskurnarinnar løgmál, nockrir um hvíldardaginn; en Drottinn, er sjálfur hafði løgmálið útgéfið, í hverjum að bjuggu allir fjársjóðir vitskunnar, hann leysti úr henni án umþenkíngar, til þess að sýna þeim; hvað mikið þá vantaði á Guðs h. løgmáls uppfylling, sem meintu hana að vera einúngis fólgna í útvortis verkum, en ecki til að kénna þeim, að nockur gjæti af løgmálinn hólpinn orðið, og því vísar hann þeim til Christum og hans persónu, svo þeir vel máttu læra sáluhjálparinnar veg, hefðu þeir haft vilja edur vit á

eptir ad taka, edur framar hér um ad spyrja, eins og Nicódemus. Hvad virdist ydur um Krist, hvers son hann sé? segir Frelsarinn; þeir sögdu hönum: Davíds. Ecki neitar Drottinn því, ad hann væri Davíds son, svo sem ei var von til; Gud hafdi Davíd heitid, ad hann vildi gefa hönum einn son, hvers ríki ad skyldi eylíft verda, 2 Sam. 7; hann er sonur Davíds eptir holdinu, sem Páluś vottar, hann er gjördur af sædi Davíds; en þessi hinn sami Davíds sonur, sem ad er fæddur af fedrunum eptir holdinu, hann er þó Gud blessadur um aldir; því segir nú Lausnarinn framvegis: hvernin kallar Davíd hann þá í anda einn herra? Enginn fadir er svo audvirdiligur, og enginn sonur svo megtugur, ad fadirinn kalli soninn herra; látum vera, ad einn fadir sé ecki kongborinn, og syninum konúngstign hlotnadist, svo ad fadirinn kalladi hann herra, af því hann ber Guds persónu á jördunni; en hverninn mátti þad eiga heima hjá Davíd, hver ed sjálfur var konúngur, og átti sér engan ædri, nema Gud alleina, sem býr í himninum og er allra Drottinn? því er þad audséd, ad sá er Gud og Guds Sonur, er hann herra kallar; þarfyrir segir Frelsarinn: ef Davíd kallar hann herra, hverninn er hann þá hans sonur? og svo ad enginn kynni ad leida sér í hug, ad þad væri nockur af englunum, edur höfudenglunum, sem Davíd kallar herra í þessum stad, þá færir Drottinn til síns máls þá grein af spádómi Davíds, sem engum engli edur nockurri skepnu tilheyrir, og ecki utan alleina Guds Syni, sem er sannur Gud, Gudi Födur og H. Anda sameylífur og samjafn ad allri tign, magt og veldi, og þó sannur madur vordinn, svo miklu ædri englunum eptir manndóminum, sem hann hefir þeim ædra nafn, þad er tign, hlotid fyrir íbúd guddómsins, þá segir hann: Drottinn sagdi mínum Drottni: sit þú mér til hægri handar, þar til eg legg óvini þína til skarar fóta þinna; þvíad til hvers af englunum hefir hann nockurn tíma sagt: sit þú mér til hægri handar? segir Páluś, Hebr. 1; já, engillinn kvadst vera samþjón Jóhannis, er hann taladi vid hann í Opinberaninni, hverninn mátti þá Davíd nockurn engil sinn herra kalla? Sú er þá meiníngin í þessu tali Frelsarans vid Gydínga, ad Kristur sé Davíds son, þad er, af fedrunum fæddur eptir holdinu, og þó Guds Sonur, af hönum gétinn fyrir allar aldir, þad er, sannur Gud og sannur madur í einni persónu. Hvad og sjá má af þeim málsþætti: ad sitja til Guds hægri handar, hvad engum gétur tilheyrt, nema þeim, sem er ein persóna, samsett af guddómi og manndómi. Þetta hefdu Gydíngar kunnad ad læra, og þó miklu skiljanligar og betur, enn nockur syndug túnga fái útmálad, hefdu þeir lagt nockurn huga á sitt mál og spurt fremur hér um; en vér, sem fengid höfum þad ad heyra, og trúum því, sem þeir heyrdu ad sönnu, en trúdu þó ecki, vér, hverjum Kristur er fyrir augunum málادur í hans ordi, vér skulum reikna oss þad fyrir eylífan sóma og hina ædstu huggun, ad Gud er madur vordinn, og ad vort hold er upphafid á Guds tignarstól fyrir íbúd Guddómsins. En hvad er þad, ad sitja á hægra veg Gudi? þad leggur Páluś út, er hann segir, 1 Cor. 15: hönum byrjar ad ríkja, þar til hann leggur alla óvini til fótskarar hönum; en hvílíkt er þetta ríki? þad er, ad hann er settur yfir allan höfdíngskap og veldi, og krapt, og herradæmi, og öll nöfn, sem nefnast, ecki einasta í þessari öld, heldur og hinni tilkomandi, Eph. 1; en undan þessu dýrdligu ríki urdu píslirnar ad gánga; því lýsir hann sjálfur, er hann taladi vid þá tvo, sem til

Emaus gengu, Lúk. 24, og lagdi út fyrir þeim ritníngarnar, segjandi: hlaut ei Kristur þetta ad líða og inngánga síðan í sína dýrð; Guðs Sonur er að sönnu konúngur frá eylífð; þess getur Davíð, segjandi: Guð! þinn tignarstóll varir um aldur og um aldir alda. Enginn má konúngur heita, nema hann ríki hafi, en mannsins Sonur braut sig til ríkis í gegnum píslirnar, dauðann og port helvítis, þegar hann tók herleiðínguna að herfángi, en útsnaraði hönum, sem hefir magt myrkranna, og settist á Guðs hátignarstól, lifir og ríkir að eylífu, svo að hann er vor konúngur vorðinn eptir vorri náttúru, en vér hans bræður, það er oss eylíf huggun; verði eg aumari enn Lazarus, verði eg auðvirðiligri enn hans postular, verði eg afrak og hreinsunar fórn veraldar eins og þeir, verði eg svo fátækur, sem sjálfur hann, að eg ekki hafi þar eg kunni að halla að höfði mínu, það er mér nóg, að mitt hold og blóð ríkir á himnum og situr á hægra veg Guði, með hverjum hann fæðir mig og dryckjar til staðfestu þar um, að eg, sem með hönum líð, muni og síðan með hönum ríkja, og hversu sem minn líkhami yrði afskræmdur af volæði og vesöld, þá skal hann þó verða samlíkur hans dýrðligum líkhama; já, það er mér ecki lítil huggun, að það sama hold og blóð, sem situr á Guðs hægri hönd, það meðtek eg í h. altarisins sakramenti til styrkíngar um kvittun synda minna, þvíað í þeim líkhama, sem brotinn var á krossinum, og í því blóði, er þar var úthellt, í því sama byggir öll fylling Guðdómsins líkhamliga, svo þegar eg meðtek líkhama og blóð mannsins, þá meðtek eg og sjálfan Guð, á móti hverjum eg syndgað hefi, og af hverjum hvað mest hángir verðugleiki míns syndagjalds; þarfyrir, nær eg skelfist af stærð synda minna, þá verð eg af þessu huggaður, því ef að mitt hjarta fordæmir mig, þá er Guð meiri hjarta mínu, og það mun aldrei bregðast, er Guð hefir heitið í Christó, fyrir munn Jeremíæ: ef leitað verður að ránglæti Israelis, þá skal þar eckert vera, og syndir Júda skulu engar finnast, því eg mun fyrirgefa þeim, er eg mun eptirskilja. O, minn herra, Jesú! fyrir hvers skuld mun það vera, að þinn Faðir miðt í reiðinni minnist á mysktunseminа? Hab. 4, hvar fyrir brestur hans hjarta í hönum, svo hann hlýtur syndaranum myskunsamur að vera? Jer. 31; hvar fyrir skeður þetta, Drottinn minn! nema fyrir þína meðalgaungu, sem situr hönum á hægra veg? Þegar eg sef eina þreytta sál, og uppfylli sérhverja ángráða sál, þá vaki eg til þess, minn svefn er mér jafnan sætur, segir Drottinn, eptir mannligum plagsið, til að útmála sína elsku til mannkynsins í Christó Jesú; vér segjumst að vera vaknir og sofnir í þeim hlut, er vér höfum yndi af, og svo talar hann hér um sig, hver þó ecki sefur og ecki syfjar hann; ó, Guð gjæfi, að vér værum eins árvakrir og ydjusamir í hans þjónustu; já, hvað stór og ómælanlig sé hans gjæska yfir þeim, sem jafnvel hafa hinar verstu syndir drýgt, það segir hann skömmu síðar með þessum allra hjartnæmustu orðum: ef að himininn verður mældur að ofan, eður ransakaður grundvöllur jarðarinnar að neðan, þá skal eg forsmá allt Israels sæði fyrir allt það þeir gjort hafa; en svo sem það er ómöguligt öllum, nema hönum einum, sem himininn hefir útþanið og mælir hann með sinni spönn, og jörðina hefir grundvallað, svo er það ómöguligt, að Brunnur myskunseminnar verði uppausinn, hver eð aldrei tæmdur verður, nema af þeim, sem ecki vilja koma til þessara vatna og forsmá ríkdóm hans þolinmæðis, þar til þeir hafa uppfyllt mælir

syndanna. Hvad mun nú valda því, kristnir menn! ad hann, sem er einn forterandi eldur, sá ed brennur allt til hins nedsta helvítis, hann vill þó vera oss syndugum ormum svo nádugur? hvad veldur því, ad himnaríki lídur svoddan ofríki? hvad annad enn þad, ad hann, sem er sjálfur Gud, hann situr í voru holdi, hverja hann skammast sín ecki brædur ad kalla, hann situr, segi eg, til Kraptarins hægri handar og bidur fyrir oss; þessi er sá stóri leyndardómur, hvern Páluus segir, ad vitríngar veraldar hafi ecki skynjad, en þó er opinberadur oss, sem erum Guds smælíngjar; ó, þá stóru nád! ó, þau djúpu mysskunar ydur Guds, í hverjum hann hefir vitjad vor, upprunninn af hædum! honum sé lof, dýrd og heidur, speki og kraptur, um aldir alda, amen!

## Nítjánda Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Matth. 9 Kap.

Í þann tíma, Jesús sté á skip, for hann yfir um aptur og kom í sína borg; og sjá, ad þeir færdu til hans limafallssjukan mann, þann er lá í sinni reckju. En þá Jesús leit nú þeirra tru, sagdi hann til hins limafallssjuka: vertu hughraustur, sonur! þínar syndir eru þér fyrirgéfnar. Og sjá, ad nockrir af skriftlærdum sögdu med sjálfum sér: þessi gudlastar. Og sem Jesús sá þeirra hugrenningar, sagdi hann: hvar fyrir hugsid þér svo vondt í ydrum hjörtum? hvört er audveldara ad segja: þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, elligar ad segja: statt upp og gack? en svo ad þér vitid, þad mannsins Sonur hefir magt á jördu til ad fyrirgéfa syndirnar, þá sagdi hann til hins limafallssjuka: statt upp, tak í burt sæng þína, og gack í þitt hus; og hann stod upp og for í sitt hus. En þá folkid sá þetta, undradist þad, príjsandi Gud, sá ed þvílíka magt hefdi mönnunum géfid.

## Exordium.

Marga hluti kalla menn vonda í heiminum, þar er þó engin vondur, nema syndin alleina; vér köllum straff syndarinnar íllt, en þad er þó ecki íllt í sjálfu sér, því þar er enginn ólucka, ad ei komi hún frá Gudi, sem er alleina gódur; fyrir vora skuld verdur þad íllt, sem þad forþénad höfum med syndinni, og verdur þad þó mörgum gott, sem því taka svo sem Guds börn sér til andligrar heilsubótar. Væri þar engin rót, þá væri ecki heldur neinn ávöxtur, og væri þar engin synd, þá væri engin ólucka; daudinn er verdlaun syndarinnar, segir Páll, svo er og allur hans her, sem undir hann þjónar, sjúkdómar, örbyrgd, hallæri, ofsóknir, blóds úthellingar, skadrædi af vötnum og vodaeldi. Svo er þá syndin hin einasta orsök til allrar óluckunnar, andligrar og líkamligrar, þess gétur Esaias, 42 kap: hver hefir gjört Jakob ad herfángi og eydilagt Jsrael, hefir ecki Drottinn gjört þad, á móti hverjum vér syndgad höfum, og þeir vildu ecki gánga á hans vegum, og hann úthellti yfir þá grimd sinnar brædi og megnu strídi? og þarf hér ecki lángt ad rökum ad leita, Drottinn Jesús kénnir oss hér í gudspjallinu, hver ad sé orsök til alls mótlætis mannanna, þar ed

hann sagdi vid hinn hálfvisna: vertu hughraustur, sonur! Þér eru þínar syndir fyrirgéfnar. Viljum vér því af gudspjallinu læra: hvernig vér egum ad fá bót vid syndinni, í hverri vér aldír erum, hverrar illsku kraptur ad dagliga brýtst út um líkhama þessa dauda, spillandi allri vorri umgengni, en þad er tvennt sérdeilis: sem er: hrein ydran, og örugg trú og traust á Jesú forþénustu; hjálpa oss hér til, gódi Gud! med nád þíns Anda, fyrir Jesúm Christum, amen!

# Utleggíngin.

Drottinn sagdi vid þennan hálfvisna mann: vertu hughraustur, sonur! Þér eru þínar syndir fyrirgéfnar; enginn efi er á því, brædur m! ad þessi vesalíngur hefir angrádur verid vegna synda sinna, er hann hefir þenkja mátt, ad væru orsök til síns kránkdæmis, þess vegna sagdi hinn gódi Meistari, er vissi hvad med manninum bjó, ad hans syndir væru honum fyrirgéfnar; en þú kristinn madur! sem þetta heyrir, athuga hvad Jesús svaradi sínum lærisveinum, Jóh. 9, er þeir spurdu hann, hvert hann, sem blindur borinn var, hefdi syndgad, edur foreldrar hans, Drottinn svaradi: hverki syndgadi þessi, né foreldrar hans, heldur svo ad Guds dýrd opinber yrdi; ecki meinti Jesús þad, ad hann, edur hans foreldrar, væru syndlausir, því þá hefdi hann ecki blindur fæddur verid, þar Gud straffar engan fyrir eckert, hitt meinti hann, ad hverki hann, né foreldrar hans, hefdu meira unnid til þessa vanskapnadar, enn margir adrir, heldur væri þessi vanheilindi, sem margur hefdi forskuldad, á hann lögd til ad birta Guds dýrd og almætti hans Sonar. Eg hygg þad sé mála sannast, ad ef Gud vildi tilreikna syndirnar, þá mundi fáir heilskygnir í veröldina fædast, fáir heilum fæti á jördina stíga, fáir óvisinn arm útrétta og enginn um eitt augnablik heill vera, heldur hefir Gud lagt sumar sképnur sínar í líma, til ad sýna þér, heilbrygdum, sína dýrd, og hvert vald hann hefir yfir þínum syndugum kroppi, ef hann vill í réttlætis dóm gánga; lát þarfyrir þau örkumslin, er þú á ödrum sér, en þú hefir til unnid, þrísta hjarta þínu til ad ydrast þeirra syndanna, er hafa þann góda Gud styggdan, er lént hefir þér heilvita sál í heilbrigdum líkhama, og leikur vid þig, eins og barn sitt, med allskonar medlæti, jafnvel þótt þú hann dagliga til reidi reitir. Hvernig á þá ydraninni háttad ad vera, barn Guds? hún á ad vera heit og alvarlig; þessi hálfvisni madur hefir án efa verid sorgfullur í hjartanu vegna synda sinna, þad kénna oss ord Christí, svo sem eg strax sagdi; forgéfins kémur þú, barn mitt! fram fyrir Gud til ad bidja um kvittun synda þinna, nema þig ángri þær, nema þú grátir beisklíga med Petri, nema þú þvoir Christí fætur med tárum hjarta þíns, eins og María, nema þitt hjarta brádni í þér svo sem annad vax, eins og Davíds, ecki svo mjög af tilfynníngu Guds reidi, svo sem af elskunni til hans gjæsku, sem upplauk þínum augum, er varst blindur borinn af módur lífi og daudur í syndunum, er þig hefir endurkeypt frá eylífu helvítis báli med síns Sonar dauda, og sparad þig sídan midt í syndunum; lát þér þad til hjarta gánga, ad þú hefir hann móðgad og dagliga styggir, jafnvel med vitanligum syndum. Svo á Guds barna ydran háttad ad vera, og er hún Gudi svo þæg, svo sem ad syndin er honum leid, já, enn þá þægari, því syndin gétur aldrei svo stór vordid, ad ei sé meiri miskunin, hvar sem syndin yfirgnæfir, þá yfirgnæfir nádin miklu framar; svo litid gjörir Gud

úr syndinni, þegar hún er afþvegin med ydraninni, en hún á ad vera alvarlig, egi hún Gudi ad þóknast; sá sem vill af hjarta ydrast syndanna, hann skal vel rannsaka sjálfan sig, og halda reikníng vid sitt egid hjarta af ordum og gjørdum, og svo mikla kjæti sem hinn ydrandi hefir haft af syndinni, svo mikid ángur byrjar honum ad hafa í ydraninni; menn ega ad breyta vid syndina eins og Ammon fordum vid systur sína Thamar, á medan hann framdi sinn vilja med henni, elskadi hann hana, þar eptir rak hann hana út af dyrunum; þótt honum færi svo skammarliga, ad ecki sé nærri því verra dæmi til, þá egum vér þó eins ad breyta vid syndina, vér egum ad láta oss hana leida vera, og er þad víst, ad sá, sem hefir gaman af gjørdum syndum, nær honum þær í hug koma, honum eru þær enn þá apturhaldnar; dragi enginn sjálfan sig á tálar, ætlum ecki, ad Gud nægist þar med, ad vér látumst um stundarsakir ydrast syndanna, en gaungum þó aptur til þeirra, eins og hundur til spýu, edur svín þad, er veltir sér í sama saur, 2 Pet. 2. Þegar Drottinn hafdi fyrirgéfid hórkonunni glæp hennar, þá sagdi hann þó: gack nú burt, og syndga ecki framar! géfandi þér þar med til vitundar, kristinn madur! ad þad er forgéfins, ad þú þiggir kvittun synda þinna af Gudi, nema þú spornir vid þeim framvegis þad mesta þú mátt. Þegar Jesus sá þann mann í musterinu, er hann skømmu ádur læknad hafdi vid díkid Betezda, þá sagdi hann: sjá! nú ertu heill vordinn, syndga ecki framar, ad ei hendi þig annad verra, Jóh. 5, teiknandi þar med, ad syndin hefdi verid orsøk til hans sjúkleika. En þú, sem framkémur fyrir Guds fætur, til ad láta þér boda kvittan synda þinna af hans umbodsmanni í skriftastólnum, þad er ad sønnu víst, ad ef þú ydrast út af hjarta syndanna, og treystir á Jesú, Guds Sonar, forþénustu, þá verda þér þær fyrir hans blód fyrirgéfnar, þótt þær séu raudar sem blód og svo sem purpuri raudar, og þú læknadur af øllum þínum andligum óheilindum; en ef þú ecki leitast vid framvegis ad krossfesta þitt hold af fremsta megni, þá mun forþénusta hins Krossfesta ecki mjøg gagna þér, miklu heldur fordæma þig, nema þú spornir vid syndinni. Vit þad fyrir víst, ad Kristur hefir ecki forgéfins talad um þann óhreina anda, sem útfer af manninum, ad hann taki sjø anda sér verri og hverfi aptur í sitt fyrra hús, og verdi svo þess sama manns hid sídara argara hinu fyrra; enginn er efi á því, ad Drottinn meinar hér þá, sem einusinni hafa útrekid Djøfulinn úr hjarta sínu fyrir Guds krapt og sanna ydran, en byggja honum þó inn aptur og æfa sømu syndir ydrunarlaust, edur og adrar verri; þad vitnar St. Petur, hans eginn lærisveinn, er hann segir um þá, er velta sér í sømu syndum, ad þeirra hin sídari kjør séu verri hinum fyrri, því betra hefdi þeim verid, ad aldrei hefdu þeir veg réttlætisins vitad, heldur enn, ad þecktum honum, ad hverfa aptur frá því bodordi, er þeim fengid er. Kristnir menn ega ad breyta eptir þessum hálfvisna manni í hans audmýkt og ángri fyrir syndirnar, einnig í trúnni og traustinu á Guds Sonar mátt og mynskun, en ecki egum vér hans sóttarferli líkir ad vera í voru apturhvarfi til Guds frá syndunum: hann var hálfvisinn, svo eigum vér ecki ad vera, þótt vér séum veikir, þá egum vér ecki hálfvisnir ad vera, svo vér meinum ad géfa Gudi helftina hjarta vors, en helmínginn syndinni og Fjandanum. Gud bannar í Mósis løgum, ad hafa einn mælir

fyrir hinn innlenda, og annann fyrir þann framanda; ó, hvad gjøra þá syndugir menn, þegar þeir skamta Gudi út í dropatali, hver med sínum blóddropum hefir afþvegid syndir vorar, en Andskotanum géfa menn fullan mælir mest allra vorra lífdaga? þad er Baals þjónusta, en ecki Krists, en St. Páll segir, ad Kristur og Belíal, þad er hinn sami djøfull sem Baal, egi eckert hlutskipti saman; verum því annadhvert heitir edur kaldir, því þeim, sem volgir eru, vill hann skyrpa út af sínum munni, Apóc. 3. Þessi madur leitadi Herrans, þá hann var veikur ordinn; lær þad af hønum, Guds barn! ad ákalla Drottinn í neydinni, en bíd þó ecki eptir því, ad hann neydist til ad straffa þig syndarinnar vegna; mørgum hefir ad sønnu Guds hegníng komid til ydrunar, sem ecki hafa þeckt syndir sínar fyrri, en gjæt þess, ad þeirri ydran, sem framkémur af ótta hegníngarinnar, henni er hættara vid ad kólna aptur, enn hinni, sem af íhugan síns óverdugleika og Guds gjæsku uppsprettur; þad sé eg af Achab, er klæddist í seck fyrir Gudi nær hønum illa géck, en strax sem Gud hafdi létt hrísinu af hans hrigg, þá féll hann frá hønum til annarligra guda; sá, sem undandregur tíma ydranarinnar og meinar, ad þar sé alltíd nógur tími til, hann virdist mér vera eins og sá, er ecki hirdir um, þótt hann lídi skipbrot, af því þad kunni ad henda sig, ad hann kunni af ad komast á einum flaka. Menn segja, ad sá, sem gjørir sitt testament ecki fyrr enn á daudasænginni, hann géfi af erfíngjans fé og ecki af sínu; hætt er vid, ad Gud muni eins halda, og kalla þad ecki sér géfid, sem þá er fyrst bodid, nær sagt verdur: gjør reikníngskap þinnar rádsmennsku, þú mátt ecki lengur rádsmennsku hafa. Sá, sem dagliga frestar ydraninni, hann er eins og sá skuldunautur, er géfur jafnan góð ord, en betalar aldrei; skylda vor er þad mannanna, ad líða þvílíkt hver af ødrum, náúngans kjærleika vegna, í lengstu løg, því vér erum Gudi meira skyldugir, sem er fadir vor allra, enn hann er ecki skyldugur ad líða svoddan hræsni af oss, hverjum vér erum skyldugir um sál og líf. Malachías spámadur lýsir bølvan yfir þeim, sem eiga heilbrigdt fé, en offra því halta og limlesta; ó, Guds barn! mun sá ecki þurfa ad óttast fyrir þessari bølvan, sem géfur Fjandanum sinn úngmennis aldur, en ætlar ad fórnfæra Skaparanum þad, sem hann verdur á hækjum ad bera? skjót því ecki á frest ydraninni, barn Guds! heldur þeink á þinn skapara í þínum úngdómi, því þú veizt ecki nær ángistin kémur, og þú leitar ad fridnum og finnur hann ecki, Ezech. 7; og er þad svo hérum úttalad.

Hvad hinu sídara vidvíkur, sem er, um trúna, þá eru hennar furduligir kraptar og, eg má segja, guddómligar verkanir, sem lángt yfirgánga mannligan skilníng, svo miklar, ad þad má varla med ordum útskíra; hann, sem ad er høfundur trúarinnar, Jesús Christus, Heb. 12, hann hefir gjort hina bestu grein á því, er hann segir vid sína lærisveina: ef þér trú hefdud svo sem eitt mustarðskorn, svo mundud þér segja fjalli þessu: tak þig upp og fleyg þér í sjóinn; og ef ein lítil trú kann þvílíks ad orka, hvad mikla hluti mun þá hin sterka fá afrekad? svo sem var Abrahams, er hann trúdi til vonar þar engin von var, Róm. 4; nú vil eg í þetta sinn ecki um þvílíka hluti tala, heldur ad því leiti, sem hún þénar til syndanna fyrirgéfníngar, og er þad mála sannast, ad enginn er stærri kraptur hennar enn sá, því minna var þad, ad gjøra Mósis staf ad høggormi, minna ad sund-

urskipta hafinu, minna ad láta sólina standa kyrra, minna ad tilbyrgja himininn og kalla eld af himni, því allt eru þetta Guds skèpnur, er honum hlýda mótmælislaust, minna er allt þetta, segi eg, heldur enn ad koma manninum, af syndinni og Andskotanum vanskøp-udum, í sátt vid Gud, og því er þad hin stærsta jarteikn og kraptaverk trúarinnar. Þeg-ar Jesús sá þeirra trú, stendur hèr í gudspjallinu, sagdi hann til hins hálfvisna: vertu hughraustur, sonur! þèr eru þínar syndir fyrirgèfnar; tvennt gjørdi Jesús hèr gott, sem var, ad hann gaf þessum vesæla manni líkhamans heilbrigdi aptur, og svo undir eins sálarinnar, en mikill var þessi munur, og svo mikill, sem ad skilur sálarinnar og líkhamans vanheilsu; því taladi Drottinn eckert um líkhamans óhraustleik, heldur sagdi hann: þèr eru þínar syndir fyrirgèfnar, þarfyrir sagdi hann og vid hina vantrúudu Gydínga: hvert er audveldara ad segja: þèr eru þínar syndir fyrirgèfnar, edur ad segja: statt upp og gack? En hèr sèr þú krapt trúarinnar; ádur enn þessi aumi madur taladi eitt ord til Födur mysk-unsemdanna, þá hrærdust hans myskunar-ydur í hønum til medaumkunar; heitir ecki þetta ad bænheyra ádur enn kallad er? hins sama máttu þèr vænta, kristinn madur! nær þú lætur þig af hjarta ángra þínar syndir; fyrr mega himin og jørd forgánga, enn ad eitt af hans ordum falli á jørdu, er sagt hefir til eins ydrandi syndara, ad þegar hann lætur af illu og lærir gott ad gjøra, þá skuli hans syndir vera hønum fjarlægar, sem austrid er vestrinu; fyrr má sjáfarhafid uppþorna, enn ad Brunnur myskunarinnar verdi uppausinn, sem lofad hefir ad kasta ydrandi manns syndum í hafsins djúp, svo þeirra skuli ecki ad eylífu minnst verda; þessu kèmur trúin til leidar. Drottinn undradist ecki yfir neinum hlut, sem hann sá hèr á jardríki, allt veraldarinnar yfirlæti þótti hønum einkis vert, svo sem von var á, því allt silfur og gull var hans; hann gaf sig lítid ad tali lærisveinanna, þegar þeir sýndu hønum hina kostuligu bygging musterisins, og þótti eckert til þess koma, en vid hina Kananisku sagdi hann: kona! mikil er þín trú; svoddan gèrsemi er jafn-vel eins gaungumanns trú í augliti Drottins, og hversu dýrmæt ad hún sè í Guds augliti, þad gèfur Drottinn sjálfur til vitundar í eptirlíkíngunni um hinn týnda saud og pening, er hann ályktar med þessum ordum: svo segi eg ydur, ad meiri gledi er í himninum yfir einum syndugum, sem ydran gjørir, heldur enn yfir níu og níutíu rèttlátum; høldum því þad fyrir satt, sem Jóhannes segir, 1 Pist. 1 kap: ef vèr játum vorar syndir, þá er hann trúr og rèttlátur, ad hann fyrirgèfur oss syndirnar, og hreinsar oss af øllu ránglæti voru. Svo voru myskunar-ydur Drottins vidkvæm, er hann leit eymd þessa vesæla manns, ad hann sá strax aumur á hønum; ó, þú Guds barn! viltu þá efast um, ad hann hrærist myskunar yfir þèr, þegar þèr taka til ad svída þín andlig kaun, þegar þau súnu sárin taka til ad lifna, og þú tekur til ad andvarpa í leynum, segjandi: Jesú, gódi meistari! mysk-una þú mèr. Hvad segir Jesús hjá Lúkam, 11 kap: ef ad þèr, sem vondir erud, kunnid ad gèfa børnum ydar gódar gáfur, hvad miklu framar mun ydar himneskur Fadir gèfa þeim H. Anda, sem hann þar um bidja; því vil eg í fullu trausti segja, þegar þú aud-mýkir þig undir voldugа Guds hønd, og bidur af hjarta um fyrirgèfníng synda þinna, þá mun hans Andi bera þínum anda vitnisburd um, ad þú sèrt Guds barn, Róm. 8, því jafnvel þótt vèr sèum ótrúir, þá er hann samt trúr, sjálfum sèr kann hann ecki ad

neita, segir Páluð. Nú er það satt, br. m! að sannýðrandi manns trú verkar svo mikið hjá Gudi, sem nú hefi eg sagt, en hann á þá að vera víss um það, að hann sé bædi sannýðrandi og rétt-trúaður. Margt er líkt með skyldum, segja menn í orðtæki gömlu; en trúin og ýðranin eru tvær systur, er ei mega skilja; eins og það, að sú ýðran er ónýt í Guds augliti, sem ekki þvíngar manninn til að krossfesta sitt hold, svo er og trúin dauð án verkanna, segir Jakob, og Páll segir, að sú trú alleina gildi, sem að er kroptug fyrir kjærleikann. Með trúnni fórnfæra menn Gudi sínum vitsmunum, og gefa sína skilníngu fángna undir hennar hlýðni, með ýðraninni offra menn viljanum, að hann sé Guds boði undirgefinn; trúin gjörir oss að Guds lærisveinum, ýðranin að hans þjónum; trúin upplýsir vor hjörtu í skilníngi vorra sáluhjálpar efna, en ýðranin, ef hún er alvarlig, hún þrýstir oss til að gjöra Guds vilja, og alla skyldu kristins manns; svo sem það er ekki nóg, að ýðrast um stundarsakir, og gánga aptur til að drýgja sömu syndir, svo er það ei heldur fullur kristinndómur, að trúa um hríð, eða gjöra ávöxt trúarinnar, en falla þó frá á tíma freistíngarinnar; væri það nóg til sáluhjálpar, að byrja vel, þá sæti Bíleam hátt í himnaríki, og ef ei þyrfti að vaka og biðja, þá hefðu hinar fávísu jómfrúrnar ekki verið útilokaðar. Það er skémtiligur draumur að ætla, að Guð muni tilreikna sér forþénustu Sonarins, en vilja þó ekkert gjöra af því, sem Guð boðið hefir; mjög svo er eg uggandi fyrir því, að sá, sem gengið hefir í þvílíkri leiðslu allan sinn aldur fram í dauðann, hann muni uppvakna í helvíti og kvölunum, því jafnvel þótt að góðverkin vor, ef nockur svo kallast mega, þau séu ekki máttug til að gjöra oss hólpna, þar vér erum skyldugir að játa, að ónýtir þjónar séum vér, jafnvel þó vér gjörðum allt það vér ættum að gjöra, samt eru hin vondu nógu kroptug til þess, að fordæma oss. Eg veit að sönnu, að þetta kann að sturla margan þann, sem mikinn part æfi sinnar hefir í illskunni alið; eg sæ ekki við því gjört, þetta eru þó guðlig sannindi, og ekki er von á öðru, enn að syndugs manns hjarta muni kénna til, þegar broddur lögmálsins tekur til að stínga á kaununum, vel sé þeim, er svo eru viðkvæmir, að þeir finna til sársaukans; hinum er öllum miður farið, er ei kénna til Guds straffunar, ekki til lögmálsins hótana og ekki til helvítis eldsloga, hvern þeir forþénað hafa, um hvörja það segja má, sem Jeremías sagði um Gyðínga: þú tiptar þá Drottinn, en þeir finna þar ekki til, hverra samvitskur að Páll segir að séu brennimerktar; en hinum, sem að sönnu óguðliga lifað hafa, en láta sig þó ángra sínar syndir af hjarta, og vilja þar á bót vinna, þeim vísa eg til þeirra líknarorða, er Drottinn talar til syndugra manna, Es. 1: þvoið yður, hreinsið yður, takið ydar illskubreytni frá mínu augliti, komið síðan og eigumst lög við, þótt ydar syndir séu rauðar sem blóð, þá vil eg gjöra þær hvítar sem ull! Þú þenkir kannské í hjarta þínu: eg em í syndinni getinn og fæddur, hvernig má eg Gudi þóknast? en gæt þess, að þinn Endurlausnari, sem er Guð, blessaður um allar aldir, hann er fæddur af fedrunum eptir holdinu, hreinn og heilagur, og frásktilinn syndurunum; þú ert syndugri enn aðrir menn, Kristur er heilagri enn allir menn, hann er forlíkun fyrir þínar, og ekki einúngis fyrir þínar, heldur og fyrir allar veraldarinnar syndir; þú getur ekki aldeilis af syndinni látið, svo það vonda ledi

ecki vid þig, þá þú vilt gjøra þid góda, það gat ei heldur St. Páll, samt fèck hann það svar af Gudi: lát þèr nægjast mína náð, minn kraptur fullkomnast í breiskleikanum; þú syndgar optliga, Kristur bidur fyrir þèr óaflátanliga; þínar syndir eru þèr yfir høfud gengnar, samt yfirgnæfir þó nádin miklu framar; þig henda optliga sømu syndir, sporna vid þeim, sem mest þú mátt, svo að þær drottni ecki í þínum daudligum líkhama, en vit þó, að Jesús hefir borid uppá trèð þá handskriftina, sem móti þèr var, og hana á krossinn neglt, þar er enginn af þínum skuldum eptirskilin nè ólokin, en brúka þá slíkt til að afplána gjørdar syndir, en ecki til frelsis að drýgja þær framvegis; þú þykist eckert verk gudrækninnar fullkomid gjørt géta, þessi medkénning þíns óverdugleika er verk H. Anda, því bidur hann fyrir þèr med óumrædiligum andvørpunum, og hjálpar þínum veikleika; þú hefir allan þinn aldur í illskunni alid, og ert adkominn dauda, hafandi eckert gott verk Gudi að bjóda, þótt þú hefdir, mundu þau kunna að rèttlæta þig? hvad hafdi tollheimtamadurinn? Lúk. 18, hvad hafdi ræninginn á krossinum? Lúk. 23, hvad hafdi þrællinn, sem var sínum herra skyldugur um 10,000 punda? Matth. 18, samt uppgaf herrann hønum alla skuldina. Þín trúa tekur til að veikjast í daudanum, þá líkhamans kraptar eru að þrotum komnir, og mega varla taka á móti daudans ofbodi, mundu þá til þess, að Guds Sonur hefir daudann sigrad, það skal skè, að hver, sem trúir á hann, sá skal lifa, jafnvel þótt hann deyji, Jóh. 11, lát þèr þá í hug koma, hvad fadir hins túnglsjúka sagdi: herra! eg trúi að sønnu, en hjálpa þú trúarleysu minni; ein veik trú er þó trú, einn eldneisti er þó eldur, ein lítil perla glansar svo sem ein perla, eins skín ein veik trú í augum Guds svo skjært, svo sem þó hún væri sterkari, því trúin er ecki vort verk, heldur hans anda, þarfyrir beiddu lærisveinarnir Drottinn að auka sèr trúna; látum hann ráda mælíngu hennar, hann mun ecki sitt egid verk óvirda, en látum þó ecki af að næra hana med ydugligri bæn og andvarpan. Lútherus segir í einum stad, að enginn verdi fordæmdur, nema sá, sem ei vill trúa; það er satt, ef það er rètt skilid, því sá vill ecki ølmusu hafa, sem ecki vill um hana bidja, svo vill og ecki sá trúa, sem ecki bidur Gud að skapa hreint hjarta í sèr, og géfa sèr nýan vísan anda, en hitt er víst, að ein veik hønd tekur eins vid ølmusu, svo sem ein fullhraust, og eins vel umfadmar ein veik trú Krists forþénustu, svo sem ein fullørugg, því Guds kraptur fullkomnast í breiskleikanum, og einn veiktrúadur má um sig segja eins og Páls: eg formá alla hluti fyrir hann, sem mig máttugan gjørir, Kristum, því þá eg breiskur er, þá er eg máttugur; þó efldist svo Drottins kraptur med hønum, að hann hrósar því undir sína fórnfæríngu, að hann hafi gódri baráttu baríst, skeidid fullkomnad og trúna geimt, og framvegis sè sèr afløgd kóróna rèttlætisins, hverja Drottinn, hinn rèttláti dómari, muni géfa sèr á þeim degi, og ecki einasta sèr, heldur jafnvel øllum þeim hans tilkomu elska; hennar njótandi að verda unni oss hinn gódi Konúngur dýrdarinnar, fyrir Jesúm Christum, amen!

# Tuttugasta Sunnudag eptir Trínitatis.

### Gudspjallid, Matth. 22 Kap.

Á þeim tíma, Jesús svaradi og taladi í annad sinn í eptirlíkíngum til þeirra, og sagdi: himnaríki er líkt þeim konúngi, sem brudkaup gjørdi syni sínum, og utsendi sína þjona ad kalla bodsmennina til brudkaupsins, og þeir vildu ecki koma; í annad sinn sendi hann út adra þjona, og sagdi: segid þér bodsmønnunum: sjáid! mína máltíd hefi eg tilbuid, minir uxar og alid fé er slátrad, og allt er reidubuid, komid til brudkaupsins; en þeir forsmádu þad og gengu í burt, einn á sinn bugard, en annar til sinnar verzlunar, en hinir adrir gripu hans þjona, og lögdu þeim hádungar til og drápu þá. En þá konungurinn heyrdi þetta, vard hann reidur og sendi út sitt herlid, og fyrirfor þessum mordíngjum, og brendi upp þeirra borg; þá sagdi hann til sinna þjona: brudkaupid er ad sønnu reidubuid, en þeir, sem bodnir voru, þeir voru þess ei verdugir; þarfyrir, farid út á gatnamotin, og bjodid til brudkaupsins hverjum, sem þer finnid. Og hans þjonar gengu út á strætin, og samansøfnudu øllum þeim sem þeir fundu, vondum og godum, og brudkaupid vard fullt med bordsett folk. En þá ed konungurinn géck inn ad sjá þá, sem til bordsins sátu, sá hann þar einn mann, eigi klæddan med brudkaups klædi, og sagdi til hans: vinur! hvørninn géckstu inn híngad, hafandi ecki brudkaups klædi? en hann þagdi; þá sagdi konungurinn til sinna þénara: bindid hans hendur og fætur, og kastid hønum út í hin ytstu myrkur, þar ed vera mun op og tanna gnístran; þvíad margir eru kalladir, en fáir utvaldir.

## Exordium.

Hver ad sé meining þessarar føgru eptirlíkíngar, sem Drottinn hér framsetur, þad er audrádid af ødru Guds ordi, og þó sérdeilis af prédikunum hans, sem annarstadar ritadar finnast í gudspjallabókunum, ecki sízt af þeirri um verkamennina, sem leigdir voru í víngardinn, hjá Mattheum í 20 kap., og hinni, um þá miklu kvøldmáltíd, sem er ad finna hjá Lúkam í 14 kap., um hverjar bádar nockud hefir talad verid hér ad framan. Konúngurinn er hinn alvaldi himins og jardar Konúngur, hans Sonur er Drottinn Jesús, sjálfur Konúngur, ecki einasta eptir guddóminum, heldur og manndóminum, því Gud hefir sett sinn Konúng yfir sitt heilaga fjall, Zion, Ps. 2, jafnvel þótt ei væri hans ríki af þessum heimi, og allt vald er hønum géfid, bædi á himni og jørdu, Dan. 7, Matth. 28; brúdkaupid er hans hóldtekja, og allir þeir velgjørníngar, er í henni frambodnir verda øllu mannkyni, en veittir þeim einum, sem trúa á nafn eingétins Sonar Guds. Hinir fyrstu, sem bodnir voru, eru Gydíngar, hverjum framar ødrum var bodid til þessa mikla brúdkaups, en þeir forsmádu þad, svo sem Pálus og Barnabas vottudu, Act. 13, segjandi: til ydar byrjadi fyrst Guds ord ad tala, en fyrst þér forsmáid þad, og reiknid ydur ei verda eylífs lífs, þá snúumst vér til heidíng-

sanna. Sumum bægdu veraldar umsvif frá þessari Guds gjöf, svo sem af gudspjallinu er audsært; hinir gripu hans þjóna, lögdu þeim hádúngar til og aflífudu þá; þeirra gétur Frelsarinn, er hann sagdi vid Gydínga: hvern af spámonnunum hafa ydar fedur ecki líflátid? og yfir þá er gengid þad skélfiliga straff, sem hér um gétur í evangélió, fyrst, þegar Nebúkadnezar eydilagdi hina fyrri Jerúsalem, og sídan yfir born þeirra, sem ad uppfylltu mæling fedra sinna, er hún var uppbrend og ad steinbrúgu gjörd af Tító Vespatíanó, og aldrei uppbygd sídan. Hinir, er sídan voru kalladir, eru heidnir menn, og medal annara forfedur vorir, þad fólk, sem í myrkrunum sat, Eph. 5, og er innplantad í stadinn Gydínga, sem afbrotnir voru, Róm. 11; en vér heyrum í gudspjallinu, ad til þessa brúdkaups er safnad vondum og gódum, því segir og Páluss, 2 Tím. 2, ad í stóru húsi séu ecki einúngis kér af gulli og silfri, heldur og af tré og steini, og sum til heidurs, en sum til vanheidurs, en ef nockur hreinsar sig af þessu, þá muni hann verda kér til heidurs helgad; og sjálfur Lausnarinn endar þessa eptirlíkíngu med þeirri dýrmætu grein, ad margir séu kalladir, en fáir útvaldir, hvar af ljóst er, ad þeir eru ecki allir Christí þegnar, sem nefna Christum sinn herra, til hvers hann bendir oss med dæmi þess manns, er kom til brúdkaupsins, ecki skrýddur brúdkaups klædi, af hverjum eg vil taka mér orsök til, ad tala um þá hluti, hvar af einn og sérhver megi þeckja sinn búníng, hvert hann sé hæfur til, ad birtast fyrir Konúnginum, nær hann gengur inn ad sjá bordgéstina. Þú alvaldi Konúngur dýrdarinnar! sem villt, ad allir verdi hólpnir, og komist til sannleiksins vidurkénníngar, veit oss þíns anda nád til þessa verks, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

En þegar konúngurinn géck inn ad sjá þá, sem til bordsins sátu, sá hann þar einn mann, eigi klæddan brúdkaupsklædi, segir í textanum; hvert ad sé þetta brúdkaupsklædi er audvitad, þad er sjálfur Kristur, og hans réttlæti med trúnni höndlad, því fagnar hans kristni, hjá Esaíam 61. kap., segjandi: eg gledst mikiliga, og mín sála fagnar í mínum Drottni, því hann hefir klædt mig búníngi hjálpræðisins, og med klædi réttlætisins hefir hann hulid mig, eins og einn brúdguma í kénnimannligum skrúda, og eina brúdi íklædda skarti sínu; þetta er augljóst af sjálfri eptirlíkíngunni. Hvar fyrir var þessum vesæla manni kastad í hin ytstu myrkur? af því hann var ei skrýddur brúdkaupsklædi; hvarfyrir verda hinir vantrúudu fordæmdir? af því, ad þeir trúdu ecki á nafn eingétins Sonar Guds; hvarfyrir sættu ecki hinir adrir þvílíkri refsíng - (því um hann einn verdur gétid)? fyrir því, ad þeir voru íklæddir hinu rétta brúdkaups skarti; hvarfyrir verda útvaldir innleiddir í fögnud síns Herra? mun þad ské fyrir þeirra eigin réttlæti? fjærri fer því! Drottinn! ef þú vilt tilreikna syndirnar, hver fær þá stadist? segir Davíd, Ps. 130, enginn lifandi manna mun réttlætast í þínu augliti, segir hann; hvarfyrir er þad þá? af því, ad þeir trúdu á hann, sem réttlætir ógudligan, segir Páluss, Róm. 4, og því kémur hann ecki til dómsins, segir Frelsarinn. Sæll er sá, hvers syndir huldar eru, segir Davíd, Ps. 32, en med klædunum verda lýtin hulin, eins var andlig blygdan med Jesú blessudum réttlætis skrúda, þess gétur hann sjálfur í opinberunum Jóhannis, talandi vid biskupinn í Laódícea, hvern hann nakinn kallar, þar hann rædur honum, ad kaupa af sér gull þad, sem í eldi er reynt, ad hann ríkur verdi og klæddur hvítum skrúda, svo ad blygdan hans fatleysis ecki opinberist, Apóc. 3. Nádarstóllinn huldi fordum daga sáttmálsörkina, í hverri lögmálstöblurnar geymdar vóru; þú Jesú! þú ert einn nádarstóll! í

þínu blódi, Róm. 3, fyrir þitt saklejsi, ó, Herra! sem lögmálid uppfyllt hefir, en varst þó á móti lögmálinu dæmdur, fyrir þad eru huldar allar vorar syndir, sem móti lögmálinu gjördar eru, þegar vér á þitt nafn trúum; hvad mun eg ætla til þess, ad eg syndugur ormur í mínum egin klædum birtast kunni í þíns himneska Födurs augliti? Hvad mun eg vilja koma fram med þad, sem er eins og nidlagsfat? Hvad mun eg bjóda þad fram, sem er hálfverk? eg hrædist öll mín verk, sagdi hinn réttláti Job, og því mun eg ætlast til þess, ad mín séu betri? hvarfyrir mun eg vilja bæta þann fagra kyrtil, er þú mér gefid hefir, med mínum tötrum? mun eg heilagri enn Jósúa, hinn ædsti prestur, er stód í saurugum klædum fyrir engli hins mikla ráds, Zach. 3; svo mun bezt fara, Drottinn minn! ad bædi eg og adrir syndugir menn njóti þeirrar nádar, sem hann naut, ad þú burt takir vort ránglæti, og skiptir um klædi vid oss. Svo er nú þetta brúdkaupsklædi ekkert annad, enn réttlæti Jesú Christí med trúnni medtekid, því íklædumst vér fyrst allra í skírninni, þess getur Páls, segjandi: þér erud allir Guds börn fyrir trúna á Jesúm Christum, því hverjir, sem uppá Christum skírdir erud, þér hafid íklædst Christó; í henni verda oss syndirnar fyrirgéfnar, ecki einasta upprunasyndin, heldur egum vér í krapti hennar fyrirgéfníngar von um alla æfi vora á gjöranligum syndum, nær vér leitum hennar réttiliga, því kallar Petur hana sáttmála gódrar samvitsku, því enginn kynni um eitt augnablik róliga samvitsku ad hafa, nema hann vissi sér kvittunar von syndа sinna; í henni verdum vér Guds börn, í henni medtökum vér H. Anda, sem þá alla endurnýar fyrir krapt endurgétníngarinnar, sem ecki mótstanda hönum né slöckva hann; því er sá réttiliga skrýddur brúdkaupsklædi, sem endurgétinn er af vatni og anda, ef hann ei spillir aptur sinni endurgétníngu, enn þad verdur mörgum, því midur! og þarfyrir er skírnin ecki einhlýt til þessa búnings, nema ad hennar kraptur auglýsi sig í oss, nær vér drögumst á legg og lærum vorn kristinndóm, og er þad fyrst í því innifalid, ad trúa réttiliga á Gud, hvad ed skédur med tvennu móti: fyrst ad hafa sanna þeckíngu á hönum, hans stórmerkjum, hans velgjörníngum, sem oss verda í ordinu frambodnir: annad er þad, ad vér treystum hönum, elskum og virdum, fram yfir alla hluti. Hvad því fyrra vidvíkur, þá er þad víst, ad í skírninni játum vér Gudi og öllum hans stórmerkjum, þar til skuldbundu oss vor gudfedgin med sinni játníngu, en hvad stodar oss sú játníng, nema vér lærum ad þeckja hann, er vér játudum, hans almætti, hans gódgirni, hans réttlæti, hans elsku til vor, og hvad annad, sem hann hefir í sínu ordi opinberad oss til sáluhjálpar? þetta vil eg bidja þá ad hugleida, sem annadhvert sjálfir litid edur ekkert vita í sínum kristinndómi, svo sem vita birjar, edur forsóma ad kénna þad sínum börnum og hjúum, jafnvel þótt sjálfir nockud vita megi. Hér stendur í Gudspjallinu um þá, sem forsmádu konúngsins bod, en gengu í burt, einn á sinn búgard, en annar til sinnar sýslanar, ad þeir hafi þess ecki verdugir verid; segid mér þá í Guds nafni, segid mér, þér, sem allareidu erud kalladir, og til bords settir í konúngsstofunni, munud þér því fyrir hlýta, ad þér erud þar einusinni innkomnir? munud þér birtast í því sanna brúdkaupsklædi, er þér látid veraldligar sýslanir, já, gjálífi og vondan selskap draga ydur frá Gudi og hans Krists þeckíngu? hversu ágjætir bordgéstir erud þér vid Drottins kvöldmáltíd, nær þér, edur ydar börn, vita engan

greinarmun ad gjøra líkhama Drottins og annarrar fædu, ecki ad reyna né prófa sjálfa sig, og ecki ad ransaka hjartad, hvert þér séud í trúnni. O, vei! ó, vei! hversu lítt eru menn þá til brúdkaupsins búnir? þad heitir med réttu, ad hafa altarid til ad syndga, svo sem Drottinn ad ordi kémst fyrir spámannsins munn, um afgudadýrkanina í Júda; vér képpumst vid ad búa oss í skart, nær vér halda viljum minníng Drottins dauda, og svo er heimskan rík í oss sumum hverjum, ad sá, sem ecki hefir sjálfur, hann lánar af ødrum, hvad ad sønnu er vítalaust í sjálfu sér; en Gud nádi, hvad lítid sumum muni umhugad vera ad birtast í Jesú Christi dýrmæta réttlætis klædi, sem útvegad verdur med sannri ydran, stødugri trú og ásetníngi kristiligs lifnadar. Þarfyrir, kristnir menn! lærid ad þeckja Gud og hans stórmerki, lærid ad þeckja sjálfa ydur og ydar óverdugleik, lærid ad þeckja Guds vilja af hans bodordum, svo þér og þeckja megid, hvad mikinn skort þér hafid á þeirri hrósan, sem fyrir Gudi gyldir. Hinn annar partur vorrar játníngar er sá, ad vér lofum ad treysta Gudi, og reida oss uppá hans fødurliga gjæsku og forsjá bædi í medlæti og mótlæti, en af þessu ber ærid mjøg hjá mørgum hverjum, sem þó meinar sig velbúin í lambsins brúdkaup; í medlætinu treystum vér uppá sjálfa oss sumir hverjir uppá aud vorn og metord, uppá vini og høfdíngja, en ecki uppá hann, sem er Drottinn alleina ríkur; konúngurinn af Týró sagdi í hjarta sínu: eg er einn sterkur Gud, en Drottinn segir hønum, muntu segja vid þinn veganda: eg em sterkur Gud? og þó treysta menn uppá svoddan eina vatnsbelu framar enn á Gud, sem øllu rædur bædi á himni og jørdu; hvar er þá trúin, sem menn eiga á Gudi ad hafa? munu þessir vera hentugir géstir í Christí brúdkaups stofu, er sagt hefir: hver sem til mín kémur, og ei hatar fødur og módur, konu og børn, systur og brædur og jafnvel sína egin sál, hann gétur ei verid minn lærisveinn? Menn standast ecki reidisvip eins veraldar høfdingja, er menn svo kalla, þegar þeir ygla sig, þá eru sumir menn búnir til ad gjøra allt, hvad þeir bjóda, og jafnvel hinar verstu skammir og klæki í gégn Gudi, en hann óttast þeir ei, í hvers hendi ad øll veraldarinnar magt er eins og ein lídandi þoka, og þó vilja menn kristnir heita, þó ætla menn sér med þvílíku skapi í lambsins brúdkaup inn ad gánga med þeim Guds hetjum, sem jafnvel ecki sitt líf elskudu allt í daudann, þarfyrir hafa þeir nú fágad sinn skrúda í hans blódi. Í mótlætinu eru menn ecki einasta óþolinmódir, sem jafnvel Guds børn hendir, heldur møglunarsamir móti Gudi, kalla sér órétt gjørdan, ørvænta hans adstodar, grípa til þeirra ráda, sem hann bannad hefir, og í einu ordi ad segja, kasta í burtu trúnni á hann, og brjóta okid í sundur. Finni menn nú eitt hvad af þessu hjá sér, annadhvert, ad þá vanti naudsynliga þeckíngu á Gudi og sínum sáluhjálparefnum, og hann hirdir ecki um, ad ráda bót þar á, sem bezt hann kann, edur hann óttast nockra veraldar magt, vináttu edur velgengni, eins mikid og Gud, þá dragi enginn sjálfan sig á tálar, edur meini þad hann sé rétt-trúadur, þótt hann skírdur sé, þótt hann sé bordgéstur Drottins í h. kvøldmáltíd, og fylgir þad þá eptir, ad hann ei er skrýddur brúdkaups klædi, á medan hann er svo búinn. Taki enginn svo ord mín, ad eg meini, þótt einhvern kunni nockud af slíku ad henda, ad hønum þarfyrir eigi strax ad kasta í hin ytstu myrkur, gjæska

Drottins er þolinnmódari yfir syndum vorum enn svo, þad sýna oss dæmi hinna mestu syndara, sem þó hafa ádur hast fulla Guds þeckíngu, svo sem Arons, Davíds og Peturs, en hitt segi eg, ad menn skuli ecki brúka þessa Guds nád til ad ala syndina á henni. Eg sagda fyrir skömmu, ad í skírninni værum vér fyrst íklæddir brúdkaupsklædinu, en Guds náti, ad þar fellur svo optliga blettur á, og svo atast þad í forödum veraldarinnar, ad þad varla þeckist á stundum, en þad á burtu ad þvo med heitri ydrau og hans forþénustu, sem hrein gjörir börn Leví, Jesú Christí, hver ad er eins og sápa þvottakvenna, segir spámadurinn, Malach. 3. Eitt klædi er jafngott, þó ad saur falli á þad, ef þad er vel þvegid, nema þad sé grómtekid; eins er syndarinn, hann er jafngódur, þegar hann ydrast af hjarta, trúir ad sér verdi syndirnar fyrirgéfnar, og leitast vid ad lifa betur af öllu megni, en velki hann sig svo mjög í gudleysinu, ad hann burtkasti Drottins forþénustu, og hirdi ei um ad leita hennar med þeim medölum, sem til þess eru gjörd, þá segir Páлus oss, ad þar sé engin forlíkun fyrir syndina framar, Hebr. 10. Eg finn í heilagri ritníngu svo sem þrjú tröppustig til glötunarinnar fyrir þá, sem medtekid hafa þó Guds Anda; hryggid ecki H. Anda, segir Pálus; þad skédur, þegar þeir, sem enn þá eru í Guds nád, þeim verdur þad, ad þeir láta eptir holdinu, þó ecki alltíd af ásettu rádi, en veikja þó med því krapta sinnar endurgétníngar, svo þeir eru ecki svo ljúfir á ad gjöra þad Gudi líkar; aptur segir hann: slöckvid ecki H. Anda; þad skédur, nær menn svo venja sig á syndsamligt athæfi, ad þar finnst engin barátta holdsins og andans, heldur láta menn syndina drottna í sínum daudligum líkhama, svo þeir þjóna henni, þar med tapa menn andanum til fulls, og rata í Guds óvingan; hinir þridju eru þeir, ed mótstanda H. Anda, svo sem Drottinn sagdi vid Gydínga, og hans píslarvottur Stephanus; þad skédur, nær einhver forsmáir andann, nær hann annadhvert straffar syndina í ordinu, edur og med sínum innri verkunum í hjartanu, og standa á móti hönum af öllu megni, svo ad þótt þeir viti hvad rétt er og hjálpsamligt, þá smída þeir sér meiníngar og afsakanir á móti Guds ordi og innblæstri H. Anda, og leitast vid ad styrkja þær med þeim rökum, sem holdid og Djöfullinn fyrir þá diktar, og þessi er hin sídarsta trappa, um hverja mér virdist ad Postulinn tali til Hebreos, 6 kap., ad valla edur ecki eigi apturkvæmt til ydranar. Gjæti því hver og einn ad sjálfum sér, sá ed þenna himneska gést hefir einusinni hlotid, ad hann láti sig af hönum leida í allan sannleika, hann breyti eins og Ezechíelis dýr, þau gengu rétt áfram, eins og þeirra andlit horfdu, hvert, sem ad sjálfur andinn fór, þá fóru þau; svo eigum vér og ad gjöra, kristnir menn! á medan Gud gengur undan oss í skýstólpa sinna orda, hvar í andinn býr, þar vér ráfum í eydimörku heims þessa; því ef vér gaungum í andanum, þá munum vér ei framkvæma holdsins girndir, Gal. 5, þar hann leidir aldrei nema til Guds, af hverjum hann framgenginn er. Trúid mér, kristnir menn! ad mikil gaumgjæfni heyrir til þess ad ransaka, hvert menn hafa vitnisburd heilags Anda um þad, ad þeir séu Guds börn, edur og, ad þeir leidast af sölskum anda, sem losi þeim arfleifd Guds barna uppá óvissa von, sem hennar eru þó minnst verdir, hvad margan mun henda, því verr! þad sjá menn ecki einasta af Pharíseunum, þeim hræsnurum, er meintu sig alleina ad hafa lykilinn ad Guds ríki, en hversu lángt þeir hafi frá því verid, vottar

jálfur Sannleikurinn, Matth. 23, heldur og á mörgum ödrum, sem ad sönnu ecki efast
im Guds nád, en lifa þó enganveginn ad Guds vilja, jafnvel þótt ei drýgi þeir stórglæpi,
ressum rædur Postulinn nærsta heilt, er hann segir: reynid hvert þér erud í trúnni, hvad
i verdur med ödru móti betur gjört, enn ad menn ransaki sinn lifnad grandgjæfiliga,
ví sön trúa er aldrei ávaxtarlaus, heldur verkar hún fyrir kjærleikann, hver ad er lög-
málsins uppfylling, og allar kristiligar dygdir hefir í sér fólgnar. Ad sönnu er Jesú blessa-
d réttlæti þad sanna brúdkaupsskart, sem textinn umgétur, nær þad er med trúnni höndl-
ad, en glansinn á þessu tignarklædi eru verkin, sem af henni framkoma, hver hana aug-
ýsa og um hana votta, því af þeirra ávöxtum skulud þér þeckja þá, segir Frelsarinn um
lsana, sem koma í saudaklædum, og eins má um Guds börn segja; ecki hylur farsi klæd-
nna lýti líkhamans, ei heldur útibyrgir hann frost og kulda, heldur fatid, sem ad lýtin
yrgir; svo gjöra og verkin engan réttlátan, heldur trúin, sem því veldur, ad vort
ós svo lýsir fyrir mönnum, ad þeir vor gódverk sjá og dýrka vorn Födur, sem á himnum
:, Matth. 5. Sólin er ecki birta, en þó géfur hún birtuna frá sér; eplid er ecki eyk, og
ó ber eykin eplid; trúin er heldur ecki verk, en þó er hún aldrei án verkanna, því segir
akob: sýn mér þína trú af verkunum! veri því enginn svo blindur, ad hann ætli þad
ann sé rétt-trúadur á medan hann ecki ber trúarinnar ávexti. Hvad skulu menn þá tala
m hina vondu öld, sem vér lifum í? eg skal géfa þeim eitt hjarta og einn veg til ad óttast
ig, segir Drottinn um kristnina á nýa testamentisins dögum, fyrir munn Jeremíæ, 32
ap., mun þetta sjást hjá mörgum á vorum dögum, þar ed svo margt er sinnid sem mad-
inn er, jafnvel í þeim hlutum, sem heyra til Guds dýrkunar, og sáluhjálpinni vidkoma,
eg tali ecki um adra hluti, svo lángt er frá því, ad menn hafi eitt sinni til ad óttast
ud, ad í einu landi, einni bygd, í einni sókn, er þar daudligt hatur, agg, reidi, þræta,
brægni, innbyrdis fláttskapur, menn ljúga hver uppá annann lítum og skömmum, pretta
er annann í kaupum og sölum, svíkjast á innbyrdis med kjassmælum, berandi hunáng
munni, en gall í hjarta. Hvad þá? eru Guds ord ad brygdmælgi vordin? fjærri er
i: sé Gud sannsögull, en allir menn lygarar; heldur er þad þess vegna, ad vér erum
o fráleitir og ólíkir vordnir hinni fyrstu Guds kyrkju, þar allir kristnir vóru eitt, og allir
utir sameginligir medal hinna trúudu, og þó halda allir sig hafa hid fagra brúdkaups-
ædi til ad bera. Brædur mínir! viljid þér heyra þær sakir, fyrir hverjar Gud útrak
t fólk í hina Babýlonisku herleidíngu, hvar þeir máttu lída svo skélfiligar hörmúngar,
varla hefir þvílíkt heyrst frá aldödli, þær standa skrifadar hjá Ezechíel spámanni, 22
p., á þennann hátt: födur og módur virdtu þeir einkis, vid hinn framanda höndla
ir svikfamliga, eckjunni og hinum födurlausa gjöra þeir órétt; en ad þessu leika menn
: á stundum og ödru þvílíku, og þykir þad hofmennska vera; mun nú konúngurinn þeckja
tta fyrir brúdkaupsklædi, nær hann lítur af himnum ofan, til ad sjá eptir brúdkaups-
stunum? eg vil ei tala um fláttskap og undirferli, er svo mjög drottnar í heiminum,
fnvel medal þeirra, er vel kristnir heita vilja og ætla sér einkis ábóta vant. Ein af
im mestu skömmum, sem þvíngadi Gud til ad yfirgéfa sitt fólk Júda, var hin staka
ygd, sem drottnadi á þeim dögum, þess gétur Jeremías, 9 kap. segjandi: vari sig

hver einn vid sínum vin, og treysti ei uppá neinn bródur, því einn bródir hann bregdur ødrum, og sérhver vinur brúkar afdrátt og gabbar vin sinn, þeir tala ecki sannleikann, þeir kénna túngu sinni ad tala lygar, og þreyta sig í rángsleitninni. Segid mér, ef Jeremías mætti hverfa aptur til lífsins, mundi hann ei þeckja nockud þesshattar medal vor? og má þad enganveginn brúdkaupsklædi nefna, lángtum heldur vil eg kalla þad Andskotans bodsmannsham, er hann klæddur var, þegar hann taladi vid Evu í høggorminum, og baud henni uppá eplid; því Davíd, og Páls Róm. 3, segja, ad høggormaeytur sé undir vørum þeirra, en Djøfullinn er sér alltíd líkur, og þad þess heldur, sem hann veit ad hann hefir styttri tíma. Eg vil ei fá mér til orda um hina skadligu ágirni þeirra, sem útsjúga hús eckna og fodurlausra barna, og selja hinn fátæka fyrir einn skó: margann mun Gud sjá í hinni almenniligu brúdkaupsstofu síns sonar, þad er hinni sýniligu Guds kyrkju hér á jørdunni; eg segi, hann mun þar margann sjá líkann þeim sem framfalla í pantsettum klædum, já, hann mun sjá blód sinna voladra í løsum klæda þeirra; hvad sýnist ydur, kristnir menn! munu menn í þvílíkum búníngi inngánga í lambsins brúdkaup? lángt er frá því; fyrir því hreinsid ydur, þvoid ydur, látid af illu, lærid gott ad gjora, Es. 1, gjørid hvad rétt er á hverjum morgni og frelsid þann sem ránid lídur af þess hendi sem undirþryckir hann, svo ad brædi Drottins ecki útfari svo sem einn eldur, sá ed enginn fái slockt, fyrir illsku sakir ydar athafna, segir Drottinn fyrir munn Jeremíæ, 21 kap. En vilji menn vita, hvad ad sé hid rétta brúdkaupsklædi, þá er þad Jesú blessad réttlæti, med einni sannri og lifandi trú umfadmad, sem ádur er sagt; en hvad áværtum trúarinnar vidvíkur, sem aldrei kunna vid hana ad skilja, heldur enn birtan vid ljósid; þá fæ eg þad ecki betur sagt, heldur enn Davíd í hinum fimtánda Sálmi, med þessum ordum: Drottinn! hver fær ad búa í þinni tjaldbúd, edur hver mun hvílast uppá þínu heilaga fjalli? hann sá ed framgengur flecklaus og gjørir rétt og talar sannleikann út af hjarta, hver ed ecki svikfamliga mælir med sinni túngu og náúnga sínum eckert illt gjørir og leggur sínum náúnga eckert lastligt til, hver hann leidir hjá sér hinn illgjarna, en í heidri hefir hinn gudhrædda, hver hann sver sínum náúnga, og svíkur hann ecki, hver hann géfur ecki fé út uppá okur, og tekur ecki mútu yfir hinn saklausa, hver ed þetta gjørir, hann mun stødugur blífa æfinliga. Lítid nú hér, svo sem í ødrum speigli, hvernin þeim byrji háttudum ad vera, sem réttiliga eru til þessa brúdkaups búnir; en vilji menn þad ei heyra, þá heyrid þó, kristnir menn! hver ad urdu endalok þessa auma manns, er vanvirdti samsætid med almenniligum búníngi: bindid hans hendur og fætur, sagdi kóngurinn, og kastid honum í hin ystu myrkur, þar mun vera óp og tanna gnístran. Ecki þarf eg margt ad segja af þessu fordæmíngarinnar landi, þad er nóg, sem hér stendur, ad þar sé óp og tanna gnístran, og meir vantar oss þad, ad varast helvíti, heldur enn ad vér ecki nærri gétum hversu heitt þad sé; þessi vesæli madur var ecki einasta útrekinn úr brúdkaupinu, heldur og var honum í mirkvastofu kastad; svo munu og allir þeir, er ecki eru Jesú dýrmætum réttlætiskyrtli skrýddir, þeir munu ecki einúngis útreknir verda frá augliti Guds og styrkleika hans dýrdar, 2 Þess. 1, heldur og í eilífum eldi brenna med Djøflinum og øllum hans árum. Þegar Israel heyrdi, ad Guds reidir slóu í Hóreb,

ıær løgmálid var útgéfid, þá hræddust þeir fyrir eldinum og þordu ecki nær ad gánga; n hvad mun verda þegar hans reidi tekur til ad brenna allt til nedsta helvítis yfir þeim, r varla annad gjørdu, enn ad brjóta þetta løgmál og ydrudust þó aldrei afbrotanna, dur þeinktu um, ad afplána þau med Guds sonar forþénustu? eldurinn snerti ecki gyd-nga, þó gátu þeir ei stadist ad sjá hann; en hvílík mun þeirra ofraun verda, sem í hel-ítis eldi veltast munu frá einni eylífd til annarar? þarfyrir, mínir elskanligir! sjáid til, ad ér gjørid ydar útvalníngu vissa, 2 Pet. 1, íklædist Drottni Jesú Christó, Róm. 13, ad er: hans réttlæti; íklædist herskrúda réttlætisins, Eph. 6, íklædist brynju trúarinnar og jærleikans, 1 Tess. 5, svo ad þér verdugir verdid í Lambsins brúdkaupi ad standa frammi yrir Gudi, ískríddir bjørtu línklædi, sem eru réttlætingar heilagra, Apoc. 19. Þeirr-r eylífu farsældar, géfi oss Gud ad njóta, fyrir Jesú síns Sonar dýrmæta blód og for-énustu, amen!

# Tuttugasta og Fyrsta Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Jóh 2 Kap.

Í þann tíma; þar var einn konúngsmadur, hvers sonur ad sjúkur á til Kapernaum. Þá hann heyrdi þad, ad Jesús var kominn ıf Gydínga landi í Galíleam, for hann til hans, og bad hann, ıad hann færi ofan og læknadi son hans, þvíad hann var ad nestu daudur. Þá sagdi Jesús til hans: nema ad þér sjáid teikn ıg stormerki, trúid þér ecki. Konungsmadurinn sagdi til hans: herra! ár þú ofan ádur enn sonur minn andast. Jesús sagdi hønum ıá: far þú, sonur þinn lifir. Og madurinn trúdi þeim ordum r Jesús sagdi hønum, og géck þadan. Enn þá ed hann for ofan ptir, gengu hans þénarar í moti hønum, og kunngjørdu hønum, egjandi: sonur þinn lifir. Hann spurdi þá þar ad, á hverjum íma þad hønum hefdi batnad; og þeir segdu hønum: í gjær um jøundu stundu hvarf frá hønum kaldan. Þá formerkti fadirinn, ıd þad var um þann tíma, á hvørjum ad Jesús hafdi sagt: son-ır þinn lifir; og hann trúdi, og allt hans heimafolk.

## Exordium.

Hvad er sterkara enn ljónid, søgdu þeir í Thimnath fordum vid Samson, er þeir høfdu ſdid gátu hans? Jud. 14; en eg vil segja, ad trúin er enn þó sterkari, því hún sigrar ad ljónid af kyni Júda, er hefir hinn frægasta sigur unnid, sem um aldir heyrst hefir; ví lýsir hann blessadur, er hin Kanaaniska þreytti vid hann, en hann sagdi: kona! mikil : þín trú, verdi þér eptir því sem þú villt; trúudum er allt møguligt, því sagdi og relsarinn, Matth. 17: ef þér hefdud trú svo sem eitt mustards korn, þá mundud þér segja essu fjalli: far þadan og híngad, og þad mun færa sig, eckert mun ydur ómøguligt vera. ıvad veldur þá því, ad vér, sem þó bædi viljum trúa, og trúum á Christum, ad vér ecki

fáum øllu til vegar komid, sem vér girnumst? þar liggur svar til, þad sama sem Frelsarinn sagdi lærisveinunum, er þeir adspurdu hann, því þeir hefdu ei getad útrekid túnglmeina Djøfulinn, hann sagdi: vegna ydar trúarleysu; og fyrir því, ad þessa h. dags texti, gefur oss orsøk til ad tala framar hér um, út af dæmi konúngsmannsins, þá vil eg af honum tvennt hugleida: 1) veikleika trúarinnar, og hennar framfør; 2) Guds gjædsku í því ad efla hana. Styrk oss hér til, nádugi Fadir! fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Hver ad verid hafi konúngsmadur þessi, eru margar gétur á, líklegust er þeirra meiníng, ad minni hyggju, er ætla hann verid hafa einn af Heródis þénurum, því jafnvel þótt Heródes væri ecki konúngur, heldur fjórdúngs høfdíngi alleina, þá var hann þó svo nefndur af sínum, og svo ødrum eptir þeim, svo sem ad lesa er hjá Marcum í sjøtta kapit., og hefir hann þá an efa gydíngur verid, því gydínga þjónustu og sidum létst Heródes fylgja; en þótt hann gydíngur væri og heyrt hefdi spádómana um Messíam og af Jesú, þad hann gjørdi þau verk, sem enginn kunni ad gjøra, þá fæst hann ei mikid um hann edur hans lærdóm, vegna hvers hann var þó, eptir sínu spámanns embætti, í heiminn sendur; svo gengur þad mørgum af oss, vér erum skírdir, vér erum í kristinndóminum uppaldir, vér kunnum ad þylja vorn barnalærdóm, og sumir vita ad gjøra grein á honum, med útvortis vidurkénníngu, en hversu ad kraptur trúarinnar sé ríkur í hjartanu hjá allmørgum, þad sýnist í líffernis háttunum, þegar Gud á ad elska fram yfir alla hluti, þegar náúnganum á til ad géfa hans misgjørdir og gjøra gott hinum volada, þad sýnist nær heldid á ad krossfesta og í krossburdinum, þegar øll mannlig hjálp er úti. Drottinn var í Cana þegar þetta skédi, þad var lítill bær og liggur hér um þíngmannaleid frá þeirri stóru borg Kapernaum, þar gjørdi Jesús þad mikla kraptaverk, er hann snéri vatni í vín, þad var hid fyrsta er hann gjørdi í þeim stad; þetta hefir konúngsmadurinn heyrt án efa og því leitar hann Drottins hjálpar, en þó ecki nema til líkamligrar adstodar, af því hans sonar nerd þrengdi ad honum; en miklu meira lá honum á því, ad brúka þetta kraptaverk sér og sínum til andligrar heilsubótar, því sá er hinn rétti ávøxtur kraptaverkanna, og sá er tilgángur Drottins, nær hann gjørdi þau, annadhvert fyrir sjálfan sig, edur sína postula; en Gud nádi oss, ad vér erum eins lyndir og þessi konúngsmadur var; medan oss lídur vel ad øllu því sem líkamanum vidvíkur, þá hirdum vér ecki svo mjøg um sálina og leitum ei Krists, jafnvel þótt allt høfudid sé sjúkt, allt hjartad veikt, fra hvirfli og allt til ilja sé þar ei nema sár, kaun, benjar og þroti; vér leitum hans, segi eg, ef oss brestur neckud af veraldar munum, þegar vér sjúkir erum, þegar oss brestur atvinnu vora, nær vér ofsóktir erum, og rángindin lídum, og vér eigum svo ad gjøra, því hann er meistari til ad hjálpa, og vor hjálp kémur frá Drottni, sem skapad hefir himin og jørd, en ad leita Guds ríkis og hans réttlætis, þar erum vér svo tregir til, jafnvel þótt þad sé þad eina, sem er ómissandi, því gjørdum vér svo, þá mundi oss allt annad til leggjast, og segid mér, hvad er verri trú þá betur háttad enn þessa konúngsmanns? hann hefir ad vísu høfdíngi verid; nockrir ætla ad hann hafi verid hinn sami og Chúsa, sá ed var ármadur Heródis, hvers kvinna Jóhanna ad sídan eptirfylgdi Christó af Galílea, og þjénadi honum; og er

þeirra gáta ecki ólíklig, því hér stendur um þenna mann síðan, að hann hafi trúað og allt hans heimafólk; en fyrir því, að hann var magtarmaður, en um Krist hefir hann ecki öðruvísi meint, heldur enn um einn spámann, svo sem Elíam, Elíseum og aðra svoddan, þá vill hann, að Drottinn komi ofan með sér. Þessi er slíkra fugla tegund, að jafnvel þótt þeim liggi mikið á, vilja þeir láta sig virða framar öðrum mönnum; eins var Jaírus, samkundu höfðíngi, lyndur, hver eð var sömu borgar maður, hann beiddi Drottinn að koma með sér, og leggja hönd yfir dóttur sína, svo sem hann gjæti ecki reist hana af dauðum sjúkrlægur, og hefir hann þó án efa heyrt þetta dæmi; en þótt Drottinn léti það eptir hönum, þá hefir það ei verið þess vegna, heldur að hann gjörði það mikla kraptaverk í augsýn svo margra, er í fyrstunni dárudu hann. Hversu líkt er þetta Naman hinum Sýrlendska, er Elíseus bauð hönum að þvo sig sjösinnum í ánni Jórdan, 2 Kóng. 5, þá strauk hann burt í reiðisvip, og sagdist meint hafa, að hann mundi hafa komið út til sín, og ákallað nafn Drottins Guðs síns; hann leit á virðíngar sínar, en ecki á sinn líkþráa kropp; ecki gjörði svo hin Kananiska, ecki hin blóðfallssjúka, ecki hinir blindu, er sátu við veginn og kölludu: Herra! sonur Davíðs, mysknna þú ockur, Matth. 20; þessir beiddu um Christí hjálp, svo sem aðra ölmusu, því þeir áttu ei miklum veraldar auð né virðíngum að treysta; og Guð gjæfi vér vildum og þeckja það, að allir erum vér Drottins þurfamenn. Ecki gat Naman kastað af sér líkþránni með hans mikla gulli og silfri, ecki gat Ezechias konúngur bætt sér heilsuna með allri sinni magt, og ei gat þessi konúngsmaður tekið költuna frá syni sínum, annars hefði hann ecki til Kristum komið, en miklu síður kunnum vér að auka oss trúna; en trúarveikina orsakar marg opt það þeckíngarleysi, er vér höfum bæði á Guði og á sjálfum oss; á sjálfum oss í því, að vér köllum oss eckert ómáttugt, nær að óskum gengur, en á Guði í því, að vér treystum hönum svo lítið, þegar mannlig hjálp er úti; en hvað er þó maðurinn? ein gufa er hann, hver eð sést um stundarsakir, en hverfur síðan, segir Jakob. Hvað er víntréð fremur enn önnur tré? verður tekið af því efni til nockurs verks? segir Drottinn hjá Ezechíelem 15 kap; og hvað er maðurinn án Guðs? einn fauskur, sem til einkis er hæfur, nema að upphöggvast og í eldi brennast. Konúngurinn af Egyptalandi er maður, og ecki sterkur Guð, hestar þeirra eru hold og ecki andi, segir Drottinn við sitt fólk, Es. 31, er þeir treystu þessum höfðíngja framar enn Guði sínum; og hvað skyldu þeir þá ætla uppá sjálfa sig, sem lángtum eru minni máttar? en vantraustið á Guði kémur af því, að menn reiddu sig ecki uppá hann, þegar vel géck, heldur uppá sjálfa sig, og færðu fórnir fyrir neti sínu. Menn eru óvanir því, að trúa í voninni, á móti eður framar von, eins og Abraham, Róm. 4; vér viljum sjá eitthvert meðal fyrir augunum, ef vér trúa skulum, eins og þessi konúngsmaður; hann beiddi Drottinn að fara ofan og lækna son sinn; að sönnu var þar nockur trúarneisti hjá hönum, en mjög svo veikur; svo erum vér og á stundum skapi farnir, jafnvel þótt vér vel vitum, að Guð hafi þúsund vegi til að hjálpa, þá er það svo sem vér viljum skrifa hinum Alvísa einn máta fyrir, hverninn hann hjálpa skuli; í þurrviðrinu biðjum vér um regn, í regninu um þurk, en ecki svo um Guðs blessan; í offsóknunum um fall óvina

vorra, en ecki um Guds adstod á móti þeim; í sjúkdóminum um heilsubót, en ecki svo mjøg um þolinmædi; lángt er frá því, ad eg segi þad sé illa bedid, því allt skal af Gudi þiggja, en þó á þad ad vera med því móti, ad vér køstum allri vorri áhyggju uppá Drottinn, fulløruggir þess, ad hann muni því vel til vegar koma; en vér verdum óþolinmódir á stundum, ef vér ecki strax bænheyrdir verdum, og þad svo mjøg, ad oss verdur lífid leitt eins og Elíæ, eins og Job, er hann sagdi, Job 3: því géfur Gud ljósid hinum mótlætta, og lífid þeim, sem eru ángurfullir, til hverra daudinn ei kémur, þótt þeir bídi eptir hønum svo sem huldum féssjód? Hvílík ord og hugsanir pressar mótlætid optliga út af þeim, sem jafnvel hafa mørgum kénnt og styrkt hinar veiku hendurnar, eins og Job, en þeim verdur réttiliga svarad med ordum Elíphas af Theman, er hann sagdi vid þenna Guds ástvin: mun hinn daudligi vera réttlátari enn Gud? mun madurinn vera hreinni enn hans skapari? vér erum hans verk, því møglar þá leirkérid á móti þeim, sem gjørdi þad? Hvar fyrir eckert er annad rád í mótgánginum, børn mín! enn ad halda stødugt áfram í bæninni, því komandi mun hann koma og ecki tefja; svo gjørdi þessi konúngsmadur, þó trúin væri veik, þá gaf hann samt ecki upp ad bidja; Drottinn svaradi hønum ad sønnu ecki af, en þó í hardara lagi, ecki ad sídur bidur hann nærri sømu ordum, segjandi: Herra! far þú ofan ádur sonur minn andast; og má sjá, ad hans trú hefir eblst vid þau ord, er Kristur taladi. Látum oss ei fara midur enn þessum manni; ei vissi hann, ad Jesús var Messías, heldur ætladi, hann mundi vera Guds madur nockur, líkur spámønnunum, sem ádur er sagt; Jesú lærisveinar voru ei sannfródir um hans persónu í þann tíma, aukheldur þessi ókéndi madur; en vér høfum heyrt svo mørg tákn og stórmerki eptir hønum, vér þeckjum, ad hann er aptur til himins uppfarinn, og hefir mønnunum gáfur géfid. Ecki þarf Gud kraptaverkin til þess, ad hjálpa oss, þau eru gjørd fyrir hina vantrúudu, segir Pálus; en vér trúum, og segjumst trúa; því er þá trú vor svo veik á stundum, ad vér trúum ei nema vér tøkum á, eins og þessir Galílei, er ecki trúdu, nema þeir sæu teikn og stórmerki, og strax, sem vér ei finnum til bænheyrslunnar í líkhamligum efnum, þá køllum vér oss yfirgéfna? Vantrúin er svo megn, ad hún gjørir almætti Guds vanmáttugt (ef svo mætti ad ordi komast), því hún metur Guds krapt eptir smámunum sínum; þar yfir klagar Drottinn, Zach. 8, segjandi: af því, ad þad er furdanligt í augum þessa fólks, skyldi þad þá vera furdanligt í mínum augum? Vitum vér ecki, ad þess nær vér erum Gudi, þess meiri høfum vér smeck eptirkomandi aldar, en nú erum vér hønum aldrei nær, enn í krossburdinum, ef vér berum Christí ok réttiliga; segid mér: gjørir Gud þá illa vid oss, ad hann svarar oss útaf á stundum, nær vér bidjum um þetta tímanliga, til þess ad auka oss trúna, og festa hjarta vort vid þad eylífa, sem vér egum lengst vid ad búa? Þegar Drottinn nú svaradi þessum manni med fullri bænheyrslu, þá segir textinn: og madurinn trúdi þeim ordum, er Jesús sagdi hønum, og géck þadan; svo ebldist nú trúa hans, er skømmu ádur var lítt trúandi; hann rádgadist ecki um vid hold og blód, þegar hann hafdi fengid trúna, heldur reiddi sig einfaldliga og med fullu trausti uppá hans ord, er hann þó ecki þeckti ad fullu, og varla meir, enn hann heyrt hafdi annadhvert sjálfur, edur af ødrum, sem voru í Jerúsalem á hátídardeginum; og því er ecki

ad undra, þótt Guds børn treysti hønum, hverjum hann í sínu ordi er fyrir augunum ásmáladur, hverra kraptur hann er midt í hørmúngunum, ossóknunum, ángistinni, því þá þau veik eru, megna þau alla hluti fyrir hann, sem þau máttug gjørir, eins og Páls. Þegar konúngsmadurinn þessi fyrst trúdi, þá flýtti hann sér ecki heim ad vitja um son sinn, þar af má marka trú hans; þad var um sjøundu stund, ad hann skyldi vid Jesúm, þad svarar litlum tíma eptir hádegi hjá oss, og ei kom hann heim fyrr enn annars dags eptir; en vegurinn er ei lengri enn ádur er sagt; eins eru og þeir lyndir, sem til fulls eru bygdir á þann hyrníngar stein í Zíon, Es. 28, Jesúm Christum, þeir flýta sér ecki mjøg, segir Spámadurinn, þeir hlaupa ecki med þjófnum til ad stela, ecki taka þeir til fánýtra ráda, eins og Achas, Es. 7, ei gjøra þeir samband vid daudann, né sáttmál vid helvítid med hinum gudlausa, Esa. 28, heldur bída þeir eptir Drottni, styrkja huga sinn og eignast sálir sínar í þolinmædi, Lúk. 21, og sá ed sér temur þetta hugarfar, í hønum er trúin fullvaxin, og Kristur ad fullu myndadur; og hvert skylda eg heldur flýta mér, Drottinn! ef þú værir reidur? þótt eg upphefdi mig med Edom, eins og ørnin, og byggi mér hreidur medal stjarnanna, þá mundir þú kasta mér ofan þadan, Obad. v. 4; og hvert vilja þeir elta mig, nær þú ert nádugur, nema ad þínum fótum, hverra skør ad jørdin er, og allar þjódirnar á henni fyrir þér svo sem vatnsdropi í ausu; þar vil eg fulløruggur búa, þar vil eg hæda ad øllum þínum og mínum óvinum, þar vil eg Drottins bída, og vardveita hans vegu, þá mun hann upphefja mig; hønum sé lof, dýrd og heidur ad eylífu, amen! Svo er nú úttalad um veikleika trúarinnar og hennar eblíng; eptirfylgir hid sídara, er eg hét um ad tala.

Gudspjallamadurinn segir skømmu ádur enn textinn byrjar, ad Jesús hafi farid burt í Galíleam, því hann hafi sjálfur vitnad, ad spámadur hefdi ei virdíngu í sínu fødurlandi; margir halda, ad þar med sé Nazareth meint, sem var fósturjørd Drottins, og svo er hún køllud hjá Mattheum, 13 kap.; en þessi borg var og svo í Galílea, því gétur þad eins vel Júdea edur Gydíngaland verid, hvar hann fæddur var; en hverninn sem því er varid, þá reisti hann fram hjá hinni vantrúudu Nazareth í þetta sinn, um hverja Mattheus sídan skrifar, ad hann hafi ei gjørt þar mørg kraptaverk, søkum þeirra trúarleysu, og ferdadist til Kana, hver ed lá í þeim parti landsins, er nefndist Galílea heidíngjanna, þar lá og Kapernaum, er var hin frídasta borg af þeim tíu stødum; þetta land bygdu margir heidíngjar, þar voru Tyrus og Sidon, þadan var hin Kananiska, er þreytti vid Drottinn; í Kapernaum var hundradshøfdínginn, hvers trú hann svo mjøg hrósadi. Þetta kémur mér til ad prísa hans fødurliga gjæsku í því, ad snemma tók hann til þess, blessadur! ad líta til vor heidíngjanna, jafnvel þótt hann sérílagi væri sendur til fortapadra sauda af húsi Israels; ecki er ad efa, ad þau møgu kraptaverk, er hann gjørdi í Kapernaum, er nefndist hans borg, þau hafa snúid mørgum heidíngja á lífsins veg. En lítum nú til vor, kristnir menn! smá voru upptøk kristnibodsins hjá oss í fyrstunni, og ecki var ljúfliga á móti tekid þessari Guds gjøf; vor kristinndómur var og svo mjøg í veikleika fram eptir øldunum, þó høfum vér, sem nú lifum, og svo fedur og forfedur vorir til

þess fundid, ad þad er satt, sem Drottinn segir í eptirlíkíngunni, Matth. 23, ad himnaríki sé líkt mustardskorninu, hvert ad einn tók og sádi í akri sínum, hvert ad er hid minnsta af sædunum, en þegar þad vex upp, er þad hid stærsta af kálgrøsunum, og verdur ad einni eyk, svo ad fuglar himinsins búa sér hreidur í greinum þess; svo hefir nú Gud eblt kristiliga trú hjá oss, sem í fyrstunni ei vorum nema lítid sædi, því ei kunnum vér ad neita því, ad ei búi Christí ord ríkugliga vor á medal. Vér høfum heyrt hans kénníngar, hans kraptaverk, hans pínu og dauda, hans upprisu og himnafør, svo ad Jesús Christus er oss fyrir augum afmáladur krossfestur á medal vor, ei sídur enn þeim í Galatía; Gud gjæfi, ad vor kristinndómur þar eptir auglýsti sig í trúarinnar ávøxtum og kjærleikans verkum, svo vér þecktum og syndum til, ad Guds ríki væri inni hjá oss! menn heyra ecki, ad Drottinn hafi stadnæmst í neinni af Galíleæ borgum, fyrr enn hann kom til Kana; þar hafdi hann ádur gjørt þad mikla kraptaverk, er hann snéri vatni í vín, svo sem hér ad framan er umgétid; án efa til ad reyna, hvern ávøxt ad bæjarmenn hefdu fært þar af, og hvad þeim hefdi í trúnni framfarid; en þad má merkja af hans svari vid konúngsmanninn, ad hann ei hafi fundid fyrir sér allt ad óskum, því sagdi hann: nema þér sjáid tákn og stórmerki, þá trúid þér ecki; hann talar ecki til hans alleina, heldur til allra þeirra, sem nálægir voru, svo sem bendandi til þess, ad jafnvel þótt þeir medtæki hann vegna kraptaverkanna, svo sem Gudspjallamadurinn segir, þá nædu þau samt ecki því máli, hvar fyrir þau gjørd voru, sem var, ad trúa þad hann væri sá, sem koma skyldi, hvarfyrir hann og vísadi Jóhanni, edur réttara ad segja, Jóhannis lærisveinum til þeirra. Þanninn breytir Guds fødurlig gjæska einninn vid oss, til ad vekja í oss trúna og adrar kristiligar dygdir; hvad optliga straffar hann í oss vantrúna, bænarleysid, ávaxtarleysid, og óþolinmædina, þegar hann talar vid oss í sínu heilaga ordi? vel sé þeim. sem ljá því eyrun til nockurrar eptirtektar og umbótar lífernisins! en Gud nádi, ad þad vill ei alltíd á eptirfylgja! Vér heyrum Guds ord med leidindum á stundum, eins og Israels synir átu manna á eydimørkunni, og því verdur oss svo fátt til ráda í ángistinni, jafnvel þótt hún sé þad verkfærid, med hverju ad Gud umskér þau óumskornu eyrun og hjørtun, sem ecki á annann veg heyra né trúa vilja. Ecki snérist Ephraim til Guds, fyrr enn hann var tiptadur, svo sem lífadur kálfur, Jer. 31; ecki ledi Manasses hønum eyrun, fyrr enn hann var beigdur í þúngum járnvidjum; ecki hlýdnadist Júda hønum, fyrr enn hann lærdi þad af ánaudinni í Babýlon, og ecki mundi þessi konúngsmadur hafa skipast vid ord Drottins, nema hans sonur hefdi legid daudsjúkur í Kapernaum; svo eblir nú Drottinn trúna í krossburdinum, og er þad mála sannast, ad þad, sem ómøguligt er fyrir mønnum, þad er møguligt fyrir Gudi. Þeim, sem án Guds eru í heiminum, þeim er mótlætid hin mesta orsøk til hugarvíls, þad tekur allan dug úr þeim, sem ecki Gudi treysta, en hann, sem reidir sig uppá Gud, hann lætur Drottinn vera sitt hjartans traust og hlutskipti, þótt ad líf og sál vanmegnist; þess gétur Jakob, í hans pistils 1 kap., segjandi: haldid þad fyrir hinn mesta føgnud, brædur mínir! svo opt sem þér ratid í ýmisligar freistíngar, vitandi þad, ad reynsla ydar trúar verkar þolinmædina; hvarfyrir verkar hún þá þolinmædina? þvíad svo lengi sem þar er einn trúarneisti í mannsins hjarta, þá er hann aldrei án Guds,

hversu lítill sem hann er, en Guds kraptur er aldrei lítill, þó hann búi í litlu, þessvegna fullkomnast hann í breiskleikanum, sagdi hann sjálfur vid Pál; þarfyrir skrifar sá Gudsmadur svo kunnugliga hér um til Rómverja, 5 kap: vér hrósum oss af hørmúngum, segir hann, vitandi ad hørmúngin verkar þolinmædi, en þolinmædin reynsluna, en reynslan vonina, en vonin lætur ei til skammar verda, þvíad elska Guds er úthellt í hjortym vorum fyrir H. Anda, sem oss er géfinn. Hverninn verkar nú hørmúngin þolinmædina? þvíad hvar engin hørmúng er, þar orkar ecki á þolgjædid; því verkar þolinmædin reynsluna? um Ezechíam konúng stendur skrifad, 2 Kronik. 32, ad Gud hafi freistad hans, svo ad uppskátt yrdi hvad hann í sinni hefdi, ecki fyrir því, ad Gud vissi þad ecki, því hvar fyrir skyldi hann ecki vita hvad med manninum býr, sem manninn skapad hefir? heldur ad hann reyndi sjálfan sig, hvad mikla krapta hann hefdi þegid til ad bera Guds álag, ad hans trú og von ebldist þess meir framvegis; og þanninn verkar þolinmædin reynsluna, og reynslan vonina, þvíad elska Guds er úthellt í hjørtum vorum; vér lídum, vér freistumst, vér þolum, og trúum þó í øllu þessu, þvíad vér elskum hann, sem reynir oss, og vitum, ad hvern þann son, sem hann elskar, þann agar hann. Guds sonur var svo yfirkominn í píslunum, ad hann beiddi, ad hinn súri reidinnar kaleikur mætti frá sér takast, ef þad væri Födursins vilji, og þó var honum elskan svo megn til vor syndugra, ad hann þreytti vid daudann, og gaf ecki upp, fyrr enn þad var fullkomnad; hér med hefir hann þad afrekad oss, ad vér hann elskum, allir þeir, sem á hans nafn réttiliga trúa, þvíad í því er kjærleikurinn, ecki ad vér elskudum Gud, heldur ad sjálfur Gud oss elskadi, segir Jóhannes, 1 Joh. 4; því skyldi þá ecki elskan til hans vera svo rík í oss, ad vér lídum þad med trú og þolinmædi, sem hann á oss leggur, til þess ad verda honum líkir í ángistinni, svo vér med honum fagna megum í dýrdinni? Þegar Drottinn hafdi nú svarad þessum manni nockud hardliga, og hann gaf þó ecki upp ad bidja, jafnvel þótt þad væri í veikleika, þá vill hann, blessadur! ecki útslockva þenna líttloganda hørkveik, heldur segir hann: far þú! sonur þinn lifir; þad ord, sem í textanum stendur, gétur og merkt: hann lifir heill; hann, sem vissi hvad med manninum bjó, hann þeckti, ad ei mundi þessi madur svo þolinmódur edur trúarsterkur svo sem hin Kananiska, því tefur hann ecki framar fyrir honum. Merk hér þad, kristinn madur! ad Drottinn veit tíma og stundir, nær mál er ad hjálpa, því freistar hann einkis yfir megn fram, svo ad trúin þrotni ecki; fyrir því, jafnvel þótt ecki þykist þú géta borid meira á stundum, þá vit þó, ad hans stund er enn þá ecki komin, sem ad hefir tíma og hentugleika í sinni hendi, Act. 1; bíd því stødugliga eptir Drottni, þá mun hann hneigja sitt eyra til þíns ákalls, Ps. 40. Eckert sýniligt medal sá þessi kongsmadur til þess, ad barni sínu mundi hólpid verda, og þad brást honum, er hann vonadi helzt eptir, sem var, ad Drottinn mundi fylgjast ofan med honum, þó trúdi hann þessum ordum, er Jesús sagdi. Sælir eru þeir, sem ecki sjá og trúa þó, sagdi Drottinn vid Thómam, af því hann ei vildi trúa, nema hann tæki á honum; vér køllum þá sæla, er kraptaverkin sáu, en hann kallar oss enn sælli, er trúum á hann án þess, ad vér sjáum þau. Ecki vildu teiknin álltíd þess orka hjá Gydíngum, ad þeir snérust og urdu hólpnir; þeir spurdu: hvert teikn sýnir þú, ad þér leyfist þetta? Þegar hann rak út þá, er seldu og

keyptu í musterinu, og hann gjørdi svo mørg teikn á medal þeirra; þeir leitudu af hønum eptir teikni af himni, þegar hann hafdi útrekid Djøful þann, er dumbi var, Lúk. 11, eins og það væri ekki í sjálfu sér nógu berligt teikn; hann formælti þeim óþakklátu borgum, Córazin og Betsaída, hvar hann hafdi gjørt hin flestu teikn, og henni, sem jafnvel allt til himins var upphafin, Lúk. 10, þessari sømu Kapernaum, er hér getur um í gudspjallinu, en margan hefir hann leidt á lífsins veg fyrir einsamlan ordsins krapt, og H. Anda, er verkar þar í, hvers vér og notid høfum, sem ekki sjáum og trúum þó. Að sønnu eru kraptaverkin til þess gjørd, ad efla kristiliga trú; það sjáum vér berliga af þessu dæmi, sem nú er høndlad um; þessi madur kom til Jesúm, af því hann heyrt hafdi það, sem gjørdist í Cana og annarstadar, en ekki í þeirri meiníngu í fyrstunni, ad læra kristinndóminn af hønum, eins og Nicódemus, en þó trúdi hann þeim ordum, er Jesús sagdi hønum í líkhamligum efnum, um bata sonar síns, en sídan, er hann fékk ad reyna það er hann trúad hafdi, þá segir textinn, ad hann trúad hafi og allt hans heimafólk; med hverri trú? ekki ad hann væri einn almenniligur spámadur, heldur Messías og frelsari heimsins, því svo merkir þetta ord: ad trúa, optliga í ritníngunni; þetta dásemdarverk; var ekki heldur idjulaust; það kom Jairó til ad bidja um lífgjøf dóttur sinnar, það leiddi hundradshøfdíngjann til ad leita hjálpar sínum daudsjúka þjón; vér høfum og þessi undur heyrt, og mørg ønnur fleiri, látum þau svo styrkja hjarta vort í trúnni, ad aldrei vantreystum vér hønum, sem er svo vís, svo gódgjarn og máttugur; hvad sem oss kann til handa ad bera, heldur gledjumst, svo sem Pétur oss segir, ad vér hryggdir verdum um lítinn tíma; ef þørf gjørist, med ýmisligum freistíngum, svo ad reynsla vorrar trúar verdi fundin miklu dýrmætari enn gullsins, hvert ed forgengur, og verdur þó í eldi reynt, til lofs, heidurs og dýrdar, þegar Jesús Christus verdur opinberadur, hvern vér elskum, en sjáum þó ei; hvern vér nú ekki sjáandi, en þó trúandi á hann, gledjumst med óumrædiligum og dýrdligum fognudi, berandi úr bítum verdlaun trúar vorrar, hvert ad er sáluhjálpin; hennar njótandi ad verda unni oss Drottinn allsherjar, konúngur eylífrar dýrdar, fyrir Jesúm Christúm, amen!

## Tuttugasta og Annann Sunnudag eptir Trinitatis.

### Gudspjallid, Matth. 22 Kap.

Og Jesús sagdi til sinna lærisveina: himnaríki er líkt vid einn konúng, sem reikna vildi vid þjona sína; og er hann tok til ad reikna, kom einn fyrir hann, sá ed hønum var skyldugur um tíu þúsund punda; en þá hann hafdi það eigi til, sem hann skyldi gjalda, skipadi herrann ad selja hann, hans hústreyu og svo børnin, og allt það hann ætti, og borga þar med. En sá þjon féll fram, tilbad hann og sagdi: haf þolinmædi vid mig, allt skal eg þér gjalda; en herrann sá aumur á þeim þjon, og lét hann lausan, og gaf hønum upp alla skuldina. En þá hann gékk út,

kann hann einn af sínum samlagsþjonum, sá ed hønum átti ad gjalda hundrad peninga; þann sama handtók hann, greip fyrir kverkar hønum, og sagdi: gjald þad þú ert mér skyldugur! Og hans samlagsþjon féll fram til fota hans, bad hann og sagdi: haf þolinmædi vid mig, þvi allt skal eg gjalda þér; en hann vildi ecki, heldur for burt, og lét hann í díblyssu, þángad til hann hafdi borgad sina skuld. En sem hans samþjonar sáu hvad skédi, urdu þeir mjøg hryggvir vid, komu og kunngjørdu sínum herra allt hvad ed gjørst hafdi; þá kalladi hans herra á hann, og sagdi til hans: þú illur þjon! alla þá skuld gaf eg þér upp, af þvi þú badst mig; hvørt byrjadi þér þá ecki mysk unsomum ad vera vid þinn samlagsþjon, líka sem þad eg var þér myskunsamur? og hans herra vard reidur, og ofurseldi hann kvølurunum, þángad til hann hafdi borgad allt þad hann var hønum skyldugur. Svo mun og minn himneskur Fadir gjøra vid ydur, ef ad hvør ydar sem einn fyrirgéfur ecki út af hjarta sínum brodur hans misgjørdir.

## Exordium.

Þad er skrifad um Augustum keysara, ad þá þar eitt sinn dó einn riddari, sem lét svo miklar skuldir eptir sig, ad hans arfur vannst hvergi nærri til lúkníngar, þá hafi keysarinn bodid, ad kaupa sæng hans til handa sér, þvíad umbyggja stjórnarinnar hélt voku fyrir hønum optliga, teiknándi þar med, ad sá madur mundi svefnsæll verid hafa, er hann gat þó nockurn tíma sofid, svo miklum skuldum vafinn; þvi hann sem til láns tekur meir, enn hann fær goldid, hann hefir frelsid selt, og er þræll hins, sem hann skuldbundinn er; þess gétur hinn Visi, er hann segir: sá ed byggir sitt hús med annars fé, hann er líkur þeim, er safnar steinum ad grøf sinni, Syr. 21; en þrællinn hefir engar nádir, nema þær, sem hans lávardur vill hønum eptirláta. Hvernig sem þvi er nú háttad vor á medal, þá tekur þad yfir, ad vera ókvittur vid hinn stóra himins og jardar Konúng, sem ecki þarf ad leida votta ad skuld sinni, ecki sækja hana med løgum, ecki mørg umsvif hafa til atfarar, heldur kann ad varpa lífi og sálu í eylífan eld, nær hønum þóknast; þvi veit eg ecki, hverninn sá kann ad hafa nockra ró edur hvíld, er veit sig ókvittan vid slíkan herra, svo sem skáldid segir: hver vill vænta sér værd og frid, vera ósáttur þó vid Gud? en þad eru þó allir þeir, er ei vilja tilgéfa sínum bródur hans misgjørdir, svo sem oss í þessa dags evangelío berliga kénnt verdur, af hverju vér tvennt hugleida viljum: 1) hvad mikid og hverninn Gud oss fyrirgéfi; 2) hvad mikid og hverninn vér egum náúnganum ad fyrirgéfa; hjálpa oss í þessu gudhrædslunnar eyrendi, nádugi Fadir! fyrir hann, sem hefir betalad allar vorar sektir, þinn Son, Jesúm Christum, amen!

## Utleggingin.

Hversu mikid ad Gud oss fyrirgéfi verdur ecki fullsagt; ef nockur vissi, hvad opt hann syndgadi, þá mætti hann kannské nærri géta hvad mikid hønum tilgéfid væri, en David kallar þad ómøguligt, er hann segir: hver skilur hvad opt hann syndgar? þó viljum vér nú fyrst hugleida, hvílíkan rétt Gud hefir til vor; miklu er hann stærri enn sá, er vér egum yfir vorum vinnudýrum, þvi ecki høfum vér skapad þau, en hann hefir gjørt oss,

segir Davíd, Ps. 100, og þegar vér höfdum skotist undir Andskotann, og vorum í hans valdi, þá hefir hann endurleyst oss, því þér erud verdi keyptir, segir Páluss, 1 Cor. 6, ecki med forgengiligum hlutum, gulli og silfri, heldur med Jesú Christí saklausu dýrmæta blódi, hver ed hefir géfid sig lausnargjald fyrir allá; og þegar vér svo endurleystir vorum, hefir hann helgad oss, því Guds andi hefir kallad oss í hans víngard, fyrst í skírninni, sídan dagliga í ordinu og sakramentunum, svo vér erum ecki vorir egin, svo sem Páll ad ordi kémst; og þad er rétt til vor talad, sem Drottinn sagdi vid sitt fólk, Es. 44: þú ert minn þræll, Israel! eg hefi frelsad þig. En til hvers erum vér þá skapadir, frelsadir og kalladir? ecki til ad vera idjulausir, heldur til ad erfida, en allra sízt til ad skémma edur spilla hans akri; öllum af oss hefir hann sitt pund í hendur sengid, sumum meira, sumum minna, en allir hafa nóg, þegar kémur ad reikníngskapar deginum. Þjón þessi var skyldugur konúnginum 10 þúsund punda, þad eru 60 sinnum hundrad þúsund krónur; þetta var engin smá skuld; en þó er þad meira, sem Gud hefir oss lánad, sem er líkami og sál, hver Gud skóp í öndverdu, eptir sinni mynd, hver hann endurskóp fyrir síns Sonar blód í heilagri vatnslaug, hver og dagliga eiga fyrir H. Anda ad endurnýast eptir hans mynd, sem þau skapad hefir; en getum vér nú svarad Gudi þessari sinni dýrmætu sképnu jafngódri? lángt er frá því, ef vér njótum oss ei fulltýngis; höfdum vér útaf dáid vid skírnarsáinn, þá vorum vér svo ad kalla jafngódir, en hversu opt hefir nú slest uppá vort skírnarklædi sídan? Líkaminn er hinn ódædri partur vors skapnadar, þó eru bædi sálin og hann med Guds blódi endurleyst; hendurnar áttum vér ad brúka til ad erfida, margur hefir lagt þær saman med hinum lata til ad hjálpa náúnganum, en sumir hafa útrétt þær til ad meida hann; augun til ad sjá aumur á þeim voludu Guds; margur hefir stungid þau út, þegar oss hefir géfist orsök þar til, en ecki þegar þau hafa hneixlad oss; eyrun eru oss géfin til ad heyra Guds ord; þeim læsa menn fyrir því optliga, en ljúka þeim upp fyrir hégómanum, sumir fyrir skammarligum ordrædum og fíblsligu hjali; munn og túngu höfum vér þegid til ad lofa Gud, og ad hjálpa náúnganum, til ad tala máli ekkjunnar, hins födurlausa og hins undirþrykta; ó, vor Gud! vertu nádugur; hvad margra þúsund punda skuld ad þetta verdi, má ráda ecki einasta af tregleikanum til bænarinnar og lofgjördarinnar, heldur af svo margri vanbrúkun túngunnar, gudlasti, róg, lígi, svardögum, bakmælgi og allri þeirri óhæfu, er spillíng náttúrunnar leikur sér ad svo sem ödru tafli; ad eg fái mér ecki til orda, hversu illa vér höndlum med þessa tjaldbúd sálarinnar, þar vér brjótum optliga nidur þad Guds musteri med óhóffsamri og óskickanligri umgengni; og ef þar nú fellur þvílíkur ávöxtur af líkamanum, hverjum vér aldrei svarad fáum, meir enn þjón þessi sínum 10 þúsund pundum, hvad mun þá ecki af sálunni falla? Höfum vér brúkad tilhneigíngarnar til ad elska Gud og óttast hann, viljann til ad stunda þad honum líkar, skynsemina til ad æfa sig í því, sem vors Födurs er? og ecki miklu heldur á móti honum, en hver ödrum til skada, og Fjandanum til þjónustu. O, vei! ó, vei! hversu djúpt erum vér þá socknir nidur í afgrunn skuldanna, og væri þó allt gódra gjalda vert, nema ad vér afræktum þann féssjód, er oss er bodinn af einskjærri nád, til ad bæta allt þetta fullum bótum, og særum illa med sjálft lausnargjaldid, þad er Jesú dýrmæta blód, sem

hreinsar oss af ollum vorum syndum. Oss er vitanligt, ad í heilogu altarisins sakramentó verda þeim ollum skuldirnar uppgéfnar, er þad verdugliga medtaka; en hvad segir Páluls um hina? segir hann ecki, ad þeir eti og drecki sjálfum sér dóm? þad er fordæmíngu; og segid mér þá, ad hverju mun þeim gagna sáttmálans blód, er halda þad svo almenniligt, og troda Guds Son undir fótunum? vér Vitum, ad Heilagur Andi upplýsir oss og helgar med sínum ástgjofum, hann leidir þá í allan sannleika, er sér láta stjórna af honum, hann er pantur arfleyfdar vorrar; en hversu opt hofum vér nú mótstadid honum? hvad tídt hofum vér hryggt hann? hvad þrásinnum hofum vér nú slockt hann med vísvitandi mótgjordum og bodordabrotum í gégn Gudi, og legid í þeim ecki allitinn tíma, á stundum þvert á móti samvitskunni, svo vér hofum misst nádina, og hefdum hana ad fullu misst, nema Guds fodurlig gjæska hefdi runnid á móti oss fortopudum sonum? Og af þessu, sem nú er sagt, sem þó er engan veginn hálfsagt, þá kann hvers eins sannydrandi manns hjarta ad dæma, hversu mikid ad Gud honum dagliga tilgéfi; en hverjum tilgéfur hann þá, edur hverja atferd brúkar hann í því? þad sýnir oss textinn: hann reiknast vid þjóna sína; svo gjorir hann vid oss, hann kallar oss til reikníngsskapar, ad standa skil á ordum, gjordum og hugrenníngum; svo kalladi Gud sjálfur Adam, er hann syndgast hafdi; svo kalladi hann Ninive borgarmenn fyrir Jónam; svo stefndi hann David til reikníngsskapar fyrir Nathan spámann, svo stefndi hann ollu fólki á holdtekju dogum Drottins med prédikun Jóhannis skírara; svo stefnir hann oss enn í dag af munni sinna þénara, þeir hafa hans krofu í hondunum, þad eru hans tíu laga bodord, vor medkénníng er skrifud í bók vorrar samvitsku; hver sem þetta tvennt samanber, hann mun finna, ad hann ecki einasta er 10 þúsund punda skyldugur, heldur og svo mikid á móti hverju bodordi af þeim tíu, er vér áttum upp ad fylla. En þótt menn heyri þetta nú svo opt, þá eru þó ecki allir svo ljúfir á, ad kannast vid skuldina, og enn sídur ad gjalda, því þad er ei til, er gjalda skal, hjá sjálfum oss; vid svoddan skuldaþrjóta brúkar hinn réttláti Konúngur svo sem nockurskonar hardrædi, og skipar ad selja þá, þeirra konur og born, og allt hvad þeir eiga; svo seldi Gud sitt fólk Israel, nær þeir voru honum þverbrotnir; þar um spáir Móses, segjandi, Devt. 32: hverninn eltir einn madur þúsund Israels menn, og tveir reka 10 þúsund á flótta? mun þad ei þess vegna, ad þeirra Gud hefir selt þá? þar um kvartar David, segjandi, Ps. 44: þú hefir selt þitt fólk fyrir eckert, og ei ábatast af þeirra verdi; svo selur hann þá enn í dag, sem ei vilja skipast vid hans þénara amínníngar, þegar hann leggur á þá krossinn, tekur af þeim heilsuna, þeirra kvinnum og bornum, sem hánga af þeirra sálu, eins og Benjamíns af Jakobs, sviptir þá tímanligri blessan, edur géfur þá í vald óvina sinna, ad ei skuli þeir verda ofurseldir í fráleitt sinni, eins og Pharaó, Achab og Jeróbóam, sem var seldur til ad gjora íllt, hverja hann hafdi þó ádur fyrir sig kallad, og er þad stór Drottins nád, ad hann breytir þannig vid syndarann, ádur enn hann hefir uppfyllt mælir syndanna. Þegar nú svo ber vid, þá trúi eg flestum komi til hugar ad tísta eins og tranan og kurra eins og dúfan, og ad bidja med þessum auma þjón: haf þolinmædi vid mig, allt skal eg þér gjalda; Gud gjæfi, ad sá þanki

væri stødugri hjá oss, enn hann var hjá honum! En hvad skulum vér þá gjálda? hvad á snaudur fyrir ad gefa? þótt vér lifdum engla lifnadi úr því vér snerumst til Guds, þá ættum vér ad játa: ónýtir þjónar erum vér, aukheldur ad vér fáum hina minnstu synd afplánad af oss til. Þetta er huggunin alleina, ad Herrann sá aumur á þeim þjón, og gaf honum upp alla skuldina; í uppgjøfinni er øll líkníngin, í miskunseminni øll fullnægjan, í Christi forlíkun øll fridþægíngin; en er hún þá aldeilis gefins? ad sønnu ad voru leiti, en dýrt hefir hún kostad vorn Borgunarmann, því hann gaf sitt líf út fyrir sína saudi, Jóh. 10. Minn herra, Jesú! eg hugsa til þess, er Drottinn segir fyrir munn Esaíæ, 13 kap., um þær hørmúngar, er Kaldeí mundu líða af þeim Medis og Persis: eg skal þad gjøra, ad einn daudligur skal verda dýrmætari enn hid bezta gull, teiknandi þar med, hvílíkur ad verda mundi grimmleiki óvinanna, ad líf mannsins mundi ei falt verda fyrir nockurt verd; en hvad var aumt mannkyn þess, minn Drottinn! ad þad mætti ei endurleysa, nema med þínu blódi? ó, Gud! svo mikil var brædi Fødursins, svo mikid hans réttlæti, svo mikil stærd syndarinnar, ad hin minnsta yfirsjón vard ei leyst med allrar veraldarinnar aud, og svo dýrmæt var þessi skepna, sem í øndverdu var eptir Gudi skøpud, þarfyrir bar veraldarinnar Skapari veraldarinnar syndir, og má hér medal annara af stærd lausnargjaldsins marka þýngd skuldarinnar, sem upp er gefin. Þegar syndarinn nú svo framkémur fyrir nádarstólinn med ángrudu hjarta, í krapti Jesú forþénustu, þá er honum uppgjøfin vís, því hvar sem ad syndin yfirgnæfir, þar yfirgnæfir þó nádin miklu framar. En hvílík uppgjøf? hann gaf honum upp alla skuldina, segir textinn; svo fer nú Gud ad tilgéfa misgjørdina, þegar hann er fridstiltur, því brúkar ritníngin þessa ordsháttu, ad hann kasti vorum syndum í hafsins djúp, og vilji þeirra ecki ad eilífu minnast: ad hann gjeri oss þær svo fjærlægar, sem austrid er vestrinu. Hvad segir þú, Drottinn minn! er þú talar um, hverju lítid fórnirnar gyldi í þínu augliti, Esa. 40: fjallid Líbanus mundi ecki duga til ad brenna, og øll þess dýr mundu ei hrockva til brennifórna; en þú, vor Gud! sem allt þetta nægir ecki, þú lætur þér nægjast med ydrandi manns tár, þau slockva eld þinnar reidi, þau degja þad stálid af nordrinu, þau leggja bønd á hann, sem Djøfulinn bundid hefir; þú, fyrir hverjum ad þjódirnar eru ecki meir enn vatnsdropi í ausu, og svo sem dupt í metaskálum, þú ert ánægdur med einn harmþrúnginn og sundurknosadan anda; hvarfyrir? ecki fyrir vorrar ydrunar skuld, sem ad jafnvel er synd af vorri álfu, heldur fyrir Jesú blód, hvert ed tengist vid syndarans tár í metaskálinni á móts vid þitt réttlæti. Þegar Drottinn brixlar Jerúsalem um sína vanrækt og þeckíngarleysi, þá segir hann hjá Esaíam, 50 kap: hvar er sú skilnadarskrá, er eg gaf ydar módur? edur hver er sá af mínum kaupanautum, er eg hefi selt ydur? sjá, þér erud fyrir ydar ránglætíngar seldir, og søkum fráhvarfs ydar módur er hún ein látin; og þó segir hin eilífa Gjæska fyrir munn sama spámanns: talid þad, sem Jerúsalem er þéknanligt, og prédikid henni, ad hennar ákvardadur tími sé uppfylltur, hennar ránglæti sé betalad, hún hafi fengid tvøfaldt af hendi Drottins fyrir allar hennar syndir; þessi allra huggunarsamligustu ord eru svo sem inngángur til spádómsins um hinn fyrsta nýa testamentisins ydvanar prédikara, Jóhannem skírara. Ó, minn herra, Jesú! hver hefir þad gjaldid lokid?

hver? nema þú Gud, hver ed í voru holdi lídandi hefir oss tvøfaldan féssjód afrekad, sem er, fyrirgéfníngu syndanna og eylíft líf; þessi er audur þíns ríkis í øllu evangélió, hverjum þú, Konúngur dýrdarinnar af einskjærri nád útbítir þegnum þínum. Nær vér heyrum Mósen krefja oss skulda þeirra, er vér egum Gudi ad gjalda, þá møglar holdid, þad gengur hønum ecki betur hjá því, heldur enn hjá sínum egin í eydimørkunni, þad vill láta tala þad, sem því er þóknanligt; en hasta þú á þad, Drottinn! svo þad þegi, straffa þad, svo þad hræri sig ecki, ógna því, þvínga þad, svo því svídi, en tala sídan þad, sem Jerúsalem er þóknanligt, sem er, ad oss sé øll skuldin uppgéfin, og lát oss ecki safna þeim sídan; og er þad svo úttalad um hid fyrra, eptirfylgir hid sídara med fáum ordum ad hugleida.

Textinn segir: en þá hann géck út, hitti hann einn af sínum samlagsþjónum, er hønum átti ad gjalda 100 peninga, þann sama handtók hann, greip fyrir kverkar hønum og sagdi: gjald þad þú ert mér skyldugur. Ecki efast eg um, ad þessi vondi þjón hefir nærsta bljúgur, hræddur og skjálfandi verid, þegar hann stód frammí fyrir konúnginum, og heyrdi, ad þar átti ad selja hann sjálfan, kvinnu hans og børn, og allt hvad hann átti; en þessi audmýkt vardi ecki lengi, strax sem hann var út af dyrunum genginn, og hann sá sinn verkanaut í vidlíkum þrautum staddan, sem hann hafdi skømmu ádur verid, høndladi hann vid hann miskunarlaust. Gud nádi oss auma menn! þegar vér lesum vort syndaregistur, og samvitskan tekur ad lemja oss med minníngu illgjørdanna, þá tárumst vér fyrir Gudi, þeir sem nockud hirda um sálu sína; en Gud betri þad, ad vér munum svo lítid til hans miskunar, þegar vér egum náúnganum ad miskuna, og sumir ecki meira enn þessi vondi þjón, annars væru ecki þeir svo margir, sem þrisvar, fjórumsinnum á hverju ári, látast taka kvittun synda sinna í skriptarstólnum, en eru þó hardsvíradir, miskunarlausir, heiptræknir, og vilja ecki hid allra minnsta uppgéfa af sínum rétti; og þetta er nú svo almennt, bædi í skuldaheimtum og svo í uppgjøf misverkanna, ad þar um má tala þad, er Drottinn segir, Jer. 2: í løfum klæda þinna er fundid blód hinna voludu sálna, blód hinna saklausu, ecki þarf eg ad grafast eptir þessu, því þad er yfir allt, segir Drottinn. Þú segir: hann er ecki saklaus, hann hefir gjørt mér stórum til; eg segi: jú, hann er saklaus, þegar hann vill þad øfgjørt hafa, því Drottinn segir hjá Lúkam: ef þinn bródir syndgar á móti þér, þá átel hann, og ef hann ydrast, þá forlát hønum, viltu þá dirfast ad kalla hann sekan vid þig, sem Gud hefir skipad þér saklausan ad halda? Þú segir: hann hefir og í því Gudi móti brotid, ad hann vid mig afgjørdi; hvad kémur þad vid þig? sjá til ad þú gjørir þína skyldu, sem er ad fyrirgéfa hønum; hver ert þú sem annarligan þjón dæmir? hann stendur og fellur sínum herra; lát þér ei verda þad, sem Petri er lád, er hann sagdi: hvad skal þessi? géf þína søk eptir, lát Gud ráda, hvad hann gjørir af sinni; en þad er víst, ad hann tilgéfur hønum hana, nær hann ydrast, því er þad skømm fyrir þig, ad apturhalda þinni, og nær gaf hann þér umbod til ad krefja skuldar sinnar, nema þú sért yfirvald, og egir Guds rétt ad sækja? en þar um gjøra menn sér ecki svo annt á stundum, heldur láta sinn fyrirgánga, jafnvel þótt ad slikt ætti ad gánga þvert á móti því, sem þad almenniliga

tilgengur, því Drottinn hefir sagt: blessid þeim er ydur bølva, en ecki, þeim sem bølva mér og mun enginn øfunda þig af því, ad fara til helvítis med þá hefnd, er þú skalst frá Gudi. Þú segir: Gud gétur tekid sinn rétt nær hann vill, en eg ecki: eg vil taka medan eg gét; þú vitfirríngur! af því ad þú ert vesæll og vanmáttugur, viltu þá hafa stærri rétt enn hinn almáttugi? en þad er þér ecki ofgott ad taka þinn rétt þar, sem Gud sleppir sínum; þú sér hverninn þad géck hinum vonda þjón, ad herrann ofurseldi hann kvølurunum, þar til hann hafdi borgad þad hann var skyldugur; en Frelsarinn segir hér í textanum: svo mun og minn himneskur Fadir gjøra vid ydur, ef ad hver ydar sem einn, fyrirgéfur ecki út af hjarta sínum bródur hans misgjørdir; Drottinn segir: hans misgjørdir; hann tekur enga undan, allar vill hann tilgéfnar séu; sama segir hann bak vid drottinnliga bæn, Matth. 6, þar bidjum vér, ad Gud fyrirgéfi oss vorar skuldir, svo sem vér fyrirgéfum vorum skuldunautum; viljum vér þá, ad Gud forláti oss ad nockru leiti, og ecki ad øllu? ei mun þad rádligt, því hin minnsta synd vinnur til eylífrar fordæmíngar, nema hún sé uppgéfin og forlíkud, því sá, sem heldur allt løgmálid, og verdur brotligur í einu, hann er sekur vid øll, segir Jakob; nú forlætur Gud oss eins og vér náúnganum forlátum; þar fyrir, ef vér viljum ad hann tilgéfi oss allar vorar syndir, þá fyrirgéfum vorum bródur allar sínar. Hann gaf hønum upp alla skuldina, segir í textanum; svo egum vér ad breyta; allt egum vér ad uppgéfa, hverju nafni sem heitir, hversu ríkt sem þad liggur oss í skapi, hvern skada, óvirdíng edur vansa sem vér hlotid høfum, þad má ei gylda, þad skal allt uppgéfa fyrir Guds sakir, og mun þad engum þeim ofgoldid þykja, sem iduglіga hugleidir, hvad mikid hønum sjálfum sé af Gudi uppgéfid, og hvad vardar mig um óvirdíng þessa skynlausa heims, þegar eg ljóma eins og sól í ríki míns Fødur? Hér mun margur spyrja, hvert hann sé skyldugur ad uppgéfa lánad fé og skuldir, sem hann á ad ødrum? Þar til svara eg, ad ecki talar Drottinn um fjárheimtur í þessum stad, heldur brúkar hann þetta dæmi í eptirlíkíngunni til ad sýna oss skyldu vora í því, ad uppgéfa misgjørdirnar; en þó vil eg þar um segja, ad ef þinn skuldunautur er svo vesæll, ad hann ecki má missa þad, sem hann á þér ad gjalda, nema hann þarfyrir rati í armód og volædi, þá byrjar þér ad hafa þolinmædi vid hann, og jafnvel géfa hønum upp alla skuldina, ef hann má ei annars lifa, en þér er fullborgid, ellegar ertu sekur í hans dauda fyrir Gudi, því hann er þá þurfamadur, en Gud hefir fengid hønum sinn rétt til þess, sem þú hefir ofmikid. Aptur munu menn spyrja, hvert ei sé réttvíst fyrir Gudi, ad sækja rétt sinn fyrir kristiligu yfirvaldi á móti þeim, sem oss hafa tilgjørt? þar til liggur svar, ad þad leyfist ad vísu, ef madur nær ei rétti sínum á annann veg, ella væri ei løgin og yfirvaldid af Gudi tilskickad; verøldin gétur og ecki án þess verid søkum rángsleitnis óhlutvandra manna, þó skal þad med slíkri vareygd gjøra, ad ei raskist kristiligur kjærleiki, og ad sækjandinn ecki hatist vid þann, sem hann varhent á, né hverigur vid annann, ei heldur hlaupi til dómarans fyrir smámuni hverja, alleina fyrir metnadar sakir. En fyrir því, ad medalhófid er vandratad í þessu, þá er framvegis verdt ad vita, hverninn vér egum ad fyrirgéfa; og er þad fyrst ad athuga, ad þeir, ed oss móti gjøra, eru med tvennu móti; þar eru þeir, sem gjøra oss til, og ydrast þess ecki, þykir vænt um þad, hrósa sér þar af, edur bidja forláts til

ıd gabba oss, ad ei verdi þeir afhendtir dómaranum, en hafa þó hid sama í sinni, og treka þad, nær þeim rædur svo vid ad horfa; þessum egum vér þó ad fyrirgéfa med því nóti, ad vér ei ølum neina heipt til þeirra, jafnvel þótt vér neydumst til ad forsvara vort nafn og rikti, vora vini og vandamenn, vorar eigur og fjárhluti, sem annars mundi verda ıráðvøndum mønnum ad bráð, ad vér þó ekki gledjumst yfir óførum þeirra, heldur bidjum Gud ad snúa þeim; svo segir Salómon: þegar óvinur þinn fellur, þá gledst ecki, og nær hann hrapar, þá fagni ei hjarta þitt, ad þad ei sýnist illt í augum Drottins, og hann snúi frá hønum reidinni á þig, Ordskv. 24; ecki óskum þeim neinnar hefndar af mønnum, nema þeirrar, sem løg leyfa oss, og þó ecki óska þennar frekari enn tilgjørdin er, en þó mikklu sídur, ad beidast Guds hefndar yfir þeim, allra síst eylífs straffs, þad er ein ó- gudlig ósk, sá ed þess bidur, hann bidur um slíka hefnd, sem Gud alleina hefir rétt til, og er afgudadírkari, hvad þó margt fólk gjørir í ofstæki brædi sinnar, heldur egum vér og þessum ad fyrirgéfa, en géfa Gudi hefndina, og jafnvel þótt vér gaungum ad því vísu, ad þeir muni leita á oss aptur; svo gjørir Gud: hann lét Pharaó standa þegar hann beiddist ríðar, þótt hann vissi ad ei mundi hann sleppa Israel; hann fyrirgaf Achab þá hann lægdist í seck, 1 Reg. 21, vissi hann þó, ad sú ydran mundi ei lengi vara, en Frelsarinn hefir skipad oss: verid miskunsamir, líka svo sem ydar fadir er miskunsamur, og ecki talar Drottinn um þad vid Petur, er hann skipadi hønum ad tilgéfa sínum brødur sjøtíu sinnum sjøsinnum, Matth. 18, hvørt ad hinn seki ydradist sinnar mótgjørdar edur ei. Adrir eru þeir, sem út af hjarta ydrast mótgjørdanna, vilja þad gjarna bæta, er þeir brotid hafa, og sýna þad í verkunum, er þeir játa med munninum, þá egum vér aptur í fulla sátt ad taka, svo sem ecki hefdi á milli borid; svo gjørir Drottinn fyrir munn Zachariæ; eg skal miskunna þeim, og þeir skulu vera svo sem aldrei hefdi eg þeim í burtu kastad; og þér meina eg ad eigi heima sá skilmáli, er stendur, Lúkæ 17, og jafnvel þó svoddann opt- liga til beri, því svo gjørir Gud vid oss; enginn af oss mun neita því, ad vér dagliga syndgumst og vinnum ei nema til hegníngar, og þó er hans náð ferst og ný yfir oss á hverjum morgni, og aldrei hefir hann nockurn ydrandi frá sér rekid, hversu opt sem hann syndgast hefir. Ef vér nú viljum þessarar miskunar njóta, þá audsýnum hana og vorum brædrum, annars høfum vér enga hlutdeild í henni, og þær syndir, sem oss vóru ádur tilgéfnar, þær munu oss ad nýu tilreiknadar verda, eins og þessum vonda þjón, því misk- unarlaus dómur mun yfir þann gánga, sem ecki miskun sýnir, segir Jakob, 2 kap., og er þad einn stór dáraskapur, ad láta heiptina svo fyrir sig ráda, ad Guds blód og hans náð snúist þeim til fordæmíngar, er þannig breytir, og ad menn gángi úr skugga um þad ad vér skyldugir séum ad tilgéfa vorum bródur, hversu opt sem hann syndgar, þá býdur hann, Lúkæ 17, ad hønum skuli sjøsinnum á degi fyrirgéfast, ef hann sjøsinnum ydrast, líkligt er, ad enginn muni optar brjóta á degi og þó svo opt ydrast, en hvernig sem því er varid, þá merkir þetta: svo opt sem hann brýtur, eptir ordshætti ritníngarinnar: hinn réttláti fellur sjøsinnum á degi, segir Salómon, Ordskv. 24; sjøsinnum á degi lofa eg þig, segir David, Ps. 119. Ef þér heyrid mér ecki, þá skal eg straffa ydur sjøfallt, segir Drottinn, 3 Mos. 26, þad er æfinliga, svo lengi þér ecki heyrid; þad verdur og ad vera, því sá sem

vill vænta fyrirgéfníngar synda sinna allt fram undir daudann, hann skal og hvern dag fyrirgéfa allt í daudann, nær hönum géfst þar orsök til, og þad af hjarta, segir Drottinn hér í gudspjallinu, án yfirdrepskapar, án mögluuar, brixlis og eptirtalna; svo gjörir Gud, hann géfur öllum einlægliga, og telur ei eptir, segir Jakob, 1 kap; þad er ei nóg, ad menn umgángist í meinleysi, en geyma þó einn mordíngja í hjartanu, og kyssa á þá höndína, er menn gjarna vildu ad af væri, svoddan fyrirgéfníng er hræsni fyrir Gudi. Herrann sá aumur á þeim þjón, segir textinn, hann komst vid í hjartanu, ad sjá eymd hans, er í þrældóm gánga átti, med konu og börnum, fyrdtur öllu sínu; svo stendur optliga um vórn Frelsara, nær hann sá eitthvad aumt, ad hans idur hafi hrærst af medaumkun, svo vill hann ad vér lyndir séum móti þeim, sem oss tilgjöra, og ydrast þess. Þad er vel tilfundid í voru máli, ad sjá aumur á einum, sá þad gjörir, hann kénnir í brjósti um þann sem hann miskunar, hann tekur sér nockud, hann ber nockud af hans eymd, og verdur sjálfur aumur med sjálfum sér, og þad kannské ecki síst þess vegna, ad hann veit, ad hann hefir slíkt forþénad og er slíku voladi undirorpinn, ef Gud vill. Hann sem tilgéfur af hjarta, hann álítur hvad mikid hann sé Gudi skyldugur, og hvad brádliga hann kynni þvílíkt ad henda; íklædist hjartgróinni miskunsemi, segir Palus, ecki þeirri sem er á vörunum og segir: etid og dreckid, klædist og vermid ydur, en géfur eckert hinum þurfanda; ei heldur hinni, er segir: eg vil tilgéfa hönum, en gleimir því þó aldrei, er hönum var tilgjört; heldur þeirri sem hefir djúpar rætur í þelalausu hjarta, elskar óvini sína, blessar þá ed bölva, bidur fyrir þeim sem ofsækja, og gjörir gott þeim ed misgjöra; og er eckert skaplyndi farsælla enn þetta, eckert rósamligra, og eckert sem betur hag sínum uni, því svo sem ad hinn heiptrækni hefir enga ró, hans matur og dryckur er hönum súr og beiskur, þegar fólskan leggur út í hvörn hans lim og lid, og hönum flýgur mótgjördin í hug, svo má og um hinn segja, er fóttredur óréttin, þad sem David sýngur, Ps. 119: mikin frid hafa þeir, sem elska þitt lögmál og þeim mætir eckert hneixli, því á medal þeirra helstu bodorda í lögmálinu er, ad tilgéfa misgjördirnar, og þeir hneixlast ecki af óréttinum, sem forsmá óréttinn; þarfyrir verid brádliga samþyckir ydar mótstödumönnum, kristnir menn! á medan þér erud ennþá á vegi med þeim, svo ecki ofurselji mótstödumadurinn ydur dómaranum, dómarinn afhendi ydur kvalaranum, og þér verdid svo í díblissu kastadir. Hvar frá hinn nádugi Gud vardveiti öll sín börn, í Jesú nafni, og géfi öllum oss svo ad umgángast hver vid annann hér í nádinni, ad vér í eylífum kjærleika megum samfagna hver ödrum í dýrdinni. Þad bænheyri hinn nádugi Gud, fyrir Sonarins forþénustu, amen!

## A Allra Heilagra Messu.

Gudspjallid, Matth. 5 Kap.

Og er Jesús leit folkid, géck hann uppá fjallid, og þá hann setti sig nidur, gengu hans lærisveinar til hans, og hann lauk upp sínum munni, kéndi þeim og sagdi: sælir eru þeir sem andliga

eru voladir, þvíad þeirra er himnaríkid. Sælir eru þeir sem harma, þvíad þeir munu huggadir verda. Sælir eru hogværir, þvíad þeir munu jardríkid erfa. Sælir eru þeir sem húngra og þyrsta eptir réttlætinu, þvíad þeir skulu saddir verda. Sælir eru miskunsamir, þvíad þeir munu miskun hljota. Sælir eru hreinhjartadir, þvíad þeir munu Gud sjá. Sælir eru þeir sem fridinn semja, þvíad þeir munu Guds børn kalladir verda. Sælir eru þeir sem fyrir réttlætisins sakir ofsoktir verda, þvíad þeirra er himnaríki. Sælir erud þér nær sem menniruir hallmæla ydur og ofsokn veita og tala í gégn ydur alla vondsku, fyrir mínar sakir, þo ljúgaadi. Fagnid þér og verid gladir, þvíad ydvart verdkaup er mikid á himnum; þvíad svo ofsoktu þeir spámennina, þá sem fyrir ydur voru.

## Exordium.

Svo er margt sinnid sem madurinn er, segir í gomlum málsbætti; fáir eru þeir hlutir, sem allir góda kalli, en í því kémur ollum saman, ad þad sé gott ad vera sæll, og vanta ecki uppá þad þeir girnast, þó meta ecki allir sæluna med einu auga; þad sem Páluس hélt þreck ad vera, þad kalla adrir fullsælu. Þad er skrifad um Anaxagóram speking, ad sælkeri nockur hafi spurt hann ad einhverju sinni, hver ad farsæll væri? og hafi hann svarad: enginn af þeim, sem þú meinar, heldur sá, ed þú kallar vesælan ad vera, hann er sæll. Og hid sama er ad segja um born veraldar þessarar, þad sem þau sælu kalla, þad er reyndar volædi, ef rétt er álitid. Þessi hátídis dagur er af lærifedrum kristiligrar kyrkju í fyrndinni helgadur ollum heilogum. Þad er ollum þeim, sem hafa yfirunnid fyrir Lambsins blód, en þó sérílagi þeim, sem í gégnum margar hormúngar, útlegd, orbyrgd, húdstrokur, forsmán, húngur, klædleysi, lífslát, og allt þad illt, er þeir lidu fyrir Christi nafns skuld, þeim sem í gégnum oll þessi ósköp, segi eg, hafa brotist inn í síns Herra dýrd, og þá nefnir hann nú sæla í gudspjallinu, sem er brunnur allrar sælu, og fyrir utann hvern engin sæla má nefnast, því hann er Gud alleina sæll, og þeir sem í honum eru alleina sælir, og enginn sæll fyrir utan þá. Drottinn hafdi nærri því í hál t ár prédikad evangélium ríkisins, í hverju þeim verdur sælan heitin, er því trúa; hann hafdi ádur sagt, ad hver sem trydi á Soninn, hann skyldi ei fyrirfarast, heldur hafa eylíft líf, Jóh. 3; ad sá sem drycki af því vatni, er hann mundi géfa honum, skyldi ecki þyrsta ad eylífu, Jóh. 4; og fleira þess háttar hafdi hann talad um Guds ríkis sælu. En svo sem ad kvinnan, er taladi vid hann hjá Jakobs brunni í Samaría, hún skildi ecki hvad hann meinti, þar hún sagdi: Herra! géf mér þetta vatn, ad ei þyrsti mig, og ei þurfi eg ad koma hingad til ad ausa vatn; svo hafa og flestir af hans tilheyrendum verid ófródir um þessa Guds gjof, sérdeilis þar ed logmálsins fyrirheit, vid hver þeir vóru uppaldir, þau vóru annadhvert líkamlig, edur vafin í hylmíngu líkamligra hluta. Fjoldi manns tók vel þessum bodskap í fyrstunni, en þegar til lengdar lék vid, og þessi fyrirheit ecki komu svo brádliga fram, þá hefir fólkid gengid í tvær sveitir, svo sem ráda má af Jóh. gudspjallabókar sjotta og sjounda kapítulum; og jafnvel hafa runnid tvær grímur á sjálfa lærisveinana, þótt ad bædi þeir og adrir sæu kraptaverkin, er hann gjordi á þeim sjúku í Galílea, Matth. 4; en til þess, ad undirvísa bædi þeim og odrum í sinni ríkisstjórn, þá tekur hann þá hér afsídis frá odrum uppá fjallid og talar fyrir þeim eyrendi ríkisins, í hinni merkiligu prédikun, er ritud stendur í Matth. 5, 6 og 7 kapítulum, hverrar inngángur ad er þetta heilaga gudspjall, af hverju vér í þetta sinn hugleida viljum hina fyrstu sælu, og tvennt þar af oss fyrir hendur taka: 1) hversu ad fátæktin sé gagnlig; 2) hverju þeim heitid sé, sem eru andliga voladir. En þú sem ert alleina ríkur, styrk þú oss fátæka og auma til þessa verks, svo vér verdum í Gudi ríkir, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Sælir eru andliga voladir, segir Drottinn; eg veit ad menn greinast á þar um, hvad þetta ord voladur merki í þessum stad; bædi Augústínus og Chrýsostómus halda, ad þad séu þeir ed afneita øllum sínum verdugleik og kalla sig alls góds óverduga, en einkis ills; og kann eg því ecki ad neita, ad sú meining sé og fólgin í þessu ordi, því svo ega allir kristnir lyndir ad vera, hvert heldur ríkir eda fátækir eru, samt hygg eg þó, ad Lausnarinn meini hér sérílagi þá, sem eru snaudir af veraldar munum edur vyrdíngum, þvíad svo mun þeim flestum hafa háttad verid, er hønum í þad sinn eptirfylgdu; þad má sjá af því er kennimennirnir og Pharísei søgdu fordum, Jóh. 7: trúir nockur af høfdíngjunum á hann, edur af Pharíseis? en þessi almúgi, sem ecki kann løgmálid, er bølvadur; og þar ad auki skrifar Lúkas alleina í sínu evangelió: sælir eru fátækir, og er hann víkur rædu Drottins til hinna, sem vesælir eru ad Guds dómi, þá segir hann, Lúk. 6: vei ydur audugum, því þér hafid ydar huggun medtekid; þá kalla eg þad víst, ad Drottinn meini í þessum stad þá, sem ei hafa miklu veraldar láni ad fagna, ecki alleina þá, sem ørbyrgir eru, heldur og þá, sem á einhvern hátt eiga vid bágan kost ad búa, því ad þvílíkra er Guds ríki, segir Lausnarinn, þad eru þeir, sem eru eins illa staddir og øregar, og þó ecki þá alla heldur, því margur er fátækur, og stickar sér illa í sínni fátækt, er óþolinmódur, hleypur med þjófnum til ad stela, vinnur alla óhæfu fyrir sultardóm, til ad rydja af sér fátæktinni, sem í sjálfri sér er einn heilagur hlutur, því Guds sonur hefir hana helgad med sínu dæmi, þegar hann gjørdist fátækur vegna vor, þar hann var þó ríkur, svo vér af hans fátækt ríkir yrdum, segir postulinn, 2 Cor. 8; þarfyrir utan er hún strast syndarinnar og á einga hlutdeild í þessu fyrirheiti. Svo eru margir af þessum húsgángsherrum, er gánga á medal vor og leita sér ølmusu í Guds nafni, en gjalda bølvun fyrir blessun, nær þeir ecki hafa úr hvers mans hendi þad þeir vilja; fráskilid er þetta illþýdi slíkri nád, Gud miskunar sínum fátækum, segir Esaías 49 kap., en ecki Andskotans, þeir verda ad hafa slíka miskun, er hann vill veita, sem þeir ljást til þjónustu, ad velta af sér Christí oki á móti hans løgmáli, er skipad hefir, ad sá skuli ecki eta, sem ei vill erfida, 2 Thess. 3. En Matthæus segir oss hér í gudspjallinn, hverjir þeir séu er þessi sæla tilheyri, þar hann leggur til þetta ord, andliga, segir hann, þad eru þeir, sem ecki ørvænta í volædinu, ecki eru óþolinmódir, heldur til frids í hørmúngunum, í ofsóknunum, í ángistinni, í naudunum, eins og Páluss, þeir ed ecki grípa til óleyfiligra medala og ecki øfunda þá, er hafa velgengni heims þessa, heldur audmýkja sig undir voldugra Guds hønd í mótgánginum og segja jafnan, verdi þinn vilji; þessir hrósa sér í sínni fátækt, svo sem Jakob ad ordi kémst; og þad eru þeir ed Davíd kallar Guds volada, Ps. 72; þetta er sú fátækt, er eg meina ad ecki alltíd gagni til himnaríkis. Margt ber til þess, kristnir menn! ef vér þad viljum rétt athuga: þad er oss vitanligt, ad vér dugum ecki til þess, ad gjøra tvennt í einu; munum vér þá undir eins fá þjónad Gudi og mammóna; og er þá hætt vid því, ad ef annadhvern skal yfirgéfa, ad þeim sem skúrgod þetta fagurt þykir, þeir muni segja laust vid Gud, hvern þeir sjá ecki, en þýdast mammóna,

hver ed glansar í augunum, svo ad margan hendir þvílíkt og Syndínga fordum, vid hverja Drottinn segir, Esa. 22: þér gjørid farveg á milli tveggja múranna fyrir vatni hins gamla fiskidíkisins, en þér lítid ecki á þann, sem þad skapad og myndad hefir; en sá, sem eckert á í heiminum, hann hefir miklu betri orsøk og tækifæri til þess, ad verda ríkur í Gudi, og fyrst hann þenkir ecki á jardneskan aud, þá skal hann aldrei draga hann frá þeim himneska. Sá sem miklum audi safnad hefir, hann liggur á sínum dreggjum, eins og Móab, Jer. 48, hann hefir sína umgengni á jørdunni; þar sem hans féssjódur er, þar er hans hjarta; en øreginn þarf ecki ad geyma vandliga þad, sem eckert er, hans umgengni er á himnum, hvadan hann væntir Frelsarans Drottins Jesú Christí, ef hann er annars andliga voladur, hann keppist vid ad safna sér féssjód á himnum. Þar eru og kannské fáir, sem hafa réttfenginn aud í heiminum, því heitir hann og ránglætis-Mammóna; en á þessari audlegd, sem í himninum er, eiga allir kost ad saklausu, gaungumadurinn svo vel sem konúngurinn; blindum, høltum og lømudum er þar til bodid, þeir kaupa fyrir alls eckert, sem hann eignast; og hversu ad þeir séu hæfari til ad ná þessari audlegd, sem ei hafa mikid eptir ad draga, þad kénnir oss Frelsarinn, er hann segir, ad hægra sé úlfaldanum ad gánga í gégnum nálaraugad, enn ríkum manni inn í himnaríki. Eg vil ei þar um tala, ad ríkdómurinn ablast med erfidi, geymist med áhyggju, og missist med sorg, ef missast skal, en sú sorg er sjaldan án syndar, mørgum hefir hún steypt í ørvænting, og bregid til ad bæta rád sitt aptur med ránginduunm, og ad vísu eru flestir óþolinmódir yfir skadanum; fáir eru eins lyndir og Job, er hann sagdi: Gud gaf og Gud aftók, sé nafn Drottins blessad, Job 1; en sá grét aldrei fyrir gull, sem ecki átti þad; hann sem er sannur Guds vesælíngur, hann sem er andliga voladur, þótt hann missi þann fátækdóm, er hann brúkar til dags og nætur, þá hefir hann eckert af sinni audlegd mist, því hún er í himninum, hún skémmist ecki, segir Petur, hana skal enginn frá honum taka, og þótt hann skyldi í húngri og klædleysi út af deyja, þá flýtir þad hønum alleina til ríkis. Þad er skrifad um Alexander hinn Stóra, þann fræga konúng, ad þegar lid hans var allt ofþúngbúid ordid af herfánginu, svo hønum þótti lítid framgengt verda, þá brendi hann upp faung þeirra, og huggadi þá med því, ad þeir mundi safna ógrynni fjár, ef þeir léttu þessu af sér, en sæktu med flýti til þeirra landa, sem væru audug af gulli og silfri; megi eg nú saman taka þad, sem sundurleitast er, þá sýnist mér, ad hinn alvísi Konúngur gjøri vidlíkt med fátæktinni vid sína volada, því nær þeir hafa ørvænt sér veraldligs auds, þá keppast þeir eptir þeim himneska; þegar þeir ætlast til einkis lids af mønnum, því fáir eru vinir hins snauda, Ordskv. 19, þá leita þeir lids hjá Drottni, og nær hann hefir, svo sem í speigli, látid þá sjá dýrd síns ríkis midt í ørbyrgdinni, þá gjøra þeir skøll ad øllu oflæti heimsins; og er því ávøxtur fátæktarinnar þessi, ad hún girnist ei meir, enn hún hefir, og er hún þá ríkari heldur enn Salómon edur Assverus, já, hún girnist eckert, nema sinn Gud, og hann stendur hinum fátæka alltíd til boda; en sá er ágjarn, sem vill eiga meira, enn himins og jardar skapara. Allir vitum vér þad, ad vér bárum eckert inn í heiminn, og eins vel, ad eckert munum vér í burtu bera, jafnvel þótt sýnast megi, ad

nockrir þad ecki satt haldi, annars mundu menn leggja meiri hug á, ad lifa vel, enn verda ríkir, og veldur þad því, ad hjartad er svo djúpt nidursockid í maurana, ad sumir gjæta þar ecki ad, fyrr enn daudinn grefur þá upp til ad leggjast í eina adra grøf; þeir gleyma því, ad naktir komu þeir af lífi módur sinnar, og svo munu þeir þángad aptur fara, Job 1, þad er ofan í jørdina, sem er allra módir. Þar er enginn kéndur, sem hann kémur ecki, fyrir þeim volada; hann á ecki vid mikinn heim ad skiljast, því skal þad ecki draga hann frá himnaríki, og sú audlegd, er hann átti í Gudi í þessum heimi, og ecki var nema pantur eptirkomandi farsældar, hún fullkomnast, nær hann inngengur í dýrd síns herra, og rætist á hønum þad, er Syrach skrifar: ó, daudi! hversu gódur er þinn dómur hinum fátæka? Vér vitum, hversu ad hinn ljótu skrýmsli, er syndin og Djøfullinn hafa fært inn í verøldina, ágyrni, øfund, ofríki, drambsemi, óhóf og ránglæti, hversu, segi eg, ad þad sé gagnstædt himnaríki, en allt þetta vill hánga vid ríkdóminn; sá skal vel gjæta sín, er ecki hefir neinn snert af þessu, ef hann ríkur er; þarfyrir segir Páłus, ad þeir, sem vilja ríkir verda, þeir falli í Djøfulsins snørur; en fátæktinni er enganveginn svo hætt vid slíku, og ad vísu ecki þeim, sem er andliga voladur, því er hann nærr himnaríki, enn hinn, nema sá ríki ástundi ad vera í Gudi ríkur, og í gódum verkum; og ad vísu hefir Kristur lagt grundvøll sinnar kyrkju í fyrstunni af hinum fátæku. Þad kénna oss þessi Frelsarans ord, er í gudspjallinu standa; og med sama hætti hefir þessi bygging risid eptir hans himnaför, þad auglýsir Páłus, er hann skrifar til Korinthíos, 1 kap: sjáid ydar køllun, brædur! ad þér erud ecki margir voldugir, ecki margir gøfugir; þad kénnir oss Jakob postuli, hver ed var á lífi þrjátíu árum eptir þad Drottinn var inngenginn í sína dýrd, segjandi, 2 kap: hefir ecki Drottinn útvalid hina fátæku í heimi þessum, ríka í trúnni, og erfíngja þess ríkis, er hann ætlad hefir þeim, sem hann elska; þessa alvísa byggíngarlags hefir margur audugur sídan notid, því er þad synd fyrir oss, ad forsmá Guds volada; en fáir voru þeir af ríkismønnum, er gengu Drottni til handa medan hann umgékkst í holdinu; eg ætla, þegar menn taka Zachariam og hans hús, Nikódemum, Jósepb af Arímathía, Jóhannem, húsfrú Chúsæ, þegar menn taka þessa burt, þá muni hinir teljandi, sem skipudust vid hans kénníngar af høfdíngjunum, utan þeir, sem neydin dró til, svo sem voru Jaírus, kóngsmadurinn, og hundradshøfdínginn, og eru þeir þá í selskap med fátækum, svo sem ádur er sagt. Hér af álykta eg nú svo, ad eins og einn vís forsmidur, hann velur hid bezta efni til þeirrar byggíngar, er hann ætlar sér vel ad vanda, svo hefir og Frelsarinn breytt í þessari sinni kyrkjugjørd, hann hefir valid þad í undirbyggínguna, er hann sá ad hentugast var, þad voru hans fátækir; svo var hann sjálfur, sem var hyrníngarsteinninn í þessu mikla forvirki; svo voru hin sterkustu máttartré þar í, sem eru hans postular, uppá hverja vér bygdir erum; svo voru þeirra eptirkomendur fram eptir øldunum, þar til Djøfullinn spillti þessu Guds verki med ágirndinni, øfundinni og drambseminni, svo sem ljóst er af kristinndómssøgunum; og sjá menn af þessu medal annara, hversu ad fátæktin og Guds ríki eiga vel saman. En þó ad ríki Drottins Jesú hefdi sín upptøk hér á jørdunni, sem var af umkomulitlum fiskurum, ólærdum og einkis megnandi, þótt þad eblst hafi fyrir utan

allt ofbeldi, hárevsti og vopnaburd, því enginn heyrdi hans raust á strætunum, og hans ríki var ecki af þessum heimi, ei heldur vopn hans herfarar líkhamlig, hvers strídsmenn ad hofdu túnguna fyrir verju, þolinmædina fyrir atvinnu, trúna fyrir skjold, kjærleikann fyrir vígi, fátæktina, já, sjálfviljuga fátækt á stundum, í stadinn gulls og silfurs, er heimurinn kallar abl þeirra hluta, sem hann vill láta framgáng hafa, samt hefir þó enginn af veraldar hofdíngjum svo vídt útþanid sitt veldi um heiminn, svo sem hann, því Gud hefir gefid honum endimork veraldarinnar til arfleyfdar, svo þad er ad fullu og ollu rætt, sem Esaías fyrir spáir, 2 kap: þad skal ské á sídurstu dogum, ad nær þad fjallid Guds húss er sett uppá adra fjallatinda, og upphafid yfir hálsana, ad allar þjódir skulu þángad samansafnast; hvert er þad fjallid? þad er Christí ríki; hvert er þad húsid? þad er hans kyrkja; hver eru þau fjollin? þad eru ríki veraldarinnar um heiminn. Já, enginn hefir svo skjótan, svo frægan sigur unnid, sem vor Konúngur, og þó med fáum og fátækum monnum; hann lagdi undir sig meira ríki med tólf postulum á stuttum tíma, enn Alexander hinn Stóri á tólf árum med ollum Gricklands her. Einn madur, St. Páll, hrósar því, ad hann hafi allt í frá Jerúsalem inn til Illyríkum uppfyllt allt med evangelíum; svo þad er sannkvedid, er Esaías skrifar: mun jordin fæda á einum degi? mun ein þjód getin verda í einu, þar Zíon gengur undir eins þúngud med born sín, og fædir þau? Esa. 66. Svo hefir nú hinum stóra allsherjar Konúngi þóknast ad byggja sitt ríki med fátæktinni; því skyldu þá ecki þegnar hans kalla hana ollum ríkdómi ríkari, þar hann er alleina ríkur, sem þad hefir útvalid, sem audvirdiligt er fyrir heiminum? En Gud nádi oss auma! þad er hinn allra mesti skadi vor, ad þótt vér berum oss ad þjóna Gudi, þá haungum vér svo fast vid audinn og aurasafnid, ad menn gleyma Guds bodordum, og stíga fram yfir þau takmork, er hann hefir sett oss, svo erum vér frekir til fjárins; en hvad er þad, kristnir menn? þad er ad færa fórnir í Jerúsalems musteri, en offra þó samt á hædunum, þad er ad sverja vid nafn Drottins, og þó undir eins vid Malkom, eins og Júda; heyrum því ord Drottins af munni Jeremíæ: ef þú ætlar ad snúa þér aptur til mín, Israel! þá snú þér, og reika ecki híngad og þángad. Einganveginn er þad hér med sagt, ad menn skuli kasta frá sér allri umhyggju fyrir líkhamanum; alla hluti hefir Gud manninum undir fætur lagt, til þess hefir hann gjort náttúruna svo ríka, ad manneskjan skyldi audgast þar af; eckert hefir hann forgefins skapad, heldur mannkyninu til nota, en sér til lofs og dýrdar; en hitt segi eg, ad menn láti Gud vera herrann, en Mammóna þrælinn, já, ad vér séum audsins herrar, en látum ecki hann drottna yfir oss, en þó allra síst, ad vér látum þenna þétta leir svo klessast vid hjarta vort, ad vér gleymum Gudi edur hans voludum; og er þad nú svo úttalad um hid fyrra.

Nú eptirfylgir ad tala um þad, sem hinum andliga voludu heitid er; í textanum stendur: þvíad þvílíkra er himnaríki. Nú er Guds ríki med tvennu móti: eitt er hans nádarríki, hvert og kallast himnaríki, Matth. 18, þar ed stendur: himnaríki er líkt einum konúngi, sem reiknast vildi vid þjóna sína; annad er hans dýrdarríki; sá, sem vill ná til þess sídara, hann skal endiliga hafa hlutdeild í hinu fyrra, og enginn hefir sá komist

í hans dýrdarríki, sem ecki hafi ádur verid í hans nádarríki, sumir lengur, sumir skémur; þar eru nockrir kalladir snemma morguns, adrir ecki fyrr enn um hina elleftu stund, en þad er víst, ad hverutveggju þessu lofar Drottinn þeim, sem ad eru andliga voladir, og þeirra líkum. Hver eru þá gjædin í Drottins nádarríki? ecki metord, ecki audæfi, ecki sællífi í mat og dryck, ecki hefnd yfir óvinum sínum, né þad hjartalag, er festi sig vid nockud af þessu, þótt þad megi þeim géfast, sem eru Christí þegnar, því Guds ríki er ecki matur og dryckur, heldur réttlæti, fridur og fögnudur í heilögum Anda, segir Páls, Róm. 14, og út af þessum hans ordum vil eg í stuttu máli segja, hver ad séu audæfi Guds nádarríkis. Þad er réttlætid; ecki vort egid, sem ecki er betra enn niblagsfat, þegar þad er sem kostuligast, heldur Jesú Christí, hver oss er til réttlætis af Gudi géfinn; skyldi eg nú vilja taka nockurn veraldar aud fyrir þad? Drottinn minn! fyrir þad eru mér syndir mínar tilgéfnar, en þegar þær eru kvittar, þá er eg ríkari í öllu mínu volædi, enn Salómon í allri sinni dýrd; í því má eg birtast fyrir augliti þíns Födur, en ecki í pelli og purpura hins ríka sælgjætings, Lúk. 19; fyrir þad mun eg Guds barn kalladur verda, en ecki þó eg nefndur væri dóttursonur Pharaónis; hvad gagnar þad manninum, þótt hann eignist allan heim þenna, en lídi töpun á sálu sinni, hverri eg veit, ad borgid er, medan eg á þann fésjód, sem hún er endurkeypt med? Þótt ad sveinninn Cónía væri signetshringur á minni hægri hendi, þá skylda eg slíta hann þadan, segir Drottinn um Jecóníam, son Jóachíms, Gydínga kónúngs, Jerem. 22; en eg er þess fullöruggur, Drottinn! ad þú ecki slítur þína volada úr þíns Sonar höndum, hvar þeir skrifadir eru, því eru þeir öllu betur til þíns ríkis bornir, heldur enn veraldarinnar börn, hversu sem þau megtug eru; þegar þeir hafa hans réttlæti fyrir sig ad bera, því hann hefir géfid þeim magt til ad vera Guds börn, sem á hans nafn trúa, Jóhannes 1. Af þessari rót Jesse sprettur fridurinn, sem Páls umgétur, því hann er fridarhöfdíngi, Esa. 9, og er þad nú sá annar ríkdómur í Guds nádarríki. Í ríkjum veraldarinnar er enginn fridur; þegar menn taka Salómon og Augustum keysara í burtu, þá skulu menn ecki finna mörg dæmi til, ad veraldar höfdíngjum hafi tekist lengi fridi ad halda, jafnvel þótt gódir og réttvísir verid hafi, og kynni þad ské ad vera, til ad teikna þar med Christí ríki, í hverju ad á fridnum mun enginn endir verda, Esa. 9, því sá eini þeirra var hans fyrirmyndan, en á dögum hins var Lausnarinn í heiminn fæddur; en í Christí ríki gengur þad ödruvísi til, þar er ecki sá fridur, sem veröldin géfur, heldur hans fridur, sem hann oss géfid, sem hann oss eptirlátid hefir, hvern enginn skal af oss taka. Hinir ógudligu hafa engan frid, segir Drottinn hjá Esaíam, 48 kap; þeir tönnlast og tyggjast um þetta volædi, er þeir ríkdóm kalla, eins og gaddhestar um íllt fódur; en fridurinn í Christí nádarríki er stadfastur; þótt hans undirsátar hafi þjáníng í heiminum, þá hafa þeir frid í hönum, og eru fullöruggir, því hann hefir heiminn sigrad; þad er fridur vid samvitskuna, því syndin er afmád med Guds Sonar réttlæti; fridur vid Gud, sem er fridstilltur fyrir hans blód; fridur innbyrdis, og eindrægni í andanum medal allra Guds barna, og í einu ordi ad segja: þad er sá fridur Guds, sem ædri er öllum skilníngi, af hverjum og kémur fögnudurinn í heilögum Anda, sem er hin þridja ástgjöf, sú ed Guds völudum heitinn er í

Christí nádarríki; það er sá fögnudur, sem krossfestir manninn heiminum, og heiminn manninum, Gal. 6, sá ed forsmáir alla veraldarinnar gledi, sá ed lætur Pál og Sílam lofa Gud í fángélsinu, Daníelem gánga óhræddan í leóna grøfinni, sá er því til vegar kémur, ad menn gráta, svo sem ei grátandi, og fagna, svo sem ei fagnandi, 1 Cor. 7, svo sem hryggvir, og þó jafnan gladir, svo sem fátækir, en þó marga audgandi, svo sem eckert hafandi, og egandi þó alla hluti, eins og Páluʼs um sig skrifar, 2 Cor. 6; þessi er fögnudurinn í H. Anda, sem ríkir í Christí ríki. Þegar lærisveinarnir voru hryggvir af því, ad Lausnarinn sagdi þeim fyrir sína burtför til Födursins, þá sagdi hann: þér hafid nú ad sönnu hrygd, en eg skal sjá ydur aptur, og ydvart hjarta skal fagna, og ydvarn fögnud skal enginn af ydur taka; ecki taladi Drottinn í það sinn um hina eylífu himnaríkis gledi, heldur um þann fögnud, er þeim gafst af hans upprisu, hver svo var mikill, ad þeir trúdu ecki því, ad hann upprisinn væri fyrir fagnadar sakir, en þó allra helzt talar hann um ástgjafir H. Anda, er hann hafdi lofad ad senda þeim af sínum Födur; hann var sá, ed til fulls upprétti Israels ríki, það er Guds ríki inni hjá oss, svo þeir höfnudu öllum hlutum, og reiknudu þá þreck ad vera hjá Drottni sínum, Jesú Christó; og med þeim sama stjórnar hann enn nú sínum þegnum, það er, öllum þeim, er á hans nafn trúa, hann er það, sem ber vitnisburd vorum anda, ad vér séum Guds börn, en ef vér börn erum, þá erum vér og erfíngjar, já, erfíngjar Guds og samarfar Christí, uppá það, ad ef vér med honum lídum, þá skulum vér og med honum dýrdligir verda, Róm. 8. Þessi Guds andi er pantur arfleyfdar vorrar, Eph. 1, þeirrar, sem þar uppi er og ei má skemmast, eigi saurgast og ei rotna, svo sem Petur ad henni kvedur, 1 Pet. 1, það er hans eylífa dýrdarríki, er eg fyrir skömmu minntist á, hvert ed hinum andliga voludu heitid er, það er sá fögnudur, sem ecki hefir auga séd, og ecki eyra heyrt, og ecki hefir í nockurs manns hug uppstígid, segir Esaías, hvar Gud er allt í öllu, og enginn umskipti ljóssins né myrkursins um óendanligar aldir alda. Eckert ríki veraldar hefir svo megtugt verid, ad ecki hafi það eydilagst, og eitt hefir uppetid annad, en þetta mun engan enda taka, því vér munum eylífliga med Christó vera. Veraldar höfdingjar drottna yfir mörgum misjöfnum, sumum vondum, sumum gódum, sumum ríkum, sumum fátækum, sumum trúum, sumum hreckvísum; en þetta er samkunda heilagra, útvalid fólk og konúngligur prestskapur. Hinn nafnfrægi konúngur Pyrrhus, Epíróta konúngur, spurdi sinn sendimann, er hann hafdi gjört frá sér til Rómaborgar, hvílíkir ad væru þeirra rádherrar; en hann svaradi, ad rádid væri eins og konúnga samsæti; en það má eg med öllu meira rétti segja um höll ens mikla Konúngs, Drottins Zebaoth, því þar eru allir undirsátarnir konúngar; allur heimurinn nægdi ecki metordagirnd eins manns, Alexandrí hins Stóra, en Guds ríki nægir svo miklum skara, sem enginn fær talid, og hefir þá hver einn svo mikid ríki, ad Alexandrí veldi má í engan samjöfnud koma. Þegar Drottinn spáir um vegsemd Christí ríkis hér í nádinni, þá segir hann, Zach. 12, ad á þeim degi skuli hinn vesælasti af Júda verda eins og Davíd, og ad jafnvel þeir heimsku ei kunna ad fara villt, Es. 35; því voga eg ad segja, ad hinn minnsti í ríki himnanna muni verda heilagri enn Jóhannes, vitrari enn Salómon, fridari enn Absalon, sterkari enn Samson, og ríkari, enn öll ríki

veraldarinnar og þeirra dýrd. Þessarar sælu njótandi ad verda, unn þú oss Konúngur eylífrar dýrdar, Jesú Christi! þér, med Fødur og H. Anda, sé vald og heidur, ríki og kraptur, um aldir alda, amen!

# Tuttugasta og Þridja Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Matth. 22 Kap.

Í þann tíma, þá gengu Pharísearnir, og héldu eitt rád, ad þeir fengi veidt hann í ordum, og sendu til hans sína lærisveina med Herodis þénurum, svo segjandi: meistari! vér vitum þad þú ert sannsøgull, og kénnir Guds gøtu í sannleika, skeytir eigi nockrum, þvíad þú ser eigi ad mannvirdíngum; þarfyrir, seg þú oss, hvad þér lízt: hvørt leyfist ad géfa keysaranum skatt eda eigi? En þá Jesús formerkti þeirra vondsku, sagdi hann: hvad freistid þér mín, hræsnarar? sýnid mér myntina skattsins; og þeir fengu hønum einn pening. Jesús sagdi til þeirra: hvørs mynd og yfirskrift er þetta? þeir søgdu hønum: keysarans; þá sagdi hann til þeirra: géfid þá keysaranum, hvad keysarans er, og þad Gudi, hvad Guds er. Og er þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, forlétu hann, og gengu í burt.

## Exordium.

Vér vitum, ad þeim, sem Gud elska, samverka allir hlutir til hins góda, segir Páluss, Róm. 8, þetta sannar øll heiløg ritníng med Postulanum, bædi med ordum og dæmum; enginn hefir sú torfæra vordid á gøtu fyrir Guds børnum, ad hin máttuga Drottins hønd hafi ecki rudt hana, og leidt sína elskendur þar í gégnum á einhvern hátt til þess góda, er hann hefir þeim fyrirbúid. Hardýdgi Jósephs brædra vard hønum til upphefdar, Gén. 41; þvermódsku Pharaónis snéri Gud sínu fólki til trúarstyrkíngar, Exód. 12; sú bølvan, er Balach konúngur vildi hafa keypt af Bíleams munni, Núm. 23, vard Ísrael ad blessan; Achítóphels rád urdu ecki einúngis ad ónýtu, 2 Sam. 17, heldur Davíd til sæmdarauka; árásir Sáls konúngs gjørdu hann frægan í Ísrael; Jessabels ofsóknir styrktu Elíam, 1 Reg. 18; ofstopi Hamans létti þrældóminum af Guds fólki, Esth. 8, og þurfum vér ecki margra dæma hér um ad leita; enginn hefir svo íllt í sinni haft, svo sem kénnimanna høfdíngjarnir, þegar Heródes og Pontíus Pílatus med heidíngjunum og Ísraels fólki samansøfnudust yfir Jesúm, Guds son, til ad gjøra allt þad, er hans hønd hafdi ádur fyrirhugad ad ské skyldi, Act 4; en þessari illsku þeirra snéri Guds alvitra rád øllum heimi til miskunar og syndalausnar, þvíad í hans nafni, sem þeir í þad sinn heingdu uppá tréd, svo sem adra bølvan, þá fá þeir allir syndanna fyrirgéfníng, sem á hans nafn trúa, ad vitni allra spámanna. Act. 10; svo menn mega játa þad satt ad vera, sem Elíphas segir, Job 5 kap., ad Drottinn fángi hina vitru í slægdum þeirra, og rád þeirra, er í gégn standa, munu detta. Dæmi þar uppá høfum vér í þessa h. dags evangélío, þar vér heyrum, ad hinir ólmu hundar voru enn nú einusinni útsendir, til ad fánga hid saklausa Guds lamb, og høfdu svo hagliga tilbúid sínar veidibrellur, ad ecki skyldi tilsleppa; en hann, sem vissi hvad med manninum bjó, og ónýt gjørir rád hinna ógudligu, hann feldi þá í hina sømu grøf, er þeir høfdu hønum búid, og vann á þeim med þeirra egin vopni, svo sem vér heyrdum af gudspjallinu, af hverju vér

nú viljum hugleida: 1) hvad vér skum yfirvaldinu skyldugir; 2) hver ad sé skylda vor vid Gud almáttugan; styrk oss hér til, Drottinn minn! fyrir þíns Sonar forþénustu, amen!

## Utleggíngin.

Géfid keysaranum, hvad keysarans er, segir Drottinn; menn leggja þad kannské ad litlu sumir hverjir, ad þeir bjóda ad hlýda sér, hverra virdíng ad vex vid annarra undirgéfni; þad kynni ad fljúga einum í þánka, ad ecki væri ad henda reidur á því, þótt ad lögin og almenniligar skickanir segi þeim nockur þýngsl á hendur, sem engu géta af sér hrundid sakir vanmáttar síns, því þeir somu ráda fyrir lögunum, sem tollana taka; en gjætum ad hverr sá er, ed þetta segir, þad segir sá, sem allt vald géfid er bædi á himni og jordu, Matth. 28, en er þó í þrælsliki auglýstur, Philipp. 2; hann, sem allt silfur og gull á, og ecki vill segja manninum til, ef hann húngrar, Ps. 50, en hafdi þó ecki hvar ed hann mátti höfdi sínu adhalla, Matth. 8; hann, sem á hverri stundu kunni ad bidja Fodurinn um 12 legiónir engla, Matth. 26, en kom þó í heiminn, ecki til þess, ad láta sér þjóna, heldur uppá þad hann ödrum þjónadi, Matth. 20, hverjum Gud hafdi géfid tignarsæti síns födur Davíds, Lúk. 1, en vard þó forsmán mannanna og fyrirlitníng fólksins fyrir vorar og allrar veraldarinnar syndir, Es. 53. Segid mér, brædur minir! mun hann, sem svo háttadur var, hafa talad þessi ord fyrir sína skuld, edur mundi hann ecki hafa kunnad ad ná rétti sínum, hefdi hans riki verid af þessum heimi? ecki mundi honum hafa þad torsókt vordid, heldur taladi hann þau til blygdunar þverbrotnum Gydíngum, hverjir ei vildu þeckja hinn rómverska keysara fyrir sinn höfdíngja, er þó hafdi af Gudi þegid vald yfir þeim, og til þess, ad kénna þér, Guds barn! þá hlýdni, er þú ert yfirvaldinu skyldugur um. Þér kann ad sönnu til hugar ad koma: hvad veldur því, ad hann skuli heldur drottna yfir mér, enn eg yfir honum, þar vid erum þó bádir naktir í heiminn bornir, bádir egum vid ætt ockar til Adams ad rekja, báda hefir Gud skapad, og hverigur ockar hefir neitt af sjálfum sér? Þar sellur svar til: fyrir Guds sakir skaltu honum undirgéfinn vera, hver ad er allra konúngur; Páls segir med berum ordum, Róm. 13: þar er engin valdstétt, nema hún sé af Gudi, heldur eru þær valdstéttir, sem til eru, af Gudi skickadar, þarfyrir, sá ed valdstéttinni mótstendur, hann mótstendur Guds skickun, en þeir ed mótstanda, abla sér fordæmíngar; þarfyrir, sá sem segist Gudi vilja vera undirgéfinn, hann sé og valdstjórninni undirgéfinn, hver af Gudi er skickud. Þú segir: hann kom nakinn í heiminn eins og eg; en ef Gudi þócknast ad klæda hann í purpura, en þig í totur, áttu sök á því? ertu þarfyrir rángeygdur þvíad hann er gódgjarn? þid erud bádir af Adam komnir, en sá, sem hafdi vald til ad mynda Adam af leir jardar, mun hann ecki hafa vald til, ad setja eitt kérid til heidurs, en annad til vanheidurs? Róm. 9; hverigur ykar hefir neitt af sjálfum sér, af hverjum þá? af Gudi; þarfyrir áttu hvad mest ad virda hann, sem yfir þig bodinn er, því þá virdíngu hann hefir fram yfir þig, hana hefir hann af Gudi þegid; forakta því ecki hans skickan, en lát þér nægjast þinn deildan verd. Og svo sem menn eru konúnginum skyldugir ad hlýda næst Gudi, í öllum þeim hlutum, sem Gud ecki bannad hefir, því framar ber ad hlýda Gudi enn monnum, sagdi Petur, Act. 4,

svo byrjar oss og, ad vera þeim undirgéfnir, sem hann yfir oss skipad hefir, ad svo miklu leiti, sem hann hefir þad skipad, því svo segir Pétur, 1 Pet. 2: verid undirgéfnir sérhverri mannlegri sképnu, sakir Drottins, hvert heldur konúngunum, svo sem yfirrádandi, edur stjórnurunum, svo sem þeim, er af hönum eru sendir; sá, sem þeim mótstendur, er af konúnginum sendir eru, hann mótstendur konúnginum, sá sem konúnginum mótstendur, hann mótstendur Drottni, sá sem mótstendur Drottni, hann steypir sér í fordæmíngu, hvar af þad vill fylgja, ad sá, sem sína yfirbodara svíkur, vanvirdir edur mótstendur í því starfi, er þeir á hendi hafa, hann er sama dómi undirvorpinn hjá Gudi. Hvad eru menn þá yfirvaldinu skyldugir? þad segir oss Pálus, Róm. 13: gjaldid öllum þad þér skyldugir erud, þeim skatt, er skattur heyrir, þeim toll, er tollur heyrir, þeim ótta, er ótti heyrir, þeim heidur, er heidur heyrir; tvent þad sídara er ecki svo mjög ábóta vant, jafnvel þótt ad ótti sá, er standa ætti af valdstjórninni haldi sumum mönnum litt aptur frá vondum verkum, en útvortis lotníng og virdíngar sá menn nógar, þar er ei yfir ad klaga, því margur verdur til ad kyssa á þá höndina, er hann gjarnan vildi af væri; en þad, sem gjaldast á, er optast tregara hjá mörgum, ecki síst vid þá, sem oss eru af Gudi skickadir til ad vaka yfir sálum vorum, af því þeir ecki hafa sverdid þad líkhamliga í höndunum, en hvad því andliga vidvíkur, þá hafa sumir menn svo brynjad samvitskur sínar med einu stálhjarta, ad sverd andans, sem er Guds ord, vinnur ecki á hana, jafnvel þótt þad sé gjört til þess, ad þreyngja sér í gégnum bein og merg; og vil eg ecki fá mér þad til orda, þótt menn séu tregir í gjöldunum, Gud gjæfi þeirra kristiligum áminníngum hlýdt væri! þá mættu þeir þitt einkis akta, því Drottinn er þeirra hlutskipti. Eg vil aptur hverfa til þess, er eg strax um taladi: géfid keysaranum, hvad keysarans er, segir Kristur; hann talar hér sérílagi um þær skyldur, er yfirvaldinu gjaldast eiga, og þetta er ecki manns edur engils, ecki nockurs veraldligs konúngs, heldur sjálfs Guds Sonar bod; þarfyrir, ad líka svo sem sá kóngs umbodsmadur, er tekur framar, enn hans herra hefir bodid hönum, hann stelur, svo er og hinn þjófur í Guds augliti, er dregur þad af yfirvaldinu, er því med réttu byrjar ad hafa, og sá er þad útilætur med illu gédi, hann gjörir gjald sitt ad synd og ad vondu verki; því segir Páll, Róm. 13: þarfyrir er einsætt undirgéfinn ad vera, ecki alleina vegna reidinnar, heldur og samvitskunnar vegna; hann meinar konúngsins reidi, hver ed Salómon segir, Ordskv. 20, ad sé eins og úngs leóns öskur, heldur og samvitskunnar vegna, þad er vegna Guds, sem þetta bodid hefir, hverjum vér erum í hjörtum og samvitskum vorum skuldbundnir. Margur óhlutvandur þenkir svo, og sumir kannské leyfi sér ad tala: eg hefi eckert gott af valdstjórninni, hún er ecki nema almúganum til þýngsla, þeir hafa miklar álögur, menn sæta hördum refsíngum af þeim, jafnvel fyrir smáar sakir; heyr mér, barn mitt! jeg vil ecki tala um Guds bod í þessu, þar Postulinn skipar, ad menn skuli vera sínum yfirbodurum undirgéfnir, ecki einasta frómum og gódum, heldur og einninn hardrádum og hreckvísum, 1 Pet. 2, og St. Páll skipar, 1 Tím. 2, ad bidja fyrir Neróni keysara, sem þó var gudlaus madur; en seg mér, kann eitt hafskip ad fara leid sína fyrir utan stýri? enn þá sídur kann lendum og lýdum vel ad gánga, þeim er ecginn stýrir. Hver á ad straffa syndir og lesti? hver á ad refsa ógudligum skálkum, þeim er

frómum og meinlausum veita yfirgáng? hver á ad dæma á milli blóds og blóds? hver á ad skipa réttindum manna, svo hver haldi sínu? hver á ad gefa oss lög ad lifa eptir? hver á ad skicka oss kénnendur og prédikara, til ad uppfræda oss til eylífs lífs, en varna vid eylífum helvítis eldi? hver á ad vernda oss frá hernadi og árásum ómildra manna, svo ad vér lifa megum hægu og rósömu líferni med allri gudrækni og sidsemi? 1 Tím. 2; hver á allt þetta ad gjöra, ef þar er eckert yfirvald? Gud vardveiti sína kristni frá ómildum konúngum! honum séu og eylífar þackir fyrir þá stóru nád, er hann hefir oss gefid framar öllum mönnum í heiminum; en þad þori eg ad segja: betra er íllt yfirvald enn eckert, því hvar svo ástendur, þar er hvers hönd í móti ödrum, þar er hver annars bödull, þar er enginn óhultur um líf sitt, enginn um börn né kvinnur, enginn um eigur sínar né atvinnu, þar er engin sidsemi, enginn kjærleiki, enginn Guds ótti, í einu ordi ad segja: þad er hálft helvíti. Þetta munu þeir ösgar kalla, er lída þykjast álögur af yfirvaldinu, en enginn veit hvad átt hefir fyrr enn misst hefir. Öllum mönnum í heiminum hefir þad ad vegi vordid, ad taka sér höfdíngja, þar sem almenníngur hefir tekid til ad stjórna; illa géck þad til á dögum hinna ógudligu Israels konúnga, Jeróbóams, Manassis, Achabs, og annarra, þó var þad enn þá verr, þegar enginn var dómari í Israel, og hver einn gjördi þad rétt þótti í hans augum, Dóm. b. 17, þá var varla nockur Guds þecking í Israel, þá gjördu Benjamítar þá hádúng, er sólin hefir aungva verri yfirskinid, hverja Sódóma og Gómorra mættu skammast sín vid ad heyra, þá slátradi Guds fólk sínum egin brædrum og systrum, heilli ættkvísl, mörgum þúsundum manna, svo þar var ecki ein kona eptir í Benjamín; og hvad viljum vér lángt leita, vér höfum eptirdæmin hjá oss, þegar þetta vesæla land flaut í sínu egin blódi, ádur enn Gud gaf oss konúng, svo ad enginn mátti óhultur leggjast í reckju sína, hversu ágjætliga leid oss þá? hversu fór þá fram í landi voru? Mundu menn þá ecki allshugar fegnir verda ad játa konúngi, og gánga undir hann, til ad halda lífi og limum, fridi og frelsi? svo er því háttad, br. m! fyrir oss syndugum mönnum, vér hljótum laganna þrælar ad vera, uppá þad vér kunnum frelsi ad halda. Hver sem nú yfirvegar allt þad góda, er vér hljótum af valdstjórninni, og undir eins allt þad illa, er hún afstýrir, hann mundi med betri samvitsku og fúsari huga gjöra Christi bod, í því, ad gefa keysaranum hvad keysarans er; en ef nockrum þykir valdstéttin refsíngasöm, honum kann eg eckert betra rád enn þad, er gefur St. Páll, Róm. 13, segjandi: viltu ei valdstjórnina óttast, þá gjör hvad gott er, og muntu lofstýr af henni hafa, því hún er Guds þénari þér til góda; en ef þú gjörir hvad íllt er, þá vert óttasleginn, því hún er Guds þénari til hegndar og reidi þeim, sem illa gjöra; og er svo úttalad um hid fyrra.

En hversu mikid ad vér Gudi skyldugir séum, þad kann enginn túnga út ad skíra, hverki engla né manna, og því mun þad nockur munnur fá útsagt, þar sem ad allir útvaldir, allir heilagir í eylífu lífi fá þad ecki fullgjört um alla eylífd? eylífa tíd skal til þess hafa, ad prísa hina eylífu gjæsku, og óendanligar aldir, til ad vegsama hans nafn, sem aldrei enda tekur; hversu megum vér þá játa med Davíd: ó, Drottinn! minni erum

vér øllum þínum mysk unsemdum; samt hefir þó hin eylífa Hátign bodid, ad vér prísa skyldum þær dásemdir, er hann gjørir á medal mannanna barna, ecki fyrir því, ad hann þurfi vorrar hrósunar vid, því hann er Gud blessadur um allar aldir, heldur ad íhugan hans velgjørnínga megi verda oss til sidbóta og sáluhjálpar. Vér heyrdum fyrra sunnudag talad um hinn vonda þjón, sem var sínum herra 10,000 punda skyldugur; munum vér ecki allir mega sitja á beck med hønum, þegar ad skuldadøgunum kémur? Sál og líkhama hefir Gud géfid oss; til hvers? ecki til ad brúka þad svo sem vér viljum sjálfir, heldur til ad þjóna Drottni þar med; líkhaminn er hinn óædri partur vors skapnadar, hann hefir Guds gjæska lént oss til ad útvega atvinnu vora, svo ad vér í sveita vors andlitis kunnum vors brauds ad neyta, Gén. 3; þó hefir hann skilid sér leigu hér af, því St. Páll segir: vitid þér ecki, ad ydar limir eru musteri heilags Anda, sem í ydur er, hvern þér hafid af Gudi, og þér erud ecki sjálfs ydar menn; hendurnar hefir hann lént oss til ad brjóta voludum vort braud, fæturnar til ad gánga fúsliga í Guds hús, augun til ad upplypta þeim til himins, hvadan oss kémur hjálpin, eyrun til ad heyra Guds ord og vardveita þau, túnguna til ad lofa hans nafn; en í øllu þessu høfum vér ressjast vid hinn Almáttuga, þad hefir gengid andhælis fyrir oss, vér høfum léd vora limu syndinni til ibúdar, og látid hana drottna í vorum daudligum líkhama, Róm. 6, þar vér áttum ad ljá þá réttlætinu til verkfæra. Margur útréttir hendurnar til ráns og þjófnadar, til ad meida hold síns náúnga, og ad hefna sjálfur sín, en stela hefndinni frá Gudi; svo lángt er frá því, ad menn géfi Gudi hvad Guds er; fæturnir eru nær̨a fimir til ad hlaupa á hinn breida veg; augun eru skálkur, svo ad allur líkhaminn verdi skálkur, grannskygn til ad sjá bjálkann í síns bródurs auga, en ad kvistinum í sjálfum sér gjæta þau ecki; eyrun klæja eptir því, er þau heyra vilja, og eru opin vid buldri veraldar þessarar, svo ad Guds ord fá ecki rúm í þeim; túngan temur sér skammarlig ord og fiblsligt hjal, sem kristnum hæfir ecki, róg, lygi, bakmælgi, og annad því um líkt. Æ, oss auma menn! hversu illa høfum vér þá Gudi goldid hans húsaleigu? vitid þér ecki, ad þér erud kyrkja Guds? segir Postulinn, en hann, sem Guds kyrkju skémmir, hann vill Gud skémma, segir hann, 1 Cor. 3; en hvernig høfum vér ræktad Guds hús, brædur mínir? þad átti ad vera bænahús, en vér høfum gjørt þad ad ræníngjabæli. En ef Gud skilur sér nú þvílíkan skatt af líkhømum vorum, mun hann þá láta sálina búa óleigis? aungvan veginn! Peníngurinn, er Júdar sýndu Drottni, hann var goldinn fyrir høfud hvert í øllu Róma ríki, þarfyrir galdt og Jesús skattinn fyrir sig og Petur, er hann spurdi hann ad, hvert veraldligir konúngar tæki skatt af sínum egin, edur af annarligum, Matth. 17, þar hann átti þó ecki skatt ad gjalda, því hann var ecki einasta kóngborinn, heldur konúngur ad eylífu; svo á og sérhver einn af oss fyrir sálu sjá, hún býr í leiguhúsi, hún á ecki einasta eptir þad ad gjalda, heldur og fyrir sjálfa sig. En hvad egum vér þá ad gjalda, edur hver er skattur hins Allrahæsta? þad gjørir hann sjálfur bert, Ps. 50: ecki et eg kjøt hinna sterku uxanna, og ecki dreck eg blód hafranna, offra Drottni lofgjørdinni, og luk hinum Allrahæsta þín heit. Hver er sú lofgjørd, er Gud af oss heimtir? er þad nóg, ad kasta uppá hann kvedju sinni med einu psálmversi? fjærri sé því, þad heitir ad nálægjast hann med vørunum, en hjartad er lángt

þar frá; Guð verður ecki með mælgi prísaður, þeirri er heidíngjar brúka, og meina sig fyrir hana að bænheyrast, Matth. 6, heldur svo sem Davíð, þar hann segir: lof seg þú Drottni önd mín, og allt hvað í mér er hans blessaða nafni. Ef vér viljum Guð ákalla í anda og sannleika, þá skal syndarinn koma hræddur og skjálfandi fram fyrir hinn heilaga í Israel, hann skal yfirvega hans heilagleik og sinn óverðugleik, mergð sinna synda og fjölda hans myskunsemda, Guðs þolinmæði og sitt tómlæti, Guðs brennandi elsku til sín og sína eymd og ólucku, sem ecki gétur í líkhama þessa dauða elskað hann af öllu hjarta og öllum kröptum, er oss svo heitt elskaði; og þegar hans hjarta er af slíkri hugraun brádnað í hönum sem annað var, þá skal hann hrópa af djúpinu til Drottins, eins og Davíð: mínar syndir eru mér yfir höfuð gengnar, þær eru vordnar mér mikils til ofþúng byrði, og með tollheimtumanninum: Guð! vertu mér syndugum líknsamur; en er þú svo gjörir, þá mun Andinn biðja fyrir þér með óumræðiligum andvörpunum, en hann eð hjörtun rannsakar, veit hver að er Andans meiníng, því hann er eptir Guði meðalgángari fyrir heilaga, Róm. 8, og er Guð svarar þér í leyndum hjarta þíns fyrir heilagan Anda, sá eð ber þínum anda vitni um, að þú sért Guðs barn, segjandi: vertu hughraustur sonur! þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, þá offra Guði lofgjörðinni, og seg með Jesú móður: mín önd miklar Drottinn, og minn andi gladdist í Guði, heilsugjafara mínum; þessir eru kálfar vara vorra, er vér egum Guði að fórnfæra, Os. 14, það er það offrið sem fyrir hönum gyldir, því harmþrúnginn og sundurknosaðan anda mun hann ecki fyrirlíta, Ps. 51. Hver eru þau heitin, er vér egum hönum að lúka? það eru þau, er vér hétum hönum í skírninni, þegar hans eingétinn Sonur, hinn friðasti meðal mannanna barna, trúlofaði oss sér í náð og myskunsemi; hver voru þau? það vér játuðum Guði helga trú, uppá hverja vér skírðir vorum, en afneituðum Fjandanum og öllu hans athæfi; hver er þá heilög trú? ecki sú alleina, sem þeckir Guð að vera, hvað einnig gjöra djöflarnir, og skélfast þar af, Jak. 2, heldur hún, sem að verkar fyrir kjærleikann, Gal. 5, hver að er þolinmóður og góðgjarn, ecki öfundsjúkur, gjörir eckert illmannliga, ecki blæs hann sig upp, er ecki ósiðsamur, hann leitar ei eptir því, sem hans er, ei þúnglyndur, hann þenkir ei íllt, hann fagnar ecki yfir ránglætinu, en samfagnar sannleikanum, hann umber allt, hann trúir öllu, hann vonar allt, hann þolir allt, 1 Cor. 13; það er sú trú, er vér játuðum Guði í skírninni, er slíka ávexti af sér géfur, hverjir síður mega við hana skilja, enn birtan við sólina. En hvert er þá Andskotans athæfi, er vér neituðum? það eru holdsins verk, sem Páls upptelur, Gal. 5: hórdómur, saurlífi, óhreinleiki, lausúng, skúrgóðadýrkun, fjölkýngi, fjandskapur, þrætur, kapp, reiði, þráttanir, sundurþyckja, flockadráttur, og annað þeim líkt; þetta egum vér að láta, en hitt að gjöra, ef vér viljum géfa það Guði, sem Guðs er, því svo segir Drottinn fyrir munn Esaíæ, 1 kap: þvoið yður, hreinsið yður, takið yðar illskubreytni frá mínu augliti, látið af illu, en lærið gott að gjöra, komið síðan og eigumst lög við, þó að yðar syndir séu rauðar sem blóð, þá skulu þær verða hvítar sem snjór, og þó þær séu sem purpuri rauðar, þá skulu þær verða hvítar sem ull. Þeir, sem eru skyldir undir nockurn konúng, þeim byrjar ecki einúngis að greiða hönum

skatta og skyldur, heldur og ad strída á móti hans óvinum; nú er enginn þvilíkur Guds óvinur sem Djøfullinn, því Kristur og Belíal eiga eckert hlutskipti saman, 2 Cor. 6; nú fyrst vér erum gengnir Gudi til handa, því skyldum vér þá draga eitt ok med Satan? Andskotans taum dregur holdid, en Guds lidi stýrir andinn; látum oss í hønum gánga, svo munum vér ei fremja holdsins girndir, og iklædumst Guds herskrúda, svo ad vér gétum mótstadid prettum Djøfulsins, Eph. 6, þá erum vér réttir Guds þegnar. En Jesús Kristur, sá ed høggormsins høfud hefir í sundur marid, og nidurbrotid helvítanna port, hann virdist ad troda Djøfullinn undir fætur vora, en géfi oss ad berjast gódri baráttu, behalda trúnni og gódri samvitsku, þar til oss um sídir verdur assídis løgd koróna réttlætisins, sem Drottinn Gud virdist ad géfa oss á þeim degi, þegar vér egum ad gjalda þá sídurstu skuld, og afhenda þad Gudi, hvad Guds er, sem er sál og líf, hvert vér høfum ad láni, og ecki ad eign þegid; þad bænheyri Fadir myskunsemdanna, fyrir son sinn, Jesúm Christum, amen!

# Tuttugasta og Fjórda Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Matth. 9 Kap.

Í hann tíma, þá ed Jesús taladi þetta til þeirra: sjá þú, ad høfdíngi nockur géck ad, og tilbad hann, segjandi: mín dottir er nýsálud, en þú kom, og legg þína hønd yfir hana, og mun hún lifa. Og Jesús stod upp, og fylgdi hønum, og svo hans lærisveinar; og sjá þú, ad kona, hvør ed haft hafdi blodfall í tolf ár, géck á bak til vid hann, og snerti fald hans klædnadar, því hún sagdi med sjálfri sér: ef ad eg mætti ad eins snerta hans klædnad, mundi eg heilbrygd verda; en Jesús snérist vid, leit til hennar, og sagdi: vertu hughraust dottir! þín trua gjørdi þig heilbrygda; og á þeirri sømu stundu vard konan heilbrygd. Og þá ed Jesús kom inn í høfdíngjans hús, og sá þar ludurþeitara, og buldran folksins, sagdi hann til þeirra: víkid frá, þvíad ecki er stulkan daud, heldur sefur hún; og þeir dárudu hann. En sem folkid var utdrifid, géck hann þar inn, og tok um hennar hønd, og stulkan stod upp; og þetta rykti barst ut um allt þad sama land.

## Exordium.

Þad eru merkilig ord, sem Esaias spámadur skrifar í hans bókar 26 kap., og þannig hljóda: í ángistinni vitjudu þeir þín, Drottinn! þeir úthelltu audmjúkum bænum þegar þú tiptadir þá. Svo er háttad voru auma holdi og blódi, kristnir menn! ad þegar allt ad óskum gengur, þá þeckir þad á stundum hverki Gud, né sinn eginn veikleika; og þótt vér sjáum nærri dagliga á þeim, sem Drottinn tiptar, hversu ad manneskjan er sér ónóg um alla hluti, þegar hann birgir fyrir henni sitt augliti, þá er þad eins og þad ecki komi vid

oss, svo sem ad einn, heldur enn annar, sé undan þeginn þeim ókostum, er syndinni fylgja, og Elíphas af Theman kallar øllum jafnvíssa, segjandi, ad madurinn fædist til armædunnar, svo sem neistarnir af glódinni fljúgi í loptid upp. En þótt ad þessu sé svo varid, þá sýnist svo sem ecki eigi allir vid líkan kost ad búa, þar nockrir bada í rósum, og vita ecki af miklum mótgángi ad segja, hinir þjást alla æfi sína, og sjá varla gladan dag; en þad er eptirsjónar verdt, hvert ad hinna kjør séu betri enn þessara, ef menn þad rétt adgjæta; ad vísu sýnist þad svo fyrir mannligum dómi, annars er þad víst, ad í velgenguninni er manninum hættast vid ad gleyma Gudi, sem er hin stærsta ólucka, er syndaranum kann til ad falla. Þegar Ísrael vard fullur og feitur, þá gjørdist hann lauslátur; þegar skenkjari Pharaónis var aptur kominn til virdíngar sinnar, þenkti hann hverki á Jóseph, né myrkvastofuna, Gén. 40; þegar Nebúcadnezar virdti fyrir sér øll hans stórvirki, er hann hafdi látid gjøra í Babýlon, þá upphafdist hans hjarta. þar til Gud straffadi hann, og lét hann eta gras med villudýrum, Dan. 4; þegar Baltazar sat ad dryckju, og út af ofmetnadi lét saurga kérin, sem brúkud høfdu verid til þjónustunnar í Guds húsi, þá vard hann rekinn frá ríki og lífi, Dan. 5; þegar Heródes konúngur metnadist í sínu hjarta af velgenguninni, og gaf ecki Gudi dýrdina, þá vard hann sleginn af engli Drottins, og dó vesølum dauda. En svo ad Guds børn ei rati í þvílíkan sólar háska, þá leggur hinn gódi Gud þeim síns Sonar kross á herdar; eg þori ad segja, ad Drottinn hefir í sínu nádarríki meira útrétt med honum einum, enn med øllu sínu eptirlæti; á medal annarra høfum vér tvø dæmi þar uppá í þessu heilaga evangélíó, samkunduhøfdíngjans Jaíri, og hinnar blódfallssjúku kvinnu, og af bádum þeim, hversu ad trúin reynist og eblist í krossburdinum, svo sem gullid hreinsast í ofninum, 1 Pet. 1. Vér viljum í Drottins nafni hugleida: 1) Jaíri dæmi; 2) hinnar blódfallssjúku. O! þú gódi Gud! vert oss nálægur med fulltíngi þíns anda, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Sjá þú, ad høfdíngi nockurr géck ad og tilbad hann, segir í gudspjallinu; Lúkas og Markus segja hann hafi verid samkunduhøfdíngi; kannské hann hafi hverttveggja verid, því Gydíngar høfdu høfudsmenn í hverri ættkvísl, og þar ad auki høfdu þeir forstødumenn í þeirra samkundum; hvernig sem þetta hefir verid á sig komid, þá hefir hann þó mikilsmetinn verid medal Gydínga, en líkindi er, ad hann muni ecki hafa matt Jesúm mikils, ádur enn naudin þrýsti honum til þess. Jesús hafdi í heilt ár kénnt, prédikad og gjørt kraptaverk í Kapernaum, en þess er ei gétid, ad høfdíngi þessi hafi fengist mikid þar um, fyrr enn hans einka dóttir var adkomin dauda; þad má og allvída lesa í gudspjallssøgunum, ad þesshattar menn høtudu Jesúm framar og ofsóktu, enn ad þeir mundu leita lids hjá hønum í nockrum hlut, og þarfyrir søgdu Gydíngar fordum daga, er þeirra sendimenn komu aptur, og søgdu um Drottinn, Jóh. 7: aldrei hefir nockur madur talad svo sem þessi, þá svørudu þeir, segi eg: hvert erud þér og villtir, trúir nockurr af høfdíngjunum á hann, edur af Pharíseunum; ad eg fái mér þad ecki til orda, ad Júdar høfdu ályktad, ad hver, sem medkéndi Jesúm ad vera Kristum, hann skyldi bannsettur vera, og rækur frá þeirra samkundu, Jóh. 9, edur um þad tali, ad samkunduhøfdínginn reiddist hønum nærsta mjøg, er hann læknadi kvinnuna á sabbatsdegi, þá er í 18 ár hafdi óhraust verid, Lúk. 13; af hverju øllu sjá má, ad Guds Sonur hefir ecki velþockadur verid hjá þessslags fólki; en ecki ad sídur rak neydin þenna mann til ad falla Jesú til fóta med audmjúkri bæn, svo sem bædi Lúkas og Markus skrifa, svo þad rættist á hønum, sem Davíd um sig skrifar, Ps. 18: þegar eg kveljumst, þá ákalla eg Drottinn, og hrópa til Guds míns, þá bænheyrir

hann mína raust af sínu musteri. En þú, kristinn madur! sem þetta heyrir, tak þetta dæmi þér til vidvörunar, og trú þinni til styrkíngar ef áliggur; þú hefir máské ecki hirdt svo um, ad leita ad Jesú á medan þér vel géck, á medan þú varst á blómi þinnar æsku, þá kann vel vera, ad syndir þíns úngdóms hafi verid margar; hafi nú Drottinn vitjad þín med krossinum, þá kannast þar vid, ad hann bendir þér til þess, ad koma til sín, sem ad er Drottinn þinn læknari; hafi Gud ecki straffad þig med líkhamans óhreysti, þá ransaka þó vel, hvert þú alheill sért. Þessi höfdíngi átti eina einkadóttur, sem án alls efa hefir verid hönum kjærari, enn öll hans aleiga; þú átt og fyrir einni sálu ad sjá, kostuligri dýrgrip finnur þú ecki í allri veröldinni, því hvad gagnar þad manninum, segir Endurlausnarinn, ad hann eignist allan heim þenna, en lídi töpun á sálu sinni, Matth. 16; dýrmæt er hún, ecki einasta þess vegna, ad hún er í fyrstu eptir Guds mynd sköpud, heldur hins annars lángtum framar, ad hún er med Guds blódi endurkeypt; gjæt ad, hvert hún heilbrygd er! þér virdist ad svo sé, af því þú kénnir þín einkis meins, og þín sála er ecki órólig í þér, svo sem Davíds var; en trú mér til, kjæri! ad þau sárin eru ecki betri, sem daud eru, heldur enn hin, er svída; muntu þarfyrir hraustari vera, þótt þú sért líkur þeim, er Jeremías segir, 5 kap: þú tiptar þá Drottinn, en þeir finna þar ecki til? Ber lífernis háttu þína saman vid mælisnúru Guds heilaga lögmáls, hvert þú hefir elskad Drottinn Gud þinn af allri öndu þinni, og öllu hjarta þínu, og öllu hugskoti þínu, og þinn náúnga sem sjálfan þig, hvert þú gétur sagt med hinum ríka ýnglíng, sem kom til Jesúm, og vildi fá ad vita, hvad hann gjöra skyldi, svo hann mætti eignast eylíft líf, Matth. 19, ad allt þetta hafir þú gjört frá barndómi þínum; og vil eg nú sleppa þessu, þvíad enginn manna hefir um æfi Guds lögmál uppfyllt, nema hann einn, sem bar vorar syndir og alla lögmálsins bölvan, sjálfur syndlaus, hreinn, heilagur og fráskilinn syndurunum, Heb. 7; en seg mér: hefir þú haldid gleggvan reikníngskap vid sjálfan þig hér um, svo þú hafir ydrast syndanna af hjarta, og látid þér þær leidar verda? hvert þú hefir lagt vid þín rotin sár og andligan holdsúa þann plástur, er alleina kann ad græda, sem er Jesú blessad blód med trúnni medtekid af læknarans hendi, og hvert þú ad sídurstu hefir af alvöru kappkostad ad betra þinn lifnad, hvert þú hefir ecki gengid umþenkíngarlaust aptur til sömu synda, vellt þér í sama saur, og syndgad uppá nádina, og hvert þinn sídari dagurinn hefir bætt nockud um fyrir hinum fyrra. Reynid ydur, segir Páluss, hvert ad þér erud í trúnni, 2 Cor. 13; gjörum svo, vitum til, hvad heitt vér elskum Gud, þegar holdsins fýsn er ödrumeginn, hverja trúar ávexti vér finnum í fari voru, hvert Guds andi verkar í oss fyrir sanna ydran, hvert vér erum svo tilbúnir med vorn reikníngskap ad hverju kvöldi dags, ad vér séum þar vissir, ad þótt vér deyjum, þá munum vér samt lifa, Jóh. 11; allt svo lengi ad vér ecki temjum oss þetta hugarfar, þá þenkja menn hid sama, sem engillinn af Laódícea, Apóc. 3: eg em ríkur og audugur nóg, og þarf einkis vid, en þú veitst ecki, segir Drottinn, ad þú vesæll ert, aumur og voladur, blindur og fatlaus, og ræd þér, ad þú kaupir gull af mér, gull þad í eldi er reynt, svo þú audugur verdir, og íklædist hvítum klædum, svo ad vanvirda þinnar fatleysu ecki opinberist. En nær vér holdum reikning vid sjálfa oss, þá fáum vér ad þeckja, ad vorar misgjördir setur hinn

alskygni Gud frammi fyrir sig, og vorar óvitanligar syndir frammi fyrir sínu augliti, Ps. 90; hvad þá, brædur mínir! munu þá ecki um sídir uppljúkast vor augu, svo ad vér fáum ad sjá, ad allt høfudid er sjúkt, allt hjartad er veikt, frá hvirfli og allt til ilja er þar ecki nema sár, kaun, benjar og þroti? Esa. 1; hvad er þá vor sála betur á sig komin, enn þessi høfdíngjans dóttir, sú er var daudvona, edur og andvana lík, svo sem Mattheus skrifar? Stór naud þreyngdi Jaírus til ad leita Christí, en látum oss ecki vera ræktarminni vid sálir vorar, enn hann var vid dóttur sína; enginn er krossburdur meiri, enn sú barátta, sem er á millum holdsins og andans, Gal. 5, og tilfinníng synda sinna, med hverjum vér høfum hinn náduga Gud styggdan; hún uppþurkadi Davíds krapta, svo sem þá hey þornar á sumri, hún lagdi hann í daudans dupt, hún héldt vøku fyrir hans augum, þad hann vard svo máttlaus, ad hann gat ecki talad, Ps. 77; en hvad skulum vér þá ráds taka, br. m? hvad gjørdi Jaírus? hann féll til fóta Jesú, segir Markus, og bad hann mikiliga; gjør slíkt hid sama, kristinn madur! ef þú vilt ad þín sála heilbrygd verdi; audmýk þig undir voldugа Guds hønd. Eg játadi Drottni synd mína, segir Davíd, og þá fyrirgafstu mér þad; þad var og satt, því undir eins og hann sagdi: syndgast hefi eg á móti Drottni, þá svaradi spámadurinn Nathan hønum: svo hefir Drottinn synd þína í burtu tekid, 2 Sam. 12. Jesús rækti þad ecki vid þenna samkunduhøfdíngja, þótt kannské ad bædi hann og hans lagsmenn hefdu forakstad hann meir enn um eitt heilt ár, því hann vissi, ad hans sála var ángurfull í hønum, og vildi því ecki leggja sorg ofan á sorg, heldur gécк hann strax á þá leid, er hann beiddi hann um; hér rætist þad, sem Esaías um hann spáir og Matth. 12 ítrekar, segjandi: hann mun ecki deila og ecki kalla, og enginn mun á strætunum hans raust heyra, einn brákadan reyr mun hann ecki sundurbrjóta, og einn rjúkanda hørkveik ecki útslockva. Hins sama hefir þú ad vænta, kristinn madur! hver helzt þú ert, hjá Gudi er eckert manngreinar álit; þegar þú med Davíd kallar til Drottins á þínum mótgángstíma, þá þú upprettir þína hønd á náttarþeli og lætur ecki af, fyrir því, ad þín sála vill ecki huggast láta, Ps. 77; já, allra helzt, þegar þú bidur um fyrirgéfníng þinna synda, því til þess er Guds Sonur í heiminn kominn, ad hann nidurbrjóti Djøfulsins verk, 1 Jóh. 3, á medal hverra syndin er hid versta; edur meinar þú, ad hann, sem lét þad ad bæn Jaírí, ad uppvekja hans dóttur, án hvers hann kunni þó hólpinn ad verda, ad hann muni neita þér um kvittun þinna synda, nær þú hennar sorgfullur leitar, þar hann veit, ad þú kannt ecki án hennar sáluhjálpina ad erfa, en hann er þó í heiminn kominn til þess, ad kalla syndugа og ecki réttláta til ydranar, Matth. 8, og vill, ad allir menn verdi sáluhólpnir og komist til sannleiksins vidurkénníngar, 1 Tím. 2? Af hjartgróinni medaumkvun og brennandi elsku til syndugra manna hrópadi Jesús fordum daga: komid til mín allir þér, sem erfidid og þúnga þjádir erud, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11; því kémur þú þá ecki til Guds, hvers syndir ad eru yfir þitt høfud gengnar, og þér mikils til ofþúng byrdi vordnar, þar þú veitst, ad hann svarid hefir og sagt: á hverjum helzt tíma ad hinn ógudligi snýr sér frá sínu ógudligu athæfi, svo sannarliga sem eg lifi, hans misgjørnínga skal ecki ad eylífu minnst verda! Ezech. 18. Slíka hluti afrekar umvøndun Drottins hjá syndugum mønnum, þá henni er med audmjúku

hjarta tekid, svo vér megum játa þad satt ad vera, sem Páluś til Hebreos segir, 12 kap: ad øll tiptan, medan hún áliggur, þyki oss hún sorg og engin gledi ad vera, en eptirá gefur hún fridsamligan ávøxt réttlætisins. Jaírus þessi var einn samkundu-høfdíngi, án efa einn skriftlærdur og uppfrædur í Mósis løgmáli, en í því finnur hann eckert rád móti daudanum, sem ei var von, því bókstafurinn deydir, en andinn lífgar, 2 Cor. 3; bædi hann og hans dóttir høfdu syndgad á móti løgmálinu, en løgmálid skyldar þá alla undir daudann, sem ecki uppfylla þad; svo høfum og ecki vér, syndugir menn, neinnar hjálpar ad vænta í løgmálsins verkum, þótt vér séum þau skyldugir ad gjøra, því løgmálid er innkomid svo ad syndin yfirgnæfdi, segir Páluś, Róm. 5, þad er, ad hún yrdi uppvís, því án þess mundum vér ei syndina þeckja; þad er ei annad, enn eitt brýni, á hverju daudinn hvessir sinn brodd, þared syndin er broddur daudans, en kraptur syndarinnar er løgmálid, segir Páluś, 1 Cor. 15, því þad fordæmir þá sem hana drýgja. Hvar høfum vér þá lífs ad leita? í trúnni á hann, sem løgmálid hefir uppfyllt, daudann sigrad, og borid syndir vorar uppá tréd, en fest þar handskriftina þá sem móti oss var; en svo sem pálmavidurinn réttir sig upp undir þúnganum, svo vex trúin í krossburdinum; eg skal ecki segja, hversu trúarsterkur ad Jaírus hefir í fyrstunni verid, þad sýnist hann hafi ecki meint, ad Jesús Guds sonur væri, heldur spámadur nockur, svo sem Elías edur Elíseus, sá ed kynni ad uppvekja dauda, eins og þeir, annars mundi hann ecki hafa meint, ad hann þyrfti ad gánga heim med sér, og leggja hønd yfir dóttur sína; hitt er víst, ad hans trú hefir ecki svo sterk verid, sem kvinnu þessarar, er hér um gétur, edur hinnar Kananeisku, edur hundradshøfdíngjans. O, minn herra Jesú! hversu nákvæm er þín líknarhønd til ad endurnæra hinn rjúkanda hørkveik! hann lét sér þad ecki nóg þykja, ad hann bænheyrdi hann svo fljótt, sem hinn kunni ad bidja, og géck strax af stád, heldur á veginum styrkti hann trú hans med því allra dásamligasta kraptaverki, er hann gjørdi vid kvinnuna; ad sønnu hefdi Frelsarinn kunnad ad láta þetta almættisverk leynt vera eins og ønnur, er hann bannadi ad bera út, en þad vildi hann ecki, hans líknarhønd er frjóssøm; hann gjørdi hér tvennt í einu, hann læknadi hina naudstøddu og fáródu konu, er allri aleigu sinni hafdi forgéfins kostad uppá læknara, og undir eins styrkti hann hennar og Jaírí trú, því trúid mér til, ad hann hefir ecki forgéfins talad þessi ord: þín trúa gjørdi þig heila! já, enn þá framar, þegar húskarlar Jaírí runnu í móti hønum, svo sem Lúkas og Markus skrifa, og søgdu: ómaka ecki meistarann, þín dóttir er sálud, þá hefdi hønum mátt til hugar koma, ad þad væri úti, en Jesús slepti ecki sinni hendi af hønum, heldur sagdi hann: óttast ecki, trú þú alleina! Lát þetta dæmi vera þér jafnan fyrir augum, kr. m! þegar þín trúa tekur til ad veikjast í mótgánginum, og þér kémur til hugar med David, ad Gud hafi forgleymt miskunsamur ad vera, Ps. 77; sjá hér, hvad trúr ad þinn Lausnari er, ad hann freistar einkis yfir megn fram, 1 Cor. 10, þú megnar ecki hinn allra minnsta trúarneista ad kveikja í þér, Guds verk er þad; er þad veik trú, þá er þad þó trú, Gud ann sínum gjørníngi, lát sjá, ad þú alleina ecki slóckvir hann med óþolinmædinni og bænarleysinu, og vert svo víss um, ad hann blæs sjálfur ad því glóandi koli, er hann hefir lagt á varir þíns hjarta; hann lét ecki Petrum søckva, þó hann væri trúarveikur, Matth. 14,

hann leyfdi ecki ad hans lærisveinar forgengju, þótt þeir væru lítiltrúadir, Lúk. 8, hann uppvakti Lazarum þótt Martha efadist um, ad hann mundi fyrr upprísa, enn á sídasta degi, Jóh. 11, og hversu opt átaldi hann lærisveinana fyrir þeirra trúarleysi, svo ad þeir beiddu hann og søgdu: herra! auk þú oss trúna; samt ebldist Guds kraptur svo med þeim, ad þeir urdu þess allshugar fegnir, ad þeir máttu njóta þeirrar æru, ad þola allar hádúngar hans vegna. Eg vil ei tala um þad mikla miskunarverk, er Jesús gjørdi vid hinn túnglsjúka og fødur hans, er hann sagdi: ef þú trúir, þá er trúudum allt møguligt; en fadirinn æpti hástøfum og táradist mjøg, segjandi: eg trúi, herra! en hjálpa þú vantrú minni; og Jesús rak Djøfulinn út af hinum túnglsjúka, tók í hønd hans og reisti hann upp, Mark. 9. Svo lát þér nú og nægjast Drottins nád, kristinn madur! þótt þér finnist, ad þín trúa ecki sem sterkust sé, því hans kraptur fullkomnast í breiskleikanum, 2 Cor. 12; og er þetta nú svo úttalad um hid fyrra.

Eptirfylgir ad tala med fám ordum um þad sídara. Ecki minna traust edur hjálparvon stendur kristnum manni af þeirri mynskun, sem vor Frelsari gjørdi á þeirri aumu konu, er med trú sinni þádi heilbrygdi af hønum. Evsebíus skrifar í hans kristindómssøgu og 7 bókar 17 kap., ad hún hafi heidin manneskja verid, kynjud úr Cæsarea Philippí. Þér kynni til hugar ad koma, syndugur madur! ad Kristur hafi ecki gjøra viljad þvílík stórmerki, nema medal síns fólks og Gydínganna, en dæmi hinnar Kananeisku, hundradshøfdíngjans, hinna djøfulódu í Gergeseanna landamerkjum, sýnir allt annad; og því skyldi hann neita þeim kraptaverkanna, hverjum hann hafdi fyrirhugad nád evangelíí, svo sem stendur hjá Esa. 62, ad Drottinn muni framleida sitt réttlæti og sína dýrd fyrir allar þjódir. Þú segir, Gud gjørir þó ecki kraptaverk manna á medal á þessum døgum; en seg mér: hvert er kraptaverk meira enn þad, ad hann hefir gjørt oss Abrahams sonu af steinum, þad er af heidíngjum, þeim er stocka og steina dýrkudu og voru þeim sjálfir líkir. Þessi vesæla kvinna var þúngum sjúkdómi undirvorpin, og óhrein køllud eptir løgmálinu, hver hana snerti, skyldi óhreinn vera allan dag til kvølds; en ecki skédi þad þarfyrir, ad kvinnurnar á þeim tíma væru meir óhreinar í Guds augliti, heldur enn einn daudur líkhami, hvern enginn mátti snerta, heldur svo sem þad var bodid í Guds løgum, til ad teikna oss andliga í syndunum dauda, svo var og hitt til ad minna oss á spillíngu náttúru vorrar; en þótt ad þessi fáráda manneskja væri svo á sig komin, samt fyrirlítur ecki Jesús hana; allt er hreinum hreint, Tít. 1, svo var og hønum, sem er hreinn og heilagur, og fráskilinn syndurunum. Þessi kona var óhrein eptir Levítanna løgmáli, svo ad enginn mátti hana snerta, né klædi hennar, en strax sem hún hans klædafald snerti, er sjálfur Leví børn hrein gjørir, þá vard hún bædi hrein og heilbrygd. Tak þér þad til huggunar, syndugur madur! þegar Satan freistar þín med ørvæntíngunni, kannské ecki fyrr enn í þeim sídustu andarslitrum, nær hann er sem ákafastur, því hann veit hann hefir stuttann tíma; þitt réttlæti er svo sem nidlagsfat, hvad munu þá vera þínar blódugar illgjørdir? en sjá! hér er opnadur einn brunnur Davíds húsi, og þeim sem byggja til Jerúsalem, til hreinsunar syndaranum og blódfallssjúkum; þú ert óhreinn, svo sem kona þessi, og eckert óhreint má

innkoma í þá himnesku Jerúsalem, en hér er blód Jesú, sem hreinsar þig af öllum þínum syndum, 1 Jóh. 1; þínar syndir eru raudar sem blód, Esa. 1, en Jesús er fyrir sitt egid blód einusinni inngenginn í þad allrahelgasta, ad útvegadri eylífri endurlausn, Heb. 9, þarfyrir vill hann gjöra þær hvítar sem snjó. Þú hefir eckert Gudi ad lúka fyrir syndina, þessi kvinna hafdi ecki heldur neitt ad gjalda í læknislaun, því hún hafdi eydt þar til allri eigu sinni, ad hún mætti heilbrygd verda, en fór þó jafnan vesnandi, Jesús æskti og engra launa af henni, heldur sagdi hann: vertu hughraust dóttir, þín trú gjördi þig heilbrygda; hann krefur og ecki endurgjalds af þér, því hvad má madurinn Gudi gjalda? trú þú alleina því, ad hann sé forlíkun fyrir þínar, og ecki einasta fyrir þínar, heldur og fyrir allar veraldarinnar syndir, 1 Jóh. 2, og heyr þau líknarfullu ord, er hann talar, Esa. 55: heyrid! hver sem ad þyrstur er, komi til þessara vatna, og hver sem eckert gjald hefir, hann komi og kaupi fyrir eckert, komid! segi eg, komid og kaupid fyrir utan peninga, og utan andvirdi, bædi vín og mjólk; hvarfyrir láti þér ydar peninga úti fyrir matleysu, og ydar erfidi fyrir þann hlut sem ei kann ad sedja. Kona þessi géck bak vid Jesúm, hún var óhrein, hún var örfátæk, hún var ad öllu leiti aumliga á sig komin, hun þordi ecki ad yrkja ordi á hann og skammadist sín ad bera sína kveinstafi fram fyrir slíkan herra. Æ! hvad mætti syndarinn þenkja, sá er optliga hefir velt sér í sama saur og eins og hundurinn gengid aptur til spýunnar? mun hann ecki fyrirverda sig ad koma fram fyrir hann, í hvers augliti ad ecki eru himnarnir hreinir, fyrir hverjum hinir dýrdligu Cherúbím hylja sín andlit? sannliga væri þess meir enn von, en fyrir Jesú forþénustu skuld, hvers ásjónu þeir byrgdu og hræktu í hans andlit, þá megum vér med fullu trausti gánga til nádarstólsins, svo ad vér miskun ödlumst í hentugan tíma, Heb. 4; þó skaltu vita, syndugur madur! skyldu þína, þegar þú sem ert mold og aska, dyrfist ad tala vid Drottinn, ad honum ber dýrdin og heidurinn, en þér ber blygdan þíns andlitis, svo gjördi þessi kvinna, því hlaut hún miskun; svo gjördu hinir 10 líkþráu, þeir stódu fjærri, því urdu þeir hreinsadir; svo gjördi hin bersynduga í Símons Pharíseara húsi, med hverjum Jesús var ad heimbodi, hún kraup bak til vid hans fætur og þvodi þá med tárum sínum og þerradi med sínum hárlockum, kysti þá og smurdi med vidsmjöri, en er Pharíseus hneixladist þar á í sínu hjarta og meinti þad væri óhæfa, ad slíkur stórsyndari skyldi snerta hann, sem fólkid hélt spámann ad vera, þá lét Jesús hann sjálfan leggja dóminn á, ad sá mundi elska meir, sem meira uppgéfid væri, en Drottinn sagdi til hans: af því hún elskadi mikid, þá eru hennar mörgu syndir fyrirgéfnar. Ad sídustu snertir kona þessi hans klædafald, eptir því sem hún rád fyrir gjördi med sjálfri sér; nær þordi hún ecki ad gánga og er líkligt ad hún hafi ætlad ad dyljast, þar hann stód midt í mannþraunginni og mundi hennar því ecki gjæta. Margur hefir Jesúm snortid í þessum hóp, en enginn svo hart sem þessi kona. Þad stendur skrifad um vorn herra, ad þegar hann sá aumur á nockrum, ad hans idur hafi komist vid í honum af medaumkun svo hefir og hér verid, hann fann krapt út af sér gánga, hans födurlig gjæska gat ecki leynt sér, brunnur miskunarinnar vall hér upp sjálfkrafa og sjálft himnaríki þoldi hér ofríki; en lát þér þad af þessu til hugar koma, Guds elskuligt barn! ad Jesús Kristur

uppfarinn yfir alla himna, og er ecki framar med oss ad líkhams vistum, samt uppfyllir hans klædafaldur þad heila musteri, sem er kristilig kyrkja Guds hér á jørdunni, þar n spáir Zacharías, 8 kap: þad skal ské á þeim døgum, ad tíu menn af øllum túngu-álum skulu þrífa í klædafald gydíngsins og segja: vér viljum fara med ydur, þvi vér yrum ad Gud sé med ydur. Hvernig er hann þá med sinni kyrkju hér á jørdunni? í dinu og sakramentunum, þad eru hans klædi, þar er hann ad finna, þángad áttu ad ísa med trúarinnar hendi, þá ertu hønum eins nærri og enn þá nær enn þessi kona, allra helzt skalltu til þessa ráds taka, þegar øll ønnur bila, nær hinn sídarsti mótgángur udinn þér ad høndum kémur, og þínar líkhamligar hendur þreifa ei leingur; haf þá o fest þína trúarhønd á þessum Jesú klædafaldi um nádartíman, ad þú sleppir hønum drei fyrr enn hann blessar þig, og mun í gégnum hann ofan fljóta til sálar þinnar kraptur hædum, sá ed hana heilbrygda gjøri af øllum sálar og lífs meinum; en hann sem eng-n vill frá sér reka, er til hans kémur, hann sem lofad hefir ad bænheyra medan þú ert bidja, hann sem sjálfur þreytti vid daudann, og tók ákafliga ad bidja og kann þarfyrir sampínast eymdum þínum, hann, segi eg, mun svara sálu þinni fyrir heilagan anda, er ed vitnar med þínum anda, ad þú sért Guds barn: vert hughraust mín dóttir! þín ia gjørdi þig hólpna; þad veiti oss øllum gódur Gud, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Tuttugasta og Fimta Sunnudag eptir Trínitatis.

### Gudspjallid, Matth. 24 Kap.

Á þann tíma, Jesús sagdi til sinna lærisveina: nær ed þér sjáid ívirding foreidslunnar (af hvørri sagt er fyrir spámanninn Dani-) standandi í helgum stad: hvør sem þad les, hann hyggi þar ), hvørjir þá eru á Gydínga landi, flýi þeir á fjøll og hvør ann er á rjáfri, fari hann eigi ofan nockud ad taka úr sínu úsi og hvør sem á akri er, snúi hann ei aptur ad taka sín klædi. n vei þungudum og brjóstmylkingum á þeim døgum. En bid-d, ad ydar flotti verdi ecki um vetur og eigi á þvottdegi, þvíad á mun verda svo stor hørmung, hvílík ad eigi var í frá upphafi eraldarinnar, allt til þessarar stundar og ei heldur mun verda; nema ad þessir dagar verdi styttir, verdur eckert hold holpid, i fyrir útvaldra sakir, þá skulu þeir styttast. En ef nockur seg-þá til ydar, sjáid! hér er Kristur eda þar, þá skulud þér ecki ví trúa, þvíad þar munu upprísa falskristar og falsspámenn og eir munu gjøra stor tákn og undur, svo ad í villu munu leidast f ské mætti) einninn útvaldir. Sjáid! eg sagda ydur þad fyrir. Nú, ef þeir segja til ydar, sjáid! hann er á eydimerku, þá gáng-ecki út; sjáid! hann er í launkofum, þá trúid eigi, þvíad líka

sem elding útgengur af uppgaungu og skín allt til nidurgaungu, líka svo mun og vera tilkoma mannsins sonar; þvíad hvar hellst ad hræid er, þángad munu og ernirnir safnast.

## Exordium.

Jesús býdur sínum lærisveinum í þessu gudspjalli, ad þeir skuli ei trúa, þótt ad þeim sagt verdi: hér edur þar er Kristur, því þar munu upprísa margir falskristar og falsspámenn, med ødru fleira sem eptirfylgir, og í gudspjallinu sér líkast hermir. Allt rættist þetta strax eptir hans daga, svo af þessu má sjá, ad þad satt er sem Pálus um hann segir, ad í hønum séu huldir allir fjársjódir vitskunnar. Ecki einasta fundust þeir medal gydínga, er sig gjørdu ad Christi, svo sem var Bar Cocaba, er anno 130 safnadi ógrinni her á móti Hadríanó keisara, og sagdist vera stjarna sú, er Bíleam um spáir, Num. 24, heldur og medal þeirra er sig kristna kølludu, svo sem var Símon hinn fjølkunni, og ótal fleiri, sem út komu af hans skóla og toldu fólkinu þá trú, ad þeir væru heimsins endurlausnarar, gjørdu og mørg følsk kraptaverk, svo sem af fornum kristindóms søgum er alkunnugt; vid þessum tekur Jesús vara sínum lærisveinum og ecki einasta þeim, heldur og øllum þeim, sem hann og hans kénníngar elska mundu, því svo sem hann sagdi í bæninni til síns himneska fødurs: eg bid ecki einasta fyrir þeim (hann meinti lærisveinana) heldur og fyrir þeim, sem á mig trúa munu, fyrir þeirra ord; svo hefir hann og þetta øllum þeim sagt, er postulig kénníng bodud verdur, svo sem hann og med berum ordum segir hjá Marcum í 13 kapítula: þad eg segi ydur, þad segi eg øllum, vakid þér; og fyrir því, ad áminníng þessi heyrir og oss til, yfir hverja líkligt er ad heimsins endir sé kominn, þá vil eg hana alleina med sínum lærdómum stuttliga yfirvega. Hvar til oss adstodi gódur Gud med krapti síns anda, í Jesú nafni, amen!

## Utleggíngin.

Aldrei kunnum vér Guds fødurligri gjæsku þarfyrir ad fullþacka, ad hann hefir landi voru þyrmt fyrir villum og afgudadýrkun, hans nafn sé þarfyrir lofad og vegsamad um aldir alda; samt mun þó ecki Satan láta oss hlutlausa, varni Guds milda hønd vid því, ad hann deydi sálir mannanna med følskum kénníngum, þá leitar hann til med illum dæmum, med vondum fortølum og áeggjun til lasta og vondra verka, med tómlæti og hyskni í því ad vísa þeim Guds gøtu, sem hana ecki fá sjálfir ratad; litlu skiptir med hverju móti ad Fjandinn og hans verkfæri svíkja daudligra manna sálir úr Guds hendi; ill heimsins eptirdæmi, sérdeilis þegar þau ecki strøffud eru, þau eru sterkari til ad draga taum Andskotans, en nockur villumadur; margur mun vera fyrir ránga trú fordæmdur og þó kann ské ei færri fyrir illann verknad; þarfyrir segir og Endurlausnarinn: vei þeim manni, fyrir hvern ad hneixlanin kémur, Matth. 18; eptirdæmid er ein almennilig túnga, sem allir skilja. Þad var haldid furduverk um Mitridatem Konúng í Ponto, ad hann hafdi í lidi sínu allrahanda þjódir, og gat þó talad sínu túngu vid hvern þeirra; en þad er stærra furduverk, ad eitt eptirdæmi talar þegjandi vid alla menn, sem þad heyra, og þótt þad sé hljódlaust sjálft, gjørir þad þúsund túngur skírt talandi; ill dæmi spilla bædi vondum og gódum, vonda draga þau til eptirbreytni, því hvad elskar sér líkt, hann góda til ad tala illa um þann, sem þad af sér géfur, því fáir eru svo rádsettir, ad ecki hallmæli þeim sem illt adhefst, jafnvel þótt verkid byrji ad hata en manninn elska og menn eigi ad lagfæra þad sem illa fer, en lasta ecki, svo sem Páluś áminnir þá í Galatía, segjandi,

6 kap: brædur! ef nockur verdur yfirstíginn af einhverri hrøsun, þér sem andligir erud, leidréttid þann sama med hógværum anda. Pad er ad vísu satt, ad enginn er sá á medal vor, er kénni villu neina; en hvert ad vér kunnum þarfyrir ad hrósa oss af því, ad hin sanna trú á Christum, fyrir hverja menn sáluhélpuir verda, hvert ad hún drottni í allra manna hjørtum, þar um mættu menn efast nærsta mjøg. Endurlausnarinn segir um fals-spámennina, ad af þeirra ávøxtum skulu menn þeckja þá; og hid sama þori eg ad segja um þá, ed hrósa sér af gudhrædslunni (þad er af kristindóminum, svo sem Páłus hann á stundum nefnir) en afneita þó hennar krapti, 2 T m. 3. Hver er þá kristilig trú? hún ed verkar fyrir kjærleikann, Gal. 5; en hvernig hønum varid sé á þessum vestu og síđustu døgum, þad finnur hver einn, þegar hann stíngur hendinni í sinn eginn barm og spyr sitt hjarta ad, hversu fús ad hann sé á ad tilgéfa sínum náúnga hans misgjørdir; hvad mikid hann vill missa af sínum munum, til ad hjálpa þeim auma og naudstadda; hversu ljúfur hann er á ad assaka sinn bródur, tala vel um hann, og færa alla hluti til betri vegar, hversu kostgjæfnir ad foreldrar og húsbændur eru í því, ad ala upp børn sín og hjú í Guds ótta og gódum sidum; med hverju skapi ad børn og þjónustufólk hlída foreldrum og húsbændum, edur hinir undirgéfnu þeim yfirbodnu; allt ætla eg þetta fari í ólestri hjá morgum manni; hver þad heyrir, hann hyggi þar ad, edur hver er þá kristinndómurinn, er menn hrósa sér af? þegar kjærleikann vantar; hver ad er sál trúarinnar, svo sem Jakob segir: ad hún sé daud án verkanna, 2 kap. Hér stendur í øndverdu gudspjallinu: nær þér lítid svívirdíng foreydslunnar, standandi í helgum stad; margar gétur eru á því, hvad þetta verid hafi: nockrir meina þad hafi verid bilæti hins rómverska Keisara; adrir neita því og segja þad hafi aldrei innkomid í Jerúsalems musteri; sumir ætla þad eckert annad sé, en her Rómverja, af því, ad þegar Lukas skrifar um þetta efni, segir hann: þegar þér sjáid Jerúsalem umkríngda med herskyldi; edur og svo óaldar flockur sá, er skømmu fyrir eydileggínguna braust inn í Jerúsalem, og saurgadi musterid med mordi, manndrápum, og allra handa svívirdíngum; þessir vóru gydínga kyns og kølludu sig Zelotas, þad er vandlætara, og var þad svívirdíng nógu stór, ad þeir settu uppá sig nafn gudligrar vandlætíngar, sem Guds musteri smánudu og svívirtu, verr enn nockurn tíma heidíngjar. Til eru þeir sem hyggja, ad þessi svívirdíng foreydslunnar hafi verid gullørnin sú, er Heródes konúngur lét setja uppá musterid, til ágætis vid Róma ríki, hvers merki ad ørnin var, og høfdu Romverjar á þeim átrúnad mikin, þess gétur Tacitus í sinnar annála bókar 2 kap., er og all-líkligt ad þad hafi nockud þesshattar verid; því svívirdíng foreydslunnar, sú er Daníel talar um, 11 kap., er án alls efa bilæti skúrgodsins Júpíters, er Antíochus Epíphanes lét setja inn í Guds musteri, af hverju ráda má, ad þessi, er Daníel um spáir, 9 kap., og Endurlausnarinn hér um gétur, muni hinni fyrri á einhvørn hátt hafa lík verid; samt er allt þetta ad vísu óvíst, og þótt eg segi hér um ýmsra manna meiníngar, til fródleiks þeim, er eptir vilja taka, þá vardar oss, kristna menn, nærsta lítid hér um, en hitt byrjadi oss ad rannsaka hvert ad svívirdíng foreydslunnar kynni ecki enn nú ad finnast í Guds kyrkju, ef vel er leitad. Í Jerúsalem hafdi Gud sett minníng síns nafns æfinliga, hin líkhamliga er nidurbrotin, Guds reitisformur hefir

henni um koll kastad, en hin andliga mun verda hjá oss til enda veraldar, Matth. 28, en hvert henni er alltíd svo hreinni haldid, sem byrjar, þar er vandliga adgjætandi. Jeg sagdi, ad í Jerúsalem hefdi Gud sett minníng síns nafns, þar bjó hann yfir Cherúbim, en það er ecki minni náð, ad hinn ædsti prestur hefir sagt til vor, Jóh. 14: hver sem elskar mig, hann vardveitir mín ord og minn Fadir mun elska hann, til hans munum vid koma og vistarveru hjá hønum gjøra. En æ oss daudliga menn, undir syndina selda, hversu lítil er minníng Guds nafns hjá oss, þegar vér metum alla hluti framar hans dýrd? hversu lítid af vorum gagnsmunum, voru líkhamans eptirlæti, vorum virdingum, viljum vér á stundum missa fyrir hans elsku; hvad opt metum vér bod mannanna meir enn Guds, og hrædumst meir þá ed líkhamann kunna ad deyda, enn hann, sem lífi og sálu kann ad kasta í eylífan eld? hvad opt gjørum vér sjálfa oss ad Gudum, er vér tilreiknum vora hamíngju og luckulán framsýni vorri og erfidismunum, en gjætum ecki ad því, ad nema Gud vakti borgirnar, þá vakta vøkumennirnir til forgéfins, nema Gud byggi húsid, þá erfida þeir ed byggja til ónýtis? Ps. 127; hvad lítil er minníng hans nafns hjá oss, þegar vér vanbrúkum hans heilaga nafn, sverjum og ljúgum þar vid, já, þykir þad enginn synd vera, því þad sé dagligt mál? já, margur selur Jesúm fyrir minna enn Júdas, sá ed leggur hans nafn vid hinn allra minnsta hégóma; hversu lítil er minníng hans nafns hjá oss, þá vér forøktum hans heilaga ord og fordumst þángad ad koma, sem þad er um hønd haft? hversu lítid minnumst vér þá á hann, sem mótmælin þoldi af syndurunum, til ad opinbera syndugum mønnum lífsins veg? þegar vér viljum ecki ljá vor óumskorin eyru til ad heyra þad, sem þó er kraptur Guds til sáluhjálpar øllum þeim sem trúa, Róm. 1. Menn sitja á stundum undir heyrn Guds orda og vita ad H. Andi er í ordinu, og þad er eins og eitt mustardskorn, hvert ad er hid minnsta medal sádanna, en vex þó svo hátt, ad fuglar himinsins búa sér hreidur í greinum þess, Matth. 13, samt vilja menn ecki ljá því hid allra minnsta rúm í akri síns hjarta, hvar inni þad frjófgast megi og ávøxt færa; svo sitja vorir búgardar, vor akneyti og allra handa hégómi veraldarinnar þar, sem hin heilaga guddómsins brenníng ætti ad sitja, í sínu musteri, sem ad er vort hjarta, 1 Cor. 3. Segid mér í Guds nafni, segid mér, er ecki þvílíkt svívirdíng foreydslunnar standandi í helgum stad? Jesús hefir látid í sína kyrkju hér á jørdunni innsetja sitt bílæti, þad er kjærleikurinn, þad er hans mind, því hann er Gud og ljómi síns Fødurs og ímind hans guddómligrar persónu, Heb. 1, en Gud er kjærleikurinn, 1 Jóh. 4; þetta sitt bílæti fékk hann í hendur sínum elskuligum lærisveinum, er hann sagdi, Jóh. 13: þar af skulu allir þeckja ydur, ad þér séud mínir lærisveinar, ad þér elskid hver annan. Þessa líkneskju Jesú settu þeir inn í hans kyrkju hér á jørdunni, med allri trú og dygd, því skrifad er, Act. 2: ad allir hlutir vóru sameginlegir med þeim trúudu í Jerúsalem; þeir báru eigur sínar fram fyrir postulanna fætur, til ad skipta þeim upp medal naudþurftugra, og allir vóru þeir í eindrægni andans; ó! hvad ólíkir þessum tímum, þar rán og stuldur, okur, harddrægni, ráugsleitni í kaupum og sølum, miskunarleysi, agg, reidi, fjandskapur, øfund og drambsemi þykja sumra manna á medal, annadhvert engir ókostir, edur og svo smáir lestir ad vera; er þad hans bílæti, sem svo heitt elskadi

oss, ad hann dó fyrir oss rángláta, þá vér vórum hans óvinir? Róm. 5, er þad hans líking, sem ecki upplauk sínum munni, þegar hønum var mótmællt, heldur enn saudur til slátrunar leiddur? Esa. 53, er þad hans mind, sem géck í kríng, gjørdi gott og græddi alla, já, allt gjørdi hann vel, því dausa lét hann heyra, og mállausa tala? ó, vei! ó, vei! jeg þori ad segja, þar er ønnur mind innkomin, ecki hins rómverska keisara edur hans merkis, heldur Andskotans og hans merkis, sem er syndin, hverja ad madurinn lætur drottna í sínum daudligum líkhama, og ljær limu sína henni til vopna. Pér erud af fødurnum Fjanda og leitist vid ad fyrirkoma mér, segir Jesús vid gydínga, Jóh. 8, menn þeir ed eru hardbrjóstadir, ásælnir, sérplægnir og ecki þirma hans limum, munu þeir ecki strída undir sama merki og þeir ed hann høfudu og af lífi tóku? edur hvad er þad sem raustin af himni sagdi vid Pál, Act. 9, er hann fór med hernadi og ófridi til Damaskum, á móti Guds søfnudi: Saul! Saul! því ofsækir þú mig? edur þad sem dómari lifendra og daudra vill segja til hinna gudlausu, þegar hann kémur í skýum himins med magt og miklu veldi, á hinum stránga degi alls holds: hvad þér gjørdud einum af þessum mínum minnstu brædrum, þad gjørdud þér mér, Matth. 25. Andskotinn kom í orms líki, þegar hann sveik vora fyrstu módur, þad var hans mind; en Kristur nefnir þá eyturorma og nødru kyn, Matth. 23, sem ad útsjúga hús eckna og fødurlausra, þeir ed tíunda mintu, anís og kúmen, hluti sem eckert var íspunnid, enn gleimdu því sem helzt er í løgmálinu, trúnni og miskunseminni. Mun ecki þessi høggormsins mind allvída vera skridin inn fyrir Drottins altari, sem er mannsins hjarta? þar slóttskapur og undirhyggja spunnin saman vid ágirni og fédrátt, og adra þvílíka lesti, þykir framsýni ad vera, og fá vitfirríngur, sem ecki kann ad fleyta sér í þessu. Kristur segir hér í gudspjallinu: ad háski þeirra tíma, sem koma muni eptir Jerúsalems eydileggíngu, muni svo mikill verda, ad í villu muni jafnvel leidast, ef ské kynni, útvaldir, og þad vegna falsspámannanna, þeirra er øpudu eptir Guds almætti og sviku margar sálir frá hønum; svo skédur og á þessum vondu døgum alltítt og allvída, ad þeir sem annars mundu frómir vera, þeim tekst þad ecki vegna hinna rángsnúnu og hreckvísu í verøldinni, um hverja Salómon talar, Ordskv. 1, ad þeir segi: kom med oss, vér viljum umsitja blód, og hylja oss ad ósekju fyrir hinum meinlausa; vér skulum eignast mikil audæfi og fylla vor hús med herfáng, legg félag med oss, vér skulum allir einn sjód hafa. Enga argari falsspámenn þarf enn þvílíka Belíals syni, og svo spillta náttúru vora, því hver einn freistast þegar hann af sinni egin girnd verdur tældur og afvega leiddur, þar eptir girndin, nær hún er frjóssøm vordin, fædir hún syndina, en þegar syndin er gjørd, fædir hún daudann, segir Jakob 1 kap. Dragi enginn sjálfan sig á tálar þar med, þótt ad slíkir umgángist med sama hætti og adrir í Guds kristni; þeir heyra ordid, en færa ei ávøxt þar af, þeir brúka sakramentin, en þó sér til dómsáfellis; þeir segja, herra! herra! en gjøra þó ecki fødursins vilja, því vill og dómarinn til þeirra segja á hinu mikla allsherjarþíngi: ecki þeckta eg ydur. Jesús segir um falsspámennina, ad þeir komi í saudaklædum, en innra séu þeir glepsandi vargar; svo eru og þeir, ed locka einfaldar sálir frá Gudi med vondum fortølum; þessir eru þeir er St. Júdas umtalar í hans pistli segjandi: þessir eru blettir í ydar kjærleiksveitslum,

nær þeir halda samsæti med ydur, fædandi sjálfa sig hyggjulaust, ský fyrir utan vatn, hverju vindurinn í kríng feykir, rotnar eikur og ávaxtarlausar, tvísvarsinnum daudar og upprættar; og ef þann veg var háttad á hinum fyrstu kristninnar døgum, þegar ad kraptaverkin fylgdu enn þá kénníngunni; hvad mun ei nú vera, þar ad því mun lída, ad mannsins Sonur ecki finni trú á jørdu? Lúk. 18. Og líkligt er, ad þeir tímar nú yfirstandi, sem røddin af himni spáir um, Apoc. 12: vei ydur sem á jørdunni búid og á sjónum, því Djøfullinn er ofan til ydar farinn, hafandi brædi mikla, af því hann veit hann hefir stuttan tíma. Nú fyrir því, kristnir menn! ad hér er slíkur vodi á ferdum, þá verdum vér af hinum góda meistara áminntir í þessa heilaga dags evangelió; látum oss ecki feykja af hverjum vindi lærdómsins, Eph. 4, edur tegja med hafgýusaung veraldarinnar í snørur djøfulsins. Jesús gjørir þad hér bert med skírum ordum, hvernig hann og hans kénníngu þeckja megi frá annarligum lærdómum. Ef þeir segja hann sé á eydimørku, stendur hér; ad sønnu kéndi Jesús í eydimørku, þó í margra þúsunda áheyrn, ecki í launkofum, því hann taladi eckert í afkimum, heldur kéndi hann opinberliga í musterinu, þarfyrir líkir hann tilkomu sinni vid eldíngu þá, er út fer af uppgaungu, en skín allt til nidurgaungu, hvad eg hygg ad ecki sé ad skilja um hans tilkomu til dómsins, heldur um hans nádartilkomu í ordinu, og leyptran evangelíi, hvers birta ad strax eptir hans himnaför, og allra helzt eptir Jerúsalems eydileggíngu upplýsti mikinn part veraldar frá austri til vesturs og þad dreg eg þar af, ad hér talast ecki um skjótleik eldíngarinnar, heldur um hennar birti, og Jesús er hér um kénníngar ad tala, en ecki um sína tilkomu til dómsins, fyrr enn sídar í þessum sama kapítula. Um þessa birti Guds evangelíi og sinnar prédikunar talar Pálus, 2 Cor. 4, segjandi: þarfyrir høfum vér affalad oss þau fylsni, er menn mega skammast sín fyrir, ecki gángandi med undirhyggju edur falsandi Guds ord, heldur í opinberun sannleikans, gjørandi oss í allra manna samvitskum velþockada fyrir Gudi, því ef vort evangelíum er hulid, þá er þad þeim hulid sem tapadir verda. Nú fyrst ad Guds fødurlig gjæska hefir svo vídt útbreidt þeckíngu síns nafns, svo þad fólk sem sat í myrkrunum hefir séd ljós mikid, Matth. 4, og hún er einnig til vor komin, sem búum undir þessu ytsta heimsins skauti, svo ad segja á fótskør veraldarinnar, þá lát þinn fót vera fúsan, kristinn madur, til ad gánga í Guds hús, þar sem hans ord er um hønd haft, og líd ecki ad sálu þína velgi vid því svo sem ødru léttmeti, því þad er fódur hennar, án hvers henni mun med eylífu húngri sálgad verda í helvíti, hvar fordæmdir ecki fá munu einn dropa vatns til ad kjæla túngu sína med, þar þeir kveljast í þeim loga, Lúk. 16; hvar sem ad hræid er, þángad safnast ernirnir; þetta talar Guds Sonur án alls efa um sjálfan sig. O, minn herra Jesú! því er svo adkvedid þínum blessada líkhama? hvern ad jafnvel englarnir og høfudenglarnir tigna, fyrir hverjum ad kraptar himnanna bifast, fyrir hverjum øll verøldin leikur á reidiskjálfi, í hverjum ad býr øll fyllíng guddómsins líkhamliga, Col. 2, hann verdur hér hræ nefndur; hvarfyrir er þetta skéd, kristnir menn? jeg minnist á mínar syndir á þessum degi, sagdi skeinkjari Pharaónis fordum í Egyptalandi og því mundi oss þá ecki øllu skyldara vera, ad minnast á vorar illgjørdir, sem hafa Guds Son kvaldan, og hertoga dýrdarinnar á krossinn festan? því

sannliga bar hann vorar syndir, og vorum örkumslum hlód hann á sig, hegníngin hefir á hönum legid, og fyrir hans benjar erum vér heilbrygdir vordnir, hann er vordinn hinn fyrirlitligasti og forsmánarligasti, fullur eymda og kránkleika, svo sem sá, ed hyldi sitt andlit fyrir oss, og þar var eckert á hönum, sem vér virdtum, Esa. 53; í einu ordi ad segja: hann var svo sem eitt útkastad hræ, svo sem madkur og ecki madur, fyrir vora skuld, sem láum í voru blódi, útkastadir á vídavánginum, og þar var ecki eitt auga sem miskunadi oss, þegar hann sagdi til vor, í voru blódi, ad vér skyldum lifa, Ezech. 16; en þenna málsháttt framsetur vor Drottinn til þess, ad kénna sínum lærisveinum, hvar hann sé ad finna, sem er, í hinni sönnu kristiligu kyrkju, er hann hefir stiptad hér á jördunni, þar er hans ad leita í ordinu og sakramentunum, þángad sækja allir hans elskendur, svo sem ernirnir ad hræinu. Ef eg verd upphafinn frá jördu, þá mun eg draga alla til mín sjálfs, segir Jesús, Jóh. 12, hann meinar án alls efa, þegar hann yrdi upphafinn á krossins gálga, því Jóhannes skrifar: ad hann hafi sagt þetta, teiknandi med hverjum dauda hann deya mundi. J þessum Jesú dauda hafa allar harmþrúngnar, allar sannydrandi manneskjur, allar þær sem húngra og þyrsta eptir réttlætinu, þær hafa þar, segi eg, eitt andligt fódur, ecki sídur enn ernirnir í hræinu. Heilagur Jóhannes, sá ed þetta skrifar, um hvern og segist, ad Jesús hafi hann elskad, hann verdur samlíktur einum erni, og þad þess vegna, ad hann hefir med hans andligum skilníngi svo hátt flogid, ad enginn hefir svo greiniliga talad um þann órannsakanliga leyndardóm guddómsins þrenníngar, og holdtekjunnar Christí, sem hann í hans evangelíí og pistils fyrstu kapitulum. Ein réttkristin sála er einn sannur Christí lærisveinn, hvern hann elskar, hennar umgengni er á himnum, hvar hennar féfjódur er, þar er hennar hjarta, en hennar féfjódur er á himnum, hverjum ei kann mölur né rid ad granda, Matth. 6, hún flýgur upp í hædirnar med trúarinnar vængjum, undir hverrar hlídni hún géfur sína skilníngu fángna, þar finnur hún sitt fódur, því hans hold er sannarlig fæda, og hans blód sannarligur dryckur; þetta sitt hold og blód gaf hann sínum elskuligum lærisveinum til nautnar í drottinligri kvöldmáltíd, skömmu ádur enn hann líflátinn var, og gjördist svo sem eitt hræ fyrir vorra synda sakir, þángad safnast enn nú í dag, eptir hans bodi, allir þeir sem erfida og þúnga eru þjádir, til ad endurnæra sálir sínar og ad minnast dauda Drottins, med hverjum þeir forlíktir eru vid hinn lifanda Gud, hann sedur þinn munn med gjædum, og endurnýar þinn úngdóm, svo sem arnarinnar, segir Davíd, Ps. 103; hvergi skédur þad heldur, enn í medtöku Christi holds og blóds, þá madurinn þess neytir undir eins med trúarinnar munni og einn harmþrúnginn andi smackar hvad sætur ad Drottinn er, því Jesús segir: eg er hid lifanda braud, sem af himnum ofan kom, ef nockur etur af þessu braudi, hann skal eylífliga lifa, enn þad braud, er eg géf, er mitt hold, sem eg mun útgéfa fyrir líf veraldarinnar, Jóh. 6; hann meinar hér samt hina andligu nautn, sem med trúnni skédur; fyrir því segir hann aptur svo, Jóh. 11: eg em upprisan og lífid, hver sem á mig trúir, þótt hann sé daudur, þá skal hann samt lifa; já, af þessari andligri nautn, verda þeir himneskir ernir, sem eru kristnar sálir andliga endurnýadir, og alltíd ein ný sképna í Guds

augliti, því af henni vidurkveikist trúin, af trúnni kémur elskan, af elskunni fædist kjærleikurinn til náúngans, af hverjum ad uppspretta allar kristiligar dygdir og mannkostir; þarfyrir segir Jesús enn þá, Jóh. 6: sá sem etur mitt hold og drekkur mitt blód, hann blífur í mér og eg í hønum; en sá madur er blífur í hønum og hann í manninum, hann ber mikinn ávøxt, Jóh. 15. Eg hygg Jesús hafi tekid þenna ordsháttt af Jobs bókar, 39 kap., þar ed Drottinn segir vid hann um ørnina, hún býr í klettunum og í fjøllunum og í turnunum, þadan skygnist hún eptir ætum lángt á leid med augum sínum, hennar úngar drecka blódid og hvar sem hræin eru, þángad flýtir hún sér. Minn herra Jesú! hver er hann, sem segir, Lofk. 2: mín dúfa! þú sem í bjargskorunum býr, og í fylsnum hinna þverhnýptu klettanna, sýn mér þitt andlit, og lát mig heyra raust þína, því þín raust er føgur, og þín ásýnd lystilig; ertu ei sjálfur þad, minn herra Jesú? hver er hin sæta raustin? þad er þad lofid þú hefir þér tilreidt af munni smábarnanna, sem mylkja sinnar módur brjóst, og þinnar unnustu. Hver er hin fagra ásýnd? þad er sú, sem þú oss afrekadir, þegar þín ásjána vard afskræmd, meir enn annara manna. Hver er þín dúfa, minn herra? þad er þín kristilig kyrkja, sem hér verdur í evangelíó ørn køllud. Hverjar eru bjargskorurnar? þad eru þínar blessadar undir, þú sem ert vort fasta bjarg, og hella vors hjálpræđis. Hverjir eru hennar úngar? þad eru þín og hennar børn, þín børn, sem Drottinn hefir géfid þér, Es. 8, og ecki eptir holdsins vild edur mannsins vilja, heldur eptir Gudi eru fædd, hverjum þú hefir og magt géfid Guds børnum ad vera, Jóh. 1. Hvert er þad blódid, er þeir lepja? þad er þitt blód, ó, Jesú! sem ad hreinsar oss af øllum vorum syndum, 1 Jóh. 1; hvert er þad hræid, er þeir safnast ad? þad er þinn blessadur líkhami, sem er sannarlig fæda, Jóh. 6, og á gálgann var fyrir vorar illgjørdir heingdur; þángad viljum vér safnast, þar viljum vér sadníng finna sálum vorum, þar viljum vér lifa og deya; í þessum bjargskorum viljum vér hylja oss á hinum stránga degi, medan reidin fram hjá gengur, og ecki segja til hálsanna, hyljid oss, edur fjallanna, hrynjid yfir oss, því þú Drottinn ert vor kastali, vort ørugt vígi, vort fasta bjarg. Þér med Fødur og H. Anda, sé lof, prís, heidur, vegsemd og æra, af øllum útvøldum englum og mønnum søgd og súngin, um aldir alda, amen, í Jesú nafni, amen!

## Tuttugasta og Sjøtta Sunnudag eptir Trínitatis.

Gudspjallid, Matth. 11 Kap.

Í þann tíma, Jesús andsvaradi og sagdi: eg þacka þér Fadir og Drottinn himins og jardar! ad þú duldir þetta fyrir spekíngunum og vitríngum, og opinberadir þad smælíngjum; ad sønnu, Fadir! þvíad þad var svo þægiligt fyrir þér. Allir hlutir eru mér í vald géfnir af mínum Fødur, og enginn þeckir Soninn nema Fadirinn, og enginn þeckir Fødurinn nema Sonurinn, og hverjum Sonurinn vill þad opinbera. Komid allir til mín

þér sem erfidid, og þúnga erud hladnir, eg skal endurnæra ydur. Takid á ydur mitt ok, og lærid af mér, þvíad eg em hogvær og af hjarta lítilátur, og munud þér finna hvíld sálum ydrum, þvíad mitt ok er sætt og mín byrdi er létt.

## Exordium.

Valla trúi eg, ad nockur huggunarsamligri grein finnist í heilagri ritníngu, enn þau dýrmætu ord Frelsarans, er standa í þessu blessada evangélíó, med hverjum hann hefir til sinnar nádar og endurnæríngar bodid øllum þeim, sem erfidi drýgja, og þúnga eru þjádir. Hvad kann sá glediligra ad heyra, sem allskins eymdum hladinn er, og einkis á von nema eylífra písla, heldur enn þad, ad hann sem allt vald er géfid á himni og jørdu, Matth. 28, hann býdur til sín ad fyrra bragdi svoddan einni voladri og tapadri manneskju, og ecki einasta býdur henni til sín, heldur og lofar ad hann vilji endurnæra hana? þetta er svo dýrmætt ord, ad eckert kann fagnadarsamra ad hugsast edur talast; en hverjir ad séu meintir med þessum Lausnarans ordum, þar um er ecki allra meiníng eins. Sumir ætla ad Drottinn hafi talad hér um þá sér í lagi, sem ad leitudu sáluhjálparinnar á þeim døgum í kyrkjusida løgmálinu, í fedranna setníngum, og í verkum løgmálsins, en kunnu þó enga hvíld ad finna sálum sínum þar af. Þessi meiníng er Guds ordi samhljóda, því Esaias 9 kap., kallar løgmálid byrdar þúnga. Adrir meina ad hér med séu þeir meintir, sem undir krossinum stynja, og bera Christi ok á herdum sér, en brjóta þó ecki okid í sundur, edur þverskallast á móti Gudi, sem þad áleggur. Ad sídustu ætla nockrir, ad þad séu þeir, sem stynja undir byrdi syndanna, og skélfast fyrir Guds reidi og eylífri fyrirdæmíngu. Nú fyrir því, ad hinn stóri biskup med þó vellærdu túnguna plagadi á sínum hérvistar døgum mikla og marga hluti í fáum ordum inni ad binda, þá hygg eg ad allt þetta, sem ádur er um gétid, sé fólgid í þessu máli, hann býdur øllum til sín, þad er øllum þeim, sem á einhvørn hátt eru mæddir edur þúnga þjádir, jafnvel ógudligum, ydrunarlausum og þverþrotnum, hverjum hin mesta byrdi á herdum liggur, þótt ei finni þeir til hennar, þar hann er fyrir alla dáinn, 2 Cor. 5, og fyrir hverja hann dáinn er, þeim hefir hann til sín bodid, því enginn vill hann tapist, heldur ad allir komist til sannleikans vidurkénníngar, 1 Tím. 2, en søkum þess, nú er enginn sá medal vor, sem leiti ad sáluhjálpinni í løgmálsins verkum edur setníngum, en um krossburd Drottins hefi eg nockrum sinnum ádur talad, þá vil eg í þetta sinn tala um þá, sem undir byrdi syndanna þreittir eru, og hvad þad sé helzt, sem oss eigi ad leida til ad taka fegins hendi á móti þessu nádarfulla tilbodi. En þú, gjæskuríki fadir! sem øllum hefir til þinnar miskunar bodid, styrk oss med krapti þíns anda til þessa verks, fyrir Jesúm Christum, amen!

## Utleggíngin.

Þótt þar eckert annad væri, sem kynni ad hræra oss til ad fagna þessu gjæskuríka bodi, þá er þad vor eigin eymd; hvør er svo þyrstur, ad hann verdi ecki feginn ad drecka, húngradur ad mettast, þreyttur ad hvílast, sjóhrakinn ad ná høfninni, sjúkur, ad hann ecki géfi aleigu sína til, ad hann megi heill verda, og sá ed í fángelsi situr, ad hann kaupi ecki lausn sína dírum dómum? en nú er þad audvitad, ad manneskjunni á medan hún er undir Guds reidi, henni er midur farid enn øllum þessum. Enginn þorsti, húngur, erfidi edur sjúkdómur kann ad jafnast vid þad, ad eiga von á hans óblídu, fyrir hvers augliti ad skjálfa fiskar sjáfarins, og fuglar himinsins, og dýr merkurinnar, og øll skridkvikindi á jørdunni, og allir menn, sem á jørdunni eru, fjøllin klofna, bjørgin hrynja, og allir

múrveggir munu til jardar falla, Ezech. 38; eckert hafrót er svo sem Belíals beckir, Ps. 18, svo sem þau vøtnin, sem gánga inn ad sálu eins ángráds syndara, Ps. 69; hver eru þau bønd og fjøtur, sem megi jafnast vid myrkranna hlecki, 2 Pet. 2, vid þad díki sem vellur af eldi og brennisteini? Apóc. 21, og kunnum ve'r ecki ad efast um, ad allt þetta er syndaranum búid, þegar ve'r lesum í løgmáli Drottins, Devt. 27: ad sá skuli bølvadur vera sem ecki heldur allt þad sem þar er inni skrifad; segid me'r þá, børn mín! hvílík fásinna er þad, ad taka ecki á móti hønum med allskonar blídu, sem býdur mønnunum ad gjøra þá kvitta vid ósköp þessi? hjá hverjum øll veraldarinnar ógjæfa, húngur, fatleysi, banvænar sóttir, ørbyrgd, útlegd, offsóknir, eldsnaud, sverdseggjar, og jafnvel sjálf fjørbrotin í daudanum, þótt allt þetta í einu hladist á eina manneskju um allan heims aldur, þá væri þad, segi eg, hid mesta eptirlæti og sæla hjá hinum eylífu hørmúngum, er syndin hefir tilunnid; og væri nú þetta tilbod ecki svo mikils virdandi, ef ve'r hefdum nockud til þess unnid, edur leitudum þess ad fyrra bragdi, því þad kynni þá ad heita svo sem nockurskonar verdkaup, svo sem ef einn þe'nari gjørir eitthvad þad, sem einum høfdíngja vel líkar, ad hann setur hann vid sitt bord, og sæmir hann gjøfum, jafnvel meir enn hann hafdi tilunnid; Davíd gjørdi vel vid Mephibózet, og le't hann eta mat vid sitt bord, søkum vináttu sinnar vid Jónathan fødur hans, 2 Sam. 9, vidlíkt gjørdi hann og vid son Barzillaí úr Gilehad, 1 Reg. 2, en því er ecki til ad segja hjá oss; enginn leitar ad Gudi þegar hann ke'mur í þenna heim, sjálfur býdur hann oss til sinnar endurnæríngar í skírninni; þad má um alla menn segja, sem ritníngin segir um hina vantrúudu verøld, ad allt hold hafi fordjarfad sína vegu, Ge'n. 6, reidinnar børn fædumst ve'r, Eph. 2, reidinnar børn mundum ve'r uppalast, og deya reidinnar børn, nema Gud fyrir Jesú dauda hefdi meiri miskun á oss gjørt. Eg heyri ecki í gudspjallinu, ad þad fólkid sem var samankomid ad heyra þessa pre'dikun, þad hafi leitad eptir þessu tilbodi; hann blessadur var í þessari rædu ad straffa þær ógudligu borgir Córazin, Betzaida og Capernaum, í hverjum gjørd vóru flest hans kraptaverk, og er hann sem mest ángradist af mannanna óþacklæti, þá spratt upp þessi líknarfulla vatns æd af brunni miskunarinnar, og skulum ve'r ecki meina, ad hann hafi þad alleina talad til þess fólksins, er þá nálægt var, heldur og til vor, sem ord hans heyrum enn nú í dag. Dæmid þe'r nú sjálfir, brædur mínir! ef einn naudstaddur og allskonar eymdum hladinn vissi se'r hæli víst, og vildi þess ecki leita, jafnvel þótt ecki væri hønum þad bodid, jafnvel þótt hann mætti hafa stóra eptirgángsmuni þar fyrir, mundi hann ei rádlaus haldinn af øllum mønnum? ó, hvad tefur oss þá ad renna á móti vorum brúdguma, er ad fyrrabragdi hefir oss glæpa mønnum og óvinum sínum þessa dýru heilsugjøf frambodid, og le'tt af oss þessu oki? þú segir kannske' í hjarta þínu, eg finn ecki til þessarar byrdar, vel fer um mig, og eg kenni mín einkis meins; þetta er allt ossatt, hvad Gud nádi, syndu menn til meina sinna, þá mundu fleiri heilbrygdir verda: þú tyftar þá Drottinn! og þeir finna þar ecki til, sagdi Jeremías, 5 kap., um fólkid í Jerúsalem; sama má eg segja um þá, sem Guds heilaga løgmáls reidarþrumur slá um eyrun, og þeir finna þar ecki til, þótt þar fljúgi einn skruggusteinn af Sínaí í hverju ordi. O, þú vesæll madur! gjæt þó þess, ad betra er eitt mikid sár, ef þad er lifandi, heldur enn lítil skeina

daud og súin; betri vóru allar ránglætíngar tollheimtumannsins þegar þær vóru játadar, heldur enn allt Pharísearans réttlæti, sem hann stærdi sig af, Lúk. 18, betri vóru syndir hinnar bersyndugu, sem þvodi Jesú fætur í tárum sínum, heldur enn vandlæti Símons, er kalladi þad ógjørníng, ad snerta hana, Lúk. 7; þú ert þér engra stórglæpa medvitandi, muntu þar fyrir vera saklaus fyrir Gudi? veitstu ecki ad himnanna himnar eru ecki hreinir í hans augliti? Job. 15, því muntu þá vera, sem dagliga syndgar, og vinnur ei nema til hegníngar? veitstu ecki ad jafnvel hinn minnsta synd steipir manninum í eylífa glötun, nema Sonur Guds hefdi bætt fyrir hana? ecki einasta hann, sem gjørir stórmerkin af því sem bannad er í løgmálinu, heldur og sá, sem ei gjørir allt þad sem í því bodid er, hann er bølvadur, Gal. 3: muntu þá ecki vid Gud sekur vera; þótt ei vegir þú mann, edur krenkir egtakvinnu þíns náúnga, edur stelir med launúng hans fémunum? edur er þad forgéfins, sem hann hefir sagt, Matth. 5: hver sem lítur eina konu til ad gyrnast hana, hann hefir allareidu drýgt hór med henni í sínu hjarta; og hver sem reidist bródur sínum, hann er ráds sekur?

O, Gud gæfi! ad menn væru svo kostgjæfnir í því, ad ransaka sjálfa sig, svo sem ad hnísa um annars háttsemi, þad er oss ecki svo ørult ad gjøra, jafnvel þótt eckert sé oss þarfara edur naudsynligra, til ad nálægjast vorn Frelsara med kristiligri ydran, þad er svo ómissandi, ad ef vér viljum þad ecki gjøra, þá gjørir hann þad sem ad hjørtun og nýrun rannsakar, því segir hann hjá Zóphon. 1 kap: þad skal ské á þeim degi, ad þegar eg ransaka Jerúsalem med ljósi, ad eg skal straffa þá menn, sem eru samangrónir vid þeirra saurendi; ecki þess vegna, ad Drottinn hafi þørf ad ransaka vorar hugrenníngar, allir hlutir eru berir og naktir fyrir hans augum, Ebr. 4, heldur ad hann auglysi fatleysi vorrar blygdunar, Apóc. 3, nær vér hana ei sjálfir þeckja viljum, og kasta vorum eiginn þreck í vorar ásjónur, svo sem Malachías ad ordi kémst, 2 kap., þegar vér viljum ecki þvo hann af med tárum vorrar ydrunar; viti því allir menn, ad enginn er svo heilagur, ad ef hann á fram fyrir Gud ad koma, ad hann ecki á einhvern hátt megi létta af sér byrdi syndanna; en hvernin má hann henni aflétta, hafi hann aldrei til hennar fundid? og svo lengi hann ecki til hennar finnur, svo lengi er hann Gudi og hans Syni fjarlægur, hann er kominn ad kalla syndúga og ecki réttláta til ydrunar, heilir hafa ecki læknarans þørf, Matth. 9. Guds Sonur er í heiminn kominn til ad lækna þad sem sundurmarid er; en hvernin má hann þitt hjarta lækna, ef þad er heillt, og þú finnur til engra meina? eg heyri hér í gudspjallinu, ad hann býdur til sín øllum þeim sem erfidi drýgja, og þúnga eru þjádir, þad er øllum þeim, sem eru sundurkramdir af megni samvitskunnar, fyrir þeirra afbrota sakir, hverjir ed erfida í tárunum og væta um nætur sína sæng med Davíd, hverjum Guds hønd er ofþúng vordin, og þar er enginn máttur í þeim fyrir hans ógnan, Ps. 38, og lángar svo eptir Drottni á þurlendinu, Ps. 63; þessum býdur Jesús til sinnar endurnæríngar, en ecki þeim sem hrósa sér af því, ad þeir séu ecki eins og adrir menn, Lúk. 18, ei heldur hinum, hverjir þótt ad þeir séu hinum verstu og fúlustu klækjum og skømmum hladnir, þá finna þeir ecki meira þar til enn kletturinn, þó menn leggi heilann skipsfarm edur aldrei svo mikin þúnga ofan á hann, svo máttugur er Djøfullinn í þeirra

vantrú, Eph. 2. Þarfyrir, syndugur madur! viljir þú njóta þessa tilbods, og allra helst í heilagri Drottins kvöldmáltíd (hvar endurnæríngin er án mælíngar frambodin öllum þreyttum og öllum sorgbitnum) viljir þú þessa not hafa, segi eg, þá kvel hjarta þitt med íhugan þinna vondu verka, og Guds heilaga lögmáls, aldrei eru þau svo fá, ad ecki megi þau ofbjóda þér, nær þú hugleidir þinn óverdugleik og hans réttlæti. Tem þér slíkt hugarfar, og slít hjarta þínu med svoddann þaunkum dagliga, þá muntu brádliga erfida þig módan, og svo mikin þúnga finna, ad þú munt varla fá undir risid, þá ertu og fyrst hæfur til ad taka á móti þessu bodi, því gjaldpeníngurinn verdur ecki gefinn þeim, sem íllt adhafast, ei heldur þeim, sem eckert vinna, heldur þeim, sem bera hita og þúnga dagsins, Matth. 20, þótt sumir beri hann skémur enn sumir, og þótt í þeim stad tali Frelsarinn um hid eylífa og óforþénta verdkaup á himnum, þá er þó sú endurnæríng, sem eitt ydrandi Guds barn finnur í vitnisburdi heilags Anda þar um, ad þad sé Guds barn, hún er, segi eg, pantur þeirrar eylífu endurnæríngar, sem Jóhannes umtalar í hans opinberana 14 kap., þar hann prísar sælu þeirra, sem í Drottni daudir eru, því þeir hvílast edur endurnærast af erfidi sínu, já, ef þér svo gjörid, börn mín! þá mun ydur brádliga lánga eptir Gudi, svo sem hjörtinn eptir fersku vatni, Ps. 42; Davíd lángadi eitt sinn í brunninn í Betlehem, en þegar þeir færdu hönum vatnid, þá vildi hann ei drecka, heldur úthelti því fyrir Drottni, 1 Paral. 12; en þegar þér úthellid ydar tárum fyrir Gudi, sem þecking syndanna hefir kreist út af ydar augum, þá mun hann endurnæra ydur med þeim himnesku vatnsstraumum, sem framm fljóta af stóli Guds og Lambsins, Apóc. 22, hver sem þar af dreckur, hann skal ecki smacka daudann ad eylífu. Komum því til þessara vatna, gégnum þessu tilbodi; komum og kaupum fyrir alls eckert, bædi vín og mjólk, Esa. 55; og þótt ad ángist syndanna kunni ad þrísta svo mjög ad hjarta syndarans, nær hann stendur undir ransaki samviskunnar, ad hann telji sig óverdugan Guds nádar, þá gjör ei þínum Frelsara þann órétt, ad þú efir um hans guddómliga miskun, sem er eins stór og hann er sjálfur, hversu sem þú ert hinum verstu syndum hladinn, ef þú ydrast af hjarta, og lætur af þeim, hver sem þad efar, þad er eins og hann vildi setja Krist af tign sinni, því hann er þess vegna konúngur vor syndaranna, ad hann hefir sigrad vora óvini, en keypt oss Gudi til handa med sínum dauda. Seg mér, hvad skal sá hafa til ad bera, sem einum skal miskuna, nema máttinn og viljann? en um hverttveggja þetta tekur Drottinn allan efa frá syndaranum í þessu heilaga gudspjalli: fyrst segir hann: allir hlutir eru mér ofurgéfnir af mínum födur; þetta talar Kristur eptir manndóminum, því eptir gud-dóminum er hann sjálfrádi allra hluta frá eylífd til eylífdar, med Födur og H. Anda, en fyrst hönum er allt vald gefid bædi á himni og jördu, af hönum sem þad alleina hefir, og sem alleina kann ad fyrirgéfa syndirnar, hví skyldi hann þá ecki kunna ad tilgéfa þér þínar syndir, hversu sem þær ljótar eru og andstyggiligar, nær þú hatar þær, og villt af þeim láta? hann sagdi fordum þegar Júdar hneixludust á því, ad hann sagdi vid hinn hálfvisna: þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, hvert er léttara ad segja, þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, edur ad segja, statt upp og gack? Matth. 9. Minn herra Jesú! meira kostadi þig þad, ad endurskapa mig af Andskotanum vanskapadann, heldur enn ad skapa

honum heilsuna, sem þú hafdir í fyrstunni í módurlífi skapad, en fyrst þú sýndir med þessu kraptaverki, ad mannsins sonur hefdi makt til, ad fyrirgéfa syndir á jørdu, þá gét eg ecki efast um, ad þú kunnir mínar syndir ad tilgéfa, hversu sem þær fúlar eru; þú sem sagdir til eins-hálfvisna: statt upp, tak sæng þína og gack í burt, Matth. 9; eg veit og ad þú gétur hjálpad mér med nád þíns anda, ad rísa upp af þeim syndanna bed, er eg svo lengi hefi sofid á, Gud er alleina sá, sem dásemdarverkin gjørir, Ps. 72; hann er og sá alleina, sem tilgéfa má syndina; hverttveggja gjørir þú hér, Drottinn minn! því gét eg ecki um vald þitt efast, en um viljann miklu sídur, því hann segir hér í gudspjallinu: komid til mín allir; þá veit eg ad þetta tilbod nær og til mín, þótt eg væri syndugri enn allir menn; þegar eg erfida í þeckingu og játníngu synda minna, í hverjum þú minn Frelsari hefir erfidad, Esa. 43, þegar eg var þinn óvinur, Róm. 5. Því þú segir: komid til mín allir þér sem erfidid, og þegar eg styn undir þúnganum, er þú barst minna vegna, þegar hegníngin lá á þér, en eg vard heilbrygdur fyrir benjar þínar, Esa. 53, því þú segir: komid til mín sem þúnga erud þjádir; til hvers? ecki til þess, ad skipa mér ad borga hinn sídarsta pening, því Gud hefir fyrir þína skuld uppgéfid mér alla skuldina; ecki til þess, ad eg luki þér þá handskriftina er þú hefir á krossinn neglt, Col. 2, heldur til þess, ad þú takir á móti mér fárádri manneskju, svo sem fadirinn vid hinum auma syni, er sinni arfleifd sóad hafdi, Luk. 15; því vil eg allshugar feginn koma, ó, herra Jesú! og þvo fætur þína med tárum mínum, og smyrja þá med ángri míns hjarta og elskunni til þín, er mér hefir svo margar syndir tilgéfid, Lúk. 7, ef eg þess verdugur verda mætti fyrir þína egin forþénustu. Komid til mín allir þér sem erfidid, segir brunnur gjæskunnar, þetta mætti tilheyra jafnvel hinum allra heiløgustu mønnum, Nóa, Abraham, Job, Elíæ, Jóhanni Baptista, og jafnvel Guds módur sjálfri, svo heilagur er Gud, svo er hann réttlátur, ad hann má ei lída hid minnsta grand á manneskjunni, án fullkomins endurgjalds fyrir syndina, en þad verdur ei goldid nema í Christí forþénustu, og af henni hafa menn engin not, utan menn ydrist syndanna af hjarta, en ad ydrast syndanna, kostar þann alltíd nockurt erfidi, sem þeckir Guds hátign og sinn veikleika, þarfyrir skulu hann allir kvittunar bidja, Ps. 32, á þeim tíma nær reikníngurinn skal haldast, fyrir því hrædist Job øll sín verk, en ef hann hræddist þau og jafnvel hin bestu, þá mun þeim Guds manni þótt hafa, ad hann þyrfti ydrunar vid, hver aldrei gengur erfidislaust af, egi hún Gudi ad líka, þar um ber ljósast vitni hans sídarsta játníng fyrir hønum, 42 kap: eg straffa sjálfan mig, og ydrast í mold og øsku; þetta sagdi Job, um hvern Gud vitnadi á móti Satan, ad ei væri hans líki í landinu, ad hann væri fullkominn, réttvís, gudhræddur og fordadist þad vonda, Job. 2, hvar af menn sjá, ad þad satt er, sem Páll segir: ad allur heimurinn sé fyrir Gudi sakfallinn, Róm. 3, og ad enginn sé svo heilagur, ad hann ecki allshugar feginn megi taka þessu nádarfulla lausnarans tilbodi; en þar minn Herra segir: komid til mín allir þér sem þúnga erud þjádir, þá kalla eg mér bodid med þessari gudligu raust, og øllum stórsyndurum, sem mikinn part æfi sinnar hafa í þrjótskunni og glæpunum alid, en fyrst hann hefir þad talad, hvers blód ad hreinsar oss af øllum vorum syndum, 1 Jóh. 1, hann sem er forlikun fyrir allar veraldarinnar syndir,

1 Jóh. 1, í krapti þeirrar fórnar, í hverri Guð forlíkaði heiminn við sjálfan sig, 2 Cor. 5, þá gét eg ecki ætlað, að hann sem alleina er sannorður, Róm. 3, að hann muni spyrna mér syndugum ormi í burt af sínum fóta sinna, nær eg þar ligg með sannri yðrun og fullum ásetníngi til yfirbótar, því skyldi eg þá láta mínar illgjörðir og blóðug afbrot hindra mig frá, að taka þessu gjæskufulla tilboði með hinum mesta fögnuði míns ángráða hjarta? í þessu styrkja mig hans blessuð fyrirheit, þar hann svarið hefir, að hann ei vilji syndarans dauða, heldur að hann snúi sér og lifi, Ezech. 33; um þetta taka allan efa frá mér þau dýrmætu orð, er hann talað hefir, að hann vilji engan frá sér reka þann sem til hans kémur, Jóh. 6. O, því skyldi eg vera þá svo miskunarlaus við sjálfan mig, að eg ei skyldi leita hans náðar, þar eg veit hann er svo miskunsamur? Það er kunnugt hversu að Júda hafði reitt Drottinn til reiði, og hversu að hann neyddist til að reka þá út úr því landinu, er hann hafði gefið feðrum þeirra; en þegar hann hafði tekið þá í sátt aptur, þá segir hin eylífa gjæska, Zach. 10: eg skal miskuna þeim og þeir skulu vera eins og eg hefði þeim aldrei burtkastað; svo lángt er frá því, að Guð tilreikni sannyðrandi manni drýgðar syndir, þegar hann snýr sér til hans af öllu hjarta, og þótt svo megi tilbera, að Drottinn leggi á þig tímanliga refsíng, kristinn maður! þú sem á Jesúm trúir, fyrir undanfarnar syndir, til þess að þú ecki meinir þig saklausan að vera, þá lát þér ei hugfallast, eður ætla að hann muni burtreka þig eylífliga. Valla nockur þjóð í heiminum hefir svo þúngri hegníngu sætt af hans voldugri hendi, svo sem hans frumgétinn sonur Ísrael, Exód. 4, um nockra stund; og þó segir Faðir miskunsemdanna, Jer. 31: heyrið þér orð Drottins, ó, þér heiðíngjar! og kunngjörið það í fjarlægum löndum, og segið, hann eð sundurdreifði Ísrael, hann samansafnar honum, og varðveitir hann svo sem hyrðir hjörð sína, því Drottinn endurleysir Jakob, og frelsar hann af þess hendi sem er sterkari honum. Hvacíir séu þér, þú Dýrðarinnar Konúngur! að þetta friðar boð er og komið til vor þinna aumustu vesælinga, sem búum á hala veraldarinnar, því viljum vér allshugar fegnir heyra hins góða hyrðirs raust, sem til sín býður öllum þeim sem erfiði drýgja, og þúnga eru þjáðir. Hver er sá þjón, ef hann misbrýtur nockuð við sinn lánardrottinn, og hafi hann nockra æru taug í sér, eður hyrði um velferð sína, að ecki leiti hann sátta til hans á alla vegu, sérdeilis ef hann á fyrirgéfníngar von; nú þótt vér á hverri stundu, hverju augnabliki, styggjum Drottinn himins og jarðar, því skyldum vér þó ecki samt leita forlíkunar hjá honum, er vér vitum að er svo auðveldur að taka við syndurunum, að hann segir, Zach. 1: snúið aptur til mín, og skal eg snúa mér til yðar; hér þarf ecki Jóab að brúka vísdómskonuna af Thecóha til að friða fyrir Absalon hjá Davíð, 2 Sam. 14; ecki þarf hér Pálum til að sætta Onesímum við Phílemónem, Phílem. v. 10; en hér er Jesús Christus Guð og Maður, sá einasti meðalgángari millum Guðs og manna, 1 Tím. 2; hann segir í krapti þess umboðs, er hann hafði af hinum Alvalda konúngi, til að sætta mannkynið við hann og sjálfan sig; hann segir með fullum myndugleika: komið til mín allir þér sem erfiðið og þúnga eruð þjáðir, eg vil endurnæra yður; það er eitt mikið fyrirheit, sem Guð géfur Jakob eður Ísraels húsi, Jer. 30: hans höfðíngi skal af honum koma, og hans drottnari skal af honum framgánga, hverjum eg

bjóda mun ad hann nálægist mig, því hver er sá, sem þori ad lofa sér í sínu hjarta, ad hann vilji nálgast mig? segir Drottinn. Hver er sá höfdíngi? það ertú, dýrdarinnar Konúngur, Jesú Christi! hver er sá drottnarinn? þad ertú, Guds og Maríu sonur! þú sem af meyjar lífi ert útgenginn, af lífi dóttur Jakobs, jafnvel þótt þinn útgángur sé þó frá eylífu, Mich. 5, hverjum eg mun bjóda til mín ad koma, segir Drottinn. Því skal hann til þín koma, ó, Herra! hann sem er í þínu skauti frá upphafi eylífdarinnar, Jóh. 1, og eptir manndóminum er hann sá madur, sem þér nærstur er? Zach. 13; vor vegna hefir hann nálgast þig, ó, Gud! sem fjarlægir vorum, lángt frá þínu augliti og frá veldi dýrdar þinnar, Eph. 2, hverjum kasta átti í hin ytstu myrkur; vor vegna er hann þér nálægur vordinn, svo sem kénnimadur, eptir skickan Melchízedechs, Hebr. 5, inngenginn í þad allra helgasta, í himininn fram fyrir þig med eina fórn, ad útvegadri eylífri endurlausn Ebr. 9; hver er sá, sem þyrdi ad lofa í hjarta sínu, ad hann vildi nálgast þig? hver vildi taka sér hann heidur til? enginn syndugra manna. O, Drottinn! hvad munu hálmstráin búa vid einn fortærandi eld, edur rykid vid storminn af eydimørkunni? hvad leirinn vid járnspíruna? hvad vatnsbólan, hvad gufa jardarinnar vid reydarsløg himinsins? hann einn, hann einn má þig nálægjast, fyrir hverjum trónarnir og magtarvøldin skjálfa og hann tilbidja, Ebr. 1, hver alleina í himininn uppstígur, Mannsins Sonur, sem ofan er stíginn af himni, og þó á himnum, Jóh. 3, og med hønum munu uppstíga allir þeir, sem hann hefir med sér dregid, þá hann upphafinn var, þad eru allir ydrandi syndarar, allir þeir, sem erfida og þúnga eru þjádir, já, allir þeir, sem trúa á nafn eingétins Sonar Guds, Act. 10; en þess er ad gjæta, brædur mínir! ad þessu nádarfulla tilbodi fylgir skilmáli nockur: takid á ydur mitt ok, og lærid af mér, því eg em hégvær og af hjarta lítilátur! Eg vil nú í þetta sinn ecki tala margt um ok Drottins, er sérílagi nefnist hans kross, og er innifalid í mótlætíngum þessara tíma, heldur vil eg tala um þad, sem hlýdir því efni, er eg í øndverdu héf um ad tala, sem í tveim hlutum er fólgid; þad er í fyrstu, ad plága sálu sína med hræsnislausri játníngu og tilfinníngu syndarinnar, hvar af ydranin sprettur; og í annann máta, ad krossfesta hinn gamla manninn, Róm. 6, er sig fordjarfar í girndum villudómsins, Eph. 4; þessi krossburdur er Gudi hvad kjærastur, og ef manneskjan temdi sér hann dagliga, þá mundi þad afstýra mørgu útvortis mótlæti, jafnvel þó Drottinn á stundum virdi sína beztu ástvinni med teikni síns Sonar. Vér skømmumst vor ad sønnu ad játa syndir vorar fyrir mønnunum, vér dyljum þær hvad mest vér kunnum, jafnvel fyrir þeim, sem verri eru enn vær (nema þeir, sem Djøfullinn hefir svo barid sigg í, ad þeir hafa mist alla tilfinníngu, svo þeir stæra sig af glæpunum); og þad veldur því, ad syndin er svo ljót, ad jafnvel margir þeir, sem óhlutvandir eru, hata hana og lasta á ødrum; en því munu menn vilja dylja hana fyrir Gudi, eins og allir hlutir séu ecki berir og naktir fyrir hønum? Ebr. 4; en þetta gjorum vér ecki einasta, nær vér ecki játum syndirnar, heldur og, nær vér ecki rannsøkum þær, leitum ecki eptir þeim smásmugliga í innstu fylsnum vors hugskots, og ecki ydrumst þeirra af hjarta, nær vér høfum fundid þær. En því dyljum vér sjúkdóminn fyrir læknaranum? edur þørfina og vanmáttinn

fyrir hønum, sem er alleina ríkur? þyrmir þú sjálfum þér, þá mun hann þér misþyrma, ef þú hylur, þá mun hann opinnbera; því skyldi eg ei vilja ángrast fyrir hønum, sem gledst af þessu ángri, og vill mér þad launa med þúsundfaldri gledi, því eg vil endurnæra ydur, segir Lausnarinn; því mun eg skirrast vid ad játa syndir mínar í augsýn heilagra engla, þar meiri gledi er í himninum yfir einum syndugum, sem ydran gjørir, enn yfir níu og níutíu réttlátum? Lúk. 15. Menn hafa aldrei heyrt, ad Gud hafi deilt illdeilum vid einn sannydrandi vesæling, en um hina segir hann, Jer. 2: eg skal þrátta vid þig, af því þú segir: eg hefi ecki syndgast; en hvar med þráttar hann? ecki med ordum tómum, ecki med dvergmálshljódi, svo sem Spámadurinn ad ordi kémst, heldur med drepsótt og manndrápum, Ezech. 38, og jafnvel med ýlfri og tannagnístran vid þá, sem ecki skipast vid þetta nádar tilbod. Þarfyrir, brædur mínir! þess betur sem vér þeckjum Guds føðurliga gjæsku í því, ad taka vid syndaranum, nær hann ydrast, og þess meiri háska sem vér vitum oss búinn vera, nema vér ydrumst, þess heldur leggjum allt kapp á, ad blenta vor hjørtu fyrir Gudi, svo H. Andi fái þar inni búid, án hvers vér ecki gétum til Jesúm komist, svo sem vér medkénnum í vorri trúarjátníngu; og er þad ecki nóg, ad ángrast fyrir syndirnar um stundar sakir; þad er eins og eldur í sinu hlaupi, ad láta sér volgna nockra stund um hjartaræturnar, nema ydranin verdi oss svo sterk, ad vér høtum þær syndirnar, er oss ádur hafa hvad kjærastar verid. Hvad gagnadi þad hinum voldugu í Jerúsalem, ad þeir gáfu lausa þræla sína og ambáttir, þegar Nebúchadnezar hafdi lagst um borgina, en hneptu þau aptur í þrældóm, nær hann var burtvikinn um stundar sakir? Jer. 34; eins er þeirra manna ydran, sem gráta syndir sínar fyrir Gudi, en hverfa þó aptur til hinna sømu; svoddan ydran fordæmir manninn meir, enn afsakar, því hún sýnir þad, ad hann hefir þeckt syndina, og vill þó ecki af henni láta. Drottinn hefir kénnt syndugum manni einn skriftagáng hjá Jeremíam, hann skyldi oss aldrei úr minni falla: þér skulud hafa leida á sjálfum ydur fyrir ydar ránglætínga sakir, og skammast ydar fyrir ydar svívirdíngar, og blygdast fyrir ydar vegu; ef menn létu sér þetta hugfast vera, þá mundu þeir ecki láta sér þykja svo vænt um syndina, ad þeir velti sér í henni aptur strax, sem þeir eru gengnir frá prestsins knjám. Góð uppbyrjun er þad ad sønnu, ad ausa út hjarta sínu fyrir Gudi med játníngu syndanna, og ecki skédur þad nema fyrir verkan H. Andaz en St. Páll áminnir þá í Tessalóníka, 1 Tess. 5, ad þeir ei skuli slockva Andann, og mun hann þad viljad hafa øllum sagt; hryggid ecki H. Anda Guds, í hverjum þér innsiglaðir erud til dags endurlausnarinnar, segir hann, Eph. 4; hvar af audsært er, ad madur kann med apturhvarfi til syndarinnar ad fæla Guds Anda frá sér. Eins og dúfurnar flýja reykinn, svo flýr Guds Andi syndsamligar huxanir; en þegar H. Andi er burtvikinn, hvad liggur þá fyrir vesælli manneskju? ecki annad, enn fyrir Sál kóngi, 1 Sam. 16, ad þegar Gud tók sinn anda frá hønum, þá þusti yfir hann Guds vondur andi; já, ecki annad enn ad einn óhreinn andi tekur sjø adra anda sér verri, og hverfur aptur í hús sitt hvadan hann kom, og verdur svo þess manns hid sídara argara hinu fyrra, Lúk. 11; já, þad kann ad koma þar, ad sá sem svo tídt forsmáir anda nádarinnar, Ebr. 10, ad Gudi verdi hønum svo reidur um sídir, ad hann yfirgéfi hann í fráleitt sinni, eins og Páll talar um heid-

íngjana, Róm. 1. Það er málsháttur Guðs optliga í ritníngunni, að þegar mannesskjan lætur sig ángra syndina, þá vilji hann ydrast þess illa, er hann hugdi ad gjøra henni; en þessi føðurlig gjæska hins miskunsama Guðs, sem átti ad draga oss til ydrunar, hún ablar mørgum dára enn meiri þverúdar, svo þeir hverfa aptur til spýunnar, sem Petur ad orði kémst, 2 Pet. 2, af því Gud hefir svo tídt forlátid þeim syndina; en sjái þeir til, sem þanninn hafa vanid sig til ad misbrúka Guðs þolinmæði, ad ecki verdi þeim sagt eins og Jerúsalem: þú hefir yfirgéfid mig, þú ert á bak aptur horfin! þarfyrir vil eg útrétta mína hønd á móti þér til ad farga þér, eg em vordinn þreyttur af ad ydrast, Jer. 15. Gud gjæfi, ad þeir, sem einusinni hafa smackad hid góda Guðs ord og krapt eptirkomandi aldar, þeir vildu hugleida hvad miklu yndælli er, jafnvel sú hrygd, sem ad er eptir Gudi, 2 Cor. 7, heldur enn allur heimsins munadur, þegar hann gengur sem hædst; því ef hid heidna skáld segir, ad þar sé nockur vellyst í því ad gráta, hvad mun ei þeim þykja, sem andi fagnadarins pressar tárin útaf augunum. Takid á ydur mitt ok! segir Frelsarinn hér í gudspjallinu, því mitt ok er sætt, og mín byrdi er létt. Eg vil ecki í þetta sinn tala svo eginliga um krossbyrdi Drottins í útvortis mótlætíngum, og þá hugsvølun hins góða Anda, sem henni jafnan fylgir, heldur vil eg tala hér um deydíngu holdsins, og krossfestíngu hins gamla Adams, sem býr í oss. Segi mér þeir, ed einusinni hafa ként á, hvad sætur ad Drottinn er: mun nockur Assverus í sínu stóra heimbodi, Esth. 1, mun nockur Baltazar í øllu sínu óhófi, Dan. 5, nockur Heródes í sínum hórudansi, Matth. 14, nockur Benhadad í herbúdum sínum, 1 Reg. 20, munu þeir, segi eg, una svo vel sínum hag, svo sem rétt-trúaðs manns sála í játníngu synda sinna fyrir Gudi, þegar andi Drottins ber henni vitni um, ad hún sé Guðs barn? Róm. 8. Aldrei hefir hinn gamli madurinn svo mikil umbrot, ad ecki sé það yndæli þeim, sem í Guðs herskrúda berst, Eph. 6, ad sigra hann, og hann gledst af løgmáli Drottins, segir Páll, Róm. 7, jafnvel þótt hann finna þykist eitt annad løgmál í sínum limum, sem hertaki hann undir syndarinnar løgmál; ad sønnu kunna hinir ad klædast pelli og purpura, og hafa kostuligt bordhald, Lúk. 16. Margur mun sá vera, er segir til sálar sinnar, þegar hann hefir alls nægtir, misjafnt útvegadar: et og dreck, sála mín! því þú hefir til margra ára safnad, Lúk. 12; en aldrei kann þetta ad jafnast vid þá nádarmola, er detta af því himneska bordi ofan á fótskør Drottins, Matth. 15, hvar vér syndugir ormar skrídum, og mænum í himininn eptir hinni eylífu hugsvølun, er Guðs Andi heitir oss fyrir Páls munn, ef vér berum Christí ok med þolinmædi. Lærid af mér! þvíad eg em hógvær og af hjarta lítilátur; hvarfyrir? hér um talar Postulinn, Heb. 5 segjandi: þótt hann Sonur Guðs væri, þá hefir hann lært hlýdnina af því, sem hann lidid hefir. Segid mér nú, þér sem erud ættleidíngar, og ecki Guðs einkasynir, eins og hann var, munud þér nockurn tíma leggja þann kross á hinn gamla Adam, ad ecki hafi Drottins kross verid hønum þýngri, sem hann bar á sínum líkhama, samlíkur holdinu syndinni undirvorpnu, þegar hann var af øllum yfirgéfinn, og jafnvel af sínum himneska Føður? Marc. 15. O, hvílík minkun er nú það, ad vér skyldum ei vilja vaka eina stund med hønum, til ad þjá sálir vorar med kristiligri ydran og deydíngu

vorra vondra girnda, þar hann hefir lofad oss síns Anda hugsvølun, nær vér svo gjørum. Takid á ydur mitt ok! segir Drottinn hér; en hvad er Christí ok? þad er allt þad, sem menn bera med þolinmædi, hvert heldur þad kémur frá Gudi sjálfum, svo sem eru sjúkdómar, ástvinamissir, skadi sá, er vér meinum ad komi ad hendíngu, edur annad þvílíkt; ellegar hann kémur frá mønnunum, svo sem er óréttur, forsmán, ofsóknir og þessháttar; edur og, ad þad er straff vorra egin synda, er vér sjálfir á oss leggjum í ydranarinnar verki og baráttunni móti holdsins girndum. Allt er þad Christí ok, ef menn bera þad svo sem hann skipad hefir, því eckert af þessu kann ad henda oss, sem vér ecki forþénad høfum med syndinni edur annadhvert fyrir hans tilhlutan edur tillátsemi. En ef vér køstum okinu í burt med óleyfiligum hætti, Jer. 2, þá verdur þad heilsusama Drottins ok ad Djøfulsins oki; ef vér erum óþolinmódir í sjúkdóminum, møglunarsamir í ørbyrgdinni, ef vér gjøldum einn órett med ødrum, og bætum vorn skada med skada náungans; þegar vér þannveg breytum, þá høfum vér engrar endurnæringar, engrar hugsvølunar ad vænta sálum vorum, þá hverfur sætleiki sá, er Christí oki og hans byrdi fylgir. Já, hvad meira er, ad þad ok, sem oss verdur uppálagt fyrir heimsku vorrar og synda sakir, þad kunnum vér ad gjøra ad Drottins oki, ef vér berum þad med hógværd og kristiligri þolinmædi; Davíd er oss til eptirdæmis hér í; eg efast ei um, ad þad hefir gengid hønum til hjarta, þegar hann var rekinn frá ríki af sínum eginn syni, 2 Sam. 15, og þegar mordengillinn sló fólkid søkum hans yfirsjónar, 2 Sam. 24, þó vann hann svo mikid á med sannri ydran og audmýkt hjarta síns, ad Gud leiddi hann heim aptur med sæmd og heidri, 2 Sam. 19, og linadi plágurnar, 2 Sam. 24. Látum oss þessi dæmi til Kristum leida! audmýkjum oss undir volduga Guds hønd, 1 Pét. 5; veginn vitum vér, sporum ecki ad gánga hann; tøkum á oss þid sæta ok Christí, og skjótum oss ecki undan hans byrdi, svo vér megum finna eylífa endurnæríng, eylífa hugsvølun sálum vorum, og gánga inn til hans hvíldar; þad veiti oss gódur Gud, fyrir síns Sonar blessada forþénustu, amen!

## Tuttugasta og Sjøunda Sunnudag eptir Trinitatis.

### Gudspjallid, Matth. 17 Kap.

Á þeim tíma; og sex døgum þar eptir, tók Jesús med sér Petrum og Jakobum, og Johannem brodur hans, og hafdi þá afsídis uppá hátt fjall, og ummyndadist fyrir þeim; og hans ásjána skein sem sól, en hans klædi urdu svo bjørt sem ljos. Og sjá, ad þeim byrtust þeir Moses og Elías, og tøludu vid hann. En Petur ansadi og sagdi til Jesú: herra! hér er oss gott ad vera; ef þú vilt, þá viljum vér gjøra hér þrjár tjaldbúdir, þér eina, Mosi eina, og Elíæ eina. Og þá hann var þetta ad tala, sjá, ad bjart ský umskygdi þá; og sjá, ad røddin úr skýinu sagdi: þessi er Sonur minn elskuligur, ad hvørjum mér velþóknast, hlýd-

id þér honum. Og er lærisveinarnir heyrdu þad, féllu þeir fram á sínar ásjánir, og urdu mjøg hræddir; en Jesús géck til þeirra, tok á þeim, og sagdi: standid upp, og verid ei hræddir! En þá þeir litu upp, sáu þeir aungvan, nema Jesúm alleinasta. Og er þeir gengu ofan af fjallinu, baud Jesús þeim og sagdi: þér skulud aungvum þessa sýn segja, þartil ad Mannsins Son er upp aptur risinn frá daudum.

## Exordium.

Þeirra gudir eru fjallanna gudir, sogdu fordum þénarar Benhadads, Sýrlands konúngs, er þeir voru eltir af Israels mønnum; grátligt er til þess ad vita, hvernin Satan hefir blindad manneskjuna, ad skynsemi holdsins smídar sér svo dórliga þánka um Guds hátign, svo sem ad hans ríki sé ecki eins ríkt í øllum áttum hans veldis; en hvernig sem því er nú varid, þá sjá menn þó, ad Gud hefir sig hvad mest opinnberad mannkyninu á fjøllunum; á fjallinu Sínaí útgaf hann sitt løgmál, Exód. 20; á því sama fjalli taladi hann vid Elíam í hellirnum; á fjallinu Móría taladi Guds Sonur vid Abraham, er hann vildi hafa offrad Gudi syni sínum Isaak, Gén. 22; á því fjalli stód Jerúsalems musteri, hvar Gud hafdi sinn eld og sinn ofn, Esa. 31; og má sýnast, ad Gud hafi teiknad med þessu, ad hann væri hinn Allrahæsti, og byggi í hædunum, svo ad Djøfullinn hefir og apad eptir þessari Guds dýrkan, eins og í mørgu ødru, og látid sér á hædum þjóna; þad vitna þær hædirnar medal Guds fólks, er hann svo mjøg til reidi reittu, á hverjum hann segir, ad ei séu nema prettir. En í þessa dags evangélió heyrum vér hina allra dýrdligustu og huggunarsømustu opinberan, þar hinn eingétni Sonur Fødursins, íklæddur voru holdi, ummyndadist sýniliga fyrir lærisveinunum á fjallinu helga, hvert ed hinir gømlu lærifedur kristninnar hafa meint ad vera fjallid Tabor í Galílea. Af fjallinu Nebó í Móabslandi sýndi Drottinn Móse alla fegurd og gjædi Kanaans lands, en á þessu fjalli hefir hann sýnt lærisveinunum, og øllum þeim, er á Soninn trúa fyrir þeirra ord, inní þad himneska Kanaan, er hann nefnir sína hvíld, Hebr. 3; og til frekara vitnis þarum, þá vil eg kvedja ydur, Guds børn! til ad gánga assídis med Christó og hans lærisveinum, til ad hugleida þessa dýrdligu opinberan, í hverri tvent er ad athuga, sem er: 1) sjálfa forklárunina; 2) vottana, sem nálægir voru. Drottinn! vertu í verki med oss, og nád þíns Anda, fyrir Jesú forþénustu, amen!

## Utleggíngin.

Hann ummyndadist fyrir þeim, segir textinn; ecki er þad svo ad skilja, ad hans manndómlig náttúra hafi umbreytst á nockurn hátt, heldur forklárадist hún, hin dýrdliga Gudsdómsins fylling, sem í honum bjó, skaut út geislum sínum í mannligu holdi, svo þeir kynnu ad sjá hans dýrd, dýrd svo sem eingétins Sonar af Fødurnum; hann afklæddist, svo ad segja, þjónsmyndinni um stundarsakir, en ecki náttúrunni. Tak þad til hugleidíngar af þessu, Guds barn! ad ádur enn þú mátt samlíkur verda þessari dýrdligu mynd þíns Frelsara, sem hér umgétur, þá byrjar þér ad ummyndast eptir hans mynd, sem þig skapad hefir, þad er, endurnýast í þínu hugskoti, því svo segir Frelsarinn: nema þér ummyndist, og gjørist svo sem þetta úngbarn, þá kunnid þér ecki ad inngánga í Guds ríki. Mattheus skrifar frá því í textanum, hvílík ad verid hafi forkláran þessi, þar hann segir, ad hans ásjána hafi skinid sem sól; og skulum vér þó ecki ætla, ad Sól réttlætisins, Mal. 4, hafi þó ecki øllu fegur skinid, enn þessi, er á himninum ljómar, því hennar birti

kunnum vér allir ad standast; en þegar lærisveinunum gafst sýn þessi en mikla, þá skrifar Markus, 9 kap., ad þeir hafi vordid óttaslegnir, svo ad Pétur vissi ecki, hvad hann taladi, svo sem bædi hann og Lúkas, 9 kap. skrifa, heldur tekur Gudspjallamadurinn líking af sólunni, því hann hafdi eckert bjartara ad jafna vid, sem daudligum skiljast kunni; og ei skulum vér heldur meina þetta hafi verid sú dýrd, er Guds Sonur átti hjá sínum Födur, ádur enn grundvöllur veraldarinnar var lagdur, því jafnvel útvaldir skulu skína eins og sól í ríki síns Födur, Matth. 13; en hvílík sú birti muni vera, er þar af audsært, ad vér skulum verda englunum jafnir, hverra sjónir ad daudligir menn þó varla stadist fá, því sagdi Manóha: vid munum sannliga deyja, því vid höfum séd engil Drottins; og skulum vér þó vita, ad dýrd og hátign Guds Sonar yfirgengur svo mikid englanna dýrd, sem hann hefir þeim ædra nafn ödlast. Framar segir textinn, ad hans klædi hafi vordid svo björt sem ljós; þegar Móses kom ofan af fjallinu Sína med lögmálid, þá skrifar Pálus, ad hans ásjána hafi verid svo björt, ad Israels synir hafi ei mátt líta í gégn henni, alleina af því, ad hann hafdi vid Gud talad, og þó féck Móses hana byrgt med skýlunni, er hann hengdi fyrir sitt andlit; en þetta yfirgnæfir; hér fá ecki klædin innilukt þann skjæra Gud-dómsins fegurdqrljóma, sem bjó í Christí forklárudu holdi, heldur skein hún í gégnum, svo þau urdu fögur eins og ljós. O, minn herra Jesú! er þetta sú mynd, sem ad héck á krossinum, þegar þú gjördist bölvan fyrir mínar syndir? sú sem Esaías um talar í 53 kapítula, segjandi: þar er enginn mynd edur fegurd á hönum, og þegar vér lítum hann, er þar eckert álit, sem vér girnumst, hann er forsmádur og manna audvirdiligastur, hann er plágadur af meinum og kránkdæminu alvanur, og svo sem einn madur, er byrgir sitt andlit fyrir oss, svo foraktanligur, ad vér virdum hann einkis? O, þú saklausa Guds Lamb! hvílík voru nú þessi umskipti, Drottinn minn! hvad vorum vér, syndugir ormar, ad þú, ljómi Födursins dýrdar, skyldir svo bera vor kránkdæmi? hvad þrísti þér til þess, minn Lausnari! ad þú skyldir breyta þessari dýrd í þá herfiligu ásján, er Spámadurinn talar um? eckert annad, enn þín guddómlig elska, þín djúpu miskunaridur, í hverjum þú vitjadir vor, upprunninn af hædum. En þú, Guds barn! sem heyrir þenna dýrdliga atburd, tak þér hina mestu huggun af honum, þegar Guds fódurlig gjæska virdir þig med síns Sonar krossi, ad svo dýrdligur sem hann gjördist hér fyrir augum lærisveinanna, svo vegsamligur og öllu vegsamligri muntu verda, nær þú inngengur í þíns Herra fögnud, ef þú tekur hans ok á þig og fylgir hönum eptir; því þessa hans dýrd sáu þeir daudligum augum, svo sem bædi Pétur og Jóhannes votta, en þad hefir ecki auga séd og ecki eyra heyrt, og ecki hefir þad í nockurs manns hug edur hjarta komid, hvad Gud hefir þeim tilbúid, sem hann elska; en elskan til hans sést aldrei betur enn í móttlætinu, þar reynist hún, svo sem gullid í ofninum, þar er sá leikvöllurinn, hvar ed hinar andligu kémpur eiga ad sína frækleik sinn, þar er skeidsloturinn, er allir þeir eiga ad hlaupa med Páli, sem vilja hnossid ödlast. Lúkas einn hefir sagt oss þad, hvert ad verid hafi inntak þess samtals, er þeir Móses og Elías áttu vid Drottinn á fjallinu helga, sem var um þá útför, er hann skyldi fullkomna í Jerúsalem; þad er sú burtför til Födursins, er hann nefnir hjá Jóhannem í 16 kapítula, í þeirri hjartnæmu prédikun, er hann taladi fyrir lærisveinunum undir

sína píslargaungu, þá ed hann fullkomnadi og batt fullan enda á þad, sem hans Fadir hafdi honum umbodid. Ecki hefir þessi sýn edur þetta samtal skéd fyrir Christí skuld, því sjálfur vissi hann allt þad, er yfir hann átti ad koma, sjálfur þeckti hann og Guddómsins hátign og vegsemd, sem ad í honum bjó, heldur postulanna vegna, hverjir ed sídan máttu þola svo miklar hörmúngar, fjötur, húdstrokur, ofsóknir, umsátur, já, sýta og gráta, þegar heimurinn fagnadi, og þad fyrir Christí nafns sakir, svo ad alltíd, nær þeir í hörmúngunum minntust á þessa dýrdligu opinberan, skyldu þeir hafa þad þeir kynnu ad endurnæra hjarta sitt med, sem var, ein fullvissa um þvílíka dýrd, er þeir sáu nú fyrir augum sér; og því er ecki ad undra, þótt ad þeir og þeirra lagsmenn gengu gladir út frá rádinu, nær þeir hudstrýktir vóru, já, ecki þótt ad St. Páll væri vel til frids í ofsóknunum, í ángistinni, í naudunum, þar hann hefir ecki einasta þessa sýn heyrt, heldur og var sjálfur í hinn þridja himin uppnuminn. Petur hafdi fyrir skömmu spurt Drottinn ad, hvad þeir skyldu í laun hafa, sem ad yfirgáfu alla hluti og fylgdu honum eptir; en Drottinn sýnir honum hér á fjallinu, ad svo miklu leiti sem hann sjá kunni í þessu daudliga holdi, hvers hann ætti von fyrir sína þjónustu; og er þad mála sannast, Petri þótti svo mikid til þessa koma, jafnvel þótt ecki væri þad meira hjá hinni eylífu dýrd, heldur enn rikti Salómonis fyrir drottníngunni af Arabía, honum þótti svo mikid til þeis koma, segi eg, ad hann sagdi: hér er oss gott ad vera; hann var fæddur í Júdea, einu landi, sem er Paradýs af veroldinni, hann hafdi vída verid med Christó, bædi þar og í Galílea, hann hafdi séd Jerúsalems musteri og hina kostuligu Guds þjónustu þar inni, en öllu gleymdi hann því, sem til baka var, hér þókti honum alleina gott ad vera; ó, hversu munu þeir þá gleyma öllu oflæti veraldar, öllu eptirlæti og fagnadi í heiminum, er sitja Lambsins brúdkaup í himninum! Ad vísu, var sýn þessi mikil, er postulunum gafst, og sæla má þá kalla af henni, en þó er þeim ei minna veitt, sem Drottinn auglýsir sig í hjartanu, því sælir eru þeir, sem ei sjá, og trúa þó, sagdi Lausnarinn fordum vid Thómas; þad sé eg á svo mörgum þúsundum píslarvotta Drottins, um hverja þad sannkvedid er, sem Esaías spáir, 24 kap., ad þeir prísudu Drottinn midt í eldinum. Petur var vidstaddur þessa opinberun, hann heyrdi Mósen og Elíam tala um fullkomnan Drottins útfarar, og þaradauki heyrdi hann Födursins raust, þó gleymdi þessi Guds vinur öllu þessu skömmum tíma þar eptir í biskupshöllinni; ecki vardi þessi ummyndan Drottins lengi hjá honum; en þegar Kristur var í honum til fulls myndadur, svo sem Páus ad ordi kémst, þá mundi hann fyrr hafa þolad hinar skélfiligustu píslir veraldar, enn ad falla frá Christó, og gafst raun þessi optliga sídan; og þetta er nú sú sjón á Jesú Christó, er vér egum ad kosta kapps um ad ná á allri vorri reisu frá vöggunni til grafarinnar; þad er þad heilaga fjall, er vér egum ad klifrast uppá, medan vér lifum. Sá, sem þannig hefir komid auga á Kristum, hann kallar Drottinn fyrir sitt hlutskipti þótt ad sál og líf vanmegnist, og nær hann Gud sinn hefir, þá skeitir hann hverki um himin né jörd; en svo sem ad þetta er eitt mikid hlutskipti, hver sem því nær, já, svo mikid, ad himin og jörd mega í engan samjöfnud koma, svo skal og mikid til þess vinna. Ef vér viljum verda njótandi arfskiptis heilagra í ljósinu, Col. 1, ef vér viljum þóknast Gudi í ljósi lifandi manna, Ps. 56,

þá byrjar oss ad skrýdast hvítavodum, ecki sídur enn þeir í fyrndinni, sem skírn og kristni taka vildu, þad er, ad ve'r íklædumst herklædum ljóssins, ad ve'r íklædumst einum nýum manni, ad ve'r íklædumst Guds herskrúda, þad er, í einu ordi ad segja, med Páls ordum, 3 Col.: ad ve'r íklædumst svo sem útvaldir Guds heilagir og elskuligir, hjartgróinni miskunsemi, gódgirninni, lítilætinu, hógværdinni, þolinmædinni. Eg veit þad má þykja undarliga til ords tekid, ad Postulinn temur se'r þenna ordshátt: ad íklædast dygdunum, en varla kann þó nockur betri ad finnast; án klædanna ge'tum ve'r ecki lifad, þau eru þad, sem verja oss frosti og kulda; svo kunnum ve'r ecki heldur ad lifa andligu lífi fyrir utan þenna saklevsisins skrúda, hann varnar oss vid helvítis bruna. Klædnadur Drottins vard fagur og leiptrandi af því, ad Guddómsins birti, sem í hans holdi bjó, hún skein í gegnum þau, eins og sólin glerid; svo egum ve'r ad láta þad sjá í vorum lífernis háttum, ordum og athøfnum, ad Gud búi í oss fyrir trúna; þad býdur Frelsarinn lærisveinunum, Matth. 5, med þessum ordum: svo lýsi ydar ljós fyrir mønnum, ad þeir sjái ydar gódverk og dýrki ydar Fødur, sem á himnum er; en fyrir því, ad dagliga slettist uppá vort skírnarklædi, á medan ve'r gaungum í ge'gnum forød veraldar þessarar, þá má þad dagliga þvegid verda. Markus skrifar um klædnad Drottins, 9 kap., ad hann hafi svo bjartur verid, ad enginn þvottamadur á jørdu kunni þvílíkt ad gjøra; og sama er ad segja um vort brúdkaupsklædi, þad kann enginn svo hreint ad gjøra á jørdu, ad í Guds augum birtast megi. Þad má um oss alla játa, sem Drottinn segir um sitt fólk, Jer. 2: þótt þú þvoir þig í saltpe'tri, og safnir þe'r mikilli sápu, þá ertu samt óhrein fyrir me'r; hann einn, hann einn ge'tur þau ad fullu hreinsad, sem er eins og koparsmidsins eldur, og eins og sápa þvottamanna, Mal. 3; þad er þitt dýrmæta blód, minn Frelsari! í hverju ad allir heilagir hafa þvegid sinn skrúda; Apóc. 7; svo kanntu og, Drottinn minn! ad gjøra jafnvel syndir mínar hvítar eins og snjó, þótt þær se'u raudar sem blód, og ullhvítar þótt þær purpuraraudar se'u, Esa. 1; já, eg em þess fulløruggur, ad nær þú breidir þinn ljómandi klædafald út yfir mín saurug tøtur, þá muni þeirra ei gjæta; Guddómsins fylling sem í þe'r bjó líkhamliga, hún skein í ge'gnum þinn klædnad á fjallinu helga, en sorti minnar ilsku mun aldrei ge'ta brotist í gegnum þessa birti inní augu þíns himneska Fødur; þessu fulltreysti eg, Drottinn minn! því eg veit, ad þú ert kominn til ad leita ad því, sem tapad er, og ad kalla synduga og ecki re'ttláta til ydrunar; þe'r se' lof, æra, magt og dýrd ad eylífu, amen!

Í munni tveggja edur þriggja skulu øll ord standa, sagdi Drottinn í løgbók sinni fordum; en um þetta þíng má eg segja þad, er Jóhannes segir í hans fyrsta pistils fimta kapítula: þrír eru þeir, sem vitna á himni, og þrír eru þeir, sem vitna á jørdu; he'r eru þrír vottar jardneskir, og adrir þrír himneskir. Eg vil tala fyrst um þá jardnesku, því textinn ge'tur fyrr um þá; þad voru Petrus, Jakóbus og Jóhannes; þessir vóru engir smælíngjar í Guds húsi, jafnvel þótt þeir væri haldnir afrak og hreinsunarfórn hjá verøldinni. Petur var sá, ed fyrstur allra postulanna þeckti, ad Jesús væri Kristur, sonur Guds lifanda, Matth. 16; hann var sá, ed Drottinn fyrstum afhendti lykla himnaríkis til ad leysa og binda, ecki þad, ad Petur afhendti þá hinum postulunum út af se'r, heldur gjørdi

Drottinn bad sjálfur sídan; hann lagdi lífid ofan á sína medkénníngu um Jesúm, því jafnvel þótt ecki hafi menn svo vissar sögur um hans l flát, þá kénnir Jóhannes oss þad, ad lausnarinn hafi spád hönum því, ad hann mundi Gud med sínum dauda dýrka. Jakob var sá, er fyrstur allra af þeim tólf lét líf sitt fyrir vitnisburdinn Jesú, og undirskrifadi hann med sínu saklausa blódi. Jóhannes var sá, ed lá fyrir framan Drottinn um kvöldmáltídina hönum auglýsti hann svikarann; hann er sá lærisveinn, um hvern skrifad stendur, ad Jesús hafi hann elskad; hann hefir og greiniligast af öllum Gudspjallamönnunum talad um persónu Frelsarans; hönum auglýsti Drottinn þá miklu hluti, er ské skyldu á eptirfylgjandi tímum, svo sem ljóst er af hans Opinberunum; hann lifdi og lengst allra postulanna, til ad mótstanda þeim Ebíóní og Cerinthó, er neitudu guddómi vors Frelsara; og þessvegna er þad af gudligri forsjón skéd, ad hann fengi hans hátign augum ad líta í þessum stad, svo hann þess betur kynni þar um ad vitna. Módir þeirra Jakobs og hans beiddi Frelsarann um, ad annar sona sinna mætti sitja hönum á hægra veg, en annar á vinstri; Drottinn svaradi henni: þér vitid ei hvers þér bidjid! en þó sýnist mér, ad hann blessadur hafi ad nockru leiti ordid vid bón hennar í þessum stad, þar hann tók þá framar ödrum med Petri, til ad sýna þeim svo sem álengdar inn í þá dýrd, sem hann á hjá sínum himneska Födur. En af þessari vegligu sjón hafa þessir Guds menn lært, þar þeir varla gátu stadist hana, ad ei mundi þeim hendt í þessu daudliga holdi ad sitja hönum á hægri edur vinstri hlid í dýrd himnanna, og því spörudu þeir ecki sína daudliga líkhami sídan fyrir hans skuld, þegar þeir varnir voru eptir fullkomnum mælir Christí aldurs, svo þeir med Páló, Phil. 3, ná kynnu, í upprisu hinna daudu, hnossinu þeirrar köllunar, sem þar uppi er í Jesú Christó. En vér, sem nú heyrt höfum vitni þeirra um forkláran Drottins, og vitum, ad þeir inngengnir eru í dýrd síns Herra, vér skulum leggja allan hug á, ad vera eins lyndir og þeir, ad vér höldum alla hluti þreck ad vera, og jafnvel sjálft lífid, svo vér ávinnum Christum, Phil. 3, því hver sem ad hatar sálu sína í þessum heimi, hann mun vardveita hana til eylífs lífs, Jóh. 12; og þessir eru nú hinir jardnesku vottar ad stórmerki þessu, sem tekid hafa vid vitni þeirra himnesku, um hverja eg hefi hér eptir nockud ad tala.

Drottinn sagdi fordum undir sína pínu, Jóh. 12: Fadir! vegsama þitt nafn; og raustin af himni svaradi hönum: eg hefi vegsamad, og eg skal aptur vegsama; þá sagdi hann vid lærisveinana: þessi raust skédi ecki vegna mín, heldur ydar vegna; svo má eg og segja um þá himnesku votta, sem textinn umgétur, ad ei birtust þeir Drottni fyrir hans skuld, heldur þeirra, sem med hönum voru, já, vegna allra þeirra, sem eptir þeim heyra mundu þenna tilburd. Vottarnir eru þrír af himnum: Móses, Elías, og sjálfs Födursins raust, er vitnadi af skýinu. Móses var einn trúr rádsmadur í öllu Guds húsi; hann valdi Gud til ad útleida sitt fólk af Egyptalandi; hann taladi vid Gud í Hóreb, þegar Israel vildi hafa sig undanþeginn ad heyra raustina Drottins Guds síns; hann medtók lögmálid af hans hendi, og taladi vid hann optliga, eins og madur vid mann talar. Hvert Móses hafi verid hér med sál og líkhama, skal eg ecki margt um tala; þad er víst, ad hann

Hh

dó á fjøllunum Habarím, hvadan Gud sýndi hønum landid Kanaan, og Gud gróf hann í dalnum, segir ritníngin, Devt. 34; þó er líkligt, ad Móses hafi hér allur verid, því um Elíam er þad víst, ad hann fór med ønd og líkhama til himins, en engan mun gjørir Mattheus edur hinir Gudspjallamenninnir þeirra í sínu riti um þessa opinberan; nockrir færa til ad styrkja þessa meiníngu þad, sem stendur í Júdas pistli, v. 9, ad Michael høfudengill hafi þráttad vid Satan um líkhama Mósis, svo sem ad vildi Andskotinn hafa fengid vald hans, en Gud hafi hann uppnumid; og ad vísu lítur Petur til þeirrar søgu, er þar skrifud stendur, í síns sídara pistils ødrum kapítula; en hvørninn sem þessu er varid, þá veit eg, ad hann, sem uppvakti son eckjunnar af Sarepta og hinnar Súnamisku, hann sem Lazarum leiddi út af grøfinni, hann sem uppreisti dóttur Jaírí, hann sem lét marga framlidna gánga úr grøfunum í Christí upprisu, hønum var ecki um megn, ad láta Mósen koma til þessarar hátídar á fjallinu helga med ønd og líkhama; og þessi var nú hinn annar himneskra votta af mønnum. En hinn var ad sínu leiti engu minni Elías, hver med øllum rétti má nefnast hinn ypparsti af spámønnunum, hann var hinn mesti vandlætari vegna Guds nafns; hann lét slátra Jessabels spámønnum vid lækinn Kíschon; hønum sendi Gud eld af himni yfir þá tvenna fimtíu Achabs sendimenn; hann feck med bæn af Gudi døgg af himninum, þá ecki hafdi rignt í heil þrjú ár; hann fór med eldligum hestum og vøgnum til himna; hann taladi vid Gud á fjallinu Hóreb, eins og Móses, og bádir føstudu þeir í 40 daga og 40 nætur, eins og Kristur í eydimørkinni; beggja þeirra gétur og Malachías í þridja kapítula sinnar málabókar, undir eins og hann endar hid gamla testament. Slíka votta byrjadi Guds Syni ad hafa til dýrdar sinnar, er hann forklárадist, og skulum vér vita, ad Gud gjørir eckert forgéfins, aukheldur svo mikla hluti, sem þessi var; øll var og þørf á því; sú tíd var nærri komin, ad Gud mundi slá hirdirinn, og ad saudir hjardarinnar mundu sundur tvístrast; en hversu ad lærisveinarnir hafi verid búnir undir þá ógn, þad sýna oss gudspjalls søgurnar. Ad sønnu hafdi Petur lýst því skømmu ádur, Matth. 16, ad Jesús væri Kristur, Sonur Guds lifanda, og kalladi Frelsarinn hann sælan þarfyrir, því hold og blód hefdi hønum þad ecki opinberad, heldur Andi síns Fødurs; en þó tók holdid svo ad ráda skømmu þar eptir, er Jesús taladi um sína pínu, ad Petur átaldi hann, og sagdi: spara sjálfan þig, ad ei verdi þér þetta! já, þegar hann heyrt hafdi, ad Moses og Elías tølудu vid Drottinn um hans sídurstu útfør frá Jerúsalem, þá var þó einfeldnin svo rík í holdinu, ad hann sagdi: vér viljum gjøra hér þrjár tjaldbúdir, þér eina, Mósi eina, og Elíæ eina; og þótt hann hefdi mál fyrir hinum postulunum, þá er audvitad, ad þeir hafa eins fákjænir verid. Hér má nú segja þad sama um þenna Guds ástvin, sem Páлus um sig segir: þegar eg var barn, gjørda eg sem barn, og eg taladi sem barn; Petur var ennú ecki fullvaxinn í kristinndóminum, og því taladi hann beruskliga. O, þú Guds madur! mundi hann nockud þurfa tjaldbúdar vid, hvers ásjána ad skein sem sól, og hans klædi voru bjørt eins og ljós? mundi hann ætla sér ad eiga lánga døl á þessu fjalli, sem ádur sagt hafdi, ad hann mundi lífláttinn verda í Jerúsalem, hvad þú og heyrdir, Guds vinur! af þessum tveimur himnesku vottum? var þessi opinberan til þess gjør, ad hún skyldi lengi vara, og ei miklu heldur til ad vera for-

smeckur hinnar eylífu dýrdar? því skyldi Mósi og Elíæ gjöra tjaldbúd, eins og ad ei væri í Jesú einum sælan full? Rétt hafa þeir nú Markus og Lúkas skrifad um þetta fáfrædi Peturs, ad hann hafi ecki vitad, hvad hann sagdi, kannské því ad felmtur var yfir þá kominn; en í því má marka elsku þá og traust, er hann hafdi á Drottni, ad hann gjörir ei rád fyrir neinni tjaldbúd handa sér edur sínum lagsmönnum, því hann hefir verid fulltrúa þar um, ad þar, sem hans herra væri, þar mundu og þeir verda. Svo skulum vér og lyndir vera, kristnir menn! þegar vér erum vissir um Krists vináttu, þá verum' ecki hugsjukir fyrir lífi þessu; hvar kunnum vér svo ad vera hjá Jesú, ad oss illa lídi? hvar megum vér svo vera fyrir utan hann, ad oss vel lídi? vörpum því allri vorri áhyggju uppá Drottinn, hann mun því vel til vegar koma. Og þessi var nú veikleiki Peturs og hinna lærisveinanna; en til þess ad búa þá undir hina miklu freistíng, sem á eptir fylgdi, þá skédi nú þessi dýrdliga jardteikn, og þótt þeim féllist mjög svo hugur, þegar í raunirnar rak, þá er þad víst, ad þeir hefdu miklu midur haft sig, hefdi þeir án hennar verid. Þessir voru þeir þrír lærisveinar, er Jesús tók afsídis med sér, á þeirri nátt, er hann forrádinn var, þegar kvölinhöfst. Gud nádi oss auma og syndugа! vér gétum hverki þolad heitt né kaldt med Jesú; þessa dýrdligu sýn gátu þeir varla stadist, en í kvölinni svásu þeir, þá yfirgáfu þeir hann allir. En þackir séu þér, hin guddómliga speki! þú kant ad midla fyrir oss bædi medlæti og mótlæti, eptir því sem þú veizt ad med manninum býr; í þinni dýrdligu forkláran léztu þína postula sjá þína dýrd, ad svo miklu leiti, sem þeirra daudlig augu gátu þolad, en í kvölinni leyfdir þú þeim ad sofa um hríd, þú gafst þeim og fararleyfi þegar hópur manna var yfir þig kominn, svo þad má játa, Drottinn minn! ad þú ert einn biskup, freistadur á allan hátt líka sem vér, þó án syndar, þarfyrir kantu ad sampínast eymdum vorum.

Adur enn eg skilst vid þetta mál, þá vil eg þar um tala, ad postularnir þecktu þá Mósen og Elíam, er þeir aldrei höfdu þó ádur séd; líklig er þeirra gáta, er meina, ad af samtalinu hafi þeir mátt þeckja þá, en hverki Móses né Elías höfdu greiniligar spád um Drottins píslir, heldur enn Davíd og hinir spámenninnir, sérdeilis Esaías, nema hann hafi þá vid nafn kallad, hvar um eckert er skrifad; því held eg þad líkligra, og nærri því fyrir satt, ad Guds Andi hafi þeim þad opinberad í þad sinn, því hann, sem lét Samúel þeckja Sál konúng, ádur enn hann hafdi hann séd, sem lét Jóhannem þeckja sinn herra í módurlífi, hann gat og audveldliga géfid Christí lærisveinum þessa þeckíngu á Mósi og Elía; og er þad ecki lítil huggun fyrir kristna menn, ad hver einn mun þeckja ecki einasta sína ástvini í þeirri himnesku gledi, heldur og alla útvalda, sem hafa yfirunnid fyrir lambsins blód, frá þeim fyrsta til þess sídarsta, sem inngengur í fögnud síns Herra, og med þeim eylífliga gledjast, og Gudi lof syngja á þessu fagnadarins landi; og er nú þetta sagt um Mósis og Elíæ vitni, sem voru frá himnum. En hér kémur einn öllum meiri, sem uppfyllir bædi himin og jörd, þad er Fadir Drottins vors Jesú Christí, sem hér vitnar: þessi er Sonur minn elskuligur, hönum skulud þér heyra! Rétt er gáta Hierónými lærifödurs, ad minni hyggju, er hann skrifar, ad Móses og Elías hafi þessvegna verid sveipadir í skýi því hinu bjarta, ádur enn raustin kvad vid, ad ei skyldu postularnir meina, ad annarhver af þeim væri sá, er til var talad; og þegar þeir uppstédu, þá sáu þeir engan

nema Jesúm; þeir sáu hann alleina, í hverjum alleina er sáluhjálpin; þeir sáu hann alleina, sem er hinn einasti medalgángari milli Guds og manna. En hvílíkur er nú vitnisburdurinn? þessi er minn elskuligur Sonur! Jesús stód hér í sínum fullum manndómi, fullum af guddóminum, og þó segir Fadirinn: þessi er minn elskuligur Sonur! hvar af audsært er, ad Kristur er Guds Sonur, bædi eptir guddóminum og manndóminum. Minn Frelsari! þeir kølludu þig timburmannsins son; þinn Fadir segir: þessi er minn elskuligur Sonur; þeir søgdu, ad þú gjørdir þig ad Gudi, af því þú kalladir Gud þinn Fødur; en Gud segir hér: þessi er minn elskuligur Sonur; þeir søgdu: vér viljum ecki láta þenna drottna yfir oss; en Drottinn allra drottna, þinn Fadir, er þeir kølludu sinn Gud, en þeckti hann þó ecki, hann segir: þessi er minn elskuligur Sonur, hønum skulud þér heyra! Móses hafdi ádur fyrirsagt, Devt. 18: spámann mun Drottinn uppvekja ydur af brædrum ydar, hønum skulud þér heyra! en sá hinn sami kom til sinnar eignar, og hans eginn þeckti hann ecki; Móses lærdi og sjálfur meira hér, heldur enn hann sjálfur hafdi fyrirspád; ad sønnu vísadi hann til hans í greindum spádómi, en hér sá hann þad, sem bædi hann og margir spámenn girntust ad sjá, og sáu þad ecki. Abraham sá hans dag ad sønnu, en ei sá hann Drottinn, voru holdi íklæddan, eins og Móses í þessum stad. Allra sídarst vil eg gjæta þess miskunarverks, er Drottinn gjørdi á lærisveinunum, er þeim var lidid í brjóst af þessari dýrdarsjón, ad hann geck ad þeim, og snart þá, og sagdi: standid upp og verid óhræddir! Hann, sem alvanur var dýrdinni, og þó í mannligu holdi opinberadur, hann kunni bezt ad vægja holdsins veikleika; þad sýnir hans manndóm, ad hann snart þá, þad auglýsir hans guddóm, ad hann reisti þá á fætur med þessu atviki. Minn Herra Jesú! eg veit, ad þú ert ei sídur máttugur nú, enn þá, og eckert manngreinarálit er hjá þér, svo þegar vér føllum í andlig ómegi, og høfum engan mátt edur frid í vorum beinum vegna syndanna, þá getur þú snortid oss, og reist oss á fætur aptur; já, Drottinn! þegar hid sídarsta aungvitid lídur yfir oss í daudanum, snert oss þá minn Frelsari! og seg til sálar vorrar: statt upp og vert óhrædd! og leid oss svo inní þína dýrd, þar er oss gott ad vera; þar viljum vér eylífliga med þér búa, þér, Fødurnum og H. Anda óendanligt lof syngja um aldir alda.

AMEN!

---

## Til Lesarans.

Jafnvel þó vid, ad endurlestri bókarinnar loknum, aungvar prentvillur høfum í henni fundid, sem brjáli meiníngu eda gjøri ord óskiljanlig, kunna þó einstakar enna sídarnefndu ad hittast; bidjum vid því hvern þann, er vid lestur bókarinnar athugar slíkar, ad leidrétta þær og lesa í málid. Einstøku stafa og rettritunar villur, er vid høfum varir ordid, og sem fremur hafa orsakast af ósimleika og vankunnáttu útlendra stílsetjara, enn vandlætis- eda hirdu-leysi okkru, mun gódfús lesari virda á hægra veg.

Utgéfendurnir.

